Til herra Prófessor Willard Fisk með virðingu frá safnanda.

# ÍSLENZKAR

# ÞJÓÐSÖGUR OG ÆFINTÝRI

SAFNAÐ HEFIR

JÓN ÁRNASON



FYRSTA BINDI



LEIPZIG
J. C. HINRICHS'S BÓKAVERZLUNAR
1862

HINUM ÁGÆTA FRÆÐIMANNA ÖLDÚNGI

# JAKOB GRIMM

HÖFUNDI ALÞÝÐLEGRAR SAGNAFRÆÐI

ERU HELGAÐAR ÞJÓÐSÖGUR ÞESSAR.

# FORMÁLI.

Frá því að Ísland fyrst bygðist, hefir þar verið auðigt af þjóðsögum um álfa, tröll, aptrgöngur, og allskonar forneskjusögnum, sem glögt má sjá af sögunum. Þessar sagnir eru samgrónar hinum sönnu sögum, og finnast hvað mest í þeim sögum, sem beztar eru og sannorðastar; svo samgróin var sögn og saga í þær mundir. Í Eyrbyggju er langr þáttr um Fróðárundr og um aptrgöngur Þórólfs; í Grettlu eru þættirnir um Glám, tröllkonuna í Bárðardal, og sagan um Þórisdal. Í Heiðarvígasögu er mart um fyrirburði og sjónir; og draumar og fyrirburðir boða stórtíðindi ekki síðr hjá hinum vitra höfundi Njálu, en í hinum minsta söguþætti, sem oflangt yrði alt upp að telja. Hvorartveggiu sögurnar hafa alist upp í einu brjósti, eins og sambornar systr, hjátrúarsögurnar, og hinar sönnu sögur, og báðar megu því með jöfnum rètti kallast þjóðsögur, og hjátrúarsögurnar þeim mun fremr, sem hugsmíð og skáldskapr er undirstaða þeirra, og þær þrotna því aldrei meðan vit og ímyndan ekki brestr, en ýngjast ávalt upp og bregðast í ymsa hami eptir sem tíðarandinn leikr á ymsum áttum. Ef tíðarandinn er myrkr og hjátrúin röm, þá bera draugasögur og galdrar yfirborð, en jafnskjótt og bráir af, verða sögurnar mildari, og álfasögur og inndæl æfintýri verða þá meir yrkisefni þjóðarinnar. En bezt er þegar öllu bregðr fyrir og af öllu er nokkuð, þá eru þjóðsögurnar eins og fagr og fjöllitr uppdráttr. Á sama hátt eru og þjóðsögurnar með sínum blæ og einkenni í landi hverju, eptir sem skapferli og gáfnalag hverrar þjóðar er.

Það var fyrst í orði, að kenna safn þetta við fornfræði, en það varð bráðum ljóst, að það nafn átti ekki við þetta safn í heild sinni, og breytti því höf. nafninu og kallaði það „þjóðsögur og æfintýri." Mönnum hættir opt við, af því fornöldin er móðir vorra tíma, að eigna henui sem flest það sem gott er, allt sè þaðan komið munn frá munni og mann frá manni, og síðari aldar menn hafi lítið annað gert, en að muna, og síðan að rita það, sem geymst hafi frá hinni fornu öld, þjóðsögurnar sè og þannig undir komnar. En menn gæta ekki þess, að meðan þjóð er þjóð, og líf er líf, þá hverfr hið gamla eðr skiptir litum og líkjum, en nýtt kemr í staðinn, og sú þjóð, sem ekkert gjörir annað en muna, er rèttr steingjörfíngr, og getr varla talist í tölu lifenda. Þjóðsögur þessar bera þess ljósan vott, að enn

er ekki komið svo á síðustu hlunna fyrir Íslendíngum, og að þeir kunna ekki síðr að skapa nýtt í skarð hins gamla, en að muna mann frá manni. Það væri mjög fróðlegt, en til þess er ekki tóm á þessum stað, svo til hlítar sè, að skoða safn þetta, og bera saman þau litlu brot frá þjóðsögum, sem til er frá 17. öld við það sem finst í þessu safni, og svo sögurnar innbyrðis eptir aldri sinum, og frá hvaða tíma og öld hver saga sè, eptir sem næst verðr komist, og mætti leiða af þeirri rannsókn mörg nýdæmi um líf og afdrif þessara sagna á ymsum öldum. Menn barma sèr opt yfir því, að sagnalist sè að deyja niðr í landinu, að sögurnar fækki á hverju ári eptir sem gamalt fólk, karlar og kerlíngar, kveðja veröldina; er sá barlómr mest á því bygðr, að sögurnar sè fornfræði, sem ekki verði endrbætt, og hrörni eius og gamalt hús. Safn þetta mælir þessu í gegn; ef vel er athugað, eru hinar fornustu sögur opt þær sem eru yngstar, og sagt að hafi orðið í minni þeirra manna sem nú lifa. Fornaldarhugr sá, sem enn lifir með Íslendíngum, er það sem gefr sögunum svip sinn, en ekki elli sögunnar. Eg hefi það fyrir satt, að þó til væri fullkomið sögusafn frá 17. öld, þá mundi það fara fjarri að það yrði auðugra en safn frá þessari öld, nema ef vera skyldi í göldrum og særíngum, og því síðr mundi safn frá 16. öld, og svo koll af kolli, auðigra en hinna síðari alda; og þetta kemr af því, að þjóðsögurnar eru engin fornfræði í hinni vanalegu þýðíngu þessa orðs, er geymist öld frá öld, óbreyttar að öðru, nema að þær eyðist og fækki. Þær eru fornar í anda en nýjar að smíð; hinar gömlu sögur hrörna og líða undir lok, en í staðinn koma upp nýir menn, og nýjar sögur, sem skáldahugr þjóðarinnar leiðir æ fram nýjar. Trúin og sá andi sem sögurnar skapar, er ávalt af gömlu bergi brotin, en hjúprinn, sem þær eru í klæddar, er frá ymsum öldum, og skipta sögurnar hömum öld frá öld. Hverr þáttr í bók þessari ber merki um þessi hamskipti sagnanna, og hvernig þær koma fram endrbornar öld frá öld. Það nægir, að benda að eins á nokkur fá dæmi þessu til sönnunar. Ljósast er þetta við galdrasögur, því þær eru flestar bundnar við vissa menn. Á 17. öld þektu menn að vísu fleiri sögur um sira Hálfdan í Felli en nú, og hann og svo sira Þorkell Guðbjartsson vóru höfuðmenn í galdrasögum á þeirri öld. Nú eru þeir settir skör lægra, en þá eru aðrir komnir í þeirra stað, sira Eiríkr í Vogsósum sunnanlands, en Þormóðr í Gvendareyjum vestanlands, og þessir menn vóru varla fæddir þegar Ólafr gamli ritaði sínar sögur, á 17. öld, sem síðan verðr getið. Þar sem Ólafr talar um harðfjötur og eignar þær sögur sira Hálfdani, þá eigna nú sögurnar flest þesskonar sira Eiríki. Er það stutt yfir sögu að fara, að fullr helmíngr af galdramanna sögunum er um menn, sem lifað hafa eptir tíð Ólafs gamla, og flestar frá 18. öld. Á 17. öld aptr á mót vóru flestar slíkar sögur um menn sem höfðu lifað á 15. eðr 16. öld, og Ólafr tóni einn frá 14. öld, og svo mun hafa gengið koll af kolli, ef menn heiði safn frá

hverri öld, alt fram á söguöld vora. Um Sæmund fróða er oss mjög grunr á, að sögurnar um hann sè ekki ýkjagamlar. Sögurnar bera þann blæ, að vera úr sömu smiðju og um sira Hálfdan, enda er Sæmundr talinn skólabróðir hans. Ólafr gamli nefnir ekki Sæmund í þá veru, ekki heldr Björn á Skarðsá nè Jón lærði, það mèr sè kunnigt. En í enda 17. aldar eru komnar upp margar sögur um hann. Hèr verðr að gæta þess, að á fyrra hluta 17. aldar vissu menn fátt um Sæmund, nema sagan um skólaveru hans í Jóns sögu helga var snemma kunn. En þá kom enn engum til hugar, að eigna Sæmundi goða- eðr Völsúngakviðurnar. En eptir árið 1643, að Brynjúlfr biskup hafði gefið kviðum þessum nafn og höfund, þá var nafn Sæmundar í hvers manns munni, og ef menn gæta þess, hvað þjóðsögur skapast skjótt, ef skálda andann ekki brestr hjá þjóðinni, þá eru það engar öfgar, þó um aldamótin 1700 væri svo margar sögur um sira Sæmund, og hann settr í flokk með sira Hálfdani og Straumfjarðar-Höllu; slíkar sögur skapast enn í dag á minna en mannsaldri, og enda í lifandi lífi manna. Jón Ólafsson frá Grunnavík kunni ekki fáar sögur um Skottur og sendíngar, sem sendar vóru Páli Vidalín; sira Gunnar Pálsson, sem þó var prúðr maðr í lund, gat þó ekki við því sèð, að hann var eptir dauðann settr í galdramanna tölu líkt því sem í fyrri tíð var siðr, að setja menn í helgra manna tölu, og Íslendíngar hafa á öllum öldum farið svo með heldri menn sína, og veit enginn hvað liggr fyrir þeim sem nú eru uppi í þjóðsögusafni komandi aldar. Höfundr þessa safns hefir því ekki þókst geta fellt úr sögur um nú lifandi menn, því þá hefði og mátt fella burt sögur um feðr og afa þeirra, sem nú eru uppi, en þá hefði safn þetta ekki sýnt sem vera ætti hamskipti sagnanna á ymsum tímum, og hugsmíð þjóðarinnar í sagnasmíð sinni alt fram á þenna dag. Af draugum og aptrgöngum hefði safn þetta orðið örþrota, ef ekki hefði mátt nefna neitt, nema það, sem var 100 ára eða þaðan af eldra, og flestar beztu sögurnar eru úr tíð nú lifandi manna eðr næstu kynslóð á undan. Hefir höfundrinn því gjört öllum jafnt undir höfði, lifandi mönnum og dauðum, og ekki fundið sèr skylt að veitast heldr að hinum dauðu, sem ekki geta af sèr hrundið ef ranghermt er, og hefir höf. treyst því, að öllum þyki gaman að lesa þetta sem gjörzt að verðr, svo safn þetta verði sem fyllst fram á þann dag, sem nú stendr yfir.

Um álfa sögurnar má engu síðr segja hið sama. Mikill fjöldi þeirra er eptir sögn og sýn manna, sem enn lifa, og Álfa-Árni sem er höfuðmaðr í þeim sögum, lifði á miðri 18. öld, en svipr sagnanna er þó ávalt hinn sami, sem finst í elztu ritum frá fornöld; þannig lifir fornt og úngt einu lífi að kalla má í sögnum þessum; hið bezta af hinu gamla hefir opt geymst, ef ekki óbreytt, þá endrborið í öðrum og nýjum sögum.

Hvergi eru hinar íslenzku þjóðsögur svo óþrjótandi, sem í æfintýrunum, og eru sögur þessar sumar hverjar að efni ýkja gamlar. Sverrir konúngr

minnist á stjúpmæðrasögur, og svo Oddr múnkr í formála Ólafs sögu Tryggvasonar. Slíkar sögur þekkir enn hvert barn á Íslandi, og flestir munu muna til þess, hvað sólgnir þeir vóru þegar þeir vóru börn, í þær sögur sem byrja á því, að „einu sinni var kóngr og drottníng í ríki sínu og karl og kerlíng í garðshorni;“ og um karlssoninn, sem að lokum eignaðist hina fögru kóngsdóttur heima í kóngsríkinu, og kóngsbörn í álögum, eðr um kúna í koti karls, og talsháttinn sem þaðan mun vera dreginn, að saman skuli fara karl og kýr. Af slíkum sögum og þvílíkum mætti fylla heila bók, og yrði þó að vonum aldrei tæmt, og er það sem prentað er í þessu safni, ekki nema lítið sýnishorn af því sem til er. Þó eru margar af þessum sögum liðnar undir lok, sem ráða má af kvæðum, sem á fyrri öldum hafa verið ort út af æfintýrum, og sem hafa geymst, en sagan er töpuð, svo sem Hyndluljóð og fleiri slík.

Af því nú að þjóðsögur og öll hjátrú hefir uppruna sinn í forneskju í hinni heiðnu öld, þá áttu þær ymsu láni að fagna eptir að kristnin var leidd í lög. Þegar í heiðni er þess getið að seiðr, galdr og forneskja þótti glæpr, sem lögin hegndu harðlega, og var þá tíðast að lemja seiðkonur grjóti í hel, og stundum er getið um galdrabrennur. Þetta var nú á 10. öld; síðar á 11 og 12. er þessa síðr getið eðr alls ekki, eptir sem lögin urðu betri og siðir manna mildari en í heiðni. En eptir að landið var kristið orðið, lètu prestar sèr hugleikið, að nema burt alt sem kostr var af hinum forna sið. Þó kvað minna að þessu á Íslandi en á nokkru öðru bygðu landi, og það er í frásögur fært, að Jón biskup Ögmundsson bannaði að nefna dagana eptir heiðnum goðum, og að hafa yfir ósiðleg danskvæði og mansöngva; og eptir langa raun varð svo, að menn tóku upp ný daganöfn, en ekki sá þó högg á vatni; menn kendu börn sín jafnt sem áðr við Þór eðr heiðnar dísir, og þau nöfn þykja enn í dag, með rèttu, allra nafna fegrst. Skáldin ortu með heiðnum kenníngum, jafnt prestar sem leikir menn, alla 12. og 13. öld, því goðasögurnar og fornsögurnar vóru undirrót skáldskaparins, og annaðhvort varð því að hætta að yrkja, eðr halda uppteknum kvæðahætti. Snorri Sturluson ritaði Eddu á 13. öld, og kunnu menn þá enn vel og sögulega að segja af ferðum Þórs og öðru, sem lesa má í þeirri bók, og öll sagnarit vor frá 12. og 13. öld bera þess ljósan vott, að þjóðsögurnar lifðu alla þá stund bezta lífi, þó enginn tæki sèr þá fyrir að safna þeim sèr, og varð því Jón biskup Ögmundsson helgr fyrir lítið.

Fyrst á 14. öld hófst harðari mótspyrna mót þjóðlegum fornfræðum og þjóðsögum, en náði þó fyrst þroska á 15. öld, og olli því ofrvald klerkdómsins, sem þá fór í hönd og hnignandi upplýsíng hjá almenníngi, og þessu hèlt fram yfir siðabótina. Á þessum tímum mun fátt hafa verið gjört til að halda slíkum fræðum á lopt; þó má nefna það eitt, að menn sneru þá í ljóð sumum fögrum æfintýrum og álfasögum, og hafa kvæðin

haldist, en flestar þær sögur eru glataðar. þessi kvæði eru Kötludraumr,[1] Hyndluljóð, Snjárskvæði, Vambarljóð, þóruljóð, Bryngerðarkvæði, Gullkársljóð, Kríngilnefjukvæði, Ljúflíngsljóð. Hèðan mun það komið, — með því öll þessi kvæði eru með kviðuhætti, sem fornyrðalag heitir öðru nafni, — að sá bragarháttr er kallaðr Ljúflíngslag, af því menn hafa tíðkað að snúa álfasögum í ljóð með því lagi.

Af rúnum eðr ristíngum er ekki heldr mart til á bókfelli, er verið geti frá þessum öldum; þó eru til í safni Árna Magnússonar Nr. 687 4to tvö skinnblöð með galdrastöfum og uppdrættir þeirra og þessi rúnanöfn: málrúnir með skýríngum og mynd stafanna, og því næst galdrastafir og þessi rúnanöfn[2]: grænlenzkar rúnar, mannrúnar, haugrúnar, belgrúnar, fiskrúnar, svínsrúnar, ....[3] gandrúnar, ísrúnar, tjaldrúnar, val...rúnar,[4] stálrúnar, skiprúnar, bjórrúnar, knífrúnar, og enn nokkrar nafnlausar rúnir. þessi blöð eru frá 15. heldr en 14. öld. Enn eru í safni Árna 434. d. 12mo 8 smáblöð um galdra með uppdráttum, helzt þess efnis að finna sagnaranda. Að vísu mun nú fleira þess kyns hafa verið til, sem liggr til grundvallar fyrir rúnaritum frá 17. öld sem síðar mun verða getið.

þess má enn geta, að eptir Jóni biskupi Halldórssyni hefir á miðri 14. öld verið ritað mikið safn af æfintýrum, sem finnst á skinni í safni Árna Magnússonar,[5] en flest þau æfintýri eru af helgum mönnum, og öll útlend, eptir sem eg hefi getað sèð. Má nefna söguna um Mors og um Absalon erkibiskup. Kemur því það æfintýrasafn ekki við hinar íslenzku þjóðsögur.

Á þessum öldum (15. og 16) voru þeir uppi sira þorkell í Laufási og sira Hálfdan í Felli, sem svo miklar sögur gengu síðan af, og munu hafa gengið þegar í lifanda lífi þeirra; má af því marka, að hjátrúin hefir þá ekki verið veik, sem von var til, á öld, sem svo var fákunnandi í bóklegum efnum. En veraldlegr hagr landsmanna var þá með góðum hætti, og ekki svo röm hjátrú, sem síðar á 17. öld. Biskupasögur sira Jóns Egilssonar, sem ritaðar eru um aldamótin 1600, bera þessa vott. það er auðsætt, að sira Jón hefir trúað allskonar forynjum og fyrirburðum, en hjátrú hans er þó hófsamleg og mild, líkt og hjá höfundum á fornsögum vorum, Njálu eðr Landnámu, en ber enn ekki ofstæki hinnar komandi aldar.

1. það er varla efamál, að sagan af Kötlu, eins og hún er nú sögð á Íslandi, og prentað hèr (bls. 59—64), er tekin eptir kvæðinu; þar á móti hefi eg heyrt sagða Vambarsögu, sem eg ætla að ekki sè sögð eptir kvæðinu, og með íslenzkum nöfnum og sumstaðar betri en kvæðið. Flestar hinar sögurnar, sem kveðið var eptir, munu nú týndar í munni manna.

2. Fyrsta rúnanafnið verðr ekki lesið.

3. 2 rúnanöfn verða hèr ekki lesin.

4. Verðr ekki lesið.

5. Flest í AM. 624 og 657 4to.

Í byrjun 17 aldar dundi yfir landið ein hin harðasta ánauð, verzlunaránauðin. Hin þjóðlegu fræði sýna og þegar merkin. Í stað hinna fjölbreyttu inndælu þjóðsagna um tröll og álfa, sem prýða fornsögur vorar og sagnir vorra tíma, varð nú drotnandi hin ramasta hjátrú í sinni verstu mynd. Menn sem kallaðir vóru fræðimenn, og eitthvað betri hefði getað lagt á gjörva hönd, stunduðu galdra ristíngar og særíngar, og hugðust með því mundu ráða lögum og lofum í náttúrunni, en alþýðu stóð ógn af þessum mönnum, og klerkar og yfirvöld ofsóktu þá, og galdrabrennur fóru nú að tíðkast, mest þó eptir 1630, og urðu alþíngi þeirrar aldar til ófrægðar. Þó ber þess að gæta, að þessi galdra- og brennuöld kom til Íslands frá útlöndum, og varð hún á Íslandi hvorki svo skæð né langvinn sem víða erlendis. En hún var þó fullill; menn sáu sjónir og leiðslur, og skáld þeirrar aldar áttu jafnanríkt með að kveða Englabrynjur og Fjandafælur,[1] og allskonar særíngaljóð og varnir mót ásóknum djöfulsins, sem nú eigu skáld vor að kveða erfiljóð og lof um dauða menn. Mesti fjöldi af slíkum særíngaljóðum finst nú t. d. í safni Árna Magnússonar 152 8°, og 738 4^to er dróttkvæðr fimtán vísna flokkr mjög andheitr. Margir klerkar rituðu og á móti galdri, svo sem síra Guðmundr Einarsson á Staðastað „um vèlar og brögð djöfulsins“ (1627); hann ritaði og á móti Fjandafælu. Síra Sigurðr Torfason ritaði (1655) stutt ágrip „um galdrakonstir og þeirra verkanir“ (AM. 697 4^to), og enn fleiri. Ef vindr kom úr lopti eðr kýr varð sjúk á bási, var það kent særíngum og göldrum og leiddi þar af langar rannsóknir. Lærðir menn rituðu og í mót galdri. En hin þjóðlega sagnafræði, sem síðar vaknaði á þessari öld, ásamt vaxandi mentun, sem leiddi smám saman af siðabótinni, olli þó því, að ofmegn hjátrúarinnar fór hjaðnandi, og fornfræðin tók vísindalegri stefnu.

En af því þessi öld er svo merkileg fyrir þá skuld, að þá tókst upp aptr sagnaskript og bókvísi á Íslandi, þá munum vèr í fám orðum geta þess, sem á þessari öld og síðan hefir verið unnið að þjóðsögum og hvað vèr vitum helzt skrásett um þessi efni, svo menn síðan geti borið það saman við safn vorrar aldar. En um þetta hefir áðr verið fátt ritað. Þá er og, að segja helztu æfiatriði og telja helztu rit þeirra manna, sem koma við þetta mál.

Hèr er þá fyrstan að telja Jón Guðmundsson, sem ýmist er kallaðr „málari“ „tannsmiðr“ eða „lærði“ og er hann svo sem öndvegishöldr þessarar aldar í forneskju og hjátrú. Flestir hinir fyrri menn unna honum sannmælis, að hann hafi verið fjölfróðr, en um siðferði hans og hætti eru deildari sögur. Jón rector Þorláksson fer í ritgjörð einni nokkuð ómildum orðum um mannorð hans.[2] Víst ætlum vèr, að hann hafi

1. Víst 2 kvæði með því nafni eru til.

2) Nye kongel. Saml. 1275 fol., „nescio an vel vitæ inculpatæ, vel famæ illibatæ, sed ingenio excellenti etc.“

verið blendinn í lund, þess bera rit hans vitni: heiptugr í skapi, sèrvitr og fullr hjátrúar, og pápiskr í trú, sem mjög eimdi eptir á þeim tíðum, og trúði á Maríu, og þótti ófagr hinn nýi siðr, sem hann opt getr um í ritum sínum og kvæðum. En um lærdóm hans er það sannast að segja, að þó hann sè blendinn, þá hafa fáir þá verið svo fjölfróðir sem hann og víðlesnir. Hann hefir skilið nokkuð í þýsku, og ekki verið alls ókunnr Latínumáli, og í náttúrusögu Íslands er hans rit það eina að kalla má, sem til er frá þeirri öld, og það mun vera fyrir þá sök að Þormóðr Torfason kallaði hann Plinius Islandicus.[1] Hann var og manna hagastr á rit og uppdrátt, og var fyrir það kallaðr málari af alþýðu manna. — Ætt sína telr Jón þannig tvisvar í ritum sínum: Jón Guðmundsson, Hákonarsonar, Þormóðarsonar, en móðir Þormóðar var Guðrún Ólafsdóttir hvalfangara í Æðey, sem hann segir að verið hafi uppi um daga Björns Einarssonar Jórsalafara. Jón orti æfidrápu sína, er hann kallaði „Fjölmóð"; fjölmóðr er fuglsheiti, og er allra fugla minstr og lítilsigldastr, og er því kallað Fjölmóðarvíl, ef menn fjargviðrast út af litlu efni. Jón lærði bar Fjölmóð í innsigli sínu. Fjölmóðr er orktr með kviðuhætti og byrjar svo:

„Faðir himneskur
með frægum sigri
og þeim signaða
sannleiksanda:
mig styði, styrki,
stoði og hugsvali
og á böli öllu
bætr vinni."

Fyrstu 20 erindi kvæðisins (1—20) eru forspjall eðr formáli, en 21—246 er. kviðan sjálf, og endar í miðju kafi í 246 er. í því handriti sem vèr þekkjum fyllst.[2] Fjölmóð má vel kalla aldarhátt fyrri hluta 17. aldar og hinnar römmu hjátrúar, sem þá drotnaði, og ásakar Jón þar fjandmenn sína, að þeir hafi ofsókt sig svo með galdri, — hann minnist þess varla, að þeir hafi ofsókt sig fyrir galdr — að jörðin hafi ætlað að sökkva undir sèr og sínu hyski. Helztu atvik æfi Jóns eptir Fjölmóði og ritum hans öðrum, eru þessi: Hann var fæddr 1574 í Ófeigsfirði á Hornströndum. Segir hann nú langt skeið af aptrgöngum, sem hann hafi átt við, fyrst um Bárð nokkurn, sem varð föður hans að bana með fjölkyngi (um 1600). Síðan reisti Jón bú í Stóra-Fjarðarhorni í Kollafirði (1601) og segir hann í einni ritgjörð sinni álfasögu, sem gjört hafi á þeim bæ.[3] Vetrinn 1607 var hann í Bjarneyjum á Breiðafirði; getr hann þess, að þar hafi þann vetr sèst sjódýr, sem enginn þekti, nema hann. Á jólum

1. Sjá Snorra-Eddu Jóns Ólafssonar úr Grunnavík bls. 1366, 1487.
2. Handrit Þorvaldar Sivertsens í Hrappsey.
3. Sjá bls. 104—5.

1610 eðr 1611 var hann í Ólafseyjum fyrir Skarðsströnd, og segist hann í Fjölmóði hafa átt þar við aptrgöngu, sem hann eignar völdum Geirmundar heljarskinns. Vetri síðar var uppi hinn nafnkunni Snæfjalladraugr (1611 — 1612);[1] var þorleifr skáld þórðarson (Galdraleifi)[2] sóttr til að kveða niðr drauginn, úr því að alt gekk úr hófi með grjótkast og annan ófögnuð, og hjálpuðust þeir báðir að þessu verki þorleifr og Jón. Jón orti þá kvæðið „Fjandafælu,“ (1611) „Jesú dauða, dreyra og pín,“ og Snjáfjallavísur hinar síðari: „Far niðr fýla“ (1612) og einn sálm „umbót“ eðr „Friðarhuggan,“ sama ár þegar björninn var unninn. þessi kvæði finnast öll í hinu íslenzka handritasafni í Stokkhólmi Nr. 17 8vo. — Eptir þessa galdrasennu afstaðna komst Jón í hrakninga sína fyrir það hann hafði slegist í lið með hinum spánsku víkíngum (1613—15). Eptir að Ari í Ögri hafði drepið niðr víkinga þessa var Jón hrakinn að vestan, og var nú nokkra vetr hjá Steindóri bónda Gíslasyni á Stapa. Segir Jón mart í Fjölmóði frá kyngjum þeim, og göldrum, sem Ari í Ögri hafi gjört að sèr að vestan, svo jörðin gekk bylgjum undir honum, og var þessi galdr svo magnaðr, að Jón mátti ekki koma á sjó fyrir draugum og sendíngum. Var honum nú stefnt til alþíngis, en Guðbrandr biskup, sem hann í Krukkspá kallar Goðbrand, skaut líknar hendi yfir hann. Enn segist Jón hafa mætt á Stapa galdra undrum af „Ormi illa“ sem hann og kallar „Galdra-Orm,“ og líkast er sami maðr sem Ormr á Knerri, en hefir þá verið gamall maðr;[3] segir Jón, að Ormr hafi meðgengið opt í samsæti, að hann hafi gefist Satan til að sökkva húsi Jóns með konu og börnum, og loksins hafi Ormr ætlað að brenna sig inni, þegar kölski ekki vildi duga, og hafi þá þrysvar lostið leiptri í þann hluta hússins, sem Jón svaf undir. þaðan flæktist nú Jón suðr á Akranes (1627); en nú andaðist Guðbrandr biskup, og skaut nú Árni Gíslason á Ytra-Hólmi, sem síðan varð lögmaðr, skjóli yfir hann. En nú kómu önnur ekki minni ódæmi yfir Jón lærða og ofsóknir af Ólafi Pètrssyni, sem hann kallar „Náttúlf,“ en Ólafr Pètrsson var þessi ár í höfuðsmanns stað; segir Jón, að Ólafr hafi viljað fyrirfara sèr og öllu sínu hyski; og að þetta hafi ekki verið einleikið nè fjölkyngislaust má ráða af 229. er. í Fjölmóði:

„Geigsendíng
og galdraflugur
einatt ráfuðu,
að Ytra-Hólmi,

1. Sjá bls. 260—62.
2. Sjá bls. 520—523.
3. Hann kvað sjálfr um sig:

„Enginn er verri
en Ormr á Knerri.“

teikn á túngli
og tveir jarðskjálptar
var og fleira mart
yfir fogetans garði."

Jón lærði segir, að „Náttúlfr" hafi viljað flytja biskupstólinn suðr að Bessastöðum, og kennir honum og göldrum hans, að þeir Oddr biskup og Gísli lögmaðr Hákonarson önduðust svo bráðlega, hvor á fætr öðrum. Endar Jón loksins raunabálk sinn með því, að átti að dæma hann útlægan fyrir galdrameðferð; segir þó, að ekkert hafi hjá sèr fundist nema „læknispúnktar löngu skrifaðir." Sumarið 1636 fór Jón utan, og var í Kaupmannahöfn vetrinn 1637. Ári áðr hafði Oli Worm látið prenta „Literatura Runica" en hafði enn óprentað „Lexicon Runicum" sira Magnúsar Ólafssonar í Laufási; var því Jón lærði mesta happasendíng fyrir hann, og friðaði hann fyrir honum. Þegar Jón var aptr kominn til Íslands og Brynjólfr varð biskup (1639) linti loksins þessum hrakníngum; skaut biskup skjólshendi yfir Jón, og lifði hann nú hin síðustu 10 ár æfi sinnar austr í Múlasýslu í Útmanna hrepp. Á þessum 10 árum (1640—50) ritaði hann margar ritgjörðir, sem nú skal greina.

Árið 1641 ritaði Jón lærði ritgjörð um Snorra-Eddu, sem finst í hinu íslenzka handritasafni í Stokkhólmi No. 38 fol. Af því ritgjörð þessi er ekki hagnýtt í þessu safni, munum vèr geta þess hins helzta, sem þar segir um álfa og hjátrú, en það er þó næsta fátt. Álfar segir höf. sè þrídeildir, er fyrsta kyn þeirra, sem býr í eða undir jörðunni í Undirheimum; aðrir búa í sjó og heita marmennlar, en hinir þriðju í klettum og hólum, og þeir heita Ljúflíngar. Um sjóálfa segir hann sögu, eptir sögn sira Jóns í Laufási: að maðr nokkur fór til jólatíða, og átti leið seint nm kveldið fram með sjó; hann heyrði í helli fyrir ofan sig, glaum og dansleik og gleði, og sá hann þá hvar lágu á ströndinni margir selahamir; hann tók einn, sem var minstr, og brá honum milli klæða sèr. Þá varð ys og þys milli álfanna, og hverr tók sinn selsham og fór í sjóinn, nema ein stúlka stóð eptir hamslaus og vildi grípa til hams síns, en náði ekki; gat svo maðrinn handsamað hana, og fór með hana heim, og giptist henni, en ekki varð hún honum nnnandi; bjuggu þau þó saman í 12 ár, og áttu tvö börn, son og dóttur. En alla þessa stund er það sagt, að selr sást synda þar fyrir framan, en það var álfabóndi konunnar. Loksins náði stúlkan aptr ham sínum meðan bóndinn var í burtu, hvarf, og sást ekki síðan. Jón segir og þar um álfa, að þá vanti miðsnesið, eða „miðbrúna milli nasanna," sem hann kallar, og kemr það heim við það, að kvennmaðr vestfirzkr, sem enn lifir, segist hafa sèð álfastrák, og lýsti honum með litum og einkennum, og sagði hann hefði ekki haft „nema eina nösina," og er þetta sagt þeim til fróðleiks, sem kunna síðan að sjá álfa, en vita ekki deili eðr einkenni á þeim — Jón talar þar og um

loptanda, og segir að vestrnlands hafi komið ofan úr lopti strengr með akkeri, og orðið fastr undir kirkjustètt; kom þá ofan maðr, að losa festina, og fölnaði þegar menn komu við hann.

Á 70. aldrsári 1644 ritaði Jón „Tídfordrif" eður Dægradvöl, sem sumir kalla. Frumrit Jóns lærða finst í safni Árna Magnússonar 727 4to [1] og byrjar svo: „Tidfordrif eðr lítið annálskver, sitt af hvoru til sýnis viljann að birta til samans teiknað af mèr Jóni Guðmundssyni ætatis 70; anno Domini 1644. — Virðulegum heiðrsherra meistara Brynjólfi Sveinssyni biskupi að Skálholti, óskar sá aumi stafkarl Jón Guðmundsson í undirgefni mínum hjálparmanni og herra alls góðs unnandi"... og er undirskrifað: „Jón karl Guðmundsson í Gagnstaðarhjáleigu í Fljótsdalshèraði endaði 1644 8. Maij." Í þessu riti eru margir kaflar, mest þó sögulegt og annálar. Þar er þáttr um kirknarán. „Kortmál" eða „70 kortmálshættir" í hendíngum og upphaf að:

„klèn kortmál,
kýmið bragarbrjál."

Enn fremr mart um anda, steina o. s. fr., dregið upp finngálkn og enn mart fleira. En flest það er þó tekið eptir útlendum bókum og hjátrú um útlenda steina, eða þá úr Hauksbók, en af íslenzkri fræði og hjátrú er fátt eðr ekkert, nema það lítið eitt, sem tilfært er í safni þessu.

Hið þriðja rit, sem með fullri vissu má eigna Jóni lærða, er Krukkspá, sem mönnum er kunn. Frumrit hennar ætla eg sè í safni Árna 409 4to (þar eru 3 handrit Krukkspár og öll samhljóða) [2] og líkist það því, að vera eiginhandarrit Jóns, og byrjar svo: „Anno 1514 spáir Jón krukkr eina jólanótt, að eptir herra Gísla kemr biskupinn Oddr hinn hái úr Austfjörðum til biskups í Skálholt." Síðan er spáð mart um biskupa og tíðindi um fyrri hluta 17. aldar t. d. „Í annan tíma móti burtför Goðbrands kemr svo mikill stormr af ofveðri, að musterið skerðir að jörðu, en um burtför Odds hins háa brennr eldr í Skálholti . . . verra er þá enn áðr, því engi má minnast Máríu minnar elskulegrar... Á dögum Odds hins háa verðr einn mikilsháttar lögmaðr, sonarson Árna míns Gíslasonar (þ. e. Gísli lögmaðr Hákonarson); hann deyr í vellystíngu sinni." Eptir Odd háa kemr „Gísli, þann kalla margir gráan, hann ríkir í 9 (á að vera 6) ár." Eptir „Gísla hinn æfistutta" kemr nú „Brandólfr rauði," það er Brynjólfr biskup, og er miklum lofsorðum farið um hann; en nú skeikar spáin, og segir, að hann verði ekki gamall „Íslandi (er) mikill skaði þegar Brandólfr fer til guðs, Jón á þar ekki með, því hann er þá í friði hjá Maríu sinni," og: „illa gretta sig Íslendíngar þegar Brandólfr fer til guðs." Spáin endar svo: „Anno 1523 á því ári sem Jón hvíldist á hans kerlíngardag, hafði hjá honum verið sá maðr, sem kallaðr var Oddr kokk, þá hafði hann

1. A. M. 200 8° er og handrit af Tidfordrif.

2. Eitt er enn í Stokkhólmi 38. fol. og er samhljóða.

sagt að Vestmannaeyjar mundi óbygðar sakir ræníngja og hafnarleysis, enda er þá mál að hætta, því þá verðr síðasta Hvolsbrenna í allra manna minni, sem þá eru og mun sýna þá mörgum hræðileg eptirdæmi. Sæll er Jón þá í þann tíma. Endir." Og síðan niðrlag: „Endir á spásagnarþætti Jóns krukks, og mun hann víst hafa meiri og fleiri spáfarir í frammi látið þó hèr sè eigi skráðar, því hèr er ei nema 10 ára upptök spádómsins, en þar fyrir getur einskis, og eigi spáir hann, nema að eins ótæptir um Hólastiptis herra eðr biskupa; á dögum herra Þorláks Skúlasonar: þetta til gamans gjört."[1] Af þessum síðustu orðum er það auðsætt, að spáin er gjörð til leiks og að gamni sínu um 1640 eðr skömmu síðar. En síðan hafa menn aukið við hana, og kalla menn nú í daglegu tali flestar slíkar spásagnir Krukkspá.

Um þetta leyti mun og Jón lærði hafa ritað ritgjörð sína „um huldupláz og heimuglega dali á Íslandi," sem finst í hinu íslenzka handritasafni í Stokkhólmi 64 fol. II (bls. 81—100); þetta er hið fyrsta sögusafn líkt því, sem vèr köllum nú útilegumanna sögur, um Ódáðahraun og Þórisdal. Þessar sögur sem eru 4 að tölu verða síðan prentaðar með útilegumannasögum. Önnur stutt ritgjörð sama efnis finst á sömu bók, sem og mun vera eptir Jón lærða: „Lítið ágrip um hulin plátz og yfirskygða dali á Íslandi;" Áradal nefnir Jón þar fremstan, og hefir hann ort um þann dal eitt kvæði, sem enn er til og Áradalsbragr heitir, og þykir oss líkast, að hann hafi sjálfr búið til nafnið. Ódáðahraun finst fyrst nefnt í vísunni: „Biskups hefi eg beðið með raun" frá byrjun 17 aldar og sýnir það, að þær sögur eru allgamlar, en mest munu þær þó hafa aukist eptir að sagnir um Þórisdal, og landvættaleikir undir Skjaldbreið urðu kunnar af Grettlu og Bárðarsögu, og munu þessar sögur vera sprottnar af slíkum fornum sögnum.

Í hinu ísl. handritasafni í Stokkhólmi 64 fol. (bls 1. ff.) er enn ritgjörð eptir Jón lærða, er kallast: „Skrif Jón Guðmundssonar málara um Ísland hið góða" ásamt annál um Ísland og Grænland. Þessi ritgjörð er rituð austr í Múlasýslu ár 1644, líklega þó síðar en Tidfordrif, því Jón hefir skotið hèr inn greinum þaðan. Í þessari ritgjörð finst ekki fátt um álfa. Um álfakveðskap segir höf. að skáldspararvísur hafi títt heyrst í jörðu kveðnar „og af Ljúflíngum margopt til skemtunar við tönn súngið eðr kveðið, og í bland annars þetta":

„Út er hún við eyjar blár,
eg er seztr að Dröngum,
blóminn fagr kvenna klár,
kalla eg til hennar löngum."[2]

1. Sjá bls. 438 athgr. 2.
2. Sbr. kvæði Eggerts Ólafssonar. bls. 116.

Og enn:

„Veldur það vökunum,
vart gekk í ker;[1]
stytti eg með stökunum
stundirnar mèr.“

Úr Huldumannalögum segir Jón það eitt atvik, að ef ríkisstúlka legst heima með ótignum auðvirðismanni, þá er það lög álfa, að hún skal halda honum, en missa mundinn.

Um álfa bækr eðr „álfrúnir“ segir hann (bls. 50) að þeir sem svo eru ramskygnir, að þeir sjá gegnum holt og hæðir „kynni að sjá letr á Ljúflínga eðr Álfheimabókum, sem álfrúnir kallast, en öðrum óskygnum sýnist hvítt óskrifað perment, öllum þó ólesandi við dags eðr sólarljós, utan við skugga, skýlu eðr mánaskin. En fróðir menn hafa dæmt þeirra skript líkasta þeim gömlu írsku bókum, með þeirra gullstöfum og fegrstu farfa, smáverki utan og innan fáðir.“ Um trúarbrögð ljúflínga segir hann, að slíkar bækr sem Trojumannasögur lesi þeir sem vèr bibliuna, en bibliuna lesi þeir sèr til skemtunar líkt og vèr lesum Trojumanna eðr Rómverjasögur. Álfar hafa ekki ódauðlega sál sem menskir menn, því þreyja þeir opt samlíf við menn til að öðlast ódauðlega manns sál. Færir nú Jón mörg dæmi til, að Ljúflíngar hafi lifað hjúskapar lífi við menska menn, fyrst um Móðar, er bjó í Öxlinni fyrir ofan Víðimýri í Skagafirði sunnan til við Vatnsskarð; hann átti 3 börn við dóttur bóndans frá Ásgeirsvöllum; móðir hennar sótti hann ætíð til að sitja yfir henni og hafa til skírnar. Um hann eru rímur. Önnur saga er sú, að Bergþór bóndason og Bergljót væna álfsdóttir bjuggu í Vatnsdalshólum í Húnavatnsþíngi. Þrautir og mótgangr Bergþórs kom af því, „að hann hjó báðar hendr álfsins, föður Bergljótar, sem hann rètti á móti honum, bjóðandi honum af beztu alvöru inn til sín, en í ódæma fjúki. Sigurðr bóndi átti þá Hól á fjalli; hann bjó 15 ár við ljúflíngsdóttur og átti börn við henni, og hafði hennar folk fyrir hjú. Þar þorði þá enginn að gista nema einn landseti hansJón að nafni; hanu hafði fyr mist allt sitt fólk í plágunni. En þegar Sigurðr dó, hvarf allt það fólk.“ Jón talar og um menska menn, sem gengið hafi í hóla, svo sem Ólafr tóni, sem áðr var getið; segir hanu, að það sè máltæki, að útskeifir menn sè bezt fallnir til þess að ganga í hóla eðr kletta; eigi maðr þá að hafa kefli með nokkru á ristu fast í knèsbótum en talkusprota í hendi bryddan með eiri og skella honum á, og hafa þar við formála, „sem þeir mega vita er það iðka.“ Álfar stunda mjög að koma ofanjarðar til að sjá blessaða sólina, og skrýðast þá bezta búníngi sínum. Jón segir, að það sè í mæli, að stórir steinar, sem sjást á heiðum eðr óbygðum, sè legsteinar tiginna huldumanna, svo að sólin

1. þ. e. kjör.

geti skinið á þá. Á Íslandi eru tveir álfakonúngar, og sigla til skiptis sinn hvort sumar til Noregs fyrir yfirkonúng sinn sem þar ríkir.

Merkust af því sem Jón hefir skrifað, er þó ritgjörð hans „um Íslands aðskiljanlegar náttúrur," sem er svo sem frumsmíð til íslenzkrar náttúrusögu. Ritgjörð þessi finst fyllst og bezt í hinu fyrgreindu handriti í Stokkhólmi Nr. 64 fol. með heudi Jóns Eggertssonar og skrifuð um 1680 líklega eptir eiginhandarriti Jóns lærða; þessar ritgjörðir eru raunar tvennar: fyrst stutt ritgjörðarkorn, bls. 61—77, og heitir: „Ein stutt undirrèttíng um Íslands aðskiljanlegar náttúrur." Þar er fyrst um málma, þáng, síðan um Íslandshaf og hvalakyn í Íslandshöfum. Síðan hefst aðalritgjörðin bls. 77 ff. og heitir: „Annað skrif Jóns Guðmundssonar málara um hvalfiskakynin í Grænlands og Íslandshafi, sem menn hafa kynníng af;" fylgir nú uppdráttr með hverjum hval, og er ritgjörð þessi einkarfróðleg.[1] Síðan kemr þáttr um fiskakyn, og fylgja uppdrættir með, síðan kuðúngakyn og skelfiska, og fjörukindr. Þar næst um fuglakyn, einnig með uppdráttum;[2] þá um flugur og orma, og síðast um vatnsorma. Svo sem áframhald þessarar ritgjörðar er lækníngabók Jóns lærða, sem finst í sama handriti: „Skrif Jóns Guðmundssonar málara eðr tannsmíðs, af nokkrum var og kallaðr Jón lærði, sakir hans margfróðlegleika, hljóðandi um þan grös og jurtir, sem vaxa á Íslandi, og þeirra dygðir og náttúrur." Þessa ritgjörð hefir hann og ritað austr í Múlasýslu, og síðast, því hèr fylgja engir uppdrættir, og kennir hann um elli og handariðu, og sèr sè ekki hægt, að komast yfir grösin á vetrardag. Í þessum áðr nefndu ritgjörðum, sem eru visindalegastar af því, sem Jón lærði hefir ritað, finst fátt, sem berlega heyri til hjátrúar, eðr alþýðusögur. Eitt er þó sagan af Viðfinnu Völufegri, sem hann segir frá þar sem hann talar um vogmerina, því Vala drotníng komst loks í þau álög að verða að vogmeri, en gullker hennar, sem hún hafði sagnaranda í, skyldi verða að hinu fagra ígulkeri, en eitrkvikendi (!) það sem þar er innaní, og sem Jón kallar „alfrýið," varð úr sagnarandanum. Ritgjörð þessari finst snúið á dönsku í Thotts safni 954 fol., og nokkrar athugasemdir Jóns rectors Þorkelssonar (Thorcillii) á latínu yfir hana í Nye kgl. Saml. 1275 fol.

Þessi eru rit Jóns lærða þau sem oss eru kunn, en auk þess hefir hann kveðið mörg kvæði; auk þeirra sem áðr eru nefnd hefir hann ort Ármannsrímur árið sem hann var í Kaupmannahöfn (1637). Hann hefir ort „fuglakvæði" samanvið eða með Þorleifi Þórðarssyni, og 12 kappavísur (Öld vo Gunnar gilda), Nye kgl. Saml. 1894 4$^{to}$. Ýms fleiri kvæði um vörn

1. Bls. 98—99 skýtr ritari bókarinnar Jón Eggertsson inu litlum þætti af sjálfs síns brjósti.

2. Af þessari ritgjörð er og ágætt handrit, sem Jón Sigurðsson á, og er með hendi síra Snorra á Húsafelli, og þar finnast uppdrættir af fuglum, sem ekki finnast í Sth. handritinu.

móti fjölkýngi munu og vera eptir hann. Hann hefir og ár 1647 á 73 ári aldrs síns gjört ágrip af Fabronii veraldarsögu (AM. 201 8° eigin handarrit).

Um miðja 17 öld varð þó á Íslandi nokkur breyting til betra í sagnafræði og þekkíngu á sögu landsins. Þángað til höfðu sögur landsins legið lítt hirtar sín í hvorri skinnbók, og sín á hverju landshorni, sem landsmenn sumir munu hafa haft beig af, sem galdrabókum, sem ekki gæti í eldi brunnið. En á tuttugu eðr þrjátigi árum (c. 1640—70) urðu nú svo skjót umskipti með söguskript, að nú dreifðust hinar helztu sögur út um landið í pappírshandritum tugum saman, og hin ágæta fornöld landsins rann upp fyrir sjónum manna líkt og landi lyptir upp úr sjó. Rit Arngríms lærða, sem vóru rituð á latínu, höfðu farið fyrir ofan garð og neðan hjá flestum af alþýðu, en sögurnar sjálfar skildu allir, ef þeir gátu fengið að lesa þær; og þó nú fornfræði 17. aldar og þekkíng á sögu landsins og bókmentun væri mjög vanefna, og ófullkomin, þá skipti þó í tvo heima við það sem áðr hafði verið, og færðist nú nokkuð líf í alla þjóðlega fræði, og með þjóðsögurnar fór einsog mælt er, að opt njóta hjú góðra gesta; það sem ritað var, var með vísindalegri blæ en rit Jóns lærða. En með því að veraldlegr hagr landsins ávalt fór hnignandi, þá mátti taka litlum framförum í andlegum efnum með því meiri þökkum, og það vísindalíf í þjóðlegum fornfræðum, sem hèðau kviknaði, var síðan langa æfi hin eina huggun landsmanna í raunum sínum og andstreymi, að horfa á blóma fyrri alda meðan öllu gekk hnignandi fyrir augum þeirra, og bera veraldarádeilur þessarar aldar, bæði í kveðskap og suudrlausu máli ljósastan vott um þenna huga.

Hèr er þá næst að geta Björns á Skarðsá, en hans rit má kalla hinn fyrsta vísi til þjóðlegrar forufræði í ýmsum greinum. Björn var fæddr sama ár og Jón lærði, og báðir rituðu mest í elli sinni, og Björn mest um lög og skýríngar þeirra, annála, og annað slíkt;[1] kemr fæst af því við þjóðsögur eða hjátrú. Þó verðr að geta hèr einnar ritgjörðar hans um rúnir, sem má kallast frumrit til flestra síðari ritgjörða um það efni. Ritgjörð þessi er samin árið 1642, og er ráðníng Brynhildarljóða (Sigrdrífumála) einn hluti hennar, og gaf kvæði þetta höfundinum tilefni til að rita um rúnir, en kvæðið þekti Björn þá að eins eptir broti því, sem er í Völsúngasögu. Þessi ritgjörð Björns finst nú í ýmsum handritum stytt eðr aukin, en bezt er hún í hinu íslenzka handritasafni í Stokkhólmi Nr. 38 fol., og mun hún þar rituð eptir frumriti Björns. Fyrirsögnin er: „Nokkuð lítið samtak um rúnir, hvaðau þær sè, hverir þær hafi mest tíðkað, hvar af sitt nafn hafi, um margfjölda þeirra, megu og krapt, ásamt ráðníngu þeirra dimmu rúnaljóða Brynhildar Buðladóttur, með því fleira hèr að huígr,

1. Rit Björns á Skarðsá eru gjörst talin upp af Finni Magnússyni i Grönl. hist. Mind. I. 81.—83.

bráðafangs uppteiknað til umbóta vitra manna á Skarðsá í Skagafirði Anno 1642. B. J. S." (Björn Jónsson). Hèr er talinn upp fjöldi af rúnanöfnum og stafrofum og fylgja myndir með. þessi ritgjörð Björns, barst til Svíþjóðar með Íslendíngum á 17. öld; hygg eg, að hún hafi þar og orðið grundvöllr fyrir ýmsu sem þar var síðan ritað um rúnir. Í hinu opt nefnda handriti Nr. 64 fol. finst hún og, en fellt úr allt sem viðvíkr ráðníngu Brynhildarljóða, en með ýmsum merkilegum viðaukum, sem annaðhvort er eptir ritara bókarinnar Jón Eggertsson eða eptir Ólaf gamla.

Ólafr gamli hefir ritað ritgjörð „um rúnakonstina," og kemr hún rètt á eptir ritgjörð Björns í áðr nefndu handriti (64 fol.); hefir þessi ritgjörð Ólafs áðr verið lítt kunn, en er þó merkileg, því hún er hið elzta safn af galdramannasögum, sem til er á íslenzku. Ólafr mun hafa verið norðlenzkr, og ráðum vèr það af því, að sögur hans eru flestar af Norðrlandi, en um ætt hans eðr eðli vitum vèr að svo stöddu ekkert, nè nær hann hafi lifað; nema hvað ráða má af ritgjörðinni sjálfri, að hann hafi lifað um miðja 17. öld og verið nokkru ýngri en Björn á Skarðsá. Jón Eggertsson hefir flutt ritgjörðina með sèr til Svíþjóðar, og hún svo ekki dreifst út á Íslandi. Fyrirsögnin er svo hljóðandi: „Skrif Ólafs hins gamla, er svo var nefndr" og byrjar svo: „Margbevísað verðr af fróðra manna bókum" o. s. fr. Segir þar fyrst um þorleif jarlaskáld, Egil Skallagrímsson, Brynhildi Buðladóttur. því næst víkr höfundrinn til galdramanna frá seinni öldum á Íslandi og segir sögur af þeim:

1. Um Ólaf tóna,[1] en þó örstutt, um Tónavör, sem kölski hafi reitt á einni nótt úr blágrýtisurð.[2] Hann nefnir og jarðgöngur hans og hóla, og deilur við Straumfjarðar-Höllu. Er af öllu auðsætt, að Vestfirzkar sögur hafa verið Ólafi lítt kunnar.

2. Um Saurbæjar-Odd eru nokkrar línur, en hann vakti upp uxa, sem drepizt hafði meðan Oddr var á þíngi. Um þenna Odd vitum vèr annars ekkert. Fjölskrúðugri verða sögurnar þegar kemr á Norðrland. þar er þá fyrst:

3. sira Hálfdan í Felli. Af honum segir Ólafr greinilega 4 sögur. Sú fyrsta, að hann gekk í Tindastól í hellismunna í Laxárdal, og kom út á Reykjaströnd. Önnur saga er um það, að hann bar á gráum hesti, sem þó raunar var nennir, blautt torf í kirkjugarð á Felli. En að lokum sló hann hestinn. Laust þá hestrinn skarð í kirkjugarðinn með aptrfótunum, og hefir aldrei síðan tollað í því skarði. Lík saga er sögð hèr bls. 518, en þar ætlum vèr að þó sè blandað sögum. — þriðja sagan er sú, að eitt

1. Ólafr tóni þorleifsson var af hinni fornu Reykhólaætt; hann mun hafa búið á Skarði á Skarðsströnd i lok 14. aldar. Hann druknaði á Dýradag 1393 í Steinólfsdalsá (sjá Flateyjarannál). Hann gaf Staðarhólskirkju hálfar Bjarneyjar (sjá Vilkinsmáldaga).

2. Sjá bls. 513—514.

*

sinn, er hann bjó á þönglabakka, og matskortr var og hallæri, seiddi hann fisk úr læstum hjalli bónda eins í Grímsey heim að hæjardyrum (sbr. bls. 518—19.) — Hin fjórða sagan er allra merkust, og er efni hennar það, að eitt sinn, er margir gestir vóru hjá sira Hálfdani, en vantaði bæði mat og mungát, rendi hann dorgarfæri niðr um rifu í pallinum og dró þar upp hæng og hleikju; nú var þá fenginn nógr matr, en mungátið vantaði; þá boraði hann í staf hússins, og rann þar þegar út bezta mungát, svo allir urðu fulldruknir. Síðar í ritgjörð sinni segir Ólafr enn aðra sögu sama efnis um biskup nokkurn í Skálholti, að hann var á ferð, en legaðist við eina á, og sló upp tjöldum, og vantaði mungát. En sveinn biskups, sem þar var, rak atgeirsstaf í jörðina, lèt stafinn standa þar um hríð, boraði síðan með nafri í stafinn, og rann þá út um boruna mungát, svo biskup og hans menn urðu ölvaðir. En litlu síðar er biskup var heim kominn í Skálholt, sendi hann bryta sinn í kjallara, að tappa sèr gamlan lyhskan bjór, er hann átti þar á tunnu. En þegar brytinn kom til, var tunnan galtóm. En þessi tunna var sú, sem sveininn biskups hafði seitt mungát úr við ána forðum. þessar sögur líkjast mjög því sem Göthe kveðr um Mephisto í Faust: þó mun þjóðsagan vera nákvæmari, er hún lætr bora í stoð eðr staf, en ekki borð. Ólafr endar nú að segja frá sira Hálfdani, en segir þó, að „mart annað er konstsamt af honum að greina, en sökum margyrða ei hèr innfærist.“

4. Hinn fjórði galdramaðr er sira Jón á Svalbarði, en hann þjónaði og kirkjunni á Glæsibæ, og reið hann grám hesti, sem var nennir, yfir um fjörðinn og reiddi fátækan dreng fyrir aptan sig. þar af er talsháttrinn: nú skriflaði á skötunni. (sbr. bls. 517, en er þar eignað sira Hálfdani.)

5. þar næst er sira þorkell í Laufási, og er sögð löng saga um viðskipti hans við Hólabiskup. Ætlaði biskup að sækja hann heim með ofríki og taka hann fastan, en prestr gjörði honum ginníngar og sjónhverfíngar.[1]

6. þá kemr um sira Jón í Laufási, en hann kvað ref heim í greipar sèr, en gaf honum síðan líf, og „enn fleiri frásagnir eru af honum, sem hèr eru eigi innfærðar,“ segir Ólafr gamli.

7. Að síðustu eru 3 smásögur um einn prest, „hvern eg eigi nefni“ segir Ólafr. Hann fann með galdri tvo þjófa, sem stolið höfðu sauðum hans. þriðja sagan er sú, að menn urðu fastir á hesthaki, sem stolið höfðu hestum hans, líkt og segir um sira Eirík í Vogsósum. „það kölluðu þeir gömlu harðfjötur,“ segir Ólafr. Síðan segir Ólafr frá ýmsum athurðum að finna þjóf: að reka flein í hússtoð þess er frá var stolið, kemr þá verkr í auga þjófsins eðr það springr út; önnur aðferð er sú, að rista rúnir á kershotn, hella vatni í kerið, og láta þar í gras nokkuð, þá kom

1. Jón Eggertsson, skrifari handritsins Nr. 64 fol., fellir þá sögu hèr út, því hann hafði áðr í bókinni ritað þátt um sira þorkel og eflaust tekið það úr ritgjörð Ólafs. Í 64. fol. vantar þó upphaf þáttarins.

fram í vatnið mynd þess og yfirsýnd er stolið hafði. Enn er að rista draumrúnir svo mann dreymi þjófinn. Síðan talar Ólafr um jarðgöngur og að fara í hóla til álfa; segist hafa lesið margt um það, en geti þó ekki fullkomlega um það dæmt, segist hann því sleppa því efni. Þá talar hann um menn, sem hafi kunnað að ganga á sjónum sem á þurru landi. „Það kölluðu þeir gömlu að troða marvaða“ segir Ólafr; „heyrst hefir, þeir skyldu brúka þar til tálkn, og á rista, og undir sínum fótum hafa, þar með eina lengju um sig binda af húð hvalfisks nokkurs. Þeir mega vita þar af gjörst er reyna“ segir höfundrinn. Þá er enn að láta þjóf villast. Enn segir Ólafr frá gandreið, um bláklæddan mann, sem reið yfir Íslandshaf og sagði tíðindi úr Svíþjóð og Danmörku, og styrjöld utanlands (þrjátigi ára stríðið?). Þá er sagan um biskupinn, sem áðr er getið, og því næst um róðrarmann á Vestfjörðum, sem dró upp á öngli sínum blóðmörskepp af bæ sem hann sá að rauk á í landi. Lýkr Ólafr hèr ritgjörð sinni, og segist þetta hafa uppteiknað til gamans svo þar af sannist um krapt rúnanna; „en hvað sá góði lesari vill þar um dæma gef eg honum sjálfum að umþenkja.“ [1]

Hinn næsti maðr Ólafi gamla, er safnað hefir íslenzkum þjóðsögum og æfintýrum, var Árni Magnússon. Árni hafði að vísu slíkar sögur í mestu óvirðíngu, og leggr ekki dulur á, að þær sè ómerkar bábiljur, eins og samboðið var gáfnafari hans, því hann var lærðr maðr en tortryggr, og fyrirleit allar sögur, sem ekki vóru sannar, hvað skáldlegar sem vóru. Íslendíngabók Ara var honum kærari en allt annað, sem á íslenzku var ritað, en um Njálu talar hann á einum stað mjög óvægilega. En þó honum nú þætti munnmæli og skröksögur ómerk, þá gat hann þó samt ekki að sèr gjört að safna nokkru einnig í þessa átt. Hann safnaði fyrstr manna sögum um Sæmund fróða, sem prentaðar eru í safni þessu. Hann safnaði og nokkrum æfintýrum, eða lèt safna, t. d. Mærþallarsögu, Brjánssögu, Himinbjargarsögu o. s. fr. Hafa allar þessar sögur komið safni þessu í beztu þarfir. Þó hefir Árni kunnað og heyrt getið miklu fleiri sagna, en hann hefir skrifa látið. Í brèfi sínu til Þormóðar ár 1690 [2] getr Árni sögunnar um Gullbrá, sem búið hafi í Hvammi áðr en Auðr djúpauðga nam þar land. Árni Magnússon kom, sem kunnigt er, nætrgamall í Hvamm, og ólst þar upp hjá sira Katli Jörundarsyni móðurföður sínum; hefir hann þar heyrt þessa sögu. En nú hefir sira Jón Þorleifsson, sem

1. Fyrr er stutt saga um sira Árna að Látrum, en hann skildi hrafnsmál. Á öðrum stað hefir skrifarinn sett inn í ritgjörð Björns á Skarðsá litla grein um þær fjórar höfuðgaldrabækr „af rúnum og kröptugu riti fullar, sem lengi hefir merki til sèst fram eptir öldunum, sem svo kölluðust: Grænskinna, Gulskinna, Rauðskinna, Silfra.“ Af þessum bókum höfðu hinir fyrri galdramenn vísdóm sinn. Höf. segir þar og, að sumir segi, „að einn stafr af mörgum rúnabókstöfum saman settr, hafi tíðum svo kröptugr fundist á kálfskinnsbókum ritaðr, að ei hafi í eldi kunnað að brenna.“

2. Kallske Saml. 140 fol.

og var borinn og barnfæddr í Hvammi, sagt söguna eins og hún er hèr rituð[1] (bls. 148—50). Árni nefnir og í sama brèfi söguna um Jóru í Jórukleif, og segir, að allir menn á Íslandi hafi þessar sögur fyrir sannar, þó sannað verði, að þær sè skrök ein og bábiljur.

Í kreddum eðr kerlíngabókum, sem kallaðar eru öðru nafni, var fáu safnað á 17. öld. Eg þekki að eins eina litla „kerlíngabók“ sem svo er kölluð þar, í safni Árna Nr. 437 12^mo^, en flest, sem þar í stendr af kreddum, er þó útlent.

Á þetta stig var nú þetta mál komið í byrjun 18. aldar. En skömmu eptir lát Árna Magnússonar breyttist nú aldarháttrinn. Í fyrri tíð var hjátrúaröld, en nú rann upp hin svo nefnda „Pietista“ eðr oftrúaröld. Átti nú hver maðr að vera heilagr að konúngsboði, og trúarhræsni og guðhræzlu yfirskin var nú allstaðar á yfirborði, og nú varð það, sem aldrei hafði fyr verið, að mönnum var bannað á Íslandi að lesa sögur. Kristján konúngr sjötti gaf út, að undirlagi Harboes biskups, tilskipanir um þetta. Tilskipan um húsvitjan 27. Mai 1746 §. 18, og húsagatilskipanin 3. Juni 1746 §. 7[2] hótuðu mönnum gapastokk, ef menn læsi sögur, og eins er fyrir mælt um dans og vikivaka, sem þá hafa enn tíðkast, þó það sè nú útkulnað. Það var ekki að vonum, að menn yrði til að safna þjóðsögum eða rita um slíkt á þessari öld. En einn mann verðr þó að nefna, hinn fjölfróðasta Íslendíng sem þá var uppi, en það var Jón Ólafsson frá Grunnavík (fæddr 1705, andaðist 1779). Hann var fyrst fyrir innan tvítugt hjá Páli lögmanni Vidalín, og síðan hjá Árna Magnússyni þangað til hann dó, og var því lærisveinn tveggja hinna mestu fræðimanna, en var sjálfr manna námgjarnastr. Jón Ólafsson hefir ritað meir að vöxtum en nokkur Íslendíngr annar á þeirri öld, en fátt sem ekkert af því er prentað, og finst það flest með hans eigin hendi í viðbæti við safn Árna Magnússonar (Additamenta). Jón var hjátrúargjarn, en þar með þjóðlegr í lund og fróðr, en hefir ritað um flest í fornfræði, sem nöfnum tjáir að nefna. Merkast af öllu sem hann hefir skrifað, mun þó vera rit hans um rúnir: „Runologia eðr Rúnareiðsla,“ sem er hin fjölhæfasta og bezta ritgjörð, sem um það efni er rituð á íslenzku. Eigin handarrit Jóns finst í Additam. Nr. 8 fol., og er fyrirsögnin þannig: „Johannis Olavii Runologia, það er: Jóns Ólafssonar Rúnareiðsla eðr hans yfirvegunarþankar um rúnir, öllum þeim í ljósi látnir, er stunda eptir fornum fræðum; samanskrifuð fyrst í þremr þáttum í Kaupmannahöfn Anno Domini 1732, en nú aptr að nýju af sjálfum honum hreint upp skrifuð, og með tillagi af nokkrum stykkjum, sem eru að tölu þrjú, og þessu sama efni tilheyra, aukin samastaðar A. D. 1752.“ Rit þetta er í afskript Jóns 186 blss. í fol. og aptan við ýmsir viðbætur á

1. Af orðum Árna er þó að ráða, sem sagan hafi þá verið nokkuð öðruvís sögð, og Gullbrá búið í Hvammi fyrir landnámatið á undan Auði.

2. Sjá Islands Lagasafn II, 574—75 og 609.

latínu, þýzku, og dönsku (bls. 186—248). Bókin er öll í fjórum þáttum, vel samin og einkar fróðleg; fylgja rúnunum ávalt uppdrættir. Um rúnanöfninn er oflangt að greina. Það eitt set eg til dæmis, að hann nefnir Baldrsinnsigli, og hjálparhrínga Ólafs konúngs.[1] Erlendr sýslumaðr Ólafsson, bróðir höf., sneri frumritgjörðinni (frá 1732) á latínu, sú þýðíng finst með hendi Jóns í „gamle kongelige Saml." 744 fol.[2] Ritgjörð þessi hefir í sumu verið fyrirmynd Finns Magnússonar í riti hans um Rúnamó. Mart annað í alþýðlegum fræðum mætti án efa finna innan um rit og brèf Jóns. Eg mun enn nefna safn Jóns af íslenzkum leikum, sem finst undir orðinu leikr í orðabókarsafni íslenzku, sem til er eptir hann í Additam. Nr. 35—44 fol. og með hans eigin hendi. Jón hefir og ritað æfisögur þeirra Árna Magnússonar og Páls Vidalíns. Æfisaga Páls og margra fleiri af Vidalínsætt, finst með hendi Jóns í Additam. 47. fol. Æfisaga Páls er þó hin merkasta af þeim öllum, og lýsir hún ágætavel hugsunarhætti manna á Íslandi í þá daga. Páll Vidalín var kallaðr fjölkunnugr þegar í lifanda lífi, og Jón hefir „fastlega trúað því," að svo hafi verið, og hefir kunnað margar sögur um það, síðan hann var hjá Páli, en hann segir því miðr, fáar af þeim, svo menn skuli ekki gabba sig fyrir auðtrygni, eða til að seðja með forvitni manna. Hann segir um Pál, að „hann kvað óvini sína hafa því verstu á sig logið, að halda sig töframann," „máske af því," segir Jón, „að draugasendíngar þeirra unnu ei á honum og hann hafði vit á þeirra aðferð." Jón segir, að ei sè þörf í stað „að fræða forvitni manna, er verða má, nè framtelja margar sögur um skygnleika hans, vofur, er honum vóru sendar, og stundum mein, er þær gjörðu aptrhorfnar." Ein vísa eptir Pál er þessi:

„Opt hefi eg slíkan óvin minn
og illuðlegri sèðan,
eg forakta þig fjandinn þinn,
farðú í burtu hèðan."

„Var slíkt svo berlegt," segir Jón, „að þeir sem skygnir vóru, þektu soddan sendíngar með nafni, og vóru nokkrar þeirra, þær eigi kómust nær bænum en víst takmark; var sá þar í dalnum að utan sendr, er aldrei komst lengra en í Síðu-tagl, svo hann sá að eins fram að Víðidalstúngu. Þá lögmaðr Páll heyrði það, varð honum að orðum, að sá djöfull mundi hafa brjósterfiði og fótaveiki." „Sira Þorvarðr Ólafsson skírði Pál og vildi fyrirbyggja það hann ramskygn yrði, og stoðaði lítt," segir Jón, „þótt hann bæri skírnarvatnið í augu honum. Eg man þar um nokkra hluti, sem, hvað hann sagði um það,[3] þá honum var sendr fyrsti draugr, er var Skotta, þá er hann var skólameistari í Skálholti, og um hana Geir-

1. En ekki Karlamagnúss.
2. Gott handrit af hinni ísl. ritgjörð finst og í Nye kgl. Saml. 473 fol.
3. Má af þessu sjá, að Páli hefir ekki verið verra en vart.

laugu etc." Jón Olafsson hættir hèr í miðju kafi og þorir ekki að fara lengra. Um forspá Páls getr hann þess, að Páll hafi vitað fyrir um andlát sitt, er hann reið síðasta sinni til alþíngis, og um skygnleika hans færir hann dæmi til, er Páll gisti á Höskuldsstöðum, og svaf í kirkjunni; en um miðsmorgunsskeið „sá hann ofan í gólfið, og eins út í kirkjugarðinn, svo sem í gegnum glæan ís, hvert mannsbein nokkrar álnir niðr." — Má af öllu þessu ráða, að Jón Olafsson hafi verið nokkuð hjá róma við sína öld, fyrst meðan oftrúar öldin var, og síðan þegar vantrúar og skynsemisöldin rann upp, sem kunnigt er, að gjörði gis að mörgu, sem helgara var, en álfa eðr tröllasögur. Um seinni hluta aldarinnar sinntu menn og mjög lítt slíkum fræðum. Þó má nefna til einn mann, er hèt Eiríkr Laxdal Eiríksson, og var djákn á Reynistað, átti þar barn og fór síðan utan, og var innskrifaðr við háskólann 19. Decbr. 1769 og var þá 26 ára; var hann þar nokkur ár, og fór síðan út híngað, en var þreyjulítill, fór jafnan milli manna, og hafði ofan af fyrir sèr með því að segja sögur, og grófst um leið eptir sögnum þar sem sögufróðir menn vóru. Allar þær sögur, bæði sem hann kunni sjálfr, og þær sem honum vóru sagðar, skrifaði hann upp hjá sèr í mikið safn. En af því maðrinn var kallaðr skáld og gáfaðr, en jafnframt sèrvitr, þá setti hann allar þessar sögur saman eins og honum bauð við að horfa, í eina sögu, og orti vísur inn í, og er því ekki hægt að vita hvað verið hafi samsetníngr hans og hvað sè alþýðusögur. Þetta sögusafn sitt greindi hann að sögn í 2 aðaldeildir, vóru í annari álfasögur; hana kallaði hann Ólafs sögu Þórhallasonar, en í hinni vóru æfintýri; hana nefndi hann Ólandssögu. Sumir segja, að deildirnar hafi verið þrjár, og hafi hann kallað allar einu nafni Ólandssögu, og hèlt þessu safni fram til dauðadags, 1816. Ólandssaga þessi kvað vera til enn á Íslandi, en ekki höfum vèr þó sèð hana. Ein af vísum þeim, sem kveðnar vóru eptir Eirík látinn, var þessi:

„Víða flæktist, var snauður,
vandist fréttablöðum;
nú er Laxdal nýdauður
norðr á Stokkahlöðum.[1]

Í lok 18. aldar vóru uppi, sem kunnigt er, margir ágætir vísindamenn íslenzkir, sem stunduðu fornfræði, unnu að útgáfum, og bjuggu þannig í haginn fyrir hinni komandi öld, og hefir ávalt síðan, og þó einkum á þessari öld, sem nú stendr yfir, allt breyzt stórum til batnaðar um þjóðsögur vorar og annan fróðleik jafnframt því, að mentun og upplýsíng hefir aukist nú svo langt fram yfir það sem var á 18. öld, og er það sögum þessum til sóma, að þær hafa einskis í mist fyrir það, en hugr á þeim örvast að sama hófi, sem menn hafa farið að sinna öðrum þjóðlegum málum. — Nú voru og stofnuð vísindafèlög til verndar málinu, og til að halda uppi fornfræði og

1. Sagan um Eirík Laxdal er tekin eptir handriti Jóns Árnasonar.

bókvísi Íslendínga. Árið 1816 var stofnað hið íslenzka bókmentafèlag, og 1825 hið norræna fornfræðafèlag. Fèlög þessi hafa, hvort um sig, unnið landinu hið mesta gagn, bæði utanlands og innan; nú vóru sögurnar prentaðar í haudhægari útgáfum en fyr, og kómu nú að kalla í hvers manns hendr.

Hjá Íslendíngum, einkum hinum lærðu mönnum, vaknaði nú miklu meiri ást á fornsögum landsins en verið hafði, og kynni til fornaldarinnar urðu nú hálfu meiri með öllum almenníngi en áðr, en sögurnar vöktu aptr meiri rækt á hverskyns alþýðlegum fróðleik, og öllu því, sem landinu gæti orðið til sóma og nytsemdar. Menn fóru nú að leita betr í vitum sínum, og safna öllu sem til var ritað, og halda því saman, sem áðr var vanhirt, og þekkíng á sögu landsins og máli fór nú vaxandi, og þó menn ekki þá þegar færi að safna sögum um álfa og tröll, eðr æfintýrum, því annað brýnna lá þá fyrir hendi, sem varð að sitja í fyrirrúmi, sem vóru bóksögurnar meðan þær enn vóru óprentaðar: þá laut þó allt að því, að hefja allt hið þjóðlega, og með því hvað eitt hefir sína tíð í þessum heimi, þá rann og loksins upp dagr fyrir þjóðsögur vorar.

Þó mundi þær að öllum líkum enn um stund hafa lifað að eins á vörum manna en ekki orðið skrásettar, ef hagr slíkra sagna hefði ekki hafizt svo mjög erlendis í augum lærðra manna og síðan alls almenníngs. Það er kunnugt, að hver þjóð í heiminum, sem nokkuð er að manni, hefir þjóðsögur og æfintýri, og ýmsa hjátrú og ekki hvað sízt hinar mentaðustu þjóðir. Á fyrri öldum sintu lærðir menn þessum fræðum lítið eðr alls ekki, en í byrjun þessarar aldar, sem í vísindalegri ransókn í sögu og málfræði ber svo langt af hinum fyrri öldum, þá duldist mönnum ekki hvílíkr fèsjóðr að lægi fólginn í slíkum sögnum, og hve vel þær lýsti hugsun og hag hverrar þjóðar og gáfnalagi, og að í þeim dyljast menjar af trú og síðum lengst framan úr forneskju, sem ávalt loðir við, þó sögurnar ýngist upp. Fegrð sagnanna og einfeldi hlaut og að vekja athygli fræðimanna á þessari alþýðlegu og hagvirku sagnagrein. Á Þýzkalandi, sem svo mjög hefir gengið í fararbroddi annara þjóða á þessari öld, í lærdómi og hverskonar fróðleik, hófst nú fyrst sú ment, að safna og rita upp slíkar sögur. Þeir bræðr Jakob Grimm og Vilhjálmr Grimm, söfnuðu í byrjun þessarar aldar (1812—15) þýzkum þjóðsögum í eina bók, sem þeir kölluðu „Kinder- und Hausmärchen.“ Það sem menn í fyrri tíð höfðu safnað af slíku, var optast stirt og óliðlega gjört, en þessi bók er með rèttu þjóðkunn fyrir það, hvað sögurnar eru vel sagðar, eins og sá segir frá sem bezt segir, og er hún því fyrirmynd fyrir aðra sem safna í hverju landi sem er. Þessi bók hefir því erlendis vakið nýjan hug í þessari fræðigrein, og er seint að telja upp allar þær alþýðusögur, sem hefir verið safnað í ýmsum hálfum Þýzkalands og í flestum öðrum siðuðum löndum, svo varla er nú það land, sem ekki hafi sèr þjóðsögusafn. Í Noregi hafa þeir Asbjörnsen

og Moe fyrir 16 árum (1845) — sama árið og fyrst var farið að safna í þessa bók — ritað bók sem heitir „norske Folkeæventyr,“ sem er ágætt safn, og hefir þeirri bók síðan verið snúið á ensku og þýzku. Í Danmörku hefir Thiele safnað í bók sem heitir „Danske Folkesagn“ (1818—23) og í Svíþjóð hafa menn og slík söfn, en hið norska ber þó af öllum á Norðrlöndum. Í Holsetulandi og Slesvík hefir Karl Müllenhoff safnað, „Sagen, Märchen und Lieder“ (1845), og er ágæt bók. En á Íslandi hefir orðið lengri aðdragandi að þessu; veldr því þó ekki það, að vort land sè óauðigra í slíkum fræðum, því fá lönd munu þar svo fjölskrúðig sem Ísland, — heldr fjarlægð landsins, tómlæti landsmanna, sem að vísu hafa ávalt elskað þessar sögur í kyrþey, en haldið þeim sem leyndardómi. og ekki haldið að þær væri nógu merkar til þess að þeim væri á lopt haldið öðru vís, en að segja þær börnum til skemtunar, og hafa svo látið þær hirða sig sjálfar mann frá manni, og hefir það ekki enn orðið sögunum að fjörlesti, þar sem menn segja svo vel sögur sem á Íslandi, og þar sem hugr manna er miklu næmari fyrir öllu sem sagnafróðleikr heitir eðr fornfræði, en í flestum öðrum löndum. Frá útlöndum hafa ýmsar tilraunir verið gjörðar til að vekja Íslendínga til að safna kerlíngabókum og kreddum, en landsmenn hafa í þessu verið tómlátir og ekki hlaupið tær af fótum sèr, þangað til þeim þótti sjálfum tími til kominn. Það er vert að geta þessara tilrauna stig af stigi, af því þær vóru loflegar og gjörðar af góðum huga, og þá er og öll saga þessa máls á Íslandi og framgangr ljósari.

Skömmu eptir, að fornfræðanefndin var stofnað í Kaupmannahöfn, sendi hún áskoran til Íslendínga dags. 5. Apr. 1817. um fornleifaskýrslur. Þar segir í §. 10. að hún biðr menn: „um sögusagnir meðal almúgans um fornmenn, (aðrar en þær sem til eru í rituðum sögum), merkileg pláz, fornan átrúnað, eðr hjátrú á ýmsum hlutum, sèrlega viðburði o. s. fr., einkum nær þær viðvíkja slíkum fornaldarleifum“ (sjá Ísl. Lagasafn, VII, 654—61). Rentukammerið og kanzellíið ritaði biskupi og amtmönnum líks efnis 19. April (sjá Ísl. Lagas. VII, 667—71). Er auðsætt, að nefndinni hefir verið enn nokkuð óljóst um flokka sagnanna, og er málið nú sem í bernsku sinni. Landsmenn sintu þessu ekki, og liðu nú meir en 20 ár, að ekki var gjör reki að þessu framar. En á þeim tíma hafði hið íslenzka bókmentafèlag náð góðum þroska, og kom því nú í hug að láta rita Íslands lýsíng, og sendi boð til allra presta á landi um lýsíng yfir hverja sókn (30. April 1839). Eru þar framsettar 70 spurníngar fyrir presta, en hin 69. að eins kemr við þetta efni: „Eru nokkrar fornsögur manna á milli, og hverjar? eðr fáheyrð fornkvæði, og hver?“ Í § 58. er spurt hvað menn hafi til skemtunar. — Þau rúm 20 ár, sem síðan hafa liðið, hafa sóknalýsíngar og sýslulýsíngar smám saman borizt fèlaginu, og eru nokkrar fáar sögur, en ágætar, teknar inn í safn þetta úr þessum skýrslum, t. d. sagan um Þuríði sundafylli úr sóknalýsíngu síra Bergs Haldórssonar

yfir Eyrarsókn í Skutilsfirði, sagan um Árumkára í Selárdal eptir sira Olaf í Flatey, og nokkrar sögur úr Skarðsþíngum frá sira Friðrik Eggerz.

Nú fer fram tveimr sögunum. Árið 1845 má heita afmæli þessarar bókar. Þá tóku höfundar hennar, tveir íslenskir fræðimenn, Magnús Grímsson og Jón Árnason, sig saman að safna báðir í sameiníngu íslenzkum þjóðsögum og kvæðum, þulum og kreddum o. s. fr. Magnús Grímsson, sem síðan varð prestr, var þá í skóla á Bessastöðum, en Jón Árnason hjá Dr. Sveinbirni Egilssyni. Þeir skiptu svo verkum með sèr, að sira Magnús skyldi mestmegnis safna sögum en Jón kreddum, þulum, og gátum, en þó safnaði hvor með öðrum og benti öðrum þángað sem liðs var að leita. Í skólann kómu piltar úr öllum fjórðúngum landsins, safnaði sira Magnús Grímsson eptir þeim, og svo á sumrum eptir sögn Borgfirðínga, því hann var þaðan ættaðr. Allar þær sögur eða velflestar í safni þessu, sem hafa fyrirsögn „eptir sögn skólapilta“ o. s. fr. eðr „eptir sögn Borgfirðínga“ eðr þvíumlíkt, eru því frá sira Magnúsi. Jón Árnason safnaði kvæðum og þulum á sama hátt, og síðan hefir Jón Árnason haldið fram safni sínu fram á þenna dag. Þeirra bræðra Grimms „Kinder- und Hausmärchen,“ sem þeir sira Magnús og Jón Árnason höfðu lesið í skóla, vakti þá til að byrja þetta safn, að sjálfs þeirra sögn; var því jafnt vili beggja, að safn þetta, þegar það yrði að nokkru fullgjört, bæri nafn þeirra bræðra, og fèlli þannig í sitt föðurskaut. En áðr en safnið yrði búið, andaðist Vilhjálmr Grimm (16. December 1859), og annar höfundr safns þessa, sira Magnús Grímsson, andaðist á Íslandi 18. Jan. 1860, þegar rètt var að því komið, að hann sæi árangr af athöfu sinni, og var lát hans að vonum tregað af öllum; og varð það um stund safni þessu til mikils hnekkis, að missa svo annarar handar, þegar mest lá við.

Á sömu missirum, sem þeir Jón Árnason hófu að safna á Íslandi, bar enskr fræðimaðr Prof. George Stephens, sem þá var í Stokkhólmi, fram á fèlagsfundi hins norræna fornfræðafèlags í Kaupmannahöfn (17. Juli 1845), að rita ávarp til Íslendínga um alþýðleg fornfræði. Frumvarp Prof. Stephens, sem er merkilegt í marga staði, má lesa á dönsku í Antiqu. Tidsskr. 1843—45, bls. 191—92. Ári síðar (28. April 1846) sendi Fornfræðafèlagið boðsbrèf til Íslendínga um fornritaskýrslur og fornsögur; og setjum vèr hèr þann kafla, sem að þjóðsögum lýtr, til fróðleiks, hvernig þetta mál var nú orðið miklu ljósara en verið hafði 1817. — „Alþýðleg fornfræði,“ (sögur um) „fjölkunnuga menn: Sæmund fróða, sira Eirík í Vogsósum o. fl., álfasögur, draugasögur, útilegumanna sögur, hinar svonefndu kerlíngasögur, æfintýri og sèrhvað þesskonar t. a. m. um tröll, goð, jötna, grýlu, jólasveina, dísir, álfa eða huldufólk, nykra, sænaut, landvætti eða landdrauga, sjódrauga, illfiska, sjóskrímsli, vatnaskrímsli, útisetur (á krossgötum); um fè í jörðu, vafurloga, búrdrífu, óskastund og þvíumlíkt.

því næst gömul kvæði og ljóð, sem höfð eru til skemtunar úngum og gömlum, en ekki eru prentuð, og ekki skrifuð upp svo menn viti: svo eru ýmsar rímur, fornkvæði, vikivakar, dansleikakvæði, söguljóð, vísur og kvæði um fugla og dýr, eða annað (grýlukvæði, tóukvæði, krummakvæði o. s. fr.). Enn fremur þulur og barnavísur, sem tíðkanlegar eru. — Ef menn vita aldur eða höfunda kvæðanna, eða nokkrar sögur um það, þá yrði það að fylgja. Þá eru leikar og öll aðferð og þulur eða formálar, sem þar eru hafðir við, bæði meðal barna og fullorðinna. Þá allskonar forn átrúnaðr úr heiðni eðr úr pápiskri öld, þó nú sè kallað hjátrú, t. a. m. spásagnir, fyrirburðir, sjónir, aptrgaungur, draugar, svipir, vofur, fylgjur, sendíngar, útburðir, uppvakníngar, tilberar eða snakkar, heillanir, gandreiðir, flæðarmús, gjaldbuxur, glímugaldr, brýnugaldr, fornar særíngaþulur eða bænir, stafir, rúnir, og ristíngar sem hafðar hafa verið til forneskju o. þessk. Um allt hvað trú hefir verið höfð á til lækníngа. Um veðrmerki, um dagsmörk, og hversu þau svari til klukkustunda. Nöfn á ýmsu á lopti, jörðu eða sjó, sem dregr nafn af fornum átrúnaði, eða er sprottið upp á Íslandi fyrr eða síðar, og á einhvern hátt er merkilegt og fáheyrt (stjornanöfn — úlfr og gýll, — Lokasjóðr, Baldrsbrá, Freyjuhár, Friggjargras, álfabruni, tröllriða, Pètrsbudda, óskabjörn, o. m. fl.) svo og sögur um þetta, eða þulur ef til eru. Gátur, bæði í bendíngum og í óbundinni ræðu o. s. fr."

Íslendíngar gáfu þó þessu litla áheyrn; þeir sendu að vísu eitt og annað fornfræði viðvíkjandi, en fátt sem ekkert af fornsögum, og er ekkert svo vèr vitim, tekið í þetta safn úr handritum Fornfræðafèlagsins. En boðsbrèf fèlagsins vakti þó huga margra, en viðkvæði sumra var þó, að ljúfara væri að þiggja en gefa, og handrit og fornfræði gengi úr landinu útí óvissu, en fátt kæmi í mót. Álfasögur, tröllasögur og draugasögur væri nógar að vísu, en það væri allt markleysa, sem menn hefði sèr til skemtunar, eu sem ekki tæki að skrifa upp og senda burt til útlanda. Fyrst ætti að ginna úr mönnum hjátrú og bábiljur og gjöra svo háð að öllu á eptir, eða brenna það, eins og Árni Magnússon hefði gjört á sinni tíð, eptir að hann hefði ruplað sögum og handritum út úr landinu og flutt til Danmerkr. Meðan á þessu stóð þokaði safni þeirra Jóns Árnasonar og sira Magnúsar nokkuð fram, og árið 1852 gáfu þeir út lítið kver, sem þeir kölluðu „Íslenzk æfintýri" og kostaði Einar prentari Þórðarson bókina. Þetta sýnishorn var hið fyrsta safn af íslenzkum þjóðsögum, sem prentað hefir verið, og tóku margir því vel, en þó gekk treglega að safna sögum hin næstu 6 ár, þangað til Dr. Konráð Maurer kom til Íslands 1858; og hefði þetta mál að líkum dottið þar niðr, ef ekki hefði haus að notið.

Menn höfðu fyr leitað Íslendínga með boðsbrèfum og áskorunum, og lítið á unnist, sem ekki var von, eptir skaplyndi landsmanna, og annað það, að laudsmenn höfðu um mart annað að hugsa, sem þeim hlaut að liggja í meira rúmi en álfasögur og tröllasögur. En þegar Konráð Maurer

kom til Íslands og ferðaðist um land og átti tal við menn, þá sýndu landsmenn það, að „segjanda er allt vin sínum," og vóru nú jafn opinskáir, sem þeir áðr höfðu verið dulir, og legið sem ormr á gulli á þessum sínum fræðum. Vinsældum Konráðs Maurers á Íslandi er það að þakka, að safn þetta hefir orðið leitt til lykta. Á ferðum sínum á Íslandi safnaði hann sjálfr miklum fjölda af allskonar þjóðsögum, og vakti huga manna á þessum fróðleik; hann átti og vinakynni við ýmsa fræðimenn, sem síðan hafa orðið mestu styrktarmenn safns þessa, og hinir beztu sögumenn og nægir þar að nefna sira Skúla Gíslason á Breiðabólstað. Áðr en Konráð Maurer fór af Íslandi um haustið 1858, hvatti hann þá báða vini sína, Jón Árnason og sira Magnús Grímsson, að halda áfram safni sínu, og gaf þeim von um að safn þeirra mundi verða prentað á Þýzkalandi. Jón Árnason sendi nú sama haust „hugvekju" svo hljóðandi til vina sinna og fræðimanna á Íslandi:

„Allt það sem eptirfylgir, er mèr einkar áríðandi að fá uppskrifað eptir manna minnum:

1. Fornsögur allskonar um staði og menn, **a.** sem loða við bæi, hóla, steina, fjöll, vötn, ár, læki, firði, flóa, o. s. frv. **b.** um nafnfræga íslenzka menn á fyrri öldum, helga menn og fjölkunnuga (Sæmund fróða, Eirík prest á Vogsósum, Kálf Árnason. Hálfdan Einarsson eða Eldjárnsson prest að Felli í Slèttuhlíð o. fl.), afrek, aðfarir og spakmæli fornmanna, sem ekki er í sögur fært. **c.** útilegumanna sögur. **d.** sögur um goð, tröll og jötna. **e.** álfasögur og huldufólks. **f.** sögur um grílu, jólasveina, dísir, landvættu, landdrauga, sjódrauga, sjóskrímsli, illfiska, sænaut (sækýr), nykra, vatnsskrímsli. **g.** sögur um drauga, aptrgöngur, uppvakníuga, sendíngar, vofur, fylgjur, svipi, útburði. **h.** sögur um snakka (tilbera), og hvernig þeir eru tilbúnir. **i.** um gjaldbuxur, papeyjarbuxur (finnabrækur), gandreiðir, og hvernig sè tilbúið, um flæðarmýs og þjófarót. **k.** Um óskastund, búrdrífu, fólgið fè í jörðu, dalakúta, útisetur á krossgötum, vafurloga.

2. Gömul kvæði allskonar, sem höfð eru til skemtunar úngum og gömlum, og ekki eru prentuð: **a.** Rímur gamlar, söguljóð, fornkvæði, vikivakar og lýsíng þeirra, dansleikar (þrent hið síðast talda, flest með viðlögum). **b.** Kvæði um fugla og dýr, fyrirburði og forynjur (krummakvæði, tóukvæði, grílukvæði og leppalúðakvæði). **c.** þulur allskonar, langlokar, barnavísur, og allar barnagælur. **d.** þulur og fyrirmæli (formálar) við leiki og taflategundir allskonar, sem börn og fullorðnir temja sèr, eða hafa tamið og greinilegar skýrslur um allan ganginn í leiknum og aðferð í taflinu. **e.** fyrirbænir fornar fyrir sjálfum sèr, særíngar illra anda, og til að afstýra motgangi, slysum, illviðrum, og andviðrum, gjörníngum o. fl. **f.** Víti ein og önnur, sem börn og fullorðnir mega ekki gjöra. **g.** gátur í bundinni og óbundinni ræðu."

Landsmenn brugðust nú svo vel undir þetta, sem þetta safn ber með sèr; sumir prestar skrifuðu raunar, að þetta „væri fyrir neðan sig“ og sendu ekkert, en þetta hefir margfalt bæzt upp, því aðrir prestar hafa aptr sýnt sig sem alþýðlega fræðimenn, og verið beztu sögumenn safns þessa. — Þegar Maurer kom heim aptr úr Íslandsferð sinni, safnaði hann í eitt þjóðsögum þeim, sem honum höfðu verið sagðar á Íslandi, og gaf út bók, sem heitir: „Isländische Volkssagen“ (Ísleuzkar þjóðsögur), Leipzig 1860, að forlagi Hinrichs's bókhöndlunar í Leipzig. Sama bókaverzlun gekk nú og að því, eptir umráði Konráðs Maurers, að prenta safn af íslenzkum þjóðsögum á íslenzku, 80 arkir í tveim bindum, og kemr nú hið fyrsta bindi fyrir almennings sjónir.

Nú var því þá borgið, að safn þetta yrði prentað, en enn var þó loku fyrir skotið, að þessar sögur kæmizt í hendr Íslendínga nema stöku manni, og mátti þá segja, að þeirra yrði ekki hálf not ef engir yrði aðrir handhafi að þeim en lærðir menn útlendir, en yrði ekki almenníngi íslenzkum til skemtunar og dægradvalar, og á þann hátt örvaði menn til að sinna enn sögum þessum. Jón Sigurðsson, forseti deildar hins ísl. bókmentafèlags í Kaupmannahöfn, samdi nú við Hinrichs's bókaverzlun í Leipzig um, að hún gæfi hinu ísleuzka bókmentafélagi kost á að kaupa bók þessa handa meðlimum fèlagsins, með svo góðum kjörum, að fèlagið þyrfti ekki að hnekkja fyrir þá skuld öðrum störfum sínum. Eptir að forseti hafði náð kostum, sem fèlaginu vóru hagfeldir, bar hann þetta fram á fèlagsfundi, og brugðust fèlagsmenn vel undir það, en síðan var það samþykt á deildarfundi í Reykjavík. Jón Sigurðsson hefir og frá öndverðu verið bezti styrktarmaðr safns þessa, og hefir hans ráða opt að notið af því höfundi safns þessa er kunnigt, að hann jafnt ann þjóðsögum vorum og alþýðlegum fróðleik, sem hverju öðru, því er landsmönnum gæti orðið frami í.

En með því bók þessi var prentuð á Þýzkalandi í fjarska við höfund hennar, þá sýndi Konráð Maurer enn velvild sína við safn þetta, sem vel má heita fóstrbarn hans, að hann tókst á hendr að annast prentun og prófarkalestr, og er það enginn smár ómaksauki, þar sem prentarinn ekki skilr orð í því máli, sem bókin er prentuð á, en handritið ritað með ýmsum höndum, og stafsetníng stundum ósamhljóða, af því margir hafa safnað. Þessa verðr góðfús lesari að gæta, og ætla eg, að prentvillur, sem raska máli, verði þá færri en von væri og má það þakka vandfærni og athuga Konráðs Maurers; en hinsvegar varð þó prentun að ganga skjótt og greitt.

Þannig er nú safn þetta undir komið, og er þetta þó minstr hluti þess sem til er á Íslandi í munnmælum, og er það sjón sögu ríkari, að meir en tveimr þriðjúnguni safnsins hefir verið safnað hin þrjú síðustu ár síðan Maurer fór af Íslandi, svo landsmönnum gekk engin örbyrgð til að svo tregt gekk framan af. Hafa landsmenn í þessu sýnt, að þeir eru seinfara í fyrsta bragði, en góðir til þrautar. — Niðrröðun og þátta-

skipan er mest tekin eptir bók Konráðs Maurers, en hann hefir skipt í þætti eptir sem nú tíðkast mest á þýzkalandi. þó nú þáttaskipan þessi í sumu kynni að standa til umbóta eptir eðli hinna íslenzku sagna, þá er þó sjónarmunr að lesa sögurnar nú hjá því sem að lesa hin fyrri boðsrit eðr æfintýrin 1852, þar sem sögurnar eru hvor innan um aðra; teljum vèr þáttaskipanina mestu varða næst því að sögurnar sè vel sagðar, því án þess verða þær ekki nema fölskvi fyrir utan lit og blæ.

En um sögurnar sjálfar er það að segja, að þær koma hèr fram flestar að mestu óbreyttar, eins og sögumenn út um landið hafa ritað þær upp og sent þær Jóni Árnasyni, sem á þann hátt hefir verið sem ritstjóri safnsins fremr en höfundr. Bera því sögurnar ýmsan blæ eptir sögumönnunum út um landið, eru sögurnar því miklu fjölbreyttari að orðfæri, en annars væri, ef einn maðr hefði sagt allar eða fært í letr; enda virtist bezt hæfa að fara svo að, þar sem svo margir bændr kunna engu ver og opt betr en lærðir menn, að setja á pappír sögur og hvað annað; en með því engar mállýzkur eru í landinu í líkíngu við það, sem er í öðrum löndum, þá er allt fyrir það allt af einu bergi brotið, svo engin fjórðúngamót finnast á sögum þessum. það skiptir þó, að sumir fara betr með sögur en aðrir; þó vonum vèr að allflestar reynist í góðu lagi, og beri þess vott, að menn kunni enn að segja sögur à Íslandi, ekki síðr úngir menn en karlar og kerlíngar, svo þessi bók þarf ekki að óttast að verða nefnd kerlíngabók fyrir þá skuld.

Vèr verðum nú að leyfa oss að nefna nokkra af þeim, sem oss þykja fara bezt með sögur, og sem þjóðsögur þessar eiga svo mikið að þakka; má þar nefna fremstan sira Skúla Gíslason á Breiðabólstað, en hann hefir lagt til flestar sögur, sem allar eru góðar, og margar ágætar, og það sögur um allt land; væri þar skarð fyrir skildi ef hann hefði látið sín ógetið við safn þetta. Af Norðrlandi eru flestar og beztar sögur eptir Jón alþíngismann á Gautlöndum. Af Suðrlandi eptir sira Sveinbjörn Guðmundsson, að austan úr Skaptafellssýslu frá Runólfi bónda Jónssyni í Vík. Að vestan frá sira Eiríki Kúld á Helgafelli og Gísla Konráðssyni. Rúm og efni safns þessa leyfði því miðr ekki, að hagnýta nema stöku greinir úr þáttum Gísla Konráðssonar um sira Eirík í Vogsósum, sira Hálfdan á Felli, og þorleif þórðarsson, en bók þessi sýnir þó bezt hvað mart höf. hennar á að þakka ljúfri aðstoð þessa margfróða manns. Eptir þorvarð bónda Ólafsson á Kalastöðum eru og nokkrar sögur í safni þessu; og verðum vèr að nefna eina: söguna af Sigurði og drauginum bls. 265—66, sem svo vel er sögð, að húu minnir á það sem bezt er sagt á íslenzku t. d. Njálu. Sumar sögur með hans hendi eru frá Páli sýslumanni Melsted, sem vel fer með sögur. Eptir Sigurð málara Guðmundsson eru nokkrar sögur í safninu, og allar merkar og að einhverju einkennilegar; og enn má tilgreina marga fleiri, en það virðist vanþörf af því svo er til ætlað, að

við enda safnsins sè listi yfir alla þá, sem sögur eru eptir í bókinni, enda stendr og nafn hvers framan við flestar sögurnar, og getr hver bezt dæmt eptir því hvað honum líkar bezt.[1] Öllum þessum mundi höfundrinn færa ljúft þakklæti sitt.

En ekki mundi höf. hvað sízt í formála bókar sinnar hafa getið kvennmanna á Íslandi. Þeirra er minna getið við bókmentir en skyldi, því þó þær skrifi ekki eins margar bækr og karlmenn, þá hafa þær þó alla stund fóstrað á skauti sèr sagnafræði vora og þjóðsögur. Þess er snemma við getið, að meðan sonrinn lærði í skóla af karlmönnum latínu og útlendan fróðleik, þá kendi móðir hans honum ættvísi.[2] Ari fróði ritaði ættvísi og um bygging Íslands eptir sögn Þuríðar spöku, og enn er svo þann dag í dag að mæðr og konur kenna börnunum hvað bezt það sem þjóðlegt er, og segja sögur ávallt manna bezt, og mundi sögur vorar og þjóðsiðir löngu hafa farið að forgörðum, ef þeirra hefði ekki að notið. Í safni þessu eru nokkrar sögur, og margar ágætar, sagðar eptir kvennmönnum, en hinar eru þó miklu fleiri sem þangað eiga kyn sitt að rekja, sem karlmenn muna eptir því sem mæðr þeirra eðr annað kvennfólk hefir sagt þeim í barnæsku.

---

Eg verð að lokum að telja nokkra afsökun til þess, að eg en ekki höfundr safnsins hefi ritað formála þenna. En hún er sú, að bókin var prentuð í fjarska við höfundinn, en prentun gekk fljótar en við var búist; bar því bráðar að, að semja formálann en ætlað var; en langt að leita höfundarins út á Íslandi, vóru þá tveir kostir fyrir hendi, annaðhvort, að láta hið fyrra bindi fara formálalaust, eðr að annarhvor okkar Maurers ritaði formála til bráðabyrgða, þangað til höfundi safnsins gæfist kostr, að rita annan fyllri og betri. Það þótti ekki gjörlegt að láta lesendrna fá formálalaust hið fyrra bindi safnsins, af því nú er svo til ætlað, að árs bið verði milli fyrsta og annars bindis; hitt var og ógjörlegt, að fresta prentun þangað til skip ganga í vor af Íslandi. Eg hefi því ritað þetta í bráð, og hefi eg gjört það fyrir þá skuld, að eg hefi verið svo sem milligöngumaðr milli beggja málsaðila safns þessa: Jóns Árnasonar út á Íslandi og Konráðs Maurers suðr á Þýzkalandi, því handritið hefir gengið gegnum mínar hendr á leið sinni frá Íslandi og suðr á Þýzkaland, svo mèr er það nokkuð kunnugt og saga þess. Þetta hefir því hlotizt af atvikum, en ekki

---

1. Stöku mönnum hættir við, að stæla eptir fornsögum, verðr málið þá stundum stírt, og afbökuð fornyrði. Stöku sögur ætla eg og sè hèr, sem ekki eiga rèttan stað í þessu safni t. d. þáttr af Grími Skeljúngsbana (bls. 247—56), sem eg er hræddr um að sè tilbúinn eptir ættartölum í Landnámu og ortar inn í vísur og stælt eptir þættinum um Glám í Grettlu og svó Bárðarsögu, og ætti hann því heima í annað sögusafn en þetta.

2. Sjá Þorláks sögu helga.

því, að ekki væri báðum okkr Maurer kærara að sjá formála frá hendi höfundarins sjálfs. Formáli þessi er af vanefnum gjör, af því að svo bráðan bar að, og mætti miklu fleira safna, að líkindum, ef tóm væri nóg. Þó hefði vanefnin orðið meiri, ef eg hefði ekki nú sem optar notið aðstoðar Jóns Sigurðssonar, og að handrit þau, sem flest er ritað eptir, vóru nú hèr að hans undirlagi.

**Guðbrandr Vigfússon.**

# YFIRLIT FYRSTA BINDIS.

# 1. FLOKKUR.

## GOÐFRÆÐISSÖGUR.

### 1. GREIN.

#### ÁLFAR.

Álfatrúin hefir hvervetna átt játendur á Íslandi. Enn þótt hún sè nú, að kalla, dauð með flestum þeim, er trúað hafa tilveru álfa, eru þó nokkrar menjar hennar eptir, bæði í sögum þeim, sem síðar koma, og í nöfnum, sem af álfum eru dregin, t. d. álfar, álfafólk, álfakyn, álfatrú, álfkona, auk mýmargra örnefna[1], sem tekið hafa nöfn af álfum, sem of lángt er upp að telja. Þó eru til önnur nöfn um þetta sama kyn, svo sem huldufólk, huldumaður, huldukona, o. s. frv. og ljúflíngur[2] eða lýflíngur; þykja þau nöfn alt mildari, og betur hæfa að velja álfum þau, er hafa verið álitnir svo voldugar verur, að menn hafa bæði borið virðíngu fyrir þeim og óttazt þá. Til þess er og saga sú, að álfar vilji láta kalla sig huldufólk, en ekki álfa eða álfafólk, að álfkona nokkur kom með reiðisvip til mennskrar konu, er atyrti dreing fyrir eitthvert ófimlegt athæfi hans, og sagði: „álfurinn þinn", eins og hún kvað að honum; átti þá álfkonan að hafa sagt: „Við, huldufólkið, erum ekki meiri álfar, en þið mennirnir." Fyrir því að menn höfðu orðið þess varir, að álfum hafði þókt fyrir, ef þeir voru kallaðir svo, eða jafnað til þeirra heimskíngjum, var það varazt, að velja þeim önnur, en virðuleg nöfn, og varla þókti það óhætt, að kalla þá álfa, nema ef eingin ill merkíng var í það lögð[3]. En nú er sá álfur nefndur, er hjákátlegur þykir til orðs og æðis, og geingur næst því að vera „ekki með öllum mjalla"; æði slíks manns er og kallað álfaskapur eða álfaraskapur, það er og sagt, að sá „álpist", sem geingur antælislega eða klunnalega, hvort sem það er dregið af álfur.

Um bústaði álfa er það að segja, að það var trú, að þeir ættu híbýli ekki að eins í hólum og steinum, hèr og hvar á landi, heldur einnig í sjó

1. „Álfhólar" og „álfaborgir" eru svo margar á Íslandi, að varla verður tölu á komið. „Álfhólsvatn" er á Hrútafjarðarhálsi, sbr. Dr. Maurers Isl. Volkss. 2. bls.

2. Sjá „Ljúflíngsmál" Ísl. æfintýri. Reykjavík, 1852, 103. bls. og „Ljúflínga-Árni", s. s. „Álfa-Árni."

3. Bæði í þessum inngángi og í sögunum sjálfum eru nöfnin „álfafólk" og „huldnfólk" höfð jöfnnm höndum, og þó öllu optar ‚álfkona" en „huldukona", en aptur á móti að öllum jafnaði „huldumaður", „huldupiltur" o. s. frv.

(marbendlar) og jafnvel í loptinu. þessi trú, um álfabygðir í hólum, er æfagömul, og eldri miklu, en kristni kom út híngað, sem Ólafssaga Tryggvasonar vottar.[1] Álfar eru í allri mynd og lögun sem mennskir menn, eins og Jón Guðmundsson[2], er kallaður var hinn lærði eða málari, segir um þá í Fjandafælu:

„Hafa þeir bæði heyrn og mál,
hold og blóð með skinni;
vantar ei nema sjálfa sál
sá er hluturinn minni."

Fyrra hluta vísu þessarar ætla jeg allir, sem hafa ritað um álfa, muni geta fallizt á, en alls ekki á síðari helmíng hennar, því hann er að ætlun minni fráleitur allri íslenskri hugmynd um eðli huldufólks. Enda vill svo vel til, að sögurnar sjálfar sýna það bezt, að skoðun nafna míns er þar ramvilt; því eptir þeim virðast álfar alls ekki skyni skroppnir. Her skal nú getið hins fáa, er álfar sèu ólíkir mönnum að skapnaði. Dr. Maurer hefir hitt þá sögn um þá, að þar sem mennskir menn hafa litla laut á efri vörum frá miðsnesi ofan í munn með mön hvoru megin, þar er einmitt hæð nokkur á álfum.[3] Purkeyar-Ólafur,[4] er Dr. Maurer getur um í formálanum fyrir framan „Íslenzku munnmælasögurnar" sínar, og sem hefir ritað allra manna mest um álfa, er eg hefi sèð, segir svo í inngángi bókar sinnar um þá: „Eg

1. Sbr. Skálholts-útgáfuna 1689, 2. part LVII. cap. 214 bls. og Khafnarútgáfuna í Fornmannasögum II, 215. cap 197 bls. Kórmakssaga, 22 cap.

2. Sbr. um Jón Guðmundsson: Historia literaria Islandiæ (Havniæ et Lipsiæ 1786), 82, 139—140. og 168. bls.; historia eccles. Islandiæ Finns biskups (Havniæ 1772—78) II, 368 bls., III, 518—519 og 590—593 bls. Islands Árbækur Jóns Espólíns (Kh. 1827—1855) VI, 49, 65, 84—85, 122. bls. VII, 22 bls.

3. Eptir Sèra Björn þorláksson á Höskuldsstöðum.

4. Ólafur fæddist hèr um bil 1780, svo framarlega sem hann hefir dáið hálfáttræður 1845, en það ártal er áreiðanlegt. Ólafur var Sveinsson, og bjó faðir hans á undan honum í Purkey á Breiðafirði. Ólafur bjó þar 26 ár síðast, en áður hafði hann búið fyrst í Hrappsey, þá á Keigsbakka á Skógaströnd, og síðan á Stapa í Snæfellsnessýslu til 1818 eða 1819 (Sbr. „Huldumaðurinn og Geirmundur hái"). Ólafur Sveinsson, er hèr er stundum kallaður Purkeyar-Ólafur, var, eptir því, sem honum hefir verið lýst fyrir mèr, hègiljufullur, en siðgoður og guðhræddur maður. Auk margra handrita, er hann skrifaði upp eptir tengdaföður sinn, Ólaf Jónsson í Arney, mikinn fræðimann, samdi hann „Álfasögubók" þykka í 4 blaða broti er þorvaldur Sivertsen í Hrappsey segist hafa sèð. þessa bók hefi eg haft undir höndum (1859—60) eða eitthvað af henni; voru þar á alls rúmar 40 sögur um álfa með framhaldandi Nr. auk sögunnar af Álfa-Árna og Kötludraums. Fyrir framan bókina var inngángur ekki allstuttur, og getur Ólafur þar þess, að kunníngi sinn hafi beðið sig, „að gjöra eitt skrif, sem áhræri Huldufólk eður Álfa til fróðleiks og þekkingar á náttúrunnar rike"; tekur höfundurinn það þar fram, að hann sè kominn yfir hálfsjötugt. Bók þessi var mèr útveguð til láns einhvers staðar norðan úr Hrútafirði, en hver hana á, veit eg ekki. Úr henni hefi eg tekið ýmislegt bæði í inngánginum og sögunum. það er óefandi að þetta er bók Ólafs, því aptarlega í henni stóð nafn hans og skrifað með eigin hendi, eins og á bokinni sjálfri var, að ætlun minni.

vil í fáum orðum segja þánka mína og hald um huldufólk eða álfa og þó nokkuð af minni eigin sjón (eg segi ekki af áþreifíng) og með frásögum staðfesta og upplýsíng gefa, eptir því eg sannast kann að vita og af ráðvöndum mönnum þar um talað heyrt hefi. Það er minn þánki, segir hann, að þeirra (huldumanna) líkamir, sèu veikara bygðir en vorir líkamir, og það (þeir) hafi lint og mjúkt hold viðkomu, þar með mjórri bein en vèr.“[1] Þetta er alt það, sem eg hefi orðið var við frábrugðið í líkamaskapnaði álfa og manna. Eins og álfar eru líkir mönnum að skapnaði, eru þeir og líkir þeim í háttsemi allri: þeir fæðast eins og menn, og deya eins og þeir, en sagt er, að álfar sèu miklu lánglífari. Álfar èta og drekka og skemta sèr með samsætum, dansi og hljóðfæraslætti, en það er helzt um jólaleytið, og hafa þá opt sèst híbýli þeirra ljósum prýdd, en þó einnig endrarnær og heyrst ómurinn af saung þeirra og hljóðfærum.[2] Þá hafa þeir og bústaðaskipti eða halda fardaga. Álfar hafa búsmala og hafa opt menskir menn sèð hann, kýr og kindur, er þeir nytka, og er fènaður þeirra allur vænni og betri til mjólkur og frálags en annar fènaður. Þó hefir Purkeyar-Ólafur getið þess, að álfar hafi tvívegis haft hrút bóndans í Arney til ánna sinna, í öðru sinni með leyfi smalans, en í hitt sinnið numið hrútinn burt um veturinn, en skilað honum feitum og framgengnum um vorið. Matseld hafa þeir og alla, sem menskir menn, og opt hefir strokk-hljóð heyrst í klettum, er þar hefir verið geingið fyrir framan. Þeir stunda og slátt og alla vinnu líkömum sínum til viðurhalds, t. d. tóvinnu, sem Ólafur segir, því bæði hafi menn heyrt rokkhljóð í klettum og hólum, og að huldustúlka hafi hizt, er var að prjóna mórauðan sokk, svo hvorki sèu þeir kaldir eða soltnir. Álfar fara og til fiskifánga og hvalskurðar sem aðrir menn, og stunda veiðiskap bæði í sjó og vötnum. Hafa menn þókst heyra bæði áraglamm, mannamælgi, en ekki orðaskil, og eins og skip eða bátur væri settur upp eða ofan og jafnvel skip og báta á siglíngu eða undir árum á sjó og vötnum; en þegar af er litið, hefir alt horfið. Þegar menn heyra til álfa á veiðivötnum snemma á vorum, þykir það vita á góða silúngsveiði. Opt ber það við, að menn sjá eins og lognrákir á sjó, þó annarstaðar sè gráð á að sjá; segja menn, að það sèu kjalförin undan bátum huldumanna og þá sèu huldumenn að róa. Þeir fara og til berja, segir Ólafur, með mönnum. Það var almenn trú, að álfar væru tvennskonar, sumir góðir, en sumir illir. Góðu álfarnir voru kristnir og hèldu vel trú sína; þeir höfðu því kirkjur og klerka og alla helgisiði sem kristnir menn.[3] Dr. Maurer segir, að sèr hafi verið sýndur álfakirkjugarður hjá Hofstöðum í Þorskafirði, og að menn þykist endur og sinnum hafa heyrt, að grafið sè í honum, en einkum, þegar klakahögg

1. Sbr. „Álfkona býr með menskum manni.“
2. Sbr. „Álfakóngurinn í Seley“ o. fl.
3. Sjá sögu af Ljúflínga-Árna.

sè á vetrardag. Miklu víðar hafa menn og þókst heyra inn í klettum, og jafnvel klukknahljóð á helgidögum.

Þá áttu og álfar að hafa þíng og er enn til álfaþíng hjá Húsavík í Steingrímsfirði hæst uppi á kletta nybbu þverhnýptri. Finnur biskup getur þess, að 2 álfa-kóngar hafi verið á Íslandi; áttu þeir að fara til skiptis sitt árið hvor til Norvegs með nokkrum mönnum til að gjöra yfirkóngi þeirra þar grein fyrir, hvernig hèr væri ástatt.[1] Þó álfar sèu svo líkir mönnum í sumum greinum, sem nú hefir verið sagt, eru þeir þó að öðru leyti mjög ólíkir þeim, eða vanþekkíng vor á þeim veldur því, að svo virðist. Þeir eru einskonar andar, sem mennskir menn ekki fá sèð að óvilja þeirra, nema skygnir sèu, eða hafi þeir ryðið augnasmyrslum álfa á augu sèr. Þeir eru, eptir því sem sögur fara af, gæddir margfalt meiri hæfilegleikum til sálar og líkama, en menn, og því mega þeir vinna mönnum bæði gagn og tjón, eptir því sem þeir eru skapi farnir og kemur þeim þá vel að haldi, að þeir mega taka á sig hverja mynd, er þeim líkar. Sumir álfar áttu að vera ókristnir og harðgeðja,[2] og vinna af því mörgum manni tjón og gjöra margt til meins[3] En til allrar hamíngju megna þeir ekki eins mikið og hinir góðu,[4] og því er það heill mikil, að koma sèr vel við hina síðarnefndu og hjálpa þeim, ef þess er auðið, því þeir eru guðhræddir og góðhjartaðir,[5] og gjöra eingum ilt að fyrra bragði óáreyttir. En ef álfar reiðast þó góðir sèu legst hefnd þeirra svo þúngt á þann, er fyrir henni verður, að honum er lítillar líknar von þaðanaf. Að skaplyndi til eru álfar mjög alvarlegir og virðast hafa óbeit á öllum gáska og glettíngum,[6] og því hafa þeir opt reiðst illa, ef börn eða fullorðnir hafa orðið of nærgaungulir bústöðum þeirra og haft þar galsa í frammi, en þó sakar eingan, er það gjörir, ef hann veit ekki, að þar eru álfabýli, er hann aðhefst slíkt, eða þó geingið sè hjá slíkum stöðum með kurteisi og siðsemi. Eins þykkjast álfar, ef þeim virðist menn ásælast það, er þeir þykjast sjálfir eiga; vara þeir menn stundum við slíku, en hefna sín þá, ef eigi er aðgjört, eða og þeir láta hefndina þegar dynja yfir.[7]

---

1. Historia eccl. Isl. II, 368—369. bls.

2. Svo segir Purkeyar-Ólafur.

3. Það er sagt, að Álfa-Árni (Ljúflínga-Árni) hafi varað við að gánga í steininn mikla, sem er fyrir utan Hvamm í Hvítársíðu; því þar búi illir álfar og alheiðnir.

4. Sjá „Huldumaðurinn og Geirmundur hái."

5. Svo segir Purkeyar-Ólafur.

6. Ólafur í Purkey getur þess að eins einu sinni, að skygn maður hafi sèð huldupilt, hèr um bil 10 vetra, hoppa á öðrum fæti fyrir utan kletta nokkra og alt í kríng um annan mann, með gáska nokkrum, er var að slá hjá honum.

7. Sami getur þess, að konur hafi breitt nýþvegin faldtröf til þerris á skógarhrislu í bæarborginni hjá Arnarbæli fyrir vestan. Sá þá Bjarni lángafi Boga á Staðarfelli, er þá bjó í Arnarbæli, og var að gánga um gólf fyrir utan bæinn, að maður gekk að tröfunum, brá fingrinum aptur og aptur í munn sèr, og drap honum á tröfin. En er tröfin voru sókt, voru þau öll með smáblettum mórauðum, og urðu aldrei notuð til kirkju.

**a)** „Allar álfasögur, sem eg hefi náð í," segir Dr. Maurer, „hafa, eins og eðlilegt er, tillit til þeirra viðskipta, er huldufólk hefir hèr og þar átt við menn." En þær 2 sögur, sem næstar koma, eru eins frábrugðnar öðrum álfasögum í þessu, eins og hver þeirra um sig er ólík annari innbyrðis, hvað álfar eru í þeim ekki látnir hafa nein önnur mök við menn, en þau, að eptur „Huldumanna-Genesis," sem tekin er út úr sögunni af Ljúflíngs-Árna, eiga þeir ætt sína til Adams að rekja, sem aðrir menn, og kemur það þar heim, sem Þurkeyar-Ólafur segir, að þeir hafi tekið þátt í Adams syndastraffi.

**Huldumanna-„Genesis."** (Tekið eptir almennri sögn í Borgarfirði, eptir Álfa-Árna.) Einhverju sinni kom guð almáttugur til Adams og Evu. Fögnuðu þau honum vel, og sýndu honum alt, sem þau áttu innanstokks. Þau sýndu honum líka börnin sín, og þókti honum þau allefnileg. Hann spurði Evu, hvort þau ættu ekki fleiri börn, en þau, sem hún var búin að sýna honum. Hún sagði nei. En svo stóð á, að Eva hafði ekki verið búin að þvo sumum börnunum, og fyrirvarð sig því, að láta guð sjá þau, og skaut þeim fyrir þá sök undan. Þetta vissi guð, og segir: „Það sem á að vera hulið fyrir mèr, skal verða hulið fyrir mönnum." Þessi börn urðu nú mönnum ósjáanleg, og bjuggu í holtum og hæðum, hólum og steinum. Þaðan eru álfar komnir, en mennirnir eru komnir af þeim börnum Evu, sem hún sýndi guði. Mennskir menn geta aldrei sèð álfa, nema þeir vilji sjálfir; því þeir geta sèð menn og látið menn sjá sig.

**Uppruni álfa.** (Eptir sögn hr. gullsmiðs Jóh. J. Lund í Gullbríngum.) Einu sinni var maður á ferð. Hann viltist, og vissi ekki, hvað hann fór. Loksins kom hann að bæ, sem hann þekti ekki neitt. Þar barði hann á dyr. Kom kona roskin til dyra, og bauð honum inn. Hann þáði það. Voru húsakynni fremur góð á bænum og þokkaleg. Konan leiddi manninn í baðstofu, og voru þar tvær stúlkur úngar og fríðar fyrir. Ekki sá hann fleira fólk á bænum, en hina rosknu konu og stúlkurnar. Var honum vel tekið, gefinn matur og drykkur, og síðan fylgt til sængur. Maðurinn bað um, að fá að sofa hjá annari stúlkunni, og var það leyft. Leggjast þau nú út af. Vildi þá maðurinn snúa að henni, en fann þar eingan líkama, sem stúlkan var. Þreif hann þá til hennar, en ekkert varð milli handa hans, þó var stúlkan kyr hjá honum í rúminu, svo hann sá hana alt af. Hann spyr hana þá, hvernig þessu víki við. Hún segir, að hann skuli ekki undrast þetta; „því eg er líkamalaus andi", segir hún. „Þegar djöfullinn forðum gjörði uppreist á himni, þá var hann, og allir þeir, sem með honum börðust, rekinn út í hin yztu myrkur. Þeir sem horfðu á eptir honum voru og reknir burtu af himni. En þeir, sem hvorki voru með nè móti honum, og í hvorugan flokkinn geingu, voru reknir á jörðu niður, og skipað að búa í hólum, fjöllum og steinum, og eru þeir

kallaðir álfar eða huldumenn. Þeir geta ekki búið saman við aðra, en sjálfa sig. Þeir geta gjört bæði gott og ilt, og það mikið á hvern veginn, sem er. Þeir hafa eingan slíkan líkama, sem þèr, mennskir menn, en geta þó birzt yður, þegar þeir vilja. Eg er nú ein af þessum flokki hinna föllnu anda, og því er eingin von, að þú getir haft meira yndi af mèr, en orðið er.“ Maðurinn lèt sèr þetta lynda, og sagði síðan frá því, sem fyrir sig hefði borið.

**b)** Hvort sem menn hafa sýnt álfum greiðvikni að fyrra bragði, eða álfar hafa leitað til manna um það, er þeim hefir legið á, og gátu ekki feingið ella, en voru of vandir að virðíngu sinni til að taka það, nema með fullu lofi manna og leyfi, eða ef þeir hafa þurft manna eigin liðsinnis við, er ósjaldan hefir að borið, einkum til að hjálpa álfkonum í barnsnauð, hafa þeir opt umbunað slíkt ríkulega, og það þókt auðnuvegur, að verða vel við öllum nauðsynjum þeirra. En á hinn bóginn hafa þeir lagt á þá reiði sína, er skorizt hafa undan þess konar liðveizlu við þá.

**Sjómaðurinn á Götum.** (Austan úr Mýrdal.) Svo er sagt, að fyrrum hafi bóndi nokkur búið á Götum í Mýrdal, og reri hann um vertíðina, þar sem að fornu og nýu hefur verið tíðkað, nefnilega við Dýrhóla ey. Eitt sinn sem optar kom bóndi frá sjó; er þá að fara yfir mýrar. Hann kemur þar að í hálfdimmu, sem maður hafði hleypt niður hesti sínum og gat ekki náð honum upp hjálparlaust. Ekki þekti bóndi þennan mann, en hjálpar honum þó til að draga upp hestinn. Þegar það er búið, segir hinn ókunni maður: „Eg er nábúi þinn, því eg bý inn í Hvammsgili og kem nú frá sjó, eins og þú, en svo er eg fátækur, að eg get ekki borgað þèr þetta handtak, eins og maklegt væri, en þann greiða skaltu hafa hjá mèr, ef þú ferð mínum ráðum fram, að þú skalt aldrei þurfa að fara fýluferð til sjávar, en það er með því móti, að þú skalt aldrei fara til sjávar, fyrr en þú sèrð til mín, og mun það þá ekki bregðast, að þú munt jafnan róa, þegar þú ferð, ef þú bregður ekki af þessu. Bóndi þakkar honum þetta ráð. Liðu þá svo 3 ár að Gatnabóndinn fór ekki, nema þegar hann sá til nábúa síns og fór aldrei fýluferð og sat aldrei af sèr. En þegar 3 ár voru liðin, bar svo til einn dag, að strax um morguninn var blíðasta sjóveður, og fóru allir strax til sjávar, en bóndi sá ekki nábúa sinn fara, og beið hann þó leingi. Loksins stóðst bóndinn ekki leingur, heldur fór hann, án þess nábúi hans kæmi. En þegar bóndi kom til sjávar, voru öll skip róin. Þennan dag barst öllum skipunum á, en bónda sakaði ekki, því hann náði eingum um morguninn. En um nóttina dreymdi bónda nábúa sinn, og talaði hann þessum orðum við bónda: „Þú hafðir þó það gott af mèr, að þú fórst ekki í sjóinn í dag, en fyrir það, að þú fórst, án þess að þú sæir til mín, þá skaltu nú ekki þurfa að bíða mín hèr eptir, því eg ætla ekki að láta þig sjá til mín framar,

fyrst þú fylgðir ekki mínum ráðum.“ Enda sá bóndi aldrei til nágranna síns optar.

**Íngibjörg á Svelgsá og álfkonan.** (Eptir handriti Ólafs Sveinssonar í Purkey). Svo bar til kveld eitt um jólin á Svelgsá í Helgafellssveit, að þegar allir voru komnir inn, sá kona annars bóndans, er þar bjó, og hèt Íngibjörg, að kona ókunnug kom upp í lúkugatið, og stóð í stiganum. Lagði hún hendur sínar upp á loptsfjölina, og grúfði nokkuð fram á þær. Íngibjörg kallar upp, og spyr, hver hún sè; en hún þagði. Þegar hún hafði verið þar litla stund, þá tekur Íngibjörg ask sinn, er leifar hennar voru í; var það lítið eitt af súpu og 2 spaðbitar í henni; setur hún síðan askinn fram á fjölina hjá konunni, og rètti hann að henni. Þessi aðkomukona tók askinn, tekur þar úr annan bitann, og rèttir niður fyrir sig, eins og hún gæfi hann barni sínu, en hinn bitann át hún, og það, sem í askinum var, og setti hann svo á fjölina aptur, og fór síðan á burt. Þetta gekk í þrjú kvöld hvert eptir annað; rètti Íngibjörg ávalt askinn til hennar með spaði í; en ekkert töluðust þær við, hvorki í vöku nè svefni. En seinast, þá konan kom, skildi hún eptir á lopts skörinni hálfskák eina, sem hafa mátti á herðum; var hún rauðleit að lit, og svo tilbúin, að ei þóktist síra Tómas í Garpsdal eða aðrir, er hana sáu, hafa sèð aðra eins. Þetta gaf konuskepnan Íngibjörgu fyrir spaðbitana er hún gaf henni.

Nokkrum tíma þar á eptir voru börn Íngibjargar fram í bæardyrum. Þau sjá, hvar þrjú börn eru fyrir framan dyrnar, úti á hlaðinn, og eru þau að benda þeim út úr dyrunum með skrýtnum handa bendíngum. Fóru þá börnin út; en hin fóru undan með hinu sama handapati, og gintu börn Íngibjargar einlægt á eptir sèr, svo að þau voru komin lángt frá bænum, þegar Íngibjörg, móðir þeirra, sá til ferða þeirra. Hún kallaði á þau, og hljóp eptir þeim, og gat hún naumast náð þeim eða snúið þeim aptur; bar síðan ei framar á því.

**Álfkonan í Miðdal.** Á jóla nóttina kom einu sinni kona inn í baðstofu í Miðdal; hún gekk að kertaljósi, sem logaði á borðinu, og horfði á það leingi og alvarlega, uns einhver sagði við hana, að hún mætti eiga kertið og fara með það. Konan gjörði það og hvarf síðan.[1]

**Álfkonan þakkláta.** (Vestfirzk sögn.) Konn eina dreymdi kvennmann, er hún þóktist vita væri huldukona; bað draumkonan hana að gefa sèr mjólk fyrir barn sitt, 4 merkur með dægri í mánuð, og setja það á tiltekinn stað í bænum. Hèt konan henni því, og efndi það, er hún vaknaði; setti hún mjólkurask á hverju máli á vissan stað, og hvarf jafnan mjólkin úr honum, og svo gekk í mánuð. En er hann var liðinn, vitraðist konunni hinn sami kvennmaður og mælti, að hún hefði vel gjört og skyldi

1. Dr. Maurer Isl. Volkss. 6. bls. (eptir Sighvat hreppstjóra Árnason á Eyvindarholti).

hún nú eiga belti það, er hún fyndi í rúmi sínu, þegar hún vaknaði. Síðan hvarf konan henni og hún vaknaði; fann hún þá silfurbelti mjög vandað, eins og álfkonan hafði sagt henni.

**Borghildur álfkona.** (Eptir handritum Sæbjarnar Egilssonar á Klippstað og Jóns Bjarnasonar í Brúnavík í Múlasýslu.) Álfaborg heitir klettur mikill, líkur herborg, sem stendur fyrir miðjum botni Borgarfjarðar í Múlasýslu, á sléttum mýrum, og mun fjörðurinn draga nafn af borg þessari. Borgin er á að geta 6 til 8 faðma á hæð, en hèr um bil 24 faðma að ummáli; er brekka víðast að neðanverðu, en klettar fyrir ofan, og þó víða uppgaungur; melur er uppi á borginni og grastorfur.[1] Álfaborg var hún kölluð, af því það var alþýðu trú, að þar væri höfuðból æðstu álfa og höfðíngja huldufólks á austurlandi, er var geysi-margt. Því trúðu menn einnig, að kirkja þessara borgarmanna og sveitúnga þeirra væri fremst í þraungum dal, sem liggur fram af Borgarfirði, og Kækjudalur heitir, þar í steini, og líkist hann mjög húsi í lögun, og er nefndur Kirkjusteinn, og þóktust menn opt verða þess varir, að huldufólk reið þángað. Jökulsá heitir næsti bær fyrir framan Álfaborgina, þeim megin Fjarðarár. Einu sinni bjó þar bóndi, sem hèlt vinnukonu þá, sem Guðrún hèt. Einhvern sunnudag um sumar fóru allir þaðan til kirkju að Desjarmýri, nema vinnukonan; hún var ein heima. Húsmóðir hennar bað hana að skaka og hirða málnytu, þegar hún væri búin ad smala og mjalta fèð. Fór svo fólkið til kirkjunnar, en stúlkan að smala, mjólkaði svo ærnar og hleypti þeim ofan á eyrarnar, fyrir neðan bæinn. Eptir það fór hún að matselda, og þegar hún hafði lokið búverkum, kom hún út á hlað og skygndist þaðan um bæði eptir ánum og öðru, sem fyrir hana bar. Sèr hún þá margt fólk ríða fram eptir götunum, sem liggja neðan við túnið á Jökulsá. Þessir menn voru margir saman, og riðu allir í litklæðum á fjörugum hestum og fallegum. Hana furðar þetta því fremur, sem bæði var fólkið farið að utan, og svo það, hvað seint þetta fólk færi til kirkju. Allir fóru þeir fram hjá bænum, nema kona ein; hún reið upp túnið og heim á hlaðið.[2] Þessi kona var göfug ásýndum og sælleg, en hnígin á efra aldur. Hún heilsar stúlkunni og segir: „Gef mèr skekna mjólk að drekka, stúlka mín.“ Stúlkan hljóp inn, fylti trèkönnu[3] með áum og færði henni. En konan tók við og teygaði. Þegar hún gaf upp, spurði vinnukonan: „Hvað heitið þèr?“ En konan svaraði eingu og fór aptur að drekka, og drakk annan teyg. Spyr þá vinnukonan hana aptur að sömu spurníngu. En konan svarar enn

1. Lýsingin á Álfaborginni er tekin eptir handriti síra Sigurðar Gunnarssonar á Desjarmýri.

2. Jón Bjarnason segir, að alt fólkið hafi riðið um hlaðið, og fyrstur karlmaður á brúnskjóttum hesti, og hafi allir karlmennirnir tekið ofan höfuðföt sín þegjandi til að heilsa stúlkunni, sem stóð í bæardyrunum.

3. Tinkönnu, Jón Bjarnason.

leingu, og fer að drekka. Þegar hún hafði drukkið úr könnunni, og lagt lokið yfir, sèr stúlkan, að hún fer inn í barm sinn, og tekur þaðan fallegan lèreptsklút, leggur ofan á könnulokið og fær henni, og þakkar henni fyrir. Þá spyr stúlkan enn í þriðja sinn[1]: „Hvað heitið þèr?" „Borghildur heiti eg, forvitna mín," segir konan, sló hestinn svipuhögg, og reið úr hlaðinu á eptir fólkinu og náði því. En vinnukonan horfði á eptir því, og sá það seinast til þess, að það reið inn hjá gráum steini utan til í svo nefndum Kollutúngum; þær liggja fram til Kækjudals. Leið svo og beið, þángað til fólkið kom heim um kvöldið frá kirkju, þá sagði vinnukonan frá því, sem fyrir sig hefði borið um daginn, og sýndi fólkinu klútinn, sem henni var gefinn; var hann svo fallegur, að eingum þóktist slíkan sèð hafa, og er sagt hann hafi geingið milli höfðíngskvenna á landinu. En reiðfólk það, sem vinnukonan sá, átti að hafa verið huldufólk úr Álfaborginni, og ætlað til kirkju í Kirkjusteininn á Kækjudal.

**Álfkonan og áa-askurinn.** (Eptir handriti Ólafs Sveinssonar í Purkey.) Í Búðardal hjá Þorsteini sál. Pálssyni var kvennmaður nokkur að nafni Geríður; var hún prests eða prófastsdóttir austan undan Eyafjöllum; hún var ólygin og ráðvönd að allra þeirra vitund, er til hennar þektu. Hún sagði frá því, að þá hún var fyrir austan, hafi verið þjónustu stúlka nokkur, að mig minnir á Bergþórshvoli (svo sagði faðir minn sál. frá, og var hann í Búðardal hjá frænda sínum Þorsteini sál. Pálssyni, og heyrði Gerlði þessa segja frá). Þjónustu stúlka þessi hafði jafnan geingið, þá hún fór að þvo lín hjá mjög stórum steini eða klett, og þar opt hvíldir tekið og hreinsað burt frá klettinum hestagadd og þrekk. Einu sinni þá hún hafði með þvotta farið, og gekk hjá þessum kletti, heyrði hún, að í klettinum var verið að strokka, og gekk svo leið sína. Fór hún með þvotta sína að læknum, sem hún var vön að þvo í, en þá hún var búin að þvo, gekk hún aptur heimleiðis með þvottana, þó með lösnum burðum; því að henni hafði íllt orðið við lækinn, og komst svo undir klettinn, og settist þar niður. Þá hún var niður sest, sá hún að kona kom út úr klettinum, og hèlt á aski hvítum með rauðum gjörðum; hún gengur þángað, er stúlkan sat, og rèttir askinn að henni, og segir: „Taktu við að drekka; þú heldur jafnan hreinn í kríng um hús mitt og bæ." Stúlkan þorði eigi annað að gjöra, en taka við askinum og drekka; voru það þá volgar áir, er í honum var. Við það batnaði stúlkunni, og rètti aptur askinn að konunni þegjandi. Konan tók við, og fór inn í klettinn, en stúlkan heim óhindruð.

**Þórður á Þrastastöðum.** (Eyfirzk sögn.) Þórður hèt maður; hann bjó á Þrastastöðum á Höfðaströnd í Skagafirði. Hann þókti nokkuð undarlegur í skapi. Það var einn vetur, að hann fór að heiman, og

1. Mèr finnst viðkunnanlegra, að stúlkan hafi þrítekið forvitnisspurning sína, eins og Jón hefir, heldur en að eins spurt einu sinni, eins og Sæbjörn segir frá.

ætlaði í kaupstað, en drífa var svo mikil, að mönnum þókti óratandi. Hann bar vörupoka og geingur nú ofan mýrar, því ekki er lángt þaðan í Hofsós. þegar hann er skamt kominn, villist hann, heldur þó áfram til kvölds, þá þykist hann sjá búðir svo háar, að furðu gegndi; geingur hann þángað; er þar ljós í gluggum. Hann geingur að einum, sèr þar fólk inni og heyrir hljóðfærasaung og sèr dansað. Hann geingur nú að dyrum, og klappar uppá. Strax kemur fram í dyrnar maður á frakka og spyr hann, hvað hann vilji. þórður sagði sem var um villu sína og kveðst hann vilja fá sèr húsaskjól, ef þess væri kostur. Hinn kvað það til reiðu „og fylg þú mèr inn með vörupoka þinn. Skal eg á morgun verzla við þig, og mun þèr ekki verra þykja, en í Hofsós.“ þórður trúði varla sjálfum sèr og hèlt hann sig væri að dreyma. Nú leiðir frakkamaðurinn þórð í stofu þó hann væri ekki tígulega búinn; var þar margt fólk, kona, börn og hjú; var það alt skrautlega búið, sat við sanng og gleði. Frakkamaðurinn eða húsráðandinn mælti til konu sinnar lágt, en þó svo þórður heyrði: „Hèr er kominn maður, lúinn og viltur og þarf hressíngar við. Gjörðu honum eitthvað gott heillin mín.“ Hún kvað hann bágt eiga, stóð upp brátt, og sækir honum mat, bæði mikinn og góðan. En húsráðandinn kemur með flösku og staup tvö, skeinkir á, drekkur annað sjálfur, en biður þórð drekka hitt. Hann gjörir það. þykist hann ei smakkað hafa jafngott vín á æfi sinni. þar var skemtan hin mesta og leiddist þórði ekki, en kynlegt þókti honum æfintýri sitt. Fær hann nú hvert staupið að öðru; tekur hann að verða drukkinn. Síðan fèkk hann gott rúm, og svaf af um nóttina. Um morguninn fèkk hann líka mat og vín enn betra, en um kvöldið. Síðan geingur húsráðandi með honum út, og býður honum að höndla við sig. þórður þiggur það. Gánga þeir í búðina; er þar allskonar varníngur. þórður leggur inn vörur sínar; tók kaupmaður (rèttast nefndur) þær góðum helmíngi betur, en var vani til í Hofsós. þórður tók nú korn í poka sinn og lèrept og ýmislegt kram, sem hann þurfti; var það alt með helmíngi betra verði, en hann hafði vanizt, og er hann var búinn, gaf kaupmaður honum sjal handa konuuni og brauð handa börnunum. Sagði, að hann skyldi njóta þess, að hann hefði hjálpað syni sínum úr lífs háska. þórður hèlt það ekki verið hafa. Kaupmaður sagði það þó verið hafa. „þú varst einu sinni staddur undir þórðarhöfða með fleiri mönnum úngum. þið láguð eptir byr og ætluðuð fram í Drángey. þeir fóru að leika sèr að steinkasti og hæfu þar í klett, en sólskin var heitt; hafði sonur minn lagzt til hvíldar undir klettinn, því hann var lúinn og hafði vakað um nóttina. þú bannaðir mönnunum steinkastið og kvaðst það óþarfagaman. þeir hættu að vísu, en höfðu þig í skimpi fyrir tiktúrur þínar, og kváðu þig jafnan undarlegan verið hafa. En hefðir þú ekki þetta bannað, mundu þeir hafa drepið son minn.“ Að svo mæltu fór þórður að búa sig á stað; var þá bjart veður. Kvaddi nú þórður fólkið alt, en kaup-

maður gekk með honum á veg og bað hann síðan vel fara, og snýr heim síðan. Þórður heldur nú leiðar sinnar. En er hann leit við til kaupstaðarins, sá hann ekkert, nema Þórðarhöfðann skamt frá sèr; furðaði hann sig mjög og gekk nú heim, fann konu sína, sagði henni frá og sýndi henni varnínginn og fær henni sjalið. Hún gladdist við alt þetta og þakkaði manni sínum gjöfina. Varníngur Þórðar gekk víða til sýnis og hafði slíkur aldrei sèzt hèr á landi, og þó víðar væri lèitað. Aldrei sá Þórður kaupmanninn, nè nokkuð af því fólki síðan. En af varníngnum átti hann til sýnis alla sína æfi.

**Kaupamaðurinn.** (Eptir sögn skólapilta að norðan, 1845.) Einu sinni fór maður sunnan af Suðurnesjum norður í land í kaupavinnu. Hann fèkk ákaflega mikla þoku, þegar hann kom norður á heiðarnar, svo hann viltist. Gjörði þá hret og kulda. Lagðist nú maðurinn fyrir, og tjaldaði, þar sem hann var kominn. Tekur hann síðan upp nesti sitt og fer að borða. En á meðan hann er að því, kemur inn rakki mórauður í tjaldið, og er mjög hrakinn og sultarlegur. Sunnlendíngurinn undraðist, að þar skyldi koma til hans hundur, er hann átti eingra dýra von. Svo var rakkinn ljótur og undarlegur, að honum stóð stuggur af; ekki að síður gaf hann honum þó svo mikið af nesti sínu, sem hann vildi. Át hvolpurinn gráðuglega, og fór síðan burtu, og hvarf út í þokuna. Maðurinn skipti sèr ekki af þessu, en fór að sofa, þegar hann var búinn að borða, og hafði hnakkinn sinn undir höfðinu. Þegar hann var sofnaður, dreymdi hann, að kona kom inn í tjaldið. Hún var mikil vexti, og hnígin á efra aldur. Hún segir: „Eg þakka þèr, maður minn, fyrir hana dóttur mína, en ekki get eg launað þèr fyrir hana, sem skyldi. Þó vil eg, þú þiggir af mèr ljáspíkina þá arna, sem eg legg hèrna undir hnakkinn þinn. Eg vona, hún verði þèr að góðu gagni, og mun hún eins híta, hvað sem fyrir verður. Aldrei skaltu eldhera hana, því þá er hún ónýt, en brýna máttu hana, ef þèr þykir þess þurfa." Síðan hvarf konan burt. Þegar maðurinn vaknaði, sá hann að upp var lètt þokunni, og albjart. Sól var hátt á lopti. Varð þá manninum fyrst fyrir að taka hesta sína, og búast á stað. Tekur hann þá saman tjaldið, og leggur á hestana. En þegar hann tók upp hnakkinn sinn, sá hann þar undir ljá, svo sem hálfsleginn og allliðlegan, en þó ryðgaðan. Man hann þá eptir draumnum, og hirðir spíkina. Fer hann svo á braut, og geingur vel. Finnur hann bráðum veginn, og heldur hið skjótasta til hygða. En þegar hann kom norður, vildi einginn taka hann; því allir voru þá búnir að fá sèr nóg kaupafólk, og líka var þá nærri því liðin ein vika af slættinum. Hann heyrir þá sagt, að þar sè kona ein í sveitinni, sem eingan kaupamann hafi tekið. Hún var auðug af fè, og þókti hún margt kunna. Hún var ekki vön að taka kaupafólk, og byrjaði aldrei sláttinn, fyrr en viku og hálfum mánuði

á eptir öðrum, og þó var hún jafnan eins fljótt búin með tún, eins og aðrir. Þá sjaldan hún hafði tekið kaupamenn, hèlt hún þá ekki nema eina viku, og galt eingum kaup. Sunnlendíngnum var nú vísað til þessarar konu, og sagt frá siðum hennar. Og af því hann fèkk hvergi vinnu, fór hann til hennar, og bauðst að slá hjá henni. Hún tók því vel, og kvaðst mundi lofa honum að vera eina viku. „En ei geld eg þèr kaup," segir hún, „nema þú sláir svo mikið alla vikuna, að eg geti ekki rakað ljána upp á laugardaginn." Þetta þókti honum góður kostur, og fór nú að slá. Tók hann þá spíkina, álfkonunaut, og fannst honum hún bíta vel. Aldrei þurfti hann að brýna, og svona sló hann í samfleytta 5 daga. Þókti honum hèr gott að vera, og var konan góð við hann. Einu sinni varð honum geingið út í smiðju. Þar sá hann ógrynni af orfum og hrífum, og ljáabúnka stóran. Furðaði hann sig á þessu, og þókti konan ekki vera á hjarni með amboð. Á föstudagskvöldið fór hann að sofa, eins og hann var vanur. Dreymði hann þá um nóttina, að álfkonan, sú sem gaf honum ljáin, kom til hans, og sagði: „Mikil ljá er nú orðin hjá þèr, en ei mun konan, húsmóðir þín, verða leingi að skara henni saman, og þá rekur hún þig burt, ef hún getur náð þèr á morgun. Þú skalt því gánga í smiðjuna, ef þú heldur, að ljáin ætli að þrjóta, og taka svo mörg orf, sem þèr lízt, og binda ljái í þau, og bera þau út í teiginn hjá þèr, og reyna hvernig þá fer." Þegar álfkonan hafði þetta mælt, fór hún burt, en kaupamaðurinn vaknaði, og reis á fætur. Fór hann þá að slá. Um miðjan morgun kemur konan út, og hefir hún þá 5 hrífur með sèr. Hún segir: „Mikil er ljáin orðin, og meiri, en eg hugsaði." Lagði hún þá hrífurnar til og frá í teiginn, og fór að raka. Það sá kaupamaður, að mikið rakaði konan, en ei rökuðu hrífurnar minna, og sá hann þó eingan. Þegar leið fram að miðjum degi, sá hann, að ljáin ætlaði að þrjóta. Gekk hann þá í smiðjuna, tók þar orf nokkur, og batt í ljái. Síðan gekk hann út aptur á völlinn, og stráði orfunum til og frá með óslægjunni. Fóru þau þá öll að slá, og stækkaði þá bletturinn óðum. Gekk þetta allan daginn til kvölds, og þrant ekki ljáin. En þegar kvöld var komið, gekk konan heim, og tók hrífur sínar. Bað hún þá kaupamanninn koma heim líka, og bera með sèr orfin. Sagði hún, að hann kynni meira, en hún hefði hugsað, og skyldi hann njóta þess, og vera hjá sèr svo leingi, sem hann vildi. Varð hann svo hjá henni um sumarið, og kom þeim vel saman. Heyuðu þau vel, og fóru þó í hægðum sínum. Um haustið galt hún honum kaup geysimikið, og fór hann suður með það. Sumarið eptir var hann og hjá henni, og svo mörg sumur, sem hann fór í kaupavinnu. Seinna meir reisti hann bú á Suðurnesjum, og þókti jafnan hinn bezti dreingur. Hann var bezti sjómaður, og mesti dugandismaður til hvers, sem hann gekk. Hann gekk ætíð einn að slætti, og hafði aldrei annan ljá, en spíkina, álfkonunaut. Þó var hann jafnan eins fljótur og aðrir að slá tún sitt, en ei hafði hann

annað gras, en túnið, eins og þar er tíðast. Eitt sumar bar svo við, að hann var róinn til fiskjar. Þá kom nábúi hans til konu hans, og bað hana, að ljá sèr ljá til að slá með; því hann sagðist hafa brotið spíkina sína, og vera ráðalaus. Konan fór að leita hjá manni sínnm, og fann spíkina góðu, en eingan ljá annan. Hún ljær bóndanum spíkina, en tekur honum vara fyrir að eldbera hana; því það sagði hún, að maðurinn sinn gjörði aldrei. Hann lofaði því, og fór heim. Batt hann spíkina í orfið, og fór að slá, en náði eingu hári af með henni. Reiddist þá bóndi, og brýndi spíkina, en það dugði ekki. Fór hann þá í smiðju, og ætlaði að deingja spíkina; því hann hugsaði, að ekki væri mikið í húfi, þó hann eldbæri spík þessa. En undir eins og hún kom í eldinn, rann hún niður, sem vax, og varð að gjalli einu. Fór þá bóndi, og sagði konnnni hvar komið var. Varð hún þá hrædd; því hún vissi, að þetta mnndi manni sínum líka stórilla, þegar hann vissi það. Það varð og. Þó er þess ei getið, að hann lèti það leingi á sig fá, en samt sló hann þá konu sína, fyrir tiltækið, og bar það ekki við hvorki fyrr nè síðar.

**Grímshóll.** (Eptir handriti Guðmundar í Gegnishólum.) Þess er getið um Norðlínga að þá er þeir fóru suður í verið, gjörði bil á þá nálægt Grímshóli á Stapanum. Einn þeirra var heldur hjárænulegur og drógst hann aptur úr hjá hólnum og hvarf þar fèlögum sínum. En er hann var einn orðinn, kom maður að honum og bað hann að róa hjá sèr. Norðlíngurinn varð feginn boðinu og fór með hinum ókunna manni, og reri hjá honum um vertíðina. En um lokin, þegar Norðlendíngar fóru heim, fundu þeir hann í sama stað á leið sinni og þeir skildu áður við hann. Var hann þar þá með færur sínar, og hafði ekki leyst þær upp; því ekki hafði hann lagt sèr neitt til um vertíðina. Landar hans gjörðu nú heldur enn ekki gys að honum, að hann skyldi hafa setið þarna alla vertíðina, og spurðu, hvar hann hefði verið. Hann sagðist hafa róið, eins og þeir, og, ef til vill, ekki hafa aflað minna en hver annar. Tekur hann þá upp sjóvetlíng fullan af peníngum og segir að þarna sè hluturinn sinn. Blæddi þeim þá mjög í augum er þeir sjá það, og sýndist aflinn ei alllítill. Fóru þeir síðan allir norður. Maðurinn reri suður margar vertíðir eptir þetta, og fór æ á sömu leið og í fyrsta skipti. En aldrei sagði hann neitt greinilega frá, hvar hann var, og vissu menn það eitt um hann, er allir sáu, að hann reri einhverstaðar þar, sem hann aflaði vel.

**Sýslumannskonan á Bustarfelli.** (Eptir handriti Jóns alþíngismanns Sigurðssonar á Gautlöndum.) Að Bustarfelli í Vopnafirði var einu sinni sýslumaður, ríkur og stórættaður. Hann var kvongaður og átti rausnarbú mikið. Sá var siður á Bustarfelli, að fólk lagðist til svefns á vetrum, aður en ljós var kveykt í baðstofu, og rèð konan sýslumannsins því altènd, hvað leingi var sofið. Kveykti hún sjálf ljós og vakti fólkið. Það var einhverju sinni, að

konan vaknar ekki, sem hún var vön, og fer vinnufólkið á fætur og kveykir. Vill ekki sýslumaður láta vekja hana; segir hann, að hana muni dreyma, og skuli hún njóta draumsins. Og er lángt er liðið á nótt, vaknar hún loksins og varpar allmæðilega öndinni. Segir hún þá draum sinn, að henni þykir maður hafa komið að sèr og beðið sig uppstanda og fara með sèr. Hún gjörir það, og fer hann með hana nokkuð frá bænum og að steini einum stórum, sem stóð í landeign Bustarfells og hún þekti. Maðurinn geingur þrisvar rèttsælis í kríng um steininn; og sýnist þá konunni hann verða að litlu, en skrautlegu húsi. Leiðir hann svo konuna inn í húsið, og er þar alt fagurlega umbúið. Þar sèr hún, að kona liggur á gólfi, og er mjög þúnglega haldin. Kerlíng ein var og í húsinu og ekki fleira manna. Maðurinn bar þá upp erindið við konu sýslumannsins og biður hana bjarga konu sinni, sem liggi á gólfi, og muni deya, nema hún njóti að fulltíngis mennskra manna. Sýslumannskonan geingur þá að sængur konunni og segir: „Jesús góður hjálpi þèr." Við þessi orð brá svo, að konan verður bráðum lèttari, og aflar það þeim öllum hinnar mestu gleði. Það sèr sýslumannskonan, að eptir það hún nefndi Jesú nafn skreiðist kerlíngin ofan og sópar sem vandlegast innan alt húsið, og ímyndar sýslumannskonan sèr, að kerlíngu hafi lítið þókt hreinkast híbýlin við það nafn. Nú er tekið til að lauga barnið og skal sýslumannskonan vera fyrir þeim starfa. Fær sængurkonan henni bauk með smyrslum í, sem hún á að bera í augu barnsins, um leið og hún laugar. Þetta gjörir sýslumannskonan, og ætlar, að smyrsli þessi muni heilnæm. Dettur henni í hug að bera þau í augu sèr, en þorir það þó ekki fyrir fólkinu. Þó getur hún með lagi og svo einginn sá, brugðið fíngurgómnum í hægra auga sitt. Er svo lokið laugsminni, og býst sýslumannskonan til heimferða. En að skilnaði gefur sængurkonan henni dúk mjög dýran; var hann úr guðvef og allur gullofinn. Geingur svo maðurinn með sýslumannskonunni út úr húsinn, og er þau koma út, geingur hann þrisvar rángsælis í kríng um húsið, og verður það þá aptur að steini. Fylgir hann konunni síðan aptur heim að Bustarfelli, og skilur þar við hana. Tekur nú sýslumannskonan dúkinn undan höfði sèr, og sýnir til jarteikna um sögu sína. Þóktist einginn slíkan grip sèð hafa af samri tegund, og er svo sagt, að dúkur þessi sè enn hafður að altarisklæði við kirkju þá, sem Bustarfell á kirkjusókn að.

En frá sýslumannskonunni er það að segja, að hún fann þá breytíngu á hægra auga sínu, sem hún hafði borið smyrslin í, að nú sá hún með því alt, sem skeði bæði í jörðu og á; er svo sagt, að nálægt Bustarfelli sèu klappir miklar og björg stór. Sá nú sýslumannskonan, að þetta var raunar öðruvísi, en sýndist, og að þetta voru alt bæir, hús og þorp stór; var það alt fult af fólki, sem hafði alt atferli, sem annað fólk, sló og rakaði og yrkti tún og eingjar. Það átti naut, sauði og hesta, sem

alt gekk innan um annan búsmala og eins fólkið. Það gekk með öðru fólki og vann það, sem því sýndist. En einginn sá það, nema sýslumannskonan; tok hún fyrir því, að þetta fólk var miklu verkhyggnara og veðurglöggara, en annað fólk; breiddi það opt hey, þegar ekki var þerrir, og stundum breiddi það ekki, þó á væri brakandi þerrir. Tók sýslumannskonan eptir því, að þá kom ætíð þerrir, þegar það breiddi, en rigníng, ef það breiddi ekki, en aðrir breiddu, og svo var um annan verknað. Tók sýslumannskonan mjög eptir því búnað og verklag, og þókti henni sèr það alt að góðu verða. Liðu svo fram nokkrir tímar.

Það var einhverjusinni, að sýslumannskonan kemur í kaupstað. Og er hún kemur í krambúð, sèr hún, að kona sú, er hún sat yfir forðum, er fyrir innan búðarborðið. Hefir hún tínt saman og hlaðið í fáng sèr ýmislegu, sem fágætast var af kramvöru hjá kaupmönnum. Það sèr sýslumannskonan, að einginn verður var við konu þessa, nema hún. Hún geingur því að borðinu, og segir mjög vingjarnlega: „Og við sjáumst þá hèrna aptur.“ Huldukonan snýr sèr við mjög reiðulega og hrækir í hægra angað á sýslumannskonunni, án þess að segja nokkuð. En svo brá við, að sýslumannskonan sá ekki huldukonuna upp frá því, og ekkert framar, en hún hafði sèð, áður en hún bar smyrslin í hægra augað á sèr.

**Álfkona í barnsnauð.** (Eptir handriti Ólafs Sveinssonar í Purkey.) Fyrir austan, sagt er, að það hafi verið í Odda, sókti stúlka þvotta á kirkjugarð um kvöld; en þá hún var að taka þvottana, kom til hennar maður, er hún eigi þekti. Hann tekur í hönd hennar, og biður hana að koma með sèr, og segir hann, að hana skuli ekkert saka, „en viljirðu það eigi gjöra,“ segir hann, „þá muntu fá að reyna umbreytíngu á gæfu þinni.“ Stúlkan þorði ekki annað, en gjöra eptir beiðni hans, og geingur með honum, þar til þau koma að húsa-bæ, að henni sýndist, þó það reyndar væri hóll; síðan ganga þau að dyrum bæarins; hann leiðir hana inn, og eptir laungum gaungum, þángað til þau komu í baðstofu. Dimt var að sjá fyrir hennar augum í öðrum enda baðstofunnar, en ljós brann í hinum; þar sá hún, að kona lá á gólfi, og hafði hljóð nokkur, og gat ei fætt barnið. Konu gamla sá hann hjá henni mjög ángurbitna. Maðurinn, er leiddi hana þángað, mælti til hennar: „Gakktu upp, og hjálpaðu konu minni, svo hún fæði barnið.“ Stúlkan gekk upp og þar að, er konan lá, en gamla konan fór á burt; en hin aðkomna stúlka fór höndum um konuna, er á gólfi lá, eptir því er við átti, og hún vissi, að við þurfti; greiddist þá fljótt um fyrir konunni, svo að barnið fæddist þegar. En þegar barnið var fætt, kom faðir barnsins með glas, og sagði henni að bera úr því í augu barnsins, en varast að láta það koma í sín augu. Hún gjörði svo, að hún bar úr glasinu í augu barnsins; en þá það var búið, strauk hún fíngrinum um annað auga sitt. Sá hún þá með því auganu,

að margt fólk var í hinum enda baðstofunnar. Maðurinn tók af henni glasið, og gekk með það á burt; kom síðan aptur og þakkaði henni fyrir hjálpina, og hið sama gjörði konan; sögðu þau henni, að hún mundi verða gæfu-kvennmaður. Hann gefur henni þá klæði í svuntu, er hún þóktist aldrei slíkt sèð hafa; síðan tekur hann í hönd hennar, og leiðir hana á burt, þángað til hann kom með hana að kirkjugarðinum, þaðan sem hann leiddi hana, og geingur síðan á burt, en hún fer heim til sín. Á þessum komandi vetri andaðist kona prestsins, er þar var, en stúlka þessi varð aptur kona hans. Opt sagðist hún sjá huldufólk; það var og, að þá hún sá það saman taka heyflekki sína, lèt hún taka saman hey hjá sèr, enda var þá skamt til vætu, þótt bjart lopt væri. Það var einnu sinni, að hún fór í kaupstað með prestinum, manni sínum. Þá hún var í búðinni, sá hún þar hinn fyrnefndan álfamann, að hann bar varníng út frá huldukaupmanni, er þar var. Þá varð henni það á, að hún heilsaði honum og sagði: „Sæll vertu kunníngi, eg þakka þèr fyrir síðast." En hann gekk þá að henni, brá fingri í munn sèr, og dró um auga hennar; en við það brá henni svo, að hún sá eigi þaðan í frá huldufólk, eður athafnir þess.

**Konan á Skúmsstöðum.** (Eptir handriti Jóns prests Þórðarsonar nú á Auðkúlu.) Á Skúmsstöðum í Landeyum í Rángárvalla sýslu bjó forðum bóndi; hann átti konu ásjálega og mörg börn. Einhverju sinni um vetrartíma í rökkri var hann úti í heygarði, en kona hans inni við matseld. Kemur þá til hennar maður, er hún hafði aldrei fyrr sèð, og biður hana að hjálpa konu sinni, sem sè í barnsnauð. Hún telst undan því með öllu móti, og segist aldrei hafa verið hjá konu. Hann leitar því fastar á hana með þetta, þar til konan játar, að hún skuli með honum fara. Gánga þau svo, þángað til þau koma að háum hól. Lýkst þá hóllinn upp og geingur maðurinn þar inn á undan; en konan leggur vetlínga sína á hólinn fyrir ofan dyrnar.[1]) Maðurinn sagði, hún skyldi vera óhrædd, og gánga þau síðan inn í hólinn. Þegar þau eru inn komin, sèr konan þar ekkert, nema eitt rúm og konu í; hún hafði jóðsótt þúnga og hríðir miklar. Konan fer nú höndum um hana, og hægist henni við það, svo að hún elur barnið stuttu eptir. Konan tók við barninu, og veitir því alla umbúð og aðhjúkrun, sem venja er til. Að því búnu lýkur bóndi upp kistli einum, tekur þar úr stein og biður ljósuna að nudda honum um augu barnsins. Konan skilur eigi í, hvað þetta á að þýða, og hugsar með sèr, það geti þó varla orðið sèr að meini, þótt hún nuddi steininum um annað augað í sèr, og gerir hún svo, svo að bóndi varð þess eigi vísari. Sèr hún þá fólk á gángi um hólinn og sumt sitja að vinnu, en lætur eigi neitt á því bera. Síðan fylgir huldumaðurinn henni heim til sín og þakkar henni komuna.

1. Það er ráð til þess, að maður eigi útkvæmt úr álfabygðum, ef maður skilur eitthvað eptir af sèr úti fyrir, er inn er geingið.

Sumarið eptir fór bóndinn á Skúmsstöðum út á Eyrarbakka með vörur sínar, og var kona hans í för með honum. Hann verzlaði vörum sínum á Eyrarbakka, heldur síðan heim á leið, og liggur við þjórsá hjá Egilsstöðum. Um kvöldið, er lestin var lögzt, og allir komnir til náða, fèkk kona bónda ekki sofnað, og er hún hefir vakað um hríð, sprettir hún tjaldskörinni og lítur út. Sèr hún þá með hinu skygna auga mann koma að mjölsekkjunum, er lestamenn áttu, leysa frá þeim og taka sinn hnefa úr hverjum, og láta í belg, er hann bar undir hendinni. Og er hann hafði þvínær fylt belginn, mælti konan til hans: „því gerir þú þetta?“ Hann lítur upp á hana stórum augum og mælti: „því sèr þú mig?“ Blæs hann þá á hana, svo að hún fann glögglega. Sá hún hann þá eigi framar, og eingan huldumann upp frá því.

**Yfirsetukonan.** (Austan úr Mýrdal.) Litlu fyrir síðustu aldamót bjó í Landeyjum á bæ þeim, er Kúhóll heitir, bóndi sá, er Sigurður hèt; hann átti konu þá, er kallaðist Signý; þessi kona var yfirsetukona þar í sókninni. Svo bar til eitthvert sumar, að Sigurður bóndi átti bæði ílt og lítið hey. Svo bar til eitt kvöld öndverðan vetur, að þau hjón voru nýháttuð; þókti konunni sem maður kæmi að rúmstokknum. þessi maður biður hana koma fljótt á fætur, en talar þó fremur lágt. Konan spyr, hvað hún eigi að vilja. Komumaður svarar, hún eigi að hjálpa konu sinni, sem liggi á barnssæng og sè harðlega haldin, en vegurinn sè ekki lángur og muni hún verða skamma stund. Konan kveðst þá verða að vekja Sigurð, svo hann viti af burtferð sinni. Komumaður kvað þess ei þurfa, því vegurinn sè máske skemmri, en hún ætli. Síðan býst konan með manninum, og tekur skæri, sem hún var vön að hafa, þegar hún fór í þesskonar ferðir. þau gánga síðan út, en skamt úti í túninu var hóll nokkur, þar að stefnir maðurinn. þegar þángað er komið, opnast hóllinn og þar geingur hinn ókunni maður inn og konan eptir honum. þar eru þokkaleg hús og þar liggur kona á sæng, mjög hart haldin. Börn eru þar 2 nokkuð stálpuð. Signý fer nú að hjálpa konunni og geingur það vel og fljótt. þegar barnið er komið, biður Signý bónda að hita laugarvatn. En sængurkonan kvað þess ei þurfa, heldur skyldi hún fara eins með barnið, eins og hún færi með kálfana hjá kúnum sínum; lèt Signý þá barnið undir eins í faðm móður sinnar, og sagði þá húsbóndinn, að hún þyrfti nú að flýta sèr heim, áður en Sigurður bóndi hennar vaknaði. Síðan fylgði maðurinn henni út og heim að bænum. En á leiðinni sagði hann við Signýu: „Eg get fátæktar vegna ekki borgað þèr ómakið, en þó skal eg sjá svo um, að þó þú eigir bæði slæmt og lítið hey, þá munu kýrnar þínar hæði þrífast sæmilega, og mjólka ekki verr, en vant er.“ Síðan skildu þau, fór konan inn og háttaði hjá bónda sínum. Bóndi vaknaði og spurði þá konu sína, hvert hún hefði farið. En hún kveðst hvergi hafa farið. Bóndi segir, að hún

hafi ekki verið í rúminu nokkra stund, og þartil sèu skórnir hennar snjóugir og biður hana satt segja. Hún synjar, að hún hafi nokkuð farið, en dreymt hafi sig draum og segir, hvað fyrir sig hafi borið. Bóndi trúir ekki þessu og biður hana að ljúga ekki að sèr. Þá segir Signý, að hún minnist þess, að þegar hún skildi á milli í svefninum, þá hafi hún stúngið skærunum blóðugum í vasa sinn, og muni þau bera vitni, hvort hún hafi nokkuð farið. Síðan leitar hún í vasa sínum og þar finnur hún blóðug skærin; trúði þá bóndi sögu hennar. En svo hefur Signý sagt frá, að aldrei hafi hún feingið jafnmikinn og góðan ávöxt af kúnum sínum, eins og þann vetur. Segja þeir svo frá, sem þektu Signýju, að hún hafi verið fámælt og siðsöm, og þykir því víst, að saga hennar sè sönn.

**Álfkonan í Ásgarðsstapa.** (Eptir handriti síra Páls Jónssonar nú á Völlum í Svarfaðardal.) Í Hvammssveit í Dalasýslu er bær sá, er Ásgarður heitir. Stendur hann skamt frá sjó undir fjallshlíð einni fagurri. Með sjónum liggur grund ein, slètt og fögur. Fyrir ofan grundina er flói mikill, og liggur hann upp undir bæinn í Ásgarði. Upp úr miðjum flóanum stendur stapi mikill, og er hann kallaður Ásgarðsstapi. Það var gamalla manna mál, að þar byggi álfafólk, enda þóktust menn opt verða varir við það. Einhvern tíma bjó í Ásgarði bóndi nokkur, úngur að aldri og atgjörvismaður hinn mesti. Hann átti únga konu; var hún kvennskörúngur mikill og fríð sýnum. Á aðfángadagskvöld jóla var hún eitt sinn einsaman frammi í búri, og skar niður hángikjöt, sem hún ætlaði að skamta heimilisfólkinu, sem enn er títt í sveitum um það leyti ársins. Meðan hún var að þessu, kom til hennar ókunnugur maður, tekur í hönd hennar og leiðir hana út, og alla leið ofan að Ásgarðsstapa. Stapinn var opinn, og geingu þau þar inn. Kona lá þar á gólfi og var þúngt haldin. Hinn ókunni maður leiðir konuna að rúmi hennar og mælti: „þetta er konan mín, og liggur hún í barnsnauð; láttu sjá og reyndu til að hjálpa henni.“ Konan fer um hana höndum og innan stundar verður hún lèttari. Þegar barnið var fætt, laugar konan það, og reifar síðan. Fær huldukonan henni þá stein, svartan að lit, og býður henni að strjúka honum um augu barnsins. Hún gjörir svo, en bregður honum um leið á annað auga sitt, svo ekki bar á. Henni þykir þá undarlega viðbregða; því nú sèr hún með því auganu alla hluti í jörð og á, og ekki síður anda en menn. Að því búnu tekur álfamaðurinn í hönd henni, og leiðir hana upp undir Ásgarðs tún. Að skilnaði þakkar hann henni liðsinni sitt með mörgum fögrum orðum, og biður hana, að hann megi vitja hennar optar, ef sèr liggi á, og segir henni, að hún skuli fara snemma á fætur morguninn eptir, og muni hún þá finna kistil á bæarkampinum, í honum muni vera kvennbúníngur, sem hún skuli eiga, og vera í á jóladaginn eða á nýársdag, hvorn daginn sem messað verði í Ásgarði. Að svo mæltu skilja þau.

Konan kemur nú heim, og lætur ekki á neinu bera; rís hún úr rekkju um morguninn, áður en nokkur vaknar; var þá kistill á bæarkampinum og í honum kvennfatnaður, skrautlegur mjög, svo að hún hafði eingan slíkan sèð. Um daginn var messað í Ásgarði, og varð öllum starsýnt á skrúða þann hinn fagra, sem hún var í.

Í samfleytt 10 ár eptir þetta hvarf hún á hverju ári, hèr um bil hálft dægur, og stundum heilt, og vissi einginn, hvað af henni varð. Bóndi gekk opt á hana, og bað hana að segja sèr, hvert hún færi; en þess var ekki kostur, hún sagðist eingum segja það. Svo bar til eina nótt, að húskarl bónda í Ásgarði gat ekki sofið. Hann heyrir þá, að komið er á glugga þann, sem var yfir hjónarúminu, kallað til konunnar og hún beðin að koma skjótt; því nú sè konan sín lögst á gólf, og segi sèr þúngt hugur um. Konan bregður við skjótt, klæðist hljóðlega, og fer svo fram úr baðstofunni. Bóndi saknar hennar um morguninn og verður hverft við. Allir klæðast skjótt, en þegar þeir koma út, sjá þeir, hvar hún kemur gángandi neðan úr flóa. Þegar hún kemur heim, er hún grátin mjög. Hún segir þá upp alla söguna frá því fyrsta, að hún hafi á hverju ári verið sókt til konunnar í stapanum, en nú hafi hún dáið af barnsförum.

Svo bar til nokkrum árum síðar, að kona þessi var stödd vestur í Stykkishólmi; var þar þá kaupstefna fjölmenn. Hún þekkir þar álfamanninn úr Ásgarðsstapa. Verður hún þá of bráð á sèr og segir: „þú ert þá hèrna.“ Hann geingur þegjandi að henni, og rekur fíngur sinn í auga hennar hið skygna, er hún sá alt með, og frá þeirri stundu varð hún blind á því, og iðraði mjög síðan ógætni sinnar. En auðnukona hin mesta var hún alla æfi.

**Skapti læknir Sæmundsson.** Skapti hèt maður; hann var Sæmundsson; Guðríður hèt móðir hans; þau bjuggu í Bóndhól á Mýrum, er þessi saga gjörðist. Skapti var á únga aldri, og var hann hafður til smala á sumrum og annars, þegar veður var gott. Það var eitt vor, er hann var 7—9 vetra, að hann var látinn smala lambám, er stíað var; er það vani í sveitum, að fara snemma á stekkinn á morgnana, til að mjólka ærnar, og hleypa lömbunum úr stíunni. Skapti var árrisull mjög og fór á fætur á morgnana til þess, en fèkk aptur hjá foreldrum sinum leyfi til að leggja sig fyrir, er hann kom af stekknum, meðan móðir hans var frammi við matseld. Einn morgun var það, sem optar, að hann lagði sig fyrir í öllum fötum, en tók af sèr skóna, er hann kom af stekknum, en móðir hans var frammi við; þetta var milli miðsmorguns og dagmála. Litlu síðar sá móðir hans, að hann gekk fyrir búrdyrnar, fram bæargaungin; hugði hún, að hann mundi ekki hafa getað sofnað, og hefði farið eitthvað út. Hún veitti því svo ekki frekari eptirtekt. Þegar býsna tími var liðinn, verður hún þess vör, að hann geingur aptur inn í baðstofuna, og þókti henni

honum hafa dvalizt vonum leingur úti; gaf hún sig ekki að því, fyrr en hún fer alfarið inn í baðstofuna, og sefur Skapti þá, og liggja skórnir hans, eins og hún átti von á, fyrir framan rúmstokkinn, en hann hafði lagt hægri hönd sína ofan á fötin, og var storkin blóðrák á skakk yfir alla efstu kögglana á höndinni. Hún gjörir sèr ekkert far um það meira, er hún sá, að blóðið var storkið. Þegar hann vaknar, spyr hún hann, hvernig standi á blóðinu á hendinni á honum, eða hvort hann hefði meitt sig. Hann kvað nei við því, og sagðist ekkert vita til þess, en þá varð hann og þess var, að höndin var öll blóðstorkin innan. En með því Skapti var snemma skynsamur piltur, sagði hann, er hann hafði setið þegjandi um stund: „Vera má, að blóð þetta standi í einhverju samhandi við draum minn áðan.“ Segir hann þá frá því, að sèr hafi þókt heldur öldruð kona koma til sín í svefninum, með skaut á höfði, og biðja sig að gánga með sèr. Hann kvaðst hafa gjört það, og er þau voru komin skamt úr túni á Böndhól, hafi orðið fyrir þeim húsabær lítill, er hann hefði ekki þekt; þar hefði konan beðið hann að gánga inn, því hún ætlaði að biðja hann að hjálpa dóttur sinni, sem lægi í barnsnauð. Skapti gekk inn með henni og kom í baðstofu; þar var pallur í báðum endum, og 3 rúm á öðrum pallinum en eitt á öðrum. Í því rúmi lá stúlka og hljóðaði við. Þegar þángað er komið, segist pilturinn ekkert kunna til slíkra hluta, því hann sè barn. Konan kvað hann mundi lítils við þurfa. Tekur hún svo hægri hönd Skapta, og leggur hana á líf stúlkunnar. Greiðist svo skjótt hagur hennar, að hún fæddi barnið þegar. Síðan fylgir hin aldraða kona Skapta út og þakkar honum hjálp sína með mörgum fögrum orðum, en kvaðst vera of fátæk, til að launa honum hana, sem vert væri. „En það læt eg um mælt,“ segir hún, „að þèr skulu jafnan vel heppnast lækníngar.“ Eptir það hvarf hún honum sjónum og bær hennar. Þóktust menn þá skilja, hvernig blóðið var komið á hönd dreingsins, og að þetta hefði verið álfkona. Ummæli álfkonunnar þóktu rætast, því jafnan var Skapti álitinn heppinn læknir, þegar hann eltist, og ekki var hans svo vitjað til nokkurrar sængurkonu, að hann gæti ekki hjálpað. Skapti hafði fjóra um tvítugt, er hann kom til Reykjavíkur, og var hann þar síðan til dauðadags.[1]

**Álfkona fæðir í híbýlum manna.** (Eptir handriti síra Jóns Þórðarsonar nú á Auðkúlu.) Í þá tíð, sem Grímur (Grímólfur) prestur Bersason var ritari hjá Jóni Arnórssyni, er var settur til aðstoðar Hans Wium, sýslumanni í Mið-og Suður-Múlasýslu (1769—1778), var það eitt kvöld í skammdeginu, að Grímur sat í rökkrinu niðri í herbergi sínu. Kona

1. Skapti, sonur hans, sem og er heppinn læknir og hefir mikið álit á sèr, hefir sagt frá sögu þessari, eptir því sem amma hans hafði sagt honum úngum. Sbr. Dr. Maurers Isl. Volkss. 7. bls., sjá og **laeknishendur** í Sigurdrífumálum 4. vísu og **laeknisment** sem guðleg náðargjöf, Biskupasögur, I, 639—640. bls.

Jóns, er hèt Guðrún Skúladóttir, var vön að leggja sig fyrir í rökkrinn í þessu sama herbergi, og ætlaði hún þetta sama kvöld að gjöra eins, og geingur inn í herbergið. En er hún vill gánga að rúminu, varnar Grímur henni, og biður hana að bíða við, og gjörir hún svo, en verður þó eigi neins vör. Að litlli stundu liðinni segir Grímur að koma með ljós, og var það gjört, því hann kvað einhvern vott vegsummerkja sjást mundu. Þegar ljósið kemur, lýsir hann í rúmið, og sjást þar þá þrír blóðdropar. Segist hann þá sèð hafa konu koma inn í herbergið, og leiða aðra við hönd sèr, og hefði hún lagzt upp í rúmið, og alið þar barn, og þegar húsfreya hefði komið inn, hefði staðið á kollhríðinni, og hefðu þetta verið tvær huldukonur.

**Jón Árnason og huldukonurnar.** (Eptir handriti Jóns alþingismanns á Gautlöndum.) Um miðju næstliðinnar aldur var sá maður uppi, er Jón hèt og var Árnason; hann var úngur og ógiptur, er þessi saga gjörðist, og þá til heimilis hjá foreldrum sínum, sem bjuggu í Bárðardal; er svo sagt, að Jón væri eptirtektasamur maður og skilríkur. Það var einhverju sinni, að Jón fór, ásamt fleiri mönnum, að grafa og flytja brennistein úr Fremrinámum, sem liggja í landsuður frá Mývötnum. Næsti áfángastaður við Fremrináma heitir á Heilagsdal, og er þar jafnan áð, þegar komið er úr námunum. Segir ekki af ferð Jóns og þeirra fèlaga, fyrr en þeir eru búnir að afljúka störfum sínum í námunum, og komnir til baka aptur á Heilagsdal. Þar á þeir hestum sínum og leggjast til svefns. En er þeir eru sofnaðir, dreymir Jón, að kona kemur að honum, mikil vexti og bláklædd. Hún biður hann upp standa og fara með sèr, og það gjörir hann. En er þau höfðu farið um hríð, hugsar Jón með sèr, að þetta sè eitthvað ekki einleikið, og betra sè að snúa aptur, en að verr fari, og ætlar Jón að snúa aptur. En konan biður hann með mörgum fögrum orðum að fylgjast með sèr, og skuli hann það ekkert saka, heldur skuli það snúast honum til hinnar mestu gæfu. Jón situr fastur við sinn keip, og skilur þar með þeim. En frá fèlögum Jóns er það að segja, að um morguninn, er þeir vakna, sakna þeir hans, og fara að leita að honum. Og er þeir höfðu leitað um hríð, kemur Jón hlaupandi á móti þeim. Spyrja þeir Jón, hvað hann hafi farið. En hann segir þeim ekkert um það. Fara þeir svo heimleiðis.

En er Jón hafði heima verið 2 eða 3 nætur, dreymir hann, að hin sama kona kemur að honum, og fann hann í Heilagsdal. Er hún þá mjög reiðuleg og talar til Jóns á þessa leið: „Illa gjörðir þú Jón, er þú ekki vildir fara með mèr seinast. Skaltu vita, að eg leitaði þín af heilum hug og í nauðsyn minni. Dóttir mín lá á gólfi og mátti ekki fæða, nema mennskur maður færi um hana höndum, og hefðirðu orðið hinn mesti gæfumaður, ef þú hefðir leyst mig og hana af þessu vandkvæði, sem nú

hefir dregið hana til dauða með miklum harmkvælum. Væntir mig, að þèr snúist hèr eptir flestir hlutir til mótgángs og armæðu og værirðu þó verra af mèr maklegur. Uni eg illa við, nema þú berir einhverjar menjar samfunda okkar.“ Eptir það geingur konan að Jóni, og tekur annari hendi um háls honum svo fast, að hann hrekkur upp, og sèr á eptir konunni, er hún hverfur á burtu. En Jón hefir feingið svo mikinn verk í hálsinn með bólgu og þrota, að hann ber ekki af sèr; fer honum einlægt vesnandi, hverra bragða sem í er leitað, og ætla menn, að þetta mein muni draga Jón til dauða. En eingum segir hann, af hverju það sè komið. 3 nótt dreymir Jón enn, að til hans kemur kona, bláklædd og heldur góðmannleg. Hún talaði til hans á þessa leið: „Illa ferst systur minni við þig, því eigi kunnir þú að vita, hvað undir bjó, er hún vildi fá þig með sèr til heimkynna sinna, og líðurðu þannig saklaus. Vil eg nú þetta alt bæta, að því er eg megna. Skaltu á morgun, ef þú verður ferðafær. taka hest þinn, og ríða inn í Krosshlíð. Hún er að norðanverðu við Ljósavatnsskarð. Þar spretta allskonar grös, og er þú kemur að læk einum innar, en í miðri hlíðinni, þá farðu upp með læknum, til þess er þú ert kominn vel upp í miðja hlíðina. Þar í hvamnii einum vaxa grös þau, er þú skalt taka og leggja við mein þitt. Muntu þekkja grösin eptir minni tilvísan.“ Eptir þetta hverfur konan. Og er Jón vaknar, hefir hann aldrei jafnaumur verið. Hann skreiðist samt á bak hesti sínum, og ríður hann inn í Krosshlíð; finnur hann grösin eptir tilvísan konunnar. Og er hann hefir lagt þau við hálsinn, dregur jafnskjótt allan verk. Er þar fljótast frá að segja, að Jón varð á fáum dögum jafngóður og lifði leingi þar á eptir. En jafnan þókti hann heldur mótlætismaður vera, og er svo sagt, að Jón segði ekki þessa sögu, fyrr en á efri árum sínum.

**Huldumaðurinn og stúlkan.** (Eptir handriti sira Skúla Gíslasonar á Stóranúpi.) Einhvern tíma var únglíngsstúlka nokkur á vist með móður sinni, er var búandi ekkja, og gætti fjár hennar. Einn morgun snemma gekk hún hjá hól nokkrum, stóð maður hjá hólnum með döpru bragði, og beiddi stúlkuna að hjálpa sèr og gánga í hólinn og fara höndum um konu sína í barusnauð, því þá yrði hún lèttari. Nefndi huldumaður nafn sitt, og kvaðst heita Arnljótur. Ekki vildi stúlkan verða við bón hans. En um daginn, þegar hún hitti móður sína, sagði hún henni frá því, er fyrir hana hafði borið, og rèð móðir hennar þá til þess, að hún yrði við bón huldumanns, ef hann leitaði optar hins sama, og átaldi dóttur sína fyrir það, hvað óbónþæg hún hefði verið. Morguninn eptir leitaði huldumaður hins sama; en stúlkan synjaði. Hinn þriðja morgun kom hann enn, og kvað konu sína aðfram komna. Lèt stúlkan þá tilleiðast og fæddi álfkonan þegar 3 börn, en dó síðan. Stúlkan laugaði síðan börnin og reifaði þau, lagði þau öll í eitt rúm, las gott yfir þeim og signdi þau. En þegar hún

ætlaði að snúa frá rúminu, hrasaði hún, svo hún fèll á eitt barnið og kramdi það til heljar. Arnljótur fylgði henni síðan út, og kvað hana nú sjá, að betur hefði farið, ef hún hefði gjört bón sína fyrr, og slysulega hefði henni farið með barnið, en þó gæfi hann henni ekki sök á því, þar eð það hefði verið óviljaverk. Gaf hann henni 3 gripi að skilnaði, og beiddi að heilsa móður hennar, og þakkaði henni fyrir góðar tillögur sínar, því þegar stúlkan hafði neitað Arnljóti tvívegis, kvað hún hana ekki optar skyldu koma fyrir augu sèr, ef hún neitaði í þriðja sinn. Litlu síðar hitti Arnljótur stúlkuna aptur, og bað hana gánga í hólinn með sèr og eiga sig, því ella dæu börnin í höndum sèr. Lagði hann mjög að henni; en hún aftók það í alla staði. Nokkru seinna kom ókunnugur maður til þeirra mæðgna, og falaði af þeim gripina, er álfurinn hafði gefið þeim fyrr, og bauð aðra glæsilegri í staðinn. En stúlkan aftók það, og kvaðst ekki láta þá gripi af hendi, er Arnljótur sinn hefði gefið sèr. Daginn eptir hitti Arnljótur stúlkuna enn, þar sem hún var að rífa hrís. „Vel gjörðir þú", sagði hann, „að þú fargaðir ekki gripum þeim, er eg gaf þèr, og sýndir þú í því trygð þína við mig. Gjörðu nú, sem eg bið þig, og kom með mèr og búðu hjá mèr; skal þig þá ekkert skorta og ekkert að þèr gánga." Þessu neitaði stúlkan þverlega. Þá mælti álfamaður: „þverlynd ertu, og svo muntu fleirum reynast, en ekki skaltu hafa betra af því, og muntu auðnulítil frá þessu, en jafnan skal þeirri konu borgið, er þú situr yfir, og af því skaltu jafnan hafa uppeldi þitt." Síðan hvarf huldumaðurinn. Þegar stúlkan kom heim, var móðir hennar og gripirnir horfnir, og hafði Arnljótur numið þau burt til sín; en ummæli Arnljóts urðu að áhrínsorðum; var stúlkan auðnulaus og eirði hvergi, en atkvæða yfirsetukona.

**c)** Aptur á móti hafa álfar tíðum sýnt mönnum góðvilja að fyrra bragði, án alls mannlegs tilverknaðar. Hefir það opt aðborið, er menn hafa verið á ferð um kvöldtíma eða um hátíðir, að þeir hafa sèð ljós loga í álfa-híbýlum og geingið á þau, sem þegar skal sýnt með nokkrum dæmum, þó ekki hafi þeir allir, sem ljósin sáu, orðið fyrir beiníngum hjá álfum, eða haft hug til að heimsækja huldufólk. Einnig hafa álfar þráfaldlega aumkvazt yfir þá, er eitthvað hefir amað að með öðru móti. En þó er nokkurt vandhæfi á, að níðast ekki á góðvild álfa, eða bregða út af því, sem þeir hafa boðið, eða ætlazt til að gjört sè.

Þess konar ljós, er nú var getið, hafa sèzt allvíða í Merkishólum hjá Mörk undir Eyafjöllum, og í álfhól hjá Þorvaldsstöðum, og hafi þar jafnan heyrzt súngið og leikið á hljóðfæri. Það er og sagt, að opt hafi mönnum til forna verið boðið inn í þenna álfhól, en nú leggur einginn í því bygðarlagi trúnað á það leingur.[1]

1. Eptir sögn Bergþórs bónda Bjarnarsonar.

Einu sinni varð maður of naumt fyrir, undir Olafsvíkur-enni á nýársnótt, því sjór fèll fyrri í berg, en hann kæmist fyrir forvaðann, svo ekki leit út fyrir annað, en að hann mætti liggja þar úti. Sá hann þar þá 18 hús ljósum ljómuð, og skemtu álfar sèr þar inni með hljóðfæraslætti og dansi.[1]

Í Kleppum hjá Víðivöllum sá maður nokkur á jólanóttina stórt hús alt ljósum prýtt. Hann gekk þar inn, og fèkk góðar viðtökur og ágætan beina; morguninn eptir, er hann vaknaði, lá hann á berum klettunum, og sá hvorki veður nè reik eptir af stóra húsinu.[2]

Þorsteinn Pálsson í Búðardal var á ferð á vetrardag framan úr Akureyum og menn með honum á skipi og ætlaði heim til sín. Þegar þeir fóru úr eyunum, var komið kvöld. Þegar þeir voru komnir þriðjúng vegar, þektu þeir sig lítt, er með honum voru, en stormur var á móti. Var þá talað um, hvað stefna skyldi. Þegar þeir voru að tala um þetta, sjá þeir, hvar eldur logar, sem í kolagröf væri. Þá sagði Þorsteinn, að þeir skyldu stefna á logann, og það gjörðu þeir. En er þeir voru komnir nálægt honum, hvarf hann þeim, enda voru þeir þá komnir undir Höfn, sem er ey í Akureya-löndum. Daginn eptir, er þeir komu í land, var þeim sagt, að ófært hefði verið að komast að landi kvöldinu áður fyrir ís, þó bjartur dagur hefði verið. — Í öðru sinni stóð eins á fyrir Þorsteini, að hann var viltur, og sá þá bál mikið og hèlt á það, eins og fyr er sagt frá. Þekti hann sig þá aptur við sömu eyna, Höfn. Aldrei lèt hann slá þá ey, frá því hann sá þar eldinn fyrra skiptið.[3]

Á Þúfu á Fellsströnd var únglíngspiltur sendur að vitja hesta um haust, var þá dagur liðinn að mestu. Geingur hann ofantil í landinu, og finnur hvergi hestana; því svo var skuggsýnt orðið. Hann sèr þá, hvar ljós logar; geingur hann nú á ljósið, og er það lángur vegur, er hann fer, en ljósið logar glatt, og nálgast hann það smásaman. Nú var fólkinu á Þúfu farið að leingja eptir piltinum, og var því kvennmaður sendur, til þess að leita að honum. Vildi þá svo til, að hún leitaði hans í þá átt, er hann var, og kallaði hátt og opt á piltin (er lifir enn,[4] og heitir Brandur). Um síðir kemst hún svo nálægt honum, að hann heyrði kall hennar; var hann þá kominn mjög nálægt hæð þeirri, er ljósið logaði í. En þegar hann gegndi kallinu, hvarf honum ljósið, svo hann sá það ekki framar, og fór hann svo heim með vinnukonunni. Var þetta, eins og auðsèð er, ljós í álfabygð.[5]

---

1. Eptir sögn síra Eiríks Kuld.
2. Eptir Dr. Pètur prófessor Pètursson. Sbr. „Álfakóngurinn í Seley".
3. Öll þessi smá-atvik um álfa eru tekin eptir Dr. Maurers Isl. Volkss. 5.—6. bls. nema þessi saga um Þorstein Pálsson; hún er tekin eptir handriti Purkeyar-Ólafs.
4. það er hèr um bil 1840.
5. Þessi saga er og tekin eptir handriti Purkeyar-Ólafs.

Maður var sá á Snæfellsnesi, er lá úti drukkinn á víðavángi um næturtíma. Hann kom ekki heim fyrr en að 2 dögum liðnum, og gjörði ekki grein á hvar hann hefði dvalið. Hann sagði seinna frá því, eitt sinn, er hann var ölvaður, að huldumaður hefði komið til sín, og farið með sig inn í kletta, og veitt sèr bæði mat og drykk. En er hann fór burtu þaðan, var lagt ríkt á við hann, að þegja yfir þessu, og jafnskjótt og hann braut það boð, varð hann rænulaus.[1]

Einu sinni var maður vestur í þorskafirði að leita kinda. Hann leitaði árángurslaust allan sólarhrínginn út, og með því hann örvænti um að finna fèð, lagði hann sig fyrir að sofa örþreyttur. þá þókti honum álfkona koma til sín í svefninum, og segja við sig: „Litlum mun fórstu of skamt; því, ef þú leitar ögn leingra, muntu finna fè þitt.“ Maðurinn vaknaði, og fór, eins og honum var kent ráð til í drauminum, og fann fèð.[2] — það var einu sinni, að faðir síra Ólafs prófasts í Flatey á Breiðafirði lá fársjúkur á Mosfelli í Mosfellssveit. Dreymdi hann þá, að álfkona kom til sín og spyrja sig, hvert hann vildi verða heill aptur, og játaði hann því. Honum þókti hún þá smyrja sig með áburði nokkrum, og annars dags eptir varð hann heill heilsu.[3] — Einu sinni, þegar Magnús Stephensen konferenzráð var á gángi úti á Viðey, kom til hans kona, og fèkk honum fulla skál af eggjum. Hann tók lítið eptir þessu, en hèlt þetta væri einhver vinnukonan sín, sem hefði verið í eggjaleit um eyna. þegar vinnufólkið kom heim um kvöldið, kannaðist einginn við þetta, enda sýndi það sig, að skálin var um fram. þá sáu menn fyrst, að það hefði verið álfkona, sem hefði mætt húsbóndanum.[4]

**Huldufólkið í álfaborginni hjá Jökulsá.** (Eptir handriti Snæbjarnar Egilssonar á Klippstað.) Á Jökulsá í Borgarfirði bjó bóndi; eitt haust var honum sendur ómagi, og var það stúlka. Hana hèlt hann í þrjú ár, og fór ærið illa með hana, lèt hana þola erviði og sult. Á nýársdag hið fjórða ár fara hjónin til kirkju, og skipar bóndi henni að vanda, að hirða fè í húsin um kvöldið; en eingan mat fèkk hún. Rekur hún fèð í móann, sem er fyrir utan Jökulsárbæinn, en fer að bera hey á garða. Meðan hún var að því, brast í veður, og ætlaði hún að ná fènu. En er hún kom á mýrina fyrir framan álfaborgina, mætti hún manni, sem segir hún skuli koma með sèr, því þetta sè hið mesta hættu-veður. Lèt hún að orðum hans og fór með honum í álfaborgina. þegar hún kom þar inn, sá hún þokkaleg híbýli, en ekki aðra menn, en kerlíngu, sem sat á hápalli. Karlmaðurinn vísar henni til sætis, og þá fór kerlíngin ofan, og kom aptur

1. Eptir síra Eiríki Kuld.
2. Eptir sögn síra Ólafs Johnssen.
3. Síra Eiríkr Kuld sagði söguna.
4. Eptir síra Eiríki Kuld. þessar sagnir eru og teknar eptir Dr. Maurers Isl. Volkss. 8. bls.

með kjöt á diski og grjón í aski. Stúlkan krossar sig og tekur síðan til matar; en er hún er mett, tekur kerlíng leifarnar og segir: „Ekki þurftirðu að krossa þetta, ólukku kindin.“ Þar var stúlkan um nóttina. Um morguninn fór Jökulsárbóndinn að leita fjár síns, og fann hann það veðurbarið og illa til reika. Seint um daginn fór stúlkan heim, og er bóndi sá hana, varð hann ófrýnn, átaldi hana harðlega, og lèt hana nú nær engan mat fá. Samt fitnaði hún óðum, og vissi einginn, hvað því ylli. Eitt sinn kom bóndi í fjárhús til hennar, og fann þar hjá henni sauðarhupp. Reiddist þá bóndi, skeytti á henni skapi sínu, og kallaði hana þjóf. Um sumarmálin hvarf hún. Lèt þá prestur safna mönnum; leituðu þeir og fannst hún ekki. Seinna sagði kona, sem var á Bakka, að hún væri í álfaborginni, því hún hefði verið hjá henni fjórum sinnum í barnsburðarnauð. Sagði hún hana lifa þar vel ánægða.

**Álfkonan hjá Bakkagerði.** (Eptir handriti Snæbjarnar Egilssonar á Klippstað.) Á Bakkagerði í Borgarfirði bjuggu hjón nokkur; þar var ekki fleira manna. Eitt sinn fór bóndi heiman, og kom ekki heim um kvöldið. Þessa nótt kendi konan jóðsóttar, og kveykti því ljós. Litlu síðar kom inn ókend kona, og bauðst til að hjálpa henni. Kónan þá það, og þjónaði hin henni, laugaði barnið, reifaði og lagði í rúm hjá móðurinni. Síðan fór hún burt, og kom aptur með kjötdisk. Kjötið var heitt, og lèt hún diskinn við hlíð konunnar, talaði ekki, en gekk burt. Ekki þorði konan að eta kjötið, og snerti hún það ekki. Að litlum tíma liðnum kom ókenda konan, tók diskinn og sagði: „Óhætt var þèr að borða af diskinum, og lítið ætla eg að það mundi þèr að meini verða, þótt þú hefðir tiltekið, og svo máttir þú meðfara, að barni þínu og þèr hefði orðið að hamíngju“ Eptir það fór hún burt, en það er gáta manna, að kona þessi hafi búið í álfaborginni, sem þar er nærri. En aldrei varð konan í Bakkagerði vör við hana upp frá því.

**Álfkona læknar barn.** (Eptir handriti Ólafs Sveinssonar í Purkey.) Það bar til 1790 á bæ þeim á Skarðsströnd, er heitir Vormsstaðir, að barn hjónanna þar varð sjúkt. Barnið hèt og heitir Ingibjörg. Þar með fèkk það verk svo sárann, að það gat eigi af sèr borið, og varð hann eigi linaður, og var þó til reynt það, sem auðið var, til þess að lina hann. Móðir barnsins gekk svo frá því, og mun hún ekki hafa getað heyrt kvein þess, en hitt fólkið var kyrt eptir aðgjörðalaust, skamt frá þessu veika barni. En þegar Haldóra, móðir barnsins, var ný burt geingin, þá sá það fólk, er uppi var à loptinu, að hún kom aptur að vörmu spori, og gekk til hins veika barns, og fór höndum um það. Fóru þá að lina hljóð barnsins; var hún hjá því litla stund; gekk hún síðan á burt, þá barnið var orðið hljóðalaust. Rètt á eptir kom Haldóra móðir þess og sagði: „Nú er henni

Ingibjörgu farið að batna.“ Fólkið sagði: „Já, því var farið að batna, þá þú fórst burtu frá rètt áðan; því þegar þú varst búin að halda á verknum, sem í því var, þá batnaði því.“ „Það hefi eg eigi verið,“ sagði hún; „eg hefi ekki upp komið, síðan eg fór ofan, þegar hún var með hljóðunum, fyrr en eg kom núna.“ „Það var þó kvennmaður eins klæddur og þú, sem kom til hennar,“ sagði fólkið, „og fór höndum um hana, svo að hún var orðin hljóðalaus, þegar hún fór frá henni, og er hún rètt nýgeingin í burtu, en þú komst rètt í því, að hún fór ofan.“ Haldóra sagði: „Það er þá ekki að tala hèr um fleira; það hefir verið sú huldu-nábýliskona mín, sem guð hefir haft til þess, að lina verkinn í barninu;“ var þá og barnið albata af verknum, og fann eigi síðan til hans.

**Grímsborg.** (Sira Páll Jónsson í Hvammi skrásetti eptir gömlum manni á Skaga.) Norðanvert við túnið í Ketu á Skaga stendur klettaborg ein há og þvergnýpt; hún er kölluð Grímsborg. Þar á jafnan að hafa búið huldnfólk í borginni, og hver verið nefndur Grímur, er þar rèð fyrir. Var það sögn gamalla manna á Skaga, þeirra er nú eru fyrir skömmu andaðir, að í þeirra tíð byggju fjórir huldumenn í borginni, tveir karlar og tvær konur, og geingi jafnan tvent senn heim að Ketu og hlýddi tíðum, þá er þar væri messað, en tvent sæti heima.

Einn tíma er sagt, að væru harðindi mikil á Skaga, svo að lægi við mannfelli af húngri. Þá var það einn dag um vorið, sem optar, að leið bóndans í Ketu lá fram hjá borginni; varð honum þá ljóð af munni og kvað:

„Láttu reka reiður, brátt undir björgin ytri,
ríkur, ef þú getur, Borgar-Grímur á morgun.“

Þá var svarað úr borginni og kveðið:

„Reki reiður að landi heljar bundin bandi
rètt að Ketusandi, til bjarga lýð þurfandi.“

En um morguninn eptir var rekinn reiðarhvalur mikill undir Ketubjörgum, og varð þar mörgum manni gagn að.

Önnur Grímsborg er innar á fjallinu vestan megin Laxárdals; það er í landi þeirrar jarðar er Hafragil heitir. Í þeirri borg hefir verið hrísrif gott. En sú trú hefir legið þar á, að eigi mætti rífa í borginni, fyrir því, að þá ætti sá að verða fyrir einhverjum skaða, er rífa lèti, gripa tjóni, eldsvoða, eða öðru þesskonar.

**Huldumaðurinn og Geirmundur hái.** (Eptir handriti Ólafs Sveinssonar í Purkey.) Þá eg var á Arnarstapa pláss bóndi, vildi svo til á nýársdags kvöldi einu, að þrent eða fett af fólki mínu fór út, og sá það, sem út kom, hvar lest fór ofan plássið; ekki taldi það hestana, hvað margir þeir voru; en víst höfðu þeir 10 verið, auk þeirra er á var riðið. 3 konur

höfðu riðið í söðlum; fóru konur þessar og lestin að hól einum, er var þar úti á klettunum fyrir ofan gjá eina, er Pumpa er kölluð, og hvarf þetta alt, að því sýndist, inn í hólinn. Þetta var reyndar huldufólk, er flutti sig búferlum.

Eg varð var við það, þegar eg var á Stapa og við Hellna, að huldufólk var þar víða í óbrunnum klettum, en ei veit eg til þess, að það búi í brunnu grjóti eða hraunum, og færi eg það til míns máls, sem stendur í sögu Geirmundar hins háa; þar segir svo:

„Þá kom eg að miklu hrauni; var eg þá illa staddur þar eð óvinir mínir voru við hæla mèr; fór eg þá í hraunið, svo fljótt er eg gat, en þeir á eptir. Mætti mèr þá maður á stakki gráum; hann mælti við mig: „Illa ertu staddur, Geirmundur hái, þar eð svo má segja, sem óvinir þínir sèu að þèr komnir, en þú ert bráðum sprúnginn, og vil eg hjálpa þèr, ef þú vilt.“ Eg gat varla orði upp komið fyrir mæði, en sagði þó: „Það vil eg gjarnan þiggja;“ voru þá óvinir mínir að mèr komnir, og æptu þeir mjög. Brá hann þá yfir mig hendi sinni, tók síðan í hönd mèr, og leiddi mig þvert frá þeim. Sagði hann mèr þá að fara hægt, og kasta mæðinni, „þar eð óvinir þínir munu mist hafa sjónir á þèr,“ sagði hann. Varð eg þá og var við, að þeir sáu mig ekki, því að eg heyrði þá segja: „Hvað varð nú af illmenninu, hefir hraunið gleypt hann, þar eð vèr sjáum hann ekki?“ Sá eg, að þeir leituðu mín, og fundu mig ei; sneru þeir svo aptur úr hrauninu. Þá sagði maður þessi við mig: „Nú ertu laus við óvini þína í þetta sinn, og mun eg nú skilja við þig.“ Eg þakkaði honum fyrir hjálpina, og spurði hann að heiti, og hvar hann ætti heima. En hann mælti: „Eg heiti Kári, en ei skiptir þig um, hvar eg á heimili.“ Sagði eg þá: „Vera kann, að þú eigir heima hèr í hrauni þessu;“ því að eg ímyndaði mèr, að hann mundi vera stigamaður. Sagði hann þá: „Ei búa ljúflíngar í brendu grjóti, heldur eru þar ill landvætti og verur dauðra manna, og gjöra þær lifandi mönnum sjónhverfingar.“ Hvarf hann þá frá mèr, en eg ráfaði um hraunið, þángaðtil eg lagði mig niður að sofa.“

**„Legg í lófa karls, karls.“** (Eptir handriti Ólafs Sveinssonar í Purkey.) Það var á einum bæ, að börn voru úti hjá hól nokkrum að leika sèr; var það eitt stúlkubarn úngt, og tvö piltbörn eldri. Þau sáu holu í hólnum, þá átti þessi stúlka, sem yngst var af þeim, að hafa rètt inn í holuna hendina, og sagt að gamni sínu, eins og barna er háttur til: „Legg í lófa karls, karls, kall skal ekki sjá.“ Þá átti að hafa verið lagður stór svuntuhnappur gyltur í lófa barnsins. Þegar hin börnin sáu þetta öfunduðu þau þetta barn; þá hafði hið elsta rètt inn hönd sína, og sagt hið sama, sem hið yngsta sagði, og ímyndaði sèr að það mundi hljóta eigi minna hnoss, en hið yngsta hefði hlotið. En það lánaðist eigi; því þetta barn fèkk

ekkert, nema visnaða hönd sína, þá það tók hana út úr holunni, og varð svo meðan það lifði.

**Álfakverið.** (Eptir handriti Ólafs Sveinssonar í Purkey.) Þegar faðir minn var í Búðardal hjá frænda sínum, Þorsteini sál. Pálssyni, og ólst þar upp hjá honum, þá vildi svo til, að hann fór út dag einn um veturinn að leika sèr; var hann þá 7 eður 8 vetra gamall. Hann gekk austur fyrir bæinn og var að leika sèr þar um þúfurnar, eins og únglínga er vani, að stökkva yfir polla, sem á milli þúfna eru, en leysíng hafði verið um nóttina, og hríð mikil fram eptir deginum; en þegar upp stytti, fór hann út að leika sèr.

Þegar hann var að gánga þar um þúfurnar, fann hann dálítið kver á einni þúfunni, eins og það hefði verið þar samstundis lagt; var það þurt og vel um vandað. Hann tók kverið og skoðaði það; var það þá preutað með mjög smáum stýl. Hann fór heim með kverið, og lýsti því; en einginn þekti það, nè átti þar á bæ, og aldrei hafði þar heyrzt það, sem á því var, og meðal þess voru margir andlegir sálmar. Var það mál manna, að álfafólk hefði lagt kverið þar, til þess að sveinninn skyldi eignast það. Bróður hans, Þorsteini Pálssyni, þókti það sannast vera. Ei kunni faðir minn neitt úr því kveri, nema það, sem hèr stendur á eptir:

Sálmurinn.

Adams fall og Evu brotið
eymd margfalda færði í heim,
hartnær var þá hjálpráð þrotið,
af hræðilegum synda seim.
Hefðum ei Jesu náðar notið,
nauða hefði magnast rein.

Fyrirheitið guðs míns góða,
gafst oss mönnum jörðu á;
Lífsins gjöf var lausnarinn þjóða,
lauk upp dyrum himna sá;
hann drykkjaði þyrsta, mædda og móða,
meinum öllum leysti frá.

Ó, þá náð og miskun mesta,
minn skapari gafstu mèr;
ó, það hjálpráð allra besta
allra þinna frelsi er;
ó, þá náð og fegurð flesta,
framrunnin er guð af þèr.

Orð Jakobs í mínum munni,
mjúkt eg geymi sèrhvert sinn,
að elska miskun allri þinni,
er eg minni drottinn minn.
Aldrei þinn lofi linni,
líknarfulli græðarinn. — Amen.

Vers.

Lofi guð önd og lífið mitt,
lofað sè blessað nafnið þitt,
lofi þig líðir allir;
lofi guð hjarta, lofi hann sál,
lofi guð túnga, vit og mál,
einglar og æðstu hallir;
himnar, jörð, sjór og hafið blátt,
hver og ein skepna af sínum mátt,
og alt hvað hefir andardrátt. — Amen.

Annað vers.

Tóna má tvo fá,
traust með hljóða hylli,
svo saman dilli.

þetta er upphafsvers á sálmi einum í kverinu; hann kunni ei fleira af því, eða úr kverinu; en eg hef hèr ei meira ritað, en faðir minn sál. kunni. Vantar nokkuð á, að þessir sálmar sèu eins andríkir og vorir.

Jarðfróður maður einn sagði svo forðum um huldufólk:

„Lastvarir halda lögmál sitt,
og lifa í friði sönnum,
nema þá andar opt og títt,
ama þar fè og mönnum.“

það er eitt sagt úr huldumanna lögum, að þegar rík ýngisstúlka lætur liggja sig heima ótiginn mann og auðvirðilegan, skuli hegníng hennar vera sú, að eiga manninn, og missa svo arf eptir foreldra sína.

**d)** Annað veifið lítur svó út, sem álfar gjöri sèr far um að gjöra mönnum mein með ýmsu móti; vita menn stundum til þess orsakir t. d. ef menn hafa ert þá eða áreitt á einhvern hátt, en opt líka eingar.

þannig er þess getið um álfakyn það, er búið hafi í Steinkerum í þjórsárdal, að það hafi valdið því, að ein kýrin frá Ásólfsstöðum, bæ í sama dalnum, fanst þar dauð í fjallinu. þegar að var komið, voru lúngun út úr henni og annað augað og skrokkurinn allur kolsvartur og illa útleikinn,

og þókti þetta allundarlegt, og var huldufólkinu í Steinkerum kent um það, þó Ásolfsstaða-menn ættu sèr þaðan einkis ills von.[1] — Smalapiltur nokkur lèk það að list og vana, að kasta steinum í jarðholu eina, sem er í álfhólnum hjá Ásgarði í Hvammssveit. Þegar þessu hafði farið fram um hríð, varð húsbóndi hans veikur; dreymdi hann þá einu sinni, að huldumaður kæmi til sín og segði við sig, að, ef hann vildi verða heill heilsu aptur, yrði hann að lumbra á smalanum sínum, svo hann muuaði um, því hann lægi á því lúalagi, að kasta grjóti inn í híbýli sín, og hefði þegar meitt dreinginn sinn illa á höfðinu með einum steininum. Þegar bóndi hafði gjört eins og fyrir hann var lagt, fèkk hann aptur heilsuna.[2]

**Bæarbruni á Staðarfelli.** (Eptir handriti Guðbrands Vigfússonar, og sögn föður hans.) Um vetrinn 1808 brann bærinn á Staðarfelli allr að köldum kolum. En fyrir neðan bæinn á Staðarfelli framan í sjófarbökkunum var stór steinn, sem sagt var að álfkona byggi í, en af því að hrynr úr bökkunum, þá stóð steinninn hálfr fram af, en sat þó fastr, ef ekki var við átt, og hafði staðið svo lengi, en öllum var boðin varúð að glettast við steininn. En skömmu áðr en brann, gjörðu vinnumennirnir það af glensi, að þeir hrundu steininum fram í sjó, en nóttina eptir dreymdi Benidikt gamli Bogason álfkonuna, og sagði að honum mundi ekki verða betra af því að menn hans hafi glest við húsið sitt, og skömmu síðar brann bærinn, og rættist svo spáin.

**Túngustapi.** (Eptir handriti síra Jóns Þorleifssonar, síðast á Ólafsvöllum.) Í Eyrbyggju, seinasta kapítula, er sagt frá, að kirkja hafi verið flutt í Sælíngsdalstúngu, kirkjugarður grafinn og bein manna upptekin, t. d. Snorra goða og Barkar digra; var það á dögum Guðnýar húsfreyu í Hvammi, móður þeirra Sturlusona, því söguritarinn segir, að hún hafi verið við, og hefir eptir henni, það sem greint er um stærð beinanna. Sagan talar ekkert um, hvers vegna kirkjan var flutt úr stað, en á Vesturlandi geingur þessi saga um tilefnið til flutníngsins.

Í gamla daga, fyrir mörgum hundruð árum, bjó mjög ríkur bóndi í Sælíngsdalstúngu; hann átti nokkur börn, og eru til nefndir tveir synir. Ekki vita menn hvað þeir hètu og köllum vèr þá því Arnór og Svein. Þeir voru báðir efnilegir menn, en þó ólíkir. Arnór var hreystimaður og mikill fyrir sèr. Sveinn var hægur og spakur og einginn hreystimaður. Eptir því voru þeir mjög ólíkir í lund; Arnór var gleðimaður og gaf sig að leikjum með sveinum þar úr dalnum, og mæltu þeir opt mót með sèr við stapa þann, er stendur niður við ána, andspænis bænum í Túngu, og

1. Eptir sögn Odds bónda Jónssonar.
2. Eptir síra Ólafi Johnsen.

sem kallaður er Túngustapi. Var það skemtun þeirra á vetrum, að renna sèr eptir harðfenni niður af stapanum, því hann er hár mjög, og niður á eyrarnar í kríng; gekk opt mikið á með kall og háreysti kríng um Tnngustapa í rökkrunum og var Arnór þar optast fremstur í flokki. Sjaldan var Sveinn þar með. Gekk hann þá optast í kirkju, er aðrir piltar fóru til leika; opt fór hann líka einförum, og dvaldi þá tíðum niður við Túngustapa. Var það mál, að hann hefði mök við álfafólk, sem bjó í Stapanum, og nokkuð var það, að hverja nýársnótt hvarf hann, svo einginn vissi, hvað af honum varð. Opt kom Sveinn að máli við bróður sinn, að hann eigi skyldi gjöra svo mikla háreysti þar á stapanum, en Arnór gjörði gabb að, og kvaðst eigi mundi vorkenna álfunum, þó hátt væri haft. Hèlt hann uppteknum hætti; en Sveinn varaði hann við því optar, og sagði, að hann skyldi ábyrgjast, hvað af slíku hlytist. Það bar til eitt nýárskvöld, að Sveinn hvarf að vanda. Leingdist mönnum venju fremur eptir honum. Kvaðst Arnór mundi leita hans, og sagði hann mundi dvelja hjá álfum niður í Stapa. Geingur Arnór á stað, alt til þess hann kemur að stapanum. Veður var dimt mjög. Veit hann ekki fyrir til, en hann sèr stapann opnast á þá hlið, sem að bænum snýr, og ljóma þar ótal ljósaraðir; heyrir hann kveða við inndælan saung, og skilur hann af þessu, að á messu muni standa hjá álfum í stapanum. Kemur hann nú nær, og sèr, hvað fram fer. Sèr hann þá fyrir framan sig, eins og opnar kirkjudyr, og fjölda manns inni. Er prestur fagurlega skrýddur fyrir altari, og eru margsettar ljósaraðir til beggja hliða. Geingur hann þá inn í dyrnar, og sèr, hvar Sveinn bróðir hans krýpur fyrir gráðunni, og er klerkur að leggja hendur í höfuð honum með einhverjum ummælum. Það hyggur Arnór, að verið sè að vígja hann einhverri vígslu; því margir skrýddir menn stóðu umhverfis. Kallar hann þá og segir: „Sveinn, kom þú, líf þitt liggur við.“ Hrekkur Sveinn þá við, stendur upp og lítur utar eptir; vill hann þá hlaupa móti bróður sínum. En í því kallar sá, er við altarið var og segir: „Læsið kirkjudyrum og hegnið hinum mennska manni, er raskar friði vorum. En þú, Sveinn, hlýtur við oss að skilja, og er bróðir þinn sök í því. En fyrir það, að þú stóðst upp í því skyni að gánga til bróður þíns, og mattir hans ósvífna kall meir en heilaga vígslu, skalt þú niður hníga, og það örendur, næsta sinn, er þú sèr mig hèr í þessum skrúða.“ Sá Arnór þá, að hinir skrýddu menn hófu Svein á lopt og hvarf hann upp um steinhvelfíng þá, er yfir var kirkjunni. Kveður þá við dynjandi klukknahljóð, og í því heyrist þys mikill inni. Hleypur hvor um annan þveran til dyra. Arnór hleypur þá, sem hann mátti, út í myrkrið heim á leið, og heyrir álfareiðina, þysið og hófasparkið á eptir sèr; heyrir hann, að einn í flokki þeirra er fremstir ríða, kveður við raust og segir:

„Ríðum og ríðum,
það rökkvar í hlíðum;
ærum og færum
hinn arma af vegi,
svo að hann eigi
sjái sól á degi,
sól á næsta degi.“

Þusti þá flokkurinn milli hans og bæarins svo hann varð að hörfa undan. Þegar hann var kominn í brekkur nokkrar suður frá bænum og austur frá stapanum, gafst hann upp og hneig máttvana niður; reið þá allur flokkurinn á hann ofan, og lá hann þar eptir nær dauða en lífi.

Það er frá Sveini að segja, að hann kom heim eptir vökulok. Var hann daufur mjög og vildi eingum segja um burtuveru sína, en kvað nauðsyn að leita Arnórs. Var hans leitað alla nóttina, og fannst hann eigi, fyrr en bóndi frá Laugum, er kom til óttusaungs að Túngu, gekk fram á hann þar í brekkunum, sem hann lá. Var Arnór með rænu en mjög aðfram kominn; sagði hann bónda, hvernig farið hafði um nóttina, eins og áður er frá sagt. Ekki kvað hann tjá að flytja sig til bæar, því hann yrði eigi lífgaður. Andaðist hann þar í brekkunum, og heita það síðan Banabrekkur.

Aldrei varð Sveinn samur eptir þenna viðburð, hneigðist skap hans enn meira til alvöru og þúnglyndis, en aldrei vissu menn hann koma nærri Álfastapa eptir þetta, og aldrei sást hann nokkru sinni horfa í þá átt, sem stapinn er. Gaf hann sig frá öllum veraldar-umsvifum, gjörðist múnkur og gekk í klaustur á Helgafelli. Varð hann svo lærður maður, að einginn bræðra komst til jafns við hann, og svo saung hann fagurlega messu, að einginn þóktist jafnfagurt heyrt hafa. Faðir hans bjó í Túngu til elli. Þegar hann var gamall orðinn, tók hann sótt þúnga. Það var nærri dimbildögum. Þá er hann fann, hvað sèr leið, lèt hann senda eptir Sveini út til Helgafells, og bað hann koma á sinn fund. Sveinn brá við skjótt, en gat þess, að skeð gæti hann kæmi eigi lífs aptur. Kom hann að Túngu laugardag fyrir páska. Var þá svo dregið af föður hans, að hann mátti trauðlega mæla. Beiddi hann Svein, son sinn, að sýngja messu á páskadag sjálfan, og skipaði að bera sig þá í kirkju, kvaðst hann þar vilja andast. Sveinn var tregur til þessa, en gjörði það samt, þó með því skilyrði, að einginn opnaði kirkjuna, meðan á messu stæði, og sagði þar á riði líf sitt. Þókti mönnum þetta kynlegt; þó gáfu sumir þess til, að hann enn sem fyrri ekki vildi sjá í þá átt, sem stapinn var, því kirkjan stóð þá á hólbarði einu hátt uppi í túninn, austur frá bænnm, og blasti stapinn við kirkjudyrum. Er nú bóndi borinn í kirkju, eins og hann hafði fyrir mælt, en Sveinn skrýddist fyrir altari og hefir upp messusaung. Sögðu það allir, er við voru, að þeir aldrei hefðu heyrt eins sætlega súngið

eða meistaralega tónað, og voru allir því nær höggdofa. En er klerkur að lyktum sneri sèr fram fyrir altari, og hóf upp blessunarorðin yfir söfnuðinum, brast á í einni svipan stormbilur af vestri, og hrökk við það upp dyr kirkjunnar. Varð mönnum hverft við, og litið utar eptir kirkju; blöstu þá við eins og opnar dyr á stapanum, og lagði þaðan út ljóma af ótal ljósaröðum, en þegar mönnum aptur var litið á prest, var hann hníginn niður, og var þegar örendur. Fellst mönnum mikið um þetta, og þar með, að bóndi hafði einnig á sömu stundu fallið liðinn fram af bekk þeim, er hann lá á gagnvart altari. Logn var fyrir og eptir viðburð þenna, svo öllum var augljóst að með stormbil þann, er frá stapanum kom, var eigi sjálfrátt. — Var þá viðstaddur bóndi sá frá Laugum, er fundið hafði Arnór í Brekkunum fyrri, og sagði hann þá upp alla sögn. Skildu menn af því, að það hefði komið fram, er álfabiskupinn hafði um mælt, að Sveinn skyldi dauður hníga er hann sæi sig næst. Nú þegar opinn var stapinn og hurð kirkjunnar hrökk upp, blöstu dyrnar hvorar móti öðrum, svo álfabiskupinn og Sveinn horfðust í augu, er þeir tónuðu blessunarorðin; því dyr á kirkjum álfa snúa gagnstætt dyrum á kirkjum mennskra manna (nl. til austurs). Áttu menn hèraðsfund um mál þetta, og var það afráðið, að flytja skyldi kirkjuna niður af hólbarðinu, nær bænum, í kvos hjá læk nokkrum. Með því var bærinn milli stapans og kirkjudyra, svo aldrei síðan hefir presti þar verið unt að sjá frá altari gegnum kirkjudyr vestur í Álfastapa, enda hafa slík býsn eigi orðið síðan þetta var.

**Álfkonan í Skollhól.** (Tekin eptir manni, sem var uppalinn á Eyrarbakka.) Á Eyrarbakka í Árnessýslu er kot nokkurt, sem kallað er Eyfakot. Kot þetta er skamt fyrir sunnan og austan í búðarhús Bakkakaupmannsins, þar sem það er nú; en fyrir norðan það, og þó heldur til austurs er dæl ein, sem kölluð er Hjalladæl. Hún verður svo lítil á sumrum, að hana þurkar því nær upp, ef þerrar gánga leingi með sólbakstri. Norðan og austanvert við dæl þessa er hraunbelti lítið, sem nefnt er Hjallahraun. Í hrauni þessu er hóll einn grasi vaxinn að mestu, og heitir hann Skollhóll.

Í elztu manna minnum, sem nú lifa, bjó kona ein, öldruð mjög, í Eyfakoti, er Guðrún hèt. Hún átti son einn stálpaðan, hèr um bil 12 eða 14 vetra. Dreingur þessi var mikill fyrir sèr, ódæll og ógegninn móður sinni. Hann tamdi sèr það eitthvert sumar að gánga norður fyrir Hjalladæl og norður á Skollhól; lèt hann þar öllum illum látum, hafði í frammi galsa mikinn, hark og háreysti, eða hann henti steinum ýmist ofan af hólnum, eða upp á hann og utan í hann. Það var og stundum, að hann fleygði sèr niður í hraungjóturnar utan í hólnum, þegar hann var orðinn þreyttur á þessum ógángi og óraspreing.

Þegar þessu hafði fram farið um hríð, dreymir móður hans einhverja nótt um sumarið, að henni þykir kona koma til sín, og biðja sig að hamla

syni sínum frá að leggja leiðir sínar norður á Skollhól, og enn heldur, að sjá svo fyrir, að hann hafi þar ekki í frammi ógáng þann, er hann hafi tamið sèr þar um hríð, þar sem hann hafi bæði brotið fyrir sèr glugga og mölvað fyrir sèr klápa og kyrnur með grjótkasti, og þar á ofan gagnist sèr ekki að elda neitt fyrir moldkastinu úr honum. Hún lyktar með því ræðu sína, að ef dreingurinn haldi teknum hætti um athæfi sitt, skuli hann sjálfan sig fyrir hitta. Að svo mæltu hverfur hún frá Guðrúnu.

Um morguninn vandar Guðrún við son sinn um athæfi hans að undanförnu á Skollhól, og leggur ríkt á við hann, að koma þar ekki framar, þar eð mikið muni við liggja, og þó mest fyrir sjálfan hann, ef hann hlýddi ekki boði sínu. Ekki er þess getið, að hann hèti móður sinni neinu góðu um það, en hitt er víst, að hann mundi skamma stund skipan hennar; því fám dögum síðar, en Guðrún hafði vandað um þetta við hann, fannst hann dauður norður á Skollhól, og var nálega brotið í honum hvert bein, og er það trú manna, að kona sú, er móður hans dreymdi litlu áður, hafi átt bygð í hólnum, og látið nú dreinginn grimmlega gjalda gáska síns.

**Piltur á glugga á álfabæ.** (Eptir handriti Ólafs Sveinssonar í Purkey.) Þegar þessi sami piltur[1] var smali á Gölt í Súgandafirði, sofnaði hann á hól einum, þá hann var hjá kindunum. Þegar hann var sofnaður, þókti honum, að sagt væri inni í hólnum: „Farðu í burtu af glugganum, svo að eg sjái til; þú getur annarstaðar verið, en þar sem þú skyggir á mig." Hann þóktist segja: „Ei veit eg til, að eg skyggi á þig nè aðra." Í þessu bili þókti honum, að stúlka úngleg kæmi út úr hólnum til sín og segja: „Stríddu ekki honum föður mínum; þú hefir ekki gott af því, að fara ekki í burt af glugganum." Hann sagðist þá hafa viljað velta sèr í svefninum úr þeim stað, er hann lá á, en þá hefði hún sagt: „Ei skaltu gjöra það undir eins; eg skal kenna þèr eitt vers, áður en þú ferð í burtu." Hann þóktist segja, að hann gæti ei lært það. Hún sagði: „Jú, þú getur víst lært það." Hún mælir þá fram versið svo hljóðandi:

Himneski friðar furstinn hæsti,
frelsarinn sálna útvaldra,
gef eg þig lofi í göfgun stærstri
greitt, meðan lifi um aldirnar;
en þegar lífið endast mitt,
ó guð, tak mig í ríkið þitt.

En í því hún endaði versið vaknaði hann og sá hana gánga frá sèr inn í hólinn; en hann stóð upp og kunni versið; gekk svo þaðan og svaf ei optar á þeim hól.

1. þ. e. Guðmundur, sem getið er um í „Flutningur álfa og helgihald."

**Skarðhóll hjá Látraseli.** (Eptir Gísla Konráðsson.) Maður hèt Gunnlaugur Árnason, er bjó í Hvallátrum á Breiðafirði. Guðrún Ámundadóttir hèt kona hans; áttu þan margt barna, og eru sum lifandi enn. Launson Guðrúnar hèt Sveinn; var hann tólf eða þrettán vetra í seli með móður sinni og mær sú nær tvítug, er hèt Ingibjörg Pètursdóttir.[1] Kippkorn frá Látraseli er hóll sá, er Skarðhóll heitir; trúðu margir, að huldufólk byggi í honum. Sveinn átti að reka kýr hjá hól þeim kvöld og morgna, og var þá opt með hávaða og glensi, því heldur var hann óstýrilátur, þó móðir hans bannaði honum það margsinnis. Var það þá eitt kvöld, að hann kom eigi heim frá kúarekstrinum að venju. Undraðist móðir hans þá um hann, og fór hún og Ingibjörg að leita hans; fundu þær hann hjá Skarðhól viltan og sem frá sèr. Fèkk móðir hans ei orð af honum, fyrri en morguninn eptir heima í selinu. Sagði hann þá, að bláklædd kona hefði komið til sín við hólinn, hrínglað framan í sig lyklum mikillega, gripið síðan til sín og snúið sèr í snarkrínglu kríng um sig. Þókti hann aldrei fullheill síðan, og komst undir tvítugt.

**Álfkonan í Múla.** (Eptir handriti Ólafs Sveinssonar í Purkey.) Vestur undir Barðaströnd í Látrum í Flateyar sókn bjó maður, Ingimundur að nafni; var það maður vel við efni, og eru barnabörn hans enn á lífi. Þessi Ingimundur var atorkumaðnr og óblautgjörður í geði. Í landar eigninni var hólmi, er mèr hefir sagt verið að Múli heiti; hann hafði aldrei mátt slá, og aldrei var hann sleginn; en gras var mikið á hólmanum. Þetta tók upp á geðsmuni Ingimundar, að sjá hólmann með miklu grasi, en mega eigi nota sèr það. Gat hann nú eigi leingur unað við það, og bauð því mönnum sínum að slá hólmann. Kona hans bað hann um að láta eigi gjöra það; en hann gaf sig þar ekki að, og lèt slá hólmann á móti vilja konu sinnar; svo var hólminn sleginn, og nýttist vel grasið, og var mikið hey af hólmanum, og þóktist Ingimundur vel hafa ráðið, að láta slá hólmann. En um haustið dreymdi konu Ingimundar, að henni þókti kona til sín koma, og nokknð ángursöm í bragði; hún mælti svo: „Illa gjörði bóndi þinn, að hann lèt slá ey þá, er eg í bý, og verð eg því að drepa kú mína, er eg hafði björg af, og skal maður þinn njóta þín; en þó skal hann bera menjar minar sökum þess, að eg verð fyrir hans skuld að farga kúnni minni.“ Gekk hún svo á burt og til Ingimundar, er svaf í öðru rúmi, og sagði við hann í svefni: „Þú nýtur konu þinnar, að eg geld þèr ei verðug laun fyrir það, að þú hlýddir ei konu þinni, og lèzt slá hólma þann, er hún bað þig að láta ei slá, og fyrir því að þú lèzt slá hann, verð eg að drepa kú mína; en þó vil eg, að þú til þess muna skulir;“ hún tekur þá um hönd hans og sagði: „Eigi skaltu nú á harðara kenna.“ Síðan gekk hún á burt, en hann vaknar, og kennir til verkjar í

1. Eptir henni, nær sextugri, er saga þessi tekin 1859.

hendinni. Visnaði hún svo upp, og gat hann aldrei úr því neitt með henni unnið. þetta er satt, og er þetta sönnnn fyrir því, að sama er búskaparlag þessara jarðarbúa, sem vort.

**Álfakýrin.** (Eptir handriti Ólafs Sveinssonar í Purkey.) Opt hafa sèzt kýr í fjósum, sem huldufólk hefir átt, og á stundum margar. það var einu sinni, að bóndi fór í fjós sitt á einum bæ, er eg eigi man nafn á; en þetta var á Vestfjörðum. þá hann kom í fjósið, sá hann, að grá kýr stóð á flórnum; hann sá, að hann átti ekki kúna. Bítur hann þá í eyrað á henni, svo úr blæðir, varð kýrin svo hans; því að hún fór eigi burt úr fjósinu.

Um nóttina dreymdi konu hans, að henni þókti kona til sín koma og segja: „Illa gjörði bóndi þinn, að marka kú mína sèr til eignar, þar eg er nú bjargarlaus fyrir mig og börn mín, þar sem eg átti ei aðra kú, er mjólkað hefði í vetur, en þín skal hann þó njóta, að honum skal ei mein að verða, þó með því móti, að hann gefi mèr einn hlut af skipi sínu í vetur, hvert sinn er hann rær til krossmessu, og láti hann vera út af fyrir sig óslægðan, en eg skal láta sækja hann.“ þessu játaði konan. „Líka vil eg fá kálfinn undan kunni, þá hún ber,“ segir huldukonan; því játar og hin, fer hún síðan á burt. Konan segir manni sínum frá samtali huldukónunnar og sín í svefninum, og biður hann, að bregða ei út af því, er hún sagðist lofað hafa, „að hún skyldi hafa einn hlutinn hjá þèr, þegar þú rèrir, til krossmessu, óslægðan.“ Bóndi lofar þessu.

En þegar kýrin bar, hvarf kálfurinn þegar á burt; konan lèt allan veturinn annars máls mjólk kýrinnar á afvikinn stað; það var ávalt kvöldmjólkin. En á morgnana var hún alt af í burtu úr fötunni. Kýrin komst í 18 merkur, og hèlt því vel á sèr; undan þessari kú voru aldar margar kýr, og urðu flestar vænar; lifa og kýr af því kyni, að sögu manna, þar vestra.

Bóndinn fiskaði vel, þá hann reri, um veturinn og vorið svo ei hafði hann í annan tíma betur fiskað. Lèt hann ávalt skiphlutinn afsíðis óslægðan á kvöldin, þá hann var búinn að skipta; en á morgnana var hann burtu; gekk svo til krossmessu. Daginn eptir krossmessu reri hann, og fiskaði vel; lèt hann þá skiphlutinn óslægðan í sama stað, er hann var vanur að láta hann. En um morguninn var hann kyr, eins og hann hafði við hann skilið um kvöldið; tók hann þá hlutinn til sín, og svo úr því.

Nú var úti sá tími, er huldukonan tiltók að hafa hlutinn, enda vitjaði hún hans ekki framar, og þótt hún hafi sèð hann í sama stað látinn, sem áður hafði gjört verið, og vitað, að hann væri sèr ætlaður, þá vildi hún ekki snerta hann, þar eð sá tími var endaður, er hún hafði tiltekið að mega njóta hans.

„**Ló, ló mín Lappa.**" (Eptir handriti Ólafs Sveinssonar í Purkey.) Það var á bæ einum fyrir vestan, að fjósamaður fór um veturinn eptir vöku, eins og hann var vanur, í fjós að gefa kúm ábæti, áður en stúlkan fór út, sem mjólkaði. Þegar hann kom í fjósið, stóðu 4 kýr á flórnum; hann hèlt að þetta væru kýrnar, er ættu að vera í fjósinu og mundu þær hafa slitið sig allar. Maður þessi var skapstyggur í lund, og gætir nú einkis, þar eð hann reiddist. Hann tekur nú með harðneskju í eyrað á einni, og vill koma henni á bás, en hún var treg, og í bráðræði bítur hann í hrygginn á henni svo fast, að blóð sprakk út. En í þessum svifum kom stúlkan, sem átti að mjólka, í fjósið með ljós, og spyr, hvað ágángi; því að hún heyrði svæsin orð til mannsins, og umgáng í fjósinu. Þegar ljósið skein í fjósinu, sá fjósamaður, að kýrnar voru í básunum eins og þær áttu að vera, en eingin fleiri í fjósinu en átti að vera, nema sú, er hann var að stima við, og sem hann hafði í reiði bítið í; henni var of aukið. En hinar 3 voru á burtu farnar. Stúlkan spyr, hverju þetta gegni. Hann kvaðst ei vita það, og sagði henni frá, hvernig hefði staðið á, þegar hann hefði komið í fjósið, og hefði hann haldið, að það væru sínar kýr, er á flórnum hefðu staðið, og væru allar orðnar lausar; það hefði þá komið í sig gremja við þær, og hefði hann því gripið þessa, er hann nú hèldi í, og ætlað að koma henni á bás, en ei getað það; en í básana kvaðst hann ei hafa gáð. „Þetta gjörðir þú illa", sagði stúlkan, „og er eg hrædd um, að þú hafir ílt af þessu." Fer hún síðan inn, og segir húsbóndanum frá; en húsbændum þeirra þókti þetta hafa mjög illa til tekizt. Fèr húsbóndinn nú í fjósið, og ávítar fjósamann fyrir þetta. Hann vildi láta kúna fara út úr fjósinu; en kom henni þaðan ekki; var hún síðan látin í bás, sem auður var. Þessi kýr var með fullu júgri og stóru; sagði hann stúlkunni að mjólka hana; en hún gat litlu náð úr henni. Síðan reyndi konan, og fór það á sömu leið, þar eð kýrin ólmaðist; gekk þetta tvo daga, að litlu varð náð úr henni. En um kvöldið á hinum öðrum degi, er kýrin hafði þar verið, var konan sjálf í fjósi, eptir það að inn var farið, og hafði ei ljós. Þegar hún hafði verið þar litla stund, heyrði hún, að farið var um dyrnar, og inn í fjósið, og upp í básinn til kýrinnar, og svo þaðan og út; en konan fór inn, og þá mjólka átti, fór húsfreyja í fjós að mjólka; en þá hún fór að mjólka þessa aðkomnu kú, lèt hún, eins og hún hafði áður látið. Þá heyrði hún sagt á glugga fjóssins:

„Ló, ló mín Lappa,
sára ber þú tappa,
það veldur því, að konurnar
kunna þèr ekki að klappa."

Þá fór konan að klappa kúnni, og nefna hana nafni sínu, sem hún heyrði, að hún var nefnd í vísunni af álfkonunni á fjósglugganum. Gat hún þá mjólkað hana, þar eð hún stóð þá kyr, og mjólkaði mikið. Ei er

þess getið, að hjóinn hafi sakað; en fjósamaðurinn varð lánlítill. Margar kýr höfðu komið af þessari kú, og var svo að orði kveðið, að þær væru af Löppu-kyni.

**Graðúngurinn í Rúgeyum.** (Eptir handriti Ólafs Sveinssonar í Purkey.) Í Rúgeyum hèr á Skarðsströnd mátti aldrei graðúng hafa; þeir voru ávalt drepnir; ei þurfti heldur að sækja naut til kúnna á vetrum; þær feingu við huldunauti þar á eynni. Þetta gekk leingi fram eptir marga manns aldra, þángað til bóndi nokkur kom þángað er Sigurður hèt; hann keypti graðúng af landi til kúnna sinna og var hann jafnskjótt drepinn, og hann var þángað kominn. Þetta lèt hann gánga í 20 ár; en allir voru drepnir, nema hinn 20.; hann lifði, og síðan hefir þar graðúngur verið. Aldrei mátti tún slá í eyum þeim; það er og lítið tún; sýnist svo, að huldufólk þar hafi viljað kosta graðúnginn fyrir þá bændur er þar bjuggu til lèttis í staðinn fyrir grasið af túninu.

**Hjúin á Aðalbóli.** (Eyfirzk sögn) Nálægt Jökuldal í Norðurmúlasýslu liggur eyðidalur, er nefnist Hrafnkelsdalur; voru tilforna í honum tveir bæir; hèt annar Aðalból. Þar bjó bóndi, sem hèlt vinnumann og vinnukonu, er hètu Gunnlaugur og Sólveig; voru þau trúlofuð sín á milli. Gunnlaugur gætti fjár á vetrum. Var þar beitarhús, og lángt til frá bænum; var hann þar opt nótt í skammdeginu, þegar hann varð seint fyrir og átti þar jafnan nesti. Það var einu sinni, að hann var nótt í húsinu, sem optar, og áður hann legði sig til svefns, fèkk hann sèr bita af nestinu. Varð hann var við, að í það hafði verið kroppað, líkt og mýs hefðu verið. Furðar hann á þessu. Og er hann kemur heim, getur hann um þetta. En um nóttina dreymir hann til sín koma bláklædda konu, stóra og illilega, er svo mælti: „Illa gjörðir þú að segja eptir börnum mínum, þó þau kroppuðu í nesti þitt, munaði þig það eingu, og skaltu þess gjalda.“ Gunnlaugur sagði drauminn um morguninn. Er hann heima nokkrar nætur. Einn dag að áliðnu gjörði veður dimt. Gekk þá Gunnlaugur til beitarhúss; gjörði föl um kvöldið, svo rekja mátti spor. Um nóttina dreymdi Sólveigu, að Gunnlaugur kom til hennar og var allur marinn og blóðugur. Hann mælti: „Svona er búið að fara með mig, en þókti mèr verra að sjá hvernig farið var með hana Gullkollu þína“ (Sólveig átti á, er var nefnd Gullkolla). Henni varð bilt við og vaknaði. Sýndist henni hún sjá eptir manninum gánga frá rúminu. Þetta þykir henni kynlegt, og sagði hún drauminn um morguninn. Einginn meinti þetta annað, en markleysu eina. Leið svo dagurinn, að ekki kom Gunnlaugur heim; fór mönnum að leingja. Daginn eptir var gjörð leit, komu menn að húsinu og fundu fèð inni og sáu spor eptir manninn fram dalinn; geingu þeir fram með ánni og fundu Gullkollu alla sundur marða, og var ekki eitt bein heilt í henni, en spor Gunnlaugs röktu þeir fram undir björg,

er voru beggjamegin árinnar. Lá hann þar allur sundur marinn og blóðugur; var ekkert lífsmark með honum. Var nú líkið flutt til bæar, grafið síðan að kirkju. En Solveig undi ei leingur á Aðalbóli, fèkk hún fararleyfi og fluttist að Hafrafellstúngu í Axarfirði, giptist þar síðar og átti úngan mann, er Sigvaldi hèt. Þau áttu 5 börn, er svo hètu: Gunnlaugur, Guðmundur, Eiríkur, Sólveig og Þorbjörg; hafa þau uppi verið undir þennan tíma.

**Djúpatjörn.** (Eptir handriti síra Jóns Þórðarsonar á Auðkúlu.) Í Skörðum, það er bygð í fjöllum milli Skagafjarðar- og Húnavatnssýslu, er bær einn, sem nefndur er Selhólar. Nálægt bænum er tjörn. Í tjörn þessari er mergð af silúngi smáum og stórum, en hvenær sem net eru lögð í tjörnina, finnast þau ávalt að morgni uppi á bakka, annaðhvort undin saman í hnikil, ellegar rifin sundur. Þetta hefir opt verið reynt, og hefir jafnan farið á sama veg.

Eitt sinn var fólk á grasafjalli og lá við Djúpatjörn. Einn morgun kom stúlka út úr tjaldinu, um sólaruppkomu. Sá hún þá 5 báta á tjörninni og 2 menn á hverjum, nema 3 á einum, og var sá báturinn stærstur. Voru þeir að draga upp net og öfluðu vel. Þóktist hún vita, að þetta mundi vera huldufólk, og hafði augun leingi á bátnum. En þegar henni varð litið af þeim, sá hún þá eigi framar.

**Konan á Breiðavaði.** (Eptir handriti Snæbjarnar Egilssonar á Klippstað.) Á Breiðavaði í Eyðaþínghá var kona ein, sem kom út seint um kvöld; og var þá túnglsskin, og sá hún tvo menn koma að bænum. Hún sá, að annar þeirra benti á sig með fíngri á hægri hendi, og fær hún þegar verk í annað augað, svo hún varð að grípa fyrir það, og er hún leit upp aptur, sá hún engan mann. Gengur hún þá inn aptur. En er hún kom inn í baðstofuhitann, elnaði henni svo verkurinn, að hún gat ekki sofnað um nóttina, og um morguninn var augað blátt og þrútið. Fór hún þá út að Eyðum til sèra Gríms, sem þar var prestur, og sýndi honum þessa meinsemd. Sagði hún honum, að hún hefði sèð huldumann af verra tægi. Hann fór með hana í kirkju, vígði messuvín, og lèt það drjúpa á augað; dró þá úr allan verk og varð hún aptur heil heilsu sinnar.

**e)** Einkum er álfum gjarnt til að ná til sín börnum, bæði með því að skipta um þau, meðan þau liggja í vöggu, og með því að laða þau að sèr, hylla þau eða heilla, þegar þau eru komin á legg, og geta geingið úti við. Fyrir því varast menn, að skilja nýfædd börn mannlaus eptir, nema krossað sè bæði yfir barnið og undir það, áður en það er lagt í vögguna, til að varna þeim ófögnuði, að um það verði skipt. Þess er og við getið, að kona ein á Básum í Grímsey hafi aldrei geingið svo frá syni sínum, meðan hann var úngur, að hún skildi ekki eptir hjá honum

Jóns postillu opna, til að verja hann umskiptíng og öðru illu.[1] Þegar skipt er um börn, er það barnið, sem álfar láta í stað hins rètta barns, ávalt illa lynt og óvært, og er sú orsök til þess, að álfar velja úr sínum hóp afgamla og útlifaða karla og kerlíngar, og láta í stað hins barnsins í vögguna; það heitir **umskiptíngur**. Af því það eru æfagamlar karlhrotur tannlausar, sem álfar leggja aptur í vögguna, taka umskiptíngar aldrei tennur. Ekki er heldur hætt við, að skipt verði um það barn, sem búið er að taka tennur, og er til þess sú saga, að einu sinni varð þess vart, að tvær álfkonur voru komnar að barnsvöggu. En á meðan önnur þeirra var að koma í lag hnósanum, sem þær ætluðu að leggja í vögguna fyrir hið rètta barn, fór hin upp í það með fíngrinum, og fann, að það var búið að taka eina tönn. Segir hún þá við hina:

„Upp er komin tillitá og takt'á;
sjóvetlingur situr hjá og segir frá;"

því hjá vöggubarninu átti að sitja annað eldra, sem sagði frá aðförum álfkonanna og nam þessi orð, og fóru þær þá óðar burtu með krógann sinn við svo búið.[2] En ekki var hættan minni, þó börnin væri vel á legg komin; því þá höfðu álfkonur[3] þær brellur í frammi, að þær brugðu á sig mynd móður barnsins eða fóstru, eða einhvers þess, er barnið var að elskast, og heilluðu þau á eptir sèr eða til sín á þann hátt. Stundum gintu þær börn á gullum nokkrum, sem börnin sóktust eptir. Sagt er, að sum börn, sem álfar hafa hylt til sín, hafi dvalið hjá þeim skemur, sum leingur, og sum aldrei átt apturkvæmt til mannheima.

**Áttræður umskiptíngur.** (Eptir handriti sèra Jóns Norðmanns.) Það hefir verið sagt frá umskiptíngi einum, að kerlíng nokkur, sem lá undir barninu, og þóktist vita, að það var ekki eðlilegt barn, spurði hann einu sinni: „Hvað ertu gamall, skömmin þín?" „Áttræður," svaraði dreingurinn. Var svo reynt, að koma honum upp á altarið;[4] en hann varð þá svo hár, að hann komst þar ekki fyrir.

**Umskiptíngurinn í Sogni.** (Eptir þeim systrum Ragnheiði og Ragnhildi Einarsdætrum.) Einu sinni var tvíbýli í Sogni í Kjós, og hèt annar bóndinn G.; hann átti son, sem ekki þókti vera með öllum mjalla. Hvorki lærði hann neitt til munns nè handa, nè hafðist að, en lá alt af í rúminu, og þókti vera í meira lagi matfrekur. Menn gjörðu sèr helzt í grun um

1. Eptir handriti sèra Jóns Norðmanns, sem var áður prestur í Grímsey, en nú á Barði í Fljótum.

2. Eptir þeim systrum Ragnheiði húsfrú Þorvaldar verzlunarmanns Stephensens í Reykjavík, og Ragnhildi Einarsdætrum frá Meðalfelli í Kjós.

3. Aldrei hefi eg heyrt þess getið, að huldumenn hafi átt að skipta um börn eða hylla, en allajafna álfkonur.

4. Ekki er mèr ljóst, til hvers hafi átt að koma honum þar upp.

pilt þenna, að hann væri umskiptíngur, en leingi var það fram eptir, að það þókti ekki fullvíst. Þegar piltur þessi var kominn nm venjulegan fermíngar-aldnr, stóð svo á einu sinni um vetur, að alt fólk fór úr baðstofunni út til gegnínga, nema þessi dreingur; hann lá eptir í rúmi sínu, eins og vant var, og konan á hinu búinu, sem lá á sæng og barnið hjá henni; alt var þetta í sömu baðstofunni. Þegar fólkið var farið út, heyrði sængurkonan, að geispa mikla fór að setja að dreingnum, svo henni fór að þykja nóg um, og koma í hana ónotahrollur af látunum í honnm. Því næst heyrir hún, að hann fer að hafa nmbrot í rúminu og teygja sig; verður hún þess þá vör þegar eptir, að hann er staðinn upp í rúminu, og teygir þá úr sèr, svo að hann nær upp í rjáfur í baðstofunni. En baðstofan var bygð á bekk, og skammbitar í sperrum ofarlega. Setur þá enn að honum geispakast, og hallast hann um leið með andlitið upp að skammbitanum einum, og ber bitann rètt upp í opið ginið á honum, er hann gapti á geispanum, og gein hann svo yfir bitann, að efri skolturinn lá ofan á honum, en hinn undir; þar með varð hann svo herfilega ljótur og leiður ásýndum, að konan varð dauðhrædd, og hljóðaði upp yfir sig af ángist, að sjá þetta og vita sig eina með honum í baðstofunni, og var hún leingi ístöðulítil eptir þessa ósjón. En undir eins og konan rak upp hljóðið, hrökk hann við, sem byssubrendur, og ofan í bæli sitt aptur, og komst í samt lag, áður en fólkið kom inn frá gegníngunum. Eptir þetta þókti það ekkert efamál, að dreingurinn væri umskiptíngur.[1]

**Átján barna faðir í álfheimum.** (Almenn sögn.) Það var á bæ einum um sumar, að fólk alt var á eingjum, nema húsfreya; hún var heima og gætti bæar með syni sínum á þriðja eða fjórða árinu. Sveinn þessi hafði vaxið og vel dafnað til þess tíma; altalandi var hann orðinn, skýr og efnisbarn eitthvert hið mesta. En með því konan átti um ýms bæarstörf að annast auk sveinsins, varð hún að víkja sèr frá honum litla hríð, og fór út í læk, er var skamt frá bænum, að þvo mjólkurtrogin. Skildi hún barnið eptir á meðan í bæardyrunum, og segir ekki af því, fyrr en konan kom aptur eptir drukklánga stund. Þegar hún yrðir á það, hrín það og æpir illilegar og ámátlegar, en hún átti von á; því áður var barnið mesta spektarbarn, þýðlynt og þægt. En nú fær hún ekki af því nema óhljóð ein og illhrínur. Líður svo nokkuð hèr frá, að barnið mælir ekki orð frá munni, en var ákaflega keipótt og rellið, svo konan kunni ekkert lag á þessum háttaskiptum; það vex og ekki og lætur fíflslega mjög. Konan varð mjög ángrað af þessu, og tekur það ráð, að hún fer að hitta

1. Svo stendur á teygjnm nmskiptinga, að til þess, að þeir sýnist litlir, sem vöggubarn, hnoða álfkonur þá og kýta saman, áður en þær leggja þá í vögguna fyrir barnið, sem þær taka. Enn þótt þeir sýnist eins litlir og börn, þurfa þeir öðru hvoru að teygja úr sèr, því þeir geta ekki alveg afneitað sinni fyrri náttúru, og sæta þeir því lagi að gjöra það, þegar þeir ætla, að einginn sè nálægur, eða sjái til sín.

grannkonu sína, er þókti vera hyggin og margfróð, og segir henni frá hörmum þeim, sem sig hafi hent. Konan innir hana grant eptir, hvað lángt sè síðan, að barnið hafi tekið þessa fásinnu, og hvernig hún ætli það hafi atvikast. Móðir sveinsins segir henni alt af lètta, eins og geingið hafði. Þegar grannkonan hin fróða hafði heyrt alla málavöxtu, segir hún: „Heldurðu ekki, góðin mín, að sveinninn sè umskiptíngur? Því það er ætlun mín, að um hann hafi skipt, meðan þú gekkst frá honum í bæardyrunum.“ „Eg veit ekki“, segir hin, „eða geturðu ekki kent mèr ráð til að komast eptir því?“ „Það mun eg geta“, segir konan; „skaltu einhvern tíma skilja barnið eptir eitt saman, og láta einhverja nýlundu bera fyrir það, og mun það þá eitthvað mæla, er það sèr eingan í kríng um sig. En þú skalt hlera til, og vita, hvað því verður að orði. Þyki þèr þá orðtök sveinsins undarleg og ískyggileg, skaltu strýkja hann vægðarlaust, uns eitthvað skipast um.“

Að svo mæltu skildu þær talið, og þakkaði móðir sveinsins grannkonu sinni heilræðin og fór heim síðan. Þegar konan er heim komin, setur hún höldupott lítinn á mitt eldhús-gólf; síðan tekur hún sköpt mörg, bindur hvert við enda annars, svo að efri endinn tók alt upp í eldhússtrompinn, en við hinn neðri batt hún þvöruna, og lèt hana standa í pottinum. Þegar hún hafði veitt þennan umbúnað í eldhúsinu, sókti hún sveininn og lèt hann þar einan eptir verða; gekk hún þá úr eldhúsinu og stóð á hleri, þar sem hún sá gegnum dyragættina inn í eldhúsið. Þegar hún var fyrir litlu burtu geingin, sèr hún, að barnið fer að vappa í kríng um pottinn og virða hann fyrir sèr með þvörunni í, og segir síðan: „Nú em eg svo gamall, sem á grönum má sjá, átján barna faðir í álfheimum[1] og hefi eg þó aldrei sèð svo [lángan gaur[2] í svo litilli grýtu.“[3] Fer þá konan aptur inn í eldhúsið með vænan vönd, tekur umskiptínginn og afhýðir hann leingi og óvægilega. Æpir hann þá ógurlega. Þegar konan hefir strýkt sveininn um hríð, sèr hún, að ókunnug kona kemur inn í eldhúsið með sveinbarn á handlegg sèr fagurt og frítt; lèt hún vel að því og segir við konuna: „Ójafnt höfumst við að; eg dilla barni þínu, en þú berð bóndann minn.“ Að því mæltu setur hún af sèr sveininn, son húsfreyu, og verður hann þar eptir, en hefir karl sinn burtu með sèr og hurfu þau þegar. En sveinninn vóx upp hjá móður sinni og varð efnismaður.

**Tökum á, tökum á.** (Almenn sögn.) Tvær álfkonur fóru einu sinni heim á bæ einn til að skipta um barn. Þær koma þar að, sem barnið er sem þær ætluðu að taka. Það lá í vöggu. Einginn maður var þar nærri,

1. Hèr bætir Sigurður Guðmundsson málari inn í: „og margar skammir framið,“ í staðinn fyrir það hefir Magnús prestur Grímsson: „og tuttugu barna afi.“
2. Frá [lánga staung, S. m.
3. Pytlu. M. G.

nema annað barn tvævett. Ýngri álfkonan og ógætnari geingur þegar að vöggunni og segir:

„Tökum á, tökum á."

þá segir hin eldri:

„Ekki má, því mein er á,
kross er undir og ofan á;
tvævetlíngur situr hjá
og segir frá."

Við það fóru þær burtu og feingu ekki aðgjört, bæði sökum krossmarksins, sem gjört hafði verið yfir vögguna og undir barnið, áður en það var lagt út af, svo og vegna hins tvævetra barns, er hjá vöggunni sat, og síðan sagði frá þessum atburði.

**Guðlaugur á Hurðarbaki.** (Eptir þeim systrum, Ragnheiði og Ragnhildi Einarsdætrum.) Ólafur hèt maður; hann bjó í Botni í Botnsdal í Borgarfjarðarsýsln. Hann átti son, sem Guðlaugur hèt; þegar hann komst npp, bjó hann á Hurðarbaki í Kjós, og þókti góður bóndi. þegar hann var barn, hafði móðir hans þann sið, að hún bar barnsvögguna út í tún um sumarið, þegar hún var að raka. Einu sinni sèr hitt fólkið, sem á túninu var, að tvær konur eru komnar að vöggunni, og var önnur þeirra að virða Guðlaug litla fyrir sèr, þar sem hann lá; en hin sat á fótum sínum, og var að hnoða böggul nokkurn, sem var lítið stærri til sýndar, en Guðlaugur var þá orðinn. Fólkinu varð mjög bilt við þetta, kallar til móður hans og segir: „Líttu' á." Í því stökkva báðar konurnar burtu, og voru horfnar sýnum, áður en móðir Guðlaugs kom að vöggunni. Einleikið mál var um það, að þetta mundu hafa verið álfkonur, sem hefðu ætlað að skipta um börn. En ekkert varð Guðlaugi meint við komu þeirra, af því nógu snemma var aðgætt.

**Barnsvaggan á Minni-þverá.**[1] (Eptir handriti sèra Jóns Norðmanns, 1848.) Kristín, sem var á Minni-þverá (hèr um bil 1830—40), sagði frá því um móður sína, sem var skygn, að hún hefði verið með ömmu Kristínar á eingjum, og sèð einu sinni konur tvær koma ofan úr fjalli, og leiða karl á milli sín, sem eitthvað bar. þegar þær komu nær, leystu þær pjaunkuna ofan af karlinum; sá hún þá, að það var vagga, og breitt með rauðu yfir. Síðan tóku þær karlinn og börðu hann utan, svo hann fór að smá-minnka, og var orðinn pattakorn. þá tóku þær hann enn, og hnoðuðu, uns hann var orðinn eins lítill og vöggubarn. Lögðu þær hann þá í vögguna, breiddu rauða klæðið yfir, báru hana svo á milli sín og stefndu með alt saman heim að bænum. Stúlkan sagði þá móður sinni frá því, sem hún hafði sèð; en móðir hennar brá skjótt við, hljóp heim og varð fyrri, en

1. Líklega í Holtshrepp í Skagafjarðarsýslu.

huldukonurnar, að barns vöggu, sem hún hafði látið standa úti á hlaðinu. En þegar huldukonurnar sáu það, tóku þær barnið, sem þær voru með, úr vöggunni, og rass-skeltu það, smá-hröktu svo og hrintu því á undan sèr. Við það stækkaði karl þeirra óðum aptur, þángað til hann varð eins og hann var upphaflega; hèlt hann svo með þeim upp í fjall, og hurfu þau þar öll.

**Sèra Jón Norðmann.**[1] (Eptir handriti hans 18. Jan. 1850 og sögn móður hans.) „Þegar eg var úngur," segir sèra Jón, „og í vöggu, dreymdi móður mína eina nótt, að henni þókti kona koma, og taka barnið úr vöggunni, og hlaupa burt með það. Móðir mín elti hana og heimtaði barnið með bistum orðum, sagðist aldrei hafa gert henni neitt, og sagðist skyldi verða henni leistur í annan skó, ef hún lèti ei barnið laust. Loks lèt konan barnið aptur í vögguna, þó nauðug, og sagði um leið: „Þú skalt þá hafa nokkuð samt." Strauk hún þá hendinni framan um móður mína. Daginn eptir fèkk móðir mín kvöl fyrir bringspalirnar og blánaði öll framan, og hafði þá meinsemd í mánuð."

**Hyllínga-tilraunir álfa.**

Barnið vilta undir Eyafjöllum. Undir Eyafjöllum bar svo við, að barn hvarf einu sinni. Var þess þá víða leitað og fannst um síðir í gjótu einni uppi í fjalli; urðu menn þó að víðka gjótuna, áður en barninu varð náð; svo var hún þraung. En er menn höfðu náð barninu, sagði það frá því, að sèr hefði sýnzt hún móðir sín fara altaf á undan sèr og hefði það elt hana þángað.

Bjarni Thorarensen og sonur hans. Lík saga er sögð um þjóðskáld vort, Bjarna Thorarensen, er hann var í æsku. Hann ólst upp á Hlíðarenda; en þegar hann var lítill dreingur, hvarf hann einu sinni, og fanst ekki í 3 eða 4 daga. Loksins fanst hann lángt uppi á heiði, upp með Merkjá; því hann hafði farið upp frá bænum á Hlíðarenda. Sat hann þar uppi á hárri klettasnös, með rauða húfu á höfði. Fyrst hèldu menn, að þetta væri örn; svo hátt var upp þángað, er hann sat.[2] Þegar búið var að ná honum þar ofan af með mikilli fyrirhöfn, sagði hann, að hún móðir sín hefði farið þángað upp með sig. — Viðlíka saga er og sögð um Þórarinn, son Bjarna amtmanns, er hann var barn á Gufunesi, og sagði hann eins frá því, með hverjum atvikum hann hefði horfið, er hann

1. Þó saga þessi hljóði ekki um tilraun til að skipta um börn, heldur barnsrán, set eg hana hèr, af því hèr ræðir um vöggubarn, sem álfkona virðist hafa viljað ná.

2. Merkjá er eitt af örnefnunum, sem Bjarna þóktu skreyta mest Fljótshlíð í kvæði því, sem hann hefir ort með því nafni, sbr. „Kvæði Bjarna Thorarensens, Kh. 1847," 4—5. bls. Bæði þessi saga, hin næsta á undan og á eptir (um Þórarinn) eru teknar eptir Dr. Maurers Isl. Volkss. 13. bls., og eru þær prentaðar eptir sögn Sighvats hreppstjóra Árnasonar og sèra Ólafs prófasts Johnsen.

fannst og var spurður um það. En afleiðíngarnar urðu lakari fyrir hann, en föður hans, því sagt er, að Þórarinn sè ekki með öllu ráði síðan.

Sæmundur á Staðastað. Nálægt Staðastað er hóll einn, sem sögumaðurinn man ekki hvort heldur heitir Berghóll eða Dverghóll. Einu sinni var Sæmundur, sonur sèra Guðmundar á Staðastað heillaður þángað áleiðis. Var hann eltur og náðist í mýrinni, þegar að honum var komið, var hann að biðja kvennmann, sem hann sagði að geingi á undan sèr, að ljá sèr fallega gullið, sem hún hèldi á. Sæmundur var þá hèr um bil 14 vetra.[1]

Prestssonurinn á Knappstöðum. Það er fært í frásögur, að einhvern tíma hafi horfið prestssonur frá Knappstöðum í Stíflu. Var hann burtu í mörg ár. Þegar hann kom aptur, sagðist hann hafa verið hjá huldufólki á Túngudal, og væru kirkjusiðir þess líkir vorum.[2]

Sigríður frá Þorgautstöðum. Frá því hefir sagt þessi kona, sem var 1850 á Sigríðarstaðakoti í Holtshrepp í Skagafjarðarsýslu, en uppalin á Þorgautstöðum í sama hrepp, að einu sinni var hún að leika sèr, þegar hún var úng, úti á svellum, en föl var á jörðu. Sýndist henni þá móður sín ganga þar upp eptir, og elti Sigríður hana leingst upp í fjall, þángað til loksins að hún vissi ekki fyrri til, en móðir hennar, hin rètta, greip aptan í hana. Hún hafði sumsè saknað Sigríðar, komizt á förin hennar og elt hana svo.[3]

Meystelpan á Kirkjubóli. (Eptir Gísla Konráðsson.) Páll bóndi Sæmundarson bjó á Kirkjubóli á Bæarnesi, faðir Árna,[4] fyrrum hreppstjóra í Múlasveit. Síðari kona Páls, móðir Árna, hèt Málfríður Jónsdóttir. Hún var ein heima um eingja slátt að búverkum, og hjá henni meystelpa lítil til viku, tökubarn. Eitt sinn var mærin úti við ein, og kom eigi aptur til Málfríðar; tók hún að undrast um hana, gekk út að leita hennar á hól þann í túninu, er Lánghóll heitir. En klettagil mikið liggur upp frá túninu, er Svartagil heitir. Sá Málfríður þá, að mærin var komin upp í gilið, og tekin að klifra upp í klettana. Flýtti Málfríður sèr eptir henni, og kallaði á hana. Sneri mærin við það aptur; leiddi Málfríður hana heim og spyr, því hún færi svo afgeipa. Mærin segir, að bláklædd kona segði sèr að koma með sèr, er mjög hefði verið lík Málfríði, en hyrfi sèr, er Málfríður kallaði.

Hyllíngartilraun. (Eptir handriti sèra Sveinbjarnar Guðmundssonar, nú í Móum á Kjalarnesi.) Það bar til ei fyrir laungu síðan við Hellna, að stúlkubarn í koti nokkru tók það fyrir, að það settist upp á baðstofumænirinn. Þetta var á sunnudag, og hafði alt fólkið úr kotinu farið til kirkju, svo barnið

1. 2. og 3. Eptir handriti sèra Jóns Norðmanns.

4. Eptir honum, nú komnum yfir sjötugt, er sagan tekin 1859; sbr. Dr. Maurers Isl. Volkss. 13—14. bls.

var aleitt heima, og því tók það upp á þessari rælni. Stúlkan var 9 vetra. Þegar hún hafði setið uppi á baðstofunni dálitla stund, sèr hún, að hjá bæarveggnum kemur kona upp á búin með fald, að öllu útliti eins og móðir hennar átti að vera. Þykist stúlkan þekkja hana, og hleypur ofan til að fagna henni. En konan gekk á fram þegjandi, og dró eitthvað fallegt á eptir sèr. Stúlkan elti hana, og vildi sjá, hvað hún móðir sín væri með. En þegar hún var komin góðan kipp frá bænum dettur hún, en þegar hún stendur upp aptur, sèr hún hvergi mömmu sína. Þóktust menn seinna sjá, að þetta hefði verið álfkona, sem hefði ætlað að hylla stúlkuna.

Sveinninn, sem undi ekki með álfum. (Eptir handriti sèra Jóns Þórðarsonar nú á Auðkúlu.) Norður í Þíngeyar-sýslu hvarf eitt sinn dreingur á 4. árinu. En að viku liðinni fannst hann undir háum klettum, er voru í nánd við bæinn. Voru þá þrjú fíngraför á kinn hans. En er hann var spurður, hvar hann hefði dvalið, sagðist hann hafa verið á bænum Þarna, og benti þeim þar á, er þeim virtust vera klettar einir. Sagði hann, að þar byggi álfafólk og hefði það viljað heilla sig; en hann sagðist ekki hafa getað borðað hjá því, því allur matur hefði sèr sýnzt maðkaður. Hefði það þá sèð, að ekki hefði orðið um sig tætt, og hefði því gömul kona leitt sig brott, og sagt, að hann skyldi þó bera þess menjar, að hann hefði dvalið hjá álfafólki, slegið sig kinnhest og geingið síðan burt. Eptir þetta ólst dreingurinn upp, mannaðist vel og varð merkisbóndi. Eitt sinn reið hann, er hann var orðinn gamall maður, fram hjá klettnm þeim, er hann fannst undir, og kvað hann þá vísu þessa:

Þessar klappir þekti eg fyr,
þegar eg var úngur;
átti eg víða á þeim dyr,
eru þar skápar fallegir.

Þenna mann sá Hallgrímur heitinn Bachmann læknir, og fíngraförin á kinn hans, er hann bar til dauðadags.

Magnús pólití. (Eptir þeim systrum, Ragnheiði og Ragnhildi, Einarsdætrum.) Fyrr meir var hèr í Reykjavík lögregluþjónn sá, sem Magnús hèt, og var ávalt nefndur „Magnús pólití.“ Hann ólst upp á einhverjum bæ austur í Þíngvallasveit. Þegar hann var vel á fót kominn, stóð svo á einu sinni, að hann var eitthvað að gánga úti við á bænum. Heyrðist honum þá, eins og vefur væri sleginn, og í sama bili sýndist honum hann vera staddur fyrir bæardyrum nokkrum, heldur reisulegum. Honum þókti bærinn líkastur Þíngvallastað; því þángað hafði hann komið nokkrum sinnum til kirkju. En þó þykir honum þar sumt hvað nokkuð annarlegt. Hvort sem honum hefir nú komið til hugar, að þetta væri ekki með öllu einleikið, eða af því að hann hefir orðið hræddur, að vera kominn svo lángt heiman að frá sèr, og bæði vantreysti sèr og kveið fyrir að komast heim aptur,

varð honum það eitt til úrræða, að hann hrein upp yfir sig hástöfum. Kom þá kona til dyranna, heilsaði honum vingjarnlega og bauð honum inn. Hann þáði það, en ekkert vildi hann annað af henni þiggja, þó konan vildi láta undur vel að honum, og gerði gælur við hann, og byði honum alt, sem hún hafði fyrir hendi, bitaði fyrir hann fisk með smèri ofan á og lèt það í öskju, köku og smèr, skyr og rjóma, sykur og sitt hvað fleira. En það dugði ekki; dreingurinn vildi ekkert af henni þiggja, nè þýðast hana, en stóð alt af á öndinni af hljóðum og óelju. Þegar konan sá, að hann vildi með eingu móti láta huggast, fór hún með hann, og heingdi hann á skógarhríslu, sem skútti fram af kletti, út á Þíngvallavatn, og skildi svo við hann. Nú er þess að geta, að þegar fólkið á bænum, sem Magnús átti heima á, varð þess vart, að hann var horfinn, fór það alt að leita, en fann ekki. Loksins fann hann smali einn eptir nokkra daga, þar sem hann hèkk á skógarhríslunni, eins og álfkonan hafði skilið við hann, úrvinda og hálfruglaður. Þegar dreingurinn var kominn til sjálfs sín aptur, sagði hann frá öllum þessum atburðum, eins og hann ítrast mundi. Eptir það lærði Magnús og varð stúdent, og voru honum margir hlutir vel gefnir; en þó er það haft eptir honum, að hann hafi sagt, að sèr fyndist sèr ávalt einhvers varnað, fremur en öðrum mönnum, og vildi hann kenna það þessum atburði.

Barnið og álfkonan. (Eyfirzk sögn.) Á Heiðarbót í Reykjahverfi í Þíngeyarsýslu bar það til eitt kveld, er konan var í fjósi, að eitt af börnum hennar gekk út, og ætlaði að elta móður sína út í fjós. Þegar það kemur út á hlað, sèr það hana standa á hlaðinu. Hún bendir því þegjandi og klappar á lærið. Hún geingur hægt og hægt á undan og klappar á lærið og bendir því að koma. Klettastrókar eru þar fyrir ofan bæinn, sem eru nefndir Stöplar. Þángað fer konan og ginnir með sèr barnið; hvarf síðan með það inn í Stöpulinn einn, því þetta var ekki rètt móðir barnsins, heldur álfkona. Nú er að segja frá því, að konan kemur úr fjósinu, saknar barnsins, spyr eptir því, en fólkið, sem heima var, taldi það vera í fjósi hjá móður sinni. Urðu foreldrar þess óttaslegnir; var safnað mönnum og leitað, en fannst ekki, hvar sem leitað var. Bóndi bjó á Sandi, sem Arnór hèt, haldinn fjölkunnugur. Móðirin fór til hans að leita ráða; kom þar seint á degi. Arnór bauð henni þar að gista um nóttina. Hún þá það. Hann spurði hana, um hvert leyti barnið hefði horfið. Hún sagði, sem var. Þetta kvöld um sama leyti tekur Arnór hníf og sker upp þrjár þríhyrndar flögur úr gólfinu í baðstofunni. En er hann skar upp þá seinustu, heyrðist brestur mikill. Síðan lèt hann aptur niður flögurnar í samt lag og kvað konunni mundi óhætt að sofa rólega um nóttina, því barnið mundi komið vera. Daginn eptir fór hún heim; var þá barnið komið. Það þókti mönnum kynlegt, að önnur kinnin á því var blá

og rann bláminn aldrei af síðan. Nú var barnið að spurt, hvar það hefði verið. Það sagði frá konunni, sem það hèlt móður sína, elti hana hálf grátandi og kallaði mömmu, þar til hún var komin upp undir Stöpulinn, þá greip hún það og bar það inn í Stöpulinn, vildi vera góð við það. En það sá nú, að þetta var ekki móðir sín. Ekki smakkaði það mat hjá henni; sýndist því hann allur rauður. En þetta kvöld, er Arnór risti upp flögurnar, hrundu 3 steinar niður úr bjarginu, allir þríhyrndir. En við þann seinasta tók álfkonan barnið; var hún þá reiðuleg, hljóp með það heim að bænum og sló það vænan kinnhest að skilnaði og var það bresturinn, er heyrðist, eptir að seinasta flagan var uppskorin. Af því var önnur kinnin blá. Barn þetta hèt Guðmundur. Hann bjó síðar þar fyrir norðan. Dóttur átti hann, er Elísabet hèt. Hún giptist og jók ætt sína í Eyafirði.

Huldufólkið í Hólaklöppum. (Eptir handriti Jóns alþingismanns Sigurðssonar á Gautlöndum.) Að Hólum í Laxárdal bjuggu einhverju sinni hjón nokkur, efnug og í betri manna röð. Þau höfðu tekið dreing til fósturs, er Erlendur hèt. Hann var á 3. eða 4. ári, er þessi saga gjörðist. Það var eitt kvöld, að fólk alt var úti á túni að vinna á því og hirða eldivið, en kerlíng ein karlæg var inni, og skyldi hún gæta Erlendar og fleiri barna, að þau færu sèr ekki að voða. Það var einhverju sinni um daginn, að kerlíngu sýnist, sem bóndi komi að baðstofudyrúnum og taki dreinginn, Erlend, með sèr, og ætlar kerlíng, að bóndi muni hafa farið með hann út á túnið til fólksins, og gefur þessu eingan gaum. Og um daginn, er fólkið kemur inn að borða miðdegisverð, spyr kerlíng eptir Erlendi. En einginn hefir orðið var við hann, og þversynjar bóndi fyrir það, að hann hafi komið að baðstofudyrum um það leyti, sem kerlíngu sýndist hann koma þar. Furðar alla stórum á hvarfi dreingsins, og er hans víða leitað, og kom fyrir ekkert. Þá bjó Arnþór á Sandi í Aðaldal. Hann var margkunnugur og hafði mörgum að liði orðið, þeim er heillaðir voru af huldufólki, eða ásóktir af fjölkynngi. Tóku hjónin í Hólum það ráð, að þau senda til Arnþórs og biðja hann liðveizlu að vita, hvar dreingur er niðurkominn, og svo að ná honum, ef þess væri kostur. Arnþór segist að vísu vita, hvar dreingur sè niðurkominn. Hann sè hjá huldufólki, sem búi í klöppinni fyrir ofan bæinn að Hólum, en það sè ekki svo auðvelt að ná honum þaðan. Þó segir hann sendimanni að fara heim aptur, og skuli vitja sín, ef ekkert vart við Erlend innan viku. Fer sendimaður við það heim aptur. En á 7. degi, frá því er Erlendur hvarf, sat fólk alt að miðdagsverði inni í baðstofu að Hólum. Og er minnst varði, vindur dreingnum Erlendi inn í baðstofuna, og er hann að öllu leyti eins, og hann var, nema hann hefir feingið bláan flekk á hægri kinnina. Er dreingurinn þá spurður, hvar hann hafi verið, og með hverjum atburðum hann hafi horfið og aptur komið. Segir hann, að þennan dag, er hann hvarf, hafi

bóndinn, fóstri sinn, komið að baðstofudyrum og tekið sig með sèr. Hafi hann farið með sig frá bænum, og yfir lítinn læk, er var á leiðinni. En er þeir höfðu skamt farið frá læknum, komu þeir að litlu, en fögru húsi. Er þar kona fyrir bláklædd, og tekur hún við Erlendi og vill vera honum mikið góð, en dreingur þekkist það lítt. En er Erlendur hefir verið nokkra daga hjá konunni, er það einu sinni, að setur að honum grát mikinn, og leitar konan allra bragða í að hugga hann og getur ekki. Sýnir hún honum gull og gersemar og ýmsa gripi, til að hafa af honum, og kemur alt fyrir eitt. Og fer svo að lyktum, að konan fer með Erlend, og fylgir honum yfir þann sama læk, sem áður er nefndur. Þar skilur hún hann eptir og rekur honum löðrúng, um leið og hún skilur við hann; segir hún, að hann skuli hafa þetta fyrir alla óspektina. Og sem konan er skilin við Erlend, sèr hann bæinn, og heldur heimleiðis. En blái flekkurinn, sem hann hafði á kinninni, var eptir löðrúng konunnar. Erlendur varð gamall maður og nýtur bóndi. Er mikil ætt frá honum komin nyrðra. Er svo sagt, að hann væri með bláa flekkinn á kinninni alla æfi sína.

Smalinn í Fljótsdal. (Austan úr Mýrdal.) Fyrir skömmu (í minni þeirra, sem nú lifa) bjó í Fljótshlíð á bæ þeim, er Fljótsdalur heitir, bóndi sá, er Benedikt hèt. Hann hèlt úngling, sem Magnús hèt, og var Einarsson. Magnús þessi smalaði ánum á sumrin. Svo stóð á, að foreldrar bónda höfðu búið á þessum sama bæ, og var móðir hans hjá honum, þegar þessi saga gjörðist. Jafnan hafði leikið það orð á, að fleira væri kvikt í Fljótsdalslandi, en alþýða sæi, og því þókti sumum varúðarvert að senda únglínga frá bæ að kvöldi, eða um næturtíma. En bóndi var einn af þeim, sem bera alt þessháttar til baka, og kallaði hann það hègóma, sem hvergi ætti sèr stað. Svo bar til eitt kvöld, að vöntuðu 5 ær hjá Magnúsi, og vildi bóndi, að hann færi að leita þeirra, en móðir bónda, sem Anna hèt, mælti á móti, og sagði ekki ráðlegt að senda úngling svo seint frá bænum. En bóndi rèð, og fór Magnús um kvöldið, en kom ekki heim um nóttina og ekki daginn eptir; var þá spurt um Magnús í nágrenninu, en einginn hafði orðið var við hann, leið svo vika, að Magnús kom ekki heim og fannst ekki, þó leitað væri. En þegar vikan var liðin kom Magnús heim heill og hraustur, eins og hann átti vanda til. Bóndi tók honum fálega og bar upp á hann, að hann mundi hafa staðið á bæum, en bað hann þó satt frá segja, hvar hann hefði verið allan þennan tíma. Magnús kvaðst hafa geingið upp með bæargilinu og leitað ánna þar í kríng, meðan sauðljóst var; en þegar dimt var orðið, sagðist hann hafa farið inn í skúta nokkurn, lagt sig þar fyrir og ætlað að bíða þar morguns; sagðist síðan ekki hafa vitað, fyrr en hann var í þokkalegu húsi og þar voru inni þrír kvenmenn, ein fullorðin, en tvær únglegar. Hvort þetta var í draumi eða vöku, sagðist hann ekki vita, en konur þessar sagði hann hafa verið

mikið góðar við sig, og báðu þær hann að vera hjá sèr og fara aldrei burt þaðan. En hann sagðist ekki hafa þorað það, og færðist því undan bæn þeirra. En þegar hann kom til sjálfs sín, var hann í sama skútanum, sem hann lagðist niður um kvöldið og ætlaði, að hann hefði ekki verið í burt leingur en eina nótt. Þetta var sögn Magnúsar og lagði bóndinn lítinn trúnað á hana, en þó gat einginn upplýst þetta betur, því einginn hitti hann tímann, sem haun vantaði. Það er enn fremur sagt, að svo hafi Magnús verið nauðugur að segja frá þessu, að hann hafi sagt, að hann segði ekki frá því, nema bóndi vildi ábyrgjast, að ekki yrði verra af, ef hann hefði orð á því. En bóndi hefur að líkindum gjört lítið úr þeirri ábyrgð. Litlu eptir þetta vantaði enn nokkrar ær hjá Magnúsi, og vildi bóndi, að hann færi að leita þeirra. Kvöld var komið, og mælti Anna, móðir bónda, á móti því, en það tjáði ekki. Magnús kom ekki heim um nóttina, en um morguninn var hans leitað; fannst hann loks í brekku nokkurri í fyrrtèðu gili, en var þá öldúngis lèmagna og mállaus; var hann þá borinn heim, og eptir nokkra legu fèkk hann málið og alla meðvitund; sagði hann þá svo frá, að jafnan, þegar hann ætlaði upp úr gilinu og heim, þá hefði sèr verið hrundið tilbaka niður í brekkuna, þar til hann hefði af þreytu og vanmegni ekki vitað til sín, og skömmu síðar andaðist hann.

Sèra Hávarður. (Eptir handriti Jóns Bjarnasonar í Breiðuvík og Magnúsar Einarssonar á Klippstað í Múlasýslu.) Í Grímstúngum fyrir norðan bjó prestur einn. Átti hann dóttir eina únga að aldri; fósturson hafði hann og, er Hávarður hèt, og var hann á rek við prestsdóttur. Prestur hafði vinnumann einn, er annaðist mjög dreinginn, og svaf hann hjá honum. Kvöld eitt fyrir jól kom bróðir vinnumannsins að Grímstúngum, og beiddist gistíngar, og veitti prestur honum það. Þá var siður að sofa í myrkri, og beiddi vinnumaður prest um að ljá sèr skemmu, svo hann gæti talað við bróður sinn, og leyfði prestur honum það; en þegar Hávarður litli heyrði það, beiddi hann vinnumanninn að lofa sèr að fara með þeim, og var honum leyft það. Fóru þeir svo út í skemmu, en dreingurinn lèk sèr í dyrunum; sèr hann þá koma stúlku á vöxt við prestsdóttur; segir hann að hún þurfi ekki að hræða sig, því hann sjái hana. Hún þreif í hann og vildi draga hann út í myrkrið; en hann spyrntist við; ætlaði henni að mega betur, en því var hann ekki vanur af prestsdóttur. Varð honum þá litið út í myrkrið leingra, og sá hann stóra konu, og varð hræddur, og reif sig af stúlkunni, hljóp til bræðranna og settist niður á milli þeirra. Þegar þeir fóru inn, beiddi hann vinnumanninn að leiða sig, og það gerði hann; þókti mönnum hann vera furðu hæglátur um kvöldið. Um nóttina, er menn voru lagstir til svefns fram í skála og flestir voru sofnaðir, þá sèr Hávarður litli að þessir sömu kvennmenn, sem hann sá um kvöldið, koma inn í skáladyrnar; færðust þær síðan inn eptir skálanum, þángað til

þær eru komnar nálægt rúmi því, er hann lá í hjá vinnumanninum, og var það rètt á móti skáladyrunum; hann varð þá mjög hræddur og rak upp hljóð, svo að fólk vaknaði alt í skálanum. Spurði þá prestur dreinginn, hvort hann hafði sèð nokkuð, og sagði dreingur, að það hefði lítið verið. Prestur lèt þá vinnumanninn færa sèr dreinginn, og var hann hjá presti upp frá því. Komu konur þessar á hverri nóttu í skálann eptir það um veturinn, þángað til nótt fór að birta, þá hvurfu þær. Hóll var þar skamt frá bænum; svo bar til einn dag, að hestir komu um vorið heim á tún, og beiddi prestur dreinginn, að reka þá út fyrir hólinn; en þegar hann fór heim aptur, gekk hann fram hjá hólnum og sat hin yngri á honum, og veifaði til hans með hendinni; flýtti hann sèr heim, og sagði presti, hvað fyrir sig hefði borið. Þorði þá prestur ekki að láta hann vera þar leingur, og sendi hann að Klippstað í Loðmundarfirði, og ólst hann þar upp, þángað til hann fór í skóla. Einu sinni, eptir að hann var útskrifaður úr skóla, var hann á ferð með Oddi biskupi, og riðu þeir ofan með stóru gljúfra gili, sáu þeir þá skepnu í gilinu; var hún í mannslíki, mórauð með hvítan kross á enni; talaði Oddur biskup til hennar og spurði hana, hvort hún ætti von til himnaríkis, og kvað hún nei við. Hávarður varð síðan prestur á Desjarmýri í Múlasýslu, og dó þar.

Einu sinni um jólin gekk sèra Hávarður á Desjarmýri út, og kom ekki inn aptur; fór fólkinu að leingja eptir honum, og gekk vinnumaður einn út að njósna um hann; heyrði hann þá mannamál í kirkjunni; hann geingur þángað, og lítur inn um gluggann; sèr hann þá, að prestur er að tala við tvo kvennmenn, og var önnur minni en hin. Segir þá hin minni, að sú stærri skuli kveða lítið eitt; lèt hún tilleiðast, og segir:

„Drottníng gipti dóttur sína
kóngssyni fyrir utan Rína,
gaf honum góz og garða nóg
og gullið alt í Rínarskóg.“

Þá mælti hin: „Þegiðu Lobba;“ hún kvað:

„Það var á einu kveldi,
að Lobba kom með loðna skó
úr Lundúna veldi,
úr Lundúna veldi.“

Þá fóru þær að hlæa, en vinnumaðurinn gekk inn í bæ; kom prestur síðar inn og vissu menn ekki meira um þetta.

Einu sinni fór sèra Hávarður á sjó með vinnumönnum sínum til fiskiveiða; þegar þeir komu að landi, var mikið brim, svo þeim gekk illa að lenda. En þegar þeir voru komnir á land, beiddi hann menn sína að setja skipið, en sjálfur sagðist hann mundi fara og hjálpa skepnunum, sem væru að hrekjast í briminu fyrir utan. Fór hann síðan í burt og kom

ekki fyrr en daginn eptir; vildi hann ekki segja frá, hvar hann hefði verið um nóttina.

Einatt er sagt að prestur hafi horfið, og var stundum leingi í burtu. Einu sinni var hann spurður, hvar hann hefði verið, og kvaðst hann hafa verið hjá kunníngjum sínum. Prestur hèlt vinnumann einn, er honum líkaði vel við; beiddi hann prest um að lofa sèr að fara með sèr þegar hann færi að finna kunníngja sína. Prestur neitar því. Sókti vinnumaður því fastar á að fara með honum, og kemur þar að, að prestur lofar því, en sagði þó, að vinnumaður mundi hafa ílt af því að fara með sèr. Einu sinni ætlar prestur að fara að finna kunníngja sína, og segir vinnumanni að koma með sèr. Segir prestur honum að vera fáorðum og ekki taka undir neitt, sem hann heyri sig tala; lofar vinnumaður því. Gánga þeir síðan á stað og norður að álfaborg; klappar prestur þar uppá, og gánga þeir báðir inn. Sèr vinnumaður þar tvær konur, aðra ýngri, en hina eldri; hin eldri konan fagnar presti vel, en tekur vinnumanni fálega. Töluðu þau svo saman góða stund, eldri konan og prestur; síðan var borið á borð, og var sett fram fyrir prest hángiket, brauð og ostur, smjör og flot, en fyrir vinnumann ekki annað en ket og flot; eptir máltíð sátu þau leingi fram eptir og skröfuðu saman. Var presti síðan vísað á vel uppbúið rúm, og háttaði eldri konan þar hjá honum; en vinnumanni var vísað á rúm hjá hinni ýngri, því þar voru ekki fleiri rúm; sváfu þau svo af um nóttina. Seint um morguninn vaknar prestur; var þá sú eldri ákaflega reið, svo að hún rèð sèr varla, en hin ýngri mjög dauf. Segir þá prestur, að nú muni vera mál að halda á stað og kvaddi hann þá konu sína vingjarnlega, en þegar vinnumaður ætlar að kveðja hana, segir hún, að hún hafi ætlað að gleðja hann fyrir hana dóttur sína; lagði hún þá á hann, að hann skyldi hvorki fá kláða nè kvef, en ekki skyldi hann geta verið í vist nema 3 nætur í senn, og að hann skyldi gánga fram hjá hverri kirkju, sem hann kæmi að á helgum degi, og rættist þetta á honum síðan.

Svo er mælt, að huldukóngur hafi búið í Dyrfjöllunum, en biskup í Blábjörgum, og átti sèra Hávarður æfinlega að róa hjá þeim berhöfðaður, þegar hann fór þar um.

**Stúlka dvelur með álfum.** (Eptir sögn gamallar konu í Borgarfirði.) Einu sinni var stúlkubarn á 4. eða 5. ári einsamalt að leika sèr. Barninu sýndist hún fóstra sín gánga hjá sèr, og elti hana. Konan fór nú að steini einum og þar inn, og stúlkaun á eptir. Var hún þar hjá álfkonunni, þángað til hún var 13 ára gömul. Fell henni þar vel, og lærði af álfkonunni marga andlega sálma og kvæði, sem hún hafði aldrei fyrr heyrt. Eitt vers úr þeim sálmum er svona:

„Jesús minn bróðir
í himnaríki er,
græðarinn minn góði,
geymdu mig hjá þèr.“

Eitt vers úr kvæðum álfkonunnar er svona:

„Svo skaltu mæla,
þá þú út geingur
úr húsum manna
undir himin berann;
„Fel eg minn anda
í hendur guði.“
Haf þú orðtak slíkt
um æfi alla.“

Þegar stúlkan var orðin 13. ára, sagði álfkonan henni að fara heim aptur til foreldra sinna. Skildu þær með kærleikum og gaf álfkonan henni margar góðar gjafir að skilnaði. Meðal annars gaf hún henni gimsteina, sem hún sagði henni að bera jafnan í hárinu, en þegar þeir hyrfu þaðan, mætti hún búast við að eiga skamt eptir ólifað. Fór stúlkan svo heim aptur, og varð þar meiri fagnaðafundur, en frá megi segja; því allir hèldu stúlkuna fyrir margt laungu dauða. Óx hún svo upp og var efnileg, en heldur undarleg, eins og allir þeir verða, sem álfar hafa hylt til sín, og hjá þeim hafa dvalið. Seinna giptist stúlkan og varð lánskona. En einu sinni þegar hún kom frá kirkju og tók af sèr faldinn, voru gimsteinarnir horfnir úr hári hennar. Leið þá og skamt um, þángað til hún lagðist og dó.

Barnsskírnin. (Vestfirzk sögn.) Fólk fór einu sinni á grasafjall á Reykhólum á fyrri öldum og hvarf ein stúlkan, því þoku mikla gjörði að því, er það var í grasaleitinni. Fannst hún ekki alt sumarið. Var þá fjölkunnugur maður einn beðinn að grennslast eptir með töfralist sinni, hvar hún væri niður komin, og nema hana þaðan aptur, og því fèkk hann orkað, og er hún var heim komin, lèt húsbóndi hennar presturinn hana aldrei eina vera. En einu sinni vildi svo til, að hún var send út í kirkju. En er skamt var um liðið, vitjaði húsbóndinn hennar, því hann grunaði margt og er hann kom í kirkjuna, var stúlkan horfin. Litaðist þá prestur um og sá, hvar maður reið í rauðum kyrtli og reiddi meyna fyrir aptan sig. Svo leið nú og beið, og einginn vissi neitt um stúlkuna. En einhverju sinni dreymdi prestskonuna á Reykhólum mann þann, er stúlkuna hafði burt numið, og bar hann henni kveðju konu sinnar með þeim fyrirmælum, að skírt væri barn það, er verða mundi í vöggu liggjandi fyrir framan kirkjudyr, er hún vaknaði, en skrúð það, er yfir vöggunni væri, skyldi prestur eiga í skírnartoll. Húsfreya vaknaði síðan, og reyndist alt, sem huldumaður hafði í draumi birt henni; fannst vaggan á tilteknum stað með barninu í og þar ofan á prestaskrúð dýrmætt og línsloppur. Prestur skírði síðan barnið, og var það í vögguna látið með hinum sama umbúnaði, og það hafði verið, er það fannst. Skrúðann hirti prestur, en línsloppurinn var

lagður ofan á vögguna. Skömmu síðar var vaggan með barninu horfin, en línsloppurinn var þar eptir.

Prestur skírir barn fyrir huldufólk. (Séra Páll Jónsson í Hvammi skrásetti eptir gömlum manni á Skaga.) Það var einn tíma, þá er Stefán prófastur þorleifsson prófasts Skaptasonar var prestur í Presthólum (1743—84), að sauðamaður hans kom frá beitarhúsum um veturinn, seint um kvöld; lá leið hans fram hjá borg einni, eða stórum steini, er þar var milli sauðahúsa og bæar. Heyrir hann þá saung mjög fagran í borgina; nemur hann nú staðar og hlýðir til um stund. Þykist hann þá glögt kenna saungrödd Stefáns prófasts, því hann var saungmaður góður, og heyrir hann, að súnginn er skírnarsálmurinn gamli á grallaranum, og mátti hann gjörla nema orðaskil í saungnum. Sauðamaður geingur síðan heim. En er hann kemur í baðstofu, spyr hann hvort prófastur sè heima. Honum er sagt, að svo sè, og muni hann vera í svefnhúsi sínu, í öðrum enda baðstofu, og hafa lagt sig fyrir, svo sem vandi hans var til í rökkrum. Sauðamaður spyr, hvort prófastur hafi þá ekkert farið í kvöld. En heimamenn neita því, og kveða hann alls eigi hafa geingið fram úr húsi sínu á því kvöldi. Þetta þykir sauðamanni undarlegt, og segir ráðskonu prófasts, hvað hann hafi heyrt í borginni. Hún kveykir þegar ljós og ber inn í húsið til prófasts, eins og hún var vön að gjöra á kvöldum. Liggur hann þá í sæng sinni og vakir. En henni verður litið til, hvar skór hans liggja snjóugir og frosnir við sængurstokkinn, og þóktist hún þó vita til víss, að prófastur hefði ei neitt geingið frá húsi það kvöld. En eigi þorði hún að spyrja hann eptir um þennan hlut, eða segja honum umræðu sauðamanns.

Prestsdóttirin frá Prestsbakka. (Eptir handriti séra Jóns þórðarsonar nú á Auðkúlu.) Á Prestsbakka á Síðu í Skaptafellssýslu var einu sinni prestur, er Einar hèt; hann var auðmaður mikill og átti fjölda barna. Hann hafði andstygð á huldufólkssögum, og sagði, að huldufólk hefði aldrei verið til, særði það að heimsækja sig, og hældist um á eptir, að það hefði ekki hitt sig.

Eina nótt dreymdi hann, að maður kom að rekkju hans, og mælti: „Hèðan af skaltu aldrei þræta fyrir, að huldufólk sè til, og skal eg nú taka elztu dóttur þína, og skaltu aldrei sjá hana upp hèðan; þú hefir leingi eggjað oss álfa.“ Að morgni var elzta dóttir prestsins horfin, og var hún 12 vetra. Var hennar víða leitað, og fannst hún hvergi. En þegar systkini hennar voru að leika sèr á túninu, kom hún í hópinn og lèk sèr með þeim. Vildu þau fá hana heim með sèr, en þá hvarf hún ávalt. Hún sagði systkinum sínum, að ofboð væri vel farið með sig, og hún ætti mikið gott. Föður hennar var ávalt að dreyma hana, og sagði hún honum alt hið sama af sèr, og hún hafði sagt systkinum sínum, og það með, að sèr væri ætlaður prestssonurinn hjá álfafólkinu. Fór svo

fram um hríð, þángað til hún kom og sagði föður sínum, að nú lángaði sig til, að hann sæti brúðkaupsveizlu sína hjá sèr á morgun, því nú ætti það fram að fara. Upp frá því dreymdi hann hana aldrei.

Bóndadóttir heilluð af álfum. (Eptir handriti Ólafs Sveinssonar í Purkey.) Fyrir austan bar svo við, að bóndadóttir hvarf af bæ einum; var hennar víða leitað, og fannst ei og báru hjónin sig því mjög illa. Bóndi fór til prests eins, er hann þekti að var fróðari í mörgu, en aðrir menn. Prestur tók honum vel, og biður nú bóndi hann um að hafa eithvert ráð það í frammi, er duga mundi, og komast að því, hvort dóttir sín væri dauð eður lifandi. Segir prestur honum þá, að hún sè numin af álfum, og að eingva gleði hafi hann af því að sjá hana aptur. Bóndi kveðst ei muni trúa því, og biður prest að hjálpa sèr til þess, að ná henni aptur, og svo fór, að prestur, sökum þrábeiðni bóndans, tiltekur kveld eitt, og segir, að bóndi skuli þá koma til sín. Kemur nú bóndi til prests á hinu tiltekna kveldi, og þá allir voru til sængur geingnir, kallar prestur bónda út, og sèr hann þá, hvar hestur stendur með reiðtýgjum. Prestur fer á bak hestinum, og segir bónda, að fara á bak hjá sèr; gjörir bóndi svo, og stígur á hestinn bak við prest. Ríður prestur svo á stað og bóndi; ei veit bóndi, hvað leingi þeir hafa riðið, fyrr en þeir koma að sjó; þar ríður prestur út á sjóinn, og leingi nokkuð, þángað til hann kom að háfum hömrum eður bjargi; hann ríður þar upp undir og fram með, þángað til hann staldraði við í einum stað fyrir framan björgin. Í því ljúkast þau upp, og er að sjá, sem hússdyr á þeim væri; þar sèr bóndi ljós loga, og er þar að sjá albjart af ljósinu; fólk sèr hann þar gánga til og frá, karlmenn og kvennfólk. Þar sá hann einn kvennmann gánga; hún var mjög bláleit í andliti með hvítum krossi á enninu. Prestur spyr bónda, hvernig honum lítist á þessa, er krossinn hefði. Bóndi segir: „Ekki vel.“ Prestur segir: „Þessi kvennmaður er dóttir þín, og skal eg ná henni, ef þú vilt, en þó er hún nú trylt orðin af samveru hennar við fólk þetta.“ Bóndi kvaðst það ei vilja, og bað prest að fara sem fljótast í burtu, og sagðist ei hafa hug til að horfa á þetta leingur. Prestur snýr þá við hestinum, og ríður sama veg aptur, og kom svo heim til sín, að einginn vissi af ferð þeirra. Bóndi fór heim til sín um daginn hryggur og ángurvær, og segir ei meir frá honum.

Þetta hafði borið við ekki mörgum árum eptir það, að alkristnað var landa þetta.

Stúlka leggur leiðir sínar í álfhól. (Borgfirzk sögn.) Einu sinni voru hjón á bæ einum; þau áttu eina dóttur; hún hvarf opt á hverju kvöldi í rökkrinu. Móðir hennar var fálát við hana og unni henni lítt, en á bænum var gömul kona, er hèlt mjög uppá stúlkuna. Hún vildi aldrei segja móður sinni, hvað hún væri að fara. En þegar gamla konan spurði

hana að því, sagði hún henni, að þar í túninu skamt frá væri hóll einn; kvaðst hún fara þángað og væru þar 2 bræður, er tækju sèr mjög vel; en þó sagði hún sèr þækti leitt að sjá þar aldrei bók. Liðu svo fram stundir, til þess að stúlkan var fermd; var hún til altaris næsta sunnudag, er messað var. Um kvöldið sagði gamla konan henni, að hún skyldi fara í hólinn og vita hvernig henni yrði tekið. Hún gjörir svo. En er hún kemur aptur, spurði konan, hvernig þeir hefðu tekið henni. Hún sagði, að þeir hefðu tekið sèr vel, en þó hefðu þeir ekki viljað kyssa sig; sögðu þeir svartan blett vera kominn á varir hennar. Leið svo leingi, uns maður kom og bað hennar. Hann fèkk hennar jafnskjótt, og fór hún með honum. Að 3 árum liðnum fór hún í orðlof til foreldra sinna. Kerlíngin gamla sagði henni að fara þá í hólinn og vita, hvernig þar liði. Hún gjörði það. Að litilli stundu liðinni kemur hún aptur. Kerlíng spurði hana þá að, hvernig þar liði. Hún mælti: „þar líður vel, en þó sá eg ekki nema annan þeirra bræðra; sagði hann mèr, að bróðir sinn hefði sprúngið af harmi.“ Fóru þau hjón síðan heim til bús síns, og lýkur svo sögunni.

Brynjólfur biskup frelsar konu frá álfum. (Eptir handriti Ólafs Sveinssonar í Purkey.) Brynjólfur biskup ferðaðist einu sinni um biskupsdæmi sitt; hann hafði með sèr þjónustustúlku eða matreiðslu-kvennmann, sem höfðíngja siður var á þeim tímum. Hann áði á heiði einni, og tjaldaði þar; með honum var maður nokkur meðal annara, er voru í för með biskupi, er Jón hèt, og var kallaður Jón trölli vegna afls hans og burða. Um kveldið fóru menn að sofa, og biskup einnig; en snemma um morguninn vaknar biskup, og vakti þjónustumenn sína; saknar hann þá stúlkunnar, og sagði, að hún væri heilluð á burt af álfum, og sagði, að sèr fèlli það illa, að svo hefði tiltekizt. Seigir hann þá við Jón trölla: „þú skalt sitja á rúmi mínu, en eg ætla á burt að fara; en gáið þar að, að þið gángið eigi út úr tjaldinu, þángað til eg kem aptur, en það segi eg þèr, Jón,“ segir biskup, „að kunni nú svo að fara, að stúlkan komi inn til þín, þá skaltu taka hana, og halda henni, þángað til eg kem, og þó að hún biðji alúðlega að sleppa sèr, þá varastu að gjöra það.“ Tekur biskup þá sprota, og geingur út úr tjaldinu, og ristir 3 hríngi í kríng um tjaldið, geingur síðan burt, svo þeir vissu ei, hvað af honum varð. Þegar góð stund var liðin, sjá þeir, hvar stúlkan kemur hlaupandi, og er skólaus á báðum fótum; hún hleypur inn í tjaldið, og að höfðalagi biskups, eins og hún ætti þángað nokkuð að sækja undir koddann. Jón tekur yfir um hana; en hún biður hann að sleppa sèr, þvíað biskup hafi sent sig, og verði hún því að flýta sèr. Jón segir, að hún verði að vera kyr, en hún brýst um, og biður hann að sleppa sèr; en Jón segir, að hún þurfi ei þess að biðja, því að hún fái ei burt að fara. Átti þá Jón nóg með að halda henni; en í þessum svifum sjá þeir, að koma 12 menn, og ríða mikið;

eru þeir allir á litklæðum, en þá þeir koma að yzta hríngnum, er biskup hafði rist kríng um tjaldið, var eins og sett væri í þá píla, svo að þeir hrukku frá, og sneru aptur, og hvurfu, svo menn biskups vissu ei, hvað af þeim varð. Að því liðnu kom biskup; lèt hann þá setja stúlkuna í bönd, því að hún var trylt orðin. Fór svo biskup leiðar sinnar þaðan; en stúlkan smá-lagfærðist. En þá hún var komin til vits síns, var hún að spurð, hvar hún hefði verið, eða hvernig hún hefði úr tjaldinu farið. „Þegar eg var sofnuð," segir hún, „kom til mín maður, og leiddi mig út úr tjaldinu; vissi eg svo ei af mèr meir, fyrr en eg var komin í hól einn, þar sem margt fólk var saman komið, og var eg þá látin fara upp á pall einn, er margt kvennfólk var, og þar var eg látin fara upp í rúm og fenginn hör til að spinna. En þegar biskup kom, og sendi mig í tjaldið, hafði eg ei tíma til, að binda á mig skóna, því að hann kallaði svo að mèr að fara." Enti hún svo sitt mál um-það. Brynjólfur biskup var baldinn á sínum tíma með jarðfróðari mönnum, og mun hann, að sögn manna, hafa þekt huldufólk, og trúað því vel, að það væri til, og rita eg ei framar um það, þótt gæti.

Kirkjusmiðurinn á Reyni. (Frá sèra Skúla Gíslasyni eptir sögn syðra og eystra.) Einu sinni bjó maður nokkur á Reyni í Mýrdal; átti hann að byggja þar kirkju, en varð naumt fyrir með timburaddrætti til hennar; var komið að slætti, en eingir smiðir feingnir, svo hann tók að ugga að sèr, að kirkjunni yrði komið upp fyrir veturinn. Einn dag var hann að reika út um tún í þúngu skapi. Þá kom maður til hans og bauð honum að byggja kirkjuna fyrir hann. Skyldi bóndi segja honum nafn hans, áður enn smíðinn væri lokið, en að öðrum kosti skyldi bóndi láta af hendi við hann einkason sinn á 6. ári. Þessu keyptu þeir; tók aðkomumaðurinn til verka; skipti hann sèr af eingu nema smíðum sínum, og var fáorður mjög, enda vanst smíðin undarlega fljótt, og sá bóndi, að henni mundi lokið nálægt sláttulokum. Tók bóndi þá að ógleðjast mjög, en gat eigi aðgjört. Um haustið, þegar kirkjan var nærri fullsmíðuð, ráfaði bóndi út fyrir tún; lagðist hann þar fyrir utan í hól nokkurn. Heyrði hann þá kveðið í hólnum, sem móðir kvæði við barn sitt, og var það þetta:

„Senn kemur hann Finnur,
faðir þinn frá Reyn,
með þinn litla leiksvein."

Var þetta kveðið upp aptur og aptur. Bóndi hrestist nú mjög og gekk heim til kirkju. Var smiðurinn þá búinn að telgja hina seinustu fjöl yfir altarinu og ætlaði að festa hana. Bóndi mælti: „Senn ertu búinn, Finnur minn." Við þessi orð varð smiðnum svo bilt, að hann feldi fjölina niður og hvarf; hefir hann ekki sèzt síðan.

Það er opt í sögnum haft hèr á landi, að huldumenn hafi numið burt, og leitað samfara við mennskar konur, og eins á hinn bóginn, að álfkonur hafi lagt ástar-hug á mennska menn og lagzt með þeim, sem nokkuð hefir verið af sagt um stund. Varúðarvert hefir það þókt, að skorast undan fylgilagi við álfa, en þó öllu hættulegra, að bregða heit sín við þá, og skal hèr nú enn getið nokkurra dæma.

**Karítas Bjarnadóttir.** Karítas Bjarnadóttir hèt stúlka í Búðardal fyrir vestan, er síðar bjó þar og þókti sómakona. Hún gekk einu sinni út úr baðstofunni í annað hús til að sækja vaðmál. En þegar hún kom inn aptur, var hún mjög trufluð, öll ötuð í blóði, og, hèlt á blóðugum hníf í hendinni. Alfamaður hafði komið til hennar, gripið um hendina á henni og ætlað að nema hana burt með sèr. En hún hafði brugðið hnífnum, og skorið hann þvert yfir um hendina; við það slepti hann henni. Eptir þetta voru hafðar sterkar gætur á stúlkunni, til að verja hana fyrir hefnd huldumanns þessa. Þremur árum síðar var hún látin fara í sel og önnur stúlka með henni, er aldrei mátti láta hana vera eina. Einu sinni yfirgaf stúlkan Karítas sofandi drukklánga stund, og gèkk eitthvað út úr selinu, á meðan kom álfkona að Karitas, þarsem hún lá sofandi, og sagði: „Nú skal eg launa þèr fyrir hann son minn.“ Greip hún svo í síðuna á Karítas, svo hún vaknaði, og varð aldrei heil síðan.[1]

**Sigríður á Reykjum.** Sigríður heitir gömul kona á Reykjum í Hrútafirði; hún er ein hinna fáu, sem sagt er að trúi fult og fast tilveru huldufólks. Hún hefir opt sagt frá því, að hún hafi einu sinni sèð álfkonu koma til sín í draumi, fríða og siðláta í svartbláum klæðum. Kona þessi bað hennar til handa syni sínum: en hún skoraðist undan því í fyrstu, af því hún yrði þá að sleppa trú sinni; en þegar konan leiddi henni fyrir sjónir, hversu gott það væri að vera með álfum, hvarf Sigríði smásaman allur kvíði, svo hún fór á fætur, og ætlaði að fara með álfkonunni. Þegar faðir hennar varð var við þetta ferðasnið á dóttur sinni, enn þótt hann sæi ekki álfkonuna, kallaði hann til Sigríðar; en hún vaknaði við, og var þá alklædd, en ekkert varð af því, að hún færi með álfkonunni.[2]

**Kötlu-draumur.** Már hèt maður; hann var höfðíngi mikill, og bjó á Reykhólum vestra. Hann átti konu þá, er Katla hèt; hún var af góðum ættum. Einhverju sinni reið Már, sem optar, til alþíngis, en Katla var eptir heima. Meðan Már er burtu, geingur Katla einn morgun til dýngju sinnar og sofnar þegar. Þángað komu og aðrar konur síðar, og sefur hún sem áður. Þegar leið að miðdegi, vilja þær vekja Kötlu, en þess var ekki kostur; hugðu þær Kötlu þá dauða, og sögðu fóstra hennar

1. Tekin eptir Dr. Maurers Isl. Volkss. 16—17. bls. Karítas fóstraði Svein Magnússon, föður Þurkeyar-Ólafs, sem svo opt er getið hèr að framan. Sveinn hefir ekki verið laus við kreddur, heldur en Ólafur, því sagt er hann hafi selt Fagurey hálfa, og flutt sig þaðan á Þurkey, til að umflýa árásir óhreinna anda.

2. s. st. 17. bls., eptir sögu Daniels bónda Jónssonar á Þóroddsstöðum.

til. Þegar hann kom þar, sem Katla lá, sagði hann, að hún væri ekki dauð, því önd bærðist fyrir brjósti hennar, en hann gæti ekki vakið hana; sat hann svo yfir henni 4 dægur föst og full. Á fimta dægri vaknaði Katla, og var þá harmfull mjög, en einginn þorði að fregna hana, hvað því olli. Eptir það kemur Már heim af þíngi; þá hafði Katla brugðið háttum sínum, því hvorki gekk hún í móti honum, nè hneigði honum, er hann kom. Hann leitar þá eptir hjá salkonum hennar, hvað þessu valdi, en þær kváðust ekki vita neitt um það annað, en að Katla hefði sofið 4 dægur, en ekki sagt neinum, hvað fyrir sig hefði borið. Már gekk þá á konu sína um þetta í tómi, og spurði, hvað orðið hefði um hana í svefnhöfga þessum og kvað henni ekki mundi verða mein að mælgi sinni. Katla sagði honum þá upp alla sögu. „Mèr þókti," segir hún „kona koma til mín í dýngjuna, húsfreyuleg og orðfögur. Hún kvaðst eiga heima á Þverá skamt hèðan, og bað mig að fylgja sèr á götu. Eg gjörði svo, en hún lagði glófa sína, þar sem eg sat, og sagði, að þeir skyldu verja sætið. Við geingum svo út, og komum að vatni einu; þar flaut bátur fagur.[1] Þakkaði hún mèr þá fylgðina, en eg bað hana vel fara. Varð eg þess þá vísari, að hún hèt Alvör; bað hún mig taka í hönd sèr og gjörði eg svo. Vatt hún mèr þá í bátinn og rèri með mig að hólma einum; fann eg þá, að hún rèði ein öllu, en eg eingu. Hún gjörði sig þó blíða við mig, og kvað sig nauðsyn hafa knúið til þessa, „og skal eg," segir hún, „fylgja þèr heim aptur." Við komum þá til híbýla hennar í hólmanum; voru þau svo fögur, að eg hefi aldrei bjartari bústað litið. Fylgði hún mèr í herbergi eitt, þarsem konur nokkrar voru fyrir, og var þar kerlaug búin og rekkja vel tjölduð. Eptir það var mèr borinn víndrykkur, og lagðist eg svo til svefns. Eg vaknaði við það aptur, að skikkja lá hjá mèr, búin skýru gulli og húsfreya bar til mín önnur föt gullsaumuð; síðan kastaði hún yfir mig kápu sinni; var hún af guðvef og grátt skinn undir, búin brendu gulli. Bað hún mig þá eiga þessar gersemar, ef eg vildi; þar með var hríngur af rauða gulli, höfuðgull og men, fjögur fíngurgull og lindi fagur. Síðan bað hún mig gánga inn í skála sinn og varð hún því öllu ein að ráða. Geingum vèr þar inn átta konur saman; var þar glæsilega fyrirbúið; skálaveggirnir voru gullvefnum tjöldum, silfurker á borðum, og gullbúin drykkjar-horn og skrautmanna lið mikið fyrir í skálanum. Í öndvegi hinu æðra sá eg hvílu eina; þar lá í maður í silkiklæðum; Alvör tók á honum, vakti hann og nefndi hann Kára.[2] Hann vaknaði og spurði, hví hún hefði vakið sig, eða hvort hún bæri sèr nokkur ný tíðindi, „eða er Katla komin hèr í skálann?" Sá hann þá, að svo var. Vorum við Kári sett síðan bæði á einn bekk, og bað Alvör menn kalla Kára brúðguma; var svo gjört; tóku menn nú til drykkju, og var

1. Tvö styttri handritin af Kötlu-draum nefna ekki glófana nè bátinn.
2. Tvo styttri handritin nefna Kár, en öll hin Kára.

drukkið fast um daginn. En er kvöld var komið, sagði Alvör, að eg skyldi hvíla hjá Kára, en eg kvað þess einga von; miklu elskaði eg Már heitara en svo, að eg mætti yndis njóta með öðrum manni. Alvör sagði eg mundi þess aldrei bætur bíða, ef eg yrði ekki við vilja Kára. Mèr varð ráðafátt við þessi orð, því eg þóktist sem einmana í vargaflokki. Þegar eg var geingin til hvílu, kom þar maður til mín, og bað mig eiga alt gull sitt og gersemar, en eg gaf honum enga von blíðu minnar. Kári lèt mig þá drekka af horni, er hann hafði áður drukkið af og kvaðst fyrr vildi bíða helstríð, en sjá mig hrygga. Bað hann mig þá huggast láta, og hèt að mèr skyldi verða bráðum fylgt heim aptur. Var eg svo þar 2 nætur, hrygg í huga; einginn vildi þar ángra mig, heldur gleðja mig. Segir þá Kári við mig, að við munum eiga son í vonum. Bað hann mig kalla hann Kára.[1] Hann tók þá belti ágætt og hníf og fèkk mèr; bað hann mig fá það syni okkar, að það fylgði nafni. Hann bað mig leggja skrúðklæði mín og gersemar allar í skjóðu, og kvaðst hann unna mèr þeirra bezt að njóta. „Skaltu sýna það alt," segir hann, „Már, manni þínum, og inna honum satt frá öllu, þó þèr þyki það sárt og sviðamikið. Þið skuluð byggja ykkur nýan bústað yfir á Þverá, muntu finna þar fuglþúfur tvær við endann á skála mínum, og verða það fèþúfur ykkar. Þar mun lifna af ykkur mikill ættbogi, er frægur mun þykja. Nú mun eg verða að skiljast við þig, og aldrei líta þig augum framar, enda veit eg eigi, hvað lángra lífdaga mèr verður auðið hèðan af." Síðan leiddi Alvör mig harmfull í huga út; heyrði eg þá brest mikinn í skálanum, er Kári sprakk af harmi mín vegna." Segja þá sumar sagnir,[2] að hún flytti Kötlu á bátnum sama yfir vatnið, og fylgði henni svo heim að hlaðgarði, og tæki aptur glófa sína úr sætinu. Sagði hún þá við Kötlu að skilnaði: „Farðu heil Katla, þó ekki hafi eg af syni mínum, nema sorgir einar, og njóttu vel gersema þinna." „Er nú draumur minn á enda," segir Katla, „og vænti eg, Már, þess af dreingskap þínum, að þú finnir mèr vorkun, er eg var alls ósjálfráð." Már bað hana sýna sèr gersemarnar, og gjörði hún svo. Litlu fyrir sumar veturinn eptir fæddi Katla sveinbarn, einkar frítt, og þókti Már sveinninn giptusamlegur. Var hann kallaður Kári, sem faðir hans hafði fyrir mælt, og lèt Már kalla sig föður sveinsins, og reyndist hann honum í öllu betur en móðir hans, er jafnan var fá við hann. Var nú fluttur bústaður þeirra Márs, þángað sem Katla sagði fyrir, og bjuggu þau hjón þar saman, og unnu hvort öðru mikið og áttu mikið auðnulag saman.[3]

1. Tvö handrit af Kötlu-draum hafa Ara, en öll önnur handrit bæði í bundnum og óbundnum stýl hafa Kára.

2. Öll handrit, nema tvö hin styttri.

3. Hèr endar frásögnin eptir hinum styttri handritum, er sleppa öllu, sem á eptir kemur, en geta ein þess, að þau Már og Katla hafi flutt bygð sína yfir Þverá, enda er það bæarnafn ekki til neinstaðar nærri Reykhólum.

Hin leingri handritin af Kötludraum segja svo frá, að þegar þær Alvör og Katla voru komnar yfir vatnið, tók Alvör á henni með báðum höndum, en við það hvarf Kötlu ást hennar til Márs. Leiddi Alvör hana svo í herbergi sitt, sem fyrr segir; voru þar konur fyrir og þóktust allar kenna Kötlu. Síðan tók hún þar á karlmanni, er hún nefndi Kára, og bað hann vakna og sagði, að nú bæri nokkuð til nýlundu, því Katla væri þar komin. „Kári vaknar,“ segir Katla, „og bað mig heila og heppna heimsækja sig; kvað hann mig hafa brugðið svefni sínum, og deya kvaðst hann af ást til mín, er eg færi þaðan. Kom Alvör þá og lèt búa mèr kerlaug og gefa mèr vín að drekka, aður eg geingi í hvílu sonar hennar. Sagði hún, að þau ósköp skyldu á mèr hrína, er eg biði aldrei bætur, ef eg synjaði syni hennar ástar. Varð hún þá ein öllu að ráða, því eg hafði mist alla sinnu. Dvaldi eg svo þar allan þann tíma, sem eg var burtu. Einn morgun kom Alvör að sæng þeirri, er við sváfum í, og sagði, að eg mundi verða að klæðast, þó syni sínum væri það til ángurs. Kári stundi hátt, er eg skildi við hvílu hans, og eg vildi sjálf hafa verið þar leingur, og varð undur nauðug að skilja við hann. Þá sagði hann mèr um son þann, er við ættum í vændum, fèkk mèr belti, hníf og hríng hinn þriðja grip, er eg skyldi geyma til menja handa syni okkar. „En þèr gef eg,“ segir Kári, „skikkju af skæra gulli, men og silgju; munu það flestum mönnum hnossir þykja; þá gripi skaltu eiga til elli.“ Klæddist eg þá í alt þetta skart, og varð að skilja við hann sárnauðug.“ Kári huldumaður hafði beðið Kötlu að kalla son þeirra Kára, sem fyrr er sagt, og var svo gjört. Liðu svo önnur missiri af hendi; átti Katla þá annan son; hann nefndi hún Ara; því hún vildi því nafni ráða. Ólust þeir bræður upp báðir saman, og var Katla laungum fálátari við Kára en Ara, en Már gjörði þeirra eingan mun, og fann að því við konu sína. Liðu nú fram tímar, að ekki bar til tíðinda, uns þeir bræður voru orðnir 5 og 6 vetra; þá rèri Már til fiskjar einn morgun snemma með húskörlum sínum, því veður var blítt, en Katla svaf eptir í sæng þeirra. Þókti henni þá Alvör koma inn að rekkjunni, heldur fasmikil og mæla svo: „Misskipt er með okkur; þú nýtur yndis af manni þínum, en eg hefi helstríð eptir son minn. Því skaltu velja um tvo kosti, hvort þú vilt heldur missa Már í dag, eða sonur þinn svívirði þig í orðum.“[1] Kaus Katla skjótt hið síðara og skildu þær talið. Már kom heim um kvöldið, og var Katla þá enn hrygg í huga. Leitaði hann þá eptir, hvað ylli ógleði hennar. Hún sagði honum upp alla sögu. Már bað konu vera káta. „Munum við,“ segir hann,

1. En munnmælasögnin segir, að þegar Katla hafi geingið út úr híbýlum Alvarar, hafi Kári sprúngið af harmi, er hann varð að sjá af Kötlu, og þá hafi Alvör átt að segja: „Eins og eg verð nú að sjá upp á dauða sonar míns, eins skaltu Katla verða að horfa á dauða Márs, bónda þíns;“ enda hafi Már átt að drukkna; sumir segja í Gundará fyrir sunnan Reykhóla, en sumir segja á sjó.

„finna bót við þessu böli; við skulum stofna veizlu og bjóða þángað bræðrum þínum; skaltu vera blíð við alla, en eingu gegna, fyrr en að þèr kemur.“ Líðu nú stundir fram til veizlunnar og sat Már heima. Þegar bræðra Kötlu var þángað von, gekk Már móti þeim með fjölmenni og fagnaði þeim blíðlega; þeir voru allir goðorðsmenn. Katla fagnar þeim vel, og var þeim boðið sæti og borið öl að drekka. Katla var þá í skikkjunni og hafði menið góða á hálsi sèr, Káranaut. Þegar menn voru í sæti komnir, og drykkja byrjuð, mælti Már: „Hèr skulu standa veizlugrið og haldi þau hver, sem drekkur, uns veizlan er úti.“ Gáfu allir því góðan róm og lofuðu að halda griðin. Þá var Katla komin í sæti sitt, en sveinarnir lèku sèr á gólfinu. Kári bað þá móður sína að ljá sèr menið góða til að leika sèr að. Hún lèt það eptir honum. Ari sá það og varð heldur fár við; sækir hann þá eptir meninu hjá Kára, en hann synjaði og vildi ekki laust láta. Ari mælti þá: „Heldur þú meninu fyrir mèr, leiður hóruson; eg sem á hèr einn allar eignir?“ Við þessi orð sveinanna gekk Katla úr sæti og til rekkju sinnar, því hún ætlaði að springa af harmi. En er hún var geingin út, tóku bræður hennar upp orð sveinanna og reiddust ákaflega, er systir þeirra væri þvílík ættarskömm, og kváðust skyldu hefna þess, ef hún hefði verið smánuð af nokkrum, því sveinninn kynni ekki að ljúga. Már bað þá ekki henda slika markleysu eptir börnum, og væri það ósvinna. En þeir bræður reiddust svo mikið við það, að þeir urðu óstöðvandi, og kváðu þau Már hafa leynt þessu með slægsmunum, en orðrómurinn hefði rikt hjá þeim bræðrum. Már kvaðst aldrei hafa lagt þar orð að við konu sína. „En segið mèr bræður,“ segir hann, „hvers er sá verður, sem óviljandi ratar í vandræði, eða þó hann sjái sjónhverfíngar í draumi?“ Gekk hann svo burt úr veizlu-salnum og í lopt það, er Katla lá í og mælti: „Nú er það eitt til, að þú segir þeim bræðrum upp alla sögu; má það bæði vinna bót á böli þínu og stilla vandræði og manndráp, sem annars er viðbúið.“ Katla kvað sèr hans ráð hollust mundu, þó heldur vildi hún bana bíða, en segja öllum sorgir sínar. Síðan geingu þau Már á fund þeirra bræðra og voru þeir allreiðir. Már skoraði þá á konu sína, að inna þeim alt af högum sínum, og gerði hún svo. En er þeir höfðu hlýtt sögu hennar, drap hljóð úr þeim; því þeim þókti systir sín vera saklaus. Geingu þeir þá allir fyrir Már og þökkuðu honum með virktum hversu vel honum hefði farizt í öllum þessum málum og hètu honum vináttu sinni með fastmælum. Unnust þau Már og Katla hugástum áður og síðan, meðan bæði lifðu. Ari Másson varð höfðíngi mikill og líktist föður sínum um flesta hluti og er margt manna frá honum komið.[1] Kára komu þau í fóstur í Rennudal; studdu þau hann til góðs kvonfángs og feingu auðlegð nóga, og reisti hann þar bú. Kári varð ríkur maður og þókti dulvitur. Hann

1. Sbr. Kristnisögu, Kh. 1773, 1. cap. og í Biskupasögum, I, Kh. 1858.

var fróður um strauma-gáng og stjarna. það er og sumra sögn, að Kári Kárason hafi opt komið til ömmu sinnar í uppvexti sínum, og numið af henni ýmislegt fróðlegt, er huldufólk tíðkaði í forneskju, enda varð fæstum það að góðu, er vildu gjöra á hluta hans; urðu og fáir til þess, því hann kom sèr vel og náði höfðíngja-hylli. þegar Már var dáinn, er sagt, að Kári hafi tekið þær báðar, Kötlu móður sína og Alvöru, ömmu sína, og voru þær báðar hjá honum undir eins og áttu allilla skaplyndi saman,[1] svo að Kári hafi jafnan orðið að gánga á milli þeirra. Einu sinni kom hann að, er þær deildu; er þá mælt, að honum hafi runnið í skap, en þess var ekki vant. En er hann hafði staðið þar litla stund, kom eldur upp úr gólfinu, og brann Alvör, amma hans, þar til ösku, svo ekkert varð eptir af. En hvort Kári hafi valdið bruna ömmu sinnar, eða eldurinn hafi komið af ofstæki kerlíngar, er eigi frá skýrt; þó hafa nokkrir látið sèr um munn fara, að Kári hafi drepið ömmu sína.

**Ljúflíngsmál.** Einu sinni varð bóndadóttir þúnguð af húldumanni og fæddi barn. En einginn vildi trúa þeirri sögusögn hennar um faðerni barnsins, og urðu foreldrar hennar æfarreiðir af því, að barnið væri föðurlaust, og lögðu fæð á dóttur sína. það var einhverju sinni um kvöldtíma, að barnið æpti og gat móðirin með engu móti huggað það. þá atyrtu hana allir, þeir er við voru staddir og lagði hver þeirra henni og sveininum eitthvert hnjóðsyrði til, svo hún fór að gráta. þá er mælt, að ljúflíngsmál hafi verið kveðin á glugganum upp yfir henni og barninu, og hafi það orðið að áhrínsorðum, sem í kvæðinu stóð og pilturinn orðið afbragð allra manna, er þá voru uppi. En þegar hann fór að eldast, segir sagan, að hann hafi horfið, og móðir hans með honum, og hafi faðir hans verið ljúflíngur sá, er kvæðið kvað.

**Selmatseljan.** (Eptir húsfrú Helgu Benediktsdóttur Egilsen.) Prestur var eitt sinn fyrir norðan, sem hafði uppalið stúlkubarn. Frá prestssetrinu var selstaða lángt á fjöllum uppi, og hafði prestur þar jafnan fè og kýr á sumrum, ráðskonu og smala. þegar fósturdóttir hans varð eldri, varð hún selráðskona og fór henni það, sem annað, vel úr hendi, því hún var

1. Enn er það í munnmælum um Kötlu, að eptir það Alvör var búin að vitja hennar tvisvar, sem áður er sagt, og gjöra henni með því hverja skapraunina eptir aðra, hafi Katla látið snúa bæardyrunum á Reykhólum, svo að þær horfa enn í dag upp til fjallsins og gagnstætt því, sem aðrir bæir snúa í Reikhólasveit. þetta gjörði Katla til þess, að hún skyldi ekki sjá bústað Alvarar, sem átti að hafa blasað við úr bæardyrunum, meðan þær sneru til suðurs og vekja með því harma sína. það er og sagt, að Katla hafi ekki viljað gánga í laug í Reykhólalaugum, sem eru suður frá bænum, af því hún þóktist þar of nærri híbýlum Alvarar og því hafi hún farið inn frá bænum góðan kipp og laugað sig í laug þeirri, sem þar er einstök og heitir síðan Kötlulaug. Sögumaður er Sveinn Ögmundsson, uppalinn í Reykhólasveit.

ráðdeildar kvennmaður, fríð sýnum og vel að sèr um marga hluti. Urðu því margir efnismenn til að biðja hennar, því hún þókti hinn bezti kvennkostur norðan [illegible] en hún [illegible] um ráðahag við sig. Einu sinni kom prestur að [illegible] og hvatti hana mikillega að giptast [illegible] það [illegible] ætíð til að sjá henni farborða, þar sem hann væri maður [illegible] tók því allfjarri og kvaðst eingan hug [illegible] sem væri og sæktu allir gæfu með [illegible] um hríð. Þegar leið á veturinn, þókti mönnum selráðskonan þykkna undir belti, og fór þyktinni því meir fram, [illegible] kom fóstri hennar aptur að máli við hana og bað hana segja sèr frá högum hennar og sagði hún mundi víst vera barnshafandi, og að hún mundi ekki í selið fara það sumar. Hún neitaði þverlega, að hún væri eigi einsömul og kvað sèr ekki til meina og selstörf skyldi hún annast, eins það sumar, og áður. Þegar klerkur sá, að hann kom eingu á leiðis við hana, lèt hann hana ráða, en bað menn þá, er voru í selinu, að gánga eigi nokkru sinni frá henni einni, og hètu þeir honum góðu um það. — Síðan var flutt í selið, og var ráðskonan hin kátasta. Leið svo fram um hríð, að ekki bar til tíðinda. Selmenn höfðu sterkar gætur á ráðskonunni og lètu hana aldrei eina. Eitt kvöld bar svo við, að smalamanni var vant alls fjárins og kúanna, fór þá hvert mannsbarn úr selinu, nema selráðskonan var ein eptir. Sóktist leitarmönnum seint leitin, og fundu eigi fèð, fyrr en undir morgun, með því níðþoka var á. Þegar leitarmenn komu heim, var matseljan á fótum og venju fremur fljót á fæti og lètt á sèr. Það sáu menn og, þegar fráleið, að þykt hennar hafði minnkað, en ekki vissu menn, með hverju móti, og þókti mönnum, að þyktin hefði verið annarskyns þykt, en barnsþykt. Var svo flutt úr selinu um haustið heim, bæði menn fènaður og söfnuður. Sá prestur þá, að matseljan var mjóslegnari um mittið, en hún hafði verið veturinn áður. Gèkk hann þá á hina selmennina og spurði þá, hvort þeir hefðu brugðið af boði sínu og geingið allir frá selmatseljunni. En þeir sögðu honum, svo sem var, að þeir hefðu alls einu sinni frá henni farið að leita, því alla málnytuna hefði vantað. Klerkur reiddist og bað þá aldrei þrífast, sem breytt hefðu boði síuu, og kvað sig hafa grunað þetta, þegar selmatseljan fór í selið um vorið.

Veturinn eptir kom maður að biðja fósturdóttur prestsins og tók hún því allfjarri. En prestur sagði hún skyldi ekki undan komast að eiga hann, því hann hafði almenníngslof á sèr, og var góðra manna. Hann hafði tekið við búi eptir föður sinn um vorið, og var móðir hans fyrir framan hjá honum. Varð svo þessum ráðahag framgeingt, hvort konunni var það ljúft eða leitt. Um vorið var brullaup þeirra hjá presti. En áður konan klæddist brúðfötum sínum, sagði hún við mannsefnið: „Það skil eg til við þig, fyrst þú átt að ná ráðahag við mig, að mèr nauðngri, að þú takir aldrei

vetursetumann, svo að þú látir mig ekki vita áður, því ella mun þèr ekki hlýða;" og hèt bóndi henni því. Leið svo af veizlan, og fór hún heim með bónda sínum og tók til búsforráða, en þó með hángandi hendi, því aldrei var hún glöð, eða með hýrri há, en þótt bóndi hennar lèki við hana á alla vegu og vildi ekki láta hana taka hendi í kalt vatn. Hvert sumar sat hún inni, þegar aðrir voru að heyvinnu, og teingdamóðir hennar hjá henni, til að skemta henni og annast um matseld með henni. Þess á millum sátu þær og prjónuðu eða spunnu og sagði eldri konan teingdadóttur sinni sögur henni til skemtunar. Eitt sinn þegar gamla konan hafði lokið sögum sínum, sagði hún við teingdadóttur sína, að nú skyldi hún segja sèr sögu. En hún kvaðst eingar kunna. Hin gèkk því fastar á hana, svo hin hèt þá, að segja henni þá einu söguna, sem hún kynni og hóf þannig frásögn sína: „Einu sinni var stúlka á bæ, hún var selmatselja. Skamt frá selinu voru hamrar stórir, og gèkk hún opt hjá hömrunum. Huldumaður var í hömrunum, fríður og fallegur og kyntust þau brátt við og varð þeim allkært saman. Hann var svo góður og eptirlátur við stúlkuna, að hann synjaði henni einskis hlutar, og var henni til vilja í hvívetna. Fóru þá svo leikar, þegar fram liðu stundir, að selmatseljan var eigi einsömul og gèkk húsbóndi hennar á hana með það, þegar hún átti að fara í selið sumarið eptir, en stúlkan neitaði áburði þessum, og fór í selið, sem hún var vön. En húsbóndinn bað þá, er í selinu voru, að fara aldrei svo frá henni, að hún væri ein eptir, og hètu þeir honum góðu um það. Eigi að síður fóru allir frá henni að leita fjárins, og þá tók hún lèttasóttina. Kom þá maður sá til hennar, er hún hafði haft samræði við, og sat yfir henni og skildí á milli, laugaði barnið og reifaði. En áður hann fór burtu með sveininn, gaf hann henni að drekka af glasi, og það var sá sætasti drykkur, sem eg hef"…. í því datt hnoðað úr hendinni á henni, sem hún var að prjóna af, svo hún laut eptir hnoðanu og leiðrètti — „sem hún hafði smakkað, vildi eg sagt hafa, svo hún varð á samri stundu alheil allra meina. Upp frá þeirri stundu sáust þau ekki, stúlkan og huldumaðurinn; en hún giptist öðrum manni sárnauðug; því hún þráði svo mjög hinn fyrra ástmann sinn, og sá aldrei upp frá því glaðan dag. Og lýkur hèr þessari sögn." Teingdamóðir hennar þakkaði henni söguna og setti hana vel á sig. Fór svo fram um hríð, að ekki bar til tíðinda, og konan hèlt teknum hætti um ógleði sína, en var þó góð við mann sinn. Eitt sumar, þegar mjög var liðið á slátt, komu tveir menn; annar stærri, en annar í teginn til bónda. Báðir höfðu þeir síða hetti á höfði, svo óglögt sást í andlit þeim. Hinn meiri hattmaður tók til orða, og bað bónda veturvistar. Bóndi kvaðst ekki taka nokkurn mann á laun við konu sína, og kvaðst hann mundi hitta hana að máli, áður en hann hèti þeim vistinni. Hinn meiri maður bað hann ekki mæla svo óvirðulega, að slíkur höfðíngi ætti það konuríki, hann væri ekki einráður að slíkum smámunum, sem að gefa 2 mönnum

mat einn vetrartíma. Svo það verður að ráði með þeim, að bóndi hèt mönnum þessum veturvist, að konu sinni fornspurðri. Um kvöldið fara komumenn heim til bónda og lèt hann þá fara í hús nokkurt frammi í bænum og bað þá þar vera. Bóndi geingur til húsfreyu, og segir henni, hversu nú var komið. Húsfreya snerist illa við og sagði þetta hina fyrstu bæn sína, og að líkindum, þá seinustu. En fyrir því að hann hefði einn við mönnunum tekið, þá skyldi hann og einn fyrir sjá, hvað hlytist af veturvist þeirra, og skildu svo talið. Var nú alt kyrt, þángað til húsfreya og húsbóndi ætluðu til altaris um haustið. Það var venja þá, sem enn er sumstaðar á Íslandi, að þeir, sem ætla sèr að vera til altaris, gánga fyrir hvern mann á bænum, kyssa þá og biðja þá fyrirgefníngar á því, sem þeir hafi þá stygða. Húsfreya hafði alt til þessa forðast vetursetumennina og aldrei látið þá sjá sig og svo var og að þessu sinni, að hún kvaddi þá ekki. Svo fóru hjónin af stað. En þegar þau voru komin út fyrir túngarðinn, sagði bóndi við húsfreyu: „Þú hefir sjálfsagt kvatt vetursetumennina.“ Hún kvað nei við. Hann bað hana ekki gjöra þá óhæfu, að fara, svo hún kveddi þá ekki. „Í flestu sýnir þú, að þú metur mig lítils, fyrst í því að þú tókst við mönnum þessum að mèr fornspurðri, og nú aptur, þar sem þú vilt þraungva mèr til að mynnast við þá. En ekki fyrir það, eg skal hlýða, en þú skalt fyrir sjá, því þar á ríður líf mitt og þitt með, að líkindum.“ Hún snýr nú heim, og seinkar henni mjög heima. Bóndi fer þá heim og kemur þángað, sem hann átti von á vetursetumönnum, og finnur þá í herbergi þeirra. Hann sèr, hvar veturvistarmaður hinn meiri og húsfreya liggja bæði dauð í faðmlögum á gólfinu og höfðu þau sprúngið af harmi. En hinn veturvistarmaðurinn stóð grátandi yfir þeim, þegar bóndi kom inn, en hvarf í burt litlu síðar, svo einginn vissi, hvert hann fór. Þóktust nú allir vita af sögu þeirri, er húsfreya hafði sagt teingdamóður sinni, að hinn meiri komumaður hefði verið huldumaður sá, sem húsfreya hafði kynnzt við í selinu, og hinn minni sonur þeirra, sem á burt hvarf.

**Álfapilturinn og selmatseljan.** (Eptir handriti Ólafs Sveinssonar í Purkey.) Það var á bæ einum fyrir austan, að bóndi hafði í seli, og var það venja þá, þótt nú sè mjög aflagt; lèt þessi bóndi dóttur sína vera selráðskonu. Einu sinni, þá hún var að matreiða, kom til hennar dálaglegur piltur; var hann ljúfur í orðum og viðmóti; var hann hèr um 17 vetra gamall. Hann heilsar henni blíðlega, en hún tekur honum vel, og spyr hann að nafni; kvaðst hann heita Daniel og vera ljúflíngur. Bað hann hana að gefa sèr hálfa mörk mjólkur, því að móðir sín væri veik; og mjólkurlaus, og kvaðst hann þá vilja gjöra fyrir hana, það er hún vildi og þyrfti, henni til lèttis. Hún sagði, að honum væri velkomin mjólkin; hèlt hann á dálitlum aski hvítum; tók hún við honum og lèt í hann, en gaf honum sjálfum að borða

og sagði, að hann skyldi koma á hverjum degi með askinn, þótt hann ynni ei fyrir sig. Þókti honum það vænt, að mega koma til hennar með askinn, og þakkar hann henni innilega fyrir það. Hann kveður nú hana, og fer með askinn til móður sinnar, og segir henni frá góðsemi bóndadóttur og orðum hennar. Móður hans kvað henni vel farast, og launavert vera; „þó grunar mig,“ segir hún, „að harmur muni afleiða um síðir, þótt bið nokkur á verði.“ Fer hann nú á hverjum degi í selið, og fèkk þar jafnan mat hjá bóndadóttur, og mjólk handa móður sinni. Fór hún síðar úr selinu, þá sá tími var kominn. Eptir að hún var heim komin, vitjaði hann opt til hennar, þótt einginn vissi; gjörðist hún nú þúnguð af hans völdum, en fór þó samt í selið, eins og fyrri um sumarið. Kom hann þángað til hennar og lètti öllu af henni, sem hann gat. Þar ól hún barnið, en hann sat yfir henni; var hún mjög hart haldin, svo við sjálft lá, að hún fèlli í ómegin; dreypti hann á hana úr munni sínum, og hresstist hún við það; tók hann barnið, og fór með það til móður sinnar; það var sveinbarn. Móðir hans tók við því og sagði: „Ei eru ósköp á enda, þótt bið á verði;“ fór hann síðan aptur til bóndadóttur, og þjónaði henni með mestu alúð, þangað til hún komst á fætur. Var föður hennar þúngt til hennar; hann hafði geingið á hana um það, hver faðir væri að barni því, er hún var ólètt að; en hún varðist honum, og sagði eigi frá því; hafði hann því ógeð á henni; en hjá smalamanni, er í selinu var, og stúlku þeirri, er þjónaði að með bóndadóttur selmat, fèkk hann litla vissu, þótt hann frètti þau um það.

Um haustið, þá sá tími var kominn, að flytja skyldi úr selinu, var það dag einn, að bóndadóttir og ljúflíngspilturinn töluðust við; meðal annara orða, er þau töluðu, bað hann hana að bíða ógipta í 3 ár, og lofaði hún því, svo framarlega sem hún mætti því ráða, „en eg er hrædd um, að eg fái ei því að ráða fyrir föður mínum, og get eg þá ei að gjört, heldur hlýt eg þá frá mínum vilja að gánga.“ Skildu þau svo með trega, þá hún fór úr selinu; kveið hún og fyrir föður sínum, þegar hún kæmi heim; og þegar hún kom heim, var faðir hennar óhýr við hana, og rita eg ei framar um það. Um veturinn kom vænn maður og ríkur, er beiddi bóndadóttur, og játaði faðir hennar því þegar í stað; en þegar það var nefnt við hana, bað hún, að það mætti bíða í 3 ár. Maðurinn var ei fjarri að gefa henni þann frest, en faðir hennar tók það af, heldur skyldi það fara þegar fram, og brúðkaupið haldast að mánaðar fresti.

Þegar hún heyrði, að hún gat ei fengið vilja sínum framgeingt, sagði hún við biðil sinn: „Það verður þá svo að vera, sem faðir minn vill, og fyrst að það verður að vera svo, þá vil eg, að þú veitir mèr eina bón, er eg bið þig.“ Biðillinn kvaðst svo gjöra mundi, og spyr hana, hver bónin sè. Hún segir, að hún sè sú, að hann taki eingan veturvistarmann án síns vilja. Hann segist ei skuli gjöra það. Biður hún hann að enda vel loforð það; en hann játar því.

Var nú haldið brúðkaupið á tilteknum tíma, og fór það vel fram; gjörði faðir hennar hana vel úr garði. Unnust þessi úngu hjón vel; var hún siðferðisgóð og fálát, og aldrei gjörði hún að gamni sèr; maður hennar var og góðhjartaður, góðgjörðasamur og mjög bóngreiðugur; voru þau og vel efnuð; liðu svo 3 ár.

Dag einn um haustið var bóndi úti; það var á 4. ári frá því að þau giptust; kom þá til hans maður ei ólaglegur, og var með honum dálítill piltur, og hèlt bóndi, að hann mundi vera þriggja eða fjögra vetra gamall, mjög fríður og hýr. Þessi aðkomumaður heilsar bónda. Bóndi tekur honum, og spyr hann að nafni; maðurinn sagðist Vandráður heita, og vera að bjarga lífi sínu og sonar síns, „og vil eg þess biðja yður. bóndi,“ segir hann, „að þèr lofið okkur að vera vetrarlángt, því að eg heyri gott af yður sagt og konu yðar.“ Bóndi segir, að hann skuli það fá, ef konu sinni sè ei á móti; fer bóndi til hennar, og segir henni, að hèr sè kominn maður fátækur, og dáfallegur piltur með honum, hèr um þriggja eður fjögra vetra gamall, og hafi beðið sig veturvistar, og sagðist hann ei hafa afsagt það, „ef að þú værir ei því algjörlega mótfallin.“ Hún sagði: „það muntu muna, hverju þú lofaðir mèr, þá eg átti þig.“ Hann segist hafa munað það, og þess vegna hefði hann ei fullkomlega lofað honum veturvistinni, fyrr en hann talaði við hana um það; „og er það bón mín,“ segir hann, „að þú lofir honum að vera og barni hans.“ Hún segir: „það verður þá svo að vera, þótt mèr sè það á móti, og fer það, sem auðið verður.“ Fer hann síðan út, og segir við mann þenna, að hann skuli velkominn með piltinum vetrarlángt. Lætur bóndi hann síðan fara inn og piltinn, og fær honum hús eitt dálítið, að vera í um veturinn. Hann var fáskiptinn og hæglátur; aldrei heilsaði hann húsfreyu, eða hún honum, og aldrei tölnðu þau orð saman. Lèt hún hann aldrei mat vanta nè það, er hann þurfti og pilturinn. Leið svo fram undir páska, og á pálma-sunnudag vildi bóndi til altaris vera, og aður en hann fór á stað til kirkjunnar, spurði hann konu sína, hvort hún hefði beðið alla á bænum fyrirgefníngar á því, er hún kynni að hafa stygt þá. Hún sagðist svo hafa gjört; hann sagði: „Og einnig veturvistarmann okkar.“ Hún sagði: „Nei, því að eg hefi hann í eingu stygt.“ Bóndi sagði: „Ekki líkar mèr það; við förum ekki til kirkjunnar, fyrr en þú hefur gjört það.“ Hún sagði: „Sjáðu þá til, að þú iðrist ekki eptir, að þú herðir að mèr að gjöra það.“ Gèkk hún svo frá honum og til veturvistarmanns síns, þar hann var í húsi sínu og sonur hans hjá honum. Nú leiðist bónda, að hún kemur ekki, fer síðan að vitja hennar, og geingur í húsið, og finnur konu sína þar og veturvistarmanninn í faðmlögum bæði andvana, og stóð pilturinn þar grátandi yfir þeim. Verður nú bóndi mjög hryggur, og veit ei, hvað hann á að segja; þykist hann nú vera orsök í dauða þeirra beggja, en kallar þó á menn til þess að taka þau, og leggja þau til, og gjörði útför þeirra heiðarlega. Hann

huggaði hinn únga svein, tók hann í umsjón sína og ól hann vel upp; gjörðist hann síðan ágætur maður, og átti mörg börn.

Svo segir sagan, að kona bónda hafi hinn síðasta vetur, sem hún lifði, sagt þjónustustúlku sinni, hver þessi húsmaður væri, og hvernig á honum stæði, að hann væri ljúflíngur, og að þau hefði kynnzt þann tíma, er hún var í selinu fyrir föður sinn, og að hún væri móðir að sveini þeim, er með honum væri, en hann faðir, og frá öllu sagði hún henni, er þeim hafði farið á milli, og sagði hún henni, að þau mættu eigi blíðlega finnast. Þau hefði ei getað náð saman til giptíngar, og hún vissi það, að það mundi verða dauða þeirra efni, ef þau næðu blíðlega að finnast, en feingju þá ei að vera saman, þar eð ástin hefði svo gagntekið hjörtu þeirra, og kvaðst hún því varast að tala nokkurn tíma blíðlega við hann, eða hann við hana.

Frá þessu sagði stúlkan bónda eptir dauða þeirra; var bóndi aldrei glaður þaðan í frá.

**Huldupilturinn.** (Sögn úr Skaptafellssýslu.) Hjón nokkur auðug bjuggu á bæ; þau áttu 2 dætur; hèt önnur Margrèt en hin Ólöf. Margrèt var í meiru uppáhaldi, og var látin vera selmatselja á sumrum. Eitt sumar bar svo til, að lítill dreingur kom til hennar nokkur kvöld, þegar hún var að mjólka. Hann hafði með sèr lítinn ask. Hann biður hana að gefa sèr mjólk í hann. Margrèt neitar því harðlega. Dreingurinn kemur samt, og fór það á sömu leið milli þeirra. Hún hótar honum að hún skuli berja hann. Dreingurinn fer þá grátandi í burt; hann fer heim til móður sinnar og segir henni frá; hún segist leggja það á Margrèti, að alt, sem hún fáist við, það eyðist fyrir henni með öllu móti. En þegar foreldrar hennar verða varir við þessa eyðslu hjá henni, senda þau eptir henni, og láta Ólöfu þángað aptur. Þegar hún er komin þángað, kemur sami dreingurinn með litla askinn sinn. Hann segir, að móðir sín biðji að heilsa henni, og bið hana, að gefa sèr mjólk í nóa þennan, því hún hafi úngbarn og sè mjólkurlaus. Hann segir henni, að hann hafi komið til systur hennar sama erindis, en ekkert feingið. Hún gefur dreingnum að drekka, fyllir askinn, og segir honum að koma, þegar hann vilji. Hann þakkar henni fyrir og fer mjög glaður til móður sinnar, og segir að nú sè annað í efnum og önnur sè matselja, en verið hafi, og segir henni af ferð sinni. Móður hans segist leggja það á, að eins og eyðst hafi hjá hinni, skuli alt aukast og margfaldast hjá þessari. Dreingurinn hèlt áfram að sækja mjólkina í 2 sumur samfleytt; en þegar líður á seinna sumarið, sèr fólkið, sem var með henni, að hún var vanfær, en dylur foreldra hennar þess. Eina nótt verður fólkið í selinu vart við það, að Ólöf tekur lèttasótt; kvennmaður einn, sem þar var, ætlaði að koma til hennar, og sá þá, að karlmaður var hjá henni og gömul kona; hann dreipti á Ólöfu af munni sèr. Kvennmaðurinn sèr, að hún elur barnið, og að gamla konan tekur við

barninu og reifar það og fær síðan manninum. Þau kveðja bæði Ólöfu, en hann þó innilegar. Síðan gánga þau burt með reifastrángann; síðan kemur kvennmaðurinn, sem sá þetta, inn, og verður hjá henni. Ólöf biður hana að sjá um fyrir sig, sökum þess, að hún sè veik, og muni hún ei komast á fætur í nokkra daga; en á hverjum degi, meðan Ólöf lá, kom dreingurinn að vitja um hana.

Nú líða fram stundir og ber ei neitt til tíðinda, þángað til móðir Ólafar verður veik, og deyr úr þeirri sótt. Tekur Ólöf þá við öllum ráðum í stað hennar, en eptir það hún yfirgaf selveruna, var hún aldrei glöð. Nú verða margir úngir menn til að biðja hennar, en hún neitar þeim öllum, þángað til úngur og ríkur maður, sem var fyrirvinna hjá móður sinni, biður hennar. Faðir Ólafar fylgir því fast fram, svo að hún mátti til, þótt henni væri það nauðugt, að samþekkja honum, með því skilyrði, að hann tæki engan veturvistarmann án sinnar vitundar. Hann lofar því, svo áð hún fór með honum og tók við öllum búsforráðum, en jafnan var hún fremur óglöð, þángað til móðir hans biður Ólöfu að segja sèr, hvað valdi ógleði hennar. Hún var treg til þess, en kvaðst þó mundi segja henni það, ef hún leyni því. Hin lofar því. Síðan segir Ólöf henni upp alla söguna, en teingðamóðir hennar vorkennir henni mjög. Á þriðja ári hjónabands þeirra, en tólfta frá því hún átti barnið í selinu, bar svo við seint á slætti, að tveir menn komu til bónda, og virtist vera töluverður munur á aldri þeirra. Þeir heilsa honum og lètu hattana slúta, svo óglögt sá í andlit þeim. Bóndi tók kveðju þeirra og spyr, hvert þeir ætli að fara. Hinn eldri segir, að þeir vilji biðja hann veturvistar. Bóndi kvaðst ei vera vanur að taka þesskonar menn. Hinn skorar því fastara á, þartil bóndi segist eingu lofa um það, fyrr en hann hafi fundið konu sína. „Þá átt þú konuríki,“ segir maðurinn, „og skal eg bera það út, hvar sem jeg kem, ykkur til ósæmdar.“ Þá segir bóndi: „Heldur en það verði, þá komið þið heim með mèr.“ Síðan gánga þeir allir heim. Þá er kona hans í bæardyrum. Hann gengur inn, en þeir bíða úti. Konan spyr, hverjir menn það sèu, sem komnir eru. Hann kvaðst það ei vita, en erindi þeirra sè að biðja veturvistar. Hún spyr, hvart hann hafi lofað því. Hann segir það vera. Hún kvað hann þá hafa brugðið loforð sitt. „Þá vil eg,“ segir hún, „nokkru ráða, og það er það, að þeir sèu ekki innanbæar.“ „Það skal þèr veitast,“ segir hann. Hún gengur inn og fer að gráta, en bóndi losar skemmu, er hann á, og vísar þeim þángað, og er þeim fært alt þángað, er þeir þurfa með, en konan kemur þángað aldrei; hvert kvöld koma þeir til fólksins, en halda sig þó helzt í skugganum, tala við engan mann, nema ef bóndi yrðir á þá. En konan lætur sem hún sjái þá ekki. Líður svo veturinn fram á vor. Það var einn sunnudag, að hjónin ætla til altaris. Þegar þau voru ferðbúin og höfðu kvatt fólkið, eins og þá var siður, fara þau á stað. En þegar þau voru komin skamt

frá bænum, spyr bóndi hana, hvart hún hafi kvatt fólkið. Hún segir svo vera. Þá spyr hann hana, hvört hún hafi kvatt visturmennina. Hún kvað það ei vera, því hún hefði eingin afskipti af þeim haft, og ekkert á móti þeim gjört. Hann vildi, að hún færi heim aptur til þess, en hún er mjög treg til þess. Hann leggur því fastara að henni þángað til húu segir, að hann skuli sjá til að betur fari. Fer hún svo; en þegar honum fer að lengja, fer hann heim, og sèr, að skemman er opin. Hann gengur að veggnum, og heyrir, að þau eru að tala saman. Síðan gengur hann að dyrunum, og heyrir, að hún segir: „Þann hef jeg sætastan svaladrykk sopið af vörum þínum.“ Hann bíður, ef þau tali fleira, en það verður ekki. Síðan fer hann inn, og eru þau í faðmlögum og bæði sprúngin, en dreingurinn situr þar hjá þeim grátandi. Bóndi spyr, hvernig á þessu standi, en dreingurinn segir, að þetta sèu foreldrar sínir. Bónda finnst mikið um þetta og lætur síðan grafa þau bæði. En þegar það var húið, hverfur dreingurinn, svo einginn vissi, hvað af honum varð, og lýkur svo þessari sögu.

**Prests-dóttirin.** (Sögn úr Skaptafellssýslu.) Eitt sinn bjó prestur á kirkjustað. Hann átti eina dóttur, sem hèt Guðríður. Menn urðu þess varir, að piltur einn stóð opt hjá sæti hennar, en hún gjörði ekki orð á því. Litlu síðar varð piltur einn, sem var fyrirviuna hjá móður sinni, til að biðja hennar; hann hèt Guðmundur. Faðir hennar tekur því; en þess er ei getið, að hún hefði nein mótmæli. En eptir því sem leið á haustið, sáu menn, að þessi piltur varð daprari. En kvöldið, sem hún átti að fara alfarin að morgni, kom hinn dapri piltur, sem vant var, og mælti þetta fram:

1. „Það er minn vandi, þó eg standi
í þessum skugga,
mærðar blandi af minnis landi
mun eg brugga
sèrdeilis fyrir þig, sæmdin úngra fljóða
lukkuna fáðu, laukaskorðin rjóða.
2. Kjóstu þèr þann hinn kléna mann
á koddann mjúka
sem flestar dygðir fram gjörir bjóða,
. . . . . . . [1]
sèrdeilis fyrir þig sæmdin úngra fljóða
lukkuna fáðu, laukaskorðin rjóða.
3. Ríkari kantu rekkinn fá,
mín rósin bjarta,

1. Fjórðu hendinguna vantar.

en engan þann, þèr svo vel ann
í sínu hjarta,
úngur mann aflar peninga nóga
lukkuna fáðu, laukaskorðin rjóða.
4. Frelsarinn þinn sè huggarinn minn
mín hýrust meya
og flytji mig inn í friðgarð sinn,
þá fer eg að deya;
kveð eg ei leingur mína túngu móða
lukkuna fáðu, laukaskorðin rjóða."

Síðan geingur hann burtu mjög sorgbitinn. Að morgni kemur Guðmundur að sækja hana. En þegar hún kveður föður sinn, fær hann henni lítið kver, og segir hún megi það aldrei við sig skilja. Nú ber svo til, er þau eru gipt, að Guðmundur, maður hennar, varð að ferðast burtu, en var væntanlegur að kvöldi, og vakti hún eptir honum, og hafði sèr til skemtunar að líta í, kver sitt. Að lítilli stundu liðinni heyrir hún barið: hún geingur til dyra og lýkur upp, en kverið varð eptir á rúmi hennar. Hún sèr eingan, nema huldupiltinn, og tekur hann í hönd hennar, og leiðir hana burt með sèr; en upp frá því hefir hún ei sèzt. En þegar Guðmundur kom heim, fannst honum mikið um. Einginn vissi, hvað af henni varð. Einn morgun að þremur missirum liðnum, þegar faðir hennar kom á fætur, sèr hann lík-kistu við kirkjudyrnar. Hann geingur þángað, sèr brèf liggja á kistunni til sín og hökul. Hann les brèfið, og stendur í því, að þetta sè dóttir hans, sem horfið hafi, og hafi hún dáið af barnsförum og beðið að grafa sig í kirkjugarði þessum, en hökulinn eigi að vera í legkaup. Að liðinni viku stóð þar önnur kista með brèfi til prests og sloppur fylgdi með. Í því brèfi var þess óskað, að prestur græfi kistuna í kirkjugarðinum; því þar væri í barn dóttur hans, er hún hefði alið, áður en hún dó, og vildi faðirinn, er brèfið var frá, að barnið væri grafið hjá móður sinni; en sloppurinn skyldi vera legkaup fyrir líkið.

**Prestsdóttir gipt huldumanni.** (Eptir Gísla Konráðsson.) Prestur einn á einhverjum stað átti dóttur gjafvaxta. Einu sinni varð tilrætt um huldufólk eða álfa; sagði þá dóttir prestsins: „það gilti mig einu, þó eg ætti álfamann, væri það vænn maður." Rak prestur dóttur sinni þá snoppúng og kallaði hana óþarflega mæla.

En það var nokkru síðar, að barn eitt á prestsgarði þessum sá mann ríða þar að bæardyrunu, stíga af baki, gánga inn og taka í hönd prestsdóttur, leiða út, setja á bak hjá sèr og ríða í burtu. Eptir það var hennar leitað hvervetna, er mönnum datt í hug, en einginn varð hennar var.

En sagt er, að það yrði þrem vetrum síðar, að fjármaður sá, er leingi hafði verið með presti, og hug hafði lagt á dóttur hans, er hvorfin var,

viltist eitt sinn með alt fèð; kom svo, því kafald var á, að hann misti frá sèr alt fèð; komst þó sjálfur að lyktum að bæardyrum einum, er hann kendi ógjörla. Maður gjörvilegur stóð þar í dyrum frammi, og bauð fjármanni gistíugu. Kvaðst hann það þiggja mundi, en barmaði sèr mjög um missi fjárins. Bóndi kvað eitthvað mundi til verða að finna það aptur. Fylgdi hann nú gesti sínum inn á baðstofulopt. Þar sá hann gamlan mann og gamla konu; en tvö börn lèku sèr á loptinu. Þar þekti hann og prestsdóttur, og þóktist vita, að hún mundi vera kona bóndans, er bauð honum gistínguna. Var honum veittur þar hinn bezti beini, og fylgt að lyktum í húsrúm undir baðstofulopti. Þar kom prestsdóttir til hans, og bað hann vera sèr trúan, og færa móður sinni frá sèr gersemar nokkrar í skjóðu, og segja henni þar með, að bænir sínar mætti hún lesa á hverju kvöldi. Spurði fjármaðurinn hana þá, hvort hún kæmi nokkurn tíma í kirkju. Hún kvaðst koma það jafnopt honum; ætti hún fremsta sæti undir prèdikunarstól, en maðurinn sinn næst altari. Spyr fjármaðurinn, hversu það mætti vera, þá einginn sæi þau. Hún segir það til þess bera, að þau fari jafnan úr kirkju á undan blessan. En þess bað hún hann sem innilegast, að geta þess að eingu, er hann væri nú vís orðinn um sína hagi, að öðru, en skila móður sinni skjóðunni; því ella mundi hann mikla ógæfu af hljóta. Hèt hann því; en að morgni færði bóndi honum alt fèð, og hafði rekið það inn á hey um nóttina. En aptur fór hann í villu heim með fèð; en það var örskamt að fara. Enti hann þá eigi betur heit sitt, en svo, að hann sagði frá því öllu sem gjörst, er hann hafði orðið vísari í för þessari. Tók prestur þá það ráð að vara við sóknafólk sitt, að bregðast ei ókunnuglega við, þótt hann blessaði yfir söfnuðinn, fyrri en venja væri til, því freista vildi hann með þeim hætti, að ná dóttur sinni, og er sagt honum tækist það; en fyrir bænastað hennar innilegan yrði hann aptur að sleppa henni, því að hún teldi, að ærin vandræði mundi ella af hljótast; lèti og maðurinn sinn sig svo vel, að sèr væri mestur harmur að missa ást hans. En talið er, að fjármaðurinn yrði ógæfumaður mikill.

Aðrir segja, að þegar prestsdóttir var tekin í kirkjunni, sæti hjá henni bæði börnin, en maður hennar næði þeim og hyrfi á burt; en að prestsdóttir hafi sagt við fjármanninn, er hún var tekin: „Fáðu hvorki kauu nè kvef, og komi þèr aldrei hor í nef, og legg eg þó ei á þig, sem þú átt skilið.“

**Mókollur.** (Eptir handriti Jóns Bjarnasonar í Breiðuvík og Magnúsar Einarssonar á Klippstað í Múlasýslu.) Einu sinni bjó bóndi á Útnyrðíngsstöðum á Völlum; Guðrún hèt kona hans. Þau áttu eina dóttur barna, er Guðrún hèt, og ólst hún upp, þar til hún var 12 vetra; tók hún þá við smalamennsku, því faðir hennar var vesæll og hafði fátt manna. Liðu svo fram stundir, þángað til bóndi dó. Eitt kvöld fór Guðrún að vanda sínum til

lamba í molludrífu, svo að hún viltist. Hitti hún þá mann nokkurn; spurði hún hann að heiti, en hann kvaðst Mókollur heita; hann bauð henni að fara með sèr, og sagði, að skemmra væri heim til sín, en hennar; þektist hún það, en sagði þó, að sig lángaði að finna lömbin; sagðist hann vera búinn að hýsa þau og væri þeim óhætt. Fór hún þá með honum og komu að húsi nokkru; lýkur hann því upp, og þar sèr hún lömbin inni. Síðan fara þau heim að bænum, og tekur hann af henni snjófötin og leiðir hana síðan inn í baðstofu; eingan mann sá hún þar, nema kerlíngu eina, og var hún heldur ófrýnleg að sjá. Biður Mókollur stúlkuna að gefa ekki gaum að þessu, og segir henni, að það sè móðir sín. Sagði hann að móður sinni væri ekki um komu hennar; lèt hann stúlkuna sitja hjá sèr á rúmi sínu, en kerlíng lèt heldur en ekki síga brýnnar; fór hún þó fram að sækja þeim mat og kom inn aptur með tvo diska, setti þá upp á pallinn, og fóru þau þá að borða. Þar var hún í 3 daga, og var þá birt upp veðrinu. Kemur þá Mókollur til hennar og segir, að nú muni hún vilja halda heim, og sagði hún, að svo væri. Fer hún þá á stað, og fylgir hann henni heim á túnið á Útnyrðíngsstöðum. En þegar Mókollur kveður hana, biður hann hana að gjöra eina bón sína, og lofaði hún því, ef hún gæti; beiddi hann hana þá að fara til sín um vorið, ef það væri vilji móður hennar og lofaði hún því. Skildust þau við það og fór hún heim; varð þar fagnaðarfundur, og spurði móðir hennar hana, hvar hún hefði verið. Sagði hun alt hið sanna frá ferðum sínum, og lèt móðir hennar vel yfir. Leið nú veturinn fram á útmánuði. Kom þá maður að Útnyrðíngsstöðum að nafni Sigurður, er beiddi Guðrúnar eldri; tókst það ráð, og fór hann þángað um vorið, og átti Guðrúnu. Varð hún þess brátt vör, að hún fèkk eingu að ráða fyrir manni sínum; kom því ósamlyndi milli þeirra, því Guðrún var vön að gjöra gott. Nú víkur sögunni til Mókols; hann kom um vorið og beiddi Guðrúnar ýngri. Tók móðir hennar því vel; en þegar bóndi heyrði það, varð hann fár við, og lagði á móti því, þangað til hann heyrði, að Mókollur kærði sig ei um neinn arf með henni. Fór Guðrún þá á stað með Mókolli og ber ekkert til tíðinda, fyrr en um haustið; komu þau þá og færðu öllum gjafir á Útnyrðíngsstöðum, nema Sigurði bónda; gèkk svo tvisvar. Sókti Mókollur Guðrúnu báða þessa vetur til að sitja yfir konu sinni. Þetta líkaði Sigurði illa, og þegar leið að þeim tíma, er Mókollur var vanur að koma, veturinn eptir, lokaði Sigurður konu sína inni í húsi, svo að Mókollur næði henni ekki. Um veturinn kom Mókollur og ætlaði að fá Guðrúnu með sèr, en bóndi þverneitaði; lagði Guðrún að bónda sínum mjög og sagði, að líf tveggja eða þriggja lægi við, en Sigurður kvaðst ekki hirða um það, og sagði sèr stæði á sama, þó það dræpist alt í brúgu. Varð Mókollur mjög hryggur við það og fór á burt. Leið nú veturinn fram að páskum; en á páskadaginn, þegar fólk var komið til kirkju og prestur ætlaði að gánga í kirkjuna, sjá

menn, að virki á hjólum veltur fram úr fjallinu, og stefnir það að kirkjugarðinum og nemur þar staðar; gánga menn þar að, að skoða þetta mikla smíði; sjá menn þá líkkistu í virkinu og mann fram með henni dauðan á grúfu. Spurði þá prestur, hvort nokkur vissi deili á þessu; en allir kváðu nei við. Geingu þá að hjónin frá Útnyrðíngsstöðum, og þekti Guðrún þar Mókoll, og segir hún alt, hvernig farið hefði. Er þá Sigurður bóndi settur í varðhald, en Guðrún fór til bæar Mókols, og fann þar tvö börn, annað í vöggu og bundið band yfir, en hitt á pallinum, bundið líka. Tók hún þar bæði börnin og alt, sem fèmætt var innanbæar; fór hún heim til prests með börnin, og ól hann þau upp. En af Sigurði bónda er það að segja, að hann var tekinn og drepinn, en Guðrún bjó á Útnyrðíngsstöðum til elli.

**Konuhvarf í Hnefilsdal.** (Eptir handriti Jóns Sigurðssonar í Njarðvík í Múlasýslu.) Það var trú manna fyrrum, að ekki mætti ein kona eiga allan Hnefilsdal, því hún yrði þá numin burt af álfum. Melhólar tveir eru í landinu, annar stærri, en annar minni, sem standa saman, kallaðir Mælishólar. Á þeim var mikil trú, að þeir væri álfasetur. Þegar Brynjólfur biskup Sveinsson visitèraði Austfjörðu, gjörði hann sèr ferð þángað með Sigfúsi presti Tómássyni, til að skoða hólana, gèkk umhverfis þá berhöfðaður, og sagði síðan við prest: „Gott fólk í minna hólnum, en misjafnt í þeim meira.“ „Svo er, sem þèr segið herra“ sagði prestur.

Eitt sinn er þess getið, að bóndinn í Hnefilsdal ætti eina dóttir barna. Þegar hún var fullvaxta, sagði hún að maður einn kæmi optlega til sín, og lèti mjög blíðlega við sig; um þetta kvartaði hún opt með miklum áhuga. Þetta gèkk nokkurn tíma, og sagði hún sig ángraði þetta, því hann vildi ná sèr til sín, og mundi hún ekki geta varizt þessu, því hann væri sèr mjög blíður og elskulegur, og bygð hans væri í Mælishól, og bað menn gæta að sèr vandlega, annars mundi ver fara. Þessu var einginn gaumur gefinn, þó hún með trega bæði þessa. Eptir þetta hvarf hún burtu. En tvo nýársdaga eptir þetta var hún við messu í Hofteigi, glöð og hress, sagði hún kunníngjakonum sínum að sèr liði vel; maðurinn, sem hún væri hjá, breytti í öllu vel við sig, og væri sèr góður. Að því gáðu menn þegar hún gèkk inn kirkjugólfið, var á henni festi. Skygnir sáu einnig manninn. En þriðja nýársdag um messutímann var líkkista sett fyrir kirkjudyr í Hofteigi, og ofan á henni lá messuhökull vandaður mjög. Einginn sást maðurinn. Svo var líkið jarðað. En um kvöldið heyrðu menn í Hofteigi kveðið sorgarkvæði hástöfum með trega miklum, og farið optlega með það, svo menn námu það. Eg talaði við gamla menn sem heyrðu með það farið; það voru nokkur erindi. Seinasta erindið heyrði eg, og er það svona:

„Frelsarinn þinn sè huggarinn minn,
mín hýrust meya.
Flytji hann mig í friðstaðinn,
þá fer eg að deya.
Mína tungu gjöri eg ei leingur móða.
Lukkuna fáðu, laukaskorðan rjóða.“

þóktust menn vita, að það mundi vera konan, sem hvarf frá Hnefilsdal, er flutt var lík að Hofteigi, og hèldu hún hefði dáið af barnsneyð. þóktust þeir skilja það af sorgarkvæðinu.

**Hjónin í Skál á Síðu.** (Sögn úr Skaptafellssýslu.) Einn tíma bjuggu hjón í Skál; voru þau gipt fyrir nokkrum árum, þá saga þessi gjörðist. Eitt haust kom það að konunni, að hún varð svo utan við sig, að hún mátti eigi sjá dagsbirtu nè ljósbirtu. Einginn mátti til hennar koma, og ekki þáði hún mat eða drykk af nokkrum manni. Gèkk þetta í 3 ár, og sáu þeir, sem skygnir voru, að úngbarn eða reifastrángi var borinn frá henni á ári hverju þenna tíma. Maður hennar var þvínær afskiptalaus af þessum veikleika hennar, því hann mátti ekki koma til hennar, heldur en aðrir menn.

Eina nótt dreymdi bónda, að kvennmaður kæmi til hans, og kvaðst hún hafa þúngar búsifjar af honum vegna konu hans, því bróðir sinn ætti vingott við hana, drægi til hennar það bezta úr heimilinu, en flytti til sín börn þeirra, og væru 3 komin til sín. Manninum brá illa við þetta, og kvaðst ei vita ráð við því. Hún rèð honum þá til, að bera hana út í birtu, hafa ljós hjá henni og flytja hana til kirkju, og láta hana aldrei vera mannlausa, þó mundi þetta alt falla henni illa. þessu ráði fylgdi hann; þá lagaðist alt fyrir þeim, og henni batnaði mikið að lyktum.

**Álfurinn í Stórasteininum.** (Eptir Snæbirni Egilssyni á Klippstað.) Svo er sagt að bóndi sá hafi búið í Hvannstóði í Borgarfirði, er Guðmundur hèt. Einu sinni var það síðla á kvöldi, að hann kom frá fè sínu, og hafði vantað nokkrar kindur. Hann gèkk í baðstofu. Alt fólk svaf þar myrkursvefn, en hann settist á flet, er var móti baðstofudyrum, og fór ekki af skóm, því hann hugði að fara út aptur, þá er lítil stund liði, og vita þá hvort kindurnar hefðu ei heim komið. Veðri var svo háttað, að túnglsljós var og spakviðri. þegar bóndi hafði litla stund setið, heyrir hann þrusk við bæjarhurð og henni lokið upp, því næst er geingið inn seinlega, og að baðstofuhurð, þá heyrði hann, að var staðið við og hlustað, og síðan lokið upp hurð ódjarflega, og geingið að pallstokki og numið þar staðar; sèr hann þá, að þetta kvikindi bregður upp silfurbjörtum hnífi, og er að leitast við að komast upp á pallinn. En í sama vetfángi stökk bóndi á fætur, og þá bregður líka hinu við, og fram um dyr, en bóndi á eptir, og er hann kemur í bæardyr, þrífur hann torfljá, sem þar var undir sillu frá

því um haustið, og hleypur út með hann; og er hann kemur út, sèr hann mann suður í túnfitinni; sá var lágur vexti og gildlegur og hafði á rás suður um völlinn. þegar bóndi sèr það hleypur hann á eptir honum. Hjarn var á jörðu og hart undir fæti, og þó miðaði huldumanninum harla lítt, jafnvel þó hann herti hlaupið sem mest, og það leist bónda, að hann gæti tekið hann, þegar hann vildi; en hann hugði að sjá inni hans, og hafa þá af honum sannar sögur.

Nú hlaupa þeir báðir suður um eingjarnar og hefir álfurinn sig allan við, og bóndi læzt gjöra við sama, en veifar torfljánum, og eggjar hann að bíða, en hann æpti: „Snúðu aptur, snarmenni, og láttu mig fara.“ En þó hann kallaði svona, elti bóndi hann alt suður um Króarmel og yfir Lambadalsá og Kollutúngur, og er þeir komu sunnarlega í þær og nærri stórum steini, er þar stendur nálægt Kækjuskarða-vegi, sá bóndi, að á þessum steini stóðu dyr opnar, hleypur hann þá fram fyrir bjargbúann, og kvíar hann utansteins. En þá segir hann: „Láttu mig, maður, ná inni mínu. þú hefir nú verið 5 ár í Hvannstóði, og hefir mèr ætíð legið hugur á konu þinni, en aldrei borið áræði til að ná henni fyrr, en nú að eg ætlaði að drepa þig, en nema hana brott, en þess vinn eg þèr eið við alla vora vætti, að vera þèr ei til meins framar.“ þegar bjargbúinn hafði þannig mælt, veik bóndinn sèr frá steininum, og fór hinn inn í hann, og sá þá bóndi þar ekki dyramót. Fór hann eptir það heim. þetta var um veturinn fyrir jól, en eptir nýár fèkk hann bóndann í Brúuavík til að hafa við sig jarðaskipti, og flytja að Hvannstóði, en hann flutti að Brúnavík; því hann þorði ekki að reiða sig á orð huldumannsins. þessi Guðmundur átti son sem Jón hèt, og sá var faðir hins svonefuda Galdra-Vilhjálms.

**Ragnheiður Pálsdóttir elur barn í álfhól.** (Vestfirzk sögn.) þegar Ragnheiður Pálsdóttir, móðir Brynjólfs biskups Sveinssonar, var heimasæta að Staðarhóli í Saurbæ, er svo frá sagt, að einn dag hafi hún farið til fundar við bónda einn í Fjósakoti, og beðið hann að söðla sèr hest, og fylgja sèr fram á Traðardal. Riðu þau síðan leiðar sinnar, uns þau komu fyrir leiti eitt. þar bað hún hann að bíða sín til miðaptans næsta dags, og það gjörði hann. Ragnheiður var mjög skrautbúin og þar á meðal hafði hún rauða „damasks“-svuntu alsetta dýrmætum silfurknöppum, og utan yfir aðra lakari, bláa að lit. Síðan skildi hún við bónda, og hvarf fyrir áður nefnt leiti í dalnum. Vissi bóndi ei til hennar fyrr en um miðaptan daginn eptir, þá kom hún aptur; sá hann þá, að hún var bragðfölvari, en þá er þau höfðu skilið; var þá og horfin dýrindissvuntan rauða. Hafði hún, meðan hún var burtu, alið barn í álfhól og bað hún bónda þegja yfir ferð sinni, og gaf honum 20 spesíur fyrir ómakið.

**Grímshóll.** (Tekið eptir handriti Guðmundar í Gegnishólum.) það hefir leingi verið siður í Rángárvallasýslu, að menn hafa farið þaðan til sjóróðra eitthvað suður. En einu sinni bar svo við, að únglíngsmaður nokkur, Grímur að nafni, ætlaði suður í Leiru til sjóróðra. Grímur var fyrirvinna hjá móður sinni, en faðir hans var dáinn. Grímur fór nú með öðrum Rángvellíngum suður, en er þeir komu suður undir Vogastapa, bar svo við, sem opt má verða, að reiðgjörð slitnaði á hesti Gríms, svo hann varð að staldra við til að bæta gjörðina. Grímur var aptastur í lestinni, og tóku því samferðamenn hans ekki eptir því, að hann stóð við; hèldu þeir þá áfram og bar leiti á milli. En er Grímur var einn orðinn, kom að honum maður. Sá maður falar Grím til að róa hjá sèr um vertíðina, en Grímur skorast undan og kvaðst vera ráðinn hjá manni í Leirunni, og segir honum hver sá sè. Spyr Grímur manninn hvar hann eigi heima, en hann sagði að bær sinn væri þar skammt frá þeim. Leggur hann þá fast mjög að Grími, og segir að aflabrögð hans muni ei verða minni hjá sèr, en Leirumanninum, sem hann sè ráðinn hjá. Og hvernig sem þeim hafa nú farizt orð á milli þá fór Grímur með hinum ókunna manni. Komu þeir brátt að snotrum bæ, vel bygðum. Maðurinn spurði Grím hvað hann ætli að gjöra við hestinn. Grímur kvaðst hafa ætlað að senda hann heim aptur, þó hann helzt hefði viljað hafa hann þar hjá sèr til lokanna, til þess að geta flutt eitthvað á honum með sèr heim til móður sinnar. Maðurinn segist þá skuli sjá eitthvað fyrir hestinum, og tók við honum, en Grímur vissi ei um hann framar að sinni. Nú byrjar vertíðin og róa þeir Grímur tveir á báti, og hlóðu í hvert skipti. En er að landi kom, var Grími sagt að gánga heim og hvíla sig og vissi hann því aldrei hvað um fiskinn varð, eða hvað mikið þeir höfðu feingið í hlut, enda grennslaðist hann eptir hvorugu. Undi hann sèr mjög vel, og fannst honum tíminn stuttur, og ei vissi hann heldur hvað á hann leið. Ekki lagði hann mat á borð með sèr. — Einhvern dag er þeir eru á sjó, bóndi og Grímur, spyr bóndi hann hvort hann viti hvað nú sè liðið á vertíðina, eða hvað mikið þeir sè búnir að fiska. Grímur neitti því. Þá segir bóndi honum að lokadagurinn sè á morgun, og ef við fáum eins og vant er í dag á bátinn okkar, þá höfum við feingið tíu hundruð til hlutar, en sá, sem þú varst ráðinn hjá hefir feingið hálft fjórða hundrað. Spyr hann þá Grím, hvort hann vilji ekki vera kyr hjá sèr, eða hvort hann þurfi nauðsýnlega að fara heim um lokin. Grímur segist mega til að fara heim. En er þeir höfðu feingið á bátinn, halda þeir að landi; og daginn eptir býst Grímur til heimferðar. Bóndi spyr Grím hvað hann vilji helzt hafa á hestinum austur og segist Grímur ætla að flytja kvistinn og höfuðin. Bóndi spyr hvort móðir hans þurfi ekki korns. Grímur segist ekki geta hugsað til að hafa það með sèr í það skipti. Bóndi segir, að á lestunum skuli hann koma með 10 hesta með reiðíngi, og geti hann þá hvort sem

hann heldur vilji feingið á þá hjá sèr, eða lagt fiskinn inn hjá öðrum. En er Grímur ætlar á stað fær bóndi honum tilbúna bagga á tvo hesta, og voru annað kornbaggar, en annað fiskabaggar, og segir hann skuli eiga þá. Grímur segist ei geta flutt nema aðra baggana. Bóndi segist skuli ljá honum hest og fær honum brúnan hest. Grímur tók og sinn hest, og var hann svellspikaður. Fer nú Grímur á stað, og hittir samferðamenn sína; þeir voru þá á heimferð líka. Þeir spurðu hvar hann hefði verið um veturinn, en hann sagði þeim óglögt frá öllu. Þegar heim kom sagði hann móður sinni alt sem farið hafði. Líður svo fram á lestir; þá býst Grímur heiman með tíu reiðíngshesta í lest. Margir voru þeir saman, Rángvellíngar. En er suður eptir kemur, dregst Grímur aptur úr, og missa þeir hans, svo þeir vissu ekki hvert hann fór, samferðamennirnir. Halda þeir svo leiðar sinnar. Kemur nú Grímur til formanns síns; tók hann vel móti honum, og lèt hann fá nauðsynjar allar, er hann þurfti, og miklu meira en hann hafði ætlað. En er Grímur var albúinn til burtfarar, spyr bóndi hvort hann þurfi ei peninga við. Grímur segir að svo sè, en hann muni vera búinn að fá fyrir hlutinn sinn, og því hafi hann ei nefnt það. Bóndi fær honum þá 40 spesíur. Bóndi spyr Grím, hvort hann hafi sagt nokkrum hvar hann hafi verið. Eingum nema móður minni einni, segir Grímur. „Jæja,“ segir bóndi, „eg vissi það, að þú hafðir sagt frá því, því þess vegna hefir það komizt á lopt. En nú eru þorskhöfuðin þín,“ segir bóndi. „Þau verðurðu að sækja seinna.“ Grímur játti því. Skilja þeir síðan með kærleikum. Fer Grímur heim og undruðust menn mjög afla hans. Seinna fór hann skreiðarferð og sókti þorskhöfuðin; bar ekki til tíðinda í þeirri ferð, nema að bóndi falar Grím til að róa hjá sèr aðra vertíðina til, og var Grímur fús á það. Segir ekki af því meir, nema aflabrögð og aðgjörðir fóru að öllu eins og fyrr. Þessu fór fram nokkrar vertíðir. En einu sinni spyr formaður Gríms hann að hvort hann mundi ei vilja fara til sín, þegar móðir hans væri önduð, og eiga dóttur sína. Grímur þekti stúlkuna og fèll hún vel í geð, svo hann þá þegar boð bónda. Líða nú enn nokkur ár, þángað til móðir Gríms deyr. Sjá þá nábúarnir að ferðasnið er á Grími. Býst hann nú hið skjótasta til burtferðar, og selur alt það, sem hann gat ekki með sèr flutt. Heldur hann nú suður, en einginn vissi upp á víst hvert hann fór, nema hvað samferðamenn hans komust næst, að hann mundi hafa farið að hól þeim, sem er á Vogastapa fyrir ofan Reiðskarð. Hóll þessi er æði stór með vörðu á, og er hann kallaður Grímshóll síðan. Aldrei varð neitt vart við Grím eptir þetta hvorki á Rángárvöllum nè í veiðistöðunum syðra.

**Bjarni Pètursson og álfar.** (Vestfirzk sögn.) Þegar Bjarni Pètursson, er síðar bjó að Skarði, var á únga aldri, var hann samtíða pilti nokkrum, er hafði miklar samgaungur við álfafólk og fór opt um kvöldtíma burtu

frá bænum. Bjarni bað hann einu sinni að lofa sèr að fylgjast með honum; hèt hann því með þeim skilmála, að hann geingi ekki í álfhólinn á eptir sèr, og hèt Bjarni því. Síðan fóru þeir að heiman og geingu uns þeir komu að hól nokkrum lángt frá bænum. Þá laukst upp hóllinu þegar; gekk pilturinn þar inn og Bjarni á eptir. Þeir sáu þar konu skrautbúna, er fagnaði vel piltinum og lagði hann í sæng hjá sèr. En litlu seinna vísaði hún Bjarna til rúms á öðrum stað og bað hann að bregðast ekki ókunnuglega við, þótt nokkuð kæmi í hvílu hjá honum. Síðan leggst Bjarni í rekkjuna, og skömmu eptir kemur að hvílu hans ófrýnleg kvennsnipt, er Bjarna þókti líkara skrýmsli, en konu. Hún vildi komast upp í rúmið, og er hún var á hálfa leið komin, hratt Bjarni henni svo óþyrmilega út úr hvílunni, að hún skaddaðist við fallið. En skrýmsli þetta, er Bjarna sýndist svo, átti að hafa verið dóttir álfkonunnar, er leysast skyldi úr álögum, með því að hvíla hjá mennskum manni. Síðan bjuggust þeir brott úr hólnum pilturinn og Bjarni, og sagði þá álfkonan við Bjarna að skilnaði, að hann væri mikillar hefndar verður, bæði fyrir forvitni sína og misþyrmíngu dóttur sinnar; en hún kvaðst það á hann leggja, að hann skyldi verða hinn mesti óeirðarmaður um kvennafar, og alt hans afkvæmi fram í 5. lið (sumir segja 9. lið) og er mælt, það yrði að áhrínsorðum.

**Hólgaungur Silúnga-Bjarnar.** (Eptir handriti Ólafs Sveinssonar í Purkey.) Þegar Silúnga-Björn, er svo var nefndur, var á lífi og hann var kaupamaður í Snóksdal, þá hvarf hann á burt hvert laugardags kveld, þá hætt var vinnu; vissi þó enginn hvert hann fór. Þeir lögðu lag saman Sigurður, son bóndans í Snóksdal og Björn. Einu sinni á mjög liðnu sumri lofaði Björn Sigurði með sèr að fara; hafði Sigurður beðið hann mjög og margklifað á því; varð Sigurður glaður af því. Þeir geingu tveir upp á hálsinn, er liggur milli Snóksdals og Hamraenda. Þá þeir komu á miðjan hálsinn, geingur Björn til útnorðurs af götunni, og Sigurður með honum. Nú varar Björn Sigurð við því, sem honum sýndist þörf fyrir hann að varast; þar á meðal var það, að hann mætti þar við búast að hann feingi kvennmann í rúm til sín, þá hann háttaður væri. „Þar liggur þèr á,“ segir Björn, „að þú snúir þegar að henni, og að þú verðir henni að duglegum manni til hvílubragða; en ef þú gjörir ei svo, má það, ef til vill, beggja líf okkar kosta.“

Sigurður lofar að duga vel til þeirra verka; Björn segir: „Þar liggur okkur ekki lítið á, að þú það endir og látir ei bregðast.“ Nú gánga þeir, þar til þeir koma að hól einum. Björn tekur þá upp sprota, og slær á hólinn; að því búnu lýkst upp hóllinn; er þá að sjá sem húsdyr á hólnum og geingur þar út kona, öldruð nokkuð, að Sigurði sýndist. Björn heilsar henni vingjarnlega; hún tekur þá í hönd Birni, og leiðir hann með sèr í hólinn. Eptir það kemur úngur kvennmaður út, og tekur í hönd á Sig-

urði, og leiðir hann með sèr í hólinn, og lætur hann setjast við eitt borð hjá Birni. Síðan var matur á borð borinn, steiktur silúngur og brauð, þar var og grjónagrautur. Þeir fá sèr nú mat; einatt er Björn að tala við þær, einkum hina eldri, og þá máltíð er enduð, er Birni til sængur fylgt. En þá hann er háttaður, stígur sú hin eldri konan í sæng hjá honum; leggjast þau svo niður, og faðmar Björn hana eptir vana sínum. Nú vísar hin ýngri Sigurði til hvílu, og þjónar honum til sængur; því næst afklæðir hún sig, og stígur upp í rúmið hjá honum, og leggst niður. Bregður Sigurður þá af ráðum Björns, og snýr sèr frá henni, þar eð hann var þá numinn frá að hafa samræði við hana; heldur kom ótti og kvíði í stað girndarinnar til þess, að snerta hana til þeirra verka. Eigi kemur henni þetta vel, að Sigurður snýr frá henni, og urðu því umskipti á blíðu hennar. Hún stendur upp reið mjög; finnst þá Sigurði, sem húsið eða hóllinn skjálfi, og var þá Björn þegar á fætur kominn, og leitaði sátta og friðar sèr og Sigurði. Gekk svo leingi nætur óeyrð í hólnum, en komust þó lifandi á burt. Þá þeir voru út komnir, ávítaði Björn Sigurð harðlega, að hann braut af hans ráðum, og að mikil hamíngja hefði það verið, að þeir hefði komizt óskemdir á burt; enda sagðist Björn hafa gjört sitt hið bezta, er hann hefði getað, að stilla reiði þeirra, og kvaðst hann ei leingri nè hættulegri nótt lifað hafa. Þeir fóru svo heim í Suóksdal, og lètu ei á bera. Sigurður sagði, að Björn hefði sèr sagt, að hann hefði getað í sátt komizt aptur við þær huldukonurnar, þótt bágt hefði það viljað veita. Sigurður beiddi eigi Björn optar að lofa sèr að fara með honum í hólinn. Frá þessu hafði Sigurður sjálfur sagt, en hann var að sögn manna einginn skjalari. En Björn var alþektur fyrir hólagaungur, og að hafa samræði við huldufólk, eða álfkonur.

**Frá Eyólfi og álfkonu.** (Eptir Gísla Konráðsson.) Gunnlaugur prestur Þorsteinsson, er annálinn reit, bjó að Ytra-Vallholti í Vallhólmi norður. Saung hann tíðir á Víðimýri og Flugumýri yfir 36 ár.[1] Prestur var einrænlegur og haldinn margfróður; hvarf hann laungum, einkum á nóttum, og var því trúað, að hann dveldi þá með álfum. Sá úngur maður var á vist með presti, er Eyólfur hèt, allmann-vænlegur, og þókti gott mannsefni, og var presti vel til haus. Það var opt, að Eyólfur bað prest að lofa sèr með honum í leyniferðir þær, er prestur fór. Prestur var alltregur, og kvað ei víst, að honum yrði til hamíngju. Eyólfur vildi ei það heyra, og sókti á því fastara. Leiddist presti nauð hans og hèt honum förinni með þeim kostum, að hann breytti að öllu eptir sèr, og gætti þess vandlega að bregða út af því aungvu. Hèt Eyólfur því. Síðan fór Eyólfur með presti fram til Skiphóls við Vindheima-mela, og er þeir komu þar, opnaðist

1. Eptir „Prestatali“ Gunnlaugs Þórðarsonar á Skuggabjörgum var sèra Gunnlaugur Þorsteinsson prestur að Flugumýri og Hofstöðum frá 1630—1678, eða í 48 ár.

hóllinn fyrir þeim. Komu þeir þar í herbergi fagurt: voru þar fyrir tvær konur, önnur við aldur, en þó hin errilegasta, og væn álitum, hin var mær ein fögur, gjafvaxta að sjá. Fagnaði eldri konan presti báðum höndum; en báðum var þeim presti vist borin hin bezta, og að öllu farið sem hæversklegast. Síðan voru tvær rekkjur búnar, og steig þar prestur og eldri konan í aðra. Hin ýngri afklæddi sig alt að nærfötum, þá hún hafði þjónað þeim presti til sængur, steig upp í aðra rekkjuna, og spyr, ef Eyólfur vill hvíla þar hjá sèr. Hann þagði við; bað hún hann þá blíðlega og tók hönd hans. Eyólfur svarar þá heldur stygglega: „Eg stel eingu, þó eg standi hèrna." Reiddist hún þá og mælti: „Vertu þá hèðan af aldrei óstelandi." Prestur mælti: „Nokkra bót muntu þó vilja við leggja?" Hún svarar: „Vera má það fyrir þín orð, prestur, og sakir móður minnar, og læt eg það um mælt, að eingin snara haldi honum." En prestur vítti Eyólf um óhlýðni sína og heitrof. Fór hann þegar úr hólnum um nóttina og heim í Vallholt. — Er það sagt, að þegar tók Eyólfur að stela og strjúka; varð hann þá opt tekinn og átti að heingja; en eingin snara hèlt honum, og sögðu menn, að jafnan sæu menn bláklædda konu skera á snöruna. Það er enn sagt frá Eyólfi, að þá Húnvetníngar ætluðu að heingja hann á Svarthamri við Blöndu, að enn slitnaði snaran, og slapp hann þar, en náðist laungu síðar. Átti þá að heingja hann út við Blönduós. Fór þá sem fyrri, að snaran slitnaði; við það varpaði Eyólfur sèr til sunds á ána, að forða sèr. Er þá sagt, að maður einn kastaði steini á eptir honum; kom hann í höfuðið, og varð það Eyólfi að bana

**Rauðhöfði.** (Saga þessi er tekin eins og hún er almennt sögð á Suðurnesjum í Gullbringusýslu, þar sem aðalatriði hennar á að hafa gjörzt.) Einu sinni fóru menn nokkrir af Suðurnesjum út í Geirfuglasker til að veiða geirfugl. En er þeir ætluðu burtu aptur úr skerinu, vantaði einn manninn. Var hans leitað um skerið, en fannst ekki. Sneru lagsmenn hans heim aptur við svo búið. Ári seinna fóru Nesjamenn en í skerin til fuglaveiða. Fundu þeir þá manninn. Var hann þar á gángi í skerinu, og hinn kátasti. Þeir tóku við honum vel, og þóktust hann úr helju heimt hafa. Álfar höfðu hyllt manninn og haldið honum hjá sèr um veturinn og farið vel með hann. Höfðu álfarnir viljað, að hann íleingdist þar hjá sèr, en hann hafði eigi viljað það. Nú var svo komið, að ein álfkonan gekk með barni hans, og fèkk hann heimfararleyfi úr skerinu með því móti, að hann lofaði því, að hann sæi um að barnið yrði skírt, þegar það kæmi til kirkju. Sagðist móðirin mundi koma því að Hvalsnesskirkju; en það var sóknarkirkja mannsins. Fór hann nú í land með Nesjamönnum, og urðu honum allir fegnir. Leið nú svo nokkra stund, að ei bar til tíðinda.

Einn sunnudag bar svo við, þegar menn komu til tíða að Hvalsnesi, að þar stóð vagga fyrir utan kirkjudyr, og var úngbarn í vöggunni. Yfir

vögguni lá ábreiða, fögur mjög og vönduð, úr ókennilegum vefnaði. En ofan á vöggunni lá miði, og voru þar rituð á þessi orð: „Sá sem faðir er að barni þessu mun sjá um að það verði skírt.“ Menn undruðust atburð þenna, en einginn vildi kannast við faðerni barnsins, eða taka það að sèr. Presturinn fèkk gruu á manninum, sem vantað hafði heilt ár; því honum þókti útivist hans og vera í skerinu eigi síður undarleg en þetta, og hugði hann vera föður barnsins, eða vita að minnsta kosti eitthvað til þess. Gekk hann þá að honum og spurði hann að, hvort hann væri ekki faðir barnsins. Maðurinn brást við þurlega, og sagðist ekki vera faðir barns þessa, og að sig varðaði ekkert um, hvað um það yrði. En í sama bili og þeir töluðust við kom þar að kona mikil og sköruleg. Hún var reiðuleg mjög, þreif ábreiðuna af vöggunni, kastaði henni inn í kirkjudyrnar og mælti: „Ekki skal kirkjan gjalda.“ Gaf hún þá kirkjunni ábreiðuna, og hefir hún síðan verið höfð fyrir altarisklæði í Hvalsnesskirkju, og þókt hinn mesti dýrgripur. Síðan veik konan sèr að manninum og sagði: „Það mæli eg um og legg eg á, að þú skalt verða að hinu versta illhveli í sjó og granda mörgum skipum.“ Eptir það hvarf bæði konan og vaggan með barninu í, og vissi einginn meira um þau. En þess var til getið, að þetta mundi verið hafa álfkonan úr Geirfuglaskeri, og þókti mega ráða það af sögu mannsins.

En stuttu eptir að konan var horfin varð maðurinn, sem hún hafði lagt á, óður og tók á rás. Hljóp hann til sjáfar og fram af hamri þeim, sem heitir Stakksguýpa, og er milli Keflavíkur og Leiru. Breyttist hann þá undir eins í hið versta illhveli, og var kallaður Rauðhöfði. Hann var illur mjög og áleitinn. Hann drekkti 19 skipum á milli Akraness og Seltjarnarness; því á því svæði lá hann jafnan. Meðal annara, sem Rauðhöfði drekkti var sonur prestsins í Saurbæ á Hvalfjarðarströnd og annar sonur prestsins í Saurbæ á Kjalarnesi. Lögðu þeir þá saman prestarnir, því þeir báru illa sonamissinn, og kváðu Rauðhöfða inn allan fjörð þann, sem liggur á milli Saurbæjauna, og sem síðan hefir verið kallaður Hvalfjörður, og upp í vatn það á Botusheiði, sem síðan er kallað Hvalvatn. Varð þá laudskjálfti mikill þar í kríng, og þess vegna eru hæðirnar við Hvalvatn kallaðar Skjálfandahæðir. Það hafa menn til sannindamerkis um atburð þenna, að hjá vatninu hafa til skamms tíma sèzt hvalbein, og heldur stórkostleg. En eingum hefir síðan orðið mein að Rauðhöfða.

**Rauðhöfði.** (Eptir sögn gamals Borgfirðings, sem leingi hafði verið sjómaður í Keflavík, og þekti vel til á Hvalfjarðarströnd.) Í fornöld var það mjög tíðkað á Suðurnesjum, að fara út í Geirfuglasker til að sækja þángað bæði fugl og egg. Þóktu þær ferðir jafnan hættulegar, og varð að sæta til þeirra góðu veðri; því bæði eru skerin lángt undan landi, og svo er líka mjög brimsamt við þau. Einu sinni sem optar fór skip eitt út í Geirfuglasker; geymdu

sumir skips, en sumir fóru upp í skeriu eptir eggjum. Ókyrði þá sjóinn fljótt, svo þeir urðu að fara burtu fyrr en þeir hefðu viljað. Komust eggjatökumennirnir með illan leik upp í skipið, allir nema einn. Hann kom seinastur ofan úr skerinu; því hann hafði farið leingst, og hugsað, að ekki mundi liggja svo mikið á. Hann var sonur og fyrirvinna ekkju nokkurrar, sem bjó á Melabergi í Hvalsnesssókn, og var hinn ötulasti maður, og á bezta aldri.[1] Þegar nú maðurinn kom niður að skipinu, þá var hafrótið orðið svo fjarskalegt við skerið, að honum varð ekki náð út í skipið, hversu mjög, sem þar var leitað lags við. Urðu skipverjar að fara burtu við svo búið, og töldu þeir manninn af með öllu, nema hans yrði bráðlega vitjað. Hèldu þeir svo í land, og sögðu hvar komið var, og átti nú að fara í skerin og vitja mannsins, hve nær sem þar gæfist færi á. En eptir þetta varð aldrei framar komizt út í skerin um sumarið fyrir brimi og stórviðrum. Var þá hætt með öllu að hugsa til manns þessa framar, eða leiða sèr í hug, að hann mundi nokkurn tíma sjást lifandi framar.

Nú leið og beið þángað til sumarið eptir. Þá fóru Nesjamenn á skipi út í Geirfuglasker, eins og þeir voru vanir. Þegar eggjatökumennirnir komu upp í skerið, urðu þeir hissa, þegar þeir sáu þar mann á gángi, þar sem þeir áttu sèr hèr eingra manna von. Maðurinn gekk til þeirra, og þektu þeir þar Melabergsmanninn, sem eptir hafði orðið sumarið áður í skerinu. Gekk það öldúngis yfir þá, og þóktust sjá, að þetta væri ekki einleikið. Forvitnaði þá nú heldur en ekki, að vita, hvernig á þessu öllu stæði. En maðurinn sagði þeim óljóst frá því, sem þeir spurðu, en í skerinu sagðist hann alt af hafa verið, og hefði þar ekki væst um sig. Samt bað hann þá, að flytja sig í land. og gjörðu þeir það fúslega. Var Melabergsmaðurinn hinn glaðasti. en þó fremur fátalaður. Þegar í land kom, varð þar hinn mesti fagnaðarfundur. og þókti öllum þessi atburður allur undrum gegna, og einga glögga grein vildi maðurinn gjöra um veru sína í skerinu.

Nú leið enn og beið, og var hætt að tala um nýlundu þessa. En seint um sumarið, einn góðan veðurdag þegar messað var á Hvalsnesi varð sá atburður, sem alla kynjaði á. Við kirkjnna var fjöldi fólks, og þar á meðal Melabergsmaðurinn. En þegar fólkið kom út[2] úr kirkjunni stóð uppbúin vagga við kirkjudyrnar, og lá úngbarn í vöggunni. Ofan á vöggunni lá dýrindisábreiða, sem einginn þekti hvað í var. Á þetta varð öllum starsýnt mjög, og einginn leiddi sig að vögguni, eða barninu, og einginn lèzt þar vita nein deili á. Nú kemur prestur út úr kirkjunni; sèr hann vöggnna og barnið, og furðar á þessu öllu ekki síður en aðra. Spyr hann þá, hvort viti nokkur deili á vöggunni og barninu, eða hver með það hafi komið, eða hvort nokkur vilji, að hann skíri barnið. En einginn lèzt vita

1. Sumir nefna manninn Helga.

1. Aðrir: inn í kirkjuna, og láta allan atburðinn fara fram fyrir messu.

neitt um þetta, og einginn þóktist hirða um, að hann skírði barnið. En af því presti þókti allur atburður með Melabergsmanninn kynlegur, spurði hann hann ítarlegar um alt þetta, en aðra, en maðurinn brást þurlega við, og sagðist ekkert vita um vögguna nè barnið, enda skipti hann sèr öldúngis ekkert um hvorugt. En í því bili, sem maðurinn sagði þetta, stóð þar kvennmaður bjá þeim, fríð sýnum og faunguleg, en æði svipmikil. Hún þreif ábreiðuna af vöggunni, snaraði henni inn í kirkjuna, og segir: „Ekki skal kirkjan gjalda.“ Síðan víkur hún sèr að Melabergsmanninum, og segir við hann mjög reiðulega: „En þú skalt verða að hinu versta (argasta) illhveli í sjó.“ — Greip hún þá vögguna með barninu, og hvarf með altsaman, og sást ekki síðan. — Presturinn tók ábreiðuna og lèt gjöra úr henni altarisklæði handa kirkjunni, og hefir það verið þar til skamms tíma, og þókt hin mesta gersemi.

Nú víkur sögunni til Melabergsmannsins. Honum brá svo við orð hinnar ókunnugu konu, að hann tók undir eins á rás frá kirkjunni, og heim til sín. Ekki stóð hann þar við, heldur æddi sem vitstola norðureptir, þángað til hann kom fram á Hólmsberg sem er fyrir vestan Keflavík, en berg það er fram við sjó, býsna hátt, og þverhnýpt. Þegar hann kom fram á bergsbrúnina, staldraði hann við. Varð hann þá allt í einu svo stór og þrútinn, að bergið sprakk undir fótum honum, og hljóp fram klettur mikill úr hamrinum. Stakkst maðurinn þar fram af í sjóinn, og varð í sama augnabragði að feikilega stórum hvalfiski, með rauðau haus; því maðurinn hafði haft rauða húfu, eða hettu, á höfðinu, þegar hann brást í hvalslíkið. Af þessu var hann síðan kallaður Rauðhöfði. En kletturinn, sem fram hljóp með hann í sjóinn stendur enn fram í sjónum austarlega undir Keflavíkurbergi, og er kallaður Stakkur.

Það er sumra manna sögn, að nú hafi það komið upp á Melabergi, eptir móður mannsins, að hann hefði sagzt hafa dvalið um veturinn í skerinu[1] í álfabæ einum í góðu yfirlæti. Hefðu þar allir verið sèr vel, en þó hefði hann ekki getað fest þar yndi. Fyrst þegar hann hefði orðið eptir af lagsmönnum sínum í skerinn, hefði hann geingið um skerið í eins konar örvýlnan, og verið að hugsa um, að steypa sèr í sjóinn, og drekkja sèr, til að stytta hörmúngar sínar. En þá sagði hann að til sín hefði komið stúlka, fríð og falleg, og boðið sèr veturvist, og sagt, að hún væri ein af álfafólki því, sem ætti heima í Geirfuglaskeri. Þetta þá hann, en vegna óyndis fèkk hann heimfararleyfi sumarið eptir. Þá sagði hann, að álfastúlkan hefði sagzt gánga með barni hans, og skyldi hann muna sig um, að láta skíra það, ef hún kæmi því til kirkju, þar sem hann væri viðstaddur, en ef hann gjörði það ekki, mundi hann gjalda þess grimmilega. Sumir segja, að maðurinn hafi sagt móður sinni frá þessu einhvern

1. Skerið var síðan kallað Helgasker.

tíma einslega um sumarið; sumir segja að hann hafi gjört það um leið og hann gekk um á Melahergi frá kirkjunni seinast, en sumir segja, að hann hafi sagt það einhverjum trúnaðarmanni sínum öðrum. En ekki er þess getið, hvers vegna hann brá út af skipun álfkonunnar með barnsskírnina.

En nú víkur aptur sögunni til Rauðhöfða. Hann tók sèr aðsetur á Faxaflóa, og grandaði þar mönnum og skipum, svo eingum var óhætt á sjó milli Reykjaness og Akraness. Var það fjarskinn allur, sem hann gjörði ilt af sèr í skipsköðum og manntjóni, en einginn gat að gjört, eða stökt óvætti þessum burtu, og áttu margir um sárt að binda af hans völdum, þó ekki sèu þeir nafngreindir neinir, sem hann drap, eða tölu hafi verið á þá komið. Upp á síðkastið fór hann að halda til á firðinum milli Akraness og Kjalarness, og er sá fjörður því síðan kallaður Hvalfjörður. Þá bjó gamall prestur í Saurbæ á Hvalfjarðarströnd; hann var blindur, en þó ern að öðru leyti. Hann átti tvo syni og eina dóttur. Voru systkiní þessi öll upp komin, þegar hèr var komið sögunni, og hin efnilegustu, og ann faðir þeirra þeim mjög. Prestur var forn í skapi, og vissi jafn lángt nefi sínu. Synir hans reru opt út á fjörðinn á báti til fiskjar. En einu sinni urðu þeir fyrir Rauðhöfða, og drekti hann þeim báðum. Presturinn, faðir þeirra, heyrði að synir sínir væru drukknaðir, og svo af hvers völdum. Fèllst honum mikið um sonamissinn. Litlu síðar einn góðan veðurdag biður hann dóttur sína, að koma og leiða sig niður að firðinum, sem er þaðan ekki allángt frá bænum. Hún gjörir svo, en prestur tekur sèr staf í hönd. Staulast hann nú með tilhjálp dóttur sinnar ofan að sjónum, og setur stafinn fram undan sèr út í flæðarmálið, og styðst svo fram á hann. Spyr hann þá dóttur sína hvernig sjórinn líti út. Hún segir hann vera spegilfagran og slèttan. Að litilli stundu liðinni spyr karl aptur, hvernig sjórinn líti út. Stúlkan segir, að utan fjörðinn sjái hún koma kolsvarta rák, líkt og stórfiskavaður ösli inn fjörðinn. Og þegar hún sagði rák þessa komna nærri á móts við þau, biður prestur hana leiða sig inn með fjörunni, og gjörir hún það. Var röstin jafnan á móts við þau, og gekk það unz komið var inn í fjarðarbotn. En þegar grynna fór, sá stúlkan, að röstin stóð af ákaflega stórum hval, sem synti beint inn eptir firðinum, eins og hann væri rekinn eða teymdur. Þegar fjörðinn þraut, og þar kom að, sem Botnsá kemur í hann, bað klerkurinn dóttur sína, að leiða sig upp með ánni að vestanverðu. Hún gjörði það, og staulaðist karlinn upp fjallshlíðina með ánni, en hvalurinn öslaði einatt hèr um bil jafn framt þeim upp eptir ánni sjálfri, og var honum það þó örðugt mjög, sökum vatnsleysis. En þegar inn kom í gljúfrið, sem áin rennur um fram af Botnsheiði, þá urðu þreyngslin svo mikil, að allt skalf við, þegar hvalurinn ruddist áfram, en þegar hann fór upp fossinn, hristist jörðin umhverfis, eins og í mesta jarðskjálfta. Af því dregur fossinn nafn, og heitir síðan Glymur, og hæðirnar fyrir ofan Glym eru síðan kallaðar Skjálfanda-

hæðir. En ekki hætti prestur, fyrr en hann kom hvalnum alla leið upp í vatn það, sem Botnsá kemur úr, og síðan er kallað Hvalvatn. Fell eitt er hjá vatninu, og dregur það einnig nafn af atburði þessum, og er kallað Hvalfell. Þegar Rauðhöfði kom í vatnið, sprakk hann af áreynslunni að komast upp þángað, og hefir síðan ekki orðið vart við hann, en fundizt hafa hvalbein mjög stórkostleg við vatnið, og þykir það vera sögu þessari til sannindamerkis. — En þegar prestur var búinn að koma hvalnum fyrir í vatninu, staulaðist hann heim aptur með dóttur sinni, og þökkuðu honum allir vel fyrir viðvikið.

**Faxi.** (Eptir handriti Guðmundar í Gegnishólum.) Það er sagt, að í fornöld hafi Suðurnesjamenn mjög tíðkað fuglaveiðar í Geirfuglaskerjum, en þángað verður ekki farið, nema í stiltasta veðri á sumardag; því svo er íllt við í skerinu. Þar er sjaldan eða aldrei dauður sjór. Einu sinni þegar þángað var farið bar svo við, að einn af skipverjum komst ekki upp í skipið er það lagði frá skerinu, og varð svo eptir uppi í því. Skipverjar þóktust þar mundu hafa sèð hans síðasta, en gátu ei að gjört vegna brims, og hèldu svo til lands. Líður nú þángað til sumarið eptir. Þá kom skip út í skerið. Kemur þá maðurinn niður að skipinu og var hinn kátasti. Skipverjar urðu mjög hissa er þeir fundu hann og spurðu hvar hann hefði verið um veturinn og hvernig honum hefði liðið. Hann sagðist hafa verið þar í góðu geingi á bæ einum og hefði þar ekki verið manna, nema stúlka ein. Sagði hann að hún hefði sagt, að hún geingi með barni hans, og mundi hún senda honum það, ef það fæddist lifandi. Skyldi hann þá láta skíra barnið, því ella mundi hann hafa íllt af fundi þeirra. Skipverjar fóru nú í land með manninn, og þókti öllum undur, að hann var ekki dauður. Maður þessi átti kirkjusókn að Hvalsnesi. Svo bar við nokkru síðar, að þá er enduð var messa stóð barnsvagga fyrir utan kirkjudyrnar, og vissi einginn hvernig á henni stóð. Barn lá í vöggunni, og voru öll vögguklæði mjög vönduð. Þetta sáu allir, sem út geingu úr kirkjunni. Þegar prestur kom þar að, spyr hann hvort nokkur biðji sig að skíra barn þetta, en einginn tók undir. Hvarf þá vaggan, en dúki einum var snarað til prestsins frá vöggunni. Dúkurinn þókti svo fagur og vandaður að hann var hafður þar fyrir altarisklæði, og þókti það sóma sèr vel. En er maðurinn, sem áður sat í skerinu var kominn heim frá kirkjunni, varð hann óður, og steypti sèr í sjóinn. Varð hann þá að hrosshveli og kölluðu menn hann Faxa. Af honum dregur Faxaflói nafn; því þar var hann leingi og þókti mjög skæður róðrarmönnum. Lá hann fyrir skipum og grandaði; hlutu margir tjón af því. Einu sinni gleypti, eða braut, Faxi bát, sem á voru tveir bræður úngir og efnilegir. Faðir þeirra kunni margt, og rèð hann það af, að hann fór einn á bát og reri út á flóann, þar sem Faxi lá. Rak hann þá Faxa norður yfir fjörðinn, og upp á þurt land, og svo norður

í vatn það, sem síðan heitir Hvalvatn. Þar skildi með þeim, og hefir einginn orðið var við Faxa síðan, en einhvern tíma fundust hvalbein við vatnið.

**Álfkona færir barn sitt til skírnar.** (Eptir handriti Ólafs Sveinssonar í Purkey.) Þegar Gísli, forfaðir séra Eyólfs Gíslasonar á Múla í Saurbæ var í Haga á Barðarströnd, bar svo við sunnudag nokkurn, þegar embættað var þar, að barnsrugga var borin í kirkjuna, þótt þeir sæust ekki, er báru. Kvennmaður fylgði vuggunni, og sáu hana allir. Kvennmaður þessi geingur þángað, sem Gísli bóndi var, og tekur hún svo til orða við hann: „Eg lýsi þig, Gísli, svo sannan föður að þessu barni, sem í ruggunni er, sem eg er móðir þess.“ Gísli þverneitar því, að hann sè faðir barns þessa. Kvennmaður þessi sýnir sig nú reiðuglega og segir, að hann skuli þess gjalda, að hann hafi því neitað, að hann væri faðir barnsins, og að það þess vegna hefði ei skírn hlotið; „Í tíunda lið frá þèr,“ segir hún, „skal mæða jafnan að höndum bera afkomendum þínum; en þó vil eg leggja það til, að betur skal úrrekjast fyrir þeim, en útlítur, og ætlun manna er.“ Hún grípur þá til áklæðis, er lá ofan á ruggunni og kastar því inn í kórinn; hverfur hún síðan á burt, og er ruggan burtu gripin. — Úr ábreiðu þessari var gjörður hökull, og var hann gefinn kirkjunni á Brjánslæk og er hann kallaður álfa-hökull.

Þegar foreldrar séra Eyólfs voru á Brjánslæk og séra Eyólfur var 4 vetra gamall, tók hann svo harður verkur eða tak, að ei sást annað ljósara fyrir, en að sá verkur mundi leiða hann til grafar, og var þá alt reynt, sem mönnum kom til hugar til þess að lina verkinn og tjáði þó ekkert. Móðir hans hafði gott vit á lækníngum og hafði margur gott af ráðum hennar, og þegar hún var búin að reyna alt, sem henni til hugar kom, skipaði hún að sækja út í kirkju hinn svokallaða álfa-hökul. Var það gjört, og þegar komið var með hann, vafði hún honum um barnið, þar sem takið lá í því; brá þá svo við, að verkinn linaði og tókst hann með öllu í burtu.

Þetta er satt, en hvort hökullinn hefir haft þá náttúru frá álfum, eða batastundin verið komin þá frá guði, það veit eg ekki.

**Álfakóngurinn í Seley.** (Eptir Jón Bjarnason í Breiðuvík í Múlasýslu.) Það var eitt sumar, sem optar, að menn lágu til vers í Seley á Reyðarfirði. Þá bar það til, þegar menn fluttu skreiðina í land, að mikið varð eptir af skreið Hólmaprestsins í verskálanum. Gekk þá í ótíð, svo að skreiðinni varð ekki náð, fyrr en um haustið, því þá kom gott sjóveður. Var þá farið að sækja hana; fóru menn svo að bera úr skálanum ofan til skips. Kváðu þá skipverjar gaman að gánga á utanverða eyuna, og vita, ef nokkuð hefði borið þar að landi. Bauðst þá einn til að fara, ámeðan hinir bæru ofan skreiðina. Hann fór svo, en hinir bera til skips. En alt

í einu ýfist sjórinn svo, að þeir fá naumast komið skreiðinni á skipið. Fóru allir út á skip, og bíða eptir manninum, og þegar hann kom, var orðið ófært, að ná honum á skip fyrir brimi, kölluðu þeir þá til hans og sögðu, að hann yrði að bíða, og skyldu þeir sækja hann daginn eptir, ef fært yrði. Sáu þeir fyrir beztu að forða lífi sínu, og hèldu til lands, en hann stóð eptir bjargarlaus. Gekk þá í mollu-drífu. Geingur þá maðurinn í ráðleysu heim í skálann, og var þar, þartil kvöld var komið. Fer hann þá að örvinglast og hugsar, að sèr sè nær að taka af sèr lífið, en svelta þar í hel, og hljóp út úr skálanum. Sèr hann þá glaða stjörnu; þá hugsar hann, að þetta muni ei vera himinstjarna í kafþykku veðrinu, og virðist honum, þegar hann fer að gæta sín, það vera líkast ljósi í glugga. Hleypur hann þá litla stund, þartil hann er kominn undir hús, sem voru svo skrautleg, að þau líktust kóngs-höll. Heyrir hann þá, að sagt er inni: „Já, stúlkur, ekki nema aumingjamaðurinn, sem varð eptir á eyunni í dag, er kominn hèr undir húsin; farið og sækið hann, því eg vil ekki, að hann deyi fyrir dyrum mínum.“ Að vörmu spori kemur til hans stúlka, leiðir hann inn og segir, að hann skuli kasta af sèr snjó-klæðunum. Hann gjörir svo. Síðan leiðir hún hann upp afarháan stiga, og inn í fagurt herbergi, alt sett gulli og gímsteinum. Þar sá hann konur margar og bar ein lángt af hinum. Hann kvaddi þær kurteislega, en þær taka vel kveðju hans. Þá stendur hin fagra mey upp, og leiðir hann inn í lítið, en fagurt herbergi, og setti þar fyrir hann vín og vistir, og gekk síðan burt. Ei er getið um, hvar honum var vísað til rúms um kvöldið. Leið svo af nóttin, en um morguninn kemur hún til hans, og kvaðst hún ei mega vera þar hjá honum til skemtunar, en fær honum alt, er honum mátti skemtun í vera. Leið svo veturinn til jóla. Á jólanóttina kemur hin fagra mær til hans, og segir við hann, að, ef honum finnist, að hún hafi gjört honum nokkuð gott, þá skuli hann veita sèr eina bæn, sem hann megi ekki neita sèr um, en hún sè sú, að á morgun yrði haldinn dans, og þá lèti faðir sinn kalla sig út, til að horfa á leikinn. Skyldi hann þá ekki hafa neina forvitni nè horfa út, því hann gæti feingið sèr nóg til skemtunar inni. Hann lofar henni, að hann skuli um ekkert forvitnast. Jóladagsmorguninn kemur hún til hans með vín og vistir og alt er til skemtunar mátti vera, kveður hann og geingur burt; en að litlili stundu liðinni heyrði hann sauug og hljóðfærasláttt. Hann hugsar með sèr, hvaða ógnar gleði þetta muni vera, og það muni sèr óhætt, að líta snöggvast út, því það þurfi einginn að sjá. Fer hann þá að klifrast, svo hann sæi dansinn. Lítur hann þá út, og sèr mikinn mannaflokk, sem er að dansa og leika á allskonar hljóðfæri. En í miðri mannþyrpíngunni sèr hann sitja konúnglegan mann með kórónu á höfði sèr, og sinn kvennmann til hvorrar handar honum. Virðist honum, að það muni vera drottníng kóngs og dóttir; hana þekti hann. Þorir hann nú ekki leingur

að horfa út og fer frá glugganum. Gekk dansinn til kvölds. En þegar hún kom inn til hans um kvöldið, var hún þeigjandaleg fremur venju; en segir við hann, að illa hafi hann ent það, sem hann lofaði sér, að horfa ekki út, en svo muni hún hafa getað til séð, að faðir sinn hafi ekki séð það í þetta sinn. Líður svo fram að nýári, að ekkert bar til tíðinda. Á nýársnótt kom hún til hans, og segir við hann, að á morgun fari hún með föður sinum að horfa á dansinn, og skuli hann þá reynast sér trúrri, en um jólin, með að hafa einga forvitni. Lofar hann því til halds og trausts, að hann skuli nú ekki horfa út. Ber hún þá til hans mat og vín og margs konar skemtun, og fór síðan burt. En er morgnaði, heyrði hann enn meiri glaum og gleði úti, en um jólin. Segir hann þá við sjálfan sig, að ekki skuli hann nú horfa út, því það sè hið sama og um jólin, og líður svo lángt fram á dag, að hann situr kyr. Fer þá forvitnin að kvelja hann, að vita ekki um þá miklu gleði, og lítur hann út og sèr, að dansinn er miklu skemtilegri, en hið fyrra sinn, því margir glæsilegir riddarar leika fyrir kóngi og drottníngu. Kippir hann sèr þá frá glugganum, en það sá hann, að enginn leit upp í gluggan til hans, og leið svo til kvölds. En er hún kom inn um kvöldið, var hún mjög stygg og átaldi hann fyrir það, að hann hefði svikið sig. Þó spilti þetta ekkert milli þeirra; því hún var honum jafngóð eptir sem áður. Líður svo veturinn til páska. Á laugardaginn fyrir páska kemur hún til hans, og lætur vel að honum, og biður hann nú að vera ekki forvitinn á morgun, þó honum finnist mikið um gleðina, því ef faðir sinn verði þess var, að hún hafi þar karlmann hjá sèr, þá liggi líf sitt við. Á páskadags-morguninn kemur hún til hans, og færði honum alt, er hann hefði getað kosið, kveður hann og geingur burt. Kemur þá upp glaumur, sem fyrr. Líður svo fram eptir deginum; fer honum þá að leiðast einveran, og geingur hann burt úr herbergi sínu og í næsta herbergi, því hann hèlt, að hún mundi ei verða vör við, þó hann liti þar út. Lítur hann þá snöggvast út, og sèr hið sama og um nýárið. Því næst fór hann inn í herbergi sitt, þar til hún kom inn um kvöldið. Var hún þá stygg við hann, og segir, að hann hafi svikið sig í dag, sem fyrri, en ekki viti hún, hvort faðir sinn hafi orðið nokkuð áskynja um hann, en styggari hafi hann verið við sig, en vant hafi verið, „og ekki ætlaði eg,“ segir hún, „að þú mundir reynast mèr eins illa, og þú hefir gjört, og muu svo fleira á eptir fara fyrir þèr.“ Leið svo fram til sumarmála. Á vetrardagskvöldið síðasta kom hún til hans, og segir við hann, að það sè sumardagurinn fyrsti á morgun, og þá komi menn úr landi að sækja hann, og skuli hann fara snemma til skálans; en einnar hónar ætli hún að biðja hann, ef honum þyki nokkuð til koma, að hún hafi haldið í honum lífinu í vetur, en það sè, að gángast við barninu, sem hún gángi með eptir hann; því það standi á lífi sínu, ef hún geti ekki feðrað það, þá láti faðir sinn drepa sig. En ef hún gæti

feðrað barnið, þá mundi hann ekki drepa sig, og hún beiðist ekki annars af honnm, ef hann reynist sèr trúr í þessu. Hann lofar henni því, og segir, að sèr skuli aldrei verða það, að gángast ekki við því; því að sèr sè það útlátalaust, þegar hann þurfi ekki að hafa meira fyrir því. Kveður hann hana þá, og þakkar henni fyrir allar velgjörðir við sig um veturinn, og býr sig árdegis á stað morguninn eptir, og er hann er ei lángt kominn, fer hann að líta aptur til hallarinnar, og sèr hann þá ekki annað en urðir og steina snður á eyunni; fer hann þá til skálans. Veður var blítt og sjóveður gott, og er ei lángt liðið á daginu, er hann sèr skip koma frá landi. En þegar skipverjar komu að eyunni, geingur hann á móti þeim. En þegar þeir sjá hann, verða þeir hræddir, því hann var mjög feitur og digur, og hèldu þeir, að hann væri apturgeinginn; því þeir gjörðu ráð fyrir, að hann hefði eflaust dáið um veturinn, og þorði einginn að tala til hans, auk heldur að koma á land til hans. Þó varð það um síðir, að formaðurinn fór á land, og spyr, hvort hann sè lifandi maður eða apturgánga, eða sá hinn sami, sem hafi orðið eptir í eyunni um haustið. Hann kvaðst vera sami maður og í haust, þegar þeir hefðu skilið sig eptir. Hinn sagðist ekki skilja í því, hvernig hanu hefði lifað þar svo leingi matarlaus. Eyarmaðurinn sagði, að þaunglarnir í Seley mundu ekki vera kostverri, en vatnsgrautur inni á Hólmum. Ekki vildi hann segja þeim neitt meira; fór hann þá á skip til þeirra og reru þeir svo inn að Hólmum. Flesta furðaði á því, að sjá hann lifandi aptur kominn, og var hann spurður að því á marga vegu, hvernig hann hefði lifað um veturinn, en einginn fèkk meira hjá honum, en þeir úti í eyunni. Að áliðnu sumri var það einn sunnudag, að veður var gott, og margt fólk kom til kirkju, og ætlaði vinnumaður að vera í kirkju um daginn. En þegar presturinn er kominn í kirkjuna og svo allur söfnuðurinn, vita menn ei fyrri til, en barnsvagga er komin inn að altarinu, og var gullsaumaður hökull breiddur yfir barnið, en einginn sást maðurinn, nema menn sáu, að fögur kvennmannshönd var á vöggustokknum; allir urðu hissa, og horfir hver á annan, en prestur tekur til máls og segir, að barn þetta vilji fá skírn, og sè sjálfsagt einhver í kirkjunni við það riðinn, og ýtir því helzt, að vinnumanni sínum, og segist halda, að hann hafi skilið þetta eptir í Seley í vor; en vinnumaður afsalaði sèr því. Prestur kvaðst þá vilja skíra það undir hans nafni, en vinnumaður þverneitaði, og sagðist ekkert vilja hafa með það. En prestur sagði, að hann hefði ekki lifað í eyunni, nema hann hefði notið mannahjálpar; en vinnumaður kvaðst aldrei við barninu gángast og bannaði presti að skíra það undir sínu nafni. Var þá vöggunni kipt burt og hvarf hún samstundis, og í því kom npp grátur mikill, og heyrðu menn hann fara út úr kirkjunni. Fór þá prestur út á eptir og menn með honum. Heyrðu menn þá grátinn og ekkann líða ofan til sjávar, en á kirkjugarðinum lá hökullinn og var hann brúkaður á Hólmum leingi eptir það. Alla undraði

þetta, en þó fèll prestinum mest um atburð þenna. En seinna kom fásinna á vinnumanninn. Prestur spurði hann, hvað til þess kæmi, en hann sagði þá upp alla söguna, og það hefði verið kóngur og dóttir hans, er hann dvaldi hjá um veturinn, og iðraði sig þess alla daga, að hann hefði ekki geingizt við barninu. Eptir þetta varð vinnumaður aldrei samur alla æfi, og lýkur hèr svo sögunni af huldufólkskónginum í Seleynni.

**Sagan af Ljúflínga-Árna,** eða **Álfa-Árna.**[1] það bar til í Seley[2] á Reyðarfirði austur, að þar voru sjómenn til fiskiveiða. þeir áttu þar sjóbúð og lögðu sig um kvöldið til svefns í henni; og um morguninn er þeir lágu sofandi, vakti einn þeirra sem Árni hèt, og gat með eingu móti sofið; lá hann þannig, að hann hafði höfuðið á sængurstokkinn, og horfði út í dyrnar. Hann sèr þá að kvennmaður geingur tvisvar sinnum kríngum dyrnar. Síðan kemur hún inn, geingur að Árna og heilsar honum með kossi. Hann gefur lítinn gaum að henni, og heldur hana komna af landi ofan; en eigi þekti hann hana. Síðan tala þau nokkur orð saman, og geingur hún við það út aptur, en hann sofnar. Einginn maður varð hennar var annar en Árni. Nokkrum tíma síðar bar svo við einn sunnudagsmorgun, að hann gekk út, því þeir verða það að gjöra, til þess að vita, hvort nokkurt útlent skip sæist, sökum þess að þar hefir opt borið við, að þesskonar skip hafa glezt við róðrarbáta; og í þetta skipti átti Árni að fara út. Hann geingur upp á hæð eina, og staldrar þar við, heyrist honum þá eigi all-lángt frá sèr hríngt klukkum einni eða fleirum; hann geingur á hljóðið, og hættir það smásaman, og staldrar hann þá við stundar korn, og heyrir nú aðra hríngingu; hann geingur þá aptur á hljóðið, og finnst honum hann sè farinn að nálgast það; stendur nú við, uns hann heyrir hina 3. hríngingu. þá geingur hann enn á hljóðið, og kemur hann loks að kirkjudyrum og reisuglegum bæ, þar sem honum og öðrum hafði áður sýnzt klettar einnir. Í kirkjunni sèr hann fólk margt og prest í messuskrúða. Sömu sálma heyrði hann súngna þar, sem vor á meðal; stígur prestur í stólinn, eins og vandi er til þá áður hafði verið hríngt um Credo, og lagði út af hinum vanalega texta. Og að endaðri bænagjörð, stígur hann úr stólnum, og sýngur: „Heiðrum guð föður himnum á." Síðan er margt fólk til altaris. En á meðan útdeilingin stendur yfir, er súngin Jesú minning og endist ekki til; er hún þá aptur byrjuð og súngin meiri partur hennar; og að svo búnu lýsir prestur blessan yfir söfnuðinn. Alt fór þar reglulega fram, en allra seinast var súngið: „þú hefir sigrað synd

1. Saga þessi er og ýmist kölluð Árnahjal eða Árnaskjal; hún er tekin hèr eptir handriti sèra Páls Jónssonar á Völlum í Svarfaðardal, og samanborin við 5 önnur handrit.

2. þannig 3 handr.; 1 handr. Sauðaeyum og 2 handr. Vestmannaeyum. Handritin verða nákvæmar tiltekin á eptir sögunni.

og deyð."[1] Á meðan alt þetta fór fram, beið Árni fyrir utan dyrnar: en aldrei fór hann inn í kirkjuna. Síðan kemur presturinn út og söfnuðurinn á eptir honum; og er fólkið þakkar presti kenninguna gjörir Árni eins, og tekur í hönd presti, og tók hann því góðlátlega; en æði mikilfeinglegur var hann í augum Árna, og var hann að sjá nokkuð við aldur. Hann geingur þegar inn í bæinn. Nú smátínist fólkið út úr kirkjunni og kemur þá út meðal annara kona ein öldruð, en mjög höfðíngleg, og fylgdi henni eptir dáfríð júngfrú, mjög vel búin og kurteisleg; og hefur Árni sagt, að hún hefði borið af öllum þeim, er hann hefði sèð að andlitsprýði og góðu yfirliti. Árni þekti hana, að hún var hin sama stúlka, er kom til hans í búðina. Hún víkur að Árna kunnuglega og heilsar honum með kossi, tekur í hönd hans, og biður hann koma með sèr í bæinn. Árni er tregur til þess; geingur hún þá inn og kemur að vörmu spori út aptur með messuvín í glasi, og biður hann drekka. Hann þáði það. Síðan nauðgar hún honum inn í bæ með sèr; koma þau í stofu mjög skrautlega prýdda; situr presturinn þar við borð og kona hans. Stúlkan lætur Árna setjast þar og sezt síðan sjálf. Nú var matur borinn á borð: sölt súpa, fornt kjöt, grjónagrautur og brauð, og neyttu þau öll þar af, er við borð sátu, prestur, kona hans, stúlkan og Árni. Matur var þar yfirfljótanlegur framborinn. Einginn yrti orði á Árna, nema júngfrúin; og er máltíð var úti, leiðir hún Árna út, fylgir honum á veg, og biður hann mjög að koma þángað optar og eiga sig; segir hún honum að faðir sinn sè prestur[2] [yfir öllum eyunum[3] og sæmilega ríkur að fè, en hún sè einbirni. Árni þverneitar því, að hann vildi fara til hennar. Hún segist vita, hvað honum þyki að: „Þú ert hræddur um," segir hún, „að við munum djöflar vera, og trúum eigi á guð, en komdu til mín, og skal eg sýna þèr trúarbrögð okkar; en líki þèr þau þá eigi, skaltu mega heill að öllu bèðan komast, en eg spái því, að þèr muni vel líka, er þú hefir sèð þau." Miklu fleiri umtölur hafði hún fyrir honum. Nú skilja þau við þetta í það sinni; en hún kemur til hans optar, og ámálgar jafnan hið sama. Tvisvar var hann við kirkju á eyunni og kvaðst hann í hvert skipti hafa sèð hana í kirkjunni og jafnan hafi hún leitt sig til borðs eptir messu, og hefði þar alt farið fram, eins og áður er getið um, en stúlkan fylgt sèr úr garði, gefið sèr brennivín og beðið sig jafnan að fara til sín. Eitt sinn spurði hann hana að nafni, og kvaðst hún Björg heita; en faðir sinn Finnur. Síðan fer Árni úr eyunum, er sá tími var úti er vant var að vera þar til útróðra, og ætíð er, áður en nótt dimmir; því sagt er að eigi sè þar friðsamt um svartnætti Hèlt Árni þá, að hann mundi nú með öllu sloppinn við eptirsókn Bjargar, er hann var kominn heim til föður síns. En eigi hefir hann leingi verið

1. það er 13. versið úr 19. sálmi í Passíusálmunum.

2. Aðrir: prófastur.

3. þannig 4 handrit; 1 hefir: yfir eyunni, og annað: yfir öllum eyum.

heima, áður en Björg kemur til hans einn dag og heilsar honum mjög vingjarnlega og segir: „Nú máttu sjá, hvað kæran eg hefi þig; því að faðir minn hafði hrauða skipti við prest þann, er hèr var, og flutti sig burt úr eyunum, svo eg skyldi vera nær þèr; getur þú nú sèð á þessu, hve miklu eg má ráða hjá föður mínum; komdu því með mèr, og farðu burtu, ef þèr eigi líkar alt hjá mèr.“ Hann taldist undan með öllu móti. „Sit þú litla stund hjá mèr,“ segir hún þá. Hann gjörir svo, og skilja þau eptir það. Einginn sá hana, er hún kom til hans nema sjálfur hann. Fer nú svo fram leingi, að hann situr hjá henni stundarkorn á degi hverjum. Þá var það eitt sinn, að hann biður föður sinn að láta sig í burtu í mannaskiptum; en faðir hans vildi það eigi, og kvaðst eigi mega missa hann frá slætti, því hann hafði eigi fleira manna, en Árna og kaupamann einn. Einn dag er þeir báðir voru að slá í túninu, sjá þeir báðir hvar Björg kemur gángandi; segir þá Árni við kaupamanninn, í skopi: „Hún mun vilja finna þig, sú arna.“ „Fjarri fer því,“ segir hann, „heldur mun hún vilja finna þig.“ Í þessu kemur stúlkan til Árna, og meðan hún heilsar honum hverfur hún hinum manninum. Þá sèr Árni á henni nokkurn reiðisvip; en óðar er hún tók hann tali, verður hún mjög blíð við hann. Eigi er hægt að telja, hve opt hún kom til hans, en opt var það þrisvar á dag. Eptir sláttinn býzt kaupamaðurinn burtu, og lá leið hans yfir fjall eitt mjög hátt, þar sem mælt var að tröll áður fyrri hefði valdið reymleika. Árni býðst til að fylgja honum, og ríða þeir svo upp á fjallið, skildu síðan, og hverfur Árni aptur. Í einum stað, þar sem leið lá gegnum þreingsli nokkur, verður fyrir honum skessa, og sèr hann nú þann kost beztan, að ríða sem örðugast fram hjá henni; en meðan hann gjörir svo, stundi hún við, og kvaðst Árni hafa tekið það sem fyrirboða fyrir ógæfu þeirri, er fyrir hann lá. Þegar hann kemur niður af fjallinu, kemur Björg í móti honum; sitja þau þá nokkra stund saman, og skilja með blíðu. Einn laugardagsmorgun um haustið snemma býzt Árni til að leita að fè, og ætlar að koma heim aptur hið fyrsta; verður honum óleitarsamt og finnur fèð eigi, fyrr en eptir lánga mæðu og er þá kvöld komið. Hann geingur þá heim, og rekur fèð hart á undan sèr; hafði hann lítið prik í hendi. En er hann á skamt að túninu kemur Björg til hans, heilsar honum blíðlega og biður hann sitja litla stund hjá sèr. Hann neitar því harðlega og er styggur við hana, því hann þykist fèð ofseint fundið hafa; vill hann nú frá henni fara. Hún biður hann því betur að setjast niður litla stund, en hann ansar henni eingu. „Eg verð þá að taka til minna ráða,“ segir hún, geingur að Árna og tekur hann í fáng sèr, og ber hann, sem barn væri, og það þótt Árni sè talinn með stærri mönnum. Hann getur með eingu móti losað sig úr fángi hennar, en lætur hana hafa sem mest fyrir. Hún ber hann lángan veg þar til hann hyggur hana þegar komna heim til sín. Hann brýzt nú um, sem mest hann má, en hún

mæðist, svo hann losnar úr fángi hennar, og leggur með stafnum á lær henni, og veitir henni mikið högg. Hún geingur þá hölt frá honum og stundi við þúngt; talar síðan til hans þessum orðum, þar sem hann stóð í moldarflagi einu: „Þú skalt eigi fet komast úr flagi þessu, meðan eg tala við þig nokkur orð. Þú skalt svo veikur verða, að einginn skal þekkja nè læknað geta veikleika þinn. Ef nokkur reynir til þess, skal þèr æ vesna. Reyni nokkur kunnáttumaður að lækna þig, skal þèr ósegjanlega vesna. Lifðu nú við þetta og mun þèr ei betur líka, en þó þú hefðir verið hjá mèr og átt mig.“ Árni leitaðist við á meðan hún mælti þetta, að losa sig burtu úr flaginu, en gat ekki; því magnleysi gagntók hann. Skildu þau svo í það sinn. Hann fer síðan heim með fèð og er dapur í bragði og máttlítill; hann geingur til rúms síns, en neytir einkis matar, og mjög lítið sefur hann um nóttina; því undarlegur veikleiki sókti á hann, en eigi gat hann sagt, hvað að sèr geingi. Sunnudagsmorguninn eptir fór hann með veikum burðum á fætur, og reið til kirkju; átti hann sæti undir prèdikunarstól að ofanverðu. Um hinn fyrri hluta prèdikunarinnar vissi hann eigi af sèr, en er hann vitkaðist, sá hann blóðtjörn mikla, er upp úr honum hafði komið; komst hann svo nauðuglega heim aptur. Menn spurðu nú um orsök til veikleika hans, en hann vildi hana eingum segja. Einhverja nótt kemur til hans prestur sá, er hann hafði sèð á eyunni og mælti: „Það fór illa, að þú hlauzt ilt af mínum, enda var það eigi minn vilji, hvernig dóttir mín sókti eptir þèr, og vil eg því hjálpa þèr, ef eg get. Hefir þú nokkuð glas hjá þèr?“ „Nei,“ segir Árni; „en eg á það í útihúsi í kistu.“ Prestur biður hann að fá sèr lyklana. Árni gjörir svo, og að því búnu kemur presturinn aptur, færir honum lykla hans, og segir honum, að glasið sè fult í kistu hans og skuli hann drekka alt úr því að morgni, er hann komi á fætur. Um morguninn dregst Árni á fætur, og gætir í kistu sína; finnur glasið fult með eitthvað hvitt og þunt sem vín væri, og efar sig nú, hvort hann eigi að þora að drekka úr því, og er honum kemur til hugar, að hann sè dauður hvort heldur sè, setur hann glasið á munn sèr og tæmir. Hann hressist þegar nokkuð, og getur sofnað, og verður hann því feginn. Eptir þetta kemur faðir hans honum, þótt Árna væri nauðugt, til kunnáttumanns nokkurs þar í sókninni. En óðar en hann er þángað kominn, hefir hann hvorki frið nè ró; geingur ávalt blóð upp úr honum, og fer svo um tíma, að hann er þar og vesnar honum meir og meir. Það bar til einhverju sinni, að Árni er að reykja tóbakspípu, og hefir dregist út fyrir dyrnar, hann missir þá ráðið, svo hann veit eigi, hvað um sig líður. Fólk saknar hans, og fer að leita hans; finnst hann loks morguninn eptir lángt frá bænum, liggur hann á grúfu, og hafði blóð mikið geingið upp úr honum, en pípa hans lá í brotum við hlið hans. Þvínæst var hann færður til næsta bæar, þar sem lögrèttumaður nokkur bjó. Árni biður þar gistingar um nokkurn tíma,

en því var neitað í alla staði. Lögrèttumaðurinn gefur Árna brennivín, svo hann hressist nokkuð; en í því leið yfir Árna eptir vana, og litlu síðar tekur blóð að renna upp úr honum, svo að öllum stóð ótti af. Lögrèttumaðurinn kvaðst eigi geta lofað honum þar að vera, sökum þess sèr ofbyði veikleiki hans. Nú raknar Árni við og sèr, hvar hinn gamli vinur sinn, presturinn, kemur, og segir hann við Árna: „Bið þú að lofa þèr að vera hèr, en far eigi til kunnáttumannsins aptur." „Eg bað um það," segir Árni; „en fèkk eigi." „Biddu um það aptur," segir prestur; „eg skal sjá til með þèr, að þú fáir það." Árni reynir þá til í annað sinn, og fær jáyrði. Einginn sá prestinn, nema Árni. En er hann hafði verið þar um tíma, kemur presturinn til hans og mælti: „Þegar þú færð stóru köstin, skaltu biðja konu lögrèttumannsins að halda að brjósti þèr, og muntu hafa hægð á meðan." Árni gjörir svo, og hafði lèttir af þessu; en eigi komst konan ætið til að vera hjá honum. Einn morgun liggur hann, sem optar, í sænginni og er þá með bezta bragði; sjá þá allir, að kona kemur að rúminu, er hann liggur í, og talar hún til hans þannig: „Ekki skal þèr af þessu batna." Síðan geingur hún út. Árni þekti þar hina fornu vinkonu sína, Björgu. En er hún gekk út, varð Árni svo aumur, að menn hugðu það verða hans síðasta. Daginn eptir kemur presturinn til hans og segir: „Ervitt geingur mèr að hjálpa þèr, Árni." Hann fær honum bók og bannar honum að láta nokkurn mann sjá, og segir honum að hafa hana á brjósti sèr. Árni gjörir svo og hefir á meðan nokkra hægð. Einn dag sefur hann, og liggur bókin hjá honum. Bóndi tók þá bókina og les í henni; var eigi annað í henni, en bænir nokkrar og fáeinir ókendis stafir. Árni vaknar í þessu og heimtar bókina og fær hann hana. Skömmu síðar kemur presturinn til Árna, og segir: „Illa geymdirðu bókina, Árni." Síðan tekur hann hana, sker úr henni 2 blöð, og segir Árna, að geyma þau undir höfði þèr, og gæta þess, að einginn sjái. Síðan hverfur hann brott. Daginn eptir sefur Árni; sjá þá allir, að Björg kemur upp á pallinn, seilist eptir blöðunum, og fer með þau fram í eldhús og kastar í logann. Árni vaknaði, er hún fór ofan, og fær þá ógurlegt kast, svo blóð flýtur alt í kríngum hann. Skömmu þar eptir kemur prestur til hans, og segir: „Illa geymdir þú blöðin; láttu nú leita í öskunni, og mun eitthvað finnast af þeim." Hann gjörir svo, og fundust stafirnir, en hitt alt var brunnið; geymir Árni þeirra betur síðan. Einn dag er hann liggur í rúmi sínu og er með glaðasta bragði, kemur Björg að húsdyrunum og segir: „Ekki skal þèr það að liði verða, þó faðir minn vilji hjálpa þèr." Árni svarar: „Eg vildi, að guð lèti þig reyna annað eins, áður en þú deyrð; bið eg þess eigi af hatri, heldur til þess þú sjálf megir vita, hvað eg hefi að bera þinna vegna." „Þetta skaltu nú fyrst bera," segir hún; „þú hefir bakað þèr það sjálfur; og eigi skal faðir minn geta hjálpað þèr." Í þessu bili kemur presturinn, og fer hann inn fyrir hana í húsið og segir: „Fyrst þú

ferð svo illmannlega að þessu, þá skaltu nú gæta að sjálfri þèr, og skulu umtölur þínar ekkert mein gjöra honum.“ Hún geingur þá út, og sèr Arni hana eigi síðan. Presturinn staldrar nokkra stund við hjá Árna, og upp frá því fer honum að lètta, svo hann kemst á fætur. Gjörir hann þá boð eptir prófastinum, er var prestur hans, að hann taki sig til sakramentis. Hann fer nú til kirkjunnar mjög veikburða; það var á pálmasunnudag, og hittir prófasturinn hann, og kveðst eigi þora að taka við honum með öðru fólki, þar eð hann kynni að verða ófær, en sagðist mundi gjöra það eptir messu. Að liðinni messu, fer fólk af stað, en prestur kallar Árna inn í kórinn, og kveðst eigi veita honum sakramenti, nema hann segi sèr eina spurníngu. Árni játar því, ef hann geti. „Hvort er það góður andi, eða vondur, sem kemur til þín í prestslíki,“ segir prófastur? „Af góðum rökum er hann mèr til hjálpar sendur,“ segir Árni. „Það er djöfullinn,“ segir prófastur. Í þessu sèr Árni, að fornvinur sinn, presturinn, kemur og sezt í hornið fyrir innan Árna og minnir hann á, hvað svara skuli, svo prófastur hefir nóg að gjöra. Seinast segir prófastur, að hann eigi vilji taka við honum, meðan hann stæði á því, að þessi prestur væri af góðum rökum, og kvaðst skyldi fyrirbjóða öllum prestum í sínu umdæmi að veita honum aflausn. Árni kvaðst mundi fá það hjá öðrum presti, þótt hann leyfði eigi. Svo gekk faðir Bjargar út. Prófastur og Árni skilja stuttlega, og fer Árni heim. Morguninn eptir, áður en fullbjart er orðið, kemur maður á gluggann uppi yfir Árna; er sá sendur frá prófasti, og segist hann nú vilja veita honum sakramenti, hvort heldur skyldi vera á nóttu eða degi. Árni spyr, hvaða umbreytíng hafi orðið á svo stuttan tíma; en það kvaðst maðurinn eigi vita, „en ekki mun prófasti hafa orðið svefnsamt í nótt; og skaltu láta hann vita af, er þú vilt.“ Árni játar því, og á skírdag gjörir hann prófasti boð að koma og þjónusta sig. Hann kemur þegar. Árni spyr, hver umbreytíng hafi orðið á fyriræltlun hans, er hann svo skjótt og ótilkvaddur breytti henni. Prófastur svarar: „Eg hafði einga ró um nóttina, eptir að við töluðum saman í kirkjunni, fyrir því að presturinn þinn kom til mín, svo að eg varð þrisvar að fara á fætur um nóttina; eg talaði eigi eitt orð, þar sem hann talaði tíu, enda skal eg aldrei meir kalla hann djöful.“ Síðan veitti prófastur Árna aflausn, og tók honum nú stórum að batna. Einu sinni sem optar kom presturinn til Árna, og segir við hann: „Eg get með eingu móti gjört þig heilan veikinda þinna, nema þú ferðist hèðan að Breiðabólstað í Fljótshlíð, og meðtakir sakramenti af prestinum þar, sèra Haldóri Pálssyni;[1] því þar er kaleikur, sem álfafólk hefir gefið kirkjunni, og er svartur blettur á botninum á honum. Af honum verður þú vínið að drekka, og þá mun þèr batna að fullu; skaltu nú fá þèr seðil hjá prófastinum, og skrifaðu brèf

1. Hann var prestur á Breiðabólstað frá 1728 til 1749.

sýslumanni Víum, sem ætlar að ferðast til alþíngis í sumar, biddu hann að láta þig vita, hvenær haun ríður á þíng, og fylgstu suður með honum." Síðan fer Árni að finna prófast, biður hann um prestsseðil sinn, og segir honum fyrirætlan sína. Þá svarar prófastur: „Þó það hafi góður andi verið, er áður hjálpaði þèr, þá er þetta djöfull og mun hann ætla að drepa þig á leiðinni, þar eð þú ert svo lasburða, að þú kemst varla bæa á milli." Samt sem áður fær Árni seðilinn. En um nóttina eptir kemur presturinn til Árna og segir: „Illa gjörir prófastur, að hann kallar oss djöfla, og mun guð einhvern tíma á einhvern hátt sýna honum, að hann lýgur, en þú, Árni, skalt fara af stað, því Víum er þegar kominn á leið, og hefir eigi látið þig vita; hlýt eg að fylgja þèr á veg, þótt eg eigi örðugt með það, til þess þú komist af stað." Um morguninn fer Árni af stað, hittir Víum og fer með honum að Odda, og jafuvel upp á þíng, og kemur loks að Breiðabólstað, og meðtekur þá sakramenti af kaleik þeim, er prestur hafði sagt honum frá, og mælt er um að einginn viti, hvaðan sè. Varð hann nú skjótt alheill, fer austur aptur og finnur vin sinn, prestinn. Hann segir honum þá þau tíðindi, að Björg sè önduð, og hefði hún, þegar hann meðtók sakramentið á Breiðabólstað, tekið sótt ógurlega þúnga, legið í viku, og haft varla frið til að ákalla guð um hjálp og líkn.

Nú segir Árni, að prestur sè búinn að missa fyrri konu sína og hafi átt aðra, og sè fluttur til eyanna, þar sem hann áður var; segist hann opt koma þar í eynna, sjá húsin og kirkjuna, og vera þar við kirkju. En það er frá prófastinum að segja, að hann hrepti það mótlæti að dóttir hans ein lagðist í svo undarlega sótt að einginn gat liðsint henni.

Eittsinn bað Árni prestinn að sýna sèr biblíu álfa. Prestur lèt það eptir honum, og virtist honum sú biblía vera að öllu eins og hin íslenska biblían. En það að álfar eru fráskildir öðrum mönnum á að vera komið af því, er nú skal greina. Eigi lángt frá bústað Adams og Evu eptir fallið, rann vatn nokkurt, og var Eva þar eitt sinn að þvo börnum sínum sem þá voru mörg orðin. En er hún átti aðeins eptir að þvo tveimur eða þremur, kallaði guð til hennar; en hún varð hrædd og heldur þeim börnunum, sem þvegin voru, hjá sèr, en skilur hin óþvegnu eptir. Þá sagði guð til hennar: „Áttu ekki fleiri börn en þetta?" En hún neitaði því fyrir hræðslu sakir. Þá sagði guð: „Það sem á að vera hulið fyrir guði, skal og vera hulið fyrir mönnum." Síðan hvurfu hin óþvegnu börn Evu, svo hún sá þau aldrei meir. Ekki urðu þau mörg alt til syndaflóðsins; meðan á því stóð, voru þau í helli einum, og lèt guð sjálfur fyrir dyrnar. Síðan hefir kynslóð þessi mjög fjölgað. Fólk þetta hefir hið sama lögmál, sem vèr; það trúir á endurlausnarann og heilagan anda, alt eins og vèr. Árni vildi fá biblíu þeirra til kaups, en fèkk eigi. Hann segir, að prófastur þessi sè bezti vin sinn, og gjöri sèr margt gott. Það að Árni var veikur með undarlegum hætti, vissu þeir, sem nálægt honum voru, og einginn

7*

þóktist slíkan veikleika sèð hafa; stundum sáu menn og Björgu koma til hans, en prestinn margsinnis. En hitt kunnum vèr eigi að segja, hver það var í raun og veru, sem til hans kom, og hèldu margir það vera fjandann. Árni sagðist vilja koma öðrum í kunníngskap við prest þenna, og kvað hann vera mann góðmannlegan, hægan og ljúfan, en væri þá orðinn aldraður. Og endast svo saga þessi.[1]

**Ima álfastúlka.** (Eptir handriti Jóns Sigurðssonar í Njarðvík í Múlasýslu.) Jón hèt maður Guðmundsson og bjó á Berunesi í Reyðarfirði í tíð Jóns sýslumanns Þorlákssonar. Af honum geingu margar sögur eptir hans daga; því hann þókti fjölfróður og flæktur við fjölkýnngi, eins og margir á þeirri tíð. Ekki veit eg ætt hans nè afspreingi. Jón ólst upp á Berunesi, og þá hann var svo þroskaður, fylgdi hann fè. Eitt sinn er þess getið, að hann sat yfir ám í botnum nokkrum í fjallinu, upp af bænum. Kom þá til hans úng stúlka, og lèt mjög vel að honum. Hann spurði hana að nafni. En hún kvaðst Ima heita, en faðir sinn og móðir ættu bygð þar í fjallinu. Hún var undur vingjarnleg við Jón, og sagði honum frá híbýlaháttum föður síns. Eitt með öðru sagði hún, að faðir sinn ætti bók, sem á væri margskonar fræði merkileg, og læra mætti margt af, og eitt með öðru það, að sá yrði kraptaskáld, sem læsi hana, og kæmi fátt óvart. Jón spurði hana, hvort hún gæti ekki útvegað sèr bókina. Hún sagði sèr væri það því nær ómögulegt; því faðir sinn geymdi hana svo vandlega. Jón lagði fast að henni að útvega sèr hana lítinn tíma að láni. Hún kvaðst mundu flest tilvinna, ef hún gæti náð ástum hans; vildi hún því reyna að ná bókinni, en, ef faðir sinn kæmist að því, riði það líkast á lífi sínu. Var hún svo hjá Jóni, þángað til hann rak fèð heim um kveldið. En daginn eptir kom hún með bókina, og bað hann vera sèr trúan; því hún kvaðst vitja bókarinnar að hálfum mánuði liðnum. Jón hèt góðu um það, og lèt í öllu líklega við hana. Ima kom í ákveðinn tíma, og bað hann um bókina og sagði, að líf sitt og hans lægi við, ef þetta kæmist upp um sig. En Jón kvaðst ekki geta mist bókarinnar, og mundi hann aldrei sleppa henni. Ima lagði hönd um háls honum og bað hann grátandi, að svíkja sig ekki í rèttum trygðum. En hann sagði það hjálpaði hvorki bón nè beiðni, hann slepti ekki bókinni. Hún sagði: „Illa gjörir þú þetta,

1 Um aldur þessa atburðar fara handritin þessum orðum: 1. handr. Bjarnar Guðmundssonar í Þórormstúngu: „á ný skrifað 1858: þetta er fyrir nokkrum árum, hèr um 29 eða 30, og svo lyktar þetta Árnahjal, eptir hans sjálfs munni skrifað 1752; en nú endað að Sellátrum 1768 af Jóni Arngrímssyni." 2. handr. sèra Páls: „Frásögn af tilburði nokkrum er skeði í Múlasýslu 1741." 3. handr. sèra Finns Þorsteinssonar: „Saga þessi er tilfallin árið 1743." 4. handr. (mitt), sem hefir verið skrifað í Júnímánuði 1824: „þetta er nú fyrir 80 árum skjeð." 5. handr. (mitt): „þetta er skeð hèr um fyrir 29 eða 30 árum, og svo likur Árnahjal eptir sjálfs hans munni. Skrifað 1792." 6. handritið tiltekur alls ekki tímann.

þar sem líf mitt liggur við; samt get eg ekki breytt við þig eins og þú hefir tilunnið, svo ann eg þèr mikið.“ Skildi hún svo við hann hrygg og reið. Heita þar síðan Ímubotnar, er þau fundust. Eptir þetta nokkru fyrir jól um veturinn dreymdi Jón eina nótt að maður kom til hans, kastaði á hann kveðju sinni og sagðist kominn að vara hann við háska þeim, sem yfir honum vofði. það ætti að vitja til hans bókarinnar, sem Íma hefði lèð honum, á jólanóttina, því nú væri komið upp hið sanna. „Faðir hennar ætlar að drepa þig; við verðum fjögur; karl kerlíng Íma og eg. Eg vara þig við þessu af því mèr er leitt lífið. Eg var mennskur að kyni, en var numinn burt af álfum þessum. Nær miðri nótt á jólanóttina mun verða geingið í bæ þinn. þú skalt sitja uppi á palli, og hafa hjá þèr sveðju mikla, og undir eins og þú heyrir komið við baðstofuhurðina, skaltu bregða við og fara ofan í uppgaunguna, og drepa þann, sem undan fer og svo hvern af öðrum. Eg mun lítið hafa mig frammi en hlífa þèr sem eg get við atlögum hinna. þèr mun auðnast að bera af þeim. En eg mun hjara eptir særður mjög. En mundu mig um það, að stytta eymdarstundir mínar. því eg vil ekki leingur lifa. þegar þú hefir drepið þau, skaltu draga þau út úr bæ þínum og brenna og verða búinn að þessu fyrir dag.“ Eptir þetta hvarf maðurinn honum. En Jón vaknaði. Alt gekk þetta eptir, sem honum var sagt fyrir í draumnum. Fólk fór alt til kirkju á jólanóttina, svo Jón var einn heima. Hann minnist þessa atburðar í einum mansaung fyrir rímum sínum,[1] þar sem hann segir:

Vissi það guð, í vanda miklum var eg þá staddur.
er fjórir gjörðu fullir klækja
furðuljótir að mèr sækja.

**Álfkonan hjá Ullarvötnum.** (Eptir handriti Ólafs Sveinssonar í Purkey.) Fyrir austan nálægt Ullarvötnum hurfu menn hèr um 4 eða 5, hver eptir annan, er leituðu að fè upp á fjöll; voru þeir sendir frá fjárbónda einum, er vantaði allar kindur sínar, er hvergi fundust í bygðinni, og fèkk því menn til þess, að leita þeirra upp um fjöll, en þeir komu eigi aptur, og ei fundust þeir dauðir. Bóndi átti son, er Sigurður hèt; hann bjó sig út dag einn í góðu veðri, að leita kindanna, og kvaddi foreldra sína; var þeim það á móti, að hann færi, en hann vildi ei annað en fara; þetta var seint á sumri. Hann fer svo á stað og leitar víða, og finnur hvorki mennina nè kindurnar; kemur hann nú loks að vötnum stórum; þar sá hann ullarflekki með vötnunum og kindur þar um grandana; hann gengur að kindunum, og hugsar, að þar sè kindur föður síns, og þeirra, er vöntuðu kindur. Í þessu geingur kvennmaður að honum, og heilsar honum blíðlega. Hann tekur kveðjunni, og spyr hana að nafni; hún segir: „Eg heiti Vandráð

1. Hann kvað rímur og ýmislegt fleira; sèð hefi eg rímur hans af Trojnmanna bardaga, en fleiri ekki.

eður Valbjörg, og þykir mèr gott, Sigurður,“ segir hún, „að þú ert hèr kominn.“ Hann segir: „Hvernig getur þú vitað nafn mitt, þar eð eg hefi aldrei sèð þig.“ Hún segir: „Eg þekki bæði þig og föður þinn, er Andrès heitir, og ert þú að leita að kindum hans, og manna þeirra, er hann hefir sent að leita þeirra, og er þèr það með sanni að segja, að eg hefi valdið hvarfi kindanna, og svo líka dauða mannanna, og slíkan dauða skalt þú hljóta, nema þú gjörir minn vilja.“ Sigurður segir: „Hver er þá þinn vilji, og lát mig það heyra.“ Hún mælti: „Það er minn vilji, að þú farir til mín, og búir með mèr.“ Sigurður segir: „Vita vil eg, hvað manna þú ert, áður en eg játa því, og mátt þú vita, að eg hræðist ei dauða minn.“ Hún mælti: „Eg er álfa kyns, og á eg heima hèr nálægt í hól einum.“ Sigurður svarar: „Til þín skal eg fara með því móti, að eg megi byggja mèr bæ, eins og eg hef vanizt, að búa í.“ „Því skaltu mega ráða,“ segir hún. „Það er og eitt enn, er eg áskil við þið,“ segir Sigurður, „að þú sjáir um, að kindur föður míns komizt til hans.“ „Það skal og vera,“ segir hún, „og líka skal hann vita, að þú ert á lífi, og vel haldinn, þótt ei komir þú til hans.“ „Það líkar mèr vel,“ segir Sigurður. „Nú skaltu með mèr koma til híbýla minna,“ segir hún. Sigurður geingur nú með henni, þángað til þau koma að hól einum stórum; sýnist Sigurði, sem laglegar bæardyr væru á honum, og var trè í kríngum þær; leiðir hún nú Sigurð inn þángað. Sýnist honum þar hús alllaglег, þá inn var komið, og auðugt yfir að líta. Hún segir: „Eg hefi verið hèr í 2 ár, síðan eg misti foreldra mína, og hefi eg lítt unað mèr; en ei hefi eg viljað neinn af mínu kyni til mín taka, og þykist eg nú sæl vera, Sigurður minn, þar sem þú ert til mín kominn, og mun nú fara, sem faðir minn sagði, að eg mun kyn mitt auka með meunskum manni.“ Er nú Sigurður þar hjá henni, og þókti honum flest óviðfeldið. Verður hann þegar hjá henni að sofa, og jók honum það hinn mesta viðbjóð, en hlaut þó svo að vera; svo fór samt um síðir, að hann feldi sig vel við það.

Morgun einn, þá Andrès, faðir Sigurðar, fór á fætur, sá hann hvar kindur hans voru í túninu; taldi hann þær, og vantaði enga. Honum þykir vænt um, og hugsar, að Sigurður sè kominn í bæinn, leitar hans, en finnur hvergi. Þykir bónda þetta undarlegt. Kallar hann síðan menn til sín, og biður þá að leita Sigurðar; þeir fóru nú á stað 20 að leita hans um fjöll og hálsa, og fundu ekki; sneru síðan aptur við svo búið. Fèll bónda það svo þúngt, að hann lagðist í rúmið af harmi. Eina nótt dreymir hann, að honum þókti kona til sín koma, og segja svo við sig: „Vertu ei hryggur, bóndi; Sigurður sonur þinn lifir, og er ánægður, eins og hann væri hjá þèr, og býr hann með mèr, og kom eg kindum þínum eptir beiðni hans og vilja til þín.“ Gekk hún svo á burt frá honum. Hann vaknar síðan, og er hressari; en um morguninn fór hann á fætur, og sèr um eigur sínar, eins og hann hafði áður gjört. Líðu nú 3 ár, að

ei spyrst til Sigurðar. Um haustið snemma, á hinu 3. ári dreymir bónda, að honum þókti Sigurður sonur sinn koma til sín, heilsa sèr og segja: „það vildi eg faðir minn, að þú kæmir til Ullarvatna aðfángadagskvöld jóla, og að þú feingir með þèr prestinn, sèra Eirík. Þá þið komið þángað, munu þið sjá bæ minn, og hann standa opinn. Þið skuluð gánga í bæinn, og bið prestinn að standa í gaungunum, og taka á móti konu, er koma mun úr baðstofu, og sjá svo til, að ei sleppi úr höndum hans, því að þar liggur mikið við; en þú skalt gánga í baðstofu og standa á gólfi og guða þar; geti þetta ei orðið á þessu kvöldi, þá verður það ei síðar, og fær þú þá aldrei sèð mig optar.“ Sigurður fór þá á burt, en bóndi vaknar og hugsar um drauminn, og ásetur sèr að gjöra það, sem Sigurður bað hann um í svefni; því að draumur þessi muni ekkert heilarugl vera, heldur sönn vitran. Finnur hann nú prestinn sèra Eirík, og segir honum frá því, er Sigurður talaði við hann í svefninum. Prestur segir, að það muni satt vera, því að sig hafi laungum grunað, að hann væri haldinn hjá álfum, og segist skuli fara með bónda, að hverju sem yrði. Þegar tími þókti hentugur að fara, búa þeir sig tveir til ferðar, prestur og bóndi, og fara svo á stað; koma þeir svo að Ullarvötnum aðfángadagskvöld fyrir jól. Þeir sjá bæinn, og stendur hann opinn; síðan gánga þeir inn, prestur stendur í gaungum, en bóndi geingur í baðstofu. Þá bóndi kom í baðstofu, sá hann son sinn sitja á kistu fyrir framan rúm, er hann sá konu sitja í; hún hèlt á barni, en Sigurður var að karra ull; rugga var fyrir framan rúmið, og barn í; ljós brann á kerti. Bóndi guðar á gólfinu; við það verður konunni svo bilt, að hún kastar barninu í rúmið, en stekkur yfir rugguna og ofan, og ætlar út; en þá hún kemur í gaungin, tekur prestur um hana miðja. Á hann nóg með að halda henni, en hann var þó haldinn meir en tveggja maki að burðum, og þar að auki nóg lesinn í fornfræði. Koma þeir þá úr baðstofunni, bóndi og sonur hans með ljós; fer nú prestur höndum um konuna; af því gæfðist hún; eru þeir þar um nóttina, og vakir prestur yfir henni; er hún stundum í ómegin, en þess á milli er hún að gráta, og biðja prest að sleppa sèr; en það gjörir hann ekki. Leið svo til dags. En þá dagur var kominn, búa þeir sig til ferðar; skilst Sigurður við bæ sinn; en þeir taka börnin og konuna með sèr, og lifandi pening, er þar var. Er það mál manna, að Sigurður hafi slegið huldu yfir bæinn, þá hann skildist við hann.

Nú heldur það alt leiðar sinnar frá vötnunum, alt þángað til það kemur heim á bæ Andrèsar bónda; veður var gott og bjart lopt á meðan það var á ferð þeirri, og túnglsljós, og áðu því hvergi. Var prestur þar viku hjá bónda; vildi honum mjög örðugt gánga með konu-kindina, og fyrir bón bónda og Sigurðar lèt prestur hana með sèr fara, svo að hún var hjá honum um veturinn. Lagaðist hún mjög þann tíma. Sigurður og börn hans voru hjá Andrèsi bónda vel haldin, en lifandi peníng Sigurðar

var komið fyrir um sveitina, það sem faðir hans og prestur gátu ei tekið. En á liðnu vori gaf prestur Sigurð í hjónaband og huldukonu þá, er hann hafði verið hjá. Unnust þau vel, og bjuggu þar í sveit, þar sem þessi sèra Eiríkur átti yfir að segja; sókti hún kirkju með bónda sínum; en ei hef eg heyrt, að hún til altaris geingi eða tæki sakramenti, og ei heldur hvort hún stöðug væri undir messu; hún var góðgjörðasöm kona, svo að hún var elskuð af fólki, líka var hún siðferðisgóð á heimili, og hataði ósamþykki.

4 börn átti hún með manni sínum, er á legg komust, og munu enn lifa afkomendur þeirra fyrir austan. Heyrt hefi eg sagt það, að þeirra börn hafi verið undarlegri en annað fólk, og eg hefði því trúað, þó mèr hefði það sagt verið að sèra Sæmundur Hólm á Helgafelli væri þeirrar ættar; hann segist og vera kominn af huldufólki, en er dulur á þá ætt að telja. Það hefi eg heyrt, að prestur hafi skýrt fyrnefnda konu, og veit eg nú ei fremur hèr um.

**Álfkona býr með mennskum manni.** (Eptir handriti Ólafs Sveinssonar í Purkey.) Í „Tidfordriv,“ riti einu, sem svo er kallað, getur Jón Guðmundsson lærði, er var á Vestfjörðum í tíð Brynjólfs biskups, um hulðufólk, sem fleira, er af má ráða, að hann fulltrúa hefir verið, að það fólk til væri, og kallar það þar hálf kyn vort, er hèr byggjum og búum uppi á jarðarhnettinum, og meðal annara frásagna setur hann fram eina frásögn um álfakonu, er giptist hèr efra einum vorum kyns manni, og læt eg þá frásögn hèr fyrir sjónir koma.

Hann segir svo: Í Fjarðarhorni stærra í Fellskirkjusókn í Kollafirði, sem eg fyrst kom til búskapar, er var 1601, hafði forðum daga í gömlum tíðum búið úngur maður með únglíngs kvennsvipt, og svo leingi, að dætur þeirra tvær voru vel svo vaxnar, hèr um 13 eður 14 vetra að aldri.

Sú kona hafði hið mesta afbragð verið í allri umgeingni og góðsemi, sem og ölmusu-gjörðum við fátæka, en við alla ljúf og auðmjúk, og eingu síður kirkjukær en nokkur kristinn hefir verið, utan hún hlaut jafnan út að gánga um lánga saungva, fórnarupphald og helgan, því hún sagði, að sínum óstyrkva anda ofmiklaðist kraptur þess leyndardóms, sem þar með fylgdi, og grèt það jafnan, að hún mætti ekkert hlutskipti hafa síðar meir með kristnum mönnum.

Þángað komu um síðir 2 ógæfu-strákar og illmenni. Tóku þeir sig saman um, að verja henni útgaungu úr kirkjunni, þegar hún þurfti; hún ásókti, en þeir vörðu; hún bað þá með tárum, og fèkk ekki. Þegar hún fann, hvað sèr leið, snerizt hún til manns síns, og myntist við hann með tárum, en lagði hendur á höfuð dætra sinna, sem merki móðurlegrar ástar, og blessaði þær; sprakk hún síðan, og fèll niður sem froða, en maðurinn syrgði sig í hel eptir hana, en dæturnar lifðu vel, og juku þar kyn sitt.

Er það mál manna, að líkami þessarar konu hafi orðið sem limpilegastur, og sem froðu-kennsli, þá er á honum var þreifað.

**Álfkona leggst með mennskum manni.** (Eptir handriti Ólafs Sveinssonar í Purkey.) Árni hèt maður; hann var bóndi í Botni í Helgafellssveit, skýr maður og margfróður. Það var mál manna, að hann hefði kunnugur verið álfafólki. Hann svaf á sumrum einn úti í skemmu sinni, sem margra bænda siður var. Það var einn dag um sumarið, að Árni var ei heima, og eigi var hans heim von fyrr en daginn eptir. Um kveldið komu þar ferðamenn, er heiddust húsa, og feingu þeir það þegar. Var hinn helzti þeirra látinn hátta í rúmi Árna í skemmunni. Þegar hann var háttaður og til svefns lagður, en einginn maður þar inni, kom kvennmaður í skemmuna, og ætlaði, að Árni væri sá, er í rúminu var; stè hún því upp í rúmið, og fór undir fötin og lagðist niður. Þá hún hafði legið mjög litla stund stendur hún upp og segir: „Hvort er eigi Árni minn hèr?“ geingur síðan út að óupplokinni hurðinni, eins og hún hafði inn komið. Maður þessi talaði eigi neitt við hana; mjúk viðkomu sagði hann hún hefði verið. Maður þessi sagði, að hún hefði huldukona verið. (Hann var sagður óskreytinn.)

**g)** Einna mest ber á álfum um jólaleytið og nýárið, og virðist fleira en eitt hera til þess. Bæði er skemtana-tími þeirra mestur um það leyti ársins, þó einnig finnist dæmi til þess, að þeir haldi bæði til páska og sumardagsins fyrsta;[1] en um jólin hafa þeir samsæti og veizlur, hljóðfæraslátt og dansferð ýmist í manna-híbýlum eða í álfabygðum, og þar að auki halda þeir fardaga sína um nýárið,[2] og var þá ávalt „nokkuð um dýrðir“ fyrir þeim, og er einkum sagt, að þeir hafi farið á nýársnótt úr einum stað í annan vistferlum og búferlum. Því var sú venja hèr leingi höfð, að konur og húsmæður lètu ljós loga í hverju horni og hverju hús á bæ sínum, svo hvergi bæri skugga á alla nóttina. Allar dyr áttu að standa opnar upp á gátt, og alt að vera sópað og hreint, svo hvergi sæi sorp nè dupt í krok eða kima. Síðan skyldi kona eða húsmóðir sjálf gánga til og frá um allan bæinn og segja: „Veri þeir, sem vera vilja“, eða „komi þeir, sem koma vilja, fari þeir, sem fara vilja, mèr og mínum að meinlausu.[3]“

**Una álfkona.**[4] (Eptir sögn gamallar konu úr Rángárvallasýslu.) Geir er maður nefndur. Hann bjó austur undir Eyafjöllum á bæ, sem heitir Rauðafell, og átti gott bú. Hann var úngur, og áhugamaður mikill. Hann var þá nýbúinn að missa konu sína, þegar þessi saga gjörðist. Það var

1. Sjá Álfakóngurinn í Seley.
2. Þó hafa menn sögur af því, að álfar flytji búferlum endrarnær, sja Flutníngurinn.
3. Sbr. Dr. Maurers Isl. Volkss. 26. bls.
4. Sbr. Dr. Maurers Isl. Volkss. 10--11. bls.

einn sinni um sumarið um sláttinn, að ljá var orðin mikil hjá rakstrarkonunum; því eptirvinnan var lítil. Sèr þá Geir, hvar kona ein kemur í slægjuna, og fer að raka ljána. Hún var úngleg, og vel vaxin. Ekki talaði hún orð við nokkurn mann, en skjótt gekk þá raksturinn, þegar hún var komin. Þókti bónda hún kunna að fara með hrífuna. Burtu hvarf hún um kvöldið. Daginn eptir kom hún aptur, og rakaði þann dag allan. Svona gekk það alt sumarið, að konan kom, og rakaði ljána, en einginn talaði orð við hana, og einginn vissi hvaðan hún kom, eða hvert hún fór. Seinasta daginn í slættinum gekk bóndi til hennar, heilsaði henni, og þakkaði henni fyrir vinnuna. Hún tók því vel. Þau töluðu leingi saman, og svo fór, að bóndi rèð hana til sín fyrir bústýru. Síðan hvarf hún burtu. Morgunin eptir var hún komin heim til Geirs, og hafði hún ekki með sèr flutníng, nema kistu eina mikla. Kistan var sett inn í skemmu bónda. Konan tók þá við ráðskonustörfum, og hafði þau um veturinn. Líkaði bónda við hana prýðilega; því hún var rösk vel og stjórnsöm. Ekki vildi hún segja bónda hvaðan hún væri komin, en Una kvaðst hún heita. Aldrei fór hún til kirkju, og ámálgaði þó bóndi það opt við hana. Það var það eina, sem honum líkaði ekki við hana; því hann var maður kirkjurækinn. Nú leið svo fram að jólum. Þá sóktu menn aptansaung, og lètu einn mann geyma bæarins. Una vildi ekki fara, og var það mjög á móti skapi bónda. Varð hún þá ein eptir heima, og segir ekki af henni. Kirkjufólkið kom aptur um morguninn, og var hún þá búin að öllu, sem hún átti að gjöra. Svona dvaldi Una þrjá vetur hjá bónda, og var hún þá orðin honum mjög kær. Var það það eina, sem fældi hann frá að eiga hana, að hún fór aldrei til kirkju, og gramdist honum það mjög. Ýmsar voru getgátur manna um konu þessa, hvaðan hún væri, en það var almanna rómur, að einginn væri þar jafngóður kvennkostur og hún, í þeirri sveit. Líður nú að jólum hinn þriðja vetur, og verður Una enn heima. En þegar kirkjufólkið er skamt á leið komið, verður vinnumanni bónda snögglega ílt. Hann leggur sig þar niður, og kvaðst ætla að vita, hvort ekki liði af sèr ógleðin. Varð hann þar eptir, en bóndi hèlt áfram með hinu fólkinu; því maðurinn vildi ekki láta það vera að bíða eptir sèr.

Þegar vinnumaðurinn sá, að fólkið var komið í hvarf, reis hann á fætur, og sneri heim aptur til bæarins; því veikina hafði hann gjört sèr upp. Sèr hann þá, hvar Una er að sópa allan bæinn og hreinsa, og keppist mjög við, að ljúka af starfi sínu. Hann leyndi sèr, og lèt Unu ekki verða vara við sig. Þegar hún er búin að öllu, sem gjöra þurfti, fer hún út í skemmuna, og lýkur upp kistu sinni. Þar tekur hún upp klæði mjög vönduð, og klæðir sig upp á. Þóktist hann þá aldrei hafa sèð jafn vænlega konu og fríða. Því næst tekur Una upp úr kistunni feld rauðan, og bregður undir hönd sèr. Læsir hún þá kistunni, og geingur

út og læsir skemmunni í lás. Hleypur hún þá niður völlinn, og vinnumaðurinn á eptir. Ekki lèttir Una fyr hlaupunum, en hún er komin að dýi nokkru; þar slær hún út feldinnm, og stígur á hann. Vinnumaðurinn kemst með naumindum upp á eitt hornið á feldinnm. Líðu þau þá niður í jörðina, og var það líkast reyk, er þau fóru um. Ekki sá Una manninn, og svo komust þau á völlu nokkra græna. Þá tók Una upp feldinn, og brá undir bönd sèr. Þar sèr vinnumaðurinn bæ mikinn og reisulegan á völlunum. Þángað fór Una, og hann á eptir. Var þar fjölmenni mikið, og kom það út á móti Unu, og tók við henni tveim böndum. Alt var þar búið til veizlu, og fágað og prýtt Settust menn þá niður, og var matur á borð borinn. Þar koma fram ýmsir rèttir og vín, og alt ríkmannlega. Vinnumaðurinn gat náð einu síðurifi af hángnu sauðakjöti. Tók hann það, og geymdi; því jafnfeita síðu hafði hann aldrei fyrr sèð. Þegar menn höfðu matazt, var tekið til að leika ýmsa leiki, og fór það alt fram með list mikilli og snild. En þegar leið að degi, sagði Una, að nú mundi hún verða að fara; því bráðum kæmi bóndi frá kirkjunni. Kvaddi hún þá alla með miklum virktum, og rann á braut. Vinnumaðurinn fór á eptir henni, og komst á feldinn. Liðu þau svo upp aptur um jörðina, og að dýinu. Tekur þá Una feldinn, og fer heim. Geingur hún þá í skemmuna, og læsir klæði sín og dúkinn niður í kistuna aptur. Síðan geingur hún í bæinn. Fer þá vinnumaðurinn aptur þángað, sem hann hafði orðið eptir um kvöldið, og leggst niður.

Nú kemur bóndi frá kirkjunni, og finnur manninn, og spyr, hvernig honum liði. Vinnumaður segir, að sèr sè að mestu leyti batnað. Geingur hann svo heim með bónda. Fagnar Una þeim vel, og er nú sezt að borðum. Var þar fram borið hángið kjöt, eins og siður er til í sveitinni. Tekur þá bóndi upp sauðarsíðu mikla, og segir: „Hefir nokkur yðar sèð jafnmikla sauðarsíðu, og þessi er?“ „Vera má, að svo sè,“ segir vinnumaðurinn, og tekur fram sauðarrifið, sem hann hafði náð um nóttina, og sýnir það. Þegar Una sá það, skipti hún litum, og hvarf þegjandi burtu, og hefir ei sèzt síðan. Sagði þá vinnumaðurinn upp alla sögu um ferðalag sitt og Unu.

**Úlfhildur álfkona.** (Eptir handriti Þorvarðar Ólafssonar.) Einu sinni var bóndi á bæ; hann bjó norður við Mývatn. Það vatn er svo stórt, að ekki er minni vegur utan um það en þíngmannaleið. Það bar til einu sinni í byrjun túnasláttar, þegar fólk alt var að heyvinnu úti á túninu, að kona kemur frá vatninu og stefnir að bænum. Hún geingur til bónda, og biður hann að lofa sèr að vera í nótt. Bóndi lofar henni það. Hann spyr hana að nafni, en hún kvaðst heita Úlfhildur. Bóndi spyr, hvaðan hún sè, en hún eyddi því. Um kvöldið er tekið saman hey hjá bónda og biður Úlfhildur þá um hrífu. Rakar Úlfhildur þá ei minna, en við 2 meðalkvenn-

menn, og þó í gildara lagi væru. Næsta morgun vill Úlfhildur raka með hinum vinnukonunum. en bóndi kveðst ekki þurfa þess með. og lætur á sèr heyra, að hann helzt vilji, að hún fari burt. Þá fer Úlfhildur að gráta. Lofar þá bóndi henni að vera þennan dag. Næsta morgun segir bóndi, að nú verði hún að fara, en þá fer hún að gráta; kennir bóndi þá í brjósti um hana og leyfir henni að vera viku. Þegar vikan er liðin. kveðst bóndi nú ekkí leingur geta haldið hana, en það fer eins og fyrr, að þá fer Úlfhildur að gráta. Verður það þá úr, að hann lofar henni að vera sumarið út, og verður hún því mjög fegin. Öllum á heimilinu líkaði vel við Úlfhildi, því einginn þóktist hafa þekt duglegri, þrifnari, eða siðferðis betri kvennmann. Þegar líður undir haustið, er það ráðgjört, að Úlfhildur skuli vera árið út, og litlu seinna er hún fölnð til að vera næsta ár. Þegar líður að jólum fram þann næsta vetur, fær húsfreya henni skæði til að gjöra úr skó til jólanna handa sèr og vinnumönnum þeim tveimur, sem hún þjónaði. Hún gjörir skæðin handa vinnumönnunum, en sín skæði lætur hún vera ógjörð. Á jóladaginn fara allir til kirkju, nema Úlfhildur er ein heima. Er nú ekkert til frásagnar, þángað til að líður fram að næstu jólum. Húsfreya fær Úlfhildi skæði, eins og fyrra árið til jólanna, en hún gjörir skæði vinnumannanna, en ekki sín skæði. Á jóladaginn fara allir til kirkju, nema Úlfhildur er ein heima. En á jólanóttina þóktist annar vinnumaðurinn hafa orðið þess var, að Úlfhildur hefði eitthvað á burt farið, og hugsaði sèr, ef hann yrði henni samtíða næstu jólanótt, að gæta betur að, hvað henni liði. Líða nú jólin og veturinn og kemur Ulfhildur sèr einkar vel, og þóktust menn ekki vita hennar jafníngja fyrir margra hluta sakir. Er ekkert til frásagnar, þar til líður að þriðju jólunum. Húsfreya fær Úlfhildi skæði í jólaskó að vanda. og gjörir hún skóna handa vinnumönnunum, eins og fyrr, en ekki sína. Húsfreya mælti við Ulfhildi, að nú yrði hún að fara til kirkju á jóladaginn, því hún kvaðst hafa mætt álasi af presti fyrir það, að hún færi aldrei til kirkju. Úlfhildur talaði fátt um og eyddi því. Þegar allir eru háttaðir á jólanóttina. en vinnumaður sá vakandi, sem áður er umgetið, þá fer Úlfhildur á fætur hægt, svo eing-inn heyrir og laumast út úr bænum, en vinnumaður fer á eptir. Hún geingur að vatninu, og þegar hún kemur þar, tekur hún upp glófa og gnýr þá; verður þegar brú yfir vatnið, geingur hún brúna og vinnumaður á eptir. Þegar hún er komin yfir vatnið, gnýr hún glófana aptur, svo brúin hverfur. Úlfhildur heldur áfram ferðinni og sýnist vinnumanni, sem hún nú haldi niður í jörðina, og verður dimt mjög, þar sem hún fer. Getur þó vinnumaður sèð til hennar og heldur alt af á eptir. Þau halda nú leingi áfram ferðinni, þángað til smátt og smátt fer leiðin að verða bjartari. Loksins koma þau á slètta og fagra völlu; voru þeir svo fagrir og blómlegir, að vinnumaður hafði aldrei sèð svo fallegan stað. Beggjamegin vegarins var alþakið af fögrum blómum, og voru grundirnar ljós-

bleikar á að líta, þegar sólin skein á fíflana og aldinin. Sauðahjörðin lèk sèr á flatlendinu, en stundum reif hún í sig blómin með áfergju. Náttúran var yfirhöfuð íklædd hinum fegursta búníngi. Á þessu graslendi miðju stóð fögur höll, og virtist vinnumanni það vera konúngshöll, svo var hún skrautleg til að sjá. Þángað gekk Úlfhildur og inn í höllina. En vinnumaður stóð í afkima fyrir utan. Hjá höllinni stóð kirkja og var það fögur bygging. Þegar lítil stund er liðin, kemur Úlfhildur út úr höllini, íklædd drottníngar skrúða og hefir gullhríng á hverjum fíngri. Hún ber barn á handlegg sèr, en við hina hlíð henuar geingur maður með kórónu á höfði og klæddur konúngsskrúða; ímyndar vinnumaður sèr, að þetta sè kóngur og drottníng. Þau geingu í kirkjuna og fylgdi þeim mikill fjöldi fólks, sem alt var einkar vel búið og var gleðisvipur á öllum. Vinnumaður gekk nú að kirkjudyrunum og sá hann eingiun, og Úlfhildur vissi heldur ekkert af honum. Í þessu bili var tekið til messu og mátti heyra fallegar hörpur og fallegan saung. Barnið, sem Úlfhildur hèlt á, varð óspakt um messuna og hljóðaði; lèði[1] hún því þá einn gullhríng af hendi sinni, en barnið fleygði honum fram eptir kirkjugólfinu, svo vinnumaður gat náð hríngnum. Þegar messan var úti, geingu allir úr kirkju, og Úlfhildur með hinum velklædda manni inn í höllina, og sýnist þá vinnumanni vera sorgarsvipur á öllum. Að stundarkorni liðnu kemur Úlfhildur í sínum fyrra búníngi, geingur frá höllini og flýtir sèr. Hún fer veginn sama, sem hún kom, og vinnumaður á eptir. Er ekkert frá sagt, fyrr en þau koma að vatninu, og leit vegurinn eins út að vatninu, eins og fyrr er frá sagt. Við vatnið gnýr hún glófana og þá kemur brúin, og gánga þau hana yfir vatnið. Þá gnýr hún glófana aptur og brúin hverfur. Í þessum svifum flýtir vinnumaður sèr á undan Úlfhildi heim og háttar, en hún kemur á eptir og háttar líka, og er þá rètt komið undir dag. Nú dagar og fer fólk á fætur. Þá mælti húsfreya við Úlfhildi, að nú yrði hún að fara til kirkju í dag. Þá gegnir vinnumaður, og segir, að hún þurfi víst ekki að fara til kirkju í dag, því hún hafi verið við kirkju í nótt. „Mæltu manna heppnastur, ef þú getur sannað," mælti Úlfhildur. Segir þá vinnumaður alla sögu, hvernig til hafi geingið um nóttina, og sýnir gullhrínginn til merkis. Nú verður Úlfhildur glöð mjög og segir frá, hvernig á standi fyrir sèr. Hún kveðst vera kóngsdrottníng úr Álfheimum, segist hún hafa yrzt við kerlíngu, en hún hafi lagt það á sig, að hún skyldi alt af mega vera hjá mönnum (eða í Mannheimum) þaðan í frá, nema því að eins, að mennskur maður kæmist með henni til Álfheima á jólanótt, þeirri fyrstu, annari eða þriðju eptir það á hana var lagt. Það eina leyfði kerlíngin, að hún skyldi mega finna mann sinn í 3 jólanætur. En Úlfhildur kvaðst aptur hafa lagt það á kerlíngu, að hún skyldi deya, ef hún kæmist úr álögunum. Úlfhildur mælti við vinnumanninn: „Það mæli eg um, að þú verðir hinn mesti gæfumaður hèðan í frá, og á morgun skaltu gánga ofan að vatninu; muntu þá

finna sjóði tvo; skaltu eiga þann minni, en húsbændur þínir þann stærri.“ Síðan bjóst Úlfhildur til ferðar og kvaddi alla með vinsamlegum orðum. Hún flýtti sèr og hèlt ofan að vatninu og hvarf, svo einginn hefir sèð hana síðan, en alt heimilisfólkið saknaði hennar. Daginn eptir gekk vinnumaður ofan að vatninu og fann þar tvo sjóði og voru báðir stórir. Í minni sjóðnum voru gullpeníngar, en silfurpeníngar í hinum stærri. Er sagt, að vinnumaður yrði frá þessum tíma gæfumaður alla æfi, og endar svo saga þessi.

**Hildur álfadrottníng.** Einu sinni bjó bóndi á bæ nokkrum til fjalla, og er þess hvorki getið, hvað hann hèt, nè bærinn. Bóndi var ókvongaður, en bjó með bústýru, er Hildur hèt, og vissu menn ógjörla um ætt hennar. Hún hafði öll ráð innanstokks á heimilinu, og fóru henni flestir hlutir vel úr hendi. Hún var geðþekk öllum heimamönnum og þar með bónda; en þó bar ekki á, að hugir þeirra færi saman um of; enda var hún stilt kona og heldur fálát, en þó viðmótsgóð.

Heimilishagur bónda stóð með blóma miklum, nema að því einu, að hann átti ilt með að fá smalamenn; en hann var sauðabóndi góður, og þókti, sem fóturinn færi undan búi sínu, ef sauðamann brysti. Kom þetta hvorki af því, að bóndi væri harður við smala sína, nè heldur af því, að bústýran lèti ávanta, það er hún átti til að leggja. Hitt var heldur, sem á milli bar, að þeir urðu þar ekki gamlir, og fundust jafnan dauðir í rúmi sínu á jóladagsmorguninn.

Á þeim tímum var það lenzka hèr á landi, að messað var á jólanóttina, og þótti ekki minna hátíðabrigði að því, að fara þá til kirkju, en á sjálfan jóladaginn. En af fjallbæum, þaðan sem lángt var til kirkju, var það ekkert heimatak, að fara til tíða, og vera kominn þar í tækan tíma, fyrir þá, sem svo stóð á fyrir, að ekki gátu orðið fyr tilbúnir að heiman, en stjarnan var komin jöfnubáðu hádegis og dagmála, eins og gjarnast var, að sauðamenn kæmu ekki fyr heim hjá bónda þessum. Ekki þurftu þeir að vísu að gæta bæarins, sem ávalt var venja að einhver gerði aðfánganætur jóla og nýárs, meðan annað bæarfólk væri við tíðir; því frá því Hildur kom til bónda, hafði hún ávalt orðið til þess sjálfboðin, um leið og hún annaðist það, sem gera þurfti fyrir hátíðirnar, matseld og annað, sem þar að lítur, og vakti hún yfir því alla jafna lángt á nótt fram, svo að kirkjufólkið var opt komið aptur frá tíðum, háttað og sofnað, áður en hún fór í rúmið.

Þegar svo hafði geingið lánga hríð, að sauðamenn bónda höfðu allir orðið bráðkvaddir á jólanóttina, fór þetta að verða hèraðsfleygt, og gekk bónda af því alltreglega að ráða menn til starfa þessa, og því ver, sem fleiri dóu. Lá þó alls einginn grunur á honum, nè öðrum heimamönnum hans, að þeir væri valdir að dauða sauðamanna, sem allir höfðu dáið

áverkalaust. Loksins kvaðst bóndi ekki geta lagt það leingur á samvizku sína, að ráða til sín smala út í opinn dauðann, og hljóti nú auðna að ráða, hversu fari um fjárhöld sín og fjárhag.

Þegar bóndi hafði staðráðið þetta, og hann var orðinn með öllu afhuga að vista nokkurn til sín í því skyni, kemur eittsinn til hans maður, vaskur og harðlegur, og býður honum þjónustu sína. Bóndi segir: „Ekki þarfnast eg þjónustu þinnar, svo að eg vilji við þèr taka.“ Komumaður mælti: „Hefir þú ráðið sauðamann til bús þíns næsta vetur?“ Bóndi kvað nei við, og kvaðst ekki hafa ásett sèr að gjöra það optar, „og muntu heyrt hafa, fyrir hverjum ósköpum sauðamenn mínir hafa orðið til þessa.“ „Heyrt hefi eg það,“ segir komumaður; „en ekki munu forlög þeirra fæla mig frá fjárgeymslu fyrir þig, ef þú vilt við mèr taka.“ Bóndi lèt það þá eptir honum, með því hinn sókti fast á, að hann rèð hann til sín fyrir sauðamann. Eptir þetta líða tímar fram, svo að hvorum hugnar vel við annan, bónda og sauðamanni, og eru allir vel til hans; því að hann var háttprýðismaður, ódeigur og ötull til hvers, sem reyna skyldi.

Nú bar ekki til tíðinda fram að jólum; fer þá sem vant er, að bóndi fer með heimamönnum sínum til kirkju á aðfángadagskvöldið, nema bústýra hans var ein eptir heima og sauðamaður yfir fènu; fer svo bóndi og skilur þau eptir svona sitt í hvoru lagi. Líður nú fram á kvöldið, til þess að sauðamaður kemur heim eptir venju; borðar hann þá mat sinn, og geingur að því búnu til náða, og leggst út af. Kemur honum nú í hug, að varlegra mundi sèr vera að vaka, en sofna, hvað sem í kynni að skerast, en var samt alls óhræddur, og liggur hann því vakandi. Þegar lángt er liðið á nótt, heyrir hann að kirkjufólkið kemur; tekur það sèr bita, og fer síðau að sofa. Ekki verður hann enn neins vísari; en það finnur hann, þegar hann ætlar alla sofnaða, að máttinn fer að draga úr sèr, sem von var, daglúnum manni. Þykist hann nú illa beygður, ef svefninn skal sigra sig, og neytir því allrar orku, til að hressa af sèr. Líður nú eptir það lítil stund, áður hann heyrir, að komið er að rúmi sínu, og þykist hann skynja, að þar er Hildur bústýra á ferð. Læst hann þá sofa sem fastast, og finnur, að hún er að hnoða einhverju upp í sig. Skilur hann þá, að þetta muni vera gandreiðarbeizli, og lofar henni að koma því við sig. Þegar hún er búinn að beizla hann, teymir hún hann út, sem henni var hægast, fer á bak honum, og ríður slíkt sem aftekur þángað til hún kemur þar að, sem honum virðist vera gryfja nokkur eða jarðfall. Þar fer hún af baki við stein einn, og tekur ofan taumana; að því búnu hverfur hún honum sjónum ofan í jarðfallið. Sauðamanni þókti ílt og ófróðlegt að missa svo af Hildi, að hann vissi ekki, hvað af henni yrði. En það fann hann að ekki mátti hann lángt komast með beizlinu; svo fylgdi því mikil forneskja. Hann tekur því það til bragðs, að hann nýr höfuð sitt við stein þann, er fyr er getið, þángað til hann kemur fram af sèr beizlinu, og lætur það

þar eptir verða. Síðan steypir hann sèr ofan í jarðfallið, þar sem Hildur hafði undanfarið. Finnst honum að hann hafi ekki farið leingi eptir jarðfallinu, áður hann sèr, hvar Hildur fer; er hún þá komin á fagra velli og slètta, og ber hana nú fljótt yfir. Af þessu öllu saman þykist hann nú skilja, að ekki sè einleikið með Hildi, og að hún muni hafa fleiri brögð undir stakki, en á var að sjá í Mannheimum eða ofan jarðar. Það þykist hann og vita, að hún muni þegar sjá sig, ef hann gángi niður á vellina eptir henni. Tekur hann þá hulinhjálmstein, er hann bar á sèr, og heldur honum í vinstri lofa, síðan tekur hann á rás eptir henni, og fór sem hann má harðast. Þegar hann sækir leingra fram á völluna, sèr hann höll mikla og skrautlega, og heldur Hildur þángað, sem leið liggur. Þá sèr hann og, að múgur manns kemur frá höllinni og fer út í móti henni. Á meðal þeirra er einn maður, er fremstur fer; hann var láng tígulegast búinn, og þykir sauðamanni, sem hann heilsi konu sinni, er Hildur kemur, og bjóði hana velkomna; en hinir, sem með hinum tigna manni voru, fögnuðu henni sem drottníngu sinni. Með tignarmanninum voru og tvö börn nokkuð stálpuð, er fóru með honum í móti Hildi, og fögnuðu þau þar móður sinni feginshugar. Þegar lýður þessi hafði heilsað drottníngu fylgdu allir henni og konúngi til hallarinnar, og eru henni þar veittar hinar virðulegustu viðtökur, þar með er hún færð í konúnglegan skrúða, og dregið gull á hönd henni. Sauðamaður fylgdi múganum til hallarinnar, en var þó ætið þar, er hann var minnst fyrir umgángi, en gat þó sèð alt, sem gjörðist í höllinni. Í höllinni sá hann svo mikinn og dýrlegan umbúnað, að aldrei hafði hann slíkan fyr augum litið; var þar sett borð og matur á borinn, og undrar hann mjög öll sú viðhöfn. Eptir nokkra stund sèr hann Hildi koma í höllina og var hún þá skrýdd skrúða þeim, sem fyr er nefndur. Er þá skipað mönnum í sæti og sezt Hildur drottníng í hásæti hjá konúngi, en hirðin öll til beggja hliða og matast menn nú um hríð. Síðan voru borð upp tekin, og geingu þá hirðmenn og hirðmeyar til dansleika, þeir sem það vildu; en aðrir völdu sèr aðra skemtun, er það hugnaði betur; en þau konúngur og drottníng tóku tal með sèr, og virtist sauðamanni samtal þeirra bæði blítt og ángurblandið.

Meðan þau ræddust við konúngur og drottníng, komu til þeirra 3 börn ýngri, en þau, sem áður er getið, og fögnuðu þau einnig móður sinni. Hildur drottníng tók því og blíðlega; tók hún ýngsta barnið og setti í knè sèr, og lét að því alúðlega; en það brekaði og var óvært. Setti þá drottníng af sèr barnið, dró hríng einn af hendi sèr, og fèkk því að leika sèr að. Barnið þagnaði þá, og lèk sèr um hríð að gullinu; en misti það loksins á gólfið. Var sauðamaður þar nærstaddur, varð hann fljótur til, náði hríngnum, er hann fèll á gólfið, stakk honum á sig, og geymdi vandlega, og varð einginn þessa var; en öllum þótti kynlegt, er hríngurinn

fanst hvergi, þegar leitað var. Þegar lángt var liðið á nótt fram, fór Hildur drottníng að hreifa sèr til ferðar; en allir þeir, sem innan hallar voru, beiddu hana að dvelja leingur, og voru mjög hryggvir, er þeir sáu ferðasnið á henni. Sauðamaður haldi veitt því eptirtekt, að á einum stað í höllinni sat kona öldruð mjög og heldur illileg; hún var sú eina af öllum, sem þar voru inni, er hvorki fagnaði Hildi drottníngu, þegar hún kom, nè latti hana burtfarar. Þegar konúngur sá ferðasnið á Hildi, og hún vildi ekki kyr vera hvorki fyrir bænastað hans nè annara, gekk hann til þessarar konu og mælti: „Tak nú aptur ummæli þín, móðir mín, og virð til bænir mínar, að drottníng mín þurfi ekki leingur að vera fjarvistum, og mèr verði svo lítil og skammvinn unaðsbót að henni, sem verið hefir um hríð.“ Hin aldraða kona svaraði honum heldur reiðuglega: „Öll mín ummæli skulu standa, og einginn er þess kostur, að eg taki þau aptur.“ Konúngur hljóðnaði við, og gekk harmþrúnginn aptur til drottníngar, lagði hendur um háls henni og myntist við hana, og bað hana enn með blíðum orðum að fara hvergi. Drottníng kvaðst ekki annað mega fyrir ummælum móður hans, og taldi það líkast, að þau mundu ekki optar sjást, sökum óskapa þeirra, er á sèr lægju, og að manndráp þau, er af sèr hefðu staðið, og svo mörg væri orðin, mundu nú ekki leingur geta leynzt, og mundi hún því hreppa makleg gjöld verka sinna, þótt hún hefði nauðug orðið að vinna þau. Meðan hún taldi harmatölur þessar, fór sauðamaður að hafa sig til vegs út úr höllinni, er hann sá, hvernig á stóð, og svo beina leið yfir völluna að jarðfallinu, og þar upp, sem leið lá. Síðan stakk hann á sig hulinhjálmssteininum, lèt á sig beizlið, og beið svo þess, að Hildur kæmi. Að lítilli stundu liðinni kemur Hildur drottníng þar, ein og döpur í bragði; sezt hún þá enn á bak honum og ríður heim. Þegar hún kemur þar, leggur hún sauðamann í rúm hans kyrfilega, og tekur þar fram af honum beizlið; geingur síðan til rúms síns, og leggst að sofa. Þó sauðamaður væri allan þenna tíma glaðvakandi, lèt hann, sem hann svæfi, svo að Hildur yrði einskis vör annars. En er hún var geingin til rekkju, hefir hann eingan andvara á sèr framar; sofnar hann þá fast, og sefur fram á dag, sem von var.

Morguninn eptir fer bóndi fyrstur á fætur af öllum á bænum; því að honum var ant að vitja um sauðamann sinn, en bjóst við þeim ófögnuði, í staðinn fyrir jólagleði, að finna hann dauðan í rúmi sínu, eins og orðið hafði að undanförnu. Um leið og bóndi klæðist, vaknar hitt heimilisfólkið og klæðist; en bóndi geingur að rúmi sauðamanns og hefir höndur á honum. Finnur hann þá, að smalamaður er lífs; verður bóndi af því alls hugar feginn og lofaði guð hástöfum fyrir þessa líkn. Síðan vaknar sauðamaður heill og hress, og klæðist. Meðan á því stendur, spyr bóndi hann, hvort nokkur tíðindi hafi borið fyrir hann um nóttina. Sauðamaður kvað nei við; „en mikið undarlegan draum dreymdi mig.“ „Hvernig var

draumur sá," segir bóndi? Sauðamaður byrjar þar á sögunni, sem fyr er sögð, er Hildur kom að rúmi hans og leggur við hann beizlið, og greinir síðan hvert orð og atvík, er hann man framast. Þegar hann hefir lokið sögunni, setur alla hljóða, nema Hildi; hún segir: „Þú ert ósannindamaður að öllu því, sem nú hefir þú sagt, nema þú getir sannað með skírum jarteiknum, að svo hafi verið, sem þú segir." Sauðamaður varð ekki endurrjóða við það, og þrífur til hríngsins, er hann hafði náð um nóttina á hallargólfinu í álfheimum, og segir: „Þó eg ætli mèr óskylt, að sanna draumsögu með jarteiknum, þá vill þó svo vel til, að eg hefi hèr eigi óljósan vott þess, að eg hafi með álfum verið í nótt, eða er þetta ekki fíngurgull yðar, Hildur drottníng?" Hildur mælti: „Svo er víst, og hafðu allra manna heppnastur og sælastur leyst mig úr ánauð þeirri, er teingdamóðir mín hefir á mig lagt, og hefi eg orðið nauðug að vinna öll þau ódæmi, er hún á mig lagði." Hefur þá Hildur drottníng sögu sína svo látandi: „Eg var álfamey af ótignum ættum; en sá sem nú er konúngur yfir álfheimum, varð ástfánginn í mèr. Og þótt móður hans væri það allnauðugt, gekk hann að eiga mig. Varð teingdamóðir mín þá svo æf, að hún hèzt við son sinn, að hann skyldi skamma unaðsbót af mèr hljóta; en þó skyldum við sjást mega endur og sinnum. En á mig lagði hún það, að eg skyldi verða ambátt í mannheimum, og fylgðu þar með þau ósköp, að eg skyldi verða mannsbani hverja jóla, á þann hátt, að eg skyldi leggja beizli mitt við þá sofandi og ríða þeim sömu leið, er eg reið sauðamanni þessum í nótt, til að hitta konúnginn; og skyldi þessu svo fram fara, þángað til óhæfa þessi sannaðist á mig, og eg yrði drepin, nema eg hitti áður svo vaskan mann og hugaðan, að hann bæri traust til að fylgja mèr í álfheima, og gæti eptir á sannað, að hann hefði þángað komið, og sèð þar athæfi manna. Nú er það bert, að allir hinir fyrri sauðamenn bónda, síðan eg kom hèr, hafa bana beðið fyrir mínar sakir, og vænti eg, að mèr verði þó ekki gefin sök á því, sem mèr varð ósjálfrátt; því eiginn hefir fyr til þess orðið að kanna hina neðri leið, og forvitnast um híbýli álfa, en þessi fullhugi, sem nú hefir leyst mig úr ánauð minni og álögum, og skal eg að vísu launa honum það, þó síðar verði. Nú skal hèr og eigi leingri viðdvöl eiga, og hafið þèr góða þökk, er mèr hafið vel reynzt; en mig fýsir nú til heimkynna minna." Að því mæltu hvarf Hildur drottníng, og hefir hún aldrei síðan sèzt í mannheimum.

En það er frá sauðamanni að segja, að hann kvongaðist og reisti bú næsta vor eptir. Var það hvorttveggja, að bóndi gjörði vel við hann, er hann fór, enda setti hann ekki saman af eingu. Hann varð hinn nýtasti bóndi í hèraðinu, og sóttu menn hann jafnan að ráðum og liðsemd; en ástsæld hans og lán var svo mikið, að mönnum þótti líkindum meiri, og sem tvö höfuð væri á hverri skepnu, og kvaðst hann allan sinn uppgáng eiga að þakka Hildi álfadrottníngu.

**Snotra.** (Eptir Jón bónda Sigurðsson í Njarðvík í Múlasýslu.) Þess er getið, að eitt sinn í fyrndinni kom að Nesi í Borgarfirði austur kona ein tíguleg mjög, sem einginn vissi deili á. Hún settist þar að, og þókti æ meira til hennar koma, því betur menn feingu að þekkja hana. Hún náði þar fljótt búráðum, og varð eigandi Ness, en ekki er getið, hvernig á stóð á Nesi, er hún kom þar; hún fèkk sèr ráðsmann með sèr yfir búið, og setti á við hann, að hann segði sèr, hvar hún yrði næstkomandi jól, því hún kvaðst fara að heiman, og verða burtu um jólin. Maðurinn kvaðst ekki mundi geta það. Hún sagði það riði á lífi hans, gæti hann ekki sagt sèr þetta, en gæti hann það, þá mundi hún góðu launa honum. Leið nú fram að jólum; en á aðfángadagskveld bjóst Snotra að heiman, en einginn vissi, hvert hún fór. Að liðnum jólunum kom hún aptur, gekk til ráðsmanns síns og spurði hann, hvert hann gæti nú sagt sèr, hvar hún hefði verið um jólin. Hann kvað nei við. Eptir þetta hvarf hann, og vissi einginn, hvað af honum varð. Svona gekk fyrir öðrum og hinum þriðja, sem til hennar fóru. Hún hafði sömu skilmála við alla ráðsmenn sína. Það var vani hennar, að hún hvarf burtu um hver jól, og spurði alla hins sama, en einginn þeirra gat sagt henni þetta. Hurfu þeir svo allir. Seinast fór enn einn til hennar; hún setti sama á við hann. Hann sagðist skyldi segja henni það, ef hann gæti. Nú leið að jólum, og á aðfángadagskveld undir dagsetur fór Snotra að búast að heiman eptir vana, en verkmenn lögðust til svefns í skála. Ráðsmaðurinn vakti og hafði nærri njósnina, er Snotra fór út úr bænum, dró sig á eptir henni til að sjá, hverja leið hún legði. Hann sá, að hún lagði leið ofan túnið til sjávar, og hèlt á einhverju undir hendi sèr; hann læddist á eptir henni. En er hún kom ofan á sjávarklappirnar, þá settist hún niður, tók böggulinn, sem hún bar undir hendinni og rakti hann sundur. Hann sá, að þetta var ljósleit blæa, því hann var innar frá henni á bakkanum. Þegar hún sá hann fleygði hún til hans annari blæunni, en steypti yfir höfuð sèr hinni, sem hún hèlt á, og fleygði sèr svo í sjóinn. Hann gjörði hið sama með mesta flýti, fór á eptir henni og gat náð í hornið á blæunni á baki hennar. Liðu þau svo líkt sem í reyk eða móðu nokkurn tíma, uns þau komu að landi mjög fögru. Þar gekk Snotra á land og lagði af sèr blæuna í afvikin stað, og gekk svo upp á landið. Hann gjörði hið sama, tók af sèr blæu sína, batt hana saman og lagði hana ofan á hennar blæu, og hèlt svo á eptir henni. Hann sá, að landið var óvenjulega fagurt, vaxið ylmjurtum og ávaxtatrjám, og þegar leingra kom, sá hann aldingarða víða frá sèr; því næst sá hann borg eina mjög skrautlega, og voru múrar umhverfis hana; en er hún kom undir borgarhliðið, geingu móti henni margir menn með hljóðfæraslætti og tóku í hönd henni, en hún leit við honum, og benti að hann skyldi stefna þángað, sem tvær háreystar byggíngar stóðu nær því saman, en þó lítið bil á milli. Þángað fór hann og fann þar byggíngu

litla, og mátti úr henni ná upp að glugga einum, sem var á miklu bygg-íugunni þar hjá. Þar hèlt hann kyrru fyrir; fyrsta kveldið fór hann upp að glugganum, og sá þar inni viðhöfn mikla, alt uppljómað af ljósum, og mikinn fjölda af skrautbúnu fólki, er lèk ymsa dansleika með hljóðfæraslætti og allskonar gleðilátum. Í hásæti sá hann tígulegan mann, og Snotru þekti hann við hlíð hans í drottníngar-skrúða; á þessu furðaði hann. Þarna stóð hann við gluggann, þartil hætt var dansleiknum, tekið af borðum og geingið burt úr salnum. Þegar hann hafði tekið á sig náðir, kom úng kona til hans með mat. Hin sama bar honum mat og drykk, meðan hann var þar. Upp að glugganum fór hann á hverju kveldi og sá ætíð hið sama, skraut mikið og gleði og þau í hásæti. En síðasta kvöldið sem hann stóð við gluggann, kómu menn inn og báru þeim, sem í hásætinu sat, að kýr ein á staðnum hefði borið 2 kálfum, og hefði annar kálfurinn verið dauður, er að var komið. Tvær konur hefðu átt að sjá um kúna og kendu hver annari um dauða kálfsins. Út úr þessu varð deila mikil milli þeirra. Við þessa fregn varð höfðínginn reiður mjög. Að liðnum jólunum varð ráðsmaður Snotru var við, að húist var við hrottför hennar. Fylgdi henni úr höllinni múgur og margmenni með hljóðfæraslætti. Leiddi höfðínginn hana við hönd sèr úr salnum, og skildi þar við hana með trega miklum; hèlt hún svo sömu leið til baka að móðunni og ráðsmaður hennar á eptir. Liðu þau svo eins og í þoku, uns þau komu að landi í sama stað sem þau fóru frá. Tók hún þá af sèr blæuna og braut saman. Hann gjörði svo líka og kastaði til hennar. Hún talaði ekkert, en gekk heim, og hann á eptir og til skála og svaf af til morguns. Verkmenn fóru á fætur eptir vana til verka, en hann lá einn eptir. Þá kom Snotra til hans og bauð honum góðan dag, og spurði, hvart hann gæti nú sagt sèr, hvar hún hefði verið um jólin. Hann kvaðst ei vita það, en kvað:

„Deildu tvær um dauðan kálf,
drottníng mín það veiztu sjálf;
ógurlegt var það orðagjálfur,
yfrið reiður varð kóngurinn sjalfur."

„Hafðu þökk fyrir" mælti Snotra, „nú hefir þú leyst mig úr álögum; eg var hrakinn frá manni mínum, og lagt á mig, að eg skyldi aldrei hjá honum getað verið, nema um hver jól, nema einhver fyndist sá, sem gæti sagt mèr, hvar eg dveldi á jólum. Þú einn varst til þess; fyrir það gef eg þèr bú mitt alt og hújörð, og muntu gæfumaður verða." Eptir þetta hvarf Snotra, og sást ekki síðan. Var jörðin kend við hana síðan, og kölluð Snotrunes.

**Te-kannan.** (Eptir þeim systrum Ragnheiði og Ragnhildi Einarsdætrum.) Sá prestur var í Gaulverjabæ fyrir laungu, sem Jóhann hèt. Hann þókti fyrirtaks klerkur um flesta hluti, og því var hann prófastur í Árnessýslu.

Hann átti konu við sitt hæfi, og unnu þau hvort öðru mikið þó ekki yrði þeim barna auðið; það eitt þókti þeim þau skorta á fullsælu þessa heims, því auð höfðu þau nógan. Þau voru samhuga um flesta hluti nema í því atriði einu, að prófasturinn hafði mikla trú á álfum, en kona hans allseinga. Þau leiddu opt saman hesta sína út af því í gamni og alvöru, og lèt hvorugt af sínum málstað fyrir öðru. Meðal annars hafði prófastur trú á því, að álfar flyttu búferlum á gamlárskvöld sem margir höfðu á þeim tíma. Það var siður prófasts, eins og tíðkaðist á þeim öldum, að halda kvöldsaungva kvöldinn fyrir allar stærri hátíðir, og hafði hann það lag á því. að hann borðaði rètt áður, en hann fór út í kirkjuna til kvöldsaungsins, en tók sèr opt dúr, áður en hann mataðist í herbergi því, sem fylgdi mörgum prestsetrum, og prestakamers hèt, af því þar áttu prestar helzt að hafast við með alt sitt, enda svaf sèra Jóhann þar og mataðist, las og skrifaði, því þar var hann mest út af. Einn gamlársdag á úthallandi degi segir prófastur við konuna sína, að hann ætli ekki að leggja sig fyrir núna í rökkrinu, en gánga sèr til gamans dálítinn kipp út í hraunið, sem er á 3 vegu út frá túninu í Gaulverjabæ, og muni hann verða burtu dálitla stund, en þegar hann komi aptur skuli hún vera búin að leggja á borð, svo hann þurfi ekki annað en matast, og fara að því búnu út í kirkjuna. Kona hans hèt honum góðu um það. Síðan fer prófastur, þegar honum þykir tími til, út um kvöldið. Þegar prófastskonunni þókti mál til komið, ætlar hún fram í prestakamers að bera á borð En þegar hún kemur að kamersdyrunum eru þær harðlæstar, og lykillinn ekki í skránni. Henni þykir það undarlegt, því prófastur var ekki vanur að taka lykilinn úr, þó hann færi burtu, og því síður þó hann hefði lagt sig til svefns. Hún sneri því aptur og lætur enn líða og bíða um sinn. Að stundu liðinni kemur hún aptur að hurðinni, og er þá lykillinn kominn í skrána. Lýkur hún svo upp, og ætlar að bera á borð. Sèr hún þá, að prófasturinn er kominn og hefir lagt sig fyrir; en á borðinu sèr hún að stendur logagylt te-kanna hnattmynduð, og handarhaldið beygðist niður, eins og 3 laufblöð. Þegar hún var búin að bera á borð, vakti hún mann sinn, og spyr hann, hvernig á þessari könnu standi. Hann segir, að það sè ekki að marka það, það sè heimskan úr sèr að tarna. Hún gekk því meir á hann um þetta, og sagði. að hún vissi ekki til, að þessi gripur hefði verið fyrri í þeirra eign, og hún mundi nú fara betur að trúa eptir en áður, að eitthvað væri til í því, sem hann segði um huldufólk. Prófastur gegndi því lítlu, en fór að borða. Í því er klappað á kamersdyrnar; það var geingið í þær út úr bæardyrunum. Prófastskonan ætlar til dyranna, en prófastur segist skuli fara sjálfur til dyra, því það muni vera einhver, sem vilji finna sig. Síðan lýkur hann upp, og stendur þar þá í gáttinni stúlka lítil, öll grátbólgin, og heilsar uppá prófastinn með nafni. Hann tekur kveðju hennar, og segist ekki þekkja hana, þó hún þekki sig. „Já," segir hún, „eg sá yður áðan

á gángi hèrna úti í hrauninu. Ekki vænti eg þèr hafið fundið nokkuð, sem eg tyndi þar af hestunum?“ „Hvað átti það so sem að vera?“ segir prófastur. „Það var te-kannan hennar húsmóður minnar; eg hafði heingt hana á miðklakkinn, en hún hefir hrokkið upp af honum, og get eg þó hvergi fundið hana, þar sem eg fór með hestina, en þori með eingu móti að segja henni húsmóður minni frá því, að eg hafi týnt henni.“ Prófastur tekur þá fingurgull undur fallegt af fíngri sèr, fær stúlkunni það og segir: „Fáðu henni húsmóður þinni þetta fyrir te-könnuna, því henni ætla eg að halda.“ Stúlkunni þókti óvenju vænt um, og þakkaði prófasti hlíðlega fyrir, og sagði þess hefði altènd verið von af honum, að hann hætti úr hágindum sínum. Eptir það kvaddi hún prófast og fór leiðar sinnar. En það er um te-könnuna að segja, að hún var leingi í ættum fósturbarna þeirra Jóhanns prófasts, og hefir húsfrú Guðríður Magnúsdóttir, sem leingi hjó í Oddgeirshólum, sèð könnuna, og veit það seinast til hennar, að hún var látin í steypu til koparsmiðs.

**Vinnumaðurinn og sæfólkið.** (Eptir sögn bóndamanns úr Biskupstúngum.) Einu sinni var ríkur bóndi á bæ. Voru þar húsakynni mikil og þrifleg, og baðstofan öll þiljuð í hólf og gólf. En sá annmarki var á bæ hans, að hver, sem heima var á jólanóttina, fannst dauður daginn eptir, og var því fremur ílt fólkshald á bænum; því einginn vildi vera heima þessa nótt, en þó hlaut einhver jafnan að gjöra það. Einu sinni sem optar rèð bóndi til sín nýan smala; því hann átti fjölda fjár, og þurfti duglegan mann til að gegna því. Bóndi sagði manninum frómlega frá annmarka þeim, sem var á bæ hans, og fyrr er getið. En maðurinn lèzt ekki hirða um slíkar hábiljur, og væri hann alt eins fús á, að fara til hans fyrir það. Fer nú maðurinn til bóndans, og líkar hvorum þeirra mjög vel við annan. Líður svo fram til jóla um veturinn. Býst þá bóndi og alt fólk hans til aptansaungs á aðfángadaginn, nema smalinn; hann hjó sig ekki til kirkjuferðar. Bóndi spyr, því hann fari ekki að búa sig. Vinnumaður segist ætla að vera heima; því það sè ófært, að yfirgefa bæinn mannlausan, og láta skepnurnar standa svo leingi málþola. Bóndi bað hann, að skeyta ekki um það; segist hafa sagt honum, að eingum manni hlöðvaðist þar heima að vera á jólanóttina; því hvert kvikindi, sem þá sè inni í bænum, sè drepið, og vilji hann fyrir eingan mun eiga það á hættu. Smalinn lèt sem þetta mundi vera hègilja ein, og sagðist vilja reyna. Þegar hóndi gat eingu við hann ráðið um þetta, fór hann burtu með fólkinu, en vinnumaðurinn varð einn eptir heima. Þegar smalinn var nú einn orðinn um kvöldið, fór hann að hugsa um áform sitt með sjálfum sèr, og að ekki mundi hèr alt með feldi, svo að víst myndi sèr betra að vera við öllu búinn. Kveykir hann nú ljós í baðstofunni, svo þar er vel bjart. Að því búnu fer hann að leita sèr að stað að vera á. Losar hann þá þiljur tvær

við gaflhlað baðstofunnar, smýgur þar inn fyrir, og lætur svo þiljurnar aptur á sinn stað, svo ekki bar á nývirkinu. Stóð hann þarna á milli þils og veggjar, en um rifu á þilinu gat hann sèð fram um alla baðstofuna. En hundur hans lá undir einu rúminu í baðstofunni.

Nokkru eptir að vinnumaðurinn var búinn að koma sèr fyrir, sèr hann, að tveir menn ókunnugir, og heldur ófrýnilegir, komu inn í baðstofuna. Skimuðu þeir um alt. Þá segir annar: „Mannaþefur, mannaþefur." Hinn svarar: „Nei, hèr er einginn maður." Taka þeir þá ljós, og lýsa allstaðar hátt og lágt um baðstofuna, og finna loksins hundinn undir rúminu. Taka þeir hann, snúa hann úr hálsliðnum, og snara honum svo fram úr baðstofunni. Sèr þá vinnumaður, að ekki mundi sèr hafa tjáð að vera á færi þessara karla, og hrósaði nú happi með sjálfum sèr, að vera þar sem hann var. Eptir þetta fyltist nú baðstofan með fólk. Setti það upp borð og breiddi á dúka. Allan borðbúnað hafði það úr silfri, diska, spæni og hnífa. Síðan bar það mat á borð, og settist þar að. Hafði fólk þetta glaum mikinn og gleði, og var þarna að eta, drekka og dansa alla nóttina. En tveir voru settir til þess, að vera á verði, og áttu þeir að hafa gát á, og segja til, ef nokkur maður væri á ferð úti, og hve nær dagur rynni upp. Fóru þeir út þrisvar um nóttina, og sögðust aldrei sjá neinn á ferð, og ekki væri enn kominn dagur. En þegar vinnumaðurinn hèlt, að komið væri í dögun eptir tímaleingdinni, greip hann báðar lausu þiljurnar, stökk fram á gólfið með allramesta æði, skeldi saman þiljunum, og öskraði upp af öllum mætti: „Dagur, dagur." Varð þá ókunnuga fólkinu svo bilt við, að það ruddist út hvað um annað þvert, og skildi alt sitt dót eptir, borðin, borðbúnaðinn, og fötin, sem það hafði farið úr um nóttina til að vera lèttara á sèr við dansinn. Meiddist sumt fólkið, en sumt tróðst undir; en vinnumaðurinn elti það, og var alt af að skella saman þiljunum og orga: „Dagur, dagur," þángað til það kom að vatni einu skamt frá bænum; þar steypti það sèr alt saman í, og sá hann þá, að þetta var sæfólk, eða vatnabúar. Eptir það sneri vinnumaðurinn heim, dró út þá dauðu, og drap þá hálfdauðu, og brendi síðan líkin. Ræsti hann síðan til í bænum, tók allan borðbúnaðinn, fötin og gripina og geymdi. Sýndi hann bónda alt þetta, þegar hann kom heim, og sagði honum upp alla sögu, hvernig farið hafði. Þókti bónda hann hafa mikill lánsmaður verið, að svo fór, sem fór. Tók vinnumaður helmíng af öllu, sem sæfólkið hafði skilið eptir, en fèkk bónda hinn helmínginn, og var það mikið fè. Dvaldi vinnumaðurinn enn nokkur ár hjá bónda, og græddi á tá og fíngri, og varð mesti maður, en aldrei bar á neinum kynjum framar á jólanóttina á bæ þessum.

**Jólanóttin.** (Eptir handriti Ólafs Sveinssonar í Purkey.) Mèr hefir verið sagt frá því, að svo hafi viljað til á bæ einum, að sá kvennmaður, er var látin vera heima á jólanóttina, hafi verið vitstola orðin, þá fólkið kom heim

um morguninn; því þá var siður að embættað var á jólanóttina, og allir fóru til tíða úngir og gamlir, nema kvennmaður einn, sem skyldi hafa gát á öllu á heimilinu. Svo fór nú fram nokkrar jólanætur á þeim bæ, að kvennmaðurinn, er heima var, var vitskert orðin um morguninn, en ekki mátti af vana bregða, og urðu nú fáar til að verða heima; varð þó svo að vera, að ein hlaut að gjöra það. Nú hafði um vor eitt verið tekin vinnnkona, og barst nú að henni að vera heima hina fyrstu jólanótt, er hún var þar. Hún vissi, hvernig farið hafði fyrir hinum, er heima höfðu verið áður.

Þegar fólkið var komið á stað, kveykir hún ljósin, og setur hèr og hvar um bæinn; síðan sest hún á rúm sitt og fer að lesa í bók. Stúlkan var vel að sèr og guðhrædd: Þegar hún hafði setið litla stund, kemur í bæinn margt fólk; voru það karlmenn kvennmenn og börn. Tók það nú alt til að dansa með ymsum dansleikjum; það talaði til stúlkunnar, og biður hana að koma í hópinn og dansa með sèr, en hún þegir, situr kyr og les í bókinni. Það biður hana að koma, og býður henni hitt og annað til þess, að koma. En hún svarar eingu, og situr kyr, sem áður. Þetta gekk einatt, að það var að dansa og biðja hana að koma til sín. En það tjáði ekki; hún sat kyr, þótt það bydi henni stórgjafir; gekk þetta alla nóttina; en þegar komið var að degi, fór það í burt, en heimafólkið kom, og bjóst það við, að hún mundi vera orðin trylt eins og hinar. En þegar það kom, sá það hana vera eins og hún var þá það skildist við hana Spurði það hana að, hvort ekki hefði neitt fyrir hana borið, og sagði hún þá frá, hvernig til hefði geingið um nóttina; hún sagðist og hafa vitað það, að hefði hún farið á dansinn með því, þá mundi hún hafa orðið, sem hinar, er heima höfðu áður verið. Var hún síðan látin vera heima hverja jólanótt, á meðan hún var þar, og ávalt hafði sama geingið.

**Álfarnir og Helga bóndadóttir.** (Eptir sögu bóndamanns austan úr Hreppum.) Einn sinni voru ríkis-hjón á bæ einum í Gnúpverjahrepp austur. Þau áttu tvær dætur, sem nefndar eru, og var eldri dóttirin í allramesta uppáhaldi, en hin var höfð út undan; hún hèt Helga. Sá var annmarki á bænum, að jafnan fannst sá dauður á jólaðaginn, sem bæarins átti að gæta á jólanóttina, svo einginn vildi þá vera heima. Einu sinni sem optar fór fólkið alt til tíða af bænum. Fór það í bítið á aðfángadagskvöldið til þess að ná í aptansaunginn, eins og þá var siður til, og ætlaði að koma heim aptur á jóladaginn eptir messu. Skipuðu hjónin nú Helgu að vera heima til þess að mjalta kýrnar, og gæta peníngsins, og til að sjóða hángikjötið til jólanna. Sögðu þau, að það væri þá einginn skaði, þó hún hrykki upp af, ef svo vildi að bera. Að því búnu fór kirkjufólkið, og var Helga alein heima. Gegndi hún þá fyrst peníngnum og mjólkaði kýrnar á aðfángadagsmorguninn. Því næst sópaði hún allan bæinn rækilega, og fór að því búnu að sjóða jólakjötið. Þegar

hún var lángt komin að sjóða, sèr hún hvar hálfstálpað barn kemur inn í eldhúsið með nóann sinn í hendinni. Barnið heilsar henni, og því tekur hún vel. Síðan biður barnið Helgu að gefa sèr ögn af keti og dálítið af floti í nóann sinn, og rèttir henni hann um leið. Helga gjörir það, og hafði þó móðir hennar streingilega bannað henni, að eta eða gefa nokkra ögn af ketinu eða flotinu, áður hún fór burtu um daginn. Þegar Helga var búin að gefa barninu, kvaddi það hana og vappaði út aptur með nóann. Leið nú svo dagurinn og lauk Helga af öllum útiverkum um kvöldið. Að því búnu kveykti hún sèr ljós í baðstofunni, tók af sèr skóna og settist upp í rúmið foreldranna sinna og fór að lesa í bók.

Þegar lítil stund var liðin, heyrir hún hávaða mikinn úti fyrir og mannamál, og verður þess brátt vör að fjölgar í bænum. Kemur nú inn allramesti sægur af ókunnugu fólki; fyllist baðstofan af gestum þessum og rúmin öll, svo Helga komst varla fyrir, fyrir þreyngslum, og þess varð hún áskynja, að eins var fult frammi í bænum, og í öllum bæarhúsunum. Þegar fólk þetta var búið að koma sèr fyrir, fór það alt að skemta sèr með allskonar leikaraskap og gleði. Ekki lagði það neitt til Helgu, heldur en það sæi hana ekki, eða hún væri eingin til. Ekki skipti hún sèr heldur neitt af gestunum, og var alt af að lesa í bókinni sinni. Þegar Helga hèlt, að viðlíka vaka væri komin og vant var, vildi hún fara út að mjólka kýrnar; því þar var siður að mjólka eptir vöku, eins og víða er gjört. En hún gat ekki snúið sèr við fyrir þreyngslum. Einn maður var í baðstofunni miklu stærri en allir aðrir; hann var roskinlegur og hafði mikið skegg. Þessi maður kallar nú upp, og biður ókunnuga fólkið að hliðra til, lofa Helgu að ná skónum sínum, og gefa henni rúm til að gánga um baðstofuna og bæinn. Fólkið gjörir það. Fer þá Helga út í myrkrinu; því hún skildi ljósið eptir hjá fólkinu. Þegar hún er komin út í fjósið og farin að mjólka kýrnar, heyrir hún, að þar kemur einhver. Sá heilsar henni; hún tekur því vel. Sá sem inn kom biður hana þá, að lofa sèr að hvíla hjá henni uppi í moðbásnum. En Helga þverneitar því. Ítrekaði hann bæn sína nokkrum sinnum, en hún neitar því alt af. Fer hann burtu við svo búið, en Helga heldur áfram að mjólka. Skömmu eptir heyrir hún að geingið er inn í fjósið að nýu. Er henni enn heilsað, og heyrir hún, að það er kvennmaður. Hún tekur kveðjunni vel. Hin aðkomna þakkar þá Helgu alúðlega fyrir barnið sitt, og fyrir það, að hún hafi ekki orðið við bón mannsins síns í fjósinu. Og um leið rèttir hún að henni fataböggul, sem hún biður hana eiga fyrir hvorntveggja þenna greiða, sem hún hafi sýnt sèr. „Ætla eg svo til,“ segir aðkomna konan, „að í böggli þessum sèu föt handa þèr, sem þú verðir sæmd af að bera á þínum heiðursdegi, og er' þar í belti, sem ekki mun verða þèr þá til minkunar. En þú munt verða gæfukona,“ segir hún, „og eignast biskup fyrir mann. Skaltu aldrei farga fötum þessum, og ekki bera þau fyr en þú giptist.“

Helga tekur við bögglinum, og þakkar fyrir gjöfina. Geingur nú konan út, og Helga fer inn, þegar hún er búin í fjósinu. Amaðist einginn við henni, heldur gaf fólkið henni gángrúm í bænum. Settist hún upp í rúmið aptur, og fór að lesa í bókinni sinni. Undir daginn fór fólkið að smáfara burtu, og með degi var það alt farið, og lèt eins og það hvorki sæi Helgu nè heyrði, og eins gjörði hún við það. Þegar hún var ein orðin, fór hún að skoða í böggulinn, og sá hún að álfkonan hafði gefið sèr allramestu dýrindisföt, en þó bar beltið lángt af öllu öðru. Geymdi hún nú böggulinn vandlega.

Helga lauk því næst af öllum morgungegníngum á jóladaginn, og var búin að öllu, þegar fólkið kom frá kirkjunni. „Það lá altènd að, að hún mundi lifa, af því einginn söknuður var henni, þó hún hefði farið,“ sögðu foreldrarnir, þegar þau komu heim og sáu, að Helga var heil á húfi. Var nú Helga spurð spjörunum úr, hvað fyrir hana hefði borið um nóttina. En hún sagði undan og ofan af af því. Þó sýndi hún foreldrum sínum og fólkinu öllu fötin, sem álfkonan hafði gefið henni. Dáðust allir að fötunum, en einkum þó beltinu, og vildi nú bæði móðir hennar og systir taka þetta af henni; því þeim þókti henni ekki hæfa slíkt skraut. En Helga lèt ekki klæðin, heldur geymdi þau vandlega niður í kistu, sem hún átti.

Nú leið og beið, og bar ekkert til tíðinda, þángað til næstu jól komu. Þá vildu þær vera heima, móðir Helgu og systir, til þess að verða fyrir gjöfum álfafólksins, ef það kynni að koma. Og það varð út úr á endanum, að hússmóðirin sjálf varð heima, en hitt fólkið fór alt til kirkjunnar. Er ekki sagt frá aðgjörðum húsfreyu, annað en það, að á meðan hún var að sjóða jólakjötið, kom dálítið stálpað barn til hennar inn í eldhúsið, og hèlt á nóanum sínum í hendinni. Barnið heilsaði konunni, og bað hana gefa sèr dálítinn kjötbita og ögn af floti í nóann sinn. Konan brást illa við, og aftók með öllu að gefa því neitt; „því eg veit ekki hvað miklu ríkari þeir kunna að vera en eg, sem að þèr standa,“ segir hún. Barnið ítrekaði bænina, en konan varð þá svo æf, að hún barði það frá sèr, og sló á handlegg barnsins, sem það rètti nóann fram með, svo handleggurinn brotnaði, en nóinn hraut ofan á gólfið. Barnið fór þá að gráta, tók nóann sinn upp með hinni hendinni, og gekk burtu skælandi. Segir ekki meira af konukindinni, eða aðförum hennar. En þegar fólkið kom heim á jóladaginn, lá konan á gólfinu, beinbrotin, barin og blóðug, og að eins með svo miklu lífi, að hún gat sagt frá komu barnsins og viðtökum sínum við því, og dó síðan. En öllu var umturnað innanbæar, brotið alt og bramlað; maturinn lá til og frá, og allur ónýtur. En svo brá þó við, að aldrei varð neinn neins var á bænum um nokkur jól eptir þetta.

En það er frá Helgu að segja, að hún var enn nokkur ár hjá föður sínum, og fór síðan frá honum í Skálholt. Þar giptist hún síðan biskupinum, þó hèr sè ekki sagt frá, hver þá var biskup í Skálholti. Á sínum heiðurs-

degi var hún í klæðunum, sem álfkonan gaf henni forðum, og dáðust allir að þeim, en þó um fram alt beltinu; því slíka gersemi þóktist einginn fyrri sèð hafa. Varð Helga hin mesta lánskona, og lifði bæði leingi og vel. Og kann eg nú ekki þessa sögu leingri.

**Álfadans á nýársnótt.** Tvo bræður greindi á um það, hvort huldnfólk væri til. Annar hèlt því fast fram, að það væri; en hinn neitaði því þverlega. Fór þessu svo fram um hríð, þángað til sá, er neitaði tilveru huldufólks, reiddist, kvaðst skyldi burt fara og ekki aptur koma, fyrr en hann væri orðinn þess vísari, hvort huldumenn væri til, eða ekki. Síðan fór hann leiðar sinnar um fjöll og firnindi, hóla og dali, og varð einkis vísari. Ekki er sagt af ferðum hans, fyrr en hann kom á gamlársdagskvöld á bæ einu, og var þar fólk alt dapurt mjög. Ferðamaður var málhreifur og spurði, hvað mönnum stæði þar svo mjög fyrir gleði. Var honum þá sögð orsökin, að einginn vildi verða eptir og gæta bæarins, meðan heimamenn færi til tíða; því þar hefði nú í lánga tíma horfið gæzlumaður hverja nýársnótt, og vildi því einginn eptir verða til bæargeymslu; því öllum þækti þeim sèr bani búinn, sem til þess yrðu. Komumaður bað heimamenn vera ókvíðna um slíka hègilju, og bauðst að gæta bæarins. Við það lètti öllum um hjarta, en óttuðust þó, hversu honum mundi reiða af. Þegar heimamenn voru farnir til tíða, tók hann sig til og nær fjöl úr þilinu fyrir ofan fremsta rúmið í baðstofunni, og fer þar inn milli þils og veggjar, hleypti síðan þiljunni að mestu leyti fyrir aptur, en lèt vera litla rifu á fellíngunni, svo að hann gat sèð um alla baðstofuna. En hundurinn, sem með honum var, lá á pallinum. Þegar hann var búinn að koma sèr þannig fyrir fyrir lítilli stundu, heyrði hann mannamál og traðk úti, og skömmu síðar heyrir hann, að geingið er inn í baðstofuna og er þar komið margt manna. Hann sèr, að hundurinn er tekinn, og sleingt niður við, svo að hvert bein brotnaði í honum; því næst heyrir hann, að komumenn töluðu sín á milli, að mannaþefur væri í bænum; en þó sögðu aðrir, að það væri ekki kyn, þar sem heimamenn væru nýfarnir til tíða. Þegar gestir þessir höfðu umþóttað sig, sá gæzlumaður, að þeir settu borð í baðstofunni og breiddu þar á gullofinn dúk, mesta gersemi, og var allur borðbúnaður þeirra að því skapi, skálar og diskar, ker og knífar, alt var af silfri. Síðan settust þeir að snæðíngi og fór þar alt siðlátlega fram. Gestir þessir lètu dreing einn gæta dyra, og hvenær dagur ljómaði, og var hann ýmist úti eða inni. Hinn mennski maður tók eptir því, að í hvert sinn, sem hann kom inn, var hann spurður, hvað tímanum liði; en hann svaraði jafnan, að lángt væri til dags. Eptir þetta fór gæzlumaður smátt og smátt að rífa úr gættinni á baðstofunni, svo að hann kæmist fljótt út milli þils og veggjar, ef á lægi. En er menn þessir voru mettir, sá hann, að maður og kona voru leidd fram, síðan sá hann hinn þriðja mann gánga

að þeim og virtist honum það mundi prestur vera. Síðan var hafinn saungur og súngnir hinir sömu sálmar, sem vant var að sýngja við hjónavígslur, og að öllu eins farið, og vandi var hjá velkristnum mönnum. En þegar hjónavígslunni var lokið. var tekið til að dansa, og hèlzt sú gleði um stund. Þegar dansað hafði verið um hríð, kom dyravörður huldumanna inn, og var hann sem fyrri spurður, hversu lángt væri eptir nætur, og kvað hann enn lifa sjöttúng. Í því gall gæzlumaður við, sem hafði laumast úr gættinni og stóð að baki dyravarðar, og mælti: „Lýgur þú það; því nú er þegar dagur á miðju lopti.“ Við þetta brá huldumönnum svo, er að dansinum voru, að þeir drápu þegar dyravörð sinn; en á meðan hljóp gæzlumaður aptur á milli þils og veggjar. Þegar huldumenn höfðu drepið dyravörðinn, hlupu þeir út, hver sem fyrstur gat, eins og lömb úr stíu og skildu alt sitt eptir. Þegar gæzlumaður sá það, veitti hann þeim eptirför áleingdar, og sá það síðast til þeirra, að þeir steyptu sèr í vatn eitt, er var kippkorn frá bænum. Snèri hann við það heimleiðis og tók saman alt það, er huldufólkið hafði eptirskilið, vistaleifar og borðbúnað hinn dýra. Skömmu síðar komu heimamenn frá tíðum, fögnuðu þeir gæzlumanni vel og spurðu hann, hvort hann hefði einkis vísari orðið. Hann kvað lítið mark hafa verið að því og sagði þeim upp alla sögu. Þóktust heimamenn þá sjá í hendi, að hinir fyrri gæzlumenn hefðu látið sjá sig, og það mundi hafa orðið þeim að fjörlesti, viðlíka og hundinum í þetta sinn. Heimamenn þökkuðu gæzlumanni framgaungu sína með mörgum fögrum orðum, og gáfu honum alt það, er huldumennirnir höfðu eptir skilið. og hann mátti með komast. Að því búnu hèlt hann heimleiðis, og hitti bróður sinn. Sagði hann honum upp alla þessa sögu og það með, að hèðanaf skyldi hann aldrei synja fyrir það, að huldufólk væri til. Seinna tók hann við búi eptir foreldra sína, kvæntist og varð hinn mesti auðnumaður alla æfi. Þókti hann nefndarmaður í þeirri sveit, ötull og úrræðagóður í öllum vandræðum. En það er af bæ þeim að segja, er hann gætti forðum, að þar hvarf aldrei maður síðan nokkra nýársnótt.

**Systurnar og álfafólkið.** (Vestfirzk sögn.) Einn sinni voru 2 systur frumvaxta hjá foreldrum sínum, er höfðu aðra þeirra að olbogabarni. Einn sinni um vetrinn bar svo við, að alt fólkið af bænum ætlaði til aptansaungs, og þar á meðal lángaði bóndadótturina, sem út undan var höfð, mjög til að fara En sökum þess að einhver varð að vera eptir heima, þá var hún látin sitja kyr, þótt henni væri það nauðugt. Og er alt fólkið var farið að heiman, tók hún til að hreinsa bæinn bæði uppi og niðri. og setti ljós hvervetna. En er hún hafði lokið þeim starfa, bauð hún heim huldufólki með þeim hætti, sem tíðkaðist, og gekk í kríng um allan bæinn með hinum tíðkanlega formála („Komi þeir, sem koma vilja,“ o. s. fr.). Síðan gekk hún inn á lopt og fór að lesa í guðsorðabók, og leit aldrei

upp úr henni, fyrr en dagur rann. En jafnskjótt og hún var sezt, kom inn í húsið fjöldi álfafólks, og var það alt búið gulli og skrautklæðum. Raðaði það um gólfið allskonar gersemum og bauð bóndadóttur; fór það og að stíga dans, og bauð henni að koma í dansinn, en hún sinti því ei, og þessu atferli hèlt huldufólkið alt til dags. En er dagur rann, leit bóndadóttir út í gluggann og mælti: „Guði sè lof, nú er kominn dagur.“ Og er huldufólkið heyrði guð nefndan, þaut það burt og skildi eptir allar gersemarnar.

Þegar fólkið kom heim og systir bóndadóttur sá gersemar þær, er hún hafði eignazt, öfundaði hún hana og sagði, að systir sín skyldi ekki vera heima næsta ár, heldur hún sjálf. Nú kemur annað gamlaárskvöld og situr eptirlætisdóttirin heima; hlakkar hún mjög til komu álfafólksins, býður því heim og lýsti bæinn. Síðan kom huldufólkið, eins vel búið og fyrri, raðaði meiðmum á gólfið, fór að dansa, og bauð henni í dansinn, og það þá hún. En svo fór, að hún lærbrotnaði í dansinum og varð vitstola. En huldufólkið fór burtu með alla gripina.

**Krossgötur.** (Eptir sögn herra Jóns Sigurðssonar.) Sumir segja að Krossgötur se þar til d. á fjöllum eða hæðum sem sèr til fjögurra kirkna. Elsta trúin er sú að menn skuli liggia úti jólanótt, því þá er áraskipti, og enn í dag telja menn aldur sinn eptir jólanóttum og sá er t. d. kallaður 15 vetra sem hefir lifað 15 jólanætur. Síðar færðu menn ársbyrjunina á nýjársnótt.[1] Þegar menn sitja á krossgötum þá koma álfar úr öllum áttum og þyrpast að manni og biðja hann að koma með sèr en maður má eugu gegna, þá bera þeir að manni allskonar gersimar gull og silfur, klæði mat og drykk, en maður má ekkert þiggja. Þar koma álfakonur í líki móður og systur manns og biðja mann að koma og allra bragða er leitað. En þegar dagur rennur þá á maður að standa upp og segja: „guði sè lof, nú er dagur um alt lopt.“ Þá hverfa allir álfar, en allur þessi álfaauður verður eptir, og hann á þá maðurinn. — En svari maður eður þiggi boð álfa, þá er maður heillaður og verður vitstola og aldrei síðan mönnum sinnandi. Því varð manni sem Fúsi hèt og sat úti jólanótt, og stóðst lengi þangað til ein álfkona kom með stóra flotskildi og bauð honum að bíta í. Þá leit Fúsi við og sagði það sem síðan er að orðtæki haft: „sjaldan hefi eg flotinu neitað;“ beit hann þá bita sinn úr flotskildinum og trylldist og varð vitlaus.

**Álfarnir á nýársdags kvöld.** (Eptir handriti Ólafs Sveinssonar í Purkey.) Svo stóð á í Skógum nýársdags kvöld eitt, að seint var kveykt í gaungum eður dyrum; var það gamall vani, og helzt enn víða við, að ljós er látið lifa jóla- og nýársnótt niðri í bæium. Fólk var enn í fjósi á Skógum, því að kýr var að bera um dagsetursleytið, og þá kýrin var borin, var farið

1. Í Orkn. sögu er og sagt að Sveinn hafði útisetu jólanótt.

með kálfinn inn; en þegar komið var með kálfinn inn í bæinn, var sagt í dyrunum: „það er leiðinlegt, að hèr er kveykt svo seint fremur venju.“ Var þá þegar ljós kveykt, og látið lýsa um dyrnar og gaungin.

það var huldumaður, er þetta sagði; hann vildi ei láta af vana bregða, að lýst væri sèr og sínum þetta kveld, því að á því kveldi kemur huldufólk með gamanleiki og dans víða í bæi, þótt það sjáist ei nú á dögum. En áður bar það til á einstaka bæ, og ekki sízt á jólanóttina, þá fólk var við tíðir, sem nú er aflagt, og var þá optast gott veður þá nótt, eptir því, sem gamalt fólk sagði, er þá lifði, en nú opt stirt veður, fremur en þá var.

**Flutníngur álfa og helgihald.** (Eptir handriti Ólafs Sveinssonar í Purkey). 1819 var únglíngspiltur á Stóra-Akri[1] í Skagafirði, er Guðmundur hèt, og var kominn undir tvítugt; hann var smali; hann lèt út kindur fyrir dag morguninn eptir þrettánda; var þá gott veður. Rak hann kindurnar fram á dal, er á var heitt, þegar veður var bærilegt. þegar hann kom með kindurnar á dalinn, sá hann, hvar lest fór; í lestinni voru bæði karlmenn og kvennmenn; einnig voru þar börn, og sat kvennfólkið og börnin í kerrum, en mikið farteski var á hestunum. Guðmundi kom ekki til hugar annað, en að það væri hans kyns menn, þótt honum þækti það ólíklegt, að menn um þann tíma væru þar með flutníng á ferð, og svo það, að það sat á kerrum. Hann vildi finna fólkið, og hljóp frá kindunum; en það herti sig að komast undan út með klettum nokkrum. Komst hann þó á hlíð við það, en ei gat hann við það talað; því svo var lángt á milli; líka fór að koma í hann efi, hvað þetta væri. Nú kemur það að hömrum nokkrum; þar tekur það ofan. Sýnast honum þar opnar húsdyr og ljós inni brenna, og þó þrennar eða fernar dyr opnar; sèr hann að fólk þetta geingur þar að; kvennfólkið geingur inn og börnin, en karlmenn láta farteskið inn í hin húsin. Síðan heyrði hann hríngíngar og saung, en ekkert orð skildi hann; þegar hann kom að klettunum, voru þá líka aptur luktir klettarnir, en kerrurnar, sem honum sýndist kvennfólk og börn vera í, voru fyrir hans augum steinar. Sá hann nú hvaða fólk þetta var, og vildi nú halda þaðan sem hraðast. Seig þá að honum svefn svo dár, að hann gat ei geingið; honum fylgði og magnleysi, svo að hann lagði sig niður og sofnar; vaknar síðan aptur, og er þá kominn dagur. Hann geingur nú magnlítill upp undir klettana; verður hann þá enn að leggja sig hjá klettunum, og sofnar í stað, en vaknar síðan við, að honum fannst kalt vatn drjúpa á kinnvanga sèr. Var þá dagur kominn um alt lopt; hann fann litla vætuna, þá hann strauk um vangann, en þá var hann búinn að fá megn sitt og afl, en var þó nokkuð ringlaður; komst hann þó til kinda sinna, er allar voru í hóp í dalnum. Rak hann síðan kindurnar

1. þessi bær er venjulegast nefndur Stóru-Akrar.

heim um kveldið, og lætur þær inn í húsin mjög óreglulega; fer hann svo heim. Þókti fólki hann mjög eyðilegur í nokkurn tíma þar á eptir, en það fór þó smásaman af, og bar svo ei meira á honum.

**Fardagar álfa.** (Eptir handriti Ólafs Sveinssonar í Purkey.) Það bar einu sinni við í Arnarbæli á nýárskvöld, að fjósmaður þar, Sigurður að nafni, vatnaði kúnum inn í Lindarsund, sem svo heitir; það er austnorðan til við bæarborgina; en þá hann fór með kyrnar inn eptir til vatnsins, sá hann, hvar kona sat hjá borginni, þar í brekkunni; hún var í hempu. og hafði kvennhött á höfðinu vafinn; þar sá hann og hjá henni bundna bagga; eigi talaði hann við hana neitt, og hún eigi heldur við hann; hann þóktist vita, að hún væri huldnkona, og mundi bíða þar manna sinna og hesta til burtfærslu. En þá hann kom með kýrnar frá vatninu, var konan á burtu og baggarnir, svo að hann sá hana eigi optar, eða það hefir orðið hulið fyrir augum hans. Fardagar fólks þessa eru um nýár á veturna.

**Flutningurinn.** (Austan úr Mýrdal.) Á ofanverðri 18. öld bjó í Hvammi í Mýrdal bóndi sá, er Jón hèt. Hann átti mörg börn og var þá gamall, er saga þessi gjörðist; var hann þá hjá einum syni sínum og kona hans með honum. Í landnorður frá Hvammabæunum er gil, bæði lángt og djúpt, er Hvammsgil heitir. En austur frá Hvammi eru bæir 2, er Götur heita; er brúnin fyrir ofan þá alment kölluð í daglegu máli „Gatnabrún." Einn dag um hausttíma í góðu veðri bar svo við, þegar komið var kvöld og fólk ætlaði að fara að hátta, stóð fyrrtèður Jón í skemmudyrum; kom þá kona hans að honum og bað hann koma að hátta. Hann sinti því lítið, en horfði stöðugt austur að Götum, eða í þá átt og svo háttaði alt fólkið á bænum, en hann stóð þar sem hann var kominn í sömu sporum lángt fram á nótt. En að morgni sagði hann konu sinni, að þegar hann ætlaði að fara að hátta, varð honum litið austur að Götum; sá hann þá koma 2 menn ofan Gatnabrún, og sýndist honum þeir bera milli sín því líkast, sem skriðljós væri. Þeir stefndu inn í Hvammsgil. Síðan sá hann koma fólk í flokkum alt af fleira og fleira, bæði karlar og konur. Sumir leiddu börn, sumir báru byrðar stærri og smærri, og þar kom, að hann sá fluttan allskonar flutníng og að síðustu allskonar fènað. Alt þetta fór hina sömu leið, sem þeir 2 fyrstu. Jafnvel var því líkast, sem sumir hèldu á eldi eða ljósi undir hendinni. Þetta þókti bónda undarlegt og því beið hann, þar til alt þetta var að mestu, eða öllu hjá farið. En veturinn eptir þetta haust var orðlagður fyrir hörkur, storma og krassaveður, mest af útsuðri. Optar um haustið sást líkur flutníngur þessu, sem nú var frá sagt, en aldrei jafnmikið í senn. Og jafnvel sá þessi sami bóndi og enda fleiri um vorið, að líkur flutníngur hefði farið til baka hinn sama veg og var það því tilgáta sumra manna, að þessar verur, sem sáust, hafi vitað fyrir þennan illviðravetur og flutt sig því, máske úr Reynisfjalli inn í

áðurnefnt Hvammsgil og þókt þar skýlla. En hitt er víst, að tilburðurinn er sannur, þó enginn geti með vissu sagt, hvernig á honum stendur.

Af því menn virðast bæði að fornu og nýu hafa gjört sèr mjög líka hugmynd um álfa og dverga, eins og einnig um vonda álfa og helvízka púka, þykir rèttast að hnýta sögu þeirri, sem nú kemur, aptan í álfasögurnar, og það því fremur við þetta atriði, sem þar er getið samsætis um jólaleytið, enn þótt hún bendi, ef til vill, bæði á djöfullegt athæfi og dvergaæði,[1] þó dverga finnist mjög sjaldan getið á Íslandi.[2]

**Sagan af Steini Þrúðuvánga.** (Tekin eptir handriti herra A. Ólafssonar.) Fyrir austan var bær, sem hèt á Þrúðuvángi. Þar bjó sá bóndi, sem Steinn hèt. Kona hans hèt Guðrún, en börn hans Illugi og Sigríður. Steingrímur hèt sóknarprestur hans og bjó á Steingrímsstöðum. Enginn trúmaður þókti Steinn vera, enda var þetta mjög snemma í kristni hèr á landi, og loddi þá mörg forneskja við, þó lítið bæri á. Þá voru súngnar tíðir jólaaptan, sem leingi hèlzt við síðan. Guðrún, kona Steins, var guðhrædd kona; hún sókti vel kirkju, en bónda var lítt um það. Einn jólaaptan mæltist hún til að hann færi með sèr til tíða; því þá var veður dimt, en einginn annar fullorðinn karlmaður til samferðar. Hann tók því illa, en sagðist þó mundi fylgja henni á Steingrímsstaði, en ekki verða við tíðirnar. Þau fóru þá þrjú saman, Steinn og Guðrún, og Illugi sonur þeirra. Þegar þau voru komin að garði á Steingrímsstöðum, skildu þau; sneri Steinn heimleiðis, en þau hèldu áfram, mæðginin. Daginn eptir komu þau heim aptur, Guðrún og Illugi. Bóndi lá þá í rekkju, þegar þau komu. Guðrún laut ofan að honum, en hann hreifðist ekki. Aldrei var hann þessu vanur fyrr. Hún spurði, hvort honum væri ílt. „Lítið er um það,“ segir hann, „en ekki veit eg, hvort eg hefði svo fljótt aptur horfið í gærkvöldi, ef eg hefði þá vitað það, sem eg veit nú.“ Guðrúnu þókti þetta undarlegt, en fèkk þó ekki meira að vita um það í það sinn. Leið nú fram til næstu jóla svo ekki bar neitt til tíðinda. Þenna jólaaptan var hart veður og fjúk. Guðrún mælti þá við bónda sinn, að hann mundi fylgja sèr til kirkju. Hann gjörði það, en var þó fálátur mjög. Þegar þau voru komin til kirkjunnar, bað hann Illuga son sinn, að fara heim með sèr aptur. „Er það að sköpum, að þú lifir fleiri jól, en svo er nú, að eg mun ekki leingi lifa; máttu því hafa gagn af að sjá nokkuð, en eg eigi.“ Illugi fór nú heim aptur með föður sínum, og var þó hræddur. Þeir komu heim og að skemmu, sem stóð á hlaðinu. Steinn gekk undir eins inn í skemmuna, og Illugi á eptir honum. Þar biðu þeir litla stund. Þá sýndist Illuga stafninn fara undan skemmunni; sèr hann þá út og lítur

1. Sbr. Kristnisögu, 2. kap. og Þorvaldssögu víðförla, 2. kap. í Biskupasögum, I., 5. og 38—41. bls.

2. Sbr. þó Guðmundur Bergþórsson.

til austurs. Sèr hann þá, hvar koma tveir menn hvítklæddir, og bera kistu eina milli sín. Dúkur var yfir kistunni og sá ei í gegn um hann. Þeir koma nú inn í skemmuna og nema þar staðar; drífa þá að þeim andar margir úr öllum áttum. Spyrja þeir hverjir aðra tíðinda, og gekk það alla nóttina. Illugi heyrði, að þeir töluðu um góða menn og vonda og einkum börn. Þá nefndu þeir Stein föður hans, og lágu þeim vel orð til hans. Það fann Illugi á tali þeirra, að þeim geðjaðist bezt að illum mönnum og óguðræknum, en undu illa góðum siðum og guðlegum. Sögðust þeir á næstu jólum mundu bera Stein bónda burtu í kistu sinni. Illuga þókti standa kaldur gustur af gestum þessum, og þókti honum ill sýnin. En þegar minnst varði, varð gnýr mikill og brast þá á niðamyrkur, en áður hafði verið bjart vel. Þá varð Illuga bilt við, og fèll hann í óvit. Þegar hann raknaði við aptur, var hann í rúmi sínu, því faðir hans hafði borið hann þángað. Steinn dó litlu síðar, og þókti mönnum ekki alt skapfellilegt um hann.

Illugi sagði frá þessum atburði öllum og því, sem hann hafði heyrt og sèð í skemmunni. Könnuðust menn þá við anda þessa, að það eru verur þær, sem kallaðar eru jólasveinar. Gánga þeir um bygðina um jól öll og eru þá illir viðfángs, ránsamir og hrekkóttir, einkum við börn. Eru þeir því opt hafðir til að hræða börn með eins og Grýla. — Illugi lèt sèr sýnina að góðu verða, eins og faðir hans hafði ætlað til. Varð hann gamall maður, kirkjurækinn, og hèlt vel trú sína. Aldrei sá hann jólasveina hvorki fyrr nè síðar, og aldrei gjörðu þeir honum mein nè móður hans. Enda birtast þeir sjaldan, og eigi nema óguðlegum mönnum, og ílt er að komast í kistu jólasveina.

---

Að síðastu set eg hèr fáein ljóðmæli, sem lýsa betur en alt annað, sem eg hefi sèð, búníngi huldufólks. Eru fyrstu vísurnar þrjár skrifaðar upp vestur á Skarðsströnd 1858 af Sigurði málara Guðmundssyni.

1. Skónála-Bjarni í selinu svaf;
segja vil eg þèr nokkuð þar af:
kom til hans álfkona fögur og fríð,
sá hann einga vænni um sína lífstíð.

2. Á bláu var pilsi, en beltið var vænt,
bundið um ennið silkiband grænt,
skautafald háan, hvítan sem ull,
á hendinni bar hún þríbrotið gull.

3. Fæturnir voru rauðir, sem rós,
rètt voru lærin fögur, sem ljós;
hofmanna staðurinn hærður svo vel,
sem hnakki á sólþurrum kópsel.

Maður hèt Jóhann; hann bjó á Egilstöðum í Vopnafirði, og var kallaður hinn þýzki. Han var uppi á sama tíma, og Brynjólfur biskup í Skálholti. Frá því er sagt, að smalastúlka hans gekk einu sinni til sauða. Skarð er í fjallinu upp af bænum, sem kallað er Kvíslarskarð. Þángað gekk hún til sauðanna. En þegar hún kom heim, mælti hún þetta fram:

1. „Kom eg upp í Kvíslar-skarð
kátleg stúlkan fyrir mèr varð
fögur var hún og fríð að sjá
fallega leizt mèr hana á.
2. Blátt var pils á baugalín,
blóðrauð líka svuntan fín,
lifrauð treya, lindi grænn,
líka skautafadlur vænn.
3. Ekkert hafði eg af henni tal,
undir sat hún sínum sal;
opið stóð þar bergið blátt,
beint var það í hálfa gátt.
4. Kópur[1] aldrei kjapti hèlt,
kátlegt hafði urr og gelt;
sauðir höfðu sig af stað;
seimaskorðin gáði að.
5. Laukaskorðin leit þá við,
leingur hafði hún ei bið,
inn í steininn arka vann;
aptur luktist sjálfur hann."

Og enn eru þessar stökur hafðar eptir manni, sem átti að hafa sèð álfa og híbýli þeirra, og er þetta hvorttveggja tekið eptir blöðum frá Sigurði presti Gunnarssyni á Desjarmýri:

1. „Eitt sinn kom eg á Orrustuhól,
og var liðið degi;
lagði eg mig undir lítið ból,
lángt mèr þókti eigi.
2. Sá eg, hvar í gljúfrum grá
gluggur stóð á móti;
maður kom út í mötli blá
með miklu skúfaspjóti.
3. Að mèr kastar orðum hraður,
þá aðrir voru að snæða:
sofðu ei leingur, sæmdarmaður;
um svik er verið að ræða."

1. Hundsnafn.

## 2. GREIN.

### SÆBÚAR OG VATNA.

Álfar og sæbúar eða vatna eru náskyldir, eptir þeirri hugmynd, sem enn kemur fram í munnmælum vorum. Þess hefir þegar verið getið, að álfar rói til fiskjar og stundi veiðiskap bæði í sjó og vötnum,[1] og bendir til þess meðal annars, að menn kalla það álfavakir[2] á ísum, er loptið hefir haldist í meðan vötn leggja; segja menn, að álfar hafi vakað þar til að liggja á dorg eða veiða upp um silúng. En þótt nú vatnabúar sèu álfum svo nákomnir í sumu, eru þeir að öðru leyti svo sèrstaklegs eðlis, að betur sýnist fara á, að athuga þá sèr í lagi.

**a)** Tvenns konar sæbúar eru það, sem næst gánga álfum og er sagt, að þeir sèu í manns líki, er annað þeirra hafgýgur, haffrú, margýgur eða meyfiskur, er alt mun vera eitt, en hitt er marmennill, sem nú er alment nefndur marbendill. Margýgi hefir verið svo lýst, að hún hafi gulleitt hár og sè í mannslíki niður að beltisstað, en þar fyrir neðan sè hún fiskur, og hafi þar með sporð.[3] Stundum þykjast sjómenn sjá hana, eñ optast er sagt það hafi að borið norður við Grímsey. Hún þykir helzt gefa úngum mönnum auga, og sækir þá upp á skipin, ef þeim verður það að dotta; en Credo í Grallaranum gamla er góð vörn við slíku. Marbendillinn hefst við á mararbotni, en sèst aldrei ofan sjávar, nema þegar hann hefir verið dreginn, sem síðar skal getið. Af honum dregur marbendilsmíði[4] (millepora polymorpha) nafn; er það gulhvítur kalksteinn, allur hrufóttur og körtóttur utan, er skolar upp af mararbotni. Segja menn, að slíkt sèu smíðisgripir marbendla. Landnáma[5] og sagan af Hálfi ok Hálfsrekkum[6] sýna það bezt, að marbendlatrúin er ekki úng. Ekki allsjaldan hafa menn náð marbendlum, og að vísu optast dregið þá úr sjó lifandi, og hafa þeir þá stundum verið með aungla og net, en þó gánga sögur af því, að þeir hafi fundizt reknir af sjó dauðir eða komið innan úr hákarlsmaga.[7] Þegar svo ber við, að þeir eru dregnir lifandi, vilja þeir ávalt komast út aptur á sama svið, sem þeir eru dregnir á; fáorðir eru þeir og sinna lítt mönnum. Lítt kunnug er mönnum háttsemi marbendla, en það vita menn, að þeir eiga kýr góðar; eru þær allar sægráar að lit og hafa blöðru milli nasanna eða framan á grönunum, og verði hún spreingð, þá næst kýrin; annars eru sækýr óhemjandi Sækýr eru ágætar mjólkurkýr og góðar til undaneldis.

---

1. Sjá inngángin fyrir álfasögunum og Djúpa-tjörn í d.)
2. Eggert Olafsens og Bjarne Povelsens Reise igennem Island. Soröe 1772, 98. bls.
3. Sjá meir um hana í Konungsskuggsjá. Christjania 1848, 39. bls.
4. Sjá N. Mohr Forsög til en Islandsk Naturhistorie Kh. 1786. 141, 143 og 144. bls.
5. Landnáma (Khöfn 1843) II, 5. kap. 76—77. bls.
6. Fornaldarsögur II, 31—33. bls.
7. Mohr 16—17 bls. og Eggert Olafsens Reise 537—540. bls.

**Þá hló marbendill.** (Eptir „Tydfordryf“ Jóns Guðmundssonar lærða.) Marbendill er sjódvergur. Gamall málsháttur einn hèr í landi er, svo sem margur segir í dæmisögum: „Þá hló marbendill.“ En hvar af það er komið, hefir sagt verið, að bóndi nokkur dró þann sjódverg, sem sig nefndi marbendil, með stóru höfði og höndum síðum, en líkastur sel niður frá nafla. Hann vildi á eingum vísindum fræða bónda, því flutti hann hann nauðugan í land með sèr. Húsfrú bóndans, úng og lystug, kom til sjávar og fagnaði bónda, kyssandi og klappandi. Bóndi gladdist og lagði henni prís og lof, en sló sinn hund fyrir sèr, sem honum fagnaði með hústrúnni. Þá hló marbendill, er hann sá þetta. Bóndi spyr, því hann hló. Marbendill svaraði: „Að heimskunni.“ Sem bóndinu gekk heimleiðis frá sjónum, rasaði hann og datt um þúfu nokkra. Hann bölvaði þúfunni mikillega, og hvar fyrir hún hefði nokkurn tíma sköpuð verið, að standa í sínu landi.— Þá hló marbendill; því hann var í ferðinni nauðugur borinn, og sagði: „Misvitur er bóndi.“ Svo hèlt bóndi marbendil hjá sèr III nætur. Kaupmanna sveinar komu þar með varníng til sölu. Bóndi hafði aldrei feingið svo margsólaða og þykkva svarta skó, sem honum líkaði. En þessir kaupsveinar þóktust hafa þá beztu. Bóndi mátti velja af hundrað pörum, og sagði þá strax slítast og alla of þunna. — Þá hló marbendill og sagði: „Margur villist, þó vís þykist.“ Hverki fèkk bóndinn af marbendli með blíðu nè stríðu meiri fróðleik, en nú var greint, utan með þeim skilmála, að bóndi skyldi flytja hann út aptur, rètt á það sama mið, sem hann var uppdreginn, og skyldi húka á árarblaði bónda, þá skyldi hann úrleysa öllum hans spurníngum, en með eingum kosti ellegar. Bóndi gjörði og svo eptir III nætur. Og sem hann var kominn á árarblaðið, spurði bóndi, hvern tilbúníng fiskimenn skyldi hafa, ef þeir vildu fisknir vera. Marbendill svaraði: „Tuggið járn og troðið skal til aungla hafa, og setja aunglasmiðju, þar sem heyra má til ár og lár,[1] og herða aungul í jóra mæði,[2] hafa gráan griðúngsvað og hráan hrossskins taum. Til beitu [skal] hafa fugls fóarn og flyðrubeitu, en mannskjöt í miðjan bug, og muntu feigur, ef þú fiskar ei. Fráleitur skal fiskimanns aungull.“

Þá spurði bóndi, að hverri heimsku hann hefði hlegið, þegar hann lofaði hústrú sína, en sló hundinn. Marbendill svaraði: „Að þinni heimsku, bóndi; því hundur þinn elskar þig eingu síður en líf sitt, en kona þín vill þig dauðan, og er hin mesta hóra. En þúfan, sem þú bölvaðir, er þín fèþúfa, og nógur ríkdómur undir; því varstu misvitur, bóndi, og því hló eg þar að. En svarta skórnir duga þèr þína æfi; því þú átt ekki marga daga eptir ólifað, þeir duga þèr þá III daga.“ Og í því steyptist hann af árarblaðinu, og skildi þar með þeim. En alt reyndist eptir því, sem marbendill hafði sagt.

1. Vatns og sjávar niður.
2. Hestlöðri, freiði [froðu] eður sveita.

Opt leysir marbendill aungla af fiskimönnum, þar sem hann býr nærri miðum, utan í kross liggi hnúturinn.

**Frá marbendli.** (Eptir húsfrú Guðnýu Einarsdóttur, nú á Akureyri.)

Mèr er í minni stundin,
þá marbendill hló;
blíð var baugahrundin,
[er bóndinn kom af sjó];
kysti hún laufalundinn
lýmskan undir bjó;
sinn saklausan hundinn
sverðabaldur sló.

Á Suðurnesjum er bæaþorp nokkurt, sem heitir í Vogum, en raunar heitir þorpið Kvíguvogar, og svo er það nefnt í Landnámu. Snemma bjó bóndi einn í Vogum, er sókti mjög sjó, enda er þar enn í dag eitthvert bezta útræði á Suðurlandi. Einhvern dag reri bóndi, sem optar, og er ekki í það sinn neitt sèrlegt að segja af fiskifángi hans. En frá því er sagt, að hann kom í drátt þúngan, og er hann hafði dregið hann undir borð, sá hann þar manns-líki, og innbyrti það. Það fann bóndi, að maður þessi var með lífi, og spurði hann, hvernig á honum stæði; en hann kvaðst vera marbendill af sjávarbotni. Bóndi spurði, hvað hann hefði verið að gjöra, þegar hann hefði ágoggazt. Marbendill svaraði: „Eg var að laga andskjólin fyrir eldhússtrompnum hennar móður minnar. En hleyptu mèr nú niður aptur.“ Bóndi kvað þess eingan kost að sinni, „og skaltu með mèr vera.“ Ekki töluðust þeir fleira við; enda varðist marbendill viðtals. Þegar bónda þókti tími til, fór hann í land, og hafði marbendil með sèr, og segir ekki af ferðum þeirra, fyrr en bóndi hafði búið um skip sitt, að hundur hans kom í móti honum, og flaðraði upp á hann. Bóndi brást illa við því, og sló hundinn. Þá hló marbendill hið fyrsta sinn. Hèlt bóndi þá áfram leingra og uppá túnið, og rasaði þar um þúfu eina, og blótaði henni; þá hló marbendill í annað sinn. Bóndi hèlt svo heim að bænum; kom þá kona hans út í móti honum, og fagnaði bónda blíðlega, og tók bóndinn vel blíðskap hennar. Þá hló marbendill hið þriðja sinn. Bóndi sagði þá við marbendil: „Nú hefir þú hlegið þrisvar sinnum, og er mèr forvitni á að vita, af hverju þú hlóst.“ „Ekki gjöri eg þess nokkurn kost,“ sagði marbendill, „nema þú lofir að flytja mig aptur á sama mið, er þú dróst mig á.“ Bóndi hèt honum því. Marbendill sagði: „Þá hló eg fyrst, er þú slóst hund(inn) þinn, er kom og fagnaði þèr af einlægni. En þá hló eg hið annað sinn, er þú rasaðir um þúfuna og bölvaðir henni; því þúfa sú er fèþúfa full af gullpeníngum. Og enn hló eg hið þriðja sinn, er þú tókst blíðlega fagurgala konu þinnar; því hún er þèr fláráð og ótrú; muntu nú efna öll orð þín við mig, og flytja mig á mið það, er þú dróst

mig á.“ Bóndi mælti: „Tvo af þeim hlutum, er þú sagðir mèr, má eg að vísu ekki reyna að sinni, hvort sannir eru, trygð hundsins og trúleik konu minnar; en gjöra skal eg raun á sannsögli þinni, hvort fè er fólgið í þúfunni, og ef svo reynist er meiri von, að hitt sè satt hvorttveggja, enda mun eg þá efna loforð mitt.“ Bóndi fór síðan til, og gróf upp þúfuna, og fann þar fè mikið, eins og marbendill hafði sagt. Að því búnu setti hann skip til sjávar, og flutti marbendil á sama mið, sem hann hafði dregið hann á; en áður en bóndi lèti hann fyrir borð síga, mælti marbendill: „Vel hefir þú nú gjört, bóndi, er þú skilar mèr móður minni heim aptur, og skal eg að vísu endurgjalda það, ef þú kant til að gæta og nota þèr. Vertu nú heill og sæll, bóndi.“ Síðan lèt bóndi hann niður síga og er marbendill nú úr sögunni.

Það bar til litlu eptir þetta, að bónda var sagt, að 7 kýr sægráar að lit væru komnar þar í túnjaðarinn við fjöruna. Bóndi brá við skjótt, og þreif spítukorn í hönd sèr, gekk svo þángað, sem kýrnar voru; en þær rásuðu mjög og voru óværar. Eptir því tók hann, að þær höfðu allar blöðru fyrir grönum. Það þóktist hann og skilja, að hann mundi af kúnum missa, nema hann feingi spreingt blöðrur þessar. Slær hann þá með kefli því, er hann hafði í hendi sèr framan á granirnar á einni kúnni, og gat náð henni síðan. En hinna misti hann, og stukku þær þegar í sjóinn. Þóktist hann þá skilja, að kýr þessar hefði marbendill sent sèr í þakkar skyni fyrir lausn sína. Þessi kýr hefir verið hinn mesti dánumanns gripur, sem á Ísland hefir komið; æxlaðist af henni mikið kúakyn, sem víða hefir dreifzt um land, og er alt grátt að lit, og kallað sækúakyn. En það er frá bónda að segja, að hann varð mesti auðnumaður alla æfi. Hann leingdi og nafn bygðar sinnar og kallaði af kúm þessum, er á land hans geingu, Kvíguvoga, er áður voru kallaðir Vogar.

**Kvígudalir á Látraströnd.** (Eptir sögn herra Arnl. Ólafssonar). Einu sinni reru fiskimenn frá Höfða í Höfðahverfi á Látraströnd og drógu kvennmann á aungli; þeir fluttu hana heim með sèr að Höfða. Hún var fálát mjög; sagðist eiga heima í sjónum, og hafa verið að skýla að eldhússtrompi móður sinnar þegar þeir drógu hana. Hún var alt af að biðja þá að flytja sig út aptur í sjóinn og hleypa sèr niður aptur á sama miði og þeir hefðu dregið sig. En þeir vildu ei, heldur að hún íleingdist í landi; því hún var vel að sèr um alla hluti. Hún var eitt ár í Höfða. Saumaði hún þá messuklæði þau, sem alt af eru í Laufási síðan. Þegar árið var liðið var hún flutt út aptur; því menn sáu, að hún mundi aldrei una í landi. Hèt hún því áður, að hún skyldi senda kýr á land upp. Sagði hún, að þegar kýrnar kæmu á land, skyldu menn vera viðbúnir að taka á móti þeim, og spreingja blöðru þá, sem væri á milli nasa þeirra, því ella mundu þær þegar hlaupa burt aptur í sjóinn. Síðan var stúlk-

unni slept niður aptur í sjóinn á sama miði og hún hafði verið upp dregin. Litlu síðar komu upp tólf kvígur úr sjónum og fóru heim að Höfða. Þær voru sægráar á lit. Heita þar nú Kvígudalir, sem þær komu upp. Sex af kúm þessum náðust, og þóktu mesta afbragð, en sex sluppu.

**Sækýr.** (Eptir Jón Bjarnason í Breiðuvík í Múlasýslu.) Í Breiðuvík við Borgarfjörð í Múlasýslu bjó maður, sem hèt Bjarni, er kallaður var Bjarni sterki. Eitt sumar bar svo við, að Bjarni var úti á túni í þykkmiklu veðri og þoku. Heyrir hann þá gripaferð út til sjávar fyrir neðan bæinn. Fer hann þá að horfa út í þokuna; sèr hann þá, að þar fer nautaflokkur, og ei færri en 18, og lítill piltur hleypur á eptir, en þar eptir fór kálfur. Bjarni hleypur á stað og í veg fyrir nautin; því hann þóktist vita, að það mundu vera sænaut. En þegar pilturinn sèr það, fer hann að herða á nautunum að hlaupa. Það sèr Bjarni, að uxi fer fyrst, og eru hríngar á hornum hans, og hríngladi í, þegar hann fór að hlaupa. Hlupu svo hver í kapp við aðra, Bjarni og pilturinn, þartil kom í sjávarmál. Var þá Bjarni kominn á milli kálfsins og nautanna, og fór pilturinn með nautaflokkinn í sjóinn, en Bjarni sneri móti kálfinum, og barði framan á nasir honum, svo blaðran sprakk, sem sagt er, að sè milli nasanna á sænautunum, og komst hún þá ekki í sjóinn, og leiddi Bjarni hana heim til sín. Þetta hafði verið kvíga, og varð tuttugu-marka kýr, og út af henni var hið bezta kúakyn í Breiðuvík leingi fram eptir öldunum.

Vatn það, sem er í Haukadal vestra, er djúpt mjög, og ætla menn, að það hafi undirgaung við sjóinn. Þykjast menn opt heyra dunur í vatninu, og opt brýtur ís af því í frosti. Einu sinni í fyrndinni er mælt, að bóndinn á Vatnshorni hafi fyrir dag á útliðandi sumri komið í fjós sitt. Lèt hann það standa opið, ef kýr kynnu að koma heim. En er hann kom í fjósið, var það fult af 18 kúm, sægrám. Voru þær alveg eins og aðrar kýr, nema hvað blaðra var á nösum þeirra. Kýrnar ruddust út, en bóndi greip barefli, og tókst honum að spreingja blöðruna á 9 kúm. Sluppu hinar í vatnið; en þær, sem blaðran var spreingd á, urðu eptir, því þær voru í eðli sínu orðnar að landkúm. Þær voru allar beztu kýr, og eru enn margar kýr af kyni þeirra um Dali.[1]

**b)** Sögur um **nykurinn**, sem og **nennir** er kallaður eða **vatnahestur**, eru þó enn ólíkari að eðli sínu álfasögum. Nykur er bæði í ám og stöðuvötnum og jafnvel á sjó. Hann er líkastur hesti að öllu skapnaðarlagi, optast grár að lit, en þó stundum brúnn og snúa allir hófarnir aptur, hófskeggin öfugt við það, sem er á öðrum hestum; þó er hann als ekki bundinn við þessi einkenni; hitt er honum eiginlegt, að hann breyti

1. Eptir handriti sèra Skúla Gíslasonar.

sèr snögglega á ýmsa vegu að eigin vild.[1] Þegar sprúngur koma í ísa á vetrardag, verða þar af dunur miklar; segja menn þá, að nykurinn hneggi. Hann kastar fyli, eins og hestar, en alt í vatni, en þó hefir það borið við, að hann hafi fyljað hross manna. Það er einkennilegt við alla þá hesta, sem undan nykur eru, að þeir leggjast niður, hvort þeim er riðið yfir vatnsfall, eða þeir bera bagga, sem vætir kvið þeirra, og hafa þeir þá náttúru af nykrinum; því hann heldur sig á landi við ár og vötn, sem ill eru yfirferðar; er hann þá spakur og tælir menn til að ríða sèr yfir. Þegar það hefir borið við, að menn hafi farið honum á bak, hleypur hann óðar út í vatnið og leggst þar og dregur þá með sèr, er á sitja, niður í vatnið. Ekki þolir nykur að heyra nafn sitt, eða nokkurt orð, er því líkist; þa tekur hann viðbragð og hleypur í vatnið. Trúin á nykra hefir verið um alt land, og því eru sögur um það nálega í hverju hèraði, að þeir eigi að vera í því eða því vatni eða þeirri og þeirri á, en trauðlega þó í þeim, sem straumharðar eru. Í Grímsey fyrir norðan er það trú, að nykur sè þar í sjónum, og að hann hneggi, er hann viti, að eyarskeggjar hafi sókt kú til meginlaudsins; verða þær hamslausar af hneggi hans, stökkva í sjóinn og farast svo. Til þessa bendir og það, að Grímseyíngar hafa ekki árætt fyrr en nú á seinni árum, að hafa kú í eynni.

Fyrir kemur það, að nykur er nefndur kumbur; hvort sem af því er dreginn Kumbravogur eða ekki, þá er þó af því dregin Kumburtjörn hjá Skarði undir Skarðsfjalli í Landsveit. Ýmist þar eða í öðru stærra stöðuvatni hjá Háholti á að vera nykur. Ur Kumburtjörn kom einu sinni graðhestur grár í aðra hesta og fyljaði meri eina; folaldið, sem hún átti, varð stór hestur og hinn mesti valsgripur, en aldrei mátti ríða honum mjög djúpt í vatni, því þá vildi hann leggjast niður. — Sú er saga til þess, að nykur sè ekki bundinn við hestlíki eittsamau, að úr þessu sama vatni kom einu sinni grá kýr stór og troðjúgra. En er átti að mjólka hana, var þess vart, að klaufirnar sneru öfugt á henni, eins og hófarnir á nykrinum; vildi þá einginn við hana eiga, enda varð kýrin þá svo ólm, að hún kramdi barn eitt fyrir bóndanum til dauðs, og hvarf síðan.[2]

Svo stóð á, að sóknarbændur áttu einu sinni að gjöra upp og hlaða kirkjugarðinn á Barði (aðrir segja á Holti) í Fljótum. Dag einn snemma voru þeir allir komnir þar til þess starfs nema karl einn; sá maðurinn þókti heldur grályndur og lítið við alþýðuskap. Leið svo fram á miðjan dag, að karlinn kom ekki, og þókti hinum, að honum seinka. Um miðdegis-bil sáu þeir, hvar karl kemur og teymir eptir sèr gráan hest. Þegar

1. Sjá Snorraeddu. Arna-Magnúsonar útgáf. II, 122. bls. og. I, 606. bls., Reykjavíkur útgáf. 123. bls. Eggert Olafsens Reise, 55—56. og 711—712. bls.

2. Tekið úr Dr. Maurers Isl. Volkss. 33. bls., og sagði honum söguna Oddr bóndi Jónsson. Slíkar sögur eru eingar nýsmíðar hèr á laudi, því Eyrbyggja-saga (Havniæ, 1787) hefir áþekka frásögn í 63. kap.

karl kemur, verður hann fyrir hrakyrðum hinna, er áður höfðu komið, að hann kæmi seint í samvinnuna. Karl lèt sèr ekki óðslega og spyr, hvað hann skuli vinna. Vill þá svo til að honum er skipað í flokk með þeim, er flytja áttu hleðslu í garðinn, torf og streingi, og lætur hann sèr það vel líka. Gráni var mjög úfinn og illur við aðra hesta, er voru í torflestinni, sleit sig aptan úr þeim, beit þá og barði, og þar kom, að einginn hesturinn hèlzt við fyrir honum. Þetta þókti flutníngsmönnum mein mikið, og kom þeim nú saman um, að leggja á hann þeim mun þýngra, en það kom alt fyrir ekki. Hann fór eins lèttilega með helmíngi þýngri klyfjar, eins og áður, og linti ekki fyrr látum, en hann hrakti úr höndum þeim alla aðra hestana, og varð hann þá einn eptir. Karl tók þá klárinn og lagði á hann eins mikið, og áður hafði verið lagt á alla hina hestana í hverri ferð, og fór með hann á milli, og var hann þá spakur. Þannig flutti hann á grána alla hleðsluna í garðinn. En er því var lokið, tekur hann beizlið fram af honum, undir kirkjugarðinum, þar sem hann var nýhlaðinn, og slær með beizlinu á lendar hestinum í því hann sleppir honum. Við það kunni gráni ekki, setur upp rassinn og koma báðar lappirnar á kirkjugarðinn, er hlaðinn hafði verið upp um daginn, og hrundi stórt skarð í hann, og hefir það aldrei staðið síðan, hvað opt sem það hefir verið hlaðið, uns farið var að hafa það fyrir gánghlið út í kirkjuna. En það sást síðast til ferða klársins, að hann brá á leik, er hann var laus og linti ekki, fyrr en hann komst í Holtsvatn; þóktust þá allir vita, að þetta hafði verið nykur.[1]

**Nennir.** (Tekið eptir sögn herra A. Ólafssonar.) Einu sinni var smalastúlka að leita að fè. Hún hafði geingið leingi og var orðin lúin mjög. Sèr hún þá hest gráan[2] og verður fegin; hnýtir upp í hann sokkabandinu sínu, leggur svuntuna sína á hann, leiðir hann að þúfu og ætlar á bak. En í því hún ætlar á bak segir hún: „Eg trúi eg nenni þá ekki á bak.“ Þá tekur hesturinn viðbragð mikið og stökk út á vatn eitt skamt þaðan og hvarf. Stúlkan sá nú hvers kyns var, að þetta var nykur. Því það er náttúra hans, að hann má eigi heyra nafn sitt, þá fer hann í vatn sitt, en hann heitir öðru nafni Nennir, og því fór hann, þegar stúlkan sagði nennir. Sama verður og, ef nykurinn heyrir sagt andskoti.

Einu sinni voru 3 eða 4 börn að leika sèr. Skamt frá bænum var stórt vatn og slèttar eyrar með vatninu. Börnin voru á eyrunum við vatnið. Þau sáu þar hest gráan og fóru að skoða hann. Fer þá eitt

1. Sagan er tekin eptir Sigurði málara Guðmundssyni Sbr. Dr. Maurers Isl. Volkss. 33. bls. Sbr. og Landnámu II, 10. kap. (Kh-útgáf 1843) 93—94. bls. og Snorra-eddu, 42. kap., í Reykjavíkur-útgáfunni. bls. 25—27.

2. Sumir segja brúnan. Þessi saga er mjög algeing og sögð um nykra í ýmsum vötnum.

barnið á bak og svo hvert af öðru, þángað til það elzta var eitt eptir. Þau báðu það að koma líka, því þau sögðu, að nógu væri lángur hryggurinn á klárnum, þó þau kæmu öll saman. Barnið vildi ekki fara og sagðist ekki nenna því. Tók þá hesturinn viðbragð og þaut út í vatnið með öll börnin hin á bakinu. Barnið sem eptir var, fór heim og sagði frá atburðinum. eins og hèr er nú sagt. Vissu menn að þetta hafði verið nykur, og hefir hann ekki sèzt síðan og ekki heldur börnin.

**c)** Þó nykrar sèu öllu líkari dýrum, en mannslíki, sem álfar birtast mönnum í, eru þó þeir vatnabúar, er skrímsli heita, enn fráleitari allri mannslikíng,[1] enda er opt ekki auðið, að gjöra þeirra nokkurn greinarmun og annara dýra, er ímyndun þjóðarinnar hefir fundið eitthvað yfirnáttúrlegt við, og því verður síðar nokkuð vikið á sum slík dýr. Með orðinu skrímsli (í fornmálinu skrímsl) tákna menn nú optast sèrhverja óákveðna ófreskju, er menn þykjast hafa sèð, eða heyrt um getið, og ef þeim er lýst, verður sjaldan ráðið af lýsíngunni, hvaða skepna það eigi helzt að vera; svo er lýsíngin skrímslisleg eða skrýpaleg. Bæði eru til sjóskrímsli og vatnaskrímsli, og þekki eg einga aðgreiníng þeirra. Vatnaskratti er á Suðurlandi og um Borgarfjörð alment nafn á ófreskjum þeim, sem annarstaðar eru kallaðar vatnaskrímsli. Þó er það stundum sama sem nykur, t. d. í gátunni:

„Þar reið maður þètta braut
þand' út kálfa báða
vatnaskratti og þjófaþraut,
þú skalt nafnið ráða.“[2]

Í Grímsey fyrir norðan fara margar sögur af sjóskrímsli. Þykjast menn þar hafa orðið þess varir, að það komi á land á náttarþeli, og sèð, að það veltist áfram eins og rokkhjól eða skerborð, og fundið slor eptir það, þarsem það hafi legið í grasinu. Aðrir ætla, að slík sjóskrímsli sèu hvalur sá, er skeljúngur heitir og sagt er að grandi skipum.[3] Í Þorskafirði vestra er og getið skrímslis eins, er sè hættulegt fyrir skip og leitist við, að hvolfa undir mönnunum. Það skrímsli hefir opt sèzt og lítur þá út eins og skip á hvolfi. Ekki eru skrímsli þessi síður í vötnum en í sjó, sem fyrr segir og þykjast menn hafa sèð eitt neðarlega í Þjórsá í hákalls líki eða skötulíki og annað til í sömu á alla götu upp hjá Sóleyarhöfða í

1. Ef nú sögur um þess konar skrimsli kynnu að þykja eiga litið skilt við álfasögur, er þess þó að geta, að eitthvað er líkt á komið með þessum sögum og sögunum um dverginn Andvara, er brást í geddu-líki, og Loka í laxalíki; sbr. Sigurðar-kviðu Fafnisbana II og Ægisdrekku.

2. Maðurinn hèt Nikulás; ætti þá vatnaskrimsli að vera nykur, en þjófa-þraut sjálfkenning um lás. Vísuna sagði húsfrú Hólmfriður Þorvaldsdóttir i Reykjavík.

3. Sjá Mohr, 15 bls. og Konungsskuggsjá 12. kap. 31. bls.

óbygðinni. Undir Eyafjöllum er vatnaskratti í skötulíki, þegar menn hafa komið auga á hann, og er það haft til sannindamerkis, að það sè skrímsli, en ekki venjuleg skata, að hún gángi aldrei upp í vötn. Þetta skrímsli er ílt viðureignar, og leitast við að draga menn og skepnur niður til sín í vatnið. Bæði í Skorradalsvatni og Hvítá í Borgarfirði eru skrímsli. Hafa menn stundum sèð það í vatninu marga daga í röð, t. d. á jólaföstunni 1858, og það alt fram yfir jól. Það eru ekki fleiri en 5 til 6 ár síðan, að seli fór að reka höfuðlausa upp úr Hvítá í Borgarfirði, alt upp hjá Þingnesi og Stafholtsey; 1858 voru þeir ekki færri en 9, sem rak þannig á sig komna, og var það mál manna, að skrímslið í ánni hefði bitið af þeim hausana.[1]

**Skrímslið í Vesturhópsvatni.** (Eptir handriti sèra Skúla Gíslasonar á Stóranúpi.) Á næstliðinni öld bjó maður sá í Bjarghúsum í Vesturhópi, er Kolbeinn hèt. Hann var snauður maður, en kom sèr alstaðar vel, og urðu því margir til að gjöra honum gott. Einn sinni gekk hann í góðu veðri og túnglsljósi yfir Vesturhópsvatn á ísi að Vatnsenda, til þess að fá nokkuð hjá bóndanum þar til jólanna. Var þetta á Þorláksmessu-aptan. Bóndi lèt hann hafa vænt sauðarkrof. Sneri Kolbeinn þá heimleiðis og bar krofið. Þegar hann var á miðju vatninu, heyrði hann dunur fyrir aptan sig; brast ísinn þar og kom upp dýr mikið áttfætt, líkast því í vexti og sköpulagi, sem tveir hestar væru fastir saman á rössunum, og sýndust tvö höfuð á því. Skrímslið veitti Kolbeini eptirför. Sá hann, að hann mundi ekki draga undan, svo hann lèt krofið laust og hljóp svo heim, sem mest mátti hann. Daginn eptir fór hann að vitja krofsins, en fann þá ekkert af því nema beintuggur. Leiddi hann nágranna sína að, og sýndi þeim; en svo var hann vel látinn, að þeir bættu honum skaðann.

**Naddi.** (Eptir Jón bónda Sigurðsson í Njarðvík í Múlasýslu.) Meðan þeir niðjar Bjarnar skafins voru uppi, lagðist af þjóðleið sú, er liggur milli Njarðvíkur og Borgarfjarðar, yfir Njarðvíkur-skriður, er svo eru nefndar; var það fyrir þá sök, að óvættur ein í mannslíki að ofan, en dýrslíki að neðan lagðist fyrir menn á veginum, og veitti mörgum bana, þegar fór að dimma nótt, svo ófært var um veginn að fara. Óvættur þessi hèlt sig í gili því, sem liggur Njarðvíkur megin við skriðurnar, og kallað er síðan Nadda-gil; því á kvöldin um haust og vetur heyrðist, eins og eitthvað væri að nadda og glamra á grjótinu heim að Njarðvík; fyrir þetta kölluðu menn óvætt þessa Nadda.

Það var eitthvert sinn um haust síðla, að Jón Bjarnarson kom seint um kvöld að Snotrunesi í Borgarfirði, og ætlaði í Njarðvík. En af því

1. Þessar sögur um skrímsli eru tekin eptir Dr. Maurers Isl. Volkss., 35. bls.

komið var að dagsetri, bað fólkið hann að gefa sig ekki í þá ófæru, að leggja svo seint í skriðurnar. En hann skeytti því alls ekki, kvað sig ekki mundi saka og ekkert mein að verða, og hèlt svo sína leið. En sem hann kom heim undir gilið, mætti hann óvættinni, og rèðst á hana. Varð þeirra aðgángur bæði harður og lángur. Barst leikur þessi alt á jaðar þann, sem heitir Krossjaðar; þar sagði Jón að óvættur þessi hefði slitið sig af sèr, og dragnað í sjóinn. Var þar síðan sett upp krossmark það, sem þar er enn, með þeirri áskript í latínu, „að vegfarendur skyldu framfallandi lesa þar faðir-vor,"[1] og hèlzt sá siður leingi fram eptir öldum.

Jón komst í Njarðvík þjakaður mjög, víða blár og marinn, lá rúmfastur í mánuð, og komst svo á fætur. Hann hèlt, að óvættur þessi hefði komið úr sjó, af því hann leitaði síðast til sjávar; en aldrei bar á honum eptir viðureign þeirra.

**Skrímslið í Brúnavík.** (Eptir handriti Jóns Bjarnasonar í Breiðuvík eystra.) Maður hèt Sveinn, og var Guðmundsson; hann bjó í Brúnavík við Borgarfjörð eystra. Hann var sjómaður mesti, og átti aflafaung mikil, og lèt því byggja skemmu stóra niður á sjávarbakka, og geymdi hann þar í skreið sína. Það bar til einn vetur um kvöldtíma,[2] að bóndi hafði ekki nóg fiskæti heima, og fór því ofan í skemmu eptir riklíngi, rafabelti og hákarli. En þegar hann ætlar út úr skemmunni aptur, sýndist honum eitthvað í mannslíki sitja í skemmudyrunum; talar hann þá til þess, og skipar því í burt. En það sat sem áður; greip hann þá hákarlasax, er þar var inni, og rak í vofuna. Henni brá lítt við, en sagði: „Drag út og stíng aptur." „Haf þú það, sem þú fèkkst," sagði bóndi. Skreiddist þá vofan út, og hèlt til sjávar. En bóndi gekk heim, og þegar hann kom í baðstofuna, sýndist fólki hann sviplegur. En morguninn eptir sagði hann frá atburði þessum. Var þá farið að leita að saxinu, og fannst það í sjávarbakkanum. Eptir þetta lagði bóndi af skemmuna, og hefir einginn bygt hana síðan, og sèst enn glögt til tóptarinnar.[3]

---

1. Krossjaðar heitir meljaðar í Njarðvikur-skriðum. Stendur neðantil í honum trèkross, rètt neðan við götuna, og eru skorin á krossinn þessi orð (vers):
Effigiem Christi, qui prodis, pronus honora.
Fyrir 14 árum (1846) var krossinn orðinn fúinn og fellilegur; því setti bóndinn Jón Sigurðsson í Njarðvík, fræðimaður og fornmenjavinur, annan nýjan með sömu gjörð, og hinn gamla, þar aptur. Eptir sèra Sigurði Gunnarssyni á Desjarmýri í Norðurmúlasýslu. I Olavii Oeconomiske Reise. Kh. 1780, 451. bls. stendur „transis," og lætur það, hvort sem er, nærri útleggingunni, sem að ofan er sett

2. Í handritinu stóð í sveigum: „sem menn kalla vökustaurskvöld."

3. Þó sá, sem skrásett hefir sögu þessa, hafi kallað hana „draugasögu," hefi eg bæði leyft mèr, að breyta þeirri fyrirsögn og að setja hana í flokk með sjóskrímslum, af því mèr finnst hún miklu fremur skrímslisleg, en draugaleg.

**Kort frá Möðruvöllum og sjóskrímslið.** Kort þessi, sem síðar verður getið, rèri einu sinni, sem optar, vetrarvertíð, og lá við í sjóbúð einni, sem fleiri lágu við, einhverstaðar suður með sjó. Fyrir búðinni var skrá, sem hvorki varð læst nè lokið upp nema með lykli. Eina nótt var það, er þeir höfðu lokað búðinni um kvöldið að innan, og allir voru sofnaðir, að Kort dreymir, að honum þykir einhver ófreskja koma inn í búðina, og taka í hendina á sèr. Þykist hann þá standa upp og fara með henni inn undir rúmið, og teymir skrimslið hann þar út í gegnum búðarvegginn; en það þókti Kort þraung leið. Eptir það leiðir skrímslið hann ofan í fjöru og fram að flæðarmáli; finnur hann þá, að það vill koma sèr í sjóinn, en þá þykist hann hamast í svefninum, eins og hann átti stundum vanda til, og tók þá ómjúkt á skrímslinu, og lauk svo með þeim, að Kort bar hærri hlutann, og kom því í sjóinn. Í því vaknaði hann; stóð hann þá niður við flæðarmál í nærfötunum einum, eins og hann hafði lagzt út af um kvöldið. Hugsaði hann þá fyrst, að hann hefði geingið þángað í svefni; en þegar hann kom heim að búðar-dyrunum og fann þær læstar, eins og geingið hafði verið frá þeim um kvöldið, svo hann komst ekki inn, fyrr en hann vakti lagsmenn sína, og þeir luku upp fyrir honum, fór hann að gruna, að einhver brögð hefðu önnur verið í tafli, en svefngánga ein, og að þetta hefði verið svo í raun og veru, sem fyrir hann hafði borið í svefninum.[1]

---

## 3. GREIN.

### TRÖLL.

Orðatiltækin tröll og tröllkona eru næsta yfirgripsmikil; því þau tákna allar þær verur, sem meiri eru en menn að einhverju, og sem eru meir eða minna illviljaðir, t. d. drauga og jafnvel galdramenn. Samt sem áður eru þessi orðatiltæki eiginlega höfð um þá tegund, sem hið risalega er einkennilegast við. Þó eru til fleri nöfn fyrir þá tegund, t. d. bergbúar, jötnar, þussar, risar, skessur, flögð, gýgjur o. s. frv. Þessi tegundarnöfn hafa rutt sèr svo til rúms, að sjaldan koma fyrir eiginnöfn trölla. — Mörg nöfn eru það, sem benda til trúarinnar á tröll, bæði hlutaheiti (t. d. jötnnuxi, þussaberg, þussaskegg, gýgjarpúss, tröllagrös, tröllaurt, surtarbrandur, surtarepli) og örnefni, (t. d.

---

1. Frá þessari sögu sagði Kort heitinn 2 eða 3 beztu vinum sínum, og fór leynt með, því hann var einginn skjalari; eptir samhljóða frásögn tveggja þessara vina Korts er sagan komin til mín ofan úr Kjós.

Surtshellir,[1] Trölladýngja, Tröllagata, Tröllaháls, Tröllakirkja,[2] Tröllaskeið, Tröllaskógur, Tröllatúnga.)

Í sögum þeim, sem enn eru til á Íslandi um tröll, er þeim að öllu eins lýst, og í hinum norrænu goðasögum. Bæði eru þau talin meiri og sterkari en menn optast, heimsk og hamslaus, gráðug og grimm; en þó er annað veifið sagt, að þau viti marga þá hluti, er menn vita ekki, sèu góðviljuð, dreinglynd, og trú sem gull. Við mótgjörðir reiðast þau illa, og leita að hefna sín grimmilega; á hinn bóginn þakka þau bæði og launa þegnar velgjörðir, og liðsinna opt mönnum að fyrra bragði. Mannætur er sagt þau sèu; en þó eru ekki fá dæmi þess, að tröll hafi leitað samfara við mennska menn og í því skyni numið til sín bæði menn og konur. Þó tröll sèu í ýmsum greinum háskalega vansköpuð, eiga þau ávalt að vera í mannsmynd alt um það, enda virðist svo, sem þau eigi að vera einhvers konar eldri kynslóð, en mennirnir. Þeim átti að vera það undur leitt, að kristni var tekin hèr á landi, og hafa leitazt við með mörgu móti að tálma framförum hennar, og lögðust þar frá, sem kristni viðgekkst og kirkjar voru reistar, ef þau feingu eigi aðgjört eins og þau hafa síðan trylt menn og tælt frá kristni á sína trú. Tröll búa í hömrum og fjallaklettum og hellum og lifa bæði á dýraveiðum, fiskifángi, og ef til vill af kvikfè. Sum þeirra mega ekki sjá dagsljós, og verða að steini, ef sól nær að skína á þau, og eru því ávalt á ferð á næturnar. Lítur það fremur svo út, sem það sè eins konar tröllategund og er þeim því gefið sèrstakt nafn og kölluð nátttröll. Mörg orðatiltæki eru það, sem benda á þá ýmsa háttsemi trölla og eru sum til lasts, en sum til lofs, sem Snorraedda (31. kap.) segir: „mann er ok rètt at kenna til allra Ása heita; kent er og við jötna heiti, ok er það flest háð eða lastmæli.“ Eins þykir skass•skessa eða flagð og önnur slík orð lastmæli um konur, og eru ekki höfð um aðrar en þær, sem óhemjuskepnur eru að einhverju leyti eða bryðjulegar. Þegar menn vilja tákna það, að einhver blíni á eitthvað

1. Það er talinn stærsti hellir á Íslandi; hann er fyrir norðan Strút hjá Kalmannstúngu upp með Norðlingafljóti, og er hans getið bæði i Landnámu (I, 20) og Harðar sögu Grímkelssonar (Kh. 1847) 32. kap. og bygðar í honum, og fitjarnar kríngum hann nefndar Hellisfitjar. En Landnáma tekur það fram (III, 10), að í honum hafi búið jötuninn Surtur, er Þorvaldur holbarki færði drápu, og er þar skýrt að orði kveðið um hellinn Surts.

2. Dr. Maurer hefir uppgötvað 4 alls, þar sem hann hefir farið um hèr á landi, ein þeirra er þjóðkunnug, og er það fjall mikið og hátt milli Hnappadals og Hítardals, önnur hjá Hítárvatni, priðja nálægt Lóni á Snæfellsnesi (eptir Bárðar sögu Snæfellsáss, 4. kap.), fjórða á Skagaheiði á veginum frá Sauðá vestur á Skagaströnd. Um eingin þessara örnefna þekki eg sögur, heldur en Dr. Maurer, nema um Tröllatúngu. Það er haft í munnmælum, að Steingrímur, sem Landnáma getur um (II, 32. kap.) að hafi búið í Tröllatúngu, hafi verið kallaður trölli, og af viðurnefni hans sè bæarnafnið dregið; en sögnin segir og, að hann hafi mælt svo fyrir, að hann væri grafinn, þar sem hann sæi á skipaleið um Steingrímsfjörð; því þau skip kvað hann ekki mundi farast, er hann sæi frá haug sínum á Staðarfjalli.

höggdofa eða hjáræulega, er sagt „hann glápi á það, eins og tröll á himnaríki eða heiðríkju,“ og er það líklega dregið af því, að tröllin, sem voru svo óvinveitt kristninni, muni aldrei eiga þángað kvæmt. Aptur eru önnur orðtök, sem til lofs liggja; tröllatrygð er viðbrugðið, og sagt, að maður sè „mesta trygðatröll,“ sem trúr er eða tryggur „eins og tröll,“ „tröll eru í trygðum bezt,“ og „tröll gánga trautt á grið sín,“ og fleiri eru slík orðatiltæki. En sögurnar skulu sjálfar skýra betur frá ýmsu um tröll, sem nú koma, en hèr er kostur á fyrir fram.

**a)** Opt er það í sögur fært, að tröll hafi verið völd að ýmsum meingjörðum við menn er þeim hafi ekkert geingið annað til, en illska ein og grimd.

**Bjargvígslur ýmsar.** Alt til skamms tíma var illur andi í helli einum í Grímsey. Þegar menn sigu þar í bergið eptir fugli, kom grá hönd og loðin út úr berginu, sem skar á festina og drap með því sigamenn. Seinast vígði sèra Páll Tómásson, sem nú er prestur á Knappstöðum í Stíflu, bergið, eptir því sem Grímseyíngar sögðu. En sèra-Páll hafði tekið eptir því, að hvassar brúnir stóðu fram úr bergi þessu, sem vaðirnir skárust á; lèt hann því Grímseyínga vaðbera sig, og seig í bergið, en stakk hamri í bjargúlpu sína, áður en hann fór ofan, svo eyarskeggjar sáu ekki. En á meðan hann væri niðri í berginu, skipaði hann þeim að sýngja sálma, svo hátt sem þeir gætu, og láta aldrei hlè á verða, þángað til hann gæfi þeim merki að draga sig upp. Af þessari tilhögun trúðu eyarbúar því, að Páll prestur hafði vígt bergið, er hann lèt þá sýngja til þess þeir skyldu síður heyra, meðan hann molaði með hamrinum hvössu brúnirnar úr berginu, en síðan hafa menn ekki farizt þar úr sigum. Slíkar sögur um bjargvígslur voru alltíðar hèr áður, meðan þeir Þorlákur biskup helgi og Guðmundur biskup góði voru uppi. Þorlákur biskup átti að hafa vígt ýms fuglberg og hreinsað þaðan óhreina anda. Þegar hann vígði Látrabjarg fyrir vestan, heyrði hann rödd úr berginu, er sagði: „Einhvers staðar verða vondir að vera.“[1] Þá lèt biskup lítinn hluta bergsins eptir óvígðan, og þorir einginn síðan að síga þar. Þó gjörði fífldjarfur maður það einu sinni. Kom þá grá hönd úr berginu og skar á festina, og var það bráður bani mannsins.[2] Þó segja aðrir, að það hafi verið Guðmundur biskup, er vígði Látrabjarg, þegar hann hafi verið á hrakníngum sínum vestra, og er hann hafi verið lángt kominn að vígja það, hafi verið sagt í bjarginu: „Eg bið þig biskup, að fara ei leingra, því undan bænum þínum og aðgjörðum verðum vèr að flýa; en einhvers staðar verða vondir að vera.“ Er þá sagt, að biskup hafi hætt að vígja bjargið, og því hafi það verið vani hans eptir það, er hann vígði fuglberg, að láta

1. Þetta er orðið að orðtæki síðan.
2. Eptir Dr. Maurers Isl. Volkss. 40—41. bls.

nokkurn hluta þeirra óvígðan. Þeir hlutar fuglbjarga, er sagt er að sèu óvígðir, eru kallaðir „heiðnaberg,“ og koma þau nöfn víða fyrir, þar sem eins stendur, t. d. í Elliðaey á Breiðafirði í Helgafellssókn. Á þeirri ey er fuglberg á tvo vegu, og er hið efsta bjargsins, er veit móti landnorðri, kallað „heiðnaberg;“ er þar ílt í að síga og aldrei gjört. Þann hluta bjargsins hafði Guðmundur biskup ekki vígt, af því hann ætlaði hann landvættum eða álfum til íbúðar, ef þeir væru þar.[1] Heiðnaberg heitir og milli Búðardals og Fagradals fyrir vestan, og búa þar að vísu álfar en ekki tröll.

**Vígð Drángey.** Drángey liggur hèr um bil á miðjum Skagafirði, nema hvað hún er miklu nær vesturlandi en austurlandinu. Hún er svo nefnd af því, að drángar tveir standa sinn hvoru megin við hana, annar fyrir utan eyna, og er sagt, að hann sè nú að mestu hruninn fyrir hèr um bil 80 árum, en hinn fyrir sunnan hana, og greina þá báða mjó sund frá megineynni. Eyan sjálf er eins og dráangarnir, vegghamar einn, og er það 100 faðma hátt standberg, þarsem það er hæst, sumstaðar ofan í sjó, en sumstaðar með fjöruborði nokkru undir niðri, t. a. m. að vestanverðu. Hvergi verður uppkomizt á eyna sjálfa stígalaust, eða vaða, sem bæði er kunnugt af Grettissögu og eins má ráða af fyrr sagðri hæð á berginu. Þegar upp er komið, er eyan ákaflega grösug og svo víðáttumikil, að hún er talin jafn stór túninu á Hólum í Hjáltadal, en það á að vera 96 dagsláttur.[2] Ekki hafa nú orðið aðrar nytjar grassins á eynni, en þær, að þeir, sem hana eiga, setja í hana fè til hagagaungu á haustin og geingur það þar af allan veturinn, ef ekki er því harðari, enda ber nes eitt á eynni gegnt landsuðri nafn af því og heitir Lambahöfði. Einginn hefir að staðaldri átt bygð í Drángey, síðan þeir Grettir voru þar, enda er hún að sumu leyti ekki mjög byggileg, þarsem þar er mjög eldiviðarlítið, nema það eitt, er af sjó rekur. Alt að einu er eyan ekki kostalaus, og því er þar mjög fjölment á vorum; þá gjöra menn sig út þángað bæði til fuglaveiða, sem þar er óhrjótandi í berginu og umhverfis eyna, og einnig til fiskiróðra.

Aður en Grettir kom í Drángey, var hún almenníngur, en eptir það hann var drepinn (1030 hèr um bil), komst hún undir biskupsstólinn á Hólum í Hjaltadal, og höfðu því Hólabiskupar mest umráð yfir eynni og mestar nytjar af fugli og fiskiafla. En ekki var fuglatekjan anmarkalaus í þá daga, því Drángey lítur út, sem fyrr segir, eins og sæbrattur klettur upp úr sjónum á allar hlíðar, hvar sem á er litið. Framan af, meðan hèr á landi voru fullhugar og ötulir aflamenn, sigu þeir mjög í bergið og sáust lítt fyrir, enda var þá fuglatekjan ólíkt meiri, en nú, og urðu tíðum

1. Eptir Þurkeyar-Ólafi.

2. Eggert Olafsens Reise 706. bls. getur þess, að Drángey sè 400 ferhyrníngsfaðmar ummáls ofan, en eigendurnir segi, að hún gefi af sèr jafnmikið hey og 72 dagsláttur.

að því ógurlegir mannskaðar og slys; fórust menn úr vöðum og sigum, sprúngu á niðurfallinu, lentu á klettum, svo hvert bein mölbrotnaði. þess þóktust menn og brátt vísir verða, að jafnt fórust þeir úr berginu, sem góðar festar höfðu, og hinir. sem lakari vaðir höfðu, og þókti það ekki einleikið; voru festar þeirra þverkubbaðar sundur, er upp voru dregnar, eins og þær væru annaðhvort höggnar sundur með exi, eða skornar með öðru eggjárni, og ekki var trútt um að mönnum heyrðist ekki högg í berginu, rètt áður en menn fórust úr festum, og í því festarnar fóru í sundur. Lagðist því það orð á, að þeir einir mundu í berginu búa, sem ekki vildu, að landsmenn drægu allan afla úr höndum þeim, og þóktust eiga eyargagnið eins vel og að skotadýrin. Við manntjóni þessu vannst eingin líkn lángan tíma, og var svo komið, að menn voru heldur farnir að heykjast á, að fara eins alment til eyarinnar og fyrst hafði tíðkast, sökum mannskaða þeirra, er þar urðu. Leið svo þar til Guðmundur góði Arason varð biskup á Hólum. Guðmundur biskup var, sem kunnugt er af sögu hans, nytsemdarmaður mikill með yfirsaungvum og vígslum, og vann með því löndum sínum laungum líkn og bót margra meina, og rèð af margar illar vættir. Guðmundur biskup var góður við snauða menn og tók bann þá bæði marga heim á staðinn, þegar bann sat þar, og hafði jafnan margt af þeim heim með sèr, er hann reið um land. Af þessu varð stundum vorsníkja hjá honum á staðnum og þurfti faung til að fá, hver sem fást máttu. Hann lèt menn sína sækja mjög til Drángeyar á vorum bæði til fiskifánga og fuglatekju, og fór brátt að bera á því, að vættir þeir, er á eynni voru, geingu eins í berhögg við biskupsmenn sem aðra og urðu af því mannskaðar stórir. Biskupi er sagt til, hvern mannskaða hann líði við eyna og ræður hann það þá af, að hann fer til eyarinnar með klerkalýð sinn og vígt vatn. Í Uppgaungnvík er steinstalli nokkur, sem lítur svo út sem hlaðinn væri, og er hann kallaður Gvendar-altari. þegar biskup steig af skipsfjöl, segja menn, að hann hafi súngið messu, og haft þenna stalla fyrir altari, en aðrir segja, að hann hafi að eins gjört þar bæn sína; þeim sið halda menn og enn í dag, að einginn fer sá upp á Drángey, eða ofan af henni, að hann gjöri ekki bæn sína við stalla þenna. En að því búnu fór hann til og vígði eyna, og byrjaði nokkuð fyrir norðan Hæríngshlaup útsunnanvert á eynni, þarsem byrgin eru nú niður undan og hèlt vígslunni fram til hægri handar eða andsælis, jafnt uppi sem niðri og þar með fram á sjó sem hann komst ekki undir í fjörunni og svo einnig með því að síga niður í bergið og fór þannig umhverfis alla eyna með yfirlestrum og saungvum og vígðu vatni og klerkar hans með honum. Ekki er þess getið, að hann hafi neinstaðar orðið neinna meinvætta var, fyrr en hann var kominn vestur fyrir norðurhorn eyarinnar Uppgaunguvík aptur. þar seig hann í bergið sem víðar, og er hann er kominn svo lángt niður, sem honum þókti hæfilegt, byrjar hann þar, sem annarstaðar, vígslu og yfirlestra.

En er hann hefir litla stund lesið, kemur loppa ein stór, bæði grá og loðin með rauðri ermi á, út úr berginu, og heldur á stórri skálm og biturlegri, er hún bregður á festina, sem biskup var í og tekur hún þegar í sundur tvo þætti festarinnar; en það vildi biskupi til lífs, að skálmin beit ekki á þriðja þáttinn, því hann var þaulvígður. Í því heyrir biskup rödd úr berginu segja: „Vígðu nú ekki meira, Gvendur biskup; einhverstaðar verða vondir að vera.“ Lèt biskup þá taka upp festina og sjálfan sig í, og sagðist ekki mundi vígja það, sem eptir var bergsins þaðan til Byrgisvíkur, en kvaðst ætla, að alt, sem þá var vígt, mundi hvorki verða sínum mönnum nè öðrum að meini þaðan af, og hefir það þókt rætast til þessa. Kafli sá, sem Guðmundur biskup skildi við óvígðan af berginu, er óvígður enn í dag og heitir hann síðan „Heiðna-berg,“ og segja menn, að þar sè fuglinn lángmestur í öllu Drángeyarbjargi, og er sú trú enn á, að menn síga trautt í Heiðnaberg.

Það beit snemma illa á landvættir, að Guðmundur biskup mundi verða þeim þúngur í skauti. Eptir það Brandur biskup Sæmundsson dó (1201), var tröllkona ein stödd á „Fljótahorni“ fyrir norðan; hún kallaði til annarar tröllkonu, sem stóð á „Strand'hala,“ og sagði með fegins rómi svo hátt, að heyrðist um öll hèruð, er milli liggja: „Nú er Hólabiskupinn dauður.“ En tröllkonan á Strand'hala svaraði: „Sá kemur aptur, sem ekki er betri, og það er hann Gvöndur.“ [1]

**Gullbrá og Skeggi í Hvammi.** (Eptir handriti sèra Jóns þorleifssonar, síðast á Ólafsvöllum.) Hvammur í Dölum, hið forna höfuðból þeirra Sturlúnga, stendur í dal einum ekki mjög breiðum. Á rennur eptir dalnum og stendur bær einn hinu meginn móti Hvammi, sá bær heitir Akur, og eru ekki fleiri bæir í dalnum. Akur hefir snemma bygður verið, þó hann líti út fyrir að vera afbýli úr Hvammslandi, því það er þegar í Sturlúngu getið um Akur, þar sem Sturla segir draum sinn, að honum þókti, sem hann væri í hlíðinni „upp frá Akri.“ Við Gullbrá, er átti fyrst að hafa búið á Akri, eru kend ýms örnefni þar í dalnum, og geingur um hana þessi frásaga vestra.

Auður hin djúpauðga nam land alt með Hvammsfirði og bjó í Hvammi. Hafði hún rausn mikla og mikið um sig. Gekk búsmali austanvert árinnar, en akrar voru í dalnum upp undir hlíðina að vestan verðu. Voru akrar þessir mjög frjóvir, en þó var sá háttur á jafnan, að það svæði, sem leit út til að vera jafn frjóvsamt lèt Auður jafnan liggja ósáið, og lagði hart bann fyrir húskarla sína, að þeir skyldu aldrei rækta allan suðurhluta akursins, og ekki skyldu þeir láta búsmala staðnæmast þar á beit, og ef svo færi nokkru sinni, skyldi eigi nytka þann peníng næsta mál.

1. Sagnir þessar um Drángey eru teknar eptir frásögnum bæði Húnvetnínga og Skagfirðínga, en um skessurnar, sem kölluðust af Fljótahorni og Strand'hala, eptir Húnvetníngum.

Það var einhverju sinni, þegar Auður djúpauðga var orðin gömul mjög, að kona nokkur kom að Hvammi, úng og mjög fríð sýnum; hún kvaðst heita Gullbrá; einginn vissi, hvaðan hún kom, eða hverrar ættar hún var. Hitti hún verkstjóra, en eigi húsfreyu sjálfa. Spurði hún hann, hví eigi væru ræktaðir akrarnir þar fyrir sunnan ána, og sagði hann henni ummæli Auðar. Hló hún mjög, og lagði fölun á landið; „vil eg heldur eina þúfu af því, en alt Hvammsland, því mèr segir svo hugur um, að hèr muni sá siður tiðkast, og það hús byggjast, sem mèr er verst við, og gef mèr þegar heimild fyrir landinu, að Auði fornspurðri,“ segir hún. Rèttir hún honum sjóð einn mikinn, fullan af gulli, og með því honum bæði þókti gullið fagurt, og Auður var þegar hætt búsforræði, þá hann gullið og gaf heimildina. Auður komst fljótt að þessu; rak hún þá burt verkstjóra sinn, og kvað hann aldrei mundi af gulli því þrífast, því sèr segði svo hugur um, að Gullbrá þessi væri fjölkunnug mjög og hinn versti gestur, og nú væri framkomið það, er sig hefði grunað um landið, sunnan árinnar, „en sú gipta mun Hvammslandi fylgja,“ segir hún, „að eigi mun saka.“ Verkstjóri þreif þá til sjóðsins og vildi gefa Auði, til að blíðka hana. Leysti hann til, og vall þá út hrúga mikil af ormum með ódaun miklum, en maðurinn ærðist og dó að litlum tíma liðnum. Var hann og sjóðurinn dysjaður á fjalli upp í landi því, er Gullbrá hafði keypt, og heitir þar síðan Ormalág. Ekki brá Auður kaupunum, en alla akra lèt hún afleggja sunnan árinnar, alt frá sjó og að gljúfragili nokkru innar í dalnum; þar lèt hún setja krossa þrjá á fjallsbrúnina og heitir það síðan Krossgil, og kvað hún fjölkynngi Gullbrás eigi mundi yfirkomast krossa þessa, að sèr lifandi. Gullbrá lèt heldur aldrei við þeim hreifa og varaðist að láta peníng sinn nærri þeim koma. Reisti Gullbrá bæ mikinn á landi sínu, og kallaði hún það að Akri, er síðan nefndist Hof-Akur. Bygði hún þar hof, og hafði blót mikil, og efldi seiða stóra. En jafnan var það, er hún framdi fjölkynngi sína, og henni varð að líta til Hvamms, þá ruglaðist seiðurinn; kvaðst hún ávalt sjá ljós mikið á einum stað í Hvammstúni, og væri sèr óþolandi birta þess, enda gleymdi hún þá og ruglaðist í fræðum sínum. Álíka ljós lagði móti henni af krossum Auðar á fjallsbrúninni, þó kvað hún þá ei verða mundi sèr eins meinlega, og ljósið í Hvammstúni. Aldrei fundust þær Auður og Gullbrá nè heldur leyfðu hjúum sínum að finnast yfir ána, og aldrei kom saman peníngur þeirra. Auður var kristin, en hafði eigi kirkju á bæ sínum. Hèlt hún hænir sínar á Krosshólum, því þaðan sást eigi til hofsins á Akri. Áður Auður andaðist mælti hún svo fyrir, að hún eigi vildi liggja í óvígðri moldu, en kvaðst óttast yfirgáng heiðninnar og bað því að grafa sig í flæðarmáli. Heitir þar nú Auðarsteinn er hún liggur, og er það enn í dag alment fjörumark á Hvammsfirði, að þá er um stórstraum rètt hálffallinn sjór út eða að, þegar fyrst brýtur á Auðarsteini.

Gullbrá bjó skamma stund á Akri eptir andlát Auðar, því þó vald hennar efldist, er heiðni var almenn, og Hvammverjar fóru að hafa heiðin átrúnað og hörga á Krosshólum, þá festi hún ekki yndi, þar sem legstaðr Auðar var fram af landi hennar í flæðarmáli; en krossar hennar innar við gilið á hlíðarbrúninni. Var hún þar í nokkurs konar Úlfakreppu. Fèkk hún þá Hvammverjum landið á Akri, en tók í móti hinn innri hluta dalsins. Þar er skugglegt mjög og lágur sólargángur á sumrum, en mestan hluta vetrar sèr þar ekki sól í suðurhlíð dalsins. Valdi hún sèr aðsetur innst í dalnum, þar sem hann er mjóstur og skuggalegastur, heitir það síðan Gullbráarhjalli. Ekki treystist Gullbrá að fara inn eptir dalnum, framhjá krossum Auðar, nema efla sig með fjölkynngi sinni. Gekk hún til hofs síns, og dvaldi þar leingi með mörgum kynlegum látum, og er hún fór út, lèt hún binda fyrir augu sèr, tók síðan með sèr úr hofinu kistu eina fulla af gulli og hríng einn mikinn, er var í hofhurðinni, lèt hún festa í kistulokið, settist síðan á hest, reiddi kistuna fyrir framan sig og hèlt í hrínginn, en húskarlar teymdu undir henni. Skipaði hún þeim að líta aldrei upp í hlíðina til krossanna. En í því þeim, er teymdi hest hennar yfir Krossgil, varð á að líta upp til hlíðarinnar, hikaði hann nokkuð; en með því gilið var ílt yfirferðar, en Gullbrá hvatti sem mest sporið, hrasaði hestur hennar á knè. Við það hraut kistan fram af, en Gullbrá sat og hèlt einúngis eptir hríngnum. Varð henni svo hverft við þetta, að hún þreif skýluna frá augum sèr, að sjá, hvað um kistuna hefði orðið, en í sömu svipan blöstu við henni krossarnir á hlíðarbrúninni. Æpti hún þá hástöfum, sagði, að óþolandi birtu legði í augu sèr; bað menn fá sèr kistu sína og ríða áfram sem hraðast. En hríngnum, er hún hèlt eptir, henti hún sem leingst frá sèr, og sagði sig leingi mundi iðra eptir að hafa haft hann meðferðis; „enda sè eg nú á eptir," segir hún, „að hríngur sá er til einhvers þess ætlaður, er mínu skapi er einna móthverfast." Gullbrá hèlt nú leiðar sinnar. En er hún var komin skamt frá gilinu, tók hún augnaverk mikinn og það svo, að þegar hún kom á Gullbráarhjalla, hafði hún mist sjónina. Dvaldi hún þar um hríð, blind við óhægð mikla, þar til hún tók sótt þúnga. Kallaði hún þá húskarla sína til sín, og skipaði þeim að flytja sig að gljúfri nokkru og renna sèr þar niður. Kvaðst hún liggja vilja þar, er aldrei sæi sól, og aldrei heyrðist klukknahljóð. En svo er háttað gljúfrinu, að það er foss í gili nokkru móti norðri og hellir inn undir. Gljúfrið er afardjúpt og svo iðan undir fossinum. Gullbrá gekk í hellinn og lagðist á gullið. Þegar hún var orðin apturgánga í fossinum, eyddi hún bæ á Gullbrárhjalla; hèldust þar á hjallanum eða í hlíðinni hvorki menn nè skepnur lifandi, er rökkva tók; og hefir sauðamönnum jafnan þókt þar reymt síðan; en öll apturgánga fór þar af, eptir að kirkja var reist í Hvammi. Þar heitir nú Gullbrárgil og Gullbrárfoss, er Gullbrá lèt færa sig í.

Hríngurinn úr hofhurðinni á Akri er enn við líði. Hann er nú í kirkjuhurðinni í Hvammi. Er það mikill hríngur, mjög máð handfángið, og er hann úr koparblendíng (Bronce); er koparplata mjög gömul undir keingnum; þar á er upphleypt mynd tveggja manna herklæddra með hjálm á höfði og sverð á hlið í stuttum panzara. Leggur anuar lagvopni í brjóst hinum, svo að út kemur um bakið.

Þess er getið í Kristnisögu og víðar, að þá er Þángbrandur prestur fór um Vestfirði, þá kom hann að Hvammi; var máli hans þar illa tekið; húsfreya kom eigi út, og var inni að blóti; en Skeggi son hennar gjörði gabb að þeim Þángbrandi á meðan.

Það er sagt að Skeggi þessi hafi búið leingi í Hvammi og elft mjög heiðinn átrúnað; var hann fjölkunnugur sjálfur og ramheiðinn eins og móðir hans. Þó hafði hann eigi fjölkynngi svo mikla að hann gæti haft við apturgaungu Gullbrár. Drap hún opt fyrir honum smalamenn og fè, er það kom á Gullbrárhjalla. Fèll Skeggja þetta illa, því heldur sem honum lèk jafnan hugur á að ná kistu Gullbrár úr fossinum. Sagði hann, eins og satt var, hún væri betur geymd hjá sèr, en hjá henni, dauðum draugnum. Lagði hann á stað einn góðan veðurdag og bjó sig út til að gánga í Gullbrárfoss. Löng var leið innar eptir daluum og var farið að skyggja, er hann kom að fossinum. Húskarlar tveir voru með, og skyldu þeir festum halda. Seig Skeggi í fossinn, og leið ekki á laungu, áður festarmenn heyrðu dýnki mikla, skurk og óhljóð; var svo að heyra, sem harður aðgángur væri undir fossinum. Urðu þeir þá hræddir mjög, og lá við, þeir mundu frá hverfa; en í því gjörði Skeggi þeim bendíng að draga upp festarnar. Þeir gjörðu það, en í því kista Gullbrár var komin upp á gljúfurbrúnina, varð þeim litið við; sýndist þeim þá allur dalurinn, alt neðan frá Hvammi vera í einu báli, lagði logann milli beggja fjallanna. Urðu þeir þá svo hræddir, að þeir stukku frá festunum og kistan hlúnkaði niður aptur í fossinn. Þegar þeir voru komnir niður af hjallanum, sáu þeir eingin venjubrigði, en staðnæmdust þó eigi fyrri en heima. Skeggi kom laungu síðar þjakaður mjög; var hann blár og blóðugur. Ketil mikinn bar hann á handlegg sèr, fullan af gulli; hafði hann fylt hann úr kistu Gullbrár, og lesið sig svo á handvaði upp úr gljúfriuu. Hafði aðgángur þeirra Gullbrár og Skeggja orðið harður og lángur, og ekki hafði Skeggi getað eytt apturgaungu Gullbrár, því aldrei varð Gullbrá verri en eptir þetta; drap hún hvern smalamann af öðrum fyrir Skeggja, og fór svo að lokum, að einginn fèkkst til fjárgæzlu, því þeir voru allir drepnir.

Af Skeggja er það að segja, að hann varð aldrei samur eptir að hann gekk í fossinn, fèkk honum það svo mikils og smalamanna drápið, að hann lagðist í rekkju. En þegar svo var komið, að einginn fèkkst til fjárgæzlu, reis Skeggi úr rekkju einn dag, og gekk til kinda sinna. Leið svo dagurinn og nóttin með, að Skeggi kom eigi heim, en seint næsta dag kom hann

heim nær dauða en lífi, því einginn þorði að vitja hans. Bar hann þá kistu Gullbráar á bakinu. Sagði hann, að eigi mundi mein verða framar að apturgaungu hennar, en sjálfur mundi hann líka á eptir fara. Lagðist hann þá aptur, og stóð ekki upp framar. Mælti hann svo fyrir, aður en hann lètzt, að gulli því, sem í katlinum var skyldi verja til að kaupa fyrir kirkjuvið svo kirkja yrði reist í Hvammi. Sagðist hann í fyrra sinn, er hann gekk í fossinn og tókst á við Gullbrá, hafa heitið á Þór, vin sinn, en hann hafi brugðizt sèr, en í seinna sinn hafi hann, enn þá nauðulegar á vegi staddur, unnið það heit, að leggja fè til kirkjubyggíugar í Hvammi, ef hann frelsaðist úr klóm Gullbrár; við það kom ljós mikið í glyrnur hennar, svo hann vissi eigi fyrr en hún var orðin að steini þar niðri í gljúfrinu, og sèzt draugurinn enn í dag í Gullbrárfossi. Ekki vildi Skeggi að heldur taka trú, eða láta grafa sig að kirkju í Hvammi, heldur sagði hann svo fyrir, að hann yrði heygður þar norður í túninu. Var það gjört, og kista Gullbrár látin undir höfuð honum. Er þar nú steinn einn mikill, og heitir hann Skeggjasteinn. Dalurinn sem þar blasir við, heitir Skeggjadalur, og er Gullbráarhjalli sunnan megin í þeim dal.

**Kleppa.** (Vestfirzk sögn.) Bær sá liggur fremst í Staðardal, er Kleppustaðir heita, og dregur bærinn nafn af Kleppu tröllkonu, er þar átti bú á dögum Finnboga hins ramma. Fyrrum hafa eflaust verið margar sögur af Kleppu, en nú eru að eins eptir af þeim sundurlaus munnmæli og skal hèr geta hins helzta, er nú geingur í munnmælum.

Kirkja sú, er nú er á Stað í Steingrímsfirði, var þá framar í Staðardal í svonefndum Kirkjutúngum, en Kleppa var heiðin og amaðist mjög við hinum nýa sið. Kleppa átti hof fyrir handan Staðará (þá hèt á þessi Ljótá og dalurinn Ljótárdalur) niður á Hrófsbergseyrum og sjást enn aurmál þess. Einhverju sinni bar svo við, að hún ætlaði að ríða hesti sínum, er Flóki hèt, til hofs síns á Hofstöðum, heyrði hún þá klukkuahljóð frá Kirkjutúngu og varð mjög illa við, en reið þó til hofsins og framdi blótskap. En er hún hafði því lokið, reið hún aptur og krækti fram að Farmaunsdalsá og brá fæti sínum á steinboga þann, er á var ánni og kirkjuvegur dalbúa lá yfir, og braut hann. Aðrir segja, að hún hafi höggvið hann með öxi og líti svo út enn, sem höggvið sè skarð í hann. Meðan Kleppa var að þessum starfa, voru menn að hlýða messu í Kirkjutúngu. Svo var henni illa við kristni og kirkjur, að hún kvað sanðamjólk sína ramma, þegar ásauður sinn rynni framan úr dal og um eyrar þær, er þá voru nefndur Slèttur, en nú heita Bríkur; stendur þar nú bærinn Staður og kirkjan. Kleppa nytjaði að sönnu ásauð sinn, þótt hann kæmi á eyrarnar, en helti niður mjólkinni. Kleppa lèt Flóka hest sinn ryðja veg um túngur þær, er síðan eru kallaðar Flókatúngur. Einnig flutti hún á honum stór viðu norðan af Ströndum. Eitt sinn kom Kleppa norðan af Ströndum og bar við á Flóka,

drögur miklar, og voru trè þau höfð í stoðir í Staðarkirkju, er hún var reist, því hún lèt þau eptir verða á Staðareyrum, og kom það til af því, er nú skal greina. Þá er Kleppa kom á Staðareyrar, heyrði hún klukkur gjalla í Kirkjutúngu; varð henni þá svo mikið um, að hún reif ofan drögurnar og lèt þær liggja eptir, en hèlt með hest sinn heim til sín. En er hún var heim komin tók hún í skyndi saman allan varnað sinn og gripi og reið af stað Flóka hesti sínum, fór hún upp Flókatúngur og fjallasýn fyrir alla dalbotna og lètti ekki fyrr, en hún kom í Trèkyllisvík. Þar bjó þá Finnbogi rammi og bað hún hann við sèr taka, og það gjörði hann. En skamma hríð átti Kleppa þar samt athvarf, því ekki leið lángt, áður Finnbogi reisti kirkju á búi sinu í Bæ. Varð þá Kleppa mjög amasöm og andvíg við hann; tók hún eitt sinn skæri og klipti gras alt af grundum þeim, er skamt liggja frá bænum, og mælti svo um, að þar skyldi ekki gras spretta framar; eru þær og graslitlar enn í dag, en áður áttu þær að hafa verið loðnar mjög. Þókti þá mönnum Finnboga eigi vært að búa við Kleppu og buðust synir Finnboga til að ráða hana af dögum, en hann kvaðst vera einfær um það og ekki þurfa þeirra liðs til þess. Skömmu síðar rèð Finnbogi henni bana.

Sumar sagnir segja, að Kleppa hafi gipt verið og hafi Skerpíngur heitið bóndi hennar og búið að Skerpíngsstöðum gagnvart Kleppustöðum sunnanvert við Staðará, og heita þar nú Skerpíngsstaðir. Sú jörð er nú í eyði, en rústir sjást þar enn.

**Ketilvallakirkja.** (Eptir sögn skólapilta að austan 1847.) Gissur biskup, sá er annar var biskup í Skálholti, lèt reisa kirkju á Ketilvöllum í Laugardal í Árnesssýslu, og stóð hún þar leingi. Sèr þar enn til kirkjugarðsrústarinnar. Seinna var kirkjan flutt að Miðdal, og þar hefir hún síðan verið. Laugdælir segja þessa sögn um kirkjuflutnínginn.

Fyrir austan bæinn í Miðdal í Laugardal er gil eitt með dimmum gljúfrum í uppi í fjallinu. Þar bjó gýgur ein í helli í gljúfriuu, og nam hún burtu á hverri jólanótt efnilegasta manninn í Laugardalnum. Báru Laugdælir upp þessi vandræði sín við biskupinn í Skálholti, en hann rèð þeim til að flytja kirkjuna sem næst gilinu, og hríngja í sífellu allar jólaunætur í gegn. Þetta var nú gjört, og fældist þá óvætturin burtu úr gljúfrinu.

Sumir segja, að gýgurin hafi flutt sig úr gilinu norður á fjöllin í skarð það, sem nú heitir Klukkuskarð. En þá voru fluttar klukkur í skarðið, og gýgurin fæld aptur burtu þaðan með hríngíngum. Af því dregur skarðið síðan nafnið. Klukkuskarð er á vegi þeim, sem liggur úr Laugardalnum norður að Skjaldbreið.

**Skarðsheiði.** (Eptir sögn manna í Borgarfirði.) I fyrndinni voru tröll á Skarðsheiði í Borgarfirði. Voru það skessur tvær, og gjörðu þær mein

bæði mönnum og skepnum, svo vegurinn lagðist af. Þær bjuggu í hömrunum fyrir austan Miðfitjar. Sátu þær opt á Miðfitjahól, á kletti þeim, sem síðan er kallaður Skessusæti. — Einu sinni fór bóndinn frá Grund í Skorradal suður um heiðina, og fór heiðina til baka. Fann hann þá skessu á leiðinni, og segir ekki af viðskiptum þeirra. Bóndi kom heim um kvöldið, og dró eptir sèr dauða hryssuna, sem hann hafði riðið. Sjálfur var hann dasaður mjög; lagðist hann í rúmið, lá svo sem viku og dó síðan. Var það af viðureign skessunnar. Sagði hann, að óhætt mundi að fara eptir þetta yfir heiðina. Fóru þá menn nokkrir yfir heiðina, og sáu þeir traðk mikinn hjá Miðfitjahól. Úr traðkinum lá slóð austur á fjallið, og var hún öll með blóðdrefjum. Lá hún upp að hamri einum, og upp hamarinn. Þar sáu þeir helli uppi í hamrinum, en einginn gat komizt upp þángað, svo var hamarinn hár og brattur. Þóktust menn nú sjá, að þau höfðu orðið hvort öðru að bana, bóndinn og skessan.

Aðrir segja, að klukkur hafi verið heingdar upp á Miðfitjahól, og hafi skessurnar orðið fældar burtu með hríngíngum, og að minnsta kosti eru þær nú farnar af heiðinni.

**Mjóafjarðar-skessan.** (Eptir handriti Þórarins stúdents Jónssonar frá Skriðuklaustri.) Fyrir framan Fjörð í Mjóafirði er gil eitt, sem kallað er Mjóafjarðargil. Þar hafðist fyrmeir við skessa, sem síðan hefir verið kölluð Mjóafjarðarskessa, og var hún vön að seiða til sín í gilið prestana frá Firði; gjörði hún það á þann hátt, að hún fór til kirkjunnar, þegar presturinn var uppi í stólnum, og brá til annari hendinni fyrir utan stólsgluggan; urðu prestarnir þá ærir og sögðu:

„Takið úr mèr svángann og lángann;
nú vil eg að gilinu gánga.
Takið úr mèr svilin og vilin;
fram ætla eg í Mjóafjarðargilið."

Hlupu þeir, að svo mæltu, út úr kirkjunni fram að gilinu, og sagði ekki af þeim úr því. Eitt sinn fór ferðamaður um gilið, og sá fyrir ofan sig skessuna, þar sem hún sat á klettasnös, og hèlt á einhverju í hendinni; kallaði hann þá til hennar og mælti: „Á hverju heldur þú þarna, kellíng mín?" „Eg er nú að kroppa seinast um hauskúpuna af honum sèra Snjóka," mælti skessan. Sagði maðurinn tíðindi þessi, og þóktu þau ekki góð. Prestarnir fóru þannig hver á fætur öðrum, og til vandræða horfði, því prestar urðu tregir til að fara að Firði, þegar þeir vissu, hver meinvættur var í gilinu. Þar kom loksins, að einginn ætlaði að fást; en þá bauðst prestur nokkur til að fara þángað, þó honum væri ekki ókunnugt, hver vogestur var í gilinu. Áður en hann messaði í fyrsta sinn í Firði, var hann búinn að leggja undir við menn sína, hvað þær skyldu taka til bragðs, ef að þeir sæu að nokkurt fák kæmi á sig í stólnum; hann sagði

svo fyrir, að sex skyldu þá hlaupa á sig og halda sèr, aðrir sex skyldu hlaupa að klukkunum, og hríngja þeim, en tíu skyldu hlaupa á hurðina. Jafnframt valdi hann þá menn, er þetta skyldu gjöra hvað um sig. Þegar er presturinn var kominn upp í stólinn, kom hendin upp á gluggann, og iðaði fyrir utan hann, ærðist þá prestur og mælti:

„Takið úr mèr svángann og lángann“ o. s. frv.

Síðan ætlaði prestur að hlaupa út, en þá stukku þeir sex, sem til þess voru kvaddir á hann, og hinir 6 hríngdu klukkunum, og hinir 10 hlupu á hurðina. Þegar skessan heyrði til klukknauna, tók hún til fóta; stökk hún á kirkjugarðinn og sprakk stórt skarð í garðinn undan fæti hennar, og mælti hún þá: „Stattu aldrei.“ Skessan hljóp fram í gilið, og hefur ekki orðið vart við hana síðan. En síðan hefir aldrei tollað í skarði því, er skessan stè í kirkjugarðinn, hversu vel, sem í það hefir verið hlaðið.[1]

**Skessusteinn.** (Eptir handriti Þórarins stúdents Jónssonar frá Skriðuklaustri.) Í grend við Kirkjubæ í Hróarstúngu eru klettar nokkrir einkennilegir, og eru þeir kallaðir Skersl.[2] Í þeim er hellir einn og þar bjuggu eittsinn tröllkarl og tröllkerlíng. Hann hèt Þórir, en hún er ekki nafngreind. Tröll þessi seiddu til sín á hverju ári annaðhvort prestinn á Kirkjubæ, eða smalann, og fór svo fram um hríð, að annarhvor þeirra hvarf, þar til er þar kom prestur sá, sem Eiríkur hèt. Eiríkur prestur var manna andríkastur og fèkk hann með bænum sínum varið svo bæði sig og smalamann sinn, að allar tilraunir þeirra tröllanna urðu árángurslausar. Leið svo fram eptir jólaaptninum. Þá er mjög var liðið á jólakveldið, þókti skessunni örvænt um, að fá vèlað prestinn eða smalamanninn á vald sitt. Gafst hún þá upp og mælti við bónda sinn: „Nú hefi eg reynt til þrautar, að seiða prestinn eða smalann, en fæ ekki aðgjört, því að í hvert skipti, sem eg hefi seiðinn finnst mèr svo, sem heitur andi leggi á móti mèr, er ætlar að brenna hvern legg og lið í mèr, og verð eg þá jafnan að hætta við svo búið. Nú verður þú að fara, og sjá okkur fyrir mat, því að nú er ekkert til matar í helli okkrum.“ Jötuninn kvaðst þess ófús að fara, en lèt þó tilleiðast fyrir áeggjan skessunnar. Hèlt hann á stað úr hellinum vestur yfir ás þann, er síðan er við hann kendur og kallaður Þórisás, og út á vatn það, er síðan er nefnt Þórisvatn. Á það braut hann gat og lagðist niður, og dorgaði upp um vökina allmikið af silúngi. Frost var mikið. Þegar hann þóktist hafa nóg veitt ætlaði hann að standa upp, og halda heim með veiðina, en þá var hann frosinn svo við ísinn, að eigi mátti hann uppstanda. Brauzt hann um fast og leingi, en það kom

1. Hermann nokkur bóndi í Firði dáinn hèr um bil 1830 kvaðst muna eptir járnskó skessunnar, sem fallið hafði af henni, þá er hún stè skarðið úr kirkjugarðinum, var skórinn hafður fyrir sorptrog.

2. Skersl (neutr. plur. af að skera.)

fyrir ekki, og leið honum í brjóst þar á ísnum, og lèt þar líf sitt. Skessunni þókti seinka komu bónda síns, og hún tók að sveingjast; hljóp hún því á stað úr hellinum sömu leið og jötuninn yfir ásinn og fann hann þar sem hann lá örendur á ísnum. Hún reyndi leingi til að rífa hann upp úr svellinu, en er hún sá, að þess var eingin kostur, greip hún silúngakippuna, kastaði henni upp á sig og sagði um leið: „Legg eg á og mæli eg um, að ekkert veiðist framar úr vatni þessu," og varð það að áhrínsorðum, því síðan hefir verið þar með öllu veiðilaust. Síðan hèlt skessan heim til hellis síns, en er hún kom upp á ásbrúnina, var það hvorttveggja jafnsnemma, að hún sá að dagur rann í austri, og klukknahljómur gall við í eyrum hennar. Varð hún þá að steini þar á ásbrúninni, og er sá steinn síðan kallaður Skessusteinn.

**Skessan á Hvannadal.** (Vestfirzk sögn.) Í dal þeim, er liggur vestur af Selárdal í Strandasýslu og Hvannadalur heitir, er mælt, að tröllskessa hafi sèzt á fyrri tíðum, og gjörði hún ferðamönnum mikinn óskunda; sýnir það sögn sú, er á eptir kemur.

„Einu sinni á fyrri öldum lögðu 12 menn á Trèkyllisheiði, kom einginn þeirra aptur til mannabygða, en föt þeirra fundust sundur rifin og hendur af sumum, og var vegurinn því aftekinn og lagður annarstaðar. Munnmæli segja, að eitt sinn hafi menn sèra Jóns Pálssonar, sem prestur var á Stað snemma á 18. öld,[1] verið að leita fram á Hvannadal 10 sauða, er hann vantaði; fundu þeir þá og eltu leingi, uns þeir sáu tröllkonu fremst í dalnum. Urðu þeir felmtsfullir, er þeir litu skessuna, og sleptu sauðunum; en hún tók þá og rak til bygða sinna. Menn prestsins urðu fegnir, er þeir komust lífs undan, en ávalt þykir reymt á Hvannadal."

**Gellivör.** (Eptir Sæbirni Egilssyni á Klippstað.) Svo er mælt, að seint á páfatrúar tímum hafi hjón nokkur búið á Hvoli í Borgarfirði austur. Þessi hjón voru auðug af kvikfèuaði, og höfðu margt hjóna, en einn húskarl þeirra kemur helzt við söguna. Það var í alræmi að tröllkona mundi búa í fjalli því, sem er sunnan megin sveitarinnar, og í hádegisátt frá Desjarmýri, en ekki þókti hún vera meinvættur. Nú bar svo við, að einhverja jólanótt gekk bóndinn á Hvoli út, og kom ekki inn aptur, og þó hans væri leitað fannst hann ekki. Veturinn leið, og húskarlinn, sem fyrr var áminnzt var fyrir búi ekkjunnar, og rèðst um sumarið, til að vera hjá henni aptur hið næsta krossmessuár; en á jólanóttina veturinn eptir hvarf hann og fannst ekki, þó leitað væri. Ætluðu menn þar misjafnt um hvað hvarfi hans mundi valda. Flutti þá ekkjan burt frá Hvoli að liðnum jólum með hjón sín öll, en lèt þó hirða þar gripi sína á degi hverjum. Um vorið fór hún aptur heim með hjónum sínum, og bjó þar það sumar; en

1. Frá 1739—1771.

á veturnóttum ætlaði hún að flytja að Gilsárvelli, en láta húskarla sína hirða gripina á Hvoli og gefa heyin um veturinu. Fjórar kýr átti hún, og var ein þeirra borin fyrir veturnætur, og tveim nóttum áður, en hún ætlaði burt, dreymdi hana draum. Henni þókti koma til sín kona, sem hún kannaðist ekki við; sú var klædd fornum íslenzkum kvennbúnaði, þó fátæklegum; henni þókti þessi kona heilsa sèr vingjarnlega og taka þannig til máls: „Nú er kýrin þín borin, eiu af fjórum, en eg á ekki von á að fá mjólk, fyrr en um jólaleytið, og hefi þó þrjú úngbörn, og því ætla eg að biðja þig þess, að gefa mèr mjólk á málum í könnuna, sem mun standa á hylluuni hjá búrdyrunum þínum, þegar þú skamtar mat á málum. Eg veit að þú ætlar að tveggja nátta fresti að flytja að Gilsárvelli; því þú þorir ekki hèr að vera í vetur, og er þèr á því vorkun, þar þú veizt ekki, hvað veldur því mannahvarfi, sem hèr hefir orðið hina fyrri vetur. En það kann eg þèr þar af að segja, að skessa sú, sem býr í Staðarfjallinu, fæddi barn fyrir tveim árum síðan, sem er svo einþykt og sèrlundað, að hún verður að útvega því nýtt mannakjöt á hverjum jólum. Þessvegna hefir hún nú farið híngað og numið burtu bóuda þinn og húskarl, og hið sama mun hún gera í vetur. En ef þú ætlar að verða vel við bón minni og vera hèr kyr, þá mun eg leggja þèr heilræði, og hjálpa til að flæma þenna óvætt hèðan úr sveit.“ Þegar draumkonan hafði þannig mælt, hvarf hún á burt, en kouan á Hvoli vaknaði og mundi drauminn. Var þá dagur runninn og fór hún á fætur og fann könnuna, þar sem henni var tilvísað. Það var trèkanna, og fylti hún hana af nýmjólk, og setti hana aptur á sama stað, en að vörmu spori var hún horfin; en um kveldið stóð hún aptur á sama stað. Þessum vana hèlt ekkjan fram að jólum; en á Þorláksmessunótt dreymdi hana enn draum. Henni þókti koma til sín kona sú hin sama, er fyrri kom á veturnóttum, og heilsa sèr kunnuglega og segja: „Óforvitin þyki mèr þú vera, að vilja ekki vita, hver sú kona er, eða hvar hún býr, sem þegið hefir mjólk þína í vetur, en þó skaltu vita, að eg er huldukona og á bygð í hólnum, sem er hèrna fyrir utan bæinn þinn. Þú hefir nú gjört vel í vetur; en eg þarf þess ekki leingur, því nú bar kýrin mín í gærdag, og þarf því ekki þinnar mjólkur framar. Nú skaltu eignast það lítilræði, sem eg hefi lagt á hylluna, þar sem trèkannan mín stóð, og þar með verð eg að hjálpa þèr frá þeim voða, sem fyrir þèr liggur jólanóttina. Þegar liðið er miðnætti, mun þig fýsa mjög að fara út úr bænum, þú skalt og heldur ekki sporna við því, heldur gánga út; mun þá standa á hlaði kona stórvaxin. Sú mun þrífa þig og bera þig í fángi sèr ofan túnið og ösla með þig yfir Fjarðarána og suður nesið, og stefna til Staðarfjalls. Þegar hún er komin með þig skamt á leið frá Fjarðaránni, skaltu segja: „Hvað heyrðist mèr?“ Þá mun hún segja: „Hvað ætli þèr hafi heyrzt?“ Þá skaltu segja: „Mèr heyrðist sagt: Gellivör mamma, Gellivör mamma.“ Það mun henni þykja kynlegt; því

hún veit, að einginn mennskur maður þekkir nafn sitt, og mun hún þá segja: „það mun vera barnskrakkinn minn," og mun hún þá kasta þèr niður og steðja í Staðarfjallið, en eg mun kvelja krakkann, meðan hún er hjá þèr, en verð þó að fara frá, þegar hún kemur. þegar hún hefir yfirgefið þig, skaltu hlaupa, sem mest þú mátt, beina leið út með Fjarðará og mun þèr endast tími til að vera komin út á eyrarnar, fram og suður af Votanesinu. þegar hún kemur, mun hún þrífa þig og segja: „Gaztu ekki verið kyr, ólukkukindin," og síðan mun hún steðja með þig suður yfir nesið, og upp á Krókana fram af Tíðamelnum; þá skaltu segja, eins og í fyrra skiptið: „Hvað heyrðist mèr?" og hún: „Hvað ætli þèr hafi heyrzt?" þá skaltu segja: „Mèr heyrðist sagt: Gellivör mamma, Gellivör mamma." „það mun vera barnskrakkinn minn," mun hún þá segja, og sleingja þèr aptur niður og renna til fjalls; en þá skaltu hraða þèr sem mest að ná kirkjunni og komast inn í hana, áður en skessan kemur aptur. því þá mun henni vera heipt í hug, vegna þess að eg verð þá búin að fyrirfara barninu, og mun hún ekki ætla sèr að láta þig undandraga. En ef þig þrýtur, mun eg duga þèr."

þegar konan vaknaði af þessum draum var ljóst af degi; fór hún þá fram í bæ, og fann á hyllunni samanvafinn stránga, og þar í forkunnar vel vandaðan kvennbúnað; tók hún hann og lèt í fatakistu sína. Leið nú þorláksdagur og aðfángadagur, og bar ekki til tíðinda. Um miðnætti jólanóttina lögðust menn til svefns á Hvoli, en konan vakti ein, því hún gat ekki sofið. Fýsti hana þá út að gánga, og rèð hún sèr ekki og gekk út, og í sama vetfángi, og hún kom út úr bæardyrunum, var hún hrifin hátt á lopt af stórkostlegri skessu, sèm óð með hana í fángi sèr alt suður yfir Fjarðará. Fóru þeirra viðskipti, eins og álfkonan hafði getið til, alt þar til tröllkonan hafði fleygt henni í seinna sinni, og konan ætlaði að forða sèr í kirkjuna; þá fannst henni, einsog tekið væri um handlegg sèr, svo að henni varð lèttara að gánga. En rètt á eptir heyrði hún grjótskruðnínga í Staðarfjallsurðunum. Túnglskin var glatt, og sá hún, að tröllkonan fór út yfir eingjarnar og stefndi að sèr. Varð hún þá svo óttaslegin, að hún mundi hafa dottið þar niður, ef ei hefði verið gripið undir hina hönd hennar, og eins og liðið með hana í lopti, þar til henni var snarað inn fyrir kirkjudyrnar, og læst hurðinni á eptir. Voru þá allir menn komnir í kirkju og djákni að samhringja, en þá heyrðist þúngur dýnkur á kirkjugarðinu. Litu menn þá út um glugga nokkurn, og sáu þar standa afarstóra tröllkonu, sem sagði: „Skítur minn, skítur minn," þegar hún heyrði hríngínguna, og stökk jafnskjótt burt, en spyrndi um leið miklu stykki úr hleðslunni, og sagði þá: „Stattu aldrei argur." þar var konan í kirkju, meðan súnginn var óttusaungur og hámessa, og eptir það fór hún heim, og er hennar ekki eptir það getið.

Nú segir frá því, að reymt þókti verða á Eskifjarðardölum og fór það

vaxandi, og urðu svo mikil brögð að því, að ekki þókti fært, nema mörgum mönnum saman og á björtum degi. Einu sinni var það, að sex menn voru samferða úr kaupstað á Eskifirði. Þeir fóru, sem leið liggur, út dalina, og var nærri dagsetri. Sáu þeir þá, að dró upp biksvartan skýflóka á fjalli því, sem er fyrir norðan dalina og Skagafell er nefnt. Þessi flóki hækkaði og sýndist þeim seinast, sem mannsmynd væri, og þá heyrðu þeir kallað ógurlegri röddu, svo drundi í fjöllum beggja vegna og sagt: „Heil, heil systir." Þá heyrðu þeir annað kall að baki sèr og svarað: „Ó, heil, heil systir." Þá litu þeir við og sáu standa annað skrípi hinu megin dalanna á fjalli því, sem Slenjudalsfjall er nefnt; heyrðu þeir þá hina fyrri segja aptur: „Hvað er títt systir?" Þá svarar hin seinni: „Selið er gefið." Þá svarar hin fyrri: „Hverjum þá?" Þá annsar hin seinni og segir: „Fauskhöfðanum honum Jóni í Vallanesi." Þá segir hin fyrri: „Flýum þá, flýum systir." Þá svarar hin seinni og segir: „Hvert þá?" „Á Bláskóga," segir hin, og eptir það hvurfu þær sjónum ferðamannanna, og þá rènuðu líka reimleikar; því Túngusel hafði verið gefið Sèra Jóni, sem þá var prestur í Vallanesi, og hann beðinn aptur að afstýra illvættunum, og þókti mönnum það fljótt rætast.

Nú er reymleikar voru horfnir úr Eskifjarðardölum, fór að verða vart við tröllagáng á Bláskógum sunnanlands; treystust menn ekki til að fara þá leið, og lagðist sá vegur niður, og hafði þó áður verið fjölfarinn. Þegar þessu hafði framfarið í tvo eða þrjá vetur varð það tíðinda, að Þíngeyíngar rugluðust í ríminu, og vissu ekki um jóladag. Tóku þeir þá það ráð að senda mann suður í Skálholt þeirra erinda, að fá biskupsúrskurð á þessu vandamáli. Sá hèt Ólafur, er kjörinn var til þeirrar ferðar. Hann var maður öruggur og áræðinn, og fór upp úr Barðardal og suður Spreingisand, og var seint á degi við Bláskóga. Ekki vildi hann þar bíða, og fór fram leið sína og sem nær var dagsetri, sá hann að feikilega mikil tröllkona stóð á fjalli því, sem Bláfell er nefnt, og er nærri veginum. Þessi tröllkona kallaði dimmri röddu og sagði:

„Ólafur muður,
ætlarðu suður,
ræð eg þèr það, rángkjaptur,
að þú snúir heim aptur.
Snýttu þèr snúinraptur,
og snáfaðu heim aptur."

Þá sagði hann:

„Sitjið þèr heilar á hófi,
Hallgerður á Bláfelli."

Þá rumdi aptur í henni:

„Fáir kvöddu mig svo forðum
og farðu vel, ljúfurinn ljúfi."

Síðan segir ekki af ferðum hans, fyrr en hann kom í Skálholt, og fèkk þar góða fyrirgreiðslu, og að erindinu afloknu bjóst hann burt og hinn sama veg. En þegar hann kom á Bláskóga varð þar fyrir honum tröllkona, og sýndist honum hún ekki vera jafnógurleg því, sem hann hafði ímyndað sèr. Þessi tröllkona fèkk honum þá í hönd hið nafnkenda Tröllkonurím og mælti: „Hefði hann Kristur Maríu son unnið eins mikið fyrir okkur, tröllin, eins og þið segið hann hafi unnið fyrir ykkur, mennina, þá hefðum við ekki gleymt fæðíngardeginum hans." Þegar hún hafði þannig mælt, skildu þau, og bar ekki á reymleikum í Bláskógum eptir það. En Ólafur fór norður, og þókti mönnum honum hafa farizt ágætlega; en kallaður var hann upp frá því: „Ólafur muður."

**Hallgerður á Bláfelli.** (Eptir sèra Jóni Þórðarsyni á Auðkúlu og sèra Magnúsi sál. Grímssyni eptir gamalli konu úr Rángárvallasýslu.) Maður er nefndur Ólafur, og kallaður hinn eyfirzki.[1] Hann fór suður á Stafnes á hverjum vetri og reri þar til fiskjar. Einhverju sinni var það, að Ólafur fór suður fjöll; gjörði þá á hann drífu mikla og fannkomu, svo hann misti vegarins, og viltist leingi, uns hann þekti sig undir fjalli því, er Bláfell heitir; sèr hann þá í drífunni ekki alllángt frá sèr tröllkonu ákaflega stóra. Hún yrðir á hann að fyrra bragði og segir:

„Ólafur muður,
ætlarðu suður?
Vel mun þèr veita
með hestana[2] feita.
[Ræð eg þèr það, rángkjaptur,
að þú snúir heim aptur.
Gyrtu þig betur,
ef þú ætlar að róa á Stafnesi í vetur."[3]

Ólafur lèt sèr ekki bylt við verða orð tröllkonunnar, þó hann treystist ekki að deila illdeilum við hana, og segir því:

„Sittu heil á hófi,
Hallgerður á Bláfjalli."

Þá kvað hún:

„Fáir kvöddu mig svo forðum,
og farðu vel, ljúfrinn ljúfi."

1. Sèra Jón hefir fyrirsögn fyrir þessari sögu: „Ólafur eyfirzki."

2. „meri þína," P Vídalín, Fornyrði, Reykjavík 1854, 512. bls.; aðrir hafa: „færleikinn."

3. Síðari vísuhelmínginn hafa aðrir þannig:

Snúðu' aptur, snarkjaptur,
og snáfaðu heim í sveit aptur.
Láttu' aldrei betur,
og láttu' aldrei betur.

Ólafi varð síðan geingið í för tröllkonunnar, og sá hann, að blóð var í þeim. Bauð hann henni þá að setjast á lend áburðarhestsins, en láta þó hestinn jafngóðan.[1] Hún þáði það og sagði: „Kennir hver sín, þó klækjóttur sè.“ Reið hún svo um stund, þángað til hún kom Ólafi aptur á rètta leið. En þegar hún skildi við hann, sagði hún honum, að hann skyldi sleppa hestunum, er suður kæmi, og ekki skipta sèr af þeim meir. Gekk svo Ólafi ferðin greiðlega; þegar hann kom suður, slepti hann hestunum, og hurfu þeir bráðum. En í lokin um vorið komu þeir aptur, og voru þá hjólspikaðir. Sneri Ólafur norður aptur, og er hans ekki getið að fleiru.

Lík saga þessari geingur fyrir vestan um kerlínguna á Kerlíngarskarði. Tveir menn riðu suður yfir skarð; hèt annar Ólafur, en um nafn hins er ekki getið. Á skarðinu hittu þeir tröllkonu, sem ávarpaði þá þannig:

„Ólafur muður[2]
ætlarðu suður?
þèr mun vegna vel.
En ræð eg þèr það, rángkjaptur,
þú snáfir heim í sveit aptur.“

Þá svaraði maðurinn: „Líttu til austurs; þar ríður maður á ljósum hesti.“ Kerlíng gjörði svo; en þá ljómaði dagur, og varð kerlíng að steini.[3]

**Brynjólfur biskup.** (Eptir sögn gamallar konu úr Rángárþíngi.) Einu sinni þegar Brynjólfur biskup í Skálholti var á visitatíuferð, tjaldaði hann undir fjalli einu. Hafði hann með sèr 4 eða 5 menn. Um nóttina vaknar biskup við það, að hönd ákaflega stór seildist inn í tjaldið. Var þá sagt úti fyrir:

1. Því heiddi Ólafur Hallgerði, að „láta hestinn jafngóðan,“ að dæmi eru til þess, að tröll hafi sligað hesta, þegar þau hafa farið þeim á bak annaðhvort á förnum vegi, til að hvíla sig, og þau hafa verið gaungumóð, eða til að komast á þeim þvert yfir ár og læki. Þeir hestar, sem orðið hafa fyrir sligi af tröllavöldum eru kallaðir „tröllriða.“ *) Hættara er við, að þessi slys verði heldur á nóttu en degi, enda er sagt, að tröll sèu þá ósýnileg, eða bregði á sig hulins-hjálmi, þegar þau ríða hestum þannig, og telur sèra Skúli Gíslason það eitt dæmi, sem hann hafi heyrt til þess, að tröll felist sýnum.

2. Aðrir hafa: „duður.“

3. Þessi síðari frásögn er tekin eptir handriti sèra Jóns Norðmanns á Barði í Fljótum, og mun hann hafa heyrt hana árið, sem hann var á Staðastað. Eptir þessu er sagan ein af þeim, sem gánga um alt land, og sinn segir með hverju móti, og væri vel, ef herra Gísla Brynjulfsen tækist að sanna, að Ólafur sá, sem hèr ræðir um, sè Trölla-Láfi, eins og hann virðist ætla í eptirmálanum óskeytta við Víglundar-rímur, Kh. 1857, 142. bls. Eins væri það ákjósanlegt, gæti Gísli sannað með sögnum, að Ólafsskarð sè kent við Trölla-Láfa, en ekki Ólaf hryta í Skálholti, sem hèr segir síðar, og að Galdra-Leifi sè ekki fæddur í Biskupstúngum eða Hreppum; en til þess þarf meira, en getgátur einar, sbr. eptirmálann sama.

*) Í Eyrbyggju, XXXIV. kap. er tröllriða kend göldrum Þórólfs bægifótar.

„Bóndalegt tjald, og bóndalegur maður!“ Biskup sá, að hèr var komin skessa, og ekki smáskorin. Hann segir henni, að taka einn hest sinn, sem hann til tekur, og eiga hann. Fer þá skessan burtu, og tekur hestinn. Lagði hún hestinn á herðar sèr, eins og sauð, og þrammar upp í fjallið. — Biskup áði í sama stað sumarið eptir. En þegar menn hans vöknuðu, var hann horfinn úr tjaldinu. Þeir fara og leita hans. Finna þeir hann loks í helli í fjallinu, og var hann þar að tala við skessuna, sem komið hafði að tjaldinu sumarið áður. Þeir sáu, að hún grèt, og var sem hagl hrykki af augum hennar. Ekki vissu þeir, hvað þau biskup hefðu talað saman. Fór hann síðan með þeim, og heim til sín. Var það jafnan siður biskups síðan, að hann lèt binda stóðhross eitt á bæarhlaði í Skálholti aðfángadagskvöld jóla. Var hrossið jafnan horfið að morgni, og þóktust menn vita, að skessan hefði sókt það til jólanna.

**Smalastúlkan.** (Eptir sögn skólapilta að vestan. 1845.) Það bar til vestur í Dalasýslu, að smalastúlka ein fór til kirkju og var til altaris. Þegar hún kom frá kirkjunni, fór hún undir eins að smala, og gaf sèr ekki tíma til að borða áður. Hún gekk með klettum nokkrum. Þá heyrir hún að sagt er í klettunum: „Ragnhildur í Rauðhömrum.“ Þá er svarað í öðrum klettum: „Hvað viltu, þussinn í Þríhömrum?“ Þá segir hann: „Hèr hleypur steik um stiga, tökum hana, tökum hana.“ Þá er svarað í hinum klettunum: „Svei henni, láttu hana fara, hún er kolug um kjaptinn.“ Stúlkan fór sinn veg, og heyrði ekki meira af samtali hjúa þessara.

**Gissur á Botnum.** (Austan af Landi í Rángárvallasýslu.) Hin efsta sveit og yzta í Rángárvallasýslu heitir Land eða Landsveit. Í fornöld hefir þar verið fögur sveit og vel til bygðar fallið; en nú er hún orðin eydd mjög bæði sökum eldgángs úr Heklu, sem er rètt í austur af Landinu, og skilur ekki annað en Rángá hin ytri, og hálsar nokkrir, sem Næfurholt stóð í, er um lángan tíma hefir verið efstur bær austan Rángár eða á Rángárvöllum; en sá bær eyddist í síðasta Heklugosinu 1845 til 46. Rángá ytri rennur rètt með hálsi þeim, er Næfurholt stendur í, en ekki allángt frá Næfurholti er fell eitt, er Bjólfell heitir; leingra upp með Rángá, en æði kipp fyrir ofan alla bygð bæði á Rángárvöllum og Landi geingur gil mikið í austurlandnorður inn í hálsa þessa; er það lukt klettum að ofan og umhverfis á báðar hlíðar, en opnast gegn útnorðri og vestri ofan að Rángá; gil þetta heitir Tröllkonugil. Efst á Landinu fyrir ofan Landskóga er mjög blásinn jarðvegur og sandrunninn; það svæði heitir Kjallakatúngur, og liggja þær lángt inn á afrètt milli Þjórsár að vestan og Rángár að austan, alt inn fyrir Rángárbotna og eru túngur þessar eyðisandar að kalla, þegar inn eptir dregur, og ekki ýkja-breiðar þegar milli ánna, þar sem Búrfell er fyrir vestan Þjórsá gegnt Kjallakatúngum.

Í fyrndinni bjuggu tröllkonur tvær, önnur í Bjólfelli, en hin í Búrfelli; þær voru systur, og fèll vel á með þeim; fór því tröllkonan úr Búrfelli opt að hitta systur sína austur yfir þjórsá og Rángá, austur í Bjólfell, og eins má ætla, að systir hennar úr Bjólfelli hafi gjört, þótt þess sè ekki getið. Búrfell er mjög klettótt, og vegghamrar í öllum eggjum þess. Austan undir því miðju hèr um bil eru klappir tvær sín hvoru megin þjórsár ekki allháar og upp úr ánni milli klappanna standa tveir klettar á móta háir og klappirnar, svo að áin fellur þar í þrem kvíslum. þessar stillur er sagt, að tröllkonan úr Búrfelli hafi sett í þjórsá, svo að hún þyrfti ekki að væta sig í fæturna, er hún fór að finna systur sína, og stokkið þar yfir ána í þremur hlaupum. Heita nú klettar þessir síðan Tröllkonuhlaup. Eptir endilaungum Kjallakatúngum liggur vegur allra þeirra, sem fara norður á Landmanna og Holtamanna afrètti, hvort sem þeir fara í fjárleitir eða til fiskifánga eða álptatekju og rótagraptar á afrèttum þessum, og hafa þær ferðir mjög tíðkazt að fornu og nýju á sumrum; því að bæði eru á Landmanna afrètti einhver beztu veiðivötn hèr á landi, þar sem Fiskivötn eru, og álptatekja mikil við þau, og hvannstóð víða um afrèttina.

Í Landsveit er bær einu heldur framarlega, er Botnar heita, eða þó heldur alment nefndur Lækjarbotnar; þar bjó í þann tíma, er þessi saga gjörðist bóndi sá, er Gissur hèt. Einhvern tíma hafði hann farið um sumar inn á afrètti til veiða, og hafði hest í togi. þegar hann þóktist hafa aflað nóg uppá hestinn, tekur hann sig upp að innan og heldur heimleiðis. Ekki segir neitt af ferðum hans, fyrr en hann kemur fram á Kjallakatúngur gegnt Tröllkonuhlaupi. Heyrir hann þá, að kallað var í Búrfelli með ógurlegri rödd:

„Systir, ljáðu mèr pott.“

Er þá gegnt aptur jafn-ógurlega austur í Bjólfelli og sagt:

„Hvað vilt þú með hann?“

þá segir tröllkonan í Búrfelli:

„Sjóða í honum mann.“

þá spyr hin í Bjólfelli:

„Hver er hann?“

Hin svarar:

„Gissur á Botnum,<br>Gissur á Lækjarbotnum.“

Í því verður Gissuri bónda litið upp í Búrfell, og sèr hann þá, að tröllkonau ryðst ofan eptir hlíðinni og stefnir beint ofan að Tröllkonuhlaupi. þykist hann þá sjá, að hún muni ætla að gjöra alvöru úr hjali sínu, og ekki muni seinna vænna fjörvi að forða. Sleppir þá Gissur taumnum á klyfjahestinum, en slær uppá þann, er hann reið, er var afbragðs lèttleikaskepna. Gissur gjörir hvorki að líta aptur, nè lína á hestinum, og reið

alt, hvað hann mátti komast; en það þykist hann þó skilja, að saman muni draga með tröllkonunni, því æ heyrði hann betur og betur andköf hennar á hlaupinu. Hann heldur beinustu leið fram þvert Land og tröllkonan á eptir. En það vildi Gissuri til, að Klofamenn sáu heimanað frá sèr ferð hans og tröllkonunnar, er þau komu á Merkurheiði. Brugðu þeir þá skjótt við; því þau bar brátt að, og hríngdu öllum kirkjuklukkunum í Klofa, er Gissur slapp inn fyrir túngarðinn. Þegar tröllkonan misti af Gissuri, kastaði hún exi sinni eptir honum, svo að þegar hann kom heim á hlað, fèll hesturinn dauður niður undir honum, en öxin var sokkin upp að auga í lend hestsins. Þakkaði þá Gissur guði fagurlega lausn sína. En það er frá tröllkonunni að segja, að henni varð svo bilt við, er hún heyrði klukknahljóðið, að hún ærðist og tók aptur á rás af öllum mætti; sáu menn til ferða hennar af ýmsum bæum á Landinu, og stefndi hún miklu austar en til átthaga sinna, því hún hèlt skáhalt austur og upp, að sjá á Tröllkonugil, og þar fannst hún sprúngin fám dögum síðar; dregur gilið af því nafn, og heitir síðan Tröllkonugil. Aldrei varð þess vart, að systir hennar í Bjólfelli grandaði bygðarmönnum; enda kemur hún lítt við sögur, og vita menn ógjörla, hvað henni leið eptir þetta. Nokkrir ætla, að hún muni hafa flutt bygð sína í Tröllkonugil úr Bjólfelli, af því hún muni hafa þokzt búa af nærri manna bygðum. Telja menn það til sanninda hèr um, að einu sinni fóru tveir menn, sem optar, í eptirleit af Landinu inn á afrètt. Feingu þeir veður ílt og sneru við það aptur, að þeim þókti ótækt leingra að leita. Feingu þeir þá þreifandi blind-ösku norðan bil. Kom þá svo fyrir þeim, að þeir viltust, og vissu ekkert, hvar þeir voru staddir. Hèldu þeir þó eigi að síður áfram undan bilnum, og höfðu það eitt sèr til leiðbeiníngar. Þannig fóru þeir lánga hríð; þeir giskuðu á alt að sólarhríng, svo að þeir sáu ekki þver fet frá fótum sèr. Enda vissu þeir ekki fyrr til, en þeir duttu báðir senn fram af hömrum nokkrum, og komu niður á mjúkan skafl. Þar lágu þeir um stund, því að bæði voru þeir dasaðir af gánginum og þrekaðir af lamviðrinu og nokkuð mók á þeim eptir fallið. Þegar af þeim bráði aptur töluðust þeir við, hvar þeir mundu komnir vera, og gátu sèr til, að það gæti ekki annað verið, en þeir væru komnir í Tröllkonugil, og að þeir hefðu dottið fram af norðurbarmi þess; þeir hrestu nú af sèr eins og þeir gátu, og reikuðu eptir fönninni um hríð; því þar var skjól nóg, en ofanbilur talsverður og kóf, en öðru hvoru sáu þeir höggva fyrir í klettunum í gilbarminum. Þeir tóku nú það ráð, að leita sèr að einhverju afdrepi, ef verða mætti, þar sem þeir gæti matazt. Geingu þeir þá inn eptir gilinu, og á þeirri leið virtist þeim, eins og þeir sæu ljósglampa bregða fyrir í kófinu, eins og eldur logaði á skíðum, og þóktust finna lykt, sem af brendum skógarviði. Síðan hvarf glampinn þeim með öllu; mínkaði kófið eptir því, sem þeir komu innar í gilið. Geingu þeir þá, þángað til þeir komu að garði einum allmiklum; hann var

hlaðinn af ákaflega stórum steinum; þar var fjúklítið, því hamrabrúnir gilsins luktust þar yfir höfði þeirra, og voru þeir þá eins og inn í skúta nokkrum. Þar leystu þeir upp malpoka sína og nötuðust, eins og þeir gátu bezt aðhafst. Síðan komu þeir fyrir mat sínum aptur, og ætluðu að þreyja þarna til morguns og gánga um gólf, til að halda á sèr hita. Þá segir annar: „Það vildi eg, að eg ætti nú svo heitan grant, sem eg get etið, og nóg og gott út á." Í því hann slepti orðinu, var sett full grautarausa fram á grjótgarðinn, og rjómi út á; þar fylgðu og með tveir hornspænir. Mennirnir tóku ausuna og gjörðu sèr gott af því, sem í henni var, og lètu hana svo uppá garðinn aptur. Eptir þetta hlýnaði þeim svo í hamsi, að þeir fóru að gjöra að gamni sínu hver við annan, og tala um, hvað þeir ættu að hafa sèr til skemtunar um nóttina, svo að þeir sofnuðu ekki. Kom þeim þá ásamt um, að annar þeirra, er var góður kvæðamaður, skyldi skemta með kveðskap nokkrum, en hann lèzt ekki vita, hvað kveða skyldi. Heyrðu þeir þá, að kallað var innarlega úr hellinum með dimmri rödd og tröllalegri: „Fínar eru Andrarímur, ef þær eru vel kveðnar." Tók þá kvæðamaðurinn upphafið á þeim, og kvað alla nóttina; því hann kunni þær. En það stóðst á endum, að hann lauk rímunum, og dagur ljómaði, enda var þá komið gott veður og rifahjarn yfir alt. Hèldu svo eptirleitarmenn heim, og sögðu víða frá þessari sögu, og var það síðan trú, að tröllkonan, sem fyr var í Bjólfelli, mundi hafa gefið þeim grautinn.

Missögn. Í Búrfelli upp af Þjórsárdal heitir Tröllkonugröf; á þar að vera grafin Þuríður Arngeirsdóttir, er Landnáma getur um (III, 20. kap., 235—236 bls.) að „Þjórsdælir vildu berja grjóti í hel." Tvennum sögnum fer um hana og systur hennar, er öllum ber saman um að hafi átt heimkynni í Næfurholtsfjöllum; því flestar sagnir segja, að tröllkonan í Búrfelli (Þuríður) hafi kallað til systur sinnar í Næfurholtsfjöllum, eins og hèr segir að framan, og beðið hana um pottinn, er hún sá manninn ríða; en aðrir segja, að tröllkonan í Næfurholtsfjöllum hafi kallað til hinar og sagt:

„Systir, ljáðu mèr pott."

Tröllkonan í Búrfelli: „Það er ekki gott.
En hvað á að gjöra við hann?"

Tröllkonan í Næfurholtsfjöllum:
„Sjóða í honum mann."

Tröllkonan í Búrfelli: „Hver er hann?"

Tröllkonan í Næfurholtsfjöllum:
„Gissur á Botnum,
Gissur á Lækjarbotnum."

Þá svaraði enn tröllkonan í Búrfelli: „Ekki færðu hann; hann er kámugur um kjaptinn." Maðurinn hafði nýlega verið til altaris, og því

unnu þær systur honum ekki mein.[1] (sbr. næstu sögu á undan: Smalastúlkan.)

**Ólafur kóngur Haraldsson og tröllkonan.** (Eptir blöðum af Vestfjörðum.) Svo er sagt, þá Ólafur kóngur Haraldsson var 5 vetra, fór hann á skipi með fóstra sínum, og sigldu þeir með björgum fram. Þá kom tröllkona fram á bjargið, og spurði, hvort skáld væri á skipi. En þeir sögðu ei vera. Þá kvað kerlíng vísu þessa:

„Komi sótt,
kveini drótt,
kynngi hríð,
og gjöri sult víða;
hrynji mjöll,
hylji fjöll,
hatist menn,
deyi fè skatna.
Gremjist hauður,
glatist sauður,
gjöri hregg,
tapist fè seggja;
fáist hatur,
firrist matur,
farist her
og gjörist enn ver.“

Ólafur Haraldsson kvað:

„Gjöri regn,
gefi logn,
gefi gott fáng,
og komist menn þángað;
firrist snjór,
falli sjór,
fargist hatur,
fái byr skatnar.
Grói hauður,
gleðjist sauður,
gjöri gótt ár
og færi baut[2] vora;
linni nauð,
lifni þjóð,
líði vetur,
og gjöri enn betur.“

Þá sprakk tröllkonan.

**Saga af Þorgeiri stjakarhöfða.** (AM. 569. A. 4. Eptir Árna Magnússon.) Í mínu úngdæmi hefi[3] eg heyrt frásögn nokkra um Þorgeir stjakarhöfða. Mig minnir að með þessa sögn færi Vigfús Jónsson.[4] Þorgeir átti að hafa lifað samtíða Ólafi kóngi, Tryggvasyni trúi eg. Úr þessari sögn man eg þetta sem eptir fylgir, trúi eg að það eg heyrði sagt væri ekki meira. Eitt sinn þá Ólafr kóngr Tryggvason lá á skipi undir björgum nokkrum með mönnum sínum, fèll svo, að einn gamall karl kom fram á þessi björg, og heilsaði upp á kóng og hans menn. Kóngr spurði hann að hvar hann heimili ætti, hverjum karl svaraði svo, að sitt aðsetr væri í þessum björgum. Þá spyr kóngr hann að, hvað mannmargr hann sè, hvor upp á karl svaraði þessu:

1. Þessi frásögn er tekin eptir handriti sèra Skúla Gíslasonar og Dr. Maurers Isl. Volkss. 40. bls.
2. þannig í handritinu.
3. þ. e. Árni Magnússon.
4. Leirulækjar-Fúsi, móðurbróðir Árna.

„Eg hefi tólf báta fyrir landi
og tólf menn eru á hverjum bát,
tólf seli drepr hver maðr,
og í tólf lengjar er skorinn hver selr,
og hver lengja er skorin í tólf stykki,
þá eru tveir um toddann,
og teldu þar af, kóngr!"

Á meðan kóngr var að reikna þetta saman, seiddi þessi karl skipið inn í bjargið aptr að siglu, og í sama bili var kóngr búinn að reikna saman fjölskyldu karls. Þegar svo var komið í óvænt efni, greip Þorgeir, sem meðal kóngsmanna var á skipinu, einn ás, og setti hann í bjargið, en annan enda fyrir bríngspalir sèr. Tröllskapr bjargbúans dró skipið inn, en Þorgeir stóð á móti. Um síðir reyndi Þorgeir á orku sína, svo að bríngutcinar hans gengu í sundr, og í því sama átaki komst skipið út úr bjarginu og varð laust þar við. Hèr af fèkk Þorgeir stjákarhöfðanafn.

**Um Kögur-Grím.** (Eptir Jón bónda Sigurðsson í Njarðvík í Múlasýslu.) Þorvarður Bjarnarson skafins[1] bjó eptir föður sinn í Njarðvík. Hann hèlt rausnarbú mikið, og hafði áhöld öll til bús sterk og varanleg. Hann átti rambygt skip, sem hann lèt á sjó gánga. Þess er getið eitthvert sinn, að hann reri á hafmið, sem heitir Djúpiklettur. En þá hann hafði setið um hríð, skeldi yfir þoku, svo hvergi sá frá borði, og undir eins fèll á fall svo mikið, að ekki varð haldið við miðið. Þorvarður bað báseta róa á. En það tókst ekki, hversu sem til var reynt. Skipið rann á fram, líkt og í árstraumi. Þetta gekk lángan tíma, uns skipverjar sáu grilla í land. Sáu þeir, að skipið bar upp að vog einum, norðarlega við Njarðvíkur afrètt, sem heitir síðan Kögur-vogur. Hellir stór er upp frá vog þessum, og er hann nefndur Kögur-Grímshellir. Skipið rann sem í stríðum straumi inn á voginn. Þegar Þorvarður sá, hvert skipið stefndi, bað hann háseta sína vera viðbúna með krókstjaka, er skipinu fylgdu, að stjaka því út úr vognum, ef þess væri kostur. En hann þreif öxi mikla, er lá í skipinu, og hljóp fram í. Skipinu fleygði inn í hellismunnann. En undir eins og niður kendi skipið, þreif stórvaxin hönd í hnífil skipsins. En Þorvarður hjó á fíngurna, svo þeir fèllu inn í skipið. Hásetar voru tilbúnir með krókstjakana, og komust svo út í vogskjaptinn. Vissu þá skipverjar ekki fyrri til, en bjarg mikið kom innan úr hellinum og niður fyrir innan skipið, svo það varð fyrir stórum áföllum. Fóru þeir Þorvarður við það leiðar sinnar inn á nes það, sem Skálanes heitir, og hvíldu sig þar nokkurn tíma; reru síðan út aptur, og öfluðu vel. Hafði Þorvarður fíngurna til sýnis, og þóktu afarmíklir.

1. Sjá meira um Björn síðar.

**Um reymleika í Njarðvík.** (Eptir sama.) það var sögn manna, að fyrri á tíðum hefði ætíð í hvers bónda tíð orðið vart við eitthvað óvanalegt í Njarðvík, og hèlzt sú trú fram á átjándu öld. það var einu sinni, að maður fór yfir fjallveg þann, sem Eggjar heita, um vetrartíma. Vegurinn liggur með gili því, sem Hvannagil heitir. Honum varð litið ofan í gilið; sá hann þá, hvar stórvaxinn maður lá, og hafði bagga á baki. þessi stórvaxni maður var að laga á sèr skóinn og leit til bygðarmannsins. Honum sýndist býsna mikill vöxtur hans, varð hræddur og hljóp ofan, sem fætur toguðu.

Eins og siður var til, var eitt sinn á þorláksmessukvöld fyrir jól verið að slátra jólaám í bæardyrum í Njarðvík, og var mikið gems og kátina í sláturmönnum. En þegar mest var um gleði þeirra, heyrðist þeim stigið þúngt til jarðar úti, og stúngið fast niður broddstaf. þeim þókti þetta kynlegt og horfðu út með hurðinni. Sáu þeir þá, að maður ferlega stór stóð fyrir dyrum, og studdi sig fram á staung, er þeim sýndist vera úr járni; hann horfði rètt að dyrunum og var álútur, eins og hann væri að hlera til þess, sem fram færi inni. þeir urðu felmtsfullir og hættu öllum hávaða. Að litlum tíma liðnum heyrðu þeir, að þetta þrammaði burt aptur.

Eitt sinn voru Njarðvíkíngar að brenna kol í þoku innan til í víkinni. þeir heyrðu þá tvisvar um daginn skellihlátra yfir í dal þeim, sem heitir Urðardalur; hann geingur ofan frá Dyrfjöllum. Hundur þeirra stökk og upp með gelti miklu. Ekki urðu þeir fleira varir í það sinn.

það var siður barna í Njarðvík, að þau slógu sèr saman bæði að heiman og úr hjáleigunni til leika á vetrarkvöldum í túnglsljósi. Eitt kvöld þegar þau voru hætt leiknum, hlupu heimabörnin heim að bæardyrunum, og ætluðu hiklaust inn. Sáu þau þá í túnglsljósinu, að maður lá þvert yfir bæardyrnar, svo stór, að hann varð að kreppa sig um knèsbæturnar, til að komast fyrir, og var þó húsið breitt. þó þau yrðu hrædd við þetta, rèðu þau það alt að einu af, að þau hlupu undir knèsbætur hans, og sakaði þau ekki. En eptir það lögðust niður leikar þeirra. — Seint á öldum gekk maður um vetrartíma út á Hnausa, sem kallaðir eru. Höfðu þá um tíma geingið harðindi, svo eingar mannaferðir voru þar um. Upp yfir Hnausunum eru hamraflug. Maðurinn sá liggja stórkostleg mannsför ofan undan hamraflugunum alt fram á klettahlein eina, sem liggur þar á milli tveggja fjara; þar hafði sá staðið, sem geingið hafði, og stutt sig fram á staf, eins og hann hefði horft ofan í fjörurnar. Svo hafði hann geingið upp eptir aptur sama veg. Förin voru fet mannsins á breidd, en svöruðu sèr ekki að leingdinni. Hundur hafði og verið með trölli þessu, og voru för hans eins óvanalega stór. Maðurinn, sem förin sá, sagði, að þau hefðu ekki verið nýgeinginn, en þó ekki fyrir laungu, og er hann talinn sannorður maður.

**Sagan af Vestfjarðagrími.** (Addit. 40. a. 4.; eptir Árna Magnússon og með hendi (þórðar?) skrifara hans.) Sigurðr hèt maðr er bjó á Skriðu, þar sem síðan var klaustr sett, hann gat við konu sinni að nafni Helgu, son er Grímr hèt, hann var að fóstri á Vestfjörðum hjá móðurbróður sínum. þessu samtíða bjó á Eyðum maðr sá er Indriði hèt með konu sinni þóru. Eitthvert sinn hvarf Sigurði kýr sú er Kráka var kölluð og vantaði hana í sex ár. þá bar svo við er Sigurðr gekk á fjall í sauðaleit, að hann fann kúna í dalverpi nokkru ásamt sex öðrum nautum, sem af henni lifnað höfðu; rak hann þetta heim til sín. Nokkru síðar kom Indriði frá Eyðum til Sigurðar og falaði af honum til kaups nokkurn hlut þessara nauta, helmíng eðr þriðjúng, hverju þá Sigurðr neitaði. Hóf Indriði tilkall til nautanna, segjandi að þau í sínu landi alist og leyfislaust gengið hefði. Á vorþíngi kom þetta mál til greina meðal þeirra, hvar Sigurðr berorðr varð við Indriða um þessi málaferli er honum þóttu af ranglæti rísa. þessu reiddist Indriði og vó Sigurð þar á þínginu.[1] þíngmenn gripu Indriða þar strax, bauð hann bætr fyrir vígið og lúkti án dvalar óvíst hverjum, slapp svo laus og fór heim til bús síns Strax þar eptir breytti hann svo hvílu við konu sína að hann lá hverja nótt við vegg með kveunbúnað á höfði en konan við stokk með slegið hár. Svo liðu stundir þar til Grímr var 16 vetra gamall, þá bar svo við, að fátæk kona kom að bæ þeim á Vestfjörðum er móðurbróðir hans á bjó, henni gaf Grímr eitthvað þar úr búinu, hverju húsfreyjan, hans móðurbróður kona, reiddist og meðal annara atyrða við hann brixlaði honum um, að föður síns ekki hefnt hefði. Grímr tók svo eggjaninni, að hann strax bjó sig til ferðar, mælti móðurbróðir hans vel fyrir honum og gaf honum að skilnaði auknafn að Vestfjarða-Grímr heita skyldi. Grímr fór rakleiðis austr í átthaga sinn og dvaldist litla hríð hjá móður sinni áðr svo við bar, að hann fann þræl eðr verkmann Indriða frá Eyðum rekandi kúna er fyrrum var um deilt og önnur fleiri naut þeirra mæðgina. þenna drap Grímr svo sem þann er við þjófnað tekinn væri og lýsti víginu. Hèr af tók Indriði heldr en eigi að ugga að sèr, og gjörði sèr sterkliga lokrekkju. Nokkru síðar fór Grímr heiman og til Eyða, bar svo við að þá hann þangað kom, sátu menn þar við eld, og töluðu um konur í hèraðinu dragandi fram sinn hverrar hluta. Í þessu tali hrósaði einu Helgu móður Gríms, hvað einum hinna misþokkaðist og lastmælti sá henni gífrlega. Grímr sem aðkom heyrði þetta, hljóp inn í húsið og hóf þann upp er lastyrðin talað hafði, og stakk honum á höfuð ofan í ketil er yfir eldinum

1. Rannveig Oddsdóttir frá Holti undir Eyjafjöllum sagði mèr, Árna Magnússyni, fyrst um þessa sögu, að hana í barndómi sínum hefði heyrt sagða af fyrskrifuðum Atla þá í Holti stöddum, og hafði hún að mestum hluta gleymt því er þar úr heyrt hafði. Eptir því sem hana minti, sagði hún deiluefni föður Gríms og hans contraparts hefði verið nábúakrit um beit, en Atli segir það ei svo verið hafa, og mun því misminni vera.

var, svo hann fèkk þegar bana. Að því gjörðu hljóp hann út aptr og forðaði sèr. Strax þar eptir tók hann sèr fyrir hendr að grafa leynilega jarðhús eðr undirgang undir bæinn á Eyðum frá einum læk er hann lèt bera í burtu moldina. Svo leið að jólum, bauð þá Indriði til veizlu vinum sínum og þar á meðal bróður sínum er Helgi hèt. Að kveldi er menn gengu til hvílu var Helgi lagðr í lokrekkjuna þá ena sterku, en Indriði og kona hans lögðust í sæng aðra þar nærri, hvíldu og margir aðrir í sama húsi. Grímr njósnaði um allt þetta daginn fyrir og komst um nóttina inn í bæinn, gekk hljóðlega þangað sem Indriði og hans kona hvíldu og þreifaði fyrir sèr til þess að ekki skyldi þar að vega sem ei vildi. Sem nú hans kalda hönd kom við brjóst konunnar talaði hún þar til við bónda sinn; ugði hann þá nálægð Gríms og ætlaði á sèr að hreifa. Í því lagði Grímr hann í gegn; sá hinn vegni kallaði og kvaðst særðr vera til ólífis; hlupu þá menn upp og ætluðu að ná vegandanum, tók og einn á Grími og ætlaði að halda honum; kvað Grímr hann villast og lèst vera einn þeirra sem eptir vegandanum sækti. Svo slepti hinn og komst Grímr nauðigr út og á burt. Nú þóttist hann vita að sèr mundi ekki í því fyrr áminsta jarðhúsi friðt vera, ekki heldr við bygðir manna sökum eptirgangs Helga; tók því til ráðs að liggja við tjald á heiðum úti. Þess á milli merkti Helgi á Eyðum, að þegar gengið var í bænum þar á Eyðum eða um kríng hann, hlúnkaði undir, kom honum þá til hugar að ransaka hvert þar ekki væri holt. Fann hann svo jarðhúsið og vistir Gríms þar inni en sjálfr var Grímr á burt sem fyr er sagt. Nokkru síðar bar svo við, að einn af Eyðamönnum fór þar um er tjald Gríms stóð, elti Grímr þann mann og drap hann, að eigi skyldi óvinum sínum njósnir bera; sá þó að ekki mundi duga að halda þar til langdvala, fór svo norðr yfir fjöll og dvaldist um hríð hjá ekkju einni þar. Þess á milli sótti Helgi, er nú bjó á Eyðum, alstaðar eptir Grími og setti öll brögð til að ná honum, frètti og um síðir, að hann mundi dyljast hjá fyrnefndri konu. Kona þessi var berdreym og forspá; sagði hún Grími eitthvert sinn, að Helgi mundi þar innan skams koma, og vísaði honum að vötnum nokkrum í landssuðr, hvar hann sig af veiðiskap nært gæti, þar til skip einhver af hafi kæmi undir Íngólfshöfða, ráðlagði hún honum þar að leita utanferðar en voga ekki til langdvala hèr í landi. Svo fór fram sem konan hafði til getið. Helgi kom þar og spurði eptir Grími, sagði hún hann hefði að sönnu þar verið, en væri nú í burtu; sneri svo Helgi þaðan aptr erindislaus. Grímr fór sem honum var ráðlagt til vatnanna, og gjörði sèr þar skála, laufskála úr skógi er þar var nógr, og tók að veiða í vötnunum. Svo bar til að það sem hann veiddi á daginn tók að hverfa á nætrnar; hvað þá nokkrum sinnum skeð hafði, vakti Grímr eina nótt viljandi vita hverju það sætti. Um nóttina kom risi[1] einn og tók til

1. Atli segir að risi þessi hafi vissu nafni nefndr verið í sögunni en það sè sèr úr

veiðarinnar, sem þar lá, lagði á herðar sèr og gekk í burt aptr. Grímr veitti honum eptirför og lagði til hans með spjóti. Risinn hvataði þá ferð sinni og komst heim til hellis þess er hann bygði með spjótið í sárinu; þar var fyrir dóttir hans, hverri hann sagði nú áverkann að Vestfjarða-Grímr hefði sèr hann veitt og bað hana grafa sig þar í hellinum og því næst dó hann. Risans dóttir tók honum gröf þar í hellinum sem hann hafði fyrir mælt, en þegar hún ætlaði hann þar í að leggja var gröfin oflítil, gafst hún svo þar upp við. Grímr hafði gengið á hæla risanum og sá hann og heyrði alt þetta, gekk síðan í hellirinn og átaldi risans dóttir hann í fyrstu fyrir dráp föður síns. Grímr huggaði hana svo sem hann gat og bauð henni að koma risanum í gröfina, hún þektist það og hnepti hann risann með afli ofan í gröfina og huldi síðan, gekk svo heim aptr í skála sinn. Á næstu nótt gekk risinn aptr og kom til skálans og ásókti Grím. Grímr varðist svo drangrinn vann ekki á. Kríngumstæður sameignar þeirra eru úr minni fallnar. Deginum eptir fór Grímr til hellisins, gróf upp aptr risann, og brendi hann á báli. Risans dóttir veitti honum enga mótstöðu, heldr alleina mælti um að vötn þau er Grímr nú við sat, skyldi á ýmsum tíðum loga og brenna til auðnar skógana þá er þar vóru um kríng,[1] hver hennar álög síðan hafa optliga rætzt. Að þessu gjörðu kom Grímr svo sínu máli við risans dóttur, að þau til samans tóku fè það er hellisbúinn hafði átt og fóru þar með til vatnanna í skála Gríms og bjuggu þar saman vinsamlega til næsta vors. Þessu næst kom skip af hafi og lagði til hafnar við Íngólfshöfða, hvað þá er Grímr fèkk að vita brá hann til utanferðar, kvaddi unnustu sína risans dóttur og fór til skips og kom sèr þar fyrir. En áðr en hann og risans dóttir skildu gaf hún honum belti, hverju sú náttúra fylgdi að hann engri annari konu unnað gæti. Grímr fór utan sem til var ætlað og kómu til Noregs, þá var konúngr Haraldr Sigurðarson, með honum fèkk Grímr sèr vistar um vetrinn. Að jólum hèlt kóngr veizlu ríkmanulega, bjó Grímr sig þá því fyrrtèða belti. Strax kom á hann ógleði og þráði hann jafnliga risans dóttur. Þetta fann kóngr og spurði hann hverju gegndi, sagði hann þá kóngi alt um sambúð þeirra risadóttur. Að vori gaf kóngr honum skip, á hverju hann til Íslands fara kynni til að sækja unnustu sína. Grímr

minni fallið. Rannveig Oddsdóttir, eptir Atla, nefndi hann Hallmund, þykir Atla sig nú grilla til að svo muni verið hafa, vill það þó eigi fullyrða. Rannveig kallaði þann er af Grími drepinn var, skógarmann; en það mun vera rèttara sem Atli segir, því kríngumstæðurnar gefa það að skilja.

1. Þetta á að skiljast um Grímsvötn sem enn nú svo kallast og eptir almennings meining þess á milli í eldi leika. Atli heldr þeirra afstöðu fyrir vestan og norðan Skeiðarárjökul, þar uppi í jökla sundum langt úr bygð. Súla heitir vatnsfall er framan úr jöklum rennr fyrir austan Núpsvötn á Skeiðarársandi, og fellr í sogð Núpsvötn. Um Súlu þessa segir Atli nokkura munnmæli vera, að hún úr Grímsvötnum renni, lætr hann það hvorki logið nè satt, en mèr virðist það muni næsta óvist vera.

hèlt á haf og kom við Íngólfshöfða, gekk á land og fór til Grímsvatna, svo hètu þau síðan Grímr hafði þar vistum verið. Þar við vötnin fann Grímr risans dóttur og hjá henni sveinbarn er hún alið hafði meðan Grímr var í burtu og kendi honum það nú. Þar varð fagnafundr og bað Grímr hana með sèr að fara; tóku þau svo barnið með sèr og fè það allt er úr hellinum hafði áðr í skálann flutt verið og fóru á burt. Þessu næst hèldu þau til skips, lètu í haf og náðu Noregi; tók risans dóttir þar kristna trú og skírn með barni þeirra. Nokkrum vetrum síðar fýstist Grímr að fara út til Íslands og staðnæmast þar. Bjóst hann því burt úr Noregi með konu sína, risans dóttur, og kom norðan að Íslandi að eyju einni, þar stè Grímr á land og bar af skipi, bjuggu þá í eyjunni risar einir eðr bjargbúar, stökti Grímr þeim á burt sumum en drap suma og hreinsaði svo eyjuna, síðan setti hann þar bygð sína og juku þau risadóttir þar ætt þeirra. Eyin liggr út frá Eyjafirði og heitir síðan Grímsey; bjuggu ættmenn Gríms þar eptir hans dag, og lýkr svo þessari frásögn.

Þessi fyrirfarandi frásögn er A. 1708 öndverdlega í Febr. uppskrifuð eptir Atla Sigurðssyni, Ímasonar, fæddum í Meðallandi og uppfæddum á vergangi þar og á Síðu undir Fjalli. Atli segist nú vera 31. árs gamall, og segist hann þessa sögu numið hafa þá hann var 15 eða 16 vetra af Ormi N. syni á Þverá undir Fjalli á Síðu. Ormr er dauðr fyrir tveimr árum. Segir Atli að Ormr hafi sèr áheyranda sagt þvílíkt sögunnar inntak, en ekki á bók lesið; segir þó fyrir víst að hana haft hafi skrifaða á kveri in 8. er hann segist sèð hafa, og hafi á þykt verið sem svara kynni 5 eðr 6 örkum, segir það og til bevísíngar um nefnt kver, að sex árum síðar þá hann, Atli, hafði einn eðr tvo um tvítugt hafi fólk í Skammardal í Mýrdal getið við sig um kver, er Ormr hefði nýlega þar um hönd haft, hvar á verið hefði þessi saga og sagt að kverið hefði þá mjög svo verið tekið til að rotna og skemmast. Inntak sögunnar það er hann af Ormi heyrði meinar hann ekki hafa fyllra verið, en hèr fyrir framan skrifað er. Hann segir annars að í vetr og haust eð var, þá í orð kom þar eystra, að menn vildi þessa frásögu uppskrifaða fá, þá hafi profastrin sira Einar Bjarnason og Þórðr Þorleifsson smásmuglega eptirspurt þar eystra í kríngum sig, hvort ekki mundi sagan á bók fást kunna, og hafi ekkert fyrir orðið. Alleinasta hafi fundist þeir sem viðkannast hafi, að til forna heyrt hefði sagt nokkuð úr viðlíkri frásögn, þó hafi slíkr þeirra framburðr óskjallegr verið, hafi og enginn fram komið, sem neitt hafi vitað til Orms bókar, eðr hann í minsta máta fyrir þessari sögu haft. Einhver hafi þókst heyrt hafa að faðir Gríms og sá er hann drap, hafi átt að búa þar á Síðunni, en það hafi og eins og hitt annað, óskírt verið og óeptirtakanlegt.

**Inntak úr söguþætti af Ásmundi flagðagæfu.** (Eptir sira Eyjólf á Völlum í Svarfaðardal og með hans hendi.) Í dal einum fjarri þjóðbygð í Noregi bjó karl og kerlíng. Þau áttu þrjá sonu, hèt hinn elsti Grímr, annar Þórir, þriði Ásmundr. Þeir Grímr og Þórir vóru vænir ok vel at sér, höfðu þeir það starf að gæta sauða karls og kerlíngar, og draga þarfindi til bús þeirra. Þess getr sá sem hér um hefir kveðið:

„Karl hefir búið í afdal einn,
átti sonu þrjá,
í mörgu var sá maðr beinn,
má vel greina þá.
Grímr og Þórir gættu að sauð,
gjörðu karli þjóna,
og svo vakta allan auð
ásamt beggja hjóna."

Ásmundr var ólíkr bræðrum sínum, lá hann í eldaskála og lèt það ekki til sín koma er nauðsyn var, unni faðir hans honum lítið en móðir hans mikið. Þá var Ólafr Haraldsson konúngr yfir Noregi, þótti mörgum úngum mönnum þeim er þrek höfðu og frama vildu sækja hið mesta sæmdarefni að fara á fund hans og seljast honum til þjónustu; kemr það einnig upp hjá þeim Grími og Þóri að þeir vilja þetta ráða sinna og gera bert föður sínum, hann tekr vel á, og segir mannskap þeirra að meiri, telr víst að sú ferð muni þeim til sóma og frægðar, býr þá svo heiman eptir efuum, og fær þeim alt það þeir þurftu nema reiðskjóta, fóru þeir síðan af stað gangandi og gengu þrjá daga samfleytt unz þeir kómu að vatni nokkuru, sá þeir þá hvar maðr gekk með vatninu mikill og þrýstinn, rak hann samau fè og fór með hundr, leist þeim maðrinn ógurlegr og skaut þegar skelk í bríngu, kváðust nú heldr vilja vera við lítið hjá föður sínum en hafa þar líf sitt í tröllahöndum, sneru við það aptr og fóru heim til foreldra sinna. Karl undrast aptrkómu þeirra svo skjóta, verðr allstyggr og telr á þá harðliga, segir illt að eiga þá sonu, er engi dáð fylgi, og talar þar um bæði mart og hátt, svo að Ásmundr heyrir í eldaskálanum, skellir hann yfir sik og hlær, en leggr ekki orð til. Karl varð því styggri og kvað afglapann eigi þurfa gjöra sköll að þessu, mundi honum öllu verr tekist hafa. „Eigi veit fyr en reynir," segir Ásmundr. Fèll svo þetta tal niðr. En er nokkuð var fráliðið vilja þeir Grímr og Þórir fara af stað aptr, knúði þá meir til þessa eggjan karls en öfusa þeirra, gjöra það þó einsætt, og segja nú eigi fara skyldu sem áðr, nè upp gefa fyr en þeir hefði fundið Ólaf konúng og gjörst menn hans, býr karl þá enn ferð þeirra, sem hann kunni, en kerlíng gengr á meðan í eldaskála til Ásmundar, og segir honum ætlan bræðra hans, biðr hann af alúð að fara með þeim, „er mér," segir hún, „eigi síðr til þín en þeirra, þykir mèr illt að þeir skulu verða frægðarmenn en þú engi." Lèt Ásmundr

alltregliga og tók hvergi nærri því er hún mælti, kom þó svo tali þeirra, að hún bað hann upp standa, ganga til föður síns og beiða hann fararefna; mælti hann þá ekki í móti; tók hún nú af honum tötra alla og leppa er hann hafði í legið, þó hár hans og kembdi, var það þá gult sem silki og tók á herðar niðr. Síðan færði hún hann í góð klæði, stóð hann nú svo búinn, og var hverjum manni vænni og gjörfilegri, gekk kerlíng þá til karls og segir honum hvar komið var með þeim Ásmundi, bað hann fá honum nokkuð til ferðar sem bræðrum hans. Karl varð úkvæðr við, og kvað hana heimskari en segja mætti, er hún hygði mannfýla sú mundi dáð drýgja, „vilda eg þó vinna til," segir hann, „að láta nokkuð fram, og kæmi auli sá eigi mèr í augsýn;" gengr karl við þetta til smiðju sinnar er afsíðis var í eldaskála, hafði eldr gjör verið nýlega á gólfinu þar fram frá. Karl stígr nú upp á smiðjuna og seilist þaðan til ræfrs, tekr hann þar ofan brynju, hjalm og skjöld, alt gagnryðgað, en er hann vildi stíga niðr, hrapaði smiðjan og hann fram á eldinn, en sinn veg hvert vapnið úr höndum honum. Ásmuudr lèt karl liggja en tók vopnin og skóf af ryðið, þá kom kerlíng að og mælti til Ásmundar: „Nú muntu, son minn, mega því halda, er þú hefir höndum á komið, því að eigi mun faðir þinn búa þig meir til vopnanna en hann hefir gjört, þar bæði er honum illt í skapi, og hann meiddist af eldinum, mun eg nú leggja það til við þik er lítt mun lið í þykja, og fá þèr kolsköru mína," selr hún honum þá í hendr sax mikið og svart en alleigulegt og mælti: „þetta sax fèkk eg at erfð eptir föður minn, hefi þó eigi farið með sem skyldi og skarað með því eld minn í viðlögum, haf það, son minn, og ber jafnan, mæli eg um, að upp hèðan snúist þèr hver hlutr til heilla og farsældar." Nú tekr Ásmundr við saxinu og gengr utar eptir skálanum að steini miklum er þar stóð, höggr síðan saxinu í steininn, en það nemr hvergi staðar og klýfr steininn niðr í gegn. Lítr Asmundr þá við, og sèr að kerlíng liggr dauð á gólfinu og gapir beint á hann; hafði hún dáið í því hann hjó steininn, því að það var fjörsteinn hennar, þótti Ásmundi þetta mikið og illt. Nú fara þeir af stað bræðr þrír saman og skilja við köld híbýli, báðu þeir þórir og Grímr Ásmund að fara eigi þann veg er þeir fóru áðr, og segja þar víst líftjón. Ásmundr gaf þar engan gaum að, og fór þann veg hinn sama; getr eigi ferða þeirra fyr en þeir kómu í skóg mikinn og síðan á mosa nokkura, sá þeir þar skála stóran og mann á gangi mikinn vexti; hann bar björn á baki, og stefndi að skálanum, átti þó enn þangað gildan spöl vegar. Jafnskjótt sem þeir Grímr og þórir sjá manninn flýgr þeim felmtr í brjóst og biðja Ásmund í ákafa fara eigi til skálans, „ella fám vèr allir bana," segja þeir; varð Ásmundr að reyta á þá mosa, og lágu þeir þar eptir, en Ásmundr fór til skálans, gekk þar inn opnar dyr, og lèt hurðu síga í halfa gátt, hljóp svo að baki hurðinni og stóð þar. Hundr rann fyrir risanum mikill og grimmlegr, en risinn fór seinna,

því hann hafði þúngt að bera, hleypr hundrinn geyst inn í skálann, en Ásmundr út með skyndi, og skellir aptr hurðinni, er nú rakkinn fyrir innan; kemr risinn þá heim og varpar niðr byrði sinni, dýrinu og fuglakippu mikilli, heilsar Ásmundr honum og mælti: „vel kominn, bóndi.“ „Aldrei skyldir þú vel kominn,“ segir risinn, „eðr hvar eru mannskræfurnar bræðr þínir, munu þeir nú hvergi framar bera hjartað en næst þá vèr hittumst, en af þèr mun eg illt hljóta, máttu þó flá með mèr dýrið ef þú vilt.“ „Hælumst vel um, bóndi,“ segir Ásmundr, „eða hvert er heiti þitt?“ „Úvant er það,“ segir risinn, „og heiti eg Naddr.“ Síðan flá þeir dýrið og verðr Ásmundr fyrri, vefr hann þá skinnið um hönd sèr og slær því um eyru Naddi, hann reiddist við og spurði hví illmennið berði sig. Ásmundr hló og kvað það títt þá tveir flæi saman að sá er fyrri yrði skyldi ljósta skinninu um eyru þeim er seinni varð. Þess getr skáldið:

„Ef mig skálkr skinni slær
skal þèr þetta leiðast.
Ásmundr stökkr upp og hlær:
ei muntu vilja reiðast.
Þeim er skylt sem fyrri flá
frægð að hrósa sinni,
eitt sinn hinum eyru slá
alblóðugu skinni.“

Spretta þeir þá upp Ásmundr og Naddr og taka að berjast í ákafa, verðr atgangr þeirra hinn harðasti, og sparir hvergi annan, heyrir rakkinn í skálann hvat um er, skilr að húsbóndi hans er illa staddr, og tekr að láta grimmlega og rífa hurðina, komst þó eigi út. Lauk svo viðskiptum þeirra Ásmundar og Naddar, að Ásmundr feldi Nadd og gekk af honum dauðum. Lágu bræðr Ásmundar á mosanum meðan þeir Naddr börðust og gægðust stundum upp undan. En er Naddr var fallinn tók Ásmundr til hlaups þangað er þeir lágu, kallaði hárri röddu, og kvað risann elta sig og bað þá duga sèr; gjörði hann það til raunar við þá; þeim ógnaði því meir, og grófu sig sem lengst niðr, reif Ásmundr þá af þeim mosann, og segir fall Naddar; urðu þeir þá yfrið fegnir, spruttu upp og gengu til skálans með Ásmundi, sýndu nú drengskap sinn, og veittu Naddi mörg högg og stór þar hann lá dauðr, tóku síðan hræ hans og brendu til ösku, gerði Ásmundr sèr þá kefli, gekk með það til hurðarinnar og lauk upp; hljóp rakkinn þá móti honum með uppspertum kjapti og vildi rífa hann, rak Ásmundr þegar keflið þvers um í gin honum, lagðist hann við það niðr og skreið til fóta Ásmundi, en tárin runnu eptir trýninu. Ásmundr klappaði þá rakkanum og mælti við hann þessum orðum: „Nú vil eg gjörast lánardrottinn þinn í stað Naddar, skaltú veita mèr alla slíka þjónustu sem þú veittir honum;“ stóð rakkinn þá upp, flaðraði við Ásmund

og fylgdi honum síðan, varð Ásmundi að honum hið mesta lið þá hann átti við illar vættir. Þess minnist sá er kvað:

„Ásmundr klappar hundi sín
og með orðum gladdi,
þú skalt alla æfi þín
þjóna mèr sem Naddi."

Fóru þeir svo brott þaðan, lètti Ásmundr eigi fyrr en hann fann Ólaf konúng og gjörðist hirðmaðr hans, reyndist hann hinn röskvasti í öllum mannraunum og fór jafnan með konúngi, hafði konúngr hann mjög kæran, var Ásmundr hvert sinn fremstr hirðmanna þar harðræðum skipti.

Þess er getið eitthvert sinn er Ólafr konúngr sat um kyrt eptir það hann hafði farið yfir Noreg og kristnað allan landslýð, fóru honum svo orð, að eigi mundi þá sá maðr í Noregi, er eigi hefði tekið við kristni jafnt við fjallgarð sem sjáfar síðu. Svo segir skáldið:

„Kristnað höfum vèr Noreg nú
nærri sjá sem fjöllum."

Hirðmenn svöruðu máli konúngs og segja: „Því síðr ætlum vèr alt fólk kristið í Noregi, að í eyju einni norðr fyrir landi býr kona sú er Þorgerðr heitir og kölluð er Höldatröll, hefir hún eigi trú tekið og setið lengi þar í eyjunni en engan skatt goldið, hafa þangað sendir verið menn nokkurum sinnum að heimta skattinn, en engir aptr komið, er Þorgerðr full fjölkýngis og hin vesta viðreignar." Konúngi þótti mikils um vert, og hafði þegar til orða við menn sína hvert nokkur vildi fara til eyjarinnar og sækja skattinn. Allir kváðust þess ófúsir, segja hverjum víst fjörtjón er gengi í greipr Þorgerði, og töldu öll tormerki, lauk svo að engi varð til ferðarinnar; talar konúngr þá til Ásmundar og biðr hann fara. Ásmundr mælti: „Lítt em eg þeirrar ferðar fær er allir skorast undan, en sökum þess að þèr biðið, herra, og eg veit mig manna skyldastan að gjöra það þèr vilið, skal eg ráðast til ferðarinnar hvað sem eptir kemr." Gladdist konúngr við orð Ásmundar og bað hann mæla drengja hepnastan, lætr þegar búa skip, og fær þar til þá menn er Ásmundr vill hafa og er þeir eru búnir, kveðr Ásmundr konúng og biðr hann leggja til með sèr giptu sína, segist hennar nú mjög þurfa, við slíkt sem at eiga sè. Konúngr játti því, sigla þeir Ásmundr síðan brott, greinir ekki um ferð þeirra, fyr en þeir koma til eyjarinnar og lenda þar einhversstaðar; sjá þeir á eyjunni bæ mikinn og reisilegan og þykjast víst vita að Þorgerðr muni þar bygð eiga. Þá mælti Ásmundr til manna sinna: „Nú skuluð þèr bíða mín hèr við skipið, en eg mun ganga heim til bæjar og vita hvað þar er títt." Þeir báðu hann fyrir sjá; gengr hann svo heim til bæjarins og er hann kemr þar, sèr hann ekki manna úti, gengr síðan umhverfis bæinn og ristir reita um hann alt í kríng. Ei var lokað dyrum, gekk Ásmundr inn og kallaði í hvert hús, en fann hvergi nokkurn mann. Um

síðir kom hann að húsi nokkuru langt innar í bænum, þar gekk hann inn, og sá hvar kona sat að saumum, úng og afbragðsfríð, kvaddi Ásmundr hana kurteislega, hún tók vel kveðju hans, og spurði hver hann væri og hvað hann hèti. Hann kvaðst heita Ásmundr og vera hirðmaðr Ólafs konúngs, spurði hana síðan að nafni og ætterni. Hún svarar: „Eg heiti Hlaðvör, móðir mín heitir Þorgerðr, ræðr hún hèr fyrir eyjunni og býr á þessum bæ, en faðir minn er andaðr.“ „Hvar er móðir þín nú?“ segir Ásmundr. „Hún er að föngum,“ segir Hlaðvör. „Nær kemr hún heim?“ segir Ásmundr. „Innan skams,“ segir Hlaðvör, „eða áttu erindi við hana?“ „Á eg víst,“ segir Ásmundr, „em eg sendr af Ólafi konúngi að sækja skatt þann, er hún hefir lengi haldið fyrir höfðíngjum í Noregi, kallar hann sèr nú skattinn þar hann er konúngr yfir landinu.“ Hlaðvör mælti: „Margir hafa híngað komið þess erendis, líst mèr svo að eigi sertú síðr en hverr þeirra, en það mun mælt að þèr takist giptulega, ef þú nær skattinum.“ Ásmundr mælti: „Viltu fara með mèr á fund Ólafs konúngs, er þèr það miklu betra en vera hèr við heiðni og forneskju.“ „Þess mun eg ótreg,“ segir Hlaðvör, „ef þú sigrar móður mína og nær skattinum, en þess vil eg biðja þig, ef þinn hlutr verðr meiri, að eigi gangir þú af móður minni dauðri, skaltú hèr og eigi lengi dvelja, því lítt er móður minni skapfelt að menn sè á tali við mig.“ Gekk Ásmundr þá út og brá sèr í leyni nokkuð við bæinn. Nú kemr Þorgerðr heim og sèr eigi Ásmund, gengr hún inn til dóttur sinnar og segir gesti komna. „Hvað er marks um það,“ segir Hlaðvör? Þorgerðr svarar: „Þá eg kom að bænum, sá eg rista reita um hann öllum megin og er eg gekk yfir reitina, hraun eg á fótunum, mun þeim að vísu meiri máttr fylgja, er þetta hafa gjört en öðrum sem oss hafa heimsótt.“ Gengr Þorgerðr þá út aptr og sèr þar Ásmuud, og mælti þegar: „Hèr ertu kominn, Ásmundr, kenni eg þig gjörla, draptu Nadd og fylgir þèr hundr hans, veit eg erindi þitt, þú átt að sækja skatt af eyju þessari fyrir Ólaf konúng.“ „Svo er sem þú segir,“ segir Ásmundr, „og skaltu nú gjöra annaðhvort, gjalda skattinn eða ganga af eyjunni.“ Þorgerðr svarar: „Á frest mun því skotið unz eg hefi reynt við þig hinar sömu listir sem aðra er komið hafa þess erindis, veit eg þó ei hvað veldr, að mèr stendr af þèr hiti.“ „Vera má að svo sè,“ segir Ásmundr, „og mun eg víst hætta til hvers er þú vilt reyna.“ Sú var fyrsta list Þorgerðar, að hún óð eld svo að hana sakaði ekki, lèt hún nú gjöra eldinn, gekk svo til og óð sem hún hafði áðr gjört, bað síðan Ásmund ganga til og gjöra slíkt ið sama, gekk Ásmundr þá að eldinum og gjörði krossmark yfir, óð hann við það eldinn og sakaði alls ekki. Önnur list var sú að taka skyldi sverð og höggva á beran fót Þorgerði, er hún lagði á stokk, höfðu þeir og þar til gengið, kómu og höggit öllu afli, en eigi beit á heldr en stein. Nú átti Þorgerðr að höggva, lagði Ásmundr fót sinn á stokkin og gjörði kross yfir, hjó Þorgerðr þá tveim höndum og hugði ekki af að draga, en

sverðið snerist í höndum henni og skar þær til meiðslu. Þá mælti Þorgerðr: „Eigi ertú einn að leiknum, Ásmundr, en þó er eigi fullreynt nema þrysvar sè, er enn eptir ein list, sem við skulum reyna, kveð eg á, að ef þú leikr hana eptir mèr, skal eg yfirgefa eyjuna og skipta mèr engu af henni þar í frá; skaltú nú ganga með mèr til smiðju minnar og skulum við hafa þar hitaleik.“ Sá leikr var Ásmundi ókunur, ganga þáu svo til smiðjunnar og sezt Ásmundr í aflgróf, fær Þorgerðr honum naglatein og biðr hann slá sex nagla og láta hvern vera glóanda. „skaltú,“ segir hún, „gleipa þrjá en eg aðra þrjá.“ Ásmundr gjörir sem hún mælti, slær hann tvo nagla hvern að öðrum og fær Þorgerði; hún tekr við og gleipir báða. Þá sló Ásmundr hinn þriðja og signdi, fèkk síðan Þorgerði, en hún fór með eins og hina. Jafnsnart sem sá nagli kom í munn henni brann hún mjög svo, og dró af henni mál og mátt allan, lá hún þar eptir, en Ásmundr gekk út og ofan til manna sinna, bað þá ganga til bæjarins og bera þaðan alla hluti fèmæta. Þeir gjörðu svo, gekk Ásmundr þá til Hlaðvarar og segir henni hve farið hafi með þeim Þorgerði og hvar þá var komið efnum hennar, spyr síðan hvort hana skal flytja brott eða láta þar kyrra. Hlaðvör mælti: „Lítt mun móðir mín eðli eiga við aðra menn, og mun hún hníga til ættar sinnar, er því best að hún sè hèr kyrr látin.“ Lèt Ásmundr þá taka fè alt og gripi sem þar fundust og bera til skips, tók síðan Hlaðvöru og flutti með sèr, en Þorgerðr var eptir og er hún úr sögunni. Sigldu þeir Ásmundr brott við svo búið, fórst þeim vel og fundu Olaf konúng, hann fagnaði Ásmundi, og bað hann hafa þökk fyrir ferðina, færði Ásmundr konúngi fè það alt er hann tók í eyjunni og var það allmikið. Síðan var Hlaðvör leidd fyrir konúng og þótti kvenna vænst og gjörvilegast, var hún þá skírð og kristnuð. Að því gjörðu hóf Ásmundr upp orð sín og bað konúng gipta sèr Hlaðvöru, kvað hann eiga sjá fyrir kosti hennar, konúngr svarar vel og segir engan þess ráðs maklegra, varð það af að Ásmundr festi Hlaðvöru, en konúngr hèlt brúðlaup þeirra, lèt hann síðan fólk í eyjuna til bygðar en þau Ásmundr og Hlaðvör vóru með honum í góðu yfirlæti.

Nokkru síðar kom sá kvittur fyrir Olaf konúng að enn mundu þeir menn við fjallgarð nokkuð úr almanna bygð, er ei hèldu kristinn sið, var til þess greint inuvirðilega fólk nokkuð er byggi í afdal einum norðr frá Naumudal, væri fátt á bæ, fremdi fyrnsku og tryði á kvikindi nokkuð óskapligt. Konúngr undraðist það og vildi víst vita hið sanna; lèt hann búa ferð sína snarlega og reið svo norðr til dalsins; með honum var Ásmundr, fylgdi honum þá sem jafnan rakkinn Naddarnautr. Tveir menn eru nefndir aðrir Grímr og Sigurðr, þeir vóru vaskir og vel að sèr; riðu þeir nú sem leið lá og úr almenníngsbygð unz þeir kómu í dal nokkurn, sá þeir þar mikinn húsabæ og stefndu þangað; en er þeir kómu nærri bænum reið konúngr undan og kríngum allan bæinn, var þar ekki

manna úti. Litlu síðar kom út maðr gamall, hann heilsaði konúngi og segir hann velkominn og menn hans og bauð honum til stofu. Konúngr þiggr það og gengr inn og þeir allir. Þar vóru góð híbýli og stofan vönduð að hvívetna, reis þar brátt upp væn veizla og skorti eigi gott öl nè önnur drykkjaföng; kom kerlíng þá í stofuna og son þeirra karls en dóttir þeirra sat á palli í stofunni við sauma og var bæði úng og fríð. Nú fer veizlan fram sköruliga, en konúngr litast einatt um, hvort enga nýlyndu sjái hann meiri. Karl er hinn beinasti og biðr konúng hafa lítilæti að eta þar mat. Konúngr kvaðst það þiggja vilja. Kemr þegar í stofuna kvikindi ferlegt og skríngilegt og heldr á dúki forkunnar vænum, var sá víða dreginn gulli og hin mesta gersemi, gengr kvikindið framan að borðinu og breiðir þar á dúkinn, var þetta fulltrúi karls og kerlíngar og sonar þeirra, en dóttir þeirra veitti honum engan átrúnað og amaðist æ við honum, deildu þær opt af því mæðgur, var þetta ekki annað en hestskökull, er þau karl og kerlíng höfðu blótað og magnað svo miklum fjandans krapti að hann gekst um með þeim sem maðr og starfaði að öllu er þau þurftu, fór líka í ymsa staði, stal fè og gersemum og dró til þeirra. Nú furðar konúng tvent í senn, fyrst hví sá er herfilegr sem breiðir dúkinn, í annan stað hversu fríðr að er dúkrinn, þykir konúngi hann sæmileg eign dýrri mönnum. Ásmundr sat fyrir ofan borðið, hann tekr til orða og spyr hvaða fjandi það sè sem dúkinn breiðir. Kerlíng heyrði það og mælti: „Engum manni þoli eg að lasta guð minn.“ „Er þessi guð þinn?“ segir konúngr. „Svo er víst,“ segir kerlíng, „trúum vèr á hann öll þrjú, bóndi minn, eg og sonr okkar, en dóttir mín er svo illa skapi farin, að hún veitir honum enga þjónkan hvernig sem eg beiði.“ „Á guð þinn nafn nokkuð,“ segir konúngr? „Á hann víst,“ segir kerlíng, „og heitir Völski.“ Í þessu kemr matr á borðið, var það bjarnarslátr og endikólfar digrir og stórkostlegir. Þess getr skáldið:

„Þar var á borðum bjarnarslátr og bjór í könnu
endikólfar ósmáleitir,
undrast þetta kongsins sveitir.“

Þá mælti konúngr: „Þess erindis em eg hèr kominn, að boða yðr kristni, skuluð þèr eigi lengr trúa á djöful þenna, heldr á guð almátkan er skóp himin og jörð og alla hluti.“ Kerlíng svarar: „Svo líst mèr, konúngr, sem eigi muni sá guð er þú boðar draga meira til mín af dýrgripum og öðrum gæðum en þessi er eg hefi lengi þjónað.“ Konúngr mælti: „Ei er sá annað er þú hefir þjónað en illr andi, sem þèr hafið ragnað að yðr úr helvíti með vondum ummælum, hefir hann það eina dregið til yðar er hann stal aðra en ætlar yðr að lyktum eilífa tapan lífs og sálar.“ Talaði konúngr úr þessu langt erindi og snjallt og boðaði þeim rètta trú. Kerlíng mælti fast í móti, og bað konúng eigi fara með þá heimsku að hún tryði á annan guð en Völska hvað sem í gjörðist. Nú gengr Völski

um beina og þjónar fyrir borðinu, verðr svo að hann seilist yfir það þar til er Ásmundr sat; hann stendr skjótt upp ok tekr til Völska, hrindr honum áfram og biðr fjandann brott dragast, tryllist Völski þegar og tekr til Ásmundar, en hann hrindr fram borðinu með öllu því á var, slær þar í hörð átök með þeim Völska, rís kerlíng upp við það og ræðst á konúng, karl á Sigurð, og karlsson á Grím, en mærin sat kyr og skipti sèr engu af, verða nú harðar sviptíngar með þeim öllum, því engan skorti aflsmuni, gengr þá flest úr lagi sem í var stofunni en mart brotnar; verðr það fyrst tíðinda, að kerlíng kemr konúngi á annað knè, tekr hann henni þá hryggspennu, keyrir hana á bak aptr og brýtr í henni hrygginn, lèt hún svo líf sitt; var fyrst úti viðreign þeirra konúngs, sagði konúngr svo síðan að ei hefði hann tekist á við meira flagð en kerlíng var; hleypr konúngr nú þar til, er þeir eigast við Ásmundr og Völski, þótti honum Ásmundr mjög liðsþurfi en hinir minnr; gengust þeir að allgrimmlega Ásmundr og Völski, lèt rakkinn og í frammi slíka grimð er hann hafði til og reif Völska óþyrmilega, eru þeir nú um hann þrír saman, konúngr Ásmundr og rakkinn, og hafa allir fullt í fangi; verðr það þessu næst að Sigurðr banar karlinum, því hann mæddist fyrir elli sakir, og eigi löngu síðar Grímr syni karls, hafði þeirra sókn verið hin harðasta, því báðir vóru æskumenn og allsterkir, skunda þeir síðan til liðs við þá konúng og Ásmund; eiga þeir svo allir fjórir við Völska; varð það loks eptir langa þraut með guðs miskunn og giptu Ólafs konúngs að þeir gátu stigið yfir þann fjanda, vóru þó allir mjög þrekaðir; sagði Ásmundr svo síðan, að aldrei hefði hann átt við slíkt ofrefli sem Völska nè í slíka raun komið; er það sumra manna sögn að úr því væri Ásmundr styggri í lund en áðr. Lauk svo þessum atgangi. Nú tekr karlsdóttir að gráta, ei svo skarð ættar sinnar sem hitt er hún ætlaði að konúngr mundi láta hana taka gjöld fyrir illvirki foreldra hennar og drepa hana á fætr þeim. Konúngr fann það brátt og bað hana vera glaða, lèst eigi annað hyggja um ráð hennar en það er vel gegndi, „skaltú,“ segir hann, „fara með mèr og taka kristni, mun eg þá gjöra hlut þinn svo góðan að þú megir vel við una.“ Lèt nú konúngr taka það alt er fèmætt var á bænum; var þar mikill auðr saman kominn og mart góðra gripa, bað síðan brenna bæinn og þá þar inni er látist höfðu, og lèst eigi vilja að illmenni drægist þangað; var það svo alt brent til ösku. Þá mælti konúngr til Ásmundar: „Nú mun eg auka nafn þitt og kalla þig Ásmund flagðagæfu, þykir mèr sem fæstir menn þeir, er nú lifa hafi slíka gæfu til að vinna flögð og óvættir sem þú.“ „Góð eru orð þín,“ segir Ásmundr, „eu hvat skal fylgja nafni?“ Konúngr gaf honum gullhríng og kvað hann skyldu hafa það í nafnfestu, var hann síðan kallaðr Ásmundr flagðagæfa og bar það kenníngarnafn meðan hann lifði. Eptir þetta fór konúngr heim og flutti með sèr karlsdóttur. Svo segir skáldið:

„Döglíng flutti dóttur karls úr dalnum norðan,
sú ei hafði galdr gjörðan,
geðsöm þótti hrínga skorðan.“

Svo er sagt að einhverntíma eptir þetta fór Ásmundr að vitja föður síns, og fann hann þá enn lífs, og er þeir hittust þekti karl eigi son sinn og spurði hver hann væri. Ásmundr mælti: „þá man eg dagana að þú kendir mig er þú fèlst af smiðju þinni á eldinn og varst kominn að dauða.“ þess getr sá er kvað:

„þú þektir mig þá kýminn karl
kominn í illa hneisu
er þú fèkst það feikna fall
flatr í miðri eisu.“

Lýkr hèr svo inntaki söguþáttarins af Ásmundi flagðagæfu.[1]

**Veiðimanna-þáttur.** (Frá Jóni Borgfirðing á Akureyri.) Bjarni er maður nefndur, og var Jónsson; hann bjó á Húsafelli í Borgarfirði. Hann lagði sig í æsku til veiðiskapar á Arnarvatnsheiði, og hafði fyrir lagsmann gamlan karl að nafni þórhalla, og fór með honum á hausti hverju fram á fjall að veiða á dorg. Einn dag, þegar Bjarni hafði leitað víða um tjarnirnar, fór hann til skála þeirra að kvöldi, og beið svo leingi fram á nótt eptir lagsmanni sínum. Hann heyrði úti dunur miklar og hark, og lèt hann það ekki hræða sig. Loksins kom þórhalli blár og blóðugur. Bjarni spyr, hvað hefði valdið burtuveru hans og býsnum þeim, er hann hefði heyrt. þórhalli kvað tröllkarl hafa komið og viljað taka veiði sína, og haft í hótum að drepa sig, ef hann synjaði. En hann sagðist hafa varið veiðina með brunnvökunni, sært tröllið og ráðizt síðan á það, og að lyktum sigrað það og drepið. Framar mælti hann: „þú skalt ekki kippa þèr upp við það, þó kerlíng hans komi einhvern tíma að hefna bónda síns, og glími við þig.“ Nokkrum árum síðar dó þórhalli karl; en Bjarni gjörðist foríngi veiðimanna, og hafði marga fèlaga. Eitt haust mæltu þeir mót með sèr, hvenær fara skyldi til veiðanna; en þann dag var veður válegt,[2] svo þeir fóru hvergi. En sem áleið daginn, batnaði veðrið; tók þá Bjarni sig að heiman, og gjörði sèr í grun, að fèlagar sínir mundu koma; hèlt hann svo áfram til fiskiskálans. Var þá einginn þeirra þar kominn. Tók hann þar af hestum sínum, bjóst um í skálanum, kveykti

1. Báðar sögurnar Ásmundar og Jóns Upplendíngakonúngs (s. Draugasögur) eru með eigin hönd sira Eyjólfs á Völlum († 1745), og eru því frumrit. Rímurnar af Ásmundi munn nú vera tapaðar. Sira Eyjólfr var merkr fornfræðíngr, eptir hann eru til ritgjörðir um fornfræði þó alt óprentað, t. d. „bóndi,“ nöfn íslensk og þýðingar þeirra sem tíðkuðust um hans daga í stafrofsröð, og hefir hann þar aukið við nafnaskrá móðurföður síns sira Odds á Reynivöllum í Kjós. Eptir sira Eyjólf er og til skýríng á Vafþrúðnismálum (ekki góð). Sira Gunnar Pálsson lærði í úngdæmi sínu hjá sira Eyjólfi. G. V.

2. Aðrir: ósýnt.

eld, mataðist og lagðist síðan til svefns. En jafnskjótt og hann sofnar, heyrir hann úti dunur og hark mikið, og virtist honum, sem skálinn mundi ofan hrynja; bar þetta svo bráðan að, að hann fèkk naumlega tóm, til að rísa á fætur. Ekkert hafði hann vopna, nema ísabroddstaf sinn. Bjarni grípur hann, og minnist nú forspár Þórhalla karls, og hleypur út í dyrnar, að verja sig. Sèr hann þá, hvar tröllkona stígur stórum að dyrunum; og sem hún sèr hann með broddstafinn í hendi, verður henni hverft, sneri bakhlutanum að dyrunum, frat og hugði að kæfa hann með óþefjan þeirri. Bjarni kendi banvænnar fýlu, en gekk alt að einu fram, og eggjaði skessuna til einvígis; en hún óttaðist fleininn og fór undan. Elti hann hana þess ákafar um auðn og sanda, sem hún hvataði meir undanhaldinu, þar til hann skaut broddinum milli herða henni, svo hann gekk á hol, en hún fèll dauð niður. Bjarni tók stafinn úr sárinu, sneri heim til skála síns, og varð ekki svefnsamt, það eptir var næturinnar. Um morguninn tók hann sig upp, og fór heim í bygð til fèlaga sinna, og lýkur hèr frá honum að segja.[1]

**Þorleifur beiskaldi.** Þorleifur bjó í Hítardal alt fram um 1200, eptir því, sem annálar segja. Hann var höfðíngi mikill og kemur mjög við sögu seinni tíma.[2] Um hann er og þessi saga. Þorleifur var svo auðugur að gángandi fè, að einginn ketill var svo stór, að hann tæki alla málsmjólkina undan kúnum hans. Kona hans bað hann því að fara í næsta kaupstað, til að reyna, ef hann feingi keypt ketil nógu stóran. Þorleifur fór og leitaði fyrir sèr um ketilinn hjá mörgum kaupmönnum, en það var árángurslaust, því einginn þeirra gat selt honum svo stóran ketil. Loksins kemur til hans maður, er Þorleifur þekti ekki, og býður honum ketil geipistóran; en eins voru kaupskilmálar hans óvanalegir, eins og vara sú, er hann lèt fala. Hann áskildi sumsè sèr fyrir ketilinn kálf undan kvígu einni, er Þorleifur átti, þegar hún bæri, og þar með skyldi bóndi ala kálfinn í 3 ár, og kvað maðurinn líf hans mundi við liggja, ef hann brygði af því. Þorleifur gekk að þessum kaupum, því þó honum þæktu þau undarleg, litust honum þau þó góð, og fer heim með ketilinn.

1. Þessa sögu hefir Hallgrímur Jónsson, djákni að Þingeyraklaustri, sett í „Uppteiknunar tilraun skálda og lærðra manna íslenzkra, einkum rithöfunda &c. með stuttu æfiágripi nokkurra þeirra,“ er hann hefir samið. Hallgrímur segist tilfæra söguna „uppteiknaða af prófasti Þorsteini Pèturssyni á Staðarbakka eptir Páli lögmanni Vídalín, er hann (Páll) virti hana svo mikils að rita hana á latínu in recensu poëtarum sec. XVI et XVII, og gaf einga addubitationem nè epicrisin yfir hana, svo merkur maður og lærður criticus, sem Páll Vídalín var.“ Hallgrímur ætlar, að þessi frásögn sè hin síðasta af tröllasögum á voru landi. Hann segir um Bjarna, að hann hafi verið kallaður skáldi og talinn mikill ljóðasmiður og með betri skáldum. Fyrirsögnin er tekin eptir handritinu frá Jóni Borgfirðíng, eins og sagan sjálf, sem var nálega orðrètt, eins og Hallgrímur hefir tilfært hana.

2. Sbr. Sturlúngasögu II, 28. kap. Húngurvöku 15. kap. og Páls biskups sögu, 20. kap.

Líður nú að því, er kvígan ber, og er það bolakálfur, er hún á. Kálfurinn var bæði stór og fallegur. En þegar hið fyrsta ár varð hann úfinn og illur viðfángs, og annað árið svo mannýgur, að Þorleifur hèlt það bezt af ráðið að drepa hann, en þótt loforð hans stæði í milli. Þegar það ár var liðið, var þrívegis barið að dyrum hjá honum, eins og einhver væri seint á ferð, er vildi beiðast gistíngar. Gekk svo einn heimamanna út, en sá eingann. Var þá aptur barið og fór annar út, og var eingan að sjá. Þegar barið var hið þriðja sinn, vildi einginn heimamanna Þorleifs verða til þess að gánga út; hann fór því sjálfur til dyra, enn þótt hann grunaði þegar, að útsèð væri um sig. Hann kom ekki heldur aptur; en daginn eptir mátti rekja blóðferilinn frá bænum og að hól einum þar nálægt, og hingað og þángað um dalinn sáust tætturnar af líkama Þorleifs og fötum hans, og er sagt, að mörg örnefni í dalnum sèn af því dregin.[1]

**Gilitrutt.** (Eptir sögu gamallar konu úr Rángárþíngi.) Einu sinni bjó úngur bóndi austur undir Eyafjöllum. Hann var ákafamaður mikill og starfsamur. Þar var sauðgánga góð, sem hann var, og átti bóndi margt fè. Hann var nýkvæntur, þegar þessi saga gjörðist. Kona hans var úng, en duglaus og dáðlaus. Hún nenti ekkert að gjöra, og skipti sèr lítið af búinu. Þetta líkaði bónda mjög illa, en gat þó ekki að gjört. Eitt haust fèkk hann henni ull mikla, og bað hana, að vinna hana til vaðmála um veturin, en konan tók ekki líflega undir það. Leið svo fram á vetur, að konan tók ekki á ullinni, og ámálgaði þó bóndi það opt. Einu sinni kemur kerlíng ein heldur stórskorin til konunnar, og bað hana, að greiða eitthvað fyrir sèr. „Geturðu unnið nokkuð fyrir mig í staðinn?“ segir konan. „Til er það,“ segir kerlíng, „eða hvað á eg að vinna?“ „Ull til vaðmála,“ segir konan. „Fáðu mèr hana þá,“ segir kerlíng. Konan tekur þá ákaflega stóran ullarpoka og fær henni. Kerlíng tekur við sekknum, snarar honum á bak sèr, og segir: „Eg skal koma með voðina á sumardaginn fyrsta.“ „Hvað viltu hafa i kaup?“ segir konan. „Það er nú ekki mikið,“ segir kerlíng, „þú skalt segja mèr nafn mitt í þriðju gátu, og erum við þá sáttar.“ Konan játti því, og fer nú kerlíng burtu. Líður nú fram veturinn, og spyr bóndi hana opt, hvar ullin sè. Hún segir hann það eingu skipta, en hann skuli fá hana á sumardaginn fyrsta. Bóndi lèt sèr fátt um finnast, og líður nú fram á útmánuði. Þá fer konan að hugsa um nafn kerlíngar, en sèr nú eingin ráð til að komast eptir því. Varð hún nú áhyggjufull og hugsjúk af þessu. Bóndi sèr, að henni er brugðið, og bað hana segja sèr, hvað að henni geingi. Hún sagði honum þá upp alla sögu. Varð þá bóndi hræddur, og segir, að nú hafi hún illa gjört; því þetta muni tröll vera, sem ætli að taka hana.

1. Eptir Dr. Maurers Isl. Volkss. 41—42 bls.

Einu sinni seinna varð bónda geingið upp undir fjallið, og kom hann á grjóthól einn stóran. Hann var að hugsa um raunir sínar, og vissi varla af sèr. Þá heyrist honum högg í hólnum. Hann geingur á hljóðið, og kemur að smugu einni. Sèr hann þá, hvar kona ein heldur stórvaxin situr að vef. Hefir hún vefinn milli fóta sèr, og slær hann mjög. Hún kvað fyrir munni sèr þetta: „Hæ, hæ, og hó, hó. Húsfreya veit ei, hvað eg heiti; hæ, hæ, og hó, hó. Gilitrutt heiti eg, hó, hó. Gilitrutt heiti eg, hæ, hæ, og hó, hó.“ Þetta lèt hún alt af gánga, og sló vefinn í ákafa. Bóndi varð glaður við, og þóktist vita, að þetta mundi vera kerlíng sú, sem hafði fundið konu hans um haustið. Hann fer síðan heim, og ritar hjá sèr á miða nafnið „Gilitrutt.“ Ekki lèt hann konu sína heyra það, og kom nú hinn síðasti vetrardagur. Þá var húsfreya mjög ángurvær, og fór hún ekki í klæði sín um daginn. Bóndi kemur þá til hennar, og spyr, hvort hún viti nafn vinnukonu sinnar. Hún kvað nei við, og segist nú ætla að harma sig til dauða. Bóndi segir, að þess þurfi nú ekki við, fèkk henni blaðið með nafninu á, og sagði henni upp alla sögu. Hún tók við blaðinu, og skalf af hræðslu; því hún óttaðist, að nafnið kynni að vera rángt. Biður hún bónda að vera hjá sèr, þegar kerlíng komi. Hann segir „nei, og varstu ein í ráðum, þegar þú fèkkst henni ullina, svo það er bezt, að þú gjaldir ein kaupið.“ Fer hann burtu síðan. Nú kemur sumardagurinn fyrsti, og lá konan ein í rúmi sínu, en einginn maður annar var í bænum. Heyrir hún þá dunur miklar og undirgáng, og kemur þar kerlíng, og er nú ekki frýnileg. Hún snarar inn á gólfið vaðmálsstránga miklum, og segir: „Hvað heiti eg nú, hvað heiti eg nú?“ Konan var nær dauða en lífi af ótta, og segir: „Signý?“ „Það heiti eg, það heiti eg, og gettu aptur, húsfreya,“ segir kerlíng. „Ása,“ segir hún. Kerlíng segir: „Það heiti eg, það heiti eg, og gettu enn, húsfreya!“ „Ekki vænti eg, að þú heitir: Gilitrutt?“ segir þá konan. Kerlíngunni varð svo bilt við þetta, að hún datt kylliflöt niður á gólfið, og varð þá skellur mikill. Rís hún upp síðan, fór burtu, og sást aldrei síðan. Konan varð nú fegnari, en frá megi segja, yfir því, að hún slapp frá óvætti þessum með svona góðu móti, og varð nú öll önnur. Gjörðist hún iðjusöm og stjórnsöm, og vann æ síðan sjálf ull sína.

**Jóra í Jórukleyf.** (Eptir sögn manna í Árnessýslu og Gullbringusýslu.) Jórun hèt stúlka ein; hún var bóndadóttir einhverstaðar úr Sandvíkurhrepp í Flóanum; úng var hún og efnileg, en heldur þókti hún skapstór. Hún var matselja hjá föður sínum. Einhvern dag bar svo við, að hestaat var haldið skamt frá bæ Jórunar; átti faðir hennar annan hestinn, er etja skyldi, og hafði Jórun miklar mætur á honum. Hún var viðstödd hestaatið og fleiri konur; en er atið byrjaði, sá hún, að hestur föður hennar fór heldur halloka fyrir. Varð Jórun svo æf við það og trylt, að hún óð

að hinum hestinum og reif undan honum lærið;[1] hljóp hún þegar með það, svo ekki festi hönd á henni upp að Ölfusá hjá Laxfossi, þreif þar upp bjarg eitt mikið úr hömrunum við ána, og kastaði því nálega út á miðja á; síðan hljóp hún yfir á stillum þessum og mælti um leið:

„Mátulegt er meyarstig
mál mun vera að gipta sig.“

Heitir þar síðan Tröllkonu-hlaup, aðrir segja Jóru-hlaup. Þar hèlt hún upp Ölfus, austan undir Ingólfsfjalli, og upp í Grafníng, uns hún kom að hamragili því, sem liggur vestur úr Grafníngi, skamt frá Nesjum; eptir því fór hún, og linti ekki á, fyrr en hún kom upp í Heingil. Þar tók hún sèr bólfestu, og er þar síðan kallaður Jóruhellir, og varð hið versta tröll, og grandaði bæði mönnum og málleysíngum. Þegar Jóra var sezt að í Heinglinum, var það siður hennar, að hún gekk upp á hnjúk einn í Heinglafjöllum, og sat laungum þar, sem síðan heitir Jórusöðull; er hann skamt frá sjónarhól hennar á háfjallinu. Af sjónarhól skygndist hún um eptir ferðamönnum, sem um veginn fóru, bæði um Grafníng fyrir vestan Þíngvallavatn, og um Dyraveg norðan undir Heinglinum, sem liggur skamt frá hamragili því, sem áður er nefnt og heitir enn í dag Jórukleyf, af því Jórun lá þar opt fyrir ferðamönnum til að ræna þá eða drepa, eptir það hún var búin með hestlærið. Þar með gjörðist hún svo ill og hamröm, að hún eyddi bygðina í nánd við sig, en vegirnir lögðust af. Þókti bygðamönnum svo mikið mein að þessari óvætt, að þeir gjörðu mannsöfnuð til að ráða hana af dögum; en eingu feingu þeir áorkað að heldur.

Nú þegar í þessi vandræði var komið, og eingin ráð feingust til að vinna Jóru, því svo var hún kölluð eptir það hún tryltist, nè heldur til að stökkva henni á burtu varð til úngur maður einn, sem var í förum landa á milli, og var um vetur í Noregi. Hann gekk fyrir konúng einn dag, og sagði honum frá meinvætti þessum, sem í Heinglinum byggi, og bað konúng kenna sèr ráð, til að ráða tröllið af dögum. Konúngur segir, að hann skuli fara að Jóru um sólar uppkomu á hvítasunnumorgun: „því ekki er svo vond vættur, nè svo hamramt tröll til, að ekki sofi það þá,“ segir konúngur. „Muntu þá koma að Jóru sofandi, og mun hún liggja á grúfu. Er hèr öxi, er eg vil gefa þèr,“ segir konúngur, og fèkk honum um leið öxi silfurrekna, „og skaltu höggva henni milli herða

1. Jóhannes Lund í Gullbringum hefir sagt svo frá, að Jórun hafi búið í Helliskoti í Mosfellssveit, og hafi hún átt hest bleikan að lit, og látið etja honum á hestaþíngi austur í Flóa. En sökum annríkis komst hún ekki til að fylgja hestinum sjálf, og lèt því húskarl sinn, er Barði er nefndur, fara með hestinn austur. En er hann kom aptur, spurði hún Barða, hvernig Bleikur hefði bitizt. Hann sagði, að brúnn hestur úr Flóanum hefði bitizt betur. Við það átti Jórun að hafa orðið óð, þrifið Barða og kæft hann í skyrkeraldi sínu, er hún skamtaði úr veturinn eptir, en tryltist gjörsamlega, er hún sá bóla á honum á útmánuðum, og úr því er eptir frásögu Jóhannesar mjög blandað málum um Jóru og Kötlu í Kötlugjá.

tröllsins. Mun þá Jóra vakna, er hún kennir sársaukans, snúa sèr við og segja: „Hendurnar fastar við skaptið.“[1] þá skaltu segja: „Fari þá öxin fram af.“[2] Mun hvorttveggja verða að áhrínsorðum, og mun Jóra velta sèr niður í vatn það, sem þar er ekki lángt frá, er hún liggur í Jórukleyf,[3] með axarblaðið milli herðanna. Mun axarblaðið síðan reka upp í á þá, sem við hana mun kend verða, þar munu Íslendíngar síðan velja sèr þíngstað.“ Svo mælti konúngur; en maðurinn þakkaði honum ráðin og axargjöfina. Fór hann síðan út til Íslands, og fór að öllu, sem konúngur hafði fyrir hann lagt, og banaði Jóru. Rættist öll spá konúngs, og rak axarblaðið í á þá, sem síðan heitir Öxará, þár sem Íslendíngar settu alþíng sitt.[4]

**Katla eða Kötlugjá.** (Austan úr Mýrdal.) það bar til eitthvert sinn á þykkvabæarklaustri, eptir að það var orðið múnkasetur, að ábóti, sem þar bjó, hèlt matselju eina, er Katla hèt; hún var forn í skapi og átti hún brók þá, sem hafði þá náttúru, að hver, sem í hana fór, þreyttist aldrei á hlaupum; brúkaði Katla brók þessa í viðlögum; stóð mörgum ótti af fjölkyngi hennar og skaplyndi og jafnvel ábóta sjálfum. þar á staðnum var sauðamaður, er Barði hèt; mátti hann opt sæta hörðum ávítum af Kötlu, ef nokkuð vantaði af fènu, þegar hann smalaði. Eitt sinn um haust fór ábóti í veizlu og matselja með honum og skyldi Barði hafa rekið heim alt fèð, er þau kæmu heim, fann nú ei smalamaður fèð, sem skyldi; tekur hann því það ráð, að hann fer í brók Kötlu, hleypur síðan sem aftekur og finnur alt fèð. þegar Katla kemur heim, verður hún brátt þess vís, að Barði hefir tekið brók hennar; tekur hún því Barða leynilega og kæfir hann í sýrukeri því, er að fornum sið stóð í karldyrum og lætur hann þar liggja; vissi einginn, hvað af honum varð, en eptir því, sem leið á veturinn og sýran fór að þrotna í kerinu, heyrði fólk þessi orð til hennar: „Senn bryddir á Barða.“ En þá hún gat nærri, að vonzka hennar mundi uppkomast og gjöld þau, er við lágu, tekur hún brók sína, hleypur út úr klaustrinu og stefnir norðvestur til jökulsins og steypir sèr þar ofan í,

1. Aðrir segja: „Festist hendur við skapt,“ eða „verði hendur við skapt fastar.“

2. Aðrir segja: „En öxin losni af skaptinu,“ eða „en losni öxin af skaptinn.“

3. Sagan af Herði Grímkelssyni ber ljósast vitni um það (í 11. og 19. kap.), að Jórukleyf sè í Grafníngi, en ekki fyrir ofan Hofmannaflöt með Ármannsfelli, þegar riðið er upp af fletinum upp undir Sandkluptavatn, eins og Norðlendíngar segja; því það gil heitir Kluptir eða Sandkluptir, og er það gil svo nefnt bæði í Harðar sögu, 5. og 10. kapít. og í Sturlúnga-sögu, I, 21, og 22. kap., 39. og 41. bls.

4. Hèr greinir munnmælin mjög á við það sem segir í Landnáma-bók, V, 12. kapít. um upprunann til Öxarárnafnsins, eins og munnmælin sjálf innbyrðis; því eptir þessari frásögn, sem hèr er fylgt, hefði Noregskonúngur sá, sem getið er í sögunni, líklega átt að vera Haraldur hárfagri; en eptir annari sögu átti það að vera Ólafur konúngur Tryggvason.

að menn hèldu, því hún sást hvergi framar; brá þá svo við, að rètt þar eptir kom hlaup úr jöklinum, er helzt stefndi á klaustrið og Álptaverið; komst þá sá trúnaður á, að fjölkyngi hennar hefði valdið þessu; var gjáin þaðan í frá nefnd Kötlugjá og svæðið, er hlaup þetta helzt eyddi, Kötlusandur.[1]

**b)** Stundum er það hefnd fyrir einhverjar mótgjörðir, er knúð hefir tröll til að gjöra mennskum mönnum mein og tjón.

**Sóttarhellir.** Einu sinni fóru 18 manns í fjallgaungur úr Fljótshlíð og settust að í helli einum, til að hvíla sig. Sáu þeir þá út úr hellinum æfagamla tröllkonu og dróu dár að henni; en einn þeirra tók eingan þátt í því, og leitaðist við að aptra hinum frá því, þó það kæmi fyrir ekki. Tröllkonan bað þeim þá bölbæna, svo að þegar tók drepsótt þá alla, nema þann einn, er ekki hafði móðgað kerlu. Þeir dóu allir í hellinum og heitir hann síðan „sóttarhellir.“

**Óvættur við Fossárfoss.** Óvættur ein bjó við Fossárfoss ofarlega í Þjórsárdal, og lifði á silúngi, sem hún veiddi í fossinum. Einu sinni fleygði únglíngspiltur, sem fór með öðrum ferðamönnum þar um, grjóti í ána. En nóttina eptir kom hún að tjaldinu, þarsem þeir sváfu, og ætlaði að draga hann út, og tók í því skyni í fæturna á honum; en lagsmenn hans tóku í efri hluta piltsins og hèldu honum. Eptir lángar stimpíngar slepti tröllkonan tökum og fór leiðar sinnar; en pilturinn lá fullan mánuð eptir þessar misþyrmíngar.[2]

**Bóndinn á Gnúpum.** Bóndi einn á Gnúpum í Þíngeyarsýslu dreymdi að honum þókti kona koma til sín og kvarta yfir því, að börn hans fleygðu grjóti í stöðuvatn eitt þar nærri, því við það stygðist silúngurinn, sem hún ætti að lifa af. Bóndi skeytti þessu ekki og þókti þess ekki þörf, að banna börnum sínum alvarlega athæfi þeirra; fóru þau því hinu sama fram eptir sem áður, að þeyta steinum í vatnið. Hin sama kona kom þá í annað sinn til bóndans í svefni og hótar honum að hefna sín. Veturinn eptir bar það við eitt kvöld, að allir gluggar voru brotnir á bænum. Bóndi þaut út, til að sjá, hver hefði leikið þenna hnykk; en hann sá

1. Þessi frásögn er nálega orðrètt, eins og í „Eldritum“ sèra Jóns Steingrímssonar á Kirkjubæar klaustri († 1791), sem svo eru nefnd, og segist hann taka hana eptir „æfintýra og ýmsra frásagna skruddu eptir Einar Þorsteinsson, sem var bæði sýslumaður og klausturhaldari“ í Skaptafellssýslu „öndverðlega á liðinni öld“ (1652—1683); hann neitar og gjörsamlega þeirri frásögn um Kötlu, sem Eggert Ólafsson hefir fylgt í „Kötlu-gylling,“ 12. er. og neðanmálsgreininni við það (sbr. Kvæði Eggerts Ólafssonar, Kh. 1832, 200.—201. bls.), að smalinn hafi heitið Skúli, og Katla hafi komið honum í skyrsá, og um spor Kötlu, er hún stökk í gjána.

2. Sbr. Dr. Maurers Isl. Volkss. 44.—45. bls.

eingan, og ekki heldur nein spor í snjónnm, er var nýfallinn, hvorki eptir menn nè skepnur. Í annað sinn var ljósið á borðinu drepið, eins og með mannshendi, án þess komið yrði auga á neinn. Fór þá stúlka fram í eldhús að kveykja aptur, er hún gat ekki komið ljósloga upp í eldstónni. Þrysvar reyndi hún til að kveykja og þrysvar var ljósið drepið fyrir henni aptur jafnharðan; fór þá bóndinn sjálfur til, og honum tókst að kveykja eptir lánga mæðu. Eitt sinn var fleygt af ósýnilegri hendi þúngum og þykkum skóm rètt í ennið á bóndanum; við það reiddist hann og fleygði skónum aptur í sömu átt, er þeir voru komnir úr; en þá var þeim grýtt aptur hálfu fastar en fyrr í andlitið á honum. Loksins fór mönnum að standa stuggur að þessum aðförum, svo bóndi flutti með alt sitt burt af bænum, og hann lagðist í eyði.[1]

**Tröllkonurnar og hvalrekinn.** Eptirfylgjandi saga sýnir, að tröll eru eingu vægari hvert við annað í viðskiptum innbyrðis, ef þeim er sýndur mótþrói, en við menn. Einu sinni bjuggu tvær tröllkonar í björgum nokkrum með sjó fram, og var sem svaraði bæarleið milli híbýla þeirra. Einu sinni rak hval fyrir framan helli annarar tröllkonunnar; kom hin þá til hennar, og bað hana að miðla sèr af hvalnum, en hún synjaði. Þá kvað tröllkonan:

„Láttu reka reyðina stóru,
ríkur, svo mèr líki,
brátt fyrir björgin ytri,
buðlúngur himintúngla."

Um nóttina sleit líka reiðina út af klettunum, og rak upp aptur að hinum nyrðri hömrunum, þar sem hin tröllkonan bjó.[2]

**c)** Einatt hafa tröll sýnt sig vingjarnleg við menn, en sjaldan að fyrra bragði, nema þau hafi annaðhvort lagt ástarhug á menn, og numið þá til sín eða heillað, eða þeim hafi legið á annari liðsemd manna, en optast hefir það annarskostar að borið því að eins, að menn hafi orðið fyrri til að víkja góðu að þeim á einhvern hátt, enda lanna þau þá alla liðsemd ríkulega. „Hjálpaðu mèr, karlmaður," sagði tröllkona ein, sem hafði dottið illa biltu í fjalli, við Björn á Bustarfelli, er fór þar um. Hann varð vel við bæn hennar, og var síðan lánsmaður alla æfi. Í öllum slíkum viðskiptum við menn kemur ekki síður fram hin alkunna „tröllatrygð," en viðleitni þeirra til hefnda, ef þau eiga ótrygð að mæta.

**Kráka tröllskessa.** (Eptir handriti Jóns alþingismanns Sigurðssonar á Gautlöndum.) Í fyrndinni átti skessa, sú er Kráka hèt, bygð í Bláhvammi við Bláfjall;

1. Sbr. Dr. Maurers Isl. Volkss. 45.—46. bls.

2. Eptir handriti síra Skúla Gíslasonar á Stóranúpi. Sbr. vísuna hèr við vísuna undir Grímsborg í Álfasögum, og vísuna í þaettinum af Galdra-Leifa.

bjó hún í helli einum, sem enn sèr merki til og er hann svo hátt í hömrum þeim, er liggja að Bláhvammi, að þángað er ófært öllum mennskum mönnum. Kráka var hin mesta meinvættur og lagðist hún tíðum á fè Mývetnínga og gjörði þeim hinn mesta skaða í fjárupptektum og manndrápum.

Kráka var vergjörn mjög og kunni illa einlífi; var það ekki ósjaldan að hún tók menn úr bygð og hafði hjá sèr, en það voru færstir, sem vildu þýðast hana heldur annaðhvort struku á burt eða rèðu sèr bana. Það var einhverju sinni að Kráka náði sauðamanni frá Baldursheimi, er Jón hèt; hafði hún hann heim í helli sinn og vildi veita honum hinn bezta beina; en hann þektist það lítt, og vildi einkis neyta, þess er Kráka bar á borð fyrir hann; leitaði hún allra bragða í, að fá honum það, er honum væri helzt að skapi, en það kom fyrir ekki. Loksins lèzt sauðamaður mundi fá lyst sína aptur, ef hann feingi 12 ára gamlan hákarl til matar. Kráka vissi af fjölkyngi sinni, að hvergi var að fá 12 ára gamlan hákarl, nema á Siglunesi, og þó þángað væri æði lángt úr Bláhvammi, vill hún þó freista, hvort hún feingi náð hákarlinum. Leggur hún því af stað, og skilur sauðamann eptir; en er hún hefir skamt farið, dettur henni í hug, að vissara sè að vita, hvort sauðamaður hafi ekki prettað sig og hlaupið á burt á hæla sèr. Hleypur hún þá heim að helli sínum, og er sauðamaður kyrr; heldur hún því aptur leiðar sinnar og nokkru leingra, en fyrr; kemur þá að henni sami uggur og áður, að sauðamaður muni sèr ekki trúr reynast, og hleypur því Kráka aptur heim að helli sínum; en það fer sem fyrr, að sauðamaður er kyr. Heldur hún því af stað og ætlar, að nú muni ekki þurfa að ugga sauðamann. Fer hún hina beinustu leið á Siglunes og yfir þveran Eyjafjörð norðan við Hrísey. Segir ekki af ferðum hennar annað, en að henni heppnaðist að ná hákarlinum og hèlt hún hina sömu leið til baka aptur. En af sauðamanni er það að segja, að þegar hann ætlar Kráku komna alla leið, hefir hann sig á kreik, og hleypur á burtu; en er hann var fyrir litlu farinn úr hellinum, kemur Kráka, og verður þess skjótt vísari, að sauðamaður er horfinn. Ræðst hún því eptir honum með mesta flýti, og er sauðamaður á skamt heim í Baldursheim, heyrir hann dunur miklar á eptir sèr, og veit, hvað vera muni, að þar muni komin Kráka, og sem ekki er leingra milli þeirra en svo, að hann má heyra mál hennar, kallar hún: „Hèr er hákarlinn, Jón, 12 ára gamall, og 13 ára þó.“ En hann gefur þessu eingan gaum, og er sauðamaður kemur að bænum, er bóndi að smíða í smiðju sinni. Sauðamaður hleypur inn í smiðjuna, og inn fyrir bónda, og í því kemur Kráka að smiðjudyrunum. Bóndi tekur járnið glóandi úr aflinum og hleypur á móti Kráku, og segist muni reka það í hana, nema hún snúi aptur og lofi því, að ónáða sig aldrei aptur eða sína menn. Kráka sá sèr ekki annan kost en snúa aptur og svo gjörir hún. Er þess ekki getið, að hún hafi áreitt Baldursheims bóndann upp frá því.

Öðru sinni tekur Kráka sauðamann frá Grænavatni og hefir heim með sèr í helli sinn; fer það sem fyrr, að sauðamaður vill einkis neyta, þess er Kráka hefir að bjóða, og þykir henni það mikið mein. Loksins segist sauðamaður mundi geta etið nýtt hafrakjöt; en þá voru hvergi hafrar nema í Hafrafellstúngu í Axarfirði, og þó þángað væri lángt að leita úr Bláhvammi, vill þó Kráka freista, hvort hún feingi náð hafrakjötinu; en áður hún færi af stað, tekur hún bjarg ákaflega mikið, og lætur fyrir hellisdyrnar, því hún vill fyrir hvern mun ekki missa þenna sauðamann, eins og hinn fyrri; heldur hún nú áfram, sem leið liggur, og er hún kemur að Jökulsá á fjöllum, þá stekkur hún yfir hana milli hamra tveggja, og heitir þar síðan Skessuhlaup enn í dag. Segir ekki af ferðum hennar, fyrr en hún kemur í Hafrafellstúngu. Þá tekur hún hafra 2; bindur þá saman á hornunum og kastar á öxl sèr. Heldur hún hina sömu leið til baka aptur og hleypur yfir Jökulsá á sama stað og áður. En er hún kemur yfir um ána, er hún orðin mædd af gaungunni, og tekur hún því hvíld; leysir Kráka hafrana og hleypir þeim á beit í gil eitt, sem síðan heitir Hafragil. En er hún hefir hvílt sig um hríð, tekur hún hafrana og heldur áfram leiðar sinnar. En frá sauðamanni er það að segja, að hann leitar allra bragða í að komast á burt úr hellinum, eptir að Kráka er farin, en fær hvergi fylgsni það, eða smugu, er hann geti komizt gegnum. Loksins finnur hann sax eitt mikið og biturt, er Kráka átti. Hann tekur saxið, og getur skorið með því steininn, er var í dyrunum, svo hann fær að lyktum svo víða smugu, að hann getur komizt út. Heldur hann þá sem skjótast leiðar sinnar og heim til bygða. Er ei annars getið en hann hafi náð það með heilu og höldnu.

Það var einhverju sinni, að Kráka hafði inni jólaboð mikið, og vildi vanda til sem mest. Þókti henni það eitt ávanta, að hún hefði ekki mannakjöt til sælgætis. Hún leggur því af stað aðfarakvöld jóla, og ofan í bygð; en er hún kemur á efstu bæi í Mývatnssveit, er hver bær auður og alt fólk komið til kirkju að Skútustöðum, því þá var siður að flytja messu á jólanótt. Kráku þykir ílt, að fara svo búin og heldur því áfram til þess hún kemur að Skútustöðum. Er þá alt fólk komið í kirkju; Kráka kemur að kirkjudyrum, og sèr að maður situr í krókbekk; hún seilist til mannsins, og vill hafa hann út úr kirkjunni, en maðurinn spyrnist við og kallar um hjálp. Verður honum skjótt maunhjálp, og svo fór, að allur söfnuðurinn beindist að Kráku, til að ná af henni manninum, en hún slepti ekki, fyrr en annar kirkjuveggurinn gekk undan. Er þá mælt að Kráka hafi reiðzt og mælt svo um, að kirkjuveggurinn skyldi aldrei standa meir. Þykir þetta hafa orðið að áhrínsorðum, því jafnan hefir syðri veggur kirkjunnar að Skútustöðum verið hrjálegur síðan. Það er og sagt, að fyrir þenna og annau mótþróa, sem frambyggjar Mývatnssveitar hafi sýnt Kráku, þá hafi hún heitzt við þá, að vinna þeim einhver þau spjöll, sem þá mætti

leingst minni til reka. Í afrètt Mývetnínga þeirri, er liggur fram af Mývatnssveit, var þá stöðuvatn eitt mikið. Þángað fer Kráka og rífur sèr viðarbyrði mikla; síðan ber hún í byrðina torf og grjót, svo þetta verður hlass eitt ákaflega stórt og þúngt. Þenna slóða dregur Kráka eptir sèr frá vatninu og ofan í Mývatnssveit og eptir sveitinni endilángri alt út í Laxá, skamt frá því, er hún rennur úr Mývatni. Eptir slóðann kom dæld mikil og í dældina veitir Kráka vatninu með þeim ummælum, að þessi á skuli renna eptir dældinni meðan Mývatnssveit byggist, og skuli áin allajafna brjóta eingi og heimalönd Mývetnínga og með eingu móti verða varnað þess öðru, en efnum þeim, sem í byrðinni eru; og að lyktum skyldi áin gjöreyða fremri hlut Mývatnssveitar.

Áin rennur enn í dag eptir hinum sama farveg, og er kend við Kráku og heitir Krákuá; er hún hinn mesti vogestur Mývetníngum; rennur hún fram með eingi allra þeirra jarða, er fremst liggja í Mývatnssveit, og leitar á það árlega með landbrotum og sandáburði; rífur hún einatt skörð í bakka sína á vorum, og ber með þeim hætti sand og leir á eingi. Liggur þegar sumum jörðum við auðn af slíku; er hlaðið árlega í skörð þessi, og ætíð haft til þess hrís, grjót og ljátorf, eins og Kráka hafði í hlassi sínu, og er þegar orðin svo mikil þurð á hrísi við Mývatn, að trautt fæst hèr eptir það, sem þarf til stíflugjörðar fyrir Krákuá; enda er suma gamla og margfróða menn farið að gruna, að álögur og ummæli Kráku gömlu muni áður lángir tímar líða hrína til fulls á Mývetníngum.[1]

**Sauðamaðurinn frá Túngu í Fnjóskadal og tröllskessan á Bleiksmýrardal.** (Eptir Jónatan bónda þorláksson á Þórðarstöðum í Fnjóskadal.) Fram af sveit þeirri sem Fnjóskadalur heitir liggja dalir þrír óbygðir; eru þeir afrèttir, og heitir hinn austasti Timburvalladalur; næsti Hjaltadalur, en sá sem vestastur er, heitir Bleiksmýrardalur. Segja sumir að hann beri nafn af því að þar hafi fyrst fundizt sorta, er menn hafa gjört blek af, og heiti hann því með rèttu Bleksmýrardalur, og Bleksmýri, þar sem kallað er Bleiksmýri. En aptur segja aðrir, að dalurinn beri nafn af bleikum hesti, sem Sveinn ríki, er bjó á Illugastöðum í Fnjóskadal, hafi átt og látið gánga á dalnum þar sem Bleiksmýri heitir; eru þar á nokkrar missagnir, því að miklu fyrri var nefndur Bleiksmýrardalur, en Sveinn ríki var á dögum.

Bleiksmýrardalur er mjög lángur; en er nú óbygður; hafa þar þókt landkostir góðir, og afrètt ágæt; en mjög er hann nú geinginn af sèr sökum sandfoks og skriðufalla, og hrýs og skógur eyddur og fallinn. Svo er mælt að fyrrum hafi Bleiksmýrardalur verið bygður; sèr þar enn merki til á nokkrum stöðum, um gömul selstæði sem bygð hafa verið, og bæarstæði sem nefnt er Flaustur og á þar að hafa verið kirkja.

1. Sbr. Dr. Maurers Isl. Volkss. 47. bls. Þar segir, að Kráka hafi átt bygð í fjalli því, er Skessuhali heitir; en það var nátttröll, sem síðar mun sagt verða.

Á dalnum er líka mælt að tröll hafi í fyrndinni tekið sèr bygð, og eru þar eptir nokkur örnefni. Skal hèr ritin saga af skessu nokkurri, sem bjó í helli einum fram í dalnum í gili því, sem síðan er kallað skessugil; það er mjög klettótt með hömrum umhverfis, og gánga menn því mjög sjaldan í það.

Á bæ þeim í Fnjóskadal er Túnga heitir bjó bóndi nokkur, en eigi er nafns hans getið; sá bær stendur að austanverðu við Bleiksmýrardals mynnið. Bóndi var auðugur að gángandi fè. Jón hèt smalamaður hans, úngur og uppvaxandi er þetta bar til tíðinda; hann gætti fjár bónda og hèlt því til haga austanvert á dalnum fram frá Túngu. Eitt sinn varð honum vant uokkurra sauða og leitar hann leingra fram á dalinn. Kom þá að honum tröllskessa ógurleg, tekur hún hann og ber í fángi sèr fram dalinn, þar til hún kemur að miklu klettagili; þar átti hún bygð í helli einum; þángað ber hún Jón, og segir við hann að hún vildi taka hann sèr fyrir bónda, því hún bjó þá ein og voru foreldrar hennar andaðir; Jón færðist ætíð undan, og setti hún hann þá fastan, og var hann þar í varðhaldi hjá henni þau misseri. Hún veitti honum nóg til matar, og trylti hann með fjölkyngi svo að hann varð meiri og stærri en aðrir menn; samt vildi hann aldrei bregða til samfara við skessuna, og leiddist honum mjög í híbýlum hennar. Eitt sinn sagðist Jón vera sjúkur mjög, leitaði þá skessan allra bragða við að bæta vanheilsu hans, en það tjáði ekki. Spyr hún hann þá af hverju honum mundi helzt batna. Hann kvað sèr mundi eigi batna af öðru en ef hann æti 12 ára gamlan hákarl sunnan úr Skálholti. Eptir þetta býr skessan sig til ferðar að sækja hákarlinn; læsir hún þá hellinum, ber grjót á hurðina og býr vel um og ramlega; fer síðan leið sína.

Nú er að segja frá Jóni, að hann hyggur sèr ráð til að komast burt úr hellinum meðan skessan er heiman. Hann reynir nú afl sitt og neytir allrar orku til að hrinda upp hurðinni, og með því honum hafði mjög aukizt afl hjá skessunni fær hann um síðir brotizt út úr hellinum; tekur síðan á rás og hleypur sem fætur toga til bygða. En þegar hann kemur þar móts við, sem heitir Gaunguskarð, (það liggur vestur úr Bleiksmýrardal og má fara þar yfir til Eyafjarðar) þá sèr hann hvar skessa kemur eptir skarðiuu; herðir hann nú hlaup sin, og í þessu kemur skessan auga á hann og kallar eptir honum: „Tólf ára gamall hákarlinn, Jón, og þrettán ára þó.“ Jón gefur sig eigi að því, en hleypur sem hann mest má, en skessan á eptir honum, þar til hann kemur að bænum Túngu; var það á helgum degi, og fólk flest við kirkju; hleypur Jón þá vestur yfir Fnjóská, en skessan fylgir fast á eptir, og þar til þau koma að Illugastöðum; var þá fólk geingið í kirkju og prestur tekinn til embættisgjörðar. Nú fer tvennum sögum: sumir segja að Jón hafi hlaupið sunnan á kirkjugarðinn og inn yfir hann, og er hann hljóp yfir hann, hafi skessan stigið öðrum fæti

upp á garðinn og ætlað að ná í hann, en þá sprúngið skarð í garðinn undan fæti hennar svo að hún hrapaði ofan aptur, og hafi þá sagt: „Toldu aldrei.“ Og síðan á aldrei að hafa tollað í því skarði, þó upp í hafi verið hlaðið. En Jón komst í kirkju, og misti skessan hans. Aptur segja aðrir, að Jón hafi hlaupið í kirkjuna, og hafi menn þegar geingið út og skessan þá verið komin heim í túnið, þar sem kallaður er Pètursvöllur; hafi menn þá hríngt klukku, og skessan snúið við það aptur, og fretað mjög, en eigi sèzt upp þaðan af. En frá Jóni er það að segja, að eptir þetta lifði hann í þrjú dægur og andaðist síðau; var hann jarðaður í Illugastaða kirkjugarði. Mjög laungu síðar kom lærleggur Jóns að menu hèldu upp úr kirkjugarðinum, og var hann svo mikill að hann tók jafn hátt þjóhnöppum á meðalmanni frá jörðu. — Lýkur svo þessari sögu.

**Loppa og Jón Loppufóstri.** (Eptir handriti sèra Benedikts þórðarsonar á Brjánslæk.) Á Bleiksmýrardal, afrètt Fnjóskdælínga, er skál sú í fjalli þar vestan megin ár, sem Loppuskál heitir. Sagt er, að skál þessi beri nafn af flagðkonu einni, er í fyrndinni hafi búið þar í helli, og að flagðkona þessi hafi eitt sinn stolið manni einum, er Jón hèt, úngum manni og efnilegum, þegar hann var að tína grös með öðru fólki. Loppa hafði Jón heim í helli sinn, og var þar systir hennar fyrir, en ekki fleira trölla. Systurnar voru báðar í blóma aldurs síns, en með því að þá var kristni fyrir löngu komin um alt land, en tröll á förum, hugðu þær að hafa Jón þenna til fylgilags við sig, svo þær gætu aukið kyn sitt. Lögðu þær því alla alúð á, að fara sem bezt með hann, og lètu hann ekkert skorta, sem eflt gæti þroska hans. Þær tóku hann opt og mökuðu hann í einskonar smyrslum, og teygðu hann á milli sín. Líka orguðu þær í eyru honum til að trylla hann. Aldrei lètu þær hann einan eptir í hellinum, og aldrei fór nema ein í senn til aðdráttanna. Liðu þannig nokkur missiri, að Jón fèkk ekki sól að sjá, og aldrei færi til burtfarar, sem hann hafði einatt laungun til, þó hann dyldi þær þess. Eitt sinn hvarf systir Loppu, svo Jón vissi ekki, hvað af henni varð: fór hún eitthvað til búsaðdrátta, en kom aldrei aptur. Ætlaði hann, að hún mundi hafa látizt á einhvern hátt. Varð Loppu mjög ángursamt við missi systur sinnar, því hún trúði ekki vel fóstra sínum. Hlaut hún nú að starfa alt ein, og láta Jón einan. Var hún þó aldrei svo leingi burtu, að Jón sæi sèr strokfæri; gjörir hann sèr þá upp veiki, og lèzt þúngt haldinn. Þókti Loppu það hið mesta mein, og bað hann segja sèr, við hvað honum mundi batna, en hann sagði, að líkast væri, að sèr mundi batna, ef hann feingi 12 ára gamlan hákall. Loppa lofar að útvega honum hann. Býr hún sig nú til ferða, fer af stað, en kemur brátt aptur til að forvitnast um, hvort fóstri hennar lægi kyr, og var það; ætlaði hún, að þá mundi alt vera svikalaust, og fer leið sína. Litlu síðar rís Jón úr rekkju, fer út úr hellinum og niður til árinnar.

Hittir hann stóðhross á dalnum, og tekur eitt, og ríður niður dalinn, og þraut það brátt, því svo var Jón þúngur orðinn, að hann var óbær hverjum hesti. Fór hann svo alla leið niður til Illugastaða; hafði hann þá sligað 3 hesta, og þó mátt gánga mest alla leiðina. Þegar hann kemur sunnan á túnið á Illugastöðum, heyrir hann, að Loppa, fóstra hans, kallar uppi á Miðdegishólnum og segir: „Hèrna er 12 ára gamli hákarlinn, Jón! og 13 ára þó; eg sókti hann á Siglunes.“ Jón var yfirkominn af mæði, en hraðar þó ferðinni enn meir að kirkjunni, brýtur hurðina með hnefa sínum, og biður, að klukkunni sè hríngt; var Loppa þá komin að læk þeim, sem er skamt fyrir sunnan kirkjuna á túninu. En þegar hún heyrði klukknahljóðið, hvarf hún aptur; heitir þar síðan Tröllkonuvöllur. Um Jón er það að segja, að svo var vöxtur hans mikill og afskaplegur orðinn, að höfuð hans tók mæni kirkjunnar, þá er hann stóð upprèttur í henni. Hann náði prests fundi, lifði síðan 3 daga, og dó svo. Ætluðu menn að mæðin af hlaupunum hefði dregið hann til dauða. Lík hans var grafið í kirkjugarði við norðurhlið kirkjunnar á Illugastöðum, og er það því til sönnunar, að nálægt miðri 18 öld var þar grafið lík, og kom upp lærleggur svo mikill, að einginn hafði þvílíkan sèð. Þá bjó bóndi sá á Steinkirkju, er Oddur hèt; hann var faðir Þorlaugar, sem átti Dýnus Þorláksson, og bjó með honum í Túngu í móðuharðindunum, og misti þar í hallærinn 11 börn sín. Oddur þessi var viðstaddur. Hann var hæðstur manna í sókninni; hann tók legginn og mældi við sig, og nam leggurinn frá jörð mjaðmarhöfuð á Oddi. Var það þá fyrir satt haft, að leggur þessi væri úr Jóni Loppufóstra. Eitthvað fanst og fleira af beinum hans. Beinin voru mjög rotin og ætluðu menn, að þau hefðu undra leingi í moldu legið, og það því heldur, sem raun var á, að lík rotna mjög seint þar í garðinum, sem er kaldur og votur; viður fúnar þar og undra seint.

**Þjóðbrók.** (Vestfirzk sögn.) Skessan Þjóðbrók átti bústað í því gili, er við hana er kent síðan og kallað Þjóðbrókargil, það er vestanvert í Selárdal. Ekki eru neinar sagnir til um hana, nema þessi, sem á eptir kemur.

Gissur hèt húskarl á Stað, er Þjóðbrók vildi fá til sín, er hann var í fjárleitum, en hann gaf eingan kost á því, nema því að eins, að hún útvegaði sèr 15 ára gamlan hákarl, en gaf henni mánaðar frest. Síðan fór hann til hennar og var hjá henni mánaðar tíma; þókti henni hann ofsmávaxinn til að eiga svo stórfeingilega konu, sem hún var, og togaði hann því mjög, svo hann varð miklu hærri, en áður. Síðan bjóst Þjóðbrók að heiman, til þess að útvega hákarlinn. En er hún var burt farin, strauk Gissur frá híbýlum hennar, og hèlt heim til sín yfir skamman fjallveg. En er hann var kominn á svo nefnda „Teigabrún“ fyrir ofan Staðarbæ, sá hann, hvar Þjóðbrók fór á eptir sèr með hákarlskippu og æpti að honum:

„Hákarlinn, Gissur, hákarlinn, Gissur, 15 ára gamall.“ En hann rann undan, sem fætur toguðu, uns hann náði til kirkju á Stað; braut hann upp hurðina og tók í klukkustreinginn og hríngdi, og barg það honum; því jafnan varð tröllunum hverft við klukknahljóðið. Skessa hvarf í burt í það skipti, en jafnan sat hún um Gissur eptir það og leitaðist við að fá hefnt sín á honum, og það vissu heimamenn; voru því hafðar gætur á honum og hann aldrei látinn einn vera. En einu sinni var hann að fjósaverkum og var þá einginn heimamanna hjá honum. Kom Þjóðbrók þángað, rèðst á Gissur og rotaði hann loks á flórhellunni. Þjóðbrók á að hafa dagað uppi í Þjóðbrókargili.

**Trunt, trunt og tröllin í fjöllunum.** (Fra sèra Skúla Gíslasyni eptir sögn nyrðra.) Einu sinni voru 2 menn á grasafjalli. Eina nótt láu þeir báðir í tjaldi saman. Svaf annar, en hinn vakti. Sá þá hinn, er vakti, að sá, sem svaf, skreið út. Hann fór á eptir og fylgði honum, en gat naumast hlaupið svo, að ekki drægi sundur með þeim. Maðurinn stefndi upp til jökla. Hinn sá þá, hvar skessa mikil sat uppi á jökulgnýpu einni. Hafði hún það atferli, að hún rètti hendurnar fram á víxl, og dró þær svo upp að brjóstinu, og var hún með þessu að heilla manninn til sín. Maðurinn hljóp beint í fáng henni, og hljóp hún þá burt með hann. Ári síðar var fólk úr sveit hans á grasafjalli á sama stað; kom hann þá til þess og var fálátur og ábúðarmikill, svo varla fèkkst orð af honum. Fólkið spurði hann, á hvern hann tryði, og sagðist hann þá trúa á guð. Á öðru ári kom hann aptur til sama grasafólks. Var hann þá svo tröllslegur, að því stóð ótti af honum. Þó var hann spurður, á hvern hann tryði, en hann svaraði því eingu. Í þetta sinn dvaldi hann skemur hjá fólkinu, en fyrr. Á þriðja ári kom hann enn til fólksins; var hann þá orðinn hið mesta tröll og illilegur mjög. Einhver áræddi þó að spyrja hann að, á hvern hann tryði, en hann sagðist trúa á „trunt, trunt og tröllin í fjöllunum“ og hvarf síðan. Eptir þetta sást hann aldrei, enda þorðu menn ekki að vera til grasa á þessum stað nokkur ár eptir.[1]

**Um Trölla-Láfa.** (Eptir Jón bónda Sigurðsson í Njarðvík í Múlasýslu.) Á dögum Odds biskups Einarssonar í Skálholti, bar það við eitt sinn, að ofarlega úr Biskupstúngum fóru nokkrir menn til kolabrennslu í skóg, sem lá fyrir ofan bygð, og höfðu með sèr únglingspilt til hesta geymslu, sem Ólafur hèt. En eitt sinn, þegar hann gekk til hestanna, kom hann ekki aptur. Var hans þá leitað víðsvegar; en það kom fyrir ekki. En þremur árum síðar kom hann á hlaupum til kolamanna á sama stað, og sagði

1. Þegar tröll eru að magna og trylla þá menn, er þau hafa heillað til sín, eru þau vön að maka þá í floti og súru smèri þannig, að 2 tröll baka og toga þá yfir glæðum, og heldur þá annað í höfuðið og hitt í fæturna.

sjálfur frá því, með hverju móti hann hefði horfið. Hann sagðist hafa verið sendur einn dag í hestaleit, og geingið þá leingra, en vant var. Vissi hann þá ekki fyrr til, en ferlega stór skessa flanaði móti honum, þreif hann upp og hljóp með hann lángan veg til óbygða, uns hún kom að hömrum nokkrum. Í hömrum þessum var hellir hennar, þar fór hún inn með hann. En þegar inn kom, var þar fyrir önnur skessa únglegri; nokkuð voru þær hærri en hæstu karlmenn, en mikið digrari. Þær voru í hrossskinnsstökkum skósíðum í fyrir, en stuttum á bak. Þær gáfu honum að eta optast silúng, er þær veiddu eða seiddu; því ætið var önnur þeirra á veiðum á daginn, en hin yfir Ólafi að gæta hans. Þær lètu hann sofa milli sín á næturnar, höfðu hrosshá undir, og aðra ofan á. Það var opt, að sín fór í hvort eyra á honum og korruðu þar, svo hann sagðist ekki hafa vitað af sèr. Þær vildu láta vel að honum og höfðu miklar gætur á honum fyrst, að hann hlypi ekki í burtu. Það var, þegar hann var búinn að vera þarna eitt ár, um vorið, að hann var úti staddur, og sá kolareyki niður í afrèttum, en vissi, að hvorug skessan var heima. Hljóp hann þá á brott; en ekki var hann lángt kominn, áður hin eldri skessan kom á eptir honum, sló á kinn hans með loppunni, þar hafði hann síðan svartbláan blett á sèr alla æfi, greip hann síðan upp og hljóp með hann að hellinum. Eptir þetta höfðu þær sterkari varðhöld á honum. Eitt sinn tók ýngri skessan til orða við hina eldri: „Hvernig er því varið, að ætíð þegar eg kem við hann Láfa beran, þá finnst mèr eg brenna?“ „Furðaðu þig ekki á því,“ kvað hin, „það gjöra bænirnar hans gretta Odds.“ Til matar sagði Ólafur þær hefðu optast haft silúng, stöku sinnum hrossaket, og ekki heíði það verið optar en einu sinni, sem þær hefðu ekki viljað, að hann vissi, hvað þær höfðu til matar.

Þarna var Ólafur, uns leið að þriðja vorum, og hann vissi, að leið að þeim tíma, að menn voru vanir að fara upp í afrètti til kolagjörða, þá lèzt hann verða veikur, og það svo, að hann gat á eingu nærzt. Þær vildu leitast við með öllu móti að hressa hann. En það tjáði ekki; hann var æ verri, hvað sem þær reyndu. Eitt sinn spurðu þær hann að, hvort hann vissi ekki sjálfur af neinum þeim mat, er hann gæti nærzt á. Hann kvað nei við, nema ef hann feingi níu ára gamlan hákarl; hann kvaðst hann mundi geta jetið. Hin eldri kvað bágt úr því að ráða; því hún vissi hvergi af honum á Íslandi, nema hjá Ara bónda í Ögri, en til vildi hún reyna að ná honum. Síðan stökk hún á stað, en hin ýngri var á veiðum. Þegar skessan var burtu farin, hljóp Ólafur úr hellinum og stefndi á kolareykina. Hann linaði ekki á hlaupi, fyrr en hann kom til kolamanna. Þeir þektu hann þegar, tóku í hasti hesta, sem hjá þeim voru, og riðu með Ólaf í bygð, alt að Skálholti og yfir Brúará, og höfðu hinn mesta hraða á ferð sinni. En þegar þeir voru nýkomnir yfir ána, kom eldri skessan á hamarinn hinu megin árinnar, og lèt illilega, benti til Ólafs

með loppunum og sagði: „Þar ert þú, stráki.“ Þá ærðist Olafur, og vildi brjótast úr höndum þeirra og til hennar, svo þeir gátu nauðulega haldið honum. Hestur stóð á hamrinum skamt frá skessunni; hún hljóp að honum, sleit hann sundur, og fleygði svo á bak sèr og stökk burtu. En þeir fóru heim með Ólaf í Skálholt, og afhentu hann biskupi. Biskup hafði hann í svefnherbergi sínu nokkurn tíma, uns hann kom honum í Austfjörðu, til Ólafs prófasts bróður síns á Kirkjubæ í Hróarstúngu, og bað hann sjá fyrir honum. Var svo Ólafur hjá nafna sínum, til þess er hann bygði honum Húsey, og bjó Ólafur þar til elli.

Opt hafði komið á Ólaf nokkurs konar æði, og braust hann þá við björg og steina, eins og hamramir menn gjöra, og sagði þá tíðum: „Mikið var það, að eg skyldi fara frá skepnunum mínum.“ Síðast er hann var orðinn gamall, byrjaði hann ferð til Berufjarðar, og lagði upp á fjallveg þann úr Skriðndal, er Öxi heitir, og spurðist ekki til hans síðan. Hèldu menn, að tröll mundu hafa tekið hann. Magnús og Þorvarður hètu synir hans; þeir bjuggu eptir hann í Húsey, og svo niðjar þeirra eptir þá fram á átjándu öld ofarlega.

**Trölla-Láfi** (missögn.) (Eptir sögn gamallar konu úr Rángárþingi.) Einu sinni fóru menn nokkrir úr Múlasýslu á grasafjall. Einn þeirra hèt Ólafur; hann var friskleikamaður og á bezta aldri. Í einni gaungunni fór hann nokkuð frá fólkinu. Komu þá að honum tröllskessur tvær. Þær tóku hann, og höfðu heim með sèr. Lètu þær Ólaf sofa á milli sín, og höfðu sína pípnna hvor, og blèsu í eyru honum. Með þessu ætluðu þær að trylla Ólaf, en þeim tókst það ekki. Ólafur undi nú illa hag sínum og vildi fyrir hvern mun komast í burtu. Lèzt hann þá verða veikur, og neytti hvorki svefns nè matar. Þær spyrja hann, hvort hann haldi, að nokknr ráð sè til að hressa hann; því þær vildu ekki missa Ólaf. Ólafur segir, að ef hann feingi níu ára gamlan hákarl, og þriggja ára gamalt fornskyr, muni sèr batna. Skessurnar fara þá, önnur norður í land, að útvega skyrið, en hin vestur undir Jökul, að sækja hákarlinn. En þegar þær voru farnar, rís Ólafur upp, og hleypur til bygða. Kemur hann þá að kirkjustað einum á Austfjörðum. En í því hann hljóp heim túnið, kemur önnur skessan á eptir honum, og kallar: „Stattu við, Láfi, Láfi, hèrna er hákarlinn, Láfi.“ Komst hann þá til kirkjunnar, þreif í klukkurnar og hríngdi af alefli. Settist þá skessan á kirkjugarðsvegginn, og hrundi hann, því kerla settist fast niður. Þá segir hún við vegginn: „Svei þèr, skítur, og stattu aldrei!“ Þykir það hafa rætzt á garðinum; því hann hefir aldrei síðan tollað uppi, þar sem skessan settist. — Upp frá þessu var Ólafur jafnan kallaður Trölla-Láfi, og kann eg nú ekki þessa sögu leingri.

**Andra-rímur og Hallgríms-rímur.** (Frá sèra Skúla Gíslasyni eptir sögn nyrðra.) Vermenn að norðan voru eittsinn á suðurferð; feingu þeir hríð mikla á fjöllunum, svo þeir viltust og vissu ekki, hvar þeir fóru. Komu þeir loks að hellisgjögri nokkru. Geingu þeir svo lángt inn, að ekki gætti vinds nè úrkomu að utan. Þar lètu þeir fyrirberast, kveyktu ljós og gjörðu síðan eld við mosa, er þeir reyttu af steinum; tóku þeir nú að hressast og hlýna. Menn fóru nú að ráðgast um, hvað hafa skyldi til skemtunar; vildu sumir kveða Andra-rímur, en sumir sýngja Hallgrímssálma. Fyrir innan sig sáu þeir dimt gjögur og var eins og þar kæmi nýr krókur á hellinn. Þeir heyrðu þá, að sagt var inni í myrkrinu:

„Andrarímur þykja mèr fínar,
en Hallgrimsrímur vil eg ekki.“

Þeir tóku þá að kveða Andrarímur, sem mest máttu þeir; hèt sá Björn, er bezt kvað. Gekk svo leingi um kvöldið. Þá er sagt inni í myrkrinu: „Nú er mèr skemt, en ekki konu minni; hún vill heyra Hallgrímsrímur.“ Tóku menn nú að sýngja sálmana og endist þá vers það, er menn kunnu. Þá var mælt: „Nú er konu minni skemt, en ekki mèr.“ Síðan var mælt: „Viltu sleikja innan ausu mína að launum, kvæða-Björn?“ Hann játti því. Var þá stampur mikill á skapti rèttur fram með graut í, og gátu þeir varla allir ráðið við ausuna. Grauturinn var góður og ætilegur; 3 næddu allir og varð gott af, nema einn; hann þorði ekki. Síðan lögðust þeir til svefns og sváfu vel og leingi. Daginn eptir fóru þeir að skoða til veðurs, og var þá bjart og hreint veður. Vildu þeir nú aptur leggja af stað; en sá, sem ekki þorði að snæða um kvöldið, svaf svo fast, að hann varð ekki vakinn. Þá mælti einn: „Það er betra, að drepa lagsmann sinn, en skilja hann svona eptir í tröllahöndum.“ Sló hann þegar á nasir honum, svo blóðið flaut niður um hann; en þá vaknaði hann og gat svo komizt burt með þeim fèlögum sínum; komust þeir síðan heilir til mannabygða. Það halda menn, að tröll þetta hafi heillað til sín konu úr sveit, og að vermennirnir hafi notið hennar.[1]

**Tröllið í Skrúðnum.** (Eptir húsfrú Sigríði Pálsdóttur í Hraungerði 1859.) Einu sinni hvarf prestsdóttir á Hólmum í Reiðarfirði; var hennar leitað um land og lög og fannst hún hvergi. Upp úr firðinum stendur fjallstrókur, er nefnist Skrúður. Þar höfðu sveitarmenn fè sitt til gaungu á haustum og sóktu bak jólum; hafði þá árlega horfið bezti sauðurinn úr fènu, en mistist einkis annars.

Einu sinni um vetur voru skip til fiskjar og náðu ei lendíngu sinni, og hleyptu undir klett í Skrúðinum. Skipverjar brýndu skipi sínu votir og sjóhraktir, og settust á hillu í klettinum og fóru að kveða Maríu-rímur. Opnaðist þá kletturinn, og kemur út forkunnar stór manns hönd með hríng

1. Sbr. Dr. Maurers Isl. Volkss. 47—49. bls.

á hverjum fíngri, og rauð skarlaksermi að ofan; rèttir hún út stórt grautartrog með spónum á manntal, og er sagt inni: „Nú er konu minni skemt, nú er ekki mèr skemt.“ þegar skipverjar voru mettir og hrestir af heitum grautnum, hvarf trogið inn í klettinn. Daginn eptir komust þeir í land. Árið eptir fór á sömu leið fyrir öðru skipi, sem reri, um sama leyti. Kváðu þeir á klettasillunni allar Andrarímur. Kom þá út sama höndin með fult trog af feitu og heitu hángikjöti, og heyra þeir þá sagt: „Nú er mèr skemt, nú er ekki konu minni skemt.“ Komust þeir svo mettir á land, þá veðri slotaði. Liðu svo nokkur ár, þar til Guðmundur biskup var eystra í visítatíuferð og vígði vötn og brunna og batt orminn undir fossinum í Lagarfljóti. Gisti hann að Hólmum. Bað prestur hann að vígja Skrúðinn. Nóttina sömu dreymdi biskup, að maður mikill vexti og skrautbúinn kæmi til sín og segði: „Farðu ekki að vígja Skrúðinn; því eg hefi mikið að flytja og á ervitt með flutnínga, enda muntu ekki fleiri ferðir fara, farir þú til bygða minna að gjöra mèr mein;“ yfirgaf þá biskup vígsluferð sína í Skrúðinn.

**Sagan af Katli á Silfrúnarstöðum.** (Úr Skagafirði.) Einhvern tíma á fyrri dögum bjó bóndi nokkur á Silfrúnarstöðum í Skagafirði. Ei er getið um nafn hans. Bóndi var vel fjár eigandi, enda er það sauðjörð hin bezta. Lèt hann ávalt beita fè sínu fram í fjallið hjá Bessakoti, sem kallað er, og stundum leingra, og fór svo leingi fram, að ekkert bar til tíðinda, og bjó hann þar leingi. Eitthvert sinn bar svo til á aðfángadags kvöld, að fè bónda kom heim hjá Grímshól, og vænti bóndi, að fèð mundi þá og þegar heim koma. Bondi lèt ætíð sjálfur inn fè sitt með smalamanni. Lèt hann nú hafa gætur á fènu, og leið góð stund, þar til út var komið, og ætlaði, að þá mundi fèð heim komið, en það var ekki, og hafði það ekki færzt nær á þeim tíma. Lèt nú bóndi vitja fjárins og reka heim, en smalamaður sást hvergi. Leið nú af nóttin, og kom smalamaður ei. Mátti bóndi fá annan að fara með fè sínu. Var smalans nú leitað, og fannst hann hvergi. Voru nú margar getur á hvarfi hans fyrst um sinn. En þó fór svo, að umtal mínkaði um þetta, eins og vant er að vera, þegar frá líður. Bar nú ekki til tíðinda til næstu jóla. Á aðfángadagskvöldið, þegar hálfrokkið var, kom fèð heim hjá Grímshól, og nam þar staðar; fór nú alt á sömu leið, og hið fyrra árið. Verður nú bóndi mjög hryggur og hugsandi út af hvarfi smala sinna, og tekst nú að nýu mikil orðræða um þetta, og þykir ekki einleikið vera, og vilja nú fáir til verða að gæta fjár bónda og varð bónda ílt til manna. En um vorið fèkk hann einn mann 18 vetra gamlan, er Ketill hèt; var hann maður ötull og hugdjarfur. Um haustið tók hann við fjárgeymslu og beitti, sem vant var. Leið nú fram til jóla. Á aðfángadaginn var gott veður, og rak Ketill fè sitt að venju. Hugðist nú bóndi að hafa nákvæmar gætur á, er fèð kæmi, og vitja sem

fyrst um smalamann. Og er rökkva tók, kom bóndi út og hugði að fènu. Sá hann þá ekkert til þess og fór inu aptur. Að stuudu liðinni kemur hann út, og er þá fèð komið út hjá Grímshól. Er þess nú strax vitjað. En Ketill sèst hvergi. Fellur bónda þetta mjög þúngt og þykir ekki betra að missa Ketil, en báða hina. Ætlar nú líka vist, að einginn muni framar til verða að gæta fjár síns. En það er af Katli að segja, að þegar liðið var á daginn, rak hann fè sitt heim á leið, og fer það í dreif einni mikilli undan honum út fjallshlíðina. En er hann kom út undir Grímshól, sèr hann, hvar skepna ein afarstór kemur úr skarði einu litlu, sem er neðan til í fjallið, upp undan Silfrúnarstaðabæ; þar er hamar einn lítill að neðan, svo sem laus frá fjallshlíðinni, og er skarð það kallað Klauf. Óvættur þessi stefnir nú á móti fènu. En það hörfar aptur í fáng Katli. Sèr hann nú, að þetta er tröllskessa afarmikil. Kallar hún þá til Ketils, og biður hann láta sig fá kind til hátíðarinnar. Þykir nú Katli vandast málið, og segir henni, að hann eigi ekkert af fè þessu, utan eina dilká, sem hann vísar henni á, og segir hún megi taka, ef hún vilji. Var hún fljót að ná kindum þessum; krækir þeim saman á hörnunum og kastar á öxl sèr. Síðan veður hún að Katli, tekur hann í fáng sèr og snýr til baka sömu leið, og hún kom. Og er hún kom upp úr klaufinni, hèlt hún út fjallið og skálmaði stórum. Ekki sá Ketill sèr til neins að brjótast um, því hann mátti sig varla hræra. Fór hún nú leiðar sinnar, þar til hún kom að Bólstaðarárgili, við foss einn mikinn, sem þar er neðantil í fjallinu. Þetta er klettagil vont og lítt fært. Þar fór skessan ofan og gekk í helli einn, sem var undir fossinum. Lèt hún þá Ketil lausan og fleygði niður byrði sinni. Bað hún nú Ketil að slátra kindunum og gjöra til, og kvaðst hún ætla að halda sèr og honum af þeim jólaveizlu. Setti hún Ketil á hlóðir, og sauð sem snarast. Tók hún síðan til matar allstórkostlega og lèt Ketil snæða með sèr. Sagði hún honum þá, að hún væri völd að hvarfi smalamanna frá Silfrúnarstöðum, og hefði hún komið til þeirra 2 fyrirfarandi aðfángadagskvöld, og beðið þá að láta sig fá eina kind til soðníngar á jólanóttina. Eu þeir hefðu svarað sèr illu og hrakyrt sig mjög í orðum, og hefði hún þá sèð fyrir þeim. En nú hefði hann orðið vel við bón sinni, og mundi hann mesti gæfumaður verða, hefði hann þó átt af færra fè að gefa, en hvor hinna. Sagði hún, að á þorranum í vetur mundi húsbóndi haus deya, og skyldi hann þá fá jörðina til ábúðar og reisa þar bú á næsta vori. Ketill kvað sèr ómögulegt að taka jörð þessa; væri hún bæði stór og ervið, en hann efnalaus. Líka vantaði sig bústýru og fólk. Hún sagði, að honum mundi nokkuð tilleggjast; kvaðst hún mundi deya innan mánaðar, og skyldi hann þá eiga alt, er fèmætt væri í helli sínum, og mundi hann þá ekki fè skorta, til að reisa bú á Silfrúnarstöðum. En þess kvaðst hún vilja biðja hann, að hann vitjaði sín að mánuði liðnum, og kæmi hræi sínu fram í fossinn, ef hann feingi því til leiðar komið. Hún sagði,

að hú húsbónda hans mundi verða selt á næsta vori, og skyldi hann þá kaupa það sem hann með þyrfti og sækja andvirði í helli sinn. Hann skyldi ráða til sín fólk það, sem nú væri á Silfrúnarstöðum, og síðan skyldi hann biðja dóttur prestsins á Hafsteinsstöðum til handa sèr. Ketill kvað sèr það ofráð reynast mundi, þar sem hann væri umkomulaus og ómentaður. Hún bað hann ekki því kvíða, „og er hèr helti eitt," segir hún, „og skaltu spenna það um hana. Hefir heltið þá náttúru, að hún fær ást til þín, og mun þá vel hlýða." Var heltið og hinn hezti gripur. Ketill vill nú heim fara, og segir bónda muni leiðast burtuvera sín. En kerlíng kvað það ekki saka og bað hann kyrran vera til morguns. Og lætur Ketill það eptir henni. Um morguninn fylgir hún honum úr fossinum og sýnir honum, hvar gánga má í hellinn og lætur hann reyna, og tekst honum það vel. Skildi nú kerlíng við hann, og segir þau muni ekki aptur sjást; árnar hún honum allra heilla, og segir honum flest að óskum gánga muni, og sè þetta upphaf hamíngju hans. Skilja þau nú með hlíðu og fer kerlíng aptur í helli sinn, en hann heldur heim sem hvatast. Lá þá bóndi í rekkju; svo mikið fèllst honum um hvarf Ketils. En er Ketill kom, urðu allir glaðir, einkum bóndi, og reis hann þá úr rekkju og þóktist Ketil úr helju heimt hafa. Spurði hann Ketil, hvað valdið hefði hvarfi hans. En hann vildi lítið þar um tala, og gat alls ekki um skessuna eða hellinn. Hirti Ketill síðan fèð, eins og verið hafði. Að mánuði liðnum fór hann í hellinn. Var þá skessan dauð. Kveykti þá Ketill ljós, því hann hafði eldfæri með sèr, og kom hann hræi hennar fram úr hellinum. Og sagði Ketill svo síðar, að það hefði verið sú mesta þrekraun, er hann hefði reynt. Kannaði hann nú hellinn, og fann þar auðæfi mikil í allskonar gripum og peníngum, en lèt þar alt kyrt að sinni. Á þorranum lagðist bóndi veikur, lá hann í hálfan mánuð og dó síðan. Falaði þá Ketill jörðina til áhúðar. Var því lítt svarað; þókti eiganda það hin mesta fásinna að leigja honum hana, en þó bygði hann hana ekki öðrum. Leið nú að vori og seldu erfíngjar bónda mestan hluta hús á Silfrúnarstöðum, og keypti Ketill mikið af því, og greiddi þegar af hendi verðið. Hafði hann og ráðið til sín flest þau hjú, er þar voru. Varð nú og auðsókt fyrir hann að fá jörðina leigða. Um vorið hjóst hann til ferðar út að Hafsteinsstöðum; hittir hann fyrst prestsdóttur, gefur henni heltið og spennir því um hana. Ber hann þá upp fyrir henni erindi, og kveðst vera kominn þar, til að biðja hennar sèr til eiginkonu. Lízt henni maðurinn fríður og efnilegur, og með því líka, að heltið kveykti ósjálfráða ást í hrjósti hennar, sagðist hún skyldi gefa þar til jáyrði sitt, ef faðir sinn vildi það samþykkjast. Hóf nú Ketill upp bónorð sitt við prest og bað dóttur hans. Prestur tók því fálega, og fannst það á, að honum þókti Ketill ekki samboðinn dóttur sinni, þar sem hann var rèttur og slèttur almúgamaður. En fyrir því, að Ketill var nú ríkari orðinn, en menn áður hugðu, og maðurinn gjörvilegur, og vel viti

borinn, þá lèt prestur loks til leiðast, að hún færi til hans fyrir bústýru um sumarið; og var það að ráði gjört.

Fór nú Ketill heim með prestsdóttur og fèll vel á með þeim um sumarið. Um haustið kom faðir hennar, og urðu þá þær málalyktir, að Ketill festi prestsdóttur, og var brúðkaup þeirra um haustið, og hið stórmannlegasta. Unnust þau vel og bjuggu á Silfrúnarstöðum til elli. Varð Ketill hinn mesti lánsmaður og stórríkur. Þóktust menn ekki vita, að nokkur jafnríkur honum hefði á Silfrúnarstöðum búið. Enda skorti hann ekki fè úr helli skessunnar, á meðan hann var að færa bú sitt í lag og líka fór hann í öllu að ráðum hennar. Sögu þessa sagði hann á ofanverðum dögum sínum, og hefir hún nú leingi geymzt í manna minni og hver sagt öðrum.

**Smalinn á Silfrúnarstöðum.** Maður hefur Guðmundur heitið; hann bjó á Silfrúnarstöðum í Skagafirði. Hann var ríkur maður að gángandi peníngi, vel metinn og virður. Hann var kvæntur, en varð þó eigi barna auðið. Svo bar til á Silfruuarstöðum einn jólaaptan, að smalamaður kom eigi heim um kvöldið. Beitarhúsin voru enn með fjallinu, á sama stað, sem þau enn þá standa, og stóð fjármaður yfir fè á daginn, en gekk heim á kvöldin. Smalamanns var leitað, og fanust hann hvergi. Næsta vor rèð Guðmundur bóndi til sín smala, er Grímur hèt. Hann var sterkur og stór maður, og þóktist ekki uppnæmur fyrir hverju einu. Bóndi biður hann þó að fara varlega, og á aðfángadag jóla biður hann hann að láta snemma inn fèð, og koma heim í björtu; en Grímur kemur eigi um kvöldið, og var hans leitað daginn eptir, en fannst eigi; þókti mönnum þetta mjög undarlegt, og voru um það ýmsar tilgátur. Guðmundur bóndi varð mjög hryggur af þessum atburðum, og fèkk nú ekki framar nokkurn þann, er vildi verða smali hjá honum. Í þá tíð bjó fátæk ekkja á Sjávarborg. Hún átti margt barna, og var elztur sonur hennar, 14 ára að aldri, er Sigurður hèt. Þennan dreing falaði Guðmundur bóndi fyrir smala, og bauð móður hans miklu fè, ef hún lánaði sèr dreinginn. Sigurður hèlt þessu máli mjög fram, til þess, að bæta kjör móður sinnar, en móður hans var það mjög í móti skapi; en svo fór að Sigurður fór með Guðmundi bónda; smalaði hann fènu um sumarið og gekk ágæta vel. Gaf bóndi honum þá sauð og á með lambi, og þókti dreingnum vænt um. Guðmuudur bóndi elskaði Sigurð mikið, og á aðfángadag jóla biður hann Sigurð fara varlega, og koma heim fyrir dagsetrið. Sigurður stendur yfir fènu um daginn, og rekur heim að húsum undir kvöldið. Þá heyrir hann þúngt fótatak uppi í fjallinu, og sèr hann þar flagðkonu koma heldur ógurlega, og ófrýnilega. „Sæll, Sigurður minn,“ segir flagðkonan, „eg ætla nú að fá þig í pokann minn í kvöld.“ „Vertu ekki að því arna,“ segir Sigurður, „eg er svo lítill og magur, að einginn feingur er í mèr, en eg á hèrna sauð og lamb, sem eg skal gefa þèr í pottinn.“

Afhendir hann henni þá sauðinn og lambið, og leggur hún hvorttveggja á herðar sèr, og leggur upp á fjallið. Sigurður kemur heim um kvöldið, og fagnar bóndi honum vel, og spyr hann, hvort hann hafði einskis var orðið. Sigurður kvað nei við, og sagði, að ekkert hefði fyrir sig borið. Varð nú bóndi mjög glaður við að þessum bágindum lètti af. Eptir nýárið kemur bóndi að húsunum og skoðar fèð; saknar hann þá sauðsins og lambsins, er Sigurður átti, og spyr hann Sigurð, hvað valdi. Hann kvað tóuna hafa rifið lambið, en sauðinn dottið ofan í, og kvaðst ekki mundu verða allskostar heppinn með sauðaeignina. Bóndi gefur honum þá eina á og tvo sauði, og biður hann að verða hjá sèr eptirleiðis. Sigurður játti því, og liður nú af veturinn og sumarið og fram til næstu jóla. Biður þá bóndi Sigurð fyrir hvern mun fara varlega, og kvaðst elska hann eins og son sinn. Sigurður sagði, að ekkert væri að óttast, og að hann mætti vera óhræddur. Á aðfángadagskvöld lætur Sigurðnr inn fèð, og kemur þá flagðkonan til hans og segir, að nú skuli ekki leingur dragast að fá hann í soðið. Sigurður sagði: „eg er til, ef þú vilt, en þú sèrð, að í mèr er ekki niðurlag á við einn sauð, en nú skal eg gefa þèr til jólanna 2 sauði og 2 geldínga; ertu ekki ánægð með það?“ „Láttu sjá,“ kvað flagðkonan; kom þá Sigurður fram með fèð, og krækti flagðkonan þeim saman á hornunum, og gekk á burt upp í hlíðina. Sigurður kom heim um kvöldið, og kvaðst ekki hafa orðið var við neitt. Bónda þótti svo vænt um Sigurð, að hann gaf honum um sumarið 4 sauði, og rèðst Sigurður enn þá til hans. Næsta jólaaptan lætur Sigurður fèð inn, og kemur flagðkonan enn þá og vill taka hann; býður hann henni þá 4 sauði, sem hann átti, en hún þág þá, og krækir þeim upp á bak sèr, þrífur síðan til Sigurðar, og heldur á honum undir hendinni; tók hún síðan á rás upp í fjallið, og að helli einum uppi í eggjunum; þar leggur hún niður byrðina, og býður Sigurði að skera sauðina, og raka svo gærurnar. Þegar Sigurður var búinn að því, spyr hann, hvað hann eigi nú að starfa, fær hún honum þá exi, og biður hann að brýna svo vel, að bíti, því hún ætli að höggva hann með henni. Sigurður gjörir það, og fær henni svo öxina; hún skipar þá Sigurði að taka af hálsinum á sèr; gjörir hann það, og bregður honum eigi; lagði þá tröllkonan frá sèr öxina, og kvaðst ekki hafa í hyggju, að lífláta hann. „Þú munt lánglífur verða,“ kvað hún, „og mikill gæfumaður, og því hefi eg hagað því svo, að þú yrðir smali á Silfrúnarstöðum, svo eg næði fundi þínum. Og vil eg nú segja þèr þann veg, sem þú skalt gánga til gæfu þinnar. Í vor skaltu fara frá bónda, og flytja að Ási í Hjaltadal; þar býr smiður góður, og skaltu læra hjá honum smíðar; en þegar þú ert fullnuma, skaltu gjöra þèr ferð með varníng og glíngur að Miklabæ in Oslandshlíð. Þar eru 3 dætur, er profasturinn á, og er hin yngsta þeirra, er Margrèt heitir, beztur kvennkostur á Íslandi. Hinar eldri systurnar eru gefnar fyrir glíngur og stáss, og munu þær girnast það, er Margrèt mun eigi

vilja eiga. Þá skaltu biðja hana, þegar þú ferð, að fylgja þèr til dyra, og þegar þar kemur, skaltu biðja hana að fylgja þèr á vallarfót; mun hún gjöra það, og skaltu þá gefa henni þessa 3 gripi, er eg nú fæ þèr, klút, belti og hríng, og muntu þá fá ást hennar. En þegar þig dreymir mig, skaltu vitja híngað aptur í hellir minn, og mun eg þá látin; skaltu þá verpa haug að mèr að fornum sið, og taka það, sem fèmætt er í helli mínum.“ Skildu þau Sigurður að svo mæltu, og hèlt Sigurður þá heim. Var þá bóndi orðinn mjög hryggur af burtveru hans, og tók honum fegins huga, og spurði hvort hann hefði nú ekki orðið var við neitt. Neitaði Sigurður því, og kvaðst ábyrgjast skyldi, að eingan smala hans mundi framar saka. Um vorið rèðist Sigurður þaðan og að Ási í Hjaltadal, og tók til smíðanna, og gekk honum það mjög greiðlega, svo að hann varð fullnuma eptir 2 ára tíma. Hann hèlt stöðugri við Guðmund bónda, og kom þar opt. Eitt sinn gjörir hann sèr ferð í Hofsós verzlunarstað, og kaupir þar glíngur og fásèna hluti, og heldur með það að Miklabæ; lætur hann þar varníng falan og fallega klúta. Þegar þær eldri systur heyra þetta, biðja þær hann að láta eingan sjá nema sig, og lofa sèr að velja úr. Sigurður hèt því og sýnir þeim varnínginn; keyptu þær margt af honum, en Margrèt leit á, og vildi ekki af hafa. Þegar Sigurður kveður, biður hann Margrèti að fylgja sèr til dyra, hún gjörir svo, en þegar þar kemur, biður hann hana að fylgja sèr á vallarfótinn, en hún kvaðst eigi vita, hvað slíkt ætti að þýða, að hann ókendur maður beiddist þessa af sèr, sem mætti virðast ósvinna. Sigurður biður hana því betur, og varð það af, að hún fór með honum. Gefur Sigurður henni þá gripina, og biður hana vel að njóta, og dregur hrínginn á hönd henni. „Feiginn vildi eg ekki hafa þáð gripi þína,“ sagði Margrèt, „og það finn eg að sú nattúra fylgir þeim, að eg ekki get skilað þeim aptur, og verður það svo að vera.“ Skilja þau að svo búnu og heldur Sigurður heim að Ási.

Margrèti profastsdóttur brá svo við gripina, að henni fannst, að hún eingann mann gæti átt eða elskað annan en Sigurð og þókti, sem hún eigi gæti án hans lifað, og urðu svo mjög brögð að þessu, að hún sagði föður sínum frá; hann leitaðist með öllu móti við, að fá hana ofan af slíkri fásinnu, og kvað slíkt aldrei mundu verða að sèr lifandi. Setti þá Margrèti hljóða, og neytti þá hvorki svefns nè matar; sá þá faðir hennar, að svo búið mátti ekki bíða, og tók sèr ferð á hendur að Ási í Hjaltadal og ræður Sigurð til sín til smíða. Dvaldist Sigurður þar um hríð, og kom svo innan skamms á með Margrèti og honum, að þau hètu hvort öðru æfinnum trygðum, og var með samþykki föður hennar. Litlu síðar dreymdi Sigurð flagðkonuna, og þóktist hann þá vita, að hún mundi vera dauð. Biður hann þá prófast að ríða með sèr upp að Siifrastöðum, og gista þar hjá Guðmundi bónda. En þá Guðmundur bóndi heyrði, að Sigurður væri trúlofaður prófastsdóttur, sagðist hann vilja gjöra það uppskátt, sem sèr hefði

leingi búið í huga, og það var að arfleiða Sigurð að öllum fjármunum sínum, og bauð hann honum að taka við búi sínu og öllum fjármunum á næsta vori. Sigurður þakkaði bónda einkar vel, og prófastur varð glaður við, er hann sá dóttur sína komast að svo góðum efnum.

Daginn eptir bauð Sigurður prófasti og Guðmundi bónda, að gánga með sèr upp í fjallið; kemur hann þá að hellismunna einum upp undir fjallseggjum og kvað þeir skyldu óhræddir inn gánga. Sáu þeir þar þá flagðkonuna liggja dauða á gólfinu og var fremur ófrýnileg. Sagði Sigurður þeim þá upp alla söguna, og bað þá hjálpa sèr að koma flagðinu fyrir. Urðuðu þeir hana í grjótinu fyrir framan hellismunnann og geingu síðan innar í hellinn, og fundu þar allskonar muni fullklyfja á 10 hesta, sem Sigurður flutti heim að Silfrastöðum. Hann var jafnan mikils metinn og hinn mesti lánsmaður til dauðadags. Á veginum upp með Norðurá er mælt að bæði megi sjá hellismunnann og grjótdysið fyrir neðan.

**Jón og tröllskessan.** (Eptir sögn bóndamanns austan úr Biskupstúngum.) Einu sinni var bóndi fyrir norðan, sem hafði þann sið að róa á haustin og veturnar suður í Vestmannaeyum. Bóndi átti son upp kominn, þegar hèr var komið söguuni. Pilturinn hèt Jón, og var hinn efnilegasti maður. Einu sinni lèt bóndi Jón fara með sèr til að róa í eyunum. Fóru þeir sem leiðir lágu, og segir ekki af ferðum þeirra, nè útróðri. En haustið eptir lætur bóndi Jón einsamlan fara suður í verið; því sjálfur var hann þá aldraður orðinn, og treysti sèr ekki til að róa framar. En áður Jón lagði á stað heiman að, biður faðir hans hann, að muna sig um að á ekki undir hömrum nokkrum, sem sèu í hlíð þeirri hinni laungu, sem vegurinn liggi undir. Lagði hann mjög ríkt á um þetta við hann, svo Jón lofaði að á þar ekki, hvað sem á geingi, eða hvernig sem veður yrði. Síðan fer Jón; hann hafði 2 hesta undir reiðíngi, og hinn þriðja til reiðar. Átti hann að koma þeim fyrir um veturinn í Landeyunum, eins og faðir hans hafði verið vanur að gjöra. Segir nú ekki af ferðum Jóns, nema honum geingur vel. Kemur hann undir fjallshlíðina, sem til stóð, og fer með henni leingi. Þá var áliðið dag. Ætlaði Jón að keppast við að komast fram hjá hlíðinni, eins og faðir hans hafði beðið hann um. En í því hann kemur í nánd við klettana, sem faðir hans hafði talað um, gjörir á hann fjarskalegt óveður, með stormi og regni. Er hann þá kominn að háum klettum. Sèr hann þar hinn allrafallegasta áfángastað í brekku undir klettunum. Er þar gras nóg og skjól. Jón fer þá að hugsa sig um, hvað gjöra skuli. Lízt honum hèr vel á, og skilur ekki í, hvað að því geti verið að á þar. Og svo fer, að hann ræður það af. Sprettir hann af hestunum og heptir þá. Sèr hann nú hellisop uppi í klettunum, skamt frá sèr. Ber hann þángað dót sitt alt, og lætur það öðru megin út undir í hellinn, skamt inuar frá dyrunum; býr síðan um sig í faráugrinum, og

fer að borða. Dimt var í hellinum. En þegar Jón var farinn að borða, heyrir hann eitthvert ýlfur innar laugt í hellinum. Honum varð hálf hverft við það, en herðir þó upp hugann. Tekur hann stóreflis fisk af nesti sínu, rífur af honum alt roðið í einu lagi, drepur síðan smjöri vel þykt á allan fiskinn, og leggur roðið ofan yfir það. Að því búnu kastar hann fiskinum af hendi, svo lángt sem hann gat innar eptir hellinum, og segir, að þeir skuli vara sig, sem fyrir sèu, á því, sem hann sendi, en þeir megi hirða það og eiga, ef þeir vilji. Heyrir nú Jón bráðum, að ýlfrið þagnar, en einhver fer að rífa fiskinn.

þegar Jón hafði matazt, leggst hann fyrir, og ætlar nú að fara að sofa. Heyrir hann þá úti fyrir hellinum að skrjáfar í grjótinu, og að einhver kemur heldur enn ekki þúngstígur að hellismunnanum. Sèr hann brátt að það er skessa ein, stór og mikil, og er sem hún glói öll utan í myrkrinu. þókti Jóni nóg um sjón þessa. En í því skessan kemur inu í hellisdyrnar, segir hún: „Mannaþefur í helli mínum." Síðan skálmar hún inuar eptir hellinum, og fleygir niður byrði sinni á gólfið. Varð þá dýnkur mikill svo hellirinn nötraði við. þá heyrir Jón, að kerlíng fer að tala við einhvern iunarfrá. Heyrir hann þá, að hún segir: „Betur gjört, en ekki, og er ílt, ef það skal ólaunað." Sèr hann þá, hvar skessan kemur fram með ljós í hendinni. Hún heilsar Jóni með nafni, þakkar honum fyrir börnin sín, og biður hann að koma með sèr inn í hellinn. það þiggur hann, en kerlíng krækti litlu fingrunum undir silana á böggum hans, og heldur svo á þeim með sèr. þegar inn eptir kemur, sèr Jón þar 2 rúm, og eru tvö börn í öðru; það voru börn skessunnar, sem hann hafði áður heyrt til, og sem etið höfðu fiskinn. En á gólfinu lá silúngshrúga, sem kerlíng hafði veitt um kvöldið, og borið heim á bakinu, og af því sýndist hún öll glóandi utan í myrkrinu. Kerlíng spyr nú Jón, hvort hann vilji heldur sofa í sínu rúmi, eða í rúminu barnanna sinna. Hann vildi heldur sofa í rúminu barnanna. Tekur þá skessan börnin, og býr um þau á gólfinu, en lætur öll ný föt í rúmið, og býr um hann vel. Fer þá Jón að sofa, og vaknar við það, að kerlíng kemur með heitan silúng handa honum að borða. Hann þiggur silúnginn, en á meðan hann er að borða, var kerlíng alt af að tala við hann, og var hin glaðasta. Hún spyr hann, hvar hann ætli að róa. Hann segir henni það. Hún spyr, hvort hann sè ráðinn hjá nokkrum. Jón segir það ekki vera. Segir þá kerlíng honum, að nú sèu allir búnir að fullráða hjá sèr í eyunum, svo einginn geti þar bætt á sig manni, og hann muni hvergi fá inni, nema hjá einum uppgefnum karli, sem nú fái aldrei orðið bein úr sjó, og ekki hafi nema hálfónýtan bát, og ónýta stráka á; því hann fái eingan almennilegan mann orðið. „Ræð eg þèr til," segir hún, „að fala skiprúm hjá karli þessum, og mun hann teljast undan að taka þig, en þú skalt ekki hætta fyrr en hann gjörir það. Eg get nú ekki borgað þèr fyrir börnin

min, sem skyldi," segir skessan, „en þó eru hèr tveir aunglar, sem eg ætla að gefa þèr. Skaltu sjálfur hafa annan, en karlinn skal hafa hinn. Þið skuluð æfinlega renna tveir einir; því eg vona að aunglarnir reynist heldur fisknir. Þið skuluð altènd róa seinastir af öllum, og sjá um að koma æfinlega fyrstir að á kvöldin. Aldrei skuluð þið róa leingra, en að kletti þeim, sem er rètt fyrir utan vörina. Þegar þú kemur nú í Landeyasand, þá verða seinustu eyaskipin ferðbúin. Þú skalt fá þèr far með þeim út í eyarnar, og binda hestana þína á streing í fjörunni, og biðja eingan fyrir þá, nè skipta þèr af þeim framar. Eg skal reyna, að sjá eitthvað fyrir þeim í vetur. En ef svo ólíklega fer, að þú fiskar bærilega í vetur, þá þækti mèr vænt um, að eg mætti láta hest frá mèr fylgja hestunum þínum undir fisk; því mèr þykir svo gott að smakka harðæti." Jón leyfði henni þetta, og lofaði, að fara í öllu að ráðum kerlíngar.

Um morguninn í bítið leggur Jón á stað úr hellinum, og skilja þau kerlíng með blíðu. Segir ekki af ferðum Jóns fyrr en hann kemur í Landeyasand. Liggja þar þá seinustu eyaskipin ferðbúin til útferðar. Sprettir þá Jón af hestum sínum í snatri, og bindur þá á streing í sandinum, án þess að biðja nokkurn mann gott fyrir þá. Gjörðu nú hinir allramesta háð að Jóni fyrir þetta, og sögðu, að þeir myndu þó verða í bærilegu standi í vertíðarlokin, klárarnir þeir arna. Jón skipti sèr ekkert af gabbi þeirra, heldur lèt eins og hann heyrði það ekki. Fór hann svo með þeim út í eyarnar. Þegar þar kom, fer hann að fala sèr skiprúm, en fèkk það hvergi; því allstaðar var fullásett fyrir. Loksins kemur hann til karlsins, sem kerlíngin hafði vísað honum á. Hann biður hann að taka sig. Karl tekur því seinlega, og segist ekki vilja gjöra svo efnilegum manni slíkan skaða. „Eg fæ aldrei bein úr sjó orðið," segir karlinn, „og hefi ekki nema ónýta stráka á ónýtu bátkrói. Eg get ekki róið nema í bezta og blíðasta veðri," segir hann, „og er það ekki líflegt fyrir efnilegan mann, að binda sig við ónytjúngsskapinn í mèr." Jón segir, að það verði að vera sinn skaði, og þángað til er hann að sarga við karlinn, að hann tekur hann. Flytur Jón sig nú til hans, og þókti mönnum honum ekki hafa vel tekizt að ráða sig, og gjörðu mjög gis að honum.

Nú kom vertíðin. Einn morgun vakna þeir Jón við það, að allir eru rónir í eyunum, og er þá blíðasta og bezta veður og blæalogn um alt. Þá segir karlinn: „Ekki veit eg, hvort eg á að fara að reyna að fara á flot, eins og aðrir. Eg held það komi ekki mikið út af því." Jón segir, að óhætt sè að reyna það. Síðan skinnklæðast þeir, og fara frá landi. En þegar þeir eru að eins komnir út úr vörinni, þykist Jón þekkja klettinn, sem skessan hafði talað um. Hann spyr þá karlinn, hvort það sè ekki ráð að leita hèr. Karlinn varð hissa, og sagði, að það næði eingri átt. Jón biður hann að leyfa sèr að renna hèr einu sinni til gamans. Karl lætur það þá svo vera. En óðar en Jón hafði rent færinn, dró hann fisk.

Fèkk hann þá karlinum hinn aungulinn, tröllkonunaut. Er þar nú fljótt af að segja, að þeir þríhlóðu þarna um daginn, og höfðu þá feingið 60 til hlutar af allravænsta fiski. Rèru síðan í land laungu á undan öllum, og voru lángt komnir að gjöra að, þegar hinir komu. Urðu nú allir hissa á hlutnum karlsins. Spurðu þeir hann, hvar hann hefði fiskað svona, og sagði hann þeim, eins og var. Daginn eptir rèru eyamenn snemma, og leituðu við klettinn, en urðu þar ekki lífs varir. Fóru þeir þá leið sína, og þá reru þeir Jón. Fór alt á sömu leið fyrir þeim, eins og daginn áður. Þarf ekki að orðleingja það, að þeir Jón reru alt af að klettinum um veturinn, og feingu tólf hundruð til hlutar. Voru þeir lángmestir allra í eyunum. Daginn fyrir lokadaginn reru þeir Jón seinast. En þá bar svo við, að einu sinni þegar þeir dróu upp færin, voru báðir aunglarnir horfnir, og sáu þeir ekki betur, en að þeir hefðu verið leystir af. Feingust þeir þá ekki um það, og hèldu að landi.

Nú er að segja frá því, að Jón fer með skreið sína í land, og fær flutníng á sama skipi, og hann fór á út um haustið. Voru þá skipverjar að hæðast að því á leiðinni, hvað hestarnir hans mundu verða vel aldir; þeir mundu geta haldið á skreiðinni hans norður. Þegar að landi kom, sáu þeir hesta Jóns; stóðu þeir í sandinum, bundnir á streing, öldúngis eins og þegar Jón skildi við þá. Var nú flestum forvitni á, að skoða klárana. En þeim brá heldur en ekki í brún; því hestarnir voru sílspikaðir, eins og þeir hefðu verið aldir um veturinn. En auk hesta Jóns var þar einn hestur með reiðíngi, brúnn á lit, allramesti stólpagripur. Lagsmenn Jóns urðu nú hálfhræddir við hann; því þeir töldu víst, að hann væri allramesti galdramaður, þar sem hann hafði fiskað svo vel, og hestarnir hans voru svona vel til fara, en einginn vissi til, að neinn hefði hirt þá. Jón bindur nú skreið á hestana, og lagði eins mikið á þann brúna einan, og báða sína. Að því búnu fer hann leið sína einsamall norður. Segir ekki af ferðum hans, fyrr en hann kemur í hellinn til skessunnar. Fagnaði hún honum vel, og dvaldi hann þar hjá henni nokkrar nætur. Gaf hann henni baggana af brúna klárnum. Spjölluðu þau nú margt saman. Sagði hún honum, að um veturinn hefði börnin sín dáið, og hefði hún dysjað þau undir hamrinum hjá karlinum sínum, sem hún hafði áður mist, og dysjað þar í urðinni. Hún sagðist og hafa leyst af hjá þeim aunglana í seinasta róðrinum, um leið og hún hefði komið með hestana í sandinn. Spurði kerlíng, hvort Jón hefði frètt nokkuð heiman að frá sèr, en hann sagði það ekki vera. Hún sagðist þá geta frætt hann um það, að faðir hans hefði dáið um veturinn, og þar eð hann væri einbirni, ætti hann nú að taka við búinu eptir hann. Mundi hann setjast í búið, og eignast konu um sumarið, og verða hinn mesti gæfumaður. Sagðist hún nú að lyktum ætla að biðja hann einnar bænar. Jón spurði hvað það væri. Þá segir kerlíng: „Eg á nú ekki lángt eptir, og ætla eg að biðja þig að koma híngað það allra fljótasta, ef þig

dreymir mig; því eg ætla að biðja þig að dysja mig hjá karlinum mínum og börnunum okkar." Síðan sýndi hún honum, hvar þau væru dysjuð. Þar eptir lauk hún upp afhelli einum, og voru þar inni tvær kistur stórar fullar með allskonar gull og gersemar. Sagði hún, að kistur þessar ætti hann að eiga eptir sig, og brúna klárinn með. Sagðist hún skyldi verða búin að binda kisturnar, og setja þær út áður hún dæi, og hlaða undir kisturnar, svo hann þyrfti ekki annað, en teyma hestinn á milli þeirra, og krækja silunum upp á klakkana. Á þann brúna mundi hún og verða búin að leggja. En hann mundi bera kisturnar, og ekki mundi hann þurfa að gjöra að á honum norður. Síðan skildu þau, Jón og skessan, með kærleikum. Segir ekki af ferð Jóns, en vel gekk honum norður. Var þar eins á statt, og kerlíng hafði sagt, og alt fór á þá leið, sem hún hafði talað. Settist Jón í búið eptir föður sinn, og tók þar við öllum arfi. Snemma um sumarið kvæntist hann bóndadóttur einni þar í sveitinni.

Leið svo fram á eingjaslátt, að ekki bar neitt til tíðinda. Eina nótt dreymir Jón þá skessuna. Minnist hann þá bænar hennar, og rís upp þegar. Var þá myrkt af nótt, og allramesta stórviðri og rigníng úti. Jón biður vinnumann sinn að bregða fljótt við, og ná reiðhestum sínum tveimur. Vinnumaðurinn gjörir það. Býst Jón í snatri. Kona hans spurði, hvað hann ætlaði að fara svona sviplega burtu nm nótt og í slíku illviðri. Hann vildi ekkert um það segja, en bað hana að undrast ekki um sig, þó hann yrði nokkra daga í burtu. Síðan fer Jón, og ríður, sem hann má. Gekk honum vel, og kemur að hellinum. Er þá skessan úti, og getur að eins talað nokkur orð við Jón. Beið hann þar, á meðan hún dó, og dysjaði hana síðan, þar sem hún hafði til tekið. Síðan tók hann brúna klárinn, og var hann með reiðíngi. Kisturnar stóðu úti, og voru lyklarnir í. Teymdi Jón þá hestinn milli þeirra, og smeygði silunum á klakkana. Síðan fór hann á stað með alt saman. Gekk honum vel norður. Settist Jón nú að búi sínu, og var þá stórríkur orðinn. Bjó hann leingi og vel á föðurleifð sinni; varð hann hinn mesti lánsmaður, og vel metinn af öllum. Og ekki kann eg þessa sögu leingri.

**d)** Þess er áður getið, að nátttröll sèu ein tegund trölla, og hèldu þau sig optast í tilteknum fjöllum, sem við þau eru kend síðan, annaðhvort af því, að tröllin hafa búið í þeim, eða liggja þar grafinn, eða þau hafa dagað þar uppi, og orðið svo að steini, sem síðan heitir karl eða kerlíng. Nærri slíkum nátttröllum liggur hugmyndin um svo marga hina fyrsta landnámsmenn hèr, bæði þá, sem sögurnar segja af, að „hafi dáið í fjöllin," og aðra, t. d. Bárð í Snæfellsjökli, Ármann í Ármannsfelli, og enn fleiri, þó ekki sè með berum orðum sagt, að þeir hafi allir verið tröll, og því þykir rèttast að geta nokkurra þeirra hèr þegar búið er að segja fyrst frá hinum meinsömu, og síðan hinum meinlausu nátttröllum, því flestir slíkir fornmenn, er í fjöll hafa hvorfið, hafa þótt góðar landvættir.

Af tröllkonu þeirri, sem átti heima í Helgafellssveit, eða fjöllunum þar í kríng, fyrst í Helgafelli, en síðan, þegar kirkja var þar reist, í Kerlíngarfjalli, fara ýmsar sögur, og skal hèr getið þriggja. Hvítabjarnarey er ein af þeim eyum, sem liggja undir Stykkishólm á Breiðafirði. Hún dregur nafn af því, að þar kom hvítabjörn á land, og lagðist í bás einn sunnan á eynni, sem er luktur háum hamrabjörgum alt í kríng. Tröllkona var þar ein á landi upp, og segja menn, að hún hafi átt heimkynni í Helgafelli, og hefði það þá átt að vera áður, en kristni var lögtekin hèr á landi, og kirkja reist á Helgafelli, því tröll firtust kristni og kirkjur. Tröllkonan varð þess vör, að björninn var kominn í bás þann í eynni sem fyr er nefndur, og fór því ofan á Þíngvallaborg, sem er gegnt eynni á landi, og kastaði þaðan bjargi miklu, er hún ætlaði að bángsa skyldi að bana verða. En svo vildi til að steinninn kom ofar, en hún ætlaði, og lenti í bjargsbrúnunum fyrir ofan básinn, og beggja vegna við hann, og liggur hann þar enn í dag yfir þveran básinn; en björnin varð ómeiddur. — Önnur sögn er það vestra, að kerlíngin, sem átti heima í Kerlíngarfjalli, hafi orðið þess vísari, að maður einn var róinn til fiskjar út á Hrappseyarsund, milli Hrappseyar og Stykkishólms. Tröllkonunni var eitthvað í nöp við hann, sem ekki er um getið, hvað verið hafi, og kastar því bjargi miklu að manninum, þar sem hann situr á bátnum, en sá steinn, segja menn hafi átt að lenda í Hvítabjarnarey, og sjái þar enn klettin; en kerlíng misti mannsinns. — Nálægt Nesvogi hjá Stykkishólmi eru 3 litlir hólar, sem sagt er, að tröllkerlíngin af Kerlíngarskarði í Kerlíngarfjalli hafi kastað þángað, og ætlaði hún að brjóta með þeim kirkjuna á Helgafelli.[1]

**Nátttröllin hjá Hlíðarenda.** Hjá Hlíðarenda í Bárðardal eru klettar nokkrir, sem sagt er að sèu nátttröll, og að þáu hafi dagað þar uppi, er þau voru að ná sèr mönnum til átu.

**Likný í Þjórsárdal.** Í Þjórsárdal fyrir ofan Stóranúp er klettur einn, sem Likný heitir; það var tröllkona, sem leitaðist við að verja mönnum umferðir um dalinn, með því að hlaða grjótgarð yfir um þveran dalinn, en hvað henni gekk til þess, vita menn ekki. Tröllkonan var ofleingi að því starfi, svo hana dagaði uppi, og á mynd hennar að vera á klettinum Likný.[2]

**Nátt-tröllið.** (Eptir sögu gamallar konu úr Rángárþingi.) Það var á einum stað, að sá, sem gæta átti bæarins á jólanóttina, meðan hitt fólkið var við aptansanng, fannst annaðhvort dauður að morgni, eða æðisgeinginn. Þókti heimamönnum þetta ílt, og vildu fáir verða til að vera heima á jólanóttina. Einu sinni býðst stúlka ein til, að gæta bæarins. Urðu hinir því fegnir,

1. Sjá enn um Kerlínguna á Kerlíngarskarði „Norðurfara. Kh., 1848." 23—26. bls.; sbr. Dr. Maurers Isl. Volkss. 51. bls.

2. Sbr. Dr. Maurers Isl. Volkss. 51. bls., en nafnið rètti sèra Skúli Gíslason.

og fóru burtu. Stúlkan sat á palli í baðstofu, og kvað við barn, sem hún sat undir. Um nóttina er komið á gluggann, og sagt:

„Fögur þykir mèr hönd þín,
snör mín, en snarpa, og dillidó.“

þá segir hún:

„Hún hefir aldrei saur sópað,
ári minn, Kári, og korriró.“

þá er sagt á glugganum:

„Fagurt þykir mèr auga þitt,
snör mín, en snarpa, og dillidó.“

þá segir hún:

„Aldrei hefir það ílt sèð,
ári minn, Kári, og korriró.“

þá er sagt á glugganum:

„Fagur þykir mèr fótur þinn,
snör mín, en snarpa, og dillidó.“

þá segir hún:

„Aldrei hefir hann saur troðið,
ári minn, Kári, og korriró.“

þá er sagt á glugganum:

„Dagur er í austri,
„snör mín, en snarpa, og dillidó.“

þá segir hún:

„Stattu og vertu að steini,
en eingum þó að meini,
ári minn, Kári, og korriró.“

Hvarf þá vætturin af glugganum. En um morguninn, þegar fólkið kom heim, var kominn steinn mikill í bæarsundið, og stóð hann þar æ síðau. Sagði þá stúlkan frá því, sem hún hafði heyrt (en ekkert sá hún; því hún leit aldrei við), og hafði það verið nátttröll, sem á gluggann kom.

**Karl og kerling.** (Eptir frásögn Vigfúsar Gíslasonar.) Tvö tröll framan úr Breiðafjarðardölum tóku sig til eina nótt og brugðu sèr vestur yfir Breiðafjörð, vestur í Flateyarlönd. Sóktu þau þángað ey eina, sem þau ætluðu að gefa Snóksdalskirkju og fara með hana með sèr suður í Snóksdalspolla; þeir eru fyrir norðan mynnið á Hörðudal í Breiðafjarðardölum, við Hvammsfjörð. Karlinn gekk á undan, og teymdi eyna, en kerlíngin rak á eptir. Nú segir ekki af ferðum þeirra, fyrr en þau voru komin með eyna suður yfir Breiðafjörð, og inn á Hvammsfjörð. En þegar þau voru komin með hana framundan Staðarfelli, dagaði tröllin uppi, svo eyan varð kyr í Staðarfellslöndum, og er hún þar enn í dag, og heitir Lambey. Karl og kerling urðu við það bæði að steindráugum, karlinn fyrir innan eyna,

því hann var á uudan, og er bilið svo lítið milli hans og eyarinnar, að þar má stíga á milli; karlinn er sjálfur hár og mjór steindrángi. Kerlíngin varð að steindránga fyrir utan eyna, og er hún leingra frá eynni, en karlinn; hún er og nokkru lægri, en hann, en góðum mun gildari. Drángar þessir heita enn Karl og Kerlíng.

**Upptök Drángeyar.** (Eptir sögn Skagfirðinga og Húnvetninga.) Á fyrri dögum áttu nátttröll tvö heima í Hegranesi; var það karl og kerlíng; ekki fóru miklar sögur af þeim, fyrr en þessi gjörðist. Það bar til eitt sinn, að kýr þeirra varð yxna: en hvort sem það hefir verið af því, að þau áttu eigi öðrum á að skipa, eða af hinu, að þau trúðu sjálfum sèr bezt, fóru þau og leiddu sjálf kúna, svo að hún skyldi ekki missa tíma. Karlinn teymdi hana, en kerlíng rak á eptir, sem venja er til. Hèldu þau svo með kúna út Hegranes og út á Skagafjörð góðan kipp. Þegar þau áttu enn eptir býsna spotta, til þess að hálfna fjörðinn, sáu þau, að dagur ljómaði austan megin fjarðarins í fjallaskörðum og yfir fjallabrúnum. En með því það er bráður bani nátttrölla, ef þau dagar uppi, varð þeim dagsbirtan að fjörlesti, svo þau urðu sitt að hvorum steindránga, og eru það nú drángar þeir, sem standa annar fyrir utan Drángey, og er það karlinn, en hinn fyrir innan eyna, og er það kerlíngin; draga drángar þessir af því nafn, og heita enn í dag Karl og Kerlíng; en úr kúnni varð eyan sjálf, og þótt þess sè ekki getið, að kýrin hafi verið búin að taka við fángi í för karls og kerlíngar, hefir hún þó einatt orðið Skagfirðíngum arðsöm vorbæra, sem fyrr er sagt.[1] Það er eldgamall siður sem enn helzt við, að allir þeir, sem til Drángeyar fara í fyrsta sinni á vorin, heilsi henni og alt Kerlíngu og Karli. Byrjar formaðurinn það fyrstur á hverju skipi og segir: „Heil og sæl (eða happasæl), Drángey mín, og allir þínir fylgjarar; heil og sæl (eða happasæl), Kerlíng mín, og allir þínir fylgjarar; heill og sæll (eða happasæll), Karl minn, og allir þínir fylgjarar.“ Síðan hefir hver háseti á skipinu, og eins þeir, sem yfirskips eru, allan hinn sama formála.[2] Þó það megi vel vera, að þetta sè nú gjört meir af gamni en alvöru, þykir þó mega gánga að því vísu, að slíkt sèu leifar af hinni fornu trú á landvætti Drángeyar, og siður þessi hafi haldizt frá aldaöðli, eða þá að minnsta kosti frá því, er þar urðu slysfarirnar miklu, sem fyrr er getið, áður en Guðmundur biskup vígði eyna.

**Vestmannaeyar.** Sú sögn er og til um Vestmannaeyar, að tröll hafi átt að kasta þeim út á sjó, þángað sem þær eru, og það alt sunnan af Hellisheiði; en ókunnugt er mönnum um önnur atvik að því.[3]

1. Sbr. Dr. Maurers Isl. Volkss. 52. bls.
2. Frá þessu hefir sagt húsfrú Ólína, kona Sigurðar gullsmiðs Vigfússonar í Reykjavík.
3. Sbr. Dr. Maurers Isl. Volkss. 51.

**Illþurka.** Á skarðinu miðja vegu milli Skarðs og Búðardals, er dys og varða er heitir Illþurka, og er þar dysjuð norn eðr heiðin vond kona, sem hataði söng og messu, og er því dysjuð mitt á milli kirknanna í Skarði og Búðardal, þar sem ekki heyrist klukknahljóð frá hvörugri kirkjunni. Hver maðr sem í fyrsta sinni ríðr fram hjá Illþurku á að kasta steini í dys hennar. (Eptir sögu Guðbrandar Vigfússonar.)

**Karl og Kerlíng í Hítardal.** Í Bæarfellinu í Hítardal eru klettar tveir, sem nefndir eru Karl og Kerlíng, og skamt þaðan heitir Tröllabekkur; þar áttu þau bæði að hafa setið. En á leiðinni yfir í fjallið, sem þar er andspænis á móti, er sagt að þau Karl og Kerlíngu hafi dagað uppi.[1] — Eggert Ólafsson getur þess og, með Dr. Maurer, í ferðabók sinni (258—259. bls.), að í kirkjuveggjunum í Hítardal sè höggvið grjót, og á tveimur hornsteinunum að korbaki sèu tvær andlitsmyndir höggnar, önnur með hökuskegg, en hin skegglaus. Önnur myndin er sagt að sè mynd Bárðar Snæfellsáss, en hin Hítar tröllkonu, sem dalurinn er kendur við. Ofar í Hítardal heitir Hítargröf, og er það forn frásögn,[2] að Hít hafi búið í Hundahelli, sem enn er til þar í dalnum. Fleiri sögur segist Dr. Maurer ekki hafa feingið um Hít.[3]

**Þuríður sundafyllir.** Hólsá kemur upp í Túngudal í Bolúngarvík, rennur skammt, og kemur til sjáfar í miðri víkinni. Efst í víkinni norðanvið ána er Túnga, vel húsaður bær, sumir segja Þjóðólfstúnga.

Þuríður sundafyllir átti bróður þann er Þjóðólfur hèt. Hann bað Þuríði fá sèr land í Bolúngarvík, en hún leyfði honum svo mikið land sem hann gæti girt fyrir á dag. Hann fer til og leggur garð frá Stiga, og vildi girða fyrir Hlíðardal og Túngudal, en komst ekki lengra en á miðjan Túngudal um daginn, og sjást þess merki enn, hvar hann lagði garðinn. Þjóðólfur kallaði sèr báða dalina, en Þuríður þóttist eiga þann dalinn, er eigi var girt fyrir til fulls, og varð svo að vera sem hún vildi. Þetta líkaði Þjóðólfi stórilla, og hugðist að hefna sín, og stela yxni, sem Þuríður átti á Stigahlíð. Þuríður varð vör við, er hann gekk á hlíðina og fór þegar eptir honum, en hann tók yxnið og vildi leiða heim. Þau mættust þar sem nú heitir Ófæra, innst á hlíðinni. Hún rèð þegar á hann, og vildi taka yxnið, en fèkk ekki að gjört. Varð hún þá svo reið, að hún lagði það á hann, að hann yrði að steini þar sem flestir fuglar á hann skiti, en hann lèt það um mælt á móti, að hún yrði að standi, þar sem vindur nauðaði mest á, og stendur hún nú efst á norðurhorninu á Óshlíð.

Þjóðólfur varð að kletti, og valt fram í sjóinn, og lenti á klöpp, sem uppúr stóð. Sá klettur var jafnan alþakinn af fuglum, og stóð þar þángað til

1. Sbr. Dr. Maurers Isl. Volkss. 51. bls.
2. Bárðarsaga, 13. kap. (Kaupmhfn. 1860.)
3. Sbr. Dr. Maurers Isl. Volkss. 53. bls.

1836 um haustið, hvarf hann í logni og ládeyðu eina nótt, svo enginn vissi hvað af varð. Allir muna Bolvíkíngar eptir þjóðólfi, og vissu gjörla hvar hann stóð, því hann var stakur, og róið framhjá honum í hvert sinn er á sjó var farið, og fullyrða allir í einu hljóði, að svo sè grunnt allt í kríngum klöppina, sem hann stóð á, áð hann geti þar hvergi legið, en segja hann fyrir því hafa horfið, að þá hafi verið úti álögu-tíminn. Gjörla sjást merki hvar hann stóð á skerinu, og hefir hann verið rúmra 5 faðma á þann veginn sem niður hefir snúið.

Höll í Bolúngarvík, norðan undir Erninum (Ernir, fjall að miðri Bolúngarvík). Bærinn stendur á háfum og víðum hól, það segja menn hèti fyrrum Lýnghóll. Á þann hól er sagt að þuríður sundafyllir lèti reka kýr sínar. það er og sagt, að jafnan er henni varð litið til hólsins sýndist henni sem ljós brynni þar. það lagði hún fyrir siðaskiptum, og fèkk af því svo mikinn óþokka á hólnum, að hún lèt ekki framar þángað beita kúm sínum, og er mælt hún lèti samstundis drepa eina af kúm sínum, sem óvart komst á hólinn, og kasta út slátrinu. — Úr Mýdalsvatni rennur ós til sjáfar. Sunnanvið ósinn stendur bær, sem og heitir Ós. þar suður með vatninu eru tóptir; það er kallaður Heimari-Kroppur, og þar framar á að hafa verið Fremri-Kroppur. Gegnt Heimara-Kroppi, í nesi því sem verður þar sem ósinn fellur úr vatninu, segja menn að hafi staðið Vatnsnes hið forna, þar sem þuríður bygði. þar eru grasi vaxnar tóptir og girt um, en auðsèð er að þær eru ekki mjög gamlar, og ekki því líkar, að þær væri eptir fornmenn. (Úr sóknarlýsíng Eyrar og Hóls, sem sèra Bergur Halldórsson hefir samið; í safni Bókmentafèlags.)

**Jörundur undir Jörundarfelli og Ásmundur undir Ásmundarnúpi.** (Frá sèra Skúla Gíslasyni eptir sögn nyrðra.) Í fornöld bjuggu þeir Jörundur undir Jörundarfelli og Ásmundur undir Ásmundarnúpi; voru þeir vinir miklir, en á efri árum trylltust þeir, og gekk þá hvor í það fell, sem við hann er kent. það er mælt, að Ásmundur hafi átt vopn þau og herklæði, er voru gersemi mikil; festi hann þau framan í hamar einn í Ásmundarnúpi, og mælti svo fyrir, að þeim einum skyldi auðið verða að ná þeim, er ekki lèti skírast, og ekki hefðu alizt á öðru hin fyrsta tólf aldursárin, en kaplamjólk og hrossakjöti, en eingum hefir auðnazt að ná þeim til þessa. þeir Jörundur og Ásmundur höfðu mikla ást á Vatnsdal, og eru þeir ármenn eða bjargvættir dalsins. Einhvern harðindavetur heyrðu menn þá vera að kallast á, og voru þeir þá að ráðgjöra, að repta yfir dalinn, svo snjór fèlli aldrei í hann, en sú ráðagjörð fórst fyrir, því þeim þókti dalurinn verða ófegri, ef sól næði eigi að skína í hann.

**Ármannshaugur.** Ármann, sem bjó í Ármannsfelli í þíngvallasveit, á og að vera heygður einhverstaðar hjá fellinu; en einginn veit, hvar haugur hans er nú.

**Bergþórsleið.** Í Haukadal sèr enn Bergþórsleið; þar á Bergþór, sonur Þorálfs úr Bláfelli að vera grafinn, sem Bárðar saga getur um (í 9. kap.), að glímdi við Orm Stórólfsson undir Skjaldbreið. (sbr. Ármanns s. 10. kap.)

**Sagan af Bergþóri í Bláfelli.** (Egill hreppstjóri Pálsson í Múla eptir munnmælum í Biskupstúngum.) Bergþór hèt maður; hann bjó í Bláfelli í helli einum; kona hans hèt Hrefna. Faðir Bergþórs var Þórólfur í Þórólfsfelli, sem öðru nafni heitir Kálfstindar; en móðir Bergþórs hèt Hlaðgerður, og bjó í Hlöðkufelli.[1] Þá var landið í heiðni, er þessi saga gerðist, og var það á dögum Hítar sem Hítardalur er við kendur. Bergþór var í boði hennar, þegar hún bauð öllum tröllum af landinu til veizlu í Hundahelli. Eptir máltíð bauð Hít tröllunum að fá sèr einhverja skemtun, en það voru aflraunir, og þókti Bergþór þar jafn sterkastur.[2] Bergþór gerði mönnum ekki mein, ef ekki var gert á hluta hans, en forspár þókti hann og margvís. Eptir að landið kristnaðist, þókti Hrefnu óskemtilegt í Bláfelli, því hún sá þaðan yfir bygðina kristna. Svo mikið var henni þessi nýbreytni móti skapi, að hún vildi flytja bygð þeirra norður yfir Hvítá. En Bergþór lèt sig eingu varða siðbreytni landsmanna, og sagðist mundi verða kyr í helli sínum. Hrefna sat við sinn keip, sem áður, og flutti sig norður yfir ána; bygði hún sèr þar skála undir fjalli einu, og heita þar síðan Hrefnubúðir. Eptir það hittust þau Bergþór að eins á silúngsveiðum við Hvítárvatn. Opt fór Bergþór til mjölkaupa fram á Eyrarbakka, en helzt á vetrum, þegar vötn voru lögð, og bar þó jafnan tvær mjöltunnur. Eitt sinn geingur Bergþór með byrði sína upp bygðina; en þegar hann kemur upp undir túnið á Bergstöðum í Biskupstúngum, hittir hann bónda og biður hann að gefa sèr að drekka. Bergþór segist muni bíða þar, meðan bóndi færi heim eptir drykknum; leggur hann svo af sèr byrðina hjá berginu, sem bærinn dregur nafn af, og klappar holu í bergið með stafbroddi sínum. Bóndi kemur aptur með drykkinn og færir Bergþóri. Bergþór drekkur nægju sína, þakkar bónda fyrir og segir, að hann skuli hafa ker það, sem hann hafi klappað í bergið, til að geyma í sýru, og segir, að hverki muni vatn blandast við hana í kerinu, nè heldur muni hún frjósa í því á vetrum, en hundraðsmissir verði það í búi bónda, vilji hann ekki nota kerið.[3] Að svo mæltu kveður Bergþór bónda og fer leiðar sinnar. Eitt sinn kemur Bergþór að máli við bóndann í Haukadal, þegar hann var orðinn hníginn

1. Sbr. Ármannssögu 10. kap. Akureyri, 1858, 27. bls.

2. Bergþórs er þó ekki getið í boði Hítar í Bárðarsögu. Kh. 1860. 13. kap., 25—26. bls.

3. Kerið hefi eg sèð, og mun það taka á þriðju tunnu. Vatn mikið var ofan á sýrunni, sem undir var í kerinu, sem feiti flýtur ofan á vatni, og sagt var mèr, að ekki frysi nema vatnið, sem ofan á syndir. E. P.

á efra aldur, og segist vilja kjósa sèr legstað, þar sem heyrist klukknahljóð og árniður, og biður hann því að flytja sig dauðan að Haukadal, en fyrir það ómak skuli hann eiga það, sem sè í katlinum hjá rúmi sínu; en þegar hann sè dauður, skuli bóndi hafa það til merkis, að þá muni gaungustafur sinn vera við bæardyrnar í Haukadal. Bóndi lofar þessu, og skilja þeir að því. Nú líður og bíður, að ekki fara neinar sögur af Bergþóri, þángað til einn morgun, að fólk kemur ofan í Haukadal, er þar ákaflega mikill gaungustafur við bæardyrnar. Heimamenn hafa orð á þessu við bónda; bóndi talar fátt um, en geingur út, og sèr, að það er stafur Bergþórs. Lætur hann þegar smíða líkkistu mikla og býst til ferðar norður í Bláfell við nokkra menn. Er ekki sagt of ferðum þeirra, fyrr en þeir koma norður í Bergþórshelli; sjá þeir Bergþór þar dauðan í rúmi sínu, láta hann í kistuna, og þykir þeim hann furðu lèttur eptir stærðinni. Nú sèr bóndi, að stór ketill er við rúmið; litast hann nú um hvað í honum muni vera, og sèr ekki í honum annað en viðarlauf, og þykir Bergþór hafa gabbað sig, og hirðir ekki. En einn af fylgdarmönunum hans fyllir báða vetlínga sína af laufunum. Síðan fara þeir með lík Bergþórs úr hellinum niður fjallið. En þegar þeir eru komnir ofan á jafnsléttu, fer maðurinn að gá í vetlínga sína, og eru þeir þá fullir af peningum. Sneri bóndi og menn hans þá aptur, og vildu sækja ketilinn, en fundu hvergi hellirinn, og aldrei hefir hann fundizt síðan. Urðu þeir því að snúa aptur við svo búið, og fluttu lík Bergþórs niður að Haukadal, og lèt bóndi jarða það þar fyrir norðan kirkjuna; heitir þar síðan Bergþórsleiði. Hríngurinn úr staf Bergþórs kvað vera í kirkjuhurðinni í Haukadal, en broddurinn er sagt að leingi hafi verið hafður þar fyrir kirkjujárn; og endar hèr sagan af Bergþóri í Bláfelli.

**Hremmu-háls.** (Skólapiltur Skúli M. Nordal skrásetti.) Á einum bæ í Öræfum austur liggur háls nokkur, sem kallaður er Hremmu-háls, eða Hremsu-háls; er það melhryggur ein, er mýrar liggja að á alla vegu og er alstaðar á honum smámöl, nema þrír stórir steinar eru á honum miðjum, og á það að vera skessa, er dagaði uppi á hálsinum, og á hún að vera stærsti steinninn, en hinir steinarnir eiga að vera, annar hvalkálfur, en annar bjarndýr. Svo stóð á, þegar skessuna dagaði uppi, að sóknarpresturinn hafði verið sóktur að þjónusta kerlíngu nokkra í sveitinni, gamla og margkunnuga, er átt hafði í brösum við skessuna, og hafði hún gjört boð eptir presti, og skipað sendimanni að skila við hann, að hann skyldi ei verða hræddur, hvað sem hann sæi á leiðinni, því þá væri úti um sig. Leið prests lá um hálsinn og var þá nótt, þegar þeir fóru yfir hann. Þeir sjá kerlíngu heldur stórskorna koma neðan frá sjó og halda upp til fjalla, og hafði hún bjarndýr á baki, en hvalkálf í fyrir, og var það Hremma eða Hremsa. Hún var lángstíg mjög, og stundi þúngan, og gætti eigi mannanna, fyrr en fundum þeirra bar saman á hálsinum. Hún leit þá

upp, og hvesti augun á þá. Við það brá sendimanni svo, að hann hnè dauður niður. Prestur fór nú að tala við skessuna og hèldu þau því á fram, þángað til kerlíng leit upp og æpti: „Dagur í austri, en dauð er þó kerling;“ átti hún við kerlíngu þá, er prestur var sóktur til. En í þessari svipan varð skessan að steini. Sagði prestur svo síðan, að hann hefði eigi orðið hræddur, en þó hefði sèr brugðið nokkuð, þegar maðurinn hnè niður við hliðina á sèr og mundi það hafa flýtt dauða kerlíngarinnar, er hann var sóktur til.

**Kerlíngin í Jökulsárhlíð.** (Eptir sögusögn í Múlasýslu 1847. M. Gr.) Í Ketilstaðalandi í Jökulsárhlíð stendur tindur einn, eða drángi einstakur á slèttum sandi, og eru tveir smádrángar hjá honum. Skamt þaðan er hellir. Hann á að liggja í gegn um Hlíðarfjall og út að sjó á Kattarvíkurdal. Nú er hann ei nema opið eitt, og hrunið fyrir. Í helli þessum bjó einu sinni tröllkona, mikil og ill. Hún fór einn morgun fyrir sólarupprás út til sjávar að sækja vatn. Þegar hún var á heimleiðinni aptur mætti hún manni. Hann hèt Dagur. Hann spurði hvert hún væri að fara. Hún sagðist hafa sókt vatn út í sjó til að sjóða mann í. Þá sagði Dagur: „Líttu út á hafið.“ Hún gjörði svo, og sá þá sólina renna upp undan fjallsendanum. Brá henni svo við það, að hún varð að dránga þeim, sem nú heitir Kerlíng, og fyrr var um getið, en skjólurnar eru hinir minni drángarnir, sem hjá henni standa.

**Nátttröllið í Skessuhala.** (Eptir handriti Jóns alþíngismanns Sigurðssonar á Gautlöndum.) Í fyrndinni bjó skessa í fjalli einu í afrètti Mývetnínga, er síðan heitir Skessuhali. Hún var nátttröll, og er það eðli þeirra, að þau mega ekki sól sjá. Verða þau því að vinna fyrir sèr á nóttunni. Skessan gjörði Mývetníngum mikið mein; og þar á meðal var það, að hún stal á nóttum veiði í Mývatni. Er svo sagt, að hún ætti nökkva litinn, og reri honum um vatnið, en bæri hann svo á baki sèr til bygða sinna. Það var eitt sumar, að mikill var veiðiskapur í Strandarvog; var hann bezt veiðistöð við Mývötn, og hefir jafnan verið. Lagði skessan það í vana sinn um sumarið, að hún stal á hverri nóttu veiði úr vognum, og þókti Strandarbúum það hið mesta mein. Eina nótt síðla um sumarið var það, að skessan ræðst ofan að vognum, og ætlar eptir vana að veiða þar. En er hún kemur, er bóndi fyrir, og er að veiðiskap á Vognum. Hún treystist ekki til að leggja að bónda, því hann var við fjórða mann, og ætlar að bíða, til þess bóndi hefir lokið veiðiskaparstörfum sínum; en bóndi fer sèr hvergi, hvort af því hann veit, hvað skessu líður, og bíður svo fram undir morgun. Skessan gjörðist heldur óþolinmóð, en vill þó ekki fara svobúin. Og er bóndi hættir veiðinni, fer skessan til og dregur fyrir á vognum. En er hún hefir lokið því starfi, heldur hún heimleiðis til bygða sinna; og sem hún er komin meir en miðja leið heim að Skessuhala, þá rennur upp sól.

Er svo sagt, að skessan lèti þar niður nökkvann, sem hún var stödd, þegar sólin rann upp, færi sjálf upp í hann, og alt yrði svo að steini.

þessa sèr nú glögg merki enn í dag. Nökkvinn stendur enn í brekku nokkurri, sem liggur nálægt miðja vegu millum Skessuhala og Mývatns og heitir hún Nökkvabrekka. Er nökkvinn að öllu lagaður eptir bátum, sem nú tíðkast til veiða á Mývatni, nema hvað hann er allur stærri; má glögt greina alla lögun hans, og sèr enn fyrir árunum og ræðunum; hafa það verið skörð í borðin, en ekki keipar, eins og nú tíðkast. Í apturstafni nökkvans er hrúga ein mikil, og halda menn, að skessan hafi lagt sig þar til hinnar síðustu hvíldar.

**Kerlíngin í Vatnsdalsfjalli.** (Eptir gamalli konu í þínginu í Húnavatnssýsln.) Landvættir hèr á landi undu því allilla, er kristni fór að breiðast hèr út, og þó þessa vest, er kirkjur voru reistar. Skömmu eptir að kirkja var sett á þíngeyrum, er sagt, að nátttröll það, sem átti bygð í Vatnsdalsfjalli, hafi bitið illa á brisið, og þókt sèr nær geingið, er þar var kirkja reist. Nátttröll þetta var skessa; hún tók sig til eina nótt, og ætlaði að hefna þessarar skapraunar. Hún gekk norður á Vatnsdalsfjallsenda, eða því nær, þár sem Öxl heitir, og af því hún hafði ekki annað hendi leingra, en stafinn sinn, greip hún til hans, og kastaði honum, og ætlaði að brjóta með því þíngeyrakirkju. En þegar hún hafði varpað stafnum. litaðist hún um, hvað tímanum liði, en þá ljómaði dagur í austri. Við það brá henni, sem öðrum nátttröllum, svo, að hún hrapaði vestur af fjallseggjunum, sem eru hár vegghamar, og nam staðar á bríng nokkrum, spölkorn fyrir neðan hamrastallinn, og varð þar að steinstöpli, og stendur hún þar enn í dag, og er kölluð Kerlíng, upp undan bæ þeim, sem dregur nafn af fjallsöxlinni, er hún stóð á, þegar hún kastaði stafnum, og Öxl heitir. En það er að segja af stafnum, að hann brotnaði sundur á fluginu, og kom annar hlutinn niður ekki allfjarri þíngeyrakirkju; því hann lenti á þíngeyrahlaði sunnanverðu, og hefir hann verið hafður þar fyrir hestastein síðan; hann mun vera nærri 3 álnir á leingð, og ekki meir en 20 faðmar frá honum að kirkjunni, þaðan sem hann var 1832. En hinn hluti stafsins kom niður fyrir sunnan þíngeyratún, og er hann nokkru styttri. Hann er nú syðst í túntraðarhorninu til hægri handar, er riðið er heim að þíngeyrum.

**Sifa nátttröll.** (Eptir handriti sèra Skúla Gíslasonar á Stóranúpi.) Sifa heitir klettur einn í konulíki, er stendur uppi á hjallanum fyrir ofan Hvamm í Vatnsdal; er það tröllkona ein, orðin að steini. Í fyrndinni bar svo við, að prestur var að messa þar í bænahúsi á jólanótt; stóð bænahúsið frami á hlaðinu, og hafði Sifa reiðst klukknahríngíngunum um kvöldið; gekk hún þá um nóttina fram á hjallann, og skaut stafi sínum á kirkjuna, ætlaði hún þannig að brjóta kirkjuna, en drepa prestinn og alla, sem inni voru.

En stafurinn brotnaði á fluginu, liggur annað brotið milli fjalls og túns, og er það bjarg mikið, en hitt lenti á hlaðinu, og er síðan haft fyrir hestastein. Í þessum svifum varð skessunni litið við og sá dagsbrún í austri; varð hún þá að steini, þar sem hún stóð. — Dr. Maurer hefir og þessa sögu, en þar er tröllkona kölluð Sefa. Hann getur þess og, að skamt þaðan sè annar steinn, sem hafi og verið tröllkona, og heiti sá steinn enn Skinnhetta eða Skinnhúfa, en ekki hafi hann getað orðið fleira vís um hana.[1]

**Steinninn í hestarèttinni á Stað.** (Eptir sögu Hrútfirðinga.) Á Stað í Hrútafirði er gömul hestarètt í útsuðurhluta vallarins. Í miðri tóptinni stendur steinn ein; hann er svo sem hálf þriðja alin á hvern veg. En svo stendur á með stein þenna, að fyrsta sinn, sem messað var í kirkjunni á Stað, reiddust tröllin í Tröllakirkju, og köstuðu steini þessum, og ætluðu að brjóta með honum kirkjuna, en hann lenti í hestarèttinni og urðu undir honum fjórir hestar.

Tröllakirkja er hæsti hluti snjófjalla þeirra, sem eru vestanvert við Holtavörðuheiði, og dregur hún nafnið af því, að hún var aðalaðsetur allra trölla í vesturfjöllunum.

**Djúpir eru Íslands álar.** (Eptir handriti sèra Skúla Gislasonar.) Sagt er að tröllkona nokkur hafi eittsinn ætlað að vaða til Íslands frá Norvegi. Reyndar hafði hún orðið þess áskynja, að álar væri á leiðinni út híngað, og því er sagt hún hafi sagt við aðra tröllkonu, grannkonu sína, sem vildi letja hana fararinnar: „Djúpir eru Íslands álar, en þó munu þeir væðir vera.“ En þó hafi hún sagt, að áll einn mjór væri í miðju hafi svo djúpur, að þar mundi kollur sinn vökna. Eptir það lagði hún af stað, og kom að álnum, sem hana óaði helzt við; ætlaði hún þá að ná í skip, sem þar var á siglíngu, og styðjast við það yfir álinn. En hún misti skipsins og varð um leið fótaskortur, svo hún steyptist í álinn og drukknaði. Var það lík hennar, sem rak á Rauðasandi hèr eitt sinn, og var það svo stórt, að ríðandi maður náði ekki með svipunni af hestbaki upp undir knèsbótina krepta, þar sem hún lá stirðnuð og dauð í fjörunni.[2]

**Skessulág.** (Eptir handriti sèra Skúla Gislasonar.) Skamt fyrir ofan Mælifell í Skagafirði er mýrarsund eitt milli tveggja mela, sem heitir Skessulág. Sagt er að tröllkona ein hafi sofnað þar á melnum, og að lautin sè bæli hennar. Það er sýnt, hvar höfuð hennar lá. Dýpst er sundið þar sem öxl hennar og lærhnúta tóku niður, því hún hefir átt að liggja á hlíðinni, og draga að sèr knèn nokkuð svo; einnig sèst farið fyrir skóleistum hennar. Dældin er ugglaust hátt á annað hundrað faðma á leingð, og sýnir það, hvað stór menn hafa ímyndað sèr tröllin.

1. Báðar þessar sögur er á 50. bls. í Dr. Maurers Isl. Volkss.
2. Sbr. Safn til sögu Isl. I, 46.

**e)** Þó nú gángi ekki leingur nein munnmæli um Grýlu, að teljandi sè, verður alt um það að geta hennar, að því sem finnst um hana í fornum ritum og þulum, og manns hennar Leppa-Lúða; því á fyrri öldum hafa farið miklar sögur af þeim, en einkum henni, svo að laung kvæði hafa verið um þau kveðin, og mörg um Grýlu. Þau áttu bæði hjóniu að vera tröll, enda er Grýla talin í tröllkvenna-heitum í Snorra-eddu.[1] Mannætur voru þau og, sem önnur tröll, og sóktust einkum eptir börnum, þó einnig þægju þau fullvaxna menn. En eptir að farið var að hætta að hræða börn í uppvextinum með ýmsu móti, hefir Grýlutrúin lagzt mjög fyrir óðal; því Grýla var mest höfð til að fæla börn með heuni frá ógángi og ærslum, og því er orðið grýla[2] þegar í Sturlúngu haft um tröllkonu eður óvætt sem öðrum stendur ógn af, og grýlur[3] um ógnanir. Snemma hefir Grýla verið gjörð ógurleg, því Sturlúnga getur þess, að hún hafi 15 hala;[4] hið sama stendur og um hana í þulunni:

„Grýla reið fyrir ofan garð,
hafði hala fimtán,
en á hverjum hala hundrað belgi,
en í hverjum belgi börn tuttugu.“[5]

Og enn segir önnur þula svo:

„Grýla reið með garði
. . . . . . . . .
hófar voru á henni,
heingu toppar úr enni.
Bar hún belg með læri;
börn trú' eg þar í væri.[6]“

Þá hafa Grýlu-kvæðin ekki heldur fegrað hana, þar sem þau segja, að hún hafi ótal (300) hausa, og þrenn augu í hverju höfði, sem hún taki börn með, og stíngi þau Leppa-Lúði þeim í stóran poka eða „gráan belg“; og enn segir þar, að hún hafi kartnögl á hverjum fíngri, helblá augu í hnakkanum og horn, sem geit, eyrun lafi ofan á axlir, og sèu áföst við nefið að framan. Hún var og skeggjuð um hökuna, og fór skeggið ekki betur en hnýtt garn á vef, og hèkk þar við bót eða flóki, en tennurnar voru sem grjót ofnbrunnið.[7] Fleira þykir ekki þörf að tína til að sinni

1. Khafnar útgáfan 1848. I, 551. bls.
2. V, 1. kap., 104. bls.
3. S. st. IX, 30. kap., 244. bls.
4. S. st. IV, 26. kap, 59. bls.
5. Eptir Sigurði málara Guðmundssyni.
6. Eptir Guðmundi stúdent Sigurðssyni frá Stað í Steingrímsfirði.
7. Þessi lýsing Grýlu er mestmegnis tekin eptir Grýlukvæði sèra Guðmundar Erlendssonar í Felli; en Grýlu-kvæðið, sem prentað er í Snót, Khöfn, 1850, 206—215. bls., lýsir henni þó enn ófreskjulegar og læt eg mèr nægja, að vitna til þess.

um skapnað Grýlu, þar sem kvæðin sjálf, sem vonandi er að verði bráðum prentuð, lýsa því lángbezt.

Þess var þegar getið, að bóndi Grýlu hèt Leppa-Lúði; hann var að öllu samboðinn henni í háttum sínum, en ekki fult eins skrýmslislegur, ef til vill. Þau áttu saman 20 börn, sem þulan segir:

Grýla var að sönnu
gömul herkerlíng,
bæði á hún bónda
og börn tuttugu.
Eitt heitir Skreppur,
annað Leppur,
þriði Þröstur,
Þrándur hinn fjórði,
Böðvar og Brýnki,
Bolli og Hnúta,
Koppur og Kippa,
Strokkur og Strympa,
Dallur og Dáni,
Sleggja og Sláni,
Djángi og Skotta
Öl hún í elli
eina tvíbura,
Sighvat og Syrpu,
og sofnuðu bæði.

Þau Grýla og Leppa-Lúði áttu og fleiri börn, en þau, sem hèr eru talin í þulunni; það voru piltar þeir, sem venjulega hafa verið kallaðir Jólasveinar.[1] Enn þótt þeir sèu fortakslaust kallaðir synir Grýlu og Leppa-Lúða í Grýlukvæði því, sem prentað er í Snót,[2] er það sumra manna mál, að Grýla hafi átt þá, áður en hún giptist Leppa-Lúða, og greinir þó ekki frá faðerni þeirra. Jólasveinar heita svo eiginlegum nöfnum: 1. Stekkjarstaur, 2. Giljagaur, 3. Stúfur, 4. Þvörusleikir, 5. Pottasleikir, 6. Askasleikir, 7. Faldafeykir, 8. Skyrgámur, 9. Bjúgnakrækir, 10. Gluggagæir, 11. Gáttaþefur, 12. Ketkrókur, og 13. Kertasníkir. En því eru þeir 13 að tölu, að hinn fyrsti kemur 13 dögum fyrir jól, síðan einn á hverjum degi, og sá síðasti á aðfángadag jóla. Á joladaginn fer hinn fyrsti burt aptur, og svo hver að öðrum, en hinn síðasti á þrettánda dag jóla. Jólasveinar hafa verið, eins og foreldrarnir, hafðir til að hræða börn með, en einkum um jólaleytið. Áttu þeir þá að koma af fjöllum ofan til mannabygða, til að fremja þá iðn, er hver þeirra tamdi sèr, og

1. Auk 20 hinna fyrtöldu barna og jólasveina segir ein þula enn, að hún eigi 19 til; þulan er þannig:

Grýla kallar á börnin sín,
þegar hún fer að sjóða til jóla:
„Komið hingað öll til mín,
Nýpa, Tipa,
Næa,[a] Tæa,
Nútur, Pútur,[b]
Nafar, Tafar,
Láni, Gráni,[c]
Leppur, Skreppur
Loki, Poki,
Leppatuska, Lán[g]leggur
og Leiðindaskjóða,
Völustallur og Bóla.

2. Sbr. 210. bls.

a. Aðrir: Læa.
b. Aðrir: Kútur.
c. Aðrir: Sláni.

flest nöfn þeirra eru viðkend; en allir voru þeir eins vísir til að taka börn þau, er hrinu mjög, eða voru á annan bátt óstýrilát. Þó það virðist eptir áðursögðu eingum efa bundið, að jólasveinar hafi verið 13 að tölu, hefir þó ekki öllum borið saman um það atriði, beldur en um faðerni þeirra; segja sumir, að þeir hafi ekki verið fleiri en 9, og bera fyrir sig þulu þessa:

„Jólasveinarnir einn og átta
ofan komu af fjöllunum.
Í fyrra kvöld þá fór eg að hátta,
þeir fundu hann Jón á Völlunum.
En Andrès stóð þar utan gátta;
þeir ætluðu að færa hann tröllunum.
En hann beiddist af þeim sátta,
óhýrustu körlunum,
og þá var hríngt öllum jólabjöllunum.“

Þá átti Leppa-Lúði holukrakka einn; það var Skröggur karl, sem í fáu var föðurbetríngur. Svo bar að einu sinni, að Grýla varð sjúk, lagðist í rekkju, lá heilt ár, og mátti sig ekki hreifa. Leppa-Lúði gat þá ekki einn stundað hana, börnin, og heimilið, og þó sízt börnin, „sem bæði voru þibbin, þverlynd og körg,“ og varð því að fá sèr aðstoð, og fèkk til þess stúlku þá, er Lúpa hèt. Svo segir í Skröggs-kvæði, að hún hafi verið „dáfögur, dygðug og fín.“ Og með því hún var framsýn og þjónaði vel börnum Leppa-Lúða, varð hún honum svo geðþekk, að hann gekk í sæng með henni, og gat við henni Skrögg. Skömmu síðar komst Grýla á fætur aptur; varð hún þá æf, er hún sá, hvernig komið var, svo hún rak Lúpu burtu og son hennar, og vildi þeim einkis góðs unna nè augum líta, þó það væri Leppa-Lúða, bónda hennar, mjög á móti. Þá gaf Leppa-Lúði þeim mæðginum eyland eitt, til uppeldis, og bátskip, til að leita sèr á bjargræðis. Skröggur ólst upp hjá móður sinni, þángað til hann var 12 vetra, þá misti hann hana. Var hann eptir það 3 vetur einn á eynni, uns þar bar að Háng, herkóng úr Álfheimum. Fór þá Skröggur í fylgð með honum, og nam að honum kunnáttu og listir. Hángur var kvæntur og átti konu þá, sem Gnýpa hèt; þeirra dóttir var Skjóða. Skröggur lagði ástarhug á hana, enda var hún „dávæn, dygg og trú.“ En er hann bar upp bónorðið við Háng, varð hann svo reiður, að hann rèð sèr ekki. En af því Skjóða unni ekki síður Skrögg, en hann henni, nam hann hana burtu frá Háng kóngi með „dimmrúnum,“ og hafði hana með sèr í Eyrarhyrnu.[1] Þau Skröggur áttu saman 22 börn alls; af þeim dóu fyrst fimtán, en hin 7, sem eptir voru, dóu seinna úr bólunni. Þá lagðist og Skjóða svo þúngt, að hún gat ekki fötum fylgt, og af því Skröggur var þá og

1. Eyrarhyrna er fjall hjá Hallbjarnareyri í Snæfellsnessýslu, og liggur þá nærri að álykta af því, að einhver þar vestra hafi kveðið Skröggs-kvæði.

orðinn uppgefinn, fór hann að beiðast beiðinga; en í því kipti honum í kynið, að hann beiddi um keipótt börn, en lèt sèr þó lynda, eins og þau Grýla og Leppa-Lúði, ef honum bauðst annað, sem honum þókti hnossgæti í. Frá afdrifum þeirra Grýlu og Leppa-Lúða, jólasveina, Skröggs og Skjóða kunnum vèr ekkert að segja, enda er það líkast að þau lifi enn, ef til vill; en afreksverkum þeirra er lýst í kvæðunum, sem um þau hafa verið ort.[1]

1. Af Skrögg er til eitt kvæði lángt, 88 erindi, og er úr því tekið það, sem hèr er frá honum sagt. Um Leppa-Lúða eru og til tvö kvæði, 25 erindi annað, en hitt 39, sem eg hefi sèð; en Grýlu-kvæði veit eg ekki hvað mörg eru til; flest eru þau, sem eg hefi sèð, „dragmælt" að kveðskap, eins og Skröggs-kvæði og Leppa-Lúða-kvæði.

Enn skal eg geta þess, að eptir að eg var búinn með þetta atriði, barst mèr sú sögn úr Grímsey nyrðra að barnafælan hèti þar hvorki Grýla, Leppa-Lúði nè Skröggur, heldur Klappar-karl. Um hann er þessi vísa:

„Karlinn undir klöppunum,
klórar hann sèr með löppunum;
baular undir bökkunum,
og ber sig eptir krökkunum
á kvöldin."

Eingin önnur afreksverk hans telur sèra Jón Norðmann, sem var prestur í Grímsey.

# 2. FLOKKUR.

## DRAUGASÖGUR.

---

Draugasögur eru þær, sem af draugum gánga eða hafa geingið; en draugar eru dauðir menn, er trúað hefir verið að væri á reiki, eptir að þeir eru dauðir eða grafnir. Munnmælasögur um drauga skiptast eptir eðli sínu í 2 aðalflokka, og eru í fyrra flokki sögur um apturgaungur, er annaðhvort af sjálfsdáðum eða einhverri annari ástæðu, manna tilverknaði nokkrum eða slíku, eru á reiki eptir dauðann; en í hinum síðara flokki eru sögur um uppvakninga, sem þá eru um leið sendíngar. Eru það nálega ávalt dauðir menn, sem aðrir vekja upp í lifandi lífi með töfrum, til að hafa þá sèr til ýmsrar þjónustu. Vart kemur nokkur sú draugasaga fyrir, að ekki eigi hún heima í öðrumhvorum þessara flokka, og því þykir rèttast, að fylgja þessari flokkaskipan í sögum þeim, sem hèr koma á eptir. En þótt þetta sèu aðalflokkarnir, þykir ekki illa hlýða, að bæta enn við þriðja flokkinum, og eru það sögur um fylgjur; því þær hafa nokkuð sèrstakan blæ á sèr, þó einnig megi vel hlýða, að láta slíkar sögur fylgja öðrumhvorum hinna fyrnefndu flokka eptir efninu.

### 1. GREIN.

#### APTURGAUNGUR.

Eðlilegast er, að þeir gángi aptur, sem höfðu í lífinu svo miklu heimsláni að fagna, að þeir gátu ekki skilið sig fyllilega við það eptir dauðann. En það eru þó reyndar miklu fleiri en þeir, sem munnmælin hafa gjört að apturgaungum, t. d. hráblaut börn, sem út voru borin jafnharðan og þau skruppu inn í heiminn, menn, sem áttu við einga auðsæld að búa, þá, sem dáið hafa voveiflega, þá, sem illa þóktu fara um bein sín eptir dauðann, þá, sem lifandi menn hafa boðið til sín lífs eða liðnum, þá, sem voru illmenni í lífinu, maurapúkar, er elskuðu fè sitt fremst af öllu, þá sem annaðhvort unnu þeim, sem lífs voru, eða hötuðu þá, og enn mætti, ef til vill, telja fleiri slíka, sem áttu að hafa geingið aptur sinn af hverri ástæðu, eins og nú var sagt og nákvæmar verður tiltekið við hvert þessara atriða. Einna mest kveður þó að þeim, sem geingu aptur af fúlmennsku eða heipt, til að vinna þeim mein, er þeir hötuðu í lífinu. Um þá er alltítt, að þeir heituðust við þann eða þann að gánga aptur. Var þess þá sjaldan lángt að bíða, að slíkir piltar dræpu sig sjálfir eða dæu snögglega, til þess að geta því fyrr komið fram hefnd sinni; þó er það eingu sjaldnar,

að ástfángnir hafa slíkar heitíngar í frammi. En það er aptur eptirtektavert, að nálega hvergi, sem eg hefi heyrt um getið á Íslandi fara neinar sögur að marki af draugagángi, þar sem óbótamenn hafa verið teknir af, en þó er það almæli, að á þeim stöðum sè „eitthvað óhreint.“ Þess er og getið í munnmælasögum, að hinir dauðu gángi allir úr gröfum sínum á nýársnótt, og er það kallað, að „kirkjugarður rísi.“ Hinir framliðnu koma þá upp í líkblæunum, gánga inn í kirkju og halda þar messugjörð og hverfa síðan. Meðan hinir dauðu eru á reiki ofan jarðar, eru grafir þeirra opnar, sem síðar mun sagt verða. Þá gánga og svipir þeirra, er deya næsta ár í sókninni, eða verða grafnir að hverri kirkju, inn í kirkjuna. Mælt er að stúlka ein úng og efnileg reyndi þetta, og var úti í kirkju eina nýársnótt. Sá hún þá svipina koma inn í kirkjuna, hvern eptir annan, og seinast svip unnusta síns. Varð hún þá svo hrædd, að hún leið í ómegin. En er af henni leið, sá hún svip sjálfrar sín koma inn í kirkjuna. Þegar svipirnir höfðu verið þar um stund, hurfu þeir allir aptur. Morguninn eptir sagði hún frá því, er fyrir hana hafði borið, og þókti það rætast. Veturinn eptir dó heitsveinn hennar og hún sjálf skömmu síðar. Það var og enn trú hjá alþýðu, að maður sá, er fyrst er grafinn í kirkjugarði, rotni ekki,[1] og taki æ á móti þeim, er síðar verða grafnir. Þann mann hafa menn kallað „vökumann,“ því hann á að vaka yfir garðinum. Ósjaldan hafa menn þókzt finna slíka vökumenn; eru þeir ófrýnir ásýndum en þó rauðir í andliti eins og aðrir menn, og órotnir; sumir segja og, að þeir eigi að vera rauðklæddir, en aðrir, að þeir sèu í grænum kjól. Í kirkjugörðunum í Reykholti og Síðumúla, á Lundi og Gilsbakka er sagt að vökumaður liggi í Sturlúngareit, en það er útnorðurfjórðúngur þessara garða. Ekki er lángt síðan, að mönnum var lítið um að láta grafa sig í þessum reit eða ættíngja sína. Líkt er varið með kirkjugarðinn í Görðum á Álptanesi, því í útsuðurhorninu á honum, áður en hann var færður inn, átti einu sinni að grafa lík, og komu líkmennirnir þar ofan á mann órotinn og rauðklæddan, er þeir tóku gröfina. Var þá presti sagt til, en hann bauð að byrgja gröfina aptur hið bráðasta, og var einginn grafinn síðan í því horni af garðinum.

Það er þessu máli nokkuð skylt, að þegar grafið er í gröfum galdramanns, finnast hauskúpur þeirra heilar og ófúnar og heilinn óskaddaður; sèst það inn um mænuholið, að hann dúfar og bærist, og er það af því, að sálinn geymist í heilanum til dómsdags. Slíkar hauskúpur á að hylja í mold, meðan þær eru uppi, gjöra síðan gryfju í einu horni grafarinnar, leggja hauskúpuna þar ofaní og hylja mold, áður gröfin er fylt aptur með mold og líksaungur byrjar.

Stundum þykjast menn hafa orðið varir drauga, er eldglæríngar eða hrævareldur hafi lagt út frá alla vegu, þar sem þeir voru á kreiki; er það

1. Sbr. Eyrbyggja-sögu (Kh. 1787) 63. kap.

alt annað en málmlogi eða vafurlogi, upp af peníngum, sem síðar mun sagt verða, og enn heldur annað, en heitur eldur eða skot, sem almennt er talin bezt vörn við draugum næst klukkuahljóði. Ef manni er grunsamt um, að dauðir menn gángi aptur, er það ráð við því að reka nálar[1] eða oddhvassa nagla neðan í iljar þeim, áður en þeir eru grafnir; það er og annað ráð, að reka nagla ofan í leiði þeirra um hámessu, milli pistils og guðspjalls, og var manni nokkrum ráðlagt að gjöra það við leiði móður sinnar; því hún sókti að sonardætrum sínum, er höfðu dregið dár að henni í lífinu, og dugði honum það vel. Meira hèr að lútandi sýna sögurnar, sem nú koma.

**a)** Um **útburði**. þeir eru á reiki án alls eigin tilverknaðar, og eiga það eingaungu upp á mennina (móður, föður eða aðra, sem að þeim standa), að þeir liggja ekki kyrrir. Útburðir voru í fyrri daga kölluð börn þau, er dóu, áður en þau feingu skírn, er ekki var leyft að grafa nærri vígðum stöðum, uns Árni Skálholtsbiskup Þorláksson (er dó 1298), skipaði, að þau skyldi grafa utan við kirkjugarð, „ok kölluðu fáfróðir menn þau útburði; veitti þat ok mörgu sinni, at í þeim stöðum, sem þau voru grafin, fengu menn fyrir sakir eiginnar ótrúar ok andskotans umsátrum ýmislegar sóttir, eðr undursamligar sýnir og margs konar mein sinna fylgjara. En síðan virðuligr faðir Árni biskup eyddi þessi villu, fengu menn í þeim stöðum, er þau voru síðan jörðut, ekki mein af þessi fjandans umsát.“[2] Nú á dögum heita ekki þau börn útburðir, er deya, áður en þau hljóta skírn, heldur að eins þau, sem borin eru út þegar eptir fæðínguna, hvort heldur dauð eða lifandi, og verða varla fyrir því önnur börn en óskilgetin, og liggur þá nærri að halda, að ógipt fólk og búlaust taki helzt til þessa óyndisúrræðis, annaðhvort til að losast við ómegð og þúnga, er af barninu kynni að rísa, eða til að firra sig þeim vansa, sem ávalt þykir við það loða, að eiga barn í lausaleik.

þar sem börn eru út borin, er sagt, að heyrist ýlfur og vein mikið fyrir illum veðrum;[3] ýlfran útburða er svo leið og ámátleg, að til hennar er jafnað og kallað ámátlegt hljóð „útburðarvæl,“ og að „væla (hljóða), eins og útburður,“ ef illilega er æpt. Menn hafa ekki að eins heyrt til útburða, heldur sèð þá allopt, og er sagt, að þeir gángi á öðru knènu og öðrum olboganum, en hafi fætur og hendur krosslagðar. Útburðir hafa opt þókt villa um menn, eingu síður en draugar, einkum á náttarþeli eða

1. Sbr. söguna: „þú átt eptir, að bíta úr nálinni.“

2. Árna biskups saga c. 7., 11. bls. aptan við Sturlúngasögu Kh. 1820. Biskupsögur, I, 687. bls.

3. það er sagt, að útburðir haldi sig helzt á þeim stað, sem barninu var fyrst snarað út, og er það kallað bæli þeirra. þegar vindur stendur upp á útburða-bæli, bera þeir sig mjög aumlega, væla þá og skrækja, og er það kallað, að „illa standi í bælið þeirra,“ og haft að orðtaki um þann, sem er venju fremur úfinn og önugur. Eptir húsfrú Hólmfríði þorvaldsdóttir í Reykjavik.

í þoku, og kosta kapps um að komast þrisvar í kríngum menn; en ef þeim tekst það, verður hver sá vitstola, er fyrir því verður; fleira gjöra þeir ílt af sèr, sem þegar mun sýnt í sögunum sjálfum. Ekki eru útburðir klæðgöfugir, og optast eiga þeir að sjást með mórauðan lepp utan um sig; er það dula sú, sem móðirin vafði barnið í, er hún bar það út.

**„Móðir mín í kví, kví.“**[1] (Almenn sögn.) 1. Einu sinni var vinnukona á bæ. Hún hafði orðið þúnguð, alið barn og borið út, sem ekki var mjög ótítt á landi hèr, meðan harðar skriptir, sektir eða líflát voru lögð við slíkum brotum. Eptir það bar svo til eitthvert sinn, að halda átti gleði þá, er vikivaki nefndist, og alltíðir voru hèr áður á landi, og var þessari hinni sömu stúlku boðið til vikivakans. En af því hún var ekki svo fjölskrúðug, að hún ætti skartföt, er sambyði slíkum skemtifundi, sem vikivakar voru á fyrri dögum, en var kona glysgjörn, lá allilla á henni, að hún yrði þess vegna að sitja heima og verða af gleðinni. Einu sinni á málum, meðan gleðin stóð til, var griðkona þessi að mjólka ær í kvíum með öðrum kvennmanni, var hún þá að farast um það við hina mjaltakonuna, að sig vantaði föt að vera í á vikivakann; en í því hún sleppir orðinu, heyra þær þessa vísu kveðna undir kvía-veggnum:

„Móðir mín í kví, kví,
kvíddú ekki því, því;
eg skal ljá þèr duluna mína
að dansa í
og dansa í.“

Griðkona sú, sem hafði borið út barn sitt, þóktist þekkja hèr skeyti sitt; enda brá henni svo við vísuna, að hún varð vitstola alla æfi síðan.

2. Einu sinni var kvennmaður, sem átt hafði barn og borið út. Síðar átti hún og annað barn, og var það stúlka. Það barn var ekki útborið. Barn þetta fèkk vöxt og viðgáng, og varð gjafvaxta kvennmaður; þar kom og, að maður varð til að biðja hennar, og hèlt hann nokkru síðar brúðkaup sitt til hennar. Í þessu brúðkaupi var fjölmenni mikið og gleði. Þegar leið á veizluna, heyrðu menn, að komið var á gluggann á veizlustofunni, og kveðin þessi vísa:

. . . . . . . . . .
„Kasta átti eg kýrnum,
reisa átti eg bú,
til manns var eg ætluð
eins og þú.“

Menn ætla, að vísa þessi hafi verið kveðin til brúðarinnar, og að systir hennar, sem út var borin, hafi kveðið hana.[2]

1. Sbr. Dr. Maurers Isl. Volkss. 59. bls.
2. Eptir sögn Sigurðar málara Guðmundssonar.

**Veggja-útburðurinn.** (Eptir sögn Síðumúlamanna í Hvítársíðu.) Maður var á reið á ásunum hjá Síðumúla í Hvítársíðu. Hann vissi ekki fyrri til en útburður kom að honum og segir:

„Veggja-sleggja heiti eg;
á mig Geir og Gunna;
á bak mun eg fara
og bráðla ríða kunna.“

Hljóp hann þá upp á lendina á hestinum og sligaði hann.

Þessa vísu er og sagt að útburður hafi kveðið, en ekki vita menn, hver drög til hennar liggja:

„Er eg skjótur, eins og valur,
undirförull, sem kjói;
föðurland mitt er Flókadalur,
fæddur er eg á Mói.“[1]

**b)** Um nýdauða menn. Opt hefir það borið við, að nýdauðir menn hafa talað, meðan þeir hafa „staðið uppi,“ eða þegar þeir hafa verið búnir til moldar. Sumir framliðnir hafa og ávarpað þá, sem fyrir eru í sama kirkjugarðinum, sem þeir eru grafnir í, og af því segja nokkrir, að náhljóð komi, ef sá er grafa skal, á óvin fyrir í kirkjugarðinum, að þeir æpi þá hvor að öðrum. En sumir segja, að náhljóð komi af því, ef menn eru kviksettir eða grafnir lifandi, að þá vakni þeir upp, er búið sè að grafa þá, og æpi þá op mikið eitt eða þrjú.

**„Þú átt eptir að bíta úr nálinni.“**[2] (Eptir handriti sèra Skúla Gíslasonar á Stóranúpi.) Galdramaður er nefndur, sem Finnur hèt; hann var svo forn og illur í skapi, að allir voru hræddir við hann. Þegar hann dó, vildi einginn, hvorki karl nè kona, verða til þess að líkklæða hann og sauma utan um[3] hann. Þá varð kvennmaður einn til þess að reyna það; komst hún ekki, nema hálfa leið og varð svo vitstola. Þá gaf önnur sig til, og gaf hún sig ekki að því, hvernig líkið lèt. Þegar hún var nærri búin, sagði Finnur: „Þú átt eptir að bíta úr nálinni.“ Hún svaraði: „Eg ætlaði að slíta, en ekki bíta, bölvaður.“ Sleit hún síðan nálina frá, braut hana í sundur og stakk brotinum í iljar líkinu. Er þess ekki getið hann gjörði neinum framar mein.

**„Skemtilegt er myrkrið.“** (Eptir handriti sèra Skúla Gíslasonar á Stóranúpi.) Í fyrndinni og alt til vorra daga var það landssiður, að vaka yfir líkum,

1. Eptir handriti sèra Jóns Norðmanns. Flókadalur er til hæði í Skagafjarðarsýslu og Borgarfjarðarsýslu, og of til vill víðar á Íslandi, en Mór heitir bær nokkur í Fljótum.
2. Sbr. Dr. Maurers Isl. Volkss. 60. og 298. bls.
3. Það er forn-siður að sauma utan um lík, sjá Eyrbyggja-sögu, Havniæ 1787. 264. bls., og er það enn tíðkað víða á Íslandi.

og var það optast gjört við ljós, ef nótt var eigi albjört. Einu sinni dó galdramaður nokkur, forn í skapi og illur viðureignar; vildu fáir verða til að vaka yfir líki hans. Þó fèkkst maður til þess, sem var hraustmenni mikið og fullhugi að því skapi. Fórst honum vel að vaka. Nóttina áður en átti að kistuleggja, sloknaði ljósið litlu fyrr, en dagur rann. Reis þá líkið upp og mælti: „Skemtilegt er myrkrið.“ Vökumaður svaraði: „Þess nýtur þú ekki.“ Kvað hann þá stöku þessa:

„Alskínandi er nú fold, | það var kerti, en þú ert mold,
út er runnin gríma. | og þegiðu einhvern tíma.“

Síðan hljóp hann á líkið, og braut það á bak aptur. Var það síðan kyrt, það sem eptir var nætur.

**Greptrun Þórgunnu.** Í byrjun 11. aldar kom út til Íslands kona ein Suðureysk, að nafni Þórgunna; hún var forn mjög í skapi og álitin fjölkunnug. Þórgunna fór til vistar að Fróðá undir Snæfellsjökli. Um haustið sama, er hún kom út híngað, tók hún sótt, er hún hèlt sig mundi til bana leiða. En er henni elnaði sóttin, bað hún bónda að láta flytja sig í Skálholt til greptrunar; kvað hún þann stað leingi mundi verða dýrkaðan; þar væru og kennimenn, er gætu haldið yfir sèr helga saungva. Bóndi gjörði sem hún hafði fyrirmælt, og fèkk menn til að flytja hana til Skálholts. Þeir fóru sem leiðir lágu suður um land, og segir ekki af ferðum þeirra, fyrr en þeir komu í Borgarfjörð. Þar voru þeir nótt og gekk Þórgunna aptur, sem Eyrbyggja-saga segir.[1] Daginn eptir hèldu líkmenn á fram, og komu svo líkinu í Skálholt, og var það þar jarðað. En er verið var að taka gröfina, urðu grafarmenn varir við kistu forna öðru megin í gröfinni, og gáfu þeir eingan gaum að því. En er kistu Þórgunnu var niður hleypt, þykir þeim hún mæla í kistunni:

„Kalt á fótum
[Ána ljótum.“[2]

Þá heyrist þeim sagt niður í gröfinni, þar sem kistan sú hin forna var:

„[Af því[3] fáir unna
Þórgunna.“

Ekkert vita menn, hvernig á þessu stóð eða hver lá í kistu þeirri hinni fornu.[4]

1. Sbr. Eyrbyggja-sögu, kap. 51.
2. Frá [hafa sum seinni handrit af Eyrbyggja-sögu, sem hafa tekið upp þessa munnmælasögu, þannig: „Mána-Ljótur.“
3. Frá [hafa ýngri handrit Eyrbyggja-sögu: „þat gjörir, at.“ Dr. Maurer hefir: „það er af því að“ o. sv. fr.
4. Sagan er tekin eptir Dr. Maurers Isl. Volkss. 61. bls., sögn Markúsar Gíslasonar skólapilts, og höfð hliðsjón til hinna ýngri handrita af Eyrbyggja-sögu.

**Prestskonan.** (Eptir handriti séra Jóns Norðmanns nú á Barði.) Einu sinni var prestskona grafin einhverstaðar í kirkjugarði. Um kvöldið eptir kom út vinnumaður á sama kirkjustað, og heyrði hljóð úti í garði. Tók hann sèr þá reku í hönd og fór að grafa í skyndi. Þegar hann var kominn ofan í miðja gröfina, heyrði hann annað hljóðið. Hraðaði hann sèr nú, sem mest hann mátti; því það er almenn sögn, að lík sèu liðin, undir eins og þau hafi hljóðað þrjú hljóð. Náði hann svo líkinu og bar það inn. Síðan lifnaði konan við aptur.

**Hljóð í kirkjugarðinum í Grímsey.** (Eptir sama handriti og frásögn gamals manns, Ólafs í Grímsey, 22. December 1848.) Einu sinni var stúlka, sem Anna hèt, grafin í Miðgarðakirkjugarði í Grímsey. Kvöldið sama heyrði einhver, sem úti var, eða út kom, veinhljóð þrjú í kirkjugarðinum. En um það var ekkert skeytt frekar, og hefir Ólafur svo frá sagt, að sèr verði sú saga leingst í minni.

**c)** Þessu næst eru þeir menn, sem dáið hafa voveiflega, orðið úti eða drukknað, eða farizt á annan hátt, sem mönnum er ekki kunnugt um. Slíkir menn hafa ósjaldan birzt náúngum sínum eða vinum í draumi, og skýrt þeim frá, optast í ljóðum, hvernig atvikazt hafi um dauða þeirra, eða gjört uppskátt, hvernig líkum þeirra liði, og jafnvel hvorn samastað þeir hafi hlotið eptir dauðann. Þá hefir það og borið við, að mönnum hefir vitrazt í draumi, hverjir feigir væru. Sögurnar sjálfar skulu nú sýna þetta enn ljósar.

**Reynistaðar-bræður.**[1] (Eptir Árbókum Espólíns og sögu nyrðra frá séra Skúla Gíslasyni.) Um haustið 1780 sendi Haldór Bjarnason, er þá hèlt Reynistaðar-klaustur, son sinn tvítugan, er Bjarni hèt, og mann með, er Jón hèt, og var kallaður Austmann, suður um land til fjárkaupa, því fyrirfarandi ár hafði mjög fallið fè á norðurlandi. Síðar um haustið sendi og Haldór ýngri son sinn suður, er Einar hèt, 11 ára að aldri, og mann með honum, er Sigurður hèt, og áttu þeir að hjálpa hinum til að reka fèð norður, er þeir höfðu keypt. Það er mælt, að Einar hafi nauðugur farið þessa för, og hafi sagt, að hann mundi ekki aptur heim koma. Hitt er og mælt, að faðir hans hafi ákaft viljað láta hann fara, því þó Reynistaðafólk væri auðugt, bjóst Haldór við, að vinir sínir mundu gefa Einari kind og kind, er hann, svo úngur færi til fjárkaupanna.[2] Þegar þeir bræður voru að fjárkaupunum eystra og syðra, er mælt, að Bjarni, er var í flestu fyrir þeim fèlögum, hafi eitt sinn komið inn í smiðju, þar sem prestur nokkur var að smíða járn. Bjarni tók upp járnbút einn, er lá hjá presti, og mælti:

1. Sbr. Isl. Volkssagen von Dr. K. Maurer, 62—64. bls.
2. Þessa sögn um tilgáng Haldórs, að senda Einar son sinn suður, heyrði eg úngur (c. 1835) austur í Rángárvallasýslu.

„Tvíllaust þetta tel eg stál,
tólin prests eru komin[1] á ról.“

Þessu reiddist prestur; því svo stóð á, að hann átti þúnga með vinnukonu sinni, og hugði, sem þó var ekki, að Bjarni hefði heyrt það, og vildi bregða sèr brígzlum; prestur svaraði þá í bræði sinni:

„Ýli þín af sulti sál,
sólarlaus fyrir næstu jól.“

Þessi ummæli prests urðu að áhrínsorðum, því seint um haustið lögðu þeir fèlagar fjórir með fèð upp á fjöllin, og ætluðu norður Kjalveg, þrátt fyrir aðvaranir vina þeirra og kunníngja, því svo þókti, sem feigð kallaði að þeim. Var þeim þá feinginn leiðsögumaður, er Jón hèt. En alt um það komu þeir hvergi fram, og urðu allir úti með fènu og öðrum fjármunum, er þeir höfðu með sèr.

Nú leið allur veturinn, svo að ekkert spurðist til þeirra bræðra. En fyrst feingu menn á Reynistað grun á, hvernig farið hefði, þegar Björgu[2] Haldórsdóttur, systur þeirra bræðra, dreymdi, að Bjarni kæmi til sín og kvæði:

„Einginn finna okkur má
undir fannahjarni;
dægur þrjú yfir dauðum ná
dapur sat hann Bjarni.“

Leið svo af veturinn til þess um vorið, að ferðamaður einn fór suður fjöll, og fann tjald þeirra fèlaga, og þóktist sjá þar lík beggja þeirra bræðra, og tveggja manna annara. Síðar komu aðrir ferðamenn að tjaldinu; sáu þá að eins tvö líkin, og þegar sent var frá Reynistað eptir líkunum, fundust ekki nema tvö. Voru það lík þeirra Sigurðar og Jóns leiðsögumanns. Eptir lánga leit fannst miklu norðar á fjöllunum önnur höndin af Jóni Austmann, reiðtýgi hans og reiðgjarðir sundurskornar, og reiðhestur hans skorinn á háls. Var það trú manna, að hann, sem hafði verið mestur mannskapsmaður þeirra fèlaga, hefði haldið norður þángað, en hefði, þegar hann örvænti um að ná norður í bygð, drepið sjálfur hestinn, til að stytta eymdarstundir hans. En af bræðrunum fannst hvorki hold nè hár, nè heldur gripir þeir, er þeir höfðu haft með sèr. Þegar lík þeirra bræðra fundust ekki, dreymdi systur þeirra um, að Bjarni bróðir sinn kæmi og kvæði þetta:

„Í klettaskoru kreptir liggjum bræður;
en í tjaldi áður þar
allir hvíldum fèlagar.“

1. Frá [hafa aðrir þannig: þó fari.

2. Aðrir segja, að Ragnheiði, móður þeirra bræðra, hafi dreymt Bjarna, og hann hafi kveðið við hana vísur þær, sem hèr koma á eptir, og þeirri sögusögn hefir Dr. Maurer fylgt, en eg fylgi frásögu Skúla prests, sem er uppalinn í Skagafirði.

Af þessari stöku feingu menn grun á, að maður nokkur, sem farið hafði þenna veg um vorið, hefði stolið af líkum þeirra bræðra öllu fémætu, tekið síðan líkin sjálf úr tjaldinu og falið einhverstaðar. Var þá byrjuð ransókn, og mál höfðað, en alt kom fyrir ekki. En með því ekkert var sparað til að fá skýrslu um líkhvarfið, var galdramaður tilfeinginn, að vita, hvers hann mætti vísari verða. Hann hafðist við í úthýsi á Reynistað. Þóktist hann sjá, að lík þeirra bræðra væru urðuð í hraungjótu, og stór hella ofaná, en miði með rúnum lægi undir hellunni, og sagði karl, að líkin mundu ekki finnast, fyrr en miðinn væri að eingu orðin. Þóktist hann sjá þetta alt gjörla heima, og bjóst til ferðar; en á leiðinni glaptist alt fyrir honum, svo hann fann ekki líkin, er hann kom í óbygðina, þar sem þeirra var von.

Líkin fundust loksins nálægt 1845, suður í Kjalhrauni, undir hellu, eins og galdramaðurinn hafði sagt.

**Sèra Þorlákur Þórarinsson.** (Eptir handriti sèra Skúla Gíslasonar á Stóranúpi.) Nóttina eptir að sèra Þorlákur Þórarinsson drukknaði í Hörgá, dreymdi stúlku nokkra, er var honum kunnug, að hann kæmi til hennar, og kvæði:

„Dauðinn fór djarft að mèr,
dauðanum einginn ver;
dauðinn er súr og sætur,
samt er hann víst ágætur
þeim, sem í drottni deya,
og dóminum eptir þreya."

**Bóndinn á Grænmó.** (Eptir handriti Jóns bónda Sigurðssonar í Njarðvík.) Stóri-Grænmór hèt eitt af fornbýlum þeim, sem höfðu verið í bygðarlagi því í Norðurmúlasýslu, sem Eyar heita. Á 17. öld löfðu enn uppi kofar á Grænmó, og fèkkst leingi taða af bæarrústunum. Á bæ þessum var ilt vatnsból á vetrum, svo sækja varð í Lagarfljót, sem þá rann í öðrum farveg, en nú, og miklu nær bænum, en þó var þángað laung stekkjargata. Einu sinni í kafaldsbyl ætlaði bóndinn á Grænmó að sækja vatn í Lagarfljót, og kom ekki aptur. En um nóttina var þessi vísa kveðin á glugganum uppi yfir konunni:

„Frost og fjúk er fast á búk,
frosinn mergur í beinum;
það finnst á mèr, sem fornkveðið er,
að fátt segir af einum."

Þókti mönnum bóndinn gánga mjög aptur eptir þetta, og lagðist þá niður bygð á Grænmó.

Einu sinni (eptir 1800) fórst maður í Grímseyar-bjargi seint um kvöld, og frèttist ekki lát hans um eyna, fyrr en morguninn eptir; en um nóttina

dreymdi konu, sem dó 1843, að maður þessi kom á glngganu hjá henni, var að vinda blóðið úr húunni sinni og kvað þessa vísu:

„Þánka maður gætinn, gegn,
gerðu þèr í hug um stund,
hvort að þessi feiknafregn
fákætt hafi sumra lund."

Um morguninn frèttist lát mannsins, og var haldið, að hann hefði ekki orðið öllum harmdauði.[1]

**Unnustinn.** (Vestan af Skarðsströnd.) Einu sinni var piltur og stúlka á bæ einum; þau voru trúlofuð og unnust mjög. Um veturinn átti hann að fara til sjóróðra, og áttu þau tal með sèr, áður en hann fór. Lofaði hann þá unnustu sinni, að hann skyldi skrifa henni vel og rækilega. Fór hann síðan á burt, og leið svo fram undir jól. En um jólin fór stúlkuna opt að dreyma unnusta sinn, og kvað svo mjög að því, að hún gat varla sofið nokkra rólega stund. Var hann að segja henni frá ýmsu, bæði um sjálfa hana og aðra. Þar á bænum var kerlíng ein heldur fróð; fór stúlkan til hennar, og sagði henni frá draumum sínum, og að hún mætti eigi sofa með neinni værð. Kerlíng lèt lítt yfir, en sagði þó við stúlkuna: „Fara skaltu að sofa í kvöld; en eg skal búa um hurðina á húsi því, er þú sefur í." Um kvöldið fór stúlkan að sofa; dreymdi hana þá, að unnusti sinn kæmi á gluggann og mælti: „Illa gjörðir þú, að loka hurðinni fyrir mèr; er nú svo komið, að eg má eigi framar til þín koma, en þar eð svo er, þá vildi eg vera draummaður þinn." Síðan kvað hann vísu þessa:

„Vèr höfum feingið sæng í sjó
sviptir öllu grandi;
höfum þó á himni ró
hæstan guð prísandi." —

Fór hann síðan á burt. En stúlkan vaknaði. Var hún þá svo óð, að hún hljóp út, og ætlaði að fyrir fara sèr. En sumt fólk var þá enn eigi til sængur geingið, og náði það henni. Varð stúlkan svo jafngóð aptur, og vitjaði maðurinn hennar aldrei síðan. —

Fyrir tveimur árum drukknuðu margir menn af skipi milli lands og eya. Voru þeir úr Mýrdal og undan Eyafjöllum, en ætluðu að róa í eyunum um vertíðina. Gjörði hvast útsynníngsèl um kvöldið, og þá heyrðu menn að þeir hefðu farist. Um nóttina dreymdi kvennmann undan fjöllunum, að einn maðurinn kæmi til sín og kvæði:

„Mjög var órótt,
þá að dró nótt.
Dapur er dauðinn kaldi.

1. Þessi sögn er tekin eptir handriti sèra Jóns Norðmanns, nú prests að Barði í Fljótum.

Mig þar að bar,
sem margur var
á lifandi manna landi.“[1]

**Starkaðsver.** (Frá sèra Skúla Gíslasyni eptir sögn eystra.) Starkaðsver heitir á framanverðum Gnúpverja afrètti, og stendur stór steinn einstakur í verinu og heitir Starkaðssteinn;[2] er sagt, að nafnið sè svo til orðið, að Starkaður hefir maður heitið frá Stóruvöllum í Bárðardal, er hafi átt unnustu, sumir segja, á Stóranúpi, sumir á Þrándarholti í Gnúpverjahrepp. Einu sinni sem optar fór hann að finna hana, en varð úti sökum illviðurs og þreytu í verinu undir steininum, alveg á rèttum vegi. Um sama leyti dreymdi heitmey hans, að Starkaður sinn kæmi til sín og kvæði:

„Angur og mein fyrir anðarrein
opt hafa skatnar þegið,
Starkaðar bein und stórum stein
um stundu hafa legið.“

**Feðgarnir í Vestmannaeyum.** (Eptir handriti sèra Skúla Gíslasonar.) Þegar Grímur Pálsson, er seinna var prestur á Helgafelli, var við verzlun í Vestmannaeyum, voru þar 2 feðgar, er báðir hètu Guðmundar. Var hinn eldri forsaungvari þar í eyunum; hinn ýngri var sjómaður góður, en djarfur og ófyrirleitinn; enda var hann drykkjumaður mikill. Einn vetur dreymdi Grím, að hann væri í Landakirkjn. Sá hann þar dyr á kórvegg, þar sem sæti Guðmundar ýngra var, og þókti honum sem 12 lík væru borin þar út, og mundi eitt vera lík Guðmundar ýngra, en Guðmundur eldri gekk á eptir og saung þetta vers úr borðsálminum í gamla Grallaranum:

„Meðan mettuðu sig,
mintust þeir sízt á þig;
tóku sèr heiðna gleði,
grimm fèll á þá reiði.“

Að bón Gríms reri Guðmundur á juli sinu um vertíðina við ellefta mann. En einu sinni lofaði hann í góðu veðri farlausum manni að fljóta með hinum tólfta, en á þeim degi fórst hann og hugðu menn, að hann hefði ofhlaðið sig.

**„Upp koma svik um síðir.“** (Sèra Skúli Gíslason eptir sögn í Vatnsdal nyrðra.) Einu sinni var tekin gröf í kirkjugarði á prestsetri nokkru; kom þar upp með öðrum grepti hauskúpa ein, og stóð bandprjónn gegnum hana. Prestur geymdi hauskúpuna, þángað til messað var næsta helgan dag á eptir. Beið hann þess, að alt fólk var komið í kirkju, og festi hann þá

1. Eptir handriti sèra Skúla Gíslasonar.
2. Sbr. Ný fèlagsrit, lýsing á Spreingisandsvegi. Af því Dr. Maurer hefir verið sagt öðru vísi frá þessum atburði, stendur sagan hjá honum í Viðburðasögum, VI. fl.

hauskúpuna upp yfir kirkjndyrum. Eptir embætti gekk prestur fyrstur út með meðhjálpurunum, og hugði að þeim, sem út geingu. Þeir urðu einkis varir og gættu þá að, hvort nokkur væri eptir inni; en þar var kerlíng ein gömul mjög, sem bograði að hurðarbaki, og varð að neyða hana til útgaungu. Drupu þá þrír blóðdropar af kúpunni niður á faldtraf kerlíngar. Hún mælti þá: „Upp koma svik um síðir.“ Gekkst hún þá við því, að hún hefði ráðið fyrri manni sínum bana, með því að reka prjón gegnum höfuð hans. Var hún þá úng og hafði átt hann nauðug, og samfarir þeirra verið skammar. Konan bjó sjálf um líkið, og höfðu ekki aðrir hugað að því. Síðan hafði hún geingið að eiga annan mann, en hann var þá og dauður. Það er mælt, að kerlíngu þessari væri drekt, eins og gjört var mæðrum, er fyrir fóru börnum sínum.

**d)** Mjög svipað hinum næstu á undan er þeim mönnum farið, sem gjöra vart við sig eptir dauðann í svefni eða vöku en sjaldan nema einu sinni af því þeim þykir órèlega farið með bein sín framliðin, kistur þeirra ómakaðar, eða annað frá þeim tekið, er þeir hafa mætur á Ef þeim þykir sèr ofboðið í einhverju slíku, gánga þeir opt aptur og hefna sín grimmilega; en stundum láta þeir sèr nægja, að heimta það aptur, er þá vantar. Einnig reiðast framliðnir því, ef ei er hirt um lík þeirra liðin, og þau látin liggja aðhlynníngarlaus á víðavángi; gánga þeir þá aptur, og ásækja þann opt og leingi, er líkið fann, og hlynti ekki að því.

**Jón flak.** (Eptir sögn gamallar konu í Borgarfirði, og leiðrèttíngum norðlenzkra skólapilta 1845.) Maður hèt Jón, og var kallaður Jón flak. Haun var undarlegur í geði, og lítt þokkaður af sveitúngum sínum. Þókti hann smáglettinn, og ekki unt að hefna sín á honum. Þegar Jón dó, gjörðu líkmennirnir það af hrekk við hann, að þeir lètu gröfina snúa í norður og suður. Jón var grafinn að kórbaki (í Múlakirkjugarði). En á hverri nóttu á eptir, sókti hann að líkmönnunum, og kvað vísu þessa:

„Köld er mold á kór-bak,
kúrir þar undir Jón flak.
Ítar snúa austur og vestur
allir, nema Jón flak,
allir, nema Jón flak.“

Lèt hann ekki af nauðan þessari, fyrr en hann var grafinn upp aptur, og lagður austur og vestur eins og aðrir menn. — Aðrir segja, að vísan hafi heyrzt upp úr gröf Jóns í kirkjugarðinum.[1]

1. Mjög hefir farið mörgum sögnum um Jón, er sèra Skúli Gíslason segir að hafi verið kallaður Jón hrak; því hann hafi verið varmenni mikið, og grunur hafi legið á því, að hann hafi loksins fargað sèr sjálfur, hafi hann því verið grafinn án yfirsaungs að korbaki og látinn snúa norður og suður. Nóttina eptir dreymdi sóknarprestinn, er ekki var viðstaddur greptrun hans, að Jón kæmi til sín og kvæði:

**Leiðið í Skriðuklausturs kirkjugarði.** (Eptir frásögn þórarins stúdents Jónssonar frá Skriðuklaustri 1860.) Jón hèt maður og var Einarsson. Hann var um tíma vinnumaður á Skriðuklaustri í Fljótsdal; eptir það fór hann þaðan og dó á Valþjófsstað fyrir hèr um bil 16 árum (1860). þegar hann var vinnumaður á klaustrinu, dreymdi hann eina nótt, að maður kom til hans í svefni; hann sagðist eiga gröf í landsuðurhorni kirkjugarðsins, og bað að grafa sig upp aptur, og snúa leiði sínu í norður og suður, gagnstætt því sem annara leiði snúi, því hann sè ekki verður að liggja, eins og aðrir framliðnir. Jón vaknar við þetta og þykist sjá á eptir manninum, er hann fer burtu. Eptir það sofnar Jón aptur, og hirðir ekki um drauminn. Dreymir hann þá enn sama manninn, og þykir hann þá koma til sín með meiri alvörusvip, en hið fyrra sinn, og spyrja sig, hvort hann ætlaði að gjöra það fyrir sig, að grafa sig öðru vísi, en aðra menn. Jón vaknar við það, og þykist sjá, er hinn dauði geingur frá sèr aptur. Jón fer enn og sofnar, og dreymir hinn sama mann í þriðja sinn. þykir honum hann nú vera með reiðisvip og segja: „þú skalt hafa verra af því, ef þú gjörir ekki þetta fyrir mig.“ Vaknar Jón þá, og þykist enn sjá manninn, í því hann fer frá rúminu. Einsetur Jón sèr nú að grafa upp leiðið þegar daginn eptir, þar sem hinn hafði til tekið. Eptir það sofnar Jón, og sefur af til morguns. þegar Jón er kominn á fætur, tekur hann sèr reku í hönd, fer út í kirkjugarð, og grefur upp leiðið, sem honum var tilvísað, kemur þar niður á mannsbein, og grefur þau aptur gagnstætt því, sem aðrir liggja, í norður og suður, geingur svo vel frá gröfinni og gjörir upp leiðið, og er það eina leiðið, sem svo snýr í kirkjugarðinum á Skriðuklaustri, og hefir aldrei borið neitt á hinum framliðna síðan.

**Legsteinninn yfir Kjartani Ólafssyni.** (Íslenzk æfintýri, 130—132. bls. eptir almennri sögn.) Kjartan Ólafsson er grafinn á Borg á Mýrum. Leiði hans er fyrir þverum kórgafli, og snýr í norður og suður. það er fullra 4 álna lángt. Á leiðinu liggur rúnasteinn mikill. það er baulusteinn

„Kalt er við kórbak,
hvílir þar Jón hrak;
allir snúa austur og vestur
ýtar, nema Jón hrak.
Kalt er við kórbak.“

Daginn eptir lèt prestur grafa hann upp, og snúa honum rètt. Sókti Jón þá ekki framar að honum. Fyrir vestan er sú sögn um nafna minn, að hann hafi átt vonda konu, er hafi látið grafa mann sinn, svo sem fyrr er getið, til þess að gjöra honum enn skömm í gröfinni. þá er það og enn ein sögn um Jón að lík hans hafi verið látið svo í gröfina, af því vonzkuveður hafi gjört, er hann var moldu ausinn, en ekki af illvilja þeirra, er aðstóðu, og hafi því líkmennirnir flýtt sèr að koma honum einhvern veginn niður.[1]

1. Sbr. Dr. Maurers Isl. Volkss. 64. bls.

digur og lítið styttri, en leiðið. Rúnirnar á honum eru lítt læsilegar og sumar með öllu ólæsilegar. Steinninn er brotinn í sundur í marga búta, og segja menn, að bóndi einn á Borg hafi gjört það. Svo stóð á, að bóndi ætlaði að setja niður smiðju sína fyrir sláttinn eitt sumar. Vantaði hann þá laglega steina í aflinn. Hann tók þá stein Kjartans og braut hann í sundur, og hlóð aflinn úr brotunum. Um kveldið gekk bóndi til hvílu. Hann svaf einn í dyralopti, en vinnumaður hans svaf í skála eða baðstofu. Um nóttina dreymdi vinnumanninn, að maður kom að honum, mikill vexti og þreklegur. Hann segir: „Bóndi þarf að finna þig á morgun, þegar þú kemur á fætur.“ Vinnumaðurinn vaknaði um morguninn og mundi draum sinn, en gaf ekki gaum að honum. Leið svo fram undir dagmál. Fór honum að lengja eptir bónda, og fer til hans. Liggur þá bóndi í rúmi sínu. Vinnumaðurinn spyr, hvort hann vaki. Bóndi segir, að svo sè. „En heyrðu,“ segir hann, „mig dreymdi í nótt, að það kom híngað maður upp á loptið. Hann var mikill vexti og þreklegur, vel limaður og að öllu hinn ásjálegasti. Hann var í dökkum klæðum, en eigi gat eg sèð í andlit honum. Mèr þókti hann segja við mig: „Illa gjörðir þú, er þú tókst steininn minn ígær, og brauzt hann í sundur. Hann var sú eina minníng, er hèlt nafni mínu á lopti, og þessarar minníngar gaztu ekki unt mèr, og skal þess grimmilega hefnt. Láttu nú þegar brotin út á leiði mitt á morgun í þeirri röð, sem áður voru þau. En fyrir það, að þú brauzt stein minn, skaltu aldrei framar heilum fæti á jörðu stíga.“ Um leið og hann mælti þetta snart hann klæði á mèr, og þá vaknaði eg, og þoldi ei við fyrir verkjum, en eg þóktist sjá svip mannsins, er hann fór ofan af loptinu.“ „Ætla eg“ segir bóndi, „að þetta hafi verið Kjartan, og skaltu nú taka stein hans og leggja brotin á leiðið, eins og áður voru þau.“ Vinnumaður gjörði það. Sagan segir, að bóndi hafi aldrei orðið heill heilsu, og jafnan lifað við örkuml.

(Lýsíng á Borgasteinum, eptir Sigurð málara Guðmundsson.)

Nro. 1.



Nro. 2.



Af því eg vil sem fæst segja um letrið á þessum steinum, sem eg hefi myndað svo nákvæmt, sem eg held að nú sè auðið, skal eg að eins leyfa mèr að gjöra nokkrar

athugasemdir um steinana sjálfa. Er það þá fyrst, að eg trúi því fastlega, að legsteinn Kjartans hafi verið til, eins og leiði hans er enn til sýnis á Borg, og bendir hin alkunna sögn þess um bóndann, sem sagt er að hafi brotið legstein Kjartans sundur, til að hafa hann í smiðjuafl. Undarlegt er, að hugsa sèr, að sú sögn hefði myndazt, hefði einginn steinn verið yfir leiði Kjartans, og hefði steinninn ekki verið til, mundu menn varla geta vitað nú, hvar leiði Kjartans væri, fremur en leiði annara fornmanna, sem flest eru gleymd, af því eingir steinar hafa verið yfir þeim. Í annan stað segir Eggert Ólafsson, að legsteinn Kjartans sè í 3 pörtum; en þó hefir sá steinn, sem hann sá og myndaði (Nr. 1), aldrei verið brotinn, nema í tvo hluti. Nú vil eg geta þess til, að sögnin um bóndann hafi vakað fyrir Eggert, og hafi hann þess vegna ímyndað sèr, að hin hrotin, sem lágu þar nálægt, væru af sama steininum, og yrðu þó að minnsta kosti þrjú, og nálgaðist að því leyti betur sögninni. Í þriðja lagi er þess að geta, að rúnasteinninn, sem hèr ræðir um (Nr. 2), er í 3 hlutum. Að þessum steini hefir verið of seint hugað, og það því fremur, sem eg hygg, að líkindi sè til, að það sè Kjartans steinninn, ef hann er annars nokkurstaðar til; en að hinum fyrrnefnda steini, er Eggert Ólafsson segir frá hafa menn gætt, sem eg ætla að nú sè fullsannað, að ekki sè sá rètti. Eg fyrir mitt leyti er sannfærður um, að öll þessi 3 brot eru af einum og sama steini; það sýnir digurðin á brotunum, liturinn, grjótið og loptholurnar, en þó þessa bezt brúnirnar og fletirnir, sem einnig sýna, hvernig hrotin eigi að snúa. Að tvö aptari hrotin eigi saman, sýnir það, að brotin falla saman í sárið, og fletirnir á báðum eru þá jafn breiðir. Eg held og, að fremsti hlutinn verði að snúa, eins og hann er sýndur á myndinni; því eðlilegast er, að minni rúnalínan heyri þeim megin. En þar af flýtur aptur, að n-rúnin í miðbrotinu verður að eiga aptan við rúnalínnna á minna fletinum, því sú rún getur ekki staðið einstök, en það yrði hún, ef miðhrotið væri sett aptur fyrir hið leingsta. Fremst getur miðhrotið ekki heldur verið, því þá yrði eyðan, sem nú er framan við byrjunina, í miðjunni; en það lítur út, að í þeirri eyðu hafa aldrei verið rúnir. En þó getur maður ekki sagt um það með vissu. Hvergi finnast annarstaðar rúnir á steininum, er eg get sèð, en á þessum 2 flötum. Þessi stein er svo slitinn, og hrotinn, og sumar rúnirnar á honum svo forneskjulegar, og auðsjáanlega hundnar, að eg leiði minn hest frá, að eiga við þær að svo stöddu. Eg vil einúngis gjöra þá athugasemd, að eg hygg, að sá seinasti stafurinn í fyrsta orðinu sè ekki **r**, heldur **l** eða **t**; því það, sem gjörir rúnina líka **r**, er ákaflega grunt, en hitt á rúninni er djúpt. Það, sem eg get helzt ráðið í af rúnunum, er það, að maður sá, sem steinninn hefir verið lagður yfir, hefir (mèr liggur við að segja án efa) verið Ólafsson, því á mjórra fletinum er o og **l** svo skýrt, sem nokkrar rúnir geta verið. Því næst held eg móti fyrir **al**, og mun púnkturinn, sem er fyrir framan það, vera endinn á skástrikinn, fram úr a-leggnum heina, og hefir skástrikið verið djúpt og grafið niður í endann líkt og leggurinn efst á o-inu og aptari leggurinn á n-inu, sem optast stendur. Síðan sèst dauft votta fyrir **f**, en s-in lenda í hrúfunni. Þá sèst móta fyrir báðum smástrikunum fyrir framan o optast á fremra brotinu. Þessir stafir eru allir með mátulegu millibili. Vera má að þetta þyki ekki óræk sönnun fyrir því, að úr þessum stöfum eigi að lesa Ó l a f s s o n, en þó er hún líkleg. Ekki get eg heldur fundið neitt mannsnafn íslenzkt, sem geti byrjað á o og **l**, annað en Ólafur, allra sízt, þegar það er seinast í jafnstuttu grafletri. En menn vita, að það var siður í fornöld, að hafa grafletrin sem styzt, optast ekki annað en mannsnafnið og föðurnafn þess, er lá undir steininum, eins og t. d. er á rúnasteininum á Höskuldsstöðum á Skagaströnd, sem eg hefi sèð og lesið á: h e r h v i l i r s i r a m a r t e i n n p r e s t u r, og á steininum í Hvammi í Norðurárdal: h e r h v i l e r s e m u n d r g a m l a s o n. Þannig eru mörg dæmi fyrir því, að íslenzku legsteinarnir elztu hafa verið með mjög stuttu grafletri, og svo hefir þessi Borgarsteinn verið, því annars væri rúnir á 2 eða 3 flötum hans, líkt og er á mörgum íslenzkum rúnasteinum, sem ásamt fyrirbænum þeim, sem á þeim standa fyrir hinum dauðu, er seinna á öldum munu hafa farið að tíðkast, sýnir, að þeir eru talsvert

ýngri en þeir, sem nú var getið. En hvergi hefi eg orðið þess var, að þess sè getið á íslenzkum rúnasteinum, hver hafi látið rista rúnirnar, eða leggja steininn yfir hina dauðu, sem mjög er títt á útlendum rúnasteinum.

**Bæarbruni á Staðarfelli.**[1] (Eptir handriti Guðbrands Vigfússonar, og sögn föður hans.) Í kirkjugarðinum á Staðarfelli er fornmannasteinn kallaðr Hrómundarsteinn (þó ekki eldri en frá 17. öld). Þessum steini var eitthvað kipt úr stað skömmu áðr en bærinn brann; en í eldinum sáu menn háfan mann svo að tók upp yfir fellið, og það sögðu menn að verið hefði Hrómundur.

**Ketill prestur í Húsavík.** (Vestan af Skarðsströnd.) Fyrir norðan var prestur að nafni Ketill; hann var Jónsson, og bjó á Húsavík.[2] Hann lèt grafa upp líkkistur úr kirkjugarðinum, og sagðist hann gjöra það af því, að svo rúmlítið væri orðið í kirkjugarðinum, en ekki væri annað en órými að þessum kistum, þar sem líkin væru alveg rotnuð. Einu sinni stóð svo á, að þrjár kerlíngar voru frammi í eldhúsi, og voru að brenna kistunum; stökk þá úr eldinum neisti og á eina kerlínguna; kviknaði fljótt í fötum hennar, og svo líka í fötum hinna kerlínganna; því að þær voru allar nærri hverri annari. Var eldurinn svo ákafur, að þær voru allar dauðar, áður en fólk kom til og slökti eldinn. Um nóttina dreymdi prest, maður koma til sín og segja: „Þèr skal ei auðnast að rýmka til í kirkjugarðinum, þótt þú sèrt að rífa upp kisturnar okkar; því nú hefi eg drepið þrjár kerlíngar hjá þèr til hefndar fyrir oss, og taka þær upp nokkurt rúm í garðinum, og enn fleiri skal eg drepa, ef þú lætur ekki af þessu athæfi þínu.“ Fór maðurinn svo á burt; en prestur vaknaði og gróf aldrei framar upp neina kistu úr kirkjugarðinum.

**„Fáðu mèr beinið mitt, Gunna.“** Það er venja í sveitum, að hafa ljós með sèr á vetrum í fjósið. Eru jafnaðarlega höfð til þess ljósfæri þau, er kola [eða panna] heitir; er það þunt ílát og flatt, með skapti aptur úr mjóu, sem sett er inn í gat á einhverri fjós-stoðinni, til að bera birtu, meðan verið er að athafna sig í fjósinu. Í kolunni logar á kveyk og lýsi og er hún jafnan borin með ljósinu logandi á í fjósið í hulstri nokkru, sem til þess er gjört, og ljósberi heitir, og líkast er timburhúsi í lögun með hvössum þakhornum; lítið og lágt op er haft neðst við botninn á öðrum enda ljósberans, og þar er kolunni rent inn í, er ljós er borið í fjósið. Einn vetur tók griðkona nokkur, er Guðrún hèt og var fjósakona á kirkjustað, það til bragðs, er hún hafði týnt eða brotið fjós-kolnna, að hún hafði brot af hauskúpu af manni, sem komið hafði upp úr kirkjugarði,

1. Sbr. 31. bls. á undan.

2. Ketill Jónsson er talinn prestur bæði að Húsavík og Presthólum fyrir og um 1537, eptir prestatali Gunnlaugs Þórðarsonar á Skuggabjörgum. Sagan er vestan af Skarðsströnd.

fyrir kolu í fjósið, og lèt loga á henni. Ekki bar neitt á neinu fyrir það allan veturinn fram yfir jól. En á gamlárs-kvöld, er griðka þessi var búin að bera ljós í fjósið, og hafði það. eins og hún var vön í hauskúpubrotinu, var kallað á fjósgluggann til hennar og sagt: „Fáðu mèr beinið mitt, Gunna.“ Guðrún gjörði sèr lítið fyrir, tekur höfuðskelina, eins og hún var með ljósinu, fleygir henni á flórinn, treður ofan á hana og segir: „Sæktu það þá, bölvaður.“ Aðrir segja, að Guðrún hafi að eins fleygt brotinu af hauskúpunni þángað, sem henni heyrðist hljóðið koma, en ekki troðið ofan á það. En hvort heldur sem var, varð stúlkunni ekkert meint við þetta.[1]

**Hauskúpan.** (Eptir handriti sèra Skúla Gíslasonar.) Einu sinni var tekin gröf í kirkjugarði nokkrum, og kom upp mikill gröptur. En, eins og vandi er, var hann látinn niður aptur með kistunni. Um nóttina eptir dreymdi konu kirkjubóndans, að kvennmaður kæmi til hennar; hún kvað:

„Geingið hef eg um garðinn móð,
gleðistundir dvína,
hauskúpuna, heillin góð,
hvergi finn eg mína.“

Síðan lèt konan leita og fanst hauskúpan fyrir utan kirkjugarðinn, er hundar höfðu borið út úr honum, meðan beinin lágu uppi, án þess því væri veitt eptirtekt. Konan lèt jarða kúpuna og svaf síðan í næði.

**„Kjálkarnir mínir.“** Einu sinni var prestur á kirkjustað. Hann hafði þann sið, að hann lèt taka allan gröpt, sem kom upp úr kirkjugarðinum hjá sèr og brenna honum. Einu sinni sem optar var lík grafið að kirkju hans, kom þá fyrir gröptur og var hann hirtur af eldakonunni eptir boði prests. En með því gröpturinn hafði vöknað, annaðhvort af rigníngu eða snjókomu, er hann var tekinn upp, gat eldakonan ekki brent honum þegar, og varð að hafa hann við eldinn og á hlóðarsteinunum til að þurka hann. Meðan á þessu stóð, heyrði eldakonan, er hún var að elda í rökkrinu, að sagt var með veikri röddu einhvers staðar nærri hlóðunum: „Kjálkarnir mínir, kjálkarnir mínir.“ Þessi orð heyrði hún í annað sinn tvítekin. Fór hún þá að svipast um mannabeinin, er láu kríngum hlóðin hjá henni, hvað þessu mundi olla, en fann þar engan mannskjálka. Þá heyrir hún sagt í þriðja sinni með enn eymdarlegri röddu, en áður: „Æ, kjálkarnir mínir, kjálkarnir mínir.“ Fer hún þá og leitar enn betur, og finnur 2 samfasta barnskjálka, er þokazt höfðu af hlóðar-steininum ofaní annað hlóðarvikið, og voru nærri farnir að brenna. Skilur hún þá, að svipur barns þess, er átti kjálkana, muni ekki hafa viljað, að þeir brynni.

1. Sagan er tekin eptir Sigurði málara Guðmundssyni. Sbr. Dr. Maurers Isl. Volkss. 64. bls.

Síðan tekur hún kjálkana og vefur þá í líni, og kemur þeim ofaní gröf, er næst var grafið í kirkjugarðiuum. Eptir það bar ekki á ueinum reymleika.[1]

**Mannsrifið.** (Eptir frásögn Sveins Haldórssonar í Túnguhlið í Álptafirði.) Þegar sèra Eiríkur Rafnkelssou var prestur á Hofi í Álptafirði (1779—1785), var hjá honum vinnukona, sem Oddný hèt, og var hún heitin manni nokkrum þar í sveit. Einu sinni var grafið lík í Hofs-kirkjugarði, og sáu líkmennirnir, að Odduý kom út að gröfinni, og var eitthvað að róta í moldinni; þegar hún hafði rótað þar nokkra stund, fór húu inn í bæ aptur, og gáfu þeir henni eingan gaum. En nóttiua eptir þókti sèra Eiríki maður koma til síu, og biðja sig að útvega sèr beinið sitt, sem Oddný vinnukona hans hefði tekið úr moldinui daginn áður. Hinn dauði maður sagðist hafa beðið Oddnýu um það, „en hún vildi ekki láta það af hendi, og sagðist ekki hafa tekið það;“ síðan hvarf hann burtu. Morguninn eptir geingur prestur á Oddnýu, og segir, að hún hafi tekið manusbein úr moldinni ígær, og að hún skuli láta það af hendi við sig. En hún var ekki á því, og verður uppi bálvond, svo prestur hættir að þýfga haua um það. Næstu nótt kemur hinn dauði aptur til prests, og biður hann nú, hvað sem tautar, að ná beininu sínu af Oddnýu; því hann vilji fyrir hvern mun fá það, og hverfur hanu síðan presti. Þegar prestur vaknar um morguninu, fer hann á fætur; er þá Oddný að þvo föt við læk einu úti í túninu; prestur geingur til hennar og heimtar af henni beinið eða mannsrifið. Hún neitar enn þverlega, að hún hafi tekið nokkurt bein. En prestur tekur hana þá, og afklæðir og finnur manusrif vafið innan í grárri ull í barmi hennar.[2] Strýkir hann svo stelpuna, en tekur beinið og lætur það út í kirkjugarð í gröfina; eptir það segir hann unnusta Oddnýar frá þessu tiltæki hennar, og biður hann að íhuga, hvort hann vilji taka hana að sèr. En unnusti heunar lèt það ekki á sig fá og átti hana, og bar ekkert á heuni síðan, nè heldur að hinn dauði vitjaði neins ofanjarðar eptir þetta.

**Draugs-húfan.** (Eptir handriti Jóns Bjarnasonar í Breiðuvík í Múlasýslu.) Á kirkjustað nokkrum var meðal annars fólks únglíngspiltur og stúlka. Dreingurinn hafði það til siðs, að hræða stúlkuna, en hún var orðinn þessu svo vön, að hún hræddist ekkert. Því að, þó hún sæi eitthvað, hèlt hún, að það væri dreingurinn að hræða sig. Einu sinni bar svo við, að þveiginn var þvottur og þar á meðal margar hvítar nátthúfur, sem þá voru tíðkaðar. Um kvöldið var stúlkan beðin að sækja þvottinn út á kirkjugarðinn. Hún hleypur út og fer að tína saman þvottinn. Þegar hún er því nær búin, sèr hún, hvar hvít vofa situr á einu leiði í garðinum. Hún hugsar með sèr, að nú ætli strákurinn að hræða sig. Hleypur hún þá til og hrifsar

1. Sagan er tekin eptir frásögn Markúsar skólapilts Gíslasonar úr Mýrarsýslu.
2. Sbr. tilbera og tilbúníng þeirra í III, 2. gr.

af vofunni húfuna, því hún hèlt, að dreingurinn hefði tekið eina nátthúfuna, og segir: „Þèr skal nú ekki takast að hræða mig í þetta sinn.“ Fór hún svo inn með þvottinn; var þá dreingurinn inni. Nú var farið að skipta þvottinum; var þá ein húfa umfram, og var moldug innan. Þá varð stúlkan hrædd. Morguninn eptir sat vofan á leiðinu, og vissu menn ekki, hvað til skyldi gjöra, því einginn þorði að færa vofunni húfuna, svo sent var um sveitina eptir ráðleggíngu. Þar var gamall maður í sveitinni, er lagði það til, að ekki gæti hjá því farið, að eitthvað ílt hlytist af þessu, nema ef stúlkan sjálf færði vofunni húfuna, og setti hana þegjandi upp á vofuna, og skyldi margt fólk horfa á. Var þessu þreingt að stúlkunni, að fara með húfuna, og setja upp á vofuna, svo að hún fór með hálfum hug, og setti húfuna upp á vofuna, og sagði um leið og hún var búin: „Ertu nú ánægður?“ En draugurinn brá við, sló hana og sagði: „Já. Ert þú áuægð?“ Og með það steyptist hann niður í leiðið. Stúlkan fèll við höggið, svo menn hlupu til og tóku hana, og var hún þá dauð. Dreingnum var refsað fyrir það, að vera að hræða hana, því það var álitið, að öll ógæfan hefði hlotizt af honum, og lagði hann niður, að hræða menn, og lýkur hèr þessari sögu.

**Nefið mitt forna.** (Eptir frú Helgu sál. Benedictsdóttur Gröndals.) Einu sinni var tekin gröf að líki á kirkjustað. Þar bar að mann einn keskinn og glensmikinn. En í því kom upp hauskúpa stór úr gröfinni. Maðurinn skoðaði hana um stund, og hafði það einkum í skopi, hvað nefið hefði verið stórt á manni þessum í lifanda lifi, því nefbeinið var geysimikið og íbjúgt. Af því grafarmennirnir tóku ekkert undir það með honum, lagði hann bráðum af sèr hauskúpuna og gekk burtu. Nóttina eptir dreymdi hann, að honum þókti koma til sín kona heldur stórskorin með bjúgt nef og mikið og kveða þetta:

Lastaðu ekki nefið mitt hið forna,
ekki skapti sjálfa sig
ein heiðarlig
seimþorn norna.

**Kerlíngin apturgeingna.** (Vestan af Skarðsströnd.) Það var fyrir fáum árum, að tveir menn áttu tal saman; kom þar margt á góma meðal þeirra, og þar á meðal töluðu þeir um drauga og dauða menn. Kvaðst annar þeirra jafnan skyldi gjöra dauðum manni, er hann fyndi, það gott, er hann gæti. En hinn kvaðst ekkert mundi hirða um, þótt hann fyndi lík, og gánga fram hjá því, sem öðru hræi. Sá maður hèt Ketill. Leið nú nokkur tími; einu sinni var Ketill á ferð, og fann hann þá dauða kerlíngu; gekk hann fram hjá henni, og hirti ekkert um hana; kemst hann nú heim um kvöldið, og leggst niður að sofa. En þegar hann er sofnaður, dreymir

hann, að kerlíng komi til sín og segi: „Ekki þakka eg þèr fyrir það, sem þú gjörðir mèr gott í dag; því þú gjörðir mèr hvorki gott nè ílt;“ sýndist honum hún svo voðaleg, að hann vaknaði; grípur nú sax, er var hjá rúmi hans og hleypur á kerlíngu (því hann þóktist sjá hana, er hann vaknaði) með miklum blótsyrðum og segir: „Viltu, að eg reki hnífinn í andskotann á þèr?“ En í því hvarf hún. Sofnar hann nú aptur, og þókti honum, að kerlíng kæmi í annað skipti með lúngun úr sèr, og vildi sletta þeim framan í hann, og gekk alveg að rúminu. Vaknar hann þá, grípur saxið, og vill leggja til kerlíngar, en hún hvarf sem fyrr. Sofnar hann nú í þriðja sinn; þókti honum hún koma þá aptur, og ætlaði að heingja hann. Verður honum þá heldur en ekki bilt við, og grípur nú saxið, stekkur ofan úr rúminu og eltir kerlíngu út í dyr. En hún hvarf enn, sem fyrri. Brauzt hann svo mjög um í seinasta skipti, sem kerlíng kom, að alt fólkið vaknaði. Eptir þetta fylgdi kerlíng honum jafnan, hvort sem hann fór. Eitt sinn var hann t. a. m. um vetrartíma í muggu-kafaldi síðla dags niður í nesi einu við sjó, og gætti sauða; vildi hann reka þá til húsa, og lagði á stað með þá. En er hann hefir nokkra stund rekið sauðina, heyrir hann nið mikinn og suðu; er hann þá kominn rètt fram á ísbrún með alla sauðina, og þar hitti maður hann, er sendur var að leita að honum, og kom honum með sauðunum heim; en karl kvað kerlíngu hafa vilt um sig.

**e)** Þá eru þeir framliðnir og á kreiki, sem lifandi menn hafa gjört lífs eða liðnum og þá í gamni, heimboð eða einhverju góðu. Virðist svo, sem draugar unni mjög orðheldni; því þeir sækja svo fast eptir, að efnd sè orð við þá, að ekki verður undan þeim komizt, sem sögurnar sýna, nema verra hljótist af.

**„Heltu út úr einum kút.“** Einhvern tíma voru 2 kunníngjar, annar úngur, en hin aldurhníginn; er svo sagt, að hann væri ölkær, og hafði hinn ýngri lofað honum í veizlu sína. En áður hún yrði haldin, dó hinn gamli maður. Var hann grafinn á hinum sama kirkjustað, og hinn kvæntist, og var veizlan haldin á kirkjustaðnum. Um nóttina dreymdi brúðgumann, að vinur sinn kæmi til sín. Hann kvað:

„[Heltu út úr einum kút[1]
ofaní gröf mèr búna
beinin mín í brennivín
bráðlega lánga núna.“

Hann fór á fætur og helti úr 4 potta kút yfir leiði vinar síns, og dreymdi hann ekki framar.[2]

1. Frá [hefir Sigurður málari Guðmundsson þannig:
„Heltu' úr kút með einga sút“ o. s. frv.
2. Sagan er tekin eptir handriti sèra Skúla Gíslasonar.

**„Horfinn er fagur farfi.“** Einu sinni var lík grafið á prestsetri nokkru og tóku vinnumenn prests gröfina. Hjá prestinum var vinnukona ein úng og órög. Hún kom út í kirkjugarð, þegar lángt var komið að taka gröfina. En í því hún kemur til grafarmanna tóku þeir upp mannsbein eitt; það var lærleggur ákaflega stór. Stúlkan kemur auga á legginn, og handleikur hann og segir síðan: „Gaman hefði verið að kyssa þenna í lifinu.“ Að því búnu leggur hún niður legginn og geingur burt. Nú líður dagur að kvöldi, til þess að almyrkt er orðið og ljós voru kveykt, þá saknar prestur bókar nokkurrar, er hann hafði gleymt úti á altari í kirkjunni um daginn. Hann biður nú stúlku þessa hina sömu, að sækja fyrir sig bókina, því hún var kunnug að því, að hún var með öllu ómyrkfælin. Stúlkan tekur vel undir það, geingur út í kirkjuna, tekur bókina á altarinu og geingur fram eptir kirkjugolfinu. Þegar hún er komin fram að kirkjudyrunum, sèr hún, hvar situr ógurlega stór karlmaður með mikið skegg í krókbekknum að norðanverðu, yrðir á hana og kvað vísu þessa:

„Horfinn er fagur farfi
forvitin sjáðu litinn
dreingur í [dauða geinginn [1]
drós skoða [hvarminn ljósa [2]
Hildarplögg voru höggvin
[þá háða eg [3] valþíng áður;
kám [4] er á [kampi (v)orum [5]
kystu, mær, ef þig lystir.“

Stúlkan lèt sèr ekki bilt við verða, geingur að honum og kysti hann. Fór hún svo inn með bókina og bar ekki neitt á neinu. Önnur sögn er það, að stúlkan hafi ekki átt að þora að kyssa manninn, er hann skoraði á hana, heldur hafi komið á hana dauðans ofboð, og hlaupið út úr kirkjunni, orðið æðisgeingin og aldrei komið til sjálfrar sín, meðan hún lifði. En öllum ber saman um það, að þetta hafi átt að vera lærleggur einhvers stórvaxins fornmanns, er kom úr gröfinni er hún sá í krókbekknum, og kvað vísuna. [6]

**Brúðguminn og draugurinn.** (Eptir sögn Kristrúnar Ásmundsdóttur í Grjóta hjá Reykjavík.) Einu sinni voru fjórir menn að taka gröf að líki nokkru, sumir segja, að það hafi verið í Reykhólakirkjugarði. Þeir voru allir kátir

1. Frá [hafa aðrir þannig: „dauðans geingi.“
2. Frá [hafa aðrir þannig: „farfann ljósa,“ og enn aðrir: „hvarma ljósin.“
3. Frá [hafa aðrir svo: „háðum vèr.“
4. Aðrir: „kar.“
5. Frá [hafa aðrir svo: á Kára vörum.“
6. Sagan er tekin eptir frásögn Sigurðar málara Guðmundssonar og Páls Sigurðssonar skólapilts. En Guðbrandur Vigfússon segir: „Kar er á kampi vorum hefi eg heyrt; kar er slig á nybornum kálfi, því er sagt ókaraðr, og að kýr kari kálf. Vísan er stæld og ekki sermo popularis; þó hefir Jón í Grunnavík kunnað hana og hún verið algeng ár 1770. Eg hefi heyrt hana eignaða Styr og svo segir Jón Ólafsson.“

menn, og þó einn þeirra glensmestur, úngur maður og fjörugur. Þegar gröfin fór að dýpka, kom upp úr henni gröptur mikill, og þar á meðal lærleggur af manni afskaplega stór. Sá af grafarmönnum, er glensfyllstur var, tók lærlegginn og virti hann fyrir sèr, og bar hann við sig, og segir sagan, að leggurinn hafi tekið honum í mjöðm af jafnslèttu, og hafi maðurinn þó verið fullkominn meðalmaður á hæð. Að því búnu segir maður þessi í spaugi: „Það skal mèr ekki bregðast, að þetta hefir verið góður glímumaður og gaman væri að hafa hann í veizlunni sinni á síðan.“ Hinir tóku undir það að vísu, en töluðu þó minna um. Eptir það leggur maðurinn frá sèr lærlegginn hjá öðrum grepti. Síðan er ekki getið neitt um neitt, þángað til fimm árum síðan, að þessi sami maður er búinn að festa sèr konu og búið að lýsa með honum 2 lýsíngarnar. Eptir það dreymir konuefnið þrjár nætur í röð, að henni þykir maður ógurlega stór koma til sín í svefninum, og spyrja sig, hvort mannsefnið hennar muni nú ætla að muna eptir því, sem hann hafi kalsað við sig fyrir nokkrum árum, og bætir því við seinnstu nóttina, að hann skuli nú ekki undan því komast að hafa sig fyrir borðgest í brúðkaupum. Stúlkan gegndi þessu eingu, en heldur fór að fara um hana í svefninum, þegar hún heyrði þetta, og af því hvað maðurinn var stór. Hún hafði ekkert getið um þessa drauma sína við mannsefnið, þángað til hana hafði dreymt sama manninn þrisvar, þá segir hún við unnusta sinn um morguninn: „Hverjum ætlarðu að bjóða í veizluna okkar, hjartað mitt?“ „Eg veit það nú ekki, heillin mín,“ segir hann; „eg er ekki farinn að hugsa um það enn; eg ætlaði að láta lýsíngarnar líða hjá fyrst.“ „Ertu þá ekki búinn að bjóða neinum enn?“ segir hún. Maðurinn segist ekki muna eptir því, og fer nú að hugsa út í þetta, og þókti það undarlegt, að hún var svona áfjáð að spyrja sig um það. Eptir nokkra umhugsun segir hann, að það sè af og frá um það, hann hafi eingum boðið enn; en satt sè það, að hann hafi fyrir nokkrum árum sagt í glensi við manns-lærlegg, sem komið hafi upp úr gröf, að það væri gaman að hafa svo stórvaxinn mann í veizlnnni sinni á síðan; en ekki geti hann kallað, að hann hafi boðið neinum fyrir það. Heitmey mansins varð heldur alvarleg við það, og segir, að það glens hefði ekki átt við, og allra sízt við bein framliðinna, „og get eg nú sagt þèr það,“ segir hún, „að sá hinn sami, sem þú kalsaðir þetta við, mun hafa fullan hug á að koma í veizluna okkar.“ Síðan sagði hún honum upp alla drauma sína, og hver ummæli stóri maðurinn hefði haft síðustu nóttina. Unnusta hennar varð heldur bilt við þetta, og segir, að hún muni satt segja, að slíkt gaman hefði betur verið ótalað. Síðan fer hann að sofa um kvöldið, eins og vant var; en um nóttina þykir honum koma til sín ógurlega stór maður, eins og risi, og heldur ygldur og ófrýnn, og þykir hann spyrja sig, hvort hann ætli nú að efna þau orð sín við sig, er hann hafi sagt fyrir 5 árum, að hafa sig fyrir borðgest í brúðkaupi sínu. Maðurinn varð lafhræddur og

sagði, að það mundi verða að vera svo. Hinn sagði, að hann skyldi ekki undan því komast, hvort sem honum þækti það betur eða ver, og hefði það verið þarfleysa að færa að beinum sínum, og jafngott, þó hann feingi smèrþefinn af því. Eptir það fer draugurinn burtu, en maðurinn sefur af til morguns, og segir konuefninu draum sinn, og biður hana kenna sèr ráð. Hún sagði, að hann skyldi fá sèr smiði og efnivið, og láta gjöra hús í skyndi, sem samsvaraði stærð manns þessa, sem hefði vitjað þeirra beggja í draumi, svo hann gæti staðið þar upprèttur, og ekki minna innanmáls á hvern veg, en hæðin væri undir bita, og svo skyldi hann láta tjalda hús þetta, eins og venjulegt er að tjalda brúðarsal, og búa þar þessum boðsmanni hans borð með hvítum dúki, og bera fyrir hann vígða mold á diski og vatn á flösku, því anuara rètta mundi hann ekki neyta, setja þar einn stól við borðið og sæng í húsin, ef hann vildi hvíla sig; þrjú kertaljós skyldi hann hafa á borðinu hjá honum og skyldi hann fylgja honum þángað inn, en varast að gánga á undan honum, nè heldur koma undir sama þak og hann. Eingin boð skyldi hann heldur af honum þiggja, hvað sem hann byði honum, og tala sem skemst við hann, en læsa húsin og gánga frá honum, þegar hann væri búinn að bjóða honum það, sem á borð væri borið. Brúðguminn lætur nú fara að öllu, eins og brúðurin hafði fyrir mælt, smíða einstakt hús á hæfilegri stærð og veita þar allan umbúnað, sem nú var sagt.

Nú líður fram að veizludeginum, og fer hjónavígslan fram, eins og venja er til; því næst var sezt að veizlunni, og svo er staðið upp frá borðum þegar aldinit var orðið, svo ekkert ber til tíðinda. Eptir það voru menn á reiki um brúðarsalinn, en sumir sátu við drykkju, og skröfuðu saman. Brúðhjónin sátu enn kyr, sem siður er til. Þá var barið stórt högg að dyrum, og verður öllum seint fyrir að ljúka upp; hnippir þá brúðurin í brúðgumann, en hann fölnar allur upp við það. Líður svo lítil stund, og er enn barið eitt högg miklu stærra. Þá tekur brúðurin bónda sinn við hönd sèr, og leiðir hann sárnauðugan til dyranna, og lýkur þeim upp. Sjá þau þar kominn afskaplega stóran mann, og segist hann nú vera þar kominn, til að sitja veizluna þeirra. Brúðurin ýtir svo brúðgumanum út úr veizluhúsinu, til að taka á móti þessum gesti, og biður guð að styrkja hann, um leið og hún lætur aptur. En það er frá brúðgumanum að segja, að hann fer með þenna mann með sèr að húsi því, sem hann hafði látið smíða handa honum, og vísar honum þar inn. Komumaður vill, að brúðguminn gángi inn á undan sèr, en það vill hann ekki. Verður það svo úr, að hinn geingur inn á undan og segir um leið, að upp frá þessu skuli hann varast að færa nokkurn tíma að dauðs manns beinum. Brúðguminn lèt sem hann heyrði það ekki, en biður hann að gjöra sèr gott af því, sem fram sè borið, og misvirða ekki við sig, þó hann geti ekki verið þar hjá honum. Hinn biður brúðgumann að koma þó inn til sín snöggvast; en

brúðguminn vill það með eingu móti. Þá segir draugur: „Fyrst að þú mátt ekki standa við hjá mèr í þetta sinn, eða koma inn til mín, vonast eg þó eptir, að þú gjörir það fyrir mig, að vitja aptur heimboðs til mín.“ En brúðguminn neitaði því þverlega, og skellir svo hurðinni í lás. Síðan geingur hann í brúðarhúsið, og var þar alt heldur þegjandalegt, því allir urðu hljóðir við þenna atburð. Brúðurinn var ein með gleðibragði. Síðan fóru gestirnir að smátýnast burtu, en hjónin tóku á sig náðir, og sváfu af til morguns. Um morguninn vildi bóndi fara að vitja um gestinn, sem seinast hafði komið kvöldinu áður. En brúðurin segir, að hann skuli ekki fara þángað eitt fet, fyrr en hún komi með honum. Gánga þau svo bæði til hússins, hún á undan og lýkur upp; er þá gesturinn allur á burtu og hefir lokið vatninu úr flöskunni, en dreift moldinni af diskinum um alt gólfið. „Þetta grunaði mig,“ sagði konan, „hefðir þú farið til hússins á undan mèr, og stígið einum þínum fæti í þessa mold, þá hefðir þú horfið á vald draugsins, og aldrei átt apturkvæmt meir í mannheima. En mig mun ekki saka, þó eg stigi hèr inn, og skal eg sópa húsið og hreinsa.“

Aðrir segja svo frá, að draugurinn hafi, um leið og hann fór burtu aptur, geingið annaðhvort að brúðarhúsdyrunum eða að svefnhúsdyrum þeirra hjóna, og kveðið þetta:

„Eg þarf ekki að þakka,
því eg fèkk ekki að smakka,
utan vatnið tæra,
og moldina að hræra.“

Eptir þetta vitjaði hann aldrei framar þeirra hjóna; en þau unnust bæði vel og leingi.

**f)** Nú eru þeir, sem illhryssíngar voru í lífinu, svo að öðrum stóð ótti af þeim. Þeir hafa opt ekki legið kyrrir eptir dauðann, og hafa tekið þar við hinu megin, er þeir unnust ekki til hèrna megin, að vinna lifandi mönnum mein og tjón á ýmsan hátt, sem nú skal sýna.

**Saga af Grími Skeljúngsbana.** (AM. 569. B. 4.) Sögu af Grími Skeljúngsbana sagði Guðmundr Snorrason vinnumaðr Gísla Eirikssonar á Silfrastöðum svo sem eptir fylgir. Á þeim bæ er Kot heitir í Norðrárdal, sem liggr fram af Skagafirði, en fyrir vestan Öxnadalsheiði, bjó bóndi einn með konu sinni, þau áttu þann son er Grímr hèt, hann var snemma efnilegr og sterkr, og gjörðist þegar á æskualdri mjög ódæll, svo að nábúar þóttust af hans skiptum illt bíða; opt var hann að leikum með öðrum bændasonum og báru þeir jafnan lægra hlut og hrakti hann þá, varð hann af slíku mjög óþokkaðr. Á Silfrastöðum bjó bóndi einn auðigr að kvikfè, en

sá marlaki (!?) var á um hans hagi að honum varð illt til sauðamanns, því þeir urðu optliga bráðkvaddir og það mest af tröllagangi sem þar var í fjöllunum, og skeði það optast hverja jólanótt að fjármaðr þar hvarf; var þá svo komið, að enginn þorði þar að ganga undir fjárgeymslu. Eitt sinn rèð bóndi til vistar einn ókunnan mann er Skeljúngr hèt, hann var illilegr að sjá, stór og sterkr, ósvífinn í orðum og illmæltr. Þessi tókst á hendr fjárgeymsluna og gekk það greiðlega, leið svo að jólum. Aðfangadagskveldið gekk Skeljúngr heiman með illu geði til fjár og kom eigi heim aptr, var hans leitað, og fanst hann dauðr fram í hlíðinni og var þar dysjaðr. Hann gekk síðan aptur og vitjaði húsa bónda, og varð mikill reimleiki að, mjög líkt sem segir í Grettis sögu af Glám. Áðr nefndr Grímr frá Koti kom eitt sinn til Silfrastaða, gisti þar um nótt og lagði sig í skála, var þá mjög eyddr bærinn að fólki af ásókn Skeljúngs. Um nóttina kom draugrinn inn í skálann og þreif til Gríms þar hann lá, hann spratt upp í móti og tókust þeir á, færðu síðan leikinn út og fram með hlíðinni nokkuð frá bænum. Þar á hól einum fèkk Grímr yfir unnið drauginn og drap hann, rendi síðan þrjár borur með spjóti því er hafði á stein þann er þar stóð á hólnum og batt þar við Skeljúng dauðan. (Næsta er hvert hann ekki risti vað úr húðarslitri því er þeir höfðu togast um til að binda hann með.) Að því gjörðu gekk hann heim aptr til bæjarins, tók eld og eldsneyti, sneri svo aptr til Skeljúngs og brendi hann þar upp til ösku, bar síðan öskuna fram í Norðrá, sem þá fèll þar strax undir hólnum, í einn hyl árinnar og mælti svo um, að þar í þeim hyl skyldi eigi fiskveiði bregðast, sem lengi síðan viðhèlzt þar í hylnum. Nú er Norðrá fallin lengra suðr, en sèr þó farveg hennar. Steinninn sá er Skeljúngr var við bundinn stendr enn í dag og er með sýnilegum þrem borum, næsta stór jarðfastr blágrýtis steinn, upphár en eigi mjög þykkr; svo er og þar fram frá í fjallshlíðinni, hátt uppi undir klettunum, einn hellisskúti, hvar Skeljúngr hafði sín híbýli og kallast enn í dag Skeljúngsskáli. Eptir þetta varð eigi vart við reimleika og fèkk Grímr hèr fyrir góð laun af bónda. Faðir Gríms var járnsmiðr, smíðaði fyrir bændr, og var af því vel þokkaðr. En vegna óspektar Gríms mátti hann þó víkja þaðan úr bygðinni, og færði hann bústað sinn suðr á fjöll þar sem kallast í Vinverjadölum, það er á Kjalvegi og liggr hèr um tvær þíngmannaleiðir úr Skagafirði og á alþíngismanna vegi, er þar vel grösugt. Þar bygði faðir Gríms sèr bæ, bjó þar þó eigi lengi og flutti sig aptr í Norðrárdal. Úr minni er liðið hvort Grímr drap Skeljúng fyrir eðr eptir það hann var með föður sínum í Vinverjadölum. Grímr sigldi síðan, og komst í þrautir miklar utanlands, frelsaði þar eina eðr tvær konur úr tröllahöndum, og varð frægr af því og öðru. Ekki mundi Guðmundr neitt að segja skýrlega af fleirum Gríms þrekvirkjum utanlands, svo er úr minni fallið, hvort hann sagði hann hafa aptr til Íslands komið eða eigi.

Söguna sagðist hann hafa heyrt lesna[1] þá hann var úngr piltr með móður sinni.

Þetta fyrir skrifað communiceraði mèr Jón sálugi Eggertsson í Kaupinhafn, og er þetta framanskrifað ritað eptir hans eigin hendi. Arne Magnusson.

**Þáttur af Grími Skeljúngsbana.** (Eptir handriti Hjálmars skálds Jónssonar.)

Maður hèt Kári, og var Össurarson; hann var systurson Hjálmúlfs, er nam Blönduhlíð, frá Djúpadalsá upp til Norðurár og bjó að Hjálmúlfsstöðum; hann liggur í Úlfshaugi til suðurs frá bænum, sem enn sèr merki til. Kári kom út með Hjálmúlfi og nam land frá Norðurá upp til Merkigils, og bjó í Flatatúngu; var hann því kallaður Túngu-Kári. Son hans hèt Þorgrímur; var hann mikill maður og forvitri. Hann eignaðist að konu Áshildi, dóttur Þorbrandar frá Þorbrandsstöðum í Norðurárdal og fylgdu henni að heiman Silfrastaðalönd, og setti Þorgrímur bú saman að Silfrastöðum, og varð mjög auðugur maður að gángandi fè. Þorbrandur bjó að Þorbrandsstöðum til elli. Hann hafði annað bú að Haukagili; lèt hann gjöra á hæ sínum þann mikla þjóðhrautarskála, er um getur í Landnámu og víðar. Lá þar þjóðvegur gegnum skálann og skyldi jafnan matur á borði standa, öllum heimill, er hafa vildi. Þorbrandur er heygður hinumegin Norðurár, nálægt eyðijörðu þeirri, sem heitir í Vík; og er haugur sá allmikill. Mælti hann svo fyrir, að hann vildi þar búa, er hann sjá mætti báðar bújarðir sínar Þorbrandsstaði og Haukagil, þá hann mætti til hyggja, og sèst það af haugi hans. Þorgrímur á Silfrastöðum átti son þann við konu sinni, er Grímur hèt; var hann hinn gjörvilegasti maður og bráðþroska, og var það einmæli, að ei mundi vaskari maður þá upp alast í Skagafirði. Dóttir Þorgríms bónda hèt Íngibjörg; var hún fríð sýnum og vel að sèr um alla hluti, og þókti því kvennkostur mikill. Þorgrímur bóndi átti auð fjár, einkum gángandi fè; voru þar haglendi góð og landkostir; þurfti hann og gildan sauðamann, ef duga skyldi. Það var einn tíma, að skip kom af hafi í Kolheinsárós; voru það norrænir kaupmenn. Það var síðla sumars. Þorgrímur bóndi reið til skips, sem fleiri bændur. Þar var á skipi með kaupmönnum þræll einn, er hèt Skeljúngur, mikill og sterkur og mjög ódællegur. Kaupmenn vildu selja hann. Þorgrímur bóndi kom að máli við Skeljúng og spurði, hvað honum væri hentast að starfa. Skeljúngur svarar: „Fátt er þrælnm hent, en geymt hefi eg fjár í góðu veðri og mætti svo enn verða, ef bónda líkaði.“ Þorgrímur svarar; „Á það mun eg hætta að kaupa þig, ef þú geymir fjár míns. Á eg sauðmargan, en örðuga haga.“ Skeljúngur bað hann ráða. Síðan keypti bóndi þrælinn, og fór hann með honum heim til Silfrastaða og tók við sauðageymslu að veturnóttum. Það fann bóndi, að Skeljúngur mundi hafa tveggja manna

1. Það mun misminni verið hafa eða missögn, hann mun hafa **heyrt** þetta svo sagt, skrifuð mun þessi relatio aldri verið hafa. Arni M.

megn til hvers sem taka þyrfti; var hann og bónda trúr og hollur, en lítt komu heimamenn skapi við hann, einkum Grímur bóndason. Liðu svo fram tímar, að ekki bar til tíðinda. þess er getið, að með þorgrími bónda væri ambátt ein, sú er Bóla hèti; var hún flæmsk að kyni, og hafði komið út með föður hans. Hún var nornmikill í skapi og illgjörn, og þókti flestum ódælt við hana að eiga. þókti mönnum, sem hún mundi ekki einhama og fèll mjög stirt með þeim Skeljúngi, er bæði voru stygglynd, svo bóndi varð opt að skakka með þeim. Loksins kom svo, að Bóla hljóp á brottu í æfu skapi. þókti mönnum, sem hún mundi láta fyrirberast í gljúfragili því hinu mikla, sem verður fyrir utan Silfrastaði og skilur það gil Blönduhlíð frá Norðurárdal. Í gili því hið efra verða 3 forsar allháir, því á lítil rennur eptir gilinu; er mjög torgeingt að þeim tveimur, en ógeingt að hinum efsta. Undir honum ætluðu menn Bólu hafa staðar numið í helli nokkrum; veitti hún opt þaðan gripdeildir í bygðina. Við hana er kent gilið æ síðan og eyðijörð sú, er þar liggur norðanvið. það var einn vetur öndverðan, að þorgrími bónda hurfu sauðir 5 rosknir úr geymslu Skeljúngs, og ætluðu menn, að Bóla mundi valda. Smalamaður varð mjög ófrýnn við og vildi vís verða, hverju sætti. Bóndi latti þess mjög og kvað verra mundi af leiða, ef Bólu væri ómaki gjörr. Varð svo að vera. Næsta haust eptir hurfu enn 8 sauðir úr geymslu Skeljúngs og latti bóndi enn aðfarar. Hið þriðja haust hurfu 10 sauðir; varð þá Skeljúngur allæfur og tjáði bónda ei að letja hann. Rann þá á hann berserksgángur og hljóp hann norður í gilið og rann skeið þá, er liggur gagnvart forsinum og síðan heitir Skeljúngshlaup. Síðan komst hann undir forsinn. Ekki vita menn glögt um viðureign þeirra Skeljúngs og Bólu; er það sögn sumra manna, að hann hafi getað kæft hana í keri því er verður undir forsinum eptir lángan og harðan aðgáng, og ei hefir vart við hana orðið síðan. Eptir það gekk Skeljúngur heim og kvað lètta mundi sauðahvarfi um sinn. Bóndi lèt sèr fátt um finnast. það fundu menn, að Skeljúngur hafði mjög tryllzt við viðureign þeirra Bólu, og varð hann nú lítt hæfur í skapi. En jafnan var hann bónda hollur og trúr. Liðu svo fram stundir.

Nú er að segja frá Grími bóndasyni, að hann vex upp með föður sínum og er hann nú fullíða maður og manna röskvastur þeirra, er jafnaldra voru. það var eitt sinn, að Grímur kom að máli við föður sinn og mælti: „það vilda eg þú feingir mèr fjárhlut nokkurn, því mig fýsir að fara af landi brott og kynna mèr siðu annara þjóða; mun lítill verða frami minn, ef eg elzt hèr upp, sem mey til kosta“ Bóndi svarar: „Fè mun eg nóg til leggja, en þó uggir mig, að svo megi til bera, að vèr mættum þín þarfnast og þú værir betur heim kominn, enda muntu sjálfur í fulla raun komast.“ Grímur kvaðst á það hætta mundi. Bóndi fèkk honum fjárhlut góðan og rèð honum far í skipi er austmenn áttu og uppi stóð í Gaunguskarðsárósi. Urðu menn mjög síðbúnir sökum hafísa. þeir feðgar

skildu með kærleikum, og sigldi Grímur af landi brott. Feingu þeir veður bág og hafvillur og velktust úti alt sumar. En að veturnóttum rak þá að landi nokkru í fjúki miklu; var það mjög óhafnlegt og flúrum skotið. Þar brutu kaupmenn skip sitt í spón, týndist góz og menn allir, utan Grímur einn komst á land með sundi, þó mjög þrekaður. Ráfar hann nú í dimmunni nokkra stund, þar til hann heyrir viðarhögg skamt frá sèr. Þángað geingur hann, og getur að líta, hvar úngur maður knálegur hjó viðu, og hvein bólöxi mikil í hendi hans. Grímur heilsar á hinn únga mann. Hann tók kveðju hans ljúft, og spyr, hver hann væri, og hversu ferðum hans viðviki. Hann kvaðst Grímur heita Íslendíngur og orðinn hèr á skipbroti og týnt menn og góz, „eða hvar er eg að landi kominn og hver ræður hèr fyrir? eða hvert er nafn þitt, hinn knálegi maður?“ Hann svarar: „Samnefni eigum við, og heiti eg Grímur. En kominn ertu að Grænlands óbygðum, mjög lángt frá mannbygðum, en bústaður foreldra minna er skamt upp hèðan. Heitir faðir minn einnig Grímur, en móðir Þórhildur, en systir mín Íngibjörg, tveim vetrum eldri mèr. Er ei annað fólk þar og fátt til nágranna. Ætla eg nú ríflegast ráða þinna, að því er við horfir, að við fylgjumst að heim til föður míns og sjá, hvað við tekur og reyna svo dreinglyndi hans. Sýnist mèr sá muni betur hafa, er veitir þèr að hlut þínum.“ Grímur Íslendíngur kvað svo vera skyldi og fylgjast þeir nafnar að heim til bæarins; voru þar heimkynni snoturleg og sterk. Grímur bóndason leiðir nafna sinn til húss; var þar bóndi fyrir. Hann var mikilúðlegur að sjá, en þó við aldur, en allern var hann. Húsfreya var og öldruð kona, en mjög vænleg og sjáleg. Bóndi heilsar syni sínum blíðlega og spurði, hver sá úngi maður rösklegi væri, er með honum gekk. Bóndason svarar: „Það er maður íslenzkur, sem orðinn er hèr á skipbroti fèlaus, og er nú ráð faðir að duga honum, því eg hygg hann sè góður dreingur og ættmikill.“ Bóndi svarar: „Eigi er mèr með öllu ókunnugt um farir hans og mun hann til bjargráða borinn og máttu taka hann í fèlag þitt, og sè hann með oss í vetur velkominn.“ Þeir nafnar þökkuðu bónda svör sín, og gjörðust þeir úngu menn fóstbræður. Íngibjörg bóndadóttir var kvenna vænlegust og hin fegursta mær. Vel fèll á með þeim Grími Íslendíng og henni, og meinaði það einginn; var alt vel til hans gjört og leið svo vetur fram til jóla. Það var litlu fyrir jól, að þeir fóstbræður voru við sæ niðri og báru saman reka, að þeir sjá kvikindi nokkurt, þó í mannslíki en allstórskorið og ódámslegt gekk á bí við þá og mælti á þessa leið: „Það hefi eg að segja ykkur sveinar, að móðir mín, sú er Skráma heitir, og hèr býr í fjöllum uppi, býður ykkur nöfnum til jólaveizlu með vináttumálum, og þykir henni mjög undir komið, að þið heitið ferðinni.“ Þeir fóstbræður báðu hana aldrei þrífast, og virtu boðið að vettugi. Síðan hvarf ókind sú. En þeir nafnar komu síðla heim um kvöldið og spyr karl þá tíðinda. Þeir kváðust eingin segja, er nokkru

sættu. Bóndi svarar: „Nokkuð mun þó hafa borið fyrir sjónir yðar venju framar og munuð þèr vilja satt frá segja.“ þeir kváðust eigi sèð hafa, utan ómynd nokkra, „er flutti jólaheimboð til vor frá móður sinni; eru oss lítt kunnar óverur þær, og gáfum vèr eingan gaum að slíku.“ Bóndi svarar: „Eigi mun yður tjá undan að skorast, en fræða mun eg ykkur að nokkru. Dalur sá geingur hèr í fjöll upp, er þèr sjáið áleingdar. þar býr í helli nokkrum tröllkona sú, er Járngerður heitir; er hún hið mesta flagð og óvættur. Dætur hennar tvær eru þar með henni, Skinnbrók og Skinnhetta og eru þær allillar viðureignar; höfum við Járngerður laungum eldað grátt silfur og hefir hún optar farið halloka fyrir, og mun hún nú vilja hefna þess á ykkur með tröllskap sínum undir vináttn bragði. Munuð þèr ykkur ekki einhlítir til farar þessarar, og mun eg ráðast í ferð með ykkur og svo rakki minn, sá er Grámúll heitir. Er Járngerður því verri öllum öðrum seyðfjöndum, að hver sú lifandi skepna verður fyrir augum hennar þá hún deyr, mun rotna sundur lifandi á sömu stundu. Skulum vèr svo fyrir hyggja, að alls muni þurfa til að kosta, ef vèr skulum þaðan koma með lífi.“ þeir úngu menn búðu bónda fyrir sjá og kváðu alt sitt traust þar undir komið, er hann var, þótt hann gjörðist gamall. Síðan bjuggust þeir allir þrír til ferðar aðfángadagsmorgun jóla. Geingu þeir upp dalinn í fjúki miklu og rann hundurinn Grámúll fyrir þeim um daginn; var það lángur vegur og torsóktur. Um kvöldið sáu þeir helli mikinn í hömrum og var einstígi bratt upp að gánga; runnu þeir upp einstígið og komu í hellinn. Eldur brann mikill á skíðum og yfir ketill stór. Flagðkonur tvær únglegar sátu við eldinn; voru þær ferlegar að sjá. þá tók Skinnbrók til orða við systur sína: „Nú munum við ei liggja einar í nótt. Skulu þeir úngu menn hjá oss hvíla og síðan á morgun sundrast til jólaveizlu. En af Grími bónda mun oss öllum ílt standa, ef hann má ráða. Var það ei ætlun vor, að hann skyldi hèr koma og væri gott hann ætti erindi.“ Í því gekk Grímur Íslendíngur innarað eldinum og mælti: „Er nú búin jólaveizlan og á borð borin?“ þeim systrum varð mjög hverft og spruttu upp alltröllslega. Rèðst Skinnbrók á Grím Íslendíng og mælti: „Ekki máttu kalla laklegar veitt, þótt þú faðmir fríða mær, áður til borða er geingið.“ Rèðust þau á allgrimmlega og bárust víða um hellinn. Var Skinnbrók hið mesta flagð. það fann Grímur, að hún tók að mæðast. Leitaði hann þá til bragða við hana, svo hún að lyktum fèll, braut Grímur hana úr hálsliðum og gekk af henni dauðri; var hann móður mjög og þrekaður. Nú er að segja frá Skinnhettu að hún rèðst á Grím bóndason og áttu þau harðan aðgáng og tröllslegan. Bárust þau víða um og vildi hvort öðru á eldinn koma. Loksins gat Grímur hlaupið undir hana og færði hana á höfði niður í ketilinn. Hèlt hann henni þar, til þess hún lèt líf sitt. Tók hann þá nokkra hvíld. Nú er að segja frá flagðkonunni, móður þeirra, að hún rèðst á Grím bónda. Varð þeirra aðgángur ógurlegur. Sáu þeir bræður,

að hann tók fast að mæðast og hrökkva fyrir. Tóku þeir það ráð, að þeir otuðu hundinum Grámúl á skessuna. Hljóp hann að henni allgrimmilega og reif hana á hol á nárann og rakti þarma hennar. Tröllkonan hvesti augun á hundinn, meðan hún dó, og rotnaði hann sundur í dupt; lèt hvorttveggja líf sitt, hún og rakkinn. Karl var mjög þrekaður af viðureign þeirra. Síðan tendruðu þeir bál mikið og brendu flögðin öll upp. Eptir það kanna þeir hellinn og fundu fè mikið og góðgripi marga. Spjót eitt fundu þeir yfir rúmi kerlíngar, er var hin mesta gersemi; var það hiturlegt og skært sem gler og víða gullrekið. Grímur bóndi tók til sín spjótið. Síðan bundu þeir sèr byrðar og lögðu af stað með sigri, og komust heim, fluttu þeir auð mikinn í gulli og silfri og dýrum gripum. Var nú alt tíðindalaust að sinni. Grímur Íslendingur dvaldi hjá bónda 3 vetur og var hann í miklu afhaldi hjá þeim feðgum og bóndadóttur.

Nú víkur sögunni til Íslands, að það bar til næsta vetur, eptir að Grímur var farinn af Íslandi, að fundur sá var lagður á Hofmannaflöt til glímu, er um getur í Bárðar sögu Snæfellsáss undir stjórn þeirra, Bárðar og Ármanns í Ármannsfelli. Sóktu þann fund flestir hraustustu menn á landinu, jafnvel þussablendíngar og bjargbúar. Þángað kom Lágálfur Lítildrósarson af Siglunesi norður. Segir ekki af fundi þeim í þessari sögu. En það er sagt af Lágálfi, þá hann kom að sunnan aptur, kom hann af fjöllum niður í Goðdaladal og gekk síðan ofan um Skagafjörð; lá leið hans um Norðuráreyrar gegnt Silfrastöðum. Það var mjög síðla dags. Veður var fjúkandi. Þá sèr Lágálfur, hvar maður kemur að framan með Norðurá, mikill vexti og stórstígur og ber fljótt að. Hann kastar kveðju að Lágálfi og spyr tíðinda. Lágálfur sagði af hið lèttasta og spyr, hver sá væri, sem við sig talaði. Hinn svarar: „Nafn mitt er Skeljúngur og er eg sauðamaður á Silfrastöðum og kem nú frá fè. Þú munt vera mikill maður og hraustur, en mèr gjörir kaldsætt við útistöður og væri ráð að glíma nokkuð til hita sèr.“ Lágálfur mælti: „Feingið hafa menn að glíma um stund við góða dreingi og hrausta, en mèr sýnist þú allillmaunlegur með þrælasvip, en þó mun eg ei með öllu undanskorast og ábyrgist hvor sig sjálfur.“ Skeljúngur kvað svo vera skyldi. Síðan kasta þeir gögnum og geingu saman allrammlega. Það fann Lágálfur brátt, að Skeljúngur mundi hafa tveggja manna megn, þeirra er röskvir voru, og mundi því þurfa alls til að kosta. Sóktust þeir allleingi svo fast, að leysti grjót úr frera, er þeir spyrndu til. Lágálfi leiðist nú þóf þetta, og leitar hann mjög til bragða við Skeljúng. Er það sagt, að báðir hafi þá hamast. Og er Skeljúng varði sízt, kom Lágálfur á hann mjaðmarbragði svo römmu, að Skeljúngur braut í loptkasti og kom fjarri niður á grjótið freðið; var það svo mikið fall, að sundur geingu báðir þjóleggir hans og báðir armar úr liði. Vann Lágálfur þar að honum, svo að hann var að dauða kominn, gekk síðan frá honum og heim til Silfrastaða; var fólk alt komið í hús.

Lágálfur gekk að ljóra einum gagnvart því, er bóndi sat og kvað vísu þessa:

„Rann egum Rögnis innu
rjáði við hirðismáðan
þrællinn þróttragur olli
þjálfaður fur Lágálfi.

Slippur slisaðist glappi
sleggjaður foldar neggjum.
vartað gæruhjörð girtur
geingur Skeljúngur leingur."

Síðan gekk Lágálfur frá ljóranum og út eptir Blönduhlíð; kom hann við á Frostastöðum. Stóð hann við undir gaflhlaði á svefnhúsi bónda. Gafiskæ var á húsinu, og sá Lágálfur inn í húsið. Hann sá, hvar bóndi sat í bekki sköllóttur og hvítur fyrir hærum. Bóndi deildi fast á húsfreyu, að hún hefði tekið úr mjölbelgi miklum, er hèkk í rjáfrinu yfir höfði bónda, og sló hana pústur, en hún grèt. Lágálfur rètti inn um ljórann skálm mikla, er hann bar og seildist uppi við rjáfrið og skar sundur taugina, er belginum hèlt, svo hann fèll niður í höfuð bónda, en hann fèll í óvit. Litlu síðar raknaði hann við. Gekk þá Lágálfur brott frá ljóranum og kvað vísu þessa:

„Rann ur upsi
elgur mjölva,
skall við hjarn
hárum þuli.

En lafði grèt
lostin knúum.
Hefndi Lágálfur
hírrar sætu."

Gekk þá Lágálfur út eptir sveitum og heim, og er hann úr sögunni.

Nú víkur til Silfrastaða, að bónda grunaði stökuna. Þykist hann vita, að þau ein viðskipti muni orðið hafa þeirra Lágálfs, að Skeljúngur muni sèr ei einhlítur; heitir því á húskarla að vitja hans. Þeir fóru og fundu hann ei fyrir myrkri; var svo kyrt um nóttina. Að morgni snemma fór bóndi sjálfur með menn að leita Skeljúngs; fundu þeir, hvar þeir Lágálfur höfðu að geingizt; var grjótið upp leyst, en Skeljúng sáu þeir ekki; var þá leitað víðar og fannst hann ekki og þókti kynlegt. Litlu síðar urðu menn þess varir, að Skeljúngur lá ekki kyr og mundi hann aptur geinginn og hafast við í fjallinu fram frá Silfrastöðum. Varð að því mörgum mein, er um dalinn fóru. Drap Skeljúngur fyrir þeim hross og hunda og vilti um menn. Þó varð Þorgrími bónda mest tjón að. Var sauðamaður haus drepinn á næstu jólum; fór svo hinn næsta vetur á sömu leið. Varð nú bónda ílt til sauðamanna, er meinvættur slíkur lá í landi. Beið hann af slíku mikinn ófagnað, en varð ei að gjört. Liðu svo fram þau missiri til hinna þriðju jóla.

Nú víkur sögunni til Grænlands, er Grímur Íslendíngur hefir setið þar í fagnaði hjá þeim feðgum öll þessi missiri. Hafði hann margt numið af bónda og var hann nú afburðamaður orðinn að hreysti og íþróttum. Það var um vorið hið síðasta, er Grímur var á Grænlandi, á sumardagsmorguninn fyrsta, að bóndi kom að máli við Grím Íslendíng: „Nú hefir margt fyrir mig borið á nóttu þessari og segir mèr svo hugur um, að

faðir þinn muni þurfa þinnar liðveizlu; er nú smalamaður hans orðinn meinvættur og leggst á góz hans og menn, og mun þèr einum auðið verða að fyrirkoma honum. Nú skaltu búa þig til Íslandsferðar í sumar. Mun eg fá þèr knör lítinn og skal Grímur, son minn, með þèr fara og Ingibjörg dóttir mín. Sè eg, að forlög ykkar liggja saman, og muntu þá gipta Ingibjörgu, systur þína, Grími, syni mínum. Skal hann flytja hana híngað að sinni, en þó munu þau síðar auka kyn sitt á Íslandi, en þú munt ei staðfestast á Íslandi, heldur munu forlög þín liggja þaðan, en ætíð þykja þar mestur maður, er þú kemur. Nú mun eg búa ferð yðra, sem faung eru á." Grímur þakkaði bónda tillögur sínar og kvaðst hans forsjá hlýða vilja. Nú líður fram á sumarið og leisti ei frera, fyrr en í þrímánuði. Nú búa þeir nafnar skip sitt og fèkk bóndi þeim öll fararefni hin beztu. Gaf hann Grími Íslendíng kjörgripi marga og þar með spjótið tröllkonunaut, er þeir tóku úr hellinum. Kvað hann það mundu flestar áreynslur þola. Síðan kvaddi bóndi börn sín og mágsefni og árnaði þeim heilla. Lètu þeir fóstbræður í Grænlandshaf móti vetri og höfðu útivist harða sökum óveðuráttu og hafísa. Loksins tóku þeir land í Blönduósi tveimur dögum fyrir jól. Grímur Íslendíngur kvaðst vilja ríða sem hvatlegast norður til Silfrastaða. „Segir mèr svo hugur, að ei muni ofsnemma. En þið skuluð bíða hèr við skip, þar til eg kem aptur." Síðan leigði hann sèr 2 reiðskjóta, er beztir voru. Það var aðfángadag jóla. Grímur hafði öll herklæði góð og skrautbúin. Hann hafði spjótið tröllkonunaut í hendi, reið hann upp með Blöndu og á Vatnsskarð. Veður var fjúkandi og færð þúng. Reið hann svo mikið, að mælt er, að sprúngið hafi annar eykurinn nálægt Arnarstapa, en annar hafi sprúngið norðanvið túngarð á Silfrastöðum; var þá mjög farið að dimma af kvöldi. Grímur kemur á bæinn, og hittir föður sinn. Verður þar fagnaðarfundur. Geingur síðan til skála og kastar reiðklæðum. Hann sá heimafólk alt mjög hnuggið. Grímur spyr vandlega að framferðum Skeljúngs, og var honum sagt, hann riði þar húsum flestar nætur, úr því nótt er dimm; er nú því síður vært, að jól eru í garð geingin; áræðir einginn úti að vera eptir dagsetur. Grímur gat að líta, hvar uxahúð mikil lá, blaut og óskafin, af þjór þeim, er slátrað hafði verið til jólanna. Grímur tók húðina og risti af ólar þrjár allrammgjörvar. Síðan geingur hann til suðurs frá bænum og hefir í hendi spjótið tröllkonunaut, en í annari ólarnar. Hann geingur, þar til hann kemur á hól þann, er verður skamt á brott suður með hlíðinni, og kallaður er síðan Grímshóll. Hann litast um og sèr, að steinn mikill steudur á sunnanverðum hólnum, aflángur, þykkur mjög neðan, en upp þynnri, nokkuð áþekkur fornum blótsteinum. Grímur geingur að steininum og rennir 3 göt í gegnum hann með spjótinu tröllkonunaut, dregur síðan í borurnar ólar þær hinar nýu og reið á rennilykkjur og dró í æsar. Síðan gekk Grímur heim; var þá slegið upp jólaveizlu. Fögnuðu allir heimamenn Grími, en þó mest faðir hans. Leið svo á nótt

fram. Síðan bað Grímur alla menn til sængur fara, og var svo gjört. Húskarlar sváfu í skála, er lá úr norðarverðum anddyrum; voru þar rekkjur margar. (Stóð sá skáli nokkur hundruð ár síðan.) Grímur lagðist niður í setið, er næst var dyrum, og snaraði yfir sig og undir uxahúðinni hinni nýu. Lá svo lèttklæddur og sá út undan húðinni um höfuð sín áttina. Ljós brann í skálanum hið efra. Grímur bað fólk ei æðrast, þó kvatt yrði dyra heimamannlega og eingan gaum að gefa. Væntu menn nú Skeljúngs með áhyggju, ef hann hèldi vana sínum. Lètu menn sem hljóðast og leið svo á nótt fram. Eptir miðja nótt heyrðu menn, að geingið var á húsin upp og riðið skálanum óþyrmilega og barið hælum við þekjn, svo brast í hverjum rapti, gekk það nokkra stund. Síðan var farið ofan af húsum og kvatt dyra mjög rammlega og síðan brotin upp hurðin. Kom þá Skeljúngur inn í anddyrið og litast um. Snýr síðan til skálans og treður sèr inn um dyrnar og gægist hann nú hvervetna. Húskarlar lètu ei á sèr bæra og byrgðu sig niður, svo voru þeir hræddir. Skeljúngur sèr, hvar nýkominn gestur liggur í setinu fremst við þil. Ræðst hann þar að og þrífur í húðina, er Grímur hafði yfir sèr. Grímur hèlt í móti og gekk því hvergi. Skeljúngur færðist þá í herðar og togaði, sem mest mátti. Grímur spyrndi við þilinu, þar til það leysti undan skálanum. Komust þeir þá fram í anddyrið. Sèr þá Grímnr, að eigi má við sporna og muni þurfa ráðum við að koma. Snarar hann þá undir sig feldinum og leggst þará og lætur Skeljúng draga sig út úr dyrunum. Grímur færði fætur við, hvar hann mátti, en þó dró Skeljúngur hann út úr bænum, og leysti um leið frá dyra umbúnínginn. Stefndi þá Skeljúngur suður frá bænum og gjörði Grímur honum sem torveldasta ferðina, og spyrndi hvervetna við þúfum öllum og mishæðum, og varð það flest upp að gánga. Sókti draugurinn rammlega förina, tók þó að draga af honum. Gekk þetta alla nóttina, uns þeir komu á Grímshól, er fyrr um getur; var þá komið fast að degi. Þá veitti Grímur viðnám eptir megni, og lauk svo, að Grímur gat fært drauginn að steininum og bundið hann við þær gegnumdregnu ólar, er fyrr segir, og fjötrað hann rammlega. Skildi Grímur þar við hann, og gekk heim til Silfrastaða og sókti sèr hrísbyrði mikla og eld; lýsti þá af degi. En er Grímur kom á hólinn aptur, var Skeljúngur horfinn og steinninn með. Grímur þóktist vita, að draugurinn mundi hafa haldið fram með hlíðinni, og heldur undan brekku, en móti, og geingur því í áttina. Sèr hann þá til ferða Skeljúngs, hvar hann dregur stjórann og fer ógreiðlega. Grímur nær honum á höfða þeim, er verður við Norðurá fram með hlíðinni. Grímur hjó þá af Skeljúngi höfuðið og bar síðan á viðinn og brendi Skeljúng til ösku við steininn. Síðan færði hann ösku hans í síki það, er lá undir höfðanum; var það sögn eldri manna um lánga æfi, að í síkinu hefðu myndazt af öskunni fiskar 2 loðnir og bláir að lit og varað þar lánga tíð, uns Norðurá breytti á seinni tíð farveg sínum og fèll undir höfðann í síkið;

hurfu þá fiskarnir. Steinn sá, er Skeljúngur dró, stendur enn við þjóðveg og er mjög í jörðu geinginn; er á honum ofanverðum eitt gat þekkjanlega með járni rent. Hjálmar skáld Jónsson, er ritað hefir sögu þessa, kveðst hafa sèð 2 götin, þá er hann var úngur, og hafi þá annað verið því nær í jörðu geingið, og sèu síðan 40 ár. Einginn veit því, hve mikill steinninn er. Á höfða þessum var laungu síðar bygður bær og kendur við drauginn og hèt á Skeljúngsstöðum. Hans getur í Sturlúngu, því þar áði Eyólfur ofsi með menn sína, er hann fór að Gissuri jarli á Flugumýri. Þar er Skeljúngshellir suður og upp í fjallið, enn þá sjáanlegur.

Nú er að segja af Grími, að hann geingur heim eptir viðureign þeirra, og var hann mjög þrekaður. Fögnuðu honum allir og þökkuðu með mörgum fögrum orðum fyrir landhreinsum þá, er hann gjört hafði; var það almælt, að hans líki mundi ekki uppi í Skagafirði. Segir hann nú föður sínum frá ferð sinni til Grænlands og öllum skilmálum þeirra feðga, og bað hann nú dreingilega við verða, og kvaðst eiga þeim feðgum líf að launa og alt ágæti, og mundi systir sín ekki í betri hendur gefin verða fyrir allra hluta sakir. Bóndi kvað svo vera skyldi, sem þeir hefðu um mælt, „og skal dóttir mín fara með Grími, fóstbróður þínum til Grænlands, því eg veit þau muni síðan hèr á landi staðnæmast og æxla hèr kyn sitt.“ Grímur þakkaði honum allan dreingskap. Var nú bóndadóttir búin úr garði með beztu kostum; fylgdu þeir feðgar henni báðir til skips í Blönduósi. Varð þar fagnaðarfundur. Fèkk Þorgrímur dóttur sinni fè mikið i gulli og silfri og dýrum gripum, en Grími grænlenzka gaf hann nokkra menn til fylgdar. Grími gamla á Grænlandi sendi hann og góðar gjafir. Skildust nú allir að í kærleikum. Kvaddi Þorgrímur bóndi dóttur sína, og hrukku honum föðurleg tár að skilnaði. Rann þá á hagstæður byr, og lèt Grímur í haf með festarkonu sína. Þeir feðgar fóru síðan heimleiðis, norður til Silfrastaða; var Íngibjörg grænlenzka í för með þeim; var hún hin fegursta mær og kvennkostur. Litlu síðar gekk Grímur Þorgrímsson að eiga hana; tókust með þeim ástir góðar. Það fundu menn, að Grímur hafði mjög stirðnað í skapi eptir viðureign þeirra Skeljúngs, og varð hann lítt hæfur við bygðarmenn; var hann því gjörður suður til Borgarfjarðar. Dvaldi hann þar ei leingi og sigldi af landi brott með konu sína Íngibjörgu. Nam hann loks staðar austur í Svíþjóð og jók þar kyn sitt; kom hans afsprúngur ei til Íslands, svo menn viti; varð hann víðfrægur maður af sínum hreystiverkum. Það er fróðra manna sögn, að Grímur grænlenzki, fóstbróðir hans, hafi eptir dauða föður síns flutt sig til Íslands með konu sína Íngibjörgu og búið á norðanverðum Skaga, er liggur milli Skagafjarðar og Húnaflóa. Hans son var Þorgrímur veðurspárr, er bjó að Ketu, hans son var Gunnar, er bjó í Höfnum, hans son var Grímur, er þar bjó síðan. Sá Grímur bjó í Höfnum í þann tíma, er Þorgerður (alii: Þorbjörg) kolka kom af Hornströndum og setti bú að Kolkunesi í trausti Gríms bónda í

Höfnum. Hennar getur sèra Eyólfur á Völlum í fornfræðum, sem stórmerkilegrar konu og bjargvættar, og að við andlát hennar hafi skeð teikn mikið, að landskjálfti ógurlegur hafi í jörðu hlaupið og gjört mikil umbrot á Skaga og víðar. Í þeim landskjálfta hafi bærinn Gullbrekka í Nesjum sokkið í jörð niður með fólki og fè. Er þar nú fen mikið, er áður var bærinn. Var þar saunghús fagurt, og sóktu Nesjamenn þángað tíðir. En síðan var sett bænahús í Höfnum, sem staðið hefir fram á þessar tíðir. Gjörðust margar sagnir á Skaga um þann tíma, sem Grímur bóndi bjó í Höfnum, sem ekki koma við þessa sögu. Og lýkur svo sögu-þætti þessum af Grími Skeljúngsbana.[1]

**Skorravíkur-Jón.** (Eptir Dr. Maurers Isl. Volkss. 66—67. bls.) Maður nokkur, að nafni Jón, bjó í Skorravík á Fellsströnd, hafði getið barn við dóttur sinni. Hann vildi láta mann þann, er Guðmundur hèt, og var Teitsson, gánga að eiga dóttur sína, en Guðmundi var ekki um það gefið einmitt fyrir þessa blóðskömm. Einu sinni um haustið fóru þau öll þrjú á báti út í Stykkishólm. Fyrir utan Hrappsey feingu þau storm svo mikinn, þegar farið var að dimma, að bátnum hvolfdi, en Jón olli því raunar, og var það tilgángur hans, að drekkja með því bæði Guðmundi og dóttur sinni. Dóttir hans drukknaði þar og; en Guðmundur komst á kjöl, og gat haldið sèr þar. Jón var syndur og greip í fótinn á Guðmundi, hvort sem það hefir verið í því skyni, að draga Jón ofan í sjóinn af kjölnum, eða hann hefir ætlað að halda þar dauðahaldi til að frelsa sig. En með því Guðmundur var röskur maður og vildi verja líf sitt, sparkaði hann svo hart til Jóns með fætinum, að hann sökk. En er Guðmundi skotaði í land, sá hann þar Jón apturgeinginn, og rèðst hann þegar á Guðmund. Bogi Benidiktsson, sem þá bjó í Hrappsey og átti þá eign, varð þetta sama kvöld mjög órór, en vissi þó ekki, af hverju, sendi því nokkra menn sína ofan að sjó, til að vita, hvort ekkert hefði að landi borið. Fundu þeir þá Guðmund, og lá hann í ómegi; augun voru öll blóðhlaupin og búkurinn allur marinn. Lángt leið um, áður en hann gat þolað að horfa í dagsbirtuna og hrylti jafnan við, er hann mintist á þenna óttalega atburð. Sagan er tekin eptir kvennmanni, sem Guðmundur hafði sjálfur sagt hana optar en einu sinni.

1. Þessa sögu hefir Hjálmar skáld Jónsson numið á yngri árum af 2 fróðum mönnum. Annar var Magnus Jónsson, bóndi að Vík í Hèðinsfirði, maður margvís og rèttorður og kallaður forn í skapi. Annar var Gamaliel prestur Þorleifsson, er síðast var prestur að Myrká í Hörgárdal; kvað hann sèr sagt hafa Stefán prest Haldórsson að Laufási. Gamalíel prestur var maður allsögufróður og ættvís. Hjálmar skáld segir, að þessum tveimur mönnum hafi mjög borið saman um söguna, en hann segist hafa haft það, sem annar hafði meira, en hinn.

**Jón Skorvíkíngur.** (Eptir handriti frá séra Eiríki Kúld á Helgafelli.) Þessi Jón var kominn af hinni alræmdu Grundar-þjófaætt; hann bjó í Skoravík á Fellsströnd. Hann átti mörg börn og hèt eitt þeirra Steinun. Þegar hún var komin til aldurs, varð hún þúnguð, og eignuðu menn föður hennar þúngann. Um sama leyti var maður sá á Hellu, sem Guðmundur hèt; vildi Jón, að hann tæki að sèr stúlkuna með öllu saman; en Guðmundur neitaði því. Þetta sama haust fór Jón kaupstaðarferð út í Stykkishólm, og voru þá Guðmundur og Steinun með honum. Á leiðinni heim aptur, fór Jón að biðja Guðmund að nýu að taka Steinunni að sèr; en hann neitaði því enn fastlega; reiddist þá Jón, því hann var illur í skapi. Þegar þeir komu inn fyrir Helgafells Seley, gerði sunnanveður mikið; foru þau þá bæði, Guðmundur og Steinun, að biðja Jón að fara varlega; en hann tók því mjög illa, og sagði, að hann skyldi nú launa honum óþægðina. Rètt á eptir hvolfdi bátnum; komst þá Guðmundur á kjölinn, en stúlkan flaut litla stund. Skömmu eptir fann Guðmundur, að gripið var um fótinn á sèr; var Jón kominn þar; hafði hann enn þá mikil hrakyrði við Guðmund, og sagði, að hann skyldi nú koma með sèr, en með því Guðmundur var þrekmaður mikill, gat hann losað sig úr greipum Jóns, en leingi voru handarförin eptir á fætinum með bólgu og bláma. Guðmundur komst af, en var leingi veikur eptir þessa ferð, og auk þess fylgdi Jón honum jafnan síðan. Þenna vetur uxu reymleikar mjög í Skoravík; lá við sjálft, að börnin mundu tryllast, og hver, sem var feinginn til að vera þar, stökk óðar í burt aptur, svo loksins varð að skipta börnunum upp, þegar fram á kom. Steinólfur hèt maður, og var Bjarnason; hann bjó leingi í Skoreyum, og dó þar; hann var mjög fiskinn og lá optast nær einn á bát sínum fyrir flyðru. Einu sinni bar svo við, þegar hann lá, sem optar, að hann sigraði svefn, svo hann sofnaði með færið í hendinni; loksins vaknar hann, og sèr hann þá, að ófrýnilegum gesti er aukið á framþóptuna; spyr þá Steinólfur hann að heiti, en hinn þagði, og leið svo lítil stund; finnst honum þá báturinn fara að síga í sjó að framan, og segir hann þá: „Hvað heitir þú, djöfullinn þinn?“ En hinn þagði sem fyrr. Fór nú báturinn að síga meir og meir í sjó, svo ótti nokkur kom að Steinólfi, og segir hann enn við hinn ókunna: „Dragðu stjórann, djöfullinn þinn;“ en hinn þagði, og bjó sig ekki heldur til að taka stjórann. Loksins stóð Steinólfur upp, fór fram eptir bátnum og segir: „Fyrst þú ekki vilt draga stjórann og ekkert gera, þá far þú út úr bátnum til fjandans.“ Hvarf þá vofan þegar, en Steinólfur fór í land, virtist honum þessi svipur mundi hafa verið Jón Skorvíkíngur.

**„Andskotinn taki ísinn.“** (Eptir handriti frá sèra Eiríki Kúld á Helgafelli.) Seint á 18. og í byrjun 19. aldar, var sá maður í Breiðavíkur hrepp, fyrir sunnan Jökul, sem Bjarni hèt. Var hann ýmist kallaður Latínu-Bjarni,

eða Knarrar-Bjarni, af því, að hann bjó leingi á Knerri. Hann var vel að sèr og skáld gott; hann var og fjölkunnugur mjög, og gerði hann opt mönnum glettur, en einkum kvennfólki. Einhverju sinni var Bjarni á ferð, og kom að bæ einum og beiddist þar gistíngar, og fèkk hann að vera. Um kvöldið var skamtað á þessum bæ svo kallaðar stórgripa ruður, það kalla austanmenn hraun. Stelpa ein, 10 eða 12 vetra var á bænum og hlotnaðist henni sterturinn; mun hún hafa verið hnífllítil, því hún tók freklega til matar síns með munni og höndum. Bjarni var mjög aðhlæginn og hæðinn, og fór hann að hlægja, þegar hann sá þessar aðfarir stelpunnar; bar þá ekki framar á neinu um kvöldið. — Mörgum árum síðar svaf Bjarni í rúmi sínu, sem optar; sókti þá ákaflega að honum, en þegar hann vaknaði, sá hann stelpu standa fyrir framan rúmið, og var hún mjög ófrýnileg; spyr hann, hver hún sè: „Eg er sú sama," segir hún, „sem þú hæddir, þegar eg át kýrstertinn forðum, og skal eg nú launa þèr það." „Með hverju ætli þú getir launað?" segir hann. „Drepa mun eg þig," segir hún." „Ertu dauð?" segir hann. „Víst er eg það," segir hún. „Hvað varð þèr að bana?" segir hann. „Það er nú saga að segja frá því," segir hún, „eg og bróðir minn vorum á ferð saman, áttum við að fara yfir fjörð, sem ís var á, en áður en við fórum á ísinn, komum við að bæ einum og beiddum að gefa okkur að drekka; stal eg þá tóbakshita frá konunni, meðan hún var að sækja okkur að drekka, þótt bróðir minn hannaði mèr það. Fórum við síðan út á ísinn, en þegar minnst varði, brast hann. Var þetta bróður míns síðasta orð: „Guð hjálpi mèr;" en eg beiddi andskotann að taka ísinn. Skildi nú á millum okkar, því hann fór vel, en um mig getur þú nærri, hvað hefir orðið." Bjarni fór á fætur, og kom hann stelpunni fyrir.

**Þorvarður prestur í Felli og Erlendur í Haganesi.** (Sèra Páll Jónsson í Hvammi skrásetti eptir gömlum manni á Skaga.) Erlendur er maður nefndur; hann var Haldórsson, og var hákarlaformaður hjá föður sínum í Haganesi í Fljótum, er þessi saga gjörðist. Einn tíma, sem optar, reru Fljótamenn í hákarlalegu. Bar þá svo til, að öðrum formanni, þeim er Jón hèt, var vant eins háseta, en Erlendur hafði einn mann yfirskipa á sínu skipi. Jón bað því Erlend ljá sèr manninn, og játti Erlendur því, ef maðurinn gæfi það eptir; var þessa þá leitað við manninn og var hann alltregur til, en lèt þó tilleiðast um síðir, þá er Erlendur hèt að hæta honum skaðann, ef Jón feingi minna hlut, en hann. Síðan lögðu menn í haf. En brátt fèll á veður mikið af norðri með hinum mesta stórsjó og kafaldi. Undu menn þá upp segl og tóku að halda til lands, hver sem búinn var. En er Erlendur kemur að landi, er Jón þar kominn fyrir og skip hans farið í lendíugu, en menn allir drukknaðir, og voru líkin að skolast til og frá í brimgarðinum. Þeir Erlendur bera nú líkin undan sjó,

þau er þeir náðu, og þar á meðal mann þann, er Erlendur lèði Jóni; fann Erlendur ekki lífsmark með honum. Erlendur veitti honum síðan umbúnað og sæmilegan gröpt að Barði. En nótt hina næstu, eptir að hann var jarðsettur, fèkk Erlendur ekki sofið, því maðurinn gekk þegar aptur og sókti fast að honum, svo að hann hafði nálega eingan frið, og fór svo tvær nætur, eða þrjár, að reymleikinn óx því meira, sem leingur leið, og kom Erlendi ekki dúr á auga.

Í þennan tíma var sá prestur að Felli, er Þorvarður hèt; hann var Bárðarson, ættaður vestan frá Hellnum, og haldinn margkunnandi.[1] Rèðu menn Erlendi, að hann skyldi leita á fund Þorvarðar prests og vita, ef hann feingi ráðið nokkra bót á meini þessu. Erlendur gjörir nú svo, og ríður inn til Fells, og kemur þar sunnudagsmorgun fyrir embætti; er prestur þá í kirkju, og hefir krosstrè fyrir kirkjudyrum, svo sem vandi hans var til. Erlendur kveður prest, en hann tekur vel kveðju hans, og spyr, hvað valdi ógleði hans og dapurleik, eða hvort hann hafi andvökur haft. Erlendur segir honum til vandræða sinna og biður hann að gjöra nokkuð. Prestur kvað ei mundi gott að dvelja ferð hans og lèt honum mundi mál að sofna. Því næst geingur hann innar að altari, og tekur þar út skíðissprota einn milli þils og altaris og selur í hönd Erlendi, og biður hann ríða sem hvatast út aptur til Barðs og hafa sprota þenna í hendi, en varast að slá honum í nokkurn hlut: segir prestur hann muni fast sækja svefn á leiðinni; en ef hann sofni, muni honum eigi auðið verða að vakna aptur til þessa lífs. En komist hann alla leið að Barði, þá skuli hann stínga sprotanum niður í leiði þess, er hann ásókti og leggjast síðan til svefns, og vænti sig, að þá mundi hann sofna mega í næði. En meiri von lèt hann þess, að maðurinn mundi eigi með öllu örendur verið hafa, þá er Erlendur bar hann undan sjó í fyrstu, þótt eigi yrði vart við líf hans, og mundi það verið hafa vanhyggja nokkur. Erlendur þakkaði presti tillögur sínar og reið síðan út til Barðs og fór svo með öllu, sem prestur hafði ráð til kent, og tókst þegar af aðsóknin. En svo sagði Erlendur síðan, að það hefði hann næst sèr tekið að verjast svefni á leiðinni út til Barðs, og hefði hann þó riðið slíkt sem aftók. Erlendur þessi bjó síðan leingi í Málmey, næst fyrir Símon bónda, föður Gísla kaupmanns. En þessa sögu sagði rèttorður maður, er samtíða var Erlendi og vissi glögt til um atburð þennan.

**Reymleiki í Vatnshorni.** (Eptir „Tydfordryf" Jóns Guðmundssonar lærða.) Eptir Flóabardaga voru þau lík, sem fundust, flutt til Vatnshorns í Hrútafjörð. Eptir það þóktu þessir hafa verið of fjölfarir, og um síðir kom svo

1. Í prestatali er þess getið, að Þorvarður Bárðarson hafi orðið prestur að Bergsstöðum í Svartárdal í Húnavatnssýslu 1715; Kvíabekk í Eyafjarðarsýslu fèkk hann 1726, en Fell 1754, og þar dó hann 1767.

mikil drepsótt og mannfall á Vatnshorni, að lík þeirra, sem þar höfðu verið heimamenn, urðu ekki í burtu flutt fyrir ótta sakir; því hverjum þókti sèr dauðinu vís, sem þar kom, svo bærinn eyddist. Og er þessu hafði fram farið um stund, kom einn lausamaður þar frá, sem á Melum heitir, þar í firðinum, og spyr þetta. Hann segir: „Eg skal fara til Vatnshorns og vita, hvort mèr dugir.“ „Gjör þú ei svo,“ segir fólkið. Hann svaraði: „Fyrir víst skal eg fara: því eg treysti guði mínum efunarlaust.“ Heimamenn löttu hann; en hann fór eigi að síður Hann hafði bolexi með skó undir belti sínu. Hann fer nú, þar til hann kemur mjög heim að bænum; þá sýndist honum sem nokkur ókyrleiki heim að sjá til bæarins, og svo sem hlið eitt milli húsanna. Þá signir hann sig og tekur öxina og af skóinn, gjörir kross fyrir eggina, og gekk djarflega heim að bænum með hörðum orðum móti fjöndunum, að þeir skyldu ei skelfa hann nè svíkja. Og sem hann var nær kominn þessu óhreinindi, kastaði hann öxinni og þókti, sem á nokkuð kæmi, og liði undan. Hann gekk eptir, leitaði axarinnar; faunst hún ekki og aldrei síðan. Þenna mann skaðaði ekki; tókust af undurinu; voru lík til kirkju færð, og bygður bær síðan.[1]

**Presturinn á Borgarhrauni.** (Eptir handriti frá sèra Eiríki Kúld á Helgafelli.) Mörgum árum eptir að Láugi-Vatnsdalur lagðist í eyði, og allir bæir voru niður fallnir, hèkk kirkjan á Borgarhrauni nokkurn veginn uppi. Maður einn ferðaðist yfir dalinn; kom þá á hann illviðri mikið, svo hann tók það ráð, að leita hælis í kirkjugarminum. En þegar kom fram yfir dagsetur, þókti honum fara að fjölga um gesti, og komu æ fleiri og fleiri. Líka sýndist honum fyllast með þoku og dimmu. Ekki þókti honum þessir gestir mjög skemtilegir. Meðal þeirra var einn, sem hann ætlaði að mundi vera prestur hinna, þó framdi hann ekkert það, sem líktist kristilegri guðsþjónustugjörð, miklu heldur það, sem honum þókti óhæfa og leiðinlegt. Alla þessa nótt var maðurinn í prèdikunarstólnum. En þegar dagaði, fór að fækka um í kirkjunni, og síðast gekk sá út, sem hann hugði að mundi vera prestur, og sagði um leið og hann gekk út: „Draugur er eg sokkinn í jörð, og svo erum vèr allir.“ Ekkert varð ferðamanninum að meini, en þegar birti, fór hann á stað, og komst heill til mannabygða, og sagði þegar þessa sögu.

**Snæfjalla-draugurinn.** (Heimildin er í neðanmálsgreinni á eptir.) Jón hèt prestur, og var Þorleifsson. Hann bjó á Stað á Snæfjöllum, og var þar prestur orðinn árið 1588, og víst til 1615. Þókti hann margfróður, sem margir aðrir, er vel þóktu að sèr á þeim dögum. Jón prestur var og harðgjör kallaður. Hann var tvígiptur; hèt Sesselja fyrri kona hans.

1. „Tydfordryf“ Jóns hefir sem fyrirsögn fyrir þessari sögu: „Úr gamallre annáls bók“ með rauðu letri og fyrstu línuna af sögunni með bláu letri.

þrjú eru talin börn þeirra Jóns prests og Sesselju, og hèt Jón einn, sem heima var með föður sínum, og svo stjúpu, er faðir hans gat ekki börn við. Bar þá svo til, að Jón prestsson lagðist áhugi við griðkonu eina, sem var hjá presti Vinnumaður einn var líka í týgi við hana, samdi Jóni og vinnumanni illa, eins og opt er, þegar svo við ber. þetta var smali prestsins; fór hann þá, sem optar að fè einn dag snemma veturs, en gat ekki náð fjárhóp úr fjallshlíðinni fyrir hálku og harðfenni, kom hann heim og sagði frá vandræðum þeim, er hann var í. þókti presti honum farast löðurmannlega, að skilja svo við, og skipaði Jóni syni sínum að fara, en hann tók því dræmt, því hann sagði það mundi vera ófært, en prestur vildi ekki heyra það, og varð Jón að fara á stað, þótt hann færi nauðugur; en aldrei kom hann aptur, heldur hrapaði til bana í þessari ferð; en ekki er þess getið, hvort lík hans fannst eða ekki, en þegar þókti hann ekki liggja kyr, og sókti hann mest að vinnukonunni og smalanum; er þess getið í árbókum, að mikill draugagángur væri vestra. Brátt varð draugur þessi mesta meinvættur; hèlt hann sig laungum á hlíðinni á Snæfjöllum, og gerði ferðamönnum illar glettíngar með grjótkasti og ýmsum árásum. Sagt var og, að hann geingi ljósum logum heima á Snæfjöllum, bryti glugga og dræpi fènað föður síns og að hann sæti opt um daga í baðstofu, þegar konur væru við ullarvinnu, og jafnan yrði að skamta honum á kvöldum mat, sem öðru heimafólki. Einu sinni heyrði vinnumaður prests, að fiskur var ráfinn úr roðinu niður í hjöllum, og þegar hann heyrði, að fiskinum var kastað, og hann hugði betur að, og sá, hver var, mælti hann: „Viltu ekki hníf, lagsmaður?“ Draugurinn svaraði: „Dauðir þurfa ekki hníf; þeir standa á og rífa.“ það var einnig sagt, að hann opt sleikti aska innan á Snæfjöllum, en eingum gerði hann mein þeim, sem gáfu honum af mat sínum, en grýtti að hinum. það var einn vetur, að tóbak skorti vestra; þá tók Jón prestur það ráð, því sagt var, að hann gæti sent drauginn hvert, sem hann vildi, að hann skipaði honum, að fara norður til Eyafjarðar, því hann vissi, að tóbak var til á Akureyri, en fá varð hann honum nesti nóg. Er þá sagt, þegar hann kom að norðan, að maður einn sá, hvar hann sat, og var að èta, en tóbak æði mikið lá umhverfis hann; maðurinn mælti: „Gefðu mèr, maður góður, hver sem þú ert, að hragða tóbak.“ Draugurinn rak upp glyrnunar heldur ófrýnilega, sveiflaði saman öllu tóbakinu, og hvarf þegar, en 2 álnir af munntóbaki lágu eptir, þar sem draugurinn hafði setið. Nú tók Jón prestur það ráð, að hann ritaði seðil, og bauð draugnum að flytja hann austur að Skorrastað í Norðfirði; bjó þar prestur sá, er Einar hèt, Sigurðsson, og segja sumir, að þeir Jón prestur hefðu verið skólabræður, og treysti hann honum einum, að fyrirkoma ófögnuði þessum. Draugur kom austur og að rúmi prests, þegar hann var háttaður. Prestur sá hann og spyr, hvort hann væri kominn að finna sig; játaði hann því. Ekki leizt presti gestur þessi sællegur. þegar vildi hann

ofan á prest, en hann greip rúmfjölina og sló á handlegg honum svo sundur gekk, kastaði hann í því seðlinum til prests; fór nú prestur þegar á fætur, og bauð draugnum að fara vestur; en alt kvaðst hann heldur vilja vinna. Prestur lèzt mundi ráð til finna svo dygði, og bauð honum, að koma að Stað, að lokinni messu, og gæta þess, að mæta Jóni presti í sáluhliði, og afhenda honum seðil, sem hann þegar fèkk honum. Varð draugur þá nauðugur að fara, og eins og fyrir hann var lagt; mætti hann presti í hliðinu, og afhenti seðilinn, en það var drauga-stefna, og stefndi Jón prestur þegar Snæfjalladraugnum um apturgaunguna frá öllum lifandi mönnum og skepnum norður og niður í 9. heim, og fylgdi þeirri stefnu svo mikill máttur, að draugurinn varð þegar að hverfa niður; er talið, að hann yrði ekki að meini síðan. Nú er sagt, að kerlíng ein vestra, sem sumir nefna Gunnu í Arnarfirði, öfundaði kunnáttu Einars prests, og vildi reyna sig við hann. En Galdra-Leifi rèði kerlingu frá, að glettast við Einar prest, þó ekki hefði hún það að heilræði; en það er sagt, að eitt kvöld á Skorrastað væri barið að dyrum, skipaði prestur dóttur sinni til dyra; fór hún, en sá eingan; var enn barið, og fór svo þrisvar, að hún fór til dyra, en sá eingan; fjórða sinn fór hún út. og sá mann á húsabaki, sá kvaðst vilja finna prest; bað hún hann þá inngánga; en sagt er, að prestur varaði hana við, að gánga ekki inn á undan honum, og færi hún því milli hurðar og veggjar; ljós var í baðstofunni, en prestur sat við borð og skrifaði; er þá sagt, að prestur spyrði hann erinda. „Kyrkja prestinn á Skorrastað“ umlaði í honum, því þegar tók hann að dofna, þegar hann sá prest; er þá sagt, að prestur hefði ekki annað fyrir, en hann legði hann upp í lopt í rúm, og særði frá honum andann, og væri það undir dag, að kerlíng dæi jafnsnemma vestra, því prestur beindi henni það aptur, er hún sendi honum.[1]

**Sagan af Gleðru.** (Eptir frásögnum Eyfirðínga á 19. öld.) Um 1840 bjó sá maður að Hvammi í Eyafirði, er Ólafur hèt; hjá honum var vinnukona ein, er Soffía hèt. Einn jóladag fór bóndi til kirkju og fèkk Soffía leifi hjá konunni, að fara kynnisferð úti Kræklíngahlíð, því hún hafði áður verið vinnukona í Lögmannshlíð. Hún fór á stað seint á jóladaginn, og var fylgt út fyrir Glerá, en þá fór að dimma, bæði af kafaldi og kvöldi, og gerði vesta norðan-byl um nóttina, sem menn muna eptir. Á annan dag í jólum var hríðinni stytt upp; fanst hún þá örend á þúfu fyrir neðan Lögmannshlíð.

1. Líkast er til, að þetta eigi að vera Einar prestur Galdra-meistari á Skinnastað, en hann var Nikulásson, og er þá ruglað saman bæði föðurnafni hans, og svo staðarnafninu, nema ef hann hefði verið aðstoðarprestur áður á Skorrastað. Svo segir Gísli Konráðsson frá. En sèra Sveinn Níelsson á Staðastað segir, að presturinn á Skorrastað hafi verið Árni Sigurðsson hinn fyrri, og hafi hann fyrirkomið Snæfjalla-draugnum, og her fyrir því Daða heitinn Níelsson bróður sinn. Frásögn þessi er mestmegnis tekin eptir handriti Gísla, en þó einnig eptir frásögnum sèra Sveins og sèra Benedikts á Brjánslæk.

Hún var síðan flutt heim, en Ólafur, maður sá, er átti áð smíða um hana, gat ekki haldizt við í húsinu á kvöldin fyrir reymleika. Eptir þetta fór stúlku á Aungulstöðum að dreyma kvenmann, er henni þókti koma á glugg-ann upp yfir sèr; stúlkan þóktist spyrja hana að heiti, og því hún lèti sig ei í friði. Hún kvaðst heita S. Gleðra, og ætla, að gera henni óróa og svefnleiði ásamt fleirum, Þorláki og Gónýu (Guðnýu). Nú var haft rúma skipti við stúlkuna, en það fór alt á sömu leið, og kom Gleðra til hennar því optar, og það á hverri nóttu, þegar hún sofnaði. Margt talaði hún við Elísabet, og er þetta hið helzta. Einu sinni sagðist Helga hafa haft fæt-urna sinn í hverjum glugga á baðstofunni, og horft inn um hvern á víxl. Eitt kvöld kvað hún fólkið hafa haft mikinn hlátur inni, og mest hefði það geingið yfir sig, hvað hláturs efnið hefði verið lítið, og kom það heim við sögn hennar. Hún kvaðst eiga heima í Þverárgilinu, og hefði hún þar 2 fèlaga, sem hètu Gíon (Guðjón) og Keián (Kristján), en það vissu menn, að 2 piltar höfðu dáið af slisum, annar orðið úti í Kaupángssveit, en hinn farið í Þverá. Elísabet þóktist spyrja hana að, því hún væri svona á gángi; Gleðra kvað þær orsakir til þess, að hún feingi ei að hvíla kyr, að hún hefði aldrei lesið faðirvor, farið æfinlega til kirkju fyrir siða-sakir og sofið undir prèdikuninni bæði í kirkju og í heimahúsum, og þókti mönnum það satt vera. Eina nótt var lagt nýa Testamentið eða einhver guðsorðabók ófan á stúlkuna; þá dreymdi hana Gleðru, hún þóktist hafa rekið sig á eitthvað ílt, og meitt sig. Eptir þetta var stúlkunni komið að Kristsnesi, og hætti hana þá, að dreyma Gleðru fyrir fult og alt. En nú fór stúlku, er Margrèt hèt í Helgárseli, að dreyma Gleðru, eins og Elísabetu áður. Margrèt þóktist spyrja hana að, því hún lèti hana ei vera; Gleðra kvað hana vera svo hjartadeiga. Stúlkan spurði hana margs, og leysti hún úr því. Einu sinni þóktist Margrèt heyra hríngl í vasa hennar, og spyr, hvað það sè; Gleðra kvað það vera krákuskèl og nafar. Einu sinni spurði Margrèt hana að, hvernig á Grítudraugnum hefði staðið; Gleðra kvað hann af manna völdum verið hafa.

Einu sinni sagði hún stúlkunni, að hún hefði í þremur sporum frá Lögmanns-hlíð og að Helgárseli. Einu sinni spurði Margrèt Gleðru að, hversvegna húfa hennar væri svo ljót og óhrein; Gleðra kvað hana samboðna þeim fèlagsskap, er hún væri í. Einu sinni sagði Gleðra stúlkunni frá svipu, er týnzt hafði, og fanst hún á þeim sama stað. Svo fór með tímanum, að stúlkan varð ekki mönn-um sinnandi, og vissu menn ekki, hvaða brögðum menn skyldu beita við hana. Loksins tóku menn uppá því, að láta Margrètu spyrja Gleðru að því í svefni, hver ráð ætli við að hafa. Það þóktist Margrèt gera Gleðra kvað sèr ekkert um það gefið; en sagði þó, að ef reknir væru fjórir stálnaglar ofan í leiði sitt, mundi það duga, eins og Nonni í Hlíð hefði ráðlagt. Nú var farið til járnsmiðs eins í Kaupángssveit, smíðaði hann 4 stálnagla, fèkk Margrètu, og fór hún eina nótt út að Lögmannshlíð. Rákn þar smiðurinn

og Jón, naglana ofan í leiðið, og var Margrèt viðstödd ámeðan, og upp frá þessu dreymdi Margrètu aldrei Gleðru, og varð lítið vart við hana síðan; áður höfðu ýmsir orðið varir við hana í Kræklíngahlíð, og opt var það í Hvammi um veturinn, að sá, sem leysti heyið handa kúnum í hlöðunni, að hann heyrði geingið um hlöðuna, og eins og skrjáfaði í freðnum fötunum.

**Stýflishóladraugar.** (Eptir Dr. Grími Thomsen.) þeir vóru margir saman í einu fèlagi, skiptu sèr niðr á bæi á Álptanesi, og gengu ljósum loganum svo enginn hafði frið. þeir vóru kallaðir Hverfisdraugar. þetta var seint á 18. öld og þá var sèra Guðlaugr prestur í Görðum, og hann kunni margt fyrir sèr. Nú þegar bændur vóru orðnir ráðalausir með þessa aðsókn, þá fóru þeir til sèra Guðlaugs, og beiddu hann að hjálpa. „Mikið er að vita," segir prestur, „að þið skulið ekki hafa komið fyr; það er nú orðið of seint, þeir eru nú orðnir of magnaðir, eg get ekki sett þá niður." þó fór hann af stað og fekst lengi við draugana, og gat komið þeim að Stýflishólum,[1] en lengra kom hann þeim ekki, því hvar sem hann leitaði á þar var eitthvað fyrir. Hann markaði því reit umhverfis hólana, sem þeir aldrei kómust út yfir og skildi svo við. Síðan eru þeir kallaðir Stýflishóladraugar, og hefir lengi verið þar reimt, og einhver vandræði fyrir flesta sem fara þar fram hjá, en nú eru þeir farnir að dofna; því þeir eru orðnir svo gamlir.

**g)** Margar sögur eru af þeim, sem ekki hafa getað skilizt við auðlegð sína ofanjarðar, og vitja hennar því eptir dauðann. Allar slíkar apturgaungur heita **fèpúkar** eða **maurapúkar**, þó nú sèu einkum nízkir menn nefndir svo, er ekki tíma af neinu að sjá, en murla fè saman með öllu móti. þess konar apturgaungur eru á ferð á hverri nóttu; telja þeir þá peninga sína og leika sèr að þeim á ýmsan veg, því áður en þeir dóu, hafa þeir komið fè sínu fyrir, þar sem þeir geti vitjað þess aptur í næði eptir dauðann, og sannast því á þeim, að „þar er allur, sem unir." En það liggur þeim lífið á, að vera búnir að gánga frá skildíngum sínum, og vera komnir í gröf sína, áður dagur ljómar; því þeir mega ekki sjá dagsljós, heldur en álfar, er þeir hafa gleði eða dansa á hátíðanóttum, eða nátttröll á næturgaungu, og vilja þeir því alt til vinna, og jafnvel láta af hendi peningana sjálfa, að komast í holu sína, áður en dagar.[2]

**Apturgángan.** (Vestan af Skarðsströnd.) Svo bar við á ríkisbæ einum, að bóndi dó; en um sama leyti og hann andaðist hurfu allir peníngar hans, og fjármunir hinir beztu; var það bæði borðbúnaður úr silfri og

1. þeir eru í grend við leiðina frá Görðum að Hafnarfirði.

2. þess hefi eg aldrei heyrt getið, að fèpúkar eigi að verða að steini, þó dagur skíni á þá; því þeir láta heldur alt liggja óhirt, en að svo fari.

margt annað dýrmætt. Einginn mátti heldur sofa í rúmi hans; því þeir, sem höfðu þar sofið í eptir dauða hans, fundust dauðir um morguninn. Einn sinni kom þángað maður, og beiddi um að lofa sèr að vera. Konan kvaðst ekki geta það, og sagði honum, hvernig á stóð með rúmið, en kvaðst ekki hafa annað, er hún gæti boðið honum að sofa í. Maðurinn sagðist ei mundi verða hræddur við þetta, beiddi um, að mega sofa í rúminu, og fèkk hann það að síðustu. Um kveldið fer maður þessi út í kirkjugarð, og grefur þar upp mold, og veltir sèr í henni, svo að hann er almoldugur; fer síðan inn og leggst niður í rúmið. Um miðja nótt er lokið upp hurðinni og gægzt inn; er þá sagt: „Hèr er hreint og gott.“ Þóktist maðurinn vita, að þetta mundi vera bóndi apturgeinginn. Fer draugur nú inn í herbergið og rífur upp tvær fjalir úr gólfinu, og tekur þar upp talsvert af peníngum, og grýtir þeim öllum aptur fyrir sig; geingur þetta svona lángt fram á nótt. Þegar fer að líða á nóttina, og komið er undir dag, stekkur maðurinn upp úr rúminu og niður í kirkjugarð; hann sèr þar opna gröf og stekkur hann þar ofaní. Eptir litla stund kemur draugur, og biður manninn að fara upp úr gröfinni. En hann kvaðst ekki mundi gjöra það, nema hann sýndi sèr, hvar hann geymdi dýrgripi þá, er horfið hefðu við dauða hans. Sagðist bóndi það eigi gjöra, en lèt þó tilleiðast um síðir þar eð hann fèkk ekki með öðrum kostum að komast í gröfina. Geingur hann síðan með manninum út að túngarði, og rífur þar upp torfu; verður þar fyrir honum hlemmur; hann tekur hann upp, og geingur ofan í jarðhús, sem þar var undir. Sýndi draugur manninum þar alla dýrgripina, og vildi nú fá að komast í gröfina. En maðurinn neitar því fastlega, nema hann lofi sèr því, að fara aldrei framar upp úr gröf sinni. Lofar bóndi því þá, og fara svo báðir að gröfinni. Draugur leggst niður, en maðurinn býr um, sem honum þykir haganlegast. Fer hann síðan heim, og leggst niður í rúm sitt; en um morguninn, er til hans var komið, furðar alla á, að hann skyldi vera lifandi. Segir hann þá til fjárins, og hvernig hann hafi fundið það, og fær hann helmíng þess.

**Sigurður og draugurinn.** (Eptir handriti Þorvarðar Olafssonar.) Einu sinni var bóndi á bæ; hann átti einn son, sem Sigurður hèt. Hann var af öllum álitinn undarlegur og óþokki mesti og svo óþekkur, að einginn gat um hann tætt. Eitt sinn kom maður á bæ þennan, sem Sigurður er nefndur. Hann biður bónda veturvistar og fær það. Ekkert getur aðkomumaður starfað, nema leikið á hörpu. En kunníngsskapur verður mikill með þeim nöfnum, svo að bóndason unir hvergi annars staðar, en hjá komumanni þessum. Líður nú veturinn og um vorið fer vetrarsetumaðurinn í burtu. Eptir burtför hans af heimilinu, leiðist bóndasyni svo, að hann unir sèr hvergi, og um haustið leggur hann af stað að leita að Sigurði vetrarsetumanni. Hann kemur á hvern bæ, fer sveit úr sveit, og sýslu úr sýslu og

spyr alstaðar að Sigurði nafna. Loksins kemur hann að prestssetri nokkru; þar spyr hann að Sigurði nafna. Veit einginn um hann, en honum er þó sagt, að þar hafi nýlega komið maður, sem Sigurður hafi heitið, en hann sè nýdáinn. Hann spyr, hvar hann sè. Honum er sagt, hann sè hèrna úti í kirkjunni nýlega kistulagður. Hann biður að lofa sèr þángað. Hann fær það og situr nú yfir kistunni fram á nótt. Um nóttina fer Sigurður úr kistunni og út, og er nú leingi í burtu. En Sigurður bóndason er hjá kistunni á meðan. Svo var ástatt í bænum, að kona prestsins var nýbúin að ala barn. Undir morgun kemur Sigurður draugur og vill fara í kistuna. Bóndason segir, hann fái það ekki, nema hann segi sèr, hvað hann hafi verið að gjöra. „Eg var að leika mèr að peníngum mínum," segir draugur. „Nú vil eg fá að fara í kistuna," segir draugur. „Ekki fyrr en þú segir mèr, hvar peníngarnir eru," segir Sigurður. „Það færðu ekki að vita," segir draugur. „Þá færðu ekki að fara í kistuna," segir Sigurður. Þá segir draugur, að þeir sèu undir baðstofuhorninu. „Hvað eru þeir miklir," segir Sigurður? „Það er eitt kvartèl," segir draugur. „Gjörðirðu nú ekkert meira," segir Sigurður? „Nei," segir draugur. „Þú gjörðir víst meira," segir Sigurður, „og ekki færðu að fara í kistuna, nema þú segir mèr það." „Eg drap prestskonuna," segir draugur. „Því gjörðirðu það," segir Sigurður? „Eg vildi komast yfir hana á meðan hún lifði", segir draugur, „en hún meinaði mèr það." „Hvernig fórstu að því," segir Sigurður? „Eg strauk alt lífið úr henni í litla fíngurinn," segir draugur. „Verður hún ekki lífguð aptur," segir Sigurður? „Jú," segir draugur, „ef bandið, sem eg batt um litla fíngurinn, verður losað svo hægt, að ekki dreyri blóð." „Nú vil eg fá að koma í kistuna," segir draugur. „Ekki nema þú lofir mèr því að fara aldrei úr kistunni aptur," segir Sigurður. „Eg vil fá að fara í kistuna," segir draugur. „Lofaðu mèr þá hinu," segir Sigurður. Það verður úr, að draugur lofar að fara aldrei framar úr kistunni. Fer hann þá í kistuna og lýkst hún aptur. Um morguninn kemur Sigurður inn í bæ; er þá fólkið mjög ángurvært. Sigurður spyr, hvað gángi að fólkinu. Honum er sagt, að kona prestsins sè nýdáin. Hann biður að lofa sèr að sjá hana og er honum vísað til hennar. Hann losar bandið á litla fíngri prestskonunnar og strýkur konuna alla, svo hún fer að smálifna við. Síðan segir hann prestinum frá viðskiptum hans og draugsins og sýnir honum peníngana til sannindamerkis. Er hann nú í miklum metum hjá presti og verður nú hans maður. Er svo sagt, að prestur hafi gjört úr honum hinn nýtasta mann og að Sigurður þessi hafi hagað sèr vel upp frá þessu. Lýkur svo sögunni.

**Penínga-hálftunnan.** (Eptir handriti Þorvarðar Ólafssonar á Staðarfelli.) Það voru einu sinni 2 bræður; annar var ríkur, en annar fátækur. Sá fátæki var giptur og átti mörg börn, en sá ríki var ógiptur og bjó á kirkjustað.

Einu sinni leggst sá ríki veikur, og deyr. Nú átti sá fátæki að erfa þennan bróður sinn, flytur sig á kirkjustaðinn og sezt að búslóð hans. Þó þókti honum lítið koma fyrir af peníngum, því þeir fundust eingir. Nú tekur bóndi það fyrir, að hann lofar eingum manni að vera, sem á ferð er. Eitt kvöld kemur til hans aumíngja kerlíng illa búin og biðst húsa. Bóndi neitar því, nema hún segi sèr, hvað bróðir sinn hafi gjört af peníngum sínum, áður en hann dó. Hún kveðst ekki búast við að geta það, en segist þó vilja reyna. Nú er kerlíng látin fara í bæinn og upp á lopt og sett þar á rúm. Henni eru bornar góðgjörðir, en hún þiggur ekki; segir hún, að ei muni sèr af veita að fara út í kirkju, ef hún eigi að lita eptir peníngunum, sem bóndi hafi talað um; skipar bónda að útvega sèr skósíða lèreptsskyrtu og fer hún í hana. Í kirkjugarðinum hafði verið grafinn maður um daginn og um leið hafði komið mannsístra mikil úr garðinum. Kerlíng fer út í kirkjugarð og nuddar skyrtuna með mannsístrunni og uppúr vígðri mold. Síðan fer hún út í kirkju og biður bónda að hjálpa sèr upp á bita, segir honum svo að fara inn í bæ, læsa kirkjunni og koma á morgun í dögun. Nú fer bóndi burt, en kerlíng situr eptir. Þegar hún hefir setið litla stund, sèr hún, hvar fjöl sprettur upp úr kirkjugólfinu, þar sem bróðir bónda var grafinn, því það var siður á þeim tíma að grafa mikla menn og ríka innan kirkju Þar sem fjölin spratt upp, kemur stór maður, og þekkir kerlíng, að þetta var bróðir bónda. Hann litast um í kirkjunni og sèr, hvar kerlíng situr á bita. Hann geingur til hennar og spyr með dimmri röddu, hvort hún sè dauð. Hún svarar eingu. Þá geingur hann að gröfinni aptur og tekur líkkistuna sína upp úr gröfinni og setur á grafarbakkann, geingur til kerlíngar og spyr aptur, hvort hún sè dauð. Hún gegnir með daufri og dimmri röddu og segir: „Eg er dauð.“ Svo fer hann að gröfinni aptur, ofan í hana, setur á grafarbarminn hálftunnu, geingur síðan að kerlíngu og spyr enn þá, hvort hún sè dauð. „Já, eg er dauð,“ segir kerlíng. Síðan geingur sá dauði að gröfinni, tekur hálftunnuna og hvolfir úr henni peníngum á gólfið. Hann fer og leikur sèr að peníngunum, eys þeim yfir sig, upp fyrir höfuðið og aptur fyrir sig. Kerlíng horfir á þetta, situr kyr og lætur ekki til sín heyra. Þegar líður undir daginn, sópar hinn dauði peníngunum saman og upp í hálftunnuna og setur síðan ofan í gröfina; tekur kistuna sína, setur hana ofan í líka og legst í kistuna. Að því búnu fer fjölin í samt lag aptur. Nú dagar og bóndi kemur út og spyr, hvort kerlíng sè lifandi. „Já að nafninu,“ segir hún, „og hjálpaðu mèr ofan af bita þessum.“ Hann gjörir það. „Nú þarftu,“ segir bóndi, „að koma til bæar og fá þèr hressíngu.“ „Það hentar ekki,“ segir kerlíng, „ef að hugsa á um að ná peníngunum hans bróður þíns, og komdu þegar með menn og láttu þá rífa upp gröfina.“ Bóndi fer til bæar, en kerlíng er kyr í kirkjunni og kemur hann bráðum með menn, sem rífa upp gröfina. En þegar þeir ætla að ná upp kistunni, þá er hún svo óþæg

og púng, að þeir ná eingu. Kerlíng kveðst vilja reyna að hjálpa þeim og kemst þá kistan bráðum npp. „Nu skuluð þið ofan í gröfina," segir kerlíng, „og leita fyrir ykkur, bvort þið finnið ekkert meira." þeir leita og finna hálftunnu, reyna að koma benni upp, og þá fer binn dauði að brölta í kistunni. Mennirnir ætla að verða hræddir, en kerlíng segir, að ekki skuli þeir kæra sig um þetta og sezt klofvega yfir kistnna. þá taka þeir bálftunnuna, fara með hana til bæar, en kerlíng situr eptir og segir mönnunum að koma bráðum aptur, og grafa hinn dauða, en seinast kveðst bún sjálf ætla að gánga frá gröfinni. Nú er grafið aptur og menn gánga á burt. þegar kerlíng er að gánga frá gröfinni, kemur bóndi til hennar, og segir hún, að binn dauði muni nú eingnm mein gjöra. Síðan tekur bóndi kerlíngu til sín og er bún hjá bonum til dauðadags. En við hinn dauða varð aldrei vart síðan, og kann eg ekki þessa sögu leingri.

**Bæargils-draugurinn á Húsafelli.** (Eptir sögu þorsteins bónda Jakobssonar þar.) Í fjallinu fyrir sunnan bæinn á Húsafelli er gil eitt stórt. Úr því rennur lækur austanvert við túnið, og ofan í Hvítá í Borgarfirði. Gilið er kallað Bæargil; í því er foss hár mjög, því nær miðhlíðis. Undir fossi þessum eða rètt hjá honum er sagt að maður einn hafi grafið fè sitt í lifanda lífi. Eptir það dó hann, og er ekki getið, með hverjum atburðum það hafi orðið. Urðu menn þess þá brátt áskynja, að hann mundi bafa geingið aptur, til þess að vitja fjár síns þar hjá fossinum. Opt hafa menn sèð draug þenna síðan; er hann lítill vexti, á mórauðri úlpu eða sauðsvartri. Hann leitar beim að bænum á Húsafelli undan landsynníngum, en gjörir ekkert ílt af sèr bvorki þar nè annarstaðar, svo frá sè greint.

**Draugurinn og peníngakistillinn.** (Eptir Jón Bjarnason í Breiðuvík í Múlasýslu.) Fyrrum bjó staðarhaldari fyrir norðan. Hann var kvongaður. Bóndi var auðmaður mikill og stundaði mjög, að safna peníngum, svo að menn vissu fyrir víst, að hann mundi eiga ógrynni peninga. Hann var aðsjáll, en konan var góðmenni og góðgjörðasöm, en hún átti einkis ráð bjá bónda sínum. Einn vetur veiktist bóndi, og dó litlu síðar. Var þá búið um lík bans og jarðað. Bú bónda var skrifað upp, en eingir peníngar komu fram eptir hann. Konan var þá spurð, hvort hún vissi nokkuð nm peninga bónda, en hún sagðist ekki vita þar af einum skildíngi; en af því menn þektu bana að góðu, var hún ekki reingð framar um það. Voru getur manna, að hann mundi hafa fólgið peníngana í jörðu, sem raun gaf síðar vitni. þegar á leið veturinn, þóktust menn verða varir við reymleika þar á bænum, og þóktust menn nú vita, að bóndi mundi apturgeinginn til peninga sinna. það fór svo heldur í vöxt, svo fólk ætlaði flest burtu frá ekkjunni um vorið, og hún farin að gjöra ráð fyrir að bregða búi. Leið svo fram til fardaga. þá kom kaupamaður til ekkjunnar og bauð henni vinnu sína, og þá hún það. En er hann hafði þar litla stund verið, verður

hann var við, að þar er reymt mjög. Eitt sinn spyr kaupamaður ekkjuna að, hvort bóndi hennar hefði ei átt mikla peninga. En hún sagði það ei vita. Leið svo fram að kauptíð. Fór þá kaupamaður í kaupstað, og keypti hann meðal annars mikið af plötujárni og hvítu lèrepti. En þegar hann kom heim, lèt hann sauma sèr hjúp úr lèreptinu, en sjálfur settist hann við smíðar, því hann var járnsmiður góður, og smíðar sèr járnglófa. Líður svo þángað til nótt var dimm orðin. Þá var það eitt kvöld, þegar allir voru sofnaðir, að kaupamaður lætur á hendur sèr járnglófana og járnplötu á brjóstið og víðar, og því næst fer hann í hjúpinn og geingur út í kirkjugarð og allnærri leiði bónda, og geingur þar um gólf, og leikur sèr að einu ríksorti í lófa sèr. Líður ei lángt, þar til draugur kemur upp úr leiði bónda, og gætir hann fljótt að vinnumanni, og spyr: „Ert þú einn af oss?“ segir hann. „Já,“ segir vinnumaður. „Láttu mig finna,“ segir draugsi. Rèttir þá vinnumaður að honum höndina, og finnur draugurinn, að hún er köld. Þá mælti hann; „Það er satt, þú ert draugur líka; til hvers gekkst þú aptur?“ segir draugurinn. „Til að leika mèr að ríksortinu því arna,“ segir vinnumaður. Og í því stekkur hann út úr kirkjugarðinum og vinnumaðurinn á eptir. Fara þeir svo, þartil þeir koma á utanvert túnið. Þar spyrnti draugsi upp þúfu, og kipti þar upp peníngskistli sínum. Fóru þeir þá að rusla í peníngunum og gekk það fram eptir allri nóttu. En þegar fór að líða undir dag, þá vill draugsi fara að gánga frá peníngunum, en vinnumaður sagðist eiga eptir að skoða kúrantinn og ruslar aptur sundur peníngunum. Þá mælti draugurinn: „Þú ert víst ekki draugur.“ „Jú,“ segir vinnumaður, „findu til,“ og rèttir hann þá hina höndina. „Það er satt,“ segir draugurinn, og fer hann að tína saman aptur peníngana, en vinnumaður grýtir þeim þá víðsvegar. Þá varð draugurinn uppvægur, og sagði að hann væri maður, og ætlaði að svíkja sig, en hinn kvað nei við. Grípur þá draugurinn í bringuna á vinnumanninum, og finnur, að hann er þar kaldur. Þá mælti draugurinn: „Það er satt, sem þú segir; þú ert eins og eg,“ og fer hann að safna saman aptur peníngunum, og þorir vinnumaður ei annað, en láta drauginn ráða og segir: „Eg ætla að láta ríksortið mitt vera í peníngunum þínum.“ „Já, það má gjarna vera,“ segir draugsi, og geingur hann nú frá þeim, svo ekki sá á þúfunni. Fara þeir þá heim í kirkjugarð. Þá mælti draugurinn: „Hvar er holan þín?“ „Hún er hinumegin kirkjunnar,“ segir hinn. „Far þú fyr í hana,“ segir draugur. „Nei,“ segir vinnumaður, „far þú fyrst í þína.“ Þarna voru þeir að þrátta um þetta, þángað til í dögun. Stökk þá draugurinn ofaní gröfina, en vinnumaður fer inn í bæinn. Lætur hann þá fylla sá af vatni og setur inn undir pall. Þar lætur hann í næturklæði sín, og sækir peníngakistilinn, og lætur hann þar í líka. Líður svo til kvölds, og fara þá allir að sofa. Vinnumaður svaf móti baðstofudyrum; og er ei lángt liðið á nótt, áður en draugurinn kemur inn með þefi miklu, rekur högg í

pallstokkinn og fer síðan út, og vinnumaður eptir. Svo er sagt, að vinnumaður hafi geingið þannig frá leiði bónda, að draugurinn hafi aldrei sèzt eptir það. En vinnumaðurinn lèt klæðin og kistilinn í sáinu, til þess að draugurinn skyldi ekki finna moldarlykt af því. Vinnumaðurinn giptist ekkjunni, og bjuggu þau saman leingi síðan, og endar svo saga þessi.

**Ófælni dreingurinn.** (Eptir sögn manna í Reykjavík.) Einu sinni var strákr mjög ófyrirleitinn og ósvífinn. Þeir, sem að honum stóðu, hvort það heldur voru foreldrar hans eða aðrir vandamenn, voru mjög áhyggjufullir af þessu, því hvernig sem þeir fóru að við hann, komu þeir eingum beig inn hjá honum með neinu móti. Þegar þeir voru orðnir uppgefnir við hann, komu þeir honum til sóknarprestsins, sem þeir trúðu allra manna bezt til að koma einhverju tauti við dreinginn og beygja lund hans. Þegar dreingurinn kom til prests, bryddi skjótt á hinu sama, að honum stæði ekki geigur af neinu, hverra ráða sem prestur leitaði til þess. En ekki sýndi dreingurinn honum, heldur en þeim, sem hann var hjá áður, dælsku eða þrjózku. Leið svo fram um hríð, að dreingur var hjá presti, og gjörði prestur sèr alt far um að gjöra honum hverft við á ýmsan hátt, en það tókst honum aldrei. Einu sinni um vetur var komið með 3 lík til kirkju, sem jarða átti, en vegna þess, að líkin komu seint á degi, voru þau látin í kirkjuna um kvöldið, og átti að jarða þau daginn eptir. Það var siður í þá daga hèr á landi, að grafa lík kistulaus, og svo voru þessi, og að eins í líkblæum. Þegar líkin voru borin í kirkjuna, lèt prestur leggja þau inn þveran gáng milli stóla í framkirkjunni, hvert innar af öðru, svo bil var á milli. Þegar komið var fram á vökuna, segir prestur við dreinginn: „Bregð þú þèr snöggvast út í kirkju fyrir mig, dreingur minn, og sæktu bók, sem liggur á altarinu.“ Dreingur brá við skjótt, því hann var ekki ógegninn, þótt hann væri ófyrirleitinn. Síðan geingur hann út í kirkju, lýkur henni upp og ætlar að gánga inn eptir kirkjugólfinu. Þegar hann er kominn skamt innar úr dyrunum dettur hann flatur um eitthvað, sem hann rak í fæturna. Hann lætur sèr ekki bilt við verða, leitar fyrir sèr og finnur, að hann hefir dottið um eitt líkið, tekur það því og snarar frá sèr upp í stólana öðru megin. Þvínæst geingur hann innar, og dettur hann þá í annað sinn um hið næsta lík. Fer hann þá eins með það og hið fyrra. Síðan heldur hann á fram og dettur þá um þriðja líkið, og fer með það, sem hin, að hann varpar því upp í stólana af gánginum. Eptir það geingur hann inn að altari, tekur bókina, læsir kirkjunni og fær presti hana. Prestur tekur við bókinni, og spyr, hvert hann hafi einkis orðið var. Dreingurinn kvað nei við og brá sèr ekkert. Prestur mælti: „Nú, varstu ekki var við líkin i kirkjunni, sem voru á gánginum? eg mundi ekki að vara þig við þeim.“ Dreingurinn mælti: „Jú, líkin; eg varð var við þau, eg vissi ekki, hvað þèr áttuð við, prestur góður.“ „Nú, hvernig varstu

var við þau," segir prestur, „þau hafa líklega orðið fyrir þèr." Dreingurinn mælti: „Og ekki tel eg það." „Hvernig fórstu að komast inn eptir kirkjugólfinu?" segir prestur. „Eg snaraði þeim af gánginum upp í stólana; þar liggja þau." Prestur hristi höfuðið og inti hann ekki meir eptir þessu. Um morguninn, þegar fólk var komið á fætur, segir prestur við dreinginn: „þú verður að hafa þig hèðan; eg vil ekki hafa þig á heimili mínu, þar sem þú ert svo ófyrirleitinn, að þú svífist ekki að raska ró framliðinna." Dreingur tók þessu vel og kvaddi prest og heimamenn hans. Eptir það fer hann svo nokkra stund, að hann á hvergi höfði sínu að halla. En á bæ einum, þar sem hann var nótt, frèttir hann, að biskupinn í Skálholti sè andaður. Hann leggur þá krók á hala sinn, og fer í Skálholt. þegar hann kom þángað, var degi farið að halla, og því biður hann þar gistíngar. Honum var svarað, að ekki væri honum gistíng of góð, en sjálfur mætti hann ábyrgjast sig. Hann spurði, hvert þar lægi nokkuð við, eða hvað því ylli. Fólkið svaraði honum, að svo hefði brugðið við fráfall biskupsins, að þar hèldist ekkert mannsbarn við á staðnum, þegar dimma tæki, fyrir reymleika, og því yrði heimafólk alt að flýa staðinn á hverri nóttu síðan. „þá þykir mèr því betra að vera hèr" mælti dreingur. Heimamenn báðu hann ekki mæla slíkt; því þar væri gamanleysa að vera. þegar dimma tók, fóru heimamenn að týnast burt af staðnum, og kvöddu dreing hryggir í huga, því þeir bjuggust ekki við að sjá hann aptur. Dreingurinn varð eptir og var hinn hressasti. þegar dimdi, fór hann og kveykti ljós. Fór hann þá um hús öll og leitaði um. Síðast verður honum geingið inn í eldhúsið. Var þar búlegt vel; feit sauðarföll hèngu hvert við annað í rótinni, og alt var að því skapi, er hann sá. Dreingur hafði leingi ekki bragðað hángið kjöt, og fer hann nú að lánga í það, er hann sá svo miklar nægtir af því fyrir hendi. Ekki vildi hann taka á sig náðir svo hann gæti því betur orðið var við reymleikann, og ræður það nú af að hann fer og kveykir upp eld, brýtur við og setur upp pott með vatni og brytjar síðan eitt fallið þar ofan í. Híngað til hafði hann einkis vísari orðið um reymleikann. En er alt er komið í pottinn, heyrir hann, að sagt er uppi á eldhússtrompinum með dimmri röddu: „Má eg detta?" Hann svarar: „því ætli þú megir ekki detta?" Í því kom ofan um strompinn allur efri hluti af manni, höfuð með öxlum, og handleggir við með höndum, og liggur flykki þetta þar á gólfinu hreifíngarlaust um hríð. því næst heyrir dreingur, að spurt er uppi á eldhússtrompi: „Má eg detta?" Hann svarar sem fyrr: „því ætli þú megir ekki detta?" Kemur þá ofan um strompinn miðhlutinn af manni ofan að lærum. þetta flykki dettur niður hjá hinu fyrra, og liggur svo hreifíngarlaust. þá heyrir dreingur enn, að spurt er uppi á eldhússtrompi: „Má eg detta?" Hann svaraði sem áður: „því ætli þú megir ekki detta? Eitthvað þarftu til að standa á." Koma þá niður fætur af manni og vorn kynja stórir, eins og hinir bútarnir, sem

fyrri höfðu fallið. Þegar flykki þessi voru dettin niður, lágu þau um kyrt nokkra stund á gólfinu. En er piltinum leiðist þetta, gekk hann að bútunum og sagði: „Úr því þú ert kominn allur inn, þá er þèr nú bezt að fara á kreik.“ Skriðu þá allir bútarnir saman, og varð af þeim maður afarstór. Ekki yrti hann á piltinn og gekk svo úr eldhúsinu og fram í bæ. Dreingurinn veitti hinum mikla manni eptirför, þar sem hinn fer fyrir. Hinn mikli maður gekk inn í skála einn fram í bænum, og þar að stórri kistu. Hann lauk henni upp, og sèr þá dreingurinn, að hún er full af peníngum. Tekur hinn mikli maður þá hvað eptir annað fullar lúkur sínar úr kistunni, og eys þeim yfir hvirfil sèr, og lætur hrynja niður eptir sèr. Að þessu er hann fram eptir allri nóttu, þangað til hann hefir tæmt kistuna. Tekur hann þá hrúgurnar, er hann hafði ausið út á gólfið og eys eins úr henni yfir höfuð sér ofan í kistuna. Dreingurinn stóð þar hjá, meðan draugurinn jós peníngunum fram og aptur, og sá, hversu þeir ultu víðsvegar um gólfið. Lætur nú draugsi mjög til sín taka, er hann snarar peníngunum í kistuna, og sópar greipum um skálagólfið eptir þeim, sem hrotið höfðu úr hrúgunni; enda þóktist nú pilturinn skilja, að hann mundi halda, að farið væri að líða að degi, og því vili hann flýta sèr sem auðið sè. Nu kemur þar að, að draugurinn hefir komið öllum peníngunum aptur ofaní kistuna, og þykir nú dreinginum fararsnið á honum; hann ætlar að snarast fram úr skálanum. Dreingurinn kvað honum mundi ekki liggja á, að hraða sèr svo mjög, en draugur kvað þó svo vera, því nú væri kominn dagur. Ætlar draugur þá út hjá honum, en pilturinn tók þá til hans og vildi aptra honum. Eu þar kom að um síðir, að draugurinn reiddist, þreif til dreingsins, og kvað honum nú ekki leingur mundi tjá að aptra sèr útgaungu. Dreingurinn tók á móti apturgaungunni og fann það skjótt, að sig mundi skorta mikið á afl við hana, og fór því undan í flæmíngi, og varðist að eins stórmeiðslum og föllum, og gekk svo um hríð. Eiuu sinni, er draugurinn sneri bakinn fram að skáladyrunum, er stóðu opnar, ætlaði hann að vega drenginn upp á bríngu sèr, til að sleingja honum því fastar niður. Pilturinn sá fyrirætlun þessa í hendi, og þykist vita, að það muni verða bani sinn. Tók hann þá það ráð, er draugurinn rembdist sem mest, að toga hann að sèr, að hann hleypur upp í fángið á honum svo hart, að draugurinn dettur aptur á bak, og verður þrepskjöldurinn í skáladyrunum undir miðjum hrygg hans, en dreingurinn lendir við fallið ofan á honum. En svo vildi til, þegar apturgángan datt fram úr skálanum með hausinu, að dagsbirtuna, sem þá var komin á mitt lopt, lagði í augu hennar, og sökk hún því í 2 hlutum niður, þar sem hún lá, sinn hvoru megin þrepskjaldarins, og luktist gólfið þegar aptur, er hlutarnir hurfu. Þó pilturinn væri nokkuð stirður og marinn af átökum apturgaungunnar, tekur hann sig þó til og býr til 2 krossmörk úr trè, er hann rekur þar niður í gólfið, þar sem bútarnir höfðu sokkið niður, annan fyrir innan, en hinn fyrir framan skáladyrnar. Síðan leggst

hann niðnr og sofnar, þángað til staðarmenn koma um morguninn, er fullbjart var orðið. Þeir heilsa honum og vorn glaðari í bragði, er þeir sáu hann lifandi, en þeir höfðu kvatt hann kvöldið áður, og spurðu, hvert hann einkis hefði orðið vísari um reymleika á staðnum um nóttina. Dreingurinn kvaðst þar einkis reymleika hafa orðið var. Heimamenn vildu ekki trúa honum, hvernig sem hann leitaðist við að sannfæra þá um það. Síðan var hann þar um kyrt daginn eptir, því bæði var hann þrekaður af viðureign sinni við apturgaunguna, og svo vildu heimamenn ekki missa hann fyrir nokkurn mun, er hann hughreysti þá. Um kvöldið, er hann sá, að heimamenn fóru að hafa sig til vegs, leitaði hann allra bragða til að koma þeim til að vera kyrrum á staðnum, og kvað þeim ekkert mein mundi verða að reymleikanum. En það kom fyrir ekki; fólkið trúði honum ekki og fór því burtu sem hið fyrra kvöldið; en þó hafði hann það áorkað með umtölum sínum og hughreystíngum, að það skildi við hann óhrætt. Þegar fólkið var alt farið af staðnum, tók pilturinn á sig náðir, hvíldist nú vært og svaf til morguns. Þegar heimamenn komu daginn eptir, spurðu þeir hann enn eptir um reymleikann, en hann kvaðst einkis hafa orðið var um hann, enda kvað hann ekki mundi þurfa að óttast slíkt framar. Sagði hann þá upp alla sögu um hina fyrri nótt, og sýndi þeim krossmörkin í gólfinu, er skroknbútarnir höfðu farið niður, og með þessu leiddi hann menn að peníngakistunni. Þeir þökkuðu dreingnum fagurlega alla framgaungu sína, báðu hann þiggja það, er hann vildi af þeim kjósa, til launa fyrir aðgjörðir sínar, hvort heldur væru peníngar eða aðrir aurar, og að hann skyldi dvelja í Skálholti svo leingi sem hann vildi. Hann þakkaði þeim góð boð, og kvaðst hvorki þurfa auð nè annað, og ekki mundi hann dvelja þar leingi hèðan af. Þó var hann þar um nóttina, og var þar þá alt fólk heima og bar ekki neitt á neinu þá nè síðan. En að morgni bjó pilturinn sig til ferðar úr Skálholti; heimamenn vildu ekki af honum sjá, en ekki tjáði annað en hann færi. Hann kvaðst nú ekkert hafa þar leingur að gjöra úr því heimamenn gætu haldizt við á staðnum. Síðan fór hann úr Skálholti, og var það öllum staðarmönnum mjög nauðugt; hann stefndi þaðan norður á afrètt. Eingar sögur fóru af honum um hríð, uns hann kom einn dag að helli einum. Hann gekk þar inn og sá engan mann, en 12 rúm sá hann þar í afhelli, sín 6 hvert á móti öðru. Rúmin voru öll óumbúin, og af því enn var nokkuð eptir af degi, svo hann gat ekki búizt við, að hellisbúar kæmu heim að sinni, fór hann og bjó nm öll rúminn. Þegar hann var búinn að því, lagðist hann ofaní yzta rúmið öðru megin, breiddi vandlega ofan á sig og sofnar. Eptir nokkra stund vaknar hann við umgáng í hellinum, og heyrir, að þar eru komnir margir menn, og eru þeir að furða sig á, hver þar muni hafa komið, og gjört sèr þann greiða að búa um rúm þeirra, og kváðu hann fyrir það góðs maklegan. Síðan fara þeir að hátta, er þeir höfðu matast, eptir því sem honum virtist. En er sá, sem átti rúmið, er

hann lá í, fór að fletta ofan af því, varð hann skjótt var við piltinn. Þökkuðu hellisbúar honum fyrir handtak þetta, er þeim hefði komið svo vel, og báðu hann dveljast þar og vera þeim til aðstóðar heima í hellinum, því þeir væru vant við látnir, yrðu að fara með sólu frá hellinum, því annars kæmu óvinir þeirra og berðust þar við sig, svo þeir vegna þess gætu eingu sint heima fyrir. Pilturinn kvaðst mundi þiggja tilboð þeirra, og dveljast hjá þeim um sinn. Hann inti þá eptir, hvernig á því stæði, að þeir ættu í svo stríðri styrjöld á hverjum degi, sem ekki linti. Hellisbúar kváðu menn þessa hafa verið fjandmenn sína, og hefðu þeir opt etið illdeilum að undanförnu, og hefðu þeir hellismenn jafnan orðið þeim yfirsterkari. Þeir kváðust og enn verða þeim öllum efri á hverju kvöldi og fella þá. En nú brygði svo við, að fjandmenn sínir væru allir geingnir aptur að morgni, og væru æfari og ákafari, en þeir hefðu verið nokkru sinni áður, og mundu þeir án efa veita sèr atför í hellinum, ef þeir væru ekki til taks á vígvellinum með sólu. Eptir þetta lögðust þeir að sofa, og sváfu til morguns. Fóru hellismenn vopnaðir þegar með sólu úr hellinum, og báðu piltinn að annast um helli sinn og heimastörf; hann hèt góðu um það. Um daginn fór dreingurinn á hnotskóg í þá átt, er hann sá þá hverfa um morguninn frá hellinum, til að forvitnast um, hvar þeir ættust við. Þegar hann kom auga á, hvar orrustuvöllurinn var, hvarf hann aptur inn í hellinn. Eptir það býr hann um rúm hellisbúa, sópar allan hellirinn og gjörir alt sem gjöra þurfti. Um kvöldið komu hellisbúar heim, þreyttir og dæstir, og urðu þeir fegnir, að pilturinn hafði hirt um öll þeirra faung, svo þeir þurftu ekki annað að gjöra en matast, og gánga til rekkna að því búnu. Síðan fara þeir að sofa allir nema pilturinn. Hann vakir og er að hugsa um, að komast að, hvernig á því standi, að fjandmenn hellisbúa gángi aptur á næturnar. Þegar hann hyggur fèlaga sína alla sofnaða, fer hann á fætur, tekur af vopnum þeirra, það er honum leizt bezt á og hefir með sèr. Síðan geingur hann á stað til vígvallarins, og kemur þar aflíðandi miðnætti. Var þar ekkert að sjá, nema fallna og höggna hausa. Hann dvelur þar um hríð. En með aptureldíngunni sèr hann hvar hóll einn skamt frá vígvellinum lýkst upp; kom þar út kona; hún var í blárri skikkju og hèlt á krukku í hendinni. Hann sèr að hún geingur rakleiðis að valnum, þángað sem einn lá fallinn, og ber úr krukkunni með hendinni á strjúpann á bol hins dauða, og eins á hálsinn, er var fastur við hausinn, og setti svo höfuðið við bolinn, og varð það þegar fast og lifnaði hann við aptur. Þetta sama bragð lèk hún við tvo eða þrjá aðra og lifnuðu þeir eins við. Þá óð dreingurinn að kerlíngu og hjó hana banahögg, því nú þóktist hann vita, hvað ylli apturgaungu fjandmanna hellisbúa; síðan drap hann þá, er hún hafði endurlífgað. Þegar hann var búinn að því, fór hann sjálfur til og reyndi, hvert sèr tækist að lífga hina föllnu á sama hátt og konunni og reið á strjúpann úr krukkunni og tókst

það ekki síður en áður. Gjörði hann nú ýmist, að hann lífgaði valinn eða drap þá aptur, er hann hafði lífgað, þángað til sól var komin upp, enda komu þá fèlagar hans úr hellinum vígbúnir, og hafði þeim orðið hverft við, er hann var horfinn þeim og sum vopn þeirra. Þegar þeir komu á vígvöllinn, þókti þeim mjög hafa brugðið til betra, er fjandmenn þeirra láu allir dauðir og hreifingarlausir. Hellisbúar fögnuðu nú vel dreingnum, er þeir sáu þar, og spurðu hvernig á því stæði, að hann hefði farið þángað. Hann sagði þeim þá upp alla sögu, og það með, hversu álfkonan hefði ætlað að lífga þá föllnu aptur. Hann sýndi þeim smyrslakrukkuna, tók einn hinna föllnu, reið á hann smyrslunum og setti við hann höfuðið. Lifnaði hann þá skjótt við sem fyrr, en þeir fèlagar drápu hann þegar. Eptir þetta þökkuðu hellisbúar honum með mörgum fögrum orðum framgaungu sína, og báðu hann vera hjá sèr svo leingi sem honum líkaði, og buðu honum fè fyrir liðsinni sitt. Hann bað þá hafa þökk fyrir góð boð, og kvaðst hann mundi þekkjast það að vera hjá þeim. Eptir þetta alt urðu hellisbúar svo kátir og fegnir dreingnum, að þeir lèku við hvern sinn fingur; komu þeir þá upp með það, að þeir skyldu nú reyna, hvernig það væri að deya, fyrst þeir gætu lífgað hver annan aptur. Drápu þeir þá hver annan, og báru smyrslin á, svo þeir lifnuðu þegar við aptur. Hentu þeir að þessu hið mesta gaman um stund. Einu sinni, er höfuðið var höggvið af dreingnum, og hafði verið grætt við búkinn aptur, sneri andlitið aptur á því, en hnakkinn fram. En er dreingurinn sá apturhluta sinn, með því höfuðið horfði öfugt, varð hann sem óður af hræðslu, og bað þá fyrir alla muni að losa sig við þá kvöl. Hlupu þá hellisbúar til og hjuggu af honum höfuðið að nýu, og græddu það rètt við búkinn. Fèkk hann þá aptur alt ráð og rænu og var jafn óhræddur og hann hafði verið ávalt eptir þetta. Síðan drógu þeir fèlagar saman alla búka hinna dauðu, flettu þá vopnum og brendu þá og álfkonuna með þeim, er kom úr hólnum með smyrslakrukkuna. Eptir þáð geingu þeir í hólinn, tóku þaðan alt, sem fèmætt var, og fluttu heim í helli sinn. Dreingurinn var með þeim síðan, og hafa ekki fleiri sögur farið af honum eptir þetta.[1]

**„Sjaldan brúkar dauður maður hníf.“** (Sigurður málari eptir almennri sögn nyrðra.) Einu sinni voru hjón á bæ fyrir norðan vel við efni. Bóndi var þó talinn meiri áhyggju-maður um auðsafn en konan, og því fór hann eitt haust suður, og ætlaði að róa þar allar vertíðir til lesta, því hann hugði sèr meiri arðsvon af því, en vera heima. Þegar bóndi var farinn, segir ekki af hvorugu þeirra hjóna þángað til á Þorláksmessu fyrir jól, að konan var búin að sjóða hángikets-fall til jólanna; hafði hún fært það

1. Hugsunin í þessari frásögn er alllík og í „Märchen von einem, der auszog das Fürchten zu lernen,“ í „Kinder- und Hausmärchen gesammelt durch die Brüder Grimm. Kleine Ausgabe. Achte Auflage. Berlin, 1850.“ 13—25. bls.

upp í trog og borið inn á búrhyllu trogið með öllu saman. Eptir það gekk hún litla stund úr búrinu annaðhvort inn í baðstofu eða eitthvað annað. En þegar hún kom aptur í búrið, sèr hún, að maðurinn sinn er kominn að búrhyllunni, stendur fyrir framan kettrogið, heldur á lánglegg, sem hann hafði tekið úr troginu, og rífur með tönnunum hold frá beini á leggnum. Þau yrtu hvorugt á annað, en konunni þykir þetta undarlegt, og bæði illa og ókrjálega farið að mat sínum, er bóndi stýfir þannig úr hnefa, og segir: „Viltu ekki hníf, maður?" Hann svaraði: „Sjaldan brúkar dauður maður hníf, heldur stendur hann á og rífur." Hvarf þá maðurinn, svo konan hafði ekki meira af honum. En þegar hún frètti fyrst að sunnan eptir þetta, heyrði hún lát manns síns, og að hann hefði drukknað litlu fyrir jólin.

Aðrir segja svo frá, að maður þessi hafi verið maurapúki, og grafið niður alla þá penínga, sem hann eignaðist. Einu sinni tók hann þúnga sótt, og bjóst við því, að hann mundi ekki komast á fætur aptur. Hann ráðstafaði þá ýmsu við konu sína, meðan hann lá, bæði um útför sína og annað; þar með mundi hann eptir því, að þau áttu væn skammrif af sauð uppi í eldhúsi; þau bað hann konu sína að sjóða sama daginn, sem útför sín yrði, færa þau upp og setja þau í trogi út á bæarkamp. Nú líður til þess, að bóndi deyr, og er gjörð útför hans, eins og hann hafði fyrir mælt; konan lèt sjóða skammrifin, og setja þau þar, sem hann hafði til tekið, volg í troginu þetta kvöld. Litlu síðar kemur hún út og sèr, hvar bóndi sinn stendur við trogið og stýfir ketið úr hnefa. Þá býður hún honum hnífinn; en hann svarar því sama, sem áður segir, og hvarf síðan.

**h)** Ekki eru öllu færri sögur um fólgið fè,[1] en um fèpúka, og hafa þær allar eitthvað draugalegt við sig, sem líklegt er; því bæði eiga draugar að hafa fólgið flest slíkt fè, sem áður er sagt, til þess að vitja þess aptur eptir dauðann, og af því, að þar sem fè er fólgið í jörðu, er sagt, að blár logi leiki yfir, þegar myrkt er á haustum, og þegar hlákur gánga á vetrum, en mjög sjaldan á sumrum. Logi sá, er upp af fènu leggur, er ýmist kallaður vafurlogi eða málmlogi. Ekki eru það seinni alda hugsmíðar einar, að eldar sjáist brenna á víðavángi, því þeirra er og getið í fornum sögum, og kallaðir haugaeldar.[2] Orðið „vafurlogi" kemur og fyrir í Sæmundar-eddu,[3] og merkir þar flögrandi loga eða eld, sem ver sali gyðja og kvenna, en ekki málmloga, eða loga upp af grafsilfri. En svo lítur út,

1. Það er stundum í fornum bókum kallað grafsilfur (sjá Landnáma-bók í Íslendínga sögum. Khöfn 1843. 146. bls.); en í munnmælum er það optast nefnt dalakútur.

2. Sbr. Gull-Þóris sögu. Leipzig 1858. c. 3.; Fornaldar sögur Norðurlanda I. Khöfn 1829. 434, 437, 440, 442, 518—522. bls.; Hervarar-sögu ok Heiðreks konúngs. Khöfn, 1847. 15—16., 18—20. bls.

3. Skírnisför, 8—9. vísa; Fjölsvinns-mál, 32. v.; sjá og 2. v. þar í Eddu Sæmundar hins fróða. Holmiae 1818.

sem nú sè, að minnsta kosti hjá alþýðu, lögð sama þýðíng í bæði orðin, vafurloga og málmloga, og merki hvorttveggja eld, sem logi upp af fólgnu fè. Nú skal hèr getið nokkurra staða, þar sem logar þessir hafa sèzt.

Í Hraunstaða-mýri hjá Stað á Reykjanesi hafa sèzt eldar brenna yfir þorskafjörð á Hallsteinsnesi. Í þeirri mýri var Jón nokkur frá Fjóskoti, sem enn lifir, einu sinni á ferð í vondu veðri og dimmu. Fann hann þá, að eitthvað, sem hann ekki átti von á, varð fyrir fæti hans; hann þreifaði fyrir sèr með hendinni, og fann, að það var ketilhalda. En með því maður sá þykir ekki hafa stígið á vitið, braut hann að eins hölduna af katlinum og hafði hana heim með sèr. En það kom honum ekki til hugar, að setja neitt merki, þar sem hann fann hölduna, til þess, að vitja þángað aptur. þegar hann kom heim að Stað og sagði frá því, sem fyrir hann hafði borið, átaldi sèra Friðrik hann, sem þá var prestur[1] fyrir það, að hann hefði ekki tekið fèð; en þá var of seint viðgjörða.[2]

það var um kvöld á sumardegi, rètt eptir sólarlag, að maður sá, er hèt Björn Bjarnarson, bróðir Odds, sem nú (1847) er bóndi á Marðarnúpi, sá loga, er hann var smalamaður hjá Arnljóti bónda Illugasyni á Guðlaugsstöðum. Hann var þetta kvöld, sem optar, yfir fè, uppi á brúnunum fyrir ofan bæinn. Hann setti logann vel á sig og miðaði hann niður, og sagði bónda frá. Arnljótur kvað það markleysu eina, en fór með Birni og fann hann staðinn. Skoðuðu þeir hann, og sáu ei annað en víðilaufið var lítið eitt sviðnað. Fóru þeir síðan. Nokkru síðar fór bóndi til og gróf þar gröf, sem Björn hafði sèð vafurlogann. þegar Björn vissi það, spurði hann bónda, hvert hann hefði fundið nokkuð. Bóndi sagðist ekkert hafa fundið annað, en kol nokkur. Halda menn það hafi satt verið, því aldrei urðu menn neins þess varir hjá honum, sem fornmenjar þóktu í vera.

Arnljótur bóndi á Gunnsteinsstöðum (1847) sá einu sinni loga fram á eyrunum, þar sem heitir Gunnsteinsstaðahólmi. Arnljótur kom að framan og voru með honum 6 menn. þegar þeir sáu logann, vildu sumir gánga á hann, og svo gjörðu þeir. Komnst þeir að honum nærri því, og hefir Arnljótur sagt, að loginn var á að geta rúmur ferhyrníngsfaðmur fyrirferðar niður við jörðu, líkur kolaloga á lit, datt stundum niður, en gaus upp aptur fljótt og blossaði mikið. Stundum var hann leingi uppi, en stundum mjög stutta stund. Hann var á að geta 4 álna hár. Ekki gat Arnljótur sèð að hann væri bláleitur, eins og málmlogi á að vera þegar þeir komu rètt að loganum, hvarf hann með öllu.

Í Kárastaðabrekkum hefir og stundum sèzt logi. Brekkur þessar eru fyrir framan Kárastaði þar í hálsinum. Hefir loginn verið lítið sunnar, en á móts við Æsustaði, en einginn veit greinilega, hvar hann er.[3]

1. Frá 1830 til þess hann dó 1840.
2. Dr. Maurers Isl. Volkss. 70—71 bls.
3. þrjár næstfyrirfarandi frásagnir eru teknar eptir Arnljóti Ólafssyni.

Nú munum vèr víkja að sögum þeim, sem gánga af fjárgrepti og undrum þeim, sem hafa orðið við haugbrot fornmanna, og eru þær flestar teknar eptir sögn manna í Borgarfirði. Fólgið fè á að vera í hólum og haugum, fenjum, dýum og keldum, og víða hefir það reynt verið, að grafa það upp. En frá því hafa menn jafnan horfið fyrir sakir ólags eða fávizku, og hafa þeir kent því um, er að greptinum hafa starfað, að þeir hafi sèð ýms undur og ofboð. Stundum hafa næstu bæir eða kirkjur sýnzt standa í loga og það er algeingast; stundum hefir sjór eða vatn sýnzt gánga á land upp, eins og alt mundi fara í kaf þá og þegar, og stundum hafa sýnzt herflokkar. Enn hafa og ýms önnur undur orðið, sem hamlað hafa fjárgreptinum, t. d. grafarmönnum orðið snögglega ílt, eða haugbúarnir komið til þeirra í svefni, og ógnað þeim ef þeir hèldi áfram o. sv. fr., eins og þær sögur bezt sýna, sem þar lúta að.

**Kirkjan í Geitlandi.** (Eptir sögn Hvítsíðinga í Borgarfirði.) Þegar hraunið í Geitlandi brann, eyðilagði það þar marga bæi, og þar á meðal kirkjustaðinn. Þykjast menn vita, hvar kirkjan stóð, og hefir hraunið runnið yfir hana, en nokkuð af túninu sèst enn út undan hraunbeltinu.

Einu sinni fór maður að grafa upp kirkjuna í Geitlandi, og byrjaði á því, að höggva hraunskorpuna á kirkjumænirnum; því þar hèlt hann hana vera þynnsta, þar sem mest var tómahljóðið undir. En þegar hann hafði litla stund að verið, sá hann, að bærinn í Kalmannstúngu stóð í ljósum loga. Hljóp hann þá frá til að bjarga bænum, en þegar þángað kom, sá hann eingan eld. En svo varð hann hræddur við býsn þessa, að hann hætti við kirkjugröptinn, og hefir einginn byrjað á honum síðan.

**Þúfan.** (Eptir sögn manns eins úr Staðarsveit.) Á kotbæ einum vestur í Staðarsveit skamt frá Búðum er fólgið fè í þúfu einni í túninu. Þúfuna má ekki slá; því ef svo er gjört, stendur þar ólán af. Kaupmaður einn á Búðum heyrði þetta, og vildi reyna hvað satt væri um þúfuna. Einn góðan sumardag fer hann til bæarins, og hafði með sèr menn nokkra. Ætlaði hann að grafa upp þúfuna, og var hann þó beðinn að gjöra það ekki. Stakk hann þá sjálfur upp þrjá hnausa, því einginn vildi gjöra það, en hann hèlt að sèr mundi ekki verða slíkt að meini. En í sama bili líður yfir kaupmann, og lá hann litla stund í óviti. Þegar hann raknaði við, stakk hann enn upp nokkra hnausa. Fór það á sömu leið, að yfir hann leið, og lá hann þá mun leingur í aungvitinu, en hið fyrra sinn. Ekki lèt hann þetta á sig bíta, og hvað sem hver sagði, fór hann enn til í þriðja sinn. Var þá liðið á dag. En þegar hann var búinn að stínga upp þrjá hnausa enn, fèll hann í þriðja sinn í aungvit, og var það miklu ógurlegast. Var hann borinn heim, eins og dauður, og raknaði ekki við, fyrr en um morguninn. Vildi hann þá ekki reyna framar á þetta, enda voru þá allir fúsastir á að hætta, og voru hnausarnir lagðir niður og hefir einginn hreift við þúfunni síðan.

**Fagri-hóll.** Ekki allángt frá Stykkishólmi er hóll sá, er kallaður er Fagri-hóll. Í honum er sagt, að grafin sèu auðæfi hins forna Helgafells-klausturs. Einu sinni var reynt til að grafa í hólinn, og þegar graptarmennirnir voru komnir hýsna djúpt, sýndist þeim Helgafells-kirkja standa í hjörtu báli; hlupu þeir þángað til að slökkva eldinn. Síðan var hyrjað að grafa í annað sinn; þókti þeim þá sem vopnaðir menn kæmu upp úr jörðinni, og ógna sèr dauða, ef þeir hættu ekki að grafa. Eptir það feingust ekki innlendir menn framar til að grafa í hólinn, svo þá voru feingnir til þess Danir, en sú tilraun var árángurslaus.[1]

**Gullkistan.** (Eptir sögn skólapilta að vestan árið 1845.) Haugur einn stendur vestur í Vatnsfjarðarsókn við Ísafjörð. Í haugi þessum er gullkista fólgin, sem opt hefir verið reynt til að ná; en ætíð hefir verið hætt við, vegna býsna þeirra, er sèzt hafa við hauggröptinn. Einu sinni tóku sig til tveir menn, úngir og atorkusamir, og fóru að hrjóta hauginn. Grófu þeir þángað til þeir sáu kistuna. Var hún svo þúng, að þeir gátu ekki hafið hana upp, og voru þeir þó hraustmenni að burðum. Grófu þeir þá niður með kistunni öllumegin og undir hana. Kistan var járnbent mjög rammlega, og hríngir í göflunum. Fór nú annar þeirra undir kistuna og lypti henni upp, en hin dró hana upp í reipi, sem bragðið var í annau gaflhríngiuu. En þegar kistan var komin á lopt, slitnaði hríngurinn úr gaflinum, svo kistan datt niður á manuiun, sem undir var, og dó hann þegar. Þá varð hiun hræddur, sem uppi var, hætti við og hljóp burtu, en hafði gaflhrínginn úr kistunni með sèr. Það var koparhríngur stór og mikill, og gaf hann Vatnsfjarðarkirkju hrínginn, og er hann þar enn í dag í kirkjuhurðinni.

Aðrir segja, að nokkrir menn hafi tekið sig saman til að grafa upp hauginn. Þeir fundu kistuna, járnbenta og voru hríngir í göflunum. Drógu þeir þá reipi í hríngana og toguðu í, en einn var niðri, og lypti undir kistuna. Þegar kistan var nærri því komin upp á gryfjuharminn, voru þeir farnir að þreytast, sem uppi voru, og þókti hálfgert tvísýni á hvort kistan kæmist upp, og segir þá einn þeirra: „Hún fer upp, ef guð lofar.“ Þá gellur sá við, sem niðri var og undir kistuna lypti, og segir: „Hún skal upp, hvort sem guð leyfir eða ekki (hvort sem guð vill eða ekki).“ Þá slitnaði anuar gaflhríngurinn úr kistunni, svo hún datt á manuinn, sem undir var, og drap hann, en gryfjan hrundi saman. Hurfu þá hinir frá óttaslegnir, og gáfu Vatnsfjarðarkirkju hrínginn, en hættu við gröptinn.

**Brúsahaugur.** (Eptir sögn norðlenzkra skólapilta 1845.) Brúsahaugur er hjá Brúsastöðum í Vatnsdal. Þar fór einu sinni maður að grafa í, og þegar hann hafði grafið einn dag, dreymdi hann um nóttina, að maður kom að honum, mikill og illilegur, og bað hann hætta að rjúfa hauginn, ella

1. Dr. Maurers Isl. Volkss. 72. bls.

skyldi hann verra af hafa. Um morguninn vaknaði maðurinn, og mundi drauminn, en gaf sig ekki að því, og fór að brjóta hauginn, sem áður. Nóttina eptir dreymdi hann sama mann og áður, og var hann þá miklu ógurlegri en fyrr, og hótaði honum öllu illu, ef hann hætti nú ekki við hauginn. En maðurinn fór hinn þriðja dag til haugsins, og hirti ekki um drauminn heldur en fyrr. Var þá moldin fallin niður í gryfjuna, og svo hafði líka verið hinn fyrra dag. Gróf hann þá allan daginn til kvölds, og var þá komið að viðum. Hætti hann þá við; því nótt var komin. En um nóttina vaknaði fólkið á bænum við það, að maðurinn ætlaði að heingjast, og var dreginn ofan úr rúminu, og varð ekki vakinn fyrr en hann var kominn út. Eptir þetta hætti maðurinn við að rjúfa hauginn, og hefir einginn reynt það síðan. En austan á Brúsahaug sjást enn í dag mannvirki.

**Helgu-hóll.** Hjá Grund í Eyafirði er hóll einn, er nefnist Helgu-hóll. Í þeim hól er sagt, að Grundar-Helga hafi látið haugsetja sig, en hún var auðkona hin mesta og þar eptir ágjörn, sem síðar verður getið, og segja Eyfirðíngar, að hún hafi lifað, þegar svartidauði geisaði hèr. Sagt er, að hún hafi látið bera fè mikið í hól þenna; en er menn fóru að grafa í hann, sýndist þeim Grundar-kirkja vera að brenna. Hlupu þeir þá til og vildu slökkva eldinn; en þetta voru eintómar missyníngar, til að aptra graptarmönnum frá fyrirtæki sínu.[1]

**i)** Eptir þenna útúrdúr um fólgið fè komum vèr þá aptur til þeirra sagna um drauga, sem hafa geingið aptur af öðrum ástæðum, en til að vitja fjár síns, og sjáum vèr, að hjá þeim apturgaungum ræður ávalt annaðhvort ást eða hatur, er þær leitast við að koma fram eptir dauðann; en það er undir hinum ytri kríngumstæðum komið, að hvað miklu leyti slíkum geðsástríðum verður framgeingt. Þess konar sögur sýna nógsamlega, að hinn sami skapofsi, sem manninum var eiginlegur í lífinu, fylgir honum einnig eptir dauðann, bæði til að gjöra öðrum mein og til að ná rètti sínum, er apturgaungur þóktust aflagabornar ofanjarðar.

**Djákninn á Myrká.**[2] (Eptir húsfrú Ingibjörgu Þorvaldsdóttur, sem var í Belgsholti í Borgarfirði, og leiðrèttíngum og viðaukum sèra Páls Jónssonar, nú á Völlum.) Í fyrri daga var djákni einn að Myrká í Eyafirði; ekki er þess getið, hvað hann hèt. Hann var í þíngum við konu, sem Guðrún hèt; hún átti að sumra sögn heima á Bægisá, hinu megin Hörgár, og var hún þjónustustúlka prestsins þar. Djákninn átti hest gráföxóttan, og reið hann honum jafnan; þann hest kallaði hann Faxa. Einhverju sinni bar svo til litlu fyrir jól, að djákninn fór til Bægisár, til að bjóða Guðrúnu til jólagleði að Myrká,

1. Dr. Maurers Isl. Volkss. 71—72. bls.
2. Sbr. Dr. Maurers Isl. Volkss. 73—74. bls.

og hèt henni að vitja hennar í ákveðinn tíma, og fylgja henni til gleðinnar aðfángadagskvöld jóla. Dagana áður, en djákninn fór að bjóða Guðrúnu, hafði gjört snjóa mikla og ísalög; en þann sama dag sem hann reið til Bægisár, kom asahláka og leysíng, og þegar á leið daginn, varð áin ófær fyrir jakaferðum og vatnagángi, á meðan djákninn tafði á Bægisá. Þegar hann fór þaðan, hugði hann ekki að því, sem skipast hafði um daginn, og ætlaði, að áin mundi enn liggja, sem fyrr. Hann komst yfir Yxnadalsá á brú; en þegar hann kom til Hörgár, hafði hún rutt sig. Hann ríður því fram með henni, uns hann kemur fram á móts við Saurbæ, næsta bæ fyrir utan Myrká; þar var brú á ánni. Djákninn ríður á brúna, en þegar hann er kominn á hana miðja, hrestur hún niður, en hann fór í ána. Morguninn eptir, þegar bóndinn á Þúfnavöllum[1] reis úr rekkju, sèr hann hest með reiðtýgjum fyrir neðan túnið, og þykist þekkja þar Faxa djáknans á Myrká. Honum verður bilt við þetta; því hann hafði sèð til ferða djáknans ofan hjá daginn áður, en ekki orðið var við, að hann færi tilhaka, og grunaði því brátt, hvað vera mundi. Hann geingur því ofan fyrir túnið; var þá, sem honum sýndist, að þar var Faxi, allur votur og illa til reika. Geingur hann síðan ofan að ánni, ofan á svo kallað Þúfnavallanes; þar finnur hann djáknann, rekinn örendan á nesinu framanverðu. Fer bóndi þegar til Myrkár og segir tíðindin. Djákninn var mjög skaddaður á höfðinu aptanverðu af ísjaka, er hann fannst. Var hann svo fluttur heim til Myrkár, og grafinn í vikunni fyrir jólin.

Frá því djákninn fór frá Bægisá og til þess á aðfángadaginn, hafði eingin fregn farið milli Myrkár og Bægisár um þessa athurði neina, sökum leysínga og vatnagángs. En á aðfángadaginn var veður stiltara, og hafði runnið úr ánni um nóttina, svo að Guðrún hugði gott til jólagleðinnar á Myrká. Þegar leið á daginn, fór hún að búa sig, og þegar hún var vel á veg komin með það, heyrði hún að það var barið; fór þá önnur kona til dyra, sem hjá henni var, en sá eingan úti, enda var hvorki bjart úti nè myrkt; því túngl óð í skýum, og dró ýmist frá eða fyrir. Þegar stúlka þessi kom inn aptur, og kvaðst ekki hafa sèð neitt, sagði Guðrún: „Til mín mun leikurinn gjörður, og skal eg að vísu út gánga.“ Var hún þá albúin, nema hún átti eptir að fara í hempuna. Tók hún þá til hempunnar, og fór í aðra ermina, en fleygði hinni erminni fram yfir öxlina, og hèlt svo í hana. Þegar hún kom út, sá hún Faxa standa fyrir dyrum og mann hjá, er hún ætlaði, að væri djákninn. Ekki er þess getið, að þau hafi átt orðræðu saman. Hann tók Guðrúnu, og setti á bak, og settist síðan sjálfur á bak fyrir framan hana. Riðu þau þá svo um hríð, að þau töluðust ekki við. Nú komu þau til Hörgár, og voru að henni skarir háar, en þegar hesturinn steyptist fram af skörinni, lyptist upp hattur djáknans að aptanverðu, og

1. Þúfnavellir eru næsti bær fyrir utan Saurbæ, og liggja nærri saman túnin.

sá Guðrún þá í höfuðkúpuna bera. Í þeirri svipan rak skýin frá túnglinn; þá mælti hann:

„Máninn líður,
dauðinn ríður;
sèrðu ekki hvítan blett
í hnakka mínum
Garún, Garún?“ [1]

En henni varð bilt við og þagði. En aðrir segja, að Guðrún hafi lypt upp hatti hans að aptan og sèð í hvíta kúpuna; hafi hún þá átt að segja: „Sè eg það, sem er.“ Ekki er sagt af samræðum þeirra fleirum, nè ferðum, fyrr en þau komu heim að Myrká, og fóru þau þar af baki, fyrir framan sáluhliðið; segir hann þá við Guðrúnu:

„Bíddu hèrna Garún, Garún,
meðan eg flyt hann Faxa, Faxa
upp fyrir garða, garða.“

Að því mæltu fór hann með hestinn; en henni varð litið inn í kirkjugarðinn. Sá hún þar opna gröf, og varð mjög hrædd, en tekur þó það til bragðs, að hún grípur í klukkustreinginn. Í því er gripið aptan í hana, og varð henni þá það að happi, að hún hafði ekki feingið tíma til að fara nema í aðra hempuermina; því svo var sterklega til þrifið, að hempan gekk sundur um axlarsauminn á þeirri erminni, er hún var komin í. En það sá hún síðast til ferða djáknans, að hann steyptist með hempuslitrið, er hann hèlt á, ofan í gröfina opnu, og sópaðist moldin frá báðum hliðum ofan yfir hann. En það er frá Guðrúnu að segja, að hún hríngdi í sífellu, alt til þess, að bæarmenn á Myrká komu út, og sóktu hana; því af öllu þessu var hún orðin svo hrædd, að hún þorði hvergi að fara, nè heldur hætta að hríngja; því hún þóktist vita, að hún hefði átt þar við djáknann apturgeinginn, þó henni hefði ekki áður komið nein fregn um lát hans. Enda gekk hún úr skugga um, að svo hafði verið, er hún náði tali af Myrkármönnum, er sögðu henni upp alla sögu um lát djáknans, og hún aptur þeim af ferðum sínum. Þessa sömu nótt, þegar háttað var og búið að slökkva ljósið, kom djákninn og ásókti Guðrúnu, og voru svo mikill brögð að því, að fólkið varð að fara á fætur, og varð eingum svefnsamt þá nótt. Í hálfan mánuð eptir þetta mátti hún aldrei ein vera, og varð að vaka yfir henni hverja nótt. Sumir segja, að presturinn hafi orðið að sitja á rúmstokknum hjá henni, og lesa í Saltaranum. Nú var feinginn galdramaður vestur í Skagafirði. Þegar hann kom, lèt hann grafa upp stein einn mikinn fyrir ofan tún, og velta heim að skálastafni. Um kvöldið, þegar dimma tók, kemur djákninn, og vill inn í bæinn, en galdramaðurinn hneppir hann suður fyrir skálastafn, og setur hann þar niður með

1. Draugum er ekki gefið að nefna guðs nafn nè heldur nokkurt það orð, sem guðs nafn er í, og því á draugurinn að hafa nefnt Garún fyrir Guðrún.

særíngum miklum; veltir hann síðan steininum ofan á, og þar á djákninn að hvíla enn í dag. Eptir þetta tók af allan reymleik á Myrká, og Guðrún að hressast. Litlu seinna fór hún heim til sín að Bægisá, og er sögn manna, að hún hafi síðan aldrei orðið söm og áður.

**Athugasemdir.** Það er í frásögur fært, að þegar Þórólfur Skólmsson bjó á Myrká, hafi þar hvergi sèzt steinn. Eitt sinn átti hann að hafa farið þar upp í fjall, og sótt þángað stein einn mikinn, og borið hann heim að bæ, og sett niður hjá skálastafni, og höggvið ker ofan í hann miðjan, haft síðan steininn, til að lýa á honum járn, og látið gefa smalahundinum í kerinu á sumrum. Þegar Páll prestur Jónsson kom að Myrká fyrir 19 árum, hafði hann söguna um steininn sèr hugfasta, og sá þar stein einn mikinn hjá skálastafninum, sem allur var sokkin í jörð, svo að eins sá á eina röðina. Hann spurði formann sinn um steininn; en hann sagði að hann hefði komið þar fyrir 40 árum; kvaðst hann hafa ætlað að grafa hann upp, en konan sín hefði beðið sig að gjöra það ekki; því það væri almæli, að djákninn lægi undir honum, og sagði hann sèra Páli þá söguna um djáknann. Sèra Páll gróf svo steininn upp, og mundu 4 menn naumast hefja hann, þó röskvir væru; svo er hann mikill. Ker er höggvið ofan í hann miðjan. Steinninn er teníngsmyndaður, og þó aflángur. Hann er 1 alin 15 þumlúngar á leingd, en 20 þumlúngar á breidd á hliðinni, sem upp snýr, á hæð 21 þumlúngur. Kerið er ferhyrnt, 8 þumlúngar á leingd, 7 á breidd og 4 á dýpt.

Sumir segja, að djáknasagan eigi heima á Völlum í Svarfaðardal; stúlkan átti að hafa verið á Stafni.[1] Ráðsmaður frá Völlum átti að hafa beðið hennar einhvern tíma á jólaföstunni, en fèkk afsvar, og hèzt við hana. Á leiðinni heim drukknaði hann í Svarfaðardalsá; því hláka var og vatnagángur. Á aðfángadagskvöld jóla var barið að dyrum á Stafni, en Guðrún fór seinast út sjálf, og er sagan frá því eins og hin, en þó ógreinilegri, og ekki í sambandi við neinn stein. Hún má því heita ómerkileg hjá hinni. Í þessari sögu er þess ekki getið, hvar ráðsmaðurinn hafi fundizt, eða hver hafi fundið hann.

**Vofan.** (Eptir handriti Snæbjarnar Egilssonar á Klippstað.) Einu sinni voru hjón, sem áttu eina dóttur barna. Á bænum var vinnumaður, sem hafði hug á henni, en það var henni móti skapi og var hún honum afundin. Það bar til einn jóladag, er fólk fór til tíða, að vinnumaður vildi reiða bóndadóttur yfir á, sem var á leiðinni. Það vildi hún ekki, og bað heldur gamlan mann, sem var í ferðinni, að reiða sig yfir ána, og það gjörði hann. Þá sagði vinnumaður: „Eg skal reiða þig um önnur jól, þó þú viljir ekki.“ Eptir jólin dó vinnumaður og bar ekki til tíðinda, fyrr en á jólanótt hina næstu var barið á dyr hjá bónda. Út var gengið, og sást einginn maður.

1. Eyðikot frá Völlum fram í Valla afrètt.

Svona fór þrisvar; í fjórða sinn er barið. Mælti þá gamli maðurinn til bóndadóttur: „Nú mun sá kominn, er vill finna þig, sá, sem hèt, að reiða þig til kirkju; og er þèr bezt, að gánga út til hans; en ekki skalt þú svara því, þó hann tali til þín.“ Hún gjörir svo, geingur út og sèr gráa vofu á hlaðinu. Hún tók til hennar og setti hana á hest fyrir aptan sig. Þá segir hann: „Í holu, í holu.“ Svona reiddi hann hana lánga leið og sagði: „Hvað hángir í hnakka mínum Gárun, Gárun?“ En þegar hann kom að kirkjugarðshliðinu, reið hann þar inn um, en þá fleygði hún sèr ofan, og skildi þar með þeim.

**Inntak úr söguþætti af Jóni Upplandakóngi.** (Eptir sèra Eyjólf á Völlum í Svarfaðardal og með hans hendi. A. M. Additam. 40. a. 4.) Þann tíma er Ólafr kóngr Haraldsson rèð fyrir Noregi, var sá kóngr á Upplöndum er Jón hèt, úngr að aldri, manna fríðastr, og best að sèr um alla hluti, er helst tekið til hve fagrt hár hans var, að þá hann stóð í lyptíngu á skipi sínu og sól skein, var það sem á gull sæi. Ei var Jón kóngr kvongaðr, þótti hann helst skorta það ráð er honum væri jafnkosta. Mær ein ættstór og ágæt að hvívetna, var þar í landi; gjörir Jón kóngr ferð sína þangað er hún átti heima og biðr hennar sèr til eiginkonu, er honum vel svarað, og kveðið á, nær hann skal aptr koma og vitja þeirra einka mála. Fer hann síðan heimleiðis. Litlu síðar tekr festarmey hans sótt mikla og stríða svo að hún deyr, verðr það hið mesta sorgarefni frændum hennar og forsjármönnum, og gjöra þeir útför hennar sem hæfdi. Þar á bæ var kirkja og garðr um, grófu þeir líkið í garðinum og gengu frá með sút og trega; kemr eingi fregn af þessu til Jóns kóngs, áðr hann býst heiman, og ætlar að sækja brúðkaup sitt; fer síðan af stað, og lèttir eigi fyrr en hann kemr nærri bænum þar hann átti von festarkonu sinnar, var þá mjög náttað; gengr hann nú frá mönnnm sínum til kirkjugarðsins, og er hann kemr inn, sèr hann þar leiði nýgjört en grunar eigi hver undir liggr, reikar síðan aptr utar að hliðinu, hann hafði sverð sitt og vopn öll önnur; sèr hann þá hvar maðr ríðr að hliðinu mikill og hávaxinn, gyrðr sverði með hauk á hendi, og rann hundr jafn framt; og sem hann sèr að maðr er fyrir innan, hopar hann frá tvisvar í sinn. Hið þriðja sinn rennir hann að hliðinu, kastar Jón kóngr þá orðum á hann og spyr hver þar færi og hvað hann hèti. Sá svarar, og segist Alheimr heita. „Hvert er erindi þitt?“ segir Jón kóngr. „Skylt erindi á eg híngað,“ segir Alheimr, „ætla eg að sækja unnustu mína.“ „Hvar er hún?“ segir Jón kóngr. „Hèr liggr hún grafin í garðinum,“ segir Alheimr. „Er hún fyrir löngu dauð?“ segir Jón kóngr. „Fyrir litlu deyði hún,“ segir Alheimr. „Hvat dró hana til dauða?“ segir Jón kóngr. „Sótt höst og hörð,“ segir Alheimr. „Mundi sóttin sjálfkrafa eðr menn valda?“ segir Jón kóngr. „Þau völd má eg mèr kenna,“ segir Alheimr, „gjörða eg það með kunnáttu minni,

að mærin sýndist sjúk og síðan örend og fal með henni öndina, var það fyrir þá sök, að eg vilda að engi maðr nyti hennar utan eg.“ Nú þykist Jón kóngr vita hver sú er, sem þeir ræddu um, og mælti: „það var mín unnusta en ei þín.“ „Aldrei skaltú hennar njóta,“ segir Alheimr; brá hann þegar sverði og hjó til Jóns kóngs, en hann skaust undan högginu að hundi Alheims, er var fyrir framan hestinn og drap hann, leist honum sem hann mundi lítt bæta ef þeir Alheimr ættist við. Hjó Alheimr þá aptr til Jóns kóngs; þess höggs vildi hann eigi bíða og hjó í móti til Alheims og í því sama höggi höfuð af hesti hans og sjálfum honum aðra höndina sem á var haukrinn, og haukinn til dauðs. Þá mælti Alheimr: „Beggja þarf eg handanna þar sem eg á heima;“ sneri síðan brott við svo búið og kvað þetta:

„Hestr er lestr, haukr er dauðr,
hundr er sviptr lífi,
gengr drengr or garði snauðr,
gott hlaut ekki af vífi.“

Gekk Jón kóngr þá til manna sinna, og lèt jafnsnart grafa þar til sem festarmey hans lá, og taka hana upp, fanst hún þá heil og lífs, varð þar mikill fagnafundr með þeim Jóni kóngi, en frændr hennar urðu svo fegnir, að ei má greina. Drakk Jón kóngr svo brúðlaup sitt með sæmd og virðíngu, og fór síðan heim í ríki sitt með konu sína.

Inntak sögupátta af Jóni Upplandakóngi og Ásmundi flagðagæfu (sbr. 171—179. bls. hèr á undan) ritaða eg eptir því sem eg heyrða segja í uppvexti mínum Björgu Ólafsdóttur móðurmóður mína að Barði, og síðan eptir henni Vilborgu Sveinsdóttur að Seltjarnarnesi. Kunni móðurmóðir mín háða þessa páttu fulla og hafði þá numið í rèttu sagnamáli af gömlum kálfskinnsbókum og heyrt þar um fram 12 rímur af þætti Ásmundar; mundi hún úr þeim allmörg erindi, og sagði þær einar hinar elstu er hún hefði heyrðar. En því olli bernska mín og gáleysi að ei nam eg af henni meira þessara fræða, gáðu þess ei heldr börn hennar, er hjá henni vóru lengi; var hún kvenna fróðust í sögum, rímum, ættum, dæmum, og hin minnigasta, og hafði heyrt flestar sögur er þá fundust hèr á landi ritaðar á norrænu, innlendar og útlendar, fyrst í uppeldi sínu á Breiðahólstað í Vestrhópi, af þeim bókum er þar vóru í láni þrjú ár úr Ögri vestan af kálfskinni ákaflega stórar, önnur í spjöldum önnur án spjalda, og þeim er þangað lèði Gísli lögmaðr Hákonarson að Bræðratúngu,[1] síðan fullorðin að Hólum af bókum þeir er herra Þorlákr biskup hafði, og lèt víða útvega og margar upp skrifa. Hún andaðist á Barði hjá Jóni presti Sveinssyni syni sinum 1690. 76 ára. E. J. (Eyjólfr Jónsson.)

**Bakka-draugurinn.** (Eptir sögn Hrútfirðinga í Strandasýslu.) Í fyrndinni á bærinn Bakki (nú kallaður: Prestsbakki) í Hrútafirði, að hafa staðið á hólum þeim norður við sjóinn, sem heita Hellishólar. En hann var seinna fluttur þaðan vegna reymleika, og settur þar, sem nú er hann. Svo stóð á, að bóndamaður í sókninni hafði beðið dóttur prestsins á Bakka, en fèkk hennar ekki. Þetta gramdist manninum svo mjög, að hann sýktist og dó.

1. Hauksbók var frá Ögri; Þiðrikssaga frá Bræðratúngu brann 1728. (Guðbrandur Vigfússon.)

Var hann grafinn að Bakkakirkju. Þetta gjörðist um sumar, og leið svo fram á vetur, að ekki bar neitt til tíðinda, en nokkuð þókti mönnum prestsdóttirin undarleg um veturinn. Svo bar við eitt kvöld, að fóstra hennar, gömul kona og margfróð, gekk út í kirkjugarð með prjóna sína. Þá var veður gott, og óð túngl í skýum. Prestsdóttirin hafði sagt henni, að maðurinn kæmi til sín á hverju kvöldi, og væri mjög blíður við sig og góður. Sagði hún, að sèr leiddist hvað opt hann væri hjá sèr, og kvað nú svo komið, að hún væri með barni af völdum hans. Hún sagði og, að hann segði, að lítil heill mundi standa af barni þeirra, þegar stundir liði fram. Bað hún þá fóstru sína, að ráða bót á vandkvæði þessu, og því fór nú kerlíng út í kirkjugarðinn, eins fyrr segir. Gekk kerlíng að gröf mannsins, og var hún opin. Lèt hún þá bandhnykilinn sinn ofan í gröfina, og settist á grafarbakkann, og var að prjóna. En ekki komast draugar ofan í gröf sína, ef maður lætur einhvern hlut niður í hana, og það vissi kerlíng; því lèt hún hnykilinn ofan í hana. Þarna sat nú kerla, og beið, þángað til draugsi kom. Hann bað hana, að taka hnykilinn upp úr gröfinni sinni, svo hann kæmist ofan í hana. Kerlíng sagðist ekki bera það við, fyr en hann væri búinn að segja sèr allt um það, hvernig stæði á þessu hans næturgöltri. Draugsi sagðist vera að heimsækja prestsdóttur; „því nú getur faðir hennar ekki meinað mèr það," segir hann. „Hefi eg nú barnað hana, og geingur hún með sveinbarni." „Segðu mèr, hvað fyrir því barni liggur," segir kerlíng. „Það liggur fyrir sveininum," segir draugsi, að hann mun hèr prestur verða á Bakka, og mun þá kirkjan sökkva með öllum þeim, sem í henni eru, þegar hann blessar í fyrsta sinn yfir söfnuðinn fyrir altarinu, og þá ætla eg þess fullhefnt, að eg fèkk ekki prestsdóttur í lifanda lífi." „Ill er spá þín, ef hún rætist," segir kerlíng, „eða hver ráð eru til að hamla býsnum þessum, eða afstýra þeim?" „Þau ráð eru til þess," segir draugurinn, „að einhver reki prestinn í gegn fyrir altarinu í því hann ætlar að fara að blessa yfir fólkið. En til þess mun einginn verða." „Heldurðu það," segir kerlíng, „eða eru nokkur önnur ráð til að hamla óhamíngju þessari?" „Nei, eingin önnur," segir draugsi. „Far þú þá niður í gröf þína," segir kerlíng, „og kom þú aldrei upp framar." Tók hún þá upp hnykilinn, en draugsi fór ofan í gröfina, og lnktist hún. Las kerlíng svo yfir gröfinni, að aldrei varð vart við apturgaunguna framar. Gekk nú kerlíng heim aptur, og sagði eingum, hvað gjörzt hafði. Leið nú þar til, að prestsdóttir varð lèttari, og ól hún sveinbarn mikið og frítt. Ekki er þess getið, að hún hafi sagt föður sínum til faðernis sveinsins, og ólst hann upp á Bakka hjá móður sinni og afa. Snemma sást það, að pilturinn var afbragð annara barna, bæði til sálar og líkama. Þegar hann þroskaðist, var hann settur til menta, og þókti jafnan skara fram úr öllum öðrum. Leið svo fram, þángað til hann var útlærður orðinn. Varð hann þá aðstoðarprestur afa síns.

Nú víkur sögunni til gömlu konunnar, fóstru prestsdóttur. Hún sá nú, að ekki mátti leingur standa við svo búið; því þar mundi að koma, sem draugsi hafði sagt henni forðum. Gekk hún þá til sonar síns, sem var hinn hugaðasti maður, og lèt sèr ekki alt fyrir brjósti brenna, ef á lá. Sagði hún honum þá upp alla sögu, og skoraði á hann, að vega að presti, þegar hann ætlaði að fara að blessa yfir söfnuðinn fyrir altarinu. Sagðist hún ætla að reyna að ábyrgjast, að hann hefði ekki neitt ílt af því. Maðurinn var tregur til að gjöra þetta, en fyrir lánga nauðan og sárbeiðni móður sinnar, hèt hann því þó á endanum, og tók kerlíng eið af honum upp á að bregðast sèr ekki. Leið nú að degi þeim, sem hinn úngi prestur átti fyrst að messa, og kom múgur og margmenni til kirkjunnar. Dáðust allir að fimleik hins únga prests, og ræðu hans. En þegar hann lypti upp höndunum, og fór að blessa yfir söfnuðinn, benti gamla konan syni sínum. Stóð hann þá upp, og þó nauðugur. Lagði hann þá prestinn í gegn, og fèll hann dauður niður. Kom þetta öllum mjög á óvart, og vildu menn taka vegandann. Sumir fóru að stumra yfir prestinum, en þó fannst ekkert eptir af honum nema banakrínglan. Hún lá í grátunum fyrir framan altarið. Sáu menn nú, að hèr var ekki alt með feldi. Gekk þá gamla konan fram, og sagði upp alla söguna frá upphafi. Urðu þá allir mjög óttaslegnir, og þökkuðu kerlíngu fyrir framkvæmdarsemi sína og dugnað. Þá sást það og, að kirkjan hallaðist, og var kórinn síginn nokkuð niður. Hafði það komið af því, að presturinn var búinn að tóna fyrstu orðin af blessunarorðunum, þegar hann var drepinn. Eptir þenna atburð varð svo reimt á Bakka, að bærinn var fluttur burt, og settur þar, sem nú er hann.

**Feykishóla-draugurinn.** (Eptir handriti sèra Sveins Níelssonar.) Í Feykishólum (upp frá Hvalsá í Hrútafirði) var fyrr meir kirkjustaður. Þegar þessi saga gerðist, bjó þar ríkur bóndi skólageinginn. Hann átti eina dóttur, gjafvaxta, góðan kvennkost. Á vist með honum var úngur maður og efnilegur, og lèk orð á, að hann legði hug á bóndadóttur, en hún tók því lítt. Um haust eitt, reru menn til fiskjar frá Hvalsá, og var tèður úngi maður einn af hásetunum. Skipinu, sem hann var á, barst á í lendíngunni, og fórust 2 skipverjar, og var hann annar þeirra. Lík hans rak af sjó, og var grafið að kirkju á Feykishólum. Reymt þókti eptir mann þenna í Feykishólum, einkum þókti bóndadóttur hann vitja sín opt um nætur. Það bar til á næsta vari, að húsbændur í Feykishólum höfðu farið í brúðkaup úti Bitru, og var fátt manna heima, en nýkomin vinnukona vakti yfir túni í góðu veðri. Bóndadóttir vildi vaka með henni, en gat ekki, því á hana sókti svefn, svo hún háttaði í rúmi sínu. Þegar vinnukona hafði rekið frá túni, fór hún heim, og settist upp á kirkjuna svo af henni mátti sjá yfir alt túnið; hún hèlt á prjónum og bandhnykli. Þegar

hún kom uppá kirkjuvegginn, sezt hún niður, og varð henni þá litið ofaní garðinn; sèr hún þá, að gröf ein, skamt frá kirkjuveggnum, stendur opin; húu hugsar, að þetta muni tíðindum sæta, og með því hún var einbeitt, hugsar hún sèr nokkurt ráð, hnýtir bandið fast að hnykli sinum, og lætur hann síðan falla ofaní hina opnu gröf, svo hún gat dregið hann upp, þegar hún vildi. Þegar hún hefir setið þar nokkra stund, kemur maður út úr bænum, og geingur að hinni opnu gröf, lítur ekki til stúlkunnar, en ætlar að láta fallast ofan í gröfina. En þá sèr hann bandhnykilinn; og hikar sèr, lítur til stúlkunnar, og biður hana kippa upp hnyklinum. Hún kveður nei við, og segir, að þau verði eitthvað við að talast meir. Hann biður hana þá með blíðum orðum, en hún hefir sömu svör. Hann mælist undan við tali við hana, þá segist hún með ölln banna honum ofan í gröfina aptur, nema hann skýri sèr fyrst frá, hver hann sè, og hvernig á ferðum hans standi. Hann kveðst þá neyðast til að láta að orðum hennar og mælti: „Eg er hinn úngi maður, er hèðan druknaði á Hvalsá næstliðið haust. Meðan eg lifði, hafði eg ástarhug á dóttur bóndans hèr, og vildi eiga lag við hana, en hún synjaði þess jafnan. Síðan eg dó hefi eg opt vitjað hennar, en nú fyrst í nótt komið vilja mínum fram, því hún var ein inni; mun hún þúnguð verða af mínum völdum, og ala son, og að því búnu mun hún deya af barnsförum. Sonur hennar mun alast upp hjá afa og ömmu, og líkjast mèr mjög að útliti. Hann mun verða frábær að næmi; mun afi hans setja hann til menta; tvítugur mun hann taka prestsvígslu, og flytja sína fyrstu messu hèr í Feykishólum, og mun honum takast það áheyrilega. En þegar hann eptir prèdikun á að blessa yfir söfnuðinn frá altarinu, mun hann snúa blessunar orðunum í römmustu formælíngu, og það með slíkum krapti, að kirkjan mun sökkva með öllum söfnuðinum.“ Þegar stúlkan heyrir þessa spá, spyr hún hann, hvort eingin sèu ráð til að afstýra svo hryllilegri óhamíngju. „Jú,“ segir dranguriun, „það er eina ráðið til þess, að reka son minn í gegn með helguðu járni í því vetfángi, sem hann snyr sèr frá altarinu, og ætlar að byrja formælínguna í stað blessunarinnar; því undir eins og hann byrjar að tóna formælínguna verða allir áheyrendur svo höggdofa og sinnulausir, að eingínn fær aðhafzt. En verði hann áður þannig í gegnum lagður, mun hann hverfa, og ekki verða annað eptir í messuklæðunum en 3 blóðdropar, sem eru eptirleifar skírnarinnar. Nokkrum tíma þar á eptir mun bærinn og kirkjan brenna hèr til ösku, án þess neinn viti orsök til. Síðan mun bygð hèr eyðast, og hèr aldrei framar bygð verða, nema eitt kot lítið.“ Þegar draugurinn hafði þannig lokið spá sinni dró stúlkan hnykilinn til sín upp úr gröfinni, en dranguriun hvarf og gröfin byrgðist. Það kom alt fram, sem draugurinn hafði sagt. Stúlkan lèt heimulega skrásetja söguna eða spána, svo hún týndist ekki, þó hún dæi sjálf. En hún lifði það að sonur bóndadóttur lærði í skóla og vígðist til prests. Hún var líka í kirkjunni í Feykishólum,

þegar hann flutti þar sína fyrstu messu. Maður hennar var þar meðhjálpari, og sat norðanvert við altarið; hafði hann undir klæðum hvast lagjárn, hert í vígðu vatni, og lagði hann prestinn ígegn með því í því áður áminnsta vetfángi; hvarf hann þá öldúngis, og varð ekkert annað eptir af honum, en 3 blóðdropar. Nokkru síðar brann kirkjan og bærinn á Feykishólum, en bygðin eyddist þar í svarta dauða.

**Héðinsfjarðar-vofa.** (Eptir handriti Gísla Konráðssonar.) Bær heitir á Hvanndölum, milli Ólafsfjarðar og Héðinsfjarðar í Vöðluþíngi. Geirmundur hèt þar bóndi, og átti hann dóttur, sem hèt Freydís, og var hún sögð skapstór mjög. Hennar fèkk maður frá Ámá í Héðinsfirði, er hèt Gunnar, og fóru þau að búa á Möðruvöllum þar í firðinum. Geirmundur á Hvanndölum var sjósóknari mikill, og kallaði jafnan dótturmann sinn til róðra með sèr, en Freydís bannaði honum að róa, og unni hún honum mjög; þó reri hann opt með Geirmundi. Var það eitt sinn, að hún bannaði honum harðlegar að fara, en nokkru sinni áður; en hann sagðist þó mundi fara; bar þeim þá á milli, og er sagt, að hún teldi hann ekki mundi koma heilan aptur, og að verst mundi hún sjálf af því hafa. Í róðri þessum drukknuðu þeir Geirmnndur og Gunnar. Sagt er, að Gunnar vitjaði rekkju Freydísar nóttina eptir, og eptir það því nær á hverri nóttu, en eingum varð mein að því; allvel segja menn, að Freydísi hafi geðjazt að því, og undi hún mæta vel við drauma sína, meðan hún lifði og bjó á Möðruvöllum. En fyrir nokkrum tíma hafði Gunnar hætt að venja komur sínar þángað, er hún dó. En eptir þetta er sagt, að hún hafi ekki legið kyr, og svo var reymt eptir hana, að hún eyddi alveg bæinn á Hvanndölum, og urðu þeir í eyði, og einnig Möðruvellir. Var það um lángan tíma, að menn sáu Dísu skrölta þar í skálatóptum. Þó var hún að síðustu sett niður af galdramanni nokkrum, er var feinginn til þess af Héðinsfirðíngum; því einginn fènaður kom svo í Möðruvalla landareign, að hann væri ekki meiddur eða drepinn; en þó er sagt, að hverjum kvonguðum manni væri óhætt að koma að Möðruvöllum, og þar í landareignina, en ókvonguðum ekki, því að hún lèti þá ekki í friði. En ekki er sagt frá því, hver þessi maður hafi verið, eða hvaðan hann hafi verið, er kom Dísu fyrir. Sögur þessar hafa geingið mann frá manni hjá Héðinsfirðíngum og Fljótamönnum.

Laungu eptir þetta tók maður nokkur, sem hèt Gísli, Möðruvelli, sem þá voru í eyði, og er hann gróf til undirstöðu til baðstofu, fann hann hellu mikla undir baðstofugaflinum; hann gat losað um hana, og voru undir henni hlóðir, hlaðnar úr grjóti, sem venja er til; hann fann í hlóðunum rúnablöð nokkur með ýmislegum myndum; tók hann þau, og lèt í kistu sína. Gísli átti móður gamla, og brá henni svo við, að það fór að sækja að henni á næturnar. Fór það svo, að hún andaðist; var þá Gísla ráðlagt að brenna blöðin, og gjörði hann það; en jafnan sókti hann illa að eptir

það. Síðan flutti Gísli sig búferlum að Molastöðum í Stíflu, fram af Austurfljótum. Var það þá einn sunnudag, að hann reið ofan að Holtskirkju, og var margt fólk í kirkjunni og þar mjög heitt, svo að margar konur fèllu í ómegi í kirkjunni, og voru þær bornar út úr henni. þrjár vinnukonur frá Hrauni í Fljótum duttu einnig í dá á heimleiðinni. þá bjó þar Einar Guðmundsson, umboðsmaður Reynistaða klausturjarða, kona hans var Guðrún Pètursdóttir; syni átti hann þrjá, Baldvin, Bessa og Guðmund. Síðan, er fólk kom heim frá Holtskirkju að Hraunum nóttina eptir, bar svo við, að vinnukona ein leið 30 sinnum í aungvit, önnur 15 sinnum, og hin þriðja nokkrum sinnum; fleiri urðu þar varir aðsvifa. Aðra nótt byrjuðu enn aungvitin. Var þá að heyra líkast því, sem húð væri dregin um bæinn. Hlupu þeir þá út Guðmundur, sonur Einars umboðsmanns, og Guðmundur Sveinsson vinnumaður, og hafa þeir sagt frá þessu. Sáu þeir þá flyxu eina í mannslíki hlaupa frá bænum og fram til Fljóta, og sögðu, að hún hefði verið með rauðmórauða skótthúfu. Við þetta lètti nokkuð aungvitunum; aldrei feingu menn þau um daga, en opt á næturnar. þó var það einhvern dag, er menn voru á sjó í legum, að konur fóru að líða í aungvit, og hið sama kvöld kom Gísli á Molastöðum. Guðrún kona Einars fór þá að ávíta Gísla harðlega fyrir fylgju hans, og fór svo, að hann grèt, sagðist ekki geta að því gjört. Um nóttina hèldust aungvitin við; en um morguninn tók Guðrún vönd og hýddi bæinn allan innan, og síðan upp á bæinn og hýddi við alla glugga, og hèt því, að hún skyldi fara þannig að bæði kvöld og morgna, meðan aðsókn þessi væri. Svo sagði Guðmundur Sveinsson, að reymleikinn hefði hætt við þessar aðfarir Guðrúnar á Hraunum, þó menn annarstaðar yrðu varir við hann í Fljótum.

**Ekkjan á Álptanesinu.** (Eptir handriti sèra Skúla Gíslasonar á Stóranúpi.) þorkell hèt maður norðan úr Húnavatnssýslu; hann var vænn yfirlitum og ásjálegur. Um tvítugs aldur fór hann suður til sjóróðru; var hann duglegur, til hvers sem hann gekk. Ìleingdist hann á Álptanesi og var í þjónustu danskra á sumrin, og kom sèr vel við þá, enda lèt hann þá hafa sig, til hvers sem þeir vildu. Græddist honum nú fè og var mælt hann væri í þíngum við únga ekkju þar á nesinu, ásjálega og efnaða; en skapmikil og sköruleg þókti hún vera. Sagði margur, að þar væri jafnræði. En um þessar mundir komst þorkell í mikla kærleika við hirðstjórann sjálfan; var hann honum fylgisamur gegn innanlands höfðíngjum og biskupum. Hugðist nú hirðstjórinn að launa honum liðveizluna, hèt honum þjónustustúlku sjálfs sín, og gjörði þíngeyraklaustur upptækt til handa honum; skyldi þorkell fara norður um vorið, til að losa klaustrið, en vitja ráðahagsins vorið eptir. þó fór ráðagjörð þessi dult. þegar þorkell bjóst af stað, grunaði þó ekkjuna, hvað um var að vera, og spurði hann, hvort hann væri heitinn öðrum kvenmanni. þorkell gaf henni óglögg

svör. Hún mælti: „Vita skaltu það þorkell, að bráðum skal eg verða vís hins sanna, og sèn svik í tafli, skal eg verða bani hinnar dönsku pútu, er þú hefir metið meir, en mig, og síðan drepa sjálfan þig, muntu þá stutta stund búa að þeirri höfðíngjahylli, er þú hefir keypt með dreingskap þínum.“ Ekki er getið annara orða þeirra. Fór þorkell norður og tók þíngeyraklaustur undir sig. Um sumarið kom ekkjan að Bessastöðum, hitti hún þá hina dönsku stúlku að máli, og spurði, hver hefði gefið henni fíngurgull það, er hún hafði á hendi. Hún sagði þorkell hefði gjört það; rausaði hún nú alt af högum sínum, eins og dönskum er títt. Sagðist hún ekki muna önnur orð hirðstjórans, en þau, að hann mundi gipta sig íslenzkum sveini sínum. Ekkjan sagði: „Berðu eingan kvíðboga fyrir því.“ Skildi hún síðan við hana heldur fálega, og varð ekki af kveðjum. Fám dögum síðar dó ekkjan, og þókti það kynlegast, að líkið hvarf fyrstu nóttina, sem það stóð uppi. Nóttina eptir tók hin danska stúlka á Bessastöðum meinsemd mikla, svo hún mátti eingan frið hafa; dó hún innan þriggja nátta með mestu harmkvælum. þetta var að liðnum slætti, þegar nótt var farin að verða dimm. þess er getið, að kaupamaður nokkur sunnan af Álptanesi, heldur aldurhníginn, fór suður um haustið og fór einn sèr. Maður þessi var skygn og vissi svo mikið frá sèr, að hann gat forðað sjálfum sèr voða. Í rökkrinn reið hann upp Skútaeyrar og hafði hest í taumi. Sá hann þá, hvar kvennmaður kom móti honum og þekti þar ekkjuna. þókti honum hún vera heldur skrefadrjúg og fasmikil; þóktist hann sjá, hvað vera mundi, því hann hafði grun á, hvernig á stóð. Hann hopaði hestinum úr götunni. En þegar hana ætlaði að bera framhjá, segir hann: „Hvert ætlarðu núna?“ „Að þíngeyrum,“ segir hún; „það er ekki svo lángt, að eg nái ekki háttum og geti geingið til sængur með þorkelli, því þeir fara seint að hátta höfðíngjarnir. En þú varst hygginn, að tálma ekki för minni; því það hefði hvorugu okkur verið til gagns.“ Hið sama kvöld, þegar þorkell gekk til sængur, fannst honum, eins og gripið utan um sig; fylgdi því hið harðasta tak. Kvaldist hann svo, að beinin skröptu í skinninu, og þóktust menn opt heyra millum kastanna, að hann beiddist vægðar. Við þessi harmkvæli lá hann fram til jóla og andaðist svo. En þó þorkell yrði ekki lánggæðari en þetta, var hann þó hinn fyrsti valdsmaður á þíngeyrum, og hefir þar jafnan síðan verið höfðíngjasetur.

**Jóka.** (Eptir sögn Eyfirðínga.) Jóakim hèt úngur maður á Hörðsá í Eyafirði. Hann komst í kunníngsskap við stúlku, er Jórunn hèt, í Hvammi í Hrafnagilssókn. Á jólaföstunni bar svo við, að hún ætlaði að fara kynnisferð norður að Grenjaðarstað, og fylgdi Jóakim henni. þau ætluðu Bildsárskarð, og geingu upp gil það, sem liggur ofan úr skarðinu, og dimdi að af hríð. Nú geingu þau upp gilið, en þá fèll á þau snjóflóð, svo stúlkan lenti í því, en hann komst úr því um kvöldið, og í hríðinni komst hann

ofan að Brekku. Þegar birti upp hríðina, var farið að leita, og fanst hún örend í snjóflóðinu; hún var lögð á sleða, sem átti að aka henni heim á, en þegar leitarmenn fóru ofan gilið, tók snjóflóð sleðann með henni á aptur; fóru menn heim við svo búið. Þarna sat hún 2 eða 3 daga, þángað til sleðinn fanst; síðan var hún jörðuð. En þegar leið á veturinn, fór Jóakim að dreyma hana, og sá hann hana líka, en hann lèt lítið á því bera. Næsta haust eptir, fór hann í gaungur norður í Fnjóskadal, og tjaldaði hann með öðrum mönnum í Rèttarnesi á Bleiksmýrardal. Um nóttina vaknaði einn af fèlögum hans og saknaði hans úr tjaldinu; hann vakti hina og fóru þeir að leita, en túnglsljós var. Þeir fundu hann þá niður undir á sofandi, og gátu þeir loks vakið hann; hann var þá svo máttvana, að þeir þurftu að bera hann til tjaldsins, og voru bólgnir og bláir fætur hans, og sáust eins og fíngra för á þeim. Hann sagði sig hefði dreymt hana, og hún hefði dregið sig á fótunum, og ætlað með hann í ána. Síðan var hann fluttur heim, og reyndar lækníngar við fætur hans, en ekkert dugði, þángað til einn maður ráðlagði, að skera torfu úr leiði Jóku, og leggja við fæturna, og þá batnaði honum. Þá fór fólk að dreyma hana og sjá, bæði skygnir sem óskygnir á undan Jóakim. Nú leið og beið, að hann giptist konu, Jórunni að nafni, og fór að búa á Ytrahóli í Kaupángssveit. Hann eignaðist dreing með konu sinni, og var hann mesta efnisbarn þángað til hann var fjögra vetra, þá varð hann afsinna, og einsog fábjáni, og varð hann tvítugur. Það kendu menn Jóku, og töldu menn það víst við þann atburð, er skeði. Ólöf, kerlíng utan úr Kræklíngahlíð, kom að Ytrahóli eitt var um stekkjar tíman; hún var beðinn, að vera hjá dreingnum meðan að fólk væri við stekkinn; hún gerir það, og sest á rúmstokk hjónanna með prjóna sína, en dreingurinn leikur sèr um pallinn, og hleypur fram í baðstofudyrnar. Hún fer að taka eptir því, að dreingur kemur blóðrjóður og eins og hræddur til hennar; hún spyr, hvað hann hræðist, stúlku, mælti hann, er kæmi inn; hún fer svo með honum fram að dyrunum, þá sèr hún stelpu í gaungunum á svartri hempu, og rauðum sokkum, eins og hún var, þegar hún varð úti; hún hverfur þá, en kerlíng sest á pallstokkinn. Síðan fer dreingurinn að horfa útí gluggann; kerlíng tekur eptir því; fer hún þá uppá rúmið aptur, og sest móti glugganum, sýnist henni þá skugginn bera við hana; hana grunar, hvorskyns er, og fer að tauta eitthvað og vísa henni frá, og varð dreingur ei var við hana framar um kvöldið. Opt drap Jóka skepnur fyrir Jóakim. Laungu síðar dó kona hans, og var sá siður í þá daga, að vaka yfir líkinu með ljósi; en svo var Jóakim myrkfælinn, að hann treystist ekki til þess einn, og fèkk svo Árna Magnússon að vaka með sèr, en tvisvar var eins og ljósið væri drepið fyrir þeim, og kvað Árni, að bezt væri að sitja þá í myrkrinu, og gerðu þeir það. Opt heyrðist Árna eins og geingið væri um bæinn og stofuna, og tvisvar heyrðist honum geingið upp um stofuþekjuna úti, en

eingin sá hann förin, þegar hann kom út, og gætti að. Jóakim þessi flutti sig eptir það á austurland, og vita menn ógjörla um hann síðan, eða Jóku.

Einu sinni sem optar var grafið í Kaupángskirkjugarði, og hittist svo á, að komið var ofan á kistu Jóku. Jón, sem hjó þá í Kaupángi og seinna í Hallandi á Svalharðsströnd, var einn af líkmönnunum; hann var gáskafullur, og segir við hina, að gaman væri, að vita, hvert kella væri í kistunni, eða lagi rètt; hinir kváðu það vera óþarfa, en hann tók eingu að síður járnkarl, og hrýtur gat á kistuna, og segir: „þarna er hún þá kyr.“ Um haustið fer hann fram á Staðarhygð, og ríður tilhaka um kvöldið, en þegar hann kemur út fyrir Þverá, kemur hann hestinum ekki úr sporunum; sèr hann þá fram undan sèr eins og hvítan strók; hesturinn frísaði og hleypur með Jón, þángað til hann hrýtur af baki; laskaðist þá öxl hans svo, að hanu varð aldrei jafngóður framar í henni.

**Möðrudals-Mánga.** (Eptir handriti Jóns Sigurðssonar í Njarðvík í Múlasýslu.) Bjarni Jónsson var síðastur prestur í Möðrudal; síðan hafa þar þjónað ýmist prestar frá Hofi eða Hofteigi.

Upphaf Bjarna prests var lítið; hann var fjósadreingur lítilhæfur á Skriðu í Fljótsdal, hjá Jóni sýslumanni Þorlákssyni. Einfaldir sögðu að klínt hefði verið á hann prestsvígslu, til að magna draug, sem átti að drepa bezta mann í Fljótsdal, er Magnús hèt, og gjöra fleira ílt af sèr. Magnús þessi flýði til Magnúsar prests Pèturssonar á Hörgslandi, sem rèð honum til, þegar hann færi til haka austur aptur, að varast að líta nokkurn tíma aptur, hver hýsn og fádæmi sem ágeingi á eptir honum. En á Skeiðarársandi gat hann ekki stilt sig um að líta aptur. Sá hann þá 18 uppvaknínga utan um þenna draug, sem honum var sendur, og voru þeir þá búnir að koma honum á knè. En óðar, en maðurinn leit við, brauzt draugurinn upp undan hinum, og varð að lyktum Magnúsi að bana. Bjarni varð síðan prestur í Möðrudal;[1] fyrri kona hans hèt Margrèt; hún elskaði

1. Ekki þóktu kraptmiklar ræður Bjarna prests í Möðrudalskirkju, heyrt hefi eg eina klausu litla; hún er svona: „Vèr haungum, vèr haungum, eins og skeifa undir afgömlum húðarklár; æ! tak þinn himneska naglbít, og drag oss undan þeirri fúlu veröldinni, og kasta oss í þína skrifliskistu, þar eð vera mun eilíf sæla. Amen! Amen!“ þá eptir messu sagði kerlíng ein við prest: „Mikið heiðarlega fórst yður í dag, sèra Balli.“ þá sagði prestur: „þú ert ekki vönd að, kella!“ — Líkt þessu er mælt að sèra Grímur hafi kveðið vers á stól:

„Úr hrosshóf bölvunar heiminum
herra drag nagla smá,
miskunar hamri með sterkum,
munu þar klaufir á;
í ruslakistu á himnum,
oss varpi náð þín há,
þar elskan hoppar innanum.
Amen, halelújá.“

S. G.

Bjarna prest mikið, en dó af barnsförum. Aður hún dó bað hún mann sinn muna sig um, að giptast ekki aptur. Bjarni hèt henni því. Áður en hún lagðist, var hún að prjóna mórauðan smábandssokk. Strax, eptir að hún var látin, fór að bera á apturgaungu hennar. Heyrðu menn á nóttum bústáng mikið fram í búri og eldhúsi. Sáu hana opt bæði freskir og ófreskir. Var hún með faldskuplu eins og áður, gildvaxinn, því ekki fjölgaði hjá henni, og var ætið að prjóna mórauðan smábandssokk. Ekki leið lángt um, að Bjarni fèkk sèr konu aptur. En þegar hún steig í eina sæng hjá Bjarna presti, og var komin upp fyrir hann í rúmið, kom Mánga, og settist fyrir framan hann á rúmstokkinn. Þá sagði Bjarni: „Farðu í burtu Margrèt; það er úti sú tíð, sem þú átt hèr að vera." Mikið gekk á af apturgaungu Möðrudals-Maungu; hún kvaldi konu Bjarna prests, og um síðir varð hún henni að bana. Í þriðja sinn fèkk Bjarni sèr konu. Honum var ráðlagt að fá sèr einhverja þá konu, sem Margrèt hefði ekki sèð. Sókti hann hana í Vopnafjörð; mig minnir hún hèti Ragnhildur, og mun hún hafa lifað Bjarna prest.

Bjarni varð bráð-dauður milli Eiríksstaða og Hákonarstaða, á Efradal, snemma vetrar. Fanst hann síðla dags, og var tjaldað yfir líkinu, og feingin til að vaka yfir tjaldinu úng stúlka og einhuga, sem Guðrún hèt, frá Eiríksstöðum. Hún varð kona Þorvarðar, er bjó síðar á Hallgeirsstöðum í Jökulsárhlið, föður Guðmundar bónda á Aðalbóli í Hrafnkelsdal, föður Önnu, er enn lifir. Tjaldið stóð skamt frá Jökulsá; túnglsljós var á, en dró frá og fyrir. Hún sagði, að um dagsetrið hefði komið hrafnaflokkur mikill upp úr gilinu, gráir á lit, og sóktu svo freklega að tjaldinu, að hún hafði eingin ráð með að verja það; þó hún ræki þá frá sinni tjaldskörinni, voru þeir óðar búnir að rífa hina upp aptur. Þetta gekk alla nóttina til dags, og alla nóttina sá hún Maungu sitja í brekkunni fyrir ofan, og var hún að prjóna smábandssokkinn mórauða. Guðrún sagðist aldrei hafa verið eins þreytt, eins og eptir þá nótt. Hún hafði fyrir sèr nýa svuntu um kvöldið, en um morguninn var hún útslitin, svo lèt hún svuntuna gánga. Guðrún þótti fyrirtaka kona meðan hún lifði.

Eptir lát Bjarna prests lagðist Möðrudalur í eyði vegna reimleika, en húsin stóðu, svo ferðamenn neyddust til stöku sinnum að leita sèr þar húsaskjóls, þegar þeir urðu dagþrota, svo sem var Gísli prestur gamli Gíslason á Desjarmýri, þegar hann kom frá vígslu og fór til brauðs síns; hann varð dagþrota og fór þar inn alt í baðstofu, og bjóst um á palli. Hápallur var í baðstofunni, og sinn pallur í hvorum enda. Þegar hann var kominn upp á pallinn og litaðist um, sá hann að Mánga sat framan á hápalli, og var að prjóna. Þegar hann leit hana, steyptist hún ofan, en alla nóttina heyrði hann bústáng mikið frammi, hurðaskelli og koppaköst, svo honum kom ekki dúr á auga. Annar maður leitaði þar eittsinn náttstaðar. Þá sat hún á hápalli sínum og var að prjóna. Maðurinn var

einhuga tók upp tóbaksbauk sinn og bauð henni í nefið. Henni brá svo við, að hún fleygðist ofan, og fór að brauka í búri og eldhúsi, svo gestum varð ekki svefnsamt.

Þetta og þessu líkt höfðu menn í frásögum um Möðrudals-Mangu.

**Gísli heiptrækni.** (Eptir handriti frá séra Eiríki Kúld á Helgafelli.) Guðrún, kona Teits, er drepinn var í hinni síðustu jólagleði undir Jökli, flutti eptir lát manns síns, að Klettsbúð. Það var siður hennar, að fara suður í rèttir í fjárkaup. Einu sinni, þegar hún kom þaðan, dvaldi hún í Ólafsvík við litla verzlun, en samfylgdarmenn hennar hèldu á fram með reksturinn. Seint um kvöldið fór hún á stað og út að Enni; var þá sjór fallinn undir forvaðana, svo hún komst hvorki fram nè aptur; fór hún þá upp undir klettana til að verja sig sjónum, og hugði að bíða þar útfallsins. Tók hana þá að sigra ákaflegur svefn, svo hún batt tauminn á hestinum við beltisband sitt, og sofnaði síðan fast. Loksins vaknaði hún við það, að hesturinn kipti svo fast í, að beltisbandið slitnaði; sá hún þá mann standa hjá sèr og spyr hún hann að heiti, en hann segist heita Gísli. „Hvar áttu heima?“ segir hún. „Hèrna fyrir framan þaragarðinn,“ segir hann, „og er eg þar hjá kvennmanni, sem var druknaður 14 árum áður en eg, og erum við svo innibyrgð undir þúngum þara, og munum við ekki leysast þaðan fyrr en á dómsdegi.“ „En hvað viltu mèr?“ segir hún. „Drepa vil eg þig,“ segir hann. „Hvers á eg að gjalda?“ segir hún. „Það skal eg segja þèr,“ segir hann: „Einu sinni var eg í Hólskirkju, og sá konu koma þar inn, sem mèr þókti bera af öðrum; eg sá, að hún var ekki einsömul. Eptir embættið fann eg hana að máli, og bað hana að láta heita í höfuðið á mèr það, sem hún geingi með; en hún afsagði mèr um það. Skömmu síðar drukknaði eg. Kom eg þá til hennar í svefni, og bað hana hins sama, en hún þverneitaði því. Þessi kona var móðir þín, og skaltu nú gjalda hennar.“ Nú fór Guðrúnu ekki að lítazt á, fór á bak hesti sínum, og var þá sjór fallinn undan forvaðanum. Reið hún nú af stað; en brátt varð hún þess vör, að Gísli veitti sèr eptirför, og annars, sem verra var, en það var það, að hún var orðin sjónlaus; lèt hún þá hestinn ráða ferðinni; en af því hún var skáld gott, fór hún að yrkja; en ekki vita menn, hvað hún orti; fór hún þannig leingi, að hún vissi, að Gísli elti sig. Loksins fèkk hún litla sjón aptur, og var hún þá nærri komin fram af bjarginu fyrir innan Keflavík; gat hún þá tekið rètta stefnu heim til sín, og vissi hún ekki fyrri til, en hesturinn stóð á hlaðinu; fèkk hún þá sjónina aptur, en marga daga eptir var hún veik. Guðrún var kona sannsögul og ráðvönd.

**Miklabæar-Solveig.** Stúlka ein, er Solveig hèt, var hjá sèra Oddi Gíslasyni á Miklabæ.[1] Hvort sem prestur hefir þá verið milli kvenna, eða

1. Hann var þar prestur 1768—86.

verið búinn að missa konu sína, er óvíst, en hitt er víst, að stúlka þessi lagðist á hugi við prest, og vildi um fram alt, að hann ætti sig; en prestur vildi ekki. Af þessu varð stúlkan sturluð, og sat um að sálga sèr, er henni gafst færi á. Kona ein svaf hjá henni á næturna, sem Guðlaug hèt Björnsdóttir, systir sèra Snorra á Húsafelli, til að verja henni að fara ofan; en á daginn höfðu allir heimamenn gát á henni. Eitt kvöld í ljósaskiptunum komst Solveig þó ofan, og stökk þegar út í tóptarbrot, er var á túninu. Vinnumaður var hjá presti, er þorsteinn hèt; hann var ötull og ófyrirleitinn. Hann varð var við Solveigu, er hún hljóp úr bænum, og veitti henni þegar eptirför. En svo var hún handfljót, að hún var búin að skera sig á háls í tóptinni, er hann kom að. þá er sagt, að þorsteini hafi orðið að orði, er hann sá, hvernig blóðið fossaði óstöðvandi úr hálsinum á henni: „þar tók andskotinn við henni.“ Solveig svaraði því eingu; en svo mikið skildi hann af því, sem hún sagði, að hún bað hann, að skila til prests, að grafa sig í kirkjugarði. Eptir það blæddi henni út, svo hún dó. þorsteinn sagði tíðindin heim, og bar presti kveðju hennar, og bæn um legstað í kirkjugarði. Prestur leitaði til þess leyfis hjá yfirboðurum sínum, en fèkk afsvar, þar eð hún hefði farið sèr sjálf. Á meðan þessu fór fram, stóð lík Solveigar uppi; en nóttina eptir að prestur hafði feingið afsvarið, dreymdi hann, að Solveig kæmi til sín og segði: „Fyrst þú vilt ekki unna mèr legs í vígðri mold, skaltu ekki njóta þar legs heldur.“ Var hún þá með reiðisvip miklum, þegar hún vasaði burtu. Eptir þetta var lík Solveigar dysjað utan kirkjugarðs og án yfirsaungs. En skömmu síðar fór að bera á því, að hún ásókti sèra Odd, þegar hann var einn á ferð, hvort sem hann reið, á annexíuna að Silfrúnarstöðum, eða annað. þetta varð mjög hèraðsfleygt, svo hver maður gjörði sèr að skyldu að fylgja honum heim, einkum ef hann var seint á ferð eða einn. Einu sinni reið sèra Oddur á annexíu sína, en aðrir segja að Víðivöllum, og leið svo dagurinn, að hann kom ekki. Heimamenn voru óhræddir um hann, af því þeir vissu, að presti var ávalt fylgt, ef hann var seint á ferð. það var og í þetta skipti, að presti var fylgt heim að túninu á Miklabæ; annars var vant að skilja ekki við hann, fyrr en hann var kominn á fund heimamanna. þá sagði hann við fylgdarmanninn, að hann þyrfti nú ekki að fara leingra, því nú mundi hann komast klaklaust heim, og þar skildi fylgdarmaðurinn við prest, eptir því sem hann sagði síðan sjálfur frá. Um kvöldið á vökunni heyrðu heimamenn á Miklabæ að komið var við bæarhurðina; en af því þeim þókti nokkuð undarlega barið, fóru þeir ekki til dyra. Síðan heyrðu þeir, að komið var upp á baðstofuna í mesta snatri, en áður en sá fèkk ráðrúm, til að guða, sem upp kom, var hann dreginn ofan aptur, eins og tekið hefði verið aptan í hann, eða í fæturna á honum; jafnframt þóktust menn þá heyra hljóð nokkurt. Síðast, er komið var út um kvöldið, sáu menn að hestur prestsins stóð á hlaðinu, og var keyrið hans og vetlíngarnir

undir sessunni í hnakknum.[1] Varð mönnum nú mjög órótt af þessu öllu, því menn sáu, að prestur hafði komið heim, en var nú allur horfinn. Var þá farið að leita að honum og spurt eptir honum á öllum bæum, sem líkindi þóktu, að hann hefði að komið, og fèkkst þá sú fregn, að honum hefði verið fylgt heim að túngarðinum um kvöldið, en hann ekki viljað fylgdina leingur. Eptir það var gjörður mannsöfnuður, og hans leitað í marga daga samfleytt. En alt kom það fyrir ekki. Síðan var leitinni hætt, og töldu flestir það víst, að Solveig mundi hafa efnt orð sín, og sèð svo fyrir, að hann feingi ekki leg í kirkjugarði, og að hún mundi hafa haft hann með sèr í dys sína; en þó var þar aldrei leitað. Þegar allri leit var hætt, ásetti Þorsteinn, vinnumaður prests, sèr að hætta ekki, fyrr en hann yrði þess vísari, hvað orðið hefði um húsbónda sinn. Þorsteinn þessi svaf í rúmi rètt á móti konu þeirri, er sofið hafði hjá Solveigu, og var hún bæði skýr og skygn. Þorsteinn tekur sig til eitt kvöld, safnar saman fötum og ýmsu, sem var af prestinum, leggur það undir höfuðið á sèr, og ætlar að vita, hvort sig dreymi hann ekki, en biður Guðlaugu að liggja vakandi í rúmi sínu um nóttina, og vekja sig ekki, þó hann láti illa í svefni, en taka eptir því sem fyrir hana beri; þar með lèt hann loga ljós hjá sèr. Leggjast þau svo bæði fyrir; Guðlaug verður þess vör, að Þorsteinn getur með eingu móti sofnað framan af nóttinni, en þó fer svo um síðir, að svefninn sigrar hann. Hún sèr þá, að litlu seinna kemur Solveig, og heldur á einhverju í hendinni, sem hún sá ekki glögt hvað var; geingur hún inn á gólfið og að skör fyrir framan rúm Þorsteins, því götupallur var í baðstofunni, og grúfir yfir hann og sèr, að hún myndar til á hálsinum á Þorsteini, eins og hún vildi bregða á barkann á honum. Í því fer Þorsteinn að láta illa í svefninum, og brýst um á hæl og hnakka í rúminu. Þykir henni þá að svo búið megi ekki leingur standa, fer því ofan og vekur Þorstein, en vofa Solveigar hopar fyrir henni og fèkk ekki staðizt augnaráð hennar. En það sèr Guðlaug, að rauð rák var á hálsinum á Þorsteini, þar sem Solveig hafði myndað til skurðarins. Síðan spyr hún Þorsteinn, hvað hann hafi dreymt; hann sagði, að sèr hefði þókt Solveig koma til sín, og segja, að ekki skyldi sèr þetta duga, og aldrei skyldi hann vísari verða, hvað orðið hefði um sèra Odd, þar með hefði hún lagt á sig hendur, og ætlað að skera sig á háls með stórri sveðju, og kendi hann enn sársaukans, er hann vaknaði Eptir það hætti Þorsteinn þeim ásetníngi sínum, að grafast eptir, hvar prestur væri niður kominn.[2] Lítið hefir borið á Solveigu síðan. Þó hafði sèra Gísli, sem síðast var prestur að Reynistaðarklaustri (1829--1851), sonur sèra Odds, sagt frá því, að

1. Aðrir segja, að keyrið og annar vetlíngurinn hafi fundist á bæarkampinum, og lokkur úr faxi hestsins utan um.

2. Þessi saga er tekin eptir Guðríði Magnusdóttur, ljósmóður í Reykjavík; en hún hafði hana eptir Guðlaugu, sem dvaldi mörg ár hjá Guðríði eptir þenna atburð.

fyrstu nóttina, sem hann svaf hjá konu sinni, hefði Solveig ásókt sig ákaflega, svo hann hefði þurft, að hafa sig allan við, að verjast henni; en hann var heljarmenni til hurða, sem faðir hans. Aðrar sögur hafa ekki farið af Solveigu.[1]

**Stúlkan í Álptamyrarsókn.** (Tekin eptir Jóni Borgfirðing, eptir sögn úr Ísafjarðarsýslu.) Á einum bæ í Álptamýrarsókn vestra voru fyrir fáum árum systkin þrjú, tveir hræður og ein systir. Ekki var fleira fólk vinnandi á þeim bæ. En svo hagar til, að farið er yfir fjörð einn, eða vík, sjóveg á eingjarnar. Það var eitt kvöld, er þau systkin komu af eingjum, að þau fluttu með sèr heyfarm, og hlóðu skipið, svo hvergi var rúm fyrir stúlkuna að sitja, nema aptur í stafnloki, en þeir hræður reru í því eina rúminu miðskipa, sem autt var, og sáu ekki til systur sinnar fyrir heyhúnkanum. Þeir hèldu svo yfir fjörðinn, og lentu þar, sem þeim þókti hentast. En þegar þeir fóru að hera af skipinu, var stúlkan horfin, svo þeir vissu ekkert, hvað af henni var orðið, nema hvað þeir ímynduðu sèr, að hún hefði farið úthyrðis. Af því dimt var orðið um kvöldið, svo ekkert sást frá sèr, gjörðu þeir einga gángskör að því, að leita hennar, enda þóktust þeir vita, að hún mundi ekki finnast lífs. Fóru þeir við það heim til sín og sváfu af um nóttina. Þessa nótt dreymdi annan hræðranna hana; þókti honum hún koma til sín í svefninum, og vísa sèr til, hvar hann skyldi leita hennar. Morguninn eptir fóru þeir háðir hræður að leita á bát, og slæddu hana upp á þeim stað, sem hún hafði sjálf vísað til í drauminum. Eptir það var hún húin til moldar og grafin í kirkjugarði. Svo vèk við með stúlku þessa, að hún lagði ástarhug á mann einn þar í nágrenninu; en hann vildi ekki sinna henni. Þegar búið var að grafa hana, fór þenna mann að dreyma hana heldur illa, og kvartaði hann undan því. Ekki laungu þar eptir hvarf þessi sami maður einu sinni, svo einginn vissi, hvað um hann hafði orðið. Var þá farið að leita hans með mannsöfnuði, og fannst hann niður við sjó undir háum klettum, allur hlár og marinn. Var það þá haft í tilgátum, að stúlka þessi mundi hafa geingið aptur, steypt honum fram af klettunum, og drepið hann með því móti. Þegar þetta fór að kvisast, fóru hræður stúlkunnar til og grófu hana upp. Sáu þeir þá þau missmíði, er þeir luku upp kistunni, að stúlkan hafði snúið sèr við í henni og lá á grúfu. Leizt þeim þá ekki á blikuna, og nm leið og þeir sneru henni við í kistunni, ráku þeir oddhvassa stálnagla neðan í iljarnar á henni, lokuðu svo kistunni og geingu reglulega frá gröfinni aptur. Eptir það hefir ekki orðið vart við systur þeirra á sveimi.

**Haga-draugurinn.** (Eptir handriti Jóns alþingismanns Sigurðssonar á Gautlöndum.) Það var einhverju sinni að Haga í Reykjadal, að þar hjó bóndi

1. Sigurður málari Guðmundsson hefir sagt frá þessu atviki um sèra Gisla. Sbr. Dr. Maurers Isl. Volkss. 72. bls.

nokkur merkur og velmegandi maður, og er ekki greint nafn hans. Hann átti eina dóttur barna. það var einn vetur að áliðnu, að mikil var um ferð í Haga af flökkufólki, eins og þá var títt. þar var únglíngsmaður nótt einhverju sinni; sat hann við baðstofudyr og rètti frá sèr fætur. það var einhverju sinni um kvöldið, að bóndadóttir gekk um og gæti sín ekki, svo hún hrasaði um fætur komumanns. Henni verður skapbrátt og atyrðir hún dreing, og segir, að landeyða sú geti legið annarsstaðar, en fyrir fótum manna. Hann reiðist orðum hennar, og segist ekki muni optar verða henni að fótakefli, en þó kunni hann að finna hana um það lýkur. Dreingur hverfur síðan, og er því einginn gaumur gefinn. En að lítilli stundu liðinni fer bóndadóttir í fjós að gefa kúm, og mjalta þær. Fer bóndi með henni, og skyldi hann taka hey handa kúnum til morgunmálsins, því fjósheyið var áfast við fjósið. En er þau eru fyrir litlu komin inn í fjósið, kemur flökkudreingurinn að dyrunum, og sèr bóndi vegsummerki, að hann hefir skorið sig á háls, og geingið svo aptur í andarslitrunum. Er draugurinn allæfur, og vill inn í fjósið, en bóndi ver dyrnar. Bóndi spyr, hvað hann ætli, eða hvað hann vilji inn í fjósið. En draugsi kvaðst vilja finna bóndadóttir. Bóndi biður hann gjöra fyrir sig lítið handarvik áður, og það sè að leysa hey handa kúnum til morgunsins, skyldi hann fá að finna bóndadóttur að því búnu. Draugsi lætur sèr þetta lynda og vísar bóndi honum á fjórspenníngsstabba höggfastan, og fer draugur að leysa heyið. En bóndi sendir sem snarast eptir Arnþóri á Sandi. Arnþór kunni margt fyrir sèr, og var hinn mesti bjargvættur gegn draugum og allskonar fjölkynngi. Bregður hann skjótt við orðsendíng bónda, og kemur í Haga. En er hann kemur, er draugsi að enda við að leysa töðustabban, og vill fá verkalaunin hið fljótasta, sem er, að finna bóndadóttur. Arnþór tekur á móti drangsa og spyr, hvað hann vilji bóndadóttur. Draugsi segir hann það eingu skipta. Arnþór spyr, hvort honum nægi ekki að sjá hana, og lætur draugsi það svo vera. Arnþór biður hann þá að bíða sín, meðan hann sæki bóndadóttur. Tekur Arnþór hana, og vefur stórum dúk um höfuð hennar, svo hún hvorki sjái nè heyri. Síðan leiðir hann hana út og sýnir draugsa. þá segir draugsi, að nú hafi nokkur orðið vitsmunur þeirra, hann hafi ekki varazt, að hann mundi hafa þenna umbúnað á bóndadóttur, því ella mundi hann hafa gjört hana vitlausa. Ærist nú draugsi sem mest, og vill fyrir hvern mun að bóndadóttur, en Arnþór varnar honum. Sèr hann þó, að ekki er auðvelt að koma draugsa fyrir við svo búið. Hann lætur því leiða út rauða kvígu úr fjósi og hleypir hann draugsa á hana. En svo var draugsi æfur, að hann tætir kvíguna sundur ögn fyrir ögn. En við það dregur svo af honnm, að Arnþór getur komið honum niður í dæl nokkuri, norðantil á vellinum í Haga. Er svo sagt, að hann ræki þar niður hæl mikinn, og bindi drauginn þar við, og að sá hæll hafi staðið í túninu í Haga alt undir þetta. Enda hefir aldrei orðið mein að draugnum síðan.

**Jón Gissurarson.** (Eptir handriti sèra Benedikts þórðarsonar á Brjánslæk.) Einar prestur þórðarson á Hvammi í Hvammssveit (1754—1801) messaði eitt sinn í Hjarðarholti, og tók við prestinum þar. þegar embættisgjörð var lokið, og prestar komnir í stofu og seztir að máltið, bregður sèra Einari snögglega, og setti dreyrrauðan í andliti. Stendur hann upp frá borðum, heimtar hest sinn, og segir: „Líf manns liggur við, fari eg ekki undir eins af stað.“ Hesturinn stóð búinn á hlaðinu. Prestur kveður eingan, hleypur út og stökkur á bak í skyndi; keyrir hestinn og ríður upp á Hjarðarholtsásinn, Ljáskógaleið. Hann ríður nú sem ákafast. En þegar hann kemur á grundina fyrir innan Ljáskóga, hittir hann þar pilta tvo, og eru þeir að fljúgast á; hètu þeir Jón Gissurarson og Jón Steingrímsson, en þótt þeir væru nafnar, var þeim ólíkt farið. Jón Gissurarson var þar kominn apturgeinginn til að launa nafna sínum fornan fjandskap. Höfðu þeir nafnar verið á sama skipi inn Hvammsfjörð; voru báðir kaldlyndir og deildu illdeilu. Hèzt Jón Gissurarson við nafna sinn, steypti sèr svo útbyrðis, og lèzt þannig. Eptir dauða hans þóktu mönnum reimleikar vaxa í dalnum, og var orð á haft, að Jón mundi því valda, og væri hann apturgeinginn. Í þetta sinn reið Jón Steingrímsson frá kirkju í Hjarðarholti einsamall; ætlaði hann erinda sinna inn á bæi, en mætti þarna nafna sínum. þegar prest bar að, var hann mjög að þrotum kominn af viðureign draugsins, en prestur skildi þá, og sá svo um, að Jóni Steingrímssyni varð aldrei framar mein að nafna sínum. Jón Steingrímsson bjó leingi að Hömrum í Laxárdal. Hann varð gamall maður og varð úti í kindaleit 1830, eða nálægt því ári. þegar saga þessi gjörðist var hann úngur, en sèra Einar þá roskinn orðinn.

**Draugurinn Hundi.** (Eptir handriti Gísla Konráðssonar.) Maður hèt Gunnlaugur, og var kallaður hundi. Hann var lítilmenni og vinnumaður Árna prests Skaptasonar á Sauðanesi á Lánganesi (1717—1770). Gunnlaugur vildi eiga konu þá, sem Málmfríður hèt, og fór þess á leit við hana. En þá beiddi hennar maður sá, sem Eymundur hèt, og var röskur maður; hann fèkk Málmfríðar, og fóru þau að búa á Skálum, yzta bæ á Lánganesi. Gunnlaugur hundi hèzt nú við Málmfríði, og eitt kvöld í myrkri gekk ráðskona Árna prests, sem Ingiríður hèt, út í fjós og með henni stúlka, er Kristín hèt. þegar þær komu í fjósið, heyrðu þær korr og snörl mikið í auðum bás. Ingiríður sagði: „Ekki er alt, sem dreymir. Berðu þig að kveykja, Kristín litla; eg ætla að bíða hèrna á meðan.“ þegar Kristín kom með ljósið, sáu þær, að Gunnlaugur lá þar skorinn á háls og hnífurinn hjá honum, gæruhnífur beittur mjög. Hljóp Kristín þá inn, og bað vinnumann prests, sem Ormar hèt, að koma út í fjósið. Eymundur á Skálum, maður Málmfríðar, var þar gestkominn, og ætlaði að vera þar um nóttina, hann var frændi Ormars; fóru þeir svo báðir til og fluttu lík

Hunda í skemmu, og er sagt, að hann geingi þegar aptur. Blóðlifur mikil sást á klæðum Eymundar, sem komið hafði á hann, þegar hann bar Hunda í skemmuna. Ormar var ötull maður og einarður; greip hann því lifrina og sletti í augu Hunda, og það ætla menn, að það væri órsök til þess, að hann fylgdi hvorki Ormari nè niðjum hans, þó hann væri af sama bergi brotinn, og Eymundur. Sagt var það, að Hundi hefði slett sjálfur lifrinni á Eymund, og vildi hann lýsa hann með því banamann sinn. Eptir það fór Hundi að sækja að konu Eymundar og fylgja honum sjálfum, og kallaður var hann ættarfylgja þeirra og hèlzt það leingi, og enn eymði eptir af Hunda hjá barnabörnum þeirra Eymundar og Málmfríðar, eptir að sèra Stefán Einarsson var orðinn prestur á Sauðanesi (1795—1847).

**Þórður og Andrès, bræður.** (Eptir handriti sèra Benedikts Þórðarsonar á Brjánslæk.) Þórður og Andrès, Andrèsar synir, voru bræður tveir í Dölum. Þeir þóktu fremur geðmiklir. Veturinn 1820 fóru þeir í ver út á Hjallasand. Voru þeir þá fulltíða að aldri og þroska, og þó ókvongaðir. Lögðu þeir báðir hug á stúlku nokkra á Ingjaldshóli, og varð það til spillíngar frændsemi þeirra. Snemma um veturinn týndist skip það, sem Andrès var á, og hann með því. Losaðist nú Þórður, bróðir hans, við með biðil sinn, og þókti honum vænt um, og sókti nú frjálslegar en áður fund stúlkunnar. Leið nú nokkur tími, að ekkert bar til tíðinda. En eitt kvöld var Þórður einn á ferð í myrkri frá Ingjaldshóli, og þegar hann kemur niður á sandinn, nálægt búð sinni, Stórudumpu, og ætlar að gánga til dyra á búðinni, sèr hann, að maður kemur upp frá skipinu, og stefnir á leið fyrir sig; hraðar Þórður sèr að búðardyrunum, og er hinn þá kominn á hæla honum. Þórður lítur á manninn, og þekkir þar Andrès bróður sinn; verður honum bilt við, snarast inn í búðina, og uppá loptið en gáði ekki að loka á eptir sèr. Svo var rúmum skipað í búðarloptinu, að í öðrum enda var rúm húsbónda, sem Tómas hèt, en í hinum rúm, sem 3 vermenn lágu í, en rúm Þórðar var til hliðar í miðju lopti móti uppgaungu. Þegar Þórður kom upp á loptið, var myrkt og fólk í rökkur svefni. Tómas bóndi vaknaði við umgánginn. Þórður settist á rúm sitt, og þegar hann var nýseztur, heyrir Tómas hann segja: „Helldurðu eg hræðist í þèr glyrnurnar?“ og í sama vetfángi gjörist hark mikið, og fer Þórður, sem kólfi væri skotið yfir á rúm vermannanna, og upp fyrir þá upp að þili, og vakna þeir við vondan draum. En jafnskjótt þrífur draugurinn Þórð þaðan; sem hann var kominn, og dregur fram loptið og ofan stigann. Tómas bóndi bregður upp ljósi, og biður vermennina, að hjálpa Þórði, sem sè svona báglega staddur, og fara þeir allir og Tómas með þeim ofan. Flúði þá draugurinn, en Þórður lá, eins og hann væri dauður í búðargaungunum, og flaut í blóði sínu. Þeir tóku hann, og báru til rúms; vöktu yfir honum um nóttina, og veittu honum sem bezta aðhjúkrun. Líkami hans var

mjög þrekaður, blár og bólginn, og ekki raknaði Þórður við, fyrr en um dægramót um morguninn. Lá hann leingi veikur, en rètti þó við um síðir, en ekki mátti ljós slokkna yfir honum á nóttunni þann vetur, svo ekki kæmi draugurinn. Næsta vetur rèðust vermenn til búðarvistar til Tómasar í Dumpu. Einn þeirra var Sigurður Sigurðsson, ættaður úr Breiðuvík í Barðastrandasýslu. Hafði hann einn um tvítugt og var mjög þroskaður að vexti og afli á þeim aldri. Sigurði var skipað vermanna rúmið í endanum og öðrum manni með honum. Litlu síðar kemur Þórður Andrèsson, og biður Tómas Sigurð að taka hann fyrir legunaut í rúm sitt um veturinn. Sigurður, sem ekki vissi, hvað hafði gjörzt hinn fyrri vetur, tók vel tilmælum bónda, og er þeir gánga til rekkju, hvílir Sigurður við stokk, en Þórður við þil. En þegar þeir eru sofnaðir dreymir Sigurð, að maður kemur að honum, ófrýnilegur að útliti, og segir: „Eg skal launa þèr að þú liggur fyrir framan hann bróður minn, svo eg kemst ekki að honum.“ „Hvað viltu honum?“ þykist Sigurður spyrja. „Eg vil drepa hann,“ kvað hinn. „Já,“ segir Sigurður, „viltu honum ekki annað?“ Í því þykir Sigurði hann ráðast á sig, og takast þeir á, og lauk svo, að draugurinn datt. Vaknaði Sigurður þá, og var þá á fjórum fótum á loptinu fyrir framan rúmið. Næstu nótt dreymir Sigurð öldungis á sömu leið; þó þykir honum draugurinn vera hálfu verri viðfángs, en áður, og svo lauk viðskiptum þeirra í það sinn, að Sigurður vaknar við það, að legunautar hans halda á honum fram við lúkugatið á loptinu. Hèldu þeir, að óráð væri komið á hann, og vildu aptra ferð hans. Þriðju nótt dreymir Sigurð, að hann þykist staddur niður við sjó hjá skipum; þykir honum sami maðurinn koma þar að sèr, og ráðast á sig; var hann æfur mjög, og þreyttu þeir leingi glímuna, en þó bar Sigurður hærra hlut; þykist hann fella dranginn, og síðan fá sèr sax í hönd, og brytja drauginn í stykki. Og lauk við þetta aðsókn draugsins. Sigurður var um veturinn í Dumpu, og svaf hjá Þórði, og dreymdi hann aldrei glímufèlaga sinn eptir það, og ekki varð Þórði þann vetur neitt mein að apturgaungu bróður síns. Mörgum árum síðar fundust þeir Þórður og Sigurður, og ræddu um drauginn. Hafði Þórður þá aldrei orðið fyrir aðsókn hans, síðan Sigurður vann á honum. Þórður lifði eptir bróður sinn Andrès hèrum bil 20 ár; en aldrei náði hann sèr aptur eptir fund þeirra í búðarloptinu. Hann drukknaði ofan um ís á Hvítá í Borgarfirði. Hann var einn á ferð, og ætlaði suður til vers; hann teymdi 3 klifjahesta, sem allir fórust með honum.

**Torfalækjar-Jón.** (Þessi saga er tekin eptir handriti Arnljóts Ólafssonar.) Guðmundur hèt bóndi á Torfalæk á Ásum í Hjaltabakkasókn. Kona hans hèt Guðrún, en Elín dóttir. Guðmundur bóndi tók sótt og andaðist; mínkaði þá Guðrún við sig, og bygði hálfa jörðina móti sèr þeim manni, sem Jón hèt. Margrèt hèt kona hans. Þegar þessi saga gjörðist, var

Bjarni sýslumaður á þingeyrum, en Stefán prestur að Höskuldsstöðum. Guðmundur hèt kaupamaður sunnlenzkur; hann rèðst til Guðrúnar ekkju; hann var dimmleitur maður og íbúðarmikill. Ekki bar samt á skapbresti hans. Einn teigur var sá í eingjunum á Torfalæk, sem ekki var skipt, og skyldi sitt hafa hvort sumar, Jón og Guðrún. Nú átti Jón að hafa teiginn. Einn morgun kemur Jón snemma út; sèr hann þá, að sleginn er teigurinn. Hann lèt eins og hann sæi það ekki. Nú var heyið á teignum þurkað og sætt. En er Guðmundur ætlaði að fara að reiða heyið heim — því hann hafði slegið teiginn — var það horfið. Hafði Jón bundið það um nóttina og hirt. Guðmundur talaði þá fast eptir heyinu við Jón, en Jón kvað það sína eign verið hafa, og kvað hann aldrei skyldi af hafa. Guðmundur varð stórreiður og heitaðist við Jón, og sagði, að svo skyldi hann til ætla, að þegar þeir fyndust einhvern tíma, mundi hann nokkur gjöld fá fyrir tiltækið um heytökuna. Leið nú svo fram sumarið. En að áliðnu sumri fór Jón út í kaupstað. Guðmundur fór á eptir honum um kvöldið. En þegar hann kom heim aptur um kvöldið, þá var Jón enn ókominn. Var hann þá spurður eptir Jóni, en hann sagðist ekki hafa sèð hann, og ekkert vita um hann. Litlu síðar frèttist lát Jóns. Fannst hann dauður fyrir innan Hafstaðaá fram við sjó undir klöpp einni. Sást það, að hann mundi af mannavöldum dáið hafa. Margir dróttuðu þessu að Guðmundi, en ekki varð hann uppvís að því, og lagðist málið niður. Guðmundur hafði átt Elínu, dóttur Guðrúnar; flytur hann nú bú sitt að Köldukinn. Hann átti fimm börn. Synir hans voru: Ísleifur, Magnús og Jón, en dætur: Guðrún og Gróa. Einn dag sat Jón yfir lömbum á hólunum fyrir sunnan bæinn í Köldukinn. Hann kom ekki heim, þegar hans þókti von. Fór þá faðir hans um kvöldið að leita að honum, og fann hann, þar sem hann lá og spyrndi frá sèr höndum og fótum, barðist um og fèll froða og blóð af vitum hans. Guðmundur bar hann heim, og bráði þá af honum. Um sumarið fór hann út í kaupstað. En þegar hann kom að Hafstaðaá, stöðvaði hann hestinn við ána, og vildi ekki út í, en hesturinn vildi á fram, og gekk fram í ána. Jón rak þá upp hljóð undarlegt. Við það litu samferðamenn hans aptur; því hann var aptastur. Sáu þeir að Jón fèll niður af hestinum í ána, og þegar þeir komu að, var hann dauður. Guðmundur flutti sig enn búferlum að Syðra-hóli. þar bjó hann 15 ár. Magnús sonur hans var þar hjá honum. Hann reri um sumarið við og við, og gekk heiman að á morgnana, en heim á kvöldin. (það er og eigi allilángur vegur.) Eitt kvöld kom hann ekki heim, eins og hann var vanur. Faðir hans fór þá af stað að leita hans og fann hann á melunum við Laxá. Lá hann þar dauður og blár sem hel.

Ísleifur, sonur Guðmundar, átti Guðrúnu, sem seinna átti Jóhannes bóndi á Breiðavaði. Hans synir voru Ísleifur og Jónas, sem nú (1847) býr á Breiðavaði. Ísleifur bjó á Hóli. Hann fannst einn sunnudagsmorgun

undir brekku þeirri, er Lángabrekka heitir, og er fyrir innan Höskuldsstaði, hjá alfaravegi. Ísleifur var þá dauður, og hèldu menn, að hann hefði dáið úr flogi.

Gróa, dóttir Guðmundar, dó vofeiflega á Beinakeldu, en Guðrún varð vitlaus við Höskuldsstaðakirkju.

Það er trú manna, að Jón hafi geingið aptur og valdið þeim óförum, sem börn Guðmundar urðu fyrir. Það er og sagt, að einhverju sinni hafi konu Jóns, Margrètu, dreymt, að Jón, maður hennar, kom til hennar og sagði: „Guðmundur fær gjöld í öðrum heimi, en börn hans í þessum.“

**Draugahellir undir Jökli.** (Eptir handriti Gísla Konráðssonar.) Það er í sögnum, að skipverjar nokkrir reru á Djúpalónssandi, og voru þeir svo miklir sjógarpar, að þeim þókti sèr aldrei ófært; þeir reyndu afl sitt á steintökum; steinar þeir, er þeir reyndu afl sitt á, liggja á Djúpalónssandi, á leið suður til Einarslóns litið ofar en vegurinn. Heita þeir Fullsterkur, Hálfsterkur og Hálfdrættíngur, og mátti sá eingínn róa á Djúpalónssandi skipi þessu, er óstyrkvari væri en svo, að hann lèti Fullsterk á Stall; er Stallur sá klettabelti, mittishátt í Stallinn. Enn eru þeir einstakir menn til, sem róa í Dritvík, er koma Fullsterk á Stall, en ei allfáir Hálfsterk, en nálega allir Hálfdrættíngi. En það er sagt frá skipverjum á Djúpalónssandi, að þeir gripu kerlíngu eina og drápu. Aðrir segja, að þeir hafi tekið lík hennar af börunum, og nokkrir, að þeir hafi grafið hana upp, er hún var nýlega jörðuð. Þeir höfðu hana að beitu eitt vor, og fiskuðu þá svo mikið, að þeir hlóðu hvern dag, þó aðrir yrði því nær ekki varir. Beittu þeir allir kjötinu af kerlíngunni, nema hálfdrættíngur, er með þeim reri, og sagt er að hèti Sigurður. Það var eina nótt, að Sigurð dreymdi, að kerlíng kæmi til sín og kvæði þetta:

„Verður á morgun skip skarða,
skæður furðu tilburður;
farð ei á morgun forvarða,
furða ber til, Sigurður.“

Aðrir segja svo frá, eða bæta þessu við:

„Ei skaltu í dag róa
nú ætla eg rugla
undir beinum mínum.“

Um morguninn lèt Sigurður sem hann væri veikur. Hinir reru, en drukknuðu allir um daginn; en ei er getið með hverjum hætti það varð. Hellir einn er fyrir vestan Dritvík, þar sem heitir Suðurbarði og Vesturbarði. Sagt er, að litlu síðar væri mannaferð skamt frá hellinum, og heyrðu þeir hljóð nokkurt í honum, og var að heyra sem mælgi nokkra; en sagt er að einn eða tveir menn frá Helgafelli væru á skipi þessu, og væri einn sá, er hefði átt vingott við dóttur bónda í Hólahólum, er Narfi hèt. Aðrir

segja, að hann hafi heitið Jón. Þeir, sem fóru nálægt hellinum, heyrðu nú kveðið í honum með dimmri röddu vísu þessa:

„Leiðist mèr að liggja hèr í ljótum helli;
betra er heima á Helgafelli
að hafa þar dans og glímu-skelli.“

Þá kvað og annar, svo þeir heyrðu glögt og námu þegar:

„Fer eg djúpt í fiska-geim[1]
fjærri hrínga-sólum;
þó eg sè dofinn, dreg eg mig heim
til dóttur Narfa í Hólum.“

Hellismunninn liggur ofan á við. Var sagt, að sum líkin rækju í hann í brimi miklu, og sagt er, að hann heiti síðan Draugahellir. Sumir segja, að þeir væru allir frá Helgafelli, ættu að sækja hey og drukknuðu á Kerlíngarboða í hvíta-logni. Var þeirra þá leitað. Áttu þá leitarmenn að heyra fyrri vísuna: „Leiðist mèr“ o. sv. fr.; var hún kveðin með dimmri röddu í hellinum í Hellisey, og öll líkin ræki með stór-flæði upp í hellinn.

**Beinagrindin í Hólakirkju.** (Eptir sögn norðlenzkra skólapilta 1845.) Svo bar til eitt kvöld um vökuna að Jón biskup Arason á Hólum þurfti að fá bók, sem lá úti á altarinu í kirkjunni. Biskup spurði heimafólk sitt að, hvort nokkur vildi fara út fyrir sig í kirkjuna eptir bókinni. En þeim leizt ekki á ferðina og varð einginn til. Þá gekk fram griðkona ein, og sagðist skyldi fara eptir bókinni. Tók hún við kirkjulyklunum. En svo var til háttað, að biskup hafði látið gjöra gaung undir jörðunni úr húsi því, sem hann var optast í, og sem „slot“ var kallað, og út í kirkjuna. Það hafði hann gjört til þess, að ef óvinir kæmu að sèr, þá kæmist hann í kirkjuna, því þar var helzt griðastaður. Griðkonan fór nú, og gekk eptir undirgánginum. Hún kom í kirkjuna, gekk að altarinu, fann bókina og tók hana. Geingur hún nú fram eptir gólfinu og ætlar út um dyrnar, en vill ekki fara gaungin til baka; því henni þókti þar dimmt og draugalegt. En þegar hún kemur fram í kirkjuna, verður henni litið yfir í bekkina kvennmannamegin. Hún sèr þá, að þar liggur mannsmynd, sem leit út eins og skinin beinagrind, með ljósgult hár á höfðinu. Griðkonan vill vita hvað þetta sè. Geingur hún að myndinni og spyr hver þar væri. Myndin segist vera kvennmaður, „og er eg nú dáin, en móðir mín lagði það á mig, að eg skyldi ekki geta rotnað. Nú er eg hèr komin til þess, að þú hjálpir mèr, ef þú getur.“ Griðkonan segist ei vita hvort hún geti það, og spyr hvernig hún eigi að fara að því. Myndin segir, að hún skuli reyna, að biðja móður sína að fyrirgefa sèr brot sitt og taka af sèr álögin, „því vera má, að hún gjöri það fyrir lifandi mann, sem hún gjörir ekki fyrir dauða; því það er sjaldgæft, að lifandi menn biði dauða menn nokkurs.“

1. Aðrir hafa hendíngu þessa þannig: „Fjaðra rofinn fer eg um geim.“

„Hvar er hún móðir þín?“ spyr griðkonan. „Hún er nú híngað og þángað,“ segir myndin; „núna er hún, til að mynda, þarna inni í kórnum.“ Griðkonan geingur þá inn í kórdyrnar, og sèr að þar situr gömul kona, heldur ófrýnileg, með rauðan hött á höfði. Hún talar þá til hennar, og biður hana að fyrirgefa dóttur sinni og taka af henni álög sín. Kerlíng tók því seint, en sagði þó, að það væri ekki opt, að lifandi menn bæðu sig bónar, og lèt hún þá til leiðast. Griðkonan þakkar henni fyrir það, og fer nú fram aptur. En þegar hún kom fram aptur í kirkjuna, sá hún dupt eitt í bekknum, þar sem áður var beinagrindin. Griðkonan heldur þá áfram, og í því hún fer út úr innri dyrunum á kirkjunni, heyrir hún að sagt er inni í kirkjunni: „Líttu í rauð augu mín, hversu rauð þau eru.“ Þá segir griðkonan, en lítur þó ekki við: „Sjáðu í svartan rass minn, hversu svartur hann er.“ Kemst hún nú út úr kirkjunni, en þá sýnist henni allur kirkjugarðurinn fullur af fólki, og heyrði hún þar mikið öskur og ólæti. Hún gaf sig ekki að því, en þá fór nú þó að fara um hana. Samt komst hún inn aptur í bæinn, og fèkk biskupi bókina. Þá kvað hún vísu þessa:

„Svo var röddin drauga dimm,
að dunaði í fjalla-skarði;
heyrt hef' eg þá hljóða fimm
í Hóla-kirkju-garði.“

**Konan með rauðu húfuna.** (Eptir Dr. Maurers Isl. Volkss. 74.—75. bls.)
Á prestssetri einu var próventukona öldruð. Hún átti opt í brösum við vinnufólkið, og var stundum grátt leikin af vinnumanni þeim, er Jón hèt. Hún hèzt því við hann skömmu fyrir andlát sitt, að hún skyldi hefna á honum misgjörða við sig. Skömmu eptir dauða kerlíngar varð Jón úti, en líkið fannst ekki fyrr, en laungu síðar, og var það þá grafið; um nóttina eptir var gröfin rifin upp aptur og kistan brotin. Var svo lík hans grafið í annað og þriðja sinn, en ávalt fór á sömu leið um líkið, að því gagnaðist ekki að liggja í gröfinni. Presturinn tók það þá til bragðs, að hann lèt líkið í poka, og lèt hann vera á hurðarbaki í kirkjunni. Liðu nú fram tímar, þángað til ein af vinnukonum prests, er Guðrún hèt, glataði tóbaksdósunum sínum. Um kvöldið fór hún að bera sig illa yfir missi sínum, svo að presturinn bauð henni loksins nýjar dósir og tóbak í, ef hún færi þá út í kirkju og sækti þángað beinapokann. Hún lèt sèr það ekki í augum vaxa, og sókti pokann. Um nóttina kom Jón til hennar og mælti: „Illa hefir þú farið með bein mín, og hlýtur að bæta mèr það að fullu; láttu nú sjá og farðu á nýársnótt út í kirkju, og segðu við konuna með rauðu húfunni: fyrirgefðu beinagrindinni, sem liggur á hurðarbaki.“ Guðrún gjörði, eins og henni var boðið; fór út í kirkju á nýársnótt; var hún þá full af fólki og þekti hún ekkert af því, og var þar með kona með rauða húfu. Guðrún gekk til hennar, og skilaði til hennar sömu orð-

unum, sem henni voru lögð í munn. Konan svaraði með harðri rödd: „Já.“ Morguninn eptir sagði vinnukona presti upp alla sögu. Voru þá enn grafin bein Jóns, og var ekki hreift við gröfinni eptir það.

**Húskarlinn á Hólum.** (Eptir handriti Gísla Konráðssonar.) Það er gömul saga, að á Hólum í Hjaltadal hafi vinnumaður nokkur deilt við húsmóður sína, er var heldri kona, og segja sumir að það hefði verið biskupsfrúin sjálf. En vegna þess, að bæði voru skapill, komst í svo hart milli þeirra, að þau hètust hvort við annað, og hreif það innan skamms tíma, því þau voru bæði dauð á þriðja degi. Var hún jörðuð í kirkjugólfinu, en hann í kirkjugarðinum, og fór þá að kvisast, að þau hefðu dáið á óeðlilegan hátt. Það var lángan tíma eptir þetta, að menn sáu þau fljúgast á á kvöldin og eigast ílt við bæði í kirkjunni og fyrir utan hana. Eptir lángan tíma hætti allur reimleiki. Eptir að mörg biskupaskipti höfðu orðið, bar svo við, er jarðað var, að beinagrind af karlmanni kom upp úr kirkjugarðinum, hèkk hún öll saman á sinunum, og þókti það mjög undarlegt. Hún var látin undir krókbekk í kirkjunni, eða í stöpulinn. Daginn eptir kom Skálholtsbiskup að heimsækja Hólabiskup. Um kvöldið, er þeir sátu að kvöldverði, mintust þeir á beinagrindina. Skálholtsbiskup sagði, að sig lángaði mjög að sjá hana, og spurði, hvort nokkur þar á staðnum mundi vera svo hugaður að sækja hana út í kirkju. Hólabiskup sagði, að hver, sem við væri látinn, mundi þora það, en Skálholtsbiskup trúði því ekki, svo að þeir veðjuðu um það 9 dölum. Hólabiskup kallaði þá á Gunnu, vinnukonu sína, og spurði hana, hvort hún vildi sækja beinagrindina. Hún sagðist skyldi gjöra það, og fór út í kirkju gegnum jarðgaungin; þeirra sèr enn merki úr staðnum. Hún kom með grindina til biskupanna. En er þeir höfðu skoðað hana eptir vild sinni, spyr Skálholtsbiskup hana, hvort hún þyrði að bera beinagrindina út aptur fylgðarlaus og ljóslaus. Hún játti því, og sagði, að það væri hægt að koma henni þángað aptur. Síðan tók hún grindina á bak sèr, og hèlt í handleggina, og fór eptir gaungunum. En er hún var komin í mið gaungin, gaf grindin hljóð frá sèr og mælti: „Meiddu mig ekki.“ Hún svarar: „Eg skal ekki gjöra það, eða kennir þú nokkuð til?“ Síðan hèlt hún áfram, og fannst henni þá grindin þýngjast mjög; þá sagði grindin: „Sleptu mèr ekki.“ Gunna mælti: „Haltu þèr þá.“ En er hún kom í kirkjuna, lagði hún grindina hægt niður. Þá sagði grindin: „Veiztu, af hverju eg er svona á mig komin?“ Hún sagðist ekki vita það. Sagði hann henni það, sem fyrr er sagt, að hann og biskupsfrúin hefðu heitast, og væri eins ástatt fyrir henni, að bein hennar gætu ekki rotnað; bað hann Gunnu að kalla til hennar og segja henni, að hann bæði hana fyrirgefníngar. Hún gjörði svo, og var því svarað, að hún fyrirgæfi honum. Grindinni þókti vænt um þetta, og sagðist nú mundi rotna, og bað hana að sjá um, að bein sín væru grafin. Sagði hún henni, að biskuparnir hefðu veðjað, og

hún skyldi heimta veðfèð. Enn fremur sagði hún henni, svo að verk hennar væri ekki ólaunað, skyldi hún næsta morgun fara til kirkjugarðs með dálítið grafverkfæri; mundi hún þar sjá þúfu græna; skyldi hún grafa hana upp, og hirða það, sem þar væri. Síðan fór Gunna til biskupanna og fèkk veðfèð, en þá furðaði á því, hvað hún hefði verið leingi í burtu; en hún sagði, að það væri ekki neitt undarlegt, því hún hefði verið að verki sínu í eldhúsinu. En undir þúfunni fann hún dalakút. Hún varð mjög hamíngjusöm, og fèkk ágæta giptíngu.

**Breiðherðúngur.** (Eptir handriti sèra Benedikts þórðarsonar á Brjánslæk.) Á 19. öld var prestur einn á Álptamýri, sem Markús hèt þórðarson. Honum samtíða bjó bóndi sá á Bauluhúsum, er Magnús hèt, roskinn maður, og þókti forn í brögðum. Honum var vel til prestsins. Út með hlíðinni frá Álptamýri var staður sá, sem prestur vildi láta byggja stekk; og var ætlun manna, að þar mundi vera gömul dys, er haganlegast þókti að byggja stekkinn. Magnús latti prestinn að róta þar um, og kvað ílt mundi af leiða. Eingu að síður rèðist prestur í að ryðja dysina til stekkjar-stæðis, og vann að því sjálfur; og er mælt að hann fyndi þar mannsbein fúin mjög, og peninga nokkra gamla, og að hann tæki peníngana, en byggi um beinin í moldu. Að þessu búnu veiktist prestur, sem áður var hraustmenni og heilsugóður, mjög undarlega. þóktust skygnir menn sjá mann einn svo stóran, að höfði mundi hærri en hæstu menn nú á dögum, og eptir því digran. Kölluðu þeir hann „Breiðherðúng“. Ætluðu menn, að það mundi vera sá sami, sem í dysinni var, og mundi valda veikindunum prestsins. En þó varð presti ekki stórkostlegt mein að honum, meðan Magnús á Bauluhúsum lifði, því það var ætlun manna, að hann mundi með kunnáttu sinni hafa hjálpað prestinum. En þegar Magnús var dáinn, uxu mjög meinlæti prests. þegar prestur heyrði lát Magnúsar, er mælt, að hann hafi sagt: „Guð hjálpi mèr, nú held eg sè úti um heilsuna mína.“ Hann hætti síðan prestsþjónustu, þjáðist leingi, og dó undarlega eptir sögn sèra Jóns Ásgeirssonar, sem orðinn var þá prestur að Álptamýri, og var viðstaddur, þegar hann dó.

**Holta-Jóka á Álptamýri.** (Eptir sögum úr Arnarfirði.) Jórunn þessi fyrirfór sèr sjálf, en beiddi prest áður en hún dó að hann lèti grafa sig í kirkjugarði, en hann synjaði henni þess. Gekk hún síðan aptr og drap prest, en næsti prestur á Álptamyri, sèra Árni, setti hana niður í holtunum fyrir utan Krákudalsá en fyrir innan túnið á Álptamýri og þar sveimaði hún um og gat komizt inn að Bauluhúsum, en komst aldrei út að Álptamýri.

Hrólfur hèt vinnumaður á Álptamýri, hann átti þar kindur í heyjum, en varð heylaus og bjargþrota fyrir þær æ þegar kom fram á góu; nú leggur hann poka á bak sèr og fer inn á bæi að draga sèr hey í pokann, og reytir hann hey í pokann, svo hann er fullur, leggur hann síðan á bak sèr og heldur

á stað, en nú er komið myrkr. Leiðin lá út með sjó um Bauluhúsaskriður, og lágu móskaflar með allri strönd. Nú kemur hrævareldur og leiptrar framan í Hrólf, svo að annað veifið veður hann úti sjó, en annað veifið er hann uppi í mósköflum og rekur sig á þá. Hann var þá ýmist hryggur eða reiður, og batnaði þá ætíð nokkuð þegar hann reiddist. Nú fer hann þannig þartil hann kemur undir Bauluhúsa bakka, þá sèr hann hvar kona gengur uppi á bökkunum, og hafði háfa skuplu á höfði, og lafði trafhorn aptur og hèkk ofan á miðjan hrygg. Hún var í síðu fati og bakbeltuð. Hrólfur átti ekki þessara gesta von og kallar á konuna og spyr hver hún sè, en hún svarar engu. Þá spratt kaldur sviti út um hann allan. Nú færast þau út eptir, hún gengur ávalt á bý við Hrólf, en hann hefir hliðsjón af henni, og gekk aldrei harðara. Þau gánga út eptir Krákudalseyrum og yfir Krákudalsá. En þegar kemur út í holtin fyrir utan ána þá hverfur hún. Gengur nú Hrólfur heim að Álptamýri og var laungu dagsett þegar hann kom þángað og kveikt ljós. En þegar Hrólfur sá ljósið ætlaði að líða yfir hann, eins og ávalt er ef maður hefir sèð aptrgaungu og kemur síðan í ljós og gekk hann þá út aptur. Á Álptamýri var gamall maður sem hèt Einar. Þegar hann sá í augun á Hrólfi og hann gekk út aptur, veitti hann honum eptirför og spurði hvað hann hefði sèð, en Hrólfur lèt lítið yfir, og neitaði, en þó linlega, en síðan sagði hann upp alla sögu. Einar kannaðist þá við, og sagði: „þar hefir þú sèð Hólta-Jóku, sem hefir dys sína hèr inn í holtunum, og er niðrsett þar af Árna presti;“ sagði hann honum síðan uppruna þessarar sögu.

**k)** Loksins eru hèr 3 draugasögur, og þykir mèr eðlilegra að láta þær fylgja apturgaungum, en uppvakníngum, af því það orð hefir á leikið, að þeir sem reimleikunum ollu, hafi gert sig sjálfir að draugum, til að blekkja aðra og hræða, og geingið á þann hátt aptur lifandi. Það mælir mest með þessum sögum, að þær eru allar teknar eptir sjónar og heyrnar vottum, eða samtíða mönnum og nágrönnum.

**Hjaltastaða-fjandinn.** Jón sýslumaður Espólín, sem vikið hefir á svo margt kynlegt í „Árbókum“ sínum, hefir einnig tekið inn í þær frásögu um andann á Hjaltastöðum í Múlasýslu,[1] og kallað æfintýr. Frásögnin hjá Espólín er reyndar nokkuð öðruvísi en hèr, og er það ekki að furða; hitt er meiri furða, hvað hún er þó lík þessari, sem er tekin eptir brèfi[2] Hans sýslumanns Wium, sem Espólín vænir svo berlega lygi. En brèfið er þannig: „Hjaltastaða-fjandinn lèt sig heyra nógu skorinorðan í vetur, jafnvel þótt einginn sæi hann. Eg hafði þá vanæru ásamt öðrum að heyra hann loquentem[3] nærri 2 dægur, á hverjum hann ávarpaði mig og

1. Sjá Isl. Árb. X, 21--22. bls.

2. Þetta brèf skrifaði Hans sýslumaður að austan til Haldórs biskups Brynjólfssonar á Hólum haustið 1750, eptir því er og fyrirsögnin tekin.

3. þ. e.: talandi.

prestinn sèra Grím þeim orðum, hverjum lík ei hefir auga sèð, og ekki eyra heyrt. Það fyrsta við komum þar á hlaðið,[1] kom upp í dyrunum svo látandi ferrea vox:[2] „So nú er Hans á Eyðum kominn, bölvaður beinmarkinn,[3] og vill tala við mig.“ Sá titill hans hjá öðrum mèr gefnum mátti álítast sem laudabilis hjá haud contemnendo.[4] Nær eg spurði svo að, hver mig slíkum orðum ávarpaði, svaraði hann voce feroci:[5] „Eg hèt í fyrstunni Lucifer, en nú heiti eg djöfull og andskoti.“ Hann fleygði að okkur bæði grjóti og steinum og trjám, líka og öðru, braut glugga tvo úr stofu prestsins. Hann talaði svo nærri okkur, að við vissum ei betur en hann væri rètt við hliðina á okkur. Kerlíng var þar ein, að nafni Opía, hverja hann kallaði konu sína, og „himneskan blessaðan sálarlóm,“ bað og sèra Grím að copulera[6] þau með fleiri að lútandi circumstantiis,[7] er eg ei muna vil. Iðulega bað þessi fjandi kerlínguna um það, að mega hátta hjá henni, et quae praeterea publica verba juvant.[8] Eg nenni varla að skrifa um hans fyrirtektir, sem allar voru vanvirða og skömm eptir eiginlegu eðli auctoris. Hann las þrisvar faðirvor, svaraði úr Jónsspurníngum og Biblíunni, sagði, að djöflar hefðu messur í helvíti, og hvað þeir hefðu fyrir texta og saung, sem tímanum hagaði; það var alt miður á sig komið, en þess geti hèr minnzt orðið. Hann bað okkur að gefa sèr af mat þeim, sem með fórum, og að drekka te o. s. frv. Eg spurði þenna karl, hvort guð væri góður. Hann sagði, já. Hvort hann væri sannorður. Hann svaraði: „Það er ekki að tvíla eitt hans orð.“ Sèra Grímur spurði hann að, hvort skrattinn væri fallegur. Hann svaraði: „Alt er hann fallegri, en þú, bölvað greppatrýnið þitt.“ Eg spurði hann að, hvort djöflunum kæmi vel saman. Hann svaraði svo sem kjökrandi: „Það er kvöl að vita til þess, að þeir hafa aldrei frið.“ Eg bað hann að tala við mig í þýzku nokkuð, og sagði til hans: „Lasz uns Teusc redre.“[9] En hann notaði sèr síðasta orðið, sem hann hefði haldið mig konuþurfa. Þegar við fórum að hátta um kvöldið, kallaði hann upp grimdarlega á gólfinn, og sagði: „Nú skal eg á þessari nótt klussa ykkur til helvítis, og þið skuluð ekki fara svo úr rúminu, sem þið leggizt niður.“ Hann bauð góðar nætur konunni prestsins um kvöldið. Um nóttina vorum við sèra Grímur

---

1. þ. e. á Hjaltastöðum.
2. Eptir orðunum: járnrödd (herfileg rödd).
3. þessa mannkenníng hefi eg aldrei heyrt fyrri, en þess optar „beinasni“ í atyrðum.
4. Eptir orðunum: lofsverður hjá öðrum ólastandi; þ. e. illskárri en annar verri.
5. grimdar raust.
6. gefa saman.
7. ummælum.
8. auk annars, sem haft er í óvönduðum munnsöfnuði.
9. þ. e. eptir orðunum: Látum oss tala þýzku. Í handritinu stóð með skýrum stöfum reðre, og á það betur við það, sem á eptir kemur (sbr. reður á ísl.), en er ekki rètt þýzka.

að tala við hann undir dag; meðal annars spurðum við hann, hverninn úti væri. Hann svaraði: „Hann er kaldur á utan og norðan.“ Hvort honum væri kalt. Hann svaraði: „Eg ætla mèr sè bæði heitt og kalt.“ Eg spurði hann, hvað hátt hann gæti hljóðað. Hann svaraði: „Svo hátt, að þakið fari af húsinu, og þið dettið allir í dauðrot.“ Eg sagði, hann skyldi reyna það. Hann svaraði: „Meinar þú, eg sè kominn að leika fyrir þèr, bölvaður beinmarkinn?“ Eg sagði, hann skyldi sýna okkur nokkuð lítið specimen.[1] Hann sagðist það gera skyldi, og rak upp þrjú hljóð; en það síðasta var svo ljótt, að eg hefi aldrei annað ljótara heyrt, efa og, að heyra muni. Undir daginn, eptir það hann með siðvanalegum complimenter hafði við kkur skilið, sofnuðum við. En um morguninn kom hann inn aptur, og fór að vekja, nefndi svo hvern einn með nafni, og gleymdi samt ei að gefa nokkrum bínöfn, og spurði, hvort sá og sá væri vaknaður. Nær hann merkti það, sagðist hann verða að leika við hurðartetrið sitt, og hýddi í því sama hurðina af hjörunum og lángt innar á gólfið, og það í snöggvum rykk. Undarlegast var það, að nær hann snaraði, þá fór það, sem snarað var, strax niður, en eptir það færðist þaðan aptur rètt, svo sýnilegt var, að annaðhvort fór hann í það, eður varð því samferða. Um kvöldið fyrir manaði hann mig víst tvisvar fram í myrkrið til sín, og það reiðulega, sagðist skyldi tæta mig bein frá beini. Eg fór fram, og sagði hann skyldi koma; en þá var alls ekkert. Nær eg kom aptur og spurði, því hann hefði ekki fullkomnað sitt loforð, svaraði hann: „Eg hefi þar ei bífalníng til af mínum húsbónda.“ Hann spurði okkur, hvort við hefðum heyrt þvílíkt nokkurn tíma áður, og nær við sögðum já, sagði hann: „Það er ei satt; slíkt hefir aldrei heyrzt frá alda-öðli.“ Hann hafði súngið „Jesú minníng,“ eptir það eg kom þar, talað iðulega, meðan farið var með guðs orð. Ekki sagðist hann gefa sig neitt að því, þó guðs orð væri um hönd haft, nema hann sagði, sèr væri ekki um „Kross-skóla sálma,“ og það hefði mátt vera mikill helvízkur beinmarki, sem þá hefði samsett. Þessi óvinur kom sem fjandi, fór burt eins á sig kominn, og hagaði sèr, meðan hann var, sem fjandi, og eingum nema fjandanum hæfir að útskýra það alt með orðum, er hann rausaði. Samt er ekki því að leyna, að eg þykist ekki yfirbevísaður að öllu um það, að þetta hafi andi verið, hverjar mínar passioner[2] eg fæ þó ekki hèr til fært vegna tímans óhentisemi.“

**Garpsdals-draugurinn.** (Eptir sögn sèra Sæmundar í Garpsdal sjálfs, og handriti sèra Gísla Ólafssonar þá á Stað á Reykjanesi, dags. 7. Juni 1808.) Um haustið 1807 varð sá ókyrleiki um nótt í skálanum í Garpsdal, að skálahurðin lamaðist, en þar sváfu inni vinnumenn prests, Þorsteinn Guðmundsson, Magnús Jónsson, og barn eitt, sem Þorsteinn hèt. Síðar um haustið, 16.

1. þ. e. sýnishorn.
2. Eiginlega: tilhnegíngar, þ. e. að álíta þetta ekki anda.

November, var brotinn bátur, sem presturinn átti niður við sjó, nm bjartan dag, og þótt höggin heyrðust heim að hæ, var eingin mannleg mynd sýnileg, sem þetta framkvæmdi. Alt fólkið var heima við bæinn í Garpsdal, og únglíngs dreingurinn Magnús Jónsson ýmist út við fjárhús eða heima við bæinn, og honum hefir andinn optast birzt í kvennlíki. 18. dag. s. m. voru brotnar 4 fjárhúshurðir á björtum degi, meðan prestur var í kirkju að gefa saman hjón, og flestir heimamenn þar viðstaddir, og Magnús með þeim. Sama daginn um kvöldið varð vart við þenna kvennanda í fjárhúsunum, því hún lètzt vilja fá sèr í steik eina ána, sem presturinn eignaði sèr; en þegar gömnl kona, sem var í Garpsdal, skýr og margfróð, sem Guðrún hèt Jónsdóttir, handfór ána, minkaði korrið í henni, svo hún rètti við og kom aptur á fætur. En Magnús stóð í húsdyrunum, á meðan Guðrún fór höndum um ána; en í þessum svifnm var hrotinn einn raptur úr húsinu, og brotunum fleygt framan í Magnús; í því sagði hann að kvennandi þessi hefði farið burtu. Hestar prestsins voru þar á vellinum, og í sömu svipan setti svo mikla fælni að þeim, að þeir hlupu jafnt yfir hlásvell, sem svellalausa jörð; þó varð þeim ekkert meint við hlaupin.

Að kvöldi hins 20. s. m. kvað einna mest að þessum ókyrleika; þá voru brotin þil frá húsum innan bæar og stofuhurðin. Presturinn stóð þá í bæardyrunum, Magnús og stúlkur 2 eða 3, og segir Magnús við prest, að andinn hafi farið inn í stofuna. Prestur hljóp þá í stofudyrnar, og þegar hann hafði staðið þar litla stund og verið að tala við fólkið, hrast ein rúða í glerglugganum í stofunni fyrir innan hann. Magnús stóð þar hjá presti fyrir framan stofudyrnar, og var að tala við hann, en segir, þegar rúðan brast, að nú hafi andinn farið út um rúðuna. Gekk þá presturinn að rúðunni, og sá, að hún var brostin og öll hrotin í smámola. Um kvöldið eptir, 21. s. m. gerði andinn enn vart við sig með bramli, skrölti og illum látum.

28. s. m. tók yfir um aðgáng þessa anda; því um kvöldið var lagt gríðarhögg ofan í haðstofuna. Var þá presturinn inni, en Magnús með 2 stúlkum úti í hlöðu. Í sömu andránni var brotið þilið frá vefarahúsinu á baðstofugólfinu, og síðan 3 gluggar á baðstofunni, einn yfir rúmi prestsins, annar yfir skrifborðinu, og þriðji fyrir framan kamersdyrnar. Inn um einn þeirra var sent bakflettíngur af borði, en inn nm annan páll. Við þetta hrukku hjónin úr húsinu fram á loptið; en með því presturinn var hugmaður, hljóp hann ofan og fram og út, var þá og með honum Guðrún kerlíng, sú sem áður var nefnd; þar kom og Magnús og fleira hæarfólk. Í þeirri svipan var hlandkeraldi hent í höfuð Guðrúnar frammi á hlaði, en keraldið hafði staðið inn í eldhúsi. Hljóp þá presturinn inn og Magnús með honum og stúlkurnar; var þá alt á lopti sem lauslegt var, bæði hurðir og spýtnr og spýtnahrot. Prestur lauk þá upp stofunni frammi í hæardyrunum, og ætlaði þar inn, en í því var send sleggja, sem lá í dyrunum, í prestinn,

og snerti hún hanu að eins neðan til á síðunni og um huppinn, en gerði honum ekki grand. Fór svo presturinn þaðan með fólkinu innar í baðstofuna, er lèk þá öll á reiðiskjálfi, þar með fylgdi og skothríð allhörð með fjalasprekum úr þiljunum. Flýði prestur þá af staðnum og fór með konu sína og barn til Múla, næsta bæar, og skildi hana þar eptir, því hún var orðin dauðhrædd af öllum þessum aðgángi. Síðan fór prestur aptur heim; mættu honum þá 2 stúlkurnar felmtsfullar, og fylgdi hann þeim sjálfur um nóttina að Gróustöðum, næsta bæ á hina hliðina við Garpsdal, og var þar einnig sjálfur, það eptir var næturinnar. Í þessari lotu brotnuðu glergluggar, bæði í baðstofunni og stofunni.

8. dag Decembermánaðar gerði þessi kvennandi vart við sig að nýu á björtum degi; braut hann þá hyllur í búrinu og þilið framan undan því; stóð prestur sjálfur þar fyrir framan og Magnús hjá og enn fleira fólk. Er það haft eptir Magnúsi að andinn hafi þá hörfað burtu, undan orðum prestsins, út í vegginn, og farið þaðan í fjósrángalann. Þau Magnús og Guðrún fóru þángað, en feingu þar þær viðtökur, að framan í þau var fleygt blautri mold og mykju, þá var og snarað að Magnúsi svo stórum steini, að einginn karlmaður mundi stærri stein hefja, en slegið í handlegg Guðrúnar; af því höggi lagðist hún handlama í rúmið í 3 vikur, en batnaði þó aptur.

26. dag s. m. varð enn vart við þenna anda þannig, að Einar smali Jónsson, harður dreingur og einbeittur, særði mynd þessa til að sýna sig. Kom þá þegar yfir hann víngl og æði svo mikið, að það varð að hafa sterkar gætur á honum, að hann færi sèr ekki sjálfur að voða. Var hann svo fluttur til bæar og vakað yfir honum með ljósi og haldið í rúminu. En þegar hann kom til sjálfs sín aptur, sagði hann, að þessi stúlku-ángi hefði komið yfir höfuðið á sèr, og ásókt sig einlægt eptir það; þegar hann hafði alveg náð sèr aptur, fór hann alfarinn burt frá Garpsdal. Nokkru síðar var fleygt í prestinn á baðstofugólfinu taðflögum, en alt fólk annað var uppi, og þegar að var gætt með ljósi, sást ekkert annað, en taðhraukurinn, sem þar átti að vera. Síðar meir fannst hestur prestsins dauður í hesthúsi í Múla, og sögðu heimilismenn þar, að hann hefði verið blár og bólginn.

„Þetta eru markverðustu tilburðirnir af Garpsdalsdraugnum eptir vitnisburði prestsins sèra Sæmundar, Magnúsar, Guðrúnar og alls heimafólks í Garpsdal, og vill það alt staðfesta framburð sinn með eiði, og það með, að hèr gat ekki mennskur maður verið jafnósýnilegur á degi og nóttu, heldur hafi það verið einhverskonar anda-mynd, sem illverkin framdi. Af sögunni sjálfri sèst, að hvorki Magnús[1] nè nokkur annar maður gat

1. Magnúsi þessum var þó einmitt kent um allan draugagánginn í Garpsdal, enda hefir loðað við hann síðan viðurnefnið „Garpsdals-draugur;“ er hann nú orðinn gamall karl. Svo hafa sagt mèr tveir fróðir menn og gætnir, og var annar sýslúngi Magnúsar; en hinn úr Garpsdalssókn.

framkvæmt slíkt, enda vill alt fólkið staðfesta það, og alla menn um það sýkna sanna, að þess vitund. Þannig löguð frásaga var okkur, mèr undirskrifuðum, Samuel Egilssyni og Bjarna Oddssyni, sögð í Garpsdal af sjálfum prestinum og heimilisfólkinu 28. Mai 1808. Að þetta sè rètt í röð samið, eptir því sem velæruverðugur presturinn sèra Sæmundur mèr fráskýrði, vitna eg að Stað á Reykjanesi 7. Junii 1808.

Gísli Ólafsson.

**Geitdals-draugurinn.** (Eptir sjónar- og heyrnar-vott mestmegnis.) Árið 1834 gerði ókyrleiki nokkur vart við sig í Geitdal í Skriðdal, Þíngmúla kirkjusókn í Múlasýslu. Þar hjó þá maður sá, sem Guðmundur hèt. 14. dag Januarm. þ. á. sendi hann mann af næsta hæ eptir sóknarpresti sínum, sèra Eingilbert Þórðarsyni í Þíngmúla, (1820—1851), og sveitarforstjóra, að þeir kæmu og rannsökuðu reimleika þann, sem um það leyti varð vart í Geitdal. Þar eð nú prestur hvorki var heima, nè heldur gat hreppstjóri farið sökum heilsulasleika, en sendimaður sagði, að Geitdalsbónda væri mjög ant um, að einn eða fleiri afbæarmenn kæmi til sín og væri hjá sèr nætur sakir, til þess að sjá og heyra aðfarir draugsins, fór sá, sem sagt hefir sögu þessa, og annar maður með honum að Geitdal, meir fyrir forvitnis sakir, en þess að þeir svona ótilkvaddir ætluðu sèr að rannsaka það, sem prestinum og hreppstjóranum var ætlað. Þegar þessir þrír menn komu að Geitdal, komu konan og dóttir hennar fram til þeirra með ljós, og þegar konan varð þess vör, að sögumaður var heldur kýmilegur yfir þessari komu sinni, varð hún mótlætt, og þókti sem komumenn væru að gera gys að sèr. En meðan þau stóðu 5 saman með ljósið í bæardyrunum, og horfðu hvort á annað, kom moldargusa á einn þeirra, sem innstur stóð, og virtist sögumanni, sem hún kæmi úr skáladyrunum, sem voru þar nokkuð innar af. Tók þá sögumaður ljósið og fór með það inn í skálann, og svo í eldhúsið, þar inn úr; var það sópað og fágað, en eldsgögn öll í burtu horin og eldurinn drepinn. Þar stóðu þau við litla hríð, og var sögumaðurinn innstur með ljósið í hendinni. Kom þá á móti honum sótgusa úr rjáfrinu; en hann skygndist um hátt og lágt í eldhúsinu, og gat ekki sèð, af hvers völdum þessi sendíng var. Geingu þau svo aptur fram í skálann, og kom þá enn yfir hin sama moldargusa; skygndist hann þar enn um, og varð einkis vísari að heldur. Síðan fóru þau inn í baðstofu, og gusaðist á þau á leiðinni þángað víst þrisvar sinnum. Þegar komumenn höfðu heilsað þeim, sem fyrir voru, og farið úr vosklæðum, var þeim sagt, að sendíngar væri farnar að koma upp um uppgaungnna. Varð sögumanni það þá fyrst fyrir að gæta þess, hvort alt heimilisfólkið væri uppi á pallinum, og þegar hann sá það þar alt með tölu, settist hann á rúm gagnvart uppgaungunni. Flugu þá að honum sendíngar upp um uppgaunguna; var það bæði hlautt torf sem reytt hafði verið úr veggjunum og mylsna af gólfinu. Þegar þetta

hafði geingið um hríð, fór sögumaðurinn ofan á baðstofugólf með ljós, og báðir fylgdarmenn hans með honum. Var þá, eins og upp væri lokið baðstofuhurðinni, og leituðust þeir við að komast eptir, hvernig þessu væri varið, en urðu einkis vísari. Meðan þeir voru niðri, kvartaði heimafólkið yfir sendíngum uppi á pallinum; fóru þeir svo upp aptur, og komu þá sendíngarnar sín úr hverri áttinni, og gekk það nokkra stund, síðan fóru þær að koma upp um uppgaunguna, en hættu uppi á pallinum. Voru þá teknar húðir og uppgángan byrgð með þeim vandlega; upp frá því bar ekki á sendíngunum upp um hana um kvöldið, en undir húðirnar geingu köstin alt kvöldið fram á miðnætti; en eptir það hvarf allur ókyrleiki um nóttina. Morguninn eptir, þegar komið var á fætur, fór sami ókyrleikinn að gera vart við sig aptur. Var svo farið í fjós og höfð nautaverk, en þá var á lopti grjót, moð og torf, sitt úr hverri áttinni. Fóru svo allir burtu úr fjósinu, nema 2 stúlkur, sem voru að mjólka. Gætti sögumaður þá grant að því, að þar voru ekki fleiri menn sjónarlegir, en hann og stúlkurnar 2, sem mjólkuðu sína kúna hvor á móti annari, en hann stóð á flórnum á milli þeirra. Komu þá sendíngar sín úr hvorri áttinni á hann og stundum úr rjáfrinu; stúlkurnar kvörtuðu og yfir því sama; en eptir því sem sendíngarnar voru stærri, eptir því voru þær aflminni. Eptir þetta fór sögumaður heim til sín, og rýmdi þá einn heimamaður með honum bæinn í Geitdal. En sögumaður fór þó aptur þángað um kvöldið, og var þá fagnað þar, sem hann væri sendíng frá himnum; því þá var nýafstaðin hörð skothríð, og fólkið, sem litið hafði kært sig um þessar skráveifur að undanförnu, var nú orðið talsvert skelkað. Sá hann nú þau vegsummerki, að pallurinn allur var upprokinn með torf og mylsnu, eins voru bæði þil og rúm, en glergluggar brotnir. Þetta kvöld lèt draugurinn fjúka torf og bein, diska og bækur og sitt hvað annað. Eptir fyrirmælum húsbóndans tók fólkið sèr þá Grallarann í hönd og sögumaðurinn með, og saung á hann. Við það varð nokkurt hlè á sendíngunum, og ángist heimilismanna minkaði. Sögumanni þókti vænt um, að svona skipaðist og alt komst í ró. En lognið stóð ekki leingi, því þegar saunglistin hafði staðið nokkra stund, kom hver torfuhnausinn og moldarsendíngin á fætur annari á sögumanninn og Grallarann. Saungnum var haldið á fram eingu að síður, þó þeir, sem súngu, færu að verða vantrúaðri á hann, en áður. Hætti svo skothríð þessi uppi á pallinum, en fór aptur að koma upp um uppgaunguna. Var þá uppgángan byrgð, eins og áður, með húðum, en þá var þeim lypt á lopt. Fóru þá 2 menn á húðirnar og lágu á þeim til morguns. Sögðu þeir að svo hart hefði verið knúð á húðirnar að neðan, að þeir hefðu alt að því hafzt á lopt; en eptir miðnætti hætti ókyrleikinn með öllu, eins og áður. Þessa nótt vöktu þeir alla, sem á húðunum lágu og sögumaðurinn; gekk hann um gólf á pallinum, og skaraði ljósin, til þess bjartur dagur var. Komu þá sendíngarnar að nýu. Þenna dag kom sèra Eingilbert að

Geitdal og fjórir menn aðrir, svo þá voru þar 7 karlmenn aðkomandi. Þegar prestur var kominn inn í baðstofu, skall torfuhnaus á eyra hans. Prestur stekkur þá upp alvarlegur, og biður þann aldrei þrífast, sem stýrt hafi þessari sendíngu, og vísar honum með fullum stöfum í helvíti. Þegar hinir gestirnir höfðu orðið fyrir sömu kveðjum og prestur, stökkva þeir og upp með stóryrðum, og ætla að hremma þann, sem stýrt hafi sendíngunum, en gripu þá heldur en ekki í tómt. Um þetta leyti var farið að rökkva, og var alt fólkið látið fara úr frambaðstofunni inn í afþiljað hús í öðrum baðstofuendanum; var húsið þètt og vel um vandað, nema hvað það vantaði svo sem tveggja þumlúnga breiðan kálf í mitt þilið upp undan húsdyrunum, og að það var hurðarlaust. Í þetta hús var safnað saman flestöllu heimilisfólkinu og sumum gestunum; því 2 þeirra stóðu í húsdyrunum með sína byssuna hvor steytta, sögumaður öðru megin dyra við uppgaunguna fyrir framan húsið, en prestur hinu megin dyranna og maður með honum, sem sögumaður kaus til þess; stúlka ein af heimafólki var þar og fyrir framan, sem sögumaður hafði grun á, að ætti einhveru þátt í þessum draugabrellum, og hafði hann því einkum augastað á henni. Þegar búið var að skipa fólkinu þannig niður, sem nú var sagt, lètu skotmennirnir hvorki skorta skot nè heitíngar; en þá kom úr mannlausa baðstofu-endanum ómælt af torfi og öðru því, sem á lopt mátti færa. Þegar þessi skothríð hafði geingið um stund, vita skytturnar ekki fyrri til, en á þá er kastað innan úr húsinu, þar sem fólkið var, taðkögglum og spýtum og sínu sinni hverju, sem fyrir varð, rètt í opna skjöldu; en við það hætti skothríðin frammi á pallinum. Sneru þá skytturnar inn í húsið, og gjörðu þá harða hríð á móti þessum ófögnuði. Aðkomumennirnir stóðu í sömu röð, sem fyrr var frá sagt. nema skytturnar, og gættu, hvernig fólkið hagaði sèr, og sendíngunum reiddi af. En alt fór sem fyrri, að þeir urðu einkis vísari um það, af hverjum toga alt þetta var spunnið. Baðstofan var orðin full af púðurreyk, svo varla var við vært, og var þá hætt byssuskotunum, en ókyrleikinn hèlzt við, eins og áður, fram á miðnætti. Það segja aðrar sagnir, að þegar byssuskotin hrifu ekki, hafi prestur látið fólkið setjast við sálmasaung, en hann hafi haldið ræðu (vígslu) til að útrýma þessum ófögnuði. En í miðri ræðunni hafi verið sent úr auða enda baðstofunnar beizlisstaungum og tóbaksjárni, sem þar átti að liggja á hyllu hvorttveggja, á nefið á presti, og kumlaðist hann nokkuð af því, og hætti vígslunni.[1] Um morguninn eptir kom sami ókyrrleikinn enn á gáng, og fór þá alt fólkið úr bænum, bæði heimamenn og aðkomandi. Karlmaður og kvennmaður fóru þángað næsta dag eptir, til að þjóna gripum, og urðu þá einkis vör. Flutti fólkið sig svo heim aptur og hefir ekkert á þessu borið síðan.

1. Frá vígslu sèra Eingilberts hefir sagt Þórarinn stúdent Jónsson nú í Kaupmannahöfn frá Skriðuklaustri í Múlasýslu.

,,Að þessu, sem nú er sagt hèr að framan, var eg með óskertum skilníngarvitum, að lyktinni undan tekinni, sjónarvottur, og skildi ekki í og skil ekki enn þá, hvernig þessu var varið. Margrætt hefir verið um þetta síðan, og sumir merkismenn segja og útbreiða, að þetta narrarí hafi verið af heimilismanna völdum. Mèr datt það opt í hug líka við þá og þá sendíngu, er eg fèkk þar fremra, að heimilisfólk væri að þessu, og ætlaði að fá sannfæríngu upp á það, en varð forgefins. Aldrei voru sendíngarnar nema í einum stað í senn, og svo mildar, að þær gerðu ekki skaða nema glergluggunum. Það var líka hættulegt, þegar eldurinn fannst híngað og þángað um bæinn, var samt á gólfinu. Það sá eg ekki og ekki neinn, fyrr en hann fannst um hábjartan dag, og þar og þar. Og þeir, sem mest illyrtu sendíngarnar og hentu á móti þeim, feingu þær mestar.“ Sögumaðurinn.[1]

---

## 2. GREIN.

### UPPVAKNÍNGAR EÐA SENDÍNGAR.

Undir þenna annan kafla af draugasögum lúta, hvernig sem þeim að öðru leyti er varið, allar þær sögur um drauga, sem fjölkynngismenn hafa vakið aptur til lífs og neytt til sinnar þjónkunar. Þegar í heiðni er getið uppvaknínga, eða um að vekja upp, þar sem orðatiltækin koma fyrir: „úti setor at vekja troll upp;“[2] náskylt er það og þessu, er fornmenn gjörðu mann af leiri, lètu í dýrshjarta, og settu hann til mótstöðu fjandmönnum sínum,[3] eða og að mannslíki var gjört úr trè og látið í mannshjarta og síðan magnað svo með tröllskap og fjölkynngi, að trèmaðurinn gekk og mælti við menn, og framkvæmdi síðan hlutverk það, er höfundur hans hafði ætlað honum öðrum til ills.[4] Nú á dögum hefir sú list, að vekja upp drauga, lagzt svo í lóg, að ekki eru allir á einu máli um, hverja aðferð skuli þar við hafa. Sumir segja að taka skuli dauðs manns bein eitthvert, og magna það með fjölkynngi, svo að það fái mannsmynd, og senda síðan þeim, er maður vill mein gjöra. Ef sá, er sendíngin er send, er svo fróður, að hann geti hitt einmitt á það beinið í uppvakníngnum, er tekið var úr hinum dauða, eða og að nefna hann með rèttu nafni, orkar draugurinn

---

1. Sögumaðurinn er Runólfur hreppstjóri (síðan 1857) Guðmundsson á Þorvaldsstöðum í Skriðdal, og hefir hann skrifað sögu þessa í brèfi suður á land.

2. Sbr. Gulaþings lög Havniæ, 1817, 137. bls. Borgarþings lög, I, § 16.

3. Sbr. Skáldskaparmál 17. kap. 9. bls. í Stokkhólmsútg. og 272—276. bls. í Hafnarútg. 1848.

4. Sbr. Fornmanna s. III. 100—101. bls.

ekkert á manninn að vinna, og verður að hverfa svo búinn frá honum.[1] Þótt nokkrar af sögum þeim, er þegar koma, sýni, að þessi aðferð hafi stundum verið tíðkuð, segja þó aðrir, að meir þurfi við að hafa, ef menn vilji vekja upp draug. Fyrst er þess að gæta, að það sè gjört á nóttu, sem sè milli föstudags og laugardags, og jafnframt sè hún annaðhvort milli hins 18. og 19. eða 28. og 29. einhvers mánaðar; en einu gildir, hver mánuðurinn er og vikan. Skal særíngamaður sá, er vekja vill upp draug, kvöldinu áður snúa „faðir-vor" öfugt og rita það á blað eða bjór með keldusvíns-fjöður úr blóði sínu, er hann vekur sèr á vinstra handlegg; einnig skal hann rista rúnir á kefli, og fara síðan með hvorttveggja út í kirkjugarð um miðnætti, gánga þar að einhverju leiði, því er honum sjálfum lízt; en þó þykir varlegra að ráðast heldur að hinum minni. Skal svo leggja keflið á leiðið og velta því fram og aptur um það, en þylja á meðan öfugt „faðir-vor" upp af blaðinu og auk þess ýmsa töfraformála, sem fáir munu kunna. Fer þá leiðið smásaman að ókyrrast og ýmsar ofsjónir að bera fyrir særíngamanninn, meðan draugurinn er að mjakast upp; en það geingur seint, því draugar eru sárnauðugir að hreifa sig, og segja því: „Láttu mig vera (eða liggja) kyrran." En hvorki má galdramaðurinn gefa sig við þá bæn, nè láta sèr bregða við ofsjónirnar, heldur þylja þulur sínar í ákafa og velta keflinu, þángað til draugurinn er hálfur kominn upp. Jafnframt skal hann þó vandlega gæta þess, að eigi hrynji moldin úr leiðinu, þegar það fer að yptast; því þeirri mold verður ekki komið ofan í aptur. Þegar draugurinn er kominn hálfur upp úr, skal spyrja hann að tveimur spurníngum en eigi þremur, því ella mundi hann hverfa niður aptur fyrir þrenníngunni, og eru spurníngarnar vanar að vera: 1. hver hann hafi verið í lífinu, og 2. hversu mikill maður fyrir sèr. Aðrir segja, að spurníngin hafi verið að eins þessi eina: „hvað ertu gamall."[2] Ef draugurinn segist hafa verið meðalmaður eða meir til burða, þykir eigi ráðlegt, að halda leingra áfram, með því það liggur fyrir særíngamanni, að takast á við hann á eptir, því draugar eru ákaflega sterkir, eins og orðatiltækin „heljarafl" og „heljarmenni" benda til, sem enn eru tíðkuð um afarmenni til burða, og er það sagt, að þeir hafi hálfu meira afl, en þeir höfðu í lífinu, að tiltölu við aldur sinn. Þetta er því ástæðan til þess, að særíngamenn velja helzt til uppvakninga börn, 12 til 14 ára gömul, en annars kostar menn, sem ekki eru komnir yfir þrítugt og alls ekki þá, sem eldri eru, en þeir sjálfir. Þegar draugurinn segir til sín og aldurs síns, kominn upp úr gröfinni til hálfs, kemur særíngamaður honum niður aptur, ef honum sýnist svo, eða hann heldur áfram særíngunni, uns hann er kominn alveg upp. Þegar draugar koma fyrst upp úr gröfum sínum,

1. Dr. Maurers Isl. Volkss. 77. bls.
2. Sbr. Dr. Maurers Isl. Volkss. 78. bls.

vella öll vit þeirra, munnnr og nasir, í froðuslefju og saur til samans og heitir það náfroða; hana á galdramaður að karra af þeim með túngu sinni og segja sumir, að þaðan sè dregið orðatiltækið: „að sleikja upp vitin á einum.“ Þar með skal hann vökva sèr blóð undir litlu tánni á hægra fæti, og vökva með því túngu draugsins. Þegar særíngamaður er búinn að þessu, segja sumir, að draugurinn ráðist á hann, og verður þá særíngamaður að neyta allrar orku til að koma honum undir; ef það tekst og draugurinn fellur, er hann úr því skyldnr til allrar þjónkunar við galdramanninn; en verði draugurinn manninum yfirsterkari, dregur hann manninn með sèr í gröf sína, og hafa þeir eingir aptur komið, sem þángað hafa komizt á vald dranga. En aðrir segja svo frá, að særíngamenn ráðist á dranginn, þegar hann er að eins kominn upp til hálfs, og brjóta hann þannig á bak aptur, fastan á fótum og fatlaðan, eins og þeir eru, meðan ekki er búið að sleikja upp á þeim vitin og vökva þá á volgu mannsblóði. En lítist nú særíngamanni einhverra hluta vegna, að láta drauginn ekki koma leingra upp, en til hálfs, og vilji reyna að koma honum niður aptur, dugar optast til þess að nefna þrennínguna, eða lesa faðirvor rètt; en hafi draugurinn verið sjálfur galdramaður, meðan hann var lífs, þarf meira til. Verður þá særíngamaður að hafa hjá sèr band, og sè það fest í klukkustreingina báða eða alla, ef fleiri eru, því annars tekur draugurinn í þann streinginn, sem laus er, og hríngir þeirri klukkunni í mót særíngamanni, svo að eingar þulur eða töfraformálar orka á hann. Því á meðan galdramenn koma draugum fyrir, eiga þeir að hríngja í sífellu og lesa auk faðirvors yfir þeim töfraþulur, allar aðrar en þær, er þeir eru vaktir npp. En komi særíngamaður draugnum ekki niður, fylgir hann honum og niðjum hans í níunda lið. Slíkt hið sama gjöra og draugar þeir, er framkvæmt hafa það, er höfundar þeirra hafa lagt upphaflega fyrir þá, nema þeir þurfi að hafa þeirra not til fleiri sendiferða, eða fái þeim fyrir komið, og mega þá galdramenn eiga nokkuð hjá sèr, ef þeir eiga laglega að geta það prettalaust; því aðrar sagnir segja, að draugar sèu æ að magnast hin fyrstu 40 ár, sem þeir eru ofanjarðar, standa í stað hin næstu 40 ár, en fella af hin þriðju 40 ár; leingri aldur er þeim ekki ætlaður, nema áhrínsorð eða ummæli valdi.

Ekki er það ávalt, að uppvakníngar sèu í mannslíki eða af mönnum komnir, þó það sè lángoptast; en til að sanna sögu mína nm það, að annars konar uppvakníngar í ýmissa dýra líki hafi einnig verið, skírskota eg til sagnanna sjálfra, sem á eptir koma (t. d. Hjóna-djöfullinn, Svartidauði, Þorgeirs-boli o. s. frv.)

Tilgángur galdramanna með uppvaknínga er mjög ýmislegur. Í fornöld virðist svo, sem menn hafi einkum haft þá til að fregna um það, er fram ætti að koma, jafnvel þó nóg dæmi sèu til þess, að menn hafi einnig sent þá mótstöðumönnum sínum til meins. En á seinni öldum sýnist aðaltil-

gángurinn vera sá, að senda þá til höfuðs öðrum, og þaðan er sú þýðíng lögð í sendíngar, að það sèu uppvakníngar, sem öðrum eru sendir til ills. Þó áður sè talin nokkur tormerki á, að fyrir koma úngum draug og upprennandi eða fullmögnuðum, hefir það þó ósjaldan tekizt, en optast með nokkrum brellum, með því að ginna þá inn í leggi eða glös, reka svo tappa fyrir framan og binda líknabelg yfir opið og snara síðan leggnum með öllu í eða glasinu í afvikinn stað, fen eða díki. Stundum hafa slíkir leggir fundizt aptur, og fundarmaðurinn verið svo grunnhygginn, að taka tappann úr, svo að sendíngin hefir orðið laus aptur, og gjört þá enn margt til meins. Stundum hefir þeim þó verið fyrirkomið, þar sem bæði andríkir menn og fjölkunnugir hafa átt hlut að máli, í hellum eða gljúfrum. Þannig voru manni fyrir norðan, sem Haldór hèt Haldórsson, sendir 4 uppvakníngar af öðrum manni í hefndaskyni. Haldór leitaði þá í þessum vandræðum sínum liðs til Sigurðar Sigurðssonar á Kollalæk í Borgarfirði, er bæði var fjölkunnugur og skáld, og kvað hann niður draugana í hellinn Víðgeymi, sem er allnærri Surtshelli.[1]

Ýms kvæði eru talin óbrigðul vörn gegn-draugagángi og ásóknum illra anda, og skal hèr greina tvö dæmi til þess. Sagt er að Lilja hafi krapt til að stökkva burtu óhreinum öndum, og er það til marks um það, að gömul kerlíng var einhvern tíma á bæ, sem kunni Lilju, og kvað hana í hverju rökkri. En fólkið á bænum gjörði gabb að þessu, og lærði ekkert af kvæðinu. Þegar kerlíng var dáin, gjörðist mjög reimt á bænum; var þá stundum sagt með dimmri rödd: „Kveðið þið nú Lilju.“ En það gat einginn, því einginn kunni, og lagðist bærinn svo í eyði. Einu sinni var kona ein heima hjá úngbarni á jólanótt, en hitt fólkið fór til kirkju. Sat hún við ljós uppi á þverpalli, og las húslestur. Þá heyrði hún þrusk í gaungunum, og kom inn á baðstofugólfið naut mjög ógurlegt, fleigið ofan að knjám og dró eptir sèr húðina. Leitaði það við að komast upp á pallinn. Konan lèt þá guðspjallið blasa á móti nautinu, og bandaði bókinni móti því. Staðnæmdist það þá á gólfinu og hristi sig. En þarna hafðist nautið við, hvað gott sem konan hafði yfir, þángað til hún fór loksins að raula Barnaber. Þá hvarf nautið.[2]

**Banakrínglan.** (Eptir handriti sèra Svb. Guðmundssonar, nú í Móum á Kjalarnesi.) Einu sinni var bóndi í heygarði sínum að áliðnum degi, þegar dálítið var farið að skyggja. Hann varð var við, að eitthvað kom inn í garðinn, og varð undir eins felmtraður við það, svo hann kastaði frá sèr heykróknum í fáti, og hljóp burtu. En af því hann mátti til að gefa fènaði sínum, kom hann bráðum aptur, og fór að leita að heykróknum. Finnur

1. Eptir Dr. Maurers Isl. Volkss. 79. bls.

2. Báðar þessar sögur, um Lilju og Barnaber, eru teknar eptir handriti sèra Skúla Gíslasonar.

hann heykrókinn, og er þá á honum banakríngla úr manni. Skilur nú bóndi, að það muni hafa verið draugur, sem í garðinn kom; því hann vissi af sögn fróðra manna, að ekki þurfti nema eitt mannsbein til að magna úr drauga, og ef maður gæti hitt á bein þetta með stíngjárni, þá væri draugsi unninn. Bónda þókti því harðla vænt um happskeyti sína, sem honum varð öldúngis ósjálfrátt. Tók síðan heykrókinn með banakrínglunni á, og sá fyrir hvorutveggju.

**Hryggjarliður á hnífsoddi.** (Eptir handriti sèra Skúla Gíslasonar á Stóranúpi.) Ekkja nokkur bjó búi sínu nyrðra. Var hún vel efnuð og rösk til als, og urðu því ýmsir til að biðja hennar, og þar á meðal galdrasnápur þar í nágrenninu, og neitaði hún honum. Ekkjan var skygn, og átti því hægra með að gæta sín. Skömmu seinna var hún að skamta í búri að kvöldi dags, og skar blóðmör með hnífi. Sá hún þá, hvar vofa færðist innareptir gaungunum, og kom inn í búrdyrnar. Konan stóð með hnífinn í hendinni og horfði stöðugt og óhrædd á vofuna. Vofan hikaði við og leitaði lags að komast á hlið við konuna, eða aptanað henni, því aldrei kemur óhreint framanað óhræddum manni. Ekkjan sá, að vofan var alsvört, en hafði hvítan díl. Lagði hún hnífnum á þenna blett; varð þá brestur mikill, svo konunni varð hnífurinn laus. Var líkast því sem honum væri kipt af henni. Sá hún þá ekkert framar, og ekki fann hún hníf sinn. Morguninn eptir fannst hnífurinn úti á hlaði. Stóð hann þar gegnum mannshryggjarlið, og hafði þó öllum hurðum verið læst um kvöldið.

Einu sinni var maður á ferð á ísum um kvöldtíma. En þegar hann kom að hrönn nokkurri, mætti honum strákur í úlpu yfir sèr. Var þetta draugur, sem var sendur öðrum, en mætti hinum þar af tilviljun. Maðurinn rèðst undir drauginn. Rann hann til á ísnum, því hann átti sèr einkis von, og rakst á jakabrún með hrygginn. Varð þá brestur hár og fèll maðurinn á fram, er draugurinn skrapp úr fángi honum, en mannsbein fèll niður á ísinn.

**Galdramennirnir í Vestmannaeyum.** (Eptir sögn skólapilta að austan, 1845.) Þegar svartidauði geisaði yfir Ísland, tóku átján galdramenn sig saman, og gjörðu fèlag með sèr. Þeir fóru út í Vestmannaeyar, og ætluðu þar að verja sig dauðanum, meðan þess yrði auðið. Þegar þeir af fróðleik sínum sáu, að sóttinni var farið að lètta af landinu, vildu þeir vita, hvort nokkur maður mundi lifa. Þeir tóku sig saman um að senda einn af sèr á land. Völdu þeir þann til fararinnar, sem hvorki var mestur nè minnstur í íþrótt þeirra. Hann fluttu þeir á land, og sögðu, að ef hann yrði ei kominn aptur fyrir jól mundu þeir senda honum sendíngu, sem dræpi hann. Þetta var snemma á jólaföstu. Maðurinn fór, gekk leingi og kom víða. En hvergi sá hann neinn lifandi mann; bæirnir stóðu opnir, og önduð lík lágu í þeim á víð og dreif. Loksins kom hann að einum bæ lokuðum.

Hann furðaði sig á því, og nú vaknaði hjá honum von nm, að hann mundi finna einhvern mann. Hann barði að dyrum, og þar kom út úngleg stúlka, og fríð. Hann heilsaði henni, en hún hljóp um háls honum, og grèt af gleði yfir því, að sjá mann; því hún sagðist hafa hugsað, að einginn lifði eptir, nema hún ein. Hún bað hann að vera hjá sèr, og játaði hann því. Fóru þau nú inn í bæinn, og töluðu margt saman. Hún spurði hann, hvaðan hann kæmi, og hvað hann væri að fara. Hann sagði henni það, og það með, að hann yrði að vera kominn aptur fyrir jólin. Hún bað hann samt að vera hjá sèr sem leingst. Aumkaðist hann svo yfir hana, að hann hèt henni því. Sagði hún honum, að þar væri einginn maður á lífi; því hún sagðist hafa farið vikuleið frá sèr á alla vegu, og eingan mann fundið.

Nú leið fram undir jólin, og vildi þá eyamaðurinn fara. Stúlkan bað hann að vera, og sagði, að fèlagar hans mnndi ekki vera svo harðhrjósta að láta hann gjalda þess, þó hann dveldi hjá sèr, einstæðíngnum. Lèt hann svo leiðast til, og var nú kominn aðfángadagur jóla. Þá ætlar hann að fara, hvað sem hún segir. Hún sèr þá, að nú duga ekki hænir leingur, og segir: „Heldurðu, að þú komizt út í eyar í kvöld? Eða þykir þèr ekki eins gott, að deyja hèrna hjá mèr, eins og að deya einhverstaðar á leiðinni?" Maðurinn sá, að tíminn var orðinn of naumur, og ásetti sèr því, að vera nú kyr, og bíða þar dauðans, sem hann var. Leið svo af nóttin, og var hann daufur mjög, en stúlkan var hin kátasta, og spurði, hvort hann sæi, hvað eyahúum þá liði. Hann sagði, að þeir væru nú húnir að koma sendíngunni í land, og mnndi hún koma þar í dag. Stúlkan settist nú hjá honum á rúmið sitt, en hann lagðist npp í fyrir ofan hana. Hann sagði, að nú væri sig farið að syfja, og væri það aðsókn. Síðan sofnaði hann. Stúlkan sat á rúmstokknum, og var alt af að smá-vekja hann, og láta hann segja sèr, hvar sendíngin væri. En því nær sem hún færðist, því fastara svaf hann, og seinast, þegar hann sagði, að sendíngin væri komin í landareignina, sofnaði hann svo, að stúlkan gat ekki vakið hann aptur, enda leið þá ekki á laungu, áður hún sá gufu mórauða koma inn í hæinn. Gufan leið hægt og hægt inn að henni, og varð þar að mannsmynd. Stúlkan spyr, hvert hún ætli að fara. Sendíngin segir henni alt sitt erindi, og biður hana fara af rúminu; „því eg kemst ekki upp fyrir þig," segir hún. Stúlkan segir, að þá verði hún nokkuð til að vinna. Sendíngin spurði, hvað það væri. Stúlkan segir, það sè það, að lofa sèr að sjá, hvað hún geti orðið stór. Sendíngin játar því, og verður nú svo stór, að hún fyllir upp allan hæinn. Þá segir stúlkan: „Nú vil eg sjá, hvað lítil þú getur orðið." Sendíngin segist geta orðið að flugu, og í því hregzt hún í flugulíki, og ætlar nú að komast undir hendina á stúlkunni upp í rúmið til mannsins. En þá lendir hún í sauðarlegg, sem stúlkan hèlt á, og fór inn í hann, en stúlkan setti tappa í gatið. Lèt hún síðan legginn með sendíngunni í vasa sinn, og vekur nú manninn. Vaknar hann þá fljótt, og undrast mjög yfir

því, að hann skuli enn lifa. Stúlkan spyr hann, hvar sendíngin sè. Hann segist ekki vita hvað af henni hafi orðið. Segir þá stúlkan, að það hafi sig leingi grunað, að ekki mundu þeir vera miklir galdramenn í eyunum. Varð nú maðurinn mjög glaður, og nutu þau bæði hátíðarinnar með mikilli ánægju.

En þegar leið að nýárinu, fór maðurinn að verða fálátur. Stúlkan spurði hvað að honum geingi. Hann segir, að nú sèu þeir í eyunum að búa til aðra sendíngu, „og magna þeir hana allir. Hún á að koma hèr á gamlársdag, og þá mun ei gott, að forða mèr." Stúlkan sagðist ekki geta kviðið því að öllu óreyndu, „og skaltu ekki vera hræddur við sendíngar eyamanna." Var hún nú hin kátasta, og þókti honum þá skömm að, að bera sig mjög illa. Á gamlársdag segir hann, að nú sè sendíngin komin á land, „og miðar henni fljótt; því hún er ákaflega mögnuð." Stúlkan segir, að hann skuli nú gánga út með sèr. Hann gjörir það. Gánga þau, þángað til þau koma að skógarrunn einnm. Þar nemur hún staðar, og kippir upp nokkrum hríslum. Verður þá fyrir þeim hella. Stúlkan lyptir upp hellunni, og er þar jarðhús undir. Þau gánga nú ofan í jarðhúsið, og er þar dimt og ógurlegt. Þar er ein ljóstýra dauf, og logar hún á mannsístru í hauskúpu. Þar liggur karl einn, heldur ógurlegur, í rúmfleti við ljósið. Augun í honum voru eins og blóð, og allur var hann ófrýnilegur, svo eyamanninum þókti nóg um. Karlinn segir: „Það ber eitthvað nýrra við, að þú ert á ferðinni, fóstra. Það er lángt síðan eg hefi sèð þig, og hvað á eg nú að gjöra fyrir þig?" Stúlkan segir honum þá alt um ferðir sínar, og um manninn, og fyrri sendínguna. Karlinn biður hana, að lofa sèr að sjá legginn. Hún gjörir það, og verður þá karlinn allur annar, þegar hann tók við leggnum. Velti hann honum á allar lundir fyrir sèr, og strauk hann allan utan. Þá segir stúlkan: „Hjálpaðu mèr nú fljótt, fóstri; því nú er manninn farið að syfja, og það er merki þess, að sendíngin er senn komin." Karlinn tekur nú tappann úr leggnum, og kemur þá flugan út úr honum. Karlinn strauk fluguna, og klappaði henni, og segir: „Farðu nú, og taktu á móti öllum sendíngum úr eyunum, og gleyptu þær!" Þá varð brestur mikill, og fór flugan út, og varð þá svo stór, að annar skoltur hennar tók við himin, en annar við jörðu. Tók hún svo á móti öllum sendíngum úr eyunum, og var nú manninum borgið.

Þau fóru nú heim aptur úr jarðhúsinu, stúlkan og Vestmanneyíngurinn, og settust að á bæ hennar. Áttust þau síðan, og jukust, og margfölduðust, og uppfyltu jörðina. Og nú kann eg ekki þessa sögu lengr.[1]

**Sagan af Jóni sterka.**[2] (Eyfirzk frásögn.) Maður hèt Jón. Hann bjó austur á Eyrarbakka með móður sinni; hann var flestum mönnum sterkari.

1. Sbr. Dr. Maurers Isl. Volkss. 96.—99. bls.
2. Sbr. Dr. Maurers Isl. Volkss. 99.—100. bls.

Á hverju vori kom þar kaupmaður og seldi vöru sína á sumrum, og fór burt á haustin. Það var einhverju sinni, þá kaupmaður var kominn og verið var að flytja af skipi, að Jón var þar staddur; voru þá mèltunnur fluttar. Tók þá kaupmaður 2 mèltunnurnar, og batt saman og bauð Jóni, að hann skyldi gefa honum tunnurnar, ef hann bæri þær báðar heim til sín. Jón kastaði þá tunnunum á herðar sèr og bar þær lèttilega heim til sín. Kaupmaður sá, að við þetta varð nú að sitja, en þó fèll honum þetta illa að tapa tunnunum. Litlu síðar hitti kaupmaður Jón og mælti til hans: „Að sumri mun eg reyna betur afl þitt, og mun eg þá koma með pilt, sem þú skalt glíma við.“ Jón kvaðst ei hirða, þótt hann glímdi við mennskan mann, en við tröll og blámenn kvaðst hann ei skyldur að reyna afl. Skyldu þeir að því; fór kaupmaður þá burt. Kom hann eptir venju næsta vor; finnur hann þá Jón og sagði, að nú skyldi hann glíma við dreing, er hann hefði. Jón kvaðst vera þess ófús, „því illa segir mèr hugur um hann,“ en bjó sig þó út á þann hátt, að hann lèt þófablað á bak sèr og annað á brjóst og sívafði handleggi sína með snæri, svo hann yrði ekki klipinn. Síðan fór hann í víðan kufl utan yfir sig; fór svo þángað, er kaupmaður hafði valið glímuvöllinn, og hafði reist upp hellu mikla með hvassri egg á. Nú sèr Jón, hvar 4 menn leiða blámann upp á land og var mjög ógurlegur; var hann digur sem naut, en blár, sem hel. Er þeir koma nú nálægt Jóni, sleppa þeir blámanninum. Veður hann þá mjög tröllslega að Jóni; takast þeir þá á heldur sterklega; finnur Jón, að hann hefir ei afl á við blámanninn; gjörir hann því fyrst ekki annað, en verja sig, þar til blámaðurinn mæðist, og gapir ofaní lúngu og froðufellir; lætur Jón hann þá hrekja sig að hellunni, en þá er hann er kominn að henni, stekkur hann yfir hana, og keyrir blámanninn á helluna svo fast, að sundur gekk bríngan, svo hann lèt þar líf sitt. Reiddist kaupmaðurinn þá mjög; því mikið hafði hann fyrir blámanninum haft. Sagði síðan við Jón: „Nú skaltu útvega mèr þá mestu vísinda bók, sem fáanleg er í öllum heimi, eða eg mun ráða þèr bana.“ Jón kvaðst ei óttast heitíngar hans. Skilja þeir þá, og sigldi kaupmaður burt um haustið. Um veturinn bað Jón móður sína að fá sèr skó og nesti. Hún spurði, hvert hann vildi fara. Hann kvaðst ei það gjörla vita. Bjóst nú Jón að heiman, og kvað hún skyldi ei undrast um sig, þótt hann kæmi ei heim um veturinn; „en ef eg kem eigi heim í vor,“ segir hann, „mun eg dauður verða.“ Síðan kveður hann hana, og geingur til fjalla og á öræfi; geingur hann nú leingi, þar til um kvöld, að hann kemur að bæ, ber að dyrum, og kemur þar út stúlka. Hann heilsar henni. Hún tekur því vel. Hann spyr hana, hvort þar sè margment. Hún sagði, að þar væri ei nema foreldrar sínir; baðst hann þar gistíngar og fèkk það. Hún leiðir hann þá í skála. Þar var eitt rúm, sem hún vísar honum á, sækir hún honum mat, og segir, hann skuli þar sofa. Síðan geingur hún í burt. Þá hann hafði borðað, fer hann að hátta; kom

þá stúlkan til hans og háttaði hjá honum. þegar þau voru lögzt út af, spyr hún, hvað erindi hans sè. Hann segist vera að útvega þá mestu vísindabók, sem til sè í heimi. „Vel mun faðir minn hafa vitað fyrir ætlun þína, og muntu hèr kominn vera fyrir hans tilstilli," segir hún, „og mun hann eitthvað úr þessu ráða fyrir þig." Sváfu þau þar um nóttina. Var Jón þar svo um veturinn að boði stúlkunnar, en ekki sá hann karl nè kerlíngu eða nokkuð annað lifandi kvikindi. Var stúlka þessi þar hjá honum um veturinn. Eitt kvöld um veturinn seint spurði stúlkan Jón, hverju hann mundi svara, ef faðir sinn kæmi á gluggann og spyrði, hvort hann vildi róa á sjó með sèr. Jón kvaðst mundi segja, að hann vildi það. „þá máttu duga, ef honum líkar við þig," sagði hún. Snemma um morguninn heyrir Jón, að sagt er á glugganum: „viltu róa, Jón?" Hann sagði: „Já," og stóð upp og gekk út. þá sá Jón karl gamlan standa á hlaðinu með færi í hendi; heilsar Jón honum þá, og þakkar honum fyrir vetur-vistina, en karlinn tekur því heldur fálega og geingur síðan á stað, en Jón á eptir. Gánga þeir nú leingi, þar til þeir koma að vatni miklu. þar var skip í nausti; hrundu þeir skipinu út á vatnið, og reru síðan lángt frá landi. þá mælti karlinn: „Ei skulum við nú leingra fara, og skaltu hafa úti árar í dag og halda við skipið, en eg mun keipa færi mínu." Hann gjörir nú svo, en karlinn keipar færinu fram eptir deginum. Síðla um daginn sèr Jón, að karlinn fær eitthvað á aungulinn og dregur hann það upp undir borðið; er það þá flyðra afarstór. Karlinn segir, hún muni vera of þúng í skipið, „og verðum við að hafa hana á eptir." Spyr karlinn Jón, hvort hann vilji heldur róa í land, eða halda í flyðruna. Jón kvaðst róa vilja; tók Jón þá til ára; kom þá á stormur mikill, en gekk þó sem í logni væri skipið. En er þeir komu í land, sagði karlinn: „Mikill maður ertu, Jón." Settu þeir upp skipið og hundu flyðruna við stein í landsteinunum, „og mun eg hirða aflann," segir karlinn. Nú fara þeir heim; fer Jón inn til stúlku sinnar, en karlinn er eptir á hlaðinu. Morguninn eptir er sagt á glugganum: „Viltu róa Jón?" Hann játti því, fer svo út, og er þar þá karlinn með færi sitt, fara þeir svo til vatnsins, og sèr Jón þá ei flyðruna; róa þeir nú enn leingra, en hinn fyrra dag. En um kvöldið dregur karlinn hákarl mikinn upp undir borðið; fara þeir nú að halda í land, og reri Jón; en karlinn hèlt í hákarlinn; hrast nú á enn meiri stormur, en hinn fyrra dag, og gekk þó skipið, sem í logni, þar til að landi kom. Karlinn sagði þá: „Mikill maður ertu Jón;" hundu þeir nú hákarlinn og geingu nú heim. Karl kvaðst mundi hirða aflann. Nú finnur Jón stúlku sína. Hún segir nú Jóni, að næsti dagur sè seinasti vertíðardagur föður síns, „og þarftu nú, Jón, að taka á karlmennskunni." Næsta morgun er sagt á glugganum: „Viltu róa, Jón?" Hann játaði því; fara þeir nú eptir venju að vatninu; var þá hákarlinn burt; róa þeir nú hvaðan af leingst. Leið dagur að kvöldi, þá dregur karl hval mikinn; fara svo eptir venju að

halda til lands, að karlinn hefir hvalinn á eptir, en Jón rær; brast þá á svo mikið veður, að aldrei hafði þvílíkt komið, gekk þó skipið, sem í logni. En er þeir komu að landi, segir karl: „Mikill maður ertu, Jón;" bundu þeir hvalinn við stein, og geingu síðan heim. Karl kvaðst mundu hirða aflann. þakkar nú karl honum fylgdina. Litlu síðar sagði stúlkan við Jón, að nú mundi hann vilja á burtu, „og mun faðir minn fylgja þèr á veg." Jón býr sig nú til ferða; og kveður stúlkuna, en er hann kemur út, er karlinn ferðbúinn. „Nú ætlar þú burtu Jón minn," segir karl, „og mun eg fylgja þèr á rèttan veg." Halda þeir nú á stað, þar til þeir komu á rèttan veg. þá segir karlinn: „Nú mun eg ekki leingra fara." Settust þeir þá niður. þá mælti karlinn: „Lítið hefir þèr nú orðið á geingt erindi þitt; var það af mínum völdum, að þú komst híngað. Nú geingur dóttir mín með barni, er þú átt, og er það dreingur. Eg á nú eptir að lifa 12 ár, en kerlíng mín verður dauð á undan mèr, og að þeim tíma liðnum skaltu híngað koma og eiga dóttur mína og það sem fèmætt er í kotinu. Jarðaðu mig hjá kerlíngu minni, áður en þú ferð burt." Síðan tók hann upp hjá sèr bók og fèkk Jóni, og kvaðst mundi gefa honum hana, „en varastu það," segir karlinn, „að lesa aldrei meira í henni, en hálfa klukkustund í einu. Ekki hefi eg annað gjört í vetur nè kerlíng mín, en að taka þessa bók saman. Í sumar, þegar kaupmaður er í búð, skaltu fleygja bókinni á borðið, mun þá kaupmaður taka bókina og fara að lesa í henni. En ef svo kann til að bera, að bókin losni, þá taktu hana og njóttu hennar vel." Skildu þeir nú, og báðu hvor vel fyrir öðrum. Fer nú Jón heim; varð móðir hans honum feigin mjög, því hún hugði hann fyrir laungu dauðan. Kom nú kaupmaður um vorið. Einhverju sinni, þá kaupmaður var einn í búð, kom Jón með bókina og kastaði henni snúðugt á borðið. En kaupmaður tók bókina og fór að lesa. En er hann hafði lesið tímakorn, fleygði hann bókinni á borðið, og stökk síðan út og fram í sjó, og drap sig. Jón tók bókina og fór heim til sín. þókti mönnum Jón vita meira, en aðrir menn. þegar 12 ár voru liðin, fór hann að kotinu; voru þá hurðir allar rammlega læstar. Barði hann að dyrum, en einginn kom til dyranna; braut hann þá sundur hurðina og gekk inn. Sá hann þá stúlkuna, og var hún grátandi; var þar dreingur hjá henni efnilegur mjög. Varð þar fagnaðarfundur mikill; sagði hún hann vera föður dreings þessa. Var karlinn þá nýdauður. Jarðaði hann karlinn hjá kerlíngunni. Síðan flutti hann þau stúlkuna og dreinginn og alt það, sem fèmætt var, og var það mikið, heim til sín. Bjó hann þar mörg ár. þegar hann var hniginn á efri aldur, flutti hann sig á bæ nokkurn nálægt Skálholti, og bjó þar alla æfi síðan, og var haldinn einhver hinn mesti merkismaður, og var góðgjarn og heilráður og leituðu margir til hans, og reyndist vel. Á þessum sama bæ dó hann, og var grafinn í kórsgólfinu í Skálholtskirkju. Hafði hann beðið að láta bókina undir hönd sèr, og svo var gjört.

Laungu þar eptir voru skólapiltar í Skálholti; 2 af þeim tóku saman ráð sín að vekja Jón upp og skyldi annar vekja hann upp og grípa bókina undan hendi hans, en hinn hríngja klukkunum, svo hann færi niður aptur; fór þetta nú fram. Sjá þeir nú koma upp mikinn mann gráhærðan með bókina undir hendi sèr. Þreif þá sá, sem upp skyldi vekja, til bókarinnar, og náði ekki, nema miðparti hennar, þá var hinn of fljótur að taka í klukkurnar, svo þeir höfðu ekki meira af Jóni. Það er af bókinni að segja, að það var Gráskinna galdrabók.

Lýkur svo að segja frá Jóni sterka.

**Sagan af Jóni Ásmundssyni.** (Eptir handriti sèra Jóns Kristjánssonar á Yztafelli.) Einu sinni voru fátæk hjón. Þau bjuggu í Borgarfirði; hèt bóndinn Ásmundur. Þau áttu mörg börn og öll úng. Ekki er þess getið, hvað þau hètu, nema elzti dreingurinn hèt Jón. Um þessar mundir voru harðindi mikil. Ásmundur bóndi flosnaði þá upp, og fóru börn hans á ýmsa bæi til vistar og uppeldis. Þá var prestur sá í Reykjavík, sem Kristján hèt; hann tók Jón Ásmundsson til fósturs og óx Jón þar upp. Jón var snemma vænn að ásýnd, og sterkari en aðrir jafnaldrar hans, en stiltur var hann vel og orðfár, og hinn mesti starfsmaður. Prestur hafði miklar mætur á honum, og eins var hann vel látinn af öllum á heimilinu. Eitt sumar var það, sem optar, að kaupskip kom til Reykjavíkur; var á því útlendur kaupmaður, og er ekki getið um nafn hans. Hann átti mikinn kaupskap við menn, og þar á meðal við Kristján prest. Einu sinni þegar prestur var staddur úti á skipi hjá kaupmanni komu þar niður ræður manna að tala um sterka menn. Kaupmaður, sem bæði var stór og sterkur, gekk þá þar að, sem fjórar rúgtunnur voru í einum bagga og lypti þeim til hnès, og kvaðst mundi gefa þeim manni 3 merkur gulls, sem sèr væri jafnsnjall í þessu, en einginn varð til þess að reyna þessa aflraun. Þegar prestur kom heim til sín, kom hann að máli við fóstra sinn, Jón Ásmundsson; hann var þá 18 vetra, og sagði honum ummæli kaupmanns, og bað hann freista, hvað hann orkaði. Jón lagði fátt til, en kvaðst þó mundi reyna. Daginn eptir fór prestur aptur út á skip og var Jón með honum. Þá segir prestur kaupmanni, að þar sè kominn sá maður, sem vilji vinna til fjárins. Kaupmaður vísaði Jóni þángað, sem kornbagginn var, og snaraði Jón honum á herðar sèr og bar hann fram og aptur um þiljurnar og lagði hann síðan á sama stað. Við þetta skipti kaupmaður mjög litum, en vó þó gullið og greiddi það. Bjuggust þeir prestur og Jón þá til heimferðar og þegar þeir kvöddu kaupmann bað hann Jón finna sig áður en hann sigldi frá landi og hèt Jón því. Fóru þeir nú heim og var prestur kátur yfir ferð þeirra, en Jón lèt sem ekkert væri. Það var einn dag áður en kaupmaður var sigldur, að prestur kom að máli við Jón um að hann hitti kaupmann, eins og hann hefði lofað. Fór Jón þá til fundar við kaupmann og var prestur

með honum. Kaupmaður tók þeim sæmilega og beiddi Jón að koma með sèr í lyptíngu. Prestur ætlar þá að fylgjast með, en kaupmaðnr segir, að hann eigi ekkert erindi við sig. Prestur kvaðst eingu mundi spilla í málum þeirra, og varð svo, að hann gekk til lyptíngar með þeim. Þá segir kaupmaður við þá, að þeir væru ekki skildir enn; kvaðst hann að komandi sumri mundi hafa með sèr dreing einn, sem Jón ætti að glíma við, og fá 10 merkur gulls, ef hann bæri af honum. Síðan kvöddust þeir og sigldi kaupmaður litlu seinna. Nú líða tímar og bar ekkert til tíðinda. Veturinn eptir spyr prestur Jón einu sinni, hvort hann myndi til þess, sem kaupmaður sagði við hann að skilnaði; Jón kvaðst lítið hugsa um það. Segir prestur honum þá, að þeir muni verða að leita einhverra ráða, því dreingur sá, sem kaupmaður ætli að láta glíma við hann sè einginn mennskur maður, heldur einhver hinn vesti blámaður, en kvaðst þó mundi sjá til með honum; þyrftu þeir að vera viðbúnir 3 vikur af sumri, því þá mundi kaupmaður sigla til hafnar. Ekki gaf Jón sig neitt að þessu. Þegar réttar 3 vikur voru af sumri, var það einn dag, að skip kom af hafi og sigldi upp til Reykjavíkur. Fór prestur þá til fundar við Jón og sagði honum, hvað nú mundi í efni og klæddi hann í svarta úlpu, og spenti belti um hann miðjan; fèkk honum síðan lítið, en biturt lagvopn og bað hann leyna í úlpuerminni. Sagði hann að ekki þyrfti hann að hugsa til að standast fang blámannsins, og mundi hann í fyrstu svipan hefja hann yfir höfuð sèr, en þá kvaðst prestur vilja hlutast svo til að Jón kæmi standandi niðnr, en þá skyldi hann skora á blámanninn, að hann færi úr loðkápu þeirri, sem hann mundi verða í, og skyldi hann á meðan hagræða lagvopninu í hönd sèr, svo það væri til taks, þegar blámaðurinn hlypi á hann í annað sinn. Það var jafnsnemma, að skipið lagðist við akkeri og báti var róið í land og risavöxnum blámanni hleypt á land; hann var á loðkápu. En þeir prestur og Jón voru í flæðarmáli. Blámaðurinn hljóp þegar að Jóni, þreif til hans og sveiflaði honum í háa lopt, en Jón kom standandi niður. Þá segir Jón að blámaðurinn skuli fara úr loðkápu þeirri, sem hann sé í, og skuli þeir svo aptur reyna glímu. Blámaðurinn gerir svo, en á meðan hagræddi Jón fyrir sig lagvopninu og þegar blámaðurinn æddi að honum í annað sinn, hljóp hann undir hann, og rak það í hann; áttu þeir síðan nokkrar sviptíngar og hefði blámaðurinn orðið honum um of harðhentur, ef úlpan hefði ekki hlíft honum. Loksins gekk Jón frá blámanninum dauðum. Fóru þeir þá prestur og Jón að hitta kaupmann þar sem hann var á skipi sínu, og heilsuðu þeir honum. Sagði prestur að Jón hefði til fjárins unnið, þar sem blámaðurinn var að velli lagðnr. Kaupmaður var hinn reiðasti, og kvað þá hafa haft brögð í frammi og ekki karlmennsku. Prestur sagði að þar hefði komið krókur móti bragði, því sá, hefði ekki verið mennskur maður, sem kaupmaður sendi til glímunnar; lauk svo að kaupmaður greiddi gullið og mælti

nm leið, að Jón skyldi finna sig, áður en hann sigldi frá landi um sumarið. Nú leið og beið, þángað til kaupmaður ætlaði að sigla; minnir þá prestur Jón á það, sem kaupmaður mæltist til að þeir fyndust, og kvaðst mundi fylgja honum til fundar við hann. Fóru þeir útá skip og heilsuðu kaupmanni; hann tók kveðju þeirra, og bað Jón gánga með sèr afsíðis. Jón gerði svo, og fylgdist prestur með. Kanpmaður sagði hann eingu skipta samræðu þeirra Jóns, en prestur kvaðst ekki mundi spilla málum þeirra en nærri vildi hann standa sínum manni. Þá segir kaupmaður að hann næsta sumar muni hafa með sér hvolp lítinn og skyldi Jón reyna við hann, og skyldi hann fá 15 merkur gulls, ef hann sigraðist á honum. Skildn þeir síðan. Leið nú þetta sumar og lángt fram á vetur og mintist Jón ekki á þessa atburði. — Einu sinni spyr prestur hann, hvort hann hugsi nokkuð til orða kaupmanns. Jón kvað það ekki vera; þá segir prestur honum að ekki mnni betri koma kaupmanns á næsta sumri, en fyr; muni hann nú sigla að landi, þegar hálfur mánuður sè af sumri, en hvolpur sá, sem hann ætli honum að reyna sig við, sè dýrhundur mikill og grimmur, og muni þeir þurfa einhverra bragða að leita. Jón bað prest sjá fyrir því. Þegar hálfur mánuður var af sumri sást skip koma af hafi. Kallar þá prestur Jón fyrir sig og sýnir honum svörtu úlpuna sömu, sem hann klæddi hann í fyrra snmarið. Hafði prestur nú riðið hana alla utan með kaðalreipnm og klæðir hann nú Jón í hana. Síðan fær hann honum járn nokkurt, atgeirs myndað, og voru á aknúar fyrir ofan fjaðraroddinn, og lèt síðan á það kjötstykki og sagði Jóni að hafa í hendi sèr og leita svo lags að hundurinn glepsaði kjötið, en þá skyldi hann þrýsta járninu í gin honnm. Síðan geingu þeir til sjávar, og var það jafnsnemma að skipverjar köstuðu akkeri og hnndinum var hleypt á land. Hundurinn var stór og grimmilegur mjög; fór Jón þá í móti honum, en hann æddi að Jóni með mestu grimd og ætlaði að rífa hann í hel, en stakkurinn hlífði honum svo hann sakaði ekki. Færðist Jón þá, sem hann gat, undan árásum seppa, og bar fyrir sig kjötstykkið, og fór svo, að rakkinn gein yfir það, en Jón fylgdi þá fast eptir lagvopninu og þrýsti í kok hundinum, og linaði ekki á, hvernig sem rakkinn ólmaðist, en hundurinn gat ekki unnið honum mein vegna stakksins, uns seppi var dauður. Síðan fóru þeir að hitta kaupmann og kvöddu hann; hann tók dræmt kveðju þeirra og var svartur mjög og bólginn, en leyndi reiði sinni eins og hann gat. Prestnr kvað Jón hafa unnið til fjár þess, sem honum var heitið hið fyrra sumar, en kaupmaður sagði það hæpið, þar sem hann fremur beitti brögðum, en hreysti. Prestur kvað kaupmann vera verri af, að senda þvílíkt óarga dýr á hendur honum. Greiddi þá kaupmaður gullið, en sagði um leið, að hann skyldi koma og hitta sig áður en hann sigldi það sumar. Líður nú þángað til kaupmaður vill sigla; sagði prestur þá við Jón, að hann yrði að muna orð kaupmanns og kvaðst vilja fylgja honum til fundar við hann. Fóru þeir þá og hittu kaupmann.

Hann bað Jón gánga þegar með sèr til lyptíngar; vill prestur þá fylgja þeim eptir, en kaupmaður kvað það ekki skyldi; ætti hann þángað ekkert erindi. Prestur sagði að Jón væri sinn maður og mundi hann hvergi fara, nema hann væri með. Lèt þá kaupmaður svo vera og geingu þeir allir þrír í lyptíngu. Þegar þángað var komið tók kaupmaður bók af hyllu einni, opnaði hana, tekur þar úr eitt laust blað og bregður fyrir augu Jóni, eins og hann vildi að prestur sæi ekki, þó varð presti fljótlega litið á, án þess kaupmaður gætti að. Lèt kaupmaður síðan blaðið þar, sem það áður var; og sagði, að þessa bók, sem þetta blað væri úr, skyldi Jón færa sèr næsta sumar, ella bera bleyðiorð; en ef hann kæmi með hana, mundi hann vega honum 30 merkur gulls. Kvöddust þeir síðan og fóru þeir prestur og Jón heim til sín, en kaupmaður sigldi þegar til hafs. Þegar vika var eptir af sumri hittir Kristján prestur Jón að máli og spyr hann, hvernig hann hyggi til um erindi það, sem kaupmaður ætlaði honum. Jón kvaðst ekkert hugsa um það. Prestur spyr hann, hvort hann viti, hvaða blöð það hafi verið, sem kaupmaður sýndi honum, en hann neitaði því. Prestur sagði að það væri ekki furða, þó hann ekki hefði þekt það, því það væri úr handbók kölska, og ætlaði kaupmaður honum þá forsendíng, að ná henni, en það væri einginn hægðarleikur. Segist sèra Kristján eiga einn bróður, sem sè prestur í undirheimum, og muni hann einn geta hjálpað Jóni í þessu efni, og náð handbók kölska, að öðrum kosti muni þess ekki unt. Sagði hann að Jón skyldi nú þegar búast til ferðar í undirheima á fund bróður síns og þyrfti hann að vera kominn þángað fyrsta vetrardag, og vera þar um veturinn. Nú býzt Jón til ferðar, og þegar hann er albúinn, fær prestur honum brèf til bróður síns og hnoða, sem leið muni vísa; óskar hann honum síðan velfarnaðar, og leggur ríkt á við hann að líta ekki aptur alla leiðina, og ekki mætti hann tala orð í undirheimum allan veturinn, og sagði Jón að sèr mundi verða það hægt. Síðan leggur Jón á stað, varpar frá sèr hnoðanu, en heldur í þráðarendann; valt það jafnan á undan, þángað til hann kom að fjalli einu norður frá Reykjavík og í fjallinu var eins og hellismunni; þar rann hnoðað inn og gekk hann á eptir; voru þar myrk gaung og óslètt; fór þá svo að Jón hikaði sèr við að halda áfram, en hnoðað togaði því fastar og herti hann þá upp hugann. Fór hann þannig lánga leið, þángað til birti; sá hann þá fyrir sèr slètta völlu og yndislega og valt hnoðað leingi eptir þeim, þángað til kom að stóru og veglega bygðu þorpi. Þar staðnæmdist hnoðað úti fyrir dyrum, og tók Jón það upp. Hann drap á dyr, og kom þá út stúlka. Hún var velkædd, en þó skartlaus, kurteis í látbragði og hin fegursta, sem Jón hafði sèð. Jón hneigði sig fyrir henni, og rètti henni brèfið, og tók hún við því þegjandi. Líka tók hún við hnoðanu og fór inn með hvorttveggja. Að stundu liðinni kom sama stúlkan út aptur og fylgdi henni önnur, sem var ýngri, og virti Jón fyrir sèr og hvarf síðan

inn. Hin tók í hönd Jóni og leiddi hann inn fyrir dyr og um gaung nokkur inn í herbergi eitt; var þar inni borð lítið og bekkur og stóll og eitt rúm; gekk hún síðan á burt, en litlu seinna bar hún mat á borð. Ekki þarf að orðleingja söguna. Jón var þarna leingi og hèlt hann að mjög væri farið að líða á vetur, en aldrei sá hann neinn mann, nema þá sömu stúlku, sem kom til hans á hverjum degi; bar mat á borð fyrir hann og bjó um rúmið. Aldrei töluðu þau orð, og aldrei heyrði hann manna mál. Þá var það einn morgun snemma að maður geingur inn til hans, fríður sýnum, vænn og velvaxinn. Hann var á svörtum klæðum og síðklæddur, og býður hann Jóni góðan dag og var blíður í rómi. Jón þagði. Prestur spyr, hvort hann viti hvað framorðið sè tímans, en Jón þagði. Þetta var presturinn í undirheimum, bróðir sèra Kristjáns. Þá segir prestur: „Vel gerðir þú Jón, að vera svona stöðugur í þagmælskunni, því með því móti hefir nú erindi þitt heppnast vel, og verður þèr þannig launuð stillíng þín, en nú er sumardagur hinn fyrsti og máttu því tala;“ varð Jón þá glaður við. Segir prestur honum að nú skuli hann fara af stað heimleiðis í dag og megi hann ekki vera leingur, því kaupmaður muni í þetta skipti koma, þegar vika sè af sumri. Síðan fær prestur honum bók og biður hann að gæta hennar vandlega og færa bróður sínum hana, en ekki muni líða á laungu að eigandinn sakni hennar og vitji um hana, þegar hún sè komin í kaupmanns hendur. Segir hann að bróðir sinn skuli þessvegna kaupa allan farminn af kaupmanni og flytja á land, áður en hann fái honum bókina. Prestur biður hann bera bróður sínum kveðjn sína, og kveður svo Jón, en segir að dóttir sín muni fylgja honum á leið og vísa honum veg. Kom þá stúlkan til fylgdar við hann; var það sú sama, sem þjónaði honum til borðs og sængur um veturinn. Fóru þau af stað og leiddust, og gekk það leingi, en ekki er þess getið, hvað þau töluðust við þángað til að hún nam staðar og kvaðst ekki mundi fara leingra; væri nú líka auðrataður vegurinn, sem eptir væri. Hún segir honum að þar hljóti þau að skilja, þó þúngt falli, því þau geti ekki saman verið nè feingið að njótast, því hann geti ekki í undirheimum verið, og hún ekki á jörðunni. „En,“ segir hún, „eg leyni þig því ekki, að eg er ekki einsömul, og mun eg senda barnið til þín, ef það verður dreingur, þegar hann er 6 vetra, en verði það meybarn, þá þegar það er 12 ára, og ríður það á miklu að þú þá takir barninu vel.“ Að því búnu rèttir hún honum hnoðað, en segir að hann muni ekki þurfa leiðsögu þess, heldur fara eptir því, sem hún vísaði honum til. Síðan kvöddust þau með miklum harmi, því mjög þúngur varð þeim skilnaðurinn. Fór hann nú eins og hún vísaði honum og varð leiðin hvergi torsókt nè ískyggileg, og eigi vissi hann, með hverjum hætti hann fór heima í milli. Hann kom til Reykjavíkur við enda hinnar fyrstu viku sumars og fagnar prestur honum vel og þókti erindin hafa vel heppnast, þegar Jón bar honum kveðju bróður hans,

og fèkk honum bókina. Lagði kaupmaður þá skömmu eptir inn á höfnina, og fór prestur þegar til funda við hann; varð lítið um kveðjur þeirra í milli; sagði prestur kaupmanni að harðindi væru og skortur á björg, og bað hann því að selja sèr allan farminn, og varð það að samníngum þeirra í milli. Var nú þegar öll vara flutt af skipi á þriggja daga fresti. Að því búnu fóru þeir prestur og Jón út á skip; spyr kaupmaður Jón þegar, hvernig farið hefði um erindi hans. Jón kvað leyst mundi. Síðan fèkk prestur kaupmanni bókina Jóns vegna, og brá kaupmanni mjög í brún, þegar hann sá að það var sú rètta. Bað prestur hann þá að greiða gull það, sem hann hafði heitið Jóni og gerði kaupmaður það; kvöddu þeir síðan kaupmann og stigu í bát sinn, en varla voru þeir komnir á land, þegar sjórinn ókyrðist mjög; varð þeim þá litið fram á sjóinn, þar sem skipið var; var það þá horfið, og varð þess ekki vart síðan. Var nú auður mikill saman kominn á prestsetrinu. Liðu þau missiri og var Jón hjá presti; þókti hann jafnan hafa verið fálátur, en aldrei eins og eptir að hann kom frá undirheimum. Kom þá prestur einhverju sinni að máli við hann um hagi hans og kvað sig gruna að það mundi valda fæð hans, að honum hefði litizt vel á dætur bróður síns í undirheimum, en Jón svaraði eingu. Sèra Kristján átti 3 dætur, en ekki eru nöfn þeirra til greind í þessari sögu. Segir prestur að hann muni gefa Jóni hverja dætra sinna, sem hann helzt kjósi sèr, ef ske mætti að honnm yrði hughægra. Kom þar loks málum, að Jón kaus sèr fyrir konu ýngstu dóttur prests, og gipti prestur honum hana. Fèkk hann þeim hjónum jörð, einhverja hina beztu þar í nágrenninu, til eignar og ábúðar, og fóru þau þángað til bús síns; kom þeim vel saman og nóg höfðu þau fè, en þó var Jón mjög fálátur og óglaður. Nú liðu mörg ár og áttu þau hjón mörg börn; þá var það einu sinni að barið var að dyrum á bæ Jóns; var alt fólkið í baðstofunni; sendir bóndi son sinn einn til dyranna, hann var þá 6 vetra. Þegar pilturinn kom inn aptur, sagði hann að úti væri dálítil stúlka, en undur falleg, sem hafi heilsað sèr blíðlega, og beðið sig að skila innar að hún vildi finna hann föður sinn. Við þessi orð var eins og glaðnaði yfir Jóni og stóð hann þegar upp og gekk út. Kysti þá litla stúlkan hann og ávarpaði hann með föðurnafni, en hann tók við henni með mestu blíðu og fögnuði. Hún sagðist vera honum send af prestsdótturinni í undirheimum, móður sinni, og bar hún honum ástarkveðju hans. Jón leiddi hana þegar inn og fyrir konu sína og sagði henni, hver ætt hennar væri og hver vandi sèr væri á hendi viðvíkjandi henni, og bað hann konu sína að vera henni eins og móðir eins og hinum börnum þeirra hjónanna. Konan var henni og hin blíðasta. Hin litla stúlka hèt Sigríður; hún var 12 vetra, þegar þetta var. Þókti hún afbragð sökum fríðleika og alls atgjörfis. Þegar Sigríður var búin að vera 3 ár hjá föður sínum í sóma og yfirlæti, bað hún hann einu sinni leyfis að mega finna móður sína, og

lèt hann það ljúflega eptir henni, og sagði að hún mætti vera hjá móður sinni árlángt, ef hún vildi. Að ári liðnu kom Sigríður heim aptur til föður síns og var henni vel fagnað, eins og fyr.

Bar hún honum þá kæra kveðju móður sinnar á deyanda degi, og sagði að hún hefði verið látin, þegar hún fór úr undirheimum; þar með fylgdi og sú orðsendíng, að Jón mundi að eins lifa hana um einn mánuð. Það sýndist svo, að þessi boðskapur fremur gleddi, en hrygði Jón, og ekki sást honum hið minnsta bregða við. Gerir nú Jón þegar fullkomna ráðstöfun eigna sinna, og arfleiddi hann í erfðaskrá sinni Sigríði dóttur sína að jörðinni, sem hann bjó á, og fanst það á öllu að hann unni henni mest allra barna sinna, enda var hún afbragð annara kvenna um alt. Konu sinni og börnum fèkk hann alt lausafè og var það mikill auður. Síðan lèzt Jón og varð mörgum harmdauði. Nokkrum missirum seinna giptist Sigríður vænum manni og bjuggu þau á jörð hennar, og var það og beztur bær í öllu þínginu. Jafnan var Sigríður álitin kvenna vænst og unnust hjónin hugástum og lifðu saman vel og leingi. Þau áttu fjölda barna og er frá þeim mikil ætt á suðurlandi.

**Hallur á Sandhólum.** (Eptir handriti sèra Benedikts Þórðarssonar á Brjánslæk.) Á Sandhólum í Eyafirði bjó eitt sinn bóndi sá, er Hallur hèt; það var á 18. öld. Hann var hraustmenni mikið og einbeittur. Um þær mundir fóru Eyfirðíngar á sumrum suður á land til skreiðarkaupa, og Hallur ekki síður en aðrir. En með því þeir feingu ekki næga skreið á Innnesjum, fóru þeir suður yfir Hraun, og keyptu hana þar. Eitt sumar var það, að Hallur deildi illdeilu við kaupanaut sinn þar syðra út af viðskiptum þeirra; var sá haldinn fjölkunnugur. En þegar þeir skildu, hèzt hann við Hall, og segist muni senda honum sendíng næsta vetur. Hallur sagðist ekki mundi kvíða því, og fór heim til sín. Leið svo fram yfir jól um veturinn, að ekkert var til tíðinda. Það var venja Halls að sofa tímakorn á kvöldvökunni; en eitt kvöld vaknar hann snögglega, leit í kríngum sig í baðstofunni, stekkur á fætur og ofan og segir um leið, að einginn skuli dirfast að fara út, þángað til hann komi inn aptur, því líf hvers liggi við sem það gjöri. Fer hann nú sem kólfi væri skotið framúr baðstofunni og eptir gaungunum og út, og skellir bænum fast aptur eptir sèr. Veit nú fólkið ekki meira um hann, og situr nú lafhrætt lángan tíma, því undir eins og Hallur var kominn út, heyrðust dunur miklar úti fyrir, en einginn þorði að skygnast um, hvað þeim ylli. Í vökulok kemur Hallur inn; er hann þá dæstur mjög og máttvana. Hann talar ekkert, en dregst með naumindum í rúmið, og breiðir upp yfir höfuð. Morguninn eptir getur hann ekki klæðzt, og nærist lítið þann dag; fannst þá skirta hans samanbrotin á bita í bæardyrunum; var hún öll storkin af svita og blóði. Líka sáust merki á bæarhólnum og þúfunum þar fyrir neðan, til þess, að þar hefði verið töluverður

aðgángur. Þíðviðri var um nóttina og hafði grasrótin geingið af alt að klaka, og það á töluverðu svæði. Blástur hljóp í búk Halls, og lá hann viku rúmfastur, en rètti síðan við, og varð albata. Sagði hann svo frá, að þegar hann hrökk upp úr svefni um kvöldið, hefði hann sèð draug fara niður eptir Vatnahjalla, og vitað, að hann væri sèr sendur; en þegar hann hefði komið út á hlaðið, þá hefði draugsi komið sunnan að bæarhólnum, og ráðizt þegar á sig. Aldrei kvaðst hann í slíka aflraun komið hafa, sem að eiga við draug þenna, og leingi hefði hann átt nóg með að verjast falli, en þó hefði hann að lokum borið hærra hlut, og getað felt drauginn. Hefði hann þá fundið mikinn óþef, draugurinn mist allan mátt sinn og orðið að eldglæríngum, sem bráðum hurfu. Lá Hallur þar svo eptir, sem draugurinn datt, lánga stund, að hann vissi lítið af sèr, en þegar hann raknaði við, dró hann sig í bæinn, og skyldi eptir skyrtu sína í fyrrgreindum stað. Sumarið eptir fór Hallur suður; hitti hann þá hinn fyrri kaupanaut sinn, sem þekkir hann og segir: „Ertu kominn, Hallur?" „Já fyrir guðs náð," kvað Hallur; vèk sèr að honum skyndilega, og rak hnefa sinn á nasir honum svo fast, að úr honum hrutu allar framtennurnar, og hann lagðist í svima, og flaut í blóði sínu. Hafði hann áverka þenna bótalaust af Halli.[1]

**Presturinn og bóndinn.** (Eptir handriti Jóns alþíngismanns Sigurðssonar á Gautlöndum.) Einu sinni var prestur nokkur, áleitinn og ofbeldissamur við sóknarfólk sitt. Bóndi einn var í prestakallinu, sem aldrei hafði látið hlut sinn fyrir presti, og höfðu þeir opt elt grátt silfur sín á milli, og prestur jafnan farið halloka. Bóndi var hniginn nokkuð á efra aldur, þegar þessi saga gjörðist. Það var einhverju sinni, að bóndi var á ferð um nótt, og lá leið hans um á prestssetrinu. Sèr hann þá, að prestur er að fást við draug í kirkjugarðinum, og má varla við. Hafði hann vakið upp únglíngsstúlku, sem dáið hafði fyrir skömmu, og var hún svo æf, að prestur hrökk varla við. Bóndi horfir á leikinn um hríð og segir: „Bíttu í vinstri geirvörtuna maður," og fer hann síðan leiðar sinnar. En prestur lætur sèr þetta ráð að kenníngu verða, og fær hann þá ráðið við stelpuna. Síðan sendir hann bónda drauginn, og á hann að vinna á bónda til fulls. Bóndi tekur ámóti draugsa og kemur honum í hrosslegg einn. Rekur hann síðan tappa í hrossleggin og bindur yfir með kapalskæni, leggur hann síðan á kistubotn sinn, og líðu svo mörg ár, að ekkert verður til tíðinda, og bóndi tekur ekki upp legginn, og hróflar þessu ekki við nokkurn mann.

Þar kemur, að bóndi legst og tekur sótt þá, er hann ætlar muni leiða sig til bana. Hann átti eina dóttur barna, er stóð til arfs eptir hann. Hana kallar bóndi fyrir sig, og segir henni frá hrossleggnum, hvar hann sè, og hvað í honum sè geymt. Varar hann hana við að taka ekki tappann

1. Aðrar eyfirzkar sagnir segja, að maðurinn, sem sendi Halli drauginn, hafi verið vestur undir Jökli.

úr leggnum, eða róta honum nokkuð að mun, fyrr en 20 árum eptir sinn dauða. Segir hann, að þar á eptir muni trauðla verða mein að draugnum. Og er bóndi hefir ráðstafað því, er honum þókti þörf á, deyr hann, og er útför hans gjörð hin virðulegasta. Tekur dóttir hans við búráðum eptir hann og giptist; býr hún á hinni sömu jörð, er faðir hennar hafði á búið. En maður hennar átti aðra jörð miklu stærri og betri, en þessi var, og vildu þau fyrir hvern mun komast á þá jörð, en hún lá ekki laus fyrir, því þar höfðu búið sömu mennirnir í fjölda ára. Þeim dettur þá ráð í hug, og það er að taka tappann úr hrossleggnum, og senda leggbúann bóndanum á jörðinni, og þetta gjöra þau. En er draugsi er kominn úr leggnum, þá vill hann hvergi fara. Segist hann hafa verið sendur til þessa bæar, og einskis annars. Fari hann því ekki hèðan, fyrr en hann sè búinn að ljúka erindinu. Þau bóndinn og konan stóðu uppi ráðalaus; þau kunnu ekki að koma draugnum af sèr, og það varð niðurstaðan, að hann fylgdi þeim og þeirra ætt æfinlega upp frá því.

**Draugur setur vagl á auga.** (Eptir sögnum í Eyafirði.) Maður var sá á Árskógsströnd, sem Pètur hèt; lifði hann fram á 19. öld, og dó gamall. Hann var einsýnn, og hafði stórt vagl á öðru auganu, er hann fèkk snemma á æfi sinni af þeirri orsök, að sagt er, að hann fór að læra galdur. En þegar hann þóktist vera orðinn fullnuma í mentinni, vildi hann reyna sig og vekja upp draug. Fór hann á náttarþeli í kirkjugarðinn í Stærraárskógi, til að starfa að þessu. Fólk var alt í svefni á staðnum, og þar alt kyrt. Pètur fer nú að öllu, sem lög stóðu til, og eptir lángvinnar særíngar kemur upp draugur; lízt Pètri hann heldur ófrýnilegur, og hrestur áræði að karra hann; en svo óheppilega tókst til, að það var móðir hans, er hann vakti upp. Kerlíng magnast fljótt, bröltir á fætur, og ræðst heldur óþyrmilega á son sinn. Takast þau nú á fángbrögðum, og er hún því æstari, sem þau þreyta leingur glímuna. Nú víkur sögunni til prestsins á staðnum, að hann vaknar í rúmi sínu um nóttina, og veit af vizku sinni, að eitthvað er um að vera í kirkjugarðinum. Hann klæðist skjótt, og kemur út, sèr hann þá glímu þeirra Pèturs og kerlíngar, og geingur þar að, og er Pètur þá að þrotum kominn. Þegar kerlíng sèr prestinn, hrækir hún í auga syni sínum, sleppir honum og hverfur burt. Af hráka kerlíngar átti Pètur að hafa feingið vaglið á augað.

**Fjandinn í hrossleggnum.** (Úr æfisögu Jóns prests Steingrímssonar á Kirkjubæarklaustri.)[1] Prestur nokkur var á Völlum í Svarfaðardal; hann átti dóttur prestsins sèra Jóns Sveinssonar á Barði í Fljótum. Annar maður vildi og eiga sömu stúlku. Af mannvonzku vakti hann upp draug, sem drap hæði hjónin, en presturinn á Barði náði barninu, og var það stúlka;

1. Sbr. neðanmálsgreinina við **Katla eða Kötlugjá** í tröllasögum.

af henni er kominn mikill ættleggur. En svo fór fyrir uppvakníng þessum að einginn vissi hvað af honum varð. Leið svo frá þessu hèr um bil mannsaldur eða 80 ár. Þá bar svo við einn vetur, að fyrir framan kórdyr var tekin gröf að barni, sem prestur á Barði átti. Þegar búið var að taka hana, kom þar upp einúngis einn lærleggur úr hesti, og var tappi settur í annan endann. Sumir af þeim, sem gröfina tóku, vildu taka tappann úr, og vita, hvað í leggnum væri, en sumir af þeim vildu það ekki. Varð það af, að þeir, sem vildu það, rèðu. En er þeir tóku tappann úr, flaug þar út ógurleg fluga. En undir eins, er húmaði, sást stúlka gánga inn í dönskum búníngi, og drap hún sama kvöldið hestinn prestsins, og þvínæst, að sagt var, 13 manns, og voru á meðal þeirra þeir, er losuðu um tappann, og sömuleiðis ymsan kvikfènað þar í Fljótunum. Þó deyfðist svo andi þessi, að, þegar ár var liðið, eða nokkuð meira, þá gjörði hann eingum manni mein; en kom samt undan hverjum þeim, er fór fram í Skagafjörðinn úr þeirri kirkjusókn, og gjörði ýmsar skráveifur. Að nokkrum árum liðnum hvarf hann að öllu leyti.

**Sendíngin í glasinu.**[1] Á Vestfjörðum var bóndi einn; hann var kvongaður og bjó vel. Hann átti óvildarmann einn, sem hafði hatur á honum. Sagt er, að þessi óvildarmaður bónda hafi verið göldróttur, og hafi ætlað að nota galdra sína við bónda og drepa hann með brögðum. Einn dag syfjar bónda mjög, og segir við konu sína, að hann haldi, að einhver sæki að sèr og ætli hann að snara sèr einhversstaðar. Hún segir, að hann geti lagt sig í rúmið fyrir ofan sig; svo geti hún setið framan á hjá honum. Bóndi gjörir þetta og sofnar vært. Á meðan bóndi sefur, kemur þar dálítill dreingur. Konan spyr hann um erindi. Hann kveðst vera kominn til að drepa mann hennar. Hún segir, að hann, svo lítill ángi, geti það ekki. Hann kveðst geta teygt úr sèr, ef hann vilji. Hún segir, að ekki líti út fyrir, að hann geti það, og sig lángi til að sjá það. Dreingurinn fór að teygja úr sèr, og var konan að smánarra hann til að gjöra sig stærri og stærri. Seinast varð hann svo stór, að hann stóð hálfboginn í bænum og með höfuðið upp í rjáfri. Nú þykir konunni hann vera orðinn nógu stór, og spyr hann, hvort hann geti gjört sig lítinn líka. Hann segist einnig hafa einhver ráð með það. Hún biður hann að sýna sèr það. Hann mínkar sig smátt og smátt, þángað til hann er orðinn eins lítill, og hann var, er hann kom. Konan spyr, hvort hann geti gjört sig minni en þetta; og gjörir hann sig þá töluvert minni. Þá segir hún, að hann geti vissulega gjört sig enn þá minni. Hann gjörir það. Konan tekur þá fram lítið glas og sýnir honum, og spyr hann, hvort hann geti gjört sig svo lítinn, að hann geti komizt ofan um stútinn á glasinu. Það segist hann geta. Hún segir hann skuli láta sjá og gjöra það. Hann fer ofan í

1. Mèr hefir illa gleymzt heimild fyrir þessari sögn, en finn nú hvergi frumritið.

glasið, en hún þrífur tappa, setur hann í og bindur líknabelg yfir, og komst nú dreingurinn ekki upp úr glasinu, því líknabelgurinn var yfir. Leggur hún síðan frá sèr glasið með honum í. Skömmu síðar vaknar bóndi og spyr, hvort einginn hafi komið. Hún segir að komið hafi strákhnokki lítill, sem hafi sagt, að hann ætlaði að drepa hann, fær honum glasið og segir hann sè þarna. Bóndi tekur við og segir um leið, að hann hafi vitað, að hann ætti góða konu, en ekki vitað eða ímyndað sèr, að hann ætti svo góða, sem hann sæi nú að hún væri. Síðan gjörir hann út af við púkann í glasinu, og eptir það varð hann og kona hans ekki vör við neinar sendíngar svo góðar, sem púkinn væri.

**Sendíng.** (Eptir handriti sèra Sveinbjarnar Guðmundssonar í Móum á Kjalarnesi.) Einu sinni var kona. Hún sat á baðstofupallinum við vinnu sína, og var einginn maður í bænum, nema hún ein. Bóndi var ekki heima; hann hafði farið eitthvað af bæ, en vinnufólkið var alt úti við, sitt hvað að sýsla. Þá kom inn í baðstofuna dreingur, ekki hár, en heldur gildvaxinn. Hann spyr konuna, hvar bóndi sè, en hún var ekki svo fljót á sèr að segja til þess; því henni leizt ekki vel á strákinn. Hann spurði þá enn að bónda; því hann sagðist eiga að finna hann, og finna hann duglega, og megi hann ekki tefja. Konan spurði hann þá um erindið, og hvort hún gæti ekki afgreitt hann. Þegar strákur neitaði því, þá segir konan: „Eg held að slíkur hnokki, sem þú ert, hafi ekki mikið að gjöra í höndurnar á manninum mínum. Eða geturðu orðið stærri en þú ert nú?" Strákur sagði það vera. Hún bað hann sýna sèr það; annars tryði hún því ekki. Smá-óx þá strákur, þángað til hann varð sem tröll, og náði upp í mænir. Konan sagði, að hann væri ekki allur þar sem hann væri sèður, og bað hann nú fara í samt lag aptur. Hann gjörir svo. Þá spyr konan, hvort hann geti gjört sig eins lítinn að sínu leyti, og hann gæti gjört sig stóran, og bað hann sýna sèr það. Hann játar því, og smá-minkar hann nú, þángað til hann var orðinn á stærð við titlíng. Þá tók konan upp dálítið glas, og spurði, hvort hann gæti orðið svo lítill, að hann kæmist ofan í glasið. Þá gjörði strákur sig að flugu, og fór ofan í glasið; en konan var ekki sein á sèr, heldur brá þegar líknarbelg yfir glasið, og mátti svo kanði kúra þar niðri í. Þegar bóndi kom heim, fèkk konan honum glasið, og sagði honum upp alla sögu. Bónda þókti vænt um bragð konu sinnar, tók við glasinu, og fór með það, og vissi einginn framar hvað um það varð.

**Missögn.** Borgfirðíngar hafa niðurlag sögu þessarar á þá leið, sem hèr segir: Þegar bóndi tók við glasinu, gladdist hann yfir snarræðisbragði konu sinnar, og þakkaði henni það innilega. Fór hann síðan með glasið út í smiðju, en bóndi var járnsmiður mikill. Tekur hann þá járnbút, fletur hann út, og gjörir hólk úr. Innan í hólk þenna lætur hann glasið með

sendíngunni í, og lokar svo báðum endum á járnhólkinum. Að því búnu sjóðhitar hann járnhólkinn fyrir aflinum, og lemur hann svo saman með slaghamrinum sínum á steðjanum. Þetta lèt hann gánga þángað til honum þókti járnhólkurinn fullsoðinn saman og fullbarinn. Þá smíðaði hann ljá, og hafði járn þetta með í samsuðu í lènið. Þann ljá hafði hann síðan sjálfur, og þókti hann bíta furðu vel. En einginn mátti snerta ljáinn, nema bóndi einn, og sló hann hann upp til agna. Og er nú sagan úti.

**Sendíngin og sèra Jón í Tröllatúngu.** (Mattías skólapiltur Jochumsson skrásetti eptir sögn í Strandasýslu.) Björn Hjálmarson var leingi prestur að Tröllatúngu í Strandasýslu. Einn sona hans hèt Jón; lèt sèra Björn hann læra, og tók hann síðan fyrir kapellan. Sèra Jón þessi var gleðimaður mikill og hæddist opt að galdratrú og hindurvitnum, þar sem hann varð var við, að menn trýði slíku. Sumar eitt var Arnfirðíngur nokkur kaupamaður í Tröllatúngu, og lèt sá drjúgt um, að hann kynni nokkuð, sem aðrir hèraðsmenn hans. En sem prestur heyrði þetta, tók hann að erta karlinn, og bað hann einatt að sýna sèr, hvað hann kynni, og storkaði honum mjög. Kom þá svo um síðir, að karl varð reiður, og hèzt við sèra Jón, og kvaðst skyldi senda honum sendíngu þá, sem mundi sýna honum, hvað hann kynni. Prestur hló að því, og skoraði á Arnfirðínginn, að hann efndi heit sitt. Síðan fór karlinn vestur og heim til sín, og gleymdi sèra Jón þegar heityrðum hans.

Næsta sumar eptir að þetta bar við, svaf prestur frammi í skála einum; og eina nótt, síðla sumarsins, vaknaði hann við það, að hann fann, að eitthvað fálmaði upp í sængina til sín. Lítur prestur þá upp, og þykist sjá púka, við rúmstokkinn. Prestur legst út af aptur, og hirðir ekki um. Þá tekur púkinn að leita á hann aptur og kitla hann. Rís þá prestur upp og segir: „Farðu út, of vesall ertu till þess, að eg hræðist." Þá hvarf púki. En sem lítil stund var liðin, sèr prestur, eins og þèttur gufumökkur líði inn í skálann; og er hann var allur kominn inn, sýnist presti, sem úr því verði ófreskja, sem fyllir upp allan skálann. Þá mælti prestur: „Ekki hræðist eg þig; þú ert ekki nema stærðin eintóm; það verður þó að vera mergur í því, sem á að ríða mèr að fullu; farðu nú út." Leið þá þessi vofa út. En nú datt presti í hug Arnfirðíngurinn, og man eptir heityrði hans, og býzt því við nýrri sjón, er þó enn örruggur. Þá sèr hann, er minnst vonum varði, mynd svífa inn úr dyrunum; hún var glóandi, sem eldur, og í lagi, sem þríhyrníngur með hvössum hornum. Í sömu svipan sýnist presti, að rúm sè við rúm alt um kríng í skálanum, og liggi maður í hverju, og hafa þeir ber brjóstin. Þá sýnist presti, að myndin svífi frá dyrunum, og reki eitt hornið í brjóst þeim manni, er lá öndvert dyrum; sèr prestur, að hornið sekkur djúpt inn í brjóst mannsins, og heyrðist presti hann reka upp vein og deya þegar. Því næst svífur þríhyrníngurinn

til þess, er nærstur liggur, og drepur þann með sama hætti, og rak sá einnig upp hljóð við sársaukann. Hættir óvætturinn eigi fyrri, en allir voru drepnir, að því er presti sýndist. Nú ætlar myndin að fljúga að presti; stökkur hann þá nakinn upp, breiðir út faðminn og segir hátt: „Svo komdu þá; en komdu í Jesú nafni.“ En óðar en prestur hafði mælt þessi orð, hurfu allar ofsjónirnar.

**Klaufi.** (Eptir handriti Gísla Konráðssonar.) Vernharður prestur Guðmundsson, Vernharðssonar, hèlt Otrardal 41 vetur. Hann var kallaður vel að sèr, margvís og skáldmæltur vel. Hann dó 1797, því nær níræður. Það er almenn sögn vestra, að eitt sinn yrði honum sunduroróa við mann þann, sem Ármann hèt; var hann Tálkufirðíngur og bjó á Eysteinseyri; en sökum þess, að þeir Ármann og prestur höfðu deilt mjög, vildi hann hefna sín harðlega á presti, og vakti upp eða magnaði sendíngu, sem menn kölluðu Klaufa, því skygnir menn lýstu honum svo, að hann hefði nautsklaufir. Draug þenna eða vofu sendi nú Ármann presti, til að ásækja hann. Leingi var það, sem prestur gat varið sig og konu sína, svo fátt varð til frásagna um það, en nokkuð drap hann af fènaði prests; reyndi prestur með öllu móti til að fyrirkoma Klaufa að fullu og öllu, en gat það ekki. Jafnan var ill aðsókn prests, því Klaufi fylgdi honum ætíð; drap hann opt naut fyrir bændum, þar sem prestur reið um, og þókti presti það hið mesta mein. Loksins tók prestur það ráð, að fá það af Tálknfirðíngi einum, sem Grámann hèt, kunnáttu manni miklum, að reyna til að koma Klaufa fyrir. Grámann sagði, að það mundi verða torsókt, en lofaði þó að gera það, sem hann gæti. Svo var Klaufi magnaður, að eingin jörð var óhult fyrir honum, nema þúfa ein í Lambeyrarlandi, og kom Grámann honum þar niður, en eingin kvik skepna og ekki fuglinn fljúgandi mátti koma nærri þessari þúfu, því jafnskjótt hnè hún niður dauð, og ekkert grasstrá hefir vaxið upp úr þúfunni síðan alt til þessa dags.

**Guðbrandur og Mókollur.** (Eptir handriti Gísla Konráðssonar.) Maður hèt Guðbrandur, og var Jónsson; hann var mikill fyrir sèr; átti hann gott bú og gnægð fjár, enda var hann starfsmaður mikill, en ekki var hann álitinn nema meðallagi góðgjarn, en illur viðfángs, ójafnaðarmaður mikill, fègjarn og illa þokkaður af alþýðu. Guðrún hèt kona hans og fèkk hún gott orð. Eitt er það talið sem dæmi um fègirni Guðbrands, að hann seldi son sinn hollenzkum fiskimönnum. Pilturinn var einkabarn Guðbrands, 10 eða 12 vetra, og rauðleitur á hár; sagt er, að Hollendíngar vildu fá blóð hans til læknínga, og gæfu Guðbrandi því mikið fè fyrir hann. Margar eru og fleiri sagnir hèr á landi um eptirsókn Hollendínga eptir rauðbirknum mönnum. Er sagt, að jafnskjótt og Hollendíngarnir komu útí fjarðarmynnið, þá heingdu þeir dreinginn upp á fótunum, og

stíngju hann síðan, og töppuðu úr honum blóðið og áttu hljóð hans að hafa heyrzt í land; en Guðbrandur sagðist hafa komið honum fyrir hjá útlendíngum til lærdóms. Hann ól upp tvo dreingi fyrir aðra, og hètu þeir Jón og Kristján. Guðmundur faðir Kristjáns, sem Guðbrandur ól upp, var kallaður blóðtökumaður; lagði hann þær og mjög fyrir sig, og heppnaðist opt vel. Sagt var, að hann færi með kukl. Guðmundur bjó á Litla-Króki á Rauðasandi, en þá bjó Guðbrandur á Kvígindisdal; voru þeir vinir, og því fóstraði Guðbrandur son hans. Þegar Kristján var orðinn vaxinn, orti hann níð að gamni sínu um Guðrúnu fóstru sína; Guðbrandur komst að því, og barði hann; var Guðbrandur svakalegur og lítt gætinn, þegar hann reiddist, en Kristján kærði þetta fyrir föður sínum; lèk síðan orð á, að Guðmundur vekti upp draug, og sendi hann Guðbrandi og konu hans, Guðrúnu. Kvöld eitt, þegar þau Guðbrandur og Guðrún sátu inni á palli, sýndist þeim flyka ein lágvaxin vera að reyna til að komast upp á pallstokkinn; varð Guðrún hrædd, og fór að biðja fyrir sèr; en Guðbrandur brást reiður við, og skipaði djöfli þeim að fara í burt, og sækja á þann, sem hefði sent hann; greip hann næturgagn sitt og skvetti úr, og fór út á eptir flykunni með bölvi og heitíngum, ef hún hlýddi ekki skipun sinni; hvarf hún síðan í burt, og fann ekki Guðbrand nè konu hans síðan. Sama kvöldið er sagt, að Guðmundur á Litla-Króki yrði mállaus, og feingi flog, og hafði hann þau leingi, en loksins batnaði honum samt. Það er sagt, að þegar Guðbrandur bjó á Geirseyri, vistaði hann mann þann, sem Haldór hèt Ólafsson, frá ekkju, sem hèt Helga, á Hamri á Barðaströnd, en næsta ár átti hann að fara til Guðbrandar. Þetta vor reri Haldór vestur í Víkum; en þegar hann kom heim til húsmóður sinnar á Hamri, kom þeim saman um, að hann skyldi verða kyr hjá henni; ritaði því Haldór Guðbrandi, og bað hann uppgjafar á vistinni; svaraði Guðbrandur honum og hèt eingu um það. Enn þá ritaði Haldór honum, og aftók með öllu að fara til hans, því hann mætti ekki fara frá einstæðíngs ekkju með mörgum börnum. Nú líður ennþá nokkur tími, þángað til Haldór fær brèf frá Guðbrandi. Þegar Haldór fèkk brèfið, var kona ein þar úr nágrenninu við stödd; hún hèt Íngibjörg, og var Jónsdóttir. Hún bað Haldór að lofa sèr að brjóta upp brèfið, en Haldór vildi það ekki; er þá sagt, að konan hafi sagt: „Sjá þú þá til, Haldór minn, að betur fari.“ Síðan opnaði Haldór brèfið, en í því flaug fluga ofan í hann, varð hann þegar veikur, lagðist rúmfastur, ærðist, og dó að fám dögum liðnum. Haldór þessi var grafinn, sem siður er til, en litlu síðar sáu menn draug í mannslíki, einkum gekk hann um á Hamri og næstu bæum; en svo lýstu menn draug þessum, að hann væri á mórauðum peysugarmi, svörtum buxnagörmum, með mórauða lambhúshettu, tvíbrotna, á höfði, á vöxt við 14 eða 15 ára dreing, og því var hann kallaður Mókollur; sumir kölluðu hann Móra. Mókollur var ekki mjög magnaður, og ekki gerði hann mikið mein, en smáhrekki. Hann lá opt á þekjum

úti bæði á Hamri og Vöðlunum efri og neðri og fleirum bæum í nánd; en jafnan sýktust menn þar undir, sem hann lá úti fyrir. þegar fór að rökkva, stóð hann opt í skotum, húsahornum og krókum, og heyrðist þá í honum: „Hviss, hviss;“ flugu frá honum eldglæríngar, en þegar komið var nær, hvarf hann frá. Hann tók utan um menn og kreysti, en fremur var það dáðlaust. Í myrkri tók hann opt um hönd kvenna og kreysti; varð ein fyrir því meðal annara, sem hèt Rósa, dóttir sambýlismanns Helgu, ekkjunnar á Hamri. Rósa var rösk, tók á móti Mókolli, glímdi við hann og hrakti hann út úr bænum. Síðan giptist Rósa, og vitjaði Mókollur hennar þá opt og ættmanna hennar Opt urðu únglíngar á Hamri og Vaðli varir við Mókoll; vildi hann helzt hræða þá, en hvarf undireins, þegar ráðizt var að honum. Mókollur fylgdi Gunnlaugi bónda Gíslasyni í Raknadal, og hèldu menn, að einhver óvildarmaður Gunnlaugs hefði magnað hann meir; var hann þá kallaður Raknadalsdraugur. Hann fylgdi einnig Kristínu, dóttur Gunnlaugs, sem sèra Jón Vestmann átti. þegar Gunnlaugur dó, tók Kristín fásinnu mikla og óeirð, og var sem utan við sig; hún var jafnan hrædd um mann sinn, hvað sem hann fór frá henni, en sýndi honum þó fályndi þess á milli; var þetta kent Mókolli, því hann var orðinn að ættarfylgju. Mikið mein var Vestmanni presti að þessu. Hann kom með hund einn að vestan, sem var kallaður Skjambi, og hafði sèra Jón hann til að verja sig og sína fyrir aðsókn draugsins; hundurinn lá úti hverja nótt; heyrðu menn til hans og sáu, að hann stökk upp með urri og gelti; sýndist mönnum hann þá elta eitthvað í burtu. Maður einn frá Bjarneyum drap hund þenna, þókti presti það hinn mesti missir, og kvaðst heldur hefði viljað missa væustu kúna sína; sagt er og, að konu hans versnaði fásinnan eptir það. Eitt af börnum sèra Vestmanns var ekki með heilli sinnu og sem með aðsóknum. En þegar Vestmann fèkk Kálfafell á Síðu og flutti sig þángað, var kona hans flutt á Ísafjörð til læknínga; var hún þar í 2 eða 3 ár og batnaði lítið. Síðan lèt hún flytja sig austur að Kálfafelli til manns síns, og fylgdi Mókollur henni austur að Jökulsá á Sólheimasandi, en sneri þar aptur. Varð hún síðan albata, eptir það hún var komin að Kálfafelli. Guðmundur nokkur Jónsson, bóndi á Vaðli, átti opt að hafa sèð Mókoll, og geingi hann þar um bæi, sem mennskur maður. þessi Guðmundur var skygn; einhverju sinni heyrðu menn Mókoll segja: „Eg get hvergi verið fyrir bölvuðum glyrnunum í honum Vaðals-Gvendi, og henni Bergjakots-Imbu.“

það var almenn sögn, að Mókollur geingi ljósum logunum. Er sagt, að hann sæti um hádaga á rúmum eða kistum, og berði fótarstokkana, en stundum heyrðist til hans undir rúmunum. Einu sinni atyrti bóndinn í Kolsvík hann, en rètt á eptir. þegar komið var til fjárins, var ein ærin dauð; var henni troðið niður í mjög þraunga sprúngu á bergi einu.

**Draugurinn Kinni.**[1] (Eptir handriti Gísla Konráðssonar.) þegar skriðan mikla fèll í Vatnsdal í Húnavatnssýslu (1720) fórst þar smalamaður Sæmundar bónda á Bjarnastöðum með öðrum í skriðunni; hann hèt þorlákur, og fannst einn allra þeirra, er þar fórust, og hönd af bónda. En þegar þorlákur fannst, var hálft höfuðið af honum; gekk hann þá aptur, og var kallaður Kinni. Eptir þetta var Vestfirðíngur nokkur kaupamaður á þorkelshóli í Víðidal, og var hann kallaður fjölkynngismaður. En af því honum þókti sèr illa goldið kaup, fór hann til og magnaði Kinna og særði, til að leggjast á fènað bóndans á þorkelshóli, og gera honum aðrar skráveifur (aðrir segja, að kaupamaðurinn hafi vakið Kinna upp). Eptir það gerði Kinni mikið tjón í fjárdrápum, og lèk illa sumt heimilisfólk á þorkelshóli; víðar kom hann og á bæi, og er sagt, að bæði sæi hann skygnir menn og óskygnir, og voru allir hræddir við hann; því jafnan sást hann svo, að höfuðið var hálft af honum. Af því bóndanum á þorkelshóli þókti illa við vært við svo búið, fór hann á fund Páls lögmanns Vídalíns, sem þá bjó í Víðidalstúngu, og bað hann að ráða bætur á böli sínu. Rèð Páll honum að finna karl þann, sem Jón hèt; Jón var ættaður undan Jökli, en dvaldi þá í Húnavatnssýslu og var kunnugur Páli. Gerði Jón það mest fyrir orðsendíng Páls, að hann fór að þorkelshóli, og er sagt, að hann særði drauginn leingi, setti hann þar inn í bæarvegginn, og yrði hann eingum að meini eptir það. Í mæli er það, að heldur suði leiðinlega í bæarveggnum á þorkelshóli fyrir veðrum og öðrum tíðindum.

**Vestfirzki galdramaðurinn.** (Eptir handriti sèra Sveinbjarnar Guðmundssonar í Móum á Kjalarnesi.) Einu sinni á fyrri tíðum var nafntogaður galdramaður á Vestfjörðum. þókti hann taka öllum öðrum mönnum á landinu fram í fjölkynngi. Einu sinni varð tilrætt um þetta, að sjálfum honum áheyranda. Sagði hann að sèr sviði það, að hann væri ekki mestur; því annar væri sèr meiri í Hreppunum (í Hnappadalssýslu), og lèzt mundi reyna, hvort það væri ekki. Einu sinni var kunníngi galdramannsins í Hreppunum kominn til hans. það var um vetrartíma, og sátu allir við vinnu um kvöldið. Var þá barið að dyrum, en ekki nema eitt högg. Buðust menn nú til að fara til dyra, en bóndi (galdramaðurinn) bað alla menn vera kyrra, og sagði, að sá, sem kominn væri, mundi víst eiga erindi við sig einan. Fór hann nú ofan, kom bráðum inn aptur, fer inn undir baðstofupall, og er þar eitthvað að bauka. þegar góð stund var liðin, kemur hann upp á pallinn, og fer til iðju sinnar. Spurði þá gesturinn, hvað það hefði verið, sem komið hefði. Bóndi sagði, að það hefði verið draugur sem sèr hefði verið sendur frá Vestfjörðum, og „tylti eg honum hèrna undir baðstofupallinum hjá mèr,“ segir hann. þetta þókti gestinum kynlegt, og sagðist hafa ímyndað sèr, að hann mundi heldur hafa sent hann til baka aptur.

1. Gísli hefir fyrirsögnina: Kinnadraugi.

Hinn sagði, að það hefði sér ekki þókt ráðlegt, heldur ætlaði hann, að geyma draugsa, þángað til á sumardaginn fyrsta, þá ætlaði hann að gefa hann þeim, sem hafði sent hann, í sumargjöf. Sagði bóndi að þá skyldi gesturinn koma til sín, og sjá, hvort draugsa mundi hafa farið svo mjög aptur í vistinni hjá sér um veturinn, eða hvort hann væri ekki full-léttur á sér, sagðist hann skyldi haga svo til að gesturinn feingi þá að sjá piltinn. Leið svo veturinn. En á sumardaginn fyrsta kom gesturinn aptur til galdramannsins. Leysti þá bóndi púka sinn undan baðstofupallinum, og gat gesturinn sèð hann öllum sjónum. Sendi þá heimabóndinn draugsa á stað með þeim ummælum, sem honum líkaði, en hinn brá við. Í fyrsta sporinu stökk draugsi stekkjarveg, öðru bæarleið, en í því þriðja hvarf hann. Seinna átti það að hafa frèzt, að Vestfirðíngurinn, sem draugsi var í upphafi sendur frá, hafi snögglega dáið á sumardaginn fyrsta.

**Frá Jóni og Arnþóri.** (Eptir handriti Eggerts skólapilts Ólafssonar Briems). Bændur voru tveir í Mývatnssveit, Jón og Arnþór. Mikill fjandskapur var þeirra í millum. Báðir voru þeir mjög fjölkunnugir, og sendust sendíngum á; var Arnþór þeirra meiri. Eitt sinn er þess getið, að Arnþór sendi Jóni draug. Jón sá ferð draugsins, og vilti hann svo, að hann rèð á bæar stjakann, og hamaðist svo að honum. Jón kom út, talaði til draugsins og spyr, hver hann sè, og hvert hann skuli. Hann kvaðst eiga að drepa Jón, en vera frá Arnþóri. Eptir það bindur Jón hann við stjakann, og kveður hann aldrei skyldi fara þaðan, nema ef hann vill drepa Arnþór. Draugurinn heitir því. Eptir það tekur Jón keraldshlemm stóran og fyllir mannasauri og öðrum óhreinindum, og biður hann færa Arnþóri. Síðan fer draugurinn heim á leið, og finnur Arnþór úti, og steypir þegar af hlemmnum ofan yfir hann, og kvað Jón honum það sent hafa. Síðan ráða þeir saman, og stígur Arnþór yfir drauginn.

Um vorið fyrir páska kom förukona til Arnþórs, og beiddi hann vistar um páskana. Arnþór kvaðst það leyfa mundi, ef hún vildi gjöra eina bón sína. Hún heitir því. Á páskadag kallar Arnþór hana út með sèr, og fer með hana á klöpp eina, þar sem á rann undir og biður hana steypa sèr af ofan, og kveðst þegar mundi draga hana upp og launa henni góðu. Hún gjörir svo, en drukknar þegar. Síðan dregur hann hana upp, og gjörir úr draug, magnar hann mjög og sendir Jóni. Hún kom þángað að nóni, sem Jón var enn inni, og brýtur hún hann á bak aptur yfir þröskuldinn. Í því bili kom kona hans inn, og tekur að veita honum nábjargir; en þá kemur draugurinn á gluggann og spyr, hvað hann skuli. „Fylg þú Arnþóri" segir hún. Síðan sótti draugurinn á Arnþór, og ætt hans, og banaði tveim konum, en varð síðan bundinn.

**Sèra Sigurður á Auðkúlu.** (þessi saga er tekin eptir handriti Arnljóts Ólafssonar). Einu sinni flutti sèra Sigurður messu á Svínavatni. Ætlaði

hann að ríða heim um kvöldið, en hann kom ekki. Var hans leitað daginn eptir og fannst hann þá framan til í vatni því, sem Svínavatn heitir, og liggur á milli kirkjustaðarins Svínavatns, Auðkúlu og fleiri bæa. Sèra Sigurður var þá dauður, þegar hann fannst, og allur sundur slitinn. Þar var og traðkur mikill. Sama dag og þetta varð, sást það frá kirkjunni á Svínavatni, að maður lá á vatninu og setti upp borðstóla, en því var einginn gaumur gefinn, og einginn hafði fylgt presti um kvöldið, en dimt var, og lá leið hans um ísinn á vatninu. Þetta var um vetur í skammdeginu. Sáu menn það seinna, að maður sá, sem á ísnum hafði sèzt, hafði verið draugur, og segja sumir að Borgfirðíngar hefðu sent hann, en aðrir að Dalamenn hafi gjört það. En það ætla menn víst, að hann hafi brugðið sèr í nautslíki þegar hann rèðst á prest. Þegar draugurinn fór burtu aptur, kom hann við á bæ þeim, sem Melbrekkudalur[1] heitir. Bóndi var að láta inn fè sitt þegar hann sá manninn, og hafði hann tal af honum. Hann spurði hann um erindi sitt og ferðir. Draugsi sagði bónda upp alla sögu. Þá sagði bóndi honum að flýta sèr, og fara ofan í þann, sem hefði sent hann. Og það gjörði draugsi.[2]

**Kúludraugarnir.** (Eptir sögnum í Húnavatnssýslu.) Sigurður Magnússon var prestur á Auðkúlu 1652 eða 1654—1657. Honum var sendur draugur í konulíki af Vestfjörðum, og fannst hann dáinn og illa útleikinn milli Auðkúlu og Svínavatns. Bóndinn á Reykjum sá til hennar, þegar hún fór upp hjá, og spurði, hvert hún ætlaði og hvert erindi hennar væri. Hún sagðist vera send til að drepa prestinn á Kúlu, af því hann væri bezti prestur á landinu. Bóndi bað hana að gera svo vel, að koma við hjá sèr, þegar hún færi til baka, og segja sèr frèttirnar. Kom hún svo við á Reykjum, þegar hún fór heimleiðis aptur, og spyr bóndi hana, hvernig hefði farið, og sagði hún af hið sanna. Bóndi spyr hana, hvort hún hafi þá ekki gjört fleira ílt af sèr. Hún segir: „Börnin voru að leika sèr á Mosfelli, og lángaði mig í leikinn með þeim; blakaði eg þá við einu þeirra, og lá það dautt eptir á vellinum.“ „Hver ráð eru til að lífga það aptur,“ segir bóndi. „Það er að taka því blóð,“ segir hún, „undir litlu tánni.“ „Jæa, farðu þá,“ segir bóndi, „og dreptu þann, sem þig sendi.“ Tók hún þá strikið vestur. Ekki bar á draugagángi á Kúlu, svo sögur færu af, fyrr en eptir að sèra Jón Jónsson eldri, sem þar var prestur 1803—1817, drukknaði niður um ís á Svínavatni. Þóktust menn þá sjá hann þar á eptir ríða um vatnið í túnglsljósinu, en ávalt hleypti hann ofan í hjá Svínadalsárósnum, og var þar að bisa við að ná hestinum upp úr. Nokkrir þykjast og síðan hafa sèð þá sèra Þorlák Björnsson († 1832) og sèra Jóhann sál. Pálsson († 1840) í fylgd hans. Hefir mönnum þókt, sem þeir villi vegu manna á Svínavatni

1. Það heitir nú Melrakkadalur.

2. Sèra Sigurður sá, sem sagan er af, er líklega Sigurður Magnússon, sem var prestur á Auðkúlu 1654—57.

á veturna, en sèra þórlakur sál. er sá, sem áttar þá allajafna aptur, sem viltir eru. Hann ríður þá fram fyrir hina embættisbræður sína, og veifar hvítum klúti; við það fer villan af ferðamönnum.

**Draugurinn og Jón Sigfússon.** (Vestfirzk sögn.) Snæbjörn hèt maður er bjó í Vatnshorni á 18. öld. Honum var sendur draugur, er ráða skyldi honum bana, en ef hann gæti það ekki, átti hann að drepa frænda hans, er Jón Sigfússon hèt. Snæbjörn gat varizt árásum draugsins, en á Jón Sigfússon rèðst hann einhverju sinni, er hann var að leysa hey í garði og urðu þar harðar sviptíngar. Tók draugur allóþyrmilega á. En svo lauk, að Jón bar hærra hlut, en vofan tók svo fast á honum, að hann varð magnlaus og rænulítill, og svo var hann þjakaður eptir viðskipti þeirra, að hann lagðist í rekkju og lá nálega heilan vetur, en hálfvisnun kom í hönd hans.

Sögu þessa sagði Jón heitinn Sigfússon sjálfur merkum manni Magnúsi Arasyni og sýndi honum bæklaða höndina.

**Draugur veitir áverka.** (Eptir Jokkum hreppstjóra Magnússyni í Skógum í Reykhólasveit.) Jón hèt maður, hann var Sigfússon, og er nú andaður fyrir hèr um bil 30 árum; var hann bóndi í Reykhólasveit, og bjó þar síðast, er á Kambi heitir. Hann var lágur vexti, en riðvaxinn, hraustur, og harðgjör, og hinn mesti fjörmaður. þessi Jón sagði frá því, að þegar hann var á tvítugsaldri vinnumaður á Kollabúðum hjá bónda þar, er Sigfús hèt, bar svo við vortíma nokkurn, að Sigfúsi þessum varð sundurorða við arnfirzkan mann; er eigi getið hvað hann hèt, lenti í heitíngum með þeim, og hèt Arnfirðíngur að senda honum sendíngu, er taka skyldi hefnd fyrir sig. Skildu þeir við það. Snemma hinn næsta vetur brá svo við á bænum, að gripir tóku að hrynja niður með ýmsum undarlegum hætti, svo að eingum þókti sjálfrátt, og allir þeir, er vissu um sendínguna, eignuðu það þegar henni, enda þorði bóndi hvergi að vera einn. Fór nú svo fram um hríð. Eitt kvöld er dimmt var orðið, var Jón þessi Sigfússon að gefa lömbum úti í heygarði; var hann geinginn inn í geilarbotn og leysti, verður honum þá litið utar eptir geilinni og þykist hann sjá flyksu nokkra færast að sèr, og óðar er þrifið til hans mjög óþyrmilega, svo að hann hrökk fyrir. En með því Jón var óbilgjarn og einbeittur, rèðst hann á móti og kvaðst hann leingi hafa þreytt áflog við ófögnuð þenna. þókti honum það vera í mannsmynd, þó mjög einkennilegt; vildi draugur ekki taka tökum, heldur hripsaði hann og reif æ sem tíðast, og var svo harðleikinn, að hold gekk frá beini, þar sem hann náði svo til. Loksins segist Jón hafa komið draug þessum undir og hnigið við það sjálfur í ómegin. Fann Sigfús bóndi hann þar í geilinni í óviti, og var hann allur blár og blóðrisa; var hann svo borinn heim og lá leingi eptir. þegar Jón var orðinn friskur, sagði hann mönnum frá sögu þessari, enda hafði hann nokkuð til sannindamerkis;

var það það, að hold með skinni milli þumalfíngurs og vísifíngurs á hægri hendinni var numið burt frá beini, og fyltist skarð það aldrei síðan með hold. Við drauginn urðu menn síðan eigi varir.

**Silfurdæld og Djöfladæld,** (Eptir handriti Eggerts skólapilts Ólafssonar Briems). Út frá bænum á Grund liggur graslaus melbrekka, en upp í hana liggur dæld ein grasi vaxin, er sagt er að heiti Silfurdæld. Á öndverðri 18. öld var á Grund í Eyafirði Sigfús Þorláksson, lögrèttumaður. Hann var mjög gölðróttur (hann var borinn galdri af Eiríki Jónssyni á Dvergstöðum árið 1711.)[1] Hann átti sökótt við mann vestur undir Jökli. Sá var og hinn fjölkunnugasti maður; hann sendi Sigfúsi 18 drauga í senn. Sigfús sá, er þeir hófu ferð sína vestan; fer hann þá þegar til kirkjugarðs, og vekur upp draug einn skyndilega, og magnar hann mjög. En er Sigfús hafði magnað drauginn, halda þeir af stað, Sigfús og draugurinn. En er þeir voru skamt á leið komnir, mæta þeir þeim vestandraugunum í Silfurdæld; voru þeir þá 17. Sigfús heilsar á þá, og spyr hví þeir væru ekki nema 17. Þeir kváðust hafa ètið einn á Vatnsskarði, því að þeir hefði verið sendir nestislausir heiman. Síðan rèðu þeir Sigfús á þá vestandrauga, og feldu þá alla. Eptir það ræður Sigfús á sinn draug, og fer honum og fyrir, og heldur heim síðan. Þar heitir síðan Djöfladæld, er þeir áttust við, en þó kalla sumir Silfurdæld.

**Rifsdraugurinn.** (Eptir sögn Hrútfirðinga í Strandasýslu). Það bar til í Rifi, vestan undir Snæfellsjökli, að sjómenn urðu tóbakslausir. Undu þeir því illa, en urðu þó að hafa það svo búið, því hvergi fèkst tóbak í kaupstöðum nær en í Hofsós og Höfðakaupstað. Vöktu þeir þá upp draug, og sendu hann norður til að sækja sèr tóbak. Draugurinn sagðist ekki geta farið nestislaus; því hann sagðist hafa verið kviksettur. En sá draugur þarf mat, sem lifandi hefir verið grafinn. Feingu þeir þá draugnum nesti, og fór hann svo á stað. Segir ekki af ferðum hans. En svo bar við, að nokkru síðar var maður á ferð yfir Fróðárheiði. Hann sá hvar maður sat í brekku, og var að naga bríngukoll. Hafði hann fjölda marga tóbaksbita í kríngum sig. Maðurinn yrðir á hann, og biður hann, að gefa sèr upp í sig. Þegar hinn heyrir það, bíður hann ekki boðanna, heldur fer undir eins á stað. Rak hann alla tóbaksbitana á undan sèr, eins og fjárhóp, og fór með rekstrinum vestur í Rif. Er það haft fyrir satt, að ekki þryti þá Rifsínga tóbak þann vetur.

**Draugur tekur ofan.**[2] (Eptir handriti sèra Skúla Gíslasonar á Stóranúpi). Maður nokkur gekk eitt sinn með sjó seint um kvöld. Kom þá að honum

1. Sbr. Árbækur Espólíns, IX. 6. bls.

2. Það verður ekki sèð, hvort þessi draugur er uppvakníngur eða apturgánga, og ætti þá sagan inn í fyrri greinina, ef svo væri.

sjóvotur draugur, og gekk svo nærri honum, að maðurinn átti ekki annars úrkosti, en hörfa undan út í flæðarmál, og óð hann þar. Sá maðurinn, að ekki var til góðs að gjöra. Lagði hann þá til draugsins í bræði með broddstaf sínum. Hopaði hinn þá undan, svo maðurinn komst upp. En ekki var hann lángt kominn, fyrr en hann mætti manni. Tók hann þá ofan og heilsaði, og ætlaði að spyrja til vegar, því hann vissi óglögt, hvar hann fór. En hinn tók aptur ofan altsaman, hatt og höfuð. Maðurinn brá þá staf sínum milli háls og höfuðs, svo draugurinn kom því ekki á sig aptur, og hríngsnerist, þar sem hann var kominn; en maðurinn áttaði sig, og komst heim. Sama er um galdramenn sem drauga, að sýnist þeir taka höfuðið af sèr, koma þeir því ekki á sig aptur, ef einhverju er brugðið yfir strjúpann.

**Hjóna-djöfullinn.** (Eptir sögn Sigurðar málara Guðmundssonar). Á Geirmundarstöðum í Skagafirði bjuggu einu sinni hjón, og fóru hugir þeirra ekki saman. Enda var það mælt, að annar maður væri í þíngum við konuna og gjörði því alt sitt til, að spilla milli hjónanna. Í því skyni magnaði hann fjanda einn í hundslíki, mórauðan að lit. Þennan fjanda sendi hann á Geirmundarstaði, til að verða hjónadjöfull. Öldruð kona var í dvöl hjá þeim hjónum á Geirmundarstöðum; hún tók eptir því, að í hvert sinn, áður en hjónin fóru að rífast, kom mórauður hundur inn í baðstofuna, fór upp á pallinn og lagði kanann[1] upp á rúmið á milli hjónanna, þar sem þau sátu, og geispaði svo ólundarlega. Þegar seppi var búinn að þessu, var það æfinlega segin saga, að hjónin fóru að rífast. Gamla konan talaði þá við hitt vinnufólkið um fyrirrennara þann, er hún sæi, fyrir rifrildi hjónanna, og kom því öllu ásamt um, að hún skyldi segja konunni frá því, er hún sæi, og vita, hvort hún gæti ekki með því miðlað málum milli hjónanna; því raunar voru hjónin ástsæl hjá öllum hjúum sínum. Einu sinni tók hin skygna kona húsmóður sína tali, og leiddi henni fyrir sjónir ókristilegt athæfi þeirra hjóna í rifrildi og annari sambúð. Konan tók ekkert undir það með fyrsta, en hin aldraða kona sagði, að hún mundi gjöra sèr meira far um að forðast illdeilur við bónda sinn, ef hún vissi, af hverju rifrildi þeirra risi. Síðan sagði hún henni upp alla sögu, og bað hana þess leingstra orða, að vægja í öllu til við bónda, svo hún skemti ekki skrattanum leingur með illdeilum sínum. Konan hét henni góðu um það alt, sem í sínu valdi stæði. Fór þá svo, að samkomulag þeirra hjóna batnaði dag af degi; því konan sló ávalt undan bónda sínum. og svo fór á endanum, að sambúð þeirra varð ástúðleg; enda sást móri aldrei framar.

**Svarti-dauði.** (Eptir handriti sèra Skúla Gíslasonar á Stóranúpi). Þegar Svartidauði geisaði á Íslandi, komst hann aldrei á Vestfjörðu, því að 12 galdra-

1. þ. e. skoltinn.

menn vestra tóku sig saman og mögnuðu allir sendíngu á móti honum. En Svarta-dauða lagði yfir landið, eins og gufu, sem náði upp í miðjar hlíðar og út á mið fiskimið; rèðu fyrir gufunni karl, er fór með hlíðum, og kerlíng, er fór með löndum fram. Gistu hjón þessi hjá kotbónda nokkrum á Svalbarðsströnd; þókti bónda þau heldur ískyggileg, og vakti um nóttina, þó hann lètist sofa; heyrði hann þá, hvernig þau ráðgjörðu að haga ferðum sínum um daginn, til þess að eyða bygðina, og um morguninn voru þau horfin. Bóndi brá þá við og fann Grundar-Helgu, er var landsdrottinn hans, og sagði henni hvers hann hefði orðið var. Tók hún þá ráð það, að flytja sig og fólk sitt á fjöll upp, og dugði það, sem kunnugt er orðið. Þegar gufan og manndauðinn tók að færast vestur eptir, höfðu galdramennirnir sendínguna tilbúna; var hún graðúngur mikill fleginn ofan að knjám og dró hann húðina eptir sèr; hitti hann karl og kerlíngu undir klettum í fjöru við Gilsfjörð, þar sem leiðir þeirra urðu að liggja saman; sáu skygnir menn aðgáng þeirra, og lauk svo, að uxinn kom þeim inn undir húðina, lagði þau undir og kramdi þau sundur. Til minníngar um morðvarga þessa var þetta ort:

„Þríföu forkinn þrítenta,
þrjú mörbjúgun einnig þar,
og með lensu uppgötva[1]
ár, þá Svarti-dauði var.[2]"

**Um Þorgeirsbola.** (Eptir Benedikt á Gautsstöðum.) Hèr um bil á miðri 18. öld var sá maður uppi í Fnjóskadal, sem Þorgeir hèt, hann var fæddur á Skógum á Þelamörk, og var ógiptur og vinnumaður á ymsum bæum þar í dalnum, tryggur og blíður við vini sína en harður og hefnigjarn við þá sem gjörðu móti skapi hans, og það höfðu menn fyrir satt, að hann mundi vera býsna göldróttur. Þess er getið, að eitt sinn bað hann sèr konu þar í dalnum eður í næstu sveit, en konan vísaði honum frá; varð honum skapþúngt af þessu og heitaðist við hana. Eptir þetta er mælt hann hafi fengið sèr flegið kálfshöfuð, sumir segja nautsklauf, og komið þar í hundslöpp; en hvort sem var, kvað hann þar yfir galdra og magnaði það svo með fjandans krapti, að af því átti að verða draugur sá í nautslíki sem síðan var kallaður Þorgeirsboli. Er svo mælt, að hann hafi átt að senda þenna ófagnaðar gest konu þeirri er honum synjaði ráðahagsins við sig, og hafi boli átt að eiga við hana þar til hún hafi dáið af viðureign hans. Sumir segja það hafi komið niður á systur hennar, og vitum við eigi hvort sannara er. Eptir þetta þorðu menn ekki að mæla í miðjum

1. Uppteikna, aðrir.

2. Þríteuti forkurinn er M, mörbjúga er C, lensa er L. Eptir þessu ártali er svartidauði talinn 1350, eins og hann gekk um Norðurálfuna, en hann kom ekki fyrr en 1402 út híngað, eins og Árbækur Espólíns sýna, I, 122. bls.

hlíðum við þorgeir, því ef ekki var gjört að vild hans, var honum ekki ótamt að grípa til heitínga. Nokkru síðar giptist hann og bjó á Vegeirsstöðum í Fnjóskadal 27 ár og átti þar nokkur börn, þaðan flutti hann búferlum að Leifshúsum á Svalbarðsströnd og er þá mælt að mönnum hafi þótt vaxa reimleiki í hèraðinu, því boli fylgdi jafnan þorgeiri og börnum hans. Menn þóktust sjá hann og verða varir hans bæði vakandi og sofandi; sumir þeir er ekki sá hann, heyrðu hann opt baula með dimmri rödd, og virðist það þá optast vera eins að heyra og niður í jörð undir fótum þeirra. Optast þóttust menn sjá hann í nautslíki og svo útlítandi sem fleginn væri bæði hausinn og svo allur skrokkurinn og lefði húðin öll aptan við hann og sýndist holdrosan jafnan snúa út, og dróst svo þessi dræsa á eptir honum þar sem hann fór. Stundum þókti mönnum hann vera í ær eður kýr líki með ymsum litum, var hann þá opt að bera kálfi eður lambi og komst mjög við í hríðunum og emjaði sárt, en færi menn að forvitnast um þetta, var alt á sama augnabliki horfið. Stundum sýndist hann sem hundur eður köttur o. s. fr. það er sagt að flysjúngur nokkur hafi átt að hafa í flimtíngi við þorgeir eitt sinn, að sveit sín væri nautlaus, og spurt hvort ekki fengist naut hjá honum; þetta hafi þorgeiri gramist, og sagt hann skyldi ekki optar biðja sig um naut, en eptir það hafi maður sá átt að deyja voveiflega, og hèldu sumir að þorgeirsboli mundi hafa sèð ráð fyrir honum. það er haft eptir þorgeiri á efri árum hans, að hann þyrfti að nýja bola sinn upp aptur, því hann væri í standi til að verða manns bani, og það þóktust menn fyrir víst vita, að hann hefði svo gjört, því það virtist umgángur hans vaxa um tíma í sveitinni, svo fènaði og gripum var ekki með öllu óhætt fyrir beinbroti eður ónáttúrlegum flogum, ef það varð á vegi þar sem hann fór sem fylgja undan þorgeiri eða afkomendum hans og tengdamönnum, þó var sagt að umgángur þessi hefði dofnað að nokkrum tíma liðnum. Eptir þetta þóktust menn verða þess varir, að þorgeir væri að tala við bola sinn á næturnar og spyrja hann að hvort hann væri í nýja eða gamla belgnum sínum núna, en ekki heyrðu menn honum væri neinn svarað. Til sanninda um það hvað fast boli fylgdi þorgeiri og hans fólki, er það sagt, að eitt sinn hafi gamall maður geingið út úr bæ sínum um næturtíma, hafi hann þá þókst sjá þorgeirsbola í hlaðvarpanum og þar með Húsavíkur-Lalla og Eyjafjarðar-Skottu, rèðust þau bæði í senn á bola og urðu miklar sviptíngar, honum sýndist bola veita heldur miður því húðin flæktist aptan við hann og um fætur honum, en skrokkurinn sýndist sem nýfleginn og allur blóðrisa. Karlinn horfði á þenna leik stundarkorn en vísaði þeim síðan öllum til neðstu hygða. En rètt að þessu búnu kom ættíngi þorgeirs. það er líka haft eptir einni kerlíngu, að hún þóktist sjá bola hlaupa heim að bæ þeim sem hún var á með uppspertan halann á undan ættmönnum þorgeirs. Önnur kerlíng þóktist sjá svipi nokkura sjódauðra manna, sem vóru nýdruknaðir, flakka

þar um sjóarbakkana og teyma þorgeirsbola milli sín, og taldi hún þetta bæði manna og óveðra fylgjur. Svo bar við á bæ nokkrum í Fnjóskadal að dreingur átta vetra ætlaði út úr bænum seint um kveld, en þegar hann kom í bæjardyrnar, sýndist honum grár hestur standa á hlaðinu; honum sýndist hann hryggbrotinn, svo kviðurinn náði ofan að jörð, og skorin af honum bæði eyrun og svo sterturinn, og væri hann svo blóðugur bæði aptan og framan. Dreingurinn varð hræddur og hljóp inn og sagði frá, og sagðist ekki vita hvaða skelmir hefði farið svona með skepnuna, og beiddi fólkið að fara út og sjá. það brá við, og fór út en sá ekkert; var svo leitað kríngum bæinn og um túnið, og sást ekkert, en í sama vetfangi kom dóttir þorgeirs, og beiddi gistíngar, og þóttust menn þá vita að þetta hefði verið þorgeirsboli. Á bæ í Höfðahverfi átti fulltíða maður að sækja kýr seint um kveld að áliðnu sumri, en þegar hann rak kýrnar yfir túnið heim að bænum, sýndist honum koma gráskjöldóttur nautkálfur hlaupandi, og í sömu svipan ríða annari kúnni. Hann sá kúna fara saman í hnipur og heyrði hana reka upp ógnarlegt og ámátlegt öskur, en um nóttina lèt kýr þessi kálffángi sínu með miklum býsnum. Snemma um morguninn kom að þessum bæ mágur þorgeirs og fór sömu götuna og hinn maðurinn rak kýrnar kvöldinu áður, og eignuðu menn þá þetta þorgeirsbola. — Einu sinni sá maður Húsavíkur-Lalla og Eyjafjarðar-Skottu á þorgeirsbola, hann reið, en hún sat á húðinni, eins og á sleða.[1]

Á öðru eður þriðja ári þessarar aldar dó þorgeir, en ættfólk hans dreifðist. Síðan linti umgángi þorgeirsbola, og það er víst að nú á þessum tímum hvorki heyrir eða sèr neinn til þorgeirsbola, en þetta segjum við rètt eins og við heyrðum gamalt fólk segja á úngdómsárum okkar og þóttist það hafa satt að mæla, en hvað um það hefir liðið getum við ekki með vissu sagt. Og er svo lokið frásögnum þeim sem við höfum heyrt af þorgeirsbola.

**Þorgeirs-boli.** (Eptir handriti Bjarnar Jóhannssonar á Finnstöðum í Kinn og Gísla Konráðssonar.) þorgeir hèt maður, sem margir kölluðu Galdra-Geira; bróðir hans hèt Stefán, kallaður Kvæða-Stefán, því sagt er, að hann kvæði og sýngi viðbrigða vel; þeir voru Jónssynir. Hinn þriðji maður er enn nefndur, sem Andrès hèt; hann var móðurbróðir þeirra bræðra; voru þeir allir úr Fnjóskadal, og reru haustvertíð í Hrísey á Eyafirði. þessir menn er sagt að hafi starfað allir að því, að búa bola út. Sagt er að þorgeir feingi sèr kálf uýborinn hjá konu þar á eynni, skar hann síðan þar sem honum þókti hentast, fló hann aptur á malir, sumir segja aptur af mölum, svo hann dragi skinnið alt á rófunni, og magnaði hann með fjölkyngi þó þókti þeim frændum þetta ekki nóg aðgjört, heldur lètu þeir í hann af átta hlutum, af lopti, og af fugli, af manni, og af hundi, af ketti, og af

1. þessari grein er bætt inn eptir sögn Edvalds Johnsens úr Húsavík.

mús, og enn af sjókvikindum tveimur, svo níu voru náttúrur bola með nauts-eðlinu. Gat hann því jafnt farið lopt, sem lög og láð, og komið fyrir sjónir í öllum þeim myndum, sem í honum voru náttúrur; og eptir því sem honum þóknaðist. Þó boli væri svo útbúinn, sem nú var sagt, þókti Þorgeiri ekki ugglaust, að hann kynni að verða yfirstiginn, fèkk hann sèr því sigurkufl af barni og steypti yfir hann. Af því Þorgeir gekkst mest fyrir að útbúa bola og magna hann, var hann við hann kendur og kallaður Þorgeirs-boli, enda þurfti hann fyrst og fremst á honum að halda til vika. Svo stóð á, að Þorgeir hafði beðið konu þeirrar, sem Guðrún hèt Bessadóttir; en hún vildi ekki eiga Geira. Sendu þeir henni þá bola. Þó var það nokkra stund, að boli gat ekki unnið á henni; en að lokunum fór svo, að henni varð hvergi vært fyrir honum, og þegar hún var flutt bæa á milli, urðu stundum að fylgja henni 6 og 8 menn, því fáum þókti sèr fritt með henni. Þó var hún stundum gripin af hestbaki og snarað 3 eða 4 faðma burtu, því hendi fylgdu svona margir; en aptur hafði hún frið fyrir honum annað veifið. Loksins beið hún bana af þeim skráveifum, sem boli gerði henni. Einu sinni var Guðrún stödd við kirkju; kvaldi þá boli hana svo í kirkjunni, að hún hafði eingan frið, og fèkk svo hörð flog, að henni lá við meiðslum. Gekk þá maður út úr kirkjunni, og sá, hvar boli lá á húshlið; önnur hlið hússins sneri að kirkjunni, en á hliðinni, sem frá sneri, lá boli, og hafði granirnar upp á husmæninum, svo maðurinn sá í opnar nasir hans. Sýndist honum leggja gráan streing úr nösunum og út að kirkjunni. En þegar maðurinn kom svo lángt, að hann sæi á hina hlið hússins, var skrokkurinn á bola að hverfa burtu af húsinu. Bóndi nokkur, Magnús að nafni, bjó á bæ þeim í Höfðahverfi, sem Sund heitir. Kona Magnúsar hèt Helga, og var náskyld Guðrúnu Bessadóttur. Eptir lát Guðrúnar beindist boli helzt að Helgu og kvaldi hana sí og æ. Þá var kunnáttumaður uppi í Eyafirði, sem Torfi hèt, og átti heima á Klúkum. Torfi var beðinn að fyrirkoma bola, og frelsa með því Helgu. Fór Torfi út að Sundi, og sá, hvar boli hèlt sig; lá hann á baðstofunni uppi yfir Helgu, og kvartaði hún mjög um, hvað þúngt væri ofan á sèr, einkum á fótunum, þó þeir væri naktir; euda lá boli rètt uppi yfir þeim. Torfi gat ekki fyrirkomið bola, af því hann sagðist ekki vita, hvort sigurkuflinum hefði verið hleypt ofan af barninu, eða það hefði verið sprett á hann neðan á fótum, og honum svo smeygt upp af því, því það væri ýmist; en í kuflinum væri hann illa vinnandi. Sögn manna var það, að Helga hefði um síðir beðið dauðaun af völdum bola, og að hann fylgdi fólki hennar leingi eptir það. Þó það væri upphaflega tilætlun Þorgeirs með bola, að láta hann gera út af við Guðrúnu, hafði hann til að gera ýmsar fleiri glettur þeim, sem hann þóktist eiga varhefnt við; því jafnan var boli honum fylgisamur, og stundum nógu nærgaungull. Opt sendi Þorgeir hann til að ríða kúm annara manna, og ónáða þær, og rak hann þær opt afvega.

Tíðum heyrðu menn hann og gaula í þoku og myrkri. Þorgeir var eitt sinn kominn að Hallgilsstöðum, og var þar um lestur, en gekk opt út undan lestrinum. Þegar búið var að lesa, kom bóndi út með Þorgeiri, og sáu þeir þá sem þokubelti norður til fjallsins, en annars var heiðskírt veður. Þá sagði Þorgeir: „Djöfull getur hann orðið lángur núna." Ætluðu menn, að hann ætti við bola, og neytti hann þá þess, að ein náttúra hans var af lopti. En litlu síðar rak á grenjandi byl, og hugðu menn, að boli hefði vitað það fyrir, og opt urðu menn slíks varir fyrir illviðrum og öðrum tíðindum. Sagnir eru um það nyrðra, að þau Húsavíkur-Lalli og Eyafjarðar-Skotta, heldur en Hleiðrargarðs-Skotta, hafi slegið sèr saman við Þorgeirsbola, og ekið fram endilánga Fnjóská; en það var húðin af bola, sem þau Lalli og Skotta sátu á, en boli dró allan drösulinn á halanum.[1] Þegar bola gekk ekki vel að koma því fram, sem hann átti að vinna fyrir Þorgeir, hvarf hann aptur heim til hans, og beindist að honum sjálfum, gerði honum ýmsar glettur, og vildi fyrirkoma honum. Enn þó Þorgeir væri vel fær í galdri, veitti honum allörðugt opt og tíðum að verja sig fyrir bola, og mátti alls til kosta, ef einhver gutti hljóp í bola við hann. Einu sinni sókti boli svo fast eptir að ná lífi Þorgeirs, að hann flúði ráðalaus undan honum inn í bæ til konu sinnar. Konan hèlt á úngbarni, sem þau áttu, og ætlaði Þorgeir að taka það í þessum vandræðum og fá bola, til að sefa hann með því. En konan bað hann í öllum bænum að gera það ekki, heldur skyldi hann taka kvígu, sem þau áttu úti í fjósi, og gefa honum hana. Það gerði Þorgeir, leysti kvíguna og hleypti henni út. En að stundu liðinni fannst kvígan öll sundur tætt í smástykki nálægt bænum. Síðan er ekki getið, að hann hafi gert ílt af sèr til muna, nema hvað hann ærði opt kýr eptir það. Hann fylgdi og ættmönnum Þorgeirs, og ekki þorði Þorgeir annað, en láta dætur sínar, sem báðar hètu Ingibjörg, bera rúnastafi í svuntum sínum til varnar sèr fyrir bola. Þegar boli sást, var hann í ýmsum myndum, eins og áður er sagt; stundum í mannslíki eða hunds, en optast í nautslíki með horn, fleginn aptur á hala og dró húðina blóðuga á halanum á eptir sèr. En í hverri mynd sem hann sást, þókti hann ærið ljótur og voru flestir menn við hann hræddir. Það er sögn flestra manna, að Þorgeir hefði ekki komið bola fyrir, áður en hann andaðist, enda er það í mæli, að þegar Þorgeir lá banaleguna og var að fram kominn, hafi grár köttur, aðrir segja, svartur hvolpur, sèzt liggja í hnipri á brjóstum hans, og væri það ein mynd bola. Sumir segja, að boli hafi verið búinn til í byrjun 18. aldar,[2] en aðrir aðrir nálægt miðri þeirri öld.

**Rauði boli.** (Eptir Dr. Hallgrími Scheving í Reykjavík.) Þegar sèra Tómas Skúlason var á Grenjaðarstað (1786—1808), hèlt hann 2 vinnumenn; hèt

1. Sbr. Fjölni, 9 ár. Kh. 1847, 16. bls.
2. Dr. Maurers Isl. Volkss. 78. bls.

annar Bjarni, en hinn Marteinn. Þeir sváfu tveir einir frammi í skála í bænum. Bjarni var áður kvongaður, en hafði skilið við konuna, og af því hann fór að leggja ástarhug á aðra stúlku þar nálægt, vildi hann um fram alt losa sig alfarið við konu sína. Hann tók þá upp á því, að hann fèkk af kunnáttumanni einhverjum þar nyrðra, að kenna sèr að vekja upp draug, sem hann ætlaði að senda konu sinni, til að gera út af við hana. Bjarni fór síðan að vekja upp drauginn, og sleikti náfroðuna af vitum hans, eins og lög gera ráð fyrir; en að því búnu rèðst draugurinn á hann, og lauk svo þeirra viðskiptum, að draugurinn varð Bjarna yfirsterkari, og komst Bjarni með illan leik lífs undan honum. Svo fór því fjarri, að draugur þessi yrði Bjarna að þeim notum, sem hann hafði til ætlazt, að hann ásókti Bjarna bæði í vöku og svefni eptir þetta, svo Bjarni varð hálfsturlaður af öllu saman ráðlagi sínu; þess vegna varð þeim Marteini og honum opt ekki svefnsamt á nóttum í skálanum, því draugurinn var einatt að berja skálann utan, og halda fyrir þeim vöku, þángað til Bjarni fór ofan, og var þá úti leingri eða skemri tíma næturinnar. En ekkert vita menn um það, hvað þeim Bjarna hefir þá farið á milli, nema hvað hann sagði sjálfur frá, þegar hann kom inn aptur til Marteins. Þegar þetta hafði geingið um stund, fór Bjarni að verða hálfbrjálaður annað veifið, og í þeim vandræðum sínum leitaði hann enn til kunnáttumanns nokkurs, og bað hann að kenna sèr ráð við þessari ásókn draugsins. Maðurinn fèkk honum blað með einhverjum stöfum á, og segir honum, að hann skuli fara einhverja nótt út í kirkjuna á Grenjaðarstað, skrýðast öllum messuskrúða, og standa þar skrýddur fyrir altarinu um nóttina innan í gráðunum, og hreifa sig ekki þaðan, hvað sem fyrir hann beri, eða hverjir sem honum sýnist til sín tala, því þeir vilji ginna hann út fyrir gráðurnar, og þá væri úti um hann. Seinast sagði hann að mundi koma rauður boli ákaflega stór, og vilja slæma túngunni milli hans og altarisins, en þá lægi honum lífið á, að vera svo handlaginn að koma seðlinum á túngu bolans, og ef honum tækist það, mundi hann ekki þurfa að kvíða árásum draugsins framar. Eptir þetta fór Bjarni eina nótt út í kirkju, og fór að öllu, eins og fyrir hann var lagt. Kom þá til hans hver mannhríngurinn á fætur öðrum umhverfis gráðurnar, og þekti hann mjög fáa þeirra. Þeir ávörpuðu hann með ýmsu móti, og báðu hann með blíðu og stríðu að fara frá altarinu, og koma út fyrir til sín. Einn af þeim, sem Bjarni þóktist þekkja þar, var sèra Hallgrímur Scheving, afi Dr. Schevings, og vildi hann teygja Bjarna til sín, út fyrir gráðurnar. Hríngirnir hurfu burt hvor eptir annan, þegar þeir gátu eingu áorkað, með að koma Bjarna frá altarinu. Loksins kom til Bjarna rauði bolinn; hann teygði túnguna inn fyrir gráðurnar, og vildi bregða henni milli Bjarna og altarisins, eins og hann ætlaði að flensa hann út fyrir. En þá heppnaðist Bjarna að koma seðlinum á túngu hans, og hvarf boli þá í sama bili, enda varð Bjarni einkis var

eptir það í kirkjunni, og aldrei urðu síðan brögð að draugsaðsókninni að honum.

---

## 3. GREIN.

### FYLGJUR.

þess var getið í inngánginum fyrir draugasögunum, að fylgjur væru annaðhvort apturgaungur, eða uppvakníngar, og það eru þær eptir þeirri hugmynd sem nú er orðin almenn um fylgjur. En í fornöld var alt öðru máli að skipta, því þá koma fylgjur optast fram sem andlegar verur, enda eru þær annað veifið kallaðar dísir,[1] sem fylgi hverjum einstökum manni, verndi hann og farsæli, og liggur þá nærri að ímynda sèr, að fylgja sè sama og hamíngja,[2] gipta eða gæfa, auðna eða heill. En eins og hver einstakur maður átti fylgju, eins áttu og heilar ættir kynfylgjur eða ættarfylgjur,[3] sem virðast hafa veitt hverri ætt fyrir sig fulltíngi í andlegum og líkamlegum efnum. Bæði finnst það í fornsögum, að þegar sá var feigur, sem fylgju átti, eða um það leyti sem hann dó, leitaði fylgjan sèr staðfestu hjá einhverjum öðrum nákomnum ættíngja hans,[4] og eins hitt, að maður á deyanda degi gat gefið giptu sína og ættarinnar þeim, sem hann vildi eða þókti hennar maklegastur,[5] og enn eru þess dæmi, að lifandi menn og karskir leggi til með öðrum hamíngju sína, og jafn-velkristinn maður og Ólafur konúngur helgi.[6] Annars virðist það hafi verið almenn trú, að fylgjan dæi með hverjum manni, og er þaðan dregið það orðtak, að allar dísir eins sèu dauðar[7] (eða eins og nú er sagt öllu optar: „ekki eru allar dísir dauðar enn,“ þegar ekki er úti með einhvern), eða að dísir sèu orðnar þeim reiðar eða afundnar, sem er heillum horfinn.[8] Sumir er

1. Fms. II, 195. bls.

2. Hmkr. Holmiæ, 1817; II, c. LXVIII, 84. bls.

3. Völsúngasaga (1 Fas. I. Kh. 1829, 122. bls.), 4. kap.; þórðarsaga hreðu (Hóla útg. 1756, 70. bls.) VIII. cap.; Vatnsdæla saga (Leipzig 1860, 58. bls.), 36. kap.; Fms. II, 195. bls.

4. Helga-qviþa Hatíngja-skaþa (Sæmundar-Edda. Holmiæ 1818, 146.—147. bls.); Víga-Glúmssaga (Havniæ, 1786, 50. bls.), 9. cap.; Hallfreðar saga vaadræðaskálds, tilfærð í Gunnlaugssögu ormstúngu, Havniæ, 1775, X. cap., 130.—131. bls. í 88. neðanmálsgrein, og útgáfan í Leipzig 1860, 114. bls.

5. Laxdæla Havniæ, 1826, cap. 26., 102.—104. bls. Draumr þorsteins Síðu-Hallssonar aptan við sögu hans. Leipzig, 1859, 17. bls. (í Analecta norrœna) og Fornrit XXVII. Kh. 1860, 130—132. bls.

6. Sbr. fyrnefndan stað í Hmkr. II, 84. bls.

7. Fas. II, 47. bls. Njála, XLI. cap., 62. bls.

8. Sbr. Grimnismál, 53. v. og Atlamál. 27. v. í Sæmundar-eddu Stokkholms útg.

sagt að hafi átt fleiri en eina fylgju, og örlar þá opt á því, að önnur eða aðrar þeirra eru vondar, en hinar góðar.[1]

Um uppruna fylgnanna er sú skoðun orðin ofan á hjá þeim, sem um það efni hafa ritað,[2] að þær myndist af barns fylgjunum. Eins og kunnugt er, er belgur (hamur) eða himnur utan um barnið í móðurlífi. Í fæðíngunni rifnar sá belgur sundur utan af barninu,[3] en losnar ekki frá móðurinni, fyrr en skemri eða leingri tími er liðinn, frá því barnið er fætt. Þessar himnur eða belgur heitir enn fylgja eða barnsfylgja, og hefir ekki verið alllítil trú á henni til forna. Finnur prófessor segir og hiklaust, að fylgjan hafi verið álitin heilög, sem ekki mætti á nokkurn hátt misbjóða, og því hafi það tíðkazt, að grafa hana uudir dyraþröskuldi, þar sem móðirin geingi um á degi hverjum, þegar hún væri stigin af sæng. En sú var orsök til þess, að menn álitu fylgjuua helga, að menn ímynduðu sèr, að nokkur hluti af sál fóstursins yrði eptir í fylgjunni, þegar barnið fæddist, en kæmi síðan með henni. Ef nú barnsfylgjunni var fleygt út á víðaváng, þar sem bæði vondir andar komust að henni og gjörðu barninu með því mein, eða hrædýr átu hana upp, eða þá að hún var brend, varð barnið fylgjulaust; en það þókti jafn-ílt, og ef einhver var skuggalaus.[4] Þegar barnsfylgjan var grafin á þann hátt, sem fyrr var sagt, átti maðurinn fylgju (mannsfylgju) í einhvers þess dýrs líki, er honum var sjálfum líkast, bæði að skapferli og útliti, t. d. í bjarnarlíki eða arnar, úlfs, eða uxa, eða galtar, ljóns eða lèparda; svikulla manna fylgjur og hrekkvísra og galdramanna voru í tóu líki eða refkeiln, en fríðra kvenna í álptarlíki. Í öllum þessum myndum gjörðu fylgjur vart við sig á fyrri tímum, og boðuðu komu þeirra manna, er þær áttu.

Betur hefir sú trú við haldizt frá fornöldunum, að menn ímynda sèr, að sálin geti yfirgefið líkamann um stund, verið fyrir utan hann, en vitjað hans svo aptur; af þessu eru leidd mörg orð: vèr köllum að maður sèr hamslaus og

1. Fms. II, 195—196. bls. og draumkonur Gísla Súrssonar í sögu hans (Kh. 1849) 41., 44.—45., 58.—59., 63.—65. bls.

2. Um það hafa bezt ritað Prófessorarnir Finnur Magnússon í Eddalæren, 4. Bd. Kh. 1826 35.—49. bls. og Dr. K. Maurer í Bekerung des norwegischen Stammes zum Christenthume. II, 67.—71. og 402. bls., og í Isl. Volkss. 79.—80. og 82.—83. bls.

3. Það var, og er jafnvel enn, trú, að það yrði einstakur lánsmaður, sem „fæddist í sigurkufli." En sigurkufl er himna ein, sem er næst barninu og utan um það alt niður til miðs, eða leingur, þegar það fæðist, og er hún alt annað en belgur sá, sem barnið liggur í í móðurlífi, sem springur eða er spreingdur utan af því í fæðíngunni. Af því það ber svo sjaldan við, að börn fæðist í sigurkufli, hefir því verið trúað, að sá hinn sami ætti að verða skygn, aldrei meint við gjörnínga og bera sigur úr hverju máli, ef hann bæri á sèr sigurkuflinn hertan (Eddalæren, IV, 141. bls.); og enn er það trú, að það barn, sem sigurkuflinn er feinginn hertur, því honum er ávalt haldið til haga, til að leika sèr að, eptir að það er komið nokkuð til vits og ára, og rifi það hann ekki eða skemmi, þá verði það áreiðanlega lánsmaður. Eptir sögn Guðríðar, ljósmóður í Reykjavík.)

4. Sbr. Svartiskóli í sögunum af Sæmundi fróða.

hamstola af ákafa eður æðifenginni reiði; hamhleypa er kallaður ákafur maður og skjótvirkur; hamur er vestanlands kölluð kona sem er geðvargur, óhemja, og annað því um líkt. Alkunn eru og orðiu, að hamast, skipta hömum og enn fleiri. En af því þetta er skyldast hamförunum fornu, þykir bezt við eiga, að setja hèr þá einu sögu, sem mèr er kunnug að til sè þessa efnis.

**Dalakúturinn.** (Eptir sögn gamallar konu í Borgarfirði.) Einu sinni voru margir menn á ferð. Þeir tjölduðu á sunnudagsmorgun á fögrum velli grænum. Veður var bjart og fagurt. Ferðamennirnir lögðust niður að sofa, og lágu í röð í tjaldinu. Sá, sem fremstur lá við dyrnar á tjaldinu, gat ekki sofnað, og horfði hann til og frá um tjaldið. Sá hann þá bláleitan gufuhnoðra uppi yfir manninum, sem innstur lá. Gufuhnoðrinn leið fram eptir tjaldinu og út. Maðurinn vildi vita, hvað þetta gæti verið, og fór á eptir gufunni. Hún leið hægt og hægt yfir völlinn, og kom loks þar að, sem lá skininn og gamall hrosshaus. Var hann fullur af maðkaflugum, og suðuðu þær mjög. Gufan leið inn í hrosshausinn. Að góðum tíma liðnum kom hún út aptur. Leið hún þá enn eptir vellinum, þángað til hún kom að dálítilli lækjarsprænu, sem rann um völlinn. Hún fór niður með læknum, og sýndist manninum, eins og hún væri að leitast við, að komast yfir um hann. Maðurinn hèlt á svipunni sinni, og leggur hann hana á lækinn; því hann var ekki breiðari en svo, að skaptið náði yfir um hann. Fór þá gufuhnoðrinn út á svipuskaptið, og leið á því yfir lækinn. Leið hann svo á fram um hríð, og kom loks að þúfu einni á vellinum. Þar hvarf gufan ofan í þúfuna. Maðurinn stóð skamt frá, og beið þess, að gufan kæmi aptur. Hún kom og bráðum. Leið hún þá sama veg til baka, sem hún var komin. Maðurinn lagði svipuna sína á lækinn, og fór gufan á henni yfir um, eins og áður. Fór hún nú beint heim að tjaldinu, og nam ekki staðar, fyrr en hún var komin upp yfir innsta manninn í tjaldinu. Þar hvarf hún. Lagðist þá maðurinn niður, og sofnaði.

Að áliðnum degi risu ferðamennirnir upp, og tóku hesta sína. Töluðu þeir þá margt á meðan þeir voru að leggja upp. Meðal annars segir sá, sem innstur hafði verið í tjaldinu: „Eg vildi, eg ætti það, sem mig dreymdi í dag.“ „Hvað var það, og hvað dreymdi þig?“ segir sá, sem gufuna hafði sèð. Hinn segir: „Eg þóktist gánga hèrna út um völlinn. Kom eg þá að húsi einu fallegu og stóru. Þar var fjöldi manna saman kominn, og súngu þeir og spiluðu með allramestu kátínu og gleði. Eg var býsna leingi inni í húsinu. En þegar eg kom út, gekk eg leingi leingi um slètta velli og fagra. Kom eg þá að móðu einni stórri, sem eg leitaðist leingi við að komast yfir, en gat ekki. Þá sá eg hvar kom ógnarlega stór risi. Hann hafði geysistórt trè í hendinni, sem hann lagði yfir móðuna, og fór eg á því yfir um hana. Eg gekk enn leingi leingi, þángað til eg kom að stórum haug. Haugurinn var opinn, og gekk eg þá inn í hann. Þar fann eg ekkert

annað, en stóra tunnu fulla með peninga. Þar var eg ósköp leingi að skoða peníngana; því slíka hrúgu hafði eg aldrei fyrr sèð. Síðan fór eg út, og gekk sama veg til baka, sem eg var kominn. Eg kom að móðunni, og þá kom líka risinn með trèð, og lagði það yfir um hana. Komst eg svo yfir á trènu, og fór þá heim aptur í tjaldið." Maðurinn, sem elt hafði gufuna, fór að verða kátur með sjálfum sèr, og segir við hinn manninn, sem dreymt hafði: „Komdu, lagsmaður, við skulum snöggvast sækja peníngana." Hinn fór að hlæa, og hugsaði, að hann væri ekki með öllum mjalla, en fór þó. Gánga þeir nú sama veg, og gufan hafði farið. Koma þeir að þúfunni, og grafa hana upp. Þar fundu þeir kút fullan af peníngum. Fóru þeir síðan aptur til lagsmanna sinna, og sögðu þeim upp alla sögu um drauminn og gufuna, og sýndu þeim dalakútinn.[1]

Þessu næst er að víkja á leifar þar, sem eru eptir af hinni fornu trú á fylgjur, sem reyndar er ekki nema lítill urmull hjá því, sem var. Veldur það því, að nú er farið mjög að tíðkast að brenna barnsfylgjuna, svo að eptir því, sem fyrr er sagt, ættu þeir allir að verða fylgjulausir, enda mun sú skoðun vera farin að ryðja sèr til rúms, að menn vilji, ef til vill, helzt einga fylgju hafa, og að það þyki nú alt að því eins ílt, að eiga nokkra, en ódæði að eiga illa, eins og áður þókti að eiga einga; því nú er hætt að skoða mannsfylgjuna sem verndaranda mannsins eða hamíngju hans, heldur miklu fremur sem óþægilegan áböggul, ef hún er ill, en annars er hún látin liggja á milli hluta, ef hún er meinlaus og gagnlaus, og þó þá kölluð góð fylgja. En ávalt loðir það við, að vandfarið þykir með barnsfylgjuna eptir fæðínguna, og því hefir verið tekið upp á því, að brenna hana, af því að hvort sem hún hefir verið grafin niður eða henni fleygt út á víðaváng, þókti eigi ugglaust um, að mannsfylgjan yrði ill og óþægileg. Það var og er enn trú, að í þess kvikindis mynd, sem fyrst gekk þar fyrir, flaug eða skreið, sem barnsfylgjan var grafin, ef það var utan bæar, ætti maðurinn að eiga fylgju á eptir. Það hefir sumsè tíðkazt á ýmsum stöðum, að menn hafa grafið barnsfylgjuna ekki einúngis innan bæar, sem áður segir, heldur og utan bæar, og átti að leggja þar stein yfir, sem hún var grafin; nú átti konan, fyrst er hún steig af sæng, að stíga á þenna stein, og gánga síðan þrysvar í kríngum bæinn eða húsagarðinn.[2]

Ekki varð þá heldur hóti óhultara fyrir vondri fylgju, að fleygja barnsfylgjunni út á víðaváng, sem og hefir tíðkazt; því þá flyktust að henni hrædýr, rifu hana í sig og átu, hvert, sem fyrst bar að henni, því dýrum á að þykja barnsfylgjan lostæt mjög. Það dýr, sem fylgjuna át, átti síðan að fylgja þeim, sem barnsfylgjuna átti upphaflega, og urðu það optast hundar

1. Sbr. Dr. Maurers Isl. Volkss. 81.—82. bls.

2. Þetta hefir Dr. Maurer, Isl. Volkss. 82. bls. eptir séra Ólafi Johnsen á Stað á Reykjanesi.

eða tóur, eða kettir eða hræfuglar,[1] völskur eða mýs. Ekki fór betur, ef barnsfylgjunni var snarað í sjó, þar sem illyrmi var fyrir, og ófreskjur eða sjóskrýmsli gleyptu hana; því þá fylgdu þau síðan manninum. Ýmsar slíkar fylgjur hafa skygnir menn sèð, og aðra dreymt þær bæði að fornu og nýju í ýmsra dýra líki, og eru þær taldar sumar illar, en sumar góðar. En það er undir mynd fylgjunnar komið, hvort hún er álitin ill eða góð. Flestar mannafylgjur, sem eru í dýralíki nokkru, þykja illar, nema í bjarnarmynd, og eymir það án efa eptir af hinni fornu fylgjutrú. Þar að auki er sagt, að þeir eigi kvikindi fyrir fylgjur, eða skrymsli, sem eru af óhræsis-ættum. Síðan það fór að tíðkast að brenna barnsfylgjuna, fylgir þeim mönnum ljós eða stjarna, logi eða glampi, og þykja það alt góðar fylgjur, nema Urðarmáninn. Opt þykjast menn enn verða varir við fylgjur, þótt ekki sè skygnir menn, nè þá dreymi fyrir gestakomu; heldur verður þeirra vart á þann hátt, að menn bæði finna einhverja ókennilega lykt, líkasta því, sem væri af súru smjöri, og heitir það **fylgjulykt**, og eins, ef svefn og drúngi sækir á menn á óvenjulegum tíma dagsins, er það kallað **aðsókn**, en aðsóknir, eru, eins og fylgjurnar, ýmist góðar eða illar, og því er sagt, að sá og sá „sæki vel eða illa að." Ef fylgjulyktin finnst, þykir þess vera víst að vænta, að fylgja nokkur sè í nánd, og er þá ætíð varlegra að skirpa í allar áttir, fússa og sveia, því þá hrekkur fylgjan frá, ef hún er ill.

Þá er það enn eitt athugavert við fylgjur, að æfinlega verður þeirra vart á undan þeim, er þær á; en ef fylgjan fer eptir honum, má gánga að því vísu, að hann er feigur. Um dáins-fylgju er það að segja, að **svipur** er eptir hvern dauðan mann; kalla sumir það fylgju, og segja, að það sè alt eitt. Aðrir segja, að svipir fylgi dauðum mönnum, en fylgjur lifandi, og er það líkara, að svo sè; því, eins og áður er sagt, eru fylgjur svo ýmislega á sig komnar, en svipirnar eru nokkurs konar vofur eða andar, ljósgráir að lit, optast aflángir og strókmyndaðir; þeir eru á síféldu reiki, því þeir líða þángað, sem loptstraumurinn ber þá. Svipurinn sèst ýmist þar, sem maðurinn deyr, eða annarstaðar; en aldrei nema í myrkri; eingum gjörir hann manni mein. Þetta kalla sumir dauðs manns fylgju, en aðrir dáins-fylgju.

Eins óvíst og það er, hvort svipir eigi skylt við mannafylgjur, eins víst er það, að nú er þegar út kulnuð sú trú, að fylgjur sèu leingur hamíngjudísir manna, enda skylja menn optast við fylgjur drauga, sem verða þeim, er þær fylgja, verstu meinvættir, og nálega til allrar óhamíngju. Slíkar fylgjur, eða fylgidraugar eru eptir eðli sínu, eins og áður er sagt,[2] annaðhvort uppvakníngar, eða þeir menn, sem hafa látizt af helstríði, og heipt við aðra, sem rís af rofnum einkamálum, eða öðru slíku, geingið svo aptur, og fylgja þeim og ætt þeirra, og hafa drepið bæði menn og málleysíngja,

1. Sbr. **Nátthrafninn** seinna.
2. Sjá inngáng fyrir öðrum flokki, og 3. grein hèr að framan.

og því er ekki kyn, þó mönnum sè nú orðið lítt gefið um fylgjur. Það er sagt, að maður einn væri í Mýrasýslu, sem móðir hans fylgdi; en af því svo margt ílt þókti af henni standa, þar sem hann kom, gátu hèraðsmenn að lokunum ekki hýst hann. — Önnur sögn er það, og úr sama hèraði, að þar var maður, sem Magnús hèt. Hann var bæði holdsveikur (limafallssjúkur) mjög, og þar til illhryssíngur. Einu sinni var hann fluttur til læknis, og var komið með hann að Borg á Mýrum, og lofað að vera nætursakir. Þaðan var farið með hann að Ánabrekku, og fèll þá af honum annar fóturinn, og dó hann þá skömmu síðar. Prófastskonuna, sem þá var á Borg, og hefir sagt frá þessari sögu, hrylti við honum. Næstu nótt dreymdi hana, að hann kæmi þángað aptur, enda var komið með fótinn af honum til kirkjunnar daginn eptir, en það átti að vera fylgja Magnúsar, sem bar fyrir hana í draumi.[1]

Þessu næst munum vèr telja nokkra af draugum þeim, sem fylgt hafa bæði ættum og einstökum mönnum og jafnvel bæum eða bygðarlögum, en þótt þeir sèu alt annað en fylgjur fornmanna, og þó vèr kunnum frá flestum þeirra fátt að segja, og ekki meira, en nöfn sumra, þykir þó betur hæfa, að telja þá upp með nafni, því þá er hægra fyrir aðra, að grafast eptir þeim á eptir. Þessir draugar eru aðrir kvennkyns, en hinir karlkyns; en því tel eg kvenndraugana fyrst, að það er eins og enn meira kveði að þeim, en karldraugunum. Eins og draugar þessir eru ólíkir að eðli, eins höfðu þeir ólíkan búníng: karldraugarnir voru optast í mórauðri peysu eða mussu, með barðastóran hatt koll-lágan á höfði eða lambhúshettu og „heingdu smala,“ þ. e. stúngu öllum hausnum út um hettu-opið, og lètu hettukollinn skúta aptur á bakið; sumir þeirra geingu og við broddstaf. Kvenndraugarnir voru með mórauð skaut á höfði, gamla kvennhöfuð-búnínginn íslenzka, sem er eini og rètti þjóðbúníngur kvenna. En það bar á milli, að kvenndraugar lètu faldkrók sinn beygjast aptur, eða þær lètu skautið lafa niður á milli herðanna,[2] þar sem konur höfðu faldinn frambeygðan. Opt voru þær í rauðum sokkum, og sugu fíngurna. Ekki er annað talið athugavert um fatnað drauga þessara. Kvenndraugarnir hafa flestallir feingið nafn af búníngnum og einnig margir karldraugarnir. Draga kvenndraugarnir nafn að höfuðbúnaði sínum, og eru kallaðar Skottur, af því að skautið lafir aptur á bakið, eins og skott, en karldraugarnir heita allmargir Mórar, af mórauðu peysunni eða úlpunni, sem þeir eiga að vera í, þó einnig heiti þeir ymsum öðrum nöfnum s. d. Lalli og Goggur, auk keníngarnafna.

**„Þeir koma þá fjórir.“** Þegar móðir sèra Jóns Norðmanns var á Bægisá, var þar önnur stúlka, sem Guðrún hèt og var Jónsdóttir. Hún

1. Þessar 2 frásagnir eru teknar eptir Dr. Maurers Isl. Volkss. 83—87 bls.
2. Sbr. söguna um Höfðabrekku-Jóku á eptir.

var skygn eða þóktist vera það, og sagði opt móður Norðmanns frá því, sem hún sá. Einu sinni vorn þær báðar úti í fjósi. Þá sagði Guðrún: „Já, já, þeir koma þá fjórir; en eingan þeirra þekki eg." Hinn kvennmaðurinn bað hana að láta eingan heyra þessa vitleysu. Guðrún sagði, þær skyldu bíða við, fjórir menn hefðu nú geingið fyrir fjósdyrnar. Daginn eptir var hláku-leysíng og vonzkuveður, og hugsaði móðir Norðmanns gott til, að geta rekið á Guðrúnu stampinn, því einginn mundi koma; og þegar komið var kvöld, sagði hún við hana: „Ekki ætla þeir nú að koma snemma, þeir arna fjórir." „Bíðum við; ætli þeir sèu ekki komnir nærri," svaraði Guðrún, „þeir komu núna rètt inn, fjórir þeir sömu og í gærkvöldi." Litlu síðar var barið, og voru þá komnir fjórir menn innan úr Kræklíngahlíð, er aldrei höfðu komið fyrr að Bægisá.

**Galtardalstóa.** Öðru sinni var það, að Guðrún sagði, að einhver mundi koma, og tryði hún því, þó það yrði einhver frá Galtardal, vestan af Fellströnd. Móðir Jóns Norðmanns spurði, hvað hún sæi nú. Guðrún sagði það væri mórauð tóa. Á þessari tóu stóð svo, að maður nokkur vildi eiga Margrètu Bogadóttur, sem Jón prestur Þorláksson átti þar á eptir, en skildi við, þegar hann fluttist norður, og fèkk maðurinn hennar ekki. Sagðist hann þá skyldi sjá svo um, að hún hefði ekki mikla ánægju af hjónabandinu, enda urðu samfarir hennar og Jóns Þorlákssonar hvorki góðar nè lángar.[1] Kendu menn það sendíngu frá manni þessum, sem síðan fylgdi Margrètu, en það var tóa mórauð, sem menn ætluðu hann hefði sent henni, er átti að spilla lund hennar, og var hún kölluð „Galtardalstóa." Þegar hinn kvennmaðurinn heyrði þetta, hljóp hún til prestsins (sèra Jóns Þorlákssonar), og sagði honum frá. „Kannske það sè tóan hennar Margrètar Bogadóttur," sagði sèra Jón, og að sèr væri mjög illa við þá ólukkans tóu. Um nóttina eða daginn eptir kom maður að vestan, og færði sèra Jóni fiskahest frá Margrètu konu hans.[2]

**Anna á Bessastöðum.** (Eptir sögn Dr. Gríms Thomsens.) Spottakorn frá bænum á Bessastöðum er skipalægi og heitir í Skansinum. Þar lágu 3 skipshafnir til útróðra og kómu sjaldan heim, en vinnukona, sem hèt Anna, var þar og heitti þeim kaffe á morgnana áður en þeir rèru, og annað þesskonar. Einn af formönnunum hèt Eiríkur, sem lengi var vinnumaður á Bessastöðum, forneskjumaður í lund. Einn morgin fyrir dag kom Anna út og ætlaði að fara að heita kaffe handa piltunum. Hún sá þá 16 mennina koma á móti sèr alla sjóvota. Henni þótti þetta kynlegt og kallaði á þá: „eruð þið lentir, piltar?" en þeir svöruðu engu. Síðan fór Anna inn; og þar eru þá allir piltarnir órónir og óskinnklæddir. Hún segir þá við þá: „róið þið

1. Sbr. Ljóðabók Jóns Þorlákssonar. II. Kh. 1843. XXVIII og XXX. bls.
2. Báðar þessar sögur eru teknar eptir handriti sèra Jóns Norðmanns og frásögn móður hans.

ekki í dag, piltar, eg hefi sèð fylgjurnar ykkar." En þeir hlóu að henni og rèru allar 3 skipshafnir. Um daginn kom Anna heim að Bessastöðum og sagði það mundi ekki fara vel fyrir piltunum í dag, og sagði frá hvað hún hafði sèð, en fólkið bað hana, að vera ekki að bullinu því arna. En um daginn gerði manndrápsbyl, og týndust margar skipshafnir, og þar á meðal þau tvö skip, sem Anna sá fylgjur mannanna; en Eirekur komst af og bjargaði mörgum skipum þann dag. Anna sagði þetta um daginn áður en veðrið brast á, svo þessi saga hefir það fram yfir aðrar slíkar að hún er sönn.

**Móhúsa-Skotta.** (Eptir sögn af Eyrarbakka.) Móhús er kot eitt í Stokkseyrarhverfi á Eyrarbakka, kallað Vestri-Móhús. Þar bjó leingi og mestallan búskap sinn Jón ríki Þórðarson, sem var eins nafntogaður á suðurlandi fyrir auðlegð sína, eins og Böggustaða-Jón á norðurlandi. Jón var bláfátækur með fyrsta, en efldist ótrúlega af litlum efnum, og komst svo vel í tána, að sagt var hann keypti jörð með ári, þegar áleið fyrir honum. Að sumum þeim jörðum komst hann með lèttu verði. Jón bjó fyrst á Refstokki hjá Ferjunesi (Óseyrarnesi); er það kot nú í eyði; þar kom til hans únglíngsstúlka og beiddist gistíngar, en var úthýst. Varð hún svo úti um nóttina og gekk aptur, og fylgdi Jóni leingi síðan, og gjörði honum ýmsar skráveifur. Hún var kölluð Skotta, og eptir að Jón flutti að Móhúsum vestri, spilti hún öllu fyrir honum, er hún gat, og drap fènað bæði fyrir honum og öðrum, með illum aðsóknum á undan Jóni. Þar með var hún honum sjálfum svo nærgaungul, að hún nagaði sundur hverja sokkana eptir aðra á hásinunum á honum, og þveingina í skóm hans, og var það í mæli, að þó hann færi í nýa sokka að morgni, væri þeir í sundur að kvöldi. Jafnan hafði Jón spannarlángan spotta í skyrtukragaknöppum sínum, og var sagt, að hann gjörði það til þess, að Skotta gæti því síður kyrkt hann; en til þess leitaði hún einatt. Það var og eignað Skottu, að hún hefði ært mann um hábjartan dag í Ranakoti í Stokkseyrarhverfi, og fannst hann kyrktur þar í brunni einum, er að var komið. Þó kastaði aldrei tólfunum, fyrr en hún tók saman við Sels-Móra, sem síðar verður nefndur. Þá var það einn vetur, er þau Móri og Skotta höfðu lagt lag sitt saman, að maður sá, er Tómás hèt, í Norðurkoti á Eyrarbakka, fór fyrir jólin austur í Stokkseyrarhverfi, og keypti sèr þar hángiketskrof til hátíðarinnar, og fór á stað úr hverfinu með það heimleiðis undir dagsetur. En um morguninn fannst hann dauður, allur sundurtættur, blár og blóðugur, í Arnhólma, rètt fyrir utan Stokkseyrarhverfi, skamt þaðan sem Móri hafði orðið úti upphaflega. Eptir það sáu menn þrjá draugana á ferð, þar sem áður voru ekki nema þau tvö hjónaleysin, Móri og Skotta, og töldu menn víst, að Tómás þessi hefði gjörzt fèlagi þeirra. Þá urðu svo rammir reimleikar, að eingum var fært að fara, úr því hálfrokkið var á kvöldin, frá Stokkseyri

út á Bakka, eða af Bakkanum og austur þángað, án þess um hann væri vilt, eða hann yrði fyrir bekkíngum þessara þriggja fylgifiska. Móhúsa-Jón fann sèr skyldast að skerast í leikinn, að því er Skottu snerti, sem allajafna þókti verst þeirra þriggja. Hann skrifaði því þenna vetur Jóni bónda Magnússyni á þykkvabæarklaustri, sem orð lèk á, að vissi jafnlángt nefi sínu, og bauð honum 30 ríkisdali til að koma af reimleikum á Eyrarbakka, því honum var farinn að standa stuggur af þeim. Á lestunum, þegar Jón kom að austan, er það sagt, að Móhúsa-Jón hafi greitt honum helmíng verðlaunanna fyrir fram. Í þeirri ferð er það haft fyrir satt að Klaustur-Jón hafi fyrirkomið þeim báðum, Skottu og Tómási, því aldrei varð þeirra vart eptir það á Eyrarbakka. Segja þá sumir, að Jón hafi farið með Skottu austur með sèr, en nær hefði hún drekt honum og öllum skipverjum, er í það sinn voru fluttir yfir þjórsá á Sandhólaferju. En Jón kvað Skottu niður fyrir austan. En af því Klaustur-Jón fyrirkom ekki Sels-Móra, vildi Móhúsa-Jón ekki greiða honum þann helmíng launanna, sem eptir stóð. Klaustur-Jón sagðist hvergi hafa fundið hann, og þar með mætti nafna sinn einu gilda, hvað um hann væri, þar sem hann væri óriðinn við hann. Móhúsa-Jón lèt hann alt um það eingan skildíng hafa framar, og skildu þeir nafnar við það, ekki meir en sáttir.

**Hvítárvalla-Skotta.** (Eptir sögn Borgfirðinga 1860.) Sigurður er maður nefndur; hann var Jónsson, ættaður frá Einarsnesi í Borgarhrepp; hann bjó á Hvítárvöllum í Borgarfirði. Sigurður var sýslumaður í Borgarfjarðarsýslu (1704—1738, eða þó heldur til 1741). Kona Sigurðar sýslumanns hèt Ólöf; hún var dóttir Jóns Magnússonar eldra á Eyri í Seyðisfirði vestra, og Íngibjargar, dóttur Páls prests Bjarnarsonar í Selárdal í Barðastrandarsýslu (1645—1706, og prófasts í sömu sýslu um 50 ár, eða leingur). Kona Páls prófasts, móðir Íngibjargar, hèt Helga, og var Haldórsdóttir, sú er varð fyrir galdra ásóknunum 1669 og Espólín getur um að „hafi verið beðið fyrir í guðs söfnuðum þar vestra.“[1] Ólöf Jónsdóttir, kona Sigurðar sýslumanns, hafði alizt upp vestra hjá foreldrum sínum; hún var kona væn og sköruleg og gjörðust margir þar vestra til að biðja hennar; en Sigurður Jónsson varð hlutskarpastur og fèkk hennar. Það má að líkindum ráða, að biðlunum hafi vaxið hatur til þeirra hjóna, Sigurðar og Ólafar, en eingar eru ljósar sagnir frá því. En almæli er, að einhver af hinum fyrri biðlum Ólafar hafi vakið upp draug og sent henni; mælti hann svo um, að hann skyldi fylgja Ólöfu. Þessi draugur var karlkyns, og var hann kallaður Stormhöttur. Hann fylgdi Ólöfu nokkurn tíma og var allfrægur. Ætlandi er, að Sigurði hafi eigi verið vel í þokka við þenna fylgisvein konu sinnar, og leið ei lángt um, áður hann fèkk af kunnáttumönnum að koma honum fyrir; var hann settur niður í Heggstaðaásum, skamt suð-

1. Sbr. Árb. Esp. VII, 55—57. bls.

austur frá Hvitárvöllum, og kom aldrei upp síðan, en jafnan þykir óhreint í ásum þeim.[1]

En er það frèttist vestur, að búið væri að ráða Störmhött af dögum, þóktust þeir, er höfðu sent hann, grátt leiknir og hugðust að senda Sigurði sjálfum sendíngu, er honum skyldi að fullu ríða. Vöktu þeir þá upp kvennmann, mögnuðu hana og sendu til ófarnaðar Sigurði. Eitt sinn var Sigurður á ferð við annan mann fyrir vestan Hvítá. Þá sjá þeir, að eptir þeim rennur mórauð tóa. En er hún nálgast þá, þykir þeim tóa sú nokkuð frábrugðin, því hún ávarpar þá og spyr, hvar Sigurðar á Hvítárvöllum sè að leita. Sýslumann grunar, hvað í efni muni vera og heldur að ekki sè lakara að láta hana þreyta sig dálítið og segir henni því, að Sigurður sýslumaður sè niðri á Álptanesi. Tóa snýr þá af leið og bregður sèr þángað, en sýslumaður hèlt á fram, sem af tók, heim að Hvítárvöllum, því hann átti skamt heim.[2] En er hann var öldúngis nýkominn heim og var að fara úr kjólnum, var ráðizt á hann allóþyrmilega, og var það niðri á stofugólfi, því hann var ekki búinn við glímu í það sinn. Sigurður var hið mesta karlmenni, en þó þurfti hann hjálpar ámóti þessum fjanda. Loksins gat hann losað sig við hana, en ekki gat hann yfirbugað hana, svo að hún fylgdi honum og ætt hans, og fylgir hún niðjum hans enn í dag. Þá er hún glímdi við Sigurð, var hún búin að kasta tóuhamnum, og var þá í konulíki. Búníngi hennar er svo lýst, að hún var í belghempu svartri með gamaldags fald á höfði, en faldhornið lafði aptur á hnakkann, sem skott væri; dró hún nafn af því og var kölluð Skotta. En sökum þess hún var send að Hvítárvöllum, var hún Hvítárvalla-Skotta kölluð, og er það nafn æðialment, en síðar fèkk hún önnur nöfn, er enn mun sagt verða.

Enn er önnur sögn um það, hvar Skotta hafi hitt Sigurð. Er sagt, að hún hafi fyrst komið að Hvítárvöllum, og spurt að Sigurði. Henni var sagt hann væri uppi í Stafholti. Hún kom á glugga í Stafholti, þar sem Sigurður svaf inni, og spurði eptir Sigurði á Hvítárvöllum. Sigurður gegndi sjálfur og kvað hann vera frammi í Reykholti; fór hún þegar.

1. Aðrir segja svo frá afdrifum Stormhattar, að Ólöf hafi komið út fyrst, þegar hann kom að Hvítárvöllum, og mætti honum á hlaðinu. En þegar hún vissi erindi hans, hafi hún sagt við hann: „Farðu til andskotans norður á heygarð,“ og sè það sami draugurinn, sem liggi þar á heynm, svo þau rjúfi ekki (sbr. Heygarðsdraugurinn á Hvítárvöllum).

2. Önnur sögn er það, að Skotta hafi náð Sigurði við ferjuna yfir Hvítá; þá var með Sigurði vinnumaður hans einn, er bæði var ötull og skygn. Hann sá það, að Skotta ætlaði upp í bátinn; en með því hann þóktist vita, hvað vera mundi, þrífur hann hnakkinn sýslumannsins og fleygir í hana, og halda þeir svo suður yfir ána hið bráðasta. En Skotta tók hnakkinn og reið klofvega í honum á vestri bakka Hvítár, þó hann væri latur, uns þar bar að annan mann, sem ekki sá hana, en þekti hnakk sýslumannsins og hirti hann. Síðan var hann ferjaður suður yfir, og færði Sigurði hnakkinn, og sagði, að hann mundi hafa gleymzt fyrir vestan á. En það tækifæri notaði Skotta, til að komast suður yfir ána, svo einginn varð var við, sem á ferjunni voru.

Sigurður lèt taka hest sinn hið skjótasta og reið skemstu leið heim. Var það mjög jafnsnemma, að Sigurður reið i hlað að norðan, og Skotta kom að austan og var hún þá búin að fara að Reykholti og komin þaðan aptur.

Ekki verður hèr greinilega sagt frá spillvirkjum Skottu, á meðan hún fylgdi Sigurði sýslumanni, en mjög þókti hann jafnan sækja illa að, þar sem hann kom; var það opt, að stórgripir, kýr eða hestar, lágu dauðir eða lamaðir, og eignuðu menn það Skottu; var og Sigurður opt að bæta fyrir hana.

Þegar Sigurður og kona hans voru orðin aldurhnigin, slepti hann sýslustörfum. Þá bar það við eina nótt eptir þorrann (1751) að bærinn á Hvítárvöllum brann, og er mælt, það yrði af tóbakspípu eldi. Páll, sonur þeirra hjóna, gat bjargað þeim úr eldinum, en brann inni sjálfur með 5 mönnum öðrum. Bruna þenna eignuðu sumir óbænum Guðríðar Hinriksdóttur, systur þeirra bræðra Ólafs og Sigurðar Hinrikssona, er voru vinnumenn á Hvítárvöllum og dóu þar, sökum þess að Sigurður sýslumaður hefði ei viljað unna henni arfs eptir þá; en hann hafði tekið undir sig jörðina Hvítárvelli. Aðrir eignuðu brunann Skottu. Eptir brunann fór Sigurður vestur að Setbergi til frænda sinna.

Synir Sigurðar sýslumanns og Ólafar voru Páll, er inni brann á Hvítárvöllum og Jón prestur á Hvammi í Norðurárdal (1752 † 1780). Hann átti fyrir konu Kristínu Guðmundsdóttur, systur frú Þórunnar og Eggerts á Álptanesi. Sèra Jón Sigurðsson og Kristín kona hans áttu dóttur, er Ragnheiður hèt; hún giptist Jóni Jónssyni yngra, presti að Gilsbakka (1771 † 1796). Þeirra börn voru, sèra Jón á Bergsstöðum (1826 † 1838 eða 1839), húsfrúrnar Kristín í Víðidalstúngu og Halla, fyrri kona Jóns á Leirá. Ragnheiður Jónsdóttir misti mann sinn og giptist aptur Einari Guðbrandssyni aðstoðarpresti í Hvammi 1801, og bjuggu þau að Brekku í Norðurárdal. Þá var prestur í Hvammi Þórður Þorsteinsson.

Litlar eru sagnir um Skottu á þessu tímabili, en þó fylgdi hún þeim Gilsbakkahjónum, og þóktust menn sjá hana trítla á undan sèra Jóni, þegar hann reið á annexíuna að Síðumúla; var hún jafnan komin í tún í Síðumúla, þegar sást til prests á Háafellsmelum, en Háafell er fremsti bær í Síðumúlasókn.

Eptir að húsfrú Ragnheiður giptist sèra Einari, og þau fluttu að Brekku, var hún kölluð Brekku-Skotta. Ekki eru talin mörg afreksverk hennar þar, þó var henni eignað, að hún hefði drepið vinnumann á Brekku, er Gunnar hèt; gekk hann í fjós um kvöld; annaðhvort var hann að bera vatn að fjósamanni, eða vita, hvernig liði í fjósinu; en hvað sem um það var, fannst hann dauður í fjós-ránghalanum, en fjósamanninum heyrðist, sem hörð húð væri dregin í sama bili eptir fjósmæninum. Eitt sinn var Þórður prestur í Hvammi á reið um sókn sína; hafði hann farið niður í dal að erindum sínum, og lá leið hans um bakka þá, er liggja á milli bæanna

Brekku og Hraunsnefs, og kallast Pálseingi. Prestur sèr þá, hvar Skotta kemur að honum. Hefir hún eingar sveiflur á því, nema sezt á bak fyrir aptan hann. Prestur var maður einbeittur og lèt sèr ekki bilt við verða. Rennir hann sèr hið skjótasta af baki, sker á gjörðina og strýkur hnakkinn aptur af. Því næst fer prestur á bak aptur og reið berbakt heim til sín; en Skotta sást sitja í hnakknum leingi um daginn og barði fótastokkinn.

Eptir dauða húsfrú Ragnheiðar fylgdi Skotta þeim börnum hennar. Kristín dóttir hennar átti Jón stúdent Friðriksson Thorarensen í Víðidalstúngu. Honum þókti Skotta einginn þokkagestur í ætt sinni, og vildi því verða laus við hana. Skotta var þá gömul orðin og geingin mjög að knjám, sem von var, því fáir höfðu orðið til að skæða hana. Bar þá saman fundum þeirra, er Jón kom úr suðurferð og reið norður Arnarvatnsheiði. Hann spurði Skottu, á hvaða ferð hún væri, en hún kvaðst ætla að finna konu hans. En með því Skotta var orðin sárfætt, og Jón vildi verða laus við hana, samdist svo með þeim, að hún skyldi láta ætt hans í friði, en hann skyldi gefa henni á fæturna. Fór hann þá úr rammgjörvum reiðstigvèlum járnuðum, og kastaði þeim til hennar, en hún fór í þegar og hvarf síðan. Ekki hafa menn neinar sögur um, að hún hafi fylgt Jóni presti á Bergsstöðum, en þó virðist svo hafa verið, því álitið er, að hún fylgi Jónasi syni hans, sem nú er bóndi í Arnarholti í Stafholtstúngum, og þykir hann jafnan sækja illa að, þegar hann kemur einhverstaðar. Eptir það þau skildu Jón í Víðidalstúngu og Skotta, er það sögn manna, að hún hafi helzt haldið sèr að Höllu, fyrri konu Jóns á Leirá, enda gjörði hún honum ýmsar glettur, drap fyrir honum gripi og annað þesskonar. Jón var fyrstu ár búskapar síns í Kalmannstúngu í Hvítársíðu. Þaðan fluttist hann að Leirá; var Skotta eptir það kölluð Leirár-Skotta og því nafni heldur hún enn og fylgir fyrri konu börnum Jóns á Leirá. Lítið er að segja um afrek hennar síðan, því mjög er hún gömul orðin og farin, og það svo, að haft er eptir henni sjálfri, að hún geti ekki dregið sig öðruvísi, en að skríða á hnjánum, enda er hún komin talsvert yfir hinn venjulega drauga-aldur, 120 ár.[1]

Þó þykir Leirárfólk jafnan sækja illa að, þegar það kemur einhverstaðar, og opt þykjast menn sjá hana á Akranesi, því bæði róa þar vinnumenn frá Leirá og koma þángað í ýmsum erindagjörðum, en jafnan þykir verða vart við Skottu á undan þeim.[2]

**Hítardals-Skotta.** (Eptir sögn Dalamanna.) Svo er sagt, að, þá er Vigfús Jónsson, er síðar varð prestur í Hítardal (hèr um bil fyrir 100 árum), var í skóla, átti hann mjög vingott við einn af skólabræðrum sínum.

1. Sbr. inngánginn fyrir II. flokki, 2. grein.

2. Saga þessi er samin eptir Borgfirzkum frásögnum með hliðsjón til Árbóka Espólíns. Sbr. Dr. Maurers Isl. Volkss. 84. bls.

Vinfeingi þeirra hèlzt eptir það, að skólatími þeirra var úti. Þeir urðu síðan prestar, Vigfús í Hítardal, en hinn einhversstaðar eystra. Nú líður og bíður, uns svo ber við, að presturinn, vinur sèra Vigfúsar, verður sekur um eitthvert afbrot, svo að hann er dæmdur frá kjól og kalli á alþingi. Í þeim dómi sat sèra Vigfús, og að dóminum afloknum átti að færa hinn dæmda klerk úr hempunni, eins og siður var til. Þá er mælt, að sèra Vigfús, er var ör að lund, en þá, ef til vill, ör af víni, hafi orðið fyrstur til að taka í ermi klerks. Klerki varð þá þúngt í skapi við vin sinn og mælti: „Þú varst þá, vinur, fyrstur til að færa mig úr hempunni; vera má, að þèr þyki jafnmikið sem mèr nú, áður lángt um líður." Nú ríða menn af þíngi, en svo þykir bregða við, að sèra Vigfúsi verður ekki haldsamt á börnum sínum, og deya þau úng og efnileg, og verður fljótt um þau, enda þóktust menn verða varir við kvennlíki nokkurt með skaut á höfði, og horfði krókurinn aptur. Því var hún Skotta nefnd, og tók hún að gjöra mönnum og skepnum mikið mein. Þetta olli sèra Vigfúsi og konu hans mikillar sorgar, en fá ei viðgjört. Á heimili sèra Vigfúsar var ölmusumaður, Eiríkur að nafni, og hniginn á efra aldur. Hann tekur sótt, þá er hann hyggur að muni leiða sig til bana. Hann biður þá húsfreyu, að, sè svo, að hún sè ekki kona einsömul, og ali sveinbarn, að láta það bera nafn sitt, og vera megi, að það saki ekki, þá að eitthvað óhreint vilji að því slæðast. Nú ól prests-konan sveinbarn, og var það Eiríkur nefnt. Hann óx upp, og átti Skotta aldrei við hann, og aldrei varð vart við, að Skotta fylgði honum, nè nokkrum hans afkomanda, en í Hítardal gekk hún við og við ljósum logum og fylgði heimafólki. Eiríkur varð síðar klerkur að Reykholti, faðir sèra Vigfúsar Reykdals, nú á Hörðabóli í Miðdala-þíngum. Að sèra Vigfúsi Jónssyni önduðum og hans fólki, fylgði Skotta staðnum í tíð sèra Haldórs og sèra Björns, og síðan sonum sèra Björns, Ólafi í Ferjukoti, sèra Benidikt, og þó einkum Hannesi bónda á Hamrendum í Miðdölum. Hannes lá þúnga sótt og lánga í ókennilegri veiki, sem dró hann til bana, og átti Skotta þá að hafa gjört honum ymsar glettíngar. Þegar Hannes var sálaður, var erfi haldið eptir hann, og bræðrum hans boðið. Þeir komu að vísu, en fóru strax á burtu, og jarðarförin var úti, mest að hvötum Sigríðar, konu Ólafs. Á Hamrendum var þá vinnumaður, Þórhalli að nafni. Hann var úti í tröð um það leyti, er erfisdrykkjan eptir Hannes sáluga var á enda. Honum fannst alt í einu, sem tekið væri í hendina á sèr, og því fylgði slík óvera, að honum varð mjög óglatt og ílt. Upp frá því þykir sem Þórhalli sæki ekki vel að; hann lifir enn þá, hvað sem nú Skotta tekur til bragðs, þegar hans missir við; en mikið þykir hún vera farin að dofna, og nálega ekkert á henni að bera.

Í Selárdal bjó maður, Benedikt að nafni. Kona hans, að nafni Margrèt, lifir enn, og hefir hún sagt sögu þessa. Svo stendur á, að, þegar riðið er sunnan frá Hitardal yfir Bjúg, sem svo er kallaður, þá er farið rètt hjá eingjunum í Selárdal. Eitt sumar var Benedikt, sem optar, að slá fram á

eingjum með fólki sínu, en búsmali var á beit rètt fyrir framan. Þá mælti hann: „Nú kemur bráðum einhver frá Hítardal,“ og hafði hann opt verið vanur að segja það fyrir og ætíð geingið eptir. Strax eptir segir hann: „Eg vildi að hún, skrattinn sá arna, dræpi ekki fyrir mèr fèð,“ og í sömu andránni fleigir hann orfinu, en það tekur kast, og ein ærin fleygist upp í lopt. Benedikt hleypur að áuni, og kaffærir hana í ánni, sem rann þar hjá, og stumrar svo lítilsháttar yfir henni. En á meðan kemur sèra Björn í Hítardal sunnan Hóldal (hèrna megin við Bjúginn fyrir heiman Bustardal) og ríður inn í Dali. — Einn sinni komu þær báðar nöfnurnar, Hítardals-Skotta og Hvítárvalla-Skotta undir eins í brúðkaup nokkurt. Sá einn af boðsmönnunum, sem þar var skygn, að þær tóku matinn af diskunum hjá gestunum, meðan á veizlunni stóð, án þess þeir yrðu varir við. En með því maðurinn átti nokkuð hjá sèr, særði hann þær báðar út fyrir dyr, og lèt þær standa þar og á sjá, en ekkert af fá, uns samsætinn var lokið, og þar á ofan lèt hann þær, þeim til spotts og athláturs fyrir gestina, hrækja hvora framan í aðra. Í öðru sinni tókust þær nöfnur á fángbrögðum, en ekki er þess getið, hvernig þeim leik hafi lokið.[1]

**Skarðs-Skotta.** Þessi Skotta var opt höfð til sendínga, og hún var seld mansali. Bjarni ríki Pètursson, sem bjó á Skarði í byrjun 18. aldar, tók við Skottu af öðrum manni, sem var orðinn leiður á henni, og lèt hann gefa sèr fè til. Síðan fargaði Bjarni henni aptur, og gaf manni hángikjöts krof til að taka við henni. Þessu reiddist Skotta svo, að sama kveldið sem hann seldi hana, og Bjarni sat, og ugði sèr einskis, var honum rekinn löðrúngur, svo að kjálkinn brotnaði í honum; var það Skotta og hefndi sín þannig á Bjarna fyrir vistabrigðin.

Nú er Skotta þessi dauð. En í tíð þeirra manna sem nú lifa, hèt Skottuskot undir stiganum í gamla Skarðsbænum, þar var rúm Skottu, meðan hún var uppi, og var henni skamtað, því hún hafði verið vakin upp kvik. Af henni ganga margar sögur.

**Hleiðrargarðs - Skotta.** (Eptir handriti Sigfúsar hreppstjóra Jónssonar á Laugarlandi í Eyafirði.) Hèr um bil 1740 til 1770 bjó í Hleiðrargarði í Eyafirði bóndi nokkur að nafni Sigurður Björnsson; þókti hann skynsamur maður og mikilhæfur í skapi. Það er sagt, að hann færi eitt sinn à öndverðu sumri, þegar hann var á ýngri árum sínum, til fiskikaupa vestur undir Jökul; vildi þá svo til, að honum og manni nokkrum, er hann átti kaup við, kom ekki saman í viðskiptunum; varð út úr því deila með þeim og síðan áflog. Sigurður var hraustmenni, og harðfeingur í viðskiptum, og snaraði hinum undir sig, og gaf honum nokkur högg. Þegar maðurinn stóð á fætur, heitaðist hann við Sigurð, og kvaðst mundi launa honum,

1. Síðasta frásögnin er tekin eptir Dr. Maurers Isl. Volkss. 84—85 bls.

áður jafnleingdin kæmi; fór síðan burtu, en Sigurður ásamt lagsmönnum sínum sneri heim aptur, og settist í bú sitt. Á þessum tíma bjó á Krýnastöðum, næsta bæ við Hleiðrargarð, maður sá, er Hallur hèt, kallaður Hallur sterki; var hann skygn, og hafði opt sèð drauga, og feingizt við þá. Svo er sagt, að Hallur þessi væri staddur úti á bæarhlaði sínu eitthvert kvöld um haustið næsta á eptir sumri því, sem Sigurður kom úr skreiðarferðinni; sá þá Hallur koma draug í stelpulíki utan götuna; var hún lítil á vöxt, með rauðan bol, í mórauðu pilsi, sem náði að eins í knèsbætur, með skúflausa skotthúfu og snöggklædd. Þegar stelpan sèr Hall, ætlar hún að víkja úr vegi, en hann gekk í veg fyrir hana, og spyr, hver hún sè. Hún segist hafa heitið Sigga. Hann spyr, hvaðan hún kæmi, og hvort hún eigi að fara. Hún segir: „að Hleiðrargarði.“ „Hvað ætlarðu að gjöra þángað?“ segir hann. „Að drepa Sigurð Björnsson,“ segir hún. Hljóp hún svo veg sinn og tindruðu neistar úr sporum hennar. Þetta sama kvöld svaf Sigurður í rúmi sínu, og hagaði svo til, að gluggi var yfir því. Hitt fólkið í baðstofunni var vakandi. Sigurður spratt snögglega á fætur, og spyr: „Hver kallaði til mín?“ Honum var sagt, að einginn kallaði til hans. Leggur hann sig upp í rúm aptur, og sofnar, en sprettur upp aptur, þegar er hann var sofnaður, og segir, að víst hafi nú einhver til sín kallað. En honum er sagt, að það hafi eigi verið; leggur hann sig fyrir enn að nýu og sofnar ekki. Þegar hann hefir legið litla stund, sjá menn hann líta út í gluggann og heyra, hann segir: „Á! er því svona varið?“ Sáu menn honum þá mjög bregða í andliti; geingur hann síðan fram að baðstofudyrum, og víkur sèr til hliðar við dyrnar, og heyra menn hann segja hátt: „Ef hèr er nokkur, sem vill finna Sigurð Björnsson, þá er hann þarna,“ og bendir um leið með hendinni á niðursetníngsdreing, Hjálmar að nafni, sem sat og táði á skák, móti baðstofudyrunum. Óðar er dreingnum fleygt ofan af skákinni á gólfið; veltist hann þar um með ólátum og ósýn, sem verið væri að kyrkja hann; heimtar þá Sigurður vönd, og fleingir dreinginn í krók og kríng; hægðist honum þá lítið eitt, og var hann lagður upp í rúmið aptur; sýndist þá kroppur hans bólginn og marinn; fèkk hann þessi áföll þrisvar eða fjórumsinnum um nóttina, og smátt og smátt upp frá því, þángað til snemma um veturinn, að dreingurinn dó í einu þessu flogi, og þókti líkami hans mjög svo þrútinn og uppblásinn með auðsjáanlegum svörtum fíngraförum draugsins. Eptir þetta fylgdi draugurinn Sigurði og börnum hans, og jafnvel öllu fólki frá Hleiðrargarði. Opt sáu skygnir menn stelpu þessa, sem kölluð var Hleiðrargarðsskotta, og kend við húfu sína, því skottið stóð upp af hausnum; var hún optast, þegar hún sást, upp um einhvern bita, helzt í bæardyrum manna, og fló þar kött, sem kallað er. Alt af varðist Sigurður henni sjálfur, en drepa fór hún smátt og smátt búfè hans, og jafnvel fè af næstu bæum; þókti það þá mjög marið og blátt, og hvervetna óætt. Eignað var henni, að hafa drepið

einn mann, Sigurð í Nesi, góðan bónda; fèkk hann flogaveiki og dó úr henni.

Þegar yfirgángur hennar fór nú að verða svona svæsinn, og menn óttuðust, hann mundi aukast, svo til vandræði horfði, vildi sú heppni til, sögðu menn, að húsgángur nokkur undan Jökli kom í sveitina, að nafni Pètur, og var almennt kallaður Jökla-Pètur. Hann var göldróttur mjög, en fór ætíð vel með listina. Sigurður í Hleiðrargarði var mannlundaður og greiðugur, og gjörði Pètri því góðan greiða, og sagði honum frá, að eigi þyrfti hann samt að njóta sveitar sinnar, því sèr hefði þaðan verið sendur draugur, sem mikinn skaða gjöri sèr og öðrum, og líklega hafi líf sitt að lokunum. Pètur sagðist mundi hjálpa honum frá þessum djöfli, og tók sig burt eina nótt, tók með sèr drauginn, og batt hann við stóran jarðfastan stein á þeim stað milli Strjúgsár og Vallna í Saurbæarhrepp, sem nefndur er Varmhagi; gat svo draugurinn ekki um lángan tíma mein unnið, en opt heyrðust væl hans um nætur, og ekki máttu menn fara þar nærri; feingu þeir þá ógleði, höfuðsvíma og villu, jafnvel um bjarta daga. Á árunum 1806—1810 bygði presturinn í Saurbæ, sem hèt síra Sigurður, og lifir enn, beitarhús, ekki alllángt frá þessum stað, því hèr var útbeit góð. Fyrstu nótt, sem hýst var í húsi þessu, var ein kind drepin, og fleiri þar á eptir; kendu menn þá sama útlit og viðskilnað á kindarskrokknum, eins og þau, sem draugurinn hafði áður haft, og fóru því að hugsa, að á honum væru farin að slakna bönd. Veikindi og dauði á sauðfènaði fóru að smádreifast út um allan Eyafjörð, og kallast pest, en fyrir laungu er þó sú vantrú orðin innrætt hjá fólki, að það muni vera af draugsins völdum.

**Missagnir og viðaukar við söguna af Hleiðrargarðs-Skottu.** (Eptir öðrum eyfirzkum sögnum.) Ár 1764 bjó Benidikt prestur Pálsson í Miklagarði, en í Ásgerði bjó Sigurður Björnsson, er síðar flutti í Hleiðrargarð; voru þeir prestur og Sigurður fjölkunnugir, en þó eigi mjög. Þeir voru fjandmenn miklir, og fórust á mörgum sendíngum, og vann hvorugur á öðrum; varð Sigurður eitt sinn presti yfirsterkari, og var prestur hætt kominn, undi hann við það illa; tókst því eitt sinn ferð á hendur í Hjarðarholt vestur, að hitta sèra Gunnar bróður sinn. Hann var manna fjölkunnugastur hèr á landi, er menn þektu til á þeirri tíð. Segir Benidikt honum alt af viðskiptum þeirra Sigurðar Björnssonar, og biður hann ásjár. Gunnar heitir góðu um það, og eptir það reið Benidikt heim. En um vorið flutti Sigurður til Hleiðrargarðs, því hann undi illa yfirgángi prests. Um vorið kom einhver á glugga í Miklagarði, og kallaði prest út. Prestur kemur út, og sèr konu standa fyrir dyrum. Hún spyr hann þegar, hvað hún skuli gera. Hann segir: „Far til Hleiðrargarðs, og drep Sigurð Björnsson.“ Hún fer, og hleypur alt til þess, er hún kemur að Krýnastöðum, og fer þar upp á glugga, og biður húsbónda út gánga og finna sig. Þar bjó Hallur, er kallaður

hefir jafnan verið hinn sterki. Hann átti eitt sinn glímu við mann undan Jökli, og sendi sá Halli draug; en Hallur vann drauginn, og sendi aptur, og varð draugurinn þeim manni að bana, er hann hafði send. Hallur spyr, hver kominn sè; þá var mælt úti, að sú heiti Sigríður Árnadóttir. Hallur kemur út, og spyr hana að ætt og aldri, og hvert hún ætli. Hún kvað sèra Benidikt hafa sent sig Sigurði bónda á Hleiðrargarði, en sèra Gunnar hafi vakið sig upp, bróðir hans, þrem nóttum síðar en hún andaðist; segir hún hann hafa primsignt sig og gefið sèr sakramentin, áður en hún fór heiman. Hún kvaðst vera 25 ára, en kvað sèr skapað að lifa 100 ár, ef alt færi skröpum. Hallur rak henni kinnhest, svo að hún veltist út af á hlaðinu. Eptir það fór hún til Hleiðrargarðs, og deyddi þar niðursetu eina; en Sigurður gat varizt henni. Eitt sinn var Sigurður í kaupstað, að binda bagga, en varaðist eigi; hljóp þá Skotta fram á hann; Hallur bjargaði honum að bæn vina sinna. Sigurður varð sóttdauður.

Sagt er, að Skotta fylgi Hleiðrargarðsætt, og þykjast sumir sjá hana enn, en mjög kvað hún vera farin að dofna. Segja sumir, að draugar magnist hinn fyrsta þriðjúng aldurs síns, standi í stað hinn annan, og dofni hinn þriðja, og deyi svo út, er þeir hafa fylt hundraðið (eða 120 ár.)

Þegar Skotta kom vestan, fór hún um hlaðið á Krýnastöðum, og drepur þar á dyr. Þar bjó Hallur hinn sterki. Hann var maður mikill fyrir sèr og fjölkunnugur mjög, en óvin mikill Sigurðar nábúa síns. Hallur kemur til dyra, og kennir þegar, að draugur er þar kominn, og spyr hann að nafni og erindi. Hún nefnir sig, og segir, hvert hún skal fara, og spyr, hvort bær þessi sè eigi Hleiðrargarður. Hallur kvað nei við, og segir henni leið þángað, og bað hana þó hafa menjar þess, að hún hefði þar komið; þrífur trè eitt mikið í hönd sèr, og keyrir hana út úr túninu. Svo kvað Hallur síðar hafa sagt, að eigi mundi Skotta leingra farið hafa, ef hann hefði verið betri vin Sigurðar.

Sumir segja, að Sigurður bóndi kunni ekki fyrir sèr; en er Skotta kom til Hleiðrargarðs, geingur hún í bæinn, og kallar upp á pallinn, hvort Sigurður Björnsson sè þar; var henni það sagt, og vísað á niðursetudreing einn, er sumir segja að ætti samnefnt við bónda; drap Skotta hann þegar með þeim hætti, sem fyrr er ritað.

Jón hèt maður, er bjó úti í Kræklíngahlíð; segja sumir, að hann bæði sèr til konu dóttur Sigurðar, og hèt að binda Skottu, ef hann feingi þann ráðahag. Sigurður hèt honum konunni, en Jón batt drauginn þar, er Varmhagi heitir; segja menn og, að Sigurður efndi eigi heit sín við Jón, og leysti því Jón aptur Skottu. Aðrir segja, að böndin muni sjálf hafa af henni raknað, en það er sumra sögn, að hún sè enn bundin, svo sem hún var í fyrstu, er Jón eða Pètur bundu hana.

Í Varmhaga er sagt, að voru tvö beitarhús; var annað frá Hálsi, en hitt frá Saurbæ. Hálfu voru sauðir fleiri í Saurbæ, en á Hálsi. Hina

fyrstu nótt, er Skotta var bundin í Varmhaga, er mælt, að sauðir tveir dræpust í beitarhúsum frá Saurbæ úr veiki þeirri, er nú er pest kölluð, og hina aðra einn frá Hálsi, og síðan svo jafnan til skipta, þar til allir sauðir á báðum bæunum voru dauðir. Þetta er upphaf sýkinnar í Eyafirði. Sumir segja, að þetta væri eigi, fyrr en Skotta var laus orðin.

Svo er sagt, að eitt sinn var smalakona ein frá Hálsi í fjárleit. Hún kom eigi heim að vanda; var þá farið að leita hennar og fannst hún loks upp til fjalla; var hún þá öll blá og blóðug, og þó með lífsmörkum; var hún frètt eptir, hví hún væri svo leikin. Hún kvað konu eina hafa leitt sig þángað, og kreist sig svo. Hún lýsti konu þessari svo, að allir vissu, að kona þessi var Skotta. Síðan andaðist stúlkan.

Það er sumra manna sögn, að Sigurður hèldi skýlu yfir sèr, svo að Skotta kendi hann eigi, eða einhver annara vina hans. Eitthvert sinn var hann i kaupstað, og kominn á leið heim aptur; nefndi einhver hann þá fullu nafni. Skotta var þar við stödd, og heyrði það. Stökk hún þá á hestinn fyrir aptan hann, og brant hann á bak aptur. Segja sumir, að Sigurður lèti svo líf sitt.

Skotta er sagt, að hafi orðið þriggja eða fjögra manna bani; var einn niðursetníngurinn í Hleiðrargarði, annar Sigurður bóndi í Nesi, þriðja smalakonan á Hálsi. Margt hefir hún drepið fènaðar, og flest kreist og kramið í sundur; faunst opt fè í húsum og högum, er sáust á fíngraför hennar. Hún drap og nautpeníng og hesta. Síðan, er hún var bundin, æpti hún svo ámáttlega, er myrkva tók, að hvorki þorðu menn nè skepnur nærri að koma. Jafnan var hún eins búin, er menn sáu hana. Hún var svo hvöt á fæti, að einginn þurfti að þreyta hlaup við hana, hvorki menn nè hestar.

Enn er sagt, að Skotta væri í för með Fnjóskadalsbola.[1] Hann er fleginn, og húðin föst aptan, og dregur hann hana. Sat Skotta aptur á húðinni, og dró boli alt saman.

**Mývatns-Skotta.** (Eptir norðlenzkum sögnum í handriti sèra Benidikts Þórðarsonar á Brjánslæk.) Einhver nafnkendastur draugur á norðurlandi var Mývatns-Skotta á sinni tíð, og eiga Mývetníngar margar sögur af afreksverkum hennar. Frá uppruna hennar er svo sagt, að galdramaður nokkur hafi eitt sinn búið á Grímsstöðum við Mývatn, og hafi hann átt ílt útistandandi við mann einn yfir í Köldukinn. Á laugardaginn fyrir páska eða hvítasunnu kom flökkustúlka að Grímsstöðum. Bóndi tók vel við henni og fylgdi henni í eldhús; kona hans var þá að færa hángiket upp í trog. Bóndi þrífur láugglegg úr troginu, rèttir að stúlkunni, og segir henni að èta. Stúlku-aumínginn tekur feginshendi móti ketinu, og ètur með góðri lyst. Þegar hún var mett orðin, býðst bóndi til að fylgja henni til næsta bæar. En þegar þau koma að á þeirri, sem rennur milli bæanna, tekur hann stúlkuna,

1. Sjá söguna um Þorgeirs-bola 350. bls.; sbr. Fjölni, 9. ár. Kh. 1847. 16. bls.

kastar henni í ána, og heldur í fætur hennar, meðan hún er að kafna. Stúlkan hafði, eins og þá var títt, skautskuplu á höfði, og snaraðist skuplan á hnakkann, meðan hann hèlt henni í kafinu. Þegar hann þóktist viss um, að stúlkan væri dauð, dró hann hana úr kafinu og upp a bakann, magnaði hana síðan með fjölkynngi sinni, og sendi hana svo til að drepa manninu, sem hann þóktist eiga varhefnt við. Þegar draugur þessi sást á ferð síðan, dínglaði skuplan á hnakka hennar, og er þaðan dregið Skottu-nafnið. Skotta fór sendiförina, og vann það, sem fyrir hana var lagt; kom aptur og sagði bónda, að hún hefði banað manninum, og spurði hvað nú skyldi vinna. Bóndi sagði henni, að hún skyldi fylgja ættarskömminni, og það gjörði hún, og vann margt til meins ættíngjum þess, sem hún drap fyrst. Hún hèlt til við Mývatn, því þar voru niðjar manns þessa. Í mæli var það, að hún hefði valdið raunum Illuga Helgasonar, þess er orti Ambalesrímur; því bæði gat hann stundum ekkert kveðið tímum saman fyrir ásókn hennar, og misti konur sínar voveiflega, og varð sjálfur geðveikur og vesall á seinustu árum sínum, og var alt þetta kent Skottu. Í mansaungum fyrir Ambalesrímum minnist Illugi á böl sitt, og er þar þessi vísa ein í:

„Er eg svo merkjum ánauðanna undir staddur,
og einhverri á óstund fæddur,
að yndi trautt má verða gæddur."

Víða fór Skotta um bygðir, og var það sagt, að hún fylgdi Mývetníngum, og þóktust margir sjá hana, sem skygnir voru, á undan komu þeirra, en sumum barst hún í drauma. Frá því hefir verið sagt, að kerlíng ein, sem fóstraði barn, sat uppi um nótt í rúmi sínu, en barnið nam ekki af hljóðum; kerlíngu þókti þetta venjubrygði, og kom henni þá í hug, að barnið mundi sjá eitthvað óhreint. Fer hún því að litast um, og sèr, hvar Skotta situr á auðu rúmbóli yfir í baðstofuenda; rær hún sèr þar og er að skæla sig framan í barnið; en kerlíng gat sèð þetta, af því glaðatúnglsljós var í baðstofunni. Beið kerlíng þá ekki boðanna, leggur barnið í rúmið, en tekur kolluna sína, og ætlar að fæla með því drauginn.* Þegar Skotta sèr tiltæki kerlíngar, stekkur hún ofan, en kerlíng sendir kolluna með öllu, sem í var, á hæla henni; heyrir hún þá, að Skotta segir: „Það mátti ekki minna kosta."[1]

1. Í Þíngeyarsýslu er sú sögn til um uppruna Skottu, að bændur tveir hafi búið á Arnarvatni við Mývatn, og væru galdramenn, og mikill og illur kur í milli þeirra. Einn vetur bar svo til, að stúlka varð úti í hriðarbyl þar vestur á heiðinni, fyrir vestan Helluvað. Annan bóndann grunaði, hvað stúlkunni leið, fór um nóttina vestur á heiði, og vakti hana upp, áður en hún var orðin köld. Síðan fór hann með hana heim um morguninn, lèt hana fara á undan sèr inn í bæinn, og sagði henni að drepa sambýlismann sinn. Hún fór inn, og bóndi litlu siðar. En þegar hún kom inn, settist hinn bóndinn snögglega upp í rekkjunni, og skipaði henni að taka þann, sem á eptir henni kæmi, og það gerði hún. Greip hún þá þann bóndann, sem hafði vakið hana upp, og fleygði honum sem sopp innan um baðstofuna. En hinn sat kyr í rekkjunni og hló að. Þó lèt hann hana ekki gera út af

**Illuga-Skotta.** [1] (Eptir handriti Gísla Konráðssonar.) Illugi hèt bóndi, og bjó á Arnarvatni, norður við Mývatn; hann var talinn margfróður. Þá bjó á Gautlöndum bóndi sá, sem Magnús hèt Hallsson; hann var skáld og haldinn fjölkunnugur. Hann kvað níðvísu um Illuga, og hèt hann því þá, að hefna þess á Magnúsi. Það var einn dag, að Illugi kom að Gautlöndum; stóð þá Magnús yfir fè, en konur sátu inni í baðstofu við tóvinnu. Baðstofunni var svo varið, að þar voru götupallar lángsetis. Illugi fór inn í baðstofu, og talaði við kvennfólkið um stund, og stóð upp við rekkju Magnúsar, á meðan hann stóð við. Um kvöldið, þegar Magnús kom heim, og gekk að rúmi sínu, spurði hann, hvort nokkur hefði komið um daginn. Kvennfólkið neitaði því, og mundi ekki, að Illugi hafði komið. Magnús trúði því ekki, og spurði enn ítarlegar um gestakomu. Sagði þá stúlka ein, að Illugi á Arnarvatni hefði komið. Magnús sagði, að sig hefði grunað það; greip hann þá hund sinn, og fleygði honum upp í rúmið, og drapst hundurinn, en Magnús sakaði ekki. Þegar Magnús háttaði um kvöldið í rúmi sínu, fann hann þar fyrir sèr eitthvað í konulíki með skuplu á höfði. Honum þókti hún ákaflega leið, og að Illugi mundi hafa sent sèr kvenndraug þenna til óheilla, og til að drepa sig. Tók hann því það ráð, að magna draugiun og senda Illuga hann aptur. Við þetta óx draugnum svo mikið afl, að Illugi átti fult í fángi með hann, en þó er sagt, að hann bryti báða handlegi draugsins; því hann var svo rammur, að hann var þreifanlegur. Draugurinn fylgdi leingi eptir það Magnúsi og fólki hans, og var kallaður Illuga-Skotta. Galdra-Ari, Jónsson prests greipaglennis, magnaði Skottu að nýu, og sendi hana aptur Illuga Helgasyni skáldi, sonarsyni Illuga á Arnarvatni. Gerði hún bæði honum og öðrum margt ílt, og er sagt hann verði sig mest fyrir henni með kveðskap. Sagt er, að svo stæði á því, að Ari sendi Illuga Skottu, að einu sinni kom Illugi á bæ Galdra-Ara, en milli þeirra var óþokki nokkur. Ari sat í eldhúsi og vissi Illugi það; kom hann upp á eldhúsglugganu og kvað níðvísu um Ara; ekki er þess getið, að þeir ættust fleira við að því sinni. Eptir það sendi Ari Illuga Skottu, og kvaldi hún hann jafnan um nætur, svo hann gat lítið sofið, eða ekkert. Illugi þessi bjó á Syðri-Neslöndum við Mývatn, og átti Ingibjörgu fyrir konu. Hjá þeim var bróðir Ingibjargar, sem Jón hèt, miklu eldri en hún, og gat hann leingi varið Illuga fyrir Skottu, meðan hann varð ekki ellihrumur, og er sagt, að hann beitti að eins afli við hana, því hann var bæði stór og sterkur. Um þetta leyti bjó Haldór eldri [2] Jónsson frá Reykjahlið í Vogum. Hann vakti opt yfir Illuga á

við sambýlismann sinn, en ætt hans fylgdi hún eptir það. Svo stendur í handriti frá sèra Jóni Kristjánssyni á Yztafelli, og ætla eg það sè hönd Bjarnar Jónssonar á Finnstöðum í Kinn.

1. Er að líkindum sama og Mývatns-Skotta.

2. Haldór Jónsson yngri frá Reykjahlið bjó í Borgarseli í Skagafirði. Eptir honum

nóttum, þegar aðsóknin var sem mest. Eina nótt, þegar Illugi vaknaði með miklum audfælum, hljóp Haldór út, af því hann ætlaði, að Skotta mundi vera á glugganum yfir Illuga. Þegar Haldór kom út, sá hann, að Skotta var að glíma við strák einn, sem dáið hafði á Neslöndum um haustið, og Illugi hafði opt ávítað fyrir strákapör sín. Haldór var óhræddur, og kvað vísu um Skottu, og skipaði henni að snauta burtu. Hvarf hún þá þegar, en kom sömu nóttina við í Vogum, fór inn í baðstofu, og æpti svo hátt, að heimafólk heyrði, og sagði: „Haldór er kjaptfortur." (?) Síðan tók hún til og kitlaði þar stúlku eina, svo hún sýktist af því, en batnaði þó aptur, þegar Haldór kom heim. Hún drap og beztu kú Haldórs og nokkrar ær. — Einu sinni meðan Skotta fylgdi Illuga eldra, kom hún að Grásíðu í Kelduhverfi, þegar fólk var háttað. Þar var vinnumaður á bænum, sem Ásmundur hèt, sem sagt var að færi með kukl. Skotta snaraði sèr upp fyrir hann í rúmið og sagði: „Nú er lúinn Ásmundur." Hann spurði, hvað henni væri að því. „Að fylgja austur yfir hálsana og norður yfir skörðin," sagði hún; því að jafnan sýndist hún á ferð með þeim frændum Illuga á Arnarvatni.

**Sagan af Árbæar eða Nýbæarskottu.** (Eptir sögnum úr Skagafirði.) Olafur hèt bóndi, er bjó á Tinnárseli í Austurdal í Skagafirði; hann var haldinn fjölkunnugur. Einu sinni var hann á ferð í Svartárdal í Húnavatnssýslu, og kom að Bergsstöðum um nótt, og þegar hann reið hjá kirkjugarðinum, varð honum litið inn í garðinn, og sá hann þá, hvar maður var að glíma við nýuppvakinn draug, en draugsi var rètt búinn að keyra hann undir sig; kallar þá Olafur til mannsins: „Bíttu í vinstra brjóstið á henni, bölvaður." Olafur reið nú leiðar sinnar, en sagt er, að maðurinn hafi notað ráð þetta, og hafi það dugað, en maðurinn fèkk öfundarhatur til Olafs af því, að hann kynni betur; er mælt, að hann undir eins hafi búið út drauginn, og sent Olafi hann, en Olafur var viðbúinn sökum fjölkýnngi sinnar, og kom draugnum ofan í hrosslegg; lèt hann síðan ofaní kistu-handraða, og geymdi hann þar meðan hann lifði, en rètt fyrir dauða sinn, bað hann Guðbjörgu, að brenna legginn að sèr látnum, en varast skyldi hún, að taka tappann úr. Eptir andlát karlsins tók Guðbjörg legginn uppúr kistunni, og af forvitni tók hún úr tappann; þá sá hún, að fluga flaug úr honum, og breyttist undir eins í kvennmannslíki, og spurði, hvað hún ætti að gjöra. „Farðu að Nýabæ," segir Guðbjörg, „og dreptu Guðmund bónda Nikulásson," því Jón maður Guðbjargar vildi hafa Guðmund burt af jörðinni, en flytjast þángað sjálfur. Draugurinn fór þegar að Nýabæ og hitti Guðmund bónda, en hann gat varizt draugnum, en um vorið flutti hann sig burt að Krákugerði, því um veturinn var hann orðinn hálfær af aðsókn Skottu, en þá fluttu þau Jón

áttræðum hefir Gísli Konráðsson tekið sögu þessa 1848. Sá Haldór hafði þreifað á Skottu í úngdæmi sínu í föðurgarði, og ætlaði vera systur sína. En Björg móðir hans, sem var ramskygn, sá að það var Skotta.

og Guðbjörg sig að Nýabæ; draugurinn fylgdi þeim jafnan síðan, og þeirra ætt, og er ýmist kölluð Árbæar- eða Nýabæar-Skotta. Það er mælt, að Skotta hafi ráðið Jóni bana, því þegar hann lá banaleguna, vakti stúlka yfir honum með ljós; eitt kvöld dró úr henni allan máttinn, og lagði hún sig fyrir, og fanst henni, að svefnhöfgi fèlli á hana; henni sýndist eða dreymdi, að roðma miklum sló á ljósið, og heyrðist geingið inn hjá sèr, og heyrðist henni síðan soga eða korra í Jóni; síðan heyrðist henni geingið fram hjá sèr aptur; síðan fèkk hún máttinn aptur, og hugði nú að karli, var hann þá örendur. Skotta fór nú að gánga þar um híbýli og drepa ýmsar skepnur, og sást jafnan á undan hverjum þeim, sem kom af heimili Jóns og Guðbjargar. Guðrún hèt dóttir Jóns og Guðbjargar, og bjó í Hèraðsdal. Skotta áreitti hana; Guðrúnu var því komið í burt, að Vatni; þar bjó Jónas bóndi. Þá bar lítið á aðsókn Skottu meðan hún var þar, en þegar hún fór heim aptur, magnaðist ágángur Skottu, og geðveiki Guðrúnar, og tók Guðrún sig af lífi um síðir. Jón bóndi sá opt Skottu gánga um híbýli meðan Guðrún var þar. Margar sögur geingu af Skottu, og gánga enn af hrekkjapörum hennar; hún drepur bæði fè og stórgripi bæði á Merkigili og víðar; stundum sèst hún klifrast upp um bita í baðstofum, og hánga þar um nætur. Einu sinni sást hún sitja á fjóshaug, og fleygja taðkögglum. Þau Jón og Guðbjörg áttu bola í fjósinu; einu sinni sóktu menn tarf að Miklabæ, en rètt áður en þeir komu, rak kvíga upp óttalegt baul í fjósinu, og datt dauð niður, en presturinn, sem þá var þar, vildi synja þeim bolans, því þeir hefðu svo vonda fylgju, kvað hann, þarsem Skotta væri. Eptir það, að Guðmundur bóndi var kominn frá Nýabæ að Krákugerði, reið hann einu sinni út Uppsalamýrar í rökkri; þá vissi hann ei fyrri til, en það var eins og fótunum væri kipt undan hestinum, og hraut Guðmundur af baki og fótbrotnaði. En þegar hann stóð upp aptur, sá hann Skottu skoppa út mýrina, og hverfa fyrir hæð eina. Þegar Hjálmar bóndi bjó á Nýabæ (sumir segja Bólu) kom hann einu sinni að Skottu, þar sem hún var að drepa sauð; þá rak hann Skottu út fyrir Tinná, og hefir hún aldrei komizt síðan fram fyrir hana, því Hjálmar var haldinn andheitur. Einu sinni sofnaði fjármaðurinn á Merkigili í fjárhúsi einu; kom þá Skotta þángað, þegar hann var að sofna, og ætlaði að kyrkja hann, en hann vaknaði við, og þá hvarf hún á brott. Skottu er þannig lýst: hún er á vöxt við 12 vetra stúlku, þó hefir hún stundum sýnzt sem tröll; hún er á mórauðu stuttpilsi, og sauðsvartri peysu; stundum hefir hún sèzt á skinnpeysu eða fötum, og með skúflausa skotthúfu mórauða.

**Eyafjarðar-Skotta.** (Eptir handriti Gísla Konráðssonar.) Það er sagt, að Hollendíngar nokkrir hlypi einu sinni á land í Vöðluþíngi (Eyafjarðarsýslu), og væru djarftækir til kvenna. En þær voru ekki tagltækar við þá; gabbaði ein þeirra þá með missýníngum, en það gramdist Hollendíngum svo, að

þegar þeir voru komnir heim til sín aptur, keyptu þeir af galdramanni, að senda kvenndraug til Íslands, sem skyldi kvelja og drepa allar konur í Eyafirði. Sagt er, að draugurinn kæmi fyrst á land á Sauðanesi á Upsaströnd. Þar bjó þá Þorvaldur skáld Rögnvaldsson,[1] margfróður maður. Þorvaldur var niður við sjó þegar hann sá til draugsins; en Hollendíngar voru á vakki þar úti fyrir. Þetta var kona í útlendum búníngi með rauða skotthúfu og bera handleggi upp að olboga. Þorvaldur yrti á hana og spurði, hver hún væri, og hvert væri erindi hennar. Hún sagðist vera flæmsk, aðrir segja finnsk, og eiga kvelja og drepa allar konur í Eyafirði. En svo var hún mögnuð, að Þorvaldur gat ekki ráðið við hana með öllu; varð hann að leyfa henni að drepa beztu kúna sína, og síðan að drepa kýr á þriðja hverjum bæ í Eyafirði, og sýna aðrar glettíngar karlmönnum og fènaði, en hept gat hann hana með öllu frá því að sækja að konum. Draugur þessi var kallaður Eyafjarðar-Skotta. Margt drap hún af kúm, og gerði aðrar skráveifur, en ekki nema einn karlmann, sem sögur fara af. En eingar hefðu þær þó verið nú til líklega, ef þá hefði ekki verið uppi Björg, kona Jóns Einarssonar í Reykjahlíð. Eitt sinn þegar Björg var háttuð hjá bónda sínum, sagði hún, að nú bærist sèr það fyrir sjónir, því hún var ramskygn,[2] að Jón bóndi Höskuldsson, vinur manns hennar, væri að glíma við Eyafjarðar-Skottu við Eyafjarðará. En Jón sagði, að það væri markleysa og ofsjónir einar. Þó kom þeim saman um, að gaman væri að frètta, hvert nokkuð yrði títt um Jón Höskuldsson. Þá spurðist það síðar, að sömu dægur hefði Jón drukknað í Eyafjarðará; og ætluðu sumir, að Eyafjarðar-Skotta hefði vèlað hann út á ána.

Miklu fleiri Skottur hafa verið til, sem eg hefi ekki enn náð í sögur af, t. d. Rauðasands-Skotta í Barðastrandar-sýslu, Krínghvers-Skotta í Skagafirði, Húsavíkur-Skotta og Hlíðar- (Reykjahlíðar-) Skotta í Þíngeyarsýslu, og Víkur-Skotta í Múlasýslu, kend við Vík í Fáskrúðsfirði, og, ef til vill, enn miklu fleiri, sem eg hefi aldrei heyrt nefndar.

**Skinnpilsa.** (Eptir sogn Húnvetnínga.) Maður nokkur bjó leingi í Geldíngaholti í Skagafirði. Hann var áður trúlofaður stúlku á Vesturlandi, en sveik hana. Sendu þá frændur stúlkunnar bónda þessum kvenndraug. Hún var í rauðum sokkagörmum og skinnpilsi, og því var hún kölluð Skinnpilsa. Hún fór víða um Skagafjörð, en hafði þó aðal- aðsetur sitt í Geldíngaholti, og veitti bónda illar búsifjar nætur og daga, og var það leingi, að einginn gat komið henni fyrir. Þá tók Níels, sem kallaður var skáldi, sèr ferð á hendur, og heimsókti bóndann, og var hjá honum 3 nætur, svo Skinnpilsu varð ekki vart. 4. kvöldið um dagsetursbil sat Níels móti baðstofudyrum,

1. Þó hafa sumir heyrt, að þar byggi þá Þorvaldur gamli Magnússon, sem þar var miklu fyrr; en báðir voru þeir nafnar ákvæðaskáld og fjölfróðir. G. K.

2. Sbr. neðanmálsgr. við Illuga-Skottu.

og sá þar Skinnpilsu koma inn í gaungin. Fór hann þá að ljóða á hana, en hún gekk inn í vegginn, og Níels á eptir henni. Einginn veit, hvernig þar hafa farið leikar með þeim, nema það eitt, að Níels kom aptur, en einginn varð var við Skinnpilsu síðan.

**Hörgslands-Móri.** (Eptir sögn úr Skaptafellssýslu frá húsfrú Hólmfríði þorvaldsdóttur.) Draugur sá er austur á Síðu í Skaptafellssýslu, sem kallaður er Hörgslands-Móri eða Bergs-Móri. Hvorki er það af því, að hann væri upphaflega sendur að Hörgslandi né sèra Bergi, sem hann er nú kendur við, heldur er hann svo kendur, af því hann þykir fylgja Bergs-ætt, en sèra Bergur var síðast á Hörgslandi, en upptök draugsins er leingra að rekja, og eru því nokkuð óljós. Svo er sagt, að prestur sá var í Arnarbæli (1676—89), er Oddur hèt og var Árnason; kona hans var Katrín, dóttir sèra Jóns Daðasonar, er þar var næstur fyrir hann. Þau Oddur og Katrín áttu að minnsta kosti tvö börn, pilt, og stúlku, sem Ingibjörg hèt. Þenna son mistu þau úngan; prestur hafði riðið eitthvað burt á ísum um vetur, en pilturinn var elskur mjög að föður sínum, og hljóp á burt eptir honum og í vök á ísnum og druknaði þar. Eptir það „nam sèra Oddur þar ekki yndi, með öðru fleira, sem honum þókti þar óskemtilegt," segir Jón prófastur Haldórsson, en það er bæði sögn og getur, að hið „óskemtilega," sem presti þókti í Arnarbæli, hafi verið það, að kona hans hafði áður verið lofuð manni en brugðið við hann eiginorði, fyrir því hafi henni verið send sending frá manni þeim, sem hún sveik. En það var hundur einn, og kallaður Móri, sem átti að ásækja hana og niðja hennar í níunda lið. Eptir það fèkk sèra Oddur veitíngu fyrir Kálfatjörn, og var þar til dauðadags 1705. En Ingibjörg, dóttir hans, giptist Jóni sýslumanni Ísleifssyni í Skaptafellssýslu (1721—26), var hann ribbaldi mikill. Þeirra dóttir var Katrín gipt sèra Jóni Bergssyni eldra á Kálfafelli á Síðu, prófasti í vesturparti Skaptafellssýslu 1754—73, og hefir því verið trúað, að Móri hafi orðið honum að bana; enda er það í frásögur fært, að sèra Jón hafi dáið snögglega út á Eyrarbakka. Bergur hèt einkasonur þeirra Jóns prófasts og Katrínar ýngri, er síðast var prestur að Kirkjubæarklaustri en bjó á Prestbakka og Fossi, en seinast var hann á Hörgslandi, og dó þar. Hann átti margar dætur, og fylgdi Móri þeim öllum og fylgir enn, að því sem orð leikur á; er hann nú kominn til þeirra í 5. lið, og hefir hann fylgt þessum ættlegg frá Katrínu lánga-lángömmu þeirra systra, þó ekki kunni menn sögur af hreystiverkum hans, meðan hann fylgi hinum eldri af ættinni. Það var sögn manna, að í hvert sinn, áður en þeim sèra Bergi og konu hans varð sundurorða, hafi orðið vart við Móra þar á bænum, og var það ætlan manna, að hann ylli illdeilum þeirra. Eptir fráfall þeirra hjóna fylgir hann nú dætrum þeirra; undir eins og hin elzta þeirra dó, tók önnur við; varð hún þá hálf-brjáluð. Ein þeirra systra er Þorbjörg

gipt Jóni, sem kallaður er hospítalshaldari, er sagt, að hún hafi skamtað Móra. Þóktust menn sjá það til hennar, er hún var að skamta á hátíðum, að hún laumaði heilum sauðarsíðunum niður með lærinu á sèr; sáust þær aldrei framar, og er það talið víst, að Móri hafi hirt alt saman. Þó enn vanti mikið á, að Móri sè kominn í níunda lið, segja Síðumenn það, að hann sè orðinn svo aptanrýr, að hann sè aptan fyrir að sjá, sem gufa ein væri, og þykir af því mega til beggja vona bera, hvort hann muni endast svo vel, sem ætlað var. Eingar merkissögur eru af illum aðsóknum undan því fólki, en þó er sagt, að Móra hafi orðið stundum vart, þar sem einhver hefir komið á eptir af ættinni. Ekki er honum heldur kent um, að hann hafi orðið mönnum að bana, nema ef það væri ættíngjunum sjálfum, en geðveiki er alsagt hann olli þeim mörgum.

**Sels-Móri.** (Eptir sögn af Eyrarbakka.) Á Eyrarbakka í Árnessýslu er til draugur sá, sem Sels-Móri heitir. Hann er svo undir kominn, að maður var sá, er Einar hèt, og bjó í Borg í Hraunshverfi, seint á 18. öld; hann úthýsti dreing nokkrum, sem komið hafði flakkandi, eins og margt fólk fleira um þær mundir, austan úr Skaptafellssýslu, eptir að Skaptáreldurinn geisaði þar. Þetta var um vetur, en dreingur bæði svángur og klæðfár, og varð því úti nóttina eptir skamt frá Borg, og fannst dauður í dæl þeirri, er Skersflóð heitir. Þó dreingurinn væri grafinn, fór smátt og smátt að bera á því, að hann fylgdi Einari og niðjum hans. Einkum er sagt, að hann hafi fylgt Þuríði og Salgerði systurdætrum Einars, sem leingi bjó í Efraseli, og af því hann var þar leingst viðloða, er hann kallaður Sels-Móri. Ekki er þess getið að hann hafi drepið menn, meðan hann var einn um hituna, fyrr en hann komst í tígið við Móhúsa-Skottu, sem fyrr segir. En það skildi á milli þeirra hjónaleysanna, hans og Skottu, að honum varð ekki fyrir komið, er Skotta var af dögum ráðin, af því hann fannst hvergi, er hún var yfirstigin, og segja menn því, að hann sè einn á kreiki eptir um Bakkann.

**Írafells-Móri.** (Eptir sögnum úr Kjós, Kjalarnesi, Mosfellssveit og af Seltjarnarnesi.) Kort hèt maður og var Þorvarðarson, bróðir sèra Odds á Reynivöllum (1786—1804); hann var nefudarmaður og gildur bóndi; hann bjó leingst á Möðruvöllum í Kjós, en fluttist síðast að Flekkudal og dó þar 1821. Kort var tvíkvæntur; hèt fyrri kona hans Íngibjörg, en hin síðari Þórdís Jónsdóttir. Ingibjörg var ættuð að norðan. Margir höfðu orðið til að biðja hennar, áður en Kort, en hún synjaði öllum. Fyrri biðlarnir þóktust því sárt leiknir, er Kort fèkk hennar, en þótt hann væri þeim flestum fremri um marga hluti. Þeim svall svo þetta um hjarta, að þeir keyptu af galdramanni nyrðra, að senda Kort og konu hans sendíugu. Galdramaður valdi til þess dreinghnokka einn, er sagan segir að hafi orðið úti milli bæa; en galdramaðurinn vakti hann upp volgan, eða ekki með öllu dauðan,

og sendi hann þeim Kort á Möðruvöllum, og mælti svo um, að draugurinn skyldi fylgja þeim hjónum og niðjum þeirra í níunda lið, og vinna þeim margt til meins.

þeir menn, sem hafa sèð Móra, og þeir eru ekki fáir, hafa lýst honum svo, að hann sè í grárri brók að neðan, og mórauðri úlpu fyrir bolfat, með svartan hatt, barðastóran á hausnum, og er skarð eða geil stór inn í barðið upp undan vinstra auga. Af úlpunni dregur hann nafn, og því er hann Móri kallaður. Ummæli galdramannsins þykja hafa rætzt helzt of vel; því þegar Móri kom suður, lagðist hann að á Möðruvöllum, sem ætlað var, og gjörði þeim hjónum margar skráveifur með ýmsu móti, bæði í fènaðardrápi og matskemdum. En engin eru dæmi til þess, að Móri hafi beinlínis drepið menn, hvorki fyrr nè síðar. — það var einu sinni, að þau Kort ólu kálfa tvo einn vetur. þá báða elti Móri fram af hömrum sumarið eptir, og fundust þeir þar dauðir fyrir neðau. Annað var það, að Kort átti meri eina; hún gekk eitt sumar með folaldi í heimahögum á Möðruvöllum. Seint um sumarið sáu menn, að folaldið hljóp, sem það væri ært orðið, alt í kríngum stein, og datt síðan niður. En er til var komið, lá folaldið dautt; hafði það fest endaþarminn á steininum, og rakið svo úr sèr garnirnar, og dottið síðan niður dautt. þetta var kent Móra.

Með því Móri ekki átti að hafa verið með öllu dauður, er hann var vakinn upp, þurfti hann, eins og allir slíkir draugar, mat sinn fullan. Varð því að skamta honum ekki síður en hverjum heimilismanni, bæði á Möðruvöllum, og eins eptir það hann fór að leggjast að á Írafelli, og fylgja Magnúsi Kortssyni, og var maturinn, sem honum var ætlaður, ávalt settur á afvikinn stað. þessu hafði Móri áorkað með því, að hann húðskemdi alt í búrinu á Möðruvöllum fyrir Ingibjörgu; sat hann þar stundum uppi á búrbitunum og gutlaði í mjólkurtrogunum með löppunum, eða steypti þeim niður, sletti skyri, bæði á hana sjálfa og upp um alla rapta, eða fleygði torfi og grjóti ofan í matinn, hvar sem stóð, og spilti honum með því. Af þessu tók Ingibjörg það til ráðs, að hún fór að skamta honum fullnaðarmat í bæði mál; við það lèt hann mikið af matskemdum. Einhverju sinni bar þó svo við, að gleymzt hafði að skamta Móra að kvöldi dags. En um morguninn, er komið var í búrið, sáu menn, hvar hann sat, og hafði sína löppina niður í hverri skyrtunnu, en húkti á báðum tunnubörmunum; gjörði hann þá bæði að gutla í skyrinu með löppunum, og sletta því með krumlunum. Eptir það var varazt að gleyma að skamta honum.

En það var ekki maturinn einn, sem Móri þurfti; hann þóktist líka þurfa að hvílast, eins og hver annar, og því er sagt, að eptir að hann fór að fylgja Magnúsi Kortssyni á Írafelli, hafi hann jafnan orðið að láta rúmflet standa autt handa honum, gegnt rúmi sinn, og dugði eingum öðrum en Móra að liggja í því. það var eitt sinn um rètta-leytið, að margt fólk var komið að Írafelli, og hafði feingið þar næturgistíng. Seinna um kvöldið

kom þángað dreingur einn og beiddist húsa. Magnús kvað honum húsin heimil, en hvergi gæti hann lofað honum að liggja, nema á gólfinu, eða ef hann vildi annars kostar liggja í fletinu á móti rúminu sínu, og það þáði dreingur með þökkum. Þegar hann leggst fyrir um kvöldið, sofnar hann brátt; en þegar hann er nýsofnaður, fer óttalega upp á hann, svo að korrar í honum. Hrekkur hann svo upp, og getur ekki sofnað væran blund alla nóttina fyrir einhverri ásókn. Daginn eptir var vont veður, svo að gestirnir komust ekki í burtu, og voru svo á Írafelli nóttina eptir. En um kvöldið tóku dreingir nokkrir sig til, sem áttu heima á Írafelli, og þektu Móra, og höfðu opt verið í skítkasti við hann, og festu hnífa alt í kríngum rúmfletið, svo oddarnir stóðu allstaðar upp af stokknum. Þá nótt svaf dreingurinn vært, og þökkuðu menn það því, að Móri hefði ekki vogað að honum fyrir hnífs-oddunum.

Eptir fráfall Korts heitins (1821) fylgdi Móri fyrst elzta syni hans Magnúsi, er bjó leingi á Írafelli, sem áður er sagt, og af því Móri var þar leingst viðloða, var hann kallaður Írafells-Móri, og það nafn hefir síðan við hann haldizt. Auk þess, sem áður er talið um ráðríki Móra á Írafelli með legurúm sitt, er þess getið um Magnús, að hann fór einhverju sinni fram á Seltjarnarnes, er þar var fiskigeingd mikil; en af því hann hafði ekkert skiprúm víst, gekk hann milli skipa og fékk að fljóta hjá ýmsum dag og dag. Hjá Sigurði bónda í Hrólfsskála fékk hann að róa 2 daga samfleytt; en hásetar Sigurðar fóru þá að verða þess varir, að Magnús væri ekki einn, þarsem hann var, og þriðja morguninn, er Magnús var kominn upp í skipið, og þeir Sigurður þegar komnir á flot, fóru hásetar hans upp úr með Móra; enda er sagt þeir hafi séð, eins og mórauðan hnykil eða hrossataðsköggul veltast með Magnúsi upp í skipið. Við þetta skipaði Sigurður, sem bæði er haldinn greindarmaður og gætinn, Magnúsi að fara upp aptur úr skipinu; því hann vildi ekki flytja hann leingur, hvort sem hann hefir sjálfur orðið nokkurs var um Móra, eða hann hefir ekki viljað, að hásetar sínir hefðu ótrú á Magnúsi, og gætu kent því um, að óhöpp stæðu af honum, ef illa tiltækist.

Svo virðist sem minna hafi verið um illar aðsóknir á undan Kort eldra, en sumum fyrri konu börnum hans og barnabörnum; hvort sem það er af því, að leingra er liðið, síðan hann var uppi, og sögur þær sén því mönnum úr minni liðnar, eða Móri hafi þá slegið sér meir á aðsóknirnar, þegar hann fór að fylgja börnum Korts, eða það hið þriðja, sem nokkrum þykir líklegast, að hann hafi ekki dirfst að vaða eins uppi, meðan Kort var lífs, eins og eptir hann látinn. Skal nú hér sýnt með nokkrum dæmum, hversu illa aðsókn þau Kortsbörn áttu, og síðan barnabörn hans, að minnsta kosti börn Magnúsar, og hafa öll þau óhöpp, sem öðrum hafa staðið af því fólki, eins og veikindi þess sjálfs og fénaðardráp, verið kend Móra, fylgidraug þess. Það var eina nótt, að húsfrú Ragnhildur á Meðalfelli í Kjós gat

með eingu móti sofið; önnur dóttir hennar svaf í sama húsi og hún, en hana gat hún ekki vakið með neinum ráðum. Henni heyrðist geingið inn í húsið um nóttina, og sezt á 2 kistla, er þar stóðu, og eitt rúm hið þriðja, sem einginn svaf þá í. En um morguninn í býtið komu þeir Kortssynir þrír, Magnús, Björn og Einar. — Jón bóndi Kristjánsson, sem nú er í Skógarkoti í þíngvallasveit, bjó, áður en hann fór þángað, á Meðalfelli í Kjós á móti húsfrú Ragnhildi. Jón varð fyrir því skakkafalli, að kýr hans fanust einn morgun, þegar í fjós var komið, svo á sig komin, að hún gat ekki staðið upp, en kvöldinu fyrir var hún hress og heilbrigð og mjólkaði vel; varð því að koma henni út með mannsöfnuði úr fjósinu á blóðvöllinn; því ekki var til annars að hugsa en drepa hana. Þegar búið var að flá hana, var annað lærið undir skinninu helblátt, svo því var fleygt. En sama daginn komu þeir Magnús og Björn, Kortssynir, að Meðalfelli, og veitti Jón þeim átölur nokkrar, fyrir það, hvað illa aðsókn þeir ættu, því þetta var kent Móra. — Magnús á Írafelli átti einu sinni Hallgrímskver í bandi um tíma hjá Ásgeiri bónda Finnbogasyni, sem nú er á Lambastöðum, en sem þá bjó í Bráðræði. Eitt kvöld var Ásgeir ekki heima, en kona hans beið eptir honum; vakti hún fyrst og var á fótum, en háttaði síðan og vakti við ljós, uns Ásgeir kom heim. Síðan háttar hann, og slökkva þau svo ljósið. Sá hún þá, hvar strákur kom inn í húsið, settist á stól fyrir framan rúmið, og lagði handlegginn upp fyrir rúmstokkinn; en hún svaf fyrir framan bónda, fannst henni handleggurinn svo þúngur og fyrirferðarmikill, að hún kallar upp og spyr, hver þar sè, eða hvort það sè Jóhannes, fóstursonur þeirra hjóna. En einginn gegnir að heldur. Hún spyr þá enn, hver, svo sem hún kvað á, væri kominn, og bað hann fara til hins neðsta og versta. Þá stendur sá, sem á stólnum sat, upp, og glennir glyrnurnar móti túnglinu, sem skein inn um gluggann; þaut hann síðan út um lokaðar dyr. Varð þá brestur svo mikill, að kynjum gegndi, og í sama vetfángi fellur niður hylla hinumegin í húsinu, er var á ská til við rúmið; stóðu í henni bækur margar, og þar á meðal Hallgrímskverið, sem Ásgeir hafði tekið af Magnúsi til að binda. Uppi á hyllunni voru og bollapör mörg, og fóru þau, eins og nærri má geta, í smámola, og hrutu víðsvegar um gólfið. Eptir þetta lèt húsfrú Sigríður kveykja ljós og vaka hjá sèr um nóttina, og gat lítið sofið. En um morguninn í býtið kom Magnús að Bráðræði, að spyrja eptir kverinu, sem stóð í hyllunni; var honum þá sagt, hversu góða fylgju hann ætti. — Um Björn Kortsson var þess áður getið, að hann hefði tvívegis átt illa aðsókn, sem aðrir bræður hans. En tvisvar þóktust menn auk þess hafa orðið þess varir, að Móri væri í fylgd með Birni. Maður nokkur mætti Birni einu sinni í norðurleið; en er þeir ætluðu að ríða hvor hjá öðrum, fældust hestar hans, og var það ætlun manna, að þeir hefðu sèð drauginn og fælzt hann, þó maðurinn sæi hann ekki. Í öðru sinni var það, að bærinn í Mýdal í

Mosfellssveit stóð opinn eitt vetrarkvöld í túnglsljósi og góðu veðri. Einn af heimamönnum kom einhverstaðar að, og er hann kemur í dyrnar, sèr hann strákhnokka stálpaðau innar í dyrunum, sem hann kannaðist ekki við, en datt í hug, að þetta mundi vera Írafells-Móri eptir lýsíngunni, sem hann hafði heyrt af honum. Maðurinn hugsar sèr nú, að króa Móra inni, til að handleika hann, og lokar hurðinni. Síðan lætur hann greipar sópa um bæardyrnar, og finnst eins og eitthvað verði fyrir sèr; en þegar hann ætlar að grípa það, líður það frá honum aptur, svo hann gat ekki handsamað það. En snemma morguninn eptir kom Björn Kortsson að Mýdal. Aðsóknirnar voru þó ekki hið eina ílt, sem menu ætluðu, að Björn ætti upp á Móra. Björn var, eins og alt það fólk, vandaðasti maður í öllum háttum sínum, geðlipur framan af og góðlyndur, auk þess sem hann var mesti dugnaðarmaður, og því var það von, að hann geingi mjög í angun á stúlkunum, sem sagt er að hafi sókt eptir honum ekki færri en 3, þegar hann var ýngismaður í Hjálmholti. Er þá mælt, að hann hafi tekið því í spaugi, og sagt, að það væri von, að þær sæktust eptir honum Móra; því honum var eins kunnugt og öðrum, að Móri fylgdi ætt sinni. Ein af þessum þremur stúlkum varð hlutskörpust, og sat uppi með Björn. En sumir hèldu, að þegar fram í sókti, hefði Björn ekki tekið öllu af henni með spaugi, eins og hann tók keskimálum þeirra Hjálmholtsstúlkna, því geðveiki ásókti hann mjög seinni árin, er hann lifði, svo ekki þókti dælt að lynda við hann; þókti það ekki ósjálfrátt og var kent Móra. Einar Kortsson, sem leingi var í Tjarnarhúsum hjá Lambastöðum, bjóst einu sinni heiman að frá sèr, og ætlaði upp í Kjós, til að finna þar frændfólk sitt, því þar var Korts-ætt mest. Þetta var snemma vetrar. Einar fór sjóleiðis yfir Kollafjörð og upp á Kjalarnes; en er hann kom þar, var farið að dimma. Hann hèlt þó á fram gángandi, og kom eptir vökulok að Skrauthólum á Kjalarnesi. Þó Einar væri þar ekki með öllu ókunnugur, vildi hann alt um það ekki gjöra af sèr ónæði, eða vekja þar upp, er fólk var alt nýsofnað. Hann rèð það því af, að leita fyrir sèr í fjósinu, hvort hann gæti feingið þar afdrep að liggja í um nóttina. Þegar hann kemur þángað, finnur hann þar auðan bás, leggst í hann og sefur af til morguns. Um morguninn er hann snemma á fótum, og finnur bæarfólk, og biður það að misvirða ekki við sig, að hann hefði gjört sig svo heimakominn, að fara í fjósið, og liggja þar í auða básnum um nóttina, því hann hefði ekki viljað gjöra því ónæði. Heimamenn kváðu honum það heimilt, og vel komið, þó hann hefði vakið þá upp um nóttina, en verri þækti sèr aðsókn hans, því um morguninn áður, en hann kom um nóttina eptir, hefði bezta kýrin legið hálsbrotin og dauð á sama básnum, sem hann hefði legið í, og liti svo út, sem Móri, fylgifiskur hans og þeirra Kortsbarna, hefði ætlað að ryðja til rúms fyrir húsbónda sinn, er hann var væntanlegur, og hefði þurft á básnum að halda, sem nú væri framkomið. Eptir það fór Einar frá

Skrauthólum, og hèlt á fram upp í Kjós um daginn. Kom hann þá snöggvast við á Grjóteyri, því hann átti þar eitthvað kunnugt fyrir, er hann ætlaði að finna. En svo vildi til sama morguninn, sem Einar fór frá Skrauthólum, að þá lá vetrúngur dauður í fjósinu á Grjóteyri, er að var komið, og hafði hann heingt sig í nautabandinu; það var og kent aðsókn Einars. Enn er sú saga um Einar og Móra, að Einar átti hest gráan, gripsval hið mesta, er hann hafði miklar mætur á. Einn morgun, seint á dögum Einars, lá Gráni dauður upp í lopt, svo þètt fyrir framan bæardyrnar í Tjarnarhúsum, að hvorki varð komizt út nè inn fyrir honum, fyrr en hurðin var tekin af hjörunum. Þetta þókti og hafa orðið af völdum Móra. — Ýmsar fleiri skráveifur gjörði Móri Einari, meðan hann fylgdi honum. Það var eitt, að Einar varð stundum eins og spiltur maður í andlitinu, eða holdsveikur, af útbrotum með hrúðrum og kýlum og rispum, eins og köttur hefði klórað hann; en ef á hann var geingið, af hverju hann hefði feingið það, vildi hann ekkert um það segja. Annað veifið hvurfu þessi útbrot aptur, og var þetta sem annað ókennilegt, sem Kortsætt þykir fylgja, kent Móra. — Þá sáu menn og það opt til Móra, að hann reið húsum hjá Einari, bæði bæarhúsum og eins byrgi, er hann átti, og trú var það, að Móri væri laungum í því við sjóinn; því opt varð vart við, að hundar ærðust þar og sprúngu með gelti og ólátum í kríng um byrgið, þó hvorki sæist menn nè málleysíngjar á ferð nærri byrginu.

Ekki hafa geingið miklar sögur af aðsóknum á undan Kort Kortssyni eldra, en þó þykjast menn kunna fyllilega frá því að segja, að Móri hafi fylgt honum, svo bæði hafi öðrum og sjálfum honum orðið mein að. — Veturinn 1833 stóð svo á, að Þorsteinn bondi í Þúfukoti í Kjós reri vetrarvertíð á Kjalarnesi, og fór heim um páskana, eins og siður er margra vermanna, sem skamt eiga heim. Hann fèkk hest að láni til ferðarinnar hjá Ólafi Íngimundarsyni í Mýrarholti á Kjalarnesi. En sama daginn fór og Kort Kortsson í Uppkoti í Eyrarhverfi heim til sín, því hann reri og á Kjalarnesi þá vertíð. Af því Kort var gángandi, bað hann Þorstein að reiða nokkuð fyrir sig. Var eitt af því skinnstakkur, sem Þorsteinn batt fyrir aptan sig. Hèlt Þorsteinn svo leiðar sinnar, uns vegir skilja að Þúfukoti og Uppkoti. Þorsteinn ætlaði að halda heim, en koma ekki við í Uppkoti; en þegar hann beinir hestinum á þá götuna, er lá heim að Þúfukoti, fannst honum og heyrðist jafnvel, sem þrifið væri til skinnstakksins fyrir aptan sig, og í sama vetfángi datt hesturinn niður dauður undir honum. Móra var kent um, að hann hefði sligað eða drepið hestinn, af því hann hefði viljað, að Þorsteinn skilaði skinnstakknum heim til Korts. Kort heitinn var annars, eins og mörg systkini hans, hálfsturlaður á geðinu, svo opt varð að hafa gætur á honum, að hann færi sèr ekki að voða, er hann reyndi opt til, þegar hann var svo á sig kominn. Í einu því kasti náði hann í hníf, og skar sig þegar á háls; en þá var komið að honum

og tekinu af honum hnífurinn. Var honum þá komið til læknis, sem græddi hann og saumaði aptur saman vælindið; en af því saumurinu hafði ekki tekizt vel, lèt ávalt einhvern veginn ókennilega í kokinu á Kort, þegar hann rendi niður. Seinast ætla menn, að hann hafi dáið af þessu sama sári, sem hann var einlægt að ýfa upp aptur, þegar óráðið kom að honum. — Solveig Kortsdóttir giptist Magnúsi bónda á Hjallasandi á Kjalarnesi og hafa þau búið þar mest allan búskap sinn. Henni segja menn Móri fylgi sem öðrum þeim systkinum. Þau Magnús höfðu haldið vinnukonu, sem Sigríður hèt, en seinna fór hún frá þeim til Ásgeirs bónda í Bráðræði. Sigríður húsfreya Ásgeirs og þessi vinnukona hennar voru einu sinni frammi í eldhúsi við einhver bústörf um kvöld. Þá segir vinnukonan við húsmóður sína: „Hvað skríður þarna á bakinu á mèr?“ og lítur eins og aptur fyrir sig um leið. Húsfreya segir, að þar skríði ekkert á henni. En í sama vetfángi líður yfir vinnukonuna, þar sem hún stóð. Komu þá til heimamenn og báru hana til rúms síns. Síðan rann af henni ómegið, en þá fèkk hún ógurleg uppköst En um það bil sem uppköstunum lètti, var guðað í bæardyrnar. Vinnumaður einn heyrir það innar í bæinn og segir: „Fáðu fjúk, hver sem þú ert,“ því hann áleit, að þar kæmi sá, er hefði sókt að Sigríði vinnukonu. Síðan var farið til dyra, og var þar komin Solveig Kortsdóttir, og spurði eptir sömu vinnukonunni, sem í aungvitið leið, því hún hafði erindi við hana. Þetta ætla menn að hafi verið fylgja Solveigar, Írafells-Móri, sem sókti svo illa að Sigríði.

Þá er enn að minnast á viðureign þeirra Móra og sèra Jóns Benidiktssonar, sem nú er á Setbergi í Snæfellsnessýslu, og á Guðrúnu Kortsdóttur frá Möðruvöllum. Sèra Jón varð prestur á Svalbarði í Þistilfirði í Þíngeyarsýslu 1818, síðan í Goðdölum í Skagafjarðarsýslu 1838, þá fèkk hann Breiðabólstað á Skógarströnd 1847, Hítarnesþíng í Mýra og Snæfellsnessýslu 1852, og Setberg í Snæfellsnessýslu 1855. Á öllum þessum brauðum er sagt, að Móri hafi átt að glettast við þau sèra Jón og konu hans, nema hvað þess er ekki getið, meðan hann var á Breiðabólstað. Þíngeyíngar segja, að Móri hafi mikið látið til sín taka um matskemdir, meðan sèra Jón var á Svalbarði, og sýnt honum þar ýmsan annan óskunda. Þar hafi og sèra Jón kastað til hans vænum vatnsstígvèlum, og beðið hann að fara svo til hins neðsta og versta. Allir aðrir en Þíngeyíngar segja, að sèra Jón hafi ekki gefið Móra stígvèlin, fyrr en hann var kominn að Goðdölum, en mjög fer tveunum sögum, hvar það hafi verið, hvort heldur á Mosfellsheiði, er sèra Jón kom að norðan, eða á Holtavörðuheiði, er sèra Jón reið norður. Fyrri frásöguinui hefir Dr. Maurer fylgt;[1] en eg læt mèr á litlu standa, hvor heiðin er, og held mèr þá við Mosfellsheiði, þótt hitt geti vel verið. Sèra Jón kom þá að norðan, sem áður er sagt, og mætti þar Móra. Var Móri þá búinn að gánga af sèr skó og sokka, og gekk á berum

1. Isl. Volkss. 85. bls.

kjúkunum og blóðrisa. Þar með var hann svo létt-búinn, eins og hann ætti lánga gaungu fyrir höndum, og hafði farið úr brókinni, svo hann var ber upp í rass. Séra Jón grunaði þegar, að Móri mundi ætla að heimsækja sig norður, og gaf honum þar af sér væn vatnsstígvél, eins og áður er sagt, og grænan frakka, aðrir segja hatt og bað hann aldrei vitja sín né sinna þaðan í frá. Sumir segja, að Móri hafi heitið því; en aðrir segja, að hann hafi heitið því, þángað til hann væri búinn að gánga niður úr stígvélunum. Eptir það er sagt, að þau séra Jón hafi verið laus við hann um tíma, uns þau voru komin að Hítarnesi. En víst er um það, að þó séra Jón hefði nú gefið Móra stígvélin, meðan hann var á Svalbarði, og eins þó menn á Suðurlandi segi, að Móri hafi fyrst ætlað norður, er þeir séra Jón mættust á Mosfellsheiði, þá er sú sögn Skagfirðínga, að Móri hafi gert vart við sig í Goðdölum; því einmitt þess vegna kölluðu þeir hann „Goðdaladraug.“

Öllum ber saman um það, að lángur tími hafi liðið, frá því séra Jón gaf Móra stígvélin af sér, að Móri hafði ekki vitjað hans; og eru það Mýramenn einir, sem kunna sögur um það, að Móri hafi farið að gjöra vart við sig aptur hjá séra Jóni þau árin, sem hann var prestur í Hítarnesþíngum (1852—1855). Menn þykjast vissir um það, að Móri hafi ekki geingið á heit sín, og komið fyrri, en hann var búinn að gánga niður úr stígvélunum; en þá gjörði hann líka vart við sig á þann hátt, að hann ekki einúngis drap fyrir séra Jóni beztu kúna, sem hann átti í eigu sinni í fjósinu, heldur er sagt, að hann hafi þríhryggbrotið hana, síðubrotið, heingt og hálsbrotið, þar sem hún stóð á básnum, og varaðist séra Jón síðan, að láta nokkuru nautgrip standa á hinum sama bás eptir það, meðan hann var í Hítarnesi, og svo kvað ramt að þeirri trú, að vinnukona ein, sem verið hafði hjá séra Jóni í Hítarnesi, og fór til eptirmannsins í brauðinu, varaði prestskonuna við, að láta einga skepnu á þenna bás. En prestskonan lét þángað kúna, sem henni þókti vænst um og bezt var, og hefir henni ekkert orðið meint af því enn í dag. Auk ýmislegs peníngs dráps og matspjalla, er Móra voru kend í Hítarnesi eptir þetta hjá séra Jóni, sókti Móri að honum með hræðilegu svefuleysi, að minnsta kosti var það svo, ef hann var annarstaðar nótt. Einhverju sinni sem optar bar svo við, að séra Jón var nætursakir í Vogi, og fór hann að hátta, eins og heimafólkið, um kvöldið, og sofnaði skjótt, að því sem stúlku þeirri virtist, sem var á fótum og vakti leingur en hitt fólkið, og var að gera eitthvað frammi í eldhúsi. Þegar hún hélt, að allir væru sofnaðir, heyrðist henni, sem klórað væri í stofuhurðina að innanverðu, þar sem séra Jón svaf; hún fer til og hlerar betur eptir, og heyrist enn hið sama. Síðan geingur hún að stofuhurðinni, og er þá hætt að klóra. Þetta geingur í þrjár reisur, að henni heyrist klórað í stofuhurðina; en er hún kemur að henni, hættir ávalt þessi ókyrleiki. Í þriðja sinni, er hún heyrir þetta, lýkur

hún upp stofunni, til að vita, hvort þar kynni að hafa orðið eptir hundur eða köttur inni um kvöldið; en það var ekki, og heyrði hún þá glögt um leið, að sèra Jón svaf vært; síðan lætur hún aptur stofuna, og fer svo að hátta, þegar hún var búinn að gjöra það, sem hún átti að gjöra niðri við. En þegar hún er að hátta, heyrir hún, að lokið er upp stofunni, og kemur sèra Jón þar fram og kallar til fólksins, og biður það um töskuna, sem hann hafi reitt fyrir aptan sig, því annars komi sèr ekki dúr á auga í alla nótt. Stúlkan varð fyrir svörum, sem var að afklæða sig, og sagði, að hann hefði þó sofið vært áðan, er hún hefði komið inn í stofuna. Hann játaði því, en þeirri værð mundi nú lokið, nema hann feingi töskuna. Hún sagði, að taskan væri læst úti í skemmu, og hún vissi ekkert, hvað bóndi hefði gjört af lyklinum, en hann svæfi og gæti hún ekki verið að vekja hann. Sèra Jón kvaðst alt um það vilja hafa töskuna, ella kæmi sèr ekki dúr á auga, það sem eptir væri nætur. Var svo bóndi vakinn eptir lyklinum, og taskan sókt. Tók sèra Jón við henni alls hugar feginn, og er ekki getið annars, en hann svæfi vel og einginn ókyrleiki heyrðist eptir það. En því ætla menn, að sèra Jón hafi svo ákaft viljað fá töskuna, að hann hafi haft í henni einhver svefnmeðul; enda kvað hann ávalt gæta þess vandlega síðan, að leysa töskuna frá hnakknum sínum, bera hana inn og hafa hana undir eða hjá rúminu sínu þar sem hann er nætursakir, og því ætla menn, að í henni sè annaðhvort einhver vörn við áleitni Móra, eða svefnmeðul.

Magnús á Írafelli átti 4 börn: Guðrúnir tvær, Guðríði og Guðmund. Guðrúnirnar gipti hann á sama hátt og Laban forðum dætur sínar, að hann hèlt vinnumenn, sem sátu síðan uppi með þær. Önnur þeirra átti Haldór nokkurn fyrir mann, og munu þau, eptir að þau áttust, hafa verið um tíma í húsmennsku hjá Magnúsi eða haft einhverja litla sneið af jörðinni með honum. Einu sinni varð Guðrún veik, og kom Móri til hennar, þar sem hún lá í einhýsi, og feldi fyrir henni öll bollapörin, sem hún átti í eigu sinni, ofan af hyllu fyrir ofan glugga, í sama herberginu, er hún lá í, og fóru þau, eins og nærri má geta, í þúsund stykki. Hin Guðrúnin giptist og vinnumanni föður síns, er Ólafur heitir, og hafa þau leingi búið í Reykjakoti í Mosfellssveit. Er það sagt, að Guðrún, kona Ólafs, sè opt veik bæði á geðinu, sem svo mörgum af Korts-ætt hefir verið hætt við, og eins á líkamanum; hún hefir og mist fjölda barna, og má vera að það sè með fram orsök til veikinda hennar. Það er mælt, að Móri hafi helzt eptir andlát Magnúsar tekið sèr vist til matar hjá þeim hjónum, Ólafi og Guðrúnu, og að hann haldi til fyrir ofan gólfker mikið, sem grafið sè niður til hálfs í búrinu. Þegar Guðrún er veik, svo aðrir verða að gángast fyrir matseld, er sagt, að Móri setji upp á sig hundshaus og sè honum drums um að þiggja mat sinn af öðrum, en Guðrúnu. Eingar sögur hafa farið af illum aðsóknum undan þessum tveimur systrum, enda

mun hin síðarnefnda sjaldan fara að heiman. Aptur á móti þykir Guðríður systir hennar eiga álíka aðsókn, og flestir af fyrri konu börnum Korts. Einn sinni hafði húsfrú Ragnhildur á Meðalfelli, sem fyrr er nefnd, látið ala snemmborinn kálf og gjöra honum vel til í alla staði; leið svo veturinn af og fram í græn grös vorið eptir, að honum var ekki hleypt út með kúm á morgnana, fyrr en undir hádegi, og tjóðraður í túninu, þar sem bezt var, heldur gefið inni ýmislegt, sem til fèllst, og var hann þá orðinn metfè eptir aldri. Einn morgun var kúnum hleypt út, eins og vant var, og farið síðan með kálfs-dallinn út í fjós til hans. Þókti þá fjósakonunni enn heldur snemt að hleypa honum út, svo hún fór inu aptur að borða úr askinum sínum. En þegar hún kemur aptur út í fjósið, sèr hún, að kálfurinn liggur steindauður á básnum með allar lappirnar út undan sèr. Var hann svo dreginn út úr fjósinu og farið að gera hann til. En varla var búið að rista fyrir á honum, þegar Guðríður, dóttir Magnúsar á Írafelli kom, og töldu menn það víst, að þetta hefði verið fylgjan hennar, sem drepið hefði kálfinn. En þegar rist var á kviðinn á kálfinum, sáu menn, að magállinn var rifinn eptir endilaungu, svo vömbin veltist út úr, þegar rist var fyrir, því henni hèlt ekkert nema skinnið, og öll innýflin voru marin.

Guðmundi, syni Magnúsar á Írafelli fylgdi Móri ekki síður en Guðríði, systur hans. Það var einn vetur, að Ásgeir bóndi á Lambastöðum hafði látið son sinn Þorvald til kennslu að Reynivöllum til sèra Ólafs Pálssonar, nú prófasts í Gullbríngu og Kjósarsýslu. En Þorvaldur fór heim til sín litlu fyrir jólin, til að sitja þau í foreldrahúsum; en svo var ráð fyrir gjört, að hans skyldi verða vitjað eptir þann tíma, ef einhver yrði á ferð úr Kjósinni. Það var eitt kvöld á Lambastöðum, að þau Þorvaldur og móðir hans svásu 2 í húsi; fram orðið var orðið, og ljós voru slökt, en þá varð Sigríði móður hans ílt, svo hún biður hann að kveykja aptur. Þorvaldur gerir það, og þegar hann er búinn að því, biður hún hann að sækja sèr vatn að drekka, og fara með ljósið með sèr, svo hann ræki sig hvergi á; því þó Þorvaldur væri þá ekki eldri en 12 vetra, var hann ómyrkfælinn og þurfti ekki ljósið þess vegna. Fer hann svo eptir vatninu fram í eldhús en skilur eptir ljósið í stofunni og stofuhurðina opna, svo að glampann lagði fram í eldhúsið. Síðan tekur hann vatnið í glas og ætlar inn, en í því hann snýr sèr við, sèr hann strákhnokka koma úr forhyrginu fyrir eldhúsinn, inn á eldhúsgólfið, en hvorugum dyrunum hafði verið lokað kvöldinu áður. Strákur þessi stendur þar í ljósglampanum berhausaður með harðastóran hatt í hendinni og í mórauðri úlpu, og rekur skygnurnar kánkvís og glottaralegur upp á Þorvald; horfast þeir þar í augu litla stund, því Þorvaldur segist ekkert hafa óttazt hann, en virt hann grant fyrir sèr, og man hann það enn, að honum sýndist strákur þessi allur loðinn í framan. En þegar Þorvaldur leit af honum augunum, var

honum æríð hverft við, svo að vatnið skvettist úr vatns-glasinu. En þá stökk upp skothundur, sem lá inni í stofunni, með ógurlegu gelti og út í gegnum eldhúsið og út í tún og fleiri hundar með honum, sem lètu þetta gánga lángan tíma. Daginn eptir komu 2 menn ofan úr Kjós, að vitja um þorvald, og var annar þeirra Guðmundur Magnússon, sem þá var í Káraneskoti. þóktust menn þá vita, að það hefði verið Írafells-Móri, sem þorvaldur hefði sèð um nóttina.

Einar Kortsson átti 4 dætur: tvær þeirra eru almennilegar, ein limafallssjúk, en hin fjórða þykir ekki með öllum mjalla. Hún heitir Guðrún og er 16 vetra gömul; og hefir þó ekkert orðið kent til þessa. Hún kvartar opt undan því, að „skömmin hann Móri“ sè að hrekkja sig og klípa, eða stríða sèr. Nýlega fèkk hún hnèmein, sem hún átti leingi í, og sagði hún svo sjálf frá, að það hefði komið af því, að Móri hefði hrundið sèr, svo hún hefði dottið á stein með hnèð. En eins og hún kennir Móra um öll þessi óföll sín, eins leikur orð á því, að hann eigi að vera valdur að vitsmunaskorti stúlku þessarar, þar sem hún er ekki talin öllu meir en hálfviti, og þykir það líkt ýmsum aðförum Móra við aðra í Kortsætt.

**Sels-Móri eða Þorgarður.** (Eptir sögnum á Álptanesi, Seltjarnarnesi og í Árnessýslu.) það eru drög til þessarar sögu, þó mörgum fari hèr um missögnum, að hjón nokkur bjuggu á Bústöðum, fyrir framan Hellirár.[1] Hjá þeim var vinnnmaður, sem þorgarður hèt. Var það haft í flimti, að konan hèldi við hann fram hjá manni sínum. Einnig þókti örla á því, að bóndi yrði að lúta í lægra haldi, en vinnumaðurinn, fyrir konunni; því gekk bóndi opt að óvaldari verkum og var úti í illviðrum, er þorgarður sat heima. Eitt af því var það, að bóndi stóð allajafna sjálfur yfir fè sínu á vetrum, er nokkuð var að veðri, og eitt vetrarkvöld í byl kom bóndi ekki heim, nè nóttina eptir, en hann hafði farið til fjárins morguninn fyrir og ætlað að standa yfir því um daginn. Morguninn eptir var farið að leita hans, og fannst hann þá í Helliránum með áverka af manna völdum, er menn ætluðu að hefði dregið hann til dauða. þorgarður var grunaður um þetta, af orði því, sem á honum lá og konu bóndans, og því er sagt að málið hafi verið prófað. Fór þá svo, að allar líkur bárust á þorgarð, þótt hann synjaði þverlega fyrir, að hann hefði valdið dauða húsbónda síns, og var honum því dæmt, eptir því sem sagan segir, annað hvort líflát (sumir segja heingíng), eða fèbætur, og skyldi hann mega leysa líf sitt með ærnu gjaldi. En hèr fór, sem vant er, að flestir kjósa fyrðar líf, og því vildi þorgarður bjarga sem leingst. Í þann tíma bjó sá maður á Seli á Seltjarnarnesi, sem Jón hèt; hann var orðlagður ríkismaður. þorgarður fer þá til Jóns og biður hann í allra krapta nafni, að leysa nú líf sitt. Jón var fyrst heldur tregur til þess. En af því þorgarður lagði mjög að honum,

1. það mun vera latmæli fyrir Elliðaá eða Elliðaár, sjá Ln. V, 12. kap., 312. bls.

og hèt að þjóna honum og niðjum hans af trú og dygð, meðan sèr ynnist orka og aldur til, gekkst Jóni svo hugur við vandræðum hans og bænum, að hann lèt til leiðast, og fór að telja lausnargjaldið fram á borðið; en þorgarður stóð yfir honum á meðan þegan Jón var lángt kominn að telja peníngana, kom Guðrún, kona hans inní stofuna, og spyr, hvað hann vilji með alt þetta fè. Jón segist ætla að leysa með því líf mannsins, sem þar standi. Hún bað hann ekki gjöra þá glópsku, því það eitt mannkaup mundi í þorgarði, að hann væri ekki sparandi frá heingíngu. Í því tekur húsfreya upp bæði svuntuhorn sín að neðan, geingur að borðinu, og sópar með annari hendinni öllum peníngunum þar ofan í, en heldur upp svuntuhornunum með hinni. Jóni bónda fèllust bæði orðtök og hendur við þessar aðfarir konu sinnar. En hún segir, í því hún ætlar að gánga út með peníngana í svuntunni, og lítur til þorgarðar: „Líði hver fyrir sínar gjörðir." þorgarður segir: „Ekki mun hèr skilið með okkur; [því ekki er það meira en fyrir mig að sjá svo um, að kveðja mín fylgi ykkur hjónum og ætt ykkar í níunda lið."[1] Síðan fór þorgarður burtu og var tekinn af. En tvímæli eru á því, hvort það hafi heldur verið gjört hèr í landi eða ytra, þó er það helzt á orði, að hann hafi verið heingdur í Kópavogi, og geingi hann þegar aptur og sækti að Selshjónunum, en einkum að Guðrúnu, konu Jóns, eins og hann hafði heitazt um; kom þá bæði rænuleysi og óráð yfir Guðrúnu. Af því draugur þessi var um lánga tíma viðloðandi á Seli, var hann kallaður Sels-Móri, en þorgarður alt af annað veifið, og því nafni heldur hann enn, af því maðurinn hèt svo. þau Selshjón áttu dóttur eina, er þorgerður hèt; hennar fèkk Haldór Bjarnason, merkisbóndi í Skildínganesi, og með henni bæði auðinn allan þeirra Selshjóna, að þeim látnum, og ættarfylgjuna, þorgarð eða Móra, þó litlar sögur fari af honum bæði í tíð þeirra Skildínganeshjóna, og eins á meðan Bjarni, sonur þeirra, var á upprèttum fótum í Viðholti; því Bjarni sá var hinn mesti forkur. Mun hann vera einn þeirra lögrèttumanna, sem Magnús lögmaður Ólafsson útnefndi seinast á alþíngi við Öxará 1798, og bjó Bjarni þá á Hliði á Álptanesi.[2] Eptir það varð Bjarni skóla-oeconomus, þegar skólinn var fluttur að Bessastöðum, en bjó þó leingst í Viðholti, og var sannnefndur hèraðshöfðíngi á Álptanesi. þótt nú Móri gerði ekki mikið fyrir sèr, hvorki í Skildínganesi hjá Haldóri, nè í Viðholti, meðan Bjarni sat uppi, var hann þar þó helzt viðloða, og lánga tíma eptir það, meðan niðjar Bjarna bjuggu þar, og því var hann stundum kallaður Sviðholts-draugur, en þó miklu optar eiginnafni sínu, þorgarður. Bjarni í Sviðholti átti mörg börn og

1. þrennum sögnum fer um svör þorgarðs frá [; sumir segja, að hann hafi sagt: „því aptur mun eg gánga, og fylgja ykkur og ætt ykkar, körlum í 7. lið, en konum í 9., þar sem eg á ógæfu mína fremur upp á konu en karl." En aðrir segja svo frá orðum hans: „því fylgja mun eg afspreingi ykkar, og þó ávalt verri í kvennlegginn."

2. Sbr. Árb. Esp. XI, 92. bls., og XII, 163. bls.

mannvæn, sem kunnugt er, og þókti fremur örla á því, að Móri glettist við þau og jafnvel niðja þeirra, sem nú lifa. Önnur dóttir Bjarna, sem þuríður hèt, giptist Benedikt stúdent Björnssyni frá Hítardal sem leingi hefir verið prestur í Fagranesi. Hún var mesta skýrleikskona; en það mótlæti sókti á hana, að hún varð hálfbrjáluð og stundum óð með öllu. Út úr því skildi hún við mann sinn, og tók Ragnheiður, systir hennar, hana þá að sèr, kona Jóns Jónssonar, skólakennara á Bessastöðum, og eptir það fyrri kona Bjarnar Gunnlaugssonar yfirkennara í Reykjavík. Hjá henni mun þuríður hafa dáið. Eitt með öðru er það haft eptir þuríði í óráðsköstunum, að hún hafi átt að segja: „Systir mín, það er naðra að stínga mig,“ en aðrir segja: „Hún Ingibjörg er alt af að stínga mig með skónál í hjartað.“ Ætla menn, að hún hafi átt við Ingibjörgu, dóttur Jóns á Álptanesi, sem var hjá þeim hjónum, Benedict og þuríði, áður en þau skildu, en varð síðan seinni kona sèra Benedicts, svo að þuríður hafi þar, ef til vill, haft ráð með óráði. Ættarfylgju þuríðar var kent um þenna veikleika hennar, sem þó hefir ekki borið á til muna síðan í ættinni; en stórlynt þykir það fólk sumt, og ekki alt við alþýðuskap. Eingar sögur hefi eg heyrt um það, að þorgarður hafi átt að ásækja húsfrú Ragnheiði Bjarnadóttur, sem fyrr er nefnd; en sagt er að það hafi verið í mæli á Suðurlandi, að bæði hafi hann átt að vera þess ollandi, að póstskipið týndist 1817, af því fyrri maður hennar sigldi með því og fórst með því undir Jökli,[1] og eins hafi hann ollað dauða þórðar heitins Bjarnasonar í Sviðholti; enn er það og í mæli, að hann eigi að fylgja börnum Ragnheiðar, einkum Bjarna rektor, og hafa sumir þókt verða varir við það, að svo væri.[2]

þess skal hèr getið um leið, að Bjarni Haldórsson í Sviðholti átti systur þá, sem Jórunn hèt; hún var svarri mikill og skrautkona. Sagt er, að maður nokkur á Álptanesi hafi beðið hennar. En henni þókti sá ráðahagur fyrir neðan sig, að eiga hann, og veitti honum því afsvar. þá er sagt, að hann hafi heitið því fyrir sèr, þegar Jórunn aftók við hann um eiginorð, að hann skyldi eigi að síður loða við ætt hennar, þó sèr væri fyrirmunað að komast í hana á þann hátt, sem hann vildi. Eptir það giptist Jórunn Eyólfi stúdent Jónssyni, sem þá var í Sviðholti, en flutti sig seinna að Skógtjörn á Álptanesi, og þókti þar merkismaður í sveit. þau Eyólfur áttu eina dóttur barna; hún hèt þorgerður eptir ömmu sinni. Ekki höfðu þau Eyólfur verið leingi saman, þegar þess varð vart, að Jórunn hafði geðbrest nokkurn, sem fór því meir í vöxt, þess leingur sem leið, og þar kom um síðir, að hún varð brjáluð með öllu, þóktu þar hafa framkomið heitíngar biðilsins, sem áður var getið. þegar þorgerður Eyólfsdóttir var orðin gjafvaxta, beiddi hennar og fèkk Eggert Bjarnason, sem

1. Jöklamenn hafa aðrar sagnir um það, hvernig sá skipreiki hafi orsakast. Sjá seinna í galdrastöfum.

2. Sbr. Dr. Maurers Isl. Volkss. 86. bls.

um það leyti mun hafa orðið prestur að Snæfoksstöðum (Klausturhólum) í Grímsnesi. Fór hún svo austur með honum, og áttu þau börn saman. Liðu nú svo fram tímar, til þess Jórunn, móðir Þorgerðar andaðist; hafði hún aldrei orðið heil á geðsmunum frá því sú tirming kom yfir hana, eptir að hún giptist. En ekkert hafði vottað til þeirrar veiki á Þorgerði, meðan móðir hennar lifði; enda hafði hún aldrei suður komið, frá því hún fór austur, og er það sagt, að séra Eggert hafi verið varaður við því, að láta hana fara suður, og aldrei koma út fyrir Sog eða Álptavatn, og mundi hana þá ekki saka. En þegar Jórunn á Skógtjörn dó, er mælt, að Þorgerður hafi beðið mann sinn að lofa sèr nú suður með honum, og hafi hann færzt undan því í fyrstu, en þó látið til leiðast, þegar hún lagði meir að honum. Segir svo ekki af ferðum þeirra hjóna, fyrr en þau voru komin suður yfir Hellisheiði, suður í Fóelluvötn, fyrir ofan Helliskot, þar er sagt að hafi svifið að henni, og hafi hún aldrei orðið jafngóð síðan. Ætla menn, að fylgidraugur móður hennar, eða Þorgarður, sem nokkrir hyggja,[1] hafi hitt hana þar fyrst og ásókt hana þaðan, meðan hún lifði, en það var ekki mjög leingi eptir það. Börn þeirra sèra Eggerts og Þorgerðar hafa sum þókt auðnulítil, og tvær af dætrum þeirra orðið brjálaðar.

**Sólheima-Móri.** (Eptir sögusögn úr Breiðafjarðardölum.) Á öndverðri 19. öld bjó að Skriðnesenni í Bitru bóndi, er Finnur hèt. Kona hans hèt Guðrún en fósturdóttir Elisabet. Vinnumaður var hjá þeim er Hallur er nefndur. Hallur lagði hug á Elisabet, en það var mjög á móti vilja þeirra hjóna. Hallur átti að róa undir Jökli um veturinn, og áður hann fór til sjávar beiddi hann Elisabetar, en var synjað, og fór því að heiman í þúngu skapi. Um veturinn fyrir þorra fer Elisabet sem optar til kirkju að Eyri, og er hún kemur heim aptur um kvöldið sezt hún á rúm sitt, tekur ask sinn og ætlar að fara að borða, en í sama vetfángi snarar hún frá sèr askinum, og segir, að mórauð flyksa ætli að sèr; fær hún þá niðurfalls-sýkis-kast, og er þegar örend. Upp frá þessu fer að örla á reimleika á Enni; fólk þar fer að láta illa í svefni, verður myrkfælið og sækir illa að, þá það kemur á aðra bæi, og auuað því um líkt. Bóndi var einarður maður, og ber þetta úr fólki, en alt kemur fyrir sama. Guðmuudur hèt bróðir konunnar, heimamaður að Enni; að honum sókti hvað mest; sýndist honum það vera strákur búkmikill, en klofstuttur, í mórauðri úlpu með lambhúshettu á höfði, og skott aptur úr. Nú fóru fleiri að sjá draugsa og á sama hátt, og kölluðu þeir hann því Móra. Guðmundi þókti varla vært um veturinn að Enni; hann fer því að heiman og vestur á sveitir til fjölkunnugs manns. Hann verður þar þess vísari, að í Rifi hafi druknað menn á skipi um eða eptir nýar, og einn þeirra heitað Friðrik; muni

1. Víst er um það, að nokkrir kalla þenna draug, sem átti að hafa grendað húsfrú Þorgerði í Vötnunum, einnig Sviðholts-draug.

Hallur hafa feingið mann til að vekja þenna Friðrik upp og sent Elisabet og fólki hennar, og svona sè Móri undir kominn. Nokkru síðar fluttu þau hjón, Finnur og Guðrún, sig að Sólheimum í Laxárdal, og upp frá því var draugurinn nefndur Sólheima-Móri. Hann varð opt skepnum að lífs eða lima tjóni, þegar Finnur var á ferð, og margt gjörði hann fleira ílt, að menn segja. Bjarni er nefndur vinnumaður í Sólheimum; hann varð ókennilega veikur með aðsvifum, og þegar þau komu að honum, þóktist hann sjá Móra sækja að sèr. Eitt aðsvifa-kastið reið honum að fullu. Jóhann er nefndur annar vinnumaður að Sólheimum, og var hann þar á eptir Bjarna; hann var harðskeytinn og ófirirleitinn, og kvaðst aldrei mundi Móra hræðast; hann var fjármaður. Eitt kvöld kom hann ekki heim í sama mund, og vant var; var hans þá leitað, og fannst hann þá dauður inni í heytópt, og líkaminn allur blár og blóðugur. Þá er lík Johanns var flutt á kirkjuna, sýndist fólki af næstu bænum, sem sá til líkfylgdarinnar, sem maður riði fyrir aptan líkið á hestinum, en hesturinn sligaðist undir líkinu á miðri leið, og var hann þó talinn úlfaldagripur.

Guðmundur sá, er fyrr var getið, bjó að Broddanesi. Eitt sinn ætlar hann í Hrútafjörð með viðarfarm á skipi, en landveg til baka með kýr og kindur; hann átti hund mjög fylgispakan. Um morguninn, er af stað skyldi fara, fannst hundurinn hvergi, og var hans leingi leitað; loksins fannst hann inn undir palli, og varð Guðmundur að bera hann nauðugan á skip. Veður var gott; en er skipið kom inn undir Kollsá, hvolfdi því; tveir komust á kjöl er menn sáu, og rak skipið fyrir norðankuli inn eptir Hrútafirði. Bátar þar voru allir frosnir niður og áralausir; var því lítið um hjálp, en svo var að sjá, sem skipinu væri bægt fra hverju annesi; rak það mannlaust á Bæarnesi. Þessi atburður er kendur Móra. Eitt sinn fór Finnur í Sólheimum verzlunarferð að Búðum, og verzlaði við lausakaupmann, er lá í Búðaósi; á ferðinni í land hvolfdi bátnum, varan týndist og einn maðurinn druknaði. Rètt áður en bátnum hvolfdi, þóktust menn hafa sèð fyrir víst, að einum var fleira í bátnum, en vera átti, og var fullyrt, að þar hefði Móri verið. Það er haft eptir Finni, að aldrei mundi Móri granda sèr, og varð sú raun á. Nú þykir Móri vera orðinn mjög dofnaður og kyrlátur; samt er ekki trútt um, að enn þyki sem Sólheimafólk sæki illa að.

Hallur, sem áður er nefndur, kvongaðist vestur undir Jökli, og þókti jafnan mesta illmenni. Er það haft í frásögum um hann, að eitt sinn þegar hann misti dóttur sína, og lík hennar lá á börunum, reiddist Hallur konu sinni, og í hefndar-skyni misþyrmdi hann líkinu, og braut í því hvert beiu.

**Hörghóls-Móri.** (Eptir handriti séra Skúla Gíslasonar á Stóranúpi.) það er sagt, að hann hafi verið einn af þeim draugum, sem vaktir hafa verið upp volgir. Hann fór á undan fólki frá Hörghóli, hvar sem það kom, og er mælt hann hafi í fyrstu drepið menn og fénað. En mikið linaðist hann eptir viðureign sína við þórð sterka á Bjarnastöðum; er sagt þeir hafi tekizt á heila nótt, og rifið sundur nýtt brekán. þórður náði hvergi taki á Móra, því hann var líkastur því, sem hann væri þófinn ullarflóki. Aldrei varð þórður jafngóður síðan.

Auk Móranna, sem nú hefir nokkuð verið af sagt um sinn, má enn nefna Langalands-Móra í Barðarstraudarsýslu, og Keflavíkur-Móra í Skagafjarðarsýslu.

Goggur. Líkastur Mórunum er draugur sá vestur í Breiðafirði er Goggur heitir, en gogg kalla menn járnkrók, sem kofur og lundar eru dregnar með út úr holum sínum, eður þá ífæru, er fiskimenn hafa til að bera í stórdrætti, sem koma undir borð. Um Gogg er laung saga fyrir vestan; um upptök hans er mèr ókunnigt, nema hvað mig minnir að hann sè uppvakníngur, og svo til kominn, að maður heitaðist við Ólaf nokkurn bónda í Ólafsdal, að hann skyldi senda honum sendíngu. Er ekki sagt frá því, hvernig það atvikaðist, en skömmu síðar átti Ólafur þessi leið utan frá Stóra-Holti og inn að Ólafsdal þar sem hann bjó. Leiðin liggur inn með fjörum, og var aðfall sjáfar og farið að dimma. Á miðri leið eru hólar sæbrattir, sem Moldhólar eru kallaðir, og er þar skuggalegt; og segir ekki af því, nema þegar Ólafur kom að Moldhólum, kom að honum lítill púki, með krókhúfu á höfðinu. Ókind þessi slóst nú í ferð með Ólafi, og vildi ávalt ganga síðar, en Ólafur varaðist hana, og gengu þeir þannig lánga leið inn eptir fjörum, að Goggur fór ávalt í bug við Ólaf; þángað til kom inn á Ólafsdalseyrar fyrir neðan bæinn í Ólafsdal; þar gat draugurinn komizt aptan að Ólafi, og segir ekki af skiptum þeirra, nema Ólafur fanst þar dáinn um morguninn, en atvik þessi öll dreymdi konu hans heima á bænum þessa sömu nótt. Eptir þetta fylgdi Goggur, og fylgir enn í dag, að sögn manna, Ólafsdalsætt.

Að lyktum skal hèr viðbæta nokkrum sögum um drauga, sem sagt er að hafi fylgt einstökum bæum eða bygðarlögum, og set eg þá fyrstan þeirra:

Voga-draugin n. þegar Jón heitinn Daníelsson kom að Stóru-vogum í Gullbríngusýslu, var þar mjög reimt, og stóð svo á því, að bóndi sá, sem þar hafði búið á undan honum, hafði einu sinni úthýst manni í misjöfnu veðri, köldum, og að líkindum svaungum. þessi maður ætlaði þá, þegar hann fèkk ekki inni í Vogum, að fara út í Njarðvíkur, út yfir Vogastapa, og leita þar fyrir sèr. En um morguninn eptir fannst hann dauður út á Stapa, nærri Grímshól; var hann borinn heim að bæ þeim, sem honum var úthýst frá kvöldinu áður. þegar komið var með hann í

hlaðið, brá bónda svo við, að það leið yfir hann; sumir segja, að hann hafi orðið á sömu stund bráðkvaddur, en hinir, að hann hafi raknað við aptur úr aungvitinu, en aldrei orðið jafngóður, og þetta hafi dregið hann til dauða. Þegar búið var að grafa þann, sem úti varð, fór þegar að bera á reimleika í Vogum hjá bónda, og batnaði ekki hót við það, að hann dó. Menn eignuðu það því, að sá, sem úti hafði orðið, vildi hefna sín fyrir það, að honum hefði verið vísað á bug úr Vogum, og orðið svo úti. Þegar Jón kom að Vogum hèlzt reimleikinn enn við, þó alt fólk væri þaðan farið, sem þar hafði verið, þegar manninum var úthýst. Varð Sigríði, konu Jóns, einna mest mein að því, og ásókti þetta hana með svefnóværð mikilli, því ekki hafði hún fyrri fest blund á kvöldin í rúminu fyrir ofan mann sinn, en hún fór að láta illa í svefninum. Fyrst í stað vakti Jón hana, en jafnskjótt, sem hún blundaði aptur, kom að henni sama óværðin. Aldrei kom þetta fram við Jón sjálfan, en ekki var leingi, áður honum leiddist þessi áleitni. Eitt kvöld, þegar Jón heyrir, að fer að korra í konu sinni, rýkur hann á fætur aptur, og fer ofan, og tekur sax í hönd sèr, og segir ef djöfull sá láti sig ekki í náðum og alla sína, skuli hann reka í hann sveðjuna, og vísar honum til fjandans. Eptir það hætti reimleikum hjá Jóni. En þegar reimleikinn hvarf frá Vogum, fór hann að gjöra vart við sig í Tjarnarkoti í Vogahverfinu, og var það þó ekki af því, að þar væru heldur neinir niðjar þess, er hafði úthýst manninum. Sókti draugurinn einkum á bóndann þar, og það svo, að hann varð gjörsamlega óður eina nótt. Var þá sent heim að Vogum eptir Jóni, því Vogamenn leituðu jafnan liðs hjá honum í flestu, sem þeir við þurftu; og kom hann vonum bráðar. En þegar bóndinn í Tjarnarkoti sá hann, var hann svo óður, að hann sagðist ekki hræðast neinn, nema andskotann hann Jón Daníelsson. Gekk þá Jón að manninum, og segist þá muni neyta þess, að hann sè hræddur við sig, og skipar hinum óhreina anda út úr manninum með mikilli alvörugefni. En svo brá við það, að maðurinn fèkk þá værð og datt í dá. En Jón fór þegar út; fylgdi hann hinum óhreina anda burt frá bænum í Tjarnarkoti og þángað, sem nú er búð sú í Vogum, sem heitir Tuðra. Þar kom hann honum fyrir og bað hann sökkva þar niður til hins neðsta og versta helvítis, þaðan sem hann væri kominn, og gjöra aldrei framar mein af sèr í Vogum. Við þessi ummæli Jóns hvarf reimleikinn þegar, svo hvorki bóndanum í Tjarnarkoti nè neinum öðrum varð eptir það meint við hann. En þó hefir þókt örla á því opt, að ekki væri alt hreint í Tuðru.[1]

1. Sagan er tekin eptir Páli gullsmið Einarssyni á Meðalfelli í Kjós, en honum sagði Jón Daníelsson sjálfur.

**Heygarðs-draugurinn á Hvítárvöllum.** (Eptir frásögn Borgfirðinga.) Einhvern tíma var vinnumaður á Hvítárvöllum, sem hvorki er nefndur sjálfur, nè hver hafi verið húsbóndi hans. Hann var þar garðmaður og tók til alt heyið, og hafði nóg að starfa, því þar var þá nautpeníngur mikill, bæði kýr og geldneyti. Maður þessi lagði hug á stúlku þar á bænum, en hún vildi ekki eiga hann. Af því varð maðurinn þúnglyndur og að lokum ekki mönnum sinnandi. En garðverk stundaði hann þó eigi að síður, uns hann fannst heingdur í hálsklútnum sínum í einni heygeilinni. Þóktust menn þá vita, að hann hefði fargað sèr sjálfur af harmi, af því hann fèkk ekki stúlkuna, sem um það leyti lofaðist öðrum manni. Kvöldið áður en hrúðkaup hennar átti að verða að morgni, var veður gott og túnglsljós hjart. Stúlkan átti ýmislegt eptir ógjört, og þar með hrúðarskó sína. Hún sagði við stúlku nokkra á Hvítárvöllum, að hún skyldi koma með sèr fram í hæardyr, því hún ætlaði að gera þar skóna, fyrst svona væri fagurt og hjart úti, en ekki kominn sá tími að farið væri að kveykja. Stúlkan gjörði svo, og voru þær þar um hríð, hrúðarefnið við skógerðina og hin stúlkan að dóta sèr, þángað til hún settist niður hjá hrúðarefninu. Þegar stund var liðin, fer stúlkuna að syfja og geispar hún mjög. Brúðarefnið segir, að hún skuli þá fara inn og hátta, fyrst hún sè svona syfjuð; sèr sè eingin skemtun að henni, hvort sem sè, enda muni ekki villa um sig í hlíðunni og birtunni þeirri arna. Stúlkan gerir svo, fer innar og leggur sig fyrir, en hrúðarefnið situr kyr sem áður, og lýkur við skóna. Þegar hún er búin með þá, verður henni litið út; sèr hún þá, hvar maður kemur neðan túnið, heldur fasmikill og heilsar henni ekki. Hún yrðir á hann að fyrra bragði, og spyr, hver hann sè. Maðurinn segir henni það, og það með, að hann eigi erindi við hana. Hún segir: „Það fór þá hetur, að eg var ekki háttuð, fyrst þú átt erindi við mig, en hvert er nú erindið?" „Eg ætla að drepa þig," segir hann. „Það held eg þú látir ógert," segir hún; „og gjörðu nú annaðhvort, að þú far til hins neðsta og versta helvítis, eða farðu til andskotans norður á heygarð, og róðu þar til eilífðar, en af mèr hefir þú hvorki mjótt nè mikið annað." „Og þúsund sinnum heldur norður á heygarð," segir draugurinn; hrá hann þá skjótt við, og fór þángað, og hafa skygnir menn tíðum sèð hann róa þar. Eptir það var stúlkan laus allra mála við hann. Um þenna draug er það allmerkilegt, að hann er einn af þeim fáu, sem gjörir gott, en ekki ilt. Það er sumsè almæli, að þó veðrasamt sè á Hvítárvöllum, eins og víða er í þeirri sveit, rjúfi þar aldrei hey í garði, ef hvorki sè borið á þau grjót, nè sig, og þakka menn það draugnum, sem liggi á heyunum, og verji heygarðinn fyrir öllum heysköðum, ef hann má vera einn um hituna. En ef menn láta þar sig á hey, og hera grjót á, er sagt, að það hey rjúfi og hvirflist burt niður að garðsetum. Einu sinni, er veður gjörði hvast, voru meðal annara tvö hey í Hvítárvalla-heygarði, annað nýuppborið af lausu og lèttu útheyi og ótyrft, en

annað þètt og sígið hey, tyrft og vel um búið. En alt um það flettist af því heyinu alt torfið og grjótið, eins og því væri fleygt, og heyið sjálft þyrlaðist út um alt; en hitt heyið, sem var nýuppborið, haggaðist ekki hót.[1]

**Reimleiki á Auðkúlu.** (Eptir sögnum Húnvetninga.) Í lángan tíma eða að minnsta kosti það, sem af er þessari öld, hafa prestar ekki þókt verða lánggæðir á Auðkúlu, sem optast er nefnd Kúla, því síðan um 1800 hafa þar þjónað 8 prestar, en 9 hafa haft veitíngu fyrir brauðinu, en einn kom aldrei þángað. Ekki er nein vissa fyrir því, að reimleiki þessi standi í nokkru sambandi við söguna um Sigurð prest á Auðkúlu,[2] því litlar sögur hafa farið þaðan, frá því hann dó, og þángað til á þessari öld. Frá 1803—1817 var þar prestur sá, sem hèt Jón Jónsson hinn eldri, faðir sèra Daníels, sem leingi hefir verið á Kvíabekk og þeirra barna. Sèra Jón var vel látinn bæði af sóknarfólki sínu og öðrum, sem maklegt var, því hann var góðgjörðamaður og greiðvikinn. Hann var og búsýslumaður mikill, og mátti vel, eins og flestir prestar á Kúlu, og unni hann því staðnum[3] mjög. Einu sinni voru vermenn nótt hjá honum, sem optar, í suðurleið um vetur. Veitti hann þeim að vanda sínum góðan beina, og daginn eptir, er þeir fóru af stað, fylgdi hann þeim út yfir vatn (Svínavatn), sem lá þá með ísi;[4] þó kallað sè, að Svínavatn liggi alt enda á milli, er það sjaldan, að þar sèu ekki vakir í einhverstaðar, og er það mál manna, að það sè nykrinum að kenna, sem sè í Svínavatni, en líkara er, að vakirnar komi af kaldaversli, sem rennur í vatnið, auk þess, sem í það falla, og úr því, ár og lækir, en við árminnið og lækjarósana er hættast við, að vakir verði, enda verður þess vart á ýmsum stöðum. Þegar sèra Jón skildist við vermenuina, neytti hann þess, að hann átti góðan hest, er hann reið þá, sem endrar nær, og er það í mæli, að til hans hafi átt að sjást heiman að frá Kúlu, er hann hleypti hestinum, og eins það, er hesturinn steyptist með öllu saman í vök eina út undan Kúlunesi. Þó eru þar um missagnir nokkrar, sem ljóðmæli þau sýna, sem kveðin voru um hvarf sèra Jóns; þar er þetta úr:

„Vers til mönnum fylgja fór,
fús með eingum þjósti;
töðu-alinn teygði jór
á Tvíblinds-kvinnu brjósti."

1. Heyrt hefi eg suma Borgfirðinga kalla Skotta eða Hvitárvalla-Skotta draug þann, sem liggi þar á heyunum; en eingan karldrang hefi eg annan heyrt nefndan því nafni. Sumir segja og, að það sè Stormhöttur, sem verji þar heyin, sbr. 1. neðanmálsgrein við Hvitárvalla-Skottu á 363. bls.

2. Sbr. þessa sögu í Uppvakningum, 344.—345. bls.

3. Auk þess, sem prestssetur á Íslandi eru alment kallaðir „staðir," heitir Kúla í Landn. III, 5. kap. (Kh. útgáf. 1843, 184. bls.) Auðkúlustaðir, og eins í öllum fornbrèfum.

4. Árb. Esp. XII, 92—93.

þar í er og þetta:

„Einginn veit um afdrif hans,
utan hvað menn sáu:
skaflaförin skeifberans
á skör til heljar lágu.“

Og enn var þetta kveðið um atburð þenna:

„Kúlu deyði klerkur frá
komst í neyð, þar vökin lá;
vatnið reið í Svína sá
sínum skeiði jórnum á.“

Hvort sem nú sannara er, að sèzt hafi til prests frá Kúlu, er hann reið í vökina, eða hitt, sem önnur vísan segir, var farið að leita hans, er hann kom ekki heim. Sáust þá skaflaförin eptir hestinn að vökinni öðru megin, en hattur prests og starkóngur af beizli hans hinu megin. Áf því var það ráðið, að prestur mundi hafa komizt upp úr vökinni aptur og ætlað síðan að draga hestinn upp, slitið þá starkónginn af beizlinu, náð svo til hestsins aptur, en hann dregið prest í vökina. En prestur faunst ekki allan veturinn, fyrr en um vorið, að ísa leysti af vatninu, og var hann þá slæddur upp; festist ein slæðan í blárri peysu silfurhneptri, er hann hafði verið í um daginn, sem hann drukknaði, eins og hann var vanur að vera, þegar hann hafði minna við, því þá var enn ekki sá vani orðinn, að prestar væru alment kjólklæddir heima eða heiman, ef þeir fóru skamt.

Þegar sama daginn, sem sèra Jón fór í vatnið, þókti hans verða vart. Á úthallandi degi var vinnumaður í Stóradal að gefa fè í garðahúsi. Þegar hann kom fram á garðann með fyrsta hneppið, sá hann, að allar ærnar höfðu troðizt saman í aðra króna, en hin var tóm fram úr gegn. Honum þókti þetta undarlegt, og fer að gá betur að. Sýnist honum þá sèra Jón á Kúlu standa innarlega í auðu krónni í bláu peysunni sinni silfurhneptu. Maðurinn heilsaði honum kompánlega; en prestur tók ekki undir við hann. Maðurinn yrðir þá eitthvað á hann aptur, en alt fór á sömu leið, prestur gegnir ekki að heldur. Fer svo maðurinn inn aptur í heytóptina eptir öðru hneppinu, og hugsar, að þetta sèu glettur af presti, og hafi hann ætlað að gjöra sèr bilt við með þessu. Þegar hann kemur fram á garðann með næsta hneppið, sèr hann, að fèð er búið að jafna sig á garðann í báðum krónum, en prest sèr hann hvergi. Þykist hann þá vita, að hann muni hafa farið heim að bænum í Stóradal, og muni hann hitta hann þar. Eptir það lýkur maðurinn útiverknm og kemur svo heim; spyr hann þá, hvar prestur sè; en heimamenn sögðu, að þar hefði einginn prestur komið allan þann dag. Maðurinn bað þá ekki segja sèr neitt af því, þar sem hann hefði með eigin augum sèð prestinn í bláu peysunni sinni, og hann hefði komið til sín, meðan hann hefði verið að gefa á eitt húsið, og vildi alls ekki trúa því, að hann væri þar ekki, hvernig sem heimamenn synjuðu

fyrir það, þángað til hann gekk úr skugga um það sjálfur, að prestur hefði ekki getað komið að Dal um daginn, þegar hann frètti seinna frá Kúlu, hvernig farið hafði.

Sama veturinn sem sèra Jón eldri dó, fèkk sèra Jón ýngri veitíngu fyrir Kúlu, faðir sèra Jóns sáluga á Barði í Fljótum og þorsteins heitins Jónssonar kaupmanns í Reykjavík († 1859) og þeirra barna. Áður hafði hann verið prestur í Goðdölum í Skagafirði (1800—1817). Hann vildi fyrir hvern mun komast að brauðinu og bújörðinni allri um vorið; en ekkja sèra Jóns eldra, Íngibjörg Oddsdóttir frá Miklabæ, var eptir á Kúlu með mörgum börnum, og vildi hún gjarnan búa á Kúlu næsta ár, með því ekki lá þá hentugt jarðnæði á lausum kjala handa henni. Sèra Jón ýngri var kappsmaður og vildi vera einn um hituna á Kúlu, og vann það með fylgi sínu, að bóndinn í Litladal var borinn út þaðan frá ekkjunni um vorið, svo hann kæmist einn að Kúlu. þó sèra Jón ýngri beitti síður en ekki í þessu neinu harðfylgi við ekkju sèra Jóns eldra, því honum fórust flestir hlutir vel til hennar, hèldu menn, að sèra Jóni eldra hefði ekki líkað það, að ekkja sín færi frá Kúlu, með því hann hafði sjálfur í lifanda lífi haft svo miklar mætur á staðnum, og því er mælt, að hann hafi ásókt bæði nafna sinn og aðra, hvort heldur þeir voru frá Kúlu eða ætluðu þángað gestkomandi, og jafnvel þá, sem voru á ferð um vatnið, og vildi varna þeim upp af því, eða teygja þá út í það með ýmsum öðrum bekkíngum, sem sagt er hann hafi haft í frammi; en hvorki drap hann fènað fyrir sèra Jóni ýngra, nè olli illum aðsóknum á undan honum.

Af því þeir höfðu verið hvor annars prestur sèra Jón ýngri, meðan hann var í Goðdölum, og sèra Jón Konráðsson á Mælifelli (1811—50), var mjög kært með þeim, og vildu þeir ekki slíta það, þó sèra Jón ýngri flytti vestur í Húnavatnssýsln; skyldi því sèra Jón Konráðsson koma að norðan vestur þángað, til að taka við nafna sínum haust og vor, en hinn fara aptur norður til að veita sèra Jóni Konráðssyni sömu þjónustu. Eitt vor kom sèra Jón Konráðsson að norðan á fyrsta í páskum að Svínavatni, og hitti þar nafna sinn eptir messu, og ætluðu þeir að verða samferða yfir vatnið að Kúlu, því Svínavatn lá þá með hest-ís. þegar þeir fóru af stað frá Svínavatni, urðu þeir nafnar samferða; en þegar þeir voru komnir ofan á vatnið, fór sèra Jón á Kúlu að taka sig frá nafna sínum og fylgdarmanni hans, og stefndi þvert úr leið suður í vatnsenda. Sèra Jón Konráðsson gefur ekki um það, og hugsar með sèr, að hann færi þenna krók til þess að hafa sprettinn því leingri, því vatnið er ekki meir en góður sprettur á breidd milli landa, þegar það liggur, en Kúlu-Jón hafði ágætan reiðhest. Ríður svo sèra Jón frá Mælifelli beina leið yfir vatnið að Kúlu, og sèr ekkert til ferða heima-prestsins. Var þá enn beðið eptir honum lánga stund, og verið að gæta, hvort hann kæmi ekki. En það dróst. Síðan matast sèra Jón Konráðsson og er þó annars hugar, eins og aðrir, að nafni sinn skuli

ekki koma, og þó mest af því, að hann fylgdi honum ekki. Síðan smádimmir að kvöldi, og fóru allir út á Kúlu að gæta og hlera, hvort einginn kæmi. En það varð ekki. Síðan vöktu menn alla nóttina og var kveykt í hæstu gluggum, en veður var gott um nóttina, logn og frost, og voru allir heimamenn úti við, eins og milli heims og helju, og ekki sízt sèra Jón Konráðsson. Svo leið nóttin, að heima-presturinn kom ekki og alt fram á dag, og fram til þess, að fólk fór að koma til kirkjunnar á annan í páskum, og var það spurt um sèra Jón; en einginn kunni neitt af honum að segja, eða ferðum hans. Fór mönnum þá ekki að dáma að þessu, og var nú ráðgert að fá söfnuðiun til að leita dauðaleit að honum. En í því kom sèra Jón ríðandi neðan úr Kúlunesi; í því nesi er Kúlu-eingi norður af bænum. Hann var með gleðibragði, er hann kom, en bæði berhöfðaður og berhentur og svipulaus. Allir urðu fegnir komu hans, sem nærri má geta, en einkum kona hans og börn, og þá ekki hvað sízt sèra Jón, vinur hans. Hann var spurður að því, hvar hann hefði dvalið, en hann vildi ekki segja neitt frá því, nema að ekkert hefði geingið að sèr. En hanu undi því verst, að hann hafði mist vetlíngana sína, svipuna og hattinn, því hann var einstakur gætnismaður og aldrei vanur að glata neinu slíku, þó honum þækti góður sopinn. Kona hans bað hann lofa sèr að ráða því, að hann færi aldrei fylgdarlaus þaðan í frá, hvorki að Svínavatni nè annað. Sèra Jón sagði, að hèðan af þyrfti hann einga fylgd framar, og mundi sig ekkert saka. Það eitt lèt hann menn í ráða. Síðan var embættað um daginn, og var heimapresturinn til altaris, sem ætlað var. Margar getur voru um það, hvað sèra Jón hefði tafið, en ekki urðu menn þess vísari að heldur. Sumarið eptir á eingja-slætti, þegar farið var að slá í Kúlunesi, fannst svipan prestsins og vetlíngarnir; lá það kyrfilega hvað hjá öðru á þúfu einni, leingst norður í nesi, rètt á vatnsbakkanum, og þóktust menn þá vita, að það mundi hafa verið vilt um prest, það sem sèra Jón Konráðsson vissi það til ferða hans síðast, að hann reið suður í Vatnsenda, en þaðan er góð bæarleið út í Kúlunes, sem presturinn hafði orðið að fara, og ríða þá út eptir vatninu fyrir neðan og fram hjá Kúlu. Það voru og getur manna, að því að eins hefði hann lagt af sèr svipu og vetlínga, að hann hefði eitthvað þurft til að taka, og hèldu menn, að þeir nafnar mundu hafa glímt þar heldur leingi, sèra Jón eldri og ýngri, og hinn ýngri orðið hinum yfirsterkari að lokunum, en ekki gáð sín fyrir glímu-skjálptanum, þegar búið var, og skilið eptir vetlíngana og svipuna á þúfunni; en hatturinn fannst aldrei. Þetta rèðu menn mest á því, sem presturinn hafði svarað konu sinni til um fylgdina, sem áður er sagt, og svo því, er síðar kom fram, bæði við sèra Jón sjálfan og aðra.[1]

1. Þessa sögu sagði mèr sonur sèra Jóns, Þorsteinn kaupmaður 1858. En dóttir sèra Jóns, Guðríður, sem var 6 vetra, er hún kom að Kúlu, segir, að þetta hafi orðið að vera fyrsta eða fyrstu ár föður sins á Kúlu, því aldrei hafði hann farið fylgdarlaus,

Í öðru sinni var það, að séra Jón ýngri var á ferð á sumardag með konu sinni og börnum og dugandis fylgdarmanni út með vatni fyrir utan Vatnsvík, að hann tekur sig þvert frá þeim, sem með honum voru, og ríður út í vatnið. Kona hans kallar til hans, og biður hann fyrir alla muni að gjöra ekki þetta. En hann hélt á fram og lét sem hann heyrði það ekki. Ríður hann svo lítið leingra, en þá þykist fylgdarmaðurinn sjá sitt óvænna, ef hann fari leingra, því þá muni hann hleypa á sund; ríður hann því út í á eptir honum og kemst fram fyrir prest; og spurði, hvern fjandann hann ætlaði. Þá hló prestur og sneri við hestinum til sama lands.

Fleiri voru það, en séra Jón ýngri, sem menn héldu að séra Jón eldri hefði viljað teygja í vatnið, eða sem sögur hafa farið af, að hann hafi varnað að komast upp af því. Maður hét Steinn og var Guðmundsson. Hann var uppeldisson Bjarnar heitins Ólafssonar, klausturhaldara á Þíngeyrum. Af því Steinn var ötull maður, og fylginn sér, léði Björn heitinn hann að Kúlu eptir andlát séra Jóns ýngra, til að standa þar fyrir búi með ekkjunni, með því teingdir voru á milli Þíngeyra og Kúlufólks. Steinn þessi viltist tvisvar á vatninu á ís um vetur, er hann var á ferð. Í fyrra sinni, þegar svona fór, kom hann heim að Kúlu með ofboðslegu yfirbragði, talaði ekki orð frá munni og sinti eingum; fór hann þá og háttaði, en gat hvorki fest svefn né feingið værð. Þar með var hann svo hræddur og órór, að það varð að vaka yfir honum fram undir morgun. Þegar leið fram á daginn, bráði svo af honum, að hann gat sagt frá því, að þegar hann kom út á vatnið, hefði sér heyrzt maður vera á ferð á hlið við sig og hefði sér heyrzt hann gánga heldur hraðara, en hann sjálfur, svo hann hefði komizt á undan sér, þegar Steinn var nærri kominn yfir vatnið; en þá hefði vilt svo um sig, að hann hefði ógjörla vitað, hvað hann hefði geingið, en hvort sem hann hefði haldið, hefði þessi sami maður alt af orðið fyrir sér; loksins hefði hann komizt upp af vatninu, og þekt sig þá, og hlaupið heim í dauðans ofboði. Þessum manni lýsti Steinn, eins og séra Jón átti að hafa verið í hátt, er hann druknaði. Í öðru sinni var Steinn eitthvert hátíðiskvöld fyrir handan vatn og sat við spil fram eptir. Í vökulok fór hann heimleiðis; en þegar hann kom á vatnið, viltist hann, sem fyrri. Átti hann þá og við hinn sama, og áður, alla nóttina, er varnaði honum upp af vatninu alt fram í dögun. Þegar hann kom heim að Kúlu, var hann að vísu með dæsum og andköfum, en ekki eins utan við sig og hræddur, eins og fyrra skiptið. Var þá Steini ráðlagt, að vera ekki í þriðja sinni seint á ferð á vatninu; því það er almælt, að ef maður verður þrisvar fyrir sama draugnum, skilji þeir ekki vandræðalaust, og ríði það á lífi mannsins, ef hann á ekki því meira að sér. Ekki var það heldur Steinn einn, sem fyrir þessu varð, að þeim væri varnað upp af vatninu; því einu sinni var Kristján

eptir að hún fór að muna til, og er því ekki ólíklegt, að þetta hafi verið fyrsti fundur þeirra nafna, séra Jóns eldra og ýngra.

bóndi í Stóradal á ferð yfir vatnið seint um kvöld á vortíma, en ísinn orðinn ótryggur; kvartaði hann undan því, að sèr hefði verið tálmað að komast á land af vatninu. Þetta var alt kent þeim sama. — Einn vetur, sem sèra Vigfús Reykdal var í Hvammi í Laxárdal, kom hann opt að Kúlu til sèra Jóns ýngra, frænda síns. Einu sinni í vökulok heyrðu menn á Kúlu, að skreiðzt var upp á glugga, guðað þar og beðizt húsa. Ekki þektist málrómurinn vel, en þó var farið til dyra. Var þar þá kominn sèra Vigfús, draghaltur, og stokkbólginn annar fóturinn um hnèð. Hann sagði frá því, er hann kom inn, að hann hefði leingi vel í kvöld ekki hugsað, að hann mundi ná í náttstað á Kúlu; því síðan fyrir dagsetur um kvöldið hefði hann verið að villast aptur og aptur, en þekt sig alt af við sama steininn rètt fyrir sunnan Kúlu-tún; hafði villan komið yfir hann, er hann fór upp af vatninu, því eptir stefnunni átti hann að koma norðan að bænum, en var kominn suður fyrir hann að fyrnefndum steini. Hann sagði, að maður á blárri peysu, og lýsti honum enn ítarlegar, hefði allan þenna tíma verið að vefjast fyrir hestinum, og þetta þóf hefði þeim geingið, svo hann hefði ekki komizt heim að bænum fyrir honum. Loksins hefði þessi maður fleygt sèr niður fyrir framan hestinn, og hesturinn dottið um hann, en fóturinn á sèr orðið undir hestinum, og því væri hann bólginn. Þá sagðist sèra Vigfús hafa farið að taka piltinn til bænar, og kveða að honum með fullum stöfum. Við það linti villunni, svo prestur komst heim, en leingi lá hann á Kúlu, sem hann gat ekki stígið á fótinn. Eitt er og það, sem haft hefir verið í frásögum, að þegar vermenn hafa farið á vetrardags-kvöldum eptir vatninu með hesta, hafa þeir þráfalt getið þess, að einhver muni hafa verið þar á reið á afbragðs-gæðíngi, því þeim hafi heyrzt eins og hesti væri skelt á skeið, og hann teygður eptir ísnum, en sjaldan hafa þeir þóktzt sjá neinn. Þó keyrði aldrei um þverbak með reimleikann á Kúlu, fyrr en seinasta veturinn, sem sèra Jón ýngri lifði, því þá þóktust bæði heimamenn og afbæarmenn, stundum jafnt óskygnir sem skygnir, sjá eldri prestinn gánga þar ljósum logum. Þar í Svínadalnum var húskona ein, sem Sesselja hèt; hún var bæði skygn og skýr; þar með kunni hún vel fyrir sèr til handanna ýmsa tóvinnu, og var því víða feingin á bæum til vinnu. Þenna sama vetur var hún nokkra stund á Kúlu; var hún þá einu sinni að prjóna peysu á móti dóttur sèra Jóns ýngra, sem Margrèt hèt, uppi á baðstofulopti, en stigagatið var við endann á rúmi því, sem Margrèt sat á. Fólkið tekur eptir því, að Sesselja horfir um stund ofan í stigagatið, og talar ekki orð frá munni, en kafroðnar og rær fram í gráðið. Fer þá að síga að Margrètu einhver flökurleiki, og því næst líður yfir hana. Sesselja skiptir sèr lítið af því, en einblínir, sem áður, ofan í stigagatið. Fara þá aðrir að stumra yfir Margrètu, og einnig er farið eptir vatni ofan til að dreypa á hana. En á meðan verið er að sækja vatnið, segir Sesselja, að nú muni henni bráðum batna. Síðan kom sá með vatnið, sem eptir því fór,

og er því dreypt á stúlkuna. Raknar hún þá skjótt við og hressist. Var þá Sesselja spurð, hvers hún hefði orðið vör í stigagatinu, fyrst hún hefði alt af haft þar augun á. Hún sagði þá frá því, að hún hefði sèð gamla prestinn koma upp í stigagatið, en við það hefði farið að svífa að Margrètu, svo hefði hann rètt hendurnar innar að henni úr stiga-gatinu, og þá hefði liðið yfir hana. Þegar maðurinn fór eptir vatninn, hefði presturinn hliðrað sèr til í stiganum, svo hann hefði getað komizt ofan hjá honum, og á meðan verið var að sækja vatnið, hefði hann farið hurtu aptur, um það leyti, sem hún hefði sagt, að Margrètu mundi bráðum batna. Eitt kvöld sama veturinn bar svo við, að sèra Jón fór ofan á vökunni; en það var ekki vandi hans. Var hann þá úti lángan tíma, svo prestskonan fór að undrast um hann, og bað hún þá vinnumann sinn einn að fara út að sjá, hvað presti liði. Í því sama bili kemur presturinn aptur hlóðrauður í andliti. Kona hans spýr, því hann hafi verið svo leingi úti, eða hvort nokkur hafi komið, því hún og aðrir heyrðu, að hundarnir geltu, á meðan hann var úti. En sèra Jón hafði ekki orð á því neinu. Fleiri urðu þá aðrir tilburðir þann vetur á Kúlu, sem undarlegir þóktu, en vèr kunnum ekki frá að segja, og þar með fráfall sèra Jóns; en hann andaðist eptir stutta legu á sóttarsæng.

Ekki er þess getið, að sèra Jón eldri hafi gjört jafn-mikið um sig síðan; en sèzt hefir hann á reið á hesti þeim, er hann drukknaði af, og sagt er, að ef hann sèst á ferð með Kúlu-prestinum, muni sá hinn sami ekki verða lánglífur.

**Eiríkur góði.** (Eptir sögn úr Skagafirði.) Um upptök Eiríks er mèr að mestu ókunnugt; en að því sem eg hefi heyrt sagt frá afreksverkum hans, fylgir hann hvorki einstakri ætt nè bæ, heldur heilu hygðarlagi, Fljótunum í Skagafirði sumsè. Eiríkur á að hafa verið norskur að ætt og uppruna, og sögumaður minn hèlt að hann hefði komið út híngað á Eyafirði, en ekki vissi hann, hvort heldur það var á Gásum eða Eyrinni; það stendur og á eingu. Hvað sem um þenna Eirík er að öðru leyti, lítur svo út, sem hann hafi dáið þar nyrðra, en Eyfirðíngar hafi vakið hann upp og sent hann Fljótamönnum. En af því hann er að eingum óspektum kunnur, öðrum en þeim, að hann þykir fylgja Fljótamönnum, og verða vart við hann undan þeim, hvort heldur þeir fara fram í Skagafjörð eða annað, er hann kallaður Eiríkur góði. Tíðum hafa menn sèð hann; er hann á svartri kápu og ríður jafnan hrúnum hesti, og hefir mórauðan hund með sèr. Jafnt ríður hann lög sem láð, og niður af hæstu hamra-björgum fer hann jafn-liðugt sem um Hólminn í Skagafirði. En áður en hann ríður lög eða hleypir af björgum fram, leggur hann Brún sinn niður og skirpir í hófana.[1]

Að lyktum nefni eg hèr draug sem hèt Snæríngur, sem eg veit þó ekki með vissu, hvort heldur hafi átt að fylgja einstökum manni og ætt hans, eða bygðarlagi og bæ, þó eg ætli hið síðara líkast. Snæríngur þessi er kendur við Snæríngstaði í Svínadal í Húnavatnssýslu.

1. Sbr. Dr. Maurers Isl. Volkss. 104. bls.

**Háleiti-Bjarni.** (Eptir sögn Húnvetnínga.) Jón Sigurðsson hefir maður heitið; hann bjó á Sæunnarstöðum í Hallárdal; hann var lángafi þeirra manna, sem nú lifa. Jón átti 7 drauga, sem hann hafði til vika; draugana geymdi hann í skála einum frammi í bænum, og þókti mönnum tíðum heyrast þaðan hark mikið og umfáng, þegar geingið var fyrir skáladyrnar á kvöldin, enda rifu draugarnir þá upp stokka og steina og börðust með. En það var vandi Jóns, þegar honum þókti fram ur keyra ógángur þessara pilta sinna, að hann gekk að skáladyrunum og sagði: „Hafið þið ekki grjótið í gamninu, piltar," og hættu þeir þá. Um þetta leyti bjó ekkja sú á Vakurstöðum í sama dalnum, sem Sigríður hèt, fátæk og fèlítil. Það var einn sumardag, að Sigríður var ein heima með barni, en alt fólk annað á eingjum, veit hún þá ekki fyrri til, en hún heyrir öskur ógurlegt, og veit, að þar muni vera kominn boli Jóns á Sæunnarstöðum, og var hann bæði manneygur og illur viðureignar. Tók hún þá það ráð, að hún lokaði bænum, batt barnið upp um sperru í baðstofunni, en sjálf fal hún sig í skoti einu. Boli mölvaði bráðum bæarhurðina og æddi inn; en þegar hann sá eingan inni, sneri hann út aptur. Sigríður sætti því lagi, þegar boli var að troðast út um bæardyrnar, að hún tók orf með ljá, sem reis upp-með í bæardyrunum, og rak ljáinn á hol í kviðinn á bola, tók hann síðan á rás með orfið, og fèll dauðnr niður skamt frá bænum. Þessu tiltæki Sigríðar reiddist Jón, og sendi henni einn drauginn, og var hann kallaður Háleiti-Bjarni. Hann ásókti Sigríði og kvaldi hana bæði dag og nótt, svo hún hafði hvergi frið, þángað til hún flutti að Syðriey; þar bjó þá Finnur Magnússon eldri, og gat hann varið hana, þegar hún lá fyrir ofan hann í rúminu, en annarstaðar ekki. Finnur hafði kálfa undir baðstofupallinum, en það gagnaðist honum ekki, því Háleiti-Bjarni drap þá; svo var hann nærgaungull. Einu sinni var Finnur að smíða járnsmíði fram á kvöldvökn, og var bóndinn á Ytrahóli hjá honum í smiðjunni. Þegar þeir komu úr smiðjunni, ætlaði bóndinn á Ytrahóli heim til sín, en þá sáu þeir eldglæríngar miklar fram á götunum milli bæanna; höfðu þeir þá mæzt þar, Háleiti-Bjarni og Snæríngur, draugur framan úr Svínadal, varð ekki af kveðjum með þeim, heldur hlupu þeir undir eins saman og áttust þar við. Rèð þá Finnur bóndanum að vera hjá sèr um nóttina, og verða ekki á vegi þeirra kompána.

**Húsavíkur-Lalli.** (Eptir handriti frá sèra Jóni Kristjánssyni í Yztafelli, handriti sèra Benedikts Þórðarsonar á Brjánslæk, og ýmsum fleiri sögnum.) Samtíða Mývatns-Skottu var karldraugur sá uppi í Þíngeyarsýslu, sem Lalli hèt. Sá prestur var í Húsavík frá 1716—1778, sem Ketill hèt, og var honum sendur draugur að vestan. Svo er sagt, að hann hafi verið fluttur sjóveg af Flateyardal yfir Skjálfandaflóa og til Húsavíkur. En þegar skipið tók niður í flæðarmáli, sagði formaðurinn: „Fari nú sá fyrstur út, sem sein-

astur fór upp í.“ Síðan stjakaði formaðurinn skipinu út aptur, og reri heimleiðis. Draugurinn hafði setið í framstafninum, og farið, þegar honum var sagt. Eptir það fór hann að hitta prestinn, en misheppnaðist að fyrirkoma honum; þó hafðist draugurinn við í Húsavík, og því var hann kallaður Húsavíkur-Lalli. Hann gekk þar um, sem grár köttur, gerði ýmislegt ílt af sèr, drap fènað, og gerði svo mikið um sig, að mesta mein þókti að honum; helzt heima á bænum í Húsavík. Þorvaldur hèt maður, sem þar var í sveitinni; hann var sonur sèra Magnúsar Illugasonar, sem var prestur í Húsavík 1667—1715. Þorvaldur var bæði skáld og kunnáttumaður, og þókti laginn til að koma af reimleikum. Var hann því feinginn til að vera um tíma í Húsavík. Hann svarf svo að Lalla, þó ekki gæti hann fyrirkomið honum með öllu, að hann varð ekki að stórum meinum eptir það. Eitt kvöld var það, meðan Þorvaldur var í Húsavík, að einginn þorði fram að kveykja; svo þókti heimilismönnum draugsi þá umfángsmikill frammi í bænum. Þorvaldur gaf sig lítið að því, og fór fram að kveykja. Var þá sagt með dimmri rödd á baki hans: „Eg er einn á ferli.“ „Það lýgur þú, bölvaður,“ sagði Þorvaldur; „eg er á ferli líka.“ Sneyptist Lalli við það, en Þorvaldur kveykti ljósið, og fór með það inn; en það er eptir honum haft, að þá hafi verið í meira lagi fas á Lalla. Meðan Lalli lèk laus við, og honum kom einginn hnekkir, gekk hann um híbýli, eins og annar maður, svo að sáu hann bæði skygnir og óskygnir. Það var t. d. einn dag, þegar Björn, eða ef til vill Nikulás Bukk — því hann var seinna en Björn — var kaupmaður á Húsavík, að maður nokkur var staddur inni hjá honum, og stóð opinn gluggi. Maðurinn leit út um gluggann, og sá hvar maður stóð, sem hann þekti ekki, og spurði, hver þessi maður væri. Kaupmaður leit út og sagði: „Og það er nú naumast maður, þó svo sýnist, og ekki er það sjaldgæft, að sjá þenna karl hèr. En eg skal gera honum bragð.“ Þar lá byssa hlaðin, og greip kaupmaður hana, og hleypti af henni út um gluggann. Reið skotið rètt við vángann á draugsa; en við það varð honum svo hverft, að hann hvarf í burtu. Sagt er það, að þau Lalli og Mývatnsskotta hafi opt fundizt og átzt ýmsar brösur við. Fundum þeirra var svo lýst, að þau hefðu fyrst reynt með sèr glímu, og hefði Lalli ráðið niðurlögum Skottu. En þegar Skotta var fallin og Lalli á hana ofan, er sagt, að leikir þeirra hafi snúizt upp í blíðubrögð, og eru til tvær sögur um það. Maður nokkur gisti í Húsavík, og svaf í skála eða stofu frammi í bænum, þeim Lalla og Skottu varð reikað þángað inn um nóttina, og er það haft eptir manninum, að hann hafi sèð þessi hjú þar í hvílubrögðum. Hin sagan er svo, að maður var að lesa húslestur á bæ; en meðan á því stóð, komu þau Lalli inn á baðstofugólfið, og lèku þar að lyst sinni. Manninum þóktu læti þeirra ill og ósiðleg undir lestrinum; kallaði hann þá upp, og bað þau bæði fara bölvuð. Brá þeim svo við bænteknìng mannsins, að þau hættu og höfðu sig á burt.

---

# 3. FLOKKUR.

## GALDRASÖGUR.

### 1. GREIN.

#### ÓFRESKISGÁFUR.

Á Íslandi er sú trú almenn, að sumir menn sjái þær verur (anda), sem öðrum eru ósýnilegar. Þeir menn eru nú kallaðir skygnir, en að fornu fari ófreskir menn, en ófreskju kalla menn skrímsl og forynjur; einnig er svo að orði komizt, að sá eða sá „sjái í jörð og á,“ eða „í gegnum holt og hæðir.“[1] En það er sagt, að þeir einir verði skygnir, sem skírnarvatnið fari ekki í augun á, þegar þeir eru skírðir.[2] Sumir hafa og þeir menn verið, sem ekkert flt, óhreint eða draugar, þorir framan að, og veldur það því, að annaðhvort eru þeir skygnir, eða þeir hafa loðinn kross á brjóstinu eða þeir eru sambrýndir, þ. e. þegar augabrýrnar ná saman fyrir ofan nefið, en þess meir mega þeir gjalda varhuga við, að óhreint komi ekki aptan að þeim. Eins og nú var sagt, er skygnum mönnum einkum gefið að sjá allskonar yfirnáttúrlegar verur; því þeir einir sjá álfa að óvilja þeirra, og drauga og fylgjur, og alt þesskyns, og má því þetta hyski ekki koma skygnum mönnum á óvart. Þó er ekki minna í það varið, að þeir sjá þetta ekki einúngis sjálfir, heldur er þeim sjálfrátt, að sýna það hverjum sem þeir vilja með því, að láta þá standa undir vinstri handkrika sèr;[3] skygnir menn eru og sjaldan hræddir við drauga. Hin gáfan, að sjá í gegnum holt og hæðir, er þessari mjög skyld, en miklu sjaldgæfari, og hefir þó orðið stundum að liði, sem dæmi eru til. Þessi gáfa er sá hæfilegleiki, að sjá ekki síður fjarlæga hluti á þeim tíma, er þeir verða, en nálæga.[4] En báðar þessar gáfur eru það, sem ekki hvað minnst hjálpa til að vita orðna hluti og jafnvel óorðna, og því er opt ærið torvelt að sjá, hvort heldur skal heimfæra slíkt til skygnleika eða forspáleika, svo að það eru kallaðar fyrirsagnir eða forspár, ef skygnir

1. Sjá Æfintýrin á eptir.

2. Sú önnur orsök er til þess, að huldufólk er skygnt, sjá 16. bls. Konan á Skúmstöðum og Álfkonan í Ásgarðsstapa, 18.—19. bls.

3. Sbr. Stjörnu-Odda draum kap. 8, og Örvar-Oddssögu 29.

4. Alt er það annað mál, að menn hafa sèð í skuggsjá um allan heim, eins og þegar Oddur Gottskálksson sýndi Gísla biskupi í gegnum stein Selárdal úti á Íslandi, en þeir voru þá staddir í Kaupmannahöfn. Safn til sögu Íslands I, 77—78. bls.

menn hafa orð á því, sem fyrir þá hefir borið. Hèr skal nú geta nokkurra dæma í sögum til hvorstveggja, þó skygnleika sè allvíða getið bæði í álfasögunum og draugasögunum á undan.

**Feigðarspár af skygnleika.** Til hafa þeir menn verið víða hèr á landi, sem hafa getað sagt fyrir, frá hvaða bæ í sókninni næst yrði jarðað, þegar þeir hafa verið á kirkjustöðum eða í grend við þá. Er það af því, að þeir hafa sèð fylgju eða svip hins feiga litlu áður, en hann dó, eða um það leyti, koma frá bænum, sem maðurinn átti heima, og fara inn í kirkjugarðinn. Hafa þá hinir dauðu í kirkjugarðinum stundum snúizt illa við þessu aðskota-dýri (svipnum) og ausið moldu yfir hann, þegar hann hefir verið kominn að eða inn í kirkjugarðinn.[1]

Þannig var það trú, að gömul kona ein í Flateyarþíngum á Breiðafirði gæti sagt fyrir í hvort sinn, frá hverjum bæ í sókninni næst yrði grafið lík.

Kerlíng var og í Keldnaþíngum á Rángárvöllum, sem sagði fyrir, að maður af ætt bónda nokkurs, sem hún til tók, mundi þessu næst farast í vatni. Bóndinn komst að þessu, og tók orð spákonunnar til sín, og varð af því mjög þúnglyndur. En spákerlíngin hughreysti hann, og sagðist alls ekki hafa átt við hann. Skömmu síðar druknaði frændi bóndans, en er kerlíngin var að spurð hvernig hún hefði vitað þetta, sagðist hún hafa sèð lík mannsins fljóta ofan eptir Þjórsá á vaðinu þar sem maðurinn druknaði.[2]

**Skipkomu-spár.** Fyrir skemmstu var kerlíng nokkur í Ólafsvík, Steinunn að nafni. Hún hafði ský á báðum augum og var sjóndöpur mjög. Á vorin, áður en skip komu, var það siður kaupmanna, að spyrja kerlíngu, hvort lángt mundi vera þángað til skip kæmu, og sagði hún optast rètt til um það. Hún var ekki vön að ákveða að dagatali, hvað lángt yrði skips að bíða, heldur einúngis hvort það mundi líða á lanngu eða ekki. Aldrei leið leingri tími til skipkomu, en vika, frá því kerlíng sagði skip í nánd. Einu sinni sem optar kom verzlunarmaðurinn í Ólafsvík til kerlíngar, og spurði, hvað nú mundi vera lángt að bíða skipkomu þángað. Hún sagðist ekki geta sagt það; því það væri enn ókomið, sem hún tæki mark á. Þetta var um miðjan dag, en um kvöldið segir kerlíng: „Heldur fljótt kom kaupmaðurinn minn til mín, því nú veit eg, að skip er í nánd; það er komið undir Ennið.“ (Ennið er þverhnýptur sjávarhamar fyrir utan Ólafsvík.) Á fyrri dögum sínum lèzt Steinunn kerlíng hafa haft einhver mök við Ennisbúa, en aldrei fèkkst neitt greinilegt upp úr henni um þá.[3] — Önnur sögn er það, að kerlíng ein var í Laugarnesi, sem vön var að segja

1. Svo hefir Gísli snikkari Jónsson í Reykjavík sagt mèr frá, að sèzt hafi í Mælifells kirkjugarði.

2. Dr. Maurers Isl. Volkss. 90. bls.

3. Eptir sögu vestra og handriti sèra Sveinbjarnar Guðmundssonar.

fyrir, hvenær skipin færu að koma í Reykjavík á vorin. Hafði hún það til marks, að huldu-skipið væri komið að Kleppi, næsta bæ fyrir innan Laugarnes, og hafði fyrsta skip verið vant að koma til Reykjavíkur viku eptir það, að kerlíng for að spá því.[1]

**Bjarni blindi.** (Eptir frásögn Dr. Hallgríms Schevings í Reykjavík.) Þess munu fá dæmi, að blindir menn sè skygnir,[2] en þó lítur svo út eptir sögu þeirri, sem hèr segir, að svo geti að borið. Eptir að Bjarni blindi, sem áður er getið,[3] var orðinn að mestu laus við draugsaðsóknina, varð honum miklu skaprórra, en áður; en þó lagðist það mótlæti á hann, að hann varð blindur og ekki laus við sturlun, og þókti það enn nokkrar menjar hinnar fyrri aðsóknar. Þegar svo var komið fyrir Bjarna, að hann gekk ekki leingur í vist, fór hann um manna á milli, og var leiddur milli bæa. Einu sinni, sem optar kom hann að Helgastöðum í Þíngeyarsýslu, til sèra Hannesar, föður Dr. Schevíngs, og fèkk að vera þar um tíma. Þetta var um vetur. Meðan Bjarni dvaldi á Helgastöðum, bar svo við eitt sinn, að þeir Hallgrímur og Lárus, prestssynirnir, voru að leika sèr að því frammi í bæardyrum með 2 öðrum dreingjum, að fela sig hvor fyrir öðrum; höfðu þeir skála, sem var frammi í bænum, til að fela sig í, og var þar nærri koldimt, en skálinn auður að mestu, með stoðum, bitum, sperrum, lángböndum og birki-árepti, en undir bitana var mjög hátt. Þó myrkt væri í skálanum, höfðu þeir þá varúð þó við, að þeir bundu fyrir augun á þeim, sem átti að leita, og hèldu honum tveir frammi í bæardyrum á meðan einn þeirra var að fela sig, og mátti hann fela sig þar í skálanum, sem hann vildi, hvort heldur á gólfinu eða uppi á bitunum, eða, ef hann gat hángið í áreptinu; en ekki þurfti sá, sem leitaði, að þreifa á þeim, sem hann leitaði að, til að finna hann, því nægja þókti, ef hann gat sagt til, hvar hann var. Bjarna bar nú þar að, sem dreingirnir voru að feluleiknum, og komst að því, hvaða leik þeir lèku. Hann bauðst þá til að leita að hverjum þeirra, sem þeir vildu þar til kjósa, að fela sig fyrir honum í skálanum, og finna hann. Dreingirnir kusu svo Hallgrím til þess; því þeir vissu, að hann var lèttastur á sèr, og gat farið upp um alla bita og hángið í áreptinu, hvar sem vera vildi. Meðan Hallgrímur var að fela sig, hèldu hinir Bjarna og höfðu alla sömu aðferð við hann, sem þeir höfðu haft áður. Síðan fer Bjarni og leitar. En þegar hann kemur inn á skálagólfið, þar niður undan, sem Hallgrímur hèkk uppi yfir í rjáfrinu, kallaði Bjarni upp og sagði, að Hallgrímur væri þar, þó hann næði ekki til hans. Dreingjunum þókti Bjarna takast furðu vel leitin, og reyndu sama leik í annað sinn, og hèlt Hallgrímur nú niðri í sèr andanum, eða andaði svo lágt sem hann gat, því honum var ekki grunlaust um, að

1. Eptir handriti sèra Jóns Norðmanns.
2. Sbr. Landn. II, 5. kap.
3. Sjá II, 2. Rauði boli, 352.—351. bls.

Bjarni hefði í fyrra sinnið heyrt, hvar hann var, á andardrættinum. En alt fór á sömn leið; Bjarni nam þar staðar á skálagólfinu, sem Hallgrímur hèkk uppi yfir. Þókti þá dreingjunum til reynt, að ekki yrði falizt fyrir Bjarna, og spurðu hann þá að, hvernig á því stæði, að hann væri svo naskur, að finna Hallgrím, hvar sem hann fælist. En hann sagði þeim, að hvítabjarnarhúnn hefði staðið þar á gólfinu niður undan, sem Hallgrímur hefði verið upp yfir, og væri það fylgjan hans. En Dr. Schevíng heldur enn, að svo hafi farið fyrir Bjarna, sem mörgum öðrum, að þegar þeim förlast eitt skilníngarvitið, skerpist aptur hin fyrir þann muninn, og að Bjarni muni því hafa heyrt til sín, hversu hægt sem hann hafði um sig.

**Oddur biskup Einarsson.** Það er í frásögur fært af Jóni prófasti Haldórssyni í Hítardal,[1] að Oddur biskup hafi verið bæði getspakur og forspár um marga hluti, sem síðar mun sagt verða, þó hann lèti lítið yfir því, nema þegar svo bar undir, að hann var ölglaður. En eins var því varið með hann, og marga, sem kallaðir eru forspáir, að hann sá gegnum holt og hæðir. Sami merkismaður hefir sagt frá sögu einni um það, og er hún svo látandi: Sigfús, sonur sèra Tumásar á Hálsi í Fnjóskadal, er síðar varð prestur að Hofteigi í Jökuldal í Norðurmúlasýslu, var smásveinn Odds biskups á úngdóms-árum sínum. Einhvern tíma nálægt fráfæru er frá því sagt, að hann var einn hjá biskupi inni í Biskups-baðstofunni í Skálholti; sat biskup við borð, og studdi hönd undir kinn þegjandi um stund, brosti og mælti síðan: „Fúsi, viltu eg segi þèr, hvað konuefnið þitt er nú að gjöra?“ Sigfús sagði, að óvíst væri, hvort sèr yrði konu auðið. Biskup sagði: „Víst liggur það fyrir þèr, að þú kvongist, get eg sagt þèr, hver hún er, og hvað hún er nú að gjöra. Það er dóttir hans Eiríks í Bót, austur í Fljótsdalshèraði; hún er nú að reka únglömb á fjall, elta þau, og hleypur nú hæverskulaust.“ Sigfús skrifaði hjá sèr árið, daginn og stundina. Síðan kom það fram, að hann varð prestur í Hofteigi, og eignaðist Kristínu, dóttur Eiríks í Bót, svo það bar alt saman, sem biskup sagði.

**Skygna stúlkan við Mývatn.** (Eptir sèra Þorvarði Jónssyni í Holti.) Við Mývatn var stúlka nokkur, og var hún þríburi. Annað barnið, sem með henni fæddist, kom andvana, en hitt dó skömmu eptir fæðínguna; sjálf náði hún hèr um bil tvítugsaldri. Í uppvexti sínum var hún mjög ógjörvuleg, fèkk seint mál, og var það ætlun manna, að hún mundi vera skiptíngur. En þegar hún þroskaðist meira, vitkaðist hún, sem aðrir menn, að öðru leyti en því, að hún var alt af hjárænuleg, og jafnan óglaðvær. Fór þá að bera á því, að hún sæi manna fylgjur öðrum framar, svo hún gat sagt fyrir gestkomur; en er fram liðu stundir, urðu svo mikil brögð

1. Í Skálholtsbiskupasögum (verða prentaðar í II. bindi af Biskupasögum).

að undursjónum hennar, að svo virtist, sem hún sæi í gegnum holt og hæðir, sem síðar mun sýnt verða. Til vinnu var hún næsta ónýt, og prjónaskapur var næstum eina verkið hennar. Hún átti vanda til að sitja heilum tímum saman eins og agndofa, og hvessa augu í ýmsar áttir innan húss, þótt aðrir sæu ekkert, er tíðinda þækti vert.

Jón Einarsson, bóndi í Reykjahlíð, maður Bjargar Jónsdóttur frá Völlum í Svarfaðardal, fór árið 1769 með Haldór son sinn, vestur að Hólnm í Hjaltadal til móðurbróður síns, dómkirkjnprests, sèra Haldórs Jónssonar, til að koma honum fyrir til kennslu. Þegar Jón skildi við sèra Haldór, var hann heill heilsu. En þegar pilturinn hafði verið þar skamma stund, tók presturinn sótt, sem leiddi hann til bana. En það er af stúlkunni að segja, að fyrr en nokkur fregn um veikindi hans kæmi norður til Mývatns, segir hún einn dag upp úr þurru: „Nú er sèra Haldór á Hólum lagztur,“ og nokkrum dögum síðar, segir hún enn upp úr þurru: „Mikið er sèra Haldór þúngt haldinn, og er hann kominn að dauða.“ En að kvöldi sama dags segir hún: „Nú er sèra Haldór andaður.“ Þessi orð stúlkunnar báruzt til Reykjahlíðar, til Bjargar, systur sèra Haldórs. Fèkk þetta henni svo mikillar áhyggju, af því hún hafði reynt, að mikið rættust fyrirsagnir hennar, að hún lagðist í rúmið, þar til maður hennar kom heim úr ferð sinni, og gat hughreyst hana með því, að sèra Haldór hefði verið heilbrigður, þegar þeir skildu. En nokkru fyrir jól fèkk hún brèf að vestan um viðskilnað bróður síns; fundu menn þá, að spádóms tími stúlkunnar og dánardægur sèra Haldórs báru upp á sama dag.

Þessi sama stúlka sagði enn eitt sinn upp úr þurru: „Guð hjálpi manninum þeim arna.“ Og er menn spurðu hana, hver sá væri, svaraði hún: „Maður ætlaði vestur yfir fjall,[1] fyrir vestan sveitina, en í stað þess, að fara vestur yfir heiðina, stefndi hann suður eptir henni, og er nú kominn fram úr mannabygð, og nú hrapaði hann ofan fyrir heingikletta, og beinbrotnaði, og höfuðið slóst af honum.“ En síðar frèttist, að maður nokkur hefði ætlað vestur yfir sömu heiði, en honum reitt af, eins og hún sagði.[2]

Hún sagði og eitt sinn upp úr þurru, að hvalur væri að springa við sandinn. En sama dag var sèra Jón Þorvarðarson, sem þá var að læra hjá sèra Íngjaldi í Múla, róinn til fiskjar í góðu veðri og lognöldu. Tekur Jón þá til orða við hásetana og segir: „Hvaða boðaföll eru þar við sandinn?“ Hásetar segja, það muni vera lognalda. En þegar þeir komu á móts við boða þessa, sáu þeir, hvar hvalur var að springa.

**Ísfeldt trèsmiður.** (Eptir Dr. Maurers Isl. Volkss. 90. bls.) Á Austurlandi var ekki alls fyrir laungu maður einn, sem Ísfeldt hèt, og hafði sömu

1. Eptir lýsing stúlkunnar gat það ekki verið annað fjall, en Vöðluheiði.
2. Guðmundur biskup hafði sömu skygni, sjá Biskupasögur II, 129—30 (eptir Arngrím).

gáfu. Hann sá opt það, sem við bar lángt burtu, og stundum það, sem síðar kom fram. Einu sinni voru menn orðnir hræddir um hafnarskip, sem leingi hafði verið von á þar eystra. En Ísfeldt sagði, að hann sæi, að skipið væri þá að leggja heilt á hófi inn í höfn á Færeyum. En seinna, þegar skipið kom hèr við land, sannaðist það, að haun hafði sèð og sagt rètt til, svo hvorki skakkaði dag nè tíma. Endur og sinnum var honum gefið að sjá nokkuð fram í ókomna tímann fyrir sjálfan sig; en þegar hann þóktist sjá hvað bezt, voru þó æfilok hans aldrei fullglögg fyrir honum, heldur allajafna hulin þykkum reyk. Enda urðu það afdrif hans, að hann kafnaði í baðstofu reyk, er hann var að smíða kirkjuna á Þíngmúla 1832.

b) Önnur gáfa er það, sem næst geingur þessari gáfu, sem nú var minnzt, og sem mèr liggur við að kalla ofsjónir,[1] en þessa aptur á móti ofheyrn. Hún er vafalaust sjaldgæfust allra yfirnáttúrlegra gáfna, og af því eg hefi svo sjaldan heyrt hennar getið, læt eg mèr lynda, að setja hèr frásagnir um hana eptir handriti Dr. Hallgríms Schevíngs.

**Húsfrú Guðný.** Þessi vitrunargáfa er mjög fáum gefin; veit eg eingan að nafngreina, sem hafi haft hana hèr á landi á næstu öld, nema húsfrú Guðnýu, fyrri konu Árna biskups Helgasonar, sem hefir sagt mèr þrjár þesskonar vitranir.

I. Þegar húsfrú Guðný var barnfóstra í Skálholti, hjá Hannesi biskupi, bar svo við eitt kvöld, að hún gekk út í kirkjugarð í ljósaskiptunum til gamans sèr, og fer að lesa letrið á líksteini Finns biskups, sem þá var nýkominn utanlands frá, og þókti því nýúnga-gripur. En sem hún hefir grúft litla stund yfir steininum, heyrast henni stunur miklar, og reisir hún sig upp, og litast um í kríngum sig. En þegar hún verður einkis vör, fer hún aptur til iðju sinnar. Heyrir hún þá miklu þýngri stunur en áður. Við þetta grípur hana ótti, og blóðið hleypur út í andlitið; hún flýtir sèr sem fyrst frá steininum og upp á herbergja-lopt, þar sem Hannes biskup var að skemta fólki sínu. En þegar biskupsfrúin sèr hana, segir hún, að hún hafi orðið hrædd, og spyr, hvað til komi; en hún lætur ekkert á því bera, og svo dettur tal þetta niður. Henni líða stunurnar úr minni. En næsta sumar eptir, tekur Hannes biskup banasótt, og þegar hún heyrði stunur hans í sóttinni, vaknar það upp fyrir henni, sem við hafði borið um veturinn, og þóktist hún þá þekkja aptur þær stunur, sem hún hafði heyrt; og til að draga enn fleiri líkur hèr af, má þess og geta, að honum var líkkista smíðuð í stúkunni þar hjá, er legsteinn föður hans lá fyrir framan.

1. Ofsjónir er þó annað í daglegu tali.

II. Þegar frú Guðný var gipt, og komin að Reynivöllum í Kjós, er hún einn dag, sem optar, í búri sínu; það var á túnaslætti. Heyrist henni þá geingið um gaungin og guðað. Hún þykist gjörla þekkja skóhljóð og róm mannsins; en af því hún vissi af teingdaföður sínum inni í bænum, og öðru fólki í svefni, vildi hún ekki yfirgefa verk sitt, fyrr en hún væri búin, og hugsar að teingdafaðir sinn muni tala við gestinn. En uokkru síðar kemur henni í hug, að verið gæti, að teingdafaðir sinn svæfi og alt fólkið, og muni þá gestinum þykja þurleg innisetan. Hún fer því inn, að skygnast um, hvað gestinum líði. Finnur hún þá fólk alt í svefni, en eingan gest; hún hleypur út, og svipast þar einnig eptir honum, en sèr hvorki hest nè gest, eða nein merki þess, að nokkur hafi komið. En að kvöldi sama dags kemur bóndi úr sókninni, að heiti Kort á Möðruvöllum, með brèf til manns hennar, og segist hafa haft mikinn hug á, að komast þángað um daginn, því hann hafi verið beðinn að koma brèfinu, sem hann fèkk henni, fljótt á framfæri, en hafi tafizt við Laxá í Kjós, sem var ófær um daginn.

III. Þegar þessi sama kona nokkru síðar var enn stödd í búri sínu í Breiðholti, segir hún upp úr þurru við stúlku, sem hjá henni var: „Mèr er bezt að fara hèðan, því nú er hann prófessor Magnusen kominn.“ En þegar hún kemur inn, er þar eingiun prófessor Finnur Magnússon; eingan komumann var heldur úti að sjá. En þegar lítil stund var liðin, kemur þar prófessor Finnur Magnússon og Árni Geirsson Vídalín með honum.

c) Þriðja vitrunargáfan er forspá, og er hún í því fólgin, að þeir, sem sú gáfa er gefin, geta sèð furðu lángt fram í ókomna tímann og sagt fyrir óorðna hluti; heita þeir því forspáir menn. Þó þessi hæfilegleiki hafi ekki heldur, en hinir 2 nýnefndu, verið almennur, lítur eigi að síður svo út, sem hann hafi verið miklu tíðari hèr á landi að fornu fari, en hann er nú á dögum, þar sem bæði Gestur Oddleifsson, Njáll, og Snorri goði og margir fleiri eru taldir forspáir menn, og voru þó allir uppi undir eins. Nú á dögum vita menn varla af nokkrum forspáum manni að segja; því alt er það annað mál, en meðfæddur hæfilegleiki, þó menn taki enn mark á ýmsu, er menn ætla að ráða megi af, hvernig það eða það fyrirtæki muni heppnast, eða hverju fram vindi. Þannig hefir það þókt góðsviti, ef maður dettur, þegar maður fer að heiman, en íllsviti, ef maður dettur heim í leið, eins og orðshátturinn segir: „Fall er fararheill, frá bæ, en ekki að“ Eins þykir það fyrirboði fyrir því, að maður reiðist, ef mann klæar (snuggar) nefið; ef hann klæar augun, veit það á grát: ef hljómur er fyrir eyrum manns (klukknahljóð), boðar það, að maður heyri mannslát innan skams. En það er bæði, að það yrði oflángt, og ætti ekki heldur við, að telja hèr upp alt þesskyns, sem tekið hefir verið mark á, bæði á manni sjálfum, dýrum, lopti, og ýmsum dögum ársins, sem boði veðurlag fyrir um leingri eða skemmri tíma, enda verður sumt af því talið í náttúru-

sögum, en flest í kreddum, og eru það fyrirboðar, en ekki forspár. Enn þótt nú sè orðið fátt um forspáa menn,[1] er alt að einu ekki svo að láta, að ekki sèu til sögur um þá frá fyrri öldum, eptir að þeir Njáll og Gestur liðu undir lok, þó eg telji ekki með þeim mönnum nafna minn Krukk, sem ekki hafði heldur spásagnargáfu sína af meðfæddum hæfilegleika; og skal hèr nú segja fáein dæmi af slíkum mönnum.

**Sveinn spaki.** (Eptir Safni til sögu Islands o. s. frv. I. 37. bls. og Skálholts biskupasögum Jóns prófasts Haldórssonar.) Sveinn spaki, biskup í Skálholti 1466—1476, var kallaður forspár og framsýnn. Sumir ætluðu, að hann kynni hrafnamál, en aðrir, að það væri ekki hrafn, heldur einhver andi í hrafnslíki, íllur eða góður, sem hann hefði mök við. Þegar hann var kirkjuprestur í Skálholti, mörgum árum áður en hann varð biskup, var hann sendur upp að Torfastöðum að messa þar, og reið með honum piltur, sem Erlendur hèt, Erlendsson frá Kolbeinsstöðum í Borgarfirði. Svo bar til, þegar þeir komu í hólana fyrir suman Hrosshaga, að harðviðrisbyl gjörði á þá með fjúki, og lögðust þeir þar fyrir. Pilturinn fór þá að örvænta og sagði, að hann mundi aldrei þaðan lífs komast. Prestur sagði, að hann skyldi bera sig karlmannlega: „því hèr eptir kemur gott, og önnur verður þá okkar æfi, þá eg er biskup í Skálholti, en þú eignast dóttur Þorvarðs ríka á Möðruvöllum og hústrúnnar þar.“ Erlendur svaraði: „það veit eg verða má, að þèr verðið biskup í Skálholti, en það má aldrei verða, að eg fái svo ríka og velborna stúlku, jafnfátækur sem eg er.“ „Efa þú aldrei,“ segir prestur, „guðs gáfur, hans mildi og miskun; því svo mun verða, sem eg segi, og það til merkis, að þá þú ríður til (konu-) kaupa, mun slík helliskúr koma, að menn munu varla þykjast muna slíka.“ A móti morgni lètti upp hríðinni, og fóru þeir leiðar sinnar til Torfastaða. Svo fór alt og framkom, að Erlendur efldist, og mannaðist, og eignaðist Guðríði, dóttur Þorvarðs, en Sveinn varð biskup. En þegar Þorvarður reið til (konu-) kaupa, kom svo mikil hvolfuskúr, meðan þeir riðu heim, að alt varð hríðvott, en áður var glatt sólskin, er þeir komu undir túnið. Meðan Sveinn var prestur, skírði hann barn einu sinni, og sagði hann, að því mætti ætla brækur, en ekki sokka; því það mundi verða flysjúngur. Barnið vóx upp, varð röskur maður, og framdi tvö manndráp í tíð Stefáns biskups. Hann sagði fyrir um vinda og veðráttu-far, um lífsstundir manna, og hvernig til mundi gánga í Skálholti eptir sinn dag, að hinn fyrsti biskup eptir sig mundi ekki ríkja leingi; annar þar eptir mundi hýsa vel staðinn, og mest grjót til hans flytja; þriðji þar eptir mundi draga mestan greniviö að staðnum og kirkjunni, „og má með rèttu,“ hafði hann sagt, „sá hinn fyrri kallast grjót-biskup.“ „Þar eptir með hinum fjórða mun siðaskipti koma í land á öllu: messusaung og tíðagjörðum, hríngíngum og helgihöldum, og

1. Nú segja menn þó, að „sig óri (eða ói) fyrir“ því eða því, eða „sig smjúgi“ það eða það.

mun það alla tíma aukast meir með þeim fimta og sjötta; [þá vil eg heldur vita son minn búa í Höfða hjá Skálholti, eða væri fjósamaður í Skálholti, en kirkjuprestur þar;[1] því Skálholt hefir aukizt og eflzt með herradæmi, en mun eyðast með eymd og vesalíngsskap, enda er þá þetta land komið undir útlendar þjóðir."

**Oddur lögmaðr Gottskálksson og Oddur biskup Einarsson.** (Sama heimild.) Það hefir verið einna almennast, að menn hafi á seinni tímum órað fyrir dauða sínum, bæði hvað gamlir þeir mundu verða, og sumir jafnvel haft skímu af því, hvernig þeir mundu deya. Einn af þeim var Oddur lögmaður Gottskálksson, sem fyrstur manna sneri Nýa Testamentinu á íslenzku. Hann sagði fyrir dauða sinn þrem árum eða meir, áður en hann dó, og með hverju móti hann mundi verða, og er það til sannindа hèr um, að hann bað margan á því ári að láta heita eptir sèr. Oddur reið heiman frá Reynistaðarklaustri um fráfæru 1556, og segir ekki af ferðum hans, fyrr en hann kom að Laxá í Kjós á Norðlíngavaði. Fylgdarmenn hans sögðu honum, að áin væri óreið; en hann vildi ekki heyra það, og reið sjálfur á undan móti vilja þeirra. En þegar hann kom útí ána lángt nokkuð, dýpkaði mjög; vildi hann þá snúa aptur til sama lands, en hesturinn lenti í sandkviku og lá í, en Oddur fèll aptur úr söðlinum og ofan í ána, og rak fram á eyri eina. Hann var ekki leingur í ánni, en svo, að hann drukknaði, og voru tvær bækur þurrar í barmi hans, þegar hann náðist.

Þess er áður getið um Odd biskup Einarsson, að hann hafi verið forspár, og eru þessi atriði til merkis um það. Einu sinni, þegar hann reið heimleiðis úr visitazíuferð um Austfirði, kom hann að Skógum undir Eyafjöllum. Þar bjuggu þá góðvinir hans, Þormóður bóndi og Halla Grímsdóttir, systir Björns málara, og veittu þau alúðlega biskupi, og sveinum hans, svo að þeir urðu lítt færir að fylgja honum, nema Haldór Daðason, sem síðar varð prestur í Hruna. Riðu þeir biskup tveir einir frá Skógum að Holti um kvöldið. Sèra Haldór sagði frá því laungu seinna, að þá hefði biskup sagt sèr margt fyrir, sem síðar kom fram. Eitt með öðru var það, að nú hefði Haldór sèð konuefnið sitt, það væri Haldóra, dóttir Einars á Hörgslandi, Stefánssonar, og Kristínar, systur Höllu í Skógum. Þar með hefði biskup bannað sèr að sigla til bóknáms, þó hann hefði það í hyggju, því honum mundi ekki lánast það, er hann mundi bráðum fá Hruna, því sèra Gunnlaugur Jónsson, sem þá hèlt þann stað, væri skammlífur. Þetta kom alt fram, sem biskup sagði. — Sumarið næsta eptir Skálholtsbrennu 1630 hèlt Gísli lögmaður í Bræðratúngu stórmannlega brúðkaupsveizlu þeirra Þorláks biskups Skúlasonar og Kristínar dóttur sinnar. Oddur biskup var svaramaður

1. Úr þessum spádómi Sveins spaka frá [, munu nálega sömu orðin vera tekin inn í Krukksspá Jóns lærða.

þorláks biskups, en af því hann var bæði orðinn heilsulasinn og ellihrumur, vildi hann heldur sofa í tjaldi sínu, en heima í staðnum í Bræðratúngu, því hann óttaðist glaum og háreysti í slíku fjölmenni, sem þar var saman komið. Einn morguu sem optar gekk Gísli lögmaður til tjalds biskups, til að hressa hann, og spurði, hvort biskup vekti. Sveinar biskups sögðu, að hann mundi sofa. Lögmaður gekk eigi að síður inn í tjaldið og sá, að biskup svaf; lagði hönd sína á kinn honum, og bauð honum góðan dag. Biskup vaknaði við og sagði: „Herra Gísli, nú vaktir þú mig óhentuglega, mig var að dreyma um burtför míua; því mínir lífdagar ern bráðum á enda kljáðir." Lögmaður sneri þessu í gaman og sagði: „Þið andlegu mennirnir eruð jafnan með ykkar guðhræðslu." Biskup segir: „Þegar eg er sofnaður máttu gæta að þínum högum; því ekki mun verða lángt á milli okkar. En þess bið eg, að þú sért við gröpt minn, og ausir mig einni moldarreku." Þetta kom fram; því Gísli lögmaður kendi banasóttar sinnar við gröpt herra Odds, á jólum, næsta vetur eptir þetta, en dó 12. Febr. 48 ára gamall.[1]

**Illugi smiður.** (Eptir handriti Jóhanns prófasts Briems í Hruna.) Það er sagt um Illuga þenna, sem var kallaður smiður, af því hann smíðaði alt, sem smíða þurfti í Skálholti á dögum Finns biskups, og þar að auki mörg skip: að hann hafi sagt fyrir um þau, hvernig þau mundu lánast. Illugi smíðaði og skip fyrir Magnús lögmann Ólafsson á Meðalfelli; var það eitt hið þægasta skip og hægasta. Þegar hann hafði lokið við það, sagði hann: „Það verður mönnunum að kenna, ef þetta skip ferst á sjó, og þó mun það farast." Einn dag átti að fara með flutníng á því suður í Reykjavík; en þá varð því með eingu móti ýtt, fyrr en mannsöfnuður var gerður að því. Gekk það þá seinast svo hart fram, að varla varð stöðvað. Var svo farið á stað með farminn; en aldrei spurðist til þess skips síðan. — Illugi vildi ekki smíða skip úr öðrum við, en hann hafði sjálfur valið. Einu sinni átti hann að smíða skip úr vönduðum við, eikarvið. En þegar hann leit á efnið, sagði hann: „Ekki vil eg blóðeik þessa," og var ófáanlegur til að smíða úr því efni. Þá var feinginn til annar smiður, og smíðaði hann gott skip og traust úr efninu sama; en það fórst í fyrsta róðri. — Þegar Illugi hafði lokið við seinasta skipið, sem hann smíðaði, er sagt hann hafi sagt: „Þar hefi eg smíðað manndráps-bolla, enda er eg nú feigur."

d) Loksins er hin fjórða vitrunargáfa, og eru það draumarnir. Sú gáfa er án efa flestum mönnum gefin, og því mun mega kalla hana almeuna. Þó er mikill munur á því, hverja mest dreymir og minnst, því suma dreymir sjaldan, en aðrir leggja varla svo aptur augun, svo að þeim hverfi minni, að þá dreymi ekki. En sagt er, að þeir missi draumgáfuna, sem annaðhvort ljúga til drauma sinna, eða segja ekki frá því, sem þá dreymir,

1. Um Odd biskup er tekið eptir Skálholtsbiskupasögum Jóns prófasts Haldórssonar.

og að þeir muni aldrei drauma, sem fyrr hreifi höfuðið, en fæturna, þegar þeir vakna. Menn hafa á öllum öldum, frá því fyrst gánga sögur af í ritníngunni og alt til þessa dags, ætlað, að margt mætti marka af draumum. En af því draumar hafa þá ekki allajafna þókt rætast, hefir það komið upp úr kafinu, sem stendur í annari kronikn, að „ekki sè mark að draumum," og að opt sè ljótur draumur fyrir litlu[1]. En við drauma er einkum tvennt að athuga, fyrst það, hvort þeir beri fyrir mann með vaxanda túngli eða þverranda; því þeir draumar, sem menn dreymir fyrir fyllíngu, koma fljótt fram, en hinir er sagt, að eigi sèr alt leingri aldur. Hitt atriðið er, hvernig draumar eru ráðnir; og varðar það miklu; því sagt er, að „svo rætist hver draumur, sem hann er ráðinn." Eins og það er misjafnt, hvern mest dreymir, eins er mikill munur á því, hverjir ráða bezt drauma; en opt fylgist það að, að þeir, sem mest dreymir, og mesta trú hafa á draumum, eru betri draumþýðendur, en hinir, sem sjaldan dreymir, og lítinn trúnað leggja á þá; þó er auðvitað, að meðfædd greind og reynsla gera mikið að verkum í þessu, sem öðru. Það er enn athugandi, að ýms nöfn eru kölluð „hörð í draumi," bæði karla nöfn og kvenna, og „eru þau þeim fyrir illu," sem dreymir þá menn, hvernig svo sem þeir hafa verið skapi farnir, meðan þeir lifðu, eða eru, ef þeir lifa.[2] Öll þau mannanöfn eru hörð í draumi, sem samsett eru af steinn, eða sem eitthvað ílt og óþjált liggur í, t. d. Bergsteinn, Illugi, og þau, sem myndað eru af Þór, og kvennanöfnin, Valgerður, Valdís, Ragneiður, eða Ragnhildur, sem leidd eru af Valkyrjum eða tröllkonum, og enn mörg önnur bæði karla og kvennaheiti. En þó er mikið undir því komið, hver viðskipti menn eiga við þann, sem fyrir mann ber í drauminum, og hvernig honum farast orð til þess, sem dreymir, og opt rætist, að „mikill draumur er fyrir litlu efni," eins og hitt, að „menn dreymir fyrir daglátum," og eru þeir menn kallaðir „berdreymir," af því draumar þeirra eru svo ljósir, að þeir þykja sýna berlega, hvað í þeim liggur. Nú skal hèr sýna fáein dæmi í sögum.

**Mann dreymir dauðar konur.**[3] Mann einn dreymdi einu sinni tvær dauðar konur úr bygðarlagi hans, og hètu Jarðþrúður og Ragnhildur. Honum þókti þær bjóða sèr að leggjast niður hjá þeim; en hann vildi ekki. Eptir þetta varð maðurinn mikið veikur, og ætla menn, að draumurinn hafi verið fyrirboði fyrir því. En hefði hann þegið boð þeirra, og lagzt niður hjá þeim, þykir hætt við, að draumurinn hefði boðað dauða hans.

**Reikníngsskapurinn fyrir Holtsós.** (Eptir handriti frá Dr. Hallgrími

1. Sturl., 6. þátt., 17. kap. 217. bls., „ekki er mark að draumum," sjá og þátt Jóns biskups Halldórssonar, Biskupasögur II. bindi.
2. Sbr. Hálfs sögu, Fornaldar s. II, 49. bls.
3. Sbr. Atlamál hin grænlenzku 26. er.

Scheving.) Austur undir Eyafjöllum á bæ þeim, er Raufarfell heitir, bjó maður að nafni Kjartan, formaður góður og atorkusamur. Hann dreymir eina nótt nokkru fyrir jól, en man ei drauminn, þegar hann vaknar, nema niðurlagið af honum, og er það þannig. Honum þykir maður koma til sín, og segja við sig: „Þú átt að standa reikníngsskap fyrir Holtsós;“ en svo hèt lendíng skamt frá bæ hans. Af þessum draum fær hann þúnglyndi, og heldur, að hann muni boða það, að hann eigi að drukkna fyrir Holtsós. En honum fór, sem vant er, að frekur er hver til fjörsins; og til þess að tálma því, að draumurinn rætist, setur hann upp skip sitt, og segir hásetum sínum, sem voru skipráðnir hjá honum, að hann ætli sèr ekki að róa næstkomandi vertíð, án þess þó að segja þeim, hvert tilefnið væri. Hásetunum þókti það að sönnu undarlegt, en skiprèðu sig þó hjá öðrum. Nú byrjar vertíðin; en Kjartan situr heima. Nokkru síðar gjörir stórviðri, svo skip hans tekur upp, og brotnaði það í spón. Kjartan, sem annars var skaðasár maður, varð feginn tjóninu; því nú hèlt hann draumurinn væri fram kominn. og segir hann nú fyrst bróður sínum, Jóni í Drángshlíð, drauminn, svo barst hann út um sveitina. Síðan fór Kjartan til bróður síns, og biður hann að lofa sèr að gjöra út skip hans til helmínga á móti honum. Bróðir hans veitti honum þá bæn, af því hann vissi, hver afla-og atorkumaður hann var; en sem þeir hafa verið saman nokkra róðra, kemur sundurlyndi í bræðurna; því Kjartan var mesti ofstopamaður. Endar ósamlyndið með því, að Kjartan geingur úr skipi frá bróður sínum, og fer enn leingra burt frá bæ þeim, er hann átti heima á, og kemur sèr í skiprúm hjá öðrum manni, sem háseti. Eitt sinn, þegar þeir eru úti á fiskidrætti, hleypur í brim og stórsjór, svo öll skip hafa sig til lands; svo gjörir og skip Kjartans; verða sumir fyrri, en sumir síðari en hann til lendíngarinnar. Næsta skipi, sem á undan þeim var, reiðir vel af. En sem skip Kjartans er komið að brimgörðunum fyrir framan lendínguna, kemur ágreiníngur milli skipverja út af því, að hann og aðrir hásetarnir vilja fylgja sama lagi; en formaðurinn, sem var gamall og ráðsettur maður, vill bíða næsta lags. En sem þeir eru að kýfa um þetta, rýkur Kjartan upp, rífur formanninn frá stýrinu, en sezt sjálfur við stjórn, og segir við hásetana: „Róið þið nú.“ En þetta lag varð þeim of stutt, svo næsta ólag kemur á skipið, og hvolfir því. Öllum hásetunum varð bjargað, nema Kjartani, og fannst hann laungu seinna um sumarið rekinn fyrir Holtsós. Þenna draum sagði Einar, sem var einn af hásetunum á skipinu með Kjartani, og sem fór í sjóinn ásamt með honum, systur sinni, frú Guðnýu, fyrri konu Árna biskups Helgasonar í Görðum á Álptanesi, en hann sagði aptur Dr. Schevíng.

**Draumur Maddömu Möller.** (Eptir sama handriti.) Árið . . . . dreymdi Maddömu Möller í Reykjavík, að bróðir hennar í Sjálandi í þeim

stað, sem Friðriksborg heitir, kemur til hennar, þegar hún var í Reykjavík, úti á Íslandi, og segir við bana: „Nú er eg dauður." Hún svarar honum: „Þú segir það ekki satt, þú lifir, eins og eg, eða veiztu ekki af því, að þú ert að tala við mig?" Við þetta þykir henni bróðir sinn styggjast, klípa hana í handlegginn og segja: „Eg skal sýna þèr, hvort eg er ekki dauður." En um morguninn er blár hlettur á handleggnum á henni. Hún gleymir draumnum. En nokkru síðar kemur Sigurður landfógeti Björnsson Thorgrimsen inn til hennar og segir: „Hvað kemur til þess, að handleggurinn á þèr er blár og kraminn." Þá mintist hún draumsins. Þegar skip komu frá Danmörku á næsta vori þar eptir, frètti hún viðskilnað bróður síns, en af því hún mundi ekki nóttina, nær hana dreymdi drauminn, verður ei með vissu sagt, hvort það hafi verið um sama bil, og bróðir hennar andaðist, en þó er meiníng manna, að svo hafi verið.

**Draumar Dr. Hallgríms Schevíngs.** (Eptir sjálfs hans frásögn.) I. Þegar Dr. Schevíng sigldi til bóknáms við háskólann í Kaupmannahöfn, varð skip það síðhúið, sem hann fór með af Eyafirði, og með því skipberra var hæði deigur og duglítill, velkti þá leingi, bæði fyrir norðan land og sunnan það. Loksins urðu þeir að hleypa inn að Egerö í Noregi og liggja þar fyrir mótvindi. Svo lögðu þeir þaðan, en urðu að snúa aptur, og hleypa í annað sinn til sömu hafnar. Dr. Schevíng man nú ekki glögt, hvort heldur það var í fyrra eða seinna sinnið, sem þeir lágu undir Egerö, að hann dreymdi draum þann, sem þegar skal getið. Faðir hans, sèra Hannes, var nokkru áður, en Dr. Schevíng sigldi, búinn að fá Laufás í Þíngeyarsýslu, en áður hafði hann verið prestur að Helgastöðum í sömu sýslu. Eldri bróðir Dr. Schevíngs hèt Hans, og var þá dáinn fyrir nokkru, en Lárus, yngri bróðir hans, var hjá föður þeirra í Laufási, og þá orðinn stúdent, er Hallgrímur sigldi Eina nótt, meðan þeir lágu í fyrnefndri höfn undir Noregi, dreymdi Dr. Schevíng, að hann þóktist ríða hrúnum hesti frá Helgastöðum, og Lárus bróðir hans með honum öðrum hesti bleikum. Þykir honum þeir ætla að ríða yfir svo-nefnt Bæarvað á Reykjadalsá, rètt fyrir neðan Helgastaði. Var þar allgott vað á ánni öndverðlega á dögum sèra Hannesar á Helgastöðum. En á seinni árum hans þar, hafði áin breytzt, kastað sèr að austurlandinu, og grafið sig þar niður, þó hún væri straumlítil, svo hún var orðin á sund undir eystri hakkanum, en hann var snarhrattur og hár moldarhakki, og örmjór götusneiðíngur upp úr ánni, svo hætta var að ríða, ef rigníng var, eða bleyta i götum, þar sem við því var húið, að hesturinn mundi renna aptur á hak ofan í hylinn. Þegar þeir hræður komu á vaðið, þykist Dr. Schevíng taka eptir því, að Lárus er æði dauðadoppulegur, og dregst heldur aptur úr, enda er hestur hans heldur latur og seinfær. Hallgrímur þykist þá kalla til bróður síns, og segja honum að knýa hestinn hetur fram. En Lárus gerir ekkert að því. Hverfur Lárus svo bróður

sínum úr draumnum þar á vaðinu og bleiki klárinn með honum. En Dr. Schevíng þykist halda á fram, og kveinka sèr ekkert við að ríða á sund, því hann var því alvanur. Síðan ríður hann yfir ána; en þegar hann kemur upp í sneiðínginn í eystri bakkanum, þykir honum þar vera komið svo stórt bjarg yfir þvera götuna, að tvísýnt sè, að þar sè fært yfir. Hann þykist þá hugsa með sèr, hvort hann skuli heldur taka það til bragðs, að mjaka hestinum aptur á bak hægt og hægt ofan í hylinn, því svo var gatan tæp, að einginn kostur var að snúa honum við, eða hann skyldi freista að hleypa honum á bjargið. Og þó hann örvænti, að hesturinn kæmist yfir það, ræður hann það þó af, að hleypa klárnum á klettinn, en hugsar sèr að koma móð í hann áður, og þykist slá hann með svipuskaptinu milli eyrnanna. Við það brá Brúnn, svo að hann hefur sig upp yfir bjargið, en rasar um það með annan framfótinn, svo Dr. Schevíng þykist steypast fram af honum, upp fyrir bjargið, og hrökk upp við byltuna. Um morguninn sagði hann skipherranum draum sinn, og sagðist halda, að þeim mundi eitthvað hlekkjast á á leiðinni, en komast þó af. Skipherrann sagði, að sèr kæmi það ekki á óvart, þó eitthvað yrði þeim mótdrægt í þessari ferð, því svo hefði spáð sèr kona ein á Akureyri, áður en hann fór af Íslandi. Þegar þeir lögðu í annað sinn út frá Egerö, gekk þeim ferðin enn skrykkjótt, uns þeir komu í Jótlandshaf, þar steytti skipið á sandrifi nærri Anholt, en þokaðist þó loksins af rifinu aptur eptir hálfa klukkustund, fyrir lagkænsku matsveinsins. Þóktist þá Dr. Schevíng hafa komizt upp fyrir bjargið, er skipið rann af rifinu, og hugsaði ekki meir út í drauminn, fyrr en haustið eptir, að hann fèkk brèf að heiman, og var honum í því sagt lát Lárúsar bróður síns. Áttaði hann sig þá á því, að það hefði verið fyrir dauða Lárusar, er honum þókti hann ríða bleikum hesti og hverfa sèr sjónum.

II. Hinn drauminn dreymdi Dr. Schevíng, eptir að hann var orðinn kennari við skólann á Bessastöðum. Hann var þar fyrst ókvæntur, en trúlofaður konu sinni, sem hann á enn, frú Kristínu Gísladóttur. Drauminn dreymdi hann veturinn eptir, að hann hafði fastnað sèr konuefni sitt, og gjört um leið svo ráð fyrir við teingdamóður sína, að hann kæmi norður vorið eptir að eiga dóttur hennar, og að hún færi svo suður með þeim hjónum, og yrði hjá þeim á Bessastöðum. Þenna sama vetur dreymdi Dr. Schevíng, að honum þykir teingdamóðir sín tilvonandi koma til sín, og hann fara að ympra á því við hana, hvort það standi ekki við sama, að hún fylgi dóttur sinni suður að Bessastöðum, og verði þar. Honum þykir hún þá segja nei; hún ætli í Hafnarfjörð.[1] Þetta þykir honum kynleg ráðabreytni, og það því heldur, sem hann þóktist vita í svefninum, að hún þekti eingan mann í Hafnarfirði. En þegar Dr. Schevíng vaknaði, og fór að hugsa betur út í drauminn, kom honum í hug, að teingdamóðir sín

1. Hafnarfjörður skerst inn sunnanmegin við Álptanes, og er þángað góður kippur frá Bessastöðum.

mundi, ef til vill, eiga skamt eptir, og eiga vísa heimvon til hafnar. Enda frètti hann lát hennar með næsta pósti að norðan um veturinn.

**Draumur Jóhanns Haldórssonar.** (Eptir handriti sèra Benidikts þórðarsonar á Brjánslæk.) Jóhann heitinn var sonur Haldórs prófasts á Melstað. Sama sumarið sem faðir hans dó 1843 úr sótt þeirri, sem þá gekk, kom Jóhann heitinn út híngað með skipi á Ísafjörð, og fór þaðan landveg norður að Melstað. En þegar hann kom þar, var öndin nýliðin upp af föður hans, og veitti Jóhann honum nábjargirnar. Hann sigldi síðan aptur um sumarið, og dvaldi þá enn í Kaupmannahöfn. En á jólaföstu sama árið dreymdi hann, að hann þykist koma í kirkjugarðinn á Melstað, og þykir honum faðir sinn koma þar á móti sèr glaður í bragði, rètta að sèr höndina og segja: „Komdu með mèr.“ Draumurinn þýddi það, að Jóhann dó skömmu síðar; hann druknaði út af Laungubrú í Kaupmannahöfn á nýársdag 1844.

**Líkkisturnar í Staðarkirkjugarði.** (Eptir handriti sèra Benidikts þórðarsonar á Brjánslæk.) Árið 1852 gekk um mörg hèruð á Íslandi skæð barnaveiki með andarteppu, og mistu margir börn sín úr henni. Skæðust var veikin í Dölum, er á leið sumarið, og dóu þá í Kvennabrekku-söknum nærfelt 40 börn, á 2 eða 3 vikum, og ámóta víðar þar um kríng. Í Breiðafjarðareyum gekk hún um sama leyti; en lítið kom hún við fyrir vestan Breiðafjörð, nema í Múla- Gufudals- og Reykhóla sveitum, og þó mest í hinni síðast-nefndu. Litlu fyrir jólin misti sèra Ólafur Einarsson á Stað á Reykjanesi 6 börn sín á einni viku; en hann átti 8 börn alls. Elztu börnin, þorlákur og Ýngveldur, lifðu, og voru þá hèr um bil 13 og 14 ára. Sagt er, að prestinn hafi dreymt nokkru áður, að hann kæmi út í kirkjugarðinn á Stað, og sæi þar líkkistur nokkrar litlar, og hafi hann spurt ókendan mann, sem honum þókti vera þar hjá sèr, hver ætti kisturnar. Maðurinn svaraði: „þú átt þær; það eru rúmin barnanna þinna.“ þorlák, son hans dreymdi og, að hann þóktist vera í stóru húsi og öll systkin sín hjá sèr. þókti honum þá maður koma að glugganum á húsinu, sem honum stóð ótti af, og kasta steinum inn um gluggann, og fyrir hverjum steini yrði eitt systkina hans. þykist þorlákur þá biðja manninn að kasta hvorki í sig nè hana Ýngveldi. þegar þau voru orðin tvö ein eptir, hætti grjótkastinu, og maðurinn hvarf.

**Draumur Einars Helgasonar á Laugabóli.**[1] „þegar eg var sofnaður, þókti mèr, sem eg væri kominn í sælustað hinna útvöldu. þóktist eg sjá þar sjálfan guð og vorn meðalgángara Jesúm Krist í ósegjanlegum ljóma, og óteljandi fjölda himneskra hersveita, sem stóðu í kríng um veldisstólinn,

1. Einar dreymdi draum þenna sama dag og hann dó í Júli 1854, og sagði sjálfur frá honum, þegar hann vaknaði. Hann er að vísu nokkuð berari, en vitranir þær sem Espólín getur um í Árbókunum (VI, 89. bls.), og þó ekki ósnoðlíkur þeim.

og súngu honum lof með yndislegum hætti. Eg varð næsta frá mèr numinn í hug, og virtist í svefninum, sem þetta væri stór hvelfíng af skæra kristalli, og var þar alt einn ljómi á að sjá. Þegar eg hafði horft á þetta um stund, og undrazt yfir, heyrði eg hvella rödd yfir mèr svo látandi: „Tími endurlífgunarinnar nálægist." Því næst heyrði eg, að voldug skipan út gekk frá veldisstólnum til eins eingils, að hann skyldi framkalla til lífsins þá, sem fyrst væru dánir; eg man ekki, hvað lángt fram eptir öldunum. Hann gerði svo, og blès í básúnn, og eg heyrði básúnuhljóminn. Lifnaði þá allur fjöldinn, kom fram, og hver þeirra endurlifnuðu tók sál sína, og varð að ásýnd líkur þeim, sem stóðu kríng um veldisstólinn. Því næst heyrði eg, að út gekk voldug rödd til annars eingils, að hann skyldi kalla til lífsins þá, sem sjór og vötn höfðu að geyma. Hann gerði svo; allur sá fjöldi kom fram og varð að ásýndum líkur þeim fyrri. Þessi eingill kallaði með hvellri röddu: „Þèr sjór og vötn, látið fram þá dauðu." Þegar eg var að horfa á þetta undraudi, sem nú var sagt, heyrði eg, að voldug rödd gekk enn út frá veldisstólnum til enn annars eingils, að hann skyldi kalla til lífsins allan fjölda andvana fæddra barna, og þeirra, sem dáið höfðu í móðurlífi, og enn ekki hlotið fullan skapnað; „svo rúmið verði fult og eingum verði glatað," sagði hann. Eg varð hryggur með sjálfum mèr, því eg þóktist vita, að dauðinn hefði enn meira vald yfir þessum flokki; en tveimur hinum fyrri, sem endurlífgaðir voru. Þessi eingill blès í básúnu, og fjöldi hinna dauðu kom fram, og varð lifandi. Þó þókti mèr, sem eingillinn gæti ekki vakið alla þessa til lífsins, af því hann þryti vald til þess. Yfir því ángraðist eg, þángað til eg heyrði raust hljóma frá hasætinu: „Þú minn elskanlegi útvaldi son, kalla þú þessa til lífsins." Þá sýndist mèr herrann Jesús Kristur sjálfur standa upp frá veldisstólnum, og kalla með hvellri raust hina dauðu; lifnuðu þeir þá undir eins og urðu líkir hinum fyrri. Í sama svip þókti mèr allur þessi himneski skari falla flatur fram fyrir hásætinu með mestu lotníng, og sýngja síðan með yndislegum hætti: „Þèr tilheyrir dýrðin og vegsemdin; þú hefir sigrað dauðans vald." Síðan þókti mèr hvelfíngin umbreytast, og sá, hvar sveimaði um loptið mergð vondra anda í eldlegum myndum, og úr þeirra flokki heyrði eg svo látandi raust: „Hvað eigum við að hafa?" Þá heyrði eg svarað: „Það er stöðugt, sem eg hefi sagt frá eilífð, þið fáið ekkert." Eptir það hurfu þeir. Þá sá eg, hvar stóð ógurlegur fjöldi fólks, eins og þeim væri skipað í í þríhyrnda fylkíngu. Þeir voru allir hugsandi, að sjá, og með döpru bragði. Eg spurði eingil einn, sem nærri mèr stóð, hvaða menn þetta væru. Hann svaraði: „Það eru menn af öllum túngum, þeir sem ekki vildu gegna guðs orða áminníngum á jörðinni, en standa nú skömminni íklæddir, og bíða allsherjardóms. En hvað við þá verður gert, er þèr ekki leyft að vita, því það er innsiglað og leyndardómur." „Fæ eg að koma híngað," spurði eg. Eingillinn svaraði: „Þú ert nú þegar kominn

híngað; en það, sem þèr hefir verið leyft að sjá um stund, fær þú að kunngjöra öðrum fyrst. En hafið lampann tendraðan, þið vitið ekki nær húsbóndinn kemur.“ Það voru síðustu orð eingilsins, og eg vaknaði.“

**Þorraþræls-bylur í Odda.**[1] Það er upphaf sögu þessarar, að Gísli prófastur Þórarinsson bjó í Odda á Rángárvöllum um og eptir hin síðustu aldamót. Hann var stórauðugur maður og hafði margt hjóna og fjölda kvikfènaðar, svo að aldrei voru þar færri en 20 kýr í fjósi. Verkstjóri hans hèt Jón Magnússon, smiður góður, en hniginn á efra aldur, er saga þessi gjörðist. Einn af húskörlum hans hèt Benóní; hann var tveggja manna maki að allri karlmennsku og það þó gildir væru. Björn hèt smalamaður prófasts, en Órækja fjósakarl. Hann var við aldur, óstyrkur í meira lagi, illhryssíngur í skapi, og hvumleiður öllum mönnum. Djákni var þar sá, er Jón hèt, og var Þorkelsson; hann náði síðan mikilli frægð fyrir sakir náms og fróðleiks, en lifði skamma stund, og dó erlendis 1805. Katrín hèt ráðskona í Odda; hún var nær því sextug að aldri og var hinn mesti verkmaður, nokkuð skapþúng, en trú og dygg húsbændum sínum. Guðfinna og Solveig hètu griðkonur tvær þar á bænum. Solveig var hæg í lund, en tápmikil; Guðfinna var vel viti borin og svo kjarkmikil, að menn sögðu, að hún kynni ekki að hræðast. Er það eitt til merkis um kjark hennar, að einhverju sinni vakti hún yfir dauðum manni í úthýsi, og hafði annan kvennmann hjá sèr til skemtunar. En um miðnætti vildi svo til, að líkið fèkk sinardrátt og reis upp sem lifandi maður; stökk þá önnur stúlkan með óhljóðum til dyra, fór út og kom aldrei aptur. En Guðfinna rèðist á hinn dauða, og með dugnaði og aflsmunum gat hún lagt hann til aptur, og bar síðan ofan á hann bæði borð og kistur, og vakti svo einsömul yfir líkinu alla nóttina. Gísli prófastur var kvæntur maður, og hèt kona hans Jórunn Sigurðardóttir. Þau áttu tvö börn; Sigurður hèt sonur þeirra, en Sigríður dóttir. Hún hefir sagt frá sögu þessari og var hèr um bil 11 ára, er sagan gjörðist. Svo bar til einn vetur í Odda, á þorraþrælinn, þegar fólk var komið á fætur, að húsfreya fèkk kvennfólki sínu ull til að vinna úr sjóvetlínga, því karlmenn áttu að fara í verið að fárra daga fresti. Veður var kalt og fjúkandi, snjór á jörðu og mjög dimt í lopti og hljóð mikið í norðrinu. Karlar voru farnir út að gegna skepnum, en konur settust við ullarvinnu á palli, nema Katrín; hún var að skamta mat frammi, en Guðfinna að eldhúsverkum. Litlu síðar komu þær báðar inn á baðstofupall. Settist þá hvor þeirra í sæti sitt og taka nú til vinnu. Þegar þær eru nýlega seztar niður, varpar Guðfinna öndinni mæðilega og mælti: „Nú bar það fyrir mig í nótt, sem eg hefi aldrei fyrr orðið vör við, og sem mèr verður því óskiljanlegra, sem eg hugsa optar

1. Fyrirsögnin var þessu leingri: „á Rángárvöllum, litlu fyrir hin síðustu aldamót.“

um það.“ Katrín greip þá fram í og mælti: „Nú kemur þú með einhverja vitleysuna, Guðfinna; eg vil þú talir fátt um þetta; það kom alteins að finna mig, og aðra.“ Talaði Katrín þessi orð með nokkrum þjóst, og þögnuðu allir um stund. Þá mælti húsfreya: „Þú segir frá því Guðfinna, hvað fyrir þig bar.“ Katrín stóð þá upp, gekk að húsmóður sinni og mælti: „Má eg ekki setja mig inn í norðurlopt (það var út úr hlið baðstofunnar)?“ „Ekki veit eg það,“ mælti hin; „eg vil helzt, að fólk mitt sè hjá mèr með vinnu sína.“ Sigríður litla gekk þá til móður sinnar, og beiddi hana að láta þetta eptir Katrínu; því hún mundi eins ljúka við ætlunarverk sitt, þó hún sæti þar inni. Og í annan stað beiddi hún móður sína að lofa sèr að sitja þar hjá henni; því bæði vildi hún vera henni til skemtunar, og líka gjörði hún sèr von um sögu hjá henni. Geingu þær svo inn í norðurlopt. En Katrín vildi ekki segja sögu í þetta sinn, en sat þúng í skapi við verk sitt. Þegar þær nú voru geingnar inn í loptið, tók Guðfinna að segja söguna þannig: „Í gærkvöldi lokaði eg bænum, eins og vant var, bæði bæardyra-hurð, gánghurð og baðstofu-hurðinni; eptir það fór eg að hátta, og vissi ekki betur en allir færu að hátta. Lítilli stundu þar á eptir kallar Jón Magnússon fram úr rúmi sínn og spyr, hvort allir sèu þá ekki komnir í rekkjur, og svöruðu menn, að svo væri. Voru þá slökt ljós og lögðust menn til svefns. Rekkjum manna var svo háttað, að Katrín svaf inn í norðurlopti og kvennmaður hjá henni, er Gróa hèt. Guðfinna og Solveig sváfu í rúmi rètt fyrir framan loptsdyr Katrínar, Björn smali í rúmi þar á móti, og varð ekki geingið inn í norðurloptið, ef komið var upp vesturlopts-stigann, nema farið væri milli rúma Bjarnar og Guðfinnu. Þegar búið var að slökkva ljósið, heyrði bæði Guðfinna og aðrir, að hrikti í gánghurðinni, og þvínæst var komið inn á baðstofugólfið, og þotið upp vesturlopts-stigann. Þá kallar Guðfinna: „Hver fer þar?“ en ekki var svarað. Heyrir hún þá, að þetta fer fram hjá rúmi hennar og inn í norðurloptið, þar sem Katrín svaf. Þá rís upp Björn smali, og seilist upp undir sperru, tekur þar ofan hníf og brýnir og segir: „Þetta skal í þig.“ En Guðfinna fer fram úr rúminu svo hægt, að einginn heyrir og fetar sig þvert á pallinn fyrir dyrnar, þar sem geingið var fram til stigans, að eigi yrði farið yfir um hana, eða hún yrði þess ekki vör; liggur hún þar um hríð og lætur ekki til sín heyra. En þegar lítil stund er liðin, heyra þau, að þotið er fram loptið, ofan stigann og baðstofuhurðin hreifð á járnum, og ruðzt út um dyr. Þetta heyrði alt fólkið í rúmunum, og þókti undarlegur viðburður. Eptir það sofnuðu menn í bænum; en svo sagði Gróa frá síðan, að þessa nótt hefði Katrín látið hræðilega illa í svefni. En það hefir einginn frètt, hvað fyrir hana bar. — En nú er að víkja til þess, sem fyrr var frá horfið, að kvennfólk sat alt við vinnu sína inni í baðstofu, en karlar voru úti. Veður fór versnandi, og þegar leið fram um hádegi, gjörði ófært veður, grenjandi norðanstorm með mjög dimmu kafaldi. Hèr

um bil einni stundu eptir hádegi heyra menn, að lokið er upp bænum, og kemur Benóní inn á baðstofugólfið, kallar til þeirra, er uppi sátu og segir: „það mun ráðlegast, að mjólka kýr nú þegar, því veðrinn slotar heldur lítið eitt, en seinna í dag verður það eingum kvennmanni fært.“ Húsfreya varð fyrir svörum og mælti: „Hvað á að segja?“ Guðfinna mælti: „Eg fer ekki hálft fet í fjósið á þessum degi.“ þá ansar Solveig og kvaðst skyldi fara. Hún og Guðfinna voru mjaltakonur. „Ekki vil eg að þú farir, Solveig,“ segir húsfreya, „og skipa eg það eingum.“ þetta heyrir Katrín, kallar fram úr loptinu og segir: „Ekki læt eg það viðgángast, að kýrnar missi máls, eg skal mjólka með Solveigu; eg mun vera ýngri en Guðfinna.“ En Katrín var þá um sextugt, eins og fyrr segir, og eldri en Guðfinna. „það tekur eingu tali, að þú mjólkir, Katrín,“ segir húsfreya. Benóní biður þær þá fá sèr strokkinn; var hann ákaflega stór, eins og nærri má geta á jafnstóru heimili, og sagðist hann mundi bera heim mjólkina í honum, en Órækja karlinn mjólki, „og komist fólkið ekki heim úr fjósinu, getur það drukkið mjólk, og látið þar fyrirberast,“ en hann segist þá skuli koma heim í strokknum því, sem það leyfi af mjólkinni. Katrín þeytir í þessu frá sèr prjónunum og segir.“ „það skal aldrei ske,“ og með það fer hún ofan, breytir þó í eingu búníngi sínum eða klæddi sig betur; einúngis batt hún þunnum lèreptsklút um höfuð sèr innan undir húfuna. þegar hún kemur móts við búrdyrnar, fleygir hún búrlyklunum frá sèr innar í gaungin með þessum orðum: „þarna eru lyklarnir; það er ei víst, að eg komi aptur.“ Síðan fóru þær Solveig út með Benóní; en þegar lokið var upp bæardyrahurðinni, var eins og bærinn lèki á hræði, og hríðina lagði þá inn um öll gaung. þau áttu undan bylnum ofan í fjósið, en það var nokkuð lángt frá bænum, hèr um bil hundrað faðma tólfrætt, og ofan hlaðbrekku að fara ærið bratta. Svo var veðrið mikið, að það sleit konurnar frá Benóní á leiðinni í fjósið, og feyktust þar einhvernveginn þángað sín í hvoru lagi. þó komust þær þángað slysalaust. Nú leið og beið, að einginn kemur aptur heim úr fjósinu, og þykir þeim, er heima voru, það fara að dragast. þegar komin er miðaptan, heyra menn, að bænum er hrundið upp, og Benóní kemur inn með strokkinn; var hann þá allur fannbarinn, og trölli líkari en manni. Hann mælti: „Er ei alt fólkið komið?“ En þar var einginn kominn heim aptur. Hann sagðist hafa lagt á stað úr fjósinu fyrir hèr um bil tveimur tímum, undir eins og hitt fólkið, Jón Magnússon, Órækja, Björn, Katrín og Solveig. Í þessu kemur Jón Magnússon inn í bæinn; hann vissi ei, hvað hann fór, fyrr en hann var kominn upp á smiðjuna, og datt ofan af henni; þá áttaði hann sig fyrst; en þegar hann var að klifrast upp á smiðjuna, þá heyrði hann í bylnum skamt frá sèr, að Katrín kallar upp og segir: „Datt eg enn.“ Litlu þar á eptir kom Björn smali; hann hafði rekið sig á brunnansuna, og kannaðist þar við, hvar hann var kominn. Nú vantaði Órækju, og konurnar báðar. Fer þá Benóní út aptur

í hríðinni, en fleiri treystust þá eigi að fara; geingur hann í öll húsin og í næstu kot, og kemur heim aptur í vökulok jafnnær. Prófastur lèt kveykja ljós í loptsgluggum öllum og hríngja kirkjuklukkunum, en alt kom fyrir ekki. Leið svo nóttin, að þau komu ekki heim. Morguninn eptir var veður mikln minna, en þó töluvert harðviðri. Þá kemur maður heim að Odda frá Vindási, sem er nyrzt og fjærst allra kotanna, er liggja undir Oddastað. Hann segir, að þar hafi fundizt 2 menn í fjósinu hjá sèr, karl og kona, bæði kalin; það var Solveig og Órækja. Þeim hafði jafnan lent saman í hríðinni aptur, þó veðrið sliti þau sundur. Fyrst höfðn þau komizt að öðru koti nær Odda, sem Kumli heitir. Þar vildi Solveig láta fyrirberast, en Órækja vildi ekki, enda átti hann þar ekki friðland, og vildi komast heim; en það fór svo, að þau hröktust leingra burtu og komust undir dag að Vindási og skriðu þar í fjósið. Var Solveig þá svo máttfarin, að hún gat ekki á annan veg náð fjóshurðarhespunni fram af keingnum, en leggja tennur að járninu; fylgdi þá hespunni skinn alt af vörum hennar, og voru það ekki lítil örkuml. Katrín fannst ei þann dag, og ekki fyrr en daginn þar á eptir. Hafði hún hrakizt austur á rima einn lángt frá bænum, og var þar örend og freðin og hræðileg ásýndum. Var hún því næst borin heim, og með því hún var svo mikil fyrirferðar, þar sem fötin á henni stóðu sem stokkur, komst hún inn um eingar dyr, nema inn í reiðíngaskemmuna. Þorði þá einginn að þíða þar fötin utan af henni, nema Guðfinna ein. Hún sat þar ein yfir líkinu næstu nótt og þíddi það, en vildi eingan hafa hjá sèr. Er það eitt til merkis um það, hve hugprúð Guðfinna sú hefir verið, að hún þorði alein að sitja yfir hræðilegu líki næturlángt í úthýsi, lángt frá öllum mönnum, og það líki þeirrar konu, er litlu áður var vofeiflega farin úr heimi þessum, með þúngu skapi; ef ekki hatursbuga, til Guðfinnu.[1]

**Atburður gamall.** (Eptir „Tijdfordryf" Jóns Guðmundssonar lærða). Þá virðulegur herra Árni biskup Þorláksson stýrði stólnum í Skálholti, dreymdi eina konu á Borg í Borgarfirði, að henni þókti, sem hún geingi út undir vegg þar heima á bænum. Og sem hún hafði staðið þar um hríð, kom til hennar úngur maður mikill vexti og nokkuð vasmikill, og mælti: „Þú skalt fara með mèr." „Nei" segir hún. „Fyrir víst skaltu fara," sagði hann, og tekur í hönd henni; en hún lætur leiðast eptir, þar til er hún kom að hóli einum, að því er henni sýndist. Henni þykir, sem hóll sá opnaðist fyrir þeim. Þar leiðir hann hana inn. Því næst komu þau inn í eina stofu velbúna. Þar var inni fjöldi manna. Þar sèr hún sitja mann í

1. Saga þessi er tekin eptir handriti, sem Þorvarður hreppstjóri Ólafsson, á Staðarfelli, hafði skrifað eptir frumriti Páls sýslumanns Melsteðs, er hann mun hafa stýlfært eptir teingdamóður sinni, frú Sigríði Gísladóttur. Undir afskriptinni stóð: „Bjarnarhöfn, 20. dag Janúarm: 1854. P. M."

öndvegi, meiri á vöxt en aðra, er þar voru. Og er þau komu inn, lætur sá maður hana lausa, er hana leiddi þángað. Hún keikist niður við dyrnar og er mjög óttafeingin; hún þegir, enda mælir einginn við hana. Sá hinn úngi maður, er hana hafði leitt, geingur fyrir hinn mikla mann, er í öndvegi sat, og henni þókti, sem vera mundi yfirmaður allra þeirra, og mælti svo: „því eru þèr, faðir minn, svo hljóðir, og hafið ekki til gamans?" Hann svarar: „Mèr er ekki um læðu þá, sem liggur við dyrnar." Hinn úngi maður mælti. „Ekki mein mun yður að henni verða, faðir minn; en allir bíða þess, að þèr hafið nokkuð til gamans." Hann kvað þá vísu þessa:

„Þykt blóð, þreytast rekkar.
Þjóð mörg vos öld bjóða,
grand heitt, gumnar andast,
g atast auður, firrast snauðir;
hætt grand hræðast dróttir
hríð mörg, vesöld kvíða,
ángur vænt, ærnar skerur,
illur sveimur nú er í heimi."

Eptir þetta tekur hinn úngi maður í hönd henni, og leiðir hana út aptur úr hólnum, og þángað sem þau fundust. Varð hún ekki fleira vís; því hún þorði einkis að spyrja. Hún vaknaði og mundi vísuna. Kona þessi var að lángfeðgatali af ætt Egils Skallagrímssonar. Vísa þessi var rituð til bróður Árna Illugasonar, sem þá var haldinn vísasti maður og bezta skáld. Hann kvað vísuna fyrir Árna biskupi Þorlákssyni, og kvaðst kenna skáldskaparhátt Egils á vísunni. En þetta var í þann tíma, er þeir Hrafn Oddsson og Loðinn ónáðuðu Árna biskup um staðamál og heilagra kirkna rètt, sem hans saga vottar.

**Annar atburður** (Eptir „Tijdfordryf" Jóns Guðmundssonar lærða). Sá atburður varð á bæ þeim fyrir neðan heiði, er á Mosfelli heitir, þegar þar bjó sá maður, er Gissur hèt, og var Einarsson, hann átti Þóru, dóttur Gissurar jarls. Þar var prestur, er Guðmundur hèt. Hústrú átti hænsn. Það bar til einn morgun, sem prestur lá í sæng sinni og sá í eystri dyrnar; því bærinn var tvídyraður. Hann sá, hvar hænsin voru, og er minnst var von, fer hænan upp á þröskuldinn, og gelur á þann hátt, sem hani, en hljóð hafði hún miklu meir, en hani. Var þetta opt, og þókti öllum mót náttúru, og nokkuð svo fyrirsögn þeirra hluta, er síðan komu fram, og óheyrilegir og óviðurkvæmlegir voru, þá er kóngsmenn nauðguðu herra Árna biskup á þann hátt, að þeir sögðust taka skyldu frá staðnum í Skálholti og öllum hans útbúum alla vinnumenn, utan hann sigldi til Noregs, og gjörðu honnm slík fádæmi, sem fáheyrð eru, og trautt munu dæmi til finnast, að með nokkrum biskupi hafi svo gjört verið, og er ekki undarlegt guð sýndi fásèna hluti fyrir slíkum ódæmum.

**Draumkona og draummaður.** Jón Daníelsson í Vogum, sem fyrr er getið, var ekki síður merkilegur að því, að hann var draummaður mikill, og auk þess, sem hann átti bæði draummann og draumkonu, dreymdi hann allopt merkisdrauma. Draumkona þessi rèð honum í svefninnm ýms heilræði, hvernig hann skyldi haga því eða því, eða hverja aðferð hann skyldi hafa við fyrirtæki sín. Hún vísaði honum og á það, sem hann glataði eða misti á einhvern hátt, og varð honum jafnan að góðu, ef hann fór í öllu að ráðum draumkonunnar. Það var einu sinni seinni hluta æfi Jóns, að týnt var fyrir honum silfurskeið. Hann lèt leita hennar dyrum og dyngjum allstaðar, sem honum gat til hugar komið. Eina nótt þar á eptir kom draumkonan til hans í svefni, og þykist Jón spyrja hana um skeiðina; hún segir, að hann skuli leita í buxunum sínum. Jón lætur þegar um morguninn leita í öllum sínum buxum og fötum; en alt kom fyrir ekki. Þegar fundum þeirra bar saman næst, segir Jón, að ekki hafi skeiðin fundizt; en hún segir, að þá hafi ekki verið vel leitað, því þar sè hún niður komin, sem hún hafi sagt. Eptir það lætur Jón byrja nýa leit og er nú sjálfur með í henni, og leitar í öllum buxum sínum og fötum, svo hann þykist viss um, að skeiðin getur hvergi leynzt þar, og hættir svo leitinni, að hann finnur ekki að heldur. Þykist hann nú geinginn úr skugga um, að draumkonan hafi logið að sèr, en þess hafði hann aldrei fyrr var orðið. Þegar hún kemur næst til hans, segist hann ekki finna skeiðina. Hún segir, að hann hafi þá enn illa leitað, því hvergi sè skeiðin annarstaðar, en hún hafi sagt. Jón firtist við það, og segir henni að koma aldrei fyrir sín augu framar, fyrst hún vilji fara með þá lygi, því nú hafi hann sjálfur leitað. Eptir það hvarf draumkonan frá honum, og kom aldrei til hans eptir það. En veturinn eptir, er Jón fór að hugsa til róðra, lèt hann taka skinnbrók sína ofan úr eldhúsi, sem þar hafði hángið frá því vorinu áður, og fannst þá skeiðin í annari brókarskálminni. Um draummanninn sagði Jón það, að sèr virtist hann snoðlíkastur Tærgesen kaupmanni í Reykjavík. Einu sinni, þegar draummaðurinn kom til hans, sýndi hann honum inn í eilífðina. Honum þókti hann sýna sèr 12 menn bláklædda, er allir voru bundnir með járnviðjum. Hann þóktist eingan þeirra þekkja, en einn þóktist hann vita að væri Skúli Magnússon landfógeti, eptir því sem hann hafði heyrt frá honum sagt. Spurði hann þá draummanninn, hversu leingi þeir menn ættu við þann kost að búa; en hann svaraði: „Til dómadags.“ Hvað verður um þá síðan?“ segir Jón. Hann svarar: „Guðs miskunsemi er ómælanleg.“ Ekki er sagt, að hann hafi sýnt Jóni fleira í það sinn. Í öðru sinni var það, er Jón var vestur á Tálknafirði á skútu sinni, og hafði þá búið nálega 20 ár í Vogum, og verið alla þá stund mesti uppgángs- og lánsmaður, að honum þókti draummaður sinn koma til sín í svefni og segja: „Þegar þú ert búinn að búa 20 ár í Vognm, fer auðna þín hnignandi. Flyttu þig því inn í Firði (Hvalfjörð eða Borgarfjörð), og reistu þar bú. Þar muntu verða

eins mikill uppgángsmaður næstu 20 árin, eins og þú hefir verið í Vogum.“ Eptir það hvarf maðurinn. En Jón vildi ekki flytja bygð sína úr Vogum, er hann hafði alt þángað til átt svo miklu láni að fagna. En sannast þókti það, er draummaðurinn sagði honum, að heldur rènaði en óx auðsæld hans, er hann var búinn að vera full 20 ár í Vogum.[1]

Opt dreymdi Jón og auk þess, sem hann varð var við draummann sinn eða draumkonu, og skal hèr nú segja eina draumsögu, er Jón hefir sjálfur frásagt. Einu sinni var Jón kominn í Reykjavík á teinæríng eða áttæríng stórum eptir mófarmi. Hafði hann lagt skipinu um kvöldið úti á höfninni, en svaf með hásetum sínum í landi um nóttina. Þá dreymdi hann, að hann þóktist vera staddur hèr í bænum, honum þókti og dóttir sín ein, er hann hafði mist uppkomna, karlmanns ígildi til mannskapar, koma til sín og ráða á sig. Hann þóktist taka á móti, og gekk svo leingi, að hann þóktist þurfa alls síns við að neyta, til að verjast föllum. En loksins fer svo, að hann komi henni undir, og vaknar við það. Einn af þeim, sem með honum voru, var mesti ofurhugi, eins og Jón, en miklu framgjarnari. Um morguninn var suðurferða-veður allgott, en Jón lèt sèr hægt og hafði ekkert ferðasnið á sèr. Skipverji Jóns, sem á var minnzt, vakti þá máls á því við hann, hvort hann ætli ekki að leggja suður. Jón kvað nei við. Hann segir, að það sè skömm fyrir þá, að leggja ekki suður í þessu veðri, og kallar það bleyðuskap Jóns, og skorar fast á hann. Jón var nokkuð bráðlyndur, og segir, að það sè þá bezt að fara; en ekki komi sèr á óvart, þó þeir fái sig fullreynda. Leggja þeir svo suður og gekk það vel alt suður undir Brunnastaðatánga. En þegar þeir ætluðu að leggja fyrir tángann, bráð-rauk hann á móti þeim með steinóðan rètt-synníng, svo umhverfði sjónum á augabragði. Var þá ekki um annað að gjöra, en snúa við, og náðu þeir með illan leik inn í Hafnarfjörð um kvöldið. Sagði Jón það síðan, að þá hefði hann verið hættast kominn á sjó á æfi sinni, en því hefði hann ekki viljað fara úr Reykjavík um morguninn, að sig hefði grunað af draumnum, hvernig fara mundi.[2]

**Ekki má sköpum renna.** Manni nokkrum var því spáð, að hann ætti að verða sjódauður. Hann var formaður og sókti fast sjóróðra. Til að komast hjá þessu, hèt hann því, að koma aldrei á sjó framar, og enti það trúlega; en eingu að síður hafði hann þó skip sitt úti. Líða svo mörg ár, að ekkert bar til tíðinda, og var nú bóndi gamall orðinn. Einu sinni reru menn hans. Var veður slæmt um daginn, og feingu þeir vos mikið; náðu þó heim til húsbónda síns um kvöldið, hraktir og alvotir. Stutt var

1. Það hefir annars verið almenn trú, að eingum lánist sama jörðin leingur, en 20 ár, til ábúðar, auk þess, sem það er tekið fram um Málmey.

2. Eptir frásögn Páls gullsmiðs Einarssonar á Meðalfelli í Kjós, en honum sagði Jón Daníelsson í lifanda lífi.

sjávargata að bænum, og geingu þeir heim í öllum sjóklæðum, og fóru úr þeim inni á baðstofu-gólfi, og voru þau heingd þar upp. Bóndi var mjög óglaður um daginn; gekk hann ýmist út eða inn og sinti eingu, en kvartaði þó um ekkert. Þegar menn voru afklæddir, fóru þeir upp í baðstofuloptið, var bóndi þá einn eptir á gólfinu. Hann gekk þegjandi um gólf, meðan þeir afklæddust Litlu síðar var farið með ljós inn á gólfið; lá þá bóndi þar á grúfu með andlitið niður í polli, sem sigið hafði saman úr sjóklæðunum, í laut, er var á gólfinu; og var hann örendur.

---

## 2. GREIN.

### TÖFRABRÖGÐ.

Miklu fleira er fært í frásögur um galdrana sjálfa á Íslandi, en um yfirnáttúrlega hæfilegleika þess kyns, sem nefndir voru í næstu grein á undan. Galdur heitir að fornu fari fitonsandalist, fitonsandi, fjölkynngi, fordæðuskapur, forneskja, galdur, gjörníngar, kukl, kunnátta, kynngi, rýnni, seiður, trölldómur, tröllskapur, töfrar o. fl., en nú er galdrar algeingasta orðið, eins og galdramenn og galdrakonur eru af því samsett. En þeir hètu svo, sem sagt var, „að vissi frá sèr,“ eða „vissi jafnlángt nefi sínu“ og „kynni meira en faðir-vor,“ og þar fram eptir. Þessir galdramenn hafa fundið ýms töfrabrögð af kunnáttu sinni, og skal hèr nú getið nokkurra þeirra.

Þeir, sem vildu afla sèr perínga, sem aldrei væri þrot nè endir á, feingu sèr Skollabrækur, sem og heita Finnabrækur, gjaldbuxur eða nábuxur (nábrók) og Papeyarbuxur; en þær eru svo undir komnar, sem nú skal greina. Sá, sem vill fá sèr brækur þessar, gjörir samníng við einhvern í lifanda lífi, er hann þekkir, að hann megi nota skinnið af honum, þegar hann sè dáinn. Þegar svo er komið, fer hinn lifandi á náttarþeli í kirkjugarðinn, og grefur hinn dauða upp. Síðan flær hann af honum skinnið alt ofan frá mitti og niður úr gegn, og lætur það vera smokk, því varast skal hann, að gat komi á brókina. Því næst skal hann fara í brókina, og verður hún óðar holdgróin, uns manni tekst að koma henni af sèr á annan. En áður en brækurnar verði nokkrum að notum, verður hann að stela peníngi frá bláfátækri ekkju á einhverri hinna þriggja stórhátíða ársins á milli pistils og guðspjalls, aðrir segja daginn eptir, að hann hefir farið í þær, og láta hann í púng nábrókarinnar. Eptir það draga brækurnar fè að sèr af lifandi mönnum, svo aldrei er púngurinn tómur, þegar eigandinn leitar í honum; en varast verður þó, að taka þaðan peníng-inn stolna. Sá er annmarki á með Finnabrækur, að sá, sem á þær, getur

ekki úr þeim losazt, eða skilið þær við sig, þegar hann vill; en á því ríður öll andleg velferð hans, að hann sè búinn að því, áður en hann deyr, auk þess, sem lík hans úir og grúir alt í lúsum, ef hann deyr í þeim. En þess er einginn kostur, nema hann fái einhvern til, að fara í þær af sèr, og verður það með því einu móti, að hann fari fyrst úr hægri skálminni, en jafnskjótt fari hinn, er við þeim tekur, í hana. En þegar hann er í hana kominn, getur hann ekki aptur snúið, þótt hann vilji; því ef hann ætlar að færa sig úr henni aptur, er hann kominn í hina vinstri, án þess hann viti, hvernig það hafi orðið. Má þá með eingu móti losast við þær, nema á fyrirsagðan hátt; en náttúru sinni halda Finnabrækur mann af manni og slitna aldrei. Nöfnin á brókum þessum eru flest auðskilin, t. d. Skollabrækur, af því athæfið alt við að útvega sèr þær er svo djöfullegt; en þó hefi eg einnig heyrt þá sögu, að brækurnar sèu af Skolla sjálfum, og að hann gefi þeim einum þær, sem hafa veðdregið sig honum lífs eða liðnir. Finnabrækur heita þær líklega af því, að Finnar voru orðlögðustu galdramenn á Norðurlöndum í fornöld. Nöfnin gjaldbuxur og nábuxur eru dregin, annað af verknaði brókanna, en hitt af tilbúníngi þeirra. En Papeyarbuxur hefi eg heyrt að þær hèti af því, að í Papey eystra hafi jafnan verið auðmenn mestu, að sagt er, og hefir það verið ætlun manna, að ekki væri einleikið með þann auð, og að þeir mundu hafa haft þetta bragð við auðsafn sitt.[1]

Annað bragðalag er og til, til að afla sèr fjár, sem aldrei þrjóti, og fylgir því að vísu minni kynngi, en þó nokkur, en það er flæðarmúsin, og fæst hún á þann hátt, sem nú segir: Fyrst tekur maður hár af óspjallaðri mey, og ríður net úr því svo smágjört, að músin geti ánetjazt í því. Þetta net skal þar leggja, sem maður veit af, að fè er fyrir á mararbotni, því flæðarmúsin á eigi að vera annarstaðar, en þar, sem silfur er eða gull. Netið þarf ekki að liggja nema eina nótt, ef lögnin er rètt valin, og er þá músin komin í það að morgni. Nú tekur maður músina, og hefir heim með sèr. Er hún þá látin þar, sem maður ætlar að hafa hana. Segja sumir, að hana skuli geyma í hveiti-tunnu, en aðrir í stokk, og gefa henni hveiti að jeta; á meyarhári skal hún og liggja En svo verður um að búa, að ei geti hún sloppið; því æ vill hún aptur í sjó. Því næst skal stela peníngi, og leggja hann í hárið undir músina; dregur hún svo fè úr sjó, og svo stóran peníng með dægri, sem sá er, er undir hana var lagður í

1. Ein sögn er það, að Mensalder hinn auðgi í Papey hafi haft brækur þessar og því rakað saman ógurlega miklu fè. En þegar hann kom ekki brókunum af sèr, varð hann að lokunum þúngsinna og sturlaður. Er svo mælt, einu sinni þegar verið var að búa um hann, hafi hann sagt, að senn mundi þetta fara af og annað taka við. Nokkrum dögum seinna var hann í góðu veðri að reika út um eyna, gjörði þá fellibyl mikinn; síðan hefir Mensalder ekki sèzt. Sbr. Árb. Esp. XI, 108. Frásögnin um Finnabrækur geingur um alt land. Sbr. Dr. Maurers Isl. Volkss. 91—92. bls.

öndverðu; en þann peníng má aldrei taka, því þá dregur hún ekki fè framar. Þess skal sá gæta, er flæðarmús hefir, að vera búinn annaðhvort að koma henni af sèr á annan eða til sjávar, áður en hann deyr; því ef hann gjörir það ekki, getur af því hlotizt tjón mikið. Flæðarmúsin fer þá sjálf í sjóinn, er maðurinn deyr, og verður af því hafrót ógurlegt. Er þá öllum þeim hætt, sem á sjó eru. Þá gjörir og veður svo ilt og mikið á landi, að svo er sem alt ætli um koll að keyra. Eru því flæðarmúsaveður talin háskalegust og mannskæðust allra veðra og heita músarbylur. Einn músarbylur er sagt að hafi orðið, þegar Latínu-Bjarni dó, er var nafntogaður galdramaður. Annar músarbylur átti að hafa orðið, þegar Jón, faðir Hnausa-Bjarna, dó; hann hjó á Fossi í Staðarsveit, og var sagt hann ætti flæðarmús, er hann geymdi í hveiti-stokk. En þegar hann var að hana kominn, lèt hann fleygja stokknum með öllu saman í á eina hjá hænum, sem Litla-Fura heitir. Átti þá músin að hafa brotizt úr stokknum og leitað til sjávar og æst hann ógurlega[1] nóttina milli hins 8. og 9. Janúarm. 1799, að stórskemdir urðu á Suður- og Vesturlandi. Það er mælt, að Hnausa-Bjarni hafi sagt, þegar menn voru að tala um, hvílík ókjör hefðu geingið á, þegar faðir hans dó, að ekki mundi minna veður verða, þegar hann dæi. Því Bjarni þóktist ekki minni kunnáttumaður, en faðir hans. Þegar Bjarni Jónsson í Höskuldsey, hafnsögumaður í Stykkishólmi, frètti þessi ummæli nafna síns, tók hann hann einu sinni, er þeir voru á sjó saman, setti hann útbyrðis, hèlt honum þar og lèt hann smásökkva dýpra og dýpra, og sagðist skyldi drekkja honum þar, ef hann tæki ekki þessi orð sín aptur, og sagði að hann lygi því, að hann væri göldróttur. Hnausa-Bjarni var tregur að taka orð sín aptur, þángað til fór að renna inn í eyrun á honum, þá át hann alt ofan í sig um galdur sinn og gjörníngaveður; enda varð ekkert sögulegt við fráfall hans.[2]

Ef menn vilja verða auðugir af því, að stela mjólk eða ull frá öðrum, hafa menn fundið hentugt ráð til þess; en það er með því að hafa tilhera eða snakk. — Tilberi og snakkur[3] er alt eitt; svo er og bæði nefnt „tilhera-smèr,“ og „snakks-smèr.“ Áptur á móti er það kallað „tilhera-verk,“ sem illa þykir stofnað eða ankríngislega. Tilheri merkir þann, sem ber eitthvað til manns, en snakkur þýðir upphaflega vefjarspóla. Er fyrra heitið dregið af verknaðinum, en hið síðara af tilbúníngnum. Það segja fróðir fræðimenn, að tilberi sè svo undirkominn, að kona stelur rifbeini úr dauðum manni í kirkjugarði á hvítasunnumorgun, þegar grafið

1. Eptir handriti sèra Jóns Norðmanns.

2. Sbr. Minnisverð tíðindi II, 106.—117. bls. og Árbækur Esp. XI, 96.—97. bls. Kaflinn um flæðarmúsina er tekin eptir sögnum sunnan og vestan á Íslandi. Sbr. Dr. Maurers Isl. Volkss. 92.—93. bls.

3. Tilberi heitir hann á Norðurlandi, en snakkur á Vestur- og Suðurlandi, en á Austurlandi hvorttveggja. Sbr. Dr. Maurers Isl. Volkss. 93.—94. bls.

er; vefur hún það síðan í sauðarull grárri eða handi,[1] sem hún stelur annarstaðar; aðrir segja, að tilheramæður reyti hý af herðakambi á nýrúinni kind, sem ekkja á, og vefji þar í rifið, svo þetta er að öllu útliti sem ullarvindill, og lætur það liggja um hríð á brjóstum sèr. Eptir þenna umbúnað fer hún þrisvar til altaris, og dreypir í hvert sinn víni því, er hún bergir, aðrir segja bæði brauðinu og víninu, á tilbera-efnið, með því að spýta því út úr sèr í barm sèr og kjapt tilberanum, sem sumir segja, að sè einúngis á öðrum enda tilberans, en flestir á báðum endum. Hið fyrsta sinn, er konan dreypir á tilberann, liggur hann grafkyr, en í annað sinn hreifist hann, og hið þriðja sinn, er hún dreypir á hann, verður hann fullmagnaður, og svo fjörmikill, að hann ætlar að spretta fram úr barmi hennar. Má þá konan gjalda varhuga við, að tilberinn ekki sjáist. Sú hegníng er sagt að hafi verið lögð við, ef konur urðu uppvísar að því að hafa tilbera, að þær voru brendar með tilberanum á sèr, eða þeim var drekt; svo þókti það athæfi ílt og óguðlegt. En ekki þóktu órækar sannanir fyrir því, nema tilberinn væri eltur upp undir þær, og voru pilsin annaðhvort hundin að þeim, eða saumuð fyrir neðan tilberann og hvorttveggja svo fyrirkomið á þann hátt. Þegar tilberinn er orðinn fullmagnaður á þann hátt, sem nú var sagt, þolir konan hann ekki leingur á brjósti sèr; vökvar hún sèr þá blóð innan lærs, og gjörir þar sepa á, og lætur hann sjúga sig þar fastan; þar lifir hann og nærist á blóði konunnar ávalt, er hann er heima,[2] og á því þekkjast tilheramæður, að þær eru haltar, og hafa blóðrauða vörtu, líka spena, innanlærs; þó virðist það og hafa tíðkazt, að tilberamæður hafi haft þá í tómum kerum eða tunnum í búrinu, að minnsta kosti stundum. Þegar tilberamóðir á barn og mjólk er í brjóstum hennar, ásækir hann hana sjálfa. Liggur þá líf hennar við, ef hann nær að sjúga brjóst hennar, því hann sýgur hana til dauðs.

Tilberar hafa verið hafðir til þess, að láta þá sjúga kýr annara manna, en sumir segja einnig ær úti um haga; koma þeir svo á málum á búrgluggann hjá mömmu sinni, á meðan hún skekur strokk sinn. En þær hafa svo um búið, að strokkurinn standi, meðan hann er skekinn, rètt undir búrglugganum. Þegar tilberinn kemur á búrgluggann, kallar hann inn og segir: „Fullur beli, mamma," eða: „af strokkvör,[3] mamma." Tekur þá konan lokið af strokknum, og segir: „Ældu, sonur sæll," eða: „gubbaðu í strokkinn, stráki," og enn hafa aðrir svo: „Láttu lossa, sonur." Ælir

1. Jón Bjarnason í Breiðuvík í Múlasýslu kallar ullar- eða bandvafnínginn utan um mannsrifið „snakk" og kemur það allvel heim við frummerkíngu í orðinu **snakkur** hjá Birni Haldórssyni (Lexicon Islandico-Latino-Danicum, Havniæ 1814), sem getið er hèr að ofan.

2. Sami maður segir, að tilberamæður hafi látið þá liggja utan um holið á sèr fyrir neðan brjóstin, milli þess þær sendu þá til erinda sinna; hins sama er og getið í sögnum úr Skaptafellssýslu.

3. „Munnagjörðina" hafa aðrir.

hann þá öllu því, er hann hefir sogið, ofan í strokk mömmu sinnar, svo nóg kemur smèr í strokk hennar. Smèr það, er verður af tilberaspýunni, er kallað tilberasmèr; er það útlits sem annað smèr; en gjöri maður krossmark yfir því, eða risti á það kross, eða mynd þá, er smèrhnútur heitir,[1] springur það alt í smámola og verður eins og draflakyrníngur, svo ekki sèst eptir af því, nema agnir einar, eða það hjaðnar niður sem froða. Þykir það því varlegra, ef manni er boðið óhrjálegt smèr að borða, eða í gjöld, að gjöra annaðhvort þetta mark á það, því tilberasmèr þolir hvorki krossmark nè smjörhnút. Það hefir og borið við, að tilberar hafa ekki kunnað sèr magamál, og sogið meira en þeir hafa verið færir um með heim á búrgluggann til mömmu sinnar; spúa þeir þá á miðri leið. Þessa tilbera-spýu hafa menn opt þókzt sjá í móum um heiðartíma (þ. e. grasafjallstíma); er hún hvítgul á lit og þykk. Þegar tilberi sýgur málnytupeníng, fer hann svo að því, að hann hleypur uppá bakið á honum, og vefur sig yfir malirnar á skepnunni; verður hann þá svo lángur, að hann nær beggja vegna til spenanna, og sýgur svo með báðum endum. En þeir, sem segja, að tilberinn ekki hafi nema einn kjapt, segja, að hann snúi sèr við á mölunum á skepnunni, þegar hann sè búinn að þursjúga spenana öðru megin, og taki svo til aptur hinu megin. Opt ber það við, að mjólkurkýr og mjólkur-ær fá ilt í júgrið, svo að þau stokkbólgna, en skepnan verður nytlaus eptir, og þrífst stundum ekki, svo það verður að skera hana. Þessi júgurveiki er kölluð undirflog, og hefir það verið trú manna, að slíkt væri að kenna mjólkursugum tilbera, ef það er á kúm.[2] Til varnar við undirflogum er það tíðkað enn sumstaðar, að krossa undir júgrið og yfir malirnar á mjaltapeníngi, og leggja Davíðssaltara yfir hrygginn.[3]

Til fleira mátti bregða tilberum, en til að sjúga málnytupeníng einúngis, því þeir voru og hafðir til að stela ull, þó þess sè sjaldnar getið. Einu sinni um vor var búið að þvo alla ull, sem til var á einum bæ. Þurkur var góður um daginn, og var ullin öll í stórri breiðu á túninu. Um kvöldið leit út fyrir þerrir og gott veður, og því var ullin ekki svo mikið sem tekin saman, því síður látin inn. Um morguninn, þegar á fætur var komið, sýndist eins og ullinni væri eitthvað hróflað til, en þegar farið var að gæta að betur, vissu menn ekki fyrri til, en þeim sýndist ullin öll þyrlast saman í einn vindil mikinn, og því næst fer allur ullarbýngurinn á stað, eins og hann var sig til, nema litlar dreifar, og var það eitt, sem bóndi náði af henni, því hinn mikli ullarvindill valt svo hratt áfram, að einginu kostur

1. Smèrhnútur er svo í lögun: ⛤

2. Rèttnefndara mun undirflog á ám en kúm, og er sú ástæða til þess, að sumir menn halda, að það sè steindeplinum að kenna, og geri hann það til hefnda fyrir það, ef eggin hans eru ómökuð á vorin, að hann fljúgi undir ærnar á þeim bæ á sumrin. Önnur örsök er sú til undirflogs á ám, að þær leggist, þar sem „óhreint sè."

3. Til skamms tíma í Skaptafellssýslu líklega hinni eystri.

var að fylgja honum, og komst brott úr sýn, og var það trú manna, að þetta hefði verið tilberi, sem hefði vafið um sig ullinni og farið burt með hana.[1]

Þegar tilberamóðir eldist og lýist, geingur tilberinn svo nærri henni, að hún þolir ekki að láta hann sjúga sig leingur í gegnum lærspenann; sendir hún hann þá upp á fjöll og skipar honum að tína þar saman lambaspörð á þremur afrèttum, og spreingir hann sig á því; því hann vill alt til vinna, að komast sem fyrst heim til mömmu sinnar, en ætlar sèr ekki af. Hafa menn talið það til sanninda um sögu þessa, að opt hafi fundizt mannsrif við lambasparðahrúgur uppi á afrèttum. Tilberar eru ákaflega fljótir og þjóta yfir holt og hæðir. Sýnast þeir ýmist velta eins og hnoða eða ullarvindill, ellegar þeir stíngast á endum. Dæmi eru sögð til þess, að menn hafi riðið þa uppi, en þó varla, nema á afbragðs lèttum hestum, sem nú skal greina.

Einu sinni kom maður þar að, sem tilberi var að sjúga kýr í haga. Maðurinn var ríðandi, og elti hann tilberann og náði honum. Tilberinn bað sèr lausnar, en maðurinn segir, að hann verði þá nokkuð til að vinna. Tilberinn játaði því. Maðurinn segir, að hann skuli tína saman öll sauðaspörð á Tvídægru í þrjár hrúgur, og vera búinn að því að næsta morgni. Fer þá tilberinn að tína spörðin; en um morguninn eptir fannst hann sprúnginn við eina hrúguna.[2] — Einu sinni var bóndi fyrir austan að sækja kýr sínar um morguntíma, er lágu úti, og var hann ríðandi. Þegar hann kom til þeirra, sèr hann, að snakkur, grár að lit, lá yfir malirnar á beztu kúnni og saug beggja megin. Brá þá snakkurinn brátt við, er bóndi kom að honum, og elti bóndi hann á hestinum. En snakkurinn smaug aðra þúfuna, en vatt sèr yfir hina, uns hann kom þángað, er hann átti heima. Fólk var úti í túni, og skaust snakkurinn þar upp undir konu heimabóndans. En bóndinn, sem elti, stökk af baki, gekk að konunni, og batt öll fötin að henni fyrir neðan snakkinn, og var húu svo brend.[3] — Sèra Vigfús Benediktsson, sem síðast var prestur á Kálfafelli í Hornafirði (1787—1822), og síðar verður getið, sá einu sinni á ferð sinni tilbera í kúahóp. Hann stökk upp á malirnar á einni kúnni og varð svo lángur, að hann náði beggja vegna til spenanna. Sèra Vigfús fer þar að, og vill reka hann ofan af kúnni, og það getur hann. En tilberinn ver sig leingi innan í kúahópnum; loksins getur þó prestur einángrað hann frá kúnum. Tekur tilberinn þá á rás og stingst á endum heim að bænum, þaðan sem hann var. Prestur fylgir honum eptir; en þegar tilberinn kemur á hlaðið, stendur kona úti í rauðum fötum, og hleypur hann óðar upp undir hana. Sèra Vigfús sagðist ekki hafa gjört henni annað, en gefið henni sitt undir hvort,

1. Þessa sögu minnir mig, að eg hafi heyrt austur á Landi.
2. Sèra M. Grímsson.
3. Jón Bjarnason í Breiðuvík.

og sagt, að henni væri betra að vera í svörtum fötum en rauðum, og ætti hún skilið að vera drepin fyrir athæfi sitt og djöfullegan anda, en af því hann var þar ókunnugur, vildi hann ekki kæra hana.[1] — Einu sinni sá Bergur prófastur Guðmundsson í Bjarnanesi (1744—1789), er hann var á ferð milli Þínganess og Almannaskarðs, að tilberi var að vefja sig um eina kú í kúahóp, og fer að sjúga hana. Prófastur rekur tilberann af kúnni, og getur um síðir flæmt hann úr kúahópnum, og eltir hann alla leið upp að Dal í Lóni, því klerkur átti aðkvæða góðan hest, er Kokkur hèt. Þegar þeir koma heim, stekkur tilberinn upp undir konuna, en prófastur refsar henni. — Einu sinni lá kona á sæng einhverstaðar á Austfjörðum. Ljósmóðir sat yfir henni, og lèt sængurkonan hana gánga um alt sitt, meðan hún lá, og einnig skamta fyrir sig, en varaði hana einúngis við, að líta ofan í tunnu eina, sem stæði á hurðarbaki í búrinu. En ljósmóðirin var forvitin og leit ofan í tunnuna, og sèr hún þar lifandi tilbera niður í. Stekkur hann þá upp úr tunnunni og inn í baðstofu, og linnir ekki fyrr, en hann læsir sig á brjóst sængurkonunni, svo fast, að hann náðist ekki þaðan. Konan komst þó á fætur aptur, en var drepin grimmum dauðdaga.[2] Steinmóður Oddsson hèt maður, sem dáinn er fyrir fáum árum; hann var leingst af vistferlum í Lóni og um Álptafjörð eystra. Hann hafði farið víða um land, og þar með um þrjá fjörðu á Austfjörðum, er ferðamenn fara aldrei um; þar hitti hann tilbera í kúahóp, nálægt prestssetri einu, og elti hann heim þángað. Prestskonan var úti, og fór tilberinn upp undir hana. Kallar Steinmóður þá prest til og annað fólk, og segir því frá. En prestskonan fèkk skaplegar skriptir fyrir tiltektir sínar.[3] Nú skal geta þess, að tilberar sjúgi ekki síður ær en kýr. Einu sinni fór bóndi að fylgja fè sínu sjálfur, vegna þess að undirflog gjörðust tíð hjá honum. Sá hann þá, hvar tilberi kom í fjárbreiðuna, og lofaði hann honum að sjúga, eins og hann vildi, og elti hann síðan mjólkur-fullan og seinfæran heim á búrglugga konu nokkurrar. Konan var að strokka; en þegar tilberinn kom á gluggann kallaði hann: „Af munnagjörðina, manna.“ Ældi hann síðan stolnu mjólkinni gegnum gluggann, ofan í strokkinn, steypti sèr sjálfum á eptir inn um gluggann og skauzt upp undir konuna, og tók maðurinn hann þar. Önnur saga er þetta um ullarstuld tilbera. Einu sinni kom maður á morgni dags að ullarbýng, og ætlaði að breiða úr honum til þerris. En í sama bili kom þar tilberi og þyrlaði burt með sèr öllum býngnum svo fljótt, að bóndi gat ekki haft hendur á honum. En fjörugur og bráð-lèttur eldishestur var nærri, og reið maðurinn honum á eptir tilberanum, sem mest mátti hann. Sá maðurinn þá, að hesturinn mundi springa, ef þessu færi leingi

1. Þessa sögn vita menn til að sagt hefir Ísleifur bóndi á Svínafelli í Öræfum, gamall maður og fróður.
2. Þessar 2 næstu sögur eru teknar eptir gamalli konu í Hornafirði.
3. Eptir frásögn Steinmóðar sjálfs.

fram. En þegar kom á hlaðið á fjórða bæ, skauzt tilberinn úr býngnum og upp undir konuna, er var úti stödd. Maðurinn hljóp þá að konunni og tók hana höndum, fann tilberann inn á henni, sleit hann frá henni og spreingdi hann. En svo hèlt tilberinn sèr fast, að suguvartan slitnaði með af konunni, og dó hún af blóðrás.[1]

Ef maður vill vita óorðna hluti, þarf ekki annað en útvega sèr sagnaranda, og segir hann manni frá öllu, sem maður vill vita, og líkist í því draummanni, nema hvað andinn segir manni alt í vöku, en draummaðurinn í svefni. En miklu meiri kynngi þarf til þess, að útvega sèr sagnaranda, en draummann, sem hèr segir. Vilji maður fá sèr sagnaranda, skal maður fara einn frá mönnum þángað sem hann veit að einginn muni koma; því líf hans liggur við, ef á hann er yrt á meðan hann er að seiða til sín sagnaranda. Hann skal leggjast í skugga (forsælu) og snúa sèr mót norðri. Hafa skal hann kapalskæni yfir vitum sèr og lesa svo galdraþulu nokkra. Skænið leggst inn í munn þess, sem seiðir, og kemur þá andinn og vill fara ofan í manninn. Verður þá skænið fyrir honum, og þegar hann er þar kominn, bítur maðurinn saman tönnunum. Verður þá andinn innan í skæninu, og lætur maðurinn skænið með andanum innan í bauk. Ekki mælir andinn, fyrr en maðurinn hefir dreypt á hann helguðu víni. Skal hann svo að því fara, að hann hefir baukinn, sem andinn er í, undir klút sínum, þegar hann fer til altaris. Spýtir hann þá víninu út úr sèr í baukinn. Gefa má og sagnaranda dögg þá, er fellur í maímánuði, en ekki er það einhlítt. Sagnarandi segir þeim, er hann hefir, alt sem hann vill vita, en helzt talar hann í þykku rosaveðri og austanátt. Sleppi sagnarandinn úr bauknum, gjörir hann þann mann vitlausan, sem átti hann; því hann fer ofan í hann.

Torfi nokkur á Klúkum í Eyafirði átti sagnaranda. Var sá andi loðmæltur orðinn fyrir sakir elli og vanhirðíngar. Sagðist hann vera síðan úr Sturlúngatíð og hafa geingið mann frá manni. En ekki hefi eg heyrt, hver hann var í lifanda lífi; því sagnarandi er vofa eptir dauðan mann. Þegar maður er feigur orðinn, fer sagnarandinn að ljúga að manni, en fyrr ekki. Torfi lèt Sigfús nokkurn á Efstalandi í Öxnadal fá sinn sagnaranda. Þegar Sigfús var gamall orðinn, vildi hann láta Jón á Auðnum í Öxnadal fá hann, en hann vildi ekki þiggja hann. Andi þessi var geymdur í rauðlituðum eikarbauk. Þegar Sigfús hèlt að hann ætti skamt eptir æfi sinnar, fór hann eina nótt fram í Eingimýrarhóla, og tók Jón á Auðnum með sèr. Þar grófu þeir baukinn í hólunum, og bjó Sigfús um hann og signdi leiði hans. Jón spurði því hann signdi leiðið andans. Sigfús sagði: „Eg signi hann í fjandans nafni, karl minn." Þykjast sumir hafa sèð vofu yfir leiði andans, og vita menn enn, hvar það er.

1. Tvær síðustu sögurnar eru teknar eptir handriti sèra Skúla Gíslasonar og frásögn Páls Ólafssonar, próventukarls á Brúsastöðum í Vatnsdal nyrðra.

þau álög fylgja sagnaranda, að þar sem hann er grafinn, kemur hjónum ekki vel saman, og þykir það hafa rætzt á þessum bæ.[1]

**Útisetur á krossgötum.**[2] Í fornum lögum eru þeir menn taldir dræpir, sem fremja „spáfarar oc útisetor, at vekja traull upp oc fremja með því heiðni“ og þarf ekki leingra að leita, til að sjá, af hverjum toga það athæfi er spunnið, þar sem hèr er auðsjáanlega að ræða um galdur og hegníng fyrir hann, enda standa fyrtöld orð í sambandi við „fordæðuskap,“ sem söm hegníng lá við í lögum, og er þar að auki bersýnilega hið sama, og að „leita frètta af framliðnum,“ sem Móiseslög banna, eins og að fremja særíngar.[3] Af þessu athæfi eru nú að eins litlar leifar eptir í munnmælum, og ýmist kallað að „sitja úti á krossgötum,“ sem er nær eldra málinu, eða „liggja úti á krossgötum,“ sem aptur bendir betur á atferli særíngamannsins. Á krossgötur ætla eg ekkert sè minnzt til slíkra særínga í fornum sögum, og enn síður á „krossgaung“ og að „liggja í krossgaungum,“ sem sumir kalla, í staðinn fyrir að „sitja eða liggja á krossgötum,“ sem er lángalmennast orðatiltæki um þetta; en hitt orðatiltækið hefir að líkindum komið upp — ef það er ekki helbert rángmæli — eptir að farið var að setja útiseturnar í nánara samband við álfatrúna en draugatrúna, sem þó hefir verið miklu upphaflegra, og þessa athæfis neytt til þess að vekja upp drauga, ekki til að senda þá, heldur til að leita frètta af þeim og fyrirsagna um óorðna hluti. Eins og tvímæli hafa orðið á um staðinn, þar sem bæði er sagt að „liggja á krossgötum“ og „í krossgaungum,“ þó hið síðara sè miklu sjaldheyrðara, eins er ýmist sagt, að það skuli gjöra á nýársnott (gamlársnótt) eða á Jónsmessunótt. Hið fyrra er almennast og skyldast bæði draugatrúnni og álfatrúnni. Nú er að víkja á athæfið sjálft, og taka sem gefið krossgötur og nýársnótt, sem stað og stund. Sá, sem ætlaði sèr að sitja úti til frètta, þurfti að búa sig út á gamlárskvöld, og hafa með sèr gráan kött, grátt gæruskinn, rostúngshúð[4] eða öldúngshúð[5] og öxi.[6] Með þetta alt skyldi særíngamaður fara út á krossgötur, sem lægju allar, hver um sig, beina leið og án þess að slitna, til fjögra kirkna. Á gatnamótunum sjálfum skal særíngamaður liggja, breiða vel yfir sig húðina, og bregða henni inn undir sig á allar hliðar, svo ekkert standi út undan henni af líkamanum. Öxinni skal hann halda milli handa sèr, eiublína í eggina, og líta hvorki til hægri nè vinstri, hvað sem fyrir hann ber, nè heldur annsa einu orði, þó á hann sè yrt. Í þessum stellíngum skal maður liggja grafkyr til þess dagur ljómar morguninn eptir. Þegar særíngamaður var búinn að búa um

1. Eptir sögn norðlenzkra skólapilta 1845. Sbr. Dr. Maurers Isl. Volkss. 94. bls.
2. Sbr. inngánginn fyrir uppvakníngum og sendíngum.
3. Sjá V. Móises-bók, 18, 10. og 11.
4. Handrit sèra Jóns Norðmanns telur þenna útbúníng.
5. Handrit sèra Magnúsar Grímssonar og Guðmundar stúdents Sigurðssonar.
6. Handrit allra hinna sömu og Jóns Bjarnasonar í Breiðuvík í Múlasýslu.

sig á þenna hátt, hóf hann upp særíngaformála og fyrirmæli þau, sem hlýddu til að særa dauða. Eptir það komu til hans ættíngjar hans, ef hann átti nokkra grafna við eina eða fleiri af hinum fjórum kirkjum, sem krossgöturnar liggja að, og sögðu þeir honum alt, sem hann fýsti að vita, orðna hluti og óorðna um margar aldir fram. Ef særíngamaðurinn hafði staðfestu til að horfa í axareggina, og líta aldrei út af, og tala ekki orð frá munni, hvað sem á gekk, mundi hann ekki einúngis alt, sem hinir framliðnu sögðu honum, heldur gat hann, hve nær sem hann vildi eptir það, leitað frètta af þeim að ósekju um alla hluti, sem hann girnti að vita, með því að sitja úti. Frá eingum kunna menn nú að segja, svo eg viti, sem klaklaust hafi komizt frá því, að sitja eða liggja á krossgötum, og ekki var svo mikið um, að hinum volduga spámanni (?!) Jóni krukk tækist það slyndrulaust. Útisetusögurnar um Jón virðast lúta miklu meir að álfatrúnni en draugatrúnni, sem hèr skal sýnt, og þó lifði Jón öndverðlega á 16. öld. Af því það hefir verið allmenn trú hèr á landi, að huldufólk flytti búferlum á nýársnótt, átti að velja þá nótt, til að sitja á krossgötum, einmitt til þess að verða á vegi fyrir því. Kemur það þá ekki ferð sinni fram fyrir þeim, sem á götunum situr, og býður honum mörg kostaboð, gull og gersemar, kjörgripi og kræsíngar alls konar. Þegi maðurinn við öllu þessu, liggja gersemarnar og kræsíngarnar eptir hjá honum, og má hann eignast þær, ef hann þolir við til dags. Einu sinni settist maður á krossgötur á nýársnótt; hann hèt Jón,[1] þó sumir nafngreini hann ekki. Hann sat þar alla nóttina fyrir álfafólki, svo einginn vissi, hvað honum leið, þángað til morguninn eptir, að hann kom heim, og sagði frá því, sem fyrir sig hefði borið. Undir eins og dagsett var orðið á gamlárskvöld, sagði hann, að huldufólk hefði farið að tínast til sín, og bjóða sèr gull og silfur, góð klæði og dýrustu rètti; hefði hann getað staðið það alt af sèr leingi vel og þagað, hvað sem í boði hefði verið. Hefðu svo hinir fyrstu farið burtu, en aðrir komið og farið alt á sömu leið, og skilið það eptir hjá sèr allir, sem þeir hefðu haft á boðstólum við sig. Þetta hafði geingið alla nóttina fram undir dag. Þá kom seinast til hans kona með heitt flot í ausu, en sumir segja ket og flot; en Jóni þókti heitt flot allra mata bezt. Sagði hann, að sèr hefði þá orðið það, að líta út af og segja: „Sjaldan hefi eg flotinu neitað.“[2] Misti hann við það allra gersemanna og kræsíngauna, sem honum voru áður boðnar og hjá honum lágu. Eptir það stóð hann upp, og rann þá dagur. Upp frá þeim tíma varð hann ráðlaus og rænulítill, en þó hafði hann þá gáfu síðan, að hann gat sagt fyrir óorðna hluti, með því að hann lægi áður úti heilar nætur og er þess getið, að hann hafi helzt valið til

1. Skúli prestur nefnir hann þessu nafni, eptir frásögn Gunnhildar nokkurrar Jónsdóttur, og eins þau hjónin, Jón Guðmundsson og húsfrú Hólmfríður Þorvaldsdóttir í Reykjavík.

2. Sjá bls. 125 að framan.

þess jólatímann, t. d. jólanótt, nýársnótt, þrettándanótt, og þó einstöku sinnum miðsvetrar-nótt og Jónsmessu-nótt. Jón þessi var síðan kallaður krukk af krossgötunum,[1] og er hann alkunnur á Íslandi með því nafni og af spáfarasögum þeim, sem af honum gánga bæði í Krukksspá[2] og í munnmælum. Til sýnis set eg hèr að endíngu fáein dæmi af spádómum Jóns, sem í munnmælum gánga.

„Mönnum verður alt af að fara aptur með vöxt og krapta, svo fífu áttúngurinn verður og lokum átta manna tak."

„Ísland eyðist af lángviðrum og lagaleysi."[3]

Vatnsdalur (á Norðurlandi) eyðist austanvert af skriðum, vestanvert af vatnaflóði."

„Suðurland mun sökkva, en Norðurland rísa æ hærra úr sjó."

þar sem Jón talar um biskupana á Íslandi, segja menn hann telji seinast Finn nauma, Hannes hvíta og Geir góða; eptir Geir góða segir hann að verði nokkrir pokabiskupar á Íslandi.[4]

það er enn haft eptir Jóni, að hamarinn, sem skútir yfir bæinn Elliða í Staðarsveit, og stórir hraunklettar hafa hrunið úr, sem liggja umhverfis bæinn, eigi alveg að falla yfir hann, þegar sá bóndi býr á Elliða, sem á sjö syni, og þeir halda þar allir í einu brúðkaup sín til sjö systra.[5] Sagt er og að það standi í Krukksspá, að dómkirkjan í Reykjavík eigi að sökkva, þegar þar standi 9 prestar skrýddir fyrir altarinu í einu og hinn 10. biskupinn. Ekki rættist þó spá þessi 1849, 12 dag Ágústmán., þegar Helgi biskup Guðmundsson vígði þar 7 presta, og stóðu þá alls 9 prestar fyrir altarinu með vígsluvottunum, auk biskupsins. En eptir því þóktust menn hafa tekið, að færra var þá af öðru fólki í kirkju, en venja er til við svo hátíðleg tækifæri, og ætla menn, að því hafi valdið hjátrú þessi,

1. Svo segir Jón Espólín, Isl. Árb. III, 38. og Dr. Maurer, Isl. Volkss. 187. bls.

2. það er bæði sögn og sannindi, að Krukksspá sè til, og eru þar á spádómar og spáfarir ekki fáar; þó ætla eg, að menn kunni nokkrar, sem þar standa ekki, og sèu miklu seinna tilbúnar. Eg hefi sèð brot úr Krukksspá, eða þó heldur slitur af henni, frá árinu 1514 eða jafnvel 1508 til 1523 í þremur handritum, og er það nærri furða, hvað þeim ber saman. þann tíma allan hefir Jón verið í Skaptafellssýslu og legið þar úti fyrnefndar nætur á ýmsum stöðum, t. d. hjá Kirkjubæ, Höfðabrekku og víðar, og spáð þá helzt, hverjir biskupar verði, og hverjar landplágur og landauðnir gángi yfir Suðurland, en þó einkum í Skaptafellssýslu og á Vestmannaeyum, bæði af eldgángi og sandburði úr eldfjöllum, af jökulhlaupum, af sjávar og vatna-ágángi og fyrir ránskap Tyrkja. En við það huggar Jón sig þó jafnan, að „hann verði þá kominn í frið og sælu hjá Maríu sinni guðs móður."

3. þessa málsgrein hafa aðrir eptir Njáli.

4. þessir spádómar eru teknir eptir handriti Skúla prests, sem aptur er samið eptir sögusögn Gunnhildar, sem fyrri er nefnd, og einna bezt hefir sagt frá útisetum Jóns krukks.

5. Eptir handriti sèra Jóns Norðmanns og Dr. Maurers Isl. Volkss. 187. bls. Sami spádómur Jóns er um fjallið þyril á Hvalfjarðarströnd, að það eigi að hrynja yfir bæinn þyril, þegar þar verði haldið í einu sjö bræðra brullaup.

og víst er um það, að nokkrir fávitrir menn töldu það ofdirfsku af þeim, sem ekki lètu letjast frá kirkjuferð í það sinn.[1]

Sá, sem vildi gjöra fjandmönnum sínum tjón, sendi þeim bæði sendíngar, sem áður er sagt, og stefnivarga. Stefnivargur þýðir í sjálfu sèr úlf, sem stefnt er á eitthvað, en í þessari merkíngu þau dýr, sem mögnuð eru með göldrum, og síðan beint að öðrum, þeim til tjóns og torlegðar. Einu sinni bjó ríkismaður í Akureyum, allra mesti maurapúki, sem aldrei tímdi að víkja fátækum neinu. Galdramaður nokkur sendi honum til hefnda fyrir þetta músavarg svo mikinn, að þær eyddu öllu, sem bóndinn átti, og hann dó seinast í mesta armóð. Eptir þetta voru mýsnar lángan tíma á eyunni; gjörði þá eigandi þeirra boð eptir öðrum galdramanni. Hann kom og lèt steikja handa sèr heilt sauðarlæri, og settist niður með það á eynni og ætlaði að fara að snæða það. En undir eins voru mýsnar komnar hópum saman utan um hann, til að fá sèr bita með honum. Galdramaðurinn stóð þá upp aptur, tók steikar-lærið í hönd sèr, gekk með það heim og innan um allan bæ og síðan út á ey aptur, þángað til hver einasta mús, sem til var á eynni, var komin utan um hann. Þá snaraði hann lærinu í djúpa gröf, sem hann hafði áður látið grafa til þess. En mýsnar stukku allar á eptir steikinni ofan í gröfina; lèt hann þá þegar byrgja gröfina aptur, og lagði um leið blátt bann fyrir, að hagga við henni nokkurn tíma framar. Eptir það var leingi eingin mús í Akureyum. Mörgum árum seinna lèt eigandi eyanna, sem þá var, leggja þar grundvöll að nývirki nokkru, og þá voru menn svo vanhyggnir, að opna gröfina aptur. Þustu þá mýslur upp á augabragði, og eru síðan alt til þessa dags til kvalræðis fyrir eyar þessar, sem annars eru svo vel úr garði gerðar.[2] — Einu sinni var Íslendíngur nokkur til veturvistar í Finnmörk. Gömul kona á bænum vildi eiga Íslendínginn, en hann vildi hana ekki, og fór um vorið eptir heim til sín. Kerlíngu líkaði það stórilla, og ætlaði að hefna sín. Hún tók þá tóur tvær, aðra hvata og aðra blanða, og las galdra yfir. Kemur hún svo tóunum á skip, sem ætlaði til Íslands, og sagði, að tóurnar skyldu þar aukast og margfaldast, og aldrei skyldi þeim verða útrýmt úr landinu. Þær skyldu og leggjast á þá dýrategund, sem þær sæu fyrst á landinu. En kerlíng hugsaði, að tóurnar mundu þar fyrst sjá menn, og ætlaði, að þær skyldu eyða þeim. En skipið, sem tóurnar voru á, kom við Austurland, og hlupu tóurnar upp á nes það, sem síðan heitir Melrakkanes í Alptafirði í Suðurmúlasýslu. Þar sáu þær sauðahóp, og var það hið fyrsta dýrakyn, sem fyrir þeim varð á landinu. Hafa þær síðan fjölgað mjög og dreifzt um landið, og ofsækja sauðfèð og drepa það niður.[3]

1. Eptir munnmælum í Reykjavík.
2. Tekið eptir Dr. Maurers Isl. Volkss. 94—95. bls.
3. Eptir sögn skólapilta úr Múlasýslu 1845.

Hver, sem vill geta riðið lopt og lög, verður að hafa beizli það, sem heitir gandreiðarbeizli. það er svo til búið, að maður tekur upp nýgrafinn mann, og ristir af honum hryggleingjuna. Hana hefir maður í tauma. því næst skal flá höfuðleðrið af hinum dauða manni og hefir hana í höfuðleður í beizlið. Málbein hins dauða manns skal í mèl hafa og mjaðmir í kjálka. Galdur þarf og að lesa hèr yfir, og er þá beizlið búið. þarf nú ekki annað, en leggja gandreiðarbeizlið við mann eða dýr, stokk eða stein. Fer það þá í lopt með þann, sem á situr, og flýgur fljótar en elding til þess staðar, er maður vill. Verður þá þytur mikill í loptinu, og þykjast sumir hafa heyrt hann, og heyrt glamra í gandreiðarbeizlinu.[1] Í heiðni var gandreið alltíð. Orðið þýðir eptir uppruna sínum úlfareið, og úlfum riðu tröllkonur sem segir í Eddu, bæði hinni eldri og ýngri. Síðan hefir gandreið verið höfð ei að eins um reið á tryltum dýrum, heldur og um sèrhverja för, sem farin er og einhver fjölkynngi viðhöfð, t. d. um hamfarir. En hvað nú sè lagt í orðið, sýnir auk þess, sem hèr hefir verið sagt, sagan, sem nú kemur og sagan af Hildi Álfadrottníng.[2]

**Gandreiðin.** (Eptir Jóni alþingismanni Sigurðssyni á Gautlöndum.) Einu sinni var prestur nokkur, vænn maður og vel megandi. Hann var nýkvæntur, er þessi saga gjörðist, og átti hann únga og fríða konu, er honum þókti einkar vænt um, enda var hún að öllu afbragð annara kvenna í nálægum sveitum um þann tíma. Nokkur annmarki var þó á um ráð hennar, er presti þókti ekki svo lítilsverður, og það var, að hún hvarf á burt hverja jólanótt, og vissi einginn, hvað af henni varð. Spurði þó prestur hana opt og þrásamlega um það, en hún sagði hann það eingu varða. það eina varð þeim að sundurþykkju. Einhverju sinni vistaðist til prests förudreingur nokkur; hann var lítilmenni á vöxt og viðgáng; en það ætluðu menn hann mundi vita fleira fyrir sèr, en aðrir menn óbreyttir. Líður svo fram til jóla, að ekkert ber til tíðinda. En á aðfarakvöld jóla er dreingur úti í hesthúsi að kemba og hirða eldishesta prestsins. Hann veit ekki fyrr til, en konu prestsins vindur þar inn, og gefur hún sig á tal við dreing um ýmsa hluti. Og er minnst varði, bregður hún beizli undan svuntu sinni og leggur við dreing; fylgir því svo mikið töfraafl, að dreingur líður prestskonunni að fara á bak sèr, og hleypur hann þegar á stað, sem fugl fljúgi; fer hann yfir fjöll og dali, kletta og klúngur, og hvað sem fyrir er; er því líkast, sem hann vaði reyk mikinn. Loksins koma þau að húsi einn litlu. þar fer hún af baki og bindur dreing við hæl einn, er stóð í húsveggnum. Prestskonan geingur að dyrum hússins og klappar uppá. Kemur þar út maður og fagnar henni ágæta vel. Leiðir hann prestskonu með sèr inn í húsið. En er þau eru horfin, leysir dreingur beizlið frá hælnum, og nær

1. Tekið eptir sögn úr Borgarfirði.
2. Sjá Álfasögur. Sbr. Dr. Maurers Isl. Volkss. 101.—102. bls.

því síðan fram af sèr og stíngur því hjá sèr. Síðan læðist hann upp á húsið, og sèr inn um rifu, sem á var þekjunni, hvað um er að vera inni. Hann sèr, að þar sitja 12 konur við eitt borð, og maður sá, er út kom hinn 13. Þar þekkir hann húsmóður sína. Það sèr hann, að konurnar bera mikla virðíngu fyrir þessum manni, og eru þær að segja honum ýmislegt af brögðum sínum og listum. Þar á meðal segir prestskonan frá því, er hún hefir riðið híngað lifandi manni, og þykir húsráðandanum það mikil býsn; því það sè hin rammasta gandreið, að ríða lifandi manni. Segir hann hana mundi verða afbragð annara í galdri, „því þetta vissi eg eingan áður kunna, nema sjálfan mig.“ Hinar konurnar vaða þá allar upp til handa og fóta og biðja hann kenna sèr þessa list. Leggur hann þá bók fram á borðið, gráa ílits og ritaða með eldi eða eldslitum stöfum. Bar af stöfunum glætu nokkra um húsið, og var þar ekki önnur birta. Tekur nú húsráðandinn til að kenna konunum á bók þessa og útskýra fyrir þeim innihald hennar, og nemur dreingur alt eptir, það sem hinn hafði fyrir. Líður svo undir morgun, og segja konurnar, að nú muni mál að fara. Er þá kennslunni hætt; en konurnar taka upp hjá sèr sitt glasið hver og rètta húsráðanda. Sèr dreingur, að í þeim er eitthvað rauðleitt, er húsráðandinn sýpur og rèttir síðan konunum aptur glösin. Kveðja þær hann síðan með mestu virtum og fara út úr húsinu. Sèr þá dreingur, að konurnar hafa allar sitt beizlið hver og eiga sinn reiðskjótann hver. Ein hefir hrosslegg, önnur kjálka, þriðja herðarblað og s. frv. Tekur hver sinn reiðskjóta og ríða á burt. En frá prestskonunni er það að segja, að hún finnur hvergi sinn reiðskjóta; ærist hún í kríng um alt húsið, og er minnst varir, stekkur dreingur ofan af húsinu og að henni og kemur á hana beizlinu. Sezt síðan á bak og heldur heim á leið. Hefir hann lært svo mikið um nóttina, að hann getur stýrt prestskonu rètta leið, og segir ekki af ferð þeirra fyrr, en þau komu aptur í hesthúsið sama, og þau fóru frá. Þar fer dreingur af baki og bindur prestskonuna í hesthúsinu. Geingur síðan heim og segir tíðindin, hvar hann hafi verið, og hvar prestskonan sè nú niðurkomin, og með hverjum atburðum þetta hafi orðið. Verður öllum mönnum bilt við, ekki sízt presti. Er nú prestskonan tekin og krafin til sagna. Meðkennir hún loksins, að hún og 11 prestskonur aðrar hafi um nokkur ár geingið á Svartaskóla, og fjandinn sjálfur hafi kent þeim þar galdur, og að einúngis eitt ár hafi verið eptir af þeirra kennslutíma. Segir hún, að hann hafi áskilið tíðahlóð þeirra í kennslukaupið, og það hafi verið það, sem dreingur sá rautt í glösunum. Eru síðan prestskonunni goldin makleg málagjöld sinnar ílsku.

**Mannsístra og mannsskinn.** Í mæli er það, að galdramenn hafi nýtt sèr til þarfa á margan hátt mannsístruna og skinnið til skæða, auk þess sem áður er talið, að það var haft í Papeyarbuxur og í gandreiðar-

beizli, sem síðar segir. Ístruna höfðu þeir þá fyrst og fremst til lásagaldurs, þ. e. til þess að komast í hverja læsíngu, sem vildi, og getur Gröndal þess yfirdómari, að helzt hafi þjófar neytt þeirrar kunnáttu, þar sem hann kveður:

„Fjandann báðu með fúlum anda
fast í alla lása blása,
og tröllakyn að taka á mellum,
tíða fyrri grófustu þjófar.“ [1]

En bæði var það, að þessu bragðalagi var ekki einúngis beitt, til að komast í hirzlur annara, heldur til að losa sjálfan sig úr læstum járnum, og eins þurfti meira til þess en bænina eina; því hvort heldur sem vera skyldi, átti sá, sem ljúka vildi upp lásum, að hafa upp í sèr mannsístru, sem hann hefði stolið úr kirkjugarði, falla svo fram fyrir læsíngunni á hirzlu þeirri eða húsi, sem hann vildi komast í, blása í skráargatið og hafa um leið þenna formála:

„Blæs eg, svo bylur í lási,
og blístra af mannsístru;
fjandinn með fúlum anda
fast í lásinn blási;
tröll upp togi mellur,
taki á púkar allir;
fetti [2] við fótarjárni
fjandans ósjúkir púkar.
Lyptið upp lásnum allir
lifandi fjandans andar.“ [3]

Hið annað, sem mannsístra var höfð til, var brýnugaldur. Ef maður vill, að sèr bíti jafnan vel við slátt, skal taka mannsrif úr kirkjugarði og bita af mannsístru, svo einginn viti. Ístruna á maður að láta renna sundur í munni sèr, og spýta á rifið, og brýna svo ljáinn; en einginn má sjá það. Ekki þarf að brýna með þessu nema einu sinni á dag, og flugbítur þó ljárinn, hvað sem fyrir verður. En varast skal maður að líta í eggina, því þeim bítur aldrei, sem það gjöra. [4]

Til fleira er mannsístra góð og fita af dauðum mönnum, en til lásagaldurs og brýnugaldurs; því hvorttveggja hefir reynzt einkar vel til ljósa, og sýnir það bæði Saltvíkurtýran og Sólheimatýran. Kona nokkur í Saltvík í Þíngeyarsýslu kvartaði yfir því, að sig skorti ljósmat. Var henni þá ráðlagt, að hún skyldi taka hanskúpu af manni og hafa fyrir kolu,

1. Kvæði Benedikts Gröndals. Viðeyar kl. 1833, 144. bls.

2. fitli.

3. Þessi formáli er tekinn eptir „fræðibók“ norðan úr Húnavatnssýslu. Annað bragð hafa menn og haft til að komast í læsíngar, en það er með lásagrasi, sem síðar verður sagt.

4. Eptir sögn í Borgarfirði. Alt annað er það, að hafa mannsrif fyrir ljá, sbr. Kaupamaðurinn í Álfasögum.

og láta í hana mannsístru og brennistein. Konan lèt sèr þetta að kenníngu verða, og entist svo vel ljós á þessum ljósmat, að ekki varð slökt á kolunni, og segja sumir, að það ljós lifi enn; en svo er það dauft, að til þess er jafnað, og kölluð „Saltvíkurtýra“ það ljós, sem illa logar. — Svo bar til, að konur tvær áttu að vaka yfir líki um nótt í Sólheimakirkju í Mýrdal. Þegar leið fram á nóttina, þraut þær ljósið. Þókti þeim það allílt og óskemtilegt, að vaka yfir dauðum manni í myrkrinu. Tók þá önnur þeirra það til bragðs, að hún skar með hníf eitt rifið úr síðunni á líkinu, með holdi og öllu, sem á því toldi; en maðurinn hafði verið ákaflega feitur. Síðan kveykti hún á öðrum enda rifsins, en festi það niður á hinum á kórbitann. Þetta ljós entist þeim ekki að eins alla nóttina, heldur lifði það alt til þess, að loksins tókst að slökkva það með 7 bræðra blóði. En svo bar ljós þetta litla birtu, að til þess var jafnað, eins og Saltvíkurtýrunnar, og er enn nefnd Sólheima-týra það ljós, sem að eins hjarir, en deyr þó ekki út.

Um mannsskinn er það mælt, að það sè mesta höfuð-þíng til skæða og slitni aldrei, ef ekki er geingið á þeim skóm í kirkjugarð, eða stigið á vígða mold, og er saga þessi til sannindamerkis um það. Einu sinni var bóndi á bæ; hann var við margt brugðinn. Ílt orð fór og af honum um hjúahald, og toldu vinnumenn þar illa, hvort heldur hefir komið af illu mataræði, atlæti eða eptirrekstri með vinnu. Svo fór loksins, að eínginn vildi fara til bónda fyrir vinnumann, og var við því búið, að hann yrði einn að vinna alla karlmanna vinnu. Einu sinni bar svo við, að maður nokkur, sem var á lausum kjala, en þó dugnaðarmaður, þar í sveitinni, kom til bónda þessa. Bóndi tók honum með kostum og kynjum; bauð honum í skemmu hjá sèr og fór að tala við hann um hitt og þetta. Þar með bar á góma hjá þeim hjúahald og vinnufólksekla. Loksins stakk bóndi upp á því við hann, að hann skyldi nú verða vinnumaður hjá sèr næsta ár. En maðurinn var ófús til þess vegna orðrómsins, sem á lá. Bóndi biður hann þá að vera hjá sèr, þó eigi sè leingur, en á meðan hann slíti einum skóm. Maðurinn hugsar með sèr, að skórnir sè þó stundlegir og einhvern tíma muni þeir slitna, og verði það þá stund, en eingin æfi, sem hann verði hjá bónda; og svo fór, að hann hèt bónda þessu. Síðan kom maðurinn á krossmessunni vorið eptir, og fèkk bóndi honum nýgerða skó, ekki ýkja þykka, og sagði vinnumanninum um leið, að þegar hann væri búinn að slíta þessum skóm, skyldi vistarráðum hans lokið hjá sèr, ef hann svo vildi; en það áskildi bóndi, að hann feingi aðra skó í hvert sinn, sem hann færi til kirkju, og lèt vinnumaður sèr það vel líka. Nú leið og beið í lánga tíma, að ekki sá meira á skóm vinnumannsins eptir heilt ár, heldur en hann hefði sett þá upp í gær. Varð hann þá ángurvær út af þessu loforði sínu, en þókti skömm að bregða það, og gánga burtu, en leitt þókti honum lífið hjá bónda þessum. Svo var hann hjá

honum annað árið til, og sá enn lítið á skóm hans, og hafði hann þó aldrei sett upp aðra í þessi tvö ár, nema þegar hann fór til kirkju. Maðurinn furðaði sig mjög á þessu, og þóktist nú vita, að þetta var ekki einleikið, en vissi þó ekki, hverjum brögðum hann var beittur. Einn sunnudag, þegar hann var farinn að byrja þriðja árið, var hann heima, og fór ekki til kirkju; því voru honum ekki heldur feingnir neinir kirkjuskór, sem annars var vant, þegar hann ætlaði í guðshús. Þegar fólkið var alt farið og bóndi til kirkjunnar, fer maðurinn að hugsa um ástand sitt, og hvenær þessi ánauð sín hjá bónda muni linna. Meðan hann var að velta þessu fyrir sèr, kom til hans maður. Komumaður tekur þegar eptir því, að vinnumaður var mjög áhyggjufullur, og spyr hann, hvað að honum gángi, eða því hann hafi ekki farið til kirkju í dag, sem annað fólk. Vinnumaður sagðist einhvern veginn ekki hafa haft sinnu á því, hann væri að hugsa um raunir sínar. Aðkomumaður sagði, að það væri eingin afsökun fyrir hann að fara til kirkju, þó hann þæktist raunamæddur, því það væri mein, sem allir hefði til brunns að bera, og ekki mundi raunir hans lèttast við það, þó hann sæti eptir af kirkjuferð, og skyldi hann nú fara þegar í stað til kirkjunnar, því ekki væri enn svo áliðið, að hann næði ekki messu, enda væri tekið í seinna lagi til, því grafið hefði verið fyrir messu, og hefði það dregið tímann. Maðurinn sagðist ekki geta farið, því sig vantaði kirkju-skóna sína. Kommmaður sagði hann gæti geingið á skónum, sem hann hefði á fótunum. „Nei,“ segir maðurinn, „eg hefi lofað að gánga ekki á þeim til kirkju, hversu leingi sem eg yrði í þessari góðu vist, og hefi alt af feingið aðra skó til þess; en í morgun vildi eg einga kirkjuskó, af því eg ætlaði ekki að fara.“ Komumaður spyr, hversu leingi hann hefði þá verið í vistinni. „Ofleingi,“ segir maðurinn, „það er nú byrjað 3. árið,“ og dæsti við. Þykir þèr ekki vistin góð?“ segir kommmaður. „Það er fjarri því,“ segir vinnumaðurinn; „það er mitt mesta mein að hafa verið hèr svo leingi.“ „Hvað bindur þig hèr?“ segir kommmaður. „Loforð mín,“ segir vinnumaður, og segir honum upp alla sögu. Þegar komumaður hafði heyrt sögu hans, segir hann honum, að hann skuli nú þegar í stað fara á skónum, sem hann sè með, til kirkjunnar, og skuli hann gánga að gröfinni, sem tekin hafi verið í dag og fara þar í vígða mold með skóna, og vita, hvernig svo fari, því það sem hann hafi haft á fótunum núna á þriðja ár, sèu skæði úr hryggleingju á kerlingu, og mundu þeir skór halda, þó hann geingi á þeim til eilífðar, ef það ætti fyrir honum að liggja að verða svo gamall. Vinnumaður þakkaði komumanni heilræðin, kvaddi hann og hljóp á stað til kirkjunnar. Þegar hann kom inn í kirkjugarðinn, tók hann eptir því, að skórnir flögnuðu upp að vörpum, en þegar hann stè í moldina með þá, dröfnuðu þeir af fótunum á honum, svo ekki var annað eptir, en vörpin og þveingirnir. Svo gekk hann með skóvörpin yfir um ristarnar inn í kirkju, og var prestur þá nýkominn upp í stól. Þegar úti

var, finuur maðurinn bónda, óg sýnir honum, hvernig komið var með skóna, að ekki var eptir af þeim, nema vörpin ein, og segir sig um leið úr allri þjónustu við hann. Bónda varð ekkert að orði, nema þetta: „Til nokkurs saztu heima af kirkju-ferðinni í morgun.“

Ef maður hefir þórshamar, getur maður vitað, hver stolið hefir frá manni, ef maður hefir mist nokkuð. Í hamar þenna skal hafa klukkukopar, þrístolinn. Herða skal hamarinn í mannsblóði á Hvítasunnudag á milli pistils og guðspjalls. Brodd skal og smíða úr sama efni og hamarinn. Þessum broddi skal pjakka í hamarskallann og segja: „Rek eg í augu Vígföður, rek eg í augu Valföður, rek eg í augu Ásaþórs.“ Fær þá þjófurinn verk í augun; ef hann skilar ekki aptur því þjófstolna, er þessi aðferð aptur viðhöfd, og missir þjófurinn þá annað augað; en verði að beita við hann sömu aðferð í þriðja sinn, missir hann og hitt augað.[1] Önnur aðferð er það, að maður stelur klukkukopar úr kirkju milli pistils og guðspjalls, og býr sèr til úr honum hamar. Þegar maður vill vita, hver stolið hefir, skal maður taka pappírsblað og draga þar upp á að minnsta kosti mannsauga, en bezt er að draga upp alt höfuðið með báðum augum, úr blóði sínu; en hinu megin á blaðið skal maður draga upp galdrastaf þann á blaðið, sem þar á við. Síðan skal taka stýl úr stáli, og setja enda hans í annað augað, en slá á hinn endann með þórshamrinum, og mæla um leið fyrir munni sèr: „Eg geri honum ílt í auganu (eða: set úr honum augað), sem stal frá mèr.“ Missir þá þjófurinn auga sitt annað, eða bæði, ef hann gefur sig ekki fram áður.[2] — Dr. Maurer sá þórshamar hèr á landi 1858, hjá húsfrú Björgu, ekkju Havsteins kaupmanns í Hofsós. Þann hamar hafði gömul kona í Húsavík gefið manni hennar í úngdæmi hans. Þessi gamla kona hafði verið mjög grunuð um galdur, eins og forfeður hennar, hvor fram af öðrum í gegnum marga ættliði. Hamarinn var úr kopar og ekki vel gerður, en æði gamall að sjá, hèr um bil þriggja þumlúnga á leingd, með lausu skapti, er stínga mátti í hamarsaugað.[3]

**Galdrastafir.**

Nro. 1.


Freyr.


Fjölnir.


Feingr.


Þundr.


Þeckr.


Þrumr.

1. Eptir vanalegri sögn í Borgarfirði, sbr. Dr. Maurers Isl. Volkss. 100.—101. bls.
2. Eptir norðlenzkri sögn. Auk þórshamars er til önnur aðferð að sýna þjófinn, og verður hennar síðar getið í særíngum.
3. Eptir Dr. Maurers Isl. Volkss. 101. bls.

Nro. 2.







Stafir til að sjá þjóf.

Nro. 3.





Stafir móti illum sendíngum.

Nro. 4.



Ægishjálmur.



Róðukross.



Kaupaloki.

Nro. 5.



Ginnir.



þórshamar.

Nro. 6.



Ginfaxi.

Nro. 7.



Ángurgapi.

Nro. 8.

Hjálparhríngar Karlamagnúsar.



Fyrsta kerfi.



Annað kerfi.



þriðja kerfi.

Allopt hafa galdramenn við haft bæði töframyndir, sem kallaðar eru galdrastafir, og formála ýmsa, sem ýmist fylgdu stöfunum, eða voru þuldir frálausir frá þeim. Sumra þessara stafa og formála er getið hèr og hvar í skrifuðum skræðum, sem nefndar eru galdrabækur. En slíkar bækur eru nú ekki orðnar nema lítill svipur hjá sjón, hjá því sem voru þær Rauðskinna Gottskálks Hólabiskups hins grimma, og Gráskinn-

urnar, sem sagt er að hafi leingi verið til fram eptir öldum við skólana á Hólum og í Skálholti. Enda loddi það álit leingi við skólapilta, og þá sem útskrifuðust úr skólunum, að þeir væru fjölkunnugir.[1] En þessar bækur eru nú fyrir laungu týndar og tröllum gefnar, og alt eins hinar, sem getið verður í galdramanna-sögunum á eptir; en alt um það skal eg geta hèr fáeinna galdrastafa og formála, sem enn hrekjast manna á milli bæði í slitrunum af hinum svo nefndu galdrabókum og í munnmælum.

það er líklegt, eptir því sem almenníngur hefir gjört sèr í hugarlund um galdur, að rúnirnar sèu undirrótin til hans, og styðja þá ímyndun ágætlega ýmsar kviðurnar í Sæmundar-eddu, en einkanlega Brynhildarkviða I. Og að vísu er bágt að neita því, að rúnir hafi verið hafðar til hègilju þeirrar, sem nefnd hefir verið galdur, stundum í sameiníngu með almennum latínustöfum, stundum einar sèr í heilum fylkíngum, eða heil orð rituð í rúnum, stundum eru margir rúnastafir samandregnir í eina mynd, og heitir það bandrúnir. En úr bandrúnum held eg hafi myndazt aptur skrýpi þau, sem enn eru kölluð eiginlegu nafni galdrastafir, og sem sinn hefir myndað með hverju móti, ef til vill, en þó verið nefndir sama nafni.

---

1. Af hinum mörgu galdrasögum, sem geingið hafa á fyrri öldum um skólasveina og presta hèr á landi, bæði þá úr Hólaskóla[a] og úr Skálholtsskóla,[b] hefir án efa sú trú komið upp, að skólapiltar hafi numið galdur í skólunum, og hafa þau dæmi verið dregin til þess, sem síðar verður ávikið um sèra þorkel, að hann hafi samið galdrabókina Gráskinnn, sem var í Hólaskóla, og piltar þar hafi lært á, hver sem þá hefir samið hina Gráskinnuna, sem fylgdi Skálholtsskóla. þessi trú um galdranám í skólunum hefir haldizt leingi fram eptir öldum, sem sjá má af því, að svo margir klerkar voru hornir galdri, eptir árbókum landsins, og eins af því, að það var ekki sjaldgæft, að skólapiltar væru að fást við kukl, stafi og særingaformála, eins og til dæmis þeir Einar Guðmundsson og Bjarni Bjarnason, sem urðu þess vegna að yfirgefa Skálholtsskóla 1664. Sama trúin hefir haldizt við skólann á Hólum, að minnsta kosti fram á 18. öld, sem bæði má sjá af sögunni um Galdra-Lopt og af öðru atviki til á dögum Steins biskups á Hólum. Skólapiltar höfðu þá enn geingið í leynilegt galdrafèlag, og hèldu samkomur sínar í rökkrinu. þeir af piltum, sem í fèlag þetta geingu, áttu allir að raka skegg sitt. Einu sinni, þegar þeir voru á galdra-stefnu, kom Steinn biskup í herbergið sama, því hann hafði komizt að þessum samtökum pilta, og því með, að þeir höfðu gjört það að lögum, að raka sig. Kvað biskup þá vísu þessa:

„Hèr kemur maður og heitir Steinn,
hefir skegg á grönum;
hann mun verða eptir einn,
ekki' er rakað af honum."

Við þetta urðu skólapiltar bæði sneyptir og skelkaðir, er biskup kom svona óvörum inn á þá; slitu þeir þegar samkomunni, og hættu galdranámi.

---

a. t. d. Hálfdán prest á Felli, Árna prest Jónsson á Hofi á Skagaströnd, sem flýði land fyrir fjölkynngisorð, Árb. Esp. VII. 95. bls.

b. t. d. Lopt Jósepsson, kirkjuprest í Skálholti fyrir 1670, Árna prest Loptsson í Gerði um 1679, Jón prest Daðason í Arnarbæli og Vogsósa-Eirík. Sbr. Árb. Esp. VII, 60.—1., 90. og IX. 32. bls.

a) Af því eg hefi sèð, að óbreyttir latínustafir hafa ýmist verið hafðir eingaungu, ýmist í sameiníngu með rúnastöfum í nokkrum formálum, en þó líklega helzt í varnargaldri, vil eg færa hèr fyrst til þess fáein dæmi, áður en minnzt er á aðra stafi, sem til galdurs hafa verið hafðir. Hèr skal fyrst telja **stafina við gulu**; það eru stafirnir í hinu merkilega og fjölhæfa galdraversi, sem lesa má á fjóra vegu, og fá þó ávalt fyrst út sömu línu, sem formálinn er viðkendur, og kallað er **satorarepo**. Úr versi þessu er gjörður talbyrðíngur þannig:

| | | | | |
|---|---|---|---|---|
| S | a | t | o | r |
| a | r | e | p | o |
| t | e | n | e | t |
| o | p | e | r | a |
| r | o | t | a | s |

Alla stafi í þessu versi skyldi rista á neglur hins sjúka, svo að honum batnaði gulan, og til margra hluta annara var það haft.[1] — Annað er **formálinn til að fá bæn sína uppfylta.** Hann er í því fólginn, að maður skrifar með hundsblóði á únglið sèr þessi orð með latínuletri: „**Max, píax, ríax,**" og kemst þá sá ekki undan, að veita ásjá, sem beðinn er.[2] Hið þriðja er það, þegar blandað er saman latínuletri og rúnaletri, eins og sjá má næst á eptir Syrpuversi, fremst í niðurlagi Buslubænar; þar standa fyrst þessir stafir með latínuletri: **R. A. Þ.** og síðan rúnastafirnir ᚠ ᛉ ᚢ,[3] enda er það ekki varnargaldur, heldur meingjörníngar.

b) Nú er að minnast á rúnirnar, og greina fáein dæmi til, þar sem þær hafa verið hafðar í galdri, bæði sami stafur margtekinn í heilum fylkíngum, eða heil orð og formálar ritaðir rúnastöfum. En sjaldgæft ætla eg, að einn einstakur rúnastafur hafi verið hafður til galdra, nema hafi það verið þessi: ᛯ. Hefir hann stundum verið markaður á hestlendum, annaðhvort með tjöru, eða kliptur á lendina, og átti að varna því, að hestinum hlektist nokkuð á, og átti við helti og meiðslum og hrossasótt,

1. þessi mynd er hèr tekin eptir Rúnafræði Grunnavíkur-Jóns, libr. II, Cap. V., eins og margt fleira í þessu atriði; hún er og talin hin 26. af þeim 80 galdramyndum og greinum, sem þeim Einari Guðmundssyni og Bjarna Bjarnasyni var vikið fyrir úr Skálholtsskóla 1664 af Brynjólfi biskupi, og fer um hana þessum orðum í 6. bindi af ættartölum Steingríms biskups, 2671. bls.: „26, músastefna með mannsrifjum, særður djöfull í fullu trausti Þórs og Óðins með versi: Sator arepo."

2. Eptir handriti sèra Jóns Norðmanns.

3. Fas. I, 206. bls.

stroki og stuldi af öðrum.[1] En hvort þetta er heldur svona illa gerður rúnastafurinn hagall, eða galdrastafur, skal eg láta ósagt. Þá get eg þessu næst kvennagaldurs.[2] Það ræður að líkindum, að hans hafi menn neytt, er þeir vildu laða konu til ásta við sig. Fyrir honum var þessi formáli hafður:

„Risti eg þèr
Ása átta,
Nauðir níu, o. s. frv.“

Annað og þriðja vísuorð bendir til þess, að þar hafi að eins staðið í rúnum ᚬ tekið átta sinnum, og í 3. vísu orði ᚾ tekið níu sinnum. Þá er svefnþorn, það er svo gamall galdur, að Sæmundar-edda segir, að Óðinn hafi stúngið Sigurdrífu valkyrju þessum þorni, þegar hún hafði felt Hjálmgunnar konúng, svo að hún gat ekki vaknað.[3] Svo lítur út, sem rúnir hafi verið ristar á kvist eða blað, og því stúngið síðan annaðhvort í höfuðhár, eða inn á brjóst þess, sem svaf, og gat sá með eingu móti brugðið blundi, fyrr en svefnþorninn var burt tekinn, eða hann fèll úr höfði hans eða fötum.[4] Stafur sá, sem hafður var til þessa galdurs, var ᛋ (sól), og skyldi hann margtakast, en ekki veit eg hvað opt. Næst koma draumstafir; Grunnavíkur-Jón getur hvorki þess, hvað marga eða hverja stafi skuli til þess hafa. Þessa stafi átti að rita á blað, og leggja þá undir koddann sinn, áður en maður færi að sofa, til þess að mann dreymdi, það sem maður vildi vita. Svo segja þeir, sem sèð hafa stafi þessa á galdrakverum, að þeir sèu 17 eða 18 að tölu, og sèu það ekki galdrastafir, „en dæmislíkastir einhvers konar villuletri, Peraletri eða Adamsletri.“[5] Enn má sjá dæmi til rúnafylkínga fyrir aptan Buslubæn hina prentuðu,[6] aptast í niðurlagi hennar; þar koma fram 5 fylkíngar rúnastafa, auk þess sem sum handrit af Buslubæn hafa bandrúnir að niðurlagi, sem þegar skal getið. Til dæmis um það, að heil orð og formálar hafi verið ritaðir með rúnastöfum, færir Grunnavíkur-Jón formálann á móti vallgángi, og er hann þannig: „Jesus Christus sat. ser. mundum liberavit,“ og formálann til að vinna í kotru; hann er þannig: „Ólafr, Ólafr, Haraldr, Haraldr, Eirekr, Eirekr.“ Þenna formála átti sá, sem vinna vildi, að skrifa á blað, og annaðhvort hafa á sèr blaðið, eða láta það undir kotruborðið ofan á lærinu á sèr, meðan hann tefldi, og lesa þar að auki paternoster til heiðurs Ólafi konúngi.

1. Eptir sögusögn Dr. Hallgríms Schevings.
2. Grunnavíkur-Jón á fyrgreindum stað.
3. Fafnismál, 43. v. og Sigurdrífumál, 2. v. og sögumálið á eptir 4. vísu í sömu kviðu, og Fas. I, 166. bls.
4. Sigurdrífumál, 2. v. og Fas. I, 18. og 19. bls., og III, 303. og 306. bls.
5. Eptir handriti sèra Jóns Norðmanns.
6. Fas. III. 206. bls.

c) þá er næst að minnast bandrúnanna, sem voru svo fjölbrotnar, að heilu orði, eða jafnvel heilum formála var komið fyrir í eina stafsmynd. Í þessu atriði tel eg fyrstar bandrúnir þær, sem eru aptan við sum handrit af Buslubæn. Grunnavíkur-Jón segist hafa sèð þrjár á einu galdrakveri, og að eitt þessara nafna felist í hverri: Fjölnir, Flugur, þundur, og þó enn fleiri nöfn Óðins; þetta er víst rètt hermt, því eg hefi og sèð á öðrum galdrablöðum[1] á eptir Syrpuversi sex bandrúnir, sem hver um sig átti að tákna eitt af þessum nöfnum: „Freii,[2] Fjölnir, Feingr, þundr, þeckr, þrumr." Annað er formáli til þess, að láta þjóf skila aptur stolnu fè.[3] Í honum voru átta bandrúnir, sem merktu þessi nöfn Ásanna: „Baldur, Týr, þór, Óðinn, Loka, Hæni, Frigg (og Freyu?)" þriðja er stafur sá, sem Veðurgapi er nefndur; úr honum mátti lesa „þórshöfuð." Veðurgapi var hafður til að gjöra ofviðri að mönnum, sem voru á sjó, og drekkja þeim. þessi aðferð er sagt að hafi verið þar við höfð, að galdramaður tók upprifið launguhöfuð, og festi það niður, anuaðhvort á sjávarbakka, ef hann var hár, t. d. bergsnös, eða á öðrum stað, sem hátt bar á, og lèt það, sem út snýr á launguhausnum óupprifnum, snúa í þá átt, sem hann ætlaðist til að veðrið kæmi úr. Síðan tók hann kefli, og risti á það bandrún þessa, veðurgapann, þandi svo með keflinu út kjaptinn á launguhausnum, og festi það þar. Æstist þá veður í lopti úr þeirri átt, sem galdramaður vildi, og umhverfði sjónum, svo eingum skipum var fært á sjó að vera, nema þeim einum, sem jafnvel voru ment eða betur, en sá, sem veðrinu olli.[4] Fleiri aðferðir hefi eg heyrt að hafðar hafi verið til hins sama, þó ekki sè ristínga getið þar við. þegar póstskipið fórst hèrna um árið (1817), segir sagan, að því hafi valdið karl einn vestra. Honum var í nöp við einhvern, sem á skipinu var. En þegar skipið lagði út Faxaflóa, fór karl þessi í einhýsi frá öðru fólki fram í bæ. En dreingir, sem voru á bænum, fóru á eptir honum, og gægðust inn um rifu á kofahurðinni, og sáu, að karl sat þar við fulla vatnskollu, og hafði báruskel á. Leingi var hann að blása á vatnið, þángað til gárar fóru að koma á það og gefa á skelina, svo hún var orðin nærri full, er dreingirnir sáu seinast til. Leizt þeim þá ekki að bíða leingur. Morguninn eptir, þegar að var komið, var skelin á hvolfi á kollubotninum, karlinn dauður í kofanum, og póstskipið brotið í spón undir Svörtuloptum við Snæfellsnes. þriðja aðferðin er gjörníngaveður með galdraveifu;[5] ekki er þess heldur getið, að þar

1. þau blöð ætla eg sèu norðan úr Skagafirði.

2. Á líklega að vera „Frey" eða Freyr (sbr. Myndina 1.).

3. Auk þessa er bæði þórshamar hafður til hins sama, og Stefnurnar, sem síðar koma.

4. þessi aðferð er tekin eptir munnmælum nyrðra og syðra, en nafnið veðurgapi eptir Hannesi skóara Erlendssyni í Reykjavík.

5. Sbr. gizka í Vatnsdælu, 36. kap. (Leipzig 1860, 59. bls.)

sèu ristíngar nè formálar við hafðir. Sagan segir, að kerlíng ein suður í Garði ætti teingdason, sem henni var ofboð illa við. Einu sinni, þegar hann var á sjó, gjörði hún að honum ofsaveður með veifunni, svo hann fórst. Var það veður síðan kallaður **kerlíngarbylur.**[1] Eptir þenna útúrdúr kemur þá loksins fjórða myndin; það er **ángurgapi.** Sá stafur var hafður til að drepa gripi fyrir öðrum, og voru í honum margar ᛚ, ᛡ, ᚴ og Φ, að sögn Grunnavíkur-Jóns. Því miður hefi eg aldrei sèð ángurgapa uppdreginn,[2] en heyrt hefi eg um hann þessa sögu. Maður var í Skagafirði, sem kallaður var Galdra-Björn. Hann átti ílt útistandandi við marga í hèraðinu, og þóktist ávalt eiga sín í að hefna á þeim með ýmsum gjörníngum. Eitt af því var það, að hann risti ángurgapa á kjaraldshlemm, og sendi svo hlemminn á stað, til að drepa fènað fyrir fjandmönnum sínum. Hlemmurinn rann á rönd víða um hèraðið, og drap fè bæuda hrönnum saman; því hver skepna, sem hlemminn sá, lá þegar dauð. Hlemmurinn snerist svo snart, að ekki varð auga á fest, nè á hann lesið; en það þóktust kunnáttumenn skilja, að ef einhverjum tækist að lesa ristíngarnar á honum, sem sáust svo óglögt, af því hann snerist svo ótt, að þær hlupu í eina hríngiðu fyrir augunu, að þá mundi þessu meini aflètta. Loksins tókst galdramanni einum út í Fljótum að lesa á hlemminn; fèll hann þá um koll, og hreifðist ekki eptir það, nè vann neinum tjón framar.[3]

d) Loksins skal hèr getið mynda þeirra, sem sèr í lagi hafa verið kallaðir galdrastafir, og er varla auðið að sjá, hvort sumar þeirra heldur eru bandrúnir, eða galdramyndir, þó hið síðara virðist optar verða ofan á, því margar þeirra eru táknaðar með krossum og hríngum, og kannast Grunnavíkur-Jón einnig við þær myndir í galdri. Fyrstu og fjölhæfustu myndirnar af þessu tægi voru stafirnir **gapaldur**[4] og **ginfaxi.**[5] Eg held þessara mynda hafi optast verið neytt beggja undir eins; því þeir hafa það sameiginlegt við sig, að margir hafa ætlað, að í þá tvo stafi hafi verið saman dregin nöfu Ásanna, og eptir því ættu þeir að vera bandrúnir. Grunnavíkur-Jón getur og þess, að þeir hafi verið ristir samteingdir í einni línu, og hafi þær ristíngar verið hafðar bæði til að gánga í hóla, og til að senda aptur sendíngar. Þá voru þeir og báðir hafðir til glímugaldurs, og fyrir þeim þessi formáli:

1. Báðar seinni aðferðirnar eru teknar eptir handriti sèra Jóns Norðmanns.

2. Jón Ásgeirsson hefir dregið upp ángurgapa hèr, og er hann frábrugðinn.

3. Þessi saga um hlemm Galdra-Bjarnar hefir geingið fyrir vestan, og hefir Hannes Erlendsson í Reykjavík, sem þaðan er ættaður, sagt mèr hana og nafnið á bandrúninni.

4. Þann staf kallar almenníngur nú „gapanda." Um ginfaxa, sjá Kvæði Eggerts Ólafssonar, 45. bls., 66. er., 19. neðanmálsgrein.

5. Jón Ásgeirsson hefir dregið hann hèr upp.

„Gapaldur undir hæli,
ginfaxi undir tá;
[stattu hjá mèr, fjandi,[1]
því nú liggur mèr á.“

Sagt er, að gapaldur skyldi hafa undir hæli á hægra fæti, en ginfaxa undir tá á vinstra fæti. Stafina átti annaðhvort að rita á blað, eða rista á spón eða spjald, og leggja hvort heldur sem var milli skós og ilepps, en aðrir segja næst ilinni berri, innan í sokknum. Þeim, sem hafði glímugaldur, varð ekki komið af fótunum, ef hann átti við ógöldróttan mann, eða þann, sem ekki var meir en jafnsnjallur honum að kunnáttu. En ef sá var fjölkunnugri, sem hann glímdi við, gat hinn meiri kunnáttumaður þó ekki felt þann, sem glímugaldur hafði, fyrri en hann fótbraut hann. Ekki dugir glímugaldur, þó við ógöldróttan sè að eiga, ef hann gjörir krossmark fyrir sèr á glímufletinum með fætinum, áður en þeir gánga saman, eða taka tökum.[2] Tveir stafir voru og alltíðir til forna, sem eg hefi ekki heyrt nafn á; báðir voru þeir hafðir til að sjá þjóf, og skyldi báða rista á munnlaugarbotn, hinn fyrri með blágrýtishellu, brenna einir með til ösku og bera í stafinn, láta svo vatn í munnlaugina, „og muntu sjá þjófinn.“ Hinn skyldi rista á fægðan munnlaugarbotn með seguljárni, láta þar á vígt vatn, og þar ofan á millefolium.[3] Þar næst eru tveir stafir, sem skyldi bera á sèr móti illum sendíngum vondra manna, og fylgja hèr einnig myndir þeirra.[4] Þá er ægishjálmur. Hann var mótaður í blý, og blýmyndinni þreingt á enni sèr milli augnabrúna, sem þessi formáli sýnir:

„Ægishjálm, er eg ber
milli brúna mèr.“

Með þá mynd átti maður að gánga á móti óvin sínum, og var manni þá sigur vís. Eins var hann örugg vörn við reiði höfðíngja, og sannar hvorttveggja annar formáli, sem stafnum fylgir; hann er svo:

„Fjón þvær eg af mèr
fjanda minna,
rán og reiði
ríkra manna.“

Grunnavíkur-Jón ætlar, að ægishjálmur sè gjörðarnafn, dregið af verkun

1. Frá [hafa aðrir svo: „Stattu hjá mèr, skratti minn,“ og en aðrir: „Styrktu mig nú, andskoti,“ eða: „Djöfull studdu mig.“

2. Glímugaldur er tekinn eptir frásögnum Dr. H. Schevíngs, Sigurðar málara og húsfrú Hólmfríðar Þorvaldsdóttur.

3. Þegar lýsingar eru teknar eptir blöðum frá Jóni Borgfirðing og alt eins myndirnar 2. En ekki þori eg að segja að þær heiti ægir hvorug, en svo nefnir Grunnavíkur-Jón þó þann staf, sem skuli, til að sjá þjóf með.

4. Eptir galdrakverinu á stiptsbókasafninu.

stafsins.[1] Kaupaloki heitir stafur einn; hann aflar manni góðra kaupa, ef hann er dreginn á loðpappír og hafður undir vinstri hendi, svo einginn viti.[2] Enn nefnir Grunnavíkur-Jón molduxa og blóðuxa; þeir varna stuldi, annar á degi, en hinn á nóttu. Einga mynd hefi eg sèð af þeim. þrír stafir ónefndir voru hafðir til að vekja upp drauga, en hvorki veit eg nafn nè lögun á þeim. Loksins nefni eg hèr þrjá stafi: ginnir, þórshamar og ausukross, og fylgja myndir af tveimur hinum fyrstu. Ekki er mèr kunnugt, til hvers tveir hinir fyrtöldu voru hafðir, en ausukross olli meinsemdum og mörgu illu, þeim sem hann var ristur. Nafn hans er að líkindum dregið af löguninni, því hann er eins og rúnastafurinn sól með þverstriki yfir legginn, þannig: ‡.[3]

Eg skal ekki með einu orði minnast á allan þann aragrúa, sem til er af innsiglum[4] og varnarstöfum við ýmsu illu, en einúngis setja hèr lýsínguna á hjálparhríngum Karlamagnúsar eptir galdrakverinu á stiptsbókasafninu. þar segir, að guð hafi sjálfur sent eingil sinn með þá til Leó páfa, og skyldi páfinn færa þá aptur Karlamagnúsi til varnar móti óvinum sínum. Hríngum þessum var skipt í þrjú kerfi, og voru 3 hríngar í hverju. Fremsti hríngur fyrsta kerfis er vörn við öllum fjaudans prettum, og óvina árásum, og hugarvíli; annar við bráðum dauða og niðurfalli, og hjartaskelfíng allri; þriðji við óvina reiði, svo að þeir skelfist í hug sínum, þegar þeir líta þann, sem hríngana hefir; „doðna þeir þá og drúpa niður.“ Fremsti hríngur annars kerfis er við sverðabiti, annar við apagángi, og að maður villist ekki, þriðji við reiði höfðíngja og allri ofsókn illra manna. Fremsti hríngur þriðja kerfis aflar málasigurs í fjölmenni og vinsæli allra manna; annar er við öllum ótta; þriðji varnar líkamans lostum og munaðlífi. þessa níu hrínga skal bera á brjósti sèr, eða á annari hvorri hlið, þá maður á von á óvin sínum.

Auk rúnastafanna, galdrastafanna og formálanna, sem nú voru taldir, höfðu fyrri alda menn mikla trú á særíngum, sem svo voru nefndar, og þuldu þær og lásu sèr til varnar bæði fyrir árásum djöfulsins og illra anda, galdri allskonar og sendíngum, vofum og vondum mönnum, reiði og þjófnaði, og þar fram eptir götunum. En eingar þeirra hefi eg sèð, sem stýlaðar

1. Lýsingin á þessum staf er tekin bæði eptir Rúnafræði Jóns Grunnvíkings og galdrakverinu á skinni á stiptsbókasafninu í Reykjavík, og myndin eingaungu eptir því, eins og myndin hjá ægishjálmi, sem og var höfð á móti óvinum, er þeirra var von; hann er nefndur „róðukross.“

2. Nafnið eptir Jóni Grunnvíking, en myndin og aðferðin eptir handriti Jóns Borgfirðings.

3. Sjá verkun hans í Arbókum Espólins, VII, 55.—56. bls. Myndin er tekin eptir minni Sigurðar málara.

4. Á einu kveri hefi eg sèð um 20 innsigli; galdrakverið á stiptsbókasafninu hefir marga varnarstafi, auk ægishjálms og hjálparhrínga Karlamagnúsar, sem eptir því eru myndaðir.

hafi verið öðrum til meins eða móðs að fyrra bragði. Særíngar þessar voru síður en ekki álitnar galdrar, heldur miklu fremur öflug vörn við galdri, og þókti þeim fylgja yfirnáttúrlegur og æðri verndar kraptur, enda er víða í þeim heitið á persónur guðdómsins til fulltíngis með öruggu trausti, jafnvel innan um sárbeittustu fáryrðin og forbænirnar. Særíngarnar kallast ýmist bænir, og margar þeirra eru nefndar „Brynjubænir,“ eða stefnur, án þess gjörður verði greinarmunur á bæn og stefnu, því hvortveggja eru særíngar. Flestar særíngar held eg hafi verið annaðhvort eingaungu í ljóðum, eða bæði í ljóðum og lausu máli, en færri í lausu máli einúngis. Til sýnis og sönnunar máli mínu, set eg hèr á eptir nokkrar særíngabænir og stefnur.

1. Bæn.[1] Reiði þeirrar heilögu guðdómsins þrenníngar komi yfir þann, sem mèr er á móti, og í óleyfi að mèr sækir, hvort þeir vilja gjöra það með göldrum eða gjörníngum, svo komi það aldrei nær mèr, en það eigi að mèr 50 fet. Eg særi frá mèr alla ára og andskota með Jesú Christi kröptuglegum höfðusárum og hans eigin nöfnum. Og særi eg þig frá mèr, þú leiði djöfull og andskoti, í burt ofan í það versta eldsins bál og díki, og þína vini og sendiboða. Ó herra Jesú, heyr þú mig; heilög þrenníng, bænheyr þú mig í Jesú nafni.

2. Brynjubæn í ljóðum.[2]
(Brot.)

Dökkvir frá mèr djöfla rakkar,
dökkvir burtu allir hrökkvi;
dökkvir illir díkis bokkar,
dökkvir niður um eilífð sökkvi.

Falli niður fjandar illir,
falli þeir fyrir Jesúm allir;
falli sá, sem flestum spillir,
falli hann til heljar stalla.

Frost og kulda frá mèr leystu,
fjúk og hríð, minn Jesú blíði,
frá hagli, stormi, stríðum harmi,
straum og háska gef að gaumi.

Hasti á djöful herran Christi,
hasti niður og frá mèr kasti,
hasti á vind, svo hann ei grandi,
hasti á sjó, þá menn við óar.

1. Tekin eptir bæklingi gömlum, sem heitir „Vasakver.“ Það kver hefi eg feingið á Suðurlandi í 16 blaða broti.

2. Tekin eptir 2. kverum af Vestfjörðum í 16 blaða broti einnig.

Heyrðu, Jesú hæstur, orðin,
heyrðu, neyð í burtu keyrðu,
heyrðu, bezti hlífðarskjöldur,
heyrðu mig og við þig reyrðu

Sendi' eg frá mèr Satan vondan,
sendi' eg burtu illan hundinn;
sendi' eg bæn á samri stundu,
sendi' eg þær í drottins hendur.

. . . . . . . . . . . .

Brynja heitir bænin hreina,
og búin ljóð fyrir kristnum þjóðum;
verði það að áhrínsorðum
öllum, bæði konum og körlum.

3. Önnur Brynjubæn.[1] (Særíng móti illum öndum.) Eg særi þig, óhreinn andi, í burt frá þessum manni, eður mèr og mínum, hvort sem það er heldur kona eða karlmaður, skyldur eða vandalaus. Eg særi þig frá öllum, sem eg vil það[2] gjöra, og eg vil þessa bæn yfir lesa, eður eg hana yfir legg. Í þriðja máta særi eg þig frá öllum þeim skepnum, sem eg þessa bæn yfir les. Þessa særíng les eg yfir þèr í nafni þess krossfesta Jesu Christi, og vegna sinnar[3] ástar og kærleika, sem hann hefir á sínum börnum.[4] [Eg særi þig fyrir alla guðdómsins þrenníng og allar jurtir á jörðunni, sem vaxa og vaxið hafa.[5] Eg særi þig, óhreinn andi, frá mèr og öllum mínum kindum, sem og frá þeim manna-skepnum, sem eg vil gott fyrir biðja. Eg særi þig í nafni guðs sonar, sem særður var á krossinum fyrir allar veraldarinnar syndir. Eg særi þig, óhreinn andi, við öll þau sár, sem allir helgir[6] menn hafa verið særðir forðum, frá heimsins upphafi alt til þessa dags, frá mèr og öllum,[7] sem þessa bæn á sèr bera, svo sem allir menn hafa verið særðir [Eg særi þig, óhreinn andi,[8] frá mèr, sem lífið flæmist frá[9] dauðanum. Hreki þig kraptur þessara orða og mín trú, sem vindur[10] strá frá sèr sem harðast.

1. Tekin eptir „Vasakverinu" með samanburði við bæði kverin af Vestfjörðum.
2. Gott, Vestfjarðakverin.
3. þeirrar, Vestfjarðakverin.
4. Vestfjarðakverin bæta inni „kæru" á undan „börnum."
5. Frá [vantar í Vestfjarðakverin.
6. heilagir, Vestfjarðakverin.
7. Vestfjarðakverin bæta inn í „þeim" á eptir „öllum."
8. Frá [vantar í „Vasakverið."
9. fyrir, Vestfjarðakverin.
10. Vestfjarðakverin bæta inn í „hrekur" eptir „vindur."

Flýðu og farðu,
frjóstu og brendu,
ángri þíg allar kindur,
sem skapaðar eru
og skírast kunna,
hèðan í frá
á himni og jörðu.

Hreki þig alt og hrífi,
haldinn [1] versta kífi,
verði þèr aldrei rótt
hvorki dag nè nótt,
hátt nè lágt
í hverri átt,

fyrr en þú aptur þángað fer, hvaðan þú ert[2] sendur. Alt [þar til[3] þú ert þángað kominn skal þig grimt pína[4] öll guðs kristni, og allar guðsbarna bænir. Eg særi þig til allra verstu harma og hrygða, að þú við þenna minn bænarlestur[5] víkir að augabragði. En ef þú fer ekki[6] burtu eptir krapti guðlegrar þrenníngar, svo skaltu drafna,[7] og dragast niður í verstu[8] staði, og[9] skammist þín, af skömm klemdur.

Ami þèr, og ýfi þig[10]
[allur guðs kraptur;[11]
vertu aldrei óbundinn[12] og óýfður
af orðum mínum,
haldinn og kvalinn af hörðum pínum,
hljóttu skömm af þessum línum.

Eg særi þig frá mèr og öllum þeim skepnum, sem eg les þessi bænarorð yfir; vertu mèr[13] svo fjarlægur, sem austrið er frá vestrinu. Eg særi þíg við[14] guðs orða krapta, svo sem hann útkastaði þèr úr himnaríki.

---

1. Vestfjarðakverin bæta inn í „í" á eptir „haldinn."
2. varst, Vestfjarðakv.
3. til þess, Vestfjarðak.
4. Vestfjarðakv. bæta inn i „og pressa" á eptir „pína."
5. Eptir „bænalestur" bæta Vestfjarðakverin inni „og blöð þessi burt."
6. eigi, Vestfjarðakv.
7. Eptir „drafna" bæta Vestfjarðakverin inn í „allur í sundur."
8. neðstu, Vestfjarðakv.
9. svo, Vestfjarðakv.
10. Vantar í Vestfjarðakverin.
11. Frá [hafa Vestfjarðakverin þannig: „allir guðskraptar."
12. óbrendur, Vestfjarðakv.
13. Vestfjarðakv. bæta inn í eptir „mèr": „og þeim."
14. fyrir Vestfjarðakverin.

Hafðu nú hvergi frið,
héðan af, eg bið;
gefi mèr Jesus, guðs son lið,
svo gæfunnar öðlist æzta mið.

Eyði drottinn öllum þeim, sem mèr vilja ilt gjöra. Vertu mèr, drottinn, hýr og hollur, Abrahams, Isacks og Jakobs guð, drottinn með heilögum anda í Jesú nafni, og himnaríkis höfuðeingla, Mikalk, Raffaelk, Salatbielk, Biackaelk, Chirubim, Chaelk, Thobíelk og Seruphim sè dag og nótt til sígurs með mèr, sem sjór á land geingur, og sól til jarðar skín. Elski mig og að sèr taki allir himneskir og heilagir andar, og himneskir drottins míns. Komi mèr hjálp af jörðu, sigur af sólu, sæla af túngli, stoð af stjörnum, og styrkur af einglum drottins. Verði mèr þessi orð svo sönn og örugg, sem drottni, þá hann skapaði himin og jörð til nomin pat. Patir A fillum et Spiritus Sanctus. Amen. — Fyrir þessa síðustu grein á lausu máli hafa Vestfjarðakverin þetta niðurlag í ljóðum við bænina:

Farðu nú norður og niður,
náist þèr hvergi friður;
hver þinn leggur og liður
limist bálið viður;
grenji kvala kliður,
kveljist hrekkja smiður
ætíð meir en miður,
maðurinn hver þess biður.

Flýðu nú kargur keppinn,
kvillaður, kramdur, deppinn,
kvalinn um vambar sveppinn,
hvorki heill nè heppinn;
logann hafðu fyrir leppinn
liggðu svo kyr og hneppinn.

Út héðan, út þaðan
út, og gjör þig hraðau,
út í eilífan skaðann,
út í eldinn glaðan,
út í eisu hlaðann
út í pytt bölvaðan.

Minni ræðu flýðu frá,
fjandi ótta-bundinn;
þinni mæðu endir á
aldrei verði fundinn.
Amen.

4. Brynjubæn Sæmundar fróða,
í nauðum, bágindum og háskasemdum.[1]

Reiði og bölvuð bræði
burt renni og hart spennist
hræðsla og hugar-pislir[2]
brynji og ei linni; minn óvinur,
bölvan bið eg hann skelfi,
brotni [og þrotni fyrir almáttugum[3] drottni;
hjartað nístist, brjóstið bresti,
[böl smelli og hrelli að sælufelli,[4]
brenni mest utan og innan
af Belsebub si-kveljist,
blási, bólgni[5] og frjósi;
[nema blíður mèr gott gjöri.[6]
Ellegar yfir hann falli
andi hins neðsta fjanda.
Kraptur [hugður leiptri og[7] logi,
líf hans sundur keyrist,
svo sál kviki, kvöl veikist,
kvíði brjóst hörðum þjósti.
[Innan bítist,[8] brenni heitast
bölslúngin móðs-túnga.
Öll skömm á þèr hríni,
ill blessan með þessu;
utan mælir mestu
meðaumkan mèr til handa
[Hrapaðu í heljar víti,
hraktur mèr, naktur[9]
sneyptur,[10] sneypu vafinn,
sníktu á fjandann sjálfan;
ami þèr alt á jörðu,
illir og góðir andar,

1. Bænin er tekin eptir „Vasakverinu" með samanburði við annað Vestfjarðakverið, sem hefir fyrirsögnina þannig: „Brynjubæn eður stefna Sæmundar fróða, sem hann las, til að stilla með reiði óvina sinna í nauð og háska og málasóknum."

2. stygðir, Vestfjkv.

3. Frá [hefir Vestfjkv. þannig: rotni fyrir.

4. Frá [tekið eptir Vestfjkv.

5. brenni, Vestfjkv.

6. Frá [tekið eptir Vestfjkv.

7. Frá [Vestfjkv. þannig: hugar lyptur.

8. Frá [Vestfkv.: Tönn bitrust.

9. Frá [bætt við eptir Vestfjkv. „naktur" getgáta fyrir „maktur," sem stóð í handritinu.

10. sneyddur, Vestfjkv.

[sandur og himna hæðir
og hallir eingla gjörvallar;
utan blíður með bótum
bistur heipt frá sèr gisti[1]
Sittu, stattu særður,
svikinn af öllum kindum;
utan mèr alt gott gjörir,
[þá efli þig mest hið bezta.[2]

Potens † domiuus † Christi † adiovis † vita † manus † komu † asinan † Salva Thor † vil Fela † Feus † origo † Spes † Fides † Christus † 03. ofa † Agnus † leo † vervas † Pater † Titus † Spiritus † Jesus † Christus † veator † Aternus † Redem † Bo † Trintas † vita † Clemens † Capus † Tetra † grammaton † Emanuel † Amen.

Krossfesti Jesu kom þú hèr,
kalla eg þig til hjálpar mèr,
svo djöfullinn með dauðans mein
dragist burt fyrir þessa grein.
Guð veri með oss öllum samau.
Jesu Christi uppljúkist á móti Sathan. Amen.
Það sè já og Amen, í Jesu nafni Amen.

5. Stefna Sæmundar fróða.[3] Eg tek til vitnis voldugan minn kóng drottinn, og les eg þessi orð fyrir anda drottins á móti öllum þeim, sem mína glötun vilja, og með galdri grimma djöfla senda. Standi þessi sterkleg stefna, sem á öðrum stálstólpa, öllum mínum óvinum til blindni og bölvunar allrar, einnig sjálfum djöflinum til fordjörfunar. — Drottinn minn, gefðu afl og krapt orðum mínum, sem sjálfs þíns, þá þú skapaðir himin og jörð. — þeir, sem senda feikna fjanda, drauga eður djöfla, fari brennandi í helvíti bölvað. Ef þú, bölvaður fjandans ár, kemur nærri mèr eða mínum, mein að gjöra, þá stefni eg þèr með þeim hörðustu ummælum í það díkið, sem vellur af eldi og brennisteini, í það neðsta undirdjúp helvítis, svo þú þar eilíflega brennir, bólgnir og frjósir. Hati þig heimur, hæði þig sólin, og allir einglar drottins, svo þú hrynjir og hrapir á hálku í helvíti, og þig helvítis grimmir gaddnaglar gegnum stíngi, svo sem Jael Siserum í hel sló. Ef þú nú viðstendur, illur ár, stundu leingur, mèr

1. Frá [vantar í Vestfjkv.

2. Frá [bætt við eptir Vestfjkv. sem sleppir aptur latínuklausunni með krossunum og versinu þar á eptir.

3. þessi stefna er með því fremsta á „Vasakverinu", og munu einkum eiga við hana þessi orð, sem stóðu aptan á titilblaðinu: „Efterrètting um það, hvernig skal stefna sèrdeilis þá stefnu eptir Sæmund hinn fróða. þú skalt stefna fyrsta dag túngls, og les varnarlestur þinn í útgaungu, og statt fyrir karldyrum, og snú þèr til austur." — Hèr var rifið af blaðinu hèr um bil 4 línur, sem samsvara tveimur línum hèr.

eða mínum mein að gjöra, þá stefni eg þèr í annað sinn við sæl sigurmerki drottins í neðsta helvíti, sem forðum sukku Cori, Datan og Abiram til eilífra kvala. Ami þèr og stuggi þèr öll verk drottins, og allar þessar ummæltar óskir á þèr hríni, nema þú, bölvaður, brennir þann, sem þig, bölvaður, híngað sendi, með heipt grenjandi, svo sundrist hold hans, og í skrykkjum gángi; ef hann ei iðrast, kvel þú hann á holdi og sálu, svo sem þú verður sjálfur kvalinn að dómsdag drottins. Ef hann sendir þig híngað til mín hèðan í frá, eða nokkurra minna, mèr eða þeim mein að vinna, eður ángur eður óróa að gjöra í minnsta máta, þá stefni eg þèr í þriðja sinn með þeim dýrum drottins orðum, að þú í nafni Jesu Christi og fyrir hans pínu samstundis sökkvir í það neðsta undirdjúp helvítis, og hafi þá hvorugur ykkar frið meiri á himni og jörðu, heldur en fordæmdir í höfuðfjandanum sjálfum í helvíti um eilíf dægur. — Drottinn, still þú alla mína illviljendur og mótstöðumenn, svo sem stiltir og stöðvaðir sjáfarhafið fyrir þínum lærisveinum, þá þeir ætluðu að forgánga, og þú frelsaðir þá kröptuglega. Banna þú neinum manni ílt að gjöra, svo sem þú bannaðir óhreinum anda himnaríki. Komi mèr nú friður og fögnuður af heilögum anda, og hjálpi mèr heilagur andi drottins. Með þessum ummæltum og framtöluðum orðum skipa eg frá mèr öllum öndum fjandans, við allar fimm undir Jesu Christi, að vitni almáttugs guðs og allra heilagra eingla og himneskra hirðsveita. i nomine pa Aris filio A Spíritu glaneto. Alt lætur undan sönnum bænum og hreinu orði drottins. Undan þessu sama víki og frá mèr líka allir illir andar, vondir menn og mínir óvinir, hverjir helzt sem eru, eður vera kunna. Iu nomine patri A fillus A Sp. Sanctus. Amen.

6. Stefna.[1] Að stefna frá sèr öllu óhreinu af mönnum og skepnum, kviku sem dauðu, úti og inni, hvort heldur það er af lopti eða jörð. Eptir Sæmund hinn fróða.

Ego, eg Nói Nóason, stefni þèr, vættur, vofa, draugur, dís, andi, ár með svofeldu stefnuvætti, sem fylgir, frá mèr og mínum, úti og inni, mönnum sem fènaði, kviku sem dauðu, á sjó og landi, hvort þú ert af austri eða vestri, norðri eða suðri, eða þar í millum, af dimmu eða dagsljósi, af sól eður mána, af skýum eða skini, af dögg eður dreyra, af grasi eður greinum, af trè eður timbri, af moldu eður mauri, af hjarna eður holdi, af baðmi[2] eða beinum, af sjón eður sínum, af húð eður hári, af tám eður tönnum, af lokk eða lendum, af jöglum[3] eður jarka, nefndum hlutum eður ónefndum, stefnist þèr (ef einn er, skal svo segja; stefnist ykkur, ef fleiri eru, skal svo segja) frá mèr og mínum börnum sem mínum hjúum, frændum sem ættfólki alt í níunda lið, til karls og konu. Far nú svo hart, sem ljós leggur, leiptran líðnr, skrugga skriðnar, ský skjálfa,

1. Tekið eptir „Vasakverinu."
2. Getgáta fyrir „Baðmá" í handritinu.
3. þannig í handritinu.

vatn rennur, skip skríður, skúm vekur, valur flýgur dag vorlángan með beinan vind undir báða vængi, hugur hvarflar, mögur til móður, maður til meyar, vötn til sjáfar, blóð til benja, far til foldar og feigur til helju;[1] hver sem þú vera kant, af helju eða helvíti, eður þar í millum, hlutum nefndum og ónefndum, eður hverjum mót þú ert af stað kominn með náttúruhætti eða særíngum, eða svívirðilegri brúkun hlutanna, stefni eg þèr að dómstóli drottins, og þaðan og í helvíti, að vitni þeirra heilögu stefnuvotta Raguels, Raffaels, Selatyels, Misaels, Mikaels og Anasyels.

### 7. Vísur til að herða stefnu og fæla með djöfulinn.[2]

1. Draugaþáttur.

Undan vindi vondan sendi,
óskir ferskar raski þrjózkum;
galdurs eldur gildur holdið
grenni, kenni og innan brenni.
Eyrun dára örin særi,
eitrið ljóta bíti hann skeytið;[3]
allur fyllist illum sullum,
eyði snauðum bráður dauði.

2. Tröllaþáttur.

Fjandi, andi flár, grár.
flýi, mýi með skýi,
særður, marður, síbarður
sökkvi hinn dökkvi og hrökkvi.
Falli allur seið-sullum,
svíði því níði með stríði,
niður skriðinn, nauðmóður,
nístur, hristur og ristur.
Nú sè hann bundinn,
neyddur og úthrundinn,
hneptur í dróma, helvízkt grey,
hart úr liðunum[4] undinn;
sem gróða færir grundin,
geingur lögur um sundin.

---

1. Sbr. ýms orðatiltæki í þessari setníngu við Griðamál Þorgilsar Arasonar í Heiðarvígasögu, 33. kap. og Griðamálin og trygðamálin aptan við Ísl. sögur, II. Kh. 1847, 484—492. bls.

2. Teknar eptir Vestfjarðakverinu öðru með hliðsjón til „Vasakversins,“ sem bæði hefir vísur þessar ófullkomnar og rángar sumstaðar.

3. skeytt, Vasakverið.

4. Liðnum, Vasakverið.

3. Áttþættíngur.

Hrekkvísum hrífi,
hrakspárnar blífi;
rækallinn rífi,
roti' hann og stýfi,
kvikan í kífi
kölski af-lífi,
árinn ósvífi
aldrei þèr hlífi.
Magna eg mærðar seiði
og máttug orðin greiði;
gustur af guðsreiði
gæfulausum eyði;
ill hann álög meiði,
æfi sína[1] sneyði;
vítis vegurinn breiði
í veru kvalanna leiði.
Herði eg hörðu bandi,
heitt, fast ummælandi,
að svo stefnan standi
og stíft ákveðinn vandi,
eins sem ægi [og landi[2]
er nú guð ráðandi;
sökkvi svartur andi,
svelgi hann vítisfjandi.

4. Dvergmál.

Saur-anda vondum
svíði nú við stefnu stríðið,
sem sjór fellur út og að stórum,
sem lifendur finnast lèttfærir andar,
liggur manns hold hulið moldu,
sem svín gjörir jafnan saurga trýni,
sjór í stormi ber báru,
sem eldur brennir eikur á foldu,
jurtir á jörðu birtast,
sem sandur er í sjó, og sveinar útróa,
sálir heilagra í burt úr báli.
Álög fylgi nú mínu máli,
álög fylgi nú mínu máli,
álög fylgi nú mínu máli.[3]

1. þína, Vasakverið.
2. Ólgandi, Vasakverið.
3. Vasakverið tvitekur niðurlagið.

5. Herfjötur.
Særi eg þig við sæla veru,
særi eg þig við guðs æru,
sonarins sára pínu
og sína blóð, sem flóði,
að mín standi stöðug
stefnu-orð í skorðum,
sem foldar fasta veldi
og fagur himna hagur.

Til voru særíngar á latínu, sem klerkar höfðu við ýms tækifæri, og verður ein þeirra síðar sett, þar sem rætt verður um kölska. Þess er áður getið, að fyrri menn hafi haft ýms brögð í frammi, bæði til að vita, hver stolið hefði,[1] og til að láta þjófa skila aptur stolnu fè.[2] Hèr skulu nú standa að lyktum tvær stefnur, sem hlýða sín til hvors.

8. Til að vita stuld.[3] Tak mjaðurt sjálfa Jónsmessunótt um miðnættið, lát í laug (þ. e. munnlaug) við hreint vatn, legg urtina á vatnið. Fljóti hún, þá er það kvennmaður; sökkvi hún, þá er það dreingur. Skugginn sýnir þèr það, hver maðurinn er. Þar við skal hafa þenna formála: „Þjófur, eg stefni þèr heim aptur með þann stuld, sem þú stalst frá mèr, með svo sterkri stefnu, sem guð sjálfur stefndi djöflinum úr paradís í helvíti.“

9. Þjófa-stefna.[4] „Það mæli eg fyrir þjófi þeim, sem stolið hefir þessum hlut, að hann ærist og uppþembist með ærna pínu, og hann hafi hvergi frið, fyrr en hann kemur fram fyrir mig með þann hlut, sem hann hefir frá mèr stolið. Þar til hjálpi Þór og Óðinn.“ En ef þjófurinn hefir jetið, þá skal lesa þetta; „Upp skaltu spúa þeim hlut, sem þú stalst.

Svo skal búkur þinn
blásast fullur,
og innan rifinn
allur vera.
Nú skulu gaula
garnir þínar,
og þær allar
innan klórast.
Felli eg á þig
svo feldum orðum,
að brjóst þitt og búkur
brennandi veri,
sem þig um hjartað
hundar rífandi bíti.
Brjóst þitt ruglist alt og sinni.
Banna eg þèr
á bók helga líta.
Kvístur skal þèr

1. Sbr. „Ægi“ í galdrastöfum, 452. bls.
2. Sbr. Þórshamar og 450. bls. í galdrastöfum.
3. Tekið eptir kveri af Vestfjörðum um náttúru-steina og grös.
4. Tekið eptir blöðum að norðan.

úr hálsi koma, verstur strákur,
og skulu þau áhrínsorð
þèr til meins standa.
Spú þú nú
eða spríngdu allur.
Þar til hjálpi
Þór og Óðinn,
að þjófur afsaki sig eigi."

Rist þessa stafi á eik og haf í hendi þér, þá þjófurinn kemur:

[illegible]

**Kraptaskáld.** Eins og von er til hefir jafnan þókt meir kveða að skáldskap, og hann álitinn áhrifameiri en óbundin ræða hvort sem er til lofs eða lasts. Þetta sama kemur og fram hvort heldur menn hafa átt að verjast árásum drauga eða djöfulsins, því menn hafa haft þá trú, að ef þeir ljóðuðu á mann að fyrra bragði, og maður væri ekki viðbúinn að svara þeim aptur í ljóðum, þá yrði sá maður vitlaus og kæmist á vald þeirra; en gæti maður svarað þeim aptur samstundis vísu, yrðu árásir þeirra árángurslausar, og þeir sneyptust við það burtu.

Einu sinni var bóndadóttir á bæ. Hún vakti um nótt í rúmi sínu, en aðrir sváfu. Þá heyrði hún, að komið var upp á gluggann yfir rúminu og sagt:

„Margt býr í þokunni,
þokaðu úr lokunni,
lindin mín ljúf og trú."

Bóndadóttir svarar þegar:

„Fólkið mín saknar,
og faðir minn vaknar;
hann vakir svo vel, sem þú."

Við það hvarf draugurinn burtu, og vitjaði hennar aldrei aptur.[1]

Öðru sinni kom draugur á glugga um nótt þar sem maður lá vakandi. Draugurinn kvað:

„Maður leiddi mann við mjöðm,
og mældi hann út með faðmi,"

og sagði manninum bæta við. Maðurinn kvað í móti:

„Ærnar tína fjallaföðm,
og feingjar skipta baðmi."

Þóktist þá draugsi hafa orðið ósvinnur fyrir, er manninum varð svo lètt um að setja botninn í vísuna.[2] — Maður nokkur hitti einu sinni einn af vítisárum á ferð. Verður maðurinn þá fyrri til en árinn og segir:

„Hvaðan komstu að hitta mig."

Árinn: „Hèðan af norðurgrandanum.

1. Eptir handriti sèra Jóns Norðmanns á Barði í Fljótum. Sumir segja (Vestfirðingar), að það hafi verið huldumaður, sem kvað fyrri vísuna; en aðrir (Sunnlendíngar), að það hafi verið útilegumaður, og hafi þeir, hver um sig, viljað komast yfir stúlkuna.

2. Tekið eptir handriti sèra Jóns Norðmanns á Barði í Fljótum.

Sendur er eg að sækja þig,
af sjálfum höfuð-fjandanum."
Þá svarar maðurinn:
„Hafðu ekki hót með mig,
því helgaður er eg andanum.
Svo búinn aptur sendi eg þig
sjálfum höfuð-fjandanum."
Lötraði árinn þá burtu við svo búið sneypulegur.[1]

Bæði þeir menn, sem voru viðbúnir, hvenær sem þeir þurftu til að taka, að kveða vísur sèr til varnar, en þó einkum þeir sem kváðu, svo að varð að áhrínsorðum, eins og síðasta vísan bendir á, hafa verið kallaðir kraptaskáld, eða ákvæðaskáld, vegna þess, að svo mikill kynngi-kraptur[2] þókti fylgja kvæðum þeirra, eða þeir væri svo andríkir, að ekkert gæti við þeim staðizt. Þessi trú er mjög gömul, og sýnir það auk annars þátturinn af Þorleifi jarlaskáld, sem hefndi sín með því á Hákoni blótjarli og hirðmönnum hans, að hann kvað um hann Jarlsníð, sem varð bæði jarli og hirðmönnum hans að áhrínsorðum.[3] — Hèr skal nú geta nokkurra kraptaskálda á seinni öldum.

**Sèra Hallgrímur Petursson.** Einu sinni var sèra Hallgrímur Pètursson á ferð fyrir norðan Ölvishaug eða Ölver í Hafnarfjalli, og vakti þá fylgdarmaður hans máls á því, að gaman væri að sjá Ölvi upp standa, og bað prest neyta nú þess, að hann væri kraptaskáld. Þá kvað sèra Hallgrímur:

„Bölvaður Ölver, bröltu fram úr bæli þínu
kynngi-draugur, kvalinn pínu,
komdu og hlýddu máli mínu."

Þá bólaði á draugsa, og kom fyrst upp höfuðið, og þókti þeim heldur ófrýnlegt; síðan færðist hann upp alt að miðju. Þá varð fylgdarmaður prests hræddur, og bað hann fyrir hvern mun að kveða drauginn niður aptur. Þá kvað prestur þrjár vísur, og er þessi ein:

„Kveð eg niður í krapti í hans,
sem krossinn bar á baki:
allar hallir andskotans
opnar við þèr taki.[4]

Áður en sèra Hallgrímur vígðist, var hann einu sinni sem optar á ferð um Borgarfjörð, kom þar að bæ, og bað að gefa sèr að drekka.

1. Tekið eptir sama. Fleira um þess konar skáldskap kemur fyrir seinna í sögunum af Sæmundi fróða og um Kölska.
2. Sbr. skáldrúnir í galdrastöfum á undan.
3. Fms. III, 91.—99. bls.
4. Eptir handriti sèra Jóns Þórðarsonar og sögnum úr Borgarfirði.

Bóndadóttir var úti, þegar hann kom, og bar nokkur kennsli á hann, gekk svo inn og sagði, að skáldið af Akranesi væri komið, þó ekki væri hann skáldlegur, en bæði svartur og svipillur, enda mundu kvæði hans fara eptir því. Hallgrímur heyrði raus hennar, gekk inn í dyrnar og kvað:

„Ekki skaltu orða-sáld
af þèr láta heyra:
Heyrt hefi eg, að hann sè skáld,
hvað sem það er meira."

„Fyrri veikstu víf að mèr
vondu en góðu eigi;
einginn maður því unni þèr
upp frá þessum degi."

Eptir það gekk hann innar til hennar, tók í hönd henni og kvað:

„Einn þann muntu eignast þræl,
sem ekki er skós síns virði;
sèrtu hvorki heil nè sæl
hèr i Borgarfirði."

Og enn þetta:

„Held eg nú í höndina á þèr,
hana eg fyrir mèr virði;
eingin er sú, sem af þèr ber
í öllum Borgarfirði."

Sagt er, að kona þessi yrði gæfulítil, þángað til Bjarni Jónsson skáld í Bæ í Borgarfirði rèð henni að flytja burt úr hèraðinu. [1]

Önnur sögn er það um Hallgrím prest, að hann kvað tóu dauða, og stóð svo á því, að tóa lagðist á fè manna í sveitinni, og var það hinn mesti bitvargur, og kallaður „stefnivargur," og varð ekki unnin með nokkru móti. Einn sunnudag, er prestur messaði, og stóð alskrýddur fyrir altarinu, leit hann út um kórgluggann og sá, hvar tóa var að bíta kind. Varð honum það þá, að hann gleymdi, hvar hann var staddur og kvað:

„Þú sem bítur bóndans fè,
bölvuð í þèr augun sè,
stattu nú sem stofnað trè
steinadauð [2] á jörðunni."

Þetta reið lágfótu að fullu. En af því sèra Hallgrímur hafði varið skáldskapargáfu sinni svo illa, og það í miðri þjónustugjörðinni, misti hann gáfuna með öllu, þángað til hann iðraðist þessarar yfirsjónar, og hèt því fyrir sèr, að hann skyldi yrkja eitthvað guði til lofs og dýrðar, [3] ef hann veitti sèr gáfuna aptur. Leið svo og beið, þángað til um haust eitt, eða veturinn fyrir jól, að fara átti að heingja upp ket í eldhús. Var vinnumaður hans að því, og fór hann upp á eldhúsbitann, og seildist þaðan með ketið upp á rárnar. Einginn var til að rètta vinnumanninum krofin, nema prestur. Þá segir prestur: „Talaðu nú eitthvað til mín; því nú finnst mèr gáfan vera að koma yfir mig." Maðurinn segir þá: „Upp upp," og átti við það, að prestur skyldi rètta sèr upp fallið. En þau orð er sagt að sèra Hall-

1. Sbr. Gest Vestf. V. ár 52.—53. bls.
2. Aðrir: „stirð og dauð," og: „steinadauð á mölinni."
3. Sbr. Dr. Maurers Isl. Volkss. 104. bls.

grímur notaði í fyrsta versið í fyrsta Passíu-sálminum,[1] sem hann fór þá að yrkja og byrjar svo:

„Upp, upp mín sál og alt mitt geð."

Þó segja aðrir svo frá, að hann hafi verið búinn með tvo fyrstu sálmana, þegar hann kvað tóuna dauða, og hafi hann notað þessi orð vinnumannsins í. 1. versi í 3. sálmi, sem svo byrjar:

„Enn vil eg sál mín upp á ný
upphaf taka á máli því."

Og þykir það benda til þess, að eitthvert hlè hafi orðið á milli þess hann kvað tvo fyrstu sálmana og hinn þriðja, og segja sumir, að þetta olli. En aðrir segja, að Tyrkja-Gudda, kona hans, sem ávalt þókti nokkuð blendin í trú sinni,[2] hafi átt að fela eða brenna fyrir honum handritið, er tveir fyrstu sálmarnir voru búnir, og hafi það feingið svo mikið á hann, að hann hætti við þá um hríð, en byrjaði aptur á þriðja sálmi eptir nokkurt millibil.[3] En það var ekki það eina, sem Gudda átti að hafa gjört manni sínum til móðs. Sú saga hefir geingið um prestskonu þessa, að hún hafi haft goð eitt út með sèr úr Algier (Alzír), frá því hún var þar hernumin, og vildi hún leingi ekki afláta með nokkru móti að dýrka það á laun, hvernig sem prestur taldi um fyrir henni og vildi leiða hana frá þeirri villu. Einn sunnudag lèzt hún ætla í kirkju, en kom ekki þángað. Grunar nú prest um athæfi hennar, hleypur því inn úr kirkjunni, og kom að Guddu, þar sem hún var að tilbiðja goð sitt. Greip hann það þá af henni, og er sagt, að hann brendi það fyrir augum hennar, en hún yrði honum alleingi reið síðan.

Sú saga er höfð eptir Vigfúsi prófasti Jónssyni í Hítardal, að einn vetur biti refur sauðfè fyrir presti, og vannst ekki þó til þess væri leitað. Gudda talaði opt um það tjón, sem dýrið gjörði við mann sinn, með beiskju mikilli og geðofsa; því hún var skapstór mjög og óþýð í lund. Vítti hún sèra Hallgrím og sagði, að það sæi ekki á, að hann væri kraptaskáld, þar sem hann gæti ekki fyrirkomið einum ref. Prestur þoldi leingi vel frýuorð hennar, þángað til eitt kvöld, sem Gudda var frammi í búri að hræra flautir, að þar kom inn skollatóa til hennar, settist fyrir framan flautakeraldið, geispaði ámátlega upp á prestskonuna, og datt síðan dauð aptur á bak. Við það brá Guddu svo, að hún leið í óvit, og lá svo, til þess einhver heimamanna kom að henni. Eptir það lètti af bítnum, enda er sagt, að Gudda hafi aldrei skapraunað manni sínum eins eptir, og áður. Þó er það í frásögur fært um hana, að einu sinni lèti hún rífa hrís, og og flytja heim á sunnudegi, meðan prestur embættaði. En þegar hann

1. Þeir eru stundum kallaðir Hallgrímssálmar. 29. útgáfa er prentuð af þeim í Reykjavík 1858.

2. Sbr. Gest Vestf. V. ár, 46—47. og 69.—70. bls.

3. Eptir sögnum á Suðurlandi og úr Borgarfirði.

kom úr kirkju, gekk hann að hrískestinum og í kríngum hann. Lysti þegar eldi í köstinn og brann hann upp til kaldra kola; er svo að skilja, sem í kestinum hafi kviknað fyrir bænastoð prests, svo hafi hann verið bænheitur.

Enn er það sögn um séra Hallgrím, að hann var á heimferð við þriðja mann sunnan yfir Brynjudalsvoga. Af því flóð fór í hönd, tóku þeir það til ráðs, að liggja í Bárðarhelli við fossinn, til þess að fjaraði út um nóttina, og rynni úr ánni. Förunautum prests þókti illur fossniðurinn og ýrurnar úr honum inn í hellinn. Annar fylgdarmaður prests lá fremstur og gat ekki sofið; því honum sýndist ófreskja eða óvættur nokkur sækja að þeim og koma inn í hellis-dyrnar. Bað hann þá prest að hafa bólaskipti við sig, og lèt hann það eptir. Varð prestur nú var hins sama, og förunautar hans; er þá sagt, að séra Hallgrímur hafi kveðið stefja-drápu þá, sem nú kemur, og að ófreskjan hörfaði út úr hellinum við hvert stef, en þokaðist aptur nær á milli, uns hún hvarf með öllu. Fyrsta erindið er þannig:

„Sætt með saunghljóðum
sigurvers bjóðum
guði föður góðum,
sem gaf lífið þjóðum;
næsta naumt stóðum
naktir vèr óðum
í hættum helsglóðum."
o. sv. fr.

**Guðmundur Bergþórsson.** (Eptir sögnum að norðan, frá séra Skúla Gíslasyni og Bólu-Hjálmari skáldi.) Guðmundur skáld Bergþórsson var allur visinn öðru megin sem kunnigt er, og er það sögn flestra manna, að vanheilsa hans hafi komið til af því, að þegar hann var nærri 4 vetra, og svaf þá enn í vöggu hjá foreldrum sínum á Stöpum, sem títt var fyrrum að börn gerðu, uns þau voru 6 eða 7 vetra, hafi móðir hans, sem þókti forn í skapi, og fóstra Guðmundar, sem og var skapvargur, skiptzt ógurlegum illdeilum og formælíngum, en vaggan stóð á milli þeirra. Aðrir segja að móðir hans hafi formælt honum, og formælíngar hennar hafi orðið að áhrínsorðum, svo að hann varð krypplíngur síðan alla æfi. Til þess bendir Guðmundur víða í kvæðum sínum og rímna mansaungum, að hann hafi verið heill heilsu framan af æfi sinni, og eins þykir hann ámæla vondum konum, eins og hann hefði átt þeim ilt upp að inna; virðist vísa þessi benda til þess:

„Býst eg við að gefnir gulls,
gustkaldar í orðum,
að mèr búi enn til fulls,
ekki síður en forðum."

Það er almælt, að Guðmundur hafi verið eitthvert hið kröptugasta ákvæðaskáld. Einu sinni mætti hann manni nokkrum ríkum og rembilátum

Guðmundur heilsaði honum og tók ofan, en hinn lèt sem hann sæi það ekki. Þá kvað Guðmundur:

„Fyrst þú vilt ei veita ans
vesti fjandans maki:
andskotinn og árar hans
ofan fyrir þèr taki."

Þá er sagt, að hinn hafi ekki komizt áfram fyrir púkum, sem þyrptust í kríng um hann, og voru alt af að taka ofan, þángað til hann auðmýkti sig fyrir Guðmundi, og hann kvað árana burt frá honum.

Guðmundur neytti þó ekki gáfu sinnar eingaungu, til að hefna sín á óvildarmönnum sínum, því sagt er, að hann hafi bjargað mörgum með henni frá drauga árásum og vondum öndum, og vantaði að eins lítið á, að hann gæti læknað með henni eigin kröm sína. Svo er haft eptir manni þeim, sem Andrès hèt og var Jónsson, og átti heima í Andrèsarhúð, örskamt frá Hólsbúð, þar sem Guðmundur var, að hann hafi sagt þessa sögu vini sínum á Norðurlandi: „Þegar eg var nálægt tvítugur að aldri, heyrði eg Guðmund segja, að nú væri að eins tveir dvergar til á Íslandi; byggi annar þeirra í björgum nokkrum norður á Lánganesströndum, en annar væri nágranni sinn, og hyggi í steini miklum skamt frá Hólsbúð; ætti hann þau smyrsli, sem gæti læknað sig, svo að hann yrði alheill heilsu sinnar, ef hann gæti til þeirra náð, en þó grunaði sig, að formælínga-kynngi þeirri, sem á sèr lægi saklausum, mundi ekki auðið af sèr að hrinda." Það var eitt sumar á helgum degi, að fólk fór flest eða alt til kirkju, nema Guðmundur, og var Andrès hjá honum. Þá segir Guðmundur: „Nú vil eg eiga kaup við þig, vinur, er eg hefi jafnan reynt trúnað þinn og orðfæð, og skaltu nú bera mig hèr austur frá húsum, að hinum mikla steini, er þar stendur, og eg mun vísa þèr á." Sveinninn kvað svo vera skyldi. Síðan hjuggust þeir, og bar Andrès hann, og setti niður gagnvart steininum, þar sem Guðmundur vísaði honum til. Sýndist honum Guðmundur þá svo alvarlegur, að hann þóktist ei mega sjá í augu honum; bað hann síðan Andrès víkja heim frá sèr aptur, og vitja ekki um sig fyrr en um miðaptan, og segja ekki til sín, hver sem eptir sèr spyrði, og hvað sem við lægi; „hefir mèr nú þetta riðið mest á trúnaði þínum." Andrès lofaði honum góðu um það. Síðan skildu þeir, og fór Andrès heim. Svo bar til litlu eptir miðjan dag, að maður kom að Hólsbúð, og var mjög flumúsa. Hann var þar úr næstu byggðarlögum og spurði mjög að Guðmundi. Andrès kvaðst ekki neitt til hans vita, og hann væri þar ekki: „Hefir hann, ef til vill, látið bera sig til kirkju, eins og honum er títt, eða hvert erindi áttu við hann?" Hinn svarar: „Dóttir mín frumvaxta er kvalin heima, af vondum anda eða draugssendíngu. Fèkk hún það mein í nótt, og er sem vitfirríngur; vildi eg leita hjálpar og ráða til Guðmundar, því eg veit, að hann mundi ekki synja mèr liðveizlu, þar sem líf og velferð dóttur minnar liggur við, og skora eg á þig í nafni

allra heilagra, að þú segir mèr hið sanna; því hann hlýtur að vita um hagi hennar.“ Andrès færðist undan, sem leingst hann mátti með mörgum afsökunum, en það tjáði ekki, svo þar kom um síðir, að hann hèt að forvitnast um hagi Guðmundar. Gekk hann síðan þángað, er hann hafði skilið við hann, og sá þá, hvar Guðmundur var búinn að kveða dverginn út úr steininum og að kerrunni með smyrsla bauk stórau í hendi. Dverginum varð svo hverft við, er hann sá manninn, að hann hvarf aptur sem eldíng inn í steininn, og luktist steinninn í skyndi. Guðmundi brá mjög við, og sagði, að sèr mundi ekki auðið verða að renna sköpum þessum: „Mun mèr vera ætlað,“ sagði hann, „að bera vanmætti mitt til grafar, og verði vilji drottins; en eingum mannlegum krapti er nú auðið, að hafa dverginn framar út.“ Síðan fór Guðmundur heim og bjargaði nauðsyn þess, er kominn var, og bar síðan mæðu sína með þolinmæði. — Svo hefir enn verið sagt frá, að eitt sinn hafi maður komið á glugga yfir Guðmundi um nótt, og kallað inn til hans: „Hjálpaðu mèr, Guðmundur, andskotinn eltir mig.“ Guðmundur mælti: „Hvar er hann?“ Hinn svarar: „Fyrir sunnan bæinn og kominn hartnær að húsum.“ En þetta var draugsendíng. Guðmundur bað manninn fara af glugganum og kvað þar út um ramaukin ljóð til draugsins, svo hann fór að lyktum þar niður, sem hann var kominn, skamt frá húsveggnum. Voru þar settir marksteinar, sem draugurinn fór niður, og sèr þá þar enn í dag.

**Þórður Magnússon á Strjúgi.** (Eptir handriti sèra Skúla Gíslasonar.) Þórður á Strjúgi var ákvæðaskáld. Það er mælt, að hann hafi ort Rollantsrímur og lagzt, meðan hann var að því. En þegar hann var kominn á fætur, sá hann, að rímu hafði verið bætt við. Hann kallaði þá á dóttur sína og mælti: „þessi er rímau bezt ort, en ekki þurftir þú að gjöra ráð fyrir dauða mínum,“ og sló hana löðrúng. Einu sinni kom Þórður í Höfðakaupstað; var þar vegið af honum, án þess að hann feingi nokkra rèttíngu á því, eða kæmi orði fyrir sig. Hann mælti þá við kaupmanninn: „Gefðu mèr í staupið úr ámunni þarna.“ Kaupmaður mælti: „Fjandinn hafi þann dropann, sem í henni er.“ Þá kvað Þórður:

„Krefst jeg þess af þèr,
sem kaupmaður gaf þèr, kölski og fjandi.
Í ámuna farðu óstöðvandi,
og af henni hrittu[1] hverju bandi.“

Þá sprakk áman; en það, sem í henni var, steyptist á búðargólfið. Þórður gekk út, leit til skips þess, er var á höfninni, og kvað:

„Kristur minn fyrir kraptinn þinn,
kóngur himins frægi:
gefðu þann vind á græðishind,
að gángi alt úr lagi.“

1. „Sviptu“ hafa aðrir. Vestfirðingar eigna vísu þessa Þormóði í Gvendareyum, og segja, að hann hafi kveðið hana við kaupmanninn í Stykkishólmi.

Sumir segja, að Þórður hafi þó iðrazt eptir og kveðið vísuna aptur svona:

„Kristur minn fyrir kraptinn þinn,
kóngur himins og láða:
gefðu þann vind á græðishind,
að gott sè við að ráða."

En þegar veðrið gekk eigi að síður upp, mælti Þórður: „Slíks var von, því að ekki gat eg beðið þeim dönsku hundum góðs með eins heitum huga, og eg bið þeim ills." Lagði Þórður af stað úr kaupstaðnum, reiður mjög, og fylgði honum maður. En þegar þeir voru komnir nokkuð áleiðis, tók að hvessa, svo lítt var reitt. Þá kvað Þórður við lagsmann sinn:

„Þó slípist hestur[1] og slitni gjörð,
slettunum ekki kvíddu.
Hugsaðu hvorki um himin nè jörð,
en haltu þèr fast og ríddu."[2]

Í stormi þessum fórst skipið með rá og reiða.

Á efri árum sínum var Þórður eitt sinn á ferð hjá Helgavatni í Vatnsdal. Þetta var á útmánuðum, og var hjarn og reiðfæri gott, en fullkomið hagbann. Þá mætti honum maður, er bar heybagga mikinn á baki. Þórður kastaði þá fram stöku þessari í gamni:

„Aldrei átti jeg á því von,
að það svo við bæri,
að sterki Ormur Stórólfsson
staðinn upp aptur væri."

Maðurinn hèt Jón, og hafði hann feingið bagga þenna í heyþrotum. Tók hann þetta fyrir gabb, en var ákvæðaskáld, og svaraði hann í ljóðum með þykkju. Jókst kveðskapurinn svo, að Þórður kvað auðnuleysi á Jón, en Jón holdsveiki á Þórð. Mælt er, að Þórður hafi kveðið holdsveikina af sèr hálfum en ekki viljað freista drottins, með því að kveða hana af sèr öllum.

**Kolbeinn á Bjarghúsum.** (Eptir handriti sèra Skúla Gíslasonar.) Kolbeins er áður getið, þar sem hann varð fyrir skrímslinu á Vesturhópsvatni. Hann var heldur forn í skapi og þókti andríkur. Í elli sinni var Kolbeinn flæmdur burt frá koti því, sem hann bjó á, Bjarghúsum; því olli Kristín nokkur Jónsdóttir. Hún var ríkiskona, en vildi ná kotinu fyrir eitt barn sitt; því henni þókti það hæfilegt fyrir frumbýlíng að byrja búskap á. Þá kvað Kolbeinn þetta:

„Kristín i Nýpukoti
Kolbein flæmdi frá Bjarghúsum.

1. „Klár," aðrir.
2. Sumir eigna vísuna Páli Vídalín.

Rekkur í ráðaþroti
reynist af huga illfúsum."

Síðan er mælt að niðjar Kristínar hafi orðið ólánsmenn.

**Jón á Berunesi.**[1] (Eptir handriti Jóns Sigurðssonar í Njarðvík í Múlasýslu.) Þegar Jón óx upp fór að bera á fjölfræði hans og skáldskap, og þókti kraptur fylgja. Eitt sinn átti að hýða hann, eg man ekki fyrir hvað. Alexander hèt böðullinn; Jón Þorláksson var þá sýslumaður. En þegar til málanna kom, og böðullinn reiddi upp vöndinn, kastaði Jón fram stöku þessari:

„Alexander fjölfundinn,
forblindur í syndum,
vill granda, grályndur
gaur, kundi, níðhundur
. . . . . . . .
. . . . . . . .
hèr standi blíbundinn,
ber vönd í tveim höndum."

Við þetta brá Alexander svo, að hann stóð með uppreiddan vöndinn, stirður sem trè, og varð aldrei samur síðan. En ekki varð meira af hýðíngu Jóns. Heyrt hefi eg þess getið, að eitt sinn voru þeir á ferð á fjallvegi einum, Jón sýslumaður og hann. Lenti þá í kappræðum milli þeirra. ekki hefi eg heyrt út af hverju; en báðir reiddust. Þá sagði Jón:

„Fimtán palla í fúna jörð
fjandinn dragi þig niður."

Í sama bili sprakk jörðin sundur undir hesti sýslumanns, en hann varð sjálfur lafhræddur, og bað hann í allra krapta nafni að bæta úr þessu. Kastaði hann þá fram nokkrum stökum, sem eg hefi ekki heyrt. Þegar hann gekk með björgum, átti hann að kalla á hamrabúa, og jafnvel mana þá til sín. Fleira man eg ekki að segja af Jóni á Berunesi.

**Sigurður á Öndverðarnesi.** (Eptir sögn Hannesar skóara Erlendssonar í Reykjavík.) Öndverðarnes heitir bær einn á nesi því, sem leingst skagar vestur af Snæfellsnesi. Þar bjó fyrrum maður sá, sem Sigurður hèt. Hann var hagmæltur vel, og þókti vera kraptaskáld. Einn frostavetur lagði ísa mikla alstaðar í kríng um Snæfellsnes, svo hvorki varð róið frá Öndverðarnesi nè annarstaðar undir Jökli. En þar er svo varið sveitarháttum, að þar er lítil önnur bjargræðisvon, en úr sjónum, og ef hann bregzt, eða verður ekki stundaður sökum ógæpta eða annara hluta, eru Jöklarar illa farnir. Þegar ísinn hafði legið um stund, svo ekki varð á sjó komizt, kvað Sigurður, og eru þessar vísur þar í:

„Sunnan vind á sjóinn
sendi af landátt gróinn,

1. Hans er áður getið í I, 1, 100—101. bls.

svo maurúngs rífi upp móinn
magnelfd vargfuglsklóin
með hríðum.

Rjúki reyðarpallur,
rifni svo Heimdallur,
að elris jötunn allur
öskri burðasnjallur
af bræði.

Bráðni ís og brotni,
bið eg þess af drottni,
sem ryk fyrir stormi rotni,
rýrð svo bjargar þrotni
af sjónum.“

Svo brá við, daginn eptir að Sigurður kvað þetta, að gjörði frostleysu og rokviðri af landsuðri, svo allan ís leysti sundur og rak undan vestur í haf. Því urðu Jöklarar fegnir, og þökkuðu það þessum kveðlíng Sigurðar.

**Kraptaskáld enn á lífi.** (Eptir sögusögn Vestfirðinga.) Fyrir vestan er maður einn, sem kvað vera kraptaskáld. Einn sinni hafði hann týnt lyklinum að mötuskrínunni sinni, þegar hann reri út undir Jökli. Leitaði hann þá fyrst lykilsins dyrum og dýngjum, en fann hann hvergi. Sögðu þá búðarmenn hans við hann, að hann skyldi ekki vera að þessari rekistefnu eptir lyklinum, en neyta þess, að hann væri kraptaskáld, og kveða upp skrínuna. Kvað hann þá vísu þessa:

„Djöfull, komdu og dragðu upp skrá,
dugðu nú við minni bón;
eg skal gefa þèr af mèr tá,
og eilíflega vera þinn þjón.“

Við þetta hrökk upp skrínan. En þegar frá leið, segir sagan, að maðurinn hafa farið að verða nokkuð áhyggjufullur, þegar hann fór að hugleiða hið guðlausa og gapalega heit sitt í vísunni, og ímyndað sèr, að kölski mundi gánga ríkt eptir áheitinu. Er þá sagt, að hann hafi kveðið af sèr skuldbindíng sína, en það hafi hann næst sèr tekið að fá hana ónýtta.

Stundum eru það ummæli galdramanna eða þeirra, sem fornir þykja í skapi, er olla öðrum óhamíngju, og verða að áhrínsorðum, eingu síður en ákvæði kraptaskálda. Ummælum sýnist mega skipta í tvent: heitíngar (formælíngar og forbænir) og álög. En það er kallað „að heitast“ og „heitíng,“ þegar menn biðja í heipt hver öðrum mikilla bölbæna, og orðatiltækin, „að verða fyrir álögum,“ „vera í álögum“ eða „undir álögum,“ eru höfð um alt það, hvort heldur eru menn eða hlutir, sem háð er áhrínsorðum annara, einnig eru þau höfð um þá menn, sem hafa orðið að skipta

hömum fyrir ummæli, sem alkunnugt er úr fornum sögum. Hèr skal nú getið nokkurra heitínga og álaga.

**Blótbjörk.** (Eptir handriti sèra Jóns þórðarsonar, nú á Auðkúlu.) Framan undir Lýngdalsheiði í Grímsnesi stendur bær, er Björk heitir. En á heiðinni fyrir austan bæinn stendur eyðibær, er Blótbjörk er kallaður; markar þar enn í dag fyrir túngarði og öllum útihúsum, en bæarhús sjást eigi. Er svo sagt, að eina jólanótt fóru allir til aptansaungs, nema tvær kerlíngar og dreingur, er heima var. En er fólkið var komið til kirkjunnar út að Klausturhólum (er utar stendur undir heiðinni), fóru kerlíngarnar að deila út af því, að báðar vildu vera matseljur; tók þeim bráðum að sinnast, og tóku mjög að blóta. Dreingnum fór að ofbjóða og flýr út í fjósið. Dvaldi hann þar um hríð, þángað til fjósið fór að skjálfa. Leitar hann þá á dyr og linnir eigi hlaupum, fyrr en hann er kominn út að Klausturhólum og segir fólkinu frá. En er að bænum var komið, sást eigi neitt eptir af honum, og er þar síðan svart flag eptir; en bærinn var færður utar undir heiðina. þessi atburður var kendur formælíngum kerlínganna.

**Lautin í skálagólfinu á Draflastöðum.** (Eptir handriti sèra Benedikts þórðarsonar á Brjánslæk.) Á Draflastöðum í Fnjóskadal var skáli fram yfir daga Bjarna Jónssonar, sem bjó þar áður hann flutti að Laxamýri. Í skálagólfið var laut, sem aldrei varð fyld, því jafnótt og hún var slèttuð með torfi og mold, kom hún brátt aptur. Hvernig þessi laut var til komin, um það höfðu menn þá sögu úr gömlum kerlínga bókum, að kerlíngum tveimur hefði orðið eina jólanótt sundurorða í skálanum, og hefðu þær að lokum deilt svo leingi og grimmilega, að þær hefðu báðar sokkið þar niður í gólfið, sem lautin hefir síðan verið eptir; og fólk, sem í skálanum var, hefði lángt fram á jóladaginn heyrt óminn af rimmu þeirra upp úr gólfinu. Hafa menn það fyrir satt, að kerlíngar þessar hafi verið bæði skapstórar og þrályndar.

**Tyrkja-Gudda og Ólafur skozki.** (Eptir sögn Jóns málaflutníngsmanns Guðmundssonar og Gesti Vestf. V. ár.) það bar við eitthvert sinn, að förukarl sá, er Ólafur hèt, og kallaður „skozki," kom að Saurbæ á Hvalfjarðarströnd til Tyrkja-Guddu, og bað hana að lofa sèr að vera, því sèra Hallgrímur var á eingjum með heimamönnum sínum, og leyfði prestskonan honum það. Ólafur þessi þókti bæði grályndur og forn í skapi. þegar hann var búinn að fá að vera, bað hann Guddu, að gefa sèr skæði á fæturna. En hún neitaði honum um þau, og sagðist ekki eiga þau til í eigu sinni. Ólafur varð þegar uppi með fáryrðum, og bað þess, að skæðin brynnu, þar eptir sem þau væru til í Saurbæ. En Gudda svaraði honum með þeirri ofstæki, sem henni var eiginleg, og sagði: „það væri tilvinnandi, ef þú brynnir þá með." þókti þar hafa sannast hið fornkveðna: „ekki veit, á hverri stundu

mælt er,“ því sömu nóttina brann allur bærinn í Saurbæ og mikið af búshlutum til kaldra kola, en fólk alt komst af, nema Ólafur skozki; hann brann þar einn inni. Þetta var árið 1662, 15. dag ágústm. Til þessara fáryrða og forbæna Ólafs og Guddu er sagt, að sèra Hallgrímur líti í 9. versi í 28. Passíusálminum, þar sem hann segir:

. . . . . . . . . . . .
„Athugagjarn og orðvar sèrt,
einkum þegar þú reiður ert;
formælíng illan finnur stað,
fást mega dæmin upp á það.“

**Smali.** (Eptir handriti sèra Jóns þórðarsonar, nú á Auðkúlu.) Framan undir Skarðsfjalli í Landmannahrepp í Rángárvallasýslu stendur bær sá, er Skarð heitir.[1] Fyrir austan túnið stendur einstakur klettur jarðfastur. Hann er að vestanverðu svo sem hálf önnur mannhæð á hæð, en að austanverðu er hann nokkuð lægri. Uppi á honum standa þúfur tvær. Það er sagt, að einu sinni hafi mjaltakona reiðzt við smalann fyrir það, að nokkrar ær vöntuðu úr kvíunum. Urðu þau bæði reið og heituðust, og urðu að steini þessum, en þúfurnar eru höfuð þeirra. Steinninn er kallaðar „Smali.“

**Skólaþjónusturnar.** (Eptir sögn gamallar konu í Borgarfirði.) Það er kallað að **heitast**, ef menn í heipt biðja hvor öðrum mikilla óbæna, og eiga heitíngar opt að hafa orðið að áhrínsorðum.

Svo er mælt, að þegar skóli var í Skálholti hafi þar verið tvær skólaþjónustur. Þær voru báðar illar mjög í skapi, og þúngyrtar, ef því var að skipta. Ekki er þess getið, að þeim hafi komið illa saman. En svo bar til fyrir jólin einn vetur, að önnur þjónustan þurfti að fara eitthvað út, en veður var ílt og bylur. Hún tekur þá nýþvegnar nærbrækur af einhverjum skólapilti, sem hin þjónustan þjónaði; því hún hafði ekki annað fat hendi nær til að fara í. Fór hún síðan í brækurnar, og urðu þær allar votar og óhreinar. Þegar hún kemur inn aptur segir hún hinni þjónustunni frá, og biður hana, að misvirða ekki þetta tiltæki sitt við sig, þó hún hafi tekið brækurnar á laun við hana. En þjónustan brást reið við, og atyrti hana. Eykst þetta svo orð af orði, þángað til þær heituðust, og sukku þær þá báðar niður í jörðina. Var önnur komin í hnè, en önnur upp í mitti, þegar að þeim var komið. Hlupu þá skólapiltar til, og kiptu þeirri upp undir eins, sem grynnra var sokkin. Var hún þá borin burt. Síðan tóku þeir til hinnar, en hún var föst fyrir. Tóku þá tólf á henni í einu. Þá segir hún: „Tíu toga að neðan, tólf toga að ofan, og takið á fastara (betur), piltar.“ Gátu þeir loks náð henni upp, og ætlaði það þó að gánga tregt.

1. Sèra Jón ólst upp í Skarði.

**Krýs og Herdís.** (Algeing saga í Rángárvalla-, Árnes- og Gullbringusýslum.) Sunnan á Íslandi eru bæir tveir; heitir annar Krýsuvík, og er hann austastur bær í Gullbríngusýslu með sjávarsíðunni; en hinn er nefndur Herdísarvík; það er vestastur bær í Árnessýslu. Þetta eru næstu bæir sinn hvoru megin við sýslumótin; hvorttveggja er landnámsjörð, og svo að ráða, sem sín konan hafi gefið hvorri nafn, er þar bjuggu leingi, og hèt sú Krýs, er bygði Krýsuvík, en Herdís sú, er setti bú í Herdísarvík.

Jarðir þessar hafa alla tíma verið taldar með beztu bólstöðum hèr á landi, og er það ekki að undra; því báðum fylgir útræði, fuglberg mikið og trjáreki nógur. Á landi áttu báðar jarðirnar veiðivötn ágæt: Krýsuvík, mörg í suður og austur frá bænum, þar sem hann er nú, en Herdísarvík, litla tjörn eina í heimatúni, milli sjós og bæar. Rètt hjá veiðivötnunum átti Krýsuvík stareingi mikið og fagurt; af því fèllu 300 hestar á ári. Herdísarvík átti aptur á móti ekkert eingi, en beitiland svo miklu betra fyrir sauði, en Krýsuvík, að nálega tekur aldrei fyrir haga í Herdísarvíkurhrauni; er þar bæði skjólasamt af fjallshlíð þeirri, er geingur með endilángri norðurbrún hraunsins, og kölluð er Geitahlíð, og skógur mikill.

Nú þótt fjarskalaung bæarleið, hèr um bil hálf þíngmannaleið, sè milli þessara bæa, þá af því þær Krýs og Herdís voru grannkonur, var nábúakritur megn á milli þeirra; því hvor öfundaði aðra af landgæðum þeim, er hin þóktist ekki hafa, Krýs Herdísi af beitilandinu, en Herdís Krýs aptur af einginu. Svo hafði leingi geingið, að hvor veitti annari þúngar búsifjar; rak Krýs sauðfènað sinn í land Herdísar; en Herdís vildi aptur ná í eingið, og beittust svo þessu á víxl; með því landamerki virðust annaðhvort hafa verið óglögg eða eingin í það muud.

Þegar þær grannkonurnar eltust meir, fóru þær síður að hafa fylgi á framkvæmdum, til að ásælast hvor aðra; en ekki var skap þeirra að minna eða vægara fyrir það. Bar þá svo við einhverju sinni, að Herdís hafði geingið út í hraun, og síðan út með Geitahlíð, svo sem leið liggur út í Krýsuvík. En utarlega undir hlíðinni gánga úr henni hæðir nokkrar fram að hrauninn, og eru þær kallaðar Eldborgir. Yfir þessar hæðir liggur vegurinn. Þann sama dag, er Herdís tókst þessa gaungu á hendur, fór og Krýs að heiman. Í suður frá Krýsuvík er slètt melgata; er hún nokkuð lángur skeiðsprettur suður undir hornið á Geitahlíð; en þegar komið er fyrir það horn, blasa Eldborgir við sunnar með hlíðinni, og er allskamt þángað undan hlíðarhorninu. Nú segir ekki af ferðum þeirra grannkvennanna, fyrr en Krýs kemur þar á götunni, sem hún liggur yfir hina nyrztu Eldborgina, þá kemur Herdís í flasið á henni að sunnan. Þegar þær hittust, varð fátt af kveðjum, en því fleira af illyrðum á milli þeirra, er hvor um sig þóktist eiga land það, er þær stóðu á. Ekki er þess að vísu getið, hvernig hvorri um sig hafi farizt orð; en svo lauk, að hvor hèzt við aðra vegna landadeildarinnar. Lagði þá Krýs það á Herdísi, að allur ætur silúngur skyldi hverfa úr veiðitjörn hennar, en verða aptur full af loðsilúngi, sumir segja

öfugugga. En Herdís lagði það aptur á Krýs, að allur silúngur í veiðivötnum hennar skyldi verða að hornsílum. Enn lagði Krýs það á Herdísarvík, að þaðan skyldi týnast tvær eða þrjár skipshafnir. Herdís mælti aptur það um fyrir Krýsuvík, að stareingið þar skyldi smá-sökkva á hverjum 20 árum, en koma upp á jafnlaungum tíma. Eptir þessi ummæli sprúngu þær báðar, þar sem þær stóðu, og eru þær dysjaðar báðar til vinstri handar við götuna, þegar riðið er útí Krýsuvík norðan til á Eldborginni nyrztu, og sèr dysirnar þar enn; dys Krýsar er það, sem nær er Krýsuvík, en Herdísar hitt, sem fjær er. Meðan þær voru að mæla hvor um fyrir annari, kom að þeim smalinn úr Krýsuvík; en svo brá honum við heitíngar þeirra, að hann fèll þegar dauður niður, og er hann dysjaður hægra megin við götuna, þar upp undan, sem þeirra dys eru niður undan, svo ekki skilur nema gatan ein.

Dys þeirra grannkonanna eru enn kölluð Krýs og Herdís, og þar með eru þau kölluð sýsluskil Gullbríngusýslu og Árnessýslu, svo eru þau og talin landamerki milli Krýsuvíkur og Herdísarvíkur. En af ummælum þeirra er það að segja, að í veiðivötnum Krýsuvíkur hefir einginn silúngur feingizt, svo menn viti, nokkurn tíma síðan, en fult er þar af hornsílum, og í Herdísarvíkurtjörn hefir ekki heldur orðið silúngs vart; en loðsilúngar ætla menn þar hafi verið, þótt ekki sè þess getið, að neinn hafi af því bana beðið. Aptur var það einn vetur eptir þetta, er sjómenn geingu til sjávar snemma morguns frá Herdísarvík, en skemst leið er að gánga til sjávar þaðan yfir tjörnina, þegar hún liggur, að þeir fórust allir í tjörninni ofan um hestís, og segja menn þeir hafi verið 24 að tölu. Um stareingið í Krýsuvík er það enn í dag sannreynt, að það lækkar smátt og smátt fram við tjörnina, er það liggur að, svo að hún geingur hærra upp eptir því, uns hún er komin yfir alt eingið eptir 20 ár; en þá fjarar tjörnina aptur smásaman, svo eingið kemur æ betur upp, uns það er orðið jafngott og áður, að öðrum 20 árum liðnum, og falla þá enn í dag af því 300 hestar af stör.

**Svana og Síða.** (Eptir handriti sèra Jóns þórðarsonar á Auðkúlu.) Í miðri Refasveit, sem er hèrað eitt í Húnavatnssýslu, er vatn nokkurt, sem kallað er Lángavatn; vestur úr vatni þessu geingur síki, sem kallað er Heljarsíki og er þessi saga sögð frá því. Í vatninu var í fyrri tíð mikil veiði, og veiddu í vatninu ásamt öðrum fleirum konur tvær, Svana, er bjó á Svangrund, og Síða, sem bjó á Síðu og voru opt deilur milli þeirra út af veiði í vatninu. Eitt sinn hittust þær að vestanverðu við vatnið, og leiddu hesta sína saman, eins og fyrri; en í þetta skipti lauk svo, að þær heituðust og opnaði þá jörðin sig, og svalg þær báðar, og sprakk þá fram síkið, sem síðan er kallað Heljarsíki. Þau álög eru síðan á vatninu, að aldrei geingur silúngur í það eða aðrir ætir fiskar, sem þó er sagt að sèu í öðrum vötnum þar í kríng, en nóg er þar af hornsílum, sem einginn maður leggur sèr til munns.[1]

1. Sjá Dr. Maurers Isl. Volkss. 105.—106. bls.

**Laxnes.** (Eptir sögn manna í Mosfellsdal.) Ofarlega í Mosfellsdal í Kjalarnessþíngi stendur bær sá, sem Laxnes heitir. Hann stendur á nyrðri bakka Köldukvíslar, en það er aðaláin í dalnum. Neðar og allskamt frá sjó stendur sá bær á nyrðri bakka sömu ár, sem heitir Leirvogstúnga. Á báðum þessum bæum var í fyrndinni laxveiði mikil í Köldukvísl, en nú er hún að eins í Leirvogstúngu, en alls eingin í Laxnesi, og er sú orsök til þess, sem nú segir.

Í fornöld bjó sín kerlíng á hvorum bænum, Laxnesi og Leirvogstúngu; þær voru fornar í skapi og fjölkunnugar báðar. Ann hvorug þeirra annari veiðinnar í Köldukvísl, og seiddu laxinn hvor frá annari. Á endanum heituðust þær út af veiðinni, og varð Leirvogstúngukerlíngin þeim mun drjúgari, að hún gat sèð svo um, að einginn lax geingi framar upp fyrir Leirvogstúnguland í Köldukvísl. Þessi álög hennar haldast enn í dag, svo að eingin laxveiði er ofar í Köldukvísl, en fyrir Leirvogstúngulandi.[1]

**Fúlatjörn.** Á Finnstöðum í Kinn voru bræður tveir með móður sinni; hètu þeir Finnur og Bolli. Þar undan bænum á Finnstöðum var lítið vatn, og í því mikil silúngsveiði. Þegar móðir þeirra eltist og hætti bústjórn, skiptu þeir bræður landi með sèr, og hlaut Finnur fremri hluta landsins, þar sem Finnstaðir eru nú, og dregur bærinn nafn af honum. En Bolli bygði bæ á nyrðri jaðrinum, þar sem nú er eyðibýlið Bollastaðir. Móðir þeirra bræðra fylgði Bolla syni sínum. Ekki leið á laungu, áður þeir bræður fóru að deila um veiðina í vatninn; vildi Bolli hafa hana hálfa, en Finnur spilti veiðinni fyrir bróður sínum, því hann vildi einn eiga veiðina alla, og fór Bolli halloka fyrir ofsa hans. Varð þá móðir þeirra bræðra svo reið, að hún lagði það á, að vatnið skyldi þaðan í frá verða fúlasta leirtjörn, sem ekkert kvikindi þrifist í, og svo varð síðan. Vex þar nú lítið stargresi. En af Fúlutjörn er Kaldakinn (bygðarlag) stundum nefnd Fúlakinn.[2]

**Tólfhundraðavatn.** (Eptir sögn skólapilta að austan, 1847.) Fyrir austan bæinn í Útey í Laugardal í Árnessýslu er tjörn ein ekki stór. Úteyarmenn höfðu fyr meir silúngsveiði í tjörninni, en þau álög voru á henni, að aldrei mætti þar veiða meira í einu, en til næsta máls. — Seinna kom sá bóndi að Útey, sem brá út af þessu, og hèlt, að álög þessi mundu vera harla marklítil. Hann tók sig því til, og veiddi á lítilli stundu 1200 silúnga í tjörninni. En upp frá því hefir aldrei verið nein veiði í tjörninni, og er hún síðan kölluð Tólfhundraðavatn.

**Silúngsveiðin í Krókatjörn.** (Tekið eptir sögn kand. Halldórs Guðmundssonar frá Ferjukoti í Borgarfirði.) Krókatjörn heitir tjörn ein nálægt Ferjukoti við

1. Sbr. Dr. Maurers Isl. Volkss. 105. bls.
2. Eptir handriti sèra Jóns Kristjánssonar á Yztafelli.

Hvítá í Borgarfirði. Hún er afardjúp og kölluð tvíbytna. Það er sagt, að einu sinni bjó kona nokkur í holti einu vestantil við tjörnina, sem heitir Tjarnarás. Hún átti tvo syni. Þegar þeir voru komnir á legg, veiddu þeir silúng í tjörninni til matar sèr. Einu sinni drukknuðu þeir báðir í tjörninni, þegar þeir voru að veiða í henni. Móðir þeirra syrgði þá mikið, og mælti svo um, að eingum skyldi framar heppnast veiði í tjörninni.

Einu sinni seinna fór Ferjukotsbóndinn að veiða í Krókatjörn. Tók þá út ferjubátinn og brotnaði í spón. Síðan hefir einginn reynt til að veiða silúng í tjörn þessari, því einginn hefir viljað verða fyrir óhöppum fyrir það.

**Skáneyar-Grímur.** (Eptir sögn Reykdælinga í Borgarfirði.) Svo bar til einn dag á meðan Guðmundur biskup helgi sat í Reykholti, að þar kom bóndi einn úr dalnum. Hann hèt Grímur og var bóndi á Skáney. Hann var maður gamall, og forn í skapi. Sveinum biskups þókti Grímur skrítinn, og gjörðu mjög gys að honum. Einn þeirra hæddi þó karlinn fremur hinum; hann var oflátúngur mikill. Grímur segir við hann, að þess muni ekki lángt að bíða, að af honum fari oflætið, og sè honum betra að láta sèr hóflega. Maðurinn skaut skolleyrunum við orðum Gríms. En þegar biskup fór frá Reykholti, reið hann niður dalinn. Var þá maður sá, sem mest hæddi Grím, að leika sèr að því, að setja spjótið fyrir brjóst sèr, og ríða svo. Biskup bað hann að gjöra það ekki, en hann fór ekki að því, og sagðist mundi sjá um sig. En í þessu bili hnaut hestur hans, svo spjótið stakkst í gegnum manninn. Fèll hann dauður niður af hestinnm. Lèt biskup dysja hann þar við götuna, skamt frá Kleppjárns-Reykjum undir norðurendanum á Hamramelum, öllum oflátúngum, sem um veginn færi, til viðvörunar. Hjá dys þessari má einginn ríða, nema hann kasti í hana þremur steinum, annars vill honum til eitthvert slys á ferðinni.

**Þorskafjörður og Nesvogur.** (Eptir Dr. Maurers Isl. Volkss. 105. bls.) Maður er nefndur Bárður; hann fór á skipi yfir Þorskafjörð með 5 öðrum mönnum, deildi illdeilum við þá, og drap þá alla. Tveir þeirra voru bræður, synir galdrakonu einnar, og varð hún svo heiptarfull af drápi sona sinna, að hún lagði það á fjörðinn, að aldrei skyldi þar fást fiskur úr sjó, fyrr en 20 manns hefði týnt í honum lífi sínu. Sagt er, að sèra Friðrik prófastur Jónsson hafi verið sá tuttugasti, sem drukknaði í firði þessum 1840, af því fyrr fèll að, en varði, en hann var ríðandi. — Sagt er og, að Nesvogur hjá Stykkishólmi sè undir álögum. Sonur gamallar seiðkonu drukknaði í þeim vogi; þá lagði hún það á voginn, að tuttugu menn skyldi í honum drukkna. Það er mælt, að nú (1858) sèu 19 búnir að drukkna í honum, og hver maður er hræddur við voginn, því einginn vill verða fyrir því, að verða hinn tuttugasti.

**Stóri-steinn.** (Eptir sögn skólapilts að vestan 1845.) Vestur á Múlanesi er steinn einn mikill á milli Skálmarnessmúla og Íngunnarstaða. Einn sinni var prestur í Múla. Þá hjó Íngunn á Íngunnarstöðum. Hún gat ekki goldið presti tekjur sínar; svo var hún fátæk. Íngunn átti eina kú, og var það hinn helzti bjargargripur hennar. Prestur vildi einkis í missa; því hann var harður í tekjum, og er hann sèr, að hann fær ekkert hjá Íngunni, fer hann til Íngunnarstaða, tekur kú Íngunnar og fer með hana heimleiðis. En þegar hann kom, þar sem nú er steinninn, kom steinninn ofan úr fjallinu, Múlanessfjalli, og varð prestur undir honum, og liggur hann þar enn í dag. En ekki snerti steinninn kúna, og fór hún heim að Íngunnarstöðum aptur.

**Kýrsteinar.** (Eptir sögu skólapilta að vestan 1845.) Vestur í Gilsfirði, milli Garpsdals og Gróustaða, er holt eitt, sem kallað er Kýrsteinaholt. Dregur það nafn af steinum, æði mörgum, sem standa uppi á því. Steinar þessir eru líkastir stórum taðhrúgum, og ólíkir öllu öðru grjóti, sem þar er. Eru steinar þessir kallaðir Kýrsteinar. En þeir eru svo til orðnir, að Gróa á Gróustöðum breytti kúm prestsins í Garpsdal í steina þessa, þegar hún fèkk eingu við ráðið við prest um það, að láta þær ekki gánga í túni sínu, nè eingjum.

**Gaungukonu-steinn.** (Eptir handriti sèra Jóns Norðmanns.) Á hamri einum, ekki lángt frá Arnarstapa undir Jökli, er strókur, sem heitir Gaungukonu-steinn. Hraun er þar upp undan, og stendur svo á því, að förukona sat einu sinni undir steindránga þessum, þegar lest ein fór um veginn þar rètt hjá. Hún beiddi lestamennina beiníngа; en þeir synjuðu henni um alla ásjá. Bað hún þá hraunið yfir lestina, og varð hún þar undir.

Til eru enn fleiri ummæli, en þau, sem nú hefir verið áminnst, t. d. á þúfum og hólum í túnum og útantúns, skógarhríslum og hrísrunnum, sem vaxa einir sèr, helzt ef það í klettum eða nærri þeim, og á einstökum veiðitjörnum. Hefir það verið gömul trú, að alt þess konar væri eign einhverrar vættar eða álfa, sem legði reiði sína á bóndann þar, sem eitthvað af þessu væri í landareign, og væri yrkt honum til hagsmuna einhverra, hvort heldur það var gjört í boði hans eða banni, og gyldi hann þess með einhverju móti, ef það væri notað, en nyti þess, ef hann lèti það ónotað.[1]

**Hóllin og dældin á Hrauni.** (Eptir Jónasi Jonassen, factor í Reykjavík, sem ólst upp á Stóra-Hrauni.) Á Stóra-Hrauni á Eyrarbakka er hóll einn í túninu, fyrir norðan bæinn og fjósið, en fyrir austan hólinn er aptur dæld nokkur í túninu. Sigurður stúdent Sigurðsson, sem nú býr á Hrauni, komst svo að þeirri jörð, að kona sú, sem Íngunn heitir, gaf honum hana með sèr í proventugjöf, og hafði hún leingi verið þar áður, en Sigurður

1. Nokkur dæmi upp á slíkt eru áður talin í álfasögum.

flutti þángað. Þegar hann var þángað kominn, varaði Ingunn hann við að láta slá hólinn og dældina, og sagði, að einhver óhöpp mundu af því standa, ef svo væri gjört. Sigurður fór að ráðum hennar í því, og lagði hann fyrir hvorttveggja. Leið svo og beið, að hvorugt var slegið í nokkur ár, uns vinnumaður sá kom til Sigurðar, sem Eiríkur hèt; hann þaut einn morgun í og sló bæði hólinn og dældina, áður en húsbóndi hans vissi af, fyrr en alt var búið, svo ekki dugði um að tala. En sama daginn brá svo við, að flaug undir 6 ær hjá Sigurði, og kendu menn það því, að hóllinn og dældin hefðu verið slegin. Sumarið eptir lèt Sigurður taka fjósið á Hrauni. Bás sá, sem er innstur í fjósum og gagnvart dyrum, er á Suðurlandi kallaður hlöðubás. Á þeim bás stóð þá stálmakýr, og átti ekki eptir nema viku til talsins, er fjósið var rifið. Hella stór var í flórnum rètt fyrir aptan hlöðubásinn; hana bannaði Ingunn gamla að hreifa, og sagði, að mikið mundi við liggja, ef sèr væri ekki gegnt til þess; enda bannaði Sigurður mönnum sínum að gjöra það. En af því „sjaldan vinnst vel varaður glæpur,“ þausnaðist Eiríkur, sem fyrr var nefndur, í helluna, og reif hana upp. Þegar lopta fór undir hana, var þar geymur mikill og gap undir öllu, svo lángt sem til náðist að kauna með járnkarlinum. Var svo önnur hella látin aptur yfir gatið. En svo fór eptir þetta, að stálmakýrin, sem stóð á hlöðubásnum, bar ekki alt sumarið, en dróst upp, svo það varð að skera hana um haustið, og sást þá, að kálfurinn hafði visnað með henni. Sú kýrin, sem stóð á næsta bás öðru megin fyrir framan hlöðubásinn, skufslitnaði. Þetta sama sumar þaut Eiríkur enn í að slá dældina, og flaug þá undir 3 ær á Hrauni, og voru öll þessi óhöpp kend því, að brugðið var út af fyrirmælum Ingunnar, því það er trú, að einhver forn ummæli liggi á þessu þrennu á Hrauni, hólnum, dældinni og hellunni, og helzt í orði, að hóllinn og dældin væri slægjuland álfa.[1] En við eingu þessu hefir Sigurður látið hreifa síðan.

**Andrahaus.** (Af Skarðsströnd.) Í Skarðslöndum fyrir vestan er eya ein, sem Hólaey heitir. Norður úr henni geingur höfði einn, hálfklipinn frá eynni, og heitir hann Andrahaus. Hausinn er nokkuð viðlendur ofan og grasi vaxinn mjög, og það því fremur, sem á honum hefir verið sú trú, að ekki mætti slá hann. Þessi trú helzt enn, og hefir þróazt við það, að sá, sem bjó á Skarði, hver sem það nú var, lèt einu sinni slá hausinn og hirða af honum heyið. En haustið eptir vildi svo til, að margt af Skarðsfènu flæddi og drapst, ekki einúngis það, sem gekk í Hólaey og

1. Víða eru þúfur í túnum bæði á Suður, Vestur og Norðurlandi, sumstaðar ein, sumstaðar tvær og sumstaðar þrjár, sem aldrei má slá, því sú er trú á þúfum þessum, að það komi bóndanum aptur í koll. Hvergi veit eg, að tiltekið sè, hver þúfur þessar eigi nema á Vesturlandi, þar eru þær nefndur „álfaþúfur“. Sbr. básinn í Hólafjósi í Hjaltadal, sem ekki mátti binda kúa, Biskupasögur, I, 171. bls.

Andrahausi, heldur og það, sem var í hiuum eyunum, og þókti það fremur tiltökumál. En vinnufólkið á Skarði þóktist hafa sèð bergrisa einn, sem menn ætluðu að væri Andri karl, vaða þaðan í hinar eyarnar, þángað sem fèð drapst, og þókti með því sýnt, að risinn vildi láta bóndann á Skarði komast að keyptu fyrir sláttinn á Andrahausi sumarið áður. Síðan hefir Andrahaus aldrei verið sleginn, og haft er það eptir Kristjáni Magnusen kammerráði, sem nú er á Skarði, að aldrei skuli sèr verða það, að láta slá hann.

**Hóllinn á Sneis.** (Tekið eptir sögn Arnljóts Ólafssonar.) Sneis heitir bær einn í Laxárdal. Framan undir bænum er hóll; hann er grasgefinn mjög, en eigi má slá hann; því í hólnum býr álfkona, og er hann slægjuland hennar. Helgi heitir bóndinn, sem nú (1847) er á Sneis; hann slær hólinn og hirðir ekki um sögur manna. En þess vegna segja sumir að hann sè fátækur, að hann slái hólinn álfkonunnar; því hún þoli honum það ekki.

**Hjallinn á Núpi.** (Tekið eptir sögn Arnljóts Ólafssonar.) Núpur heitir bær í Laxárdal. Upp undan bænum er hjalli, lítið utar en bæriun. Það er býsna hár hamar grasi vaxinn, og er þar hrísrif gott. Fjallvættur býr í hjallanum og er gott að koma sèr vel við hana. Hún á hrísrif alt í hjallanum, og má ekki rífa þar frá henni. Fyrir skömmu bjó kona ein á Núpi, margkunnug haldin, en ekki þó göldrótt kölluð. Hún kom sèr vel við vættina í hjallanum, og þókti það valda því, að hún hafði ætíð nóg fyrir sig að leggja, og það laungum tíma eptir að hún var örvasa orðin. Bóndinn, sem nú (1847?) býr á Núpi, hefir látið rífa hrís á hjallanum. En fyrir nokkrum árum fèkk hann sjúkleika ókennilegan, sem enn (1847?) hefir eigi læknaður orðið, og veldur því hjallavætturin.

**Birkihríslan.** (Eptir húsfrú Hólmfríði Þorvaldsdóttur í Reykjavík.) Austur hjá Hörgsdal í Skaptafellssýslu vex birkihrísla einstök, há og fögur, í gilbarmi einum. Ekki má höggva hana upp eða skerða til neinna nauðsynja, enda er hún eini skógarviðurinn, sem til er í þeirri landareign. Einu sinni var kvennmaður að reka kýr þar nálægt, sem hríslan var. Kýrnar rákust illa, og vildu tvístrast; en stúlkan hafði hvorki hund með sèr, nè neitt í hendinni, sem baulur gætu haft beig af. Þegar stúlkan fór fram hjá birkihríslunni, verður henni það fyrir, að hún brýtur ánga af henni eða grein, til að hafa í hendinni, og slær svo með greininni í einhverja beljuna, sem verst rakst, þar sem hún gekk í balla. En í sama vetfángi, og höggið kemur á hana, skellist kýrin niður kylliflöt og lær-brotnar, og var það kent því, að stúlkan hefði barið hana með grein af þessari hríslu, sem ekki má skerða með neinu móti.

**Viðihríslur í klettum.** (Eptir handriti séra Skúla Gíslasonar.) Þegar viðihríslur og smá-runnar vaxa í klettum, er sagt, að huldufólk eigi það. Merkur maður, sem enn lifir, hefir svo frá sagt: „Í barnæsku minni tók eg eitt sinn hríslu í kletti hjá kvíabóli. Varð þá smalinn hræddur, og sagði, að huldufólkið í klettinum mundi reiðast, svo það hlypi undir ærnar, eða eitthvað yrði að þeim. Þó varð eg svo heppinn, að sú spá rættist ekki."

**Gónapyttur.** (Tekið eptir sögn Arnljóts Ólafssonar.) Gónapyttur heitir pyttur einn á milli Refsstaða og Vesturár framan við Laxá. Hún rennur eptir dalnum, og í hana rennur lækur úr pyttinum. Eyólfur hreppstjóri á Móbergi í Lángadal hafði í seli uppi í Laxárdal. Dreingur var í selinu, sem gæti fjárins. Einn dag veiddi pilturinn í pyttinum og hafði þó Eyólfur bannað honum það. En þegar hann kom heim að selinu með veiðina var snemmbær kýr lærbrotin á stöðlinum. Pilturinn hugsaði, að ekki skyldi þetta aptra sèr frá að veiða í pyttinum, og fór daginn eptir og veiddi. En þegar hann kom heim að selinu, var kýrin dauð. Þá fór honum ekki að finnast til og hætti að veiða. Síðan hefir einginn veitt í Gónapytti, enda er þar nú eingin veiði í orðin.

**Kálfatjörn.** (Tekið eptir sögn Arnljóts Ólafssonar.) Selhagi heitir næsti bær fyrir framan Þverárdal í Laxárdal. Þar er tjörn sú fyrir framan og neðan bæinn, sem heitir Kálfatjörn. Þorleifur hèt maður í Selhaga, sem seinna bjó í Stóradal. Þegar hann stóð yfir sauðum sínum um veturinn, veiddi hann í tjörninni. Drápust þá fyrir honum tvær ær um daginn. Lagði hann þá niður veiðina í Kálfatjörn og hefir síðan einginn tekið hana upp aptur.

Að lyktum skal hèr getið galdramála. Þau voru alltíð á Íslandi á miðöldunum og alt fram undir 1700, eins og í öðrum löndum, og bera „Árbækur" landsins þess víða vitni. Einkum voru það þó gandreiðir og galdramessur, sem hèr komu til greina. Hjá Ingólfsfjalli, sem er mikið fjall milli Ölfúss og Grafníngs, heitir á einum stað Valakirkja; þar er sagt að galdramessur hafi verið haldnar. Munnmæli Dana segja, að slíkar galdra-samkundur hafi verið haldnar í „Hækkenfeld" eða „Hekkelfjeld," þ. e. í. eldfjallinu Heklu. Sveinn lögmaður Sölvason (†1782) hefir skrifað skorinort um galdramál í riti því, sem hann kallaði „Jus criminale,"[1] enn þótt hann fullhermi, að aldrei hafi nein slík mál verið fyrir rètti frá byrjun átjándu aldar, og er það sómi fyrir Ísland í samanburði við önnur lönd, að frá því í lok seytjándu aldar eru galdra-ofsóknir

1. Prentað í Kh. 1776, sjá 28.—36. bls.

og hneyksi það, sem þeim var samfara, horfið úr rèttarvenju hèr. Árið 1685 var maður nokkur, Haldór Finnbogason að nafni, brendur fyrir galdur;[1] hinn síðasti dómur um galdrabrennu var kveðinn upp 1690, og var hinn dæmdi þá náðaður af kóngi fyrir milligaungu landfógeta og amtmanns.[2] En í öðrum löndum, og það þeim, sem talin eru einna bezt mentuð í heimi, hèldust ekki einúngis málasóknir um galdur, heldur brennudómar og galdrabrennur lángt fram á næstliðna öld.[3]

---

## 3. GREIN.

### EINSTAKIR GALDRAMENN.

Opt má svo að bera, jafnvel nú á dögum, að menn ætli, að einstakir menn, sem vel eru viti bornir, sèu galdramenn, þó þeir vilji ekki sjálfir vera kunnir að því; eins má og vel vera, að menn noti hyggilega trúna á galdra-kunnáttu annara sèr til hags, þótt þeir, sem noti, sèu sjálfir fjarri því, að trúa slíku. Aptur á hinn bóginn lætur sá, sem orð hefir á sèr fyrir galdra, sèr það vel líka, og leitast, jafnvel af ásettu, við að efla þann orðróm, svo þess meir beri á sèr. Þesskonar maður var Silúnga-Björn, sem fyrri er getið að hafi geingið í hóla, og sagt er það, að hann hafi framið margs konar galdur annan, og þókzt mikill af. Einu sinni var hann staddur í Haukadal, þegar óttalegt veður rak á; þá sagði hann: „Nú hefir einhver farið leiðina sína.“ Þetta var orð og að sönnu; því einmitt á sama tíma hafði maður heingt sig í Laxárdal. Öðru máli var að skipta um Torfa í Klúkum í Eyafirði, sem fyrri er nefndur.[4] Á honum lèk mikið orð fyrir galdra; en hann skeytti því að eingu, og lèt hvern sjálfráðan orða sinna um það, og þóktist aldrei vera galdramaður. Einu sinni bar svo undir, að stolið var kartöplum frá Pètri prófasti á Víðivöllum, föður Dr. Pèturs professors í Reykjavík.[5] Einn vinnumaður sèra Pèturs var grunaður um kartöplu-tökuna; þó þóktu vanta nægar ástæður, til að þýfga hann um stuldinn. Húsbóndi hans skipaði honum, til þess að koma honum í beyglur, að fara til Torfa, og biðja hann að komast eptir, hver stolið hefði kartöplunum. En vinnumaðurinn færðist undan því fyrst í stað, og þegar

---

1. Espolins Árbækur, VIII. 10. bls.
2. S. st. 27. og 31. bls.; sbr. Finns Hist. eccl. Isl. III, 520. bls.
3. Eptir Dr. Maurers Isl. Volkss. 107. bls.
4. Sjá um sagnaranda á undan í III. flokks 2. grein 435. bls.
5. Hann hefir sagt Dr. Maurer frá þessari sögu, sjá Isl. Volkss. 108. bls. sem inngángur þessi er tekinn eptir.

húsbóndi hans hèlt fast á því, að hann skyldi gjöra, eins og honum væri sagt, gekkst maðurinn við öllu saman, eptir nokkrar vífileingjur, einúngis af því hann óttaðist kunnáttu Torfa. — Enn er það, að stundum er galdramönnum tregnúið til að neyta kunnáttu sinnar, fyrr en leingi hefir verið á þá skorað, sem þetta dæmi Latínu-Bjarna sýnir, þótt hann hafi stundum verið talinn allfús til hryðjuverkanna. Einhvern tíma var Bjarni staddur á bæ einum; las hann þar söguna af Karlamagnúsi og köppum hans, fólki til skemtunar. Þá sögðu tvær vinnukonur á bænum, að gaman mundi vera að sjá þá, og það sæi á, að þeir vissu ekki mikið, sem núna þæktust vera kunnáttumenn, að þeir skyldu ekki geta sýnt þá. Bjarni lèt, sem hann heyrði þetta ekki. En nokkru seinna bregður svo við, að báðar griðkonur þessar þurfa út um kvöldið erinda sinna. Þegar þær ætla inn aptur, stendur Bjarni frammi í dyrum og segir: „Lítið þið ofan á túnhalann, stúlkur." Þær gjörðu svo, og sáu þar þá alla kappa Karlamagnúsar í skæðri orrustu; færðist svo leikurinn nær með ógurlegum höggum og brestum og víghljóðum. Við þetta urðu griðkonur felmtsfullar, og hlupu í fáng Bjarna En hann neyddi þær til að vera úti um stund, þángað til af þeim var dregið gamanið til fulls. Eptir það eggjuðu þær ekki Bjarna framar.[1]

Þessi dæmi, sem nú var getið, eru mjög úng; en miklu fleiri og meiri frásagnir fara af galdramönnum á fyrri öldum, sem frægir eru orðnir fyrir þekkíngu sína og kynngikrapta; slíkum frásögum fylgja flestar þær galdrabrellur, sem menn kunna enn frá að segja, einmitt af því sagnirnar sjálfar liggja svo fjarri nálæga tímanum. Hèr skúlu nú koma þær frásagnir settar eptir tímaröð, að svo miklu leyti sem varð, sem eg hefi náð í um nokkra galdramenn, þó sumir þeirra sèu áður nefndir við ýms atriði. En ekki er það sízt í þessari grein, að eg verð að láta mèr lynda að tjalda því, sem til er, þó í vanti, eg veit ekki hvað margar sögur, og sumar sögur sè ekki svo gjör sagðar sem vera ætti.

**Frá Sæmundi fróða.** (1056—1133.) I. Sögur úr safni Árna Magnússonar, eptir sögnum Mag. Björns († 1710), Magnúsar kapteins Arasonar († 1728) og Halldórs Þorbergssonar á Seilu († 1711). Sæmundur hinn fróði sigldi og fór í Svartaskóla. Engan skólameistara var að sjá í Svartaskóla, en alt hvað lærisveinar vildu vita að kveldi, þar um vóru bækur til staðar að morgni, eða það var skrifað á vegginn. Yfir dyrum Svartaskóla innantil var þetta ritað: „inn mátt þú ganga, töpuð er sálin." Þau voru lög í skólanum, að hver sem þángað kæmi, skyldi læra þar í þrjú ár. Allir, sem á einu ári út fóru, skyldu allir fara út á sama degi og tíma að jafnlengd, og skyldi fjandinn ætíð hafa þann sem seinast gekk út og þar fyrir var jafnan hlutast

1. Sagan um Latínu-Bjarna er tekin eptir handriti sèra Skúla Gíslasonar, eptir frásögn Páls Ólafssonar proventukarls á Brúsastöðum í Vatnsdal nyrðra, og álítur sèra Skúli hann minnugastan, áreiðanlegastan og bestan sögumann sinn.

um hver seinastur skyldi ganga. Sæmundi fèll til optar en einu sinni að ganga aptast og var því lengur en lög gjörðu ráð fyrir. En svo bar til, að Jón biskup fór til Róm og kom þar nærri; hann frètti að Sæmundur væri í Svartaskóla með slíku móti, sem sagt er, því fór hann þar inn og talaði við Sæmund, og bauð honum, að hjálpa honum út ef hann vildi síðan fara til Íslands og halda vel kristni sína. Undir þessa kosti gekk Sæmundur. Jón biskup lèt Sæmund ganga á undan sèr, en hafði kápu sína lausa á öxlunum; en þegar Jón gekk út, kom hönd upp úr gólfinu og greip í kápuna, og tók til sín, en Jón gekk út. Síðan kom fjandinn til Sæmundar og gjörði samníng við hann svo látandi, að ef Sæmundur gæti falizt fyrir sèr í 3 nætur, skyldi hann vera frí, en annars skyldi hann vera sín eign. Þá fyrstu nótt faldist Sæmundur undir lækjarbakka einum í vatni og moldu til samans, þá hèlt kölski, að Sæmundur hefði drekt sèr í vatni; aðra faldist hann í sjó í skiphrói því, er flaut fyrir landi, þá hèlt kölski, að vatnið mundi hafa spýtt Sæmundi fram í sjó. Þriðju nótt lèt Sæmundur grafa sig í vígðri mold, þá hèlt kölski að Sæmund mundi hafa rekið á land dauðan og vera grafinn í einhverjum kirkjugarði, en í þeim þorði hann ekki að leita. Þetta var alt af forlagi Jóns biskups. Aðrir segja, að Sæmundur slyppi þannig. Skólabræður hans keyptu að honum að ganga síðast; hann lèt nú sauma sauðarbóg neðan í kápu sína; og er hann gekk eptir tröppunum, sem lágu út úr skóladyrunum, var gripið í kápuna um bóginn, lèt hann þá alt laust og tók til fótanna, og sagði: „hann hèlt, en eg slapp," og fór svo til fèlaga sinna.

Sæmundur fróði átti dóttur eina. Einhverju sinni þá Sæmundur var ei heima, kom kölski til hennar, og sagðist eiga að taka hana. Stúlkan var þá stödd í lopti nokkuru að reiða upp sæng föður síns; hún sagðist skyldi fara með honum, ef hann væri búinn að telja allar fjaðrirnar í sænginni hans föður síns fyrr en hann kæmi heim, en annars ekki. Kölski játaði því, og varð nú heldur hraðhendur; en í því bili, sem hann hèlt á þeim seinustu í hnefanum, kom Sæmundur upp í stigann; þá þorði kölski ekki við að standa, og slapp hann því af stúlkunni í það sinni.

Griðkona ein í Odda, sem var vön að bera heim vatn, var einn vetur, þá snjór og lausamjöll var mikil, þreytt orðin að kljúfa snjóinn með vatnsföturnar. Einu sinni þegar hún sat við brunninn og álasaði húsbændum sínum fyrir ofharða verka ætlun, kom til hennar maður einn, sá bauð henni að bera heim fyrir hana vatnið, ef hún vildi gefa sjálfa sig í kaupið; því játaði hún. Maðurinn tók þá til að bera vatnið heldur ótt og títt. Sæmundur kom út, og sá hvað um var; hann sagði til mannsins, að hann kæmizt aldrei með vatnsburðinn, því flátin væri of lítil, og fèkk honum hrip tvö heldur stór og tók miðrimina úr hverjum botni. Karli varð seint um vatnsburðinn, því hripin vóru jafnan tóm þegar hann kom heim til bæjarins frá brunninum, og misti hann því griðkonuna.

Sæmundur fróði átti fátæka konu, hún gjörði sig opt stóra. Sæmundur geymdi larfa þá, er hún hafði í verið, áður í hans vald kom og sýndi henni þá alltíð, þegar honum þótti hún hafa of mikið við. Svo sefaðist hún.

Stúlka ein fátæk fór um Rangárvelli á vonarvöl. Eitt sinn er fólk óskaði sèr eins og annars í gamni, óskaði hún sèr að eiga sjö syni við Sæmundi hinum fróða:

„Ósk vilda eg eiga mèr svo góða
að eg ætti synina sjö
við Sæmundi hinum fróða“.

og þetta barst Sæmundi til eyrna, tók hann svo þessa konu til sín. Hún varð síðan svo dramblát, að hún þvoði sèr jafnlega í mjólk, og þegar hann einu sinni komst að því, spurði hann hana hvað hún hefði drukkið áður hún hefði komið til hans. Hún svaraði sem satt var, vatn og þat þeygi hreint. Kannaðist hún þá við sig, og lèt af þessu stærilæti.

Sæmundur prestur fróði lofaði norn nokkuri á Saxlandi eiginorði, en þá hann fór til Íslands og ílengdist þar, sá hún sig af honum að vera gabbaða, varð hún nú úrkula vonar orðin um hans apturkomu; að nokkrum árum liðnum sendi honum gullroðin kistil til að hefna hans óhaldinyrða með þeim fyrirmælum að enginn utan Sæmundur mætti upp lúka kistlinum. Skipverjar sem sendíngu þessa höfðu innanborðs, urðu öllum vonum framar hraðfara og lètu í hafnir sunnanvert á Íslandi; sendu þeir mann gagngjört til Oddu með sagðan kistil. Sæmundur var staddur í kirkju þá maðurinn kom, og með því honum kom ei sendíngin óvart tók hann manninum vinsamlega, og bað hann leggja kistilinn, sem hann hefði meðferðis, upp á altarið, og svo gjörði sendimaður, og þar lá kistilinn þá nótt. Næsta dag þar eptir reið Sæmundur með kistilinn undir hendi sèr efst upp á Heklu, og kastaði honum þar ofan í gjá nokkra og þaðan tjáist, að Heklueldur hafi sinn uppruna.

Sæmundur skipaði kölska, að höggva upp skóg á Landskógi, og færa hann síðan upp höggvinn heim til Odda; hann gjörði svo. En í þeim hans heimflutníngi lá beinsta leið til Odda þar sem heitir Varmidalur; eru í þeim dal enn nú merki til, sem á þeim flutníngi skyldu orðið hafa, sem eru grafir eða lautir í jörðina, þar hann dró viðinn af ofurþúnga skógarins byrða, og nú nafnkendar Varmadalsgrafir. Þau merki eru sönn og sjáanleg alt til þessa dags.

Sæmundur skipaði Skolla, að gjöra brú yfir Rangá undir Bergvað, því optsinnis var örðugt yfir ána að komast einkum þeim er til Odda skyldu tíðir sækja. Skolli skildi sèr til launa þá þrjá sem á fyrsta sunnudegi gengi yfir brúna fyrstir. Þeir skyldu hans eign vera. Sæmundur játaði því. Að brúnni fullgjörðri lèt Sæmundur bera 3 hvelpa að brúnni og kasta þeim út á hana, og mátti brúarsmiðurinn nægjast með það, og fèkk eigi annað til launa.

Skip kom af hafi fyrir sunnan land, og braut við Rafnstóptir: lètust menn allir. Skipið var fært heim til Odda, og haugsett með öllum sínum skipverjum í hól einum[1] fyrir ofan bæinn í Odda; var mælt að hèr mundi mikið fè fólgið vera. Síðar í tíð Sæmundar fróða tóku menn sig til að grafa í hólinn og forvitnast til, hver sannindi hèr mundi á vera, að Sæmundi óvörum og óvitanda. Þeir grofu svo og komu að viðum og rufu til, sáu og vegsummerki, að svo mundi vera, sem sagt hafði verið, náðu svo til einnar kistu og í hríng þann er í kistulokinu var; varð kistan þúng fyrir og eigi hræranleg; slitnaði svo úr henni hríngurinn. Í því varð þeim litið við og heim til bæjarins Odda; sýndist þeim allur bærinn í einu báli; hríngdi þá Sæmundur klukkum, en þeir hættu verkinu og fylltu gröfina. Er sá hríngur hinn sami, að sögn, í kirkjuhurðinni að Odda, gjörður inst af járni, en utan yfir af koparmessíng og malmblendíngi, og skal sá hríngur stærstur allra í kirkjuhurðum á Íslandi.

Það hafði Sæmundur prestur heyrt í fornum spám, að sèr væri sálufèlag ætlað með fjósamanni á Hólum; gjörði þar fyrir ferð sína til Hóla norður, leyndist í fjósið þá nautamaður var að taka hey, gekk bás frá bás, og skar helsi af hverju nauti, gengu þau svo laus úr básunum. Svo kom nautamaður fram, og sá hvað um var, bað guð hjálpa sèr og mælti eigi stærri orð, bætti svo niður nautunum og gekk frá. Aptur gekk Sæmundur í básana, skar öll bönd sundur og slepti öllu lausu. Nautamaður kom að, og sá enn nú hvað um var að vera, bað guð því meir sèr til hjálpar sem meira á gengi; þá gaf Sæmundur sig í ljós og gladdist af sálufèlaginu.[2]

Svo bar til í Odda, að fjósamaður gjörði óguðlega samníng við djöfulinn, að hann mætti hengja sig á tilteknum tíma; hvað á móti kom, vita menn ekki. Sæmund grunaði um þetta, leitaði fastlega eptir hjá fjósamanni, og fèkk um síðar að vita, hversu ástatt var; fèkk svo fjósamanni leggband sitt, og bauð honum, að fá það kaupunaut sínum, til að brúka fyrir snöru. Fjósamaður kom svo í ákveðinn stað og tíma og fèkk Skolla leggbandið. Hann leit á, og þóttist þekkja, að Sæmundar væri, kvað sèr ofbjóða, kastaði svo bandinu og slapp af kaupinu.

Eitt sinn var Sæmundur fróði á siglíngu híngað til lands með fèlagsmanni sínum er sagt er að Jón hafi heitið. Þeir vóru komnir að landi eður á land, þar var fyrir þeim ein kýr kálffull; þeim kom til tals hvort heldur í kúnni vera mundi kvígu eður bolakálfur, kom þeim báðum ásamt að

1. Hóllinn heitir enn nú Knorarhóll, segir Árni Magnússon.

2. Einhverr hafði sagt Sæmundi, að hann skyldi eiga sálufèlag með fjósamanni á Hólum; þenna vildi Sæmundur sjá, fór til Hóla og gjörði sig að titlingi og sat á fjóshaugnum. Þar kom Jón Ögmundarson biskup og sá fuglinn, kvað hann undarleg augu hafa og öðrum ólík, gat til að vera mundi Sæmundur fróði. Fjósamaður blótaði fyrst mjög, en las síðan fræði sín. (Önnur sögn.)

kvíga væri, töluðu síðan um lit hennar og kom þeim líka ásamt að svört væri; sagði Jón að hún hefði hvítan blett á milli augnanna. Það sagði Sæmundur eigi vera, heldur væri það hvít hár sem kálfurinn hefði í rófunni og lægi þau á millum augna kálfsins. Þetta reyndist svo sem Sæmundur sagði þá kýrin bar kálfinum, að hann hafði hvít hár í rófunni og lá á millum augnanna.

Einn laugardag skipaði Sæmundur kölska að moka fjós í Odda, en við það er sagt að andinn hafi reiðzt. Árdegis á sunnudaginn vildi Sæmundur til tíða ganga, var þá allur fjóshaugurinn kominn heim á kirkju stèttina — fjósið er frá kirkjunni, nú sem stendur, halft skeið —. Sæmundur prestur kallaði á andann og skipaði honum í reiði, að sleikja burt alla heimfærða myki. Þótti presti hann seinn í verkinu, og steytti við honum hendi sinni, rak kölski þá niður hnefa sinn á einn steininn, og sjást enn merki til á þeim steini, sem nú er fyrir stafstein í austur bæjardyrum í Odda og nafnkent er hnúfafar Skolla. En svo lauk, að Skolli lèt hauginn hverfa, og að síðustu laust hann túngu sinni í steininn og er enn með sama móti augsýnilega í stèttar steininum fyrir austur bæjardyruuum í Odda þess merki fimm fíngra djúpt.[1]

Sæmundur hafði heyrt af góðum fèlagsmanni sínum, er Jón hèt, að hann vildi hafa sín ráð til að ná einni bók er þeir báðir vissu fyrrum niður grafna vera í Skálholtskirkjugarði með eigandanum; hafði Jón látið lagskonu sína vita þetta. Sæmundur lagði honum ráðin og bað Jón eigi af bregða. Kemur svo Jón til Skálholts, gengur í kirkju, læsir dyrum og ætlar engan mann nálægan, kveður 3 vísur. Við það sama opnast grafir í garðinum. Kveður Jón enn vísu, gengu þá allir úr gröfunum og inn í kirkju; fyrir þeim öllum gekk maður gamall og gráhærður og settist á forstólinn, hafandi bók í hendi sèr. Jón kvað enn vísu í þriðja sinn. Þá opnaðist bókin. En í því sama bar svo við að frilla Jóns gaf af sèr hljóð mikið, hafði hún, sem áður er sagt, vitað af þessu hans áformi og fyrirtekt, og af forvitni sinni gefið sig upp í kirkjuna Jóni óvitandi, til að vita, hvernig þetta mundi til ganga, og leynt sèr í kórnum; varð hún nú fyrir áhlaupum drauganna, svo hún lærbrotnaði, og hljóðaði mjög, sem sagt er. Við þetta hljóð varð mikið hark í kirkjunni, hljóp þá Jón í klukkustrenginn og hríngdi. Þar með hurfu burt allir þeir sem inn vóru komnir, með miklum gný, og fóru aptur í grafir sínar. En Jón misti bókarinnar.

Í Odda er vatnsból hið örðugasta, hversvegna eldakona þar, að sagt er, contraheraði við djöfulinn, að hann skyldi sækja vatnið fyrir hana og

1. Önnur sögn: Sæmundur hafði skipað Skolla að moka fjóshauginn, hann setti hauginn fyrir kirkjudyrnar (fyrir bæjardyrunum, nokru norðar, liggur þessi steinn hálfur, 1708). Svo neiddi Sæmundur hann til að taka hauginn burt og sleikja helluna, sem haugurinn á lá að síðustu, og skulu túngufórin en nú vera í helluna, sem liggur fyrir dyrunum (það er ekki líkt túngufari, er þurða í steininn. A. M.)

þar fyrir eignast það sem hún bæri undir belti sèr, því hún var ólètt. þetta fèkk Sæmundur af eldakonu treglega að vita og skipaði svo kaupunaut hennar að bera vatnið heim í tórfhripum. þar við ærðist hann mjög, fór með hripin suður að Rangá, hèr nær 4 skeiðarúm, og kom vatninu í þeim á miðja leið. Annað sinn nokkru lengra; rèð þá enn til í þriðja sinn, og komst þá undir smiðju hólinn; þá er svo sagt, að Sæmundur hafi hríngt klukkunum, brá vatnsberanum svo við, að hann fór þar niður með öllu, kom þar þá upp brunnur, sem síðan er kallaður Skollabrunnur. Í þeim sama brunni druknaði barn á dögum sèra Stephans í Odda; var hann því með moldu til luktur, sem enn nú sjást vegsummerki.

Sæmundur og fjandi höfðu felínga leik. Sæmundur faldi sig í prèdikunarstól, þángað þorði ei fjandi að leita; fjandi faldi sig undir torfu í forinni, Sæmundur trað á torfuna svo fjandi varð sig upp að gefa.

Sæmundur reið Paura í selslíki yfir hafið frá útlöndum, en sem hann kom í fjörumál Íslands, sló hann Paura með saltara í höfuðið; söktist Pauri en Sæmundur óð til lands.

Sólarljóð. (Með óþektri hönd frá enda 17. aldar.) Sæmundur andaðist 1133, en með hverjum atburðum höfum vèr eigi heyrt, þó segja menn, að hann þrídagaður hafi úr líkrekkjuuni risið og þá kveðið þá drápu, er hans ljóða-Eddu er vön að fylgja og kallast Sólarljóð. Hann er grafinn í Sancti Nicholai kirkju að Odda á Rangárvöllum norðvestur frá kirkjudyrum utarlega. Steinn er yfir leiðinu af óhöggnu grjóti, nú mjög jarðsiginn, á honum hefir leugi sú trú verið (þó nú firnist) að veikir menn hafa á honum vakað á náttarþeli og svo burtu gengið horfnir krankleika síns, einkum þeir sem heimakomu hafa haft. Sæmundur átti 7 börn hverra allra nafnkendastur er Loptur, hann var prestur að vígslum og bjó í Næfraholti, hver bær þá var í miðri sveit og stendur við rætur fjallsins Heklu. Í þá daga er sagt að verið hafi 300 hurðir á járnum í Næfraholti.[1]

II. Sögur nú lifandi manna. Svarti-skóli. (Eptir vanalegri sögn í Borgarfirði.) Sá skóli var í fyrndinni til út í heimi, sem hèt Svarti-skóli. þar lærðu menn galdur og ýmsan fornan fróðleik. Svo var til háttað í skóla þessum, að hann var í jarðhúsi rammgjörvu mjög; á því var einginn gluggi, og var þar því alt af niðamyrkur inni. Einginn var þar kennari, og námu menn alt af bókum, sem voru skrifaðar með eldrauðu letri, sem lesa mátti í myrkrinu. Aldrei máttu þeir, sem þar lærðu, koma undir bert lopt, eða sjá dagsljósið, á meðan þeir voru þar, en það voru 3 eða 7 vetur, sem þeir urðu að vera í skólanum til að verða fullnuma. Hönd ein grá

1. Arni Magnússon segir um legstein Sæmundar, að hann sè ekki annað en stór hnöllungssteinn. Árni nefnir og Glæsi lestrarherbergi Sæmundar í Odda.

og loðin kom á hverjum degi inn um vegginn, og rètti skólapiltunum mat. En það áskildi sá sèr, sem skólann hèlt, að hann skyldi eiga þann, sem síðastur gekk út af þeim, sem burtu fóru úr skólanum á ári hverju. En af því, að allir vissu, að kölski hèlt skólann, vildi hver, sem gat, forða sèr frá, að gánga seinastur út úr honum.

Einn sinni voru þrír Íslendíngar í Svartaskóla: Sæmundur fróði, Kálfur Árnason og Hálfdán Eldjarnsson, eða Einarsson, sem seinna varð prestur að Felli í Slèttuhlíð. Þeir áttu allir að fara burtu í einu, og bauðst þá Sæmundur til að gánga seinastur út. Urðu hinir því fegnir. Sæmundur varpaði þá yfir sig kápu stórri, og hafði ermarnar lausar, og eingan hnapp hneptan. En rið var upp að gánga úr skólahúsinu. Þegar nú Sæmundur kemur á riðið, þrífur kölski í kápu hans og segir: „Þig á eg.“ Varpaði þá Sæmundur af sèr kápunni, og hljóp út. Hèlt kölski kápunni einni eptir. En járuhurðin rumdi á hjörunum, og skall svo fast aptur á hæla Sæmundi, að hælbeinin særðust. Þá sagði hann: „Skall þar hurð nærri hælum,“ og er það síðan orðið að máltæki. Þannig komst Sæmundur fróði burtu úr Svarta-skóla með fèlögum sínum.

Aðrir segja, að þegar Sæmundur fróði gekk upp riðið, og kom út í dyrnar á Svarta-skóla, þá skein sólin móti honum, og bar skugga hans á vegginn. Þegar nú kölski ætlaði að taka Sæmund, þá sagði hann: „Eg er ekki seinastur. Sèrðu ekki þann, sem á eptir mèr er?“ Kölski þreif þá til skuggans, sem hann hèlt manu vera; en Sæmundur slapp út, og skall hurðin á hæla honum. En upp frá þeirri stundu var Sæmundur jafnan skuggalaus; því kölski slepti aldrei skugga hans aptur.[1]

Athugasemd. Ímyndunarafl þjóðarinnar hefir stokkið hèr yfir hina miklu glamu, sem er í tímanum milli þeirra Sæmundar fróða og Hálfdáns í Felli, þar sem Sæmundur deyr eptir áðursögðu (sjá neðanmálsgreinina við Vita Sæmundar) 1133, en Hálfdán, sem síðan mun sagt verða, um 1598, til þess að geta gjört þá að skólabræðrum í Svarta-skóla, af því báðir hafa þókt manna fjölfróðastir, hver á sínum tíma.

Lítil undirvísan um lærdóm Sæmundar fróða. (Vestan af Snæfellsnesi.) Þeir í Þýzkalandi, sem vísir eru, eru ávalt vanir að hafa á sèr múskat og hvíta-lauk; það láta þeir lifa við svarta-brauð, og bera það á sèr dag og nótt. En það á að vera óuppskorið múskat heilt; því það verndar mann við beinbroti. Þegar þetta alt saman er á sèr borið, hefir það þá náttúru, að það ver galdri og beinbrotum, nema áhrínsorð valdi; því við þeim veit eg einga lækníng eða meðal. Þetta eru Þýzkir vanir að bera á sèr í Júpíters-skóla, er vèr köllum Svarta-skóla. Þetta

1. Sbr. Dr. Maurers Isländische Volkssagen. Leipzig. 1860. 120—121. bls., og Islenzk æfintýri. Reykjavík, 1852. 33.—35. bls.

er og haft í Finnmörk; því þegar Finnar vilja aðhafast eitthvað mikið með galdri og seið, hafa þeir þá venju, að þeir gánga á tilteknum tíma á nýum túnglsaldri í hríng, 7, 9, 11 eða 13 saman, og biðjast þar fyrir, eptir því sem þeirra er háttur. Kemur þá kölski þar til þeirra, og tekur einn af þeim. En það er trú þeirra, að sá, sem ber á sèr fyrnefnt meðal, hverfi ei. En er einn þeirra er horfinn, þykjast hinir, sem eptir eru, þegar bænheyrðir. Ekki hafa Finnar við þessa aðferð, nema þeim sè stærsta nauðsyn á, og þegar þeim dugir ekkert annað.

Item skyldi einginn maður gánga í Jovis-skóla, nema hann bæri þetta á sèr. Því hafa þeir það 4 eða 6, sem þángað fara, en ei hinn 5 eða 7, og er þeim því hætt að verða þar eptir. Eigi er þeim hvað sízt hætt, er situr á móti dyrunum. Eigi er þar ávalt ílt að vera, heldur má þar hver læra, það er hann vill, bæði andlegt og veraldlegt, gott og ílt. Eigi er þeim hent að fara þángað, sem ekkert hafa áður lært. Eigi er heldur hlaupið þaðan, er hver vill; því árið verður maður að vera þar út, og viti hann þá sömu stund, er hann inn gekk, þá má hann út gánga, en ekki endrarnær, til þess líður annað árið og hið þriðja. Þángað gánga flestir um dægramót, og á sá að gánga fyrstur út, sem fyrstur gekk inn. En hlutfalli er fyrst varpað um inngaungu þeirra; því sá, er fyrstur geingur inn, eða síðastur út, þeim er hætt að hverfa. Eigi er glámskygnum þar hent; því eigi er þar bjartara en að eins lesljóst um daga. Kvöld og nætur, ef menn vaka, loga þar vaxkerti, og er þó dímt. Matur er þar veltilbúinn tvisvar á dag og einu sinni á nóttu, ef menn vaka, og drykkur nægur, svo og hafa þeir þar sængur góðar á mann, svo ekki liggur nema einn í rúmi, og alt hafa þeir, er þeir þarfnast. Bækur hafa þeir að lesa í, er þeir æskja, en ekkert má þaðan burtu bera, nema það, sem þeir skrifa sjálfir upp, en hvorki fá þeir blek nè penna, en flesta hluti aðra fá þeir að óskum. Það ber og við, ef þeir kaupa einhvern hlut, hversu lítilsverður sem hann er, að þeir verða að borga hann hundraðfalt, og er þá hluturinn lagður á borðið, er fullvirði þykir komið. Flestir læra þar arithmeticam og stundatal. Tímaglas má þar hafa, en ekki sigurverk eða stundaklukku. Allir fara þángað vopnlausir. Þar eru luktar dyr, meðan aðrir eru inni. Þar eru ekki fleiri í senn en 5, 7, 9 eða 11. Skólinn er í norðurskógi nokkrum, og einginn gluggi á, svo að utan sjáist, og horfa dyr í norður; það hús stendur í jörð, og er þriggja daga leið frá höfuðborginni.

Það er sagt um Sæmund fróða, er þángað gekk með stallbræðrum sínum, að hann hafi orðið þar eptir og annar með honum, er Christophor hèt. En er þeir voru vellærðir, fóru þeir út, og átti þá Sæmundur að gánga á eptir, og segja menn, að hann hafi lagt yfirhöfn fulla af fötum á bak sèr. En þegar þeir geingu út, var gripið í Sæmund; lèt hann þá lausa yfirhöfnina, og komst svo út, en þá var morgun. Sæmundur tók þá

skó þeirra fèlaga og fylti með vatn, og báru þeir þá svo yfir höfði sèr allan daginn fyrir eptirför. Þá hèlt skólalýður, að þeir hefðu í vatni drukknað. Annan dag fyltu þeir skó sína með sjó, og fóru svo sem fyrr. Hèlt þá skólalýður, að vatnið hefði fleytt þeim fram í sjó. Þriðja daginn lèt Sæmundur fylla skó þeirra með mold og gras yfir, og báru þá þannig á höfði sèr. Þá kvað skólalýður þá vera á land rekna og jarðaða. Var þá út sèð um alla eptirför, þegar þessir þrír dagar voru liðnir. Eigi mundu allir hafa svo af komizt, þó Sæmundur úr þrautum kæmist.

Athugasemd. Sbr. niðurlag þessarar frásagnar og hina næstu frásögn á eptir: Sæmundur fer úr Svarta-skóla, við „Biskupa-sögur," 1. bindi. Kh. 1858, 227.—229. bls, og Dr. Maurers Isl. Volkss. 119.—120. bls.

Sæmundur fer úr Svarta-skóla. (Austan úr Múlasýslu.) Það gjörðist í utanferð Sæmundar, er hann fór í Svarta-skóla, að hann gleymdi eðli sínu, ætt og uppruna af því, sem fyrir hann bar; hann mundi og ekki nafn sitt, og var kallaður Búft í skólanum. Eina nótt, er Sæmundur svaf í hvílu sinni, dreymdi hann Boga Einarsson koma til sín, svo mælandi: „Íll er athöfn þín, Sæmundur; þú hefir geingið í þenna skóla, gleymt guði þínum, yfirgefið sjálfan þig og glatað þínu skírnarnafni, og ef þú hugsar á eilífa velferð þína, er þèr ráð aptur að snúa." „Því fæ eg ei orkað," segir Sæmundur. „Það var eigi mikilmannlegt fyrir þig," segir Bogi, „að gánga í þann skóla, sem þú gazt eigi losað þig við, er þú vildir, og finnast mun maður sá, er getur komið þèr heim aptur, ef þú vilt fara." „Eigi fæst eg mikið um það," segir Sæmundur; „því allir erum vèr börn hjá Boga." „Þá skaltu mín ráð hafa," segir Bogi. „Þegar þú vilt út gánga, skaltu hafa lausa skikkjuna á herðum þèr; gripið mun verða til þín, er þú ferð út, og skaltu þá láta skikkjuna lausa, og svo muntu út komast. Meistara einn þarftu hèr mest að óttast, þann er ræður skólanum; hann mun sakna þín. En þegar þú ert til ferðar kominn, skaltu taka skóinn af hægri fæti þèr, og fylla hann með blóði, og bera hann svo á höfðinu hinn fyrsta dag. En er kvöld er komið, mun meistarinn skoða stjörnurnar; því hann er fróður í himintúngla gángi, og mun hann þá grennslast eptir stjörnu þinni, mun hann þá þykjast sjá þig dauðan og myrtan með sverði; því blóðdrifinn baugur mun honum sýnast liggja um stjörnu þína. Um daga mun hann ekki grennslast eptir ferðum þínum; þar skal eg fyrir sjá. Hinn annan dag muntu byrja ferð þína; skaltu þá fylla skó þinn með vatni og salti; af því mun meistarinn ráða, nær hann skygnist að stjörnu þinni, að þú sèrt sjódauður; því sjávarhaf mun honum sýnast umflotið stjörnuna. Hinn þriðja daginn muntu enn byrja ferð þína; skaltu þá slá þèr æð, eða láta gjöra, þar sem samankemur hryggur og síða, og í skó þinn blæða láta; síðan skaltu mold taka og hræra saman við blóðið, og gott orð yfir mæla, svo vígð sè moldin, og bera svo skóinn á höfði þèr hinn þriðja dag.

En er meistarinn hnýsist eptir stjörnu þinni, mun honum sýnast jarðarhnöttur umhverfis hana, og mun hann af því ráða, að þú sèrt dáinn og greptaður, og mun honum mikill þykja sá atburður. En eptir á sèr hann, að þú ert heill og lífs. Mun hann þá undrast viturleik þinn, og þykjast þèr sjálfur kent hafa; muu hann þá árna þèr allra heilla, og ertu þá skilinn við þetta vandræði." Með þessum atburðum komst Sæmundur í burt úr Svarta-skóla, og heim til fósturjarðar sinnar.

Sæmundur fróði fær Oddann.[1] (Tekið eptir vanalegri sögn í Borgarfirði.) þegar þeir Sæmundur, Kálfur og Hálfdán komu úr Svarta-skóla, var Oddinn laus, og báðu þeir þá allir kónginn að veita sèr hann. Kóngurinn vissi dável við hverja hann átti, og segir, að sá þeirra skuli hafa Oddann, sem fljótastur verði að komast þángað. Fer þá Sæmundur undir eins og kallar á kölska, og segir: „Syntu nú með mig til Íslands, og ef þú kemur mèr þar á land án þess að væta kjóllafið mitt í sjónum, þá máttu eiga mig." Kölski gekk að þessu; brá sèr í selslíki og fór með Sæmund á bakinu. En á leiðinni var Sæmundur alt af að lesa í Saltaranum. Voru þeir eptir lítinn tíma komnir undir land á Íslandi. þá slær Sæmundur Saltaranum í hausinn á selnum, svo hann sökk, en Sæmundur fór í kaf og synti til lands. Með þessu varð kölski af kaupinu; en Sæmundur fèkk Oddann.

Athugasemd. Hèr hefir enn orðið heldur en ekki misgáníngur á tímauum, þar sem kóngur er látinn veita Oddann; en Ísland kom ekki undir Noregskóng fyrr eu nálega 200 árum síðar (1262).

Heyhirðíngin. (Austan úr Múlasýslu.) Einu sinni átti Sæmundur fróði mikið af þurri töðu undir, en rigníngalega leit út. Hann biður því alt heimafólk sitt, að reyna að ná heyinu saman undan rigníngunni. Kerlíng ein var hjá honum í Odda mjög gömul, er þórhildur hèt; prestur geingur til hennar, og biður hana að reyna að haltra út á túnið og raka þar dreifar. Hún segist skuli reyna það, tekur hrífu og bindur á hrífuskapts-endann hettu þá, sem hún var vön að hafa á höfðinu, og skjöktir svo út á túnið. Áður en hún fór, segir hún við Sæmund prest, að hann skuli vera í garðinum og taka á móti heyinu; því vinnumennirnir verði ekki svo leingi að binda og bera heim. Prestur segist skuli fylgja ráðum hennar í því, enda muni þá bezt fara. þegar kerlíngin kemur út á túnið, rekur hún hrífuendann undir hverja sátu, sem sætt var, og segir: „Upp í garð til Sæmundar." það varð að áhrínsorðum; því hver baggi, sem kerlíng rendi hrifuskaptinu undir með þessum ummælum, hvarf jafnóðum heim í garð. Sæmundur segir þá við kölska og ára hans, að nú sè þörf að duga að hlaða úr. Að skömmum tíma liðnum var alt heyið komið í garð undan rigníngunni. Á eptir sagði Sæmundur við kerlíngu: „Eitthvað kaut þú,

1. Sbr. Dr. Maurers Isl. Volkss. 121.—122. bls. Ísl. Æfintyri. 36. bls.

þórhildur mín.“ Hún segir: „það er nú lítið orðið og mest alt gleymt, sem eg kunni í úngdæmi mínu.“

Kölski gjörði sig svo lítinn, sem hann gat.[1] (Eptir sögn manna í Borgarfirði.) það var einu sinni, að sèra Sæmundur spurði kölska, hvað lítinn hann gæti gjört sig. Kölski sagðist geta gjört sig eins lítinn og mýflugu. Sæmundur tók þá borjárn, og boraði holu í stoð eina, og segir kölska að fara þar þá inn í. Kölski var ekki seinn að því; en Sæmundur rak tappa í holuna, og hvernig sem kölski emjaði og skrækti, og bað sèr vægðar, tók þó Sæmundur ekki tappann úr holunni, fyrr en hann hafði lofað að þjóna honum, og gjöra ætíð, hvað sem hann vildi. þetta var orsökin til þess, að Sæmundur gat altènd haft kölska til hvers, sem hann vildi.

Flugan.[2] (Eptir sögn Helga prentara Helgasonar.) Kölska var alt af gramt í geði við Sæmund prest fróða; því hann fann til þess, hversu hann fór einatt halloka fyrir honum. Hann reyndi því með öllum ráðum að hefna sín á honum, þó það vildi ekki heppnast. Einu sinni gjörði hann sig að dálítilli flugu, og lagðist undir skáninа á mjólkinni í askinum prestsins, og ætlaði sèr þannig að komast ofan í hann og drepa hann. En þegar Sæmundur tók askinn, sá hann undir eins fluguna, vafði skáninni utan um hana, og svo líknarbelg þar utan um, og lèt böggulinn út á altari. þar varð flugan að hýrast, á meðan Sæmundur embættaði í næsta skipti á eptir. þegar úti var, leysti prestur upp böggulinn, og slepti kölska burtu. Er það haft fyrir satt, að kölski hafi aldrei þókzt komast í verri kröggur, en að liggja á altarinu um embættið hjá Sæmundi presti.

Púkablístran.[3] (Eptir sögn Helga prentara Helgasonar.) Sæmundur fróði átti pípu eina, sem hafði þá náttúru, að þegar í hana var blásið, þá komu einn eða fleiri púkar til þess, sem í hana blès, og spurðu, hvað þeir ættu að gjöra. Einu sinni hafði Sæmundur skilið pípuna eptir í rúminu sínu, undir höfðalaginu, þar sem hann var ætíð vanur að hafa hana á næturnar. Um kvöldið sagði hann þjónustustúlkunni að búa um sig, eins og vant væri, en tók henni vara fyrir því, að ef hún fyndi nokkuð óvanalegt í rúminu, þá mætti hún ekki snerta það, heldur láta það vera kyrt á sínum stað. Stúlkan fór nú að búa um, og varð heldur en ekki forvitin, þegar hún sá pípuna. Hún tók hana óðar, skoðaði hana í krók og í kríng, og seinast blès hún í hana. Kom þá undir eins til hennar púki einn og spurði: „Hvað á eg að gjöra?“ Stúlkunni varð bilt við, en lèt þó ekki á því bera. Svo stóð á, að um daginn hafði verið slátrað tíu sauðum hjá

1. Sbr. Dr. Maurers Isl. Volkss. 124. bls. Ísl. æfintýri. 40.—41. bls.
2. Sbr. Dr. Maurers Isl. Volkss. 125. bls. Ísl. æfintýri. 41. bls.
3. Sbr. Dr. Maurers Isl. Volkss. 124.—125. bls. Ísl. æfintýri. 41.—43. bls.

Sæmundi, og lágu allar gærurnar úti. Stúlkan segir þá púkanum, að hann eigi að telja öll hárin á gærunum, og ef hann verði fljótari að því, en hún að búa um rúmið, þá megi hann eiga sig. Púkinn fór og keptist við að telja, og stúlkan hraðaði sèr að búa um. Þegar hún var búin, átti púkinn eptir að telja á einum skæklinum, og var hann þá af kaupinu. Sæmundur spurði síðan stúlkuna, hvort hún hefði fundið nokkuð í rúminu. Hún sagði frá öllu, eins og var, og líkaði Sæmundi vel ráðkænska hennar.

Sæmundur og kölski kveðast á.[1] (Eptir sögn prófasts Búa sál. Jónssonar á Prestsbakka.) Einu sinni hafði Sæmundur prestur veðjað við kölska um það, að hann skyldi aldrei koma með þann fyrri hluta úr vísu, hvorki á latínu nè íslenzku, sem hann gæti ekki sett botninn í. Sæmundur setti sjálfan sig í veð fyrir þessu, og með því að kölska lèk ærinn hugur á að ná í hann, þá sparaði hann ekki tilraunir um þetta. Einu sinni, þegar prestur var á setunum, kom kölski þar og segir:

„Nunc tibi deest gramen.“

Þá segir prestur:

„Digito tu terge foramen.“

Í öðru sinni var það, að kölski settist á kirkjubustina, og segir:

„Hæc domus est alta.“

Þá segir prestur:

„Si vis descendere, salta.“

Einu sinni var Sæmundur að drekka úr horni, þá kemur kölski þar að og segir:

„Nunc bibis ex cornu.“

Þá segir prestur:

„Vidisti, qvomodo fór nú?“

Kölski segir, að „fór nú,“ sè ekki latína, og þykist hafa unnið veðið. En Sæmundur kvað það ósatt. Þrættust þeir um það leingi; en svo lauk, að Sæmundur sannaði kölska það með lærdómi sínum, að „fór nú“ væri latína. „Reynum við þá einu sinni á íslenzku,“ segir kölski. „Það skal vera,“ segir Sæmundur, „og byrja þú.“ Þá segir kölski:

„Alt er runninn út í botn
áttúngur með hreina vatn.“

Þá segir prestur:

„Alt er vald hjá einum drottn',
á hans náð ei verður sjatn.“

Hafði þá kölski enn beðið ósigur fyrir Sæmundi, og er þess ekki getið, að þeir kvæðist á síðan.

1. Sbr. Dr. Maurers Isl. Volkss. 125.—126. bls. Isl. æfintýri. 43.—44. bls.

Skollagróf. (Almenn sögn eystra.) Það er sagt, að Sæmundur fróði hafi látið Skolla sækja skóg fyrir sig upp Rángárvelli og Land, inn í Búrfell, sem er á framanverðum Gnúpverja-afrètti. Dró kölski allan skóginn í einum bagga, eða slóða, heim í Odda. Kom þá allbreið laut undan draganum, og sèst hún sumstaðar á Landi, en eptir endilaungum Rángárvöllum er hún glögg, og er hún kölluð Skollagróf.

Kölski er í fjósi.[1] (Eptir vanalegri sögn í Borgarfirði.) Einu sinni vantaði Sæmund fróða fjósamann; tók hann þá kölska og lèt hann vera í fjósinu hjá sèr. Fór það alt vel, og leið svo fram á útmánuði, að kölski gjörði verk sitt með öllum sóma. En á meðan sèra Sæmundur var í stólnum á páskadaginn, bar kölski alla mykjuna í haug fyrir framan kirkjudyrnar, svo þegar prestur ætlaði út eptir messuna, þá komst hann það ekki. Sèr hann þá, hvað um er að vera, stefuir til sín kölska og lætur hann nauðugan viljugan bera burtu aptur alla mykjuna frá kirkjudyrunum og á sinn stað. Gekk sèra Sæmundur svo fast að honum, að hann lèt hann seinast sleikja upp leifarnar með túngunni. Sleikti þá kölski svo fast, að það kom laut í helluna fyrir framan kirkjudyrnar. Þessi hella er enn í dag í Odda, og nú þó ekki nema fjórðúngur hennar. Liggur hún nú fyrir framan bæjardyrnar, og sèr enn í hana lautina.

Púkinn og fjósamaðurinn.[2] (Eptir vanalegri sögn manna i Borgarfirði.) Einu sinni hèlt Sæmundur fróði fjósamann, sem honum þókti vera um of blótsamur, og fann hann opt að því við hann. Sagði hann fjósamanni, að kölski hefði blótsyrði og illan munnsöfnuð mannanna handa sèr og púkum sínum til viðurværis. „Þá skyldi eg aldrei tala neitt ljótt," segir fjósamaður, „ef eg vissi, að kölski misti við það viðurværi sitt." „Eg skal nú bráðum vita, hvort þèr er það alvara, eða ekki," segir Sæmundur. Lætur hann þá púka einn í fjósið. Fjósamanni var illa við þenna gest; því púkinn gjörði honum alt til meins og skapraunar, og átti þá fjósamaður bágt með að stilla sig um blótsyrði. Þó leið svo nokkur tími, að honum tókst það vel, og sá hann þá, að púkinn horaðist með hverju dægri. Þókti fjósamanni harðla vænt um, þegar hann sá það, og blótaði nú aldrei. Einn morgun, þegar hann kom út í fjósið, sèr hann, að alt er brotið o[illegible] bramlað, og kýrnar allar bundnar saman á hölunum, en þær voru m[illegible] Snýst þá fjósamaður að púkanum, sem lá í vesöld og volæði á b[illegible]rinu [illegible] sínum, og hellir yfir hann bræði sinni með óttalegum illyrðum og [illegible] blóti. En sèr til ángurs og skapraunar sá hann nú, [illegible] púkinn [illegible] og varð alt í einu svo feitur og pattaralegur, að við sjálft lá, a[illegible] [illegible]ndi hlaupa í spik. Stilti hann sig þá, fjósamaðurinn, og hætti a[illegible] Sá

1. Sbr. Dr. Maurers Isl. Volkss. 123.—124. bls. Isl. æfintýri. 39.—40.
2. Sbr. Dr. Maurers Isl. Volkss. 122. bls. Isl. æfintýri. 36.—38. bls.

hann nú, að Sæmundur prestur hafði satt að mæla, og hætti að blóta, og hefir aldrei talað ljótt orð síðan. Enda er sá púkinn fyrir laungu úr sögunni, sem átti að lifa á vondum munnsöfnuði hans. — Betur að þú og eg gætum breytt eptir dæmi fjósamannsins.

Kölski ber vatn í hripum.[1] (Eptir vanalegri sögn í Borgarfirði.) Svo bar til einn vetur, að maður kom til fjósakonu Sæmundar fróða, og bauð henni, að sækja alt vatn fyrir hana um veturinn, bera út mykjuna og fleira þess konar, ef hún vildi gefa sèr það í staðinn, sem hún bæri undir svuntu sinni. Fjósakonu þókti þetta boð gott; því hún hugsaði ekki eptir því, að hún var þúnguð, og mundi ekki til að hún hefði neitt fèmætt undir svuntunni. Hún gekk því að kaupunum. En þegar út á leið veturinn, smálukust upp augun á griðkunni, og þóktist hún þá sjá, hvar hún var að komin. Varð hún þá þögul og fáskiptin, og eins og utan við sig. Sæmundur tók eptir því, tók hana tali og gekk á hana um orsökina til fálætis þess, sem á hana væri komið. Í fyrstunni vildi hún ekki segja honum það, en að síðustu komst hún ekki undan og sagði frá öllu greinilega og rètt um kaup sitt við manninn. Sæmundur lèt hana þá fyrst vita, að sèr hefði raunar ekki verið dulið ráðlag hennar, enda þó hann hefði ekki skipt sèr af því fyrri. „Vertu ókvíðin,“ segir Sæmundur, „eg skal kenna þèr ráð til þess, að láta kölska verða af kaupinu. Þú skalt á morgun biðja hann að sækja vatnið í hripum, og gánga hjá sáluhliði, annars sè hann af kaupinu.“ Fjósakonan gjörir nú alt, eins og Sæmundur hafði lagt fyrir hana. Kölski fer nú með hripin og rambar eptir vatninu. En þegar hann kemur að sáluhliði, hríngir Sæmundur klukkunum, og fór þá alt vatnið niður úr hripunum. Kölski reyndi til þrisvar sinnum, en það fór alt af á sömu leið. Snaraði hann þá frá sèr hripunum í bræði, og hvarf burtu. Fjósakonan ól síðan barn sitt, og vitjaði kölski þess aldrei. Þar á móti hugsaði hann Sæmundi presti gott til glóðarinnar; því hann þóktist eiga honum fyrir grátt að gjalda.

Kaup kölska við vefjarkonuna. (Austan úr Múlasýslu.) Einu sinni var vinnukona í Odda hjá Sæmundi fróða, og óf hún optast alt, sem þar var ofið. Einu sinni, sem hún var að vefa, kemur til hennar maður, og fer að tala við hana, og spyrja hana, hvort það sè ekki heldur slæm vist í Odda. Hún segir, að þar sè ekki svo slæm vist, nema einstöku sinnum sè hel[illegible] ungt um mat, vegna þess að svo mikið gángi í gesti og gáng[illegible]rtu þá ekki svaung stundum?“ segir maðurinn. „Ekki er það [illegible]ði,“ segir hún. „Heldurðu, þú gætir þá ekki þegið, að kaka me[illegible] ofan á væri komin á hverju kvöldi að rúminu þínu?“ Hún sa[illegible]ndi þiggja það. Hann kvaðst þá skyldi sjá um, að kaka og s[illegible] skyldi vera hjá rúminu hennar á hverju kvöldi; en hún yrði að

[1] [illegible]r. Dr. Maurers Isl. Volkss. 122—123. Ísl. æfint. 38.—39. bls.

heita sèr því aptur á móti, að biðja aldrei fyrir honum Sæmundi; en ef hún gerði það, þá feingi hún ekki kökuna og smjörið. Það segist vefjarkonan halda að hún muni geta látið ógjört. Leingi um veturinn eptir þetta bað hún aldrei fyrir Sæmundi presti, þó hann hnerraði, og hitt fólkið bæði fyrir honum; enda var kaka og smjör á hverju kvöldi við rúmið hennar. Einu sinni er hún var að vefa, kemur Sæmundur til hennar, og fer að tala við hana. Þegar þau höfðu talazt við um stund, setur að presti fjarskalega mikinn hnerra; en hún þegir, og lætur, sem hún heyri það ekki. Eptir nokkurn tíma fer hann að hnerra enn meir. Þá segir stúlkan: „Ærstu ekki, sèra Sæmundur; guð hjálpi þèr.“ Þá segir sèra Sæmundur, og hættir alveg að hnerra: „Ekki held eg þú fáir köku og smjör í kvöld.“ Þetta var orð og að sönnu; því þaðan í frá fèkk vefjarkonan aldrei köku og smjör frá kölska.

Tornæmi dreingurinn og kölski. (Vestan úr Mýrasýslu, eptir Markús skólapilt Gíslason.) Einu sinni var dreing komið fyrir hjá sèra Sæmundi, sem þókti ókennandi sökum tornæmis, til þess að kenna honum kristin fræði. Dreingurinn var mjög ónæmur, og gekk fram úr öllu lagi illa að læra; var honum sjálfum raun að því, og óskaði laungum, að hann væri orðinn næmur. Eina nótt dreymdi hann, að maður kæmi til sín, og segði við sig, hvort hann vildi, að hann gæfi honum næmi. Dreingurinn þóktist játa því. Draummaðurinn sagði, að hann yrði að vinna það til þess, að fara til sín á krossmessunni vorið eptir. Dreingurinn játti því. Hvarf þá draummaður honum. Eptir þetta brá svo við, að dreingur varð svo næmur, að Sæmund prest undraði það stórum; en jafnframt varð dreingur allur annar, en hann hafði áður verið; því nú varð hann óglaður og þúnglyndur. Sæmundur prestur tók eptir þessu, og fór að gánga á hann, hverju það sætti. Dreingur færðist leingi undan; en þó kom svo um síðir, að hann sagði presti upp alla sögu, eins og hún var. Sæmundi brá nokkuð, og sagði, að þetta mundi ekki hafa verið maður, sem fyrir hann bar í draumnum, heldur kölski, er vildi heilla hann til sín; en alt um það, sagði prestur, að hann skyldi vera óhræddur, og fara sínum ráðum fram. Leið nú af veturinn og fram undir krossmessu. Kvöldinu fyrir krossmessu sagði Sæmundur við dreing, að hann skyldi koma með sèr út í kirkju. Þegar þeir voru þángað komnir, fór prestur með hann innar að altarinu, færði hann í messuklæðin, og fèkk honum patínu og kaleik, og lèt hann snúa sèr fram. Sagði hann honum, að hann skyldi vera hreifíngarlaus, og hann skyldi bjóða hverjum, sem til hans kæmi, brauð og vín, og ef hinn aðkomni vildi það ekki, skyldi hann ekki gegna honum, og þó að Sæmundur prestur kæmi sjálfur, skyldi hann ekki heldur gegna sèr, nema hann neytti brauðsins og vínsins. Því næst fór Sæmundur á burt; en dreingurinn gjörði, eins og fyrir hann var lagt. Þegar hann hafði verið nokkurn tíma

fyrir altarinu, kom hinn sami til hans, sem hann hafði áður sèð í drauminum; sagðist hann nú vera kominn að sækja hann, skipaði honum að fara úr messuklæðunum, og leggja af sèr, það sem hann hèldi á. Dreingurinn svaraði honum eingu, en bauð honum brauðið og vínið. En hinn lèzt ekki vera kominn til að þiggja þá þjónustu af honum. Lagði hann þá mjög að dreingnum, að hann skyldi koma; en dreingurinn gaf sig ekki að því, og fór hinn svo búinn burtu. Þessu næst sýndist dreingnum margir kunníngjar sínir koma til sín, hver eptir annan, og beiddu þeir hann með blíðu og stríðu að fara þaðan, sem hann væri. En hann bauð þeim brauðið og vínið, og vildu það eingir. Þá sýndist honum Sæmundur prestur koma til sín, og segja bistur við sig, því hann væri þar, og að hann skyldi þegar í stað fara úr, og leggja af sèr, það er hann hèldi á, og koma út með sèr. Dreingur gegndi ekki að heldur, en bauð honum brauðið og vínið. Sæmundur prestur sneri þá upp á sig, og sagðist ekki vera kominn, til að þiggja af honum þær góðgjörðir; eptir það hvarf Sæmundur honum. Nú tók dreingnum að sýnast alls konar ófreskjur, og skrýmsli, og jafnvel djöflar; þókti honum kirkjan hristast og skjálfa, og hèlt, að hún mundi þá og þegar sökkva, eða fara um koll. Varð hann þá svo hræddur, að við því var búið, að hann mundi sleppa hinum helgu dómum og reyna að forða sèr; en í því heyrði hann tekið í klukkuna. Hurfu þá þegar öll þau undur, er hann þóktist sjá; en Sæmundur prestur kom inn í kirkjuna, gekk innar að altarinu, og bergði á brauðinu og víninu. Hann sagði þá við dreinginn, að honum væri nú óhætt; því að ekki mundi verða á hann leitað framar. Dreingurinn varð lausn sinni allshugar feginn, og þakkaði Sæmundi presti, sem bezt hann kunni. Var hann fylgisamur Sæmundi eptir, og er sagt, að hann hafi haldið næmi sínu til dauða, og orðið ágætismaður.

Óskastundin.[1] (Eptir sögn manna í Borgarfirði.) Sæmundur hinn fróði sagði, að óskastund væri á hverjum degi, en ekki nema eina sekúndu (augnabragð), og tækist mönnum því varla að hitta hana. Aðrir segja, að aldrei sè óskastund, nema á laugardögum einúngis.

Einu sinni var Sæmundur í baðstofu, þar sem vinnukonur hans sátu. Þá segir hann: „Hana nú, stúlkur, nú er óskastundin, óskið þið nú hvers, sem þið viljið.“ Þá gellur ein þeirra við og segir:

„Eina vildi' eg eiga mèr
óskina svo góða,
að eg ætti synina sjö
með Sæmund' hinum fróða.“

„Og dæir, þegar þú fæðir hinn seinasta,“ segir Sæmundur; því hann reiddist stúlkunni fyrir óskina. Þessi stúlka hèt Guðrún, og varð hún

1. Sbr. Dr. Maurers Isl. Volkss. 126.—127. bls. Isl. æfint. 44.—45. bls.

seinna kona Sæmundar prests. Áttu þau saman sjö sonu, eins og hún hafði óskað, en að hinum seinasta dó hún af barnsförum. — Sæmundur geymdi jafnan klæði þau, sem Guðrún hafði átt á meðan hún var vinnukona, og sýndi henni þau iðulega, til þess að lægja í henni rostann; því hún var drambsöm mjög af vegi þeim, sem hún var komin í. Það er eitt sagt til merkis um drambsemi hennar, að einu sinni kom til hennar fátækur maður, og bað hana, að gefa sèr að drekka. Þá segir hún:

„Gaktu í ána, góðurinn minn,
það gjörir biskups-hesturinn."

Sæmundur fer til gleði á nýársnótt. (Austan úr Múlasýslu.) Dóttir Sæmundar hèt Margrèt. Hún hafði verið á tali við vinnukonurnar í Odda í vikunni milli jóla og nýárs, og óskað sèr, að hún væri horfin á nýárinu þángað, sem mestur gleðskapur og skemtan væri í heimi. Á gamlárskvöld var Margrèt að búa um föður sinn, og var faðir hennar þar inni hjá henni. Hann spyr hana þá að, hvað hún hafi verið að tala við stúlkurnar uppi á loptinu kvöldið, sem hann tiltók. Hún segist ekki muna það. Sæmundur minnir hana þá á, að hún hafi verið að óska sèr að vera komin þángað, sem mest væri gleði á nýárinu, og játar hún því, að hún hafi óskað sèr þessa. Hann segir þá, að hann skuli fara með hana í þann stað, og skuli hún fara að búa sig; því þau þurfi að bregða sèr dálítinn spöl frá bænum. Margrèt fer og býr sig, og þegar hún er ferðbúin, segir Sæmundur við konu sína, að Margrèt og hann ætli að bregða sèr í burtu, en fyrir messu skuli hann vera kominn á morgun. Síðan fara þau feðgin ofan að sjó, og kallar Sæmundur þá á kölska, og minnir hann á, hvað þeir hafi keypzt á um, og stendur þá þegar grár hestur þar í fjörunni. Sæmundur sezt á bak honum, og segir Margrètu að fara á bak fyrir aptan sig, en hvíslar að henni um leið, að hún megi með eingu móti biðja fyrir sèr, hvernig sem fari. Sæmundur skipar kölska að flytja sig þángað, sem hann tiltók, og gjörir kölski það. En þrisvar sinnum lèt kölski eptri hlutann síga ofan í sjóinn og ætlaði að sökkva þeim; en Sæmundur sló hann í hvert skipti með Davíðssaltara, og hèlt svo kölski á fram með þau að landi. Þegar þar var komið, stíga þau af baki gráa klárnum, og gánga heim til borgar. Er þar hinn mesta gleði og glaumur, og skemta þau sèr þar alla nóttina. Þegar Sæmundi þykir tími kominn til að fara, kallar hann á Margrètu, og segir henni að koma með sèr. Síðan fara þau, og er þau komu ofan til strandar, stendur sá grái þar í fjörunni, og fara þau á bak honum bæði, sem fyrr. Þegar kölski er kominn miðja vega milli landa, fer hann að taka dýfur, og sökkva, og fer svo tvisvar; en Sæmundur slær hann bæði sinn með Saltaranum. En í þriðja sinn setur kölski allan eptri hlutinn ofan í sjóinn, og verður mjög ókyr undir. Fer Margrèt þá að biðja fyrir sèr; en Sæmundur segir: „Haltu þèr saman, Mánga; hvað

þarftu að vera hrædd? hann sem skrikaði á skötu," og slær þann gráa um leið heljarhögg með Saltaranum. Síðan flytur kölski þau að landi, og er Sæmundur kominn heim að Odda fyrir messutíma, og messaði þar á nýársdag.

Sæmundur á banasænginni. (Eptir Dr. Hallgrími Scheving.) Sæmundur hafði tekið meybarn til fósturs af fátækum manni; honum þókti ósköp vænt um hana, og unni henni svo mikið, að hann mátti ekki af henni sjá nè við hana skilja. Þegar hann lagðist banaleguna, lèt hann hana liggja til fóta í rúminu hjá sèr; því það var eins og hann tryði henni bezt til að vera vitni til dauða síns. Meðan hann lá veikur, hafði hann grun á því, að hann mundi ekki liggja fleiri legur, og um leið fann hún það á honum, að hann væri nokkuð vokins um, hvort hann mundi eiga heimvon eptir dauðann til himnasælu eða í hinn staðinn. Kvöldinu fyrir dauða sinn bað hann fósturdóttur sína að hafa audvara á sèr um nóttina, og muna sig um það, að sofna ekki; því sèr segði svo hugur um, að hann mundi deya þá nótt; en ef svo yrði, mundi mega sjá nokkrar jarteiknir til þess, hvað um sig yrði annars heims, og bað hana því að vaka og taka vel eptir öllu, svo að hún gæti sagt vandamönnum hans með fullum sanni hvorn samastaðinn hann hrepti. Eptir þetta hættir hann talinu og leggst fyrir. En stúlkan vakir trúlega. Þegar fór að líða á nóttina, sèr hún, að loptið, sem þau voru í, fyltist af púkum. Virtist henni, sem þeir vildu ginna Sæmund með fortölum til einhvers ills, en rèð það af orðum hans og yfirbragði, að hann vildi þeim í eingu sinna. Þegar púkunum dugði ekki þetta, leituðust þeir við að fá Sæmund til ills með hótunum. En hann stóð þær allar eins karlmannlega af sèr, sem ginníngar þeirra áður. Eptir þetta hurfu púkarnir; en óðar en þeir voru burtu, fyltist loptið aptur af mývargi, er ásókti Sæmund. Var þá svo af honum dregið, að hann gat ekki varið sig eða bandað mýinu frá sèr. En í því sem mýbitið sækir að honum sem óðast, verður henni litið á, að ljósglampi leið upp af vitum hans; þóktist hún þá skilja, að það hefði verið sál hans, er svifið hefði til sælli bústaða. Enda var þá alt mýbitið horfið og Sæmundur liðinn.

Kirkjugarðs-leg Sæmundar. (Austan úr Múlasýslu.) Sæmundur fróði lagði svo fyrir, þegar hann lá banaleguna, að ef einginn fyrirburður yrði, þegar lík hans væri borið út úr bænum, þá skyldi ekki grafa sig í kirkjugarði, heldur dysja sig einhverstaðar. En þegar lík hans var borið út úr bænum til kirkju, kom alt í einu stórrigníng úr heiðskíru lopti og sólskini, og því var lík hans grafið í kirkjugarði.

**Frá Kálfi Árnasyni.** Saga um Kálf Árnason (sem einu sinni er sagt að hafi búið á Laxlæk.) (Austan úr Múlasýslu.) Þegar Kálfur Árnason var í Svarta-skóla, er það sagt, að hann hafi gefið sig kölska. En

þegar hann var kominn aptur til Íslands, vildi hann fyrir alla muni losast við þetta loforð sitt, en vissi ekki, hvernig hann ætti að fara að því. Hann tekur það þó til ráðs, að hann fór að hitta Sæmund fróða, og biður hann ráða úr þessu vandræði sínu. Sæmundur rèð honum, að hann skyldi ala tarfkálf, og nefna hann Árna, síðan skyldi hann ala annan kálf undan þessu nauti, og kalla hann Kálf, og „sè það Kálfur Árnason.“ Kálfur gjörir þetta, sem Sæmundur hafði honum ráð til kent. En nokkru eptir kemur kölski, og segist vilja fá Kálf Árnason. Kálfur segir, að svo skyldi vera; tekur hann þá kálfinn, er hann hafði alið, fær hann kölska og segir: „þarna hefir þú Kálf Árnason.“ Kölski gat ekki geingið í móti því, en þókti ekki haldið við sig loforðið, og varð þó að láta sèr það líka, að hann hafði ekki meira af Kálfi Árnasyni, er dó í góðri elli.

**Kálfur fer að hitta Sæmund fróða.** (Austan úr Múlasýslu.) Í annað sinn vildi Kálfur finna Sæmund fróða í Odda, og gat þess við heimamenn sína, að hann ætlaði að vita, hvort hann gæti ekki komið að honum óvörum. Ekki er getið um ferðir Kálfs, fyrr en hann kemur að Odda á náttarþeli, og drepur högg á dyr. Sæmundur heyrir, að barið er, og skipar hann einum heimamanna sinna, að fara til dyra, og vita, hver kominn sè. Maðurinn geingur út, og verður einkis manns var, geingur inn aptur og segir, að eingin sè úti. Þá er barið aptur, og skipar Sæmundur öðrum manni að fara til dyra, og gjörir hann það. Þegar hann sèr eingan úti, geingur hann kríng um allan bæinn, en sèr eigi að heldur nokkurn mann; fer hann inn við svo búið, og segist ekki hafa sèð neinn úti. Síðan er barið í þriðja sinn; sprettur þá Sæmundur upp sjálfur, og segir, að sá, sem úti sè, muni vilja finna sig; geingur hann og sèr, að þar er kominn Kálfur Árnason, fèlagi sinn, og heilsast þeir mjög vinsamlega. Kálfur biður hann að lofa sèr að vera, og er það svo sem velkomið. Kálfur biður Sæmund um hnappheldu á hest sinn, og fer Sæmundur að leita og finnur hana. Kálfur segir, að það sè nú miukun að því að biðja hann að hepta klárinn sinn, en þó segist hann halda, að hann verði að biðja hann þess. Sæmundur kveðst skuli gjöra það, og fer hann til, og er afarleingi að bauka við það. Kálfur lèzt furða sig á, hvað leingi hann væri að hepta hestinn, og spyr hann, hvort hann kunni ekki að hepta. Sæmundur lèzt að vísu kunna, en segist hvergi finna fæturna á hestinum. Kálfur segir, að þeir sèu niður úr kviðnum á þessum hesti, eins og öðrum. Sæmundur segir, að þeir sèu alt um það ekki til á þessum hesti, og að minnsta kosti finni hann þá ekki. Líður nú enn leingi, að Sæmundur er að leita að fótum hestsins og svo skilur hann við það, að þess er ekki getið, hvort hann hafi nokkurn tíma getað hept hestinn. Eptir það býður Sæmundur Kálfi inn, og þiggur hann það. Sæmundur geingur á undan með ljós í hendi, og bíður eptir honum innarlega í bæardyrunum. En Kálfi tefst úti. Eptir

lángan tíma kemur kona Sæmundar fram, og spyr, hver kominn sè. Sæmundur segir henni það. Hún spyr hann þá, hvort hann hafi ekki boðið honum inn. Sæmundur segist vera búinn að því fyrir lifandis laungu. Hún vill þá fara út, og bjóða honum innar að nýu. Sæmundur vill það ekki, og segir, að hann muni koma bráðum. Líður nú enn góður tími, þángað til loksins að Kálfur kemur inn, ákaflega móður, og biður konu Sæmundar að færa sèr mikið að drekka: „þarftu mikið að drekka," segir Sæmundur? Kálfur segir: „það er vísast, að fleiri þurfi að drekka, en eg, áður en kvöldið er úti." Síðan er Kálfur leiddur í stofu, og borinn fyrir hann matur, og feinginn hnífur að borða með. En þegar hann fer að skera, bítur hnífurinn ekki hót. Sæmundur spyr hann, hvort hnífurinn bíti ekki. Kálfur segir það ekki vera. Kona Sæmundar segist þó ekki hafa ætlað að velja honum hníf af verri endanum, og hann hafi átt að bíta hnífurinn sá arna. Sæmundur segir, að hann skuli fá sèr hnífinn, og segist hann skuli reyna að brýna hann. Kálfur gjörir svo, og brýnir Sæmundur hann, fær Kálfi hann aptur og segir, að nú skuli hann vara sig á honum; því nú haldi hann, að hann bíti. Kálfur kveðst ekki vera svo hræddur við það; og þegar Kálfur fer að skera fyrsta bítann, tekur hnífurinn sundur diskinn og borðið og hleypur í lærið á Kálfi. Sæmundur kvaðst hafa varað hann við, að hnífurinn mundi bíta. Kálfur sagði, að þetta sár væri ekki til dauða, og batt um það. Þá var venja að lesa borðsálm fyrir og eptir máltíð. Meðan Kálfur er að lesa borðsálminn á eptir, líður Sæmundur út af í setinu, rètt eins og hann væri dauður, og skipar Kálfur þegar, að dreypa á hann vatni. Kona Sæmundar hleypur eptir vatni, og dreypir á hann; en það dugar ekki. Kálfur stendur þá upp og fer að dreypa á hann. Raknar Sæmundur þá við, og skipar Kálfur honum að drekka vatn, og gjörir Sæmundur það. Kálfur segir þá: „Vissi eg ekki, að fleiri mundu þurfa að drekka í kvöld, en eg, þegar eg bað um mikið vatn eptir að eg var búinn að leita mig móðan að dyrunum?" Síðan hættu þeir þessum glettum, og fóru að bera sig saman, hvor meira kynni. En Kálfur sagði svo síðan, að Sæmundur kynni þeim mun meira, en hann, sem hann hefði numið fram yfir sig í Svarta-skóla.

**Kálfur sendir kölska eptir presti.** (Austan úr Múlasýslu.) Einu sinni varð Kálfur veikur; var hann þúngt haldinn og hætt. Kölski kemur þá til hans, þar sem hann lá, og segist ætla að verða við, þegar hann deyi. Kálfur segist ekki muni deya í þetta sinn, en biður samt kölska að sækja þann prest til að þjónusta sig, sem ekki sè ágjarn, og segir, að hann megi vera nokkuð leingi að leita hann uppi; því hann muni liggja leingi. Kölski verður hljóður við þetta, og heldur, að það muni ekki verða neitt áhlaupaverk, að finna slíkan mann. Kálfur segir, ef hann geti ekki komið með þann prest, fái hann sig ekki, og þá standi kaup þeirra eigi leingur.

Kölski fer við það af stað, og er leingi í burtu, leitar vandlega og finnur eingan, sem ekki sè ágjarn. Eptir láuga mæðu og leit kemur hann þó með einn prest til Kálfs, og segist hafa fundið þenna prest leingst úti í löndum; segir hann þó, að hann sè ekki með öllu laus við ágirnd, en einn prestur sè sá úti á þýzkalandi, sem ekki sè við ágirnd brugðið, en hann hafi ekki komizt að honum, því tindrandi eldur hafi ávalt logað alt í kríng um hann. Kálfur segist ekki vilja þenna prest, sem hann kom með, fyrst hann sè ekki alveg laus við ágirnd, og sè því kölski af kaupunum, og verður hann því að fara burt við svo búið.

Kálfur deyr. (Austan úr Múlasýslu.) þegar Kálfur var orðinn fjörgamall, lagðist hann mjög veikur. Hann vissi það fyrir, að sú veiki mundi leiða sig til bana. Hann skipar þá öllu heimafólki sínu að fara burt af bænum, og læsa herbergi því er hann lá í, en láta samt lykilinn standa í skránni. Hann segir heimamönnum sínum að koma aptur að ákveðnum tíma, og skuli þeir ekki kæra sig um, þó ýmsir hlutir verði komnir úr skorðum, og sumt brotið í bænum; en ef alt verði í sömu skorðum inni í herbergi því, sem hann liggi í, skuli þeir grafa sig í kirkjugarði með öllum ceremóníum; en verði þar einhverju raskað eða brotið, skuli þeir dysja sig einhverstaðar, sem annað hræ. Árni hèt fóstursonur Kálfs, og unni hann fóstra sínum mikið; hann vildi ekki fara með öðrum heimamönnum burtu af bænum, og leyndist því fyrir ofan húsagarð, er þeir fóru. Eptir nokkra stund sèr Árni kölska koma. Geingur kölski fyrst í kríng um allan húsagarðinn, síðan fer hann fram á hlaðið, og er leingi að ólmast þar; að síðustu fer hann inn í bæ, og hefir þar hark mikið og lángt. Góðum tíma eptir læðist Árni inn í bæinn, og lýkur upp hurðinni að herbergi því, er Kálfur fóstri hans lá í. Var Kálfur þá dauður, en alt var með sömu ummerkjum í herbergi hans, og áður, og varð Árni þá hvergi var við kölska. Kálfur Árnason var svo grafinn í kirkjugarði með öllum ceremóníum, eins og hann hafði fyrirmælt.

**Sögubrot af Árum-Kára.** (Ólafur prófastur Sivertsen í Flatey, hefir skrásett eptir sögn Arnfirðínga og skoðað sjálfur flest örnefnin.) þá átti Kári bú að Selárdal við Arnarfjörð, er hèr var komið sögunni; hafði hann þá tekið prestsvígslu, en trúin var úng í þann tíma, og þókti mönnum, sem hann væri ærið forn í skapi. Hann var afarmenni mikið, og eigi dæll við að eiga, og þókti hervetna ílt að etja við hann. Var hann kallaður Árum-Kári.

þá bjó sá maður, er Kolbeinn hèt, fyrir norðan Arnarfjörð, gagnvart Selárdal að Lokinhömrum; er þar nærhæfis hálf önnur víka sjávar á milli. Fèll Kolbeinn í missætti við Kára og eltu þeir leingi grátt silfur, og þar kom að Kolbeinn safnaði liði, fór á skip, og ætlaði að veita Kára heimsókn og drepa hann. En svo bar við, að í þeirri ferð týndist skip Kolbeins á skeri því, er síðan er kallað Kolbeinsboði. þar fórust mann allir, er með

Kolbeini voru, og menn ætluðu Kolbein einnig hafa drukknað þar með skipverjum sínum. En er Árnm-Kári kóm ofan til sjávar, mætti hann Kolbeini í fjöru, og tókust þeir þar á; það varð Kára til fángaráðs, að hann fór á bak Kolbeini, og reif báðum höndum í skegg hans, og reið honum á land upp; er þar slèttlendi mikið; heitir þar nú síðan Kolbeinsskeið, er hann reið honum hríngskeið kríng um slèttlendið, og er það túns ummálið á bæ þeim, er þar var síðan bygður, og dregur nafn af skeiðinu, og heitir Kolbeins-skeið.

Eptir þessa reið, var Kolbeinn allur, og fluttur dauður heim að Selárdal með skipverjum þeim, er upp ráku, og voru þessir allir grafnir í einum reit norðan fram í kirkjugarði í Selárdal, þar sem nú heitir Kolbeinsreitur, og var það leingi, að eigi voru lík grafin í reit þessum. Þó er þess getið, að nú á seinni tímum hafi þar grafizt upp eitt sinn ærna þykk og stórvaxin mannabein.

Maður hèt Herrauður; hann bjó norður i Dýrafirði, og var illa ræmdur; þókti hann feingsamur í búi; tók hann á stundum fè frá mönnum, en bætti eingu fyrir. — Frá því er sagt eitt sinn, að Kári vaknar um nótt í Selárdal, og vekur upp smalamann sinn; kvað hann skyldi fara út á Selárdalshlíðar, og gæta sauða, er þar geingu sjálfala af búsmala Kára, og ef hann yrði nokkurs var við sjávar-mál, þá skyldi hann bera þar á grjót, svo mikið, sem frekast mátti hann orka. Smalamaður fór, og fann á hlíðunum, þar sem síðan heitir Herrauðargjá, mann undir skipsegli sofandi, og hjá honum bundna marga sauði af fè Kára; höfðu þeir Herrauður komið þángað á stóru skipi, og ætlað að stela skipsfarmi af sauðum Kára. Smalamaður bar grjót á seglbrúnirnar; kom þá Kári að, og lagði Herrauð, og alla fylgdarmenn hans í gegnum seglið með spjóti, svo þeir lètu þar líf sitt. Eingar urðu hefndir eptir Herrauð, og eingin eptirmál.

Það varð þessu næst, að Kári var ásóktur af tröllkonu, er heimkynni átti í fjöllunum út frá Selárdal; ætluðu menn híbýli hennar vera í helli í Skandadallsfjalli; tók hún sauðamann Kára hvern eptir annan; var það opt á ári hverju um jólatímann, er svo bar við; áttu þau Kári og tröllkonan margt ílt saman, og vann Kári ekki á; þángað til Kári eitt sinn nærri jólum tók það til ráðs, að hann lagðist niður í rúm smalamanns síns: en það var í dyralopti, og breiddi á sig uxahúð. Þegar leið á nótt, kom flagðið að rúminu, og þreifaði um; er þá mælt hún hafi sagt:

„Þrýstinn um bóga
er á skinnsokkum bokki
hefir jólaskó, dóli.“

Kári stökk þá upp, og tókust þau fángbrögðum, og bárust loks út úr bæardyrum; fylgdust þá með dyragættir allar á herðum kerlíngar, og skildi þar með þeim; vildi flegðan ei framar fást við Kára, og hljóp til sjávar, og hèlt út með öllum Selárdals-hlíðum; en Kári vildi ekki hætta

við svo búið, og hljóp hann fram dalinn, og þar yfir fjallið, en sú leið er skemmri til að ná yfir að híbýlum flagðsins, og var Kári þar kominn, áður en hún, og varði henni hellinn. Var það nærri Skandadal, er þau hittust við sæ niðri, og áður en þau tókust á, spurði skessan Kára: „Hvað er í hendi, Árum-Kári?“ Hann svarar: „Lítil kexa í laungu skapti.“ Hún mælti: „Búlda mun bíta, þótt hún sè lítil.“ Kári rèðst þá að flagðinu, en hún hljóp undir högg hans, og tókst glíma heldur ómjúk í annað sinn, og bárust þau víðsvegar um fjörugrjótið, og var leingi, að Kári sá ei, hvort sigra mundi; en svo lauk að flagðið fèll fyrir Kára, og vann hann þar á henni, svo hún lèt líf sitt, og bilti Kári henni fram af skerjum þeim, er þar liggja við land, og heita þau sker síðan Byltusker.

Eptir þetta urðu fáir til að leita á Kára, og bjó hann síðan leingi í Selárdal. Hann rèð þá til sín hjón, sem eigi þóktu vera í eðli, sem aðrir menn. Þrællinn hèt Börkur, en ambáttin Þunngerður; þóktu þau ei mennsk að alæli, og gekk Börkur berserksgáng; sögðu menn svo, af því Börkur var öðrum mönnum máttkari og orkumeiri. Steinn er reistur á hraununum út frá Selárdal; var hann tak Barkar, og heitir enn Barkartak.

Það var eitt sumar, að Börkur tók til sláttar á Selárdalstúni og Þunngerður átti að raka eptir honum. Ekki voru fleiri menn að slætti en Börkur. Í Selárdal er tún mikið, slètt og hart. Börkur vildi ei matast fyrr en tún var alt slegið; og er hann var að slá hina yztu útskækla norður af túninu, mælti Þunngerður: „Mál er að matast, bóndi“ Hann svaraði: „Túnið skal ráða, kerlíng.“ Hneig hún síðan dauð niður, þar sem hún stóð í mýrardæld norður frá túnvelli, og er hún þar heygð; en Börkur fèll dauður niður þar skamt frá á túnfætinum; var þar orpinn haugur eptir hann, og lagður hjá honum sláttuljár hans; heitir þar enn í dag Barkarleiði, og sjást þess glögg merki. Vildi Kári ei unna þessum hjúum sínum legs í kirkjugarði.

Margir voru hættir Kára undarlegir; sá var einn, að hann hvarf jafnan að heiman, áður hann skyldi sýngja messu, og kom heim aptur ifærður prests-búníngi sínum. Er svo sagt, að hann lèti messuskrúða sinn geimdan í koti nokkru, er hann hafði byggja látið norður og niður frá bænum í Selárdal, og dregur nafn af því, að Kári kom skrýddur þaðan, og heitir hjáleiga þessi nú Skrúði.

Miklar eru sögur af afreksverkum Kára; sú er ein, er segir frá um kvernstein þann, er enn nú stendur á bæarhlaði í Selárdal. Segja sumir, að hann hafi sókt stein þann yfir í Bogahlíð, sem liggur sunnan fram í Selárdalnum, og borið hann heim í hempuvasa sínum. Aðrir segja svo, að hann hafi alskrýddur verið, þá hann lèt taka steininn í Bogahlíð og koma honum heim á staðinn, og sett hann niður á bæarhlaði, mitt á milli karldyra og kirkjugarðs, og er nú að segja frá stærð hans og lögun: hann er hálfur í jörðu niðri, lagaður sem aðrir stórgrýtis kvernsteinar; þrjár

skálar eða hollar eru klappaðir ofan í steininu; tekur hver þeirra 2 merkur mældar, og var títt, að hella í þær vatni á hverjum degi. Er svo sagt, að Kári hafi mælt svo fyrir, að eigi mundu fleiri mjaltakonur verða í Selárdal, en svo, að skálar þessar nægðu þeim, til að þvo mjölt af höndum sèr í þeim.

Það ætla menn, að Kári hafi látið gjöra undirgáng í jörðu úr Selárdals bæ og í kirkjuna, og þaðan aptur suður úr kirkjubrekkunni ofan undir ána, og enn undirgáng úr bænum gegnum allan túnhólinn norðvestur í dæld þá, er liggur upp undir fjallinu og inn í dalinn, og hafa menn nú á dögum fundið ljós merki til þessa undirgángs; hefir hann verið ærið ramhyggilega gjörður, og djúpt í jörðu niðri.

Athugasemd. Sigurður prestur Gíslason á Stað í Steingrímsfirði hefir og ritað sögu um „Árum-Kára,“ og er hún að vonum áþekk þessari; hann getur þess, að Kári hafi lagzt í flet smalamanns í skáladyrum, og hafi haft bússur á fótum; því sagði og tröllkonan, er hún krumlaði um fætir hans:

„Þrýstinn í roði
er þessi dólgur
er á skinnsokkum brokkur,
hefir jólaskó, dóli.“

Flötur sa, er þau glímdu á, Kári og tröllkonan, heima í Selárdal heitir Sporaglenna. Sigurður prestur getur þess ekki, að þau Kári hafi átzt við fángbrögð fram á Skandadal, heldur hafi hann höggvið af henni handlegg í axlarlið og hrundið henni svo fram af klettasnösum. Um steininn segir Sigurður prestur: „Holurnar (í steininum) eru áþekkar keri, og má veita vatni úr einni í aðra; því klöppuð renna er frá hinni fremstu til hinnar öptustu. Stein þenna flutti hann í skikkjulafi sínu, og setti hann niður á nefndum stað, með þeim ummælum, að kerin ynnust til handlaugar mjaltakonum. Þessi steinn virðist vera 8 til 10 manna tak, og sýnir það afl Kára prests.“

**Guðbjartur flóki og Hóla-biskup.** (Eptir handriti séra Skúla Gíslasonar á Stóranúpi.) Guðbjartur prestur flóki í Laufási var mestur kunnáttumaður á sinni tíð, en gjörði eingum mein með kunnáttu sinni; því að hann var góðmenni mikið. Þó ýfðist Hóla-biskup við hann, sökum galdra-orðs þess, er lagðist á hann, og ætlaði sèr að setja hann af embætti. Fór hann að heiman í því skyni, með nokkra presta og sveina, en þegar þeir voru komnir skamt að heiman, viltust þeir, og vissu ekki, hvar þeir fóru; könnuðust þeir ekki við sig, fyrr en þeir voru aptur komnir heim að Hólum, og geingnir til stofu. Biskup rèð samt til ferðar í annað sinn, komst hann þá og menn hans norður á Hjaltadalsheiði; gjörði þar að þeim fjúk með stríðviðri og gaddi, þá var ratljóst. Varð þá öllum þeim, er í ferðinni voru,

snögglega mál að bjarga brókum sínum; en þegar þeir ætluðu að standa upp aptur, gátu þeir það ekki; lá þeim brátt við kali, og sáu sèr loks ekki annan kost, en að heita því fyrir til lausnar sèr að snúa heim aptur. Ekki var laust við, að menn hentu gaman að ferðum biskups, en það gjörði sèra Guðbjartur aldrei; kvaðst hann ætla, að biskup hefði ekki ætlað að finna sig, því að til þess hefði hann ekki þurft að hafa fjölmenni. Nokkru seinna var biskup á ferð við annan mann norður í Eyafirði og gjörði þá ferð sína um leið heim til sèra Guðbjartar; tókst honum það greiðlega, og hitti svo á, að einginn var úti. Biskup gekk þegar til stofu, sá hann, að prestur sat við borð og studdi hönd undir kinn og hafði bók fyrir sèr; biskup þreif bókina, en hvernig sem hann fletti henni, sá hann ekkert nema óskrifuð blöðin. Biskup spurði prest, til hvers hann ætlaði þessa bók; en hinn kvaðst ætla hana undir prèdikanir: „Þú held eg ætlir það," svaraði biskup reiðulega, „sem dýrkar djöfulinn." En varla hafði hann slept orðinu, fyrr en hann sá gröf með bláleitum loga og stóð hann sjálfur tæpt á barminum, en grá hönd greip í kápulaf hans og ætlaði að kippa honum í logann. Rak þá biskup upp hljóð og mælti: „Fyrir guðs skuld hjálpið mèr, herra prestur." Rètti sèra Guðbjartur honum þá hönd sína og sagði: „Sleptu honum, kölski;" færðist þá alt í samt lag aptur. Prestur mælti þá: „Það er von, að óvinurinn sè nærri þeim, sem bera nafn hans í munni sèr, og biðja ekki um frið drottins yfir það hús, er þeir koma í; það er eg vanur að gjöra, og þó berðu mèr á brýn, að eg hafi slept rèttri trú." Biskup mýktist nú nokkuð í máli. Töluðust þeir þá leingi við tveir einir, og skildu síðan með vináttu; sagðist biskup vilja óska þess, að allir væru jafn-guðhræddir menn, og Guðbjartur sinn. Aldrei bar á því endrarnær, að prestur beitti kunnáttu sinni. Þorkell hèt sonur sèra Guðbjarts; hann skrifaði fyrstur rúnabókina Gráskinnu, er öll fjölkynngi var höfð úr á seinni öldum; bók þessi lá leingi við skólann á Hólum og lærdu sumir piltar nokkuð í henni, helzt hinn fyrsta part, er var ritaður með málrúnum. Var þar ekki kendur galdur nè særíngar, heldur meinlaust kukl, eins og glímugaldur, lófalist og annað þess konar, og gátu allir orðið sáluhólpnir, þó þeir lærðu þann partinn. Seinni og leingri parturinn var þar á móti ritaður með villurúnum, er fáir gátu komizt niður í, enda var þeim meinað það af meistarunum. Þar var allur hinn rammari galdur, og urðu þeir allir óþokkasælir og ólánsmenn, sem voru reyndir í honum.

**Straumfjarðar-Halla.** (Eptir sögnum af Mýrum og handriti sèra Þorkels Eyólfssonar á Borg.) Halla var uppi um sömu mundir og Sæmundur hinn fróði, og voru þau systkyn þrjú: „Sæmundur,[1] Halla og Elín í Elínarhöfða

1. Hèr er, eins og svo opt í munnmælasögum, glundrað ártali, þar sem Sæmundur, sem dó hèr um bil 1133, er látinn vera bróðir Straumfjarðar-Höllu, sem var uppi á fyrri hluta 15. aldar, og að minnsta kosti 300 ár á milli þeirra.

á Akranesi. Líktust þær systur bróður sínum, Sæmundi presti, í því, að þær voru fjölfróðar og fóru með forneskju. Þó var Halla trúkona mikil, og mátti það sjá á ýmsu því, sem hún gerði, t. a. m. gjöfum hennar til Álptaneskirkju o. s. frv.

Halla var auðug að fè og hinn mesti skörúngur, og þókti hún afbragð annara kvenna á sinni tíð; hún bjó í Straumfirði hinum syðri og bera ýms örnefni, sem viðhaldast enn i dag, vitni um, að hún hafi verið þar. Bærinn, Straumfjörður, stendur á eyu einni, og er umflotinn um flæði. Bjarg það er liggur sunnan til á eynni, við endilángri Straumfjarðarröst, heitir enn þá „Höllubjarg," og er sagt, að fiskihjallur Höllu hafi staðið á bjarginu, þar sem það er hæst, og að þángað hafi Halla geingið, þegar hún vildi tala við Elínu, systur sína, og er mælt, að Halla hafi þá staðið á bjargsnösunum, en Elín á Elínarhöfða, og þær systur talast þannig við um alt það, sem þær vildu, en einginn heyrði það, og er þó hèr um bil 2 vikur sjávar milli Höllubjargs og Elínarhöfða. Vestan undir Höllubjargi er vík ein; þar eru köllnð Höllunaust; er sagt að þar hafi verið lendíng og skipa uppsátur til forna, og hefir þá ekki verið farið inn í Straumfjarðarröst, en nú er lendíng og uppsátur haft inn í röst, innan til við Hellubjarg. Vatnsból það, sem enn er í Straumfirði, heitir Höllubrunnur. Er sá brunnur gerður af mönnum, og mikið verk á; hann er grafinn djúpt niður og hlaðinn vel og vandlega upp, alt frá botni; hann smá-víkkar, þegar upp eptir dregur, en er örmjór niður við botn. Sagt er, að Halla hafi látið gera þenna brunn þar í lægð á eynni, sem hvorki sást til fjalls nè fjöru frá honum, en nú er svo mikill sandur kominn í kríng um hann, að alstaðar sèst frá honum annaðhvort til fjalls eða fjöru, en að öðru leyti er brunnurinn heill og óhaggaður, og er mælt, að aldrei hafi verið gert við hann, síðan Halla lèt byggja hann. Ekki er þess getið, hvort Halla hafi verið gipt, eða hvað maður hennar hèt; en líklega hefir hún þó einhvern tíma verið gipt, því tvo sonu átti hún; en Halla var jafnan talin ein fyrir búi sínu.

Eitt sumar sendi Halla vinnumenn sína til sláttar upp á Mýrar að vatni því, sem Heyvatn er kallað; heitir þar Ljónsnes og áttu þeir að slá það, og lèt hún þá liggja þar við tjald. Þar stendur steinn einn, og er hann kallaður Grásteinn; á þenna stein bauð Halla vinnumönnum sínum, að leggja ljáina á hverju kvöldi, þegar þeir hefðu slegið þá úr orfunum, og mundu þeir þá finna þá á steininum deingda á hverjum morgni; en fyrir því tók hún þeim vara að líta aldrei í egg ljáanna. Gerðu nú vinnumenn hennar eins og hún bauð þeim, og fór svo fram um hríð, að þeir fundu ljáina deingda á steininum á hverjum morgni, og þókti þeim þeir bíta, eins og þeim væri drepið í vatn. Fór nú einn vinnumann Höllu að gruna, að eitthvað mundi Höllu hafa til geingið, þar sem hún bannaði þeim að líta í eggina á ljáunum, og vildi hann því vita, hvernig færi, ef

hann brygði út af boði hennar, og lítur því í eygina á ljá sínum. Sèr hann þá, að ljárinn er ekki annað, en mannsrif, og á sama vetfángi fer eins með alla hina ljáina, að þeir verða að mannabeinum; og hljóta þeir því að hætta slættinum og fara heim, og mislíkaði Höllu það mjög.

Eitt sinn kom Sæmundur fróði, bróðir hennar, kynnisför í Straumfjörð til Höllu; var þá um heyannir. Sæmundur var nokkurn tíma í Straumfirði. Svo bar við einn morgun, meðan Sæmundur prestur var þar, að Halla kemur út snemma morguns, og gáir til veðurs; lopt var þykt og leizt henni svo, sem gera mundi storm og rigníngu, þegar liði á daginn; en taða mikil var á túninu, og öll flöt. Þegar Halla kemur inn aptur, segir hún öllu heimafólki sínu, að sofa í náðum og bannar harðlega nokkrum að líta út, en þau Sæmundur fóru út tvö ein. Og þegar þau voru komin út fyrir dyrnar, svo heimamenn ekki gátu heyrt hvað talað var, segir hún við Sæmnnd: „Heyið þarf fljótrar hirðíngar, því veður er allótryggilegt, og ætla eg okkur báðum starfa þann; en hvort kýs þú heldur, bróðir, að binda heyið og flytja heim í garð, eða hlaða úr?“ Sæmundur kaus að hlaða úr heyinu. — Leið nú morguninn, og fór þeim, sem voru í bænum, að leiðast. Fór þá einn af vinnumönnum til dyra, og ætlaði að líta út, en þegar hann ætlar að ljúka bæarhurðinni upp, er hún svo föst, að hann getur alls ekki bifað henni; rifa ein var á hurðinni og leggur vinnumaðurinn augað við hana, og getur þannig sèð, hvað gerist úti. Geingur Halla að flekkjum og sátum, hverju eptir annað, og veifar yfir svuntu sinni og segir: „Upp þú og rakið með.“ Sá hann þá, að heyið flaug jafnóðum í lopt upp, og heim í garð til Sæmundar, en hann tók við heyinu og hlóð úr og 18 púkar með honum, og höfðu þeir naumlega við. Þegar vinnumaðurinn var orðinn þessa vísari, ætlaði hann að fara aptur frá hurðinni, en var þá orðinn fastur við hana á auganu, og varð hann að vera þannig, þángað til Halla kom heim, bað hann hana þá að losa sig, og gerði hún það, en mælti um leið: „Það er ráð mitt, að þú gerir ekki optar það, sem eg banna þèr.“

Einu sinni vildu vinnumenn Höllu róa, en hún vildi láta þá gera annað, og þókti veður ískyggilegt og sagði, að þeim mundi ekki vel gefast róðurinn þann dag. En hvað sem hún sagði, reru þeir og fram á „Leir“; svo heitir djúp mið eitt fyrir Mýrum; er það djúpt af Þormóðsskeri. En þegar þeir voru komnir í sátur, tók að hvessa á norðan, og það svo óðum, að þeir gátu ekki haldizt. Lögðu þeir því af stað og stefndu til lands, en gekk mjög lítið. Loks komust þeir með illan leik upp undir Þormóðssker; fóru þeir nú að ráðgast um, hvort leingra skyldi halda; rèðu þeir það af, að halda á fram. En þegar þeir voru komnir skamt frá skerinu, fór veðrið vaxandi, svo þeir drógu ekki leingra; var nú farið að dimma, en með öllu ólendandi í Þormóðsskeri fyrir brimi og ósjó, svo ekki var annað sýnna, en þá mundi reka til hafs. Þegar þeir voru staddir í þessum nauðum, sáu þeir stóran reyðarfisk, sem

rendi fram hjá skipinu og hèlt til lands. Ólafur, fóstursonur Höllu, var á skipinu. Hann rèð skipverjum til að róa eptir fiskinum, og svo gerðu þeir, og gátu þeir dregið í vari fiskjarins til lands; en þegar kom inn í Rastarkjáptinn, hvarf reyðurin. Náðu þeir þannig landi með heilu og höldnu, og þegar þeir voru lentir, geingur Halla til strandar, og spyr þá, hvort þeir hefðu orðið nokkurs varir; en þeir sögðu henni satt frá því, hvað hefði borið við í ferð þeirra. Hún kvað þá ekki mundu hafa náð landi, hefði þeir ekki notið sín að, og rèð þeim til að róa ekki framar, þegar henni væri það á móti skapi; en það er ætlan manna, að Halla sjálf muni hafa verið reyðarfiskurinn, sem bjargaði þeim.

Einu sinni, sem optar, kom skip út í Hraunshöfn vestra, það er í grend við þann stað, sem Búðaverzlunarstaður nú stendur á. Halla vildi finna kaupmann og fá ýmsar heimilis nauðsynjar sínar hjá honum, því hún var jafnan vön, að skipa vel til búsins. Fór hún því nú, með marga hesta í lest, kaupstaðarferð vestur í Hraunshöfn, og lèt auk þess reka 12 sauði gamli vestur, til að selja kaupmönnum þá. Fór hún sem leiðir liggja, fyrst upp undir fjöll, og síðan út sveitir, sem þar verða fyrir; kom hún við í Hraundal hinum ytri; þar bjó þá Ólafur, fóstursonur hennar. Þegar Ólafur sèr Höllu, og lest hennar, og hvað á var, segir hann: „Hart er í böggum, fóstra.“ Þá segir Halla: „Þegi þú, strákur, nógu mikið hefi eg kent þèr.“ Þaðan heldur Halla á fram ferð sinni, og segir ekki af ferð hennar, fyrr en hún kemur í kaupstaðinn, og finnur kaupmann. Leggur hún inn allmikið af smjöri og tólg, og sauði þá, sem hún hafði með sèr. Tekur hún síðan út hjá kaupmanninum það, sem hún vildi, og hún gat komið á lestina; býr hún nú uppá lestina, og fer síðan af stað. En þegar hún var komin á stað, verður kaupmanni litið á vöru þá, sem hann hafði feingið frá Höllu; var þá smjörið og tólgin orðin að grjóti og sauðirnir að músum. Hafði Halla gert þá sjónhverfíng, að grjótið sýndist smjör og tólg, en mýsnar sauðir. Þegar kaupmaður varð var við þessu pretti brá honum mjög í brún, og safnaði þegar mönnum og veitti Höllu eptirför. En þegar Halla verður vör við eptirförina, slær yfir niðdimmri þoku, svo hvergi sá. Þó náðu leitarmennirnir Höllu og lest hennar við Haffjarðará, en hún vilti þeim svo sjónar, að þeir sáu ekki annað, en móa og kletta, þar sem hestar hennar voru. Urðu þeir að hverfa svo aptur, að þeir fundu hvorki Höllu nè föruneyti hennar; en hún hèlt tálmunarlaust áfram og komst með heilu og höldnu heim í Straumfjörð.

Eins og áður er getið um, átti Halla tvo sonu. Einhverju sinni, þegar þeir voru orðnir fulltíðamenn, kom hafskip, og fóru þeir á móti því, til að vísa því til hafnar, en hreptu ofviðri mikið, svo þeir týndust í Mjóasundi; er það sund svo mjótt, að það er ekki nema árarum á breidd milli Þormóðsskers og Mjóaskers. Er þá sagt, að Halla hafi mælt svo um, að aldrei skyldi verða fastur kaupstaður í Straumfirði, og þykir það

hafa sannazt. Halla harmaði mjög lát sona sinna og það einkum að lík þeirra fundust ekki. Hèt hún þá á Álptaneskirkju, að gefa henni legkaup mikið, ef synir hennar fyndust, og næðu þar legstað. Báða syni Höllu rak skömmu eptir þetta, og voru jarðaðir í Álptaneskirkju; gaf þá Halla Álptaneskirkju þormóðssker, sem hún á enn í dag. Var sker þetta auðugt í fyrra daga, af æðavarpi, selveiði og grasi, en arður þess hefir á seinni tímum mjög minnkað. Aðra gjöf gaf Halla Álptaneskirkju, þó hún sè nú fyrir laungu liðin undir lok. það var eirketill, sterkur og vandaður, og mælti hún svo um, að í honum skyldi mat reiða fyrir prest í hvort sinn, sem hann fremdi heilagt messuembætti í Álptaneskirkju, og mundi þá aldrei skorta góðan beina handa presti, meðan ketillin væri við liði, og hafður til þess að eins, sem hún mælti fyrir, en ekki mætti flytja hann frá Álptanes, og mundi hann ekki komast þaðan óbrotinn. Er mælt, að ketill þessi hafi leingi verið til á Álptanesi, og verið farið með hann eptir ummælum Höllu, þángað til prestur einn, sèrdrægur og ágjarn, ágirntist ketilinn og taldi sig eiga, af því hann væri gefinn að vissu leyti að eins prestinum til nota. Tók nú prestur ketilinn og ætlaði að hafa heim með sèr, en þegar hann kom uppá „Virkið,“ svo heitir hæð sú, sem er fyrir ofan bæinn og kirkjuna, datt sjálfkrafa botninn úr katlinum, svo hann varð með öllu ónýtur.

Einu sinni heyrði Halla vinnumennina sína vera að tala um það, hvað hundarnir ættu gott; þeir mættu flatmaga alla daga í góða veðrinu og lepja sólskinið, en þyrftu ekkert að vinna. Fóru þeir mörgum orðum um þetta, og lètust mikillega öfunda hundana. þegar Halla heyrði það, brá hún þeim í hundalíki og lèt reka með þeim stóð inn á fjall. þeir urðu fjarskalega móðir og lúnir, og þókti þeim ílt líf sitt og leiðinlegt. þóktust þeir vera soltnir mjög. Urðu þeir nú eingu fegnari en því, þegar Halla leysti þá úr álögunum aptur. Er þess ekki getið að vinnumennirnir hafi síðan öfunduð hundana af æfi þeirra.

Halla mælti svo fyrir áður hún dó, að sig skyldi jarða fyrir framan kirkjudyr á Álptanesi. Sagði hún að kirkjan mundi seinna meir verða færð, svo þá mundu þar verða kórdyr, sem nú væru kirkjudyr. þetta var gjört, sem Halla beiddi, og segja menn að kirkjan hafi verið færð síðan, eins og kerlíng sagði.

**Ólafur tóni.** (Eptir handriti Guðbrandar Vigfússonar.) Hann lifði í lok 14. aldar, og var haldinn mesti galdramaður. Í Stöðinni á Skarði á Skarðsströnd heitir Tonavör, og er sú saga til þess, að Ólafur gjörði samníng við kölska, að hann skyldi ryðja vör úr blágrýtisurð þar niðri í Stöðinni, og skyldi hann eiga sig, ef hann yrði fljótari að ryðja vörina en Ólafur að ríða heiman frá Skarði og ofan í Stöð, en Ólafur átti flugskjótan hest. þetta fór svo, að þegar Ólafur kom að kölska var hann að bisa við síðasta

steininn; varð hann þá svo reiður, að hann þeytti heljarbjargi í miðja vörina, sem þar hefir staðið alla stund síðan og ónýtt vörina, þangað til nú fyrir skemstu að það var sprengt með púðri, því engin mannshönd gat rogað því. Í tíð Árna Magnússonar hafa verið fleiri sögur um Ólaf tóna á Vestfjörðum, og þar mun hann hafa búið. Ein er sú, að hann hèt að taka Gufudalsháls og brúa með yfir Gilsfjörð og vildi hafa gjald af hverjum bónda; en bændum þótti gjaldið ofmikið, varð svo ekki neitt úr neinu. Árni Magnússon hefir þekt hina fyrnefndu sögn um Tónavör, og dregur hann af því og öðrum líkum, að Ólafur hafi vestfirzkur verið, og átt heima á Skarði, og kallar hann hann Þorleifsson. Sèra Friðrik í Akureyjum segir, að Ólafur hafi verið ráðsmaður á Skarði í tíð Ólafar ríku. Það er enn í mæli, að Ólafur hafi numið galdra sína að Straumfjarðar-Hölln.

**Gottskálk biskup grimmi.** (Eptir handriti sèra Skúla Gíslasonar á Stóranúpi.) Gottskálk biskup grimmi var hinn mesti galdramaður á sinni tíð; tók hann upp aptur svartagaldur, er ekki hafði tíðkazt síðan í heiðni, og skrásetti galdrabók þá, er kallaðist Rauðskinna.[1] Var hún skrifuð með gullnu letri og að öllu hin skrautlegasta; rituð var hún með rúnastöfum, eins og allur galdur. Þessarar bókar unni biskup ekki neinum eptir sinn dag og lèt þess vegna grafa hana með sèr og engum kendi hann alla kunnáttu sína. Þess vegna var hann öllum svo skæður í málum, að hanu gat glapið minni og huga manna og komið þeim til að gjöra það, er hann gat gefið þeim sakir á. Í fyrstu keypti hann njósnarmenn, til að komast eptir, hvort menn ætu kjöt á lángaföstu; en svo fór að lokum, að einginn vildi verða til þess að halda njósnir fyrir hann. Einn dugði þó bezt; enda hafði biskup kent honum kukl, og þar á meðal að bregða yfir sig hulinshjálmi; en þó kendi hann honum ekki meira en svo, að hann hefði í öllum höndum við hann. Einu sinni á lángaföstu kom njósnarmaður þessi að bæ bónda nokkurs, og lagðist á baðstofugluggann; var dimt mjög úti, svo njósnarmaður gáði þess ekki, eða þókti þess ekki þurfa, og bregða yfir sig hulins-hjálmi. En bóndi sá meira fram fyrir nefið á sèr, en nokkur vissi, sá hann, þegar njósnarmaður kom og lagðist á gluggann; spurði hann þá konu sína, hvar sauðarsíðan væna væri, sem þau hefðu leyft á spreingikvöld. Konan varð hrædd, og spurði, hvort hann vissi ekki, hvað við lægi; en hann sagðist ekki hirða um það, og skipaði henni að sækja síðuna. Þorði þá konan ekki annað en gjöra það; tók bóndi við síðunni og mælti: „Þetta er góður og feitur biti;" tók síðan lángan og oddmjóan hníf og rak í gegnum síðuna. Ljósið logaði dauft, en njósnarmaður grúfði sig niður að glugganum, til að sjá alt sem glöggvast. Bóndi fór tómlega að öllu; bar hann síðuna hátt og virti hana fyrir sèr á alla vegu, en hinn sá ekki hnífinn. En þegar minnst vonum varði, snýr bóndi sèr að glugganum, og lagði

1. Sbr. Dr. Maurers Isl. Volkss. 102.

hnífnum, er stóð í síðunni, gegnum skjáinn og í anga komumanns, svo á kafi stóð, og mælti: „Berðu þenna bita þeim, er sendi þig.“ Njósnarmaðurinn rak upp hljóð, og féll ofan. Hafði bóndi af honum sannar sögur, og dó hann síðan við mikil harmkvæli. Bóndi tjáði mál sitt fyrir Jóni lögmanni Sigmundssyni. Komu þeir að biskupi varbúnum, áður en hann hafði frètt afdrif sendisveins síns, og þó hann þrætti þess, að hann væri valdur að þessu, sá hann þó ekki annað ráðlegra, en að gjalda bónda mikið fè, en Jón lögmaður lèt dæma þá alla rèttlausa, er lægju á gluggum. Frá þeim tíma gat biskup ekki neytt sín öðru vísi, til að hafa fè af bændum, en að hræða þá til útláta, þegar hann sá það af fjöllkynngi sinni, að þeir höfðu verið slakir á föstuhaldinu, og drepa fyrir þeim fènað með göldrum, ef þeir lètu ekki alt liggja í hans skauti. Aldrei ýfðist biskup þó við bónda þann, er drap njósnarmann hans, því hann vissi, að þar kom hann ekki að tómum kofunum, en Jón lögmann ofsókti hann, frá því hann studdi mál bónda, því að hann kunni ekkert fyrir sèr, og hætti ekki, fyrr en hann hafði gjört hann fjárlausan. Gramdi Jón sig þá í hel, en stefndi biskupi á dánardægri fyrir guðsdóm;[1] en við því gat biskup ekki sèð, þó fjölkunnugur væri, því þá tók annar sterkari í taumana.

**Frá sèra Hálfdáni á Felli.** Sèra Hálfdán var uppi á 16. öld. Beztar sögur um hann höfum vèr fengið frá Jóni alþíngismanni Sigurðssyni á Gautlöndum (merktar J. S.), nokkrum hefir sèra Magnús Grímsson safnað eptir norðlenzkum skólapiltum 1845 (merktar M. G.). Gísli Konráðsson hefir og ritað söguþátt um sèra Hálfdán. Ekki horfa sögurnar í að gjöra Sæmund fróða og sèra Hálfdán að skólabræðrum, þó 450 ár sè milli þeirra.

Hálfdán Einarsson eða Eldjárnsson prestur á Felli í Slèttuhlíð í Skagafjarðarsýslu hafði lært í Svartaskóla með Sæmundi fróða. Var haun fjölkunnugur mjög, og gjörði marga samnínga við kölska, en sveik hann jafnan á eptir. Einu sinni hèt hann að gefa honum söfnuðinn sinn, ef hann bæri á völl fyrir sig. Kölska þókti vel boðið og bar á völlinn. En þegar hann var búinn og fór að vitja kaupsins, fèkk prestur honum skyrsá, og sagði að það væri sinn söfnuður. Reiddist þá kölski, og ætlar að hefna sín á Hálfdáni presti. Ber hann þá alla mykjuna af túninu fyrir kyrkjudyrnar. Þegar Hálfdán sèr það, skipar hann kölska, að bera alla mykjuna út á túnið aptur, og vera búinn að því morguninn eptir, og sleikja hana svo vel upp, að ekkert verði eptir. Kölski mátti til að gjöra þetta, og þegar presturinn kom á fætur næsta dag, hafði kölski borið mykjuna út á völlinn, og sleikt skál í helluna við kirkjudyrnar. Hellan liggur enn þar, sem kirkjan var áður, því hún hefir verið flutt úr stað síðan, og sèst lautin enn í dag í helluna. En í hefndarskyni gjörði nú kölski keldu eina mikla þvert yfir um veginn, sem heim liggur að staðnum. (M. G.)

1. það er alment talið, að þeir Gottskálk biskup og Jón lögmaður dæu báðir sama árið 1520, sbr. Safn til sögu Íslands II. bls. 107.

Sèra Magnús Grímsson hefir haft fyrirsögn fyrir þessari sögu: „Hálfdán prestur.“ Sbr. þessa frásögn við Kölski er í fjósi og Fjósmokstur fjanda og Kölski gjörir brú á Rángá í sögum af Sæmundi fróða, 487, 489 og 497. bls., og við Dr. Maurers Isl. Volkss. 140.—142. bls.

Hálfdán prestur og Ólöf í Lónkoti. Í Lónkoti í sókn Hálfdánar prests á Felli bjó kerlíng ein gömul, sem Ólöf hèt. Hún var fjölkunnug mjög, og áttu þau Hálfdán margar brösur saman. Eitt haust reri Hálfdán til fiskjar með mönnum sínum, og drógu þeir flyðru eina stóra. Þá var harka mikil, og var hásetum kalt. Þá segir prestur, þegar þeir kvörtuðu um kuldann: „Hvað ætli þið vilduð gefa mèr til þess, piltar, að draga nú heitan blóðmörskepp til að hressa ykkur á?“ Þeir sögðu, að hann mundi ekki geta það, þó hann vildi, en litlu síðar kemur prestur með sjóðheitan blóðmörskepp á aunglinum. Snæddu þá allir hásetarnir, og þókti vænt um. En á meðan hvarf flyðran úr skipinu. Þá segir Hálfdán prestur: „Hafa vill kerlíng nokkuð fyrir snúð sinn.“ Hálfdán seiddi keppinn frá Ólöfu, en hún aptur flyðruna frá honum.[1] (M. G.)

Hálfdán prestur Einarsson. Gísli Konráðsson nefnir og Sæmund skólabróður Hálfdánar. Einu sinni elti sèra Hálfdán Sæmund af alþíngi og náði honum við Sandkluftavatn og mælti: „ill er fylgja þín, bróðir, hrafn úr Niflheimi, og nú marka eg þig undir hans mark,“ og sló hann á kinnina og augað, og reið síðan norður og heim, en Sæmundur varð aldrei síðan heilskygn á því auga.

Málmeyarkonan. (J. S.) Svo er frásagt, að þau ummæli hafi legið á Málmey í Skagafirði, að þar mætti einginn maður vera leingur en 20 ár. — Einu sinni á dögum Hálfdánar prests bjó þar bóndi sá, er Jón hèt. Jón hafði reist bú í Málmey, og búið þar allan sinn búskap, enda voru nú og liðin þau 20 ár, er honum var óhætt þar að vera, og hafði einginn orðið til að áræða að vera þar leingur; en með því Jón bóndi var einarður maður, og lagði lítinn átrúnað á hindur-vitni, og þess annars, að Málmey var föðurleifð hans, og honum hafði liðið þar vel, þá vill hann hvergi fara, og líður svo hið 21. ár fram til jóla, að ekkert ber til tíðinda. En á aðfararkvöld jóla hverfur konan í Málmey, svo að einginn maður vissi hvað af henni var orðið; er hennar þó víða leitað. Jóni bónda þykir þetta hið mesta mein, og vill fá vissu um, hvernig á hvarfi konunnar stendur; býr hann því ferð sína á fund Hálfdáns prests á Felli; og er hann kemur þar, boðar hann prest á fund við sig, og segir honum sín vandkvæði. Prestur segir, að hann muni að vísu geta sagt, hvað af konunni hafi orðið, og hvar hún sè niður komin, en að það sè með öllu árángurslaust fyrir hann, því hann muni hèðan af eingar nytjar hafa af

1. Gísli Konráðsson kallar hana Hildigunni, og segir hún væri systir sèra Hálfdánar.

konunni. Bóndi spyr, hvort hann muni geta svo tilstilt, að hann fái að sjá konuna; „mun mèr verða mikið hughægra, ef eg feingi að sjá hana, og vita, hvar hún er niðurkomin,“ segir hann. Prestur segir sèr þyki mikið fyrir að veita honum þessa bæn, en hann verði að gjöra það fyrir þrábeiðni hans, og skuli hann koma að ákveðnum degi þegar allir eru háttaðir. Fer nú bóndi heim aptur, og þykir hafa vænkast sitt ráð; kemur hann aptur í Fell að ákveðnum tíma og er prestur á fótum og ferðbúinn. Sèr bóndi að grár hestur stendur norðan undir kirkjugarði með beizli og reiðtýgjum. Prestur geingur að hestinum og stígur á bak, og segir bónda, að setjast upp fyrir aptan sig; „en við því vara eg þig,“ segir prestur, „að þú talir ekki eitt orð, hvað sem fyrir þig ber eða ágeingur; því bregðirðu út af þessu, gildir það líf þitt.“ Prestur heldur nú af stað með bónda á baki sínu, og undrar bónda það mest, hvað hesturinn fer hart yfir. Fara þeir hina skemmstu leið fyrir utan Dalatá og Siglunes, og stefna á Ólafsfjarðarmúla; þykir bónda nú nóg um; og einhverju sinni er það, að hesturinn eins og kippist við, og tekur dýfu mikla, en bóndi verður hræddur og rekur upp hljóð. Prestur kallar upp og segir: „Þar skriflaði á skötu, og haltu kjapti,“ er það að máltæki haft síðan, þegar hestar hrasa eða verður fótaskortur. Segir ekki af ferðum framar, fyrr en þeir koma á land norðan undir Ólafsfjarðarmúla; eru þar hamrar geysi-miklir og brattir. Prestur stígur af baki og svo bóndi; geingur prestur að bjarginu, og dregur upp hjá sèr sprota einn lítinn; honum lýstur hann á bergið, og er lítil stund leið, opnast bergið, og koma þar út tvær konur bláklæddar, og leiða konu Jóns bónda á milli sín; er hún orðin næsta torkennileg og ólík því, sem hún var áður, þrútin og blá að yfirlit og hin tröllslegasta; krossmark var í enni konunnar með rèttum holdslit; sagði svo Hálfdán prestur aptur seinna, er hann var að spurður, að það væri skírnarkrossinn, og að það eitt merki hefði hún haft hinnar fyrri tilveru sinnar. Þegar konan er komin út úr berginu, talar hún til bónda síns og segir: „Þá ertu kominn Jón, og hvað viltu mèr.“ Bónda varð orðfátt, og spyr prestur hann, hvort hann vilji fá konu sína með sèr, eða hvort hann vilji nokkuð við hana tala, en bóndi neitar því. Vísar þá prestur konunum aptur inn í bjargið, og lýkur aptur eptir þeim, og bjó svo um dyrnar, að eingum skyldi framar mein verða að konum þessum. En svo hefir Hálfdán prestur frá sagt síðan, að ekki hafi hann troðið upp í rifur allar, því hann hafi aldrei ætlað sèr að gjöra við því, sem inn fyki, heldur hinu, sem út færi. Er þar síðan kölluð Hálfdánar-hurð norðan í Ólafsfjarðarmúla, þar sem Hálfdán prestur lauk upp bjarginu. Segja svo sannorðir menn, að hún sè rauð að lit, og ólík því, sem hitt bergið er, og að með henni sèu allmiklar gættir, einkum að neðanverðu, sem Hálfdán prestur hefir ekki viðgjört.

Hèldu þeir svo aptur hina sömu leið, bóndi og prestur, og komu að Felli fyrir fótaferðartíma; stíga þeir af baki í hinum sama stað og þeir

fóru á bak norðan undir kirkjugarði og tekur prestur reiðtýgi af Grána; en er hann tekur af honum beizlið, slær hann því í lend hans; Gráni kann því illa, og slær til prests með apturfæti; en prestur víkur sèr undan og kemur höggið í kirkjugarðinn, og kemur í hann skarð eða skot eptir hóf hestsins; er svo sagt að aldrei tolli í þessu skarði síðan, hverra bragða sem í hefir verið leitað með að hlaða uppí; það er og sagt, að eingum hafi orðið meint í Málmey síðan, enda hefir einginn árætt að vera þar leingur, en 20 ár.

Hálfdán prestur þjónar Hvammsbrauði. (Sèra Páll Jónsson í Hvammi hefir skrásett eptir gömlum manni á Skaga.) Svo er sagt, að einn tíma væri prestlaust í Hvamms og Ketu brauði. Þjónaði þá Hálfdán prestur í Felli því um hrið og reið Grána sínum yfir Skagafjörð þveran; var þó sjór auður og ísalög eingin. Á þeim ferðum lokaði hann hinum nyrðra munna Bauluhellis, er átti að gánga gegnum Tindastól utanverðan og endilángan. Bauluhellir sèst enn, og er nú að eins 5 eða 6 faðma lángur. Hann geingur við sjó niður í hinn nyrðra enda Tindastóls. En það er í sögum haft, að annar munni hans hafi að fornu verið í Atlastaðadal. Sá dalur geingur vestur í Tindastól, upp frá Atlastöðum; yrði hellirinn þá að hafa verið nær hálfri mílu á leingð. Nafn sitt er mælt hann hafi af því, að einn tíma hafi sækýr komið út af þeim munnanum, er á dalnum var. Í þetta mund átti að hafa verið svo mikill tröllagángur og óvætta á Ketubjörgum, að eigi þókti fært um alfaraveg þann, er eptir björgunum liggur. Var það jafnan vandi presta, er þeir riðu til messugjörðar í Ketu, að þeir tóku að hríngja með bjöllu, þá er þeir komu að. Sá hóll stendur við veginn, kippkorn fyrir innan. Hríngingunni hèldu þeir fram, uns þeir voru komnir út um björgin. Þennan reimleika tók Hálfdán prestur af, en lagði það ráð til um leið, að prestar skyldu taka upp hríngíngu þá, er áður er getið, og kvað þá mundi hlýða. Til merkis um þessar tröllabygðir í Ketubjörgum er það talið, að þau hafi haft þíng í skarði því, er liggur gegnum björgin, og er þar síðan nefnd Trölla-lögrètta. Þar sèst enn girðíng nokkur krínglótt, mjög forn, í miðju skarðinu.

Grímseyar-förin. (J. S.) Það var á einum vetri ofanverðum, að Hálfdán prest skorti skreið til búsins; var þá og ekki skreið að fá í nálægum sveitum, en heldur hart manna á milli. Prestur hafði haft útgjörð mikla í Grímsey, eins og þá var títt, því miklu var þá fiskisælla við Grímsey, en annarstaðar, og átti prestur þar skreið allmikla; en um þann tíma var ófært til Grímseyar sökum brims og stórsjóa. Prestur heitir nú á kölska, að hann skuli fá sálu sína, ef hann sækti fyrir sig skreiðina til Grímseyar, og láti ekki vökna; ella sè hann af kaupinu. Kölska þókti gott í boði, og geingur að kaupinu, en áskilur, að prestar leggi til farið. Prestur fær þá kölska öskutrogs-ræfil, og segir, að hann fái ekki annað

far; heldur kölski af stað, þó hann væri ekki ríflega heiman búinn. þetta var að áliðnum degi. En morguninn eptir er kona Hálfdánar prests snemma á fótum, og hyggur til veðurs; kemur hún inn aptur, og spyr prestur, hvernig veðri sè farið; en hún segir, að bjart sè veður og lopt heiðríkt, nema dökkur þoku-hnoðri sè í landnorðri og fari fljótt yfir. Prestur segir: „þá mun mál að klæða sig og hefir karl verið fljótur í ferðum.“ Klæðir prestur sig sem skjótast, og er hann kemur út, er kölski kominn í lendíngu. Verður honum svo bilt við, er hann sèr Hálfdán prest, að hann gáir sín ekki og geingur briminu yfir farið, svo öll skreiðin vöknar, og þó ekki meir en svo, að aðeins sá vætu á sporðunum. En er kölski skilar skreiðinni, sýnir prestur honum sporðana, og segir, að hann sè af kaupinu eptir samningi þeirra. Fèkk kölski þessu ekki mótmælt. Er svo sagt, að Hálfdán prestur skæri hið þynnsta af blöðkunni á hverjum þorski, er í var skreiðinni, og fleygði í kölska, og segði, að hann skyldi hafa það fyrir flutningskaup. Er þynnsta blaðkan á sporði þorskanna jafnan kölluð „skollablaðka“ síðan.[1]

Steinun á Tjörnum. (J. S.) Í Fells-sókn er bær einn, sem heitir í Tjörnum. þegar Hálfdán var prestur að Felli, bjó kona ein að Tjörnum, er Steinun hèt; er þess eigi getið, hvort hún var ógipt eða ekkja, þegar þessi saga gjörðist, en fyrir búráðum öllum var hún talin á Tjörnum; Steinun var hnigin á efra aldur, margfróð og mikilhæf í skapi, og lèt ógjarna hlut sinn við hvern sem um var að eiga.

það var einhverju sinni, að Steinun átti að lúka Hálfdáni presti dagsverk um heyannir; var þá sumar votsamt og gekk seint heyskapur að Felli; leið svo fram eptir sumri, að ekki lèt Steinun vinna presti dagsverkið. það var einhvern morgun síðla á slætti, að kominn var þerrir góður, og lætur Hálfdán prestur breiða alt sitt hey, og var það mikið, því svo var, sem ekkert hefði náðzt í garð um sumarið; en er leið á hádegi, kemur Steinun á Tjörnum og hittir prest að máli; segist hún komin að vinna honum dagsverkið, þó seint sè. Prestur varð fár við, og lèt sem lítið mundi dráttа um verk hennar svo gamallar og nú liðið að miðjum degi; en Steinun kvað þá nógan tíma að tala um, hvernig dagsverkið væri af hendi leyst, þegar því væri lokið. Er henni því næst vísað til fólksins á eingi og skyldi hún vinna að heyþurk um daginn. En er leið að nóni, tók að draga fyrir sól og gjörast skúralegt; skipar prestur svo fyrir, að fólk alt skuli fara að sæta upp heyið, og binda jafnótt heim í garð; biður hann hvern að duga nú sem bezt. En er fólk er tekið til verka, bannar Steinun því að binda heyið, og segir, að ekki muni lakara

1. Hèr af kemur það — segir sèra Jón Norðmann — að menn sumstaðar á landi vilja ekki jeta aptasta roðið af sporðblöðkunni. Í Grímsey heitir þetta veiði, og vilja menn þar ei heldur borða það, „til að borða ekki af sèr veiðina.“

að hlýða sínum ráðum, en presti að þessu sinni; þorir fólkið ekki annað en hlýða henni, og er hætt að binda; og er nokkrar sátur eru upp komnar, geingur Steinun að þeim, og veifar hrífu sinni yfir sáturnar. Bregður þá svo undarlega við, að sáturnar færast á kreik og renna hver eptir annari og heim í garð til prests; því prestur var heima að taka á móti heyinu. Er þar skjótast af að segja, að svona geingur það, sem eptir er dagsins; jafnótt og hver sáta er fullgjörð, hverfur hún heim að garði til prests, og er alt hey hirt um kvöldið. En er Steinun kemur heim að Felli um kveldið, þakkar prestur henni dagsverkið, og segist nú sjá það, að fleiri sjái ofan með nefinu á sèr, en hann einn; en svo hafði hann sagt optar seinna, að fullfeingið mundi sèr hafa orðið að taka á móti heyinu, ef hann hefði ekki haft ráð á fleirum vinnumönnum, en þeim er Steinun hefði vitað af.

Dauði Hálfdánar prests.[1] (J. S.) Svo er sagt, að þegar á leið æfi Hálfdánar prests, hafi hann gjörzt mjög hugsjúkur um hina eilífu velferð sína, og vandað til um framferði sitt, sem mest. En er leið að dauða hans, er hann vissi fyrirfram hvenær að mundi bera, sagði hann svo fyrir, að hann vildi láta búa sæng sína í húsi því, er hann hafði daglega búið i. Lèt hann byrgja það sem bezt, svo hvergi var smuga á, nema skráargatið. Hálfdán prestur átti eina fósturdóttur, er hann hafði alið upp af fátækt, og unni hann henni mest allra manna. Sagði hann svo fyrir, að eingiun skyldi vera hjá sèr, þegar hann lètist, nema fóstra sín, og skyldi hún nákvæmlega taka eptir því, sem fyrir hana bæri. Einn hrút mórauðan lèt hann vera undir sæng sinni, og 3 ljós standa á borði til höfðalags við sængina; sagði hann það til marks um velferð sína, að, ef ljósin slokknuðu í því bili hann lètist og hrúturinn væri kyr undir sænginni, þá færi hann illa; en lifðu ljósin öll, eða eitthvert þeirra, en hrúturinn hyrfi, þá færi hann vel. Og er leið að þeirri nótt, er prestur vænti dauða síns, var búið um stúlkuna, fósturdóttur hans, til fóta við rúm hans, hrútinn undir rúminu, en ljósin á borðinu; og er sú stund kom, að öndin leið upp af Hálfdáni presti, sèr stulkan, að 2 ljósin slokknuðu, en eitt lifði, en hrúturinn skríður fram undan rúminu, og hverfur út úr húsinu í gegnum skráargatið, og hefir hans aldrei orðið vart síðan. Hefir einginn síðan leitt í efa, að Hálfdán prestur hafi feingið góðan samastað eptir dauðann.

**Galdra-Leifi.** (Eptir sèra Magnús Grímsson.) Þorleifur hèt maður. Hann var Þórðarson. Hann var fæddur á efsta bænum í Tungunum eða Hreppunum. Þegar hann var á fyrsta ári sínu, eða ársgamall, og lá í vöggu, þá kom einu sinni stúlka ein ungleg til móður hans; því hún sat hjá barninu. Stúlkan heilsar konunni, og biður hana að hjálpa móður sinni, því hún liggi á sæng, og geti ekki fætt. Konan segist ekki mega fara frá

1. Sbr. Sæmundur á banasænginni í sögunum af Sæmundi fróða og Kálfur deyr í sögunum af Kálfi Árnasyni, 502. og 505. bls.

barninu. Stúlkan segist skuli vera hjá því á meðan. Fer þá konan eptir leiðsögu stúlkunar út fyrir völlinn. Þar kemur hún að hól einum við túnfótinn, og voru dyr opnar á hólnum. Konan fer inn og kemur þar að, sem kona liggur á gólfi. Hún heilsar henni, og hjálpar henni þegar. En er hún hafði laugað barnið og reifað, fer hún heim aptur. Sèr hún þá, að stúlkan ókunnuga er að leika við barnið í vöggunni með kæti mikilli, og hló barnið dátt. En þegar móðir Þorleifs kom inn, fór stúlkan undir eins burt. Ólst nú Þorleifur upp hjá móður sinni, og bar snemma á miklum gáfum hjá honum. Var það hald manna, að hann hefði fengið þær af fyrirbænum álfkonunnar. Þorleifur var skáld, og þótti hann krapta eða ákvæða-skáld. Hèldu sumir, að hann færi með galdur, og kölluðu hann Galdra-Leifa. Aðrir kölluðu hann Kjapta-Leifa, því þeir öfunduðu hann fyrir mælsku sína og gáfur. Það er sagt, að Þorleifur heyrði það einhverju sinni, að hann var kallaður Galdra-Leifi, þá kvað hann stöku þessa:

„Þorleifur heiti jeg Þórðarson,
þekktur af mönnum fínum;
hafði jeg aldrei þá heimsku von,
að hafna skapara mínum."

Hvergi átti Þorleifur stöðugt heimili, og fór hann milli vína sinna, og sat hjá þeim. Var honum jafnan tekið sem höfðingja, hvar sem hann kom. Þorleifur orti kvæði, sem heitir Skriptar minning.

Norður á afrètt austanmanna var tröllskessa ein. Hún stal sauðum manna, og rænti í byggðinni. Þótti mönnum hún illur gestur þar í nágrenninu, og sögðu þetta Þorleifi. Þorleifur lèt sem hann heyrði það ei, en nokkru síðar fór hann norður á afrèttina. Gengur hann þar til er hann finnur skessuna. Þegar hún sèr hann, segir hún: „Ertu kominn hèr, Kjapta-Leifi? Leggðu ekki til mín, láttu mig vera." „Farðu þá burtu, og kom þú hèr aldrei aptur," segir Þorleifur. „Það skal jeg gjöra," segir hún. „Svíkstu þá ekki um það," segir hann. Þá segir hún: „Ef ei væri meiri ótryggð hjá yður, mönnunum í sveitnnum, en hjá oss, tröllunum í fjöllunum, þá færi betur fram hjá yður, en fer." Síðan skildu þau, og sást skessan aldrei framar. Hèldu menn, að hún hefði ekki gefað um að verða fyrir ljóðum eða ákvæðum Þorleifs.

Einu sinni var Þorleifur á ferð austur í Ölvesi, og kom hann að bæ til vinar síns á aðfangadagskvöldið fyrir jól. Þorleifur biður bónda að lofa sèr að vera um nóttina. Bondi sagði honum húsin til reiðu: „en vandkvæði nokkuð er á því, að vera hèr heima þessa nótt; því allir hafa þeir orðið ærðir og trylltir, sem það hafa gjört." „Ekki hræðist jeg það, og mun jeg eigi að síður heima vera, þó svo sè." Fór nú bóndi og menn hans að búa sig til aptansöngs, eins og þá var siður. En svo var háttað, að baðstofa var byggð á palli, og var sinn þverpallur í hvorum enda.

Undir öðrum palliuum voru lömb nokkur, sem bóndi hafði tekið frá. En á milli pallanna var svið mikið og rúmgott. Þorleifur lèt uú reka lömbin undan pallinum, og gróf þar gröf í gólfið, svo hann gat staðið niðri í henni. Fór hann þá niður í gröfina, og lèt repta yfir. Gat hafði hann á ræfri gryfjuunar, og gat hann sèð gegnum það um alla baðstofuna. Því næst lèt hann reka lömbin undir pallinu aptur, og sópa moldtaði yfir gryfjuna, svo ei sást nývirkið. Að þessu búnu fóru allir heimamenn burt til aptansöngsins. Leið svo fram undir miðja nótt, að ekki varð Þorleifur neinnar nýlundu var. En þá sèr hann, hvar koma piltar tveir. Þeir höfðu ljós með sèr, og lýstu vandlega um allan bæinn. Þegar þeir koma á baðstofugólfið, sögðu þeir: „hèr er hreint, hèr er heitt, hèr er gott að leika sèr.“ Síðan fóru piltarnir út aptur. En að litlum tíma liðnum heyrir Þorleifur undirgang mikinn. Sèr hann þá fjölda fólks koma inn í baðstofuna. Allir voru þeir prúðbúnir. Þeir höfðu með sèr borð eitt, settu þeir það á mitt gólfið. Síðan settu þeir mat og vín á borðið, og tjölduðu innan alla baðstofuna. Settist nú fólkið niður við borðið, og fór að èta og drekka. Nú koma og inn sveinarnir, sem fyrst komu, og höfðu milli sín karl einn gamlan og illilegan. Karlinn skyggndist um, er hann kom inn, og þefar í allar áttir, og segir: „hèr er maður, hèr er maður.“ Piltarnir sögðu, að þar væri enginn. Settist þá karlinn við borðið, og sveinarnir.[1] Snæddu nú aðkomumenn og drukku með gleði mikilli. En er þeir voru búnir að því, fóru þeir að dansa. Þetta lètu þeir ganga alla nóttina. En er Þorleifur hèlt að dagur væri kominn, drynur hanu í holunni: „Dagur, dagur.“ Varð þá aðkomendum svo bilt við, að hver hljóp út, sem búinn var. Skildu þeir alt eptir, bæði borðið, borðbúnaðinn, tjöldin, og nokkuð af klæðum sínum; því þeir höfðu farið úr þeim um nóttina, þegar þeim fór að hitna við dansinn. Piltarnir tóku karlinn, og drógu hann milli sín; var hann þá linur sem lyppukveykur, og bleikur sem nár af ótta. Það sagði Þorleifur, að þegar fólkið ruddist út, hefði það verið, eins og þegar lömbum er hleypt út úr stekkjum. Þegar allir voru út komnir, fór Þorleifur upp úr holu sinni. Var þá skammt að bíða, uns bóndi kom frá kirkjunni. Varð hann þá feginn að finna Þorleif, og þótti nú betur hafa til tekizt, en hann hugsaði. Þorleifur sagði honum alt sem fyrir hann hafði borið. Bað hann bónda að hirða það, sem álfarnir höfðu eptir skilið, og sagði að ei mundi þess verða vitjað. Bóndi vildi að Þorleifur tæki gripina, en Þorleifur vildi ei. Þorleifur sagði, áð engum mundi verða hætt á þeim bæ, þó hanu væri þar heima á jólanóttina, og rættist það vel.[2]

Gísli Konráðsson segir frá viðskiptum Leifa við Eirík norska; hann

1. Sumir segja, að karli hafi þó enn ekki verið grunlaust, og hafi hann þá sagt: „mæli eg um, og legg eg á, að hver sá maður sem hèr er yfir jörðu eður á, ærist og villist.“ En hann varaðist ekki það. að Þorleifur var neðanjarðar.

2. Sbr. 118—119. bls. á undan.

hafði beðið dóttur bóndans á Dynjanda í Jökulsfjörðum, en hún neitaði, heitaðist þá Eiríkur við hana, og sagðist skyldi senda henni legunaut. Þegar sendíngin kom að Dynjanda, var Leifi þar gestur; er þá sagt að Leifi brygði grasi því er Fjaudafæla (gnaphalium) heitir, vöfðu í varnarstöfum, milli draugsins og stúlkunnar, svo hann komst ekki að henni. Síðan vakti hann yfir henni meir en hálfan mánuð; einu sinni sat hann á skörinni fyrir framan hana, og stakk með löngum hnífi ofan fyrir pallstokkinn, og kom með mannshryggjarlið upp á hnífsoddinum; þá var sagt niðri: „stíktu aptur.“ Þorleifur svaraði: „ein bót nægir í senn.“ Síðan hvarf draugsinn, og bóndadóttur batnaði.

Það er sagt, að Þorleifur tæki eitt sinn höfuð af nýdrukknuðum manni, aðrir segja það barnshöfuð verið hafa, og hefði það til spásagnar og fjölkyngi; er sagt, hann vökvaði það helgu víni og brauði, og geymdi ýmist í kistu sinni eða klettaskoru nokkurri, ef hann vildi frèttir af hafa. Mjög vandlega geymdi hann höfuðið og leynilega; var það þó eitt sinn, er Þorleifur var til kirkju farin að Ögri, að Gróa, kona Þorleifs, leitaði að nokkru, er hún ætlaði í kistu Þorleifs manns síns; gat hún þá fundið lykla og lauk upp kistunni. Sá hún þá silkistráuga í henni vandlega saman vafinn; fýsti hana að vita, hve mikið vera mundi, rakti því strángann sundur, en bilt varð henni við, er hún sá þar mannshöfuð í innan, og því meira, er henni heyrðist það segja: „Þey, þey, Gróa, far þú ekki með það, sem hann Þorleifur minn á.“ Skeldi hún þá kistunni sem skjótast í lás, og hrökk frá.

Enn fremur segir Gísli frá nokkrum skiptum Leifa við Ara í Ögri, og er sú ein saga, að Ari beiddi Leifa að hreinsa skip sitt sem legið hafði klökugt og gaddfrosið, og hèt honum kaupi, því hann hèlt að vinnumenn sínir mundi skemma skipið. Þessu hèt Leifi. Litlu síðar kom Ari að honum við skipið; stóð Leifi þar auðum höndum aleinn, en klakastykkin flugu víðsvegar úr skipinu. Þá sagði Leifi, sem síðan er haft að máltæki: „hægt, hægt, brjótið ekki skip fyrir Ara bónda.“ Lauk hann svo þessu verki lètt og vel.

**Frá sèra Magnúsi á Hörgslandi og Höfðabrekku-Jóku.** (1652—1686.) Sèra Magnús og sèra Illugi. (Eptir Rúnolf Jónsson í Vík í Mýrdal.) Svo er sagt, að prestur sá hafi þjónað á Kirkjubæarklaustri,[1] sem Illugi hafi heitið; var hann kallaður fjölkunnugur og hafi hann verið mjög óvinsæll. Hann skal af einhverjum atburðum hafa mist prestinn og hafi þá sèra Magnús feingið brauðið og komizt í að bera Illuga út; hafi þá Illugi verið orðinn blindur, og þegar hann hafi verið útborinn, hafi hann

1. Magnús prestur kom næstur eptir Illuga að Kálfafelli á Síðu, en einn prestur var á milli þeirra á Kirkjubæarklaustri, og gat vel verið, að Illugi hefði verið þar karlægur, er Magnús kom þar, og orðið að bera hann út.

hrækt í allar áttir, um leið og hann fór út úr húsunum, en þá hafi séra Magnús haft svarta vetlínga á höndum og þurkað með þeim hrákana Illuga prests jafnóðum, en í bæardyra kampinn hafi hrákinn lent inni í holu, milli steina, svo Magnús prestur náði þar ekki til að þurka, og hafi sá kampur litlu síðar hrunið niður. En þegar Illugi var út kominn skal hann hafa beðið séra Magnús að bera sig að skilnaði í kríng um kirkjuna. Því skal Magnús prestur hafa tekið vel, en í þess stað hafi hann látið bera Illuga í kríng um hjall, sem Illugi átti, og hafi þá hjallurinn sokkið. Ekki er þess getið, að þeir hafi átt fleira saman í það sinn. En Illugi skal hafa farið eitthvað lángt burtu, en hafi jafnan síðan hatað séra Magnús og sent honum fjarska margar sendíngar, en prestur hafi aldrei verið varbúinn við þeim. Loks er sagt, að Magnús prestur hafi lagzt til svefns og sofnað, en kona hans hafi þá verið að skamta graut utar við dyr í sama húsi, sem prestur svaf í; hafi hann þá vaknað við það, að kona hans hafi sagt: „Harðar klaufir Illuga,“ og hafi hún þá dáið á sömu stundu; en grár hrútur hafi geingið innar á mitt gólfið. Segir þá sagan, að prestur hafi risið upp í flýti og kveðið vísu þessa:

„Stattu kyr á gólfi, grár,
Í guðs nafni eg særi þig,
Hrærðu þig ekki heljar ár;
en herrann Jesús styrki mig.“

Svo er sagt, að vísurnar hafi verið alls 6; en grái hrúturinn hafi verið séra Illugi gamli apturgeinginn, og að aldrei hafi orðið vart við hann síðan.

Flóða-Labbi.[1] (Eptir sama.) Svo er sagt, að í tíð séra Magnúsar á Hörgslandi bjó bóndi nokkur í Hvammi undir Eyafjöllum, sem ekki er nefndur; en þó er þess getið, að hann hafi verið tveggja maki til karlmennsku. Bóndi þessi fór eitthvert sinn á fjöru og fann þá dauðan mann, rekinn af sjó. Hinn dauði var í kjól og stígvélum og næsta skrautbúinn. Bóndi flutti líkið heim til sín og stóð fyrir grepti þess að Holti, því bóndi átti þángað kirkjusókn. Þetta var um vetur og var snjór og hjarn yfir alla jörð. Svo bar til eitt kvöld, eptir að búið var að jarða hinn dauða, að bóndi fór út í vökulok, um það leyti sem konur fóru í fjós að mjólka. (Sumir menn segja, að bóndi hefði ætlað að ná ábæti, er gefa átti kúnum um mjaltirnar, því áður hefðu menn orðið þess varir, að hinn sjórekni hafi ekki legið kyr, og því hafi menn forðast að vera á ferli um nætur, en bóndi hafi ekki farið að því.) Bóndi kom ekki inn um nóttina, en að morgni var hans leitað; fannst þá traðk mikið fyrir sunnan bæinn. Markarfljót, sem rann þá austur af Hvammsleiru, var allagt með traustum ís og lá traðkið suður yfir það, en þegar leingra kom suðureptir, varð vart

1. Sbr. Dr. Maurers Isl. Volkss. 66. bls.

við blóðdropa í traðki þessu. Þetta traðk lá suður undir sjó og þar fannst bóndi dauður; var þá bóndi hryggbrotinn og nokkuð rifinn. Bóndi þessi var síðan jarðaður og varð eingum mein að honum. En hinn sjórekni var síðan bæði nótt og dag á gángi, og þókti vera illur gestur, þar sem hann hèlt til; þókti eingu lifandi óhætt fyrir honum og gjörði hann margt ílt um Holtshverfið; festist þá við hann nafnið Flóða-Labbi Nú með því að Markarfljót rann, eins og fyrr er getið, austur af Hvammsleiru og austur í Rimhús-ál, þá fóru allir ferðamenn austur úr Hvammsnúp, sem er nokkurs konar einstigi. Í þessum stað hafðist Flóða-Labbi við í stíg þessum, og glettist við þá, sem þar fóru, setti yfir um á áburðarhestum og fleira; þókti þar ekki fært, nema um bjartan dag, og þó svo að eins, að margir væru saman, og þókti að þessu hið mesta mein. Svo er sagt, að presturinn í Holti, sem átti jafnan frábæra reiðhesta að gángi og fimleik, hafi eitthvert sinn riðið austur úr Núpnum og ætlað heim til sín; stóð þá hesturinn kyr, þar sem gatan er tæpust og vildi ekki á fram, hvernig sem prestur reyndi til að koma honum. Þetta leiddist presti og sló svipunni milli eyrnanna á hestinum; tók þá hesturinn það viðbragð, að hann stökk í lopt upp meir en mannhæð, og stöðvaðist ekki, fyrr en heima á hlaði í Holti; kvaðst prestur ætla, að Flóða-Labbi hefði staðið í götunni, þó hann sæi hann ekki, og hesturinn hefði stokkið yfir hann. Um sumarið fóru menn að vanda til kaupstaðar, og meðal annara sèra Magnús á Hörgslandi. Hann kom að Holti, þegar hann fór út með Fjöllunum, en lestin hèlt á fram. Þegar lestamenn prestsins komu út í Hvammsnúp, var Flóða-Labbi þar fyrir og setti yfir um á öllum hestinum, og þegar þeir lètu upp, setti hann jafnótt ofan aptur; gekk þetta, þar til prestur kom til þeirra. Bað hann þá menn sína láta upp klyfjarnar, kvað hann Flóða-Labba ekki mundu steypa ofan, meðan hann stæði hjá þeim. Þegar þeir höfðu látið upp, bað prestur þá halda á fram til næsta áfángastaðar, sem var þaðan skamt frá. Þar skyldu þeir bíða sín til hádegis næsta dag, en yrði hann þá ekki kominn, mundi ekki þurfa að vænta eptir sèr framar. Síðan hèlt lestin á fram, en prestur snerist að Flóða-Labba og bárust þeir þá á ýmsa vega niður í mýri þá, er þar er skamt fyrir neðan og austan; segja sumir þeir hafi borizt fyrir við Desjarhól, og taki hann þar af nafnið, og heiti Dysjarhóll. Aptur á móti segja aðrir, að þeir hafi borizt fyrir við pytt einn djúpan í mýrinni. En hvernig sem það er, þá kom prestur fyrst til manna sinna í tjaldstað um dagmálabil daginn eptir, og var hann þá mjög dasaður; sagði prestur sjálfur frá því, að hann hefði átt mjög ervitt við Flóða-Labba, og hefði mest ollað því, að hann hefði verið skáld mikið og þegar prestur hafi verið búinn að kveða á 10 túngum, sem hann hefði kunnað og Flóða-Labbi líka, þá sagðist prestur þó ekki hafa kunnað það málið, sem hinum var tamast, en þó hefði sèr auðnast að síðustu að bera hærri hlut, og þegar Flóða-Labbi hafi verið kominn svo lángt niður, að höfuðið hafi verið

jafnt foldinni, þá hafi hann beðið sig að stíga nú að skilnaði á höfuð sitt. Það sagðist hann hafa gjört, en brugðið um leið hnífi á skóþveinginn; hafi þá skilið svo með þeim, að Flóða-Labbi hafi farið þar niður með skóinu fastan á höfðinu, en prestur hafi reynt til að gánga svo frá, að hann kæmi ekki upp aptur. Enda varð aldrei vart við Flóða-Labba síðan.

Höfðabrekku-Jóka. (Eptir Runólf Jónsson í Vík í Mýrdal.) Svo er sagt, að í fyrndinni hafi kona sú búið á Höfðabrekku, er Jórun hèt. Er það flestra manna sögn, að hún hafi verið ekkja, er þessi frásaga gjörðist; en þó mæla sumir á móti því, og færa það til, að hún hafi eptir dauðann sókt fast eptir að komast í rúmið hjá manni sínum, er Vigfús hefir heitið. Jórun var stórlynd mjög og skaphörð, en ekki fór að öðru leyti slæmt orð af henni. Hún átti dóttur gjafvaxta og efnilega. Maður sá var hjá Jóruni, sem Þorsteinn er nefndur; segja sumir hann hafi verið fyrirvinna hjá henni, og þar að auki er sagt hann hafi verið fóstursonur hennar, væun og efnilegur maður. Hann lagði hug á dóttur Jórunar, en það líkaði henni illa; því þeir, sem segja, að hún hafi verið ekkja, segja og, að Jórun hafi sjálf viljað eiga hann; en Þorsteini hafi þókt hún of gömul, og var þar að auki búinn að festa ást á dóttur hennar. Nú fóru svo leikar, að Þorsteinn átti barn við dóttur Jórunar; varð hún þá afar reið, og sagði, þau skyldu aldrei fá að ná saman; og þó margir legðu góð orð til með Þorsteini, var það ekki til annars, en gjöra ílt verra. Loksins varð það að sætt milli þeirra Jórunar og Þórsteins, að hann skyldi fara burt frá Höfðabrekku, og skipta sèr alls ekki af barnsmóður sinni framar. Með þessum skilmálum sættust þau heilum sáttum, og leið svo árið, að ekki bar til tíðinda.

Það var siður á Höfðabrekku, eins og víða var í þá daga, að flutt var málnytu-fè til sels, og var dóttir Jórunar jafnan selmatselja. Af því Þorsteinn gat ekki gleymt barnsmóður sinni, sætti hann þessu lagi, að koma leynilega til hennar í selið, til að færa henni einhverja laglega gjöf; en stóð þar lítið eða ekki við. Nú var þetta þegar flutt til Jórunar, og svo orðum aukið, að henni skildist svo, sem Þorsteinn hefði þar svo að segja annan fótinn. Varð hún þá svo reið, að hún kvaðst skyldi hefna á Þorsteini dauð, ef sèr tækist það ekki lifandi; og þetta dró hana til dauða. Þá var Magnús prestur Pètursson á Hörgslandi á Síðu; Þorsteinn gat fundið hann, og leitaði hjá honum ráða. Rèð prestur honum að fara samstundis út í Vestmannaeyar, útvegaði honum fylgdarmenn alla leið, og sagði honum að koma ekki til lands aptur, fyrr en full 20 ár væri liðin.

Nú víkur sögunni til Jórunar; hún dó, sem fyrr var frá sagt, og gekk aptur, og er þess alls ekki getið, hvort hún var nokkurn tíma grafin, eða ekki. En aptur á móti sást hún gánga um sýslur á Höfðabrekku; opt var hún að skamta í búri, en lèt jafnan mold saman við; að öðru leyti

lagði hún ekki ílt til nokkurs manns, þó hún geingi daglega um, með skautið lafandi aptur á milli herðanna, og var hún af því auðkend frá öðru kvennfólki. Opt þóktust menn sjá hana á gángi á ýmsum stöðum. Eitthvert sinn skyldi hún hafa mætt Magnúsi presti á Hörgslandi á förnum vegi; studdist hún þá við einhvern hestinn, sem í ferð hans var. Er þá mælt, að prestur hafi sagt við hana: „Illa förstu með þig, Jóka.“ Hún svaraði: „Minnstu ekki á það, Mángi prestur; seint er að iðrast.“ Í sama bili var hún horfin; en hesturinn, sem hún studdist við, var bógbrotinn. Í öðru sinni vöktu stúlkur tvær um nótt í fjósi; höfðu þær ljós, og voru uppi á fjóspallinum; sagði þá önnur þeirra: „Hvað ætli okkur yrði við, ef að Höfðabrekku-Jóka kæmi nú til okkar?“ En í sama vetfángi rak Jóka höfuðið upp undan pallinum, lagði hendurnar upp á pallinn og sagði: „Hvað ætli ykkur yrði við?“ Stóð hún þar litla stund, og hvarf síðan; en lagði ekki frekara til stúlknanna. Eitthvert sinn, sem optar, fór skip út til Vestmannaeya, og þegar formaðurinn ætlaði að kalla lag úr landi, sagði einn hásetanna við hann: „Ætlar þú að flytja djöfullinn út í Eyar?“ Formaður kvaðst ekki hafa ætlað sèr það, og spurði hásetann, við hvað hann ætti. Hásetinu sagði, að Jóka væri komin á skip út. En er þeir töluðust þetta við, fór Jóka af skipi; einginn hafði að því sinni sèð hana, nema þessi háseti.

Þegar Þorsteinn var búinn að vera nítján ár í Eyunum, eirði hann þar ekki leingur, og fór því til lands um vortíma. Það var um þann tíma, er landmenn voru sem tíðast að fara til Eyanna. Meðal annara ætlaði og Magnús prestur, sem fyrr er nefndur, út þángað. En undir eins og Þorsteinn var stiginn á þurt land, var Jóka þar komin; greip hún Þorstein þegar, og tætti hann allan í sundur. Þegar hún hafði lokið því starfi, kom Magnús prestur í sandinn. Segir þá Jóka við hann: „Seint er komið, en hart er riðið.“ Prestur svarar: „Satt er það; en þó skal þèr nú að fullu vinna, ef eg má ráða.“ Tók prestur þá að kveða við Jóku, og er þessi vísa ein af þeim:

„Heklugjá er heljar-krá,
henni gusar eldur frá;
stofuna þá eg stefni þèr á,
stað skalt' eingan betri fá.“

Hvarf þá Jóka von bráðar, og stóð það ekki á laungum tíma, að þau áttust við; ekki hefir orðið vart við Jóku síðan.

Missögn tekin eptir „Ljóðabók Jóns Þorlákssonar, II. Kaupmannshöfn, 1843, 574 bls.“ Þar segir, að sonur hennar hafi átt barn við stúlku, er Jóku líkaði stórilla; lèzt hún aldrei mundi fyrirgefa honum slíka ódæðu, heldur kvaðst hún mundu hafa líf hans dauð eða lifandi. Síðan fór, eins og hèr segir að framan, að hún gekk aptur, sókti að piltinum, svo honum var ráðið að fara út í Vestmannaeyar og vera þar full 20 ár. En hann

fór til lands á 19. ári, og er hann steig á Eyasand,[1] þreif Jóka hann á lopt og færði hann niður við fjörunni svo hart, að hann var jafnskjótt dauður. Þenna athurð sáu allir skipverjar, og sögðu þeir, að Jóka væri troðin upp að knjám af laungum erli. Síðan mætti hún séra Magnúsi á Heiði; hann mælti: „Skólítil ertu nú orðin, Jóka." „Nefndu það ekki, Mángi," sagði hún. Síðan lèt hann hana fylgja sèr að jarðkerinu á Grænafjalls-afrètt, og kom henni þar fyrir. Sumir segja, að sèra Eiríkur á Vogsósum hafi kyrsett Höfðahrekku-Jóku við hver einn, og haldi hún þar trefilsenda, en annar endi trefilsins sè fastur í hverinum.

**Einar prestur galdrameistari.** (Eptir handriti Gísla Konráðssonar.) Einar prestur var Nikúlásson frá Hèðinshöfða, og hèlt Skinnastaði. Þorbjörg hèt kona hans; þeirra synir voru Jón prestur, sem kallaður var greipaglennir, og Þórarinn, kallaður Galdra-Þórarinn, sem sagt er að hefði sagnaranda. Einar var fjölkunnugur mjög, og því var hann kallaður galdrameistari; hann kendi og sonum sínum fjölkynngi.

Það var einu sinni í harðæri, að prestur vildi seiða hval til sín á Skinnastaðareka; en kirkjan á jörð, sem Akur heitir 5 hundr. að dýrleika, og þriðjúng sjávarlands með rekum og ítökum. Þegar prestur kom á rekalandið, tók hann það ráð, að hann lèt grafa sig í land niður við sjó, og hafði þar hjá sèr Þórarinn son sin, að gæta þess, ef hann sæi ský a nokkuð til hafsins, því veður var heiðríkt. Prestur starfaði að særíngum niður í sandgröfinni um hríð, en Þórarinn gætti veðrabrigða. Að lyktum sá hann, að syrti til hafs, og segir föður sínum. Prestur sagði, að þá væri nokkurs von, og gól enn ákafar galdrana. Því næst dró ský upp í hafi og bakka mikinn; rak þegar á æsíngs norðanveður með hrimróti miklu. Kastaði þá stórum hval upp; við það skreið prestur úr sandinum, og bauð mönnum að fara og skera hvalinn, lèt flytja hann heim til sín og sjóða, áður en aðrir höfðu af honum neytt. En prestur lèt niðursetníng sinn jeta fyrsta bitann, og datt hann dauður niður. Eptir það át prestur sjálfur og sakaði ekki, og sagði hann þá, að öllum mundi óhætt að neyta hvalsins, og byrgði Einar prestur þannig sveitina með hval þessum ókeypis. Af því mjög varð hljóðbært um fjölkynngi Einars, spurðist það og vestur í Arnarfjörð; tóku þá Arnfirðíngar og aðrir Vestfirðíngar sig saman um að senda strák einn fjölkunnugan, sem nokkrir nefna Björn, norður að Skinnastöðum, að vita, hversu máttugur Einar væri. Hann kom norður að Skinnastöðum, þegar Jón var orðinn aðstoðarprestur föður síns. Þeir feðgar þóktust vita, hvers erindis Björn fór, tóku vel við honum og settu hann inn í baðstofu. Þegar hann hafði dvalið þar 2 eða 3 nætur, og þókt heldur hnýsinn um hvað eina, voru þeir feðgar að bauka eitthvað úti í kirkjugarði; en strákur sat á skák inni í baðstofu, og sá, að stelpa, hèr um bil þriggja eða fjögra

1. Þ. e. Landeyasand.

vetra, kom inn til hans. Hann spyr, hvað hún vilji, og heyrðist honum hún stama því út: „að drepa þig.“ Strákur skipaði henni með harðri hendi að fara í fjósið og drepa beztu kúna fyrir prestunum og nautið, og það gerði hún. Strákur gekk í hámót á eptir henni og magnaði hana, og bauð henni að drepa prestana. Hljóp hún fyrst á Jón prest, og ætlaði að bana honum. Segja sumir, að hann glenti þá út greipar, og tæki árshamr;[1] var hann því kallaður greipaglennir, en aðrir segja, að hann glenti jafnan greipar síðan, er hann blessaði. Sagt er, að Einar prestur þæktist aldrei hafa komizt í slíka raun, sem yfirstíga stelpu þessa og setja niður. Síðan fór Björn frá Skinnastöðum, og kom í Klifshaga til bóndans, sem þar bjó. Kom strákur sèr vel við hann, enda var hann lítill vin Skinnastaðapresta. Kvartaði bóndi um það fyrir Birni, að sèr yrði ekki haldsamt á kúm sínum, og ylli það búsveltu. Björn rèð honum að kaupa tvennum verðum kvígu að Skinnastaðaprestum, og varð bónda það að liði, því þá tók af kúamissirinn. Bóndi kvartaði og yfir því, að Skinnastaðaprestar vissu alt, sem um þá væri talað. Björn kendi honum það ráð við því, að hann skyldi aldrei nefna þá öðruvísi, en „mennirnir undir brekkunni,“ eða „mennirnir undir höfðanum.“ Er sagt, að þá rendi þeir ekki grun í, hvað um sig væri talað.

Enn er það sagt, að Björn feingi dóttur bóndans í Klifshaga, en ekki er þess getið, hvar hann bjó. Sagt er, að hann hafi verið bóndi sá, sem Einar prestur ætlaði að gefa eitur í kaleik, af því jafnan væri óvild mikil og hatur í milli þeirra, síðan Björn kom fyrst að Skinnastöðum. Þetta barst svo að, að þegar niður var kropið, sá bóndi, að prestur laumaði einhverju í kaleikinn; fór Björn þá fram fyrir þann, sem næstur honum kraup, en af því prestur mátti ekki hlaupa yfir mann, lèt hann þann bergja, sem innar var, og hnè hann þegar dauður niður, en Björn sakaði ekki, því prestur hafði ætlað honum galdraflugu, en hún flaug ofan í þann, sem fyrr var bergt. Þegar bóndi kom heim frá kirkjunni, æpti barn hans til bana um nóttina. Þegar búið var að grafa það fyrir tveimur dögum, var Björn mjög ókátur að kvöldi hins þriðja dags. Vinnumaður hans spurði, því hann væri svo hnugginn, því Björn stundi við. Björn svaraði: „það er fátt verra, því nú er Einar prestur að vekja upp lífsafkvæmi mitt.“ En að lítilli stundu liðinni, gekk Björn með tálknsprota að kistu nokkurri, og barði hana með öllu afli. Furðaði menn það, og ætluðu sumir, að hann væri orðinn ær, en hann lèt ekki af barsmíðinni alt til miðnættis. En það frèttist frá Skinnastöðum, að Einar prestur tók sótt svo geysta sama kvöldið, að hann dó, áður en dagaði, og var það almæli, að það hefði orðið af völdum Bjarnar. Einar prestur andaðizt gamall 1699. Hann var íþróttamaður, en mest er á orði haft um útsaum hans; er honum eignað altarisklæðið í Reykjahlíð, sem sagt er að sè gert af mikilli list.

1. Árshamur veit eg ekki hvað er.

þeir voru helztir af sonum Einars, sem fyrr eru nefndir: Galdra-þórarinn og sèra Jón Greipaglennir, sem fèkk Skinnastaði eptir föður sinn. Sagt er það um Galdra-þórarinn, að hann lægi 3 dægur upp á háfjalli aptur á bak, gapandi með líknahelg í munni, alt til þess að loptandi flygi í munn honum, og gat svo náð honum; því einginn andi er sagt að geti komizt úr líknahelg. þó segja sumir, að sagnaranda verði að taka í belg af frumsafrumsa kálfi.[1] þess vegna kom þórarni ekkert á óvart; en eingum gerði hann mein.

**Jón prestur gamli á þæfusteini.** (Eptir handriti frá sèra Eiríki Kúld.) Jón var orðinn prestur í Nesþíngum undir Jökli 1580; bjó hann á þæfusteini, en árið 1596 bjó hann á Fróðá. Hann bjó og leingi í Nesi. Jón var haldinn fjölfróður og eru margar sagnir um það, að honum kæmi fátt á óvart. það er eitt með öðru, að sagt er að hann næði sagnaranda upp á Snæfellsjökli, og lagi til þess upp í lopt um 6 dægur með gapandi munni, en hefði líknarhelg úr „frumsafrumsa kvígu,“[2] í munni sèr, en eptir það lèti hann andann, þegar hann hafði hamið hann í helgunum, í hrosshófs öskjur, sem hann geymdi í „frumsafrumsa“ skinni. Var það og enn sagt, að jafnan mundi hann geta sagt fyrir, hvort sá maður færi vel eða illa, sem hann saung yfir. Sagt er, að Jöklamenn sæu ofsjónum yfir þessari fjölfræði hans og vildu reyna, hvað góður hann væri í fræði sinni, og tækju sig því saman nokkrir bændur á Hellissandi (aðrir segja 12 galdramenn) til að vèla prest eða reyna kunnáttu hans. það var eitt sinn, þegar sveitakerlíng ein dó, að þeir grófu hana utangarðs, án vitundar prests, en smíðuðu líkkistu, og lètu í hana stóra laungu, báru hana til kirkju og báðu prest að sýngja yfir, og gerði hann það, því hann varaðist ekki brögð þeirra; að því búnu spurðu þeir prest, hvort aumíngi sá mundi hafa vel farið, svo hvumleið sem hún hefði verið hverjum manni í lífinu; varð hann þá ekki eins fljótur að svara, eins og hann var vanur, og kvað þá vísu þessa, sem fjölda manna er kunn:

„Komið er híngað kistu hró
klúngrað saman af ergi
sæðið er af söltum sjó,
en sálina finn eg hvergi.“

1. Frumsa-kálfur (eða kvíga sbr. Jón prestur gamli á þæfnsteini) ætla eg muni vera fyrsti kálfur, frumkálfur (sbr. frum og frums, hjá Birni Haldórssyni) kvígu; en væri hèr ekki öðru frumsa of aukið í frumsa-frumsa kálfur, kynni að mega geta sèr til, að það væri frumkálfur bæði kvígunnar og graðneytisins (sbr. frumsa-frum hjá Birni Haldórssyni.) Frumsa heitir annars ketflykki það, sem er framan í enni á nýköstuðu folaldi, og er sagt, að merin gleypi það, undir eins og hún hefir kastað. Folaldsfrumsa þókti að fornu fari eitthvert ágætasta töframeðal til ásta hèr á landi, alt eins og hjá Rómverjum, sjá Virg. Æneis, IV, 515.—16., Georg. III, 280.—84. og Plinius, VIII, 66.

2. þannig Gisli Konráðsson, er saga þessi er tekin eptir.

þá er sagt, að hann legðist til svefns, og hefði vísuna þannig, þegar hann vaknaði:

„Er það lánga yfrið mjó,
eingin sveitakerlíng dó,
sæðið er af söltum sjó,
en sálina finn eg hvergi þó.“

Sagt er, að sóknarmenn bæru brygður á sannsögli prests, og heimtuðu, að hann sýndi launguna, ella færi hann með markleysu; prestur svaraði fáu, því hann vissi, að fjölkynngi mundi viðhaft, og þeir villa fyrir sèr, sem mest. Fór hann þá til með fóstursyni sínum eina nótt, og vakti þar upp í þeim flokkum alla úr Íngjaldshóls kirkjugarði; kom þá síðast upp draugur einn úr yzta horni garðsins, en aðrar sagnir segja, að hann kæmi upp undan prèdikunarstólnum og rètti að presti, og sá prestur af henni, hversu á stóð með launguna; hann gat því sýnt hana þeim, er á móti mæltu, og sigraði hann mótstöðumenn sína þannig; en höfuðið af laungunni tóku galdramennirnir og höfðu það til mannskaða veðra. Er mælt, að þeir rifi það upp, og sneru á þá leið, sem þeir vildu, að vindurinn kæmi frá, því jafnan stóð vindur í gin þess; er þó sagt, að þeir, sem glettust við hann, flýðu allir burt af Sandi, og þyrðu ekki að eiga undir tiltektum hans, ef hann vildi hefna sín. Sú er enn ein sögn frá Jóni presti, að hann ætti hjalla fyrir ofan bæ þann, er á Skarði heitir; sèst þar enn merki þeirra. Kom hann einhverju sinni frá Fróðá, annari kirkjunni, sem hann þjónaði, og reið um á Sveinsstöðum, og var þar boðið inn; prestur kvaðst verða að flýta sèr, því sèr væri grunsamt um hjallana, og reið þángað snarlega; en þegar hann kom þar, var maður við hjallinn, og vildi komast inn til stulda, en þegar hann var að reyna til að stínga upp lásinn fyrir dyrunum, festust hendur hans við lásinn, og var hann þar fastur, þángað til prestur kom, en þá losnaði hann, en það litla, sem hann hafði stolið úti við, gaf prestur honum, og reði honum, að leita ekki á sig nè aðra til slíkra fèfánga, og er sagt hann hefði það að heilræði.

**Galdra-Mánga.** (Eptir handriti Gísla Konráðssonar og sèra Benedikts þórðarsonar á Brjánslæk.) það bar til í Trèkyllisvík á Ströndum, þegar prestur sá, er þorvarður hèt Magnússon, hèlt Árnes, að þar í kirkjunni undir tíðagjörð, feingu 6 eða 7 konur aðsvif eða aungvit með froðufalli, svo menn urðu að bera þær allar úr kirkjunni; var alment mælt, að þetta væri af fjölkynngi, og trúðu menn því. Ærsli þessi voru kend konu þeirri, eða mey, sem Margrèt hèt, þórðardóttir; sumir segja, að hún væri dóttir þórðar þess, er talinn var einhver hinn fjölkunnugasti maður á Ströndum; átti nú að táka hana, og að líkindum brenna, eins og síður var til um galdramenn, en hún gat strokið, og duldist síðan á ýmsum stöðum. En sumarið 1656 á Öxarárþíngi var hún ákærð fyrir galdur og strok; var því

lýsíng hennar rituð, og er hún svolátandi: „Hún er á meðalvexti, ljósleit, kinnbeinahá, lèttfær, skynsöm á máli, kveður nálega kvenna bezt.“ Einga vissu hafa menn um, hvar Margrèt dvaldi á flótta sínum, en sögn manna er það, að hún hafi verið mjög slúngin og sèð, og er það í frásögur fært, að hún kæmi einhverju sinni á bóndabæ einn, en ekki er þess getið, hvar það hafi verið; kom hún sèr þar inn hjá konunni og hèlt hún Margrètu á laun við mann sinn um hríð; en svo bar við, að maður nokkur þar nálægt átti um of vingott við konuna; var það einu sinni á túnaslætti, að bóndi fór út snemma morguns til sláttar, en af því honum þókti kona sín fara ofseint á fætur að skamta litla skattinn, er síðar var í þá daga, fór hann heim að rúmi þeirra, og ætlaði að vekja hana, en þá sýndist honum maður hjá henni í rúminu; hann talaði þó ekkert um, en gekk út aptur til sláttarins, og hugði að tala um þetta síðar, en af því konan vissi, að hann kom að rekkju þeirra, klæddist hún skjótt, fann Margrètu, og bað hana ráða; er þá sagt hún legði henni fyrir, hversu hún skyldi fara að, þegar hún bæri manni síuum litla skattinn; þess vegna lèt hún 2 spæni í askinn, og þegar hún kom til manns síns, var hann styggur, og þegar hann sá 2 spæni í askinum, mælti hann: „Eg hef ekki 2 kjaptana.“ Hún mælti: „Gott gekk mèr til, eg hugði að þú vildir bjóða henni að matast með þèr, er eg sá í slægjunni hjá þèr í morgun.“ Hann kvað einga verið hafa. „Það getur vel verið,“ mælti hún, „því það er svo opt, að hjónunum missýnist.“ Þá er mælt, að bóndi hèldi, að svo mundi geta hafa farið fyrir sèr um morguninn, og talaði hann því ekki meira um það, svo ekki varð það að sundurlyndi. En hvað síðan varð um Margrètu vita menn ekki, þángað til hún flúði vestur á Snæfjallaströnd; dvaldi hún þar á bæ þeim, er á Bæum heitir; er sagt, að þar byggi ekkja ein úng, vel fjár eigandi, en sökum þess, að maður einn úr Súgandafirði, sumir segja úr Arnarfirði, hafði beðið hennar, en hún synjað honum, sendi hann henni draug; átti hann að ónáða hana á hverri nótt, og kvelja. Hún átti þá aldrei fritt í rúmi sínu, en sökum þess, að fjölkynngis orð var komið á Margrètu, sagði hún henni frá vandræðum sínum; er þá sagt, að Margrèt feingi henni varnir nokkrar, en þegar það tjáði ekki, og að eingu minnkaði aðsóknin að ekkjunni, tók Margrèt það ráð, að hún sjálf svaf fyrir framan ekkjuna, en þegar draugurinn kom að rekkjunni, var eins og honum hnikti við, þegar hann vissi Margrètu þar komna, en vildi þó að þeim; varpaði Margrèt þá til hans linda sínum, greip hann þá enda hans, en sjálf hèlt hún í annan; festist þá draugurinn við lindann. Þá fór Margrèt á fætur, og teymdi hann, þótt nauðugur væri, alla leið ofan til sjávar. Er þá sagt hún særði hann að fara til heimkynna sinna, og hvyrfi hann við það í sjóinn. Urðu þá fiskimenn síðan varir við hann, og kom hann stundum upp í selslíki; var hann auðþektur á því, að hann dró jafnan linda Margrètar; hann gerði opt busl mikið að þeim, svo þeim lá við á-

föllum, þángað til Margrèt reri með þeim einn dag til fiskjar, og hafði hún þá ekki annað meðferðis, en saur í kyrnu eða koppi, og skvetti hún honum á selinn, þegar hann kom upp, og er það sögn, að hann kæmi ekki upp framar nè yrði að meini. Tómas hèt prestur, er þá hèlt Stað á Snæfjöllum, næst eptir Jón prest Þorleifsson, föður Snæfjalladraugs, því einginn finst þar prestur talinn milli þeirra. Tómas prestur átti fyrir fyrri konu Margrètu Gísladóttur, en fyrir seinni Galdra-Maungu, og er sú saga til þess, sem hèr segir, þó nokkuð fari tvennum sögnum. Eitt kvöld um hávetur var það, að smalamaður prests hýsti fèð í húsunum, sem voru inn á túninu, og þegar hann var búinn að því, ætlaði hann að strá heyi á jötur, en þegar hann kemur í heystæðuna við hæsta húsið, verður hann var þess, að þar í geilinni er eitthvað kvikt fyrir. Spyr hann, hver þar sè, og fær það svar, að það sè stúlku skepna. Hann spyr hana að nafni, og hvaðan hún sè aðkomin. Hún kvaðst heita Margrèt og vera úr Aðalvík, og hafa um daginn komið yfir Snæfjallaheiði, og dregið sig hèr inn. Manninum blöskraði, að hún skyldi þann dag hafa komizt yfir heiðina, því mold-kafald hafði verið allan daginn. Kennir hann mjög í brjósti um stúlku aumingjan, og býður henni, að koma heim í bæinn, svo að henni verði hlynt eptir þörfum. Hún kvaðst ekki mundi fara til bæarins að sinni, en í fjárhúsunum vildi hún dvelja. Biður hún hann, að geta ekki um sig við neinn; hann lofar því, og færir henni mat í húsið um kvöldið svo einginn vissi. Dvelur hún nú þannig á laun í húsinu í 3 daga og 3 nætur, að hún vildi ekki koma til bæarins, og maðurinn færir henni af mat sínum. Kvaðst hún hljóta að vera þar, þángað til hún gæti feingið að sjá prestinn, áður en hann sæi sig. Fjórða daginn fylgir smalamaður fè prests, og stendur yfir því inn og upp í fjallinu; var veður fjúkandi og skuggalegt, og vill prestur gæta út og sjá, hvað manninum líði. Geingur hann því upp fyrir bæinn, og á litla hólflöt fyrir sunnan lækinn. Geingur hann þar um gólf dálitla stund. Þar blöstu við honum dyr húss þess, sem Margrèt var í, og sèr hún hann nú, þótt hann sæi hana ekki; ætlar hann að fara til bæarins aptur, en getur ekki og í einga átt aðra kemst hann, nema beint á húsdyrnar. En þegar hann kemur að húsinu, sèr hann ókunnuga stúlku þar í húsdyrunum, lízt honum hún fögur, og fellir brátt ósjálfráða elsku til hennar. Þau heilsast og talast við. Býður hann henni heim í bæinn með sèr, og fer hún; en þegar að bænum kom vill hún ekki fara þar um, og biður hann að lofa sèr í kirkjuna, og þegar þau koma þar, vill hún hvergi vera nema í altarinu, og lèt hann það eptir henni. Biður hún hann um að geta ekki um sig við konu hans, og heitir hann því. Líður nú svo vika, að Margrèt er í altarinu, og prestur færir henni matinn. Veit einginn á bænum af henni, nema presturinn. Þegar vikan er liðin, biður Mánga prestinn að lofa sèr að sjá konu hans; hann lofar því, og fær konu sinni eitthvert erindi í kirkjuna. Þegar konan kemur í kirkj-

una, sèr Mánga hana úr altarinu. Konan geingur inn eptir gólfinu. En þegar hún kemur að kórdyrunum, sèr hún altarið opið og Maungu þar inni; bregður henni svo við sjón þessa, að hún hnígur dauð niður. Varð öllum mikið um fráfall konnnnar, því hún var valkvendi, en alla undraði, hversu vel presturinn bar það. Þegar konan var dauð, dró Mánga sig í bæinn, og tók brátt við húsforráðum; leið ekki á laungu, að hún þókti þar öllu spilla, bæði á heimilinu og um sóknina. Prestur unni henni mjög, og er það sögn sumra, að hann geingi að eiga hana, og víst er það, að hann átti barn með henni. Nú vissu menn, hvar Mánga var niður komin, og kom því galdramál hennar fyrir sumarið 1660 á alþíngi og var henni dæmdur tylftareiður, og skyldi hún þá sýkn, ef hún kæmi honum fram innan tíu vikna, en sek að öðrum kosti. Tómas prestur hafði nú tekið að sèr að verja mál Margrètar, og það af kappi, og þó viturlega. En af því lèt Brynjólfur biskup dæma hann frá prestsskap, og meðfram fyrir barngetnaðinn með henni; misti hann þannig Stað á Snæfjöllum, og var hann veittur Hannesi presti, Benediktssyni, norðlenzkum að ætt; og segja sumir, að Tómas feingi sèra Hannes, undireins og hann kom að Stað, til að gefa sig saman við Maungu, og að Mánga hafi fyrst komið að máli við prest, og talið honum hughvarf, því kvenna var hún sögð mælskust, og að mörgu allkæn, en hversu sem það var, telja ættartölur Maungu seinni konu Tómasar prests. Tvö hin næstu sumur eptir var henni enn dæmdur hinn sami tylftareiður á alþíngi, og ætla menn, að hún hafi þá loksins unnið hann 1662, og frelsast með því. Svo er að sjá, sem Tómas og Mánga hafi verið saman 9 eða 10 ár, en hann andaðist gamall 1670. En aðrar sagnir segja, að Tómas prestur hafi, eptir það hann átti hana, kent á klækjum hennar eingu síðar en aðrir, og hafi svo lyktað eptir fá ár, að fè hans hafi verið að þrotum komið, og hann sjálfur í fyrirlitníngu hjá öllum; einnig hafi þá verið hafin ransókn um breytni Maungu og galdrakukl, og varð það þá bezt, að hún sökum galdra sinna hefði verið flæmd burt úr Aðalvík; var henni gefið það að sök, að hún með göldrum hefði tælt prestinn, og drepið konu hans, og margar aðrar sakir bárust að henni. Var hún dæmd frið og líflaus, og belgur dreginn á höfuð henni, og hún flutt inn eptir Snæfjallaströnd, og kæfð undir fossinum í innri Skarðsá.

**Leirulækjar-Fúsi.** (Eptir sögnum á Mýrum.) Á öndverðum dögum þeirra Fúsa og Sigurðar Gíslasonar, Dalaskálds, lá draugur einn á Hellisfitjum og hafði aðsetur sitt í Surtshelli; var draugur þessi hin rammasta óvættur og lagðist á ferðamenn; meiddi hann suma, og drap suma, og þókti mönnum ekki fært að fara frá Kalmannstúngu norður yfir heiði fyrir óvættinni á Hellisfitjum. Sáu menn, að ekki mætti svo búið standa, en fáir treystust þó til, að setja niður jafnmegnan draug og þessi var. Var þá leitað til þeirra Fúsa og Sigurðar, því menn vissu, að þeir voru bæði

fjölkunnugir og kraptaskáld hin mestu, og voru þeir ófúsir á það, og lètu þó loksins tilleiðast, með því móti, að báðir færu og hjálpuðust til. Lögðu þeir nú snemma morguns frá Kalmannstúngu einn góðan veðurdag; var það öndvert sumar. Þeir komu snemma dags norður að Surtshelli. Urðu þeir ekki draugsins varir, þegar þeir komu, því hann var niðri í hellinum; heyrðu þeir þúngar drunur niðri í hellinum, og þókti þeim ekki mjög fýsilegt að heimsækja hellisbúann. Þá segir Sigurður við Fúsa: „Nú verðum við að skipta með okkur verkum; verður annar okkar að fara ofan og fást við drauginn, en hinn að gæta dyranna, svo draugurinn komizt ekki út; og kjóstu nú hvorn kostinn, sem þú heldur vilt.“ Kaus Fúsi að gæta dyra. Sigurður tók úr barmi sèr bók eina, og lagði í hellisdyrnar, gekk þrisvar sinnum rángsælis kringum bókina, signdi sig síðan öfugt, og steig niður í hellismyrkrið. Segir ekki frá því, hvað gerðist í hellinum, milli þeirra, draugsins og Sigurðar, og hversu Sigurður gat komið draugnum niður, en aldrei hefir síðan orðið vart við hann; en það er haft eptir Sigurði, að aldrei hafi hann komizt í meiri kröggur, en í hellinum. Þegar hann kom upp úr hellinum, var komið að sólsetri; og Sigurður móður og þrekaður mjög. Þegar hann kom upp, var Fúsi allur á burt og bókin Sigurðar. Hafði Fúsi stolið henni, meðan Sigurður var niðri í hellinum, og hlaupið síðan burt, sem fætur toguðu. Brá Sigurði mjög í brún, og undi hann bókar missinum illa, en gat þó ekki viðgert, því Fúsa gat hann hvergi fundið, og bókinni náði hann aldrei síðan. Urðu þeir upp frá því fjandmenn alla æfi, og áttu mörg brögð saman.

Einu sinni fór Sigurður skreiðarferð á skipi innan úr Dölum út undir Jökul. Sigurður fór samt og segir ekki frá ferðum hans, fyrr en hann var kominn á heimleið; var þá byr góður og skipið skreið undir segli, og sat Sigurður við stýri fyrir aptan stakk. Sáu menn þá stórfisk koma upp skamt frá skipinu, og synti hann óðfluga að skutnum, svo ekki var undanfæri, og að Sigurði, og kipti honum útbyrðis, en gleipti hann þó ekki. Sigurður synti leingi á eptir skipinu, og leituðu hásetar hans á allar lundir við að ná honum, en gátu ekki, og að lokunum sáu þeir hann sökkva. Sama dag reri Leirulækjar-Fúsi við þriðja mann á báti fyrir Mýrar. Þegar þeir voru í sátri, vissu þeir ekki fyrri til, en Fúsa var alt í einu kipt út af bitanum. Náði Fúsi handtökum, og svamlaði leingi, og gekk þó mjög ervitt að halda sèr á floti, þángað til hann gat náð í borðstokkinn; vildu menn hans þá draga hann inn, en gátu með eingu móti, svo þúngt fannst þeim toga neðan í. Fúsi bað þá losa aðra hönd sína, og gerðu þeir það. Fúsi fer inn í barm sinn, tekur þaðan bókina, sem hann forðum hafði stolið frá Sigurði, kastar henni í sjóinn og segir: „Taktu nú við, bölvaður; þú hefir leingi sókt eptir henni.“ Losnaði þá Fúsi, og drógu hásetar hann inn, og gekk það þá greitt. Þá mælti hann: „Fast var tekið í að ofan, en fastara þó að neðan. Nú er Siggi dauður, en sá er munur okkar, að Fúsi flaut, en Siggi sökk.“ Þá kvað Fúsi vísu þessa:

„Sigurður dauður datt í sjó
dysjaður verður aldrei;
í illu skapi út af dó
og í ramma galdri.“

Nóttina eptir dreymdi konu Sigurðar, að komið væri upp á gluggann yfir rúmi hennar og kveðin þessi vísa:

„Gaktu fram á Gýgjarstein,
gerðu svo, mín kvinna,
liggja þar mín látin bein,
ljóst muntu þau finna.“

Næstu nótt á eptir dreymdi hana enn, að komið var á gluggann og kveðið:

„Gaktu fram á Gýgjarstein
gjótan er þar furðu mjó;
bar mig þángað báran ein,
bjargaðu mèr undan sjó.“

Þóktist hún í hvorttveggja sinnið þekkja róm manns síns. Enn dreymdi hana, hina þriðju nótt, að komið var á gluggann og kveðið með sömu rödd:

„Eg veit hver á mig ratar
og aldrei gleymir mèr,
sá, sem ei sínum glatar,
son guðs, því allir vèr,
lifandi og liðnir bæði,
lífgumst, þá jarðarsæði
herrans röddu heyrir.“

Jón Sigurðsson Dalaskáld var og áleitinn í kveðskap. Einu sinni, þegar hann gekk hjá tjaldi Páls lögmanns Vídalíns á alþíngi, og höttur lögmanns hèkk á tjaldsúlunni, er mælt hann hafi kveðið:

„Margir brúka menn hèr hött,
mest þá skartið þvíngar;
eiga skylt við urðarkött
allir Norðlendíngar.“

Páll spretti skörum, er hann heyrði vísuna kveðna, kvað í móti, og brá Jóni þar um hvarf föður hans, svo segjandi:

„Kauðinn sá, sem kvæði spjó,
ketti er skyldur blauða;
honum var nær að sækja í sjó
Sigurð þann hinn dauða.“[1]

1. Vísur þeirra Jóns og Páls eru teknar eptir kvæðabók af Vestfjörðum með hendi þeirra feðga sèra Ásgeirs Bjarnasonar, og Jóns Ásgeirssonar í Dýrafjarðarþíngum. — „Kjapturinn sá“ hefi eg heyrt og „ketti er líkur.“ (Guðbrandur Vigfússon.)

Einhverju sinni fór Fúsi með fleirum Mýramönnum suður í kaupstað; var þá kaupstaður í Hólminum (Effersey) og ekki í Reykjavík, fyrr en laungu eptir. Hafði Fúsi ýmislega sveitavöru; þar á meðal var kæfubelgur einn stór. Vildi nú svo til, að Fúsi misti kæfubelginn, og fann hann hann ekki. Komust menn þá að því, að austanmaður einn hafði stolið honum, og vissi Fúsi, hver stolið hafði, en gaf sig ekki að, og fór heim við svo búið. En þegar leið að jólum um veturinn, frèttist til manns með kæfubelg á bakinu, og spurði sá einatt að Leirulæk. Eitt kvöld kom hann loks þángað, ber að dyrum og gerir boð eptir Fúsa. Fer Fúsi til dyra og spyr komumann tíðinda, og hvernig standi á ferð hans. Maðurinn kvaðst vera að austan, en koma að sunnan, og ekki geta annað, en dregizt sífelt með kæfubelg þann, sem hann hefði á baki, og segist hann hafa borið belginn bæ frá bæ, dag eptir dag, og vilji einginn kaupa af sèr kæfuna, en sjálfur geti hann ekkert jetið úr belgnum. Ætlar maðurinn að leysa ofan af sèr belginn, en getur með eingu móti náð honum af sèr, því hann var orðinn fastur við hann. Fúsi glottir að og spyr, því hann taki ekki af sèr belginn. Komumaður kvaðst ekki geta náð belgnum af sèr, því hann sè orðinn fastur við hörund sitt. Ætlar hann nú inn fyrir bæardyrnar, en kemst ekki. Fúsi spyr, hverju það gegni. Maðurinn kveðst ekki vita það, því aldrei hafi borið svo við fyrri, þó hann hafi haft mikið fyrir belgnum. Fúsi segir honum þá, að honum muni hollast að segja sèr sannleikann, hvernig á belgnum standi. Neiddist þá komumaður til að segja satt frá, og kvaðst hann hafa stolið belgnum frá Mýramönnum um haustið suður á Hólminum, og kvaðst hvergi hafa getað haft eirð, fyrr en hann kæmist með belginn að Leirulæk. Fúsi tók nú af honum belginn, og rèð honum að stela ekki optar frá ókunnu fólki, og er sagt, að maðurinn hafi gætt þess heilræðis upp frá því.

Fúsi hafði mikil mök við huldar vættir, álfa og púka og kölska sjálfan. Einu sinni, sem optar, vildi hann finna hann, og leggur því á stað árla einn morgun frá Leirulæk, og geingur út í flóa, þángað til hann kemur að runna einum. Í miðjum runnanum var djúpur og dimmur pyttur; við hann settist Fúsi, og sat þar allan daginn. En þegar kvöld var komið, sèr hann, hvar hausinn á kölska gægðist upp úr pyttinum. Þá segir Fúsi: „Þarna kemur hann, glókollurinn.“ Kvaðst Fúsi hafa haft mikið fyrir því, að ná honum, en þó eingu ómaki betur varið, því margt hafi hann sagt sèr, og mikið lið veitt sèr, og mörg holl ráð gefið sèr.

Það er mælt, að Fúsi hafi á efri árum flutt sig frá Leirulæk og suður á land; hafi hann farið um vetur frá Leirulæk og brent bæinn til kaldra kola, áður en hann fór; það er sagt, að næsti vetur hafi verið svo góður að á honum hafi bærinn verið að öllu bygður aptur á Leirulæk. Sagt er, að á efri árum Fúsa hafi minna borið á hrekkjum hans og skammapörum, og hafi hann dáið á Suðurlandi.

Um sömu mundir, sem Leirulækjar-Fúsi, var sá maður uppi á Hornströndum, sem kallaður var Galdra-Fúsi. Hann var fjölkunnugur mjög, og fóru sögur víða af honum. Leirulækjar-Fúsa var mikil forvitni á að reyna kunnáttu hans, og því tók hann sèr ferð á hendur og brá sèr vestur; ekki er þess getið, hvernig hann fór, hvort heldur landveg, á lög, eða í lopti; en hann kom til Galdra-Fúsa um kvöld, og upp á gluggann hjá honum og segir: „Sælir verið þèr, Galdra-Fúsi, nafni minn.“ Galdra-Fúsi tók ekki undir við hann; því hann fann, að það var sèr ofurefli að etja við Leirulækjar-Fúsa. Þegar Leirulækjar-Fúsi fèkk eingin svör aptur hjá nafna sínum, segir hann: „Fyrst þú svarar mèr ekki, þá smíði andskotinn á þig handarhald, og teymi þig á því til helvítis.“ Eptir það fór Leirulækjar-Fúsi heim aptur. En það er frá Galdra-Fúsa að segja, að tvö æxli uxu á honum eptir þetta, aunað á brjósti hans, en hitt á baki; þau uxu bæði upp á við þángað til þau náðu saman. Eptir það hvarf Galdra-Fúsi, og hefir ekki sèzt síðan.[1] — Fúsi lagði eitt sinn hug á konu nágranna síns, og leitaði ýmsra bragða til að glepja hana, en tókst það ekki. Einhvern tíma lèt konan það berast til Fúsa, að bóndi sinn væri farinn að heiman; kom hann þá von bráðara, og leitaði samfara við konuna. Tók hún þá öllu líklega, og háttuðu þau saman í einni sæng. En reyndar var þetta prettur einn af konunni, til að fæla Fúsa; því jafnsnart og þau voru háttuð, kom bóndi fram undan rúminu. Hèlt hann á hníf, og gjörði sig líklegan til að drepa Fúsa. Settist þá Fúsi upp og kvað:

„Eg stíng mèr niður og steypi af dás;
stattu ei nærri kona.
Mèr er ekki markaður bás,
meir en svona og svona.“

Síðan steyptist hann fram úr rúminu og í jörðu niður; hafði bóndi ekki meira af honum, en aldrei sást hann síðan.

Einu sinni þegar Fúsi var við Álptanesskirkju, komst hann að því, að sèra Jón Haldórsson var beðinn að taka fólk til bænar, og hafði látið miða með nöfnum þeirra innan í handbókina. Af því Fúsi sat öðru megin við altarið, náði hann miðanum, á meðan prestur sneri sèr fram og tónaði, en stakk öðrum miða með þessum hendíngum á aptur inn í handbókina.

„Nikulás lángi
með hund í fángi;
Haldór krakur,
Baulubakur;
Valgerður flæða,
Lambastaða Læða;
Imba pula,
Valka gula;

1. Frá þessu hefir sagt mèr Sigurður málari Guðmundsson, en hitt er eptir sèra Skúla Gíslason.

Kristín skita,
sem alt vildi vita;
Gunna pysja,
tíkin Ysja,
og Krúnki."

þegar prestur ætlaði að fara að biðja fyrir sjúkum á eptir, komst hann í mestu vandræði, af því Fúsi hafði skipt um miðana.

**Feðgarnir Bjarni Jónsson og Bjarni Bjarnason.** (Eptir annál skrifuðum 1719 og ættartölum Steingríms biskups, 1814.—15. og 2666.—2675. bls.)[1] Bjarni er maður nefndur, kallaður Jónsson Dans hins yngra. Hann bjó „undir Hesti" eða Hafurshesti í Önundarfirði í Ísafjarðarsýslu. Bjarni var latínulærður, og hafði siglt suður í lönd, og komið í 9 kóngaríki; kunni hann túngur þeirra allra, og var margfróður maður. þegar hann var í Kaupmannahöfn, vakti hann upp með öðrum stúdentum Elínu stjörnu á Grikklandi; ekki fannst þeim mikið um fríðleik hennar; þeim sýndist hún kríngluleit og samlit í andliti með rauðan blett í enninu. Litla stund hafði hún hjá þeim verið; en þegar hún gekk í burtu, lagði af henni ódaun megnan og slæman, sem olli því, að þeir, sem við voru staddir, fundu einga lykt þaðan í frá. Eptir að Bjarni kom út hingað aptur, þykir líklegast að hann hafi sezt að á Hafurshesti, sem fyrr segir, þó foreldrar hans byggi á Eyri við Seyðisfjörð vestra. Sagnir eru um það, að Bjarni hafi verið óskilgetinn, en að eins eignaður Jóni Dan; því einu sinni hafi karl nokkur komið til Bjarna og beðið hann ölmusu, en Bjarni látið lítið af hendi rakna við hann; er þá sagt, að karlinn hafi sagt: „þetta eru lítil sonar-útlát."

Sonur Bjarna þessa „undir Hesti" hèt og Bjarni. Hann lærði í Skálholtsskóla, en var vísað þaðan á bug 1664 ásamt öðrum pilti, Einari Guðmundssyni frá Straumfirði, vegna þess að þeir höfðu báðir í sameiníngu skrifað galdrablöð nokkur, sem fundust í beðjardýnu Einars. Voru á þeim blöðum alls 80 galdrabrögð og 59 af þeim með myndum og galdrastöfum. Kom það upp í framburði Bjarna fyrir Brynjólfi biskupi, að hann hefði skrifað þann hluta blaðanna, sem hann kendist við, fyrir 3 árum í Kálfeyrarveiðistöðu á Vestfjörðum, eptir kveri Erlings Ketilssonar frá þórustöðum í Önundarfirði, sem þá væri sigldur fyrir nokkrum árum í Eingland. Með því þessir skólapiltar neituðu, að nokkrir aðrir væru sèr samvitandi um þetta tiltæki, og alt eins hinu, að þeir hefðu reynt á dáð og dugnað þessara galdraformála og stafa, sluppu þeir hjá annari hegníngu, en útrekstri úr skóla, snemma í Aprílmánuði fyrnefnt ár. Var þá annar þeirra 19 ára, en hinn tvítugur að aldri. En 22. Juni s. á. voru þeir báðir

1. þenna annál á nú Jón skólakennari þorkelsson, en ættartölurnar eru á stiptsbókasafninu í Reykjavík.

sigldir hèðan af landi til Einglands, og dó Einar þar. Þremur árum síðar, eða „1667," segir annállinn, „kom út Bjarni Bjarnason undan Hesti úr Einglandi austur í Austfjörðum," og mun hann síðan hafa reist bú á föðurleifð sinni, því árið 1687 flutti hann sig frá Hafurshesti í Önundarfirði að Arnarbæli á Meðalfellsströnd í Dalasýslu, á einum byrðíngi mjög stórum. Fór hann úr Önundarfirði í kríng um Vestfirði, suður fyrir Bjargtánga, yfir Látraröst og fyrir framan Skor. Fimm manna fars bát hafði Bjarni á eptir byrðíngnum; eingan mann lèt hann vera í bátnum, en kaðall lá úr byrðíngnum í bátinn, og hafði Bjarni skran á honum. Vind hafði Bjarni hagstæðan, norðvestan að viðurstöðu, en veðrið óx, svo opnum skipum var líttfært á sjó að vera, og voru þeir þá komnir í Látraröst. Bjarni var aptur á byrðíngnum, og sá þaðan strák á miðskipsþóptunni í bátnum, þar sem einginn maður átti þó að vera. Var strákur þessi að færa sig æ leingra fram eptir bátnum, þángað til hann var kominn fram í barka. Bjarni gaf grant gætur að þessu og þar með því, að veðrið var nú sem mest að vaxa, og sjór að umhverfast. Bjarni hèlt á bolöxi, gekk að kaðlinum, sem lá úr byrðíngnum í bátinn, hjó á hann og sagði: „Farðu nú með bátinn, og það í honum er; meira færðu ekki, þó meira hefðirðu átt að sækja." Strákurinn fór leið sína með bátinn og það sem í honum var; en Bjarni sigldi til Bjarneya á Breiðafirði, og þaðan til Arnarbælis á Fellsströnd, því það var eignarjörð hans. Bæði átti hann margar jarðir á Meðalfellsströnd og stóreignir vestur í Önundarfirði, en fór þaðan vegna galdra; því öfund lá á honum, svo hann hèlzt þar ekki við vegna ásókna og sendínga, og var ein af þeim strákurinn, sem hann gaf fimm manna farið á vald í Látraröst, sem nú var sagt, og höfðu öfundarmenn Bjarna sent honum hann, til að drepa hann á þessari hættuför í kríng um Vestfirði. Eptir að Bjarni var seztur að í Arnarbæli, var honum þó ekki fullfritt fyrir vesturbyggjum í Önundarfirði, og sendu þeir honum margar smágrýlur, sem honum varð ekki mjög bilt við. Þær grýlur komust ekki leingra, en í þekjuna upp yfir rúmi hans, og voru þar milli þekju og súðar. Það eitt gerðu þær honum til meins, að honum varð ekki svefnsamt fyrir þeim á nóttum, þángað til Þormóður Eiríksson frá Gvendareyum kom að Arnarbæli. Bjarni tók Þormóði vel, og bauð honum að leggja sig upp í rúm sitt um daginn, því Þormóður varð að bíða þar eptir sjávarfalli. Þormóður þáði boðið og lagði sig upp í rúmið. Þegar hann hafði legið nokkra stund, stendur hann upp og finnur Bjarna. Bjarni spyr, hvort hann hafi getað sofnað. Þormóður svarar: „Hverninn átti eg að sofa, þar sem þú hefir djöfulinn uppi yfir þèr." „Taktu hann þá burtu," segir Bjarni. „Svo skal vera," segir Þormóður. Hann geingur þá að þekjunni uppi yfir rúmi Bjarna, og rífur hana upp, þángað til hann kom niður að súð; tínir hann þar upp milli þekju og súðar fult mjólkurtrog af mannabeinum. Sagði Þormóður, að þar hefðu lent grýlur þær, sem Bjarna hafi

verið sendar, og hafi þær orðið þar aflvana til allra hluta, nema til að halda vöku fyrir Bjarna. Bjarni var lögsagnari Páls Vídalíns í Dalasýslu 1696—97, eptir að hann var kominn að Arnarbæli, og dó 1723 á 4. árinu um áttrætt.

**Latínu-Bjarni.** (Eptir Guðrúnu Guðmundsdóttur, skáldu.) Teitur hèt maður, sonur Jóns lögrèttumanns á Grímsstöðum í Breiðavík, sem annálinn reit. Teitur var vel að sèr, og skrifari góður, gleðimaður mikill, og hraustur að afli. Hann fèkk þeirrar konu, sem Guðrún hèt Bjarnadóttir, fósturdóttir föður Teits, sem var hagmælt, og vel að sèr. Þau Teitur bjuggu á hálfum Knör á móti Latínu-Bjarna, sem átti hann hálfan móti Teiti. Bjarni var afarkvennsamur, og er það sögn manna, að hann hefði við kvennagaldur með öðru fjölkynngi; tók hann nú að leggjast á hugi við Guðrúnu, konu Teits, og lèt hún mann sinn vita áleitni Bjarna, en þó Teitur þækti fróður maður, treystist hann ekki að sjá við Bjarna; seldi hann því Knör, og flutti sig að Sveinsstöðum. Það hafði verið leingi gamall siður, að halda jólagleði undir Jökli. Þorvarður hèt maður, hnîginn á efri aldur; hann var gildur bóndi og bjó að Munaðarhóli. Þar átti gleðin að vera einn vetur, sem optar. Þar kom Teitur á Sveinsstöðum og margir fleiri. Um kvöldið kom þar maður ókendur og bað Þorvarð gistíngar. Þorvarður spyr Teit, hvort óhætt væri, að hýsa mann þenna; Teitur kvað óhætt, að hýsa manninn, en ekki þann, sem með honum væri, en menn vissu ekki til að neinn væri með honum. Var þessu síðan ekki framar gaumur gefinn. Var leikið og drukkið vel um kvöldið þángað til menn geingu til rekkna sinna; voru þeir Teitur og Þorvarður kallaðir ölkærir. Teitur átti að sofa í lokrekkju, sem krókuð var hurð fyrir að innan. Um morguninn, þegar aðrir voru komnir á fætur, kom ekki Teitur á fætur; var þá kallað til hans, en það kom að eingu; síðan var lokrekkjan brotin upp; var hann þá örendur í hvílunni, og blár hríngur marinn um háls honum. Eignuðu flestir illvirki þetta fjölkynngi Latínu-Bjarna; er þessi jólagleði sögð hin síðasta undir Jökli.

**Þormóður í Gvendareyum.**[1] Gvendareyar heita einar af Suðureyum á Breiðafirði. Þar bjó leingi maður sá, sem Þormóður hèt, og var Eiríksson; var hann ekki síður kraptaskáld en kunnáttumaður, að sagt var, þó hèr verði fátt eitt talið af hvorutveggja. Þormóður átti fyrir fyrri konu Guðrúnu Helgadóttur, en seinni kona hans hèt Brynhildur. Þau Guðrún áttu nokkur börn saman, og verður sumra þeirra síðar getið. Þormóður bjó fyrir víst 3 ár í Vaðstakksey hjá Stykkishólmi, áður en hann flutti í Gvendareyar, og farnaðist þar að sumu leyti vel, sem hann kvað:

1. Eptir frásögnum Hannesar Erlindssonar og Sveins Ögmundssonar, beggja í Reykjavík, en ættaðra að vestan, og handriti Gísla Konráðssonar.

„Vetur þrjá í Vaðstaksey
var eg með gleði og yndi,
sviptur þrá á Sviðris mey,
síðan má hún[1] heita grey.“

Vaðstakksey er sagt að hafi ekki bygzt síðan. Einu sinni, meðan Þormóður var í Vaðstakksey, lá kona hans á sæng um vetrar tíma; gat þá Þormóður ekki kveykt fyrir ljósmatarleysi, en honum leiddist myrkrið, og kvað:

„Mína, Jesú, mýk þú raun,
mæni eg til þín, hjálpin væn;
þína send mèr bjargarbaun,
bænheyr, lífsins eikin græn.“

Eptir það gekk Þormóður út og ofan til sjávar, og fann þar nýrekinn sel dauðan, og hagnýtti sèr hann til ljósa. Ekki vita menn með vissu, hvað Þormóði geingi til, að fara úr Vaðstakksey, en þó ætla menn, að hafi helzt verið draugagángur og aðsóknir, sem hann átti þar við að eiga bæði á sjó og í eynni. Einu sinni fór hann á báti í næstu ey, og þegar hann kom út á sundið, gekk báturinn ekki undir honum, þó hann þæktist róa rösklega. Fór hann þá að svipast um, og sá, að sinn púki hèlt í hvorn stafn á bátnum. Hann gerði sèr þá lítið fyrir, og innbyrti báða, lèt þá svo róa með sig, þángað sem hann ætlaði, og slepti þeim þar. Öðru sinni er sagt að honum hafi verið sendir 7 draugar í einu út í Vaðstakksey; lèt hann þá setjast fyrst inn í skála á rúmin þar, en síðan, þegar hann var búinn að skemta sèr þar við þá um stund, flutti hann þá úr eynni í land, lèt þá róa undir sèr sjálfa, og setti þá svo niður á landi. Þó flutti Þormóður ekki alla þá drauga til lands, sem honum voru sendir út í Vaðstakksey, heldur setti hann þá suma niður eða kvað þá niður úti í eynni; því heitir þar síðan Draugabæli.

Margt hefir verið sagt frá viðureign Þormóðar við drauga og forynjur, sem hann fèkkst við og kom fyrir bæði fyrir aðra og sjálfan sig, og komst þá stundum í krappan dans, og eru miklu fleiri sögur um það, hvernig hann veitti þeim frið og lið, sem ofsóktir voru af draugum og sendíngum, en um það, að hann hafi sent þær sjálfur, sízt að fyrra bragði. Vestur við Ísafjarðardjúp voru feðgar tveir, og hètu báðir Jónar, að sumir segja; þeir áttu ílt úti standandi við nágranna sinn, sem Einar hèt; Einar átti dóttur eina gjafvaxta, og vildi Jón ýngri fá hennar fyrir konu, en Einar vildi ekki gipta honum hana, því þeir feðgar höfðu ílt orð á sèr, og þó var stúlkunni meir um kent. Heituðust þeir feðgar við feðginin, og sögðu, að stúlkan skyldi hvorki verða sèr nè öðrum að nytjum að heldur. Leið þá ekki lángt um, áður stúlkan varð utan við sig (leikin), og sókti að henni loptandi, að sagt

1. „eg“ hafa aðrir.

var, svo að hvorki hafði hún ró nætur nè daga, og lá við vitfirríngu. Föður hennar þókti þetta mikið mein, og kendu allir þeim feðgum, sem þóktu bæði illmenni og fjölkynngismenn. Af því þá var komið orð á þormóð fyrir kunnáttu hans, sendi Einar til hans mann með hesta, því þeir eru óvíða í eyum, og lèt biðja hann liðs. Sendimaður kom á fund þormóðs og bar fram erindi sín. þormóður tók því fálega í fyrstu, og sagðist ófær til að fara í hendur Ísfirðíngum, og mundi hann reisa sèr þar hurðarás um öxl, ókendur maður og lítt fróður. En af því sendimaður leitaði því fastar á, sem þormóður færðist undan, fór svo, að þormóður hèt að fara. þeir fóru svo, sem leið liggur til Ísafjarðar, og hafði þormóður reiðíngshest með sèr vel reiðíngaðan, og ekkert á nema umbúðir miklar bundnar við bogann. Ekkert vissi sendimaður, hverju það sætti, fyrr en þeir komu á þorskafjarðarheiði; þar vakaði þormóður á vatni því, sem Gedduvatn heitir, og dorgaði um stund; hann beitti gulli á aungul sinn, og hafði þá á höndum mannskinnsglófa. Að stundu liðinni dró hann vatnageddu; það kvíkindi er gylt á lit og baneitrað.[1] Lèt þormóður gedduna fyrst í flösku, vafði þar utan um úlpu og öllum þeim skinnum og umbúðum, sem hann hafði áður bundið við bogann á reiðíngshestinum, og þegar hann hafði umbúið, sem bezt hann gat, batt hann þenna bagga enn við bogann á reiðíngshestinum, og hèlt svo á fram ferð sinni til Einars, og tók hann vel við þormóði. þegar sprett var af reiðíngshestinum, var hann hárlaus á bakinu, þar sem geddann hafði legið á, og eins og sligaður, og aldrei varð hann jafngóður síðan; var það kent eiturkrapti kvikindis þessa. þormóður tók síðan gedduna, þegar vestur kom, og gróf hana niður undir þröskuld í húsi því, sem hann svaf í, og stúlkan í öðru rúmi. Við það lètti þegar fyrstu nóttina aðsókninni, og svo aðra; en þriðju nóttina var að heyra nöldur nokkurt við dyrnar. Fór þormóður þá ofan, og við það hvarf nöldrið. þormóður var þar viku, og batnaði stúlkunni, svo að hún kendi aldrei aðsóknar síðan. þegar þormóður fór suður aptur, var hann við kirkju á sunnudegi, og af því hann þekti þar eingan mann, var hann einn sèr og utan við, og stóð við kirkjugarðinn. Heyrði hann þá, að tveir menn töluðust við inni í garðinum, og ræddu um, hver þessi ókunnugi maður væri, eða hvert það mundi vera sá, sem læknaði stúlkuna, og hældu honum á hvert reipi, svo þormóður heyrði undir væng. þóktist þormóður vita, að þetta mundu vera þeir feðgar, og flátt byggi undir fyrir þeim. þeir spurðu hann þá að heiti; en hann sagði, sem var. Lofuðu þeir hann í hverju orði, og sögðust vilja sýna það, að slíka menn mettu þeir mikils,

1. þessi frásögn er eptir Sveini Ögmundssyni um gedduveiðina í Gedduvatni á þorskafjarðarheiði; en Gísli segir, að þormóður hafi veitt gedduna í vatni á Oddstaðamúla, sunnanvert við Rauðamelsheiði, fyrir utan Hnappadal. Missagnir eru og um, hvar stúlkan hafi verið, sem þormóður var sóktur til, hvort heldur á Helgafelli eða Staðarfelli; en eg hefi fylgt þar frásögn Gísla, að hún hafi verið við Ísafjörð.

og buðu honum fylgdarmann heim, af því hann væri ókunnugur öllum leiðum. þormóður kvaðst hafa fylgdarmann og hesta frá Einari bónda, en ekki mundi sèr þykja óskemtun að fleiri fylgdarmönnum. Ekki er getið ferða þeirra þormóðar, fyrr en þeir komu undir Klofníngsfjall, þar sem Ballará fellur úr Klofníngnum. þá sagði þormóður við fylgdarmann sinn, að hann skyldi fara til Ballarár og gista þar um nóttina, en hann sagðist sjálfur mundi leita sèr að öðrum náttstað, og ef hann yrði ekki kominn á dagmálum morguninn eptir, mætti fylgdarmaðurinn ríða vestur heim, því þá væri sín ekki að vænta. Skildu þeir við það. Foss einn er í ánni uppi í fjallinu, og forbergt undir; þormóður fór inn undir fossinn, og bjóst þar fyrir. Hafði hann verið þar skamma stund, áður en sendíng þeirra feðga kom að ánni, en þorði ekki yfir, nè heldur undir fossinn að þormóði; er sagt, að þeir feðgar byggist ekki við, að þess mundi við þurfa, að leggja það fyrir hana. þormóður spurði, hvert erindi hennar væri. „Að drepa þormóð," sagði hun. þormóður sagði, að hún mundi þá þurfa að gánga nær, sýndi henni gedduna, og hafði upp særíugar. Magnaði þormóður svo draug þenna að nýu, þegar hann hafði skyldað hann til hlýðni við sig, og bauð honum að fara vestur aptur, og drepa Jón eldri, en ásækja hinn ýngri, og væri þeim það lítið leiksbragð fyrir áleitni þeirra við bóndadóttur og sig. Draugur sneri þegar vestur aptur, og gerði það, sem fyrir hann var lagt. En þormóður hitti fylgdarmann sinn á dagmálum, og segir ekki af ferðum hans annað, en að hann kom heill heim til sín. Sagt er, að seinna hefði verið sent til þormóðar að vestan, og hann beðinn að lètta aðsókn að Jóni ýngra, en það feingist ekki af þormóði, fyrr en að þrem vetrum liðnum. Jón hèt maður og var Ólafsson; hann var í frændsemi við feðga þá, sem fyrr eru nefndir, og því var hann kallaður „Jón frændi." Jón var smiður góður og galdramaður svo mikill, að haft var eptir honum, að hann hefði sagt það kunníngjum sínum, að sig vantaði einn staf til þess, að hugsa mann dauðan, og væri hanu nú á leiðinni. það er sagt til marks um það, hvað fáir hlutir komu Jóni á óvart, að einu sinni var hanu staddur í Haga á Barðaströnd, en átti heima í Látrum, og sagði hann þá, að maður einn tæki hefil sinn heima í Látrum, og reyndist svo, sem Jón hafði sagt; enda sögðu sumir, að hann hafði sagnaranda. Sagt er, að Jón frændi vildi hefna þeirra feðga á þormóði, og lèti, sem sèr mundi verða lítið fyrir því, nema ef ákvæði þormóðar yrðu sèr að ofurefli; því Jón var ekki skáld. Er þá sagt, að hann sendi þormóði sendíngu; en hún kom svo óvörum að þormóði, að hún kyrkti eitt barn hans og Guðrúnar, áður en hann gæti sèð fyrir henni. Eingan kost átti þormóður að senda Jóni þessa sendíngu aptur; svo var hún mögnuð; en þó kom hann henni fyrir eptir lánga mæðu, og örðugt veitti honum síðan að sjá við glettíngum Jóns frænda. þessu næst er að minnast á dætur tvær, sem þormóður átti, og helzt koma við sögu haus. Hèt önnur þeirra þóra, en hin Guðrún eldri. þóra var leingst af

með föður sínum, og nam af honum fjölkynngi, svo hann vissi ekki, enda varð hún honum bezt að liði, og þar næst Brynhildur seinni kona hans. Guðrún var gipt laungu áður en þetta gerðist, sem nú skal segja, en hvort þau maður hennar bjuggu í Stagley eða Kiðey, er óvíst,[1] en sagt er að Guðrún væri kölluð af sumum Stagleyar-Gunna, en af öðrum Kiðeyar-Gunna. Þau Guðrún áttu nokkur börn, þegar hèr var komið, og eru tvö af þeim nefnd, Jón og Sigrún. Það var einn sunnudag, þegar Guðrún sat inni,[2] að Sigrúnu sýndist svartur flóki líða yfir móður sína. Ærðist Gunna þegar og hljóp út, og segja sumir, að hún steypti sèr í sjó fram af hömrum; en aðrir segja, að hún fyndist skorin á háls í fjörunni. Menn úr næstu eyum fundu börnin grátandi í bænum, og sögðu þeir Þormóði til. Kom hann og vistaði niður börnin, en tók tvö sjálfur. Ekki þókti mönnum einleikið um ófarir Guðrúnar, og heldu að það væri af völdum Hafnareya-Gvendar, sem síðar verður getið, þó hann væri þá dauður, en aðrir eignuðu það Jóni frænda á Látrum, og það ætla menn, að Þormóður hyggi hann að því valdan. Litlu síðar urðu menn þess varir, að Gunna gekk aptur, enda var hún aldrei jörðuð; lík hennar fannst að vísu, en var tekið út, þegar átti að bera hana heim. Fór Gunna þá til annara eya, eyddi þar fènaði og drap, sókti að mönnum og kyrkti, og drap með því einn mann í Bjarneyum, en hann varð raunar bráðkvaddur. Eins vilti hún fyrir skipum á sjó um ljósa daga. Var þá skorað á Þormóð að firra fólk þessum vandræðum; en svo mikil skapraun var honum að þessu, að haft er eptir honum, að aldrei þæktist hann hafa verið jafnilla við kominn, eins og að verða að fara þá för til afkvæmis síns, sem gyldi sín að og annara illmenna. Fór hann þó, og tókst erviðlega við Gunnu, en þó gat hann markað henni svið; en eingin kvik kind mátti koma nærri því sviði, svo að hún meiddist ekki, eða dræpist. Fór Þormóður þá enn til og setti Gunnu niður til fulls. Segja sumir, að það hafi verið í Stagley, en aðrir í Kiðey syðri, og mun það rèttara, enda er þar kallað Gunnudys, því menn segja, að hana hafi rekið síðar af sjó, og væri hún urðuð þar, en ekki færð til kirkju, af því hún grandaði sèr sjálf. Það var eingin furða, þó Þormóður leitaðist við að hefna á Jóni frænda á Látrum þessara meingjörða, enda tók hann það ráð, að hann magnaði mórauða tóu (ref), til að drepa Jón, og varð það með þeim atburðum sem hèr segir. Eitt vor fór Jón frændi til síga með öðrum manni, sem Jón hèt Þórðarson, á Jónsmessunótt; þar heitir Slakki í berginu, sem þeir sigu. Jón frændi fór jafnan óbundinn í festinni, og krosslagði að eins heuður sínar á henni, og lèt höfnðið síga ofan á undan,

1. Eins mikil óvissa er um það, hvort maður Gunnu hèt Oddur eða Jón Guðmundsson, eins og um bústaðinn. Gísli getur sèr til, að Gunna hafi verið tvígipt, átt fyrst Odd, sem drukknaði við Stagley, en eptir það byggi hún i Kiðey fyrst með Jóni seinni manni sínum og síðan ekkja með börnum sínum, þegar hèr var komið.

2. „í dyngju sinni“ segir Gísli.

og þókti það fjölkynngisbragð hans, og hann sjálfur hinn fimasti sigamaður; hann hafði leingi við þann starfa feingizt, og þókti sèr nálega ekkert ófært sökum fjölkynngis síns. En þegar hann var kominn ofan á Slakkhyllu, sá Jón þórðarson, að mórauð tóa kom innan með bjargbrúnum, þefaði af festinni og stakk sèr síðan ofan fyrir bjargið. Jafnskjótt og lágfóta var komin ofan, fann Jón þórðarson, að festin var með öllu laus, og gægðist fram af; sá hann þá, að Jón frændi lá niður í urðinni, og þóktist hann vita, að Frændi væri dauður, og fór við það heim af bjargi. Var svo róið eptir líki Jóns eptir lestur á Jónsmessu; var líkið alt eins og það væri slitið sundur, meir en marið, og eignað göldrum þormóðar, að hann hefði hefnt með því Guðrúnar dóttur sinnar. Lík Jóns var flutt heim í lambhús, og sagt var, að vantaði í það bjartað. Reimt þókti í húsinu eptir. þar heitir síðan Jónshald, er hann hrapaði. þegar þetta varð tíðinda, er sagt, að Ólafur Árnason hafi nýtekið við Barðastrandarsýslu (1737—52), og er það eptir honum haft, þegar hann skrifaði upp bú Jóns, að opt hefði hann galdur sèð, en aldrei annan eins djöful, og skyldi hann hafa látið brenna lík hans, ef ógrafið hefði verið. Galdraskræður Jóns voru brendar í Melaskarði við Látralæk; en Ólafur tók þó af þeim kver eitt, og stakk hjá sèr.

Annar versti fjandmaður þormóðar var Guðmundur í Hafnareyum Sigurðsson; var hann kallaður Hafnareya-Gvendur. Guðmundur var fjölkunnugur, og sagt var, að þeir þormóður ættust laungum ílt við, en ógjörla vita menn, hvað þeim bar á milli í fyrstu, og sendi þormóður honum sendíngu. En svo var Gvendur ramgöldróttur, að hann sendi honum margar aptur, og kom þormóður þeim jafnan fyrir, og flestum með kveðskap, að sagt er. Einu sinni sat þormóður á palli í rökkri, er einn draugurinn kom að honum, og varð þá þormóði beldur hverft við, því hann var varbúinn við honum. þóra dóttir hans sat skamt frá honum; en karli urðu ljóð á munni, svo hún vissi, hvað um var að vera:

„Álfar hreykja issum sín,
eldi feykja mèr fyrir brýn;
þánkann veikir þeirra grín,
þú mátt kveykja, dóttir mín.“

þóra kveykti og kom með ljósið, svo gat þormóður fyrirkomið draugnum. Sumir segja, að sá draugur kæmi þó upp aptur, en aðrir, að það væri önnur sendíng frá Gvendi. Kom hún að þormóði í smiðju, og ætlaði að grípa hann. Varð honum það þá fyrir, að hann mælti í sífellu óráð og endurleysu þessa: „Taktu konuna, taktu ekki konuna; taktu böruin, taktu ekki börnin; taktu kúna, taktu ekki kúna; taktu bátinn.“ Hljóp þá sendíngin að bátnum og greip hann; en við það áttaði þormóður sig, hljóp eptir sendíngunni, náði í stefnið og hèlt því einu eptir. þegar draugurinn hafði brotið bátinn í spón, og dreift brotunum víðs vegar, kom hann aptur, og vildi gera þormóði meira tjón; en þá var hann við búinn, og gat sett

drauginn niður í sker eitt. Það er haft eptir Sigrúnu, dótturdóttur Þormóðar, sem fyrr er getið, að þegar Hafnareya-Gvendur sendi Þormóði marga drauga í senn, gæti hann ekki sèð, hvort þeir væru úti eða inni. En Brynhildur var óskygn, og sá eingan þeirra; Þormóður bað hana þá að gánga út á undan sèr, en hann hèlt aptan í pils hennar. Þegar þau voru komin út, bað hann hana fara inn aptur og loka bænum, en hann sagðist mundi verða úti við að mæta komendum. Alla nóttina var hann úti, að fyrirkoma sendíngunum; en um morguninn, þegar Brynhildur lauk upp bænum, var Þormóður fyrir dyrum úti þrekkaður mjög. Öðru sinni kom sendíng að Þormóði, og þegar hann hafði sært hana frá sèr, sá hann, að kýr sínar tóku stökk undir sig; sendi hann þá dætur sínar, að komast fyrir þær, en það tjáði ekki, og hlupu beljur því meir. Sá hann nú, að þær mundu ætla að hlaupa í sjóinn, og fór því sjálfur; voru þær þá komnar ofan í fjöru, þegar hann gat snarað fyrir þær húfunni sinni. Við það spektust þær, og lögðu heimleiðis aptur. Sagt er, að Hafnareya-Gvendur sendi Þormóði alls 7 sendíngar, en magnaði nú hina áttundu, og var hún nálega tröll að vexti. Þegar draugur þessi kom í Gvendareyar, var dagur að kvöldi kominn, og er sagt, að Þormóður þyrði ekki að fara út og mæta honum, en bað Þóru að fara til dyranna fyrir sig. Gekk hún svo út, og særði burt drauginn, og sváfu þau Þormóður í næði fyrir honum um nóttina. En það er frá draugnum að segja, að hann hvarf aptur heim til Gvendar, og er sagt, að hann magnaði hann að nýu, og sendi hann svo á stað aptur, að drepa Guðrúnu eldri Þormóðsdóttur, sem áður er getið, hvort sem hún bjó þá í Stagley, eða Kiðey. Þeim Guðrúnu og Oddi, manni hennar, lynti aldrei saman, enda var Gunna sögð ákaflega skapstór og óhemjuleg; þó áttu þau börn saman. Þessa sömu nótt, sem Þóra hafði sært burt drauginn frá Gvendareyum, varð þess vart, að einhver ósköp og hamsleysi kom á Guðrúnu, svo hún rèð sèr ekki. Vitjaði þá Oddur Þormóðar, og bað hann koma að hjálpa dóttur sinni. Þormóður tók því seinlega, en fór þó; er þá sagt hann tæki það ráð að flytja Gunnu á land til Þíngvalla. Þegar hann var kominn undir land, reis boði í logni, svo flestu skolaði út, sem lauslegt var innanborðs, og þóptufylti bátinn. En í sama vetfángi og boðinn skall á Gunnu, náði Þormóður í hana; er þá sagt hann kvæði vísu og svitnaði við. Við það náði hann landi og gat borgið dóttur sinni í það sinn, en þó varð henni ekki fritt síðan, sem áður segir.[1] Sagnir eru um það aðrar, að Þóra Þormóðardóttir flyti alla þá drauga á skipi til lands, sem Hafnareya-Gvendur sendi föður hennar; því Þormóður

1. Aðrir segja, að Guðrún hafi ærzt við þessa draugssendingu Gvendar og farið sèr fram af björgum í Kiðey, sem áður segir, geingið svo aptur eða verið vakin upp og mögnuð af Gvendi og sókt að þeim Þormóði og Þóru, en þau hjálpazt að, að koma henni burtu; hafi hún þá orðið mesta meinvættur sumra nágranna sinna, en verst færi hún með bónda sinn í Kiðey, flæmdi hann þaðan með börnunum, og bygðist sú ey ekki leingi síðan. Sveinn Ögmundsson hefir svo frá sagt.

vildi fyrirkoma þeim á landi, en bannaði Þóru að tala nokkuð á leiðinni; sjálfur sat hann berhöfðaður í stafni. En þegar kom á sundið, tók báturinn að síga, og sagði Þóra þá: „Nú tekur ærið að síga, faðir minn,“ en við þessi ummæli Þóru seig þó báturinn enn um umfar, og sló Þormóður þá til hennar húfu sinni þegjandi. Treystist Þormóður þá ekki að halda til lands, og reri á boða einn, sem var á leiðinni, og setti þar niður draugana. Þar heitir síðan Draugaboði. Eptir það sættust þeir Þormóður og Hafnareya-Gvendur, að kalla. Þormóður falaði jafnan kver eitt að Gvendi, en Gvendur vildi ekki láta; þó hèt hann Þormóði því, aður en hann dó, að hann skyldi fá kverið eptir sig dauðan, og mundi það liggja á klettahyllu einni norður á eyarenda, og mætti hann þar að því gánga. Þegar Gvendur var dauður, ætlaði Þormóður að ná kverinu, og reri undir klettana, þángað sem honum var til vísað, og sá kverið á hyllunni, og blöktu í því blöðin fyrir vindi. Klettahyllan var svo há, að hann náði ekki til kversins úr bátnum; klifraði Þormóður svo upp á hylluna, en þá var kverið horfið. Þegar hann kom aptur í bátin, sá hann enn kverið á sama stað, en jafnan fór eins, þegar hann reyndi að ná því, og varð hann svo búinn frá að hverfa, og þóktist enn gabbaður af fjölkynngi Gvendar, þó hann væri dauður.[1] Heldur þókti örla á því, að Gvendur lá ekki kyr eptir dauða sinn; gekk hann drjúgum aptur, og kvaldi bæði menn og fènað eða drap. Fór þá svo, að Þormóðar var leitað, til að ráða bætur á þessum vandræðum. Þormóður fèkkst leingi við að kyrsetja Gvend, og að lyktum lèt hann grafa hann upp og brenna skrokkinn til ösku. Sjá má það, að gustkalt hefir Þormóði verið til Gvendar, og nálega aldrei þókt óhætt fyrir honum, og er vísa þessi, sem Þormóður kvað um Gvend, til sannindamerkis um það:

„Þó lagður sèrtu[2] á logandi bál,
líka að ösku brendur,
hugsa eg til þín hvert eitt mál
Hafnareya-Gvendur.“

Ymsar eru fleiri sagnir um viðureign Þormóðar við dranga, sem minna kveður að, og skal hèr enn tveggja getið, og sýnir önnur þeirra, að menn hafi virt svo, sem áður eru sögð dæmi til, að Þormóður hafi ekki ávalt verið við búinn í fyrstu að taka á móti draugum, og þurft stundum liðsinnis við annaðhvort af Þóru dóttur sinni, eða Brynhildi konu sinni. Eina nótt vakti Brynhildur Þormóð, og sagðist ekki geta sofið. Hann spurði, hvað til kæmi. Hún segir: „Heyrirðu ekki ólætin úti, sem standa mèr fyrir svefni?“ „Gefðu þig ekki að því, fuglinn minn;[3] grúfðu þig niður,“ segir Þormóður. Hún segir: „Smánastu ofan, Þormóður.“ „Eg skal gera það,“

1. Sveinn segir, að Þormóður hafi átt kverið og heitið Gvendi því eptir sig dauðan; en þegar Gvendur ætlaði að taka kverið, færi eins og hèr segir að ofan.
2. „væri' eg“ hefir Sveinn Ögmundsson.
3. Það var máltak Þormóðar.

segir hann: „en farðu þá ofan fyrir stigann á undan mèr.“ „Ef þú þorir það ekki sjálfur,“ segir hún, þá er ekki annað en gera það;“ fór hún svo á undan honum. En þegar ofan kom, bað hann Brynhildi að gánga aptur til hvílu. Er þá sagt, að áður þormóður lyki upp dyrum, væri ólætin af. — Önnur sögn er það, að vinnukona þormóðar kallaði til hans um nótt, og sagðist ekki geta sofið, því þegar ætlaði að renna í brjóstið á sèr, væri eins og sagt væri við eyrað á sèr í sífellu: „Kampahý, kampahý.“ þormóður sagði, að slíkt væri heimska ein, og bað hana, fuglinn sinn, að hafa kyrt um sig, en fór þó sjálfur ofan og til sjávar. Í því var hrifinn bátur hans, svo að þormóður náði að eins í fremra hluta hans.[1]

það var venja bænda í Breiðafjarðareyum, og er enn, að flytja fè sitt til meginlands á vorum, þegar það er geingið úr ull, og láta það gánga á afrèttum að sumrinu. þormóður gerði og svo, því hann átti talsvert fè, og þar á meðal forustusauð einn mórauðan, sjö vetra gamlan, þegar þessi saga gerðist. Móri hafði geingið á fjalli á hverju sumri, og ætíð komið að í fyrstu ganngum. þetta haust, sem hèr ræðir um, var geingið þrisvar, eins og venja var til, en ekki kom Móri fram að heldur. Er þá sagt, að þormóður kvæði vísu þessa, þegar Móri fannst ekki:

„Mótgángsóra mergðin stinn
mèr vill klóra um bakið;
illa fór hann Móri minn,
mikið stóri sauðnrinn.“

því hann þóktist nú vita, að þetta mundi ekki einleikið. Tók þormóður sèr þá ferð á hendur einu sinni um haustið upp að Staðarfelli; það var á laugardag. Daginn eptir var messað á Staðarfelli, og fjöldi fólks við kirkju. þegar úti var, og áður en fólk fór frá kirkju, spyr þormóður ýmsa, hvort þeir hafi ekki orðið varir við Móra, og neita því allir. þá gall einn maður við, sem þar var nærstaddur, og heyrði á tal þormóðar, og sagði: „Honum hefir sjálfsagt verið stolið; það er ekki spánýtt hèrna á Fellströnd, þó menn fái ekki fè sitt með tölu af afrèttum. Betur, að allir bifsaðir þjófarnir hèrna væru fleingdir og heingdir.“ þá sagði þormóður: „Jarmaðu nú, Móri minn, hvar sem þu ert.“ Í sama bili kom feykilegur jarmur upp úr manni þeim, sem mest hafði hallmælt þjófunum á Fellströnd; því Móri ærðist og beljaði niður í honum, eins og hann ætlaði að springa. Alla furðaði mjög á þessu; en þormóður gekk að manninum, og bar upp á hann, að hann hefði stolið Móra. Maðurinn sá sèr ekkert undanfæri annað en gángast við sannleikanum, og því með, að hann hefði jetið sviðin af Móra um morguninn, áður en hann fór til kirkjunnar.[2]

1. Gísli Konráðsson ber afkomendur þormóðar fyrir því, að þessi atburður hafi orðið, meðan þormóður bjó í Vaðstakksey.

2. Frásögnin um Móra er tekin eptir handriti frá sèra Páli Jónssyni á Völlum; heimild hans veit eg ekki. En Sveinn Ögmundsson hefir sagt mèr, að vísan, sem til er færð: „Mótgángsóra mergðin stinn“ o. s. frv., ætti við þá sögu.

Alsagt er það, að þormóður orkaði ekki minna með ákvæðum sínum en fjölkynngi, og eru nokkrar þær vísur enn til eptir hann, en sumra er áður getið. Einu sinni kom hann fram á kaupskip í Stykkishólmi, og vildi gánga í káetu fyrir kaupmann; en matsveinninn á skipinu bannaði þormóði það með illyrðum. þormóður tróð sèr þar inn eingu að síður, og kvað, þegar hann kom fyrir kaupmann:

„Kokkurinn yðar, kaupmaður minn,
sè kyrktur, eins og lundi;
hann gerði mèr banna að gánga inn,
gikkurinn líkur hundi.“

Litlu síðar heyra þeir kaupmaður og þormóður eitthvert snörl uppi á þilfarinu, og þegar að er gáð, verða þeir þess varir, að farið er að korra í matsveininum, eins og verið væri að kyrkja hann. Kaupmaður varð lafhræddur, því hann grunaði hvað olli, skeinkti á stóran bikar og rètti þormóði, og bað hann í öllum bænum að gera bragarbót. þá kvað þormóður:

„Meðan lífs ei húmar húm,
hraustur sèrt og virkur;
þitt um andar rýmki rúm
rèttur líkams styrkur.“

Við þessa vísu er sagt, að matsveininum lètti þegar. Í öðru sinni var þormóður staddur úti á skipi í Stykkishólmi, og kom honum til hugar að fá sèr tókakspípu. Fór hann svo þángað á skipið, sem matsveinninn hafði beykistöðu sína, en hann var hollenzkur að ætt. Meðal annars sá þormóður hjá honum tvær tóbakspípur, og leggur fölur á þær. Matsveinninn þóktist ekki geta fargað þeim, því hvorki ætti hann fleiri, enda væri báðar brákaðar. þormóður lèzt ekki trúa því, að hann ætti ekki fleiri; en matsveininn sór sig um það og sárt við lagði. þormóður kvað:

„Ef kokkurinn á ei utan tvær,
eingin sjást á lýti;
mèlinu smærra moli þær
morðínginn í víti.“

En varla hafði þormóður slept orðinu, fyrr en báðar pípurnar duttu niður á gólf og þar með 4 eða 5 tóbakspípuhöfuð önnur ofan af hyllu, og fór alt í þúsund stykki. Eptir það varð eingin viðstaða á fyrir þormóði að fá tóbakspípuna hjá matsveininum og góðgjörðir að auki. Kaupmaður sá var í Stykkishólmi, sem Mórus hèt. þormóður bað hann að lána sèr mèlstamp; en kaupmaður synjaði. þá kvað þormóður:

„Mig kynjar ei, þó kári blási kuldagolu,
fyrst Mórus ekki mèr vill lána mèlstamps-holu.“

Svo er sagt, að kaupmenn væri hræddir við ákvæði þormóðar og lèti alt uppi fyrir honum, og það þó sumir þeirra skildu ekki, hvað þormóður kvað, og svo er sagt, að Mórusi færi, þegar hann heyrði

stökuna.[1] Getið er þess, að þormóður var einu sinni sem optar staddur í Stykkishólmi, og lèki kaupmanninum einhvern hrekk, svo að hann sá sèr ekki annað færi, en forða sèr út á skip. Um sama leyti var þar staddur Björn eldri Jónsson frá Lángadal, móðurbróðir þormóðar; hann bjó í Vogi, og þókti fjölkunnugur. Kaupmaður keypti að Birni, að gera galdraveður að þormóði, þegar hann færi heim. það veður var svo mikið, að þormóður gat við ekkert ráðið, og gat með nauðum náð landi í Deildarey, skamt frá Staðarfelli, og varð að liggja þar þrjú dægur. þá kvað hann vísu þessa:

„Gæti eg flogið greitt, sem örn,
gista hèr ei skyldi,
upp að Vogi, eldra Björn
eg þá finna vildi.“

Ekki er þess getið, hvort þormóður hefndi þessa á Birni, eða ekki.

Um þær mundir, sem þormóður var uppi, var sú venja hèr á landi, að eingin var þá vetrarverzlun hèr, eða að minnsta kosti ekki þar vestra í Stykkishólmi og Ólafsvík, því „eptirliggjarar“ voru þá enn ekki farnir að vera hèr á vetrum. En þó höfðu kaupmenn vörubúðir, sem þeir verzluðu í á sumrin, en voru lokaðar og forsiglaðar á haustin, þegar þeir fóru hèðan af landi. þannig stóðu þær óhreifðar allan veturinn, nema ef svo bar undir, að bjargarskortur varð manna á milli; þá mátti hlutaðeigandi sýslumaður, sem hafði lykla að búðunum, opna þær og lána nauðstöddum eptir máli og vigt matvæli mót fullu verði, en loka aptur og forsigla síðan. Stundum bar það við á vetrum, að menn urðu bjargþrota í grend við Stykkishólm, en fáir voru, sem gátu miðlað af eigin forða svo mörgum,

---

1. það segja þó aðrir, að Mórus hafi ekki látið sèr segjast við þessa vísu, og kvæði þormóður þá aðra; hún er svo:

„Sunnanvind af svörtum tind,
sendu niður híngað,
svo hverri kind á laxalind
liggi við að springa.“

Við það brá svo, að það dró upp myrkvan skýflóka á suðurfjöllin, og fylgdi þar með svo óstjórnlegt veður, að við ekkert varð ráðið. Lá þá kaupskipið á höfninni, og var ekki annað sýnna, en að það mundi þá og þegar slitna upp. Bauð kaupmaður þá þormóði svo mikið lán, sem hann vildi, til þess að gera bragarbót, og varð það að sætt með þeim, að þormóður fèkk mèlstampinn, en kvað þetta:

„Kristur minn, fyrir kraptinn þinn,
kóngur í himnahöllu,
gefðu þann vind á græðishind,
að gángi í lagi öllu.“

Við þetta slotaði veðrinu þegar í stað. þetta er eptir frásögn Sveins Ögmundssonar. Seinni vísan er mjög lík einni af vísum þórðar á Strjúgi, sjá Ákvæðaskáld, 470. bls. Sumir eigna og þormóði vísuna: „Eg krefst þess af þèr,“ o. s. frv., sem fyrri er eignuð þórði.

sem þurfandi voru, þó sumir væru vel sjálfbjarga, eins og þormóður þókti jafnan. Einu sinni lögðu fátæklíngar mjög að þormóði, að opna búðirnar í Stykkishólmi, og báru sig mjög aumlega, og sögðust mega deya í sulti, þó þar væru matarnægðir til nógar, af því þeir ættu ekkert fyrir að gefa, þó sýslumanns væri leitað; en það þóktust þeir vita, að ekki mundu skrár og læsíngar standa fyrir þormóði. Sagt er, að þormóður væri mjög tregur til þessa, en lèti þó til leiðast fyrir þrábeiðni aumíngja, svo hann bar lásagras að læsíngum og opnaði með því búðirnar, og er sagt hann lèti þá síðan sjálfráða, en færi hvergi inn sjálfur. Af þessu fóru hatursmenn þormóðar að flimta með það, að hann stæli úr kaupmannsbúðunum í Stykkishólmi, bæði handa sèr og öðrum, og vinir hans gátu ekki heldur svarið fyrir hug sinn um það, að hann mundi hafa hjálpað nokkrum nauðstöddum á þann hátt. þessi kvittur varð hljóðbær, og kom fyrir sýslumanninn í Snæfellsnessýslu, sem þá var, að því er sagnir segja, Guðmundur Sigurðsson á Íngjaldshóli,[1] og er það einmitt sami maðurinn, sem Espólín segir um, að í hans tíð hafi vöruhúsa-gluggar í Ólafsvík verið brotnir til stuldar, og vissi einginn hver gert hefði; en síðan er sýslumaður skyldi miðla mönnum korni til bjargar, bryti hann hvorki innsigli, nè lyki upp, en færi inn um glugga, og tæki þar út kornið, og þækti það óhöfðínglegt, og hann yrði sjálfur grunaður um að vita til, og það yrði honum að brigzli.[2] Guðmundur kallaði þormóð fyrir sig, og bar það á hann, að hann hefði farið í vörubúðirnar í Stykkishólmi og stolið þaðan. þormóður lèt sèr ekki bilt við verða, játaði hvorki nè bar af sèr kæru sýslumanns, en mælti fram vísu þessa:

„Að mèr berast efnin vönd,
er eg í máta glaður;
hafið þèr sèð hann Glugga-Gvönd,
göfugi sýslumaður?"

Er mælt, að sýslumaður hafi þekt þar skeyti sitt í vísunni, og slept þormóði óátöldum. En þó þormóður kæmist svo hægt frá tiltektum sínum við sýslumann, sem nú var sagt, var þó ekki alt þar með búið; því þegar

1. Guðmundur var sýslumaður í Snæfellsnessýslu 1734 til 1753. En Gísli Konráðsson segir, og ber fyrir því annál Jóns Ólafssonar á Grímsstöðum, að farið hafi verið í búðirnar í Stykkishólmi 1711 og stolið þaðan mikilli vöru, og þó mest af klæðum, svo meira var en til 60 vætta og dróttað að þormóði í Gvendareyum, og er að sjá, sem það hafi orðið grunsamt af því, að sagnir sèu um, að eptir tökuna fyndist sylgja af kvennlinda, og væri á fángamark grafið, og segðu það óvinir þormóðar, að sylgjan væri af linda Brynhildar konu hans, en aðrir segja, að það væri belti hennar, og hafi Jón Sigurðsson, sem þá hafði lögsögn í Snæfellssýslu, þingað í málum þessum og dæmt þormóð syknan saka, þó nokkrar líkur bærust á hann. Telji þó sumir, að þormóður sværi yfirskotseið. Vera má, að þessi frásögn sè sannari, en mèr þykja munnmælin mætari, sem koma Guðmundi sýslumanni svo laglega inn í söguna, og hafa í því stuðníng af Árbókum Espólíns.

2. Árbækur Espólíns, X, 39—40. bls.; sbr. X, 5. bls.

Stykkishólms kaupmaður[1] kom hingað sumarið eptir, var honum borin sólarsagan af þormóði, og eptir það gerði kaupmaður sèr alt far um að rýnast eptir um þormóð, og hvort hann væri valdur að stuldinum. En aldrei gat hann orðið neins vísari um það; því í hvert sinn sem hann gerði tilraunir til þess, sá hann aldrei annað, en fleginn kálf, sem dró á eptir sèr húðina á halanum; svo vilti þormóður sjónir fyrir kaupmanni. Nú leið og beið, til þess þormóður kom út í Hólm, var þá kaupmaður hinn reiðasti og hafði í heitíngum við hann, nema hann vildi bæta sèr tjónið að fullu. þormóður vildi eingu bæta, þar sem hann þóktist ekkert hafa brotið. Kaupmaður sagði, að þó hann slyppi í þetta sinn, skyldi hann fá makleg málagjöld að sumri. þormóður varð ekki smásmeykur við það og sagði: „Fyrr muntu hánga höfuðlaus í Hetlands (Hjaltlands) skaga.[2]“ Við það skildu þeir og hafði kaupmaður ekki meira af honum. Pétur hèt úngur maður, sem var á skipi með kaupmanni, og hafði hann opt vikið góðu að þormóði. þormóði var því vel til haus, kom að máli við hann um sumarið, og rèð honum til að ráðast burt af skipinu; en það vildi Pètur ekki. þá rèð þormóður honum, að hann skyldi aldrei vera varbúinn á útsiglíngunni, til hvers sem hann þurfti að taka, eða ef eitthvað kynni á að bjáta. Sama daginn, og skipið lagði út úr Stykkishólmi, einum eða tveimur dögum fyrir allra heilagra messu, og á því kaupmaðurinn og Pètur, var þormóður staddur í kaupstaðnum, og fór út í Stykkið og kvað vísur nokkrar, og er þetta upp hafið:

„Stykkishólmi stefnir frá
  straumabjörninn[3] þúngi;
að honum veltist bylgjan blá,
  bylti veðra drúngi.
Ránar dætur ríði á slig
  rasta hesti búna,
hvíthaddaðar svelgi í sig,
  sökkvi haukur húna.“

Einu morgnu snemma vetrar, eptir að Stykkishólmsskipið sigldi hèðan, var þormóður árla á fótum, og kom inn í skála um það leyti, sem fólk var að fara á fætur, settist niður og strauk upp og ofan andlitið, eins og hann var vanur, þegar honum bjó mikið í skapi, og sagði: „Nú fór Stykkishólmsskipið við Hetlandsskaga í nótt.“ En það er af skipinu að segja, að það fórst við Hjaltland sömu nóttina, og komst einginn lífs af, nema Pètur; sumir segja að hann kæmist á land með alt sitt, en aðrir, að hann flyti höfuðfatslaus í land á dúnpoka. Sagt er og, að hann hafi

1. Gísli segir að hann hafi heitið Benedix Bastjanssen.

2. Sbr. spá Haldórs Ólafssonar í Hjarðarholti um þorkel Eyólfsson: „Fyrr muntu spenna um þaungulshöfuð á Breiðafirði,“ o. s. frv. Laxdæla, 75. kap. 324. bls.

3. „jórinn“ hefir Gísli Konráðsson.

átt að sjá kaupmanninn höfuðlausan í fjöruklúngrinu. Pètur komst til Kaupmannahafnar, og varð eptir það nokkur sumur undirkaupmaður í Stykkishólmi, en leingi síðan kaupmaður á Grundarfirði.

Frá æfilokum Þormóðar veit èg ekkert að segja, en hitt er víst, að hann kvað „Iðrunarmansaung,“ áður en hann dó árið 1741, og var hann þá gamall orðinn.[1]

**Frá sèra Eiríki í Vogsósum.** (1667—1716.) Um sèra Eirík í Vogsósum eru geysimargar sögur og missagnir. Úr Selvogi, sveit sèra Eiríks, eru sögurnar beztar og einkennilegastar. Sèra Magnús Grímsson hefir og ritað margar sögur um sèra Eirík (hèr merktar M. G.) „eptir sögn og handritum Brynjólfs Jónssonar, skólapilts frá Hruna með samanburði við almanna sögn manna úr Borgarfirði. Eiríkur var forn í skapi og fjölkunnigur, gekk hann mjög í hóla og gjörði marga hluti undarlega; engum gjörði hann ilt með kunnáttu sinni, en smáglettinn var hann helzt ef á hann var leitað að fyrra bragði. Það var siður Eiríks að hverfa frá bænum á hverju langardagskveldi og koma eigi aptur fyrr en á sunnudagsmorgnana. Ekki vissi neinn maður hvað hann var að sýsla í ferðum þessum.“

Eiríkur nemur kunnáttu í skóla.[2] Í Biskupstúngum var eittsinn kotkarl nokkur gamall og forn í skapi; lítt siðblendi hafði hann við alþýðu. Hann átti 2 hluti, er honum þóktu beztir af eigum sínum; það var bók, er ekki vissu aðrir menn hvers innihalds var, og kvíga, er hann kappól. Karl tók sótt mikla og sendi orð Skálholtsbiskupi, og bað hann koma á sinn fund. Biskup brá við skjótt, og hugði gott til, að tala um fyrir karli, og fer til fundar við hann. Karl mælti: „Svo er mál með vexti, herra, að eg mun skjótt deya, og vil eg áður biðja yður lítillar bónar.“ Biskup játti því. Karl mælti: „Bók á eg hèr og kvígu, er eg ann mjög og vil eg fá hvorttveggja í gröf með mèr, ella mun verr fara.“ Biskup segir, að svo skuli vera; því honum þókti ei örvænt, að karl geingi aptur að öðrum kosti. Síðan dó karl, og lèt biskup grafa með honum bókina og kvíguna.

Það var laungu síðar, að 3 skólasveinar í Skálholti tóku fyrir að læra fjölkynngi. Hèt einn þeirra Bogi, annar Magnús, þriðji hèt Eiríkur. Sagt hafði þeim verið af karli og bók hans, og vildu þeir gjarnan eiga þá bók; fóru því til á einni nóttu að vekja upp karlinn, en einginn kunni að segja,

1. Þormóður kemur við söguna af þeim feðgum Bjarna Jónssyni og Bjarna Bjarnasyni; þar að auki hefir leikið orð á því, að hann hafi fóstrað Galdra-Lopt, komið honum í Hólaskóla sökum vináttu við Stein biskup, frá því hann var prestur á Setbergi, og harmað mjög missi Lopts, þegar hann fórst. Svo hefir Gísli Konráðsson frá sagt.

2. Dr. Maurers Isl. Volkss. 151. bls.

hvar gröf hans var. Því tóku þeir það ráð, að gánga á röðina og vekja upp hvern að öðrum; fylla þeir nú kirkjuna af draugum og kom karl ekki. Þeir koma þeim niður aptur, og fylla kirkjuna í annað sinn og hið þriðja, og voru þá fá leiði eptir, og karl ókominn. Þegar þeir höfðu komið öllu fyrir aptur, vekja þeir þessa upp, og kom karl þá síðastur, og hafði bók sína undir hendi sèr, og leiddi kvíguna. Þeir ráða allir á karl, og vilja ná til bókarinnar; en karl brást við hart, og áttu þeir eigi annað að gjöra, en verjast; þó náðu þeir af bókinni framanverðri nokkrum hluta, yfirgáfu svo, það eptir var, og vildu koma fyrir, þeim er þá voru á kreiki, og tókst þeim það við alla, nema karlinn; við hann rèðu þeir eingu og sókti hann eptir parti bókar sinnar. En þeir vörðust og áttu ærið að vinna; gekk svo til dags. En er dagaði, hvarf karl í gröf sína; en þeir þuldu yfir henni fræði sín, og hefir karl ekki gjört vart við sig síðan. En blöðin færðu þeir fèlagar sèr í nyt og sömdu eptir þeim fjölkynngisbók þá, er „Gráskinna"[1] er nefnd og leingi lá á skólahússborði í Skálholti; vann Bogi þar mest að, því hann lærði miklu mest.

Þeir fèlagar vígðust síðan til prestskapar; varð Eiríkur prestur á Vogsósum í Selvogi, en ekki eru nefndir staðir hinna. En það er frá þeim sagt að Magnús gekk að eiga heitmey Boga. En er hann spurði það, fer hann til fundar við Magnús, og vissi Magnús það fyrir og það með, að ef Bogi sæi hann fyrri, væri það sinn bani. Magnús gekk í kirkju og stóð á hurðarbaki, og lèt segja Boga, er hann reið í hlað, að hann væri í kór að gjöra bæn sína. Bogi gekk í kirkju og inn á gólf, og sèr Magnús hann fyrri, og fagnar honum nú vel. Hann tók því glaðlega, og er hann reið burt, fylgdi Magnús honum á veg. Að skilnaði tekur Bogi upp pela, og býður Magnúsi að súpa á. Hann tók við, tók úr tappann og skvettir í andlit Boga, en hann fèll dauður niður. Fer Magnús síðan heim og segir ekki fleira af honum. Þegar Eiríkur á Vogsósum frètti þenna atburð, brá honum við og mælti: „Já, já, heillin góð" (það var vana ávarp hans[2]) „allir vorum við þó börn hjá Boga." Þó þeir fèlagar hefðu farið dult með fjölkynngis-lærdóm sinn, leið ekki á laungu, áður það komst í orð, að Eiríkur á Vogsósum væri göldróttur; því boðaði biskup honum á sinn fund og sýndi honum „Gráskinnu" og bað hann gjöra grein fyrir, hvort hann kynni það, sem á henni væri. Eiríkur fletti upp bókinni og mælti: „Hèr þekki èg ekki einn staf á," og það sór hann og fór heim síðan. Sagði hann svo síðan kunníngja sínum, að hann þekti alla stafi á bókinni, nema einúngis einn, og bað hann segja frá því, þegar hann væri dauður, en ekki fyrr.

1. Önnur „Gráskinna" var til í Hólaskóla, sjá söguna Guðbjartur flóki og Hólabiskup, 509. bls.

2. Í sögunum, sem komnar eru úr Múlasýslu, er sagt, að sèra Eiríkur hafi haft fyrir ávarpsorð: „barnið mitt."

Bókin í Selvogskirkju-garði.[1] (Austan úr Múlasýslu.) Þegar séra Eiríkur var ný-kominn að Vogsósum, fór hann að húsvitja í sókn sinni. Þar var á einum bæ gamall maður og blindur, sem Þrándur hét; hann kunni margt í fornum fræðum. Séra Eiríkur gaf sig á tal við hann og segir: „Eg veit, að það er bók í Selvogskirkju-garði, sem mikill fróðleikur er á; en ekki veit eg, hvar helzt hún er í garðinum, annars mundi eg vera búinn að reyna að ná henni.“ Þrándur sagðist vera orðinn svo gamall og sjónlaus, að hann gæti ekki vísað honum á bókina; en ef hann hefði verið á upprèttum fótum og jafn-heilskygn, sem prestur, mundi hann ekki hafa þurft að láta segja sèr, hvar hún væri í kirkjugarðinum; en kvaðst þó, ef prestur vildi leiða sig út í garð sjávar megin kirkjunnar, skuli reyna að komast eptir, hvar bókin sè. Prestur tekur þá í hönd Þrándi, og leiðir hann út í kirkjugarð sjávar megin kirkjunnar. Þegar Þrándur er þar kominn, tvístígur hann með allri kirkjuhliðinni, og er hann stígur niður hægra fæti í einum stað, segir hann, ef bókin sè ekki hèr undir, viti hann ekki, hvar hennar sè að leita. Sèra Eiríkur setur á sig þenna blett, sem karl vísaði til, og leiðir síðan karlinn aptur til bæar, þakkar honum fyrir og gefur honum glaðning að skilnaði. Eptir það geingur sèra Eiríkur inn í kirkju einn saman, og þylur þar eitthvað fyrir munni sèr. Stefnir hann þángað til sín öllum hinum framliðnu úr kirkjugarðinum, þeim megin kirkjunnar, sem karl hafði honum til vísað, fyrst þeim, sem þar lágu grafnir frá tvítugs-aldri til fertugs-aldurs. Koma þeir þá allir inn í kirkjuna. En er prestur sèr, að eingin þeirra hefir neitt meðferðis, vísar hann þeim út aptur. Því næst stefnir hann öllum framliðnum frá fertugs-aldri til sextugs-aldurs inn í kirkjuna, og hafa þeir ekki heldur neitt meðferðis, og því vísar hann þeim einnig á bug aptur. Í þriðja sinn stefnir prestur inn til sín öllum framliðnum frá sextugs-aldri til níræðs, og tínast þeir inn í kirkjuna. Síðast þeirra geingur einhver mannrola, og sèr prestur, að hún hefir eitthvað undir hendinni, og færist hún eins og hinir innar að presti. Prestur grípur þá til þess, er hún hafði undir hendinni; því hann sèr, að það er bók, og nær hann í eitt blaðið; en vofan vildi ekki láta lausa bókina. Áttust þeir þá við, sèra Eiríkur og vofan, um stund, svo að bókin datt á kórgólfið, en vofan varð fyrri til að ná henni aptur, og hljóp þegar út með hana, svo sèra Eiríkur hafði ekki meira af bókinni, en það eina blað, er hann hèlt á. Prestur sagði svo frá síðan, að af þessu eina blaði hefði hann numið meiri kunnáttu, en af öllu öðru, er hann hefði lært, og hèlt, að þó hann hefði náð allri bókinni, hefði hún orðið sèr ofurefli.

Handbókin.[2] (Úr Selvogi.) Margir ýngissveinar fóru til Eiríks prests, og báðu hann kenna sèr. Hann reyndi þá með ýmsu móti, og kendi þeim,

1. Sbr. Dr. Maurers Isl. Volkss. 151. bls.
2. Sbr. Dr. Maurers Isl. Volkss. 160. bls.

er honum sýndist. Meðal aunara var eiun piltur, er falaði kennslu í galdri. Eiríkur mælti: „Vertu hjá mèr til sunnudags og fylg mèr þá til Krýsuvíkur, síðan skal og segja þèr af eða á.“ Þeir ríða af stað á sunnudaginn, en er þeir koma út á sand, mælti Eiríkur: „Eg hefi þá gleymt handbókinni; hún er undir koddanum mínum; farðu og sæktu hana, en ljúktu henni ekki upp.“ Pilturinn fer, og sækir bókina, og ríður út á sand. Nú lángar hann til að líta í bókiua, og það gjörir hann. Þá koma að honum ótal púkar og spyrja: „Hvað á að gjöra, hvað á að gjöra?“ Hann svarar skjótt: „Flèttið reipi úr saudinum.“ Þeir setjast við, en hann heldur á fram, og nær presti úti í hrauni. Hann tók við bókinni og mælti: „Þú hefir lokið henni upp.“ Pilturinn neitar því. Þeir fara nú, sem ætlað var; en á heimleiðinni sá prestur, hvar púkar sátu á sandinum, þá mælti hann: „Vissi eg það, að þú laukst upp bókinni, heillin góð, þó þú neittir; en snjallasta ráð tókstu, og væri vert, að kenna þèr nokkuð.“ Er svo sagt, að hann hafi kent honum.

Glófarnir. (Úr Selvogi.) Annan pilt, sem kennslu falaði, sendi prestur fram í Strandarkirkju-garð, og kvaðst hafa skilið þar eptir glófa sína. Pilturinn fer og finnur glófana; en er hann vill taka þá, kvika fíngurnir. Hann varð hræddur, og fer aptur og segir presti. Hann mælti: „Farðu heim, heillin góð; þèr get eg ekki kent.“

Uppvakníngurinn. (Úr Selvogi.) Tveir piltar komu einu sinni til Eiríks prests, og báðu hann að sýna sèr, hvernig hann færi að vekja upp drauga. Hann bað þá fylgja sèr til kirkjugarðs. Þeir gjörðu svo. Hann tautar eitthvað fyrir munni sèr, og kom þá moldargusa upp úr leiði. En piltum brá svo við, að annar hló, en annar grèt. Eiríkur mælti við hann: „Far þú heim, heillin góð, og þakkaðu fyrir, að þú heldur vitinu; hinum væri gaman að kenna.“ En ekki er þess getið, hvort úr því varð.

Tryppið. (M. G.) Einu sinni komu tveir menn til Eiríks, og báðu hann, að keuna sèr galdur. Eiríkur sagðist ekki kunna galdur, „en vera megið þið hjá mèr í nótt,“ segir hann. Þeir þágu það. Um morguninn kemur Eiríkur til gestanna, og biður þá, að gánga út með sèr til skemtunar. Þeir gjöra svo. Koma þeir þá að hesthúsi á túninu, og geingu inn í það. Þar sáu þeir inni tryppi eitt, sem löðraði alt utan í einhverri slepju, og var mjög viðbjóðslegt. Þá segir Eiríkur: „Þið verðið að sleikja alla slepjuna af tryppinu því arna, piltar, ef eg á að geta keut ykkur nokkuð.“ Þá segir auuar gesturinn: „Ekki lángar mig svo mikið til að læra galdur, að eg geti unnið það til, að karra slíkan fjanda.“ „Ekki held eg, að eg horfi í það,“ segir hinn, og ætlaði nudir eins að byrja.

„Þess þarf ekki, heillin," segir Eiríkur, „þú mátt ekki læra neitt; því þú svífist ekki neins." Hinum manninum kendi hann.

Aðrir segja, að Eiríkur hafi kent þeim manninum, sem ekki ætlaði að horfa í, að sleikja tryppið, en hinum ekki.

Tarfurinn. (M. G.) Einu sinni kom piltur til Eiríks, og bað hann, að kenna sèr galdur. „Eg kann eingan galdur, heillin góð," segir Eiríkur, „en vera máttu í nótt." Maðurinn þá það. Þetta var um vetur. Á vökunni kemur prestur til piltsins, og biður hann, að festa tarfi sínum, sem hafi slitið sig upp. Pilturinn játar því, og fer út í fjósið. Þar var lángur ránghali inn að gánga, og lagði inn í hann daufa skímu. Hann heyrði, að tarfurinn lèt illa, og bölvaði í ákefð. Ei að síður fer pilturinn inn. En þegar hann kemur inn í ránghalann, sèr hann tvo menn, og stóð sinn hvoru megin við veggina í ránghalanum. Þeir voru höfuðlausir, og börðust með blóðugum lúngunum. Piltinum varð bilt við, og hrökk út aptur. Hljóp hann inn til Eiríks, og sagði, að fjandinn væri laus í fjósinu hans, og gæfi hann ekki um að gánga í greipar honum. „Jæja, heillin góð," segir Eiríkur, „þá verður þú að fara burtu aptur á morgun."

Annar maður kom seinna í sömu erindum til Eiríks, sem hann lagði sömu þraut fyrir. Sá var ekki smeykur, og sagði þegar hann sá draugana: „Þið megið vera að ykkar vinnu, piltar, þó eg gángi snöggvast á milli ykkar." Batt hann svo tarfinn, og gekk vel. Þegar hann fór út aptur, sá hann hvergi draugana. En þar sá hann trèdrumba tvo, sem draugarnir höfðu verið. Þegar hann kom inn aptur, sagði Eiríkur: „Bastu tarfinn, heillin góð?" „Ó já, víst batt eg hann," segir hinn. „Sástu ekkert á leið þinni?" segir Eiríkur. „Ekki get eg talið það," segir hinn. Eiríki líkaði þetta svo vel, að hann tók manninn og kendi honum.

Förukerlíngin. (M. G.) Einu sinni, sem optar, komu tveir menn til Vogsósa-Eiríks, og báðu hann, að kenna sèr galdur. Hann segist ekki kunna galdur, en vera megi þeir hjá sèr um nóttina. Þeir þágu það. Um morguninn biður Eiríkur gestina, að ríða með sèr út á túnið kríng um bæinn, sèr til skemtunar. Þeir gjöra svo. En þegar þeir voru skamt komnir frá bænum, mætir þeim kerlíng ein gömul. Hún hafði barn á brjósti, og bað Eirík, að greiða eitthvað fyrir sèr. Eiríkur brást reiður við, og sagðist ekki bera við, að gefa henni neitt. Kerlíng sagðist vera ekkja, og eiga mikið bágt, og bar sig mjög aumkunarlega. Eiríkur varð því bistari við hana, og sagði, að sèr væri farið að leiðast, að heyra jarminn í þessum bónkjálkum, „og væri rèttast að drepa ykkur, ólukku húsgángarnir." Þetta og fleira sagði Eiríkur við konuna; en hún bað hann því innilegar. Þá segir Eiríkur við mennina: „Þið verðið að drepa fyrir mig kerlínguna þá arna, ef eg á að kenna ykkur." Þá segir annar gesturinn: „Aldrei hugsaði eg það, Eiríkur, að þú værir svona guðlaus maður,

og mun eg aldrei vinna slíkt ódæði. hvað sem í boði væri." „Ekki held eg, að eg geti látið þetta fæla mig frá honum sèra Eiríki," segir hinn gesturinn, „og er eg fús á, að drepa kerlínguna; því það er öldúngis rètt gjört, að drepa þá, húsgángana þá arna. Eg held, að þeir megi þakka fyrir, aumíngjarnir þeir, að fá að losast við lífið." Eiríkur rak þenna mann frá sèr, og sagðist ófáanlegur til að kenna slíkum illmennum; en hinn tók hann og kendi. Eiríkur hafði gjört mönnunum sjónhverfíngu til að reyna þá; því í rauninni sáu þeir einga kerlíngu.

Hólgángan. (M. G.) Einu sinni bað únglíngsmaður sèra Eirík, að lofa sèr að fara með honum eitt laugardagskvöld, er prestur hvarf frá bænum. Prestur skoraðist leingi undan því, og sagði, hann mundi ekki hafa mikil not af því. Maðurinn sókti því fastar. á, og hèt Eiríkur loksins, að verða við bón hans einhvern tíma. Nokkru síðar fer prestur og tekur manninn með sèr. Þá var veður fagurt og bjart. Þeir geingu út á túnið að hól einum. Prestur slær sprota á hólinn. Lýkst hann þá upp, og kemur þar út kona, roskin. Hún heilsaði Eiríki kompanlega, og bauð honum inn. Þar kom og út stúlka, úngleg, og bauð hún fylgdarmanni prests inn. Þeir gjörðu svo, og komu í baðstofu. Hún var bygð á palli, og sat þar fjöldi manna alt í kríng. Þeir Eiríkur sátu yztir við dyr öðru megin, og Eiríkur þó innar. Einginn talaði hèr orð frá munni, og þókti fylgdarmanni prests það kynlegt. Konurnar geingu út báðar, og komu inn aptur að litilli stundu liðinni. Höfðu þær þá hníf og trog í hendi sèr, og geingu að hinum yzta manni hinu megin við dyrnar. Tóku þær hann, og lögðu niður við trogið, og skáru hann í það, eins og kind. Síðan tóku þær þann næsta, og svo hvern að öðrum eptir röðinni, og fór alt á sömu leið. Einginn reyndi til að verja sig, og allir þögðu. Ekki sást það á Eiríki, að hann kipti sèr upp við þetta, en nóg þókti fylgdarmanni hans um. Sá hann, að þær mundu ekki ætla að hætta, kvennsurnar, fyr en allir væru skornir; því þegar þær komu að Eiríki, tóku þær hann og skáru, eins og hina. Þá æpti maðurinn upp, tók til fótanna, hljóp á dyr og komst út. Hljóp hann þá heim til bæjarins, og þóktist eiga fótum fjör að launa. En þegar hann kom að bæjardyrum, stóð Eiríkur prestur í dyrunum, og studdi höndum á dyradróttina. Hann brosti við, þegar hann sá manninn, og segir: „Því hleypur þú svona ákaflega, heillin?" Maðurinn vissi ekkert, hvað hann átti að segja; því nú skammaðist hann sín, af því hann sá nú, að prestur mundi hafa gjört sèr sjónhverfíngu. Þá segir Eiríkur: „Eg hugsaði það altènd, heillin góð, að þú mundir ekki mega sjá neitt."

Gandreiðin. (Úr Selvogi.) Einu sinni hvarf Eiríkur prestur, og vissi einginn, hvar hann var nokkra daga. Ámeðan voru piltar 2, sem voru

til kennslu hjá honum, sendir fram í kirkju, og er þeir ljúka henni upp, sýnist þeim Eiríkur prestur liggja höfuðlaus á gólfinu. Annar vill þreifa á honum, en hinn þverbannaði það. Degi síðar kom Eiríkur aptur og þakkaði hann piltinum fyrir, að hann lèt hann ósnertan. Kvaðst hafa farið á gandreið á Vestfjörðu að finna kunníngja sína. „hefði eg nú verið snertur, þá hefði eg aldrei komizt í samt lag aptur.“

Hestastuldurinn. (Sbr. Dr. Maurers Isl. Volkss. 159.—60. bls.) Sèra Eiríkur varaði bæði smala og aðra stráka í Selvogi við því, að taka hesta sína í leyfisleysi, og kvað þeim mundi gefast það illa. Enda vöruðust allir smalar, að snerta reiðhesta hans. Tveir dreingir brugði þó út af þessu. En jafnskjótt og þeir voru komnir á bak, tóku hestarnir undir sig sprett, og stefndu rakleiðis heim að Vogsósum, og rèðu dreingir ekkert við þá. Þeir ætluðu þá að fleygja sèr af baki, er þeir gátu ekki stilt hestana, en þess var ekki beldur kostur, því brækur þeirra voru fastar við hestbökin. „Þetta tjáir ekki,“ segir annar þeirra, „við verðum að losa okkur af hestunum; annars komumst við í bendurnar á honum sèra Eiríki, og af því verðum við ekki öfundsverðir.“ Síðan tekur hann upp hníf bjá sèr, og sker alla klofbótina úr brókum sínum, og komst við það af baki. En hinn hafði annaðhvort ekki lag til að koma þessu bragði við, eða bann þorði ekki að skemma brækur sínar. Hestarnir hlupu heim að Vogsósum, annar með strákinn æpandi, en binn með bótina fasta á sèr. Prestur var úti, er hestarnir komu í hlaðið; strauk hann þá bótina af baki hins lausu bests, en sagði við dreinginn, er reið hinum: „Það er ekki gott, að stela hestunum bans Eiríks í Vogsósum. En farðu af baki, og taktu aldrei optar hesta mína leyfislaust. Lagsmaður þinn var úrræðabetri en þú, og ætti hann skilið, að honum væri sýndur stafur; því bann er laglegt mannsefni.“ Nokkru síðar kom hann og til prests. Sýndi hann bonum þá bótina, og spurði, hvort bann þekti bana. Pilturinn lèt sèr ekki bilt við verða, og sagði presti eins og farið hafði. Prestur brosti og bauð honum til sín. Það þá hinn með þökkum. Var hann leingi hjá presti síðan, og bonum mjög fylgisamur, enda er sagt, að prestur hafi kent honum margt í fornum fræðum.[1] — Í frásögn sèra Magnúsar Grímssonar sál. er þess getið, að dreingurinn, sem losaði sig, hafi ekki viljað yfirgefa lagsmann sinn og teymt bestinu með bótina á bakinu heim á hlaðið. Eiríkur hafi þá ávarpað þá og sagt: „Hvernig þykir ykkur að ríða Vogsósa-klárunum, piltar?“ „Dágott,“ segir sá, sem laus var; en hinn bar sig illa og bað prest að losa sig, og gjörði prestur það. Hann tók og dreinginn úrræðagóða og kendi honum. Þær sagnir eru og, sem segja,

1. Selvogsmenn einir segja, að dreingur þessi hafi ekki viljað fara á fund prests. En frásögn þessi er annars tekin eptir almennri sögn á Suðurlandi.

að dreingurinn hafi ekki verið nema einn,[1] er stal hestinum frá Eirík presti, og losaði sig af honum, eins og fyrr er sagt. En séra Sveinbjörn Guðmundsson í Móum hefir sagt, að dreingirnir hafi verið 3, og allir stolið hestum Eiríks. Um 2 þeirra fór, sem fyrr er getið, en hinn þriðji reið, þar sem klettar skúttu fram yfir veginn; hann tók því það ráð, er hann gat ekki fleygt sèr af baki, að hann grípur í klettinn, lyptir sèr upp af hestinum, til að frelsa sig, og lætur hestinn fara leið sína. Þegar Eiríkur prestur komst að þessu bragði, sagði hann, að hægt mundi að kenna þessum pilti; því hann kvaðst hafa búið svo um, að hann gæti ekki komizt ofan af hestinum, en ekki hefði sèr hugsazt, að hamla því, að hann skyldi ekki heldur komast upp af honum.

Ósinn ófær. (Sögn úr Selvogi.) Einu sinni voru vermenn nótt á Vogsósum, og ætluðu þeir til róðra suður í Hafnir. Eiríkur sagði við þá: „Gjörið nú svo vel, piltar mínir, og lofið mèr því, að færa mèr dálítinn bita af heilagfiski, þegar þið komið aptur úr verinu í vor.“ Þeir kváðust mundu verða latir á að bera það, og neituðu því allir nema einn; hann sagðist ætla að bera dálítinn bita, ef hann gæti, þó ekki yrði það mikið. Eiríkur þakkaði honum ummæli sín, víkur honum afsíðis og mælti: „Þegar þið komið austur að Herdísarvík í vor, skaltu halda á fram, þó þèr verði sagt, að Ósinn sè ófær.“ Eptir þetta fara þeir út í Hafnir, og aflaði sá bezt, sem lofaði að færa presti í soðið. Um vorið voru þeir fèlagar allir samferða austur aptur, og segir ekki af ferðum þeirra, fyrr en þeir koma að Herdísarvík; þar var þeim sagt, að Ósinn væri ófær, sem satt var; því leysíng var. En sá, sem heilagfiskið bar, skeytti því ekki og hèlt á fram, og hlógu hinir að honum bæði fyrir burðinn og áframhaldið. En það er frá honum að segja, að þegar hann kemur austur á Víðasand, finnur hann þar Eirík prest. Þeir heilsast og spyrjast tíðinda; maðurinn spyr, hvernig Ósinn sè, en prestur, hvort hann hafi nokkuð meðferðis til sín. „Lítið er það,“ segir maðurinn. Þá mælti Eiríkur: „Gaktu á eptir mèr, og horfðu í bak mèr, og líttu ekki af því, fyrr en eg segi þèr.“ Maðurinn gjörir svo, og gánga þeir nú um stund, uns prestur segir: „Líttu nú við.“ Hann gjörði svo, og sá Ósinn belja í vexti miklum að baki sèr, því hann var kominn yfir hann. Gaf hann svo presti 3 fjórðúnga af heilagfiski, og fór leiðar sinnar; en þeir fèlagar hans lágu viku í Herdísarvík, áður þeir kæmist yfir Ósinn.

Snjóbrúin. (M. G.) Einu sinni komu lestamenn að Vogsósum. Þeir komu úr kaupstað, en gátu ei komizt á fram; því ósinn var ófær, svo þeir urðu að taka af um miðjan dag. Eiríki þókti góður sopinn. Hann

1. Svo hefir Sighvatur hreppstjóri Árnason undir Eyafjöllum sagt Dr. Maurer, Isl. Volkss. 160. bls.

kemur til ferðamannanna, og spyr, hvort þeir geti ekki gefið sèr hressíngu. Þeir segja allir nei, nema einn; hann tekur upp hjá sèr flösku, og gefur presti að súpa á. Þá segir Eiríkur við hann: „Þú skalt taka af rètt við ósinn, fara þèr seint, og spretta ekki af. En þegar hinir eru búnir að spretta af og hepta hestana, þá skaltu láta upp í snatri, og skal eg þá reyna, að koma þèr yfir um.“ Maðurinn gjörir þetta. Og þegar hann er að enda við að láta upp, kemur Eiríkur; því hann hafði farið heim á milli. Fer hann þá á undan manninum, og segir, að hann skuli koma á eptir sèr. Þeir koma þá að ósnum, þar sem snjóbrú er á honum. Eiríkur segir, að óhætt muni að fara snjóbrúna, þó hún sè ekki þykk. Fer hann á undan, en maðurinn á eptir, og gekk þeim vel yfir. Snýr þá Eiríkur aptur. Þegar hinir ferðamennirnir sáu þetta, taka þeir hestana, leggja á, og láta upp, og ætla að nota snjóbrúna. En þegar þeir koma að ósnum, er þar eingin snjóbrú, og ósinn bráðófær, eins og áður, svo þeir máttu snúa við aptur, taka ofan, spretta af, flytja hestana og hepta, reisa tjald og liggja kyrrir. — En fyrir þá sök gjörði Eiríkur þeim þenna grikk, að hann vissi, að þeir neituðu sèr um brennivín af nízku, en ekki af getuleysi.

Brennivínskúturinn. (M. G.) Einu sinni komu vermenn til Eiríks. Þá var kalt veður, og frost mikið. Þeir báðu prest að gefa sèr í staupinu, en hann sagðist ekkert vín eiga. Þeir báðu hann því ákafar, og sögðu, að ekki mundi vínlaust í Vogsósum, ef vel væri leitað. Eiríki leiddist nauðið i þeim, og sagðist ekki muna, hvort hann ætti svo litlun laggadreitil í kútnum, sem hann hefði feingið úm daginn. Fór hann þá, og sókti kútinn, og fèkk þeim. Hann bað þá vita, hvort nokkuð væri í kútholunni, og kúga hana. Þeir tóku við, og heyrðu, að dálítið gutlaði á kútnum. Glöddust þeir við, og supu á allir, en einatt gutlaði viðlíka mikið á kútnum, og það, eptir að allir höfðu þó sopið á honum eptir vild sinni. Eiríkur spurði, hvort þeir vildu ekki ljúka þessum seytli, en þeir sögðust ekki geta það svona alt í einu. Hann spurði þá, hvort þeir vildu ekki hafa kútinn með sèr. Það þágu þeir, og þökkuðu presti mikillega fyrir. Þar næst hèldu þeir á stað. Drukku þeir úr kútnum, þegar þá lysti, og þó var ekki að heyra, að neitt minkaði á honum. Þegar þetta hafði leingi geingið, segir einn þeirra, að þetta sè ekki einleikið, og muni Eiríkur nú hafa haft einhver brögð í tafli við þá. Hann þrífur þá kútinn, og kastar honum niður á stein. Brotnaði þá kúturinn sundur, og var hann hvítur innan af myglu. Var ekki að sjá, að neinn deigur dropi hefði í hann komið lánga-leingi.

Saltkjötskyrnan. (M. G.) Einu sinni, sem optar, komu vermenn að Vogsósum til Eiríks prests, eptir það, að vinnumenn hans voru farnir til sjóar. Saltkjötskyrna hafði gleymzt eptir í Vogsósum, sem einn af

vinnumönnum prests hafði átt að hafa með sèr í verið. Eiríkur biður nú einn af ferðamönnunum, að reiða fyrir sig kyrnuna. Hann gjörir það, tekur kyrnuna, bindur hana ofan á milli á hestinn sinn, og fer á stað með lagsmönnum sínum. Hann var aptastur í lestinni, og hugsar með sèr, að það sè jafugott, þó hann skoði í kyrnuna. Tekur hann þá af henni lokið, nær upp hníf úr vasa sínum, og sker sèr bita, en kemur honum ekki upp í sig; því stundum varð hnífurinn fastur við kyrnuna, stundum hendin við hnífinu. Rekur hann svo hestinn, og geingur sjálfur með honum, og er alt af að reyna að losa sig, þángað til hann er kominn aptur á hlaðið á Vogsósum óafvitandi. Stóð þá prestur úti, og sagði: „Þú ert þá svona gjörður, heillin. Gjörðu þetta aldrei framar, heillin. Vittu, að það er frá honum Eiríki gamla, og far þú nú leiðar þinnar."

Eiríkur borgar hestlán.[1] (Úr Selvogi.) Annað sinn gistu vermenn á Vogsósum, og komu þar á laugardagskvöldi. Á sunnudagsmorguninn mælti Eiríkur prestur til þeirra: „Piltar mínir, vill nú eínginn ykkar gjöra svo vel og ljá mèr hest, til að ríða út að Krýsuvík í dag, og bíða á meðan." Þeim þókti það mikil töf, og neita allir, nema einn. Það var úngur maður. Þeir hlógu að honum, og fóru burt að morgni og út að Krýsuvík. Prestur reið undan, og mætti þeim á heimleiðinni, og hèlt á fram heim, og þakkaði manninum hestlánið, og bað hann vera í nótt, „en farðu strax á morgun, og muntu fá gott veður og færð og komast út í Vík;[2] en kom þú ekki að Krýsuvík." Maðurinn fór að ráðum hans og fèkk gott veður; en heim að Krýsuvík var bilur að sjá. Maðurinn kom í Grindavík um kvöldið, og reri næsta dag, annan og hinn þriðja. Að kvöldi þess dags komu fèlagar hans, og höfðu teppzt í Krýsuvík 3 daga í bil. En maðurinn hafði þá feingið meir en hundrað til hlutar.

Eiríkur og svikni unnustinn. (Úr Selvogi.) Maður nokkur, sem fór til vers, gisti um nótt á Vogsósum; hann var mjög hryggur. Eiríkur kallaði hann afsíðis, og bað hann segja sèr, hvað að honum geingi. Hann var tregur til þess, en sagði honum loksins, að unnusta sín hefði sagt sèr upp, áður hann fór, og bað nú Eirík ásjár. Hann kvað það allóhægt. Um kvöldið lætur Eiríkur sinn mann hátta í hverju rúmi, og er sjálfur síðast á ferli. Nú er barið að dyrum, og fer Eiríkur til dyra. Þar er komin stúlka í skyrtu og nærpilsi rennvot; því rigníng var úti. Hún heilsar presti og baðst gistíngar, kvaðst vera dauð í kulda. Hann lætur hana koma inn og spyr, hvernig á ferð hennar standi. Hún mælti: „Eg fór út í kvöld hálfháttuð, því mèr kom í hug að vita, hvort þvottur hefði verið tekinn inn, þegar regnið kom. Eg ætlaði þángað, sem hans var von, en viltist í myrkrinu, og komst loksins híngað." Eiríkur mælti: „Nú er

1. Sbr. Dr. Maurers Isl. Volkss. 161.—162. bls.

2. þ. e. Grindavík.

ekki um gott að gjöra, hèr er húsfyllir af fólki, og geturðu hvergi komizt fyrir, nema ef þú vilt fara upp fyrir manninn þarna í rúminu," og benti til ferðamannsins, sem lá grafkyr. Hún kvaðst gjarnan vilja það, heldur en deya í kulda. Fer hún nú upp í fyrir ofan manninn, og þekti hann þar unnustu sína, og hún hann. Hún var hjá honum um nóttina og kom þeim vel saman. Þar eptir giptust þau, og urðu góðar samfarir þeirra.

Eiríkur og bóndinn. (Eptir handriti sèra Skúla Gíslasonar á Stóranúpi.) Þegar Eiríkur var prestur á Vogsósum, var bóndi einn í sókn hans, er aldrei kom til kirkju, gjörði hann presti það til stríðs, að róa á helgum dögum um messu, hvenær sem gaf. Einu sinni fór prestur til kirkju að messa. Stilti þá bóndi svo til, að hann var að fara í skinnklæði sín, þar sem prestur fór. Hann spurði þá, hvort bóndi vildi ekki gjöra það fyrir sín orð, að vera við kirkju í dag. Bóndi kvað nei við, og fór að fara í skinnbrók sína. Prestur gekk þá frá honum, og flutti messu, fór síðan sama veg heim. Hitti hann þá bónda á sama stað, var hann þá í annari brókarskálminni, en ekki í hinni. Prestur kvað hann víst hafa aflað vel, fyrst hann væri kominn að aptur. Sneyptist bóndi þá mjög, þegar hann varð að segja hið sanna, að hann hefði setið svona, síðan þeir skildu. Beiddi hann prest að losa sig. Prestur mælti: „Ef þèr þykir kölski of haldsamur á þèr nú, hvað mun þá síðar verða?" Síðan skipaði prestur kölska að sleppa bónda. Varð hann þá laus, og sókti kirkju sína vel upp frá því.

Peysan. (Sbr. Dr. Maurers Isl. Volkss. 164.—5.) Öllum sögnum ber saman um það, að Eiríki presti hafi verið send millifatapeysa, en mjög fer missögum um það, hver það hafi gjört. Sögn er það fyrir norðan í Skagafirði, að það hafi gjört Stokkseyrar-Dísa, eins og Gísli Konráðsson segir í þætti Vogsósa-Eiríks. Selvogsmenn segja, að það væri kona ein á Vestfjörðum, en Árnesíngar segja, að það hafi verið kvennmaður fyrir norðan. Sama segir og Runólfur Jónsson í Vík, og að hún hafi verið prestsdóttir, er áður hafi átt í brösum við Eirík. Sumir segja, að peysan hafi verið rauð, en aðrir, að hún hafi verið fagurblá, með rauðum bryddíngum; en hvað sem öllu þessu líður, er hitt víst, að Eiríki var send peysan að gjöf, og látið, að gott eitt geingi þeim til, er sendi, en raunar bjó það undir, að kona þessi vildi reyna kunnáttu Eiríks. Selvogsmenn segja, að sá, er peysuna sendi, hafi látið þau ummæli fylgja með, að Eiríkur væri í henni, er hann færi til Krýsuvíkur að messa. Prestur tók við sendíngu þessari, leit á hana, og lagði hana ofan í kistu, og vildi leingi ekki í hana fara. Einn sunnudag, er hann átti að messa í Krýsuvík, var brunagaddur. Fór hann þá í hana. Prestur hafði mann með sèr; segja sumir það hafi verið dreingur sá, er skar setskautann úr brókum sínum til að komast af baki hesti Eiríks, sem fyrr er sagt.[1] En er þeir voru komnir út á

1. Sbr. Hestastuldinn, 560. bls. hèr að framan.

Víðasand, aðrir segja svo lángt, að þeir sæu kirkjuna í Krýsuvík, fór peysan að herða að presti, og svo leit út, sem hann væri að brenna, því hann þrútnaði allur upp og blánaði, og fèll af baki með froðufalli; mátti prestur þá ekki mæla, en þreifaði um sig með hendinni og benti meðreiðarmanni sínum. En aðrir segja, að prestur hafi lagt undir við hann, er þeir fóru frá Vogsósum, að ef hann sæi sèr nokkuð bregða á leiðinni, skyldi hann rista utan af sèr peysuna. Meðreiðarmaðurinn grípur þegar upp hníf hjá sèr, er hann sèr, hvað presti líður og ristir af honum peysuna. Raknar Eiríkur þá skjótt við og mælti: „Eg varaði mig ekki á þessu, heillin góð; því eg hafði gjört henni gott."[1] Þakkar nú prestur fylgðarmanni sínum hjálpina, og kveðst skyldi launa. Pilturinn segist ekki ætla til launa fyrir þetta, en segir, að presti fari lítilmannlega, að láta stelpu eina gabba sig þannig. Prestur sagði svo vera, en kvað ekki útsèð um það. Eptir það tekur prestur peysuna, og snýr heim með hana, og læsir hana ofaní kistu, sem áður. Nú segja þeir svo frá, sem láta Stokkseyrar-Dísu hafa sent presti peysuna, að hann hafi sezt við að vinna og spinna gráa ull, fitjað uppá og prjónað nærpils, er hann hafi sent Dísu, og hafi henni þókt vænt um það; því það hafi verið þykt og skjólgott o. sv. fr. En hinir segja, að nú hafi liðið lángt fram á vetur, og Selvogsmenn segja, að næsti vetur hafi komið, svo ekki bæri til tíðinda. Það var eitt kvöld um vökuna, að prestur bauð heimamönnum sínum varnað á, að ljúka upp bænum, þó barið væri, en gánga sem bezt frá bæardyrum, og hètu þeir góðu um það, enda var þá bilur ákaflegur með frosti og fannkomu; sagði hann og, að fáir mundu á ferð vera í því veðri. En ef barið væri skyldu þeir ekki hreifa sig, og ekki segja sèr til, ef hann yrði háttaður, og heyrði ekki höggin, fyrr en barið væri í þriðja sinni. Þegar leið á nótt fram, er barið að dyrum, og urðu þeir þess varir, er næstir sváfu presti, að hann segir: „Einhver er þar seint á ferð, og látum hann berja í annað sinn." Er þá þegar barið enn gríðarlegar, en hið fyrra sinn. Prestur segir, að ekki lægi enn á að fara til dyra. Þá var barið hið þriðja sinn, og nokkru linlegar. Eiríkur stendur þá upp og klæðir sig, og þó heldur tómlega, fer til dyra og lýkur upp. Sèr hann þar komna kunnkonu sína (prests-dótturina), þa er hafði sent honum peysuna. Hún var í skyrtunni einni og nærfatinu, og hèlt á næturgagni sínu í hendinni, og var nær dauða en lífi af kulda. Eiríkur heilsar henni kompánlega og segir: „Nú er ekki meyaveður úti, og muntu eiga brýnt erindi, heillin góð," og bauð henni inn. Hún var heldur sagnafá um erindi sitt til hans, en segir þó: „Eg fór út í gærkvöldi hálfháttuð, að hella úr koppnum mínum; en svo var bilurinn svartur, að eg fann ekki bæinn aptur, og hefi eg verið að villast síðan, og ekki getað losað mig við næturgagnið." Eiríkur mælti: „Eptir

1. Af þessu er það ljóst, að peysan hefir ekki verið frá Stokkseyrar-Dísu, því hvergi er þess getið, að hún ætti Eiríki gott upp að unna.

á að hyggja, eg þakka þèr fyrir sendínguna, heillin góð, en verr fórst þèr, en eg átti skilið, og hefir þú nú feingið það borgað, því eg olli híngaðkomu þinni, og máttu vita, að það er ekki gott, að glettast við Eirík á Vogsósum." Eptir það sættust þau heilum sáttum. Segja sumir, að hún hafi verið á Vogsósum um veturinn, en aðrir, að hún hafi farið heim til sín, þegar hún var búin að taka sig aptur eptir hrakníng sinn.

Eiríkur og kerlíngin.[1] (Missögn úr Selvogi.) Einu sinni átti Eiríkur prestur ferð austur yfir Þjórsá, og á austurleiðinni kom hann í búð á Eyrarbakka, að fá sèr á pelann, (því honum þókti góður sopinn.) Þegar hann gekk inn í búðina, sáu hann kerlíngar 2, er sátu undir búðarveggnum. Önnur spyr, hver þar færi. Hin svarar þá: „Þekkirðu ekki hann Vogsósa-grána? hann er þó auðþektur." Þær feldu tal sitt; en Eiríkur hèlt á fram ferð sinni. Og er hann kom austur að Hraunsá, sèr fylgdarmaður hans kerlíngu koma hlaupandi á eptir þeim og bað prest bíða. Hann kvað tímann of naunian til þess. Þeir ríða nú allhratt, uns þeir koma að Þjórsá við Sandhólaferju, og stíga þar af baki. Kemur þá kerlíng þar enn hlaupandi, og hefir elt þá þángað utan af Eyrarbakka hvíldarlaust, og er uppgefin af mæði og þreytu, og komin úr öllum klæðum, nema nærfötunum; hún staðnæmist hjá þeim, er þeir bíða bátsins. Eiríkur snýr sèr þá til kerlíngar og mælti: „Snúðu aptur, heillin góð, þú ert búin að sjá hann Vogsósa-grána; en hæddu ekki optar meinlaust fólk." Kerlíng hverfur þegar aptur; en prestur sagði förunaut sínum, að hann hefði látið kerlíngu elta sig, til að leiða henni að uppnefna og spotta menn.

Eiríkur og biskupinn. (M. G.) Biskupinn í Skálholti heyrði miklar galdrasögur fara af Eiríki presti, svo honum þókti nóg um, og ætlaði að setja hann frá embættinu. Einn vetur sendi hann 18 skólapilta til Eiríks, og áttu þeir að færa hann úr hempunni. Þeir fóru einn góðan veðurdag, og stóð nú mikið til. Einn morgun er Eiríkur prestur mjög snemma á fótum; en þegar hann kemur inn aptur, dæsir hann mæðilega. Hann biður vinnumenn sína, að láta einga skepnu út þann dag; því sèr lítist illa á veðrið. Þeir játa því. En skömmu síðar skellur hann á með mesta illviðri og öskubil, svo varla var stætt úti, nè geingt milli húsa. Eptir miðjan dag var barið að dyrum, og kemur þá einn af skólapiltunum. Þeir höfðu villzt hver frá öðrum í kafaldinu, og komust þó allir að Vogsósum, en aldrei nema einn og einn í einu, og voru þeir að tínast að bænum allan daginn fram á kvöld. Eiríkur tók vel við þeim, og gjörði þeim alt gott, sem hann gat. Urðu þeir þá svo elskir að Eiríki, að þeir gátu ekki feingið af sèr að reka erindi biskups, að færa hann úr hempunni, og fóru svo búnir heim aptur. Þeir sögðu biskupi, hvernig farið hafði, og undi hann því illa, og kvaðst sjálfur skyldi finna Eirík, og vita, hvort hann færi

1. Sbr. Dr. Maurers Isl. Volkss. 162.—163. bls.

erindisleysu. Leið svo veturinn og fram á sumar. Fór þá biskup, og hafði með sèr marga sveina. Hann kom að Vogsósum og tjaldaði fyrir utan garð. það var a rúmhelgum degi, og ætlaði biskup að bíða sunnudagsins, og taka þá hempuna af presti. Hann tók mönnum sínum vara fyrir, að þiggja nokkurn hlut af Eiríki. Gekk hann svo heim að bænum, og gjörði boð fyrir prest. Eiríkur fagnaði biskupi vel, og var hinn kátasti. Biskup bað hann, að sýna sèr kirkjuna. Eiríkur gjörði það, og dáðist biskup að, hversu alt var í góðu lagi. En meðan biskup var í kirkjunni, kemur einn af sveinum hans til að sækja eld. Hann hittir Eirík. Prestur heilsar honum blíðlega, og tekur upp hjá sèr vínflösku, og biður hann súpa á. Sveinninn vill það ei, og segir, að biskupinn hafi bannað sèr það streingilega. Eiríkur biður hann því betur, og segir, það sè öldúngis óhætt. Lætur þá hinn undan, og sýpur á. þykist sveinninn aldrei hafa smakkað jafn-gott vín, og biður prest gefa sèr flöskuna, til að hressa biskup á þessu víni. Eiríkur var fús á það. Fer sveinninn til tjaldsins aptur. Um daginn yfir borðum hellir sveinninn á fyrir biskup úr flösku Eiríks, án þess að geta um, hvaðan vínið væri. Biskup drakk úr staupinu, og þókti gott. En undir eins á eptir snerist honum hugur við Eirík. Gekk hann eptir máltíðina heim til hans, og sat hjá honum heila viku í góðu yfirlæti. Fór síðan heim, og varð ekki af, að Eiríkur misti hempuna í þeirri ferð.

Brúni klárinn. (M. G.) Einu sinni komu 2 góðkunníngjar Eiríks prests til hans. þeir komu sunnan úr Grindavík og ætluðu heim til sín austur í Flóa, en voru gángandi. þeir sögðu við Eirík, að nú væri gott að hafa hest til að hvíla sig á. Eiríkur sagði, að hann ætti brúnan klár fyrir austan túnið, og mættu þeir taka hann; þeim væri óhætt, að tvímenna á klárnum; því hann væri sinaseigur, þó hann sýndist ekki svo feitur. Sagði hann, að þeir skyldu sleppa klárnum við Ölfusá, og hirða ekki meir um hann, því gamli brúnn mundi skila sèr sjálfur. þeir þökkuðu presti innilega fyrir greiðann og fóru síðan. Fundu þeir hestinn, og var hann ósköp magur. þeir fóru samt á bak honum báðir. Hljóp þá klárinn á stað, og það svo hart, að yfir þá gekk, og voru þeir fyrr komnir austur að ánni, en þeir hefðu getað vænzt eptir á beztu hestum; því þeir vissu varla af sèr á leiðinni; svo var hesturinn vakur og bráðfljótur. þeir fóru af baki við ána, og lètu hestinn verða þar eptir. En þegar þeir litu við aptur, sáu þeir þar eingan hest, heldur gamlan og skininn hrosshaus, og þóktust nú skilja, hvernig Eiríkur hefði hjálpað sèr með kunnáttu sinni.

Margar eru missagnir um það, er Eiríkur prestur á að hafa lèð ferðamönnum hesta, ýmist austur í Óseyri eða út yfir ós. En þessi er ólík þeim í því, að í henni er hesturinn talinn brúnn, en annars eru þeir gráir að lit, sem hèr segir. Einu sinni komu 2 menn að Vogsósum, er ætluðu út með sjó, og beiddu sèra Eirík að ljá sèr hesta, til að ríða yfir ósinn,

sem er skamt fyrir neðan túnið, svo þeir þyrftu ekki að vaða. Prestur vísaði þeim á 2 hesta gráa fyrir utan túnið (Selvogsmenn segja, að hestarnir hafi átt að standa á húsabaki og hnýtt upp í þá snæri), en tók þeim vara fyrir, að slá í þá; sagði hann, að þeir mættu ekki einúngis ríða þeim út yfir ósinn, heldur og út fyrir sand, og sleppa þeim þar. Tóku svo mennirnir hestana og riðu þeim, eins og ætlað var. En nú fer tvennum sögnum; því Dr. Maurer segir svo frá (Isl. Volkss. 161. bls.) eptir sèra Sveinbirni Guðmundssyni í Móum, að þegar þeir voru komnir út í ósinn á hestunum, þóktu þeim þeir seinvæðari, en þeir vildu, en mundu ekki eptir viðvörun prests og slógu í þá. Í sama bili urðu hestarnir undir þeim sinn að hvoru hrossrifi, en mennirnir stóðu sjálfir í vatninu, eins og það var djúpt til. En sèra Skúli Gíslason segir, að þegar menn þessir hafi slept hestunum, hafi annar þeirra í athugaleysi slegið í lendina á öðrum; hafi hann þá þegar horfið, en skininn hrosskjálki hafi leigið fyrir fótum mannsins. Selvogsmenn geta þess ekki, heldur en sèra Magnús Grímsson, að Eiríkur hafi varað mennina við, að slá í hestana, en þegar þeir hafi leyst út úr þeim, hafi þeir ekki sèð neina hesta, heldur að eins eitthvert hrossbein.

Eiríkur frelsar konur frá óvættum. (Sögn úr Selvogi.) 1. Bóndi nokkur úr Landeyum, sem var kunníngi Eiríks prests, kom eitt vor sunnan úr Njarðvíkum í lok ríðandi, því hann hafði haft hjá sèr hestinn um vertíðina. Hann kom að Vogsósum; Eiríkur er úti, fagnar honum vel og mælti: „Ertu vel ríðandi, heillin góð?“ Bóndi kvað það ekki vera, kvað hestinn bæði magran og illa járnaðan. Eiríkur mælti: „þú þarft þó að flýta þèr heim, því kona þín liggur fyrir dauðanum.“ Bóndi mælti: „Hvað er nú til ráða?“ Eiríkur geingur að hestinum, skóðar undir honum, hrækir neðan í hófana, og mælti síðan: „Farðu á bak og ríddu, meðan hesturinn þolir; má vera, að hann sè seigur. þegar þú kemur í hlaðið, muntu heyra út hljóðin konu þinnar; far þú inn hvatlega, heilsa ekki, en mæl snöggt: Eiríkur á Vogsósum vill finna þig, og vit, hverju þá fer.“ Bóndi þakkar honum ráðin og fer af stað; ber hesturinn hann skjótar yfir, en hann varði, og kom hann heim á þeim sama degi, heyrir þegar hljóð konunnar, og fer að öllu, sem Eiríkur rèð honum. Við það brá konunni, svo að hún varð innan stundar heilbrigð. þetta sama kvöld var barið á dyr á Vogsósum allstórkostlega. Eiríkur fer til dyra, og var litla stund úti og kom svo inn aptur. Var hann þá spurður, hver komið hefði. Hann mælti: „það var einhver, sem átti erindi við mig.“ þegar bóndi fór í verið aptur, launaði hann Eiríki vel hjálpina.

2. Nýkvæntur bóndi í Vestmannaeyum, úngur og efnilegur misti konu sína á þann hátt, að einu sinni sem optar fór hún snemma á fætur, en bóndi var í rekkju; hún fór að lífga eldinn að vana, en var nú leingur

burtu, en hún var vön, svo að bónda leiddist. Fer hann þá á fætur, og fer að gá að henni og finnur hana ekki í bænum. Þá fer hann út um kotin að spyrja að henni, en enginn hafði orðið var við hana þann morgun. Er hennar nú leitað með mannsöfnuði þann dag og hvern eptir annan og finnst hún ekki. Bónda varð svo mikið um hvarf hennar, að hann lagðist í rekkju, og neytti hvorki svefns nè matar Líðu nú stundir fram, og var hann æ því aumari, sem hann lá leingur, og fèll honum það þýngst, að vita ekkert, hvað að konu sinni hefði orðið að bana, því vita þóktist hann, að hún mundi dauð vera, og líkast, að hún væri komin í sjóinn. Hèldu menn, að bóndi mundi veslast upp og deya, því hversu sem menn reyndu til að hugga hann, var honum æ þýngra. Loksins kom einn kunníngi hans til hans og mælti: „Ætli þú reyndir ekki til að fara á fætur, ef eg gæti ráðið þèr það ráð, er von væri að dygði til, að þú yrðir þess vísari, hvað orðið hefir af konu þinni?“ „Það vildi eg vinna til, ef eg gæti,“ mælti bóndi. Maðurinn svarar: „Hrestu þig nú og far á fætur, og nærðu þig; far síðan á land og út í Selvog, til Eiríks prests á Vogsósum; bið hann, að grenslast eptir, hvað orðið er af konunni.“ Bóndi gladdist nokkuð við þetta, klæðist síðan og matast, og hressist smámsaman, þar til hann treystist að fara í land, og segir ekki af ferðum hans, fyrr en hann kemur að Vogsósum. Er Eiríkur þá úti og fagnar honum vel, og spyr að erindum. Bóndi sagði sem var. Eiríkur mælti: „Ekki veit eg, hvað orðið hefir af konu þinni; en ef þú vilt, þá vertu hèr nokkra daga, og sjáum, hvað gjörist.“ Það þekkist bóndi. Líða nú 2 dagar eða 3. Þá lætur Eiríkur leiða heim hesta tvo gráa; annar var dáfallegur, en hinn ljótur og magur. Þann hest lèt Eiríkur söðla handa sèr, hinn handa bónda og mælti: „Við skulum ríða út á Sand.“ Bóndi mælti: „Farið ekki á bak horgrind þessari; hann ber yður ekki.“ Eiríkur lèt, sem hann heyrði það ekki. Ríða þeir nú af stað, en stormur var og regn mikið. Þegar þeir koma út fyrir ós, fer hinn horaði hestur að hvetja sporið, og dró fljótt undan. Bóndi reið eptir, sem hann mátti, en Eiríkur hvarf honum brátt. Þó hèlt hann á fram, þar til hann kom út undir Geitahlíð, að steinum þeim, er Sýslu-steinar heita og skilja Árnes- og Gullbríngusýslur. Þar er Eiríkur fyrir og hefir lagt bók allstóra ofan á hinn meiri steininn. Ekki kom dropi á hana og ekki blakti blað í henni, þó bæði væri húðarigníng og ofviðri. Eiríkur gekk andsælis kríngum steininn og mælti eitthvað fyrir munni sèr, og segir síðan við bónda: „Taktu eptir, hvert þú sèrð konu þína koma.“ Kemur nú fjöldi fólks utan að steininum, og gekk bóndi hríng úr hríng fyrir hvern mann, og fann ekki konuna. Hann segir Eiríki það. Hann mælti þá við folkið: „Farið í friði, hafið þökk fyrir hèrkomuna.“ Þeir hverfa burt þegar. Eiríkur fletti nokkrum blöðum í bókinni, og fór nú alt sem fyrr. Reynir hann hið þriðja sinn og fer það eins. Þegar flokkur þessi er burt farinn, mælti Eiríkur: „Var hún als ekki í

neinum hópnum?" Bóndi kvað það ekki vera. Þá roðnar Eiríkur og mælti: „Nú vandast ráðið, heillin góð; hefi eg nú stefnt hingað vættum öllum af jörð, úr jörð og úr sjó, sem eg man eptir." Nú tekur hann kver úr barmi sínum, lítur í það og mælti: „Eptir eru hjónin í Háuhlíð." Hann leggur kverið ofan á bókina, og gekk andsælis kríngum steininn, og tautar sem fyrr. Þá koma þau og bera glersal milli sín; í honum sèr bóndi konu sína. Eiríkur mælti við þau: „Illa gjörðuð þið að taka konuna frá manninum; farið aptur og hafið óþökk fyrir starf ykkar, og gjörið slíkt ei optar." Þau fara þegar, en Eiríkur brýtur glersalinn, tekur konuna og bækurnar og fer á bak með alt saman. Bóndi mælti: „Látið mig reiða konuna; hesturinn ber ykkur ekki bæði." Eiríkur kvaðst mundi sjá fyrir því, fer af stað og hvarf austur í hraunið. Bóndi fer leið sína austur að Vogsósum, og er Eiríkur þar kominn, og um nóttina lætur hann konuna sofa í rúmi sínu, en sjálfur lá hann fyrir framan stokkinn. Að morgni bjóst bóndi til ferðar. Eiríkur mælti: „Það er ekki ráðlegt, að sleppa konunni við þig svona, og vil eg fylgja henni heim." Bóndi þakkar honum. Fer prestur á bak hinum magra klár, setur konuna á knè sèr og fer af stað. Bóndi fer eptir og vissi ekki fyr til Eiríks en hann kom út í eyar; þá er hann þar kominn með konuna. Háttar bóndi hjá henni um kvöldið, en Eiríkur vakti yfir henni næstu 3 nætur. Síðan mælti hann: „Ekki er víst, að öllum befði þókt skemtilegt, að vaka þessar nætur, og sízt í nótt;" enda var konunni óhætt hèðan af. Meðan Eiríkur vakti yfir konunni, gaf hann henni drykk á hverjum morgni, og við það fèkk hún aptur minnið, sem hún hafði áður alveg mist. Síðan fór Eiríkur heim, og þá áður góðar gjafir af bónda.

3. Önnur sögn er sú, þessari náskyld, að bóndi úr Ölvesi fór með konu sína suður í Innnesjakaupstaði. Á heimleiðinni láu þau um nótt í Fóelluvötnum. Að morgni sókti bóndi hestana, en er hann kom aptur, var konan burt. Hann leitar hennar og finnur ekki, fer síðan heim og er sorgbitinn mjög. Var honum þá ráðið að leita til sèra Eiríks, og það gjörði hann. Eiríkur mælti: „Farðu heim aptur, taktu tjaldið, sem þið voruð í og alt, sem í því var af umbúnaði, og tjaldaðu því þar sem það stóð, þegar konan hvarf, og set hverja súlu og hvern hæl í sína holu, svo sem þá var." Bóndi fer og gjörir svo, sem fyrir hann var lagt, að svo miklu leyti, sem hann getur hitt á, og er hann er búinn að þessu, kemur Eiríkur og gengur andsælis kríngum tjaldið, fer síðan inn og bað bónda gæta vel að, ef konan kynni að koma. Litlu síðar sèr bóndi ógurlegan fjölda koma að tjaldinu, en ekki sèr hann konuna, og er aðkomendur voru komnir svo margir, að undrum gegndi, kallar Eiríkur út úr tjaldinu, og spyr, hvert konan sè komin. Bóndi neytar því. Eiríkur kom þá út, og leit yfir hópinn, bað þá fara og hafa þökk fyrir komuna; hverfur þá hópurinn þegar. Eiríkur mælti: „Hèr komu allir vættir af landinu, nema hjónin úr Herðubreið." Fer hann nú inn aptur og liggur leingi, áður þau koma og leiða konuna milli sín. Þá kemur

hann út, tekur konuna frá þeim og mælti: „Farið nú aptur og látið konuna kyrra; það er illur siður, að taka konur frá mönnum, eða annað fólk úr bygðum; látið gamla Eirík aldrei frètta, að þið gjörið það optar, og lofið því nú.“ Þau gjöra það, þó treg væru, og fara síðan burtu, en bóndi fór heim með konuna, og fylgði Eiríkur honum, og fór heim síðan; en konunnar var aldrei síðan vitjað af óvættum.

Sakamaðurinn. (M. G.) Í landnorður frá Vogsósum er hellisskúti í hrauninu, skamt frá alfaravegi; hann er kallaður Gapi. Ferðamenn liggja opt í helli þessum, eins og í sæluhúsi. Í helli þessum leyndi Eiríkur prestur sekum manni heilt sumar. Maðurinn var austan af Síðu, og hafði þar orðið mannsbani, svo það átti að drepa hann. Þeir sem um veginn fóru sáu aldrei hellinn Gapa þetta sumar; því Eiríkur hafði brugðið yfir hann hulu, og eins vörðu þá, sem stóð á hólnum hjá honum, og mundu þó margir eptir hvorutveggju. Sakamaðurinn hafðist þarna við í hellinum um sumarið, og geingu lýsíngar á honum um allar sveitir, og skipun, að taka hann fastan, hvar sem hann næðist. Eiríkur prestur fèkk einn af seðlum þessum. Sendi hann þá manninn sjálfan með hann austur á Síðu, en einginn gat þekt hann. Eiríkur lèt hann skila því með, að maðurinn heiði náðzt í Selvogi, og sæti hann nú í fjötrum, og væri geymdur í Strandarkirkju. Þángað skyldu þeir sækja hann hið allrafyrsta. Maðurinn fór, lauk erindi sínu, og sneri svo suður aptur í helli sinn. En Síðumenn brugðu við, og fóru suður í Strandarkirkju. Þar fundu þeir manninn í fjötrum. Var hann þá fluttur austur, og átti nú að höggva höfuðið af honum; því svo hafði hann dæmdur verið. En þegar til kom beit ekki öxin, og beyglaðist eggin í hverju höggi. Hættu þá Síðumenn, og fluttu hann á skip, og ætluðu að senda hann til Danmerkur; því þar ætluðu þeir öxunum að bíta. En þegar þeir komu með hann út á skipið, hvarf hann, og var þar þá steindrángi einn með böndum á. Urðu skipverjar þá æfir við Síðumenn, og ráku þá burtu með sneypu, en vörpuðu sökudólgi þeirra fyrir borð. Síðumenn sáu nú, hversu Eiríkur hafði gabbað þá, og vildu hefna sín. Feingu þeir til þess mann á Vestfjörðum, og sendi hann Eiríki kött. Stóð Eiríkur þá úti á hlaði, þegar kisa kom, og ætlaði hún að hlaupa um háls honum, og drepa hann. En þá var hjá Eiríki maður sá, sem forðum sókti kverið, og hjálpaði hann Eiríki til að drepa köttinn. Sagt er, að Eiríkur hafi sent Vestfirðíngnum draug, sem honum hafi orðið að bana.

Stokkseyrar-Dísa. (Eptir sögnum af Eyrarbakka.) Kona þessi bjó á Stokkseyri, og hèt hún fullu nafni Þordís Markúsdóttir. Sagnir Bakkamanna um Dísu sýna það, að hún á lýsíng þá skilið, sem henni er áður gefin[1]; þó hafa henni farizt sumir hlutir ekki ómannlega, og skal hèr nú geta nokkurra dæma um Dísu.

1. Svo er illa um hana ritað, „að hún væri galdrasnapur, hrekkvís og drykkjurútur;“ sbr. Dr. Maurers Isl. Volkss., 164. bls.

Maður er nefndur Snorri; hann bjó í Stóruháeyri, og fór hann einu sinni ferð austur í Parta. Segir ekki af ferðum hans fyrri en hann var kominn aptur út á móts við Stokkseyri. Það var um miðja nótt í túnglsljósi. Þá sèr hann þar í kirkjugarðinum einn mann eða jafnvel tvo. Hann skiptir sèr ekki af þessu, en geingur niður að sjó, og svo út með ströndinni. Og þegar hann er kominn góðan spöl út fyrir Stokkseyri nærri út að Hraunsá, snýr hann aptur frá sjónum upp á flatirnar. Þá sèr hann tvo eldhnetti veltast með miklum hraða út eptir bökkunum, þar til hann misti sjónar af þeim. En skömmu eptir þetta barst sú saga, að Stokkseyrar-Dísa hefði vakið upp tvíbura,[1] og sent vestur á Vestfirði, en ekki er getið, í hvað erindum.

Dísa hafði tekið dreing til uppfósturs. Hún hafði kent honum margt í fornum fræðum, enda var hann natinn við það nám, og hnýsinn mjög um slíka hluti. Fór hann svo frá henni og reisti bú þar á Eyrarbakka, er hann var orðinn fulltíða maður. Einhverju sinni fer Dísa í kaupstað út á Eyrarbakka og flytur skreið, að því er mönnum sýnist, á 4 hestum eða 5, aðrir segja á 14. En er hún kemur út undir kaupstaðinn, mætir henni fóstursonur hennar og segir: „Hart reiðir þú á, fóstra.“ Hún svarar: „Haltu kjapti; of mikið hefi eg kent þèr, strákur.“ Síðan skilja þau, og heldur hvort sinn veg. Dísa leggur inn skreiðina hjá Bakkakaupmanninum, og er ekkert fundið að vöru hennar. En þegar fara á að flytja Stokkseyrarfiskinn út í skipið seinna um sumarið, er hann allur orðinn að grjóti. Þóktust menn þá vita, að Dísa hefði leikið þetta með fjölkynngi sinni, en kaupmaður treystist ekki, að fá rèttíngu mála þeirra af Dísu.

Það var eitt sumar undir það að Eyrarbakka-skip átti að fara þaðan til útlanda, að skipverjar komu klæðum sínum í þvott hjá konu einni þar á Bakkanum. Hún þvoði fötin einn góðan veðurdag, og breiddi þau svo út til þerris. Um kvöldið, er hún ætlaði að hirða fötin, voru þau öll horfin. Þetta var kent Stokkseyrar-Dísu, að hún hefði með fjölkynngi látið fötin hverfa heim til sín, en einginn þorði eptir að gánga.

Einu sinni voru tveir bændur, annar á Skúmstöðum, en annar á Stóruháeyri; þeir áttu sinn áttærínginn hvor, sem þeir lètu gánga á Eyrarbakka. Dísa lèt um sama leyti teinæríng gánga á Stokkseyri. En þegar hún frètti, að skipum þeirra gekk töluvert betur að fiska, en hennar, brá hún sèr um miðja nótt út á Eyrarbakka, tók öll færin úr báðum skipunum, bar þau austur að Stokkseyri, og fleygði þeim upp á bæardyralopt, og lèt þau liggja þar, þángað til þau fúnuðu og urðu ónýt. En um morguninn kemur hún út, og geingur fram á sjávarbakkann. Sèr hún þá bæði skipin fara út sundið, og mælti hún þá: „Hjálpað hefir fjandinn þeim til að komast út á sjóinn fyrir þessu.“

1. Sumir segja, að það hafi verið börn hennar tvö, er hún hafi drepið úr hor.

Bóndi nokkur bjó í Dvergasteini í Stokkseyrarhverfi, og átti dóttur eina efnilega. Dísa bað hann um stúlkuna fyrir þjónustustúlku, en hann neitaði því þverlega, og grunaði nú, að hún mundi verða sèr stórreið. Einu sinni var það í rökkrinu, að bóndi fór að rífa rúm sitt, sem var þversum fyrir baðstofugaflinum, og setti það aptur saman annarstaðar í baðstofunni. Kona hans spurði hann , hvað þetta ætti að þýða; hann kvað hana það eingu skipta, og sagði, að hún skyldi sjá það næsta morgun. En þegar folkið vaknaði um morguninn, sá það, að broddstafur einn mikill stóð inu um gluggann í baðstofugaflinum og lángt niður í gólfið, þar sem rúmið hafði staðið, og hèldu menn, að þetta mundi án efa vera af völdum Stokkseyrar-Dísu.

Sýslumannsekkja bjó einhverju sinni á Stórahrauni. Stokkseyrar-Dísa bað hana að ljá sèr hest og söðul út að Hlíðarenda til Brynjólfs nokkurs, er þar bjó. Hann var göldróttur mjög, og áttu þau opt í brösum saman. Ekkjan þorði ekki annað, eu að ljá henni hestinn. Nú leið og beið; Dísa skilaði ekki hestinum; en hálfum mánuði síðar fannst hann dauður austur við Hraunsá, en söðullinn allur brotinn austur við Bjarnavörðu, sem er þar spölkorn fyrir austan á sjávarbakkanum. Ekkjan þorði ekki að tala neitt um þetta; því henni stóð, eins og öllum, mikill ótti af Dísu. En hálfu ári síðar kom Dísa að Hrauni, og spurði konuna, hvort hún vissi nokkuð um hann Jarp. Hún sagði svo vera. Dísa fèkk henni þá 12 spesíur og sagði, að það skyldi vera borguninn fyrir hann.

Maður nokkur, að nafni Filpus, bjó einu sinni í Einarshöfn. Á gamlárskvöld kemur hann einu sinni út, og sèr lest koma utan sandana. Þegar lestin kemur nær, sèr hann kvennmann gánga spölkorn á eptir, og þekti hann, að það var Stokkseyrar-Dísa. Hann gekk í veg fyrir lestina, og mælti til hennar: „Þreytt hlýtur þú að vera, þar sem þú getur ekki fylgt lestinni; viltu ekki, að jeg ljái þèr hest austur eptir.“ „Eg tek mèr til stærstu þakkar,“ mælti hún. Lèt hann þá leiða hest út úr hesthúsinu, lagði á hann lítilfjörlegt reiðveri, og fèkk henni. Hún stè á bak og mælti: „Þú skalt ekki þurfa að hugsa neitt um hestinn; farðu fyrstur á fætur á morgun, og gaktu út í hesthúsið. Þar muntu finna hestinn, og í faxi hans dálitinn hlut, sem þú skalt eiga fyrir lánið á honum. Svo leingi sem þú átt hlut þenna, mun ekkert geta grandað þèr, hvað sem þú aðhefzt.“ Bóndi gjörði eins og hún sagði, fór út í hesthúsið um morguninn, sá hestinn, leitaði í faxi hans, og fann þar rauðan stein, vafinn í lèreptstusku. Hann tók steininn og lèt á botninn á peníngakistli, er hann átti. Hann hèlt vinnumann einn, að nafni Símon, sem stal kistlinum frá honum og steininum í. En af því hann hafði steininn, gat einginn náð peníngunum frá honum. Enn lifa niðjar Símonar í 4. lið, og er mælt, að einn þeirra hafi steininn.

Ferðamaður nokkur kom einu sinni að Stokkseyri, og bað Dísu, að

gefa sèr að drekka. Hún gjörði það, og spurði hann um leið, hvort hann vildi ekki selja sèr hestinn, sem hann reið. „Það gjöri eg ekki,“ mælti hann; „því þetta er bezti hesturinn minn; honum farga eg ekki.“ „Hvar ætlarðu að á í nótt?“ mælti hún. „Hjá Baugstöðum,“ svaraði maðurinn. Síðan kvaddi hann haua og hèlt leiðar sinnar og tjaldaði hjá Baugstöðum. En hann þorði ekki að sofna um nóttina, heldur horfði út um tjaldið út eptir bökkunum. Þegar góður tími er liðinu, sèr hann að Dísa kemur utan bakkana, og geingur beinlínis að hesti hans. Hann hleypur strax niður að sjó, og út með honum, til að vera í vegi fyrir henni. Bráðum sèr hann, hvar kerlíng kemur ríðandi, og stefnir á hann. En hann ræðst þegar að henni, og setur hana af baki; glíma þau svo um stund, en svo lauk, að Dísa hafði miður. Þá leysir hann skóna af henni, og gefur henni ráðníngu með þeim. Þá mælti Dísa: „Þetta var mannlega gjört; kom þú til mín, hvenær sem þú ert á ferð; þú munt varla hafa verra af því.“

Missögn af Jóni sterka.[1] (Borgfirzk frásögn.) Í eina tíð var kaupmaður nokkur í Keflavík; um nafn hans er ekki getið; hann hèlt vinnumann (Assistent), er Jón hèt. Einu sinni ferðuðust þeir báðir inn í Reykjavík, þar var þá nýkomið útlenzkt skip á höfnina; þeir sáu, hvar skipherra gekk upp bryggju með mjög mikinn kassa í fánginu. Þeir geingu á móti honum og kvöddu hann, hann tók því og mælti: „Hver Íslendínga mun vera svo hraustur að afli, að hann beri kassa þenna eins hraustlega, og eg?“ Jón var mjög hraustur maður, svo fáir vissu afl hans; hann tók við kassanum, og bar hann mikið lèttilegar, en skipherra. Af þessu reiddist skipherra, og sagðist skyldi senda Jóni pilt næsta sumar til að glíma við. Jón tók því ekki fjarri, ef það væri mennskur maður. Skömmum tíma hèr eptir fór Jón til sèra Eiríks í Vogsósum, og sagði honum frá því, er gjörzt hafði, og bað hann liðs. Sèra Eiríkur sagði, að skipherra myndi senda honum einn hinn versta blámann, til að glíma við, og tók það til bragðs, að hann vafði blautum skinnum utan um Jón hátt og lágt, svo hvergi varð hendi á fest. Síðan gekk Jón til Reykjavíkur. Var þá skipherra þar fyrir með einn mikinn blámann, og hleypti honum þegar að Jóni. Jón tók hraustlega á móti og færðist leikurinn að miklum steini; Jón hljóp öfugur yfir steininn, svo blámaðurinn datt á fram ofan á steininn, og gekk Jón þar af honum dauðum. Nú þókti skipherra ekki betur fara, og hèt Jóni að senda honum rakka sinn til viðureignar. Jón lèt það svo vera, en fór til sèra Eiríks, og sagði honum frá þessu, og bað hann leggja sèr ráð. Sèra Eiríkur sagði, að það mundi ekki verða hundur, er skipherra sendi, heldur bjarndýr, og fèkk Jóni lánga staung með miklum broddi framan í öðrum endanum. Síðan fór Jón til Reykjavíkur; var þar þá skipherra fyrir, og hèlt í mikið bjarndýr, og otaði því þegar að Jóni. Jón varð fljótari til og lagði bjarndýrið í gegn með staunginni; fèll það

1. Sbr. 323—33. bls. á undan.

þá dautt niður. [illegible] skipherrann til Jóns, og bað hann með blíðum orðum [illegible] út á skip. Jón gjörði svo, og leiddi stýrimaður hann ofa[illegible] upp kistu, og tók upp úr henni miklu stærri bók, en [illegible] tíma áður sèð, sýndi Jóni hana og sagði, að hann skyl[illegible] eins, og hafa mikinn peníngasjóð í staðinn; en ef hann g[illegible] það kosta líf hans. Jón hugði vandlega að bókinni, en [illegible] staf á henni. Því næst fór Jón til sèra Eiríks, og sagði h[illegible] skiptum þeirra. Sèra Eiríkur sýndi honum allar þær bæk[illegible] og var eingin lík. Síðan myndaði sèra Eiríkur stafi, [illegible] hvort þeir mundu vera líkir þeim, er á bókinni voru. Ha[illegible] Sèra Eiríkur sagði, að þá vandaðist málið, og sagði, a[illegible] ekki nema 2 til í heimi, og ætti prófasturinn sinn í und[illegible] væri hún ófáanleg, en samt mundi hann verða að reyna, [illegible] veita Jóni það lið, er hann gæti. Síðan ritaði hann prófa[illegible] bref, og sagði Jóni að fara með það, en fèkk honum knýtiskorn nokkuð rautt og sagði, það mundi velta á undan honum, en hann skyldi halda í endann á því alt þar til, er hann kæmi að húsi miklu, „þar skaltu berja á dyr,“ sagði sèra Eiríkur; „þá mun koma út kona; henni skaltu fá brèfið, en varast skalt þú að yrða á hana að fyrra bragði.“ Jón fylgdi dyggilega öllu því, er sèra Eiríkur lagði fyrir hann, og fylgdi knýtinu eptir, þar til það nam staðar við dyr á húsi miklu. En það var nær veturnóttum. Jón drap á dyr og að vörmu spori kom fríð og fagurlega búin kona til dyra, og tók við brèfinu af Jóni, og leiddi hann í stofu, er upp ljómuð var af gulli og gimsteinum. Síðan vísaði hún honum til prýðilegrar rekkju. En er Jón var í rekkju kominn, lagðist konan upp í hvíluna hjá honum, og sváfu þau þar saman um lángan tíma. Eitt sinn snemma að morgni dags yrti konan í fyrsta sinni á Jón, og spurði hann, hvort honum þækti ekki komið mál, til að afljúka erindunum. „Nú er,“ sagði hún, „sumardagur fyrsti, og hefir þú hèr dvalið í allan vetur. Nú ef þú vilt fylgja mínum ráðum, munum við gánga fyrir prófastinn, er brèfið var til, eg hefi fyrir laungu feingið honum það; hann er faðir minn; eg mun gánga fyrir, en þú á eptir,“ og gjöra þau svo. Hún kvaddi föður sinn blíðlega. Hann tók því vel og spurði hana, hvað það væri, er á baki hennar stæði. Hún sagði, að þar væri vetrartökumaður sinn, er hefði komið með brèfið frá sèra Eiríki. Hann mælti: „Viltu nokkuð láta greiða hans erindi?“ Hún kvað svo vera, og bað hann með blíðum orðum, að láta hann fá bókina. Hann kvaðst aldrei hafa ætlað að láta hana sèr úr hendi. En hún kvað líf hans liggja við. Síðan gekk Jón fram, og kvaddi prófast virðulega, og bar honum kveðju sèra Eiríks. Prófastur sagði: „Guð blessi hann, góða mann; það er nú ekki lángt, síðan við fundumst.“ Síðan fèkk prófastur Jóni bókina, og bað hann vel fara. Konan fylgdi Jóni til dyra, og óskaði honum heilla og hamíngju. Jón tók

leiðtoga sinn, og komst svo til sèra Eiríks. Sèra Eiríkur sagði: „Nú skalt þú fara með bókina til Reykjavíkur; því skipherrann liggur þar á höfninni; þú skalt," sagði sèra Eiríkur, „fá þèr lánga trèspíru, gánga fram á bryggjusporð, og rètta stýrimanni bókina á spírunni, og taka við fèsjóðnum á hana aptur, gánga síðan hvatlega upp af bryggjunni, og líta ekki til baka, fyrr en þú stígur á jörð." Jón gjörði svo; en er hann var búinn að þessu, og kominn upp af bryggjunni, heyrði hann mikinn brest, og er hann leit við, sá hann skipið ekki, en í stað þess var mikill eldslogi þar, er skipið var. Jón fór til sèra Eiríks og spurði hann, hvað valda myndi. Sèra Eiríkur sagði, að þegar bækurnar hefðu komið hver við aðra, hefði kviknað í skipinu, því þær hefðu þá náttúru, að þær mættu aldrei koma hvor við aðra, og nú væri prófasturinn í undirheimum búinn að ná þeim báðum, og kynni vel að varðveita þær. Jón þókti verið hafa hinn mesti lánsmaður, og lýkur svo þessari sögu.

Eiríkur krafinn kaupstaðarskuldar. (Úr Selvogi.) Hafnarfjarðar kaupmenn sendu Eiríki presti eitt sinn skuldaheimtu-brèf, og báðu hann koma og borga 80rd., er hann hefði leingi verið skuldugur um. Nú var hann í vanda staddur, því hann átti ekkert, til að borga með. Hann reið þó suður og finnur kaupmenn, og spyr, hvernig á því standi, að hann sè skuldugur. Þeir báðu hann sjá það í bókinni. Hann tók við, og leit á, og mælti: „Eg sè það ekki, heillin góð; eg sè svo illa; eg verð að fara út að glugganum." Þeir lofa honum það. Hann víkur sèr frá þeim og að glugganum, horfir á bókina um stund, og mælti síðan: „Jafnt er sem eg vissi, eg á hèr inni 80rd., en er ekki í neinni skuld. Nú skal eg kæra ykkur fyrir lygina, eða þið megið bæta." Þeir líta á bókina og bregður í brún, er þeir sjá, að bókstafirnir hafa snúizt í dálkunum, og að prestur segir satt. Þeir urðu óttaslegnir og buðu honum 100rd., til að kæra þá ekki. Hann játar því, og gaf þeim síðan upp helmíng bótanna.

Tyrkjar koma í Selvogi. (Úr Selvogi.) Einu sinni var Eiríkur staddur í búð í Hafnarfirði. Hann leit út um gluggann, og mælti til kaupmannsins: „Já, Já, heillin góð, það eru ekki góðir gestir komnir í Selvog núna," hleypur út síðan og á bak, og ríður austur í Selvog. Í Selvogi var það til tíðinda, að tyrkneskt skip kom þar inn undir land, og kemur bátur að landi og lendir, þar sem heitir Sigurðarhúsabót. Jón hèt bóndi í Sigurðarhúsum (það er fyrir austan Strönd). Jón fór til fundar við hina útlendu. Þeir taka hann og afklæða, slógu hríng um hann og otuðu að honum korðum sínum, en sköðuðu hann þó ekki. Nú tekur að hvessa, og fara Tyrkjar í bátinn, og sleppa Jóni. Þeir róa út á Strandarsund, þar stanga þeir um stund. Þá hefir skipið slitið upp og drífur til hafs; bátsmenn róa síðan eptir skipinu og náðu því ekki, meðan til sást. Jón fer í klæði sín og litast um. Hann sèr þá Eirík prest vera að gánga um

gólf í Strandarkirkju-garði. Jón fer þángað, og heilsast þeir; segir Jón Eiríki hrakníng sinn. Eiríkur mælti: „þú áttir ekki að fara til þeirra, heillin góð; þú áttir ekkert erindi til þeirra. En því drápu þeir þig ekki, að þeir mundu það ekki, fyrr en þeir komu út á sund, þá vildu sumir snúa aptur, að drepa þig, og varð það þeim til sundurþykkju og dvalar. Um síðir rèðu þeir af að halda á fram; en ekki er víst, þeir nái skipinu aptur. Farðu nú heim, heillin góð, og farðu ekki optar á fund óþektra útlendra.“ Jón fer heim, en Eiríkur fer upp á Svörtubjörg og hleður þar vörðu og mælti svo fyrir, að meðan sú varða stæði, skyldu Tyrkjar aldrei gjöra grand í Selvogi. Þessi varða stendur enn á Svörtubjörgum, og er hún hlaðin að mynd sem lambhússgaflhlað, og einhlaðin að ofanverðu úr óhentugu hleðslugrjóti; snýr flatvegur hennar eptir bjargabrúninni og er tæpt mjög. Hún er mosa vaxin og lítur út fyrir, að hafa staðið leingi, og er þar þó vindasamt; enda hafa Tyrkjar aldrei komið í Selvog síðan.

Tyrkjar koma í Krýsuvík. (Úr Selvogi.) Annað sinn komu Tyrkjar undir Krýsuvíkurberg og geingu upp, þar sem síðan heitir Ræníngjastígur. Þá var sel hjá Selöldu og fóru Tyrkjar þángað, drápu matseljuna, en eltu smalann heim að Krýsnvík. Þá var sunnudagur, og var Eiríkur prestur að messa í Krýsuvíkurkirkju. Segja sumir, að hann væri fyrir altarinu, en hitt mun sannara, að hann væri í ræðustól, er smalinn kom hlaupandi í kirkjuna og mælti: „Tyrkjar komu, og drápu matseljuna, og eltu mig híngað.“ Prestur mælti: „Viljið ekki lofa mèr að gánga fram í dyrnar, góðir menn?“ Menn játtu því. Eiríkur geingur fram í dyr og lítur út, og sèr Tyrkja koma á túninu. Hann mælti til þeirra: „Farið nú ekki leingra, drepið þarna hver annan; væri annar dagur, eða eg öðruvísi búinn, munduð þið èta hver annan.“ Þar börðust þeir og drápust niður, og heitir þar síðan Orrustuhóll, eða Ræníngjahóll, en Ræníngjaþúfur, þar sem þeir eru dysjaðir. Eptir það hlóð Eiríkur vörðu á Arnarfelli, og mælti fyrir henni, sem hinni, að meðan hún stæði, skyldu Tyrkjar aldrei granda Krýsuvík. Sú varða stendur enn (1859).

Gunna Önundardóttir.[1] (Sögn í Garði.) Fyrrum bjó nefndarmaður einn á Kirkjubóli á Suðurnesjum, er Vilhjálmur hèt. Á dögum hans skyldi hafa verið þar í koti hjá kona sú, er Guðrún hèt og var Önundardóttir. Hún átti að gjalda Vilhjálmi skuld að Kirkjubóli, en hafði það ekki, er gjalda skyldi. Er þá sagt, að Vilhjálmur hafi tekið pottinn hennar í skuldina. Litlu síðar kom Gunna heim að Kirkjubóli og bað um að drekka. Fólk sá, að henni var brugðið, og var henni fært helgað messuvín. Hún spyr, hvern þremilinn hún eigi að gjöra við þetta; dembdi hún því niður, en greip vatnsfötu og slokaði svo mikið, að fólk undraðist stórum; gekk hún síðan heim. Maður sá, er hjá henni var, hafði róið þenna dag.

1. Sbr. Dr. Maurers Isl. Volkss. 152.—153. bls.

En er hann kom heim, var Gunna dauð í bæli sínu. Var þá smíðað utan um hana og líkið fært til Útskála-kirkju. En er þeir, sem báru líkið, komu miðja leið, þókti þeim kistan furðulètt; þó var ekki athugað um það meira. En þegar verið var að taka gröfina, er sagt, að Gunna hafi sèzt á milli þángkastanna á Útskálum og sagt: „Ekki þarf djúpt að grafa; ekki á leingi að liggja.“ Eptir þetta lagðist sá orðrómur á, að mjög reimt væri á Skaganum,[1] og til og frá þar um. Nokkru síðar var Vilhjálmur við samkvæmi inn á Útskálum; var hann þar fram eptir kvöldinu, og vildi þá heim. En þar eð þessi orðrómur lá á, var honum boðin fylgð. En hann var hugmaður og þá kendur nokkuð, og þá því ekki fylgðina, en kom ekki heim um kvöldið. Daginn eptir fannst hann í Hrossalág á Skaganum, illa útleikinn. Var hann fluttur í bænahús á Kirkjubóli og feingnir tveir menn, til að vaka yfir honum. Nær miðri nóttu komu þeir inn, og feingust ekki til að fara út aptur. Aðra nótt voru aðrir tveir feingnir; þeir vöktu að vísu sömu nóttina út, en feingust ekki til þess leingur. Var þá feinginn til þess presturinn frá Útskálum, og hafi hann sagt það þá örðugustu nótt, sem hann hefði lifað. Síðan var líkið Vilhjálms jarðað, og bar þá ekki á neinu. En reimleikinn ágerðist eptir það, og sáu allir Gunnu bersýnilega; reið hún húsum og fældi fènað. Síðan voru feingnir tveir menn hinir ötulustu, og sendir til sèra Eiríks á Vogsósum, og hann beðinn hjálpar. Hann tók þeim stutt, og veitti afsvör, uns þeir feingu honum átta potta kút af brennivíni, er þeir höfðu með sèr. Hýrnaði hann þá í svari og fèkk þeim síðan hnýti og seðil með tveimur hnútum og bað fá Gunnu. Þeir gerðu sem fyrir þá var lagt, og tók Gunna við, og leysti af hnútana, og leit á. Er þá sagt, að henni hafi orðið þetta að orði: „Á andskotanum átti eg von, en ekki á Vogsósa-kallinum; en ekki tjáir við að standa.“ Hafi hún látið hnýtið renna fyrir, en elt það, þar til hún kom að hver, sem er á Reykjanesi; hafi hún hlaupið þar sífelt í kríng, uns hnýtið var endað, og þá stúngizt ofan í hverinn, og heitir þar síðan Gunnu-hver.[2]

Óvættur á Grænafjalli. (Austan úr Mýrdal.) Eitthvert sinn gjörði Eiríkur orðsendíng austur til Fljótshlíðar, að þeir skyldu safna Grænafjall, (sem er afrèttur Hlíðarmanna) viku fyrr, en vant væri. En þeir skeyttu ekki boðum þessum, og fóru ei á fjall, fyrr en vant var. En er þeir voru

1. þ. e. Garðsskagi.

2. Sèra Sigurður Brynjólfsson á Útskálum, sem útvegaði þessa sögn þar syðra, segir, að Vilhjálmur á Kirkjubóli hafi verið Sigurðsson og lögrèttumaður, og að hann hafi fundizt örendur við sjávarlón á Skaganum; hafi hann kvöldinu áður farið frá grepti systur sinnar á Útskálum og verið kendur. Þetta var árið 1706. En um veturinn 1707 dóu þau sonur hans, Helgi Vilhjálmsson, sem átti Gróu Gísladóttir (systur Ólafs biskups), og kona Vilhjálms, Snjálaug (fráfall þeirra var og kent Gunnu; en líkast er til, að þau hafi dáið úr stóru-bólu).

að safna, urðu þeir varir við þá nýlundu, að einhver óvættur var kominn að svonefndu „Keri“ á fjallinu (Ker þetta er gljúfur mikið og djúpt); stökk óvættur þessi kríng um Kerið með þvílíkum óhljóðum, að alt fè stökk saman í hnappa, en hestar allir ærðust og stukku fram í bygð. Gekk þetta leingi, þartil óvætturinn steyptist ofan í Kerið; varð þá kyrt, sem áður. Síðan ráku menn saman fèð og er í almæli, að þá hafi Grænafjall verið safnað sauðlaust, en aldrei fyrr eða síðar, einúngis var einn vánkabrútur, sem eptir varð, því hann einn kipti sèr ekki upp við hljóðin.

Draugarnir á Hafnarskeiði. (Úr Selvogi.) Eptir það „Gothenborg“ braut við Hafnarskeið, var þar leingi reimt og sáust þar opt 2 draugar á gángi saman, og var að þeim mikið mein. Menn fóru á fund Eiríks prests, og báðu hann ráða þá af. Hann mælti: „Eg get það ekki, heillin góð; en reyna vil eg að gjöra, það eg get.“ Hann skrifar brèf og bað færa draugunum. Menn þessir taka við brèfinu, og fara austur á Hafnarskeið. Draugarnir koma móti þeim: en þeir fá þeim brèfið. Þeir fara að lesa og leiðrètta hvor annan, og heyrðu menn til þeirra þessi orð: „Det er Hekkelfjeld, Hekkelfjeld.“ Þeir lögðu af stað og fóru í Heklu.

Svo segja sumir menn, að Eiríkur lèti stilla svo til, að draugarnir sneru mót austri, er þeir tækju við brèfinu, og að hann lèti sendimann fá þeim brèfið öfugt, svo það sneri rètt fyrir drauganum. Þeir spyrja þá: „Hvor er det Djævel Hekkelfjeld?“ Maðurinn benti i austur þegjandi, og fóru þeir þegar af stað.

Skrímslið í Arnarbæli. (M. G.) Einu sinni kom skrímsl upp úr Ölfusá, og lagðist á yzta fjóshásinn í Arnarbæli. Það hafði sex fætur, og þorði einginn að fara í fjósið fyrir því; svo var það ljótt og voðalegt. Var þá Eríkur sóktur. En þegar hann kom í hlaðið á Arnarbæli, kom skrímslið út úr fjósinu, og skreið niður í ána. Eiríkur fylgdi því, og hefir það ekki sèzt síðan.

Órotinn maður í Strandarkirkju-garði. (Úr Selvogi.) Einu sinni rak dauðan mann af sjó í Selvogi og vissi einginn, hvaðan hann var. Hann var grafinn á Strönd. Síðan var annar maður jarðaður við hlið hans. Þá fundu líkmenn, að hinn sjórekni var órotinn og lá á grúfu. Honum var snúið við. Síðan var grafið við hina hlið hans miklu síðar; þá var hann enn órotinn og lá á grúfu. Enn var honum snúið, og setti Eiríkur prestur spýtu upp úr leiði hans, og mælti svo fyrir, að ekki skyldi grafa við hlið hans, meðan spýtan stæði; en er hún væri fallin, væri það óhætt. Spýta þessi er fallin fyrir nokkrum árum (1859).

Lángan.[1] (M. G.) Einu sinni rak laungu á fjöru Selvogsmanna. Þeir tóku þá saman ráð sín, og vildu reyna kunnáttusemi Eiríks prests, hvort ekki mætti villa honum sjónir. Þeir fóru þá til hans, og sögðu, að ein sveitarkerlíngin sín væri dáin, og báðu hann að sýngja yfir henni. Hann tók því vel. Smíðuðu þeir þá líkkistu, og lètu þar í launguna, og bjuggu um, eins og vant er að búa um lík. Fluttu þeir síðan kistuna heim að Strandarkirkju, og tóku gröfina. Nú kom prestur, og ætlaði að tala nokkur orð yfir kistunni, áður en hún væri borin út úr kirkjunni. En þegar hann hafði talað fá ein orð, snýr hann sèr að líkmönnunum, og segir:

„Sæðið er af söltum sjó,
sálina finn eg hvergi;
er það lánga yfrið mjó,
eingin sveitarkerlíng dó.“

Sneri hann þá frá, og varð ekki meira af líksaungnum, en bændur fóru heim aptur. Þóktust þeir nú vissari eptir en áður um það, að Eiríki presti þyrfti ekki alt að segja.

Eiríkur liðinn og lesinn til moldar.[2] (Úr Selvogi.) Svo er sagt, að fyrir andlát sitt hafi Eiríkur prestur dysjað forneskjubækur sínar í Kálfsgili í Urðarfellum; þau eru norður af Svörtubjörgum. Áður Eiríkur dó, bað hann færa líkama sinn í kirkju, þegar er hann dæi, og leggja í kistu, og bað menn vaka yfir líkinu hina fyrstu nótt og kveykja 3 ljós á kistulokinu, og mundu þau ekki leingi lifa; en þess bað hann þá gæta, að kveykja jafnskjótt aptur, ef eitt dæi, svo ávalt væri eitt lifandi; því ella mundu illir andar taka sig. En ef ljós lifði alla hina fyrstu nótt á kistu sinni, þá hefðu þeir ekkert vald yfir sèr. Þetta var gjört, og lifði ávalt eitthvert ljósið alt til dags. Svo hafði Eiríkur sagt, að ef hann yrði sáluhólpinn, þá mundu daggardropar koma úr heiðu lopti, á meðan lík hans væri lesið til moldar, og er sagt, að svo hafi orðið.

Það er önnur sögn um dauða Vogsósa-Eiríks, að þegar hann var að bana kominn, tiltók hann, hverjir vera skyldu líkmenn að sèr. Sagði hann, að gjöra mundi haglèl mikið, þegar hann væri borinn út til kirkjunnar, en bað, að ekki væri kistan sett niður, frá því hún væri tekin upp, fyrr en í kirkjunni. Sagði hann, að þá mundi upp stytta èlinu. En þá mundu sjást fuglar tveir, annar hvítur, en annar svartur, yfir kirkjunni, og mundu þeir rífast mjög. Bað hann þess, að ef hvíti fuglinn sigraði, og næði að setjast á kirkjubustina, þá græfu menn sig í kirkjugarði, en ef sá svarti

1. Sbr. Dr. Maurers Isl. Volkss. 166. bls.

2. Sbr. Sæmundur á banasænginni og Kirkjugarðsleg Sæmundar í sögunum af Sæmundi fróða, 502. bls., Kálfur deyr, í sögunum af Kálfi Árnasyni, 505. bls., og Dauði Hálfdánar prests, í sögunum af sèra Hálfdáni í Felli, 520. bls. Sjá enn fremur Dr. Maurers Isl. Volkss. 166.—167. bls.

[illegible] sigurinn, og [illegible] á kirkjuna, þá skipaði hann að dysja sig utangarðs, því þá væri úti um sig. Þetta kom alt fram, þegar Eiríkur prestur [illegible] og fuglana, og vann hinn hvíti fuglinn sigur á þeim varð, svo Eiríkur var grafinn í kirkjugarði.[1]

**Páll lögmaður Vídalín.** († 1727.) (Eptir handriti Skúla prests Gíslasonar á Stóranúpi.) Páll lögmaður Vídalín var fjölkunnugur. Er svo sagt, að hann hafi haft 50 anda í þjónustu sinni; hjálpuðu þeir honum opt í málaferlum hans, til að sjá út ráð mótstöðumanna sinna og komast fyrir þá. Stundum sendu mótstöðumenn hans honum sendíngar, en hann tók þær allar, og urðu þær að þjóna honum uppfrá því. Hættast var hann einu sinni kominn á ferð í haustmyrkri. Sóktu þá að honum 3 sendíngar í einu, en svo lauk, að hann tók þær allar, kvað hann þá vísu þessa:

„Dimt mèr þókti Dals- við- á,
dró af gaman að hálfu;
að mèr sóktu þrjótar þá
þrír af satans hálfu.“

Ekki gjörði Páll öðrum mein. Þó er mælt, að hann hafi átt í erjum við prest sinn, er sagan segir að hafi verið sèra Halldór Hallsson; vildi hann fá Hólmfríðar dóttur Páls; en hann synjaði honum ráðuhagsins. Gjörði Páll þá presti ýmsar glettur, reyndi til að glepja minni hans í stólnum, og hafði biflíuna hjá sèr í kirkjunni, til að geta vitnað upp á prest, ef hann færi með rángan lærdóm og haft hann svo af embætti. En prestur sá við honum, svo ekki varð á honum haft, og er mælt, að þeir hafi sætzt að lokum. Mælt er að Páll hafi sagt, að einginn niðja sinna skyldi gjalda þess, þó hann hefði verið fjölkunnugur, því svo skyldi hann gánga frá öllu, að börn sín þyrftu ekkert að óttast, ef þau lètu ekki heita eptir sèr. Hólmfríður dóttir hans braut þó út af því; en Páll, sonur hennar, varð þó ekki lánggæður, því að hann heingdi sig erlendis.

**Brot frá sèra Þorleifi Skaptasyni.** (Eptir handriti Hjálmars Jónssonar á Minni-Ökrum.) Þorleifur Skaptason var leingi prestur að Múla í Þíngeyarsýslu, og prófastur í sömu sýslu nokkur ár;[2] þókti hann mjög fyrir prestum á sinni tíð í Norðurlandi flestra hluta vegna; hann var maður mikill vexti og tröllaukinn að manndómi, raddmaður mikill og mælskumaður, sterkorður og andheitur, því var hann kjörinn af biskupi Steini, til að vígja svo kallað Siglufjarðarskarð, er liggur milli Fljóta og Siglufjarðar yfir fjallgarð þann, er sýslur skilur. Er það fjallgarður mikill og líðandi brattur að vestan, en forbrekki mikið að austan og brekkan sneidd krókagötum. Fjallið að ofan er tindum vaxið og klettum helblám. Brún þess

1. Þessi sögn er frá Magnúsi presti Grímssyni.
2. Sèra Þorleifur var prestur á Múla frá 1724 til 1748, og hèraðsprófastur frá 1734, þángað til hann dó (1748).

hin efsta er svo þunn, sem saumhögg. Gegnum eggina liggja sem dyr, auðsjáanlega höggnar af fornaldarmönnum, með standberg á báðar síður. Gegnum dyrnar eru hèr um bil 4 hestleingdir, en vel klyfjafrítt á breidd. Yfir skarði þessu hafði legið, síðan í heiðni, andi nokkur illkynjaður, er birtist í strokkmynduðum skýstólpa, er kom úr lopti niður, ofan yfir hvað helzt sem undir varð, maður, hestur eða hundur, og lá það dautt samstundis. Annmarki þessi varaði fram á daga Þorleifs prófasts Skaptasonar; ferðaðist hann þángað með ráði biskups og nokkrir prestar með honum og vildismenn. Hann hlóð altari úr grjóti annarsvegar í skarðinu og hèlt þar messugjörð með vígslu og stefndi þaðan vondum öndum, og í skarð það eða hraungjá, er sunnar nokkru liggur í fjallsbrúninni, og kallast Afglapaskarð. Þykir þar æ síðan ískyggilegt; hefir og nokkrum sinnum mönnum orðið þángað geingið í villu og bana beðið. Siglufjarðarskarð hefir aldrei síðan orðið mönnum að meini; mælti sèra Þorleifur svo fyrir, að hver, sem yfir skarðið færi, skyldi gjöra bæn sína við altarið og mundi þá vel duga. Sèr þessa altaris merki enn í dag.

Það var sögn manna í þann tíma, að sèra Þorleifur mundi skilja hrafnamál; drógu menn það af ýmsum líkum, og víst er það, að hann hefir ritað bæklíng einn lítinn, sem nokkurs konar leiðarvísi að taka til greina aðferð, misflug og tilbreytíng á krasmáli hrafna; þann ritlíng mun nú vart að finna. Sèra Þorleifur tók nú fast að eldast. Það var einn dag á hausti, að sèra Þorleifur bjóst að ríða heiman frá Múla niður til Húsavíkur kaupstaðar, og verkmaður einn með honum. Þeir höfðu hesta 2 með reiðíngi og böggum á, og vildu þeir heim að kvöldi. Vegurinn er lángur, en allgóður víðast og fljótfarinn. Torfærur eru eingar á leið, utan svo kallaður Mýrarlækur, sem fellur úr flóa nokkrum í Laxá og liggur á sandi, dreifður mjög grunt, þar hann kemur í ána. Sèra Þorleifur reið úr garði snemma morguns og fylgdarmaður hans, og meðan þeir lásu ferðabæn sína, flaug hrafn yfir höfuð presti og skrækti mjög. Prestur leit við hrafninum og mælti, svo samferðamaður heyrði: „Þetta lýgur þú, bölvaður þjófurinn. Ekki verður þetta.“ En þá þeir höfðu lokið bæn sinni, spyr samferðamaður prest, hvað krummi hefði skrækt. Prestur unni manninum sem dánumanni og sagði: „Svo kvað krummi: þú, prestur, skalt að aptni liggja dauður í Mýrarlæk, og ég skal útkroppa augu þín.“ Prestur kvað þetta markleysu eina og kjaptaflapur krumma, og trúði samferðamaður því. Þeir riðu í kaupstaðinn og bjuggust heim í veg að áliðnum degi. Veður þykknaði mjög, er að kvöldi leið, og er kvöldaði, voru þeir mjög á leið komnir upp með Laxá. Þá mælti prestur við förunaut sinn: „Eg vil senda þig hèr á bæi 2 undir hlíðina að erindum mínum, en eg mun láta hestana setja á meðau upp með ánni, og skaltu svo ríða sniðhalt í veg fyrir mig, að ei verði nein bið.“ Maðurinn gjörir sem boðið var, og skilja þeir. Maðurinn lýkur erindi prests, og ríður sniðhalla leið, eptir því sem

hann hèlt, að prestur mundi á leið kominn. Mætir hann þá hestunum á veginum, er vildu heim, en prestur var ei með. Ríður þá maðurinn tilbaka niður með ánni, þar til hann kemur að Mýrarlæk. Stendur þar þá hestur prests, en hann sjálfur liggur í lækjarósnum upp í lopt, og flýtur ekki vatnið yfir andlit honum. Prestur var örendur og sat hrafn á höfði honum, og hafði kroppað út annað augað.

**Galdra-Loptur.** (Eptir handriti sèra Skúla Gíslasonar á Stóranúpi.) Loptur hèt skólapiltur einn á Hólum; hann lagði alla stund á galdur og kom öðrum til þess með sèr, þó ekki yrði meira úr því fyrir þeim, en kuklið eitt. Æsti Loptur skólabræður sína, til að gjöra öðrum ýmsar galdraglettur, og sjálfur var hann forsprakkinn. Einu sinni fór Loptur heim til foreldra sinna um jólin; tók hann þá þjónustustúlku á staðnum, og járnaði hana, og lagði við hana beizli, og reið henni svo í gandreið heiman og heim; lá hún leingi eptir af sárum og þreytu, en gat eingum frá sagt, meðan Loptur lifði. Öðru sinni barnaði Loptur vinnukonu á staðnum og drap hann þá barnsmóður sína með gjörníngum; henni var ætlað að bera aska inn í eldhús og úr því; voru þeir til flýtis bornir á nokkurs konar trogmynduðu verkfæri, er hèt askafloti, og tók marga aska í einu, lèt Loptur opnast gaung fyrir henni í miðjum vegg, svo hún gekk inn í þau. En sökum þess að stúlkan varð þá hrædd og hikaði, hreif galdurinn, svo að veggurinn luktist aptur. Laungu seinna, þegar veggurinn var rifinn, fannst í honum beinagrind af kvennmanni uppstandandi með aska-hrúgu í fánginu, og ófullburða barnsbein í holinu. Þorleifur prófastur Skaptason vandaði um við Lopt, því að hann var dómkirkjuprestur um þær mundir. En Loptur skipaðist lítt við það; bektist hann síðan stundum til við prófast, en gat ekki gjört honum neitt mein, því að hann var svo mikill guðsmaður og kunnáttumaður um leið, að ekkert óhreint gat grandað honum. Einhvern tíma reið prófastur til kirkju og átti að fara yfir Hjaltadalsá í leysíngu og vexti; varð hesturinn þá staður og hræddist, svo að prófastur varð að gánga af honum í miðri ánni; greip hann hempupoka sinn og óð til lands; sakaði hann ekki og flutti messu um daginn. Þá var þessi vísa kveðin:

„Furðar mig á frèttum þeim,
fótgángandi var hann;
þegar hann kom til Hóla heim,
hempuna sína bar hann.“[1]

Ekki lètti Loptur, fyrr en hann hafði lært alt, sem var á Gráskinnu og vissi það út í hörgul; leitaði hann þá fyrir sèr til ýmsra galdramanna, en einginn vissi þá meir en hann. Hann gjörðist nú svo forn og illur í skapi, að allir skólapiltar urðu hræddir við hann; þorðu þeir ekki annað, en að láta alt vera, sem hann vildi, þó þeim stæði stuggur af. Einhvern

1. Sjá Árb. Esp. IX, 40.—41. bls.

tíma snemma vetrar kom Loptur að máli við skólapilt einn, sem hann vissi að var hugaður, og bað hann að hjálpa sèr til að vekja upp biskupa þá hina fornu. Hinn taldist undan; en Loptur kvaðst þá mundi drepa hann. Skólapilturinn spurði, hvert gagn hann mætti vinna honum, þar sem hann kynni engan galdur. Loptur sagði, að hann þyrfti ekki annað en standa í stöplinum og halda í klukkustreinginu, hreifast hvergi, en horfa stöðugt á sig, og taka í klukkuna, jafnsnart og hann gæfi honum merki með hendinni. „Vil eg nú," mælti Loptur, „segja þèr gjörla af áformi mínu; þeir, sem eru búnir að læra galdur, viðlíka og eg, geta ekki haft hann, nema til ills, og verða þeir allir að fyrirfarast, hvenær sem þeir deya; en kunni maður nógu mikið, þá hefir djöfullinn ekki leingur vald yfir manninum, heldur verður hann að þjóna honum án þess að fá nokkuð í staðinn, eins og hann þjónaði Sæmundi fróða, og hver sem veit svo mikið, er sjálfráður að því, að nota kunnáttu sína, svo vel sem hann vill. Þessari kunnáttu er nú á dögum ekki auðið að ná, síðan Svarti-skóli lagðist af, og Gottskálk biskup grimmi lèt grafa Rauðskinnu með sèr; vil eg því vekja hann upp og særa hann, til að láta af hendi Rauðskinnu við mig, en þá munu allir hinir gömlu biskupar rísa á fætur, því að þeir munu ekki þola eins miklar særíngar yfir sèr og Gottskálk, og mun eg láta þá segja mèr þá forneskju, sem þeir vissu í lifanda lífi, og kostar það mig ekki mikla fyrirhöfn; því að það má sjá það á svipnum, hvort maðurinn hefir kunnað galdra, eða ekki. En hina seinni biskupa get eg ekki vakið upp, því að þeir eru allir grafnir með ritníuguna á brjóstinu. Dugðu nú vel og gjörðu eins og eg legg fyrir þig, og hríngdu hvorki of fljótt, nè of seint; því að við því liggur stundleg og eilíf velferð mín; skal eg þá launa þèr svo vel, að einginn annar skal þèr fremri." Þeir bundu nú þetta fastmælum, og fóru á fætur skömmu eptir háttatíma og upp í kirkju. Túnglskin var úti, svo bjart var í kirkjunni; nam skólapilturinn staðar í stöplinum, en Loptur fór uppí prèdikunarstól og tók að særa. Kom bráðum maður upp úr gólfinu með alvarlegum og þó mildum svip og hafði kórónu á höfði; þóktist skólapilturinn vita, að þar mundi kominn hinn elzti biskup; hann sagði við Lopt: „Hættu vesall maður, meðan tóm er til; því að þúngar munu þèr bænir Gvendar bróður míns, ef þú ónáðar hann." Loptur sinti því ekki, og hèlt áfram að særa. Komu nú allir hinir gömlu biskupar í röð upp úr gröfum sínum í hvítum sloppum með krossmark á brjósti og staf í hendi. Allir skiptu þeir eitthvað lítið orðum við Lopt, en ekki er getið, hvað það var. Þrír þeirra höfðu kórónur á höfðinu, hinn fyrsti og seinasti og sá, sem stóð í miðið (líklega Guðmundur Arason, þó það skakki nokkru.) Einginn forneskja duldist með neinum þeirra. Gottskálk þrumdi þetta af sèr; tók þá Loptur að særa fyrst að marki og sneri máli sínu að Gottskálki einum; sneri hann þá iðrunarsálmum Davíðs uppá djöfulinn, og gjörði játníngu fyrir alt, sem hann hefði vel gjört. Stóðu þá þrír hinir kórónuðu

biskupar leingst frá, með upplyptum höndum og sneru andlitinu móti Lopti, en hinir horfðu undan og á þá. Heyrðist þá dunur miklar og kom upp maður með staf í vinstri hendi og rauðri bók undir hinni hægri, ekki hafði hann krossmark á brjósti, leit hann óhýru auga til biskupanna, en horfði glottandi til Lopts, er særði þá sem fastast. Gottskálk færðist hóti nær og sagði háðslega: „Vel er súngið, sonur, og betur, en eg hugði, en eigi nærð þú Rauðskinnu minni.“ Loptur umhverfðist þá og hamaðist, og var sem aldrei hefði hann sært fyrr. Sneri hann þá blessunarorðunum og faðir-vori upp á djöfulinn; kirkjan hrikti öll og lèk á reiðiskjálfi. Virtist skólapiltinum, sem Gottskálk þokaðist nær Lopti, og rètti með semíngi að honum eitt horn bókarinnar, hafði hann áður verið smeykur, en skalf nú af ótta og sortnaði fyrir augum; virtist honum sem biskup brygði upp bókinni og Loptur rètti fram höndina, hugði hann þá að hann gæfi sèr merki, og tók í klukkustreinginn; hvarf alt þá ofan í gólfið með þys miklum. Loptur stóð stundarkorn höggdofa í stóluum og lagði höfuð í höndur sèr, stumraði síðan hægt ofan og fann lagsmann sinn, stundi hann þá við og mælti: „Nú fór verr, en skyldi, og get eg þó ekki gefið þèr sök á því. Eg mátti vel bíða dögunar, mundi biskup þá hafa slept bókinni og lagt hana sjálfur upp til mín; því að ekki hefði hann unnið það til að ná ekki aptur gröf sinni og ekki heldur leyfzt það vegna hinna biskupanna; en hann varð drýgri en eg í viðskiptum okkar, því að þegar eg sá bókina og heyrði frýunarorð hans, gjörðist eg svo óður, að eg hugðist að hafa hana strax með særíngum og ránkaði eg fyrst við mèr, þegar svo lángt var komið, að hefði eg farið einu særíngarstefi leingra, þá mundi kirkjan hafa sokkið, og það var það, sem hann ætlaðist til. Eg sá í sama bili í andlit hinna krýndu biskupa, og varð felmt við, en vissi, að þú mundir falla í ómegin við klukkustreinginn, og hún þá gefa hljóð af sèr, en bókin var svo nærri mèr, að mèr virtist eg geta náð henni, enda kom eg við horn hennar og munaði ekki öðru en því, að eg hefði náð svo góðu haldi á henni, eins og þurfti, til að fella hana ekki niður. En svo verður að fara, sem auðið er, og er útsèð um velferð mína, en laun þín skulum við samt láta liggja í kyrþey.“ Loptur varð nú hljóður mjög, og því næst sturlaður, svo að hann þoldi ekki að vera einn, og kveykja varð ljós fyrir hann, þegar rökkva tók; fór hann að mæla fyrir munni sèr: „Sunnudaginn í miðföstu verð eg í helvíti og kvölunum.“ Var honum þá ráðið að flýa til prests eins á Staðastað; hann var þá aldraður, var hann trúmaður mikill og klerkur bezti; batnaði öllum sturluðum, eða þeim, sem höfðu orðið fyrir gjörníngum, ef hann lagði höndur yfir þá. Loptur leitaði sèr þá hælis hjá honum; kenndi prestur í brjósti um hann og tók við honum; lèt hann aldrei við sig skilja nótt nè dag, úti nè inni. Hresstist nú Loptur mikið; en þó varð presti aldrei ugglaust um hann; stóð honum mesti stuggur af því, að Loptur vildi aldrei biðjast fyrir með honum. Þó fylgdi Loptur presti, þegar hann vitjaði sjúkra og

freistaðra, og var þá viðstaddur. Bar það þó opt við, svo prestur fór aldrei svo að heiman, að hann hefði ekki hempu sína, brauð og vín, kaleik og patínu með sèr. Svona leið nú þángað til laugardaginn fyrir sunnudaginn í miðföstu; var Loptur þá sjúkur, og sat prestur fyrir framan hann, og hresti hann með kristilegum samræðum. En um dagmálabil komu honum orð frá vini hans í sókninni, að hann væri kominn að andláti og óskaði, að prestur vildi þjónusta sig og búa sig undir guðrækilegt andlát. Prestur gat hvorki nè vildi neita því. Leitaði hann þá til við Lopt, hvort hann gæti ekki fylgt sèr, en hann kvaðst hvergi mega hrærast fyrir verkjum og óstyrkleik. Prestur kvað honum líka duga mundi, ef hann kæmi ekki út undir bert lopt, meðan hann væri burtu. Loptur lofaði því; blessaði prestur síðan yfir hann og mintist við hann, og fyrir bæardyrum fèll hann á knè og baðst fyrir, og gjörði krossmark fyrir þeim. Heyrðu menn hann þá mæla fyrir munni sèr: „Guð má vita, hvort þessum manni verður bjargað, og hvort ekki liggja kröptugri bænir móti honum en mínar.“ Prestur fann síðan manninn, er hann var sóktur til, veitti honum alla þjónustu og var viðstaddur við andlát hans; en síðan flýtti hann sèr af stað og reið hart mjög, sem þó var ei venja haus. Þegar prestur var farinn, hrestist Loptur brátt. Veður var hið fegursta og vildi hann því fyrir hvern mun komast út. Karlmenn voru farnir til vers, og ekki aðrir heima, en konur, og úngmenni, er ekki tjáði að letja hann. Loptur gekk nú til annars bæar; þar var aldurhnígiun bóndi, heldur óþokkasæll, er var hættur að róa, hvatti Loptur hann til að hvolfa upp litlum bát, er hann átti og róa lítið út fyrir landsteina og renna færi sèr til skemtunar; lèt bóndi að orðum hans. Logn hèlzt allan daginn, en til bátsins hefir aldrei spurzt síðan, og þókti það undarlegt, að ekki rak af honum svo mikið sem árarblað. Maður þóktist sjá það af landi, að grá hönd loðin hefði komið upp, þegar báturinn var kominn út fyrir landsteinana, og hefði tekið um skutinn, þarsem Loptur sat og dregið svo altsaman í kaf.[1]

**Sèra Snorri á Húsafelli.** (Eptir handriti sèra Skúla Gíslasonar á Stóranúpi.) Sagt er, að sèra Snorri á Húsafelli hafi verið kunnáttumaður, og gætti þess, þegar hann var í skóla. Skólabræður hans öfunduðu hann af afli hans og glímum og öðrum listum; svikust þeir eitt sinn að honum og gátu hrundið honum fram af hamri nokkrum ofan í Hvítá. En um kvöldið kom hann inn í skólann; urðu piltar þá hræddir og hèldu hann væri aptur genginn, en hann kastaði gamanyrðum upp á þá og þakkaði þeim fyrir seinast. Hann var feinginn til að gjörast prestur í Aðalvík, því bændur þar vestra voru fjölkunnugir og lètu presta sína illa, sökum þess þeir settu ofan í við þá fyrir galdrana. Sumir bændur voru svo fornir í skapi að þeir sóktu hvorki kirkju, nè helgar tíðir; komu þeir saman að Horn-

1. Sbr. Dr. Maurers Isl. Volkss. 102.—103. bls.

bjargi og afleysti þar hverjir aðra einu sinni á ári. Voru það þá skriptamál þeirra: „Eg er eins og eg var í fyrra, og eingu betri.“ Margir vildu ekki heldur láta færa sig að kirkju andaða, eða hafa helgan saung yfir sèr. Ef prestur þeirra vönduðu um þetta, drápu þeir þá með fjölkynngi. Sèra Snorri tók þegar að semja siðu bænda, þegar hann kom vestur, en þeir brugðust illa við. Drápu þeir fènað fyrir presti og ásóktu sjálfan hann. En þar báru þeir ætíð lægri hlut, hvort sem kom til kunnáttu eða karlmennsku, enda gjörði hann stundum mótstöðumönnum sínum þær glettur, að hann hvolfdi undir þeim og bjargaði þeim svo, eða lèt þá sitja í aflamissi. Hann kom öllum þeim sendíngum fyrir, er þeir sendu honum, svo þeir komust seinast í þrot með þær. Einn var verstur af mótstöðumönnum hans. Bóndi þessi var eitt sinn að smíðum niðri við sjó fyrir framan bæ sinn og prestur líka; risti bóndi þá rúnir á kefli, og fylgdi þeim sú náttúra, að hver, sem las, varð blindur. Lèt hann það síðan reka upp, þar sem prestur var fyrir. Prestur varaðist ekki hrekk þennan, las rúnirnar og varð blindur, en þá greip hann til kveðskapur síns og kvað af sèr blinduna. Síðan skóf hann allar rúnir af keflinu, fleygði því út og mælti: „Farðu til húsbónda þíns aptur og vertu bani hans, ef hann ætlar aptur að hafa þig til íls.“ Bóndi sá fljótt keflið, greip hann það og ætlaði nú að rista þær rúnir, er skyldu ríða presti að fullu. En hnífurinn rendi út af keflinu, og fyrir brjóst bónda, svo á kafi stóð; varð það hans bani. Þó lauk svo, að sèra Snorri flúði að vestan að fáum árum liðnum, mest af því honum þókti viðurhluta mikið að iðka galdur, enda beitti hann honum aldrei síðan. Þókti Hornstrendíngum samt mikil eptirsjá í honum og lètu presta sína betur síðan. Sèra Snorri bannaði börnum sínum að láta heita eptir sèr; þó brá eitt þeirra út af því og var það Snorri sá, er heingdi sig á Bessastöðum.

Hjálmar Jónsson nefnir helzt til Jón blóta og Þorgils, að í erjum hafi átt við sèra Snorra. Hallvarður Hallsson á Horni þreytti og forneskju við prest. Frá Halli segir Hjálmar að hann hafi verið bannsúnginn í Skálholti af Finni biskupi fyrir galdur, (sem þó er ósönn sögusögn), en sama dag og bannsetníngin fór fram í Skálholti, horfði Hallur í gaupnir sèr og kvað vísu:

„Margir nefna á Horni Hall,  
hafi sá blendna trúna,  
skrýtilegt er skrattaspjall  
hjá Skálholts klerkum núna.“

**Sèra Högni Sigurðsson.** (1717—1770.) (Eptir sögn húsfrú Hólmfríðar Þorvaldsdóttur og sèra Jóns Högnasonar, sem frá Högna eru komin í fjórða lið.) Sèra Högni var fyrst prestur á Kálfafelli í Hornafirði 1717; 1722 varð hann prófastur í allri Skaptafellssýslu alt til 1739; 1726 fèkk hann veitíngu fyrir Stafafelli í Lóni, og þann stað hèlt hann til þess 1750, að honum var veittur Breiðabólstaður í Fljótshlíð og dó hann þar 1770. Högni prófastur þókti í

mörgum hlutum mikilhæfur maður og merkilegur, og þó fornfróður, og fór vel með kunnáttu sína og bektist aldrei til við menn að fyrra bragði; þó var hann ekki mjög vinsæll maður af alþýðu. Einna mest bar á ertíngum Jóns sýslumanns Ísleifssonar við hann, en þó finnst þess ekki getið, að séra Högni hafi leitað á hann aptur, en varðist að eins áleitni Jóns, og klekti nokkuð á honum að lokunum. En Jón var bæði miskyntur mjög og þókti fjöllkynngismaður á þeirri tíð. Einu sinni um vetur, þegar séra Högni var ekki heima, kom upp eldur í heygarðinum og fjósinu hjá honum á Stafafelli; en hvort tveggja var spölkorn frá bænum. Einginn vissi neina von til þess, að þar hefði eldur eða ljós komið nærri til íkveykju; en eldur sá varð ekki slöktur, og brann hvorttveggja til kaldra kola, heyin og fjósið. En svo vildi til, að um sama leyti, sem þessi brenna varð, var eldurinn dauður í bænum á Stafafelli, og vildu menn nota bruna-eldinn til að kveykja við hann, og ná eldi í bæinn. En jafnóðum slökn-aði sá eldur aptur á leiðinni milli fjóss og bæar, og svo kulnaði út bruna-eldurinn, að fara mátti eptir eldi á aðra bæi. Eptir þetta kom Högni prófastur heim, og varð vel við skaða sínum. En yfir því einu kvartaði hann, hvað ílt og örðugt hann hefði átt með að verja fólkinu sínu að kveykja við bruna-eldinn, og bera þaðan eld í bæinn; því það sagði hann, að ef því hefði tjónkast það, mundi allur bærinn hafa brunnið til kaldra kola, sem fjósið og heyin. — Það var öðru sinni, að séra Högni ætlaði út í hérað það, sem Nes heitir og skilur þau Almannaskarð frá Lóninu. Prestur var þá gángandi og kom að Krossalandi; þar bjó kona sú sem Hólmfríður hét. Hún átti rauðan hest góðann og bað prófastur hana að ljá sér hann. Hún var fús til þess. Þá segir séra Högni við Hólmfríði, er hann fór á stað: „Annarhvor okkar Rauðs kemur ekki aptur, Fríða mín.“ Hún svarar: „Guð láti alt gánga skaplega til og láti Rauð ekki koma aptur.“ Síðan fer prófastur, sem leið liggur upp á Almannaskarð; en hæst á skarðinu datt hesturinn dauður undir honum. Þegar hann gekk frá hestinum, kvað hann þetta:

„Hér liggja hrossbein
harðan við sandstein
en Högni ber hægt mein.“

Hvorttveggja þessi áleitni við Högna prófast var bæði af honum og öðrum kend Jóni Ísleifssyni. Og enn er þessi saga um eljaraglettur þeirra. Í bæardyrunum á Stafafelli var hella ein, sem skrapti nokkuð, þegar á hana var stígið. Eitt kvöld, er allir voru háttaðir í Stafafelli, heyrði séra Högni að hellan gjökti til, eins og um væri geingið. Hann fór þegar á fætur, og fram úr húsi því, sem hann svaf í, og gekk þar um gólf fyrir framan dyrnar alla nóttina. Þegar komið var í fjósið á Stafafelli um morg-uninn, lá ein kýrin dauð á básnum. Þegar farið var að gera hana til, var hún öll innan skinns blá og marin og lét prófastur ekki hirða neitt af henni nema annað lærið skipaði hann að taka og heingja upp í eldhús, en

bannaði að taka á því, fyrri en hann segði sjálfur til. Var svo lærið geymt lon og don heilt ár eða leingur, uns Jón sýslumaður kom að Stafafelli og gisti þar nótt. Þá skipaði sèra Högni að sjóða kýrlærið góða, og var svo gjört. Var það síðan borið á borð fyrir sýslumann ásamt öðru. Prófastur var þá ekki við, eptir því sem sumir segja. En þegar Jón ætlaði að renna niður fyrsta bitanum, sem hann skar af lærinu, stóð hann í honum, svo hann kom honum hvorki upp nè niður. Var þá sóktur sèra Högni og kom hann þegar til Jóns, og slær svo mikið högg milli herða honum, að bitinn hrökk fram úr Jóni með blóðgusu. Þá sagði Jón: „Farðu nú bölvaður, sèra Högni," því honum fèllst allur ketill í eld, er hann sá blóðið úr sèr, sem kom upp á bitanum og með honum, sem sagt er um alla galdramenn. En önnur sögn er sú, að Jón hafi ekki látið fyrsta bitann af lærinu upp í sig, heldur hafi hann gefið hundinum sínum hann, og drapst hann þegar í sömu sporum. Þegar Jón sá það, er sagt hann hafi sagt við prófast, sem eptir þeirri sögusögn sat við borðið hjá honum: „Lángrækinn ertu, sèra Högni." Síðan átu þeir báðir af lærinu og varð ekki meint af, því ólyfjanin átti öll að fylgja fyrsta bitanum. Eptir það vita menn ekki til, að Jón hafi bekkzt til við prófast nè heldur að prófastur hafi launað honum ljóshöldin með öðru en þessu.

**Sèra Vigfús Benediktsson.** (Austan úr Múlasýslu.) Sèra Vigfús, sem síðast var prestur á Kálfafellsstað í Austur-Skaptafellssýslu, og miðaldramenn muna eptir, var fyrst prestur á Stað í Aðalvík.[1] Þar í sókn voru þá enn margir galdramenn, sem áttu í illdeilum við prest, en einkum voru það bræður tveir. Einn laugardag fór prestur með þeim bræðrum sjóveg út í ey eina með lömb sín. Þegar þeir komu að eynni, settu þeir upp lömbin, og fylgdi prestur þeim upp á eyna; en þeir bræður voru eptir í bátnum. Þegar prestur kemur aptur ofan af eynni, þángað sem báturinn átti að vera, voru förunautar hans allir á burt, og skildu prest einan eptir. Kona sèra Vigfúsar hèt Málfríður; hún var skýrleikskona hin mesta, og þókti vita jafnlángt nefi sínu, og því var hún sögð göldrótt. Hún var komin niður að sjó, er þeir bræður lentu á bátnum, og spyr hún þá, hvar sèra Vigfús sè. Þeir segja, að hann sè að búa til ræðu fyrir morgundaginn, og glotta við. Hún segir, að vel megi svo verða, að hann tali við kollinn á þeim á morgun. Skilja þau við það; fara þeir heim til sín, og hirða ekki um prest. Snemma daginn eptir koma þeir bræður til kirkju, og þegar þeir koma inn í kirkjuna, er presturinn kominn fyrir altarið, og heldur yfir þeim eins mergjaða hegníngarræðu, og þeir áttu skilið. Eptir messuna segir Málfríður við þá: „Nú feingu þið ræðu, sem þið þurftuð

1. Hann fèkk Stað 1757, næst eptir sèra Snorra Björnsson, og var þar prestur í 18 ár, þar til hann fèkk Einholt í Austur-Skaptafellssýslu 1775, þar var hann til 1787, þá fèkk hann Kálfafellsstað, afsalaði sèr því brauði 1802, og dó 1822.

með, og samboðin var tilverknaði ykkar.“ Þeir sögðust ekki hafa enn þakkað prestinum fyrir ræðuna, en þeir skuli gjöra það einhvern [illegible] s[illegible] Alt sumarið eptir komu þeir ekki til kirkju, fyrr en á fyrsta [illegible] í vetri komu þeir báðir. Svo var ástatt, að annar þeirra bræðra [illegible] og sat því í kór; hinn var ókvæntur, og sat frammi í kirkju. [illegible] tekur eptir því, að bræðurnir eru alt af að glotta, hvor framan í annan. [illegible] súngið er fyrir, og prestur er fyrir altarinu; en þegar hann er ný[illegible] upp í stólinn, gánga þeir út báðir. Líður nú nokkur stund, þángað til prestur er kominn fram í miðja ræðu sína, þá kallar prestskonan til manns síns og segir: „Gaktu út, Fúsi; ekki mun síðar vænna.“ Prestur hættir þar í ræðunni, sem hann var kominn, geingur út úr kirkjunni og upp fyrir garð. Sèr hann þá, hvar annar þeirra bræðra er að kynda undir potti, en hinn er að rista einhverja galdrastafi. Prestur geingur þar að, og ætlar að hella úr pottinum. En þá er kona hans komin þar, og segir, að hann skuli ekki gjöra þetta; en tekur sjálf pottinn, og hellir því, sem í honum er ofan yfir höfuðið á öðrum þeirra bræðra, en kastar pottinum af hendi í hinn, svo að þeir liggja þar báðir steindauðir eptir. Malfríður hèlt á eptir, að ekki mundi síðar hafa betur farið; því þeir hefðu ætlað sèr að drepa sèra Vigfús í stólnum með göldrum sínum.

Meðan sèra Vigfús var prestur á Stað, átti hann ávalt að sæta þúngum búsifjum af galdramönnum, og seinast hlaut hann að sækja þaðan; því hann var ekki orðinn óhræddur um líf sitt fyrir þeim. En ekki lètu þeir hann óáreittan að heldur; því bæði á meðan hann var í Einholti, og eins eptir það, að hann fèkk Kálfafellsstað, sendu þeir honum sendíngar; en kona hans gat optast annaðhvort snúið þeim aptur að þeim, er sendu, eða hamlað því, að þær gjörðu honum mein. En það er haft eptir Fúsa presti, að sendíngar þeirra Aðalvíkínga mundu gjöra út af við sig, ef hann lifði konu sína. En til þess kom ekki; því hún lifði honum leingur, og dó hann í góðri elli.

Villan. Einu sinni ætlaði sèra Vigfús um vetrartíma suður á land, eptir það hann var kominn austur. Hann kom á áliðnum degi á bæ þann í Öræfum, er heitir á Hnappavöllum, og ætlaði að ná um kvöldið inn að Hofi, og er það ekki leingra en svo, að það er riðið á klukkustund. Á Hnappavöllum var honum boðin fylgd inn að Hofi. En hann lèzt ekki þurfa hennar við, og fer svo af stað. Í dögun nóttina eptir er guðað á glugga á Litla-Hofi, en það er kot rètt hjá Hofi; þar bjó þá bóndi sá, er Bjarni hèt, og Ingibjörg kona hans. Hún fór þegar til dyra, er guðað var, og varð hissa, er hún sá prest um það leyti á ferð. Hann biður hana að lofa sèr að vera, því hann sè dæstur, og hafi átt örðugt með að komast þángað, og biður konuna að láta ljós loga hjá sèr, það sem eptir sè næturinnar, og gjörir hún það. En það er af Málfríði konu hans að segja, að hún leggur sig

fyrir í rökkrinu þetta sama kvöld, en hrekkur þegar upp aptur og segir: „Nú á Fúsi minn bágt;“ grípur hún þá gráa tusku út úr barmi sínum, og fer að naga hana, og er að því alla nóttina fram undir dag, og rær sèr alt af á meðan. En þegar komið er undir dag, hættir hún að naga og segir: „Nú læt eg það vera; nú held eg honum sè óhætt.“ Sèra Vigfús hafði verið fátalaður um þetta, en hafði þó sagt einhverjum, að þegar hann kom inn að á þeirri, sem Gljúfursá heitir, milli Hnappavalla og Fagurhólsmýrar, hafi hann sèð sjón, sem hann kæri sig ekki um að lýsa fyrir neinum, og sú sjón hafi verið sèr upp úr ánni og komið á sig villu, og þegar hann kom að Litla-Hofi, hafi hann komið ofan úr fjallskarði fyrir ofan bæinn, þar sem eingir mannavegir liggja um.

Sèra Vigfús og Ólafur í Vindborðsseli. Þegar Vigfús var prestur í Einholti, bjó sá maður í Vindborðsseli, er Ólafur hèt, og var kallaður galdramaður. Hann lá í sífeldum erjum og illdeilum við prest. Einn sinni ætlar sèra Vigfús að fara að húsvitja í sókn sinni, og spyr kona hans hann að, hvert hann ætli að húsvitja í Vindborðsseli. Það segist hann hafa ásett sèr. Hún segist þá ætla að fara með honum þángað. Prestur vill það ekki, og telur hana af því, með því það sè ekkert kvennfólksveður, svo hún lætur þá til leiðast að fara ekki, en segir: „Sjáðu þá um, að betur fari, en eg ræð þèr, að fara ekki að Vindborðsseli.“ Eptir það fer prestur, og húsvitjar, og kemur að Vindborðsseli nokkru eptir dagsetur. Ólafur tekur vel á móti honum og býður honum inn í skemmu, tekur þar flösku upp úr kistu, og setur á borðið, og býður presti. Prestur sýpur ekki strax á henni; en eptir nokkurn tíma fer hann að taka tappann úr henni. Í sama vetfángi er hrundið upp skemmuhurðinni; kemur þar inn Málfríður prestskona og segir: „Drektu ekki úr flöskunni, Fúsi,“ þrífur hana af honum, sýpur á henni sjálf og spýtir á gólfið. En hundur, sem þar var inni, sleikir upp af gólfinu það, er Málfríður hafði spýtt út úr sèr, og var úr flöskunni, og drapst rakkinn þegar. Þá segir hún við prest: „Nú er þèr óhætt að drekka, Fúsi.“ Gjörir prestur það, og verður honum það ósaknæmt.

Einu sinni vildi Ólafur þessi fá stúlku nokkra til sín; en hún vildi ekki til hans fara. Ólafur hittir hana einhverju sinni eptir það við kirkju og biður hana að kyssa sig. Stúlkan vill það með eingu móti. Hann kvęðst þá muni kyssa hana, hvort sem henni sè það ljúft eða leitt, og gjörir það. En um leið og hann kyssir hana skýtur hann einhverri flugu út úr sèr ofan í hana, svo stúlkan verður á samri stundu fárveik, og er ekki annað sýnilegra, en að hún muni þá og þegar deya. Er þá presti sagt til, og hann beðinn að ráða bót á þessu, og að taka stúlkuna til bænar. Prestur heitir að taka hana til bænar, og í bænagjörðinni biður hann þess, að hið óhreina, sem grandi stúlkunni, hverfi aptur til þess, sem það væri komið frá. Þetta varð að áhrínsorði; því stúlkan varð þegar heil heilsu, en send-

íngin hvarf aptur til Ólafs, og fèkk hann af því fótarmein, og lá leingi í því, og leiddi það hann að síðustu til dauða.

Sendíngin. (Missögn um sèra Vigfús, eptir Skúla skólapilt Magnússon úr Skaptafellssýslu.) Einu sinni var úngur prestur, er Vigfús hèt, á Stað í Aðalvík. Hann átti í deilum við bræður tvo þar í sókninni, er voru hinir mestu yfirgángsmenn, og þóktu kunna margt fyrir sèr. Prestur fór ávalt halloka fyrir þeim bræðrum, og þar kom um síðir, að hann hèlzt ekki leingur við á Stað, og sókti því um Einholt á Mýrum í Austur-Skaptafellssýslu, og fèkk það brauð. En áður en hann fór að vestan, hafði hann gjört þeim bræðrum einhvern grikk, svo þeir þóktust eiga sín í að hefna. Vöktu þeir þá upp draug nokkru síðar, og sendu presti, til að drepa hann. Það er sagt, að draugur þessi hafi verið meðal-maður á hæð og skinnklæddur. Draugurinn kom að Tvískerjum í Öræfum í rökkrinu á spreingikvöld, og sváfu þar allir, nema bóndi, er Einar hèt, og var kallaður maður sannsögull og greindur. Einar heyrði í rökkrinu, að hurðin á húsi því, er hann var í, hrökk upp af sjálfu sèr. Fór hann þá út, en sá eingan; læsti hann þá hurðinni aptur, og lagðist fyrir. En er hann hafði legið skamma stund, heyrir hann, að hurðinni er aptur lokið upp, og fór alt á sömu leið, sem áður. En í þriðja sinn er hurðinni hrundið upp, og kemur þá inn maður í skinnklæðum, og heilsar eingum. Bóndi spyr hann, hvaðan hann sè. En hinn kveðst vera af Vestfjörðum. Bóndi spyr hann frètta. En hinn sagði, að Einar ætti dauða á úti í högum. Bónda fer þá að gruna margt, er hann heyrði, að Vestfirðíngur þekti fjármark sitt, og spyr hann, hvernig hann geti vitað, að hann eigi ána. Hinn þagði við því. Bóndi spyr hann þá að lykli, er tynzt hafði fyrir tuttugu árum, og sagði komumaður honum til hans og nokkurra fleiri hluta, er bóndi spurði hann um. Meðan þeir töluðust við, hafði draugur færzt svo nær bónda, að honum fannst hann vera kominn rètt að sèr, eða jafnvel ofan yfir sig; herðir hann þá upp hugann og segir: „Farðu út.“ Draugur fór þá út og heldur seinlega; en allar dyragættir fór hann með á herðunum, og fundust þær í molum úti um haga daginn eptir. Draugur hèlt á fram ferð sinni, til þess er hann kom að Einholti. Nú er þess getið, að prestur átti fóstru, er kunni margt, og eitthvert kvöld lætur kerlíng prest sofa í sínu rúmi, en leggst sjálf í hans. Um morguninn, er komið er á fætur, sjá menn, að fötin í rúmi því, er kerlíng svaf í um nóttina, eru öll sundurtætt og rifin, en sjálf lá hún fyrir framan rúmstokkinn nær dauða en lífi, og svo máttfarin, að hún gat varla sagt frá viðureign sinni við drauginn. En þó sagði hún, að þeir bræður mundu varla senda presti fleiri sendíngar.

**Frá Eggert hinum ríka.** (1732—1819.) (Úr handriti Mattíasar Jochumssonar.) Eggert var auðmaður mikill, en þar með göldróttur, og

bjó í Flatey á öndverðri 18. öld. Um hann er sagt, að hann rèð af örn og tóu, er lögðust á varp í Hergilsey; datt tóa dauð niður er henni var borin kveðja Eggerts. Eggert átti og í skærum við Arnfirðínga sem eru allra manna mestir galdramenn. Gjörðu þeir að honum galdraveður, og urðu allir forviða, nema Eggert einn; hann sat við stýri og bað menn sína eigi óttast, og er minnst varði, þreif hann hatt sinn og jós sjó yfir höfuð sitt með honum og mælti: „Láttu þèr nú nægja, eg er orðinn kollvotur.“ Sýndist hásetum síðan, að logn væri þar, sem skipið fór, en eigi gátu þeir sèð spönn frá sèr fyrir roki. En sem þeir komu að lendíngunni í Hergilsey var þar ólendandi, sökum brims. Eggert bað menn sína halda örugglega að landi, og gjörðu þeir nú svo. En sem skipið kendi grunns, stökk hann fyrir borð í miðjan brimgarðinn, og dró upp skipið, biður síðan háseta að setja, en gekk sjálfur heim til bæar. Hafa hásetar svo sagt, að þeim sýndist, þá er þeir voru að lenda, sem maður sæti á hleininni fyrir ofan lendínguna, og væri hann að tálga spýtu og kastaði hverjum spæni út á sjóinn, og yrðu þar af holskeflur, er skeldu sèr upp á sandinn. — Nú sem Eggert kemur heim, verður fólkið honum fegið, og skiptir hann nú klæðum; sýndist heimafólki, sem maður stæði í loptskörunum og væri að gægjast til Eggerts. En þegar hann var búinn að hafa fataskipti, stökk hann ofan og út á völl; sáu menn hann ólmast þar um stund, eins og hann glímdi, en einginn sá, nema Eggert einn. Nú sem lítil stund var liðin, geingur Eggert út á Vaðsteinabjarg, (sem svo er kallað), og kemur síðan heim móður og lúinn, en eigi vildi hann segja frá, hvað hann hafði fyrir stafni. Síðan sendu þeir honum draug, en þegar Eggert sá drauginn; var hann að speigla sig í mjólkurfötum og glórði í augun. Eggert glímdi við draugsa og feldi hann, og rèð svo af sèr sendíngar Arnfirðínga.

Eigi höfum vèr heyrt, að Eggert hafi átt að koma fleirum sendíngum fyrir. En þess viljum vèr geta, að sumir ætluðu hann hafa draumkonu, sem lèti hann vita ýmislegt, sem fyrir honum lægi.

Svo hefir Eggert sagt, að eitt sinn dreymdi hann, að honum þókti kona koma til sín, og spyrja sig, hvort hann vildi, að hún vísaði honum á, hvar kona sú væri, er honum væri ætluð. Þóktist hann játa því. Draumkonan sagði honum þá, að hann skyldi fara upp í Þorskafjörð til bæar þess, er Gröf heitir, ætti bóndinn þar þrjár dætur, og ein þeirra hefði valbrá á enni, og þeirrar skyldi hann biðja. Og sem hann vaknaði, tók hann að íhuga draum sinn, og leizt honum að freista, hversu sèr fèlli í geð dætur Jóns bónda í Gröf. Byrjar hann nú ferð sína og finnur Jón í Gröf, hefir upp bónorðið, og biður hann um elztu dóttur hans. Jón segir honum að sín vegna megi hann kjósa hverja þeirra systra, er honum fèlli bezt í geð. Eggert hafði enn eigi sèð þær; geingur nú inn þángað, sem þær sátu, og talar við þær. Sèr hann þá, að ein hefir valbrá á enni, og

nú kemur honum draumkonan í hug, og biður hann hennar. Var það auðsókt, og varð hún kona hans, og unnust þau mikið.

**Páll galdramaður.** (Eptir handriti sèra Skúla Gíslasonar á Stóranúpi.) Páll hèt galdramaður, sem bjó í koti nokkru hjá Stóruborg í Húnavatnssýslu, og lagðist kot þetta í eyði eptir hans dag. Páll drap konu sína með göldrum, þannig að hann risti henni helrúnir á ostsneið og drap smjöri yfir og gaf henni svo að snæða. En þetta komst upp um hann, og var hann dæmdur til að verða brendur, en það henti aldrei hina fróðari galdramenn. Hann var brendur á Nesbjörgum, en þegar kannað var í öskunni, var hjartað óbrunnið; var það þá rifið sundur með járnkrókum, og hrukku þá svartar pöddur út úr því; síðan brann hjartað.

**Ámundi galdramaður.** (Eptir handriti sèra Skúla Gíslasonar á Stóranúpi.) Ámundi hèt galdrasnápur nokkur á Kötlustöðum í Vatnsdal. Vissi hann lítið í kunuáttu sinni, en fór illa með til að hrekkja og hræða fólk. Einhvern tíma hitti hann mann, sem var að leita að fè; skaut hann þá gaungustaf sínum aptur á milli fóta sèr og narraði manninn til að setja sig á stafinn fyrir aptan sig; reið hann svo af stað og fram af Kötlustaðaklettum; lá þá manninum við aungviti, enda hafði Ámundi gjört þetta, til að hræða hann. Af völdum Ámunda er líka mælt, að smalamaður hafi orðið úti á Sauðadalsdrögum á veginum „fyrir Axlir," milli Vatnsdals og Svínadals. Þykir þar síðan vandratað í myrkri og kafaldi; því að draugurinn villir menn. Um þessar mundir bjó ekkja nokkur á Guðrúnarstöðum; að henni sókti Ámundi nú með göldrum sínum; gjörði hann það af illmensku og rælni, því að eingar sakir átti hann við ekkjuna; hafði fólkið á þessum bæ eingan frið á sèr, og sumir segja, að maðurinn, sem úti varð á Sauðadalsdrögum, væri þaðan. Nágrönnum Ámunda fór nú að standa stuggur af; feingu þeir þá Jón frá Hellu norðan af Árskógsströnd á móti honum. Jón þessi hafði numið galdur af Sigurði á Urðum, er sífelt fèkkst við ristíngar og rúnir. Það er sagt um hann, að fíngur hafi kalið af honum, og hèlt hann þá keldusvíns-fjöðrinni með taung og skrifaði svo galdrarúnir, og þegar hann dó, reið hann út um sveitir á líkkistu sinni. Aptur segja aðrir, að Sigurður þessi og Jón hafi átzt glettur við, en hvorugur unnið á öðrum. Jón kom nú vestur að Guðrúnarstöðum að kvöldi dags. Sá hann þá, hvar beljandi graðúngur kom og stefndi á hann; en hann hleypti mórauðum rakka undan hempulafi sínu á graðúnginn, og sneri hann þá undan. Jón var um kyrt í 3 daga. Sendi hann þá einga sendíngu frá sèr, en Ámundi sendi honum 3, og tók Jón þær allar; hafði Ámundi þá ekki fleiri til. Seinasta sendíngin var fluga; settist hún á askbarm hjá Jóni, þegar hann var að drekka mjólk. Greip Jón hana og magnaði, og sendi svo Ámunda aptur. Um daginn var elduð súpa á Kötlustöðum, datt hælróubiti niður hjá konunni, þegar hún ætlaði að láta hann í ask Ámunda. Bar

fluguna að í þessu, og skreið hún inn í bitann; greip konan upp bitann aptur og lèt hann í askinn. Ámunda þókti bitinn góður, gætti sín ekki og gein yfir honum; en í sama bili flaug sendíngin upp í hann. Gaus þá blóð út af nösum og munni Ámunda og var hann þegar dauður. Jón var sæmdur góðum gjöfum af Vatnsdælum, og sneri svo heim aptur.

**Jón frá Hellu.** (Eptir handriti Jóns alþíngismanns Sigurðssonar á Gautlöndum.) Maður hèt Jón, og var Guðmundsson; hann bjó að Hellu á Árskógsströnd. Hann var haldinn mjög fjölkunnugur og voru allir góðir menn hræddir við hann, því það orð lèk á, að hann beitti kunnáttu sinni meir, til að gjöra öðrum ílt, en til að vinna sèr eða öðrum gagn; var hann því harla óþokkasæll.

Þá bjó að Skógum á Þelamörk sá maður, er Jón hèt, og var Illugason; hann var maður fátækur og fáskiptinn, en hèlt fast hlut sínum, ef á hann var leitað; hèldu menn hann kynni og nokkuð fyrir sèr, eins og þá var títt um alla þá, er ekki lètu hlut sinn fyrir yfirgángsmönnum. — Það var einhverju sinni, að þeir nafnar, Jón frá Hellu og Jón Illugason, hittast í kaupstað á Akureyri. Þeim varð sundurorða um eitthvað, er þeirra hafði á milli farið, og sló að lyktum í heitíngar fyrir Jóni á Hellu; kvaðst hann mundi finna nafna sinn, áður lángt liði. En hinn kvaðst mundi óhræddur þora að sjá hann, hvar sem þeir fyndust. Lyktaði svo talið og fór hvor heim til sín.

Þetta var snemma sumars. En seint á eingjaslætti var það einhverju sinni, að Jón bóndi á Skógum var heima að hirða hey og koma í garð með konu sinni. Jón bóndi átti rauða kú, mesta dánumannsgrip. Hún hafði borið snemma um sumarið, og var það vani hennar að gánga heim úr haga um daga, til að láta mjalta sig. Þenna dag, er Jón bóndi var að hirða heyið, kom kusa heim, sem hún var vön, og þó heldur í fyrra lagi. Bóndi var að tyrfa heyið, er kusa kom, og var kona hans hjá honum. Hún vill fara að mjólka kúna, en bóndi bannar henni það. Segir, að ekki skuli mjólka kusu í dag. Geingur hún baulandi í kríng um heyið, með júgrið dragsítt og spreingfult af mjólkinni. Er húsfreya aptur og aptur að ámálga það, að hún vill mjalta kusu. En bóndi bannar henni það með öllu. Líður svo dagur að kvöldi. Og er bóndi hefir lokið heyverkum, fer hann inn í bæ, og lokar bænum sem rammlegast, og bannar öllum mönnum að líta út það kvöld, eða þá nótt. Kýrin geingur baulandi í kríng um bæinn, og er húsfreya í illu skapi af því, að mega ekki mjólka hana. Húsfreyu verður litið út um baðstofugluggann, og sèr, að kýrin stendur undir húsvegg á túninu, og er hún þá illileg mjög, svo henni býður við að sjá hana. Þar höfðu verið drepnir hundar tveir fyrir fám dögum, og lágu hræ þeirra í dæl nokkurri á túninu. Það sèr húsfreya, að hundarnir fara á fætur með gelti og ólátum að kusu, og drífu þeir hana norður frá bænum, og að lítilli stundu liðinni er alt horfið. Og þókti öllum undarlegt hvarf

hennar, nema Jóni bónda. Hann var rólegur og gjörði eingan rekstur að um hvarf hennar. Leið svo fram á vetur.

Það var einhverju sinni að Skógum um veturinn, að Jón bóndi sat í baðstofu og vann að tóskap. Honum var heitt, og lèt hann taka úr skjágluggann, svo kul kæmi í baðstofu. En að litilli stundu liðinni kemur fluga inn um gluggagatið og sveimar innan um baðstofuna, og þó mest í kríng um Jón bónda. Hann lætur sèr ekki bilt við verða; tekur hann flösku undan höfðalagi sínu, og heldur stútnum að flugunni. Flugan forðast leingi flöskuna. En þó fór svo að lyktum, að Jón kom flugunni í flöskuna, og rekur hann tappann sem skjótast í hana, og bindur fyrir ofan með kapalskæni. Síðan ber hann flöskuna fram í kistu sína, og ræðir ekki um við nokkurn mann. Líður svo fram á vor.

Það var einhverju sinni um vorið, að flökkudreingur nokkur kom að Skógum og beiddi Jón bónda viðtöku næsta ár. Þá var hart manna á milli og óhægt til vista. Jón bóndi lèzt mundi veita honum viðtöku, ef hann færi fyrst sendiför nokkra fyrir sig. Dreingur lèzt þess albúinn. Fær Jón bóndi þá dreingnum flösku, og segir honum, að hann skuli fara með hana út á túngarðinn á Hellu og skilja hana þar eptir. En áður en hann skilji við flöskuna, segir Jón dreingnum, að hann skuli taka af henni yfirbindínguna og úr henni tappann; síðan skuli hann snúa stútnum heim að bænum, en varast sem mest að gánga fyrir flösku stútinn, eða snúa honum að andliti sèr. Síðan skuli hann halda sem hraðast heim aptur. Dreingur fer að öllu, sem fyrir hann var lagt, og skilur hann flöskuna eptir á túngarðinnm á Hellu. Þetta var á áliðnum degi, og segja sumir menn, að Jón bóndi á Hellu sæti á steini, sem var á hlaðinu á Hellu, og að flugan hafi komið þar á honum, og farið ofan í hann, en upp úr honum hafi komið blóðgusa og hann hnigið síðan dauður niður af steininum.[1]

En aðrir segja svo frá, að það væri um kvöld, sem dreingurinn skildi flöskuna eptir á túngarðinum á Hellu. Jón bóndi var kominn inn, og voru komnir gestir hjá honum. Hann beiddi að taka úr skjágluggann, svo kul kæmi í baðstofuna. En einn gesturinn gáði að því, að þegar búið var að taka skjáinn úr, kom fluga í baðstofuna, og í sama bili setti hóstakjölt að Jóni bónda; fór flugan um leið ofan í hann. Jón bóndi kallar upp um leið og segir: „Þar fór hann með mig, og sækið þið mèr prest." Var prestur sóktur sem skjótast, og er þess ekki getið, hvort Jón náði prestsfundi, eða ekki.

En frá Jóni bónda Illugasyni er það að segja, að þetta sama kvöld sat hann á rúmi sínu og horfði um stund í gaupnir sèr. Segir hann þá upp úr þögninni: „Já gjörið þið það, sækið þið honum prest." Það var laungu seinna, að einhver hafði orðið til að bríglza Jóni bónda Illugasyni um það, að hann hefði orðið banamaður Jóns frá Hellu, og að hann hefði með því fyrirgjört eilífri velferð sinni. Er þá sagt, að Jón bóndi kvæði stöku þessa:

1. Árb. Esp. VII. 48.

„Jeg mun koma jafnt sem þú
og Jón frá Hellu
fyrir kóng[1] í himnahöllu.
Hvað er að [gefa sig við[2] öllu?"

**Jón grái.** (Eptir handriti Sæbjarnar Egilssonar á Klippstað í Múlasýslu.) Jón, sem kallaður var grái, var bóndi á Dalhúsum í Eyðaþínghá. Hann átti kunníngja, er hèt Þorleifur, og bjó hann í Austdal í Seyðisfirði. Þorleifur átti hest brúnann, alinn. Jón frètti þetta, og sendi honum orð, að selja sèr hestinn. Þorleifur neitaði því; en ekki fundust þeir Jón nokkurn tíma eptir. Einn vetur fór Jón að finna Þorleif, og kom seint um kvöld að Austdal, beiddist gistíngar, og tók bóndi vel við honum, og ræddu þeir margt saman. Þar kom tali þeirra, að Jón spyr hann um hest hans hinn brúna, og segist Þorleifur hafa tekið hann til eldis að vanda. Jón vildi sjá hestinn og leyfði Þorleifur það fúslega. Síðan fóru þeir út í hús, og tekur Jón að strjúka hestinum og hæla vænleik hans, og sagði: „Hann verður ekki á horleggjunnum í vor." Þorleifur játti því, og fóru þeir heim. Um morguninn er Jón árla á fótum, og býst til burtferðar. Þegar hann er farinn, geingur Þorleifur að hirða Brún; en er hann kom inn í húsið, sèr hann hestinn dauðan. Hann lèt ekkert á því bera, og var honum það hægt, því fátt fólk var á bænum. Þó sagði hann það konu sinni, og vildi hún láta birkja hestinn, en hann vildi ekki. Leið svo veturinn. Vorið kom og snjór losnaði. Þá var það eitt sinn, að brúni folinn stóð á hlaðinu í Austdal fyrir bæardyrum, og var bundinn. Þá spyr konan Þorleif, hvert hann ætlaði að ríða; en hann kvaðst mundi í hèrað. Ríður hann burt og kemur ekki að bæum, fyrr en í Dalhúsum. Jón fagnar honum vel, og segir, er hann sèr Brún: „Og fallegur er hann núna." „Já, segir Þorleifur; „eg hefi alið hann í vetur." „Það sèr á," segir Jón, „og viltu nú ekki selja mèr hann?" „Ekki hefi eg ætlað mèr það," segir Þorleifur; „en þó mun svo verða að vera, ef eg fæ kú á móti." Jón mælti: „Eg mun fá þèr kú fyrir hann, er þú kýs þèr af kúm mínum." Þessu keyptu þeir, og fór Þorleifur heim með kúna, en Jón með Brún í hesthús. En er hann ætlar í annað sinn að koma til hans þángað, og opnar húsdyrnar, varp móti honum óþef miklum. Sèr hann þá, að þar er brúni folinn úldinn og rotinn. Ekki þorði Jón að glettast við Þorleif þenna upp frá því.

Öðru sinni fór Jón grái til skreiðarkaup í Húsavík, fèkk þar tvær fiskavættir og ætlaði síðan burt, en þá brast á dimmviðri ófært. Veður þetta hèlzt í viku og teptist hann þar þann tíma. Eptir það birti upp, og bjóst Jón af stað. Hann hafði skíðagrind, og lagði þar á báðar fiskavættirnar, og ók af stað. Ófærð hafði hann í mitt læri og mjaðmir, en grindin

1. Aðrir hafa: „dóm."
2. Frá [hafa aðrir þannig: gjöra sèr skraf (mas) af.

flaut. En þegar Jón kom fram fyrir hól þann, sem er fyrir framan Húsavík, sást það til ferða hans, að hann var seztur á grindina, og rann sleðinn eins og áður. Lèt hann svo gánga inn á Háls, og það sáu menn úr Loðmundarfirði, að maður fór á sleða þar fram hjá um dagiun. Hann hèlt heim að Dalhúsum um kvöldið.

Eitt haust um lestaferðir var fjölment í Eskifjarðarkaupstað. Kom þá áfelli mikið, svo vegir teptust, og einginn maður komst heim. Sátu menn þar veðurfastir í viku, og sáu þó ekki fært að fara, er upp birti. Voru menn því ráðþrota. Þá geingur Jón fram, og spyr, hvort þeir vildu launa sèr nokkru, ef hann gjörði svo greiðan veg á heiðinni, að þeir kæmust heim. Þeir urðu glaðir við þetta, og lofuðu honum góðum gjöfum, ef svo gæti tiltekist. Lèt þá Jón týgja hesta sína. Hann hafði 6 áburðarhesta. Stè hann svo á bak og hèlt á leið. Lèt hann klyfjahrossin fara á undan, en reið á eptir, og varð honum ekki þúngfært. En er menn vissu þetta, fóru þeir á eptir í slóð þá, er Jón hafði gjört, og varð ekki til fyrirstöðu; svo var hún góð. Þessa braut þraut ekki, fyrr en á Dalhúsum, og var þá Jón kominn heim með allan faráugur sinn. Sagt er, að bændur hafi efnt loforð sín við hann.

Einu sinni kom Jón á Hvalfjöru. Beiddi hann þá eigendur og skurðarmenn að gefa sèr svo mikið af hval, sem eykurinn sinn bæri. Þeir voru fúsir á að láta lítilræði þetta af hendi rakna, skáru ritjur og rèttu að Jóni, en hann tíndi á hestinn, þángað til menn hèldu, að komnar væru 50 vættir. Þá sezt Jón upp á, og ríður þángað til hann var kominn að vallargarði sínum. Þar sökk hesturinn, en Jón sat eptir á hvalhrúgunni.

**Jón glói.** (Vestfirzk sögn.) Þeir Jón glói í Goðdal og Jón prófastur Pálsson á Stað í Steingrímsfirði[1] áttust ýmsar glettur við; þókti prófasti Jón fást mjög við forneskju og fjölkynngi og vandaði mjög um háttu hans; mælti hann það eitt sinn við hann á Kaldrananesi, að hann mundi til vítis fara, nema hann hafnaði galdri, og kvað lokka hans of fagra til að brenna þar. Jón kvað hann iðrast mundu þeirra orða, áður hann kæmist heim til sín. Prestur fór síðan heimleiðis, en er hann kom í Grænanesssand (aðrir segja á Selárodda), fèll hestur prófasts dauður niður, en hann lèt draga hestinn með reiðtýgjum út í fjörð og fór fótgángandi heim til sín.

Það er enn í munnmælum, að Jón glói (er sumir nefna Glófaxa) væri einu sinni í hesthraki og leitaði fyrir sèr við kirkjufund á Kaldrananesi, og gekk honum illa að fá hestinn lánaðan. Loksins hèt Jón prófastur nafna sínum að ljá honum hest og sendi honum hann síðar; notaði Glói hest þann sumarlángt, en um haustið skilaði hann prófasti hestinum og spurði, hvað lánið ætti að kosta: „Það á ekki að kosta annað, en það,“ sagði prófastur, „að þú hafnir galdri, en kona þín hætti að nota snakkinn (tilberann),“ og sèst af því, að bæði hafa þau hjón feingist við forneskju.

1. Þar var hann prestur 1739—1767, dó 1771.

Haldór sýslumaður Jakobsson mæltist einhverju sinni til þess við Jón glóa, að hann sýndi sèr, hvernig hann færi að vekja upp dauða menn. Jón var leingi tregur, en lèt þó um síðir tilleiðast. Gekk Jón þá út í kirkjugarðinn á Felli í Kollafirði, þar sem sýslumaður bjó, og fór að vekja upp. En sýslumaður horfði á aðfarir hans út um stofuglugga sinn, er gegnt var kirkjugarði. En er Jón hafði vakið upp hinn dauða, og hann stóð gagnvart stofugluggunum, varð sýslumanni felmt við, kallaði til Jóns, og bað hann í öllum hamíngjubænum að koma draugnum niður aptur. En það veitti Jóni svo ervitt, að mælt er hann drægi það til dauða.

**Galdra-Brandur.** (Eptir handriti Gísla Konráðssonar.) Brandur bjó í Þykkvaskógi (Stóraskógi), og var Egilsson (aðrir segja Einarsson). Hann var kallaður hinn fjölkunnugasti maður. Sagt er, að margt ílt ættust þeir við, hann og Kolbeinn Grímsson á Lóni, því þeir voru uppi á sömu tímum, en Kolbeinn var uppi á dögum Brynjólfs biskups Sveinssonar í Skálholti. Sagt er að Brandur vekti upp kerlíngu, sem Haukadals-Haldóra er kölluð; og er sagt, að hún hafi verið svo ramefld, þegar hann kom henni upp, að hann hafi orðið að brjóta annan lærlegg hennar, og eptir það átti hún jafnan að sjást hölt og seinfara. Sagt er að Brandur sendi Kolbeini marga drauga, og væri Haldóra síðust þeirra, og því sè orðtækið: „Haukadals-Haldóra höktir á eptir;“ sè það úr vísu þeirri, sem Kolbeinn hafi kveðið, sem taldi nöfn drauganna, en Kolbeinn kom þeim öllum fyrir með kveðskap.

Maður hèt Bjarni og var Sveinsson; hann bjó á Vatni í Haukadal; Stóriskógur í Náhlíð á land að vatninu að sunnan, en Vatn að norðan. Bjarni bað Brand að leggja saman við sig um veiðina í vatninu; voru þeir og góðir vinir; er og mælt, að Bjarni næmi mikið af Brandi; í vatninu hefir jafnan verið góð veiði. En bráðum fór Bjarna að gruna um brögð Brands, og þóktist sjá, að hann hefði fjölkynngi í frammi, því hversu mikil mergð silúnga sem honum virtist vera í ádráttunum, urðu þeir þó allfáir, þegar til skipta kom, og það þó honum virtust þeir koma hundruðum saman á land; var eins og veiðin hyrfi nálega öll saman á Skóginn. Bjarni vildi ekki deila um það við Brand, og tók það ráð að hafa lagnet við norðurhorn vatnsins, sem hann lagði með krókstjaka, og tóku margir það eptir honum, sem áttu veiði í vatninu; vildi hann þá ekki eptir það leggja saman við Brand að draga í ósinn, og það þó Brandur heimti það af honum. Þóktist nú Brandur vita, að hann veiddi norðan til við vatnið, og hugði hann því, að hrekkja Bjarna. Það var eitt kvöld, að Brandur fór til Kvennabrekku, og dvaldi þar alleingi við uppvakníngu. Brandur fèkk komið upp draugnum, og var hann mikill fyrir sèr. Skipaði hann draugnum, að fara í net Bjarna; skyldi hann þýngja þau svo, að Bjarni þreyttist að draga, en þegar minnst varði, skyldi hann stökkva yfir höfuð Bjarna, og

mundi þá duga. En þar er nú frá að segja, að Bjarni gekk til vatnsins, að vitja um net sín; voru þau þá ærið þúng, og eitt, svo yfir tók; fór Bjarna að gruna, að ekki mundi alt með feldi; tók hann þá til sinna ráða, og stefndi því á burt, sem þýngdi netið. Sá hann þegar flixu eina á eyri við vatnið, undan gili því, sem Rekagil heitir; hafði sendíngin ekki þorað nær Bjarna; stefndi Bjarni henni þá til sín, og fór hún það mjög nauðug. Spyr hann hana nú tíðinda, og hver hefði sent hana, og varð hún að segja honum, eins og var. Sagði Bjarni þá, að draugurinn skyldi aldrei hafa frið, hvorki í jörð nè á, fyrr en hann hefði drepið Brand eða einhvern, sem honum væri kærastur. Draugurinn sagði það ekki vera sitt meðfæri, að sækja að Brandi í bæinn. Bjarni heimti þá, að hann færi á glugga, svo með öllu yrði myrkt í baðstofunni. En þess er að geta, að þenna dag var Brandur heima í Skógi, og var honum allórótt; þókti honum, sem sèr mundi ekki hafa geingið alt að öskum í viðureigninni við Bjarna. Fyrra hluta dags var hann inni, og bauð hann öllum heimamönnum sínum að vera inni, en fara alls ekkert út; en þegar leið á daginn, dimdi svo á gluggana, að ekki sáust handaskil í baðstofunni; gekk þá Brandur loksins út, og varð hann þegar að taka á móti draugnum, og komst Brandur ekki í bæinn aptur, heldur hörfaði í hesthús eitt og varðist þaðan. Brandur hafði pilt einn til fósturs, sem Bergur hèt, og unni hann dreingnum mjög; hann var úti þenna dag, og lèk sèr í Skógakots mó. Draugurinn særði Brand mjög, svo hann hörfaði undan. Sókti þá draugurinn þar að, sem dreingurinn var, og drap hann, og fannst hann blár og blóðugur eptir hann. Þókti Brandi þetta hið mesta mein; tók hann þó Berg og flutti hann í hesthúsið, magnaði hann og skipaði honum að fara og drepa Bjarna, ef kostur væri á, eða að öðrum kosti, að drepa allar kýr hans. Fór Bergur þá á stað. Nú er að segja frá Bjarna, að honum gerðist ómótt, og svefnhöfgi kom yfir hann, eins og að honum sækti; fór hann þá út, og var honum enn órótt; síðan fer hann ofan að vatninu, til að vita, hvort hann sæi þar eingin missmíði. En þegar hann kom ofan að vatninu, leit hann heim til bæarins; fjósið var á bak við bæinn; sá Bjarni þá, að strákur einn skauzt þar inn. Bjarni hljóp þá heim, og varð hann þess var, að þetta var Bergur, og var hann búinn að drepa eina af kúm hans, en meira gat hann ekki aðgert, áður Bjarni kæmi að. Sendi hann Berg nú aptur Brandi. Fór hann þá að Skógi og sókti að Brandi, og það svo mjög, að aldrei mátti hann fara að heiman, því þá drap hann bæði heimamenn hans og fènað. Fylgdi draugur þessi Brandi síðan. Sagt er að Brandur flytti lík Bergs í Haukadalsvatn, og færu þeir báðir í vatnið, Brandur og Bjarni, þegar þeir voru dauðir. Áttu þeir opt að vera að kasta Bergi milli sín, og brast þá ísinn af vatninu, og það þó hörkufrost væri. Það er sögn, að Brandur byggi áður í Laxárdal, og hefði þá undir ábýlisjörð sína land undan Stóraskógi, en síðan, þegar hann var kominn að Stóraskógi, hafði hann sama landið undir Skóg aptur.

Einhverju sinni var það, að smali Brands sá inn um rifu á húsi einu, sem Brandur var í; sá hann þá Brand taka upp úr kistu einni lèreptsstránga stóran, rekja hann í sundur og taka úr honum mannshöfuð með miklu hári; setti hann það á knè sèr; kembdi því vandlega og las síðan yfir því þulur sínar, sem sveininn ekki gat numið; varð það þá að heilum manni. Skipaði Brandur honum þá að fást við gest, sem færi að garði. Ekki vissi dreingur meir, en það þóktist hann vita, að sendíng Brands mundi hafa sigrað, því hún kom inn aptur, og veitti Brandur henni sama umbúnað. Ærið ill þókti aðsókn Brands; er það sagt, að vinnukona ein fór út í fjós á bæ einum þar vestra; sá hún þá í auðum bási höfuðkúpu af manni með kjálkunum og tugði sem ákafast. Stúlkan varð mjög hrædd, og hljóp inn í baðstofu. Bóndi var háttaður; heyrðist þá barið eitt högg mikið. Bóndi bað þá vinnukonuna að fara til dyra, til að vita, hver það væri, en hún lèzt ekki þora það; heyrðist þá enn barið eitt högg, ógurlega mikið, og skruðníngur um leið; fór þá bóndi út, og voru þá fjalir allar hrundar, sem festar höfðu verið í bæardyrunum til lopts; en ekki varð annað að meini í það sinn, en snemma morguninn eptir kom Brandur. Brandur var auðugur, og hèlt marga vinnumenn. Einu sinni voru þeir og smali Brands, sem var unglíngur, að slá túnið; kemur þá Brandur til þeirra, og bauð þeim út í glímu, en einginn þeirra vildi takast á við hann. Loksins neyddi hann smalann til að glíma við sig. Þegar þeir höfðu glímt um hríð, fèll Brandur, og var þegar örendur, og urðu afdrif hans þannig; var lík hans síðan borið heim. Þá var sá siður, að sauma líkblæur utan að líkum, og skyldi jafnan bíta úr nálinni, en ekki slíta. Fór nú vinnukona ein að sauma utan um líkið, en þegar hún ætlaði að bíta úr nálinni fyrsta nálþráðinn, datt hún niður dauð. Tók þá önnur vinnukona við, þar sem hin hætti, og fór það á sömu leið. Vildi þá eingin ráðast til að sauma það, sem eptir var, nema dóttir Brands, gjafvaxta mey, sem hèt Guðrún; lauk hún við að sauma utan um líkið, og sagði síðan: „Hvað ætla mèr verði nú að sök.“ Þá sagði líkið: „Þú ert ekki búin að bíta úr nálinni ennþá.“ Þá sagði hún: „Þá skal slíta, en ekki bíta, bölvaður,“ og stakk þegar nálinni í iljar honum. Varð henni ekki meint við apturgaungu Brands, og þókti hún jafnan rösk kona.

Í vörðu einni, skamt frá Skógi, fundust margar mannakúpur, og sögðu menn, að Brandur hefði ætlað þær til fjölkynngis.

**Sæmundur prestur Hólm.**[1] (Tekið eptir sögn manna í Borgarfirði.) Sæmundur Hólm var í mörgum hlutum ólíkur öðrum mönnum og undarlegur í háttum. Hann átti að vera kominn af álfum, og margar sögur eru af honum undarlegar. Galdramaður átti hann og að hafa verið, og er þessi ein galgrasaga af honum.

1. Prestur að Helgafelli 1789—1819, dó 5. april 1821.

Sæmundur lærði í Hólaskóla. þar átti hann marga öfundarmenn og vildu margir af skólabræðrum hans, að hann yrði fyrir einhverri hneysu. Einu sinni bar svo við, að klukkan mikla, Líkabaung, fèll niður, og sáu menn ekki ráð til að koma henni upp aptur á rambaldaun. Vildi þá skólameistarinn gjöra mannsöfnuð til að festa upp klukkuna. Sæmundur heyrði það, og sagði, að það gæti einn maður gjört. það heyrðu öfundarmenn hans og vildu nú láta hann verða sèr til minkunar. Hertu þeir nú á honum, svo hann gekkst undir að koma upp klukkunni aleinn. Lofuðu þeir honum kaupi fyrir, ef hann yrði búinn að koma klukkunni upp á ákveðnum degi, en ella skyldi hann skömm af hafa. Nú leið svo fram að hinum ákveðna degi, að ekki átti Sæmundur við klukkuna, og gjörðu fèlagar hans mjög gys að þessu. Hann lèt, sem heyrði hann það ekki. Daginn fyrir hinn ákveðna dag kallaði skólameistarinn Sæmund fyrir sig, og spurði, hvort hann vissi nokkurt ráð til að efna loforð sitt. Sæmundur lèt lítið yfir því og fór burt. — Um kvöldið var myrkt mjög. Um nóttina fer Sæmundur út, en um morguninn er hann í rúmi sínu. Var þá klukkann upp komin um morguninn og vissi einginn hvernig Sæmundur hefði orkað slíku. En hann sagði eingum neitt um það annað, en að hann hefði um nóttina farið út í fjós og látið moð í meis.

**Jóhannes á Kirkjubóli.** (Eptir handriti sèra Benedikts þórðarsonar á Brjánslæk.) Jóhannes hèt maður og var Ólafsson; hann bjó á Kirkjubóli í Arnarfirði, og varð gamall. og lifði fram yfir miðja 19. öld. Hann var haldinn galdramaður, og þókti þar mörg rann á verða, og eiga Arnfirðíngar ýmsar sögur um það. Jóhannes átti mörg börn, sem öll dóu úng og vofeiflega, var það kent galdrakukli Jóhannesar. Í grend við Jóhannes bjó eitt sinn Guðrún skálda, systir Jóns prests Vestmanns Jónssonar, Úlfssonar. Guðrún var haldin ákvæðaskáld, og heit í anda. Hún var fátæk; átti hún eina kú undir baðstofulopti sínu. Einu sinni sagði hún svo frá, að hún hefði sèð strákdraug koma inn í baðstofuna, og ætlaði hún Jóhannes mundi hafa sent hann. Sá hún nú, að draugurinn ætlaði undir loptið til kýrinnar, „og dró eg mig þá ofan,“ mælti Guðrún, „en hann fór burt og kom ekki aptur.“ Einu sinni veiktist kýr á bæ í grend við Jóhannes. Hèldu menn, að það mundi vera af óhreinum anda. Var nú leitað til Jóhannesar, og hann beðinn, að reka hinn ílla anda út af kúnni. Jóhannes mælti, að farið skyldi í fjósið, og kallað hátt þessum orðum: „Jóhannes á Kirkjubóli biður að heilsa kúnni.“ þetta var gjört, eins og hann mælti fyrir, og batnaði kúnni. Á Álptamýri hjá Markúsi presti þórðarsyni varð það eitt sumar, að peníngur allur, kýr og ær, skemdust mjög af undirflogum á dal þeim, sem Krákudalur heitir. Ætluðu menn, að meinvættur mundi valda. Var þá leitað ráða til Jóhannesar; en hann mælti svo fyrir, að smali skyldi, þegar hann ræki fèð á dalinn, kalla hástöfum þessum orðum: „Jóhannes

Ólafsson á Kirkjubóli biður að heilsa dalbúanum.“ Var nú svo gjört, og gjörðist að fjárskemdunum, en mælt er, að Jóhannes hafi á eptir svarað til, að slíkt skyldi hann aldrei optar gera.

Tjaldanes heitir jörð í Arnarfirði; hún er kirkjujörð frá Álptamýri. Jörð þessa falaði Jóhannes til byggíngar af séra Markúsi, en fékk ekki. En þegar Jóhannes frétti, að prestur leið af aðsókn dysbúans, mælti hann: „Jeg skyldi hafa stuggað við dreingnum haus, ef hann hefði bygt mèr Tjaldanesið.“

**Arnþór á Sandi.** (Eptir handriti frá Jóni Borgfirðing.)[1] Á Sandi bjó leingi sá maður, sem Arnþór hèt. Hann þókti á sinni tíð vera einhver hinn öruggasti kunnáttu- eða galdramaður, og var hans opt leitað úr nálægum sveitum, bæði til að setja niður drauga og fleira. Einu sinni vildi það til á Hólum í Laxárdal, að þar hvarf barn fárra vetra, og brátt var sent ofan til Arnþórs að spyrja, hvar barnið væri niður komið. Arnþór fór síðan upp að Hólum, og bað þá konan, móðir barnsins, hann að ná aptur barninu. Hann var þar síðan um nóttina. Þar eru margar fagrar klappir, eða klettar, rennslèttar framan, og tignarlegar á að líta. Um morguninn spyr móðirin eptir barninu; sagðist Arnþór að sönnu vita, hvar það væri niður komið, en að það væri ekki til neins, að ná því aptur, því það væri svo heillað, að það yrði aldrei mönnum sinnandi, en hún bað hann, hvað sem gilti, að ná barninu. Hann var þar svo aðra nótt. En um morguninn segir hann konunni, að barninu geti hann náð, en lifandi fáist það ekki; en hún kvaðst heldur vilja fá líkið, en það væri hjá álfum. Svo er hann þar þriðju nóttina, og þá fer hann upp að klöppunum og heimtaði barnið fast; brast þá sundur klöppin, og kona gekk þar út, og bar barnið á handlegg sèr; en þegar hann heimtaði barnið á ný, sló hún því við bergið, svo heilinn hraut út, og kastaði svo líkinu til Arnþórs; hann færði það móðurinni, sem tók við því fegins hendi, og launaði Arnþóri þángaðkomuna.

Eitt kvöld var það, að Arnþór bjó sig eins og hann ætlaði burtu, samt fór hann ekki, heldur sat á rúmi sínu og lagði vetlínga sína hjá sèr. En þegar leið leingra fram á kvöldvökuna, komu 12 menn inn á baðstofugólfið, bláklæddir. Þá tók Arnþór vetlínga sína undir eins, stóð upp og gekk með þeim. Þeir voru úr Litlufjörubjargi; (bjarg þetta er vestan við Fljótsósinn), og verið sendir til að sækja hann til að sitja yfir huldukonu, sem lá á gólfi, og gat ekki fætt. Arnþóri fórust ljósmóðurverkin vel úr hendi, og var síðan í vinskap við þá, er bjuggu þessu bjargi; en það var sögn manna að þar væri heilt huldufólks kóngsríki, og hefði það nokkurn skipastól á vík einni þar nálægt. Um þetta leyti hvarf barn þar úr Köldukinn. Þeir, sem barnið mistu, fóru undir eins til Arnþórs,

1. Sögumaður ætla eg muni vera Björn Jóhannesson á Finnstöðum í Kinn.

og Vigfúsar prests, sem þá var á Þóroddsstöðum í Kinn, og spurðu þá, hvar barnið væri niður komið, og báðu þá, að ná því, en þeir sögðu, að ekki væri til neins að ná því, því það væri orðið svo umbreytt, en glettu gætu þeir gert þeim, sem hefðu tekið það, og að stuttum tíma liðnum sprakk fram og hrundi partur einn af fyrrnefndu bjargi, sem var heimili þess, er barnið tók. Fyrrnefndur Vigfús prestur var galdramaður og kunníngi Arnþórs, og einhverju sinni hjálpuðust þeir að, að setja niður draug í fen eður pitt í Þórstaðarmýri, og varð hans aldrei vart framar. Einu sinni voru Arnþóri sendir 12—16 sveinar af Vesturlandi, og áttu þeir að taka bæiun Sand upp með Arnþóri, og öllu, er honum fylgdi, og flytja vestur, en þeir komust ekki nema að Fljótiuu, geingu þar um gólf og mæltu fyrir munni sèr:

„Arnþór á Sandi,
eg vil finna þig;
dregst að höndum vandi,
komdu og findu mig.“

En Arnþór kom ekki að heldur, en þegar honum leiddist úr þeim nauðið, fèkk hann rauðan sokkbol hjá konu sinni, fór með hann út á haug, og tíndi hann fullan með saur; kom hann honum síðan til sendimannanna og skipaði þeim að fara til baka, og færa sokkbolinn þeim, sem sendi þá. Með það sneru þeir aptur. En á leiðinni vestur, á heiði einni, mætti þeim maður, sem sá til þeirra, að þeir voru sífeldlega að fljúgast á um sokkbolinn, því hver um sig vildi hljóta þá sæmd, að geta afhent hann húsbónda sínum, þegar þeir kæmu heim. Arnþór átti vinkonu eina; var það huldukona, sem átti heima í steini lángt á fjalli vestur frá bænum Björgum. Hana heimsókti hann opt, því hún var mjög fróð, og gat stundum sagt honum það, sem hann ekki vissi, enda þó fróður væri. Arnþór var henni næsta kær. Eitt haust var það, að eldur sást í hrauninu, suður frá bænum á Sandi, þar sem Stiggeyrar heita. Hvert kvöld, þegar dimma tók, var eins og bál væri þar kynt, en einginn vissi, hver bálinu mundi valda. En þegar þetta hafði sèzt nokkur kvöld, fór Arnþór að hitta vinkonu sína, og spurði hann hana, hvernig á eldi þessum stæði, en hún kvað hann það eingu skipta, og bað hann, að forvitnast ekkert um eld þenna, hversu opt sem hann sæi hann. En nokkru seinna eitt kvöld, þegar eldurinn kom upp, þoldi Arnþór ekki leingur við fyrir forvitni, og gekk á stað suður með hrauni, og þegar hann nálægðist eldinn, sá hann, að karl sat við eldinn, ekki mjög lítill með stóran járnstaf með krók á enda í hendi, sem hann skaraði að eldinum með. En þegar hann kom enn nær, stóð karlinn á fætur skjótlega, og reiddi stafinn að Arnþóri, en í því bili kom vinkona hans að, og hjálpuðust þau síðan að, að fyrirkoma karlinum, svo hans varð aldrei síðan vart; en fult áttu þau í fángi með hann, því hann var hraustur vel, og illur viðureignar. Þegar Arnþór lá banaleguna, sagði hann svo fyrir, að þegar hann væri dauður, skyldi fara með lík hans eins og vanalegt væri, og kistuleggja, en

hreifa síðan kistuna ekki úr stað, heldur segja presti til, og mundi hann þá koma, og verða líkinu samferða til legstaðarins, og lagði Arnþór ríkt á, að þessari fyrirsögn sinni væri vel fylgt, að öðrum kosti kvað hann ekki mundi þurfa, að hafa fyrir, að jarða sig. En það bar til þess, að einhver vættur, líklega vinkona hans, hafði beðið hann, að eptirláta sèr líkamann, eða leyfa sèr, að ná honum, þegar hann væri dauður. Arnþór vildi ekki leyfa þetta, en hún hafði heitið, að ná honum samt, og þess vegna hafði hann þessa fyrirsögn um meðferð á líkinu; líka hafði hann sagt presti frá öllu saman. Nú, þegar Arnþór var dauður, var farið með líkið að öllu eins og hann hafði sagt, en þegar fara átti á stað, að sækja prestinn, gerði þvílíkt manndráps veður, að ekki var kviku úti líft, og gekk þetta í þrjú skipti, þegar sækja átti prestinn, og var því alt af snúið aptur. Loksins var lagt á stað með líkið, og var veður gott, en þegar líkfylgdin var komin suður fyrir völlinn, þar sem heitir í Krubb, mætti presturinn þeim, og gekk hann þá undir eins að kistunni, og lyfti upp einu horninu, og spurði þá, sem með fóru, því þeir væru að flytja kistuna tóma. Var kistan þá slegin upp, og var hún tóm. Prestur veitti þeim, sem kistuna höfðu tekið, þúngar átölur fyrir það, að þeir biðu hans ekki, og hreyfðu kistunni nokkuð, fyrr en hann kom. Í vallarhorni á Sandi heitir drauga-tópt, því þar hafði Arnþór einhverju sinni sett niður draug.

**Heyvinnan.** (Eptir handriti Þorvarðar Ólafssonar.) Einu sinni var bóndi á bæ; hann var auðugur að fè og starfsmaður mikill. Hann átti dóttur eina barna; hún var gjafvaxta orðin, er þessi saga gjörðist. Efnileg var hún og vel að sèr, og starfskona svo mikil, að menn undruðust, hvað miklu hún gat af kastað. Það vissu menn, að hún hafði eitt sinn heitið því, að eiga eingan mann, nema þann, sem hún hefði ekki við að raka eptir í túni. Einu sinni kemur förukarl til bónda í byrjun túnasláttar og falar kaupavinnu. Bónda lízt ekki vel á manninn, en lætur þó til leiðast að taka hann einn eða tvo daga fyrst, og reyna hann. Fara menn nú að hátta um kvöldið, því liðið var á dag, þegar maðurinn kom, og er förumaðurinn látinn sofa hjá lúkngati. Sofa menn nú af um nóttina og um morgguninn fara allir á fætur til sláttar. Nú líður fram að dagmálum, og vaknar ekki förumaður. Búrdyr voru undir loptinu nálægt rúmi því, sem hann svaf í. Þegar búið er að mjalta, skellir húsfreya búrhurðinni svo fast, að förumaður rumskar. Fer hann fram af þessu að klæða sig, en er þó mjög leingi að því, og um hádegi kemur hann út og signir sig, dregur orf með læri allóliðlegt, og spyr bónda, hvar hann eigi að bera niður. Honum er vísað í völl í túninu, sem Vítisvöllur var kallaður; er nú ekki lanst við, að sláttumenn hendi spaug að kaupamanni. Fer hann nú að slá. Menn taka eptir því, að fljótt stækkar bletturinn, svo alla undrar, því jörð þókti ætíð óþjál í Vítisvelli. Um miðmundabil fer bóndadóttir að raka hjá kaupa-

manni, og geingur seint á ljána. Hún fer nú úr utanyfirfötum og keppist við, sem hún orkar, en hefir ekki við að heldur. Um nónbil hleypur hún heim, sækir fulla grautarfötu og ber til kaupamanns, og kastar átta spónum í slægjnna hjá fötunni. Þá mælti kaupmaður: „Á einn að sleikja?“ Bóndadóttir svarar: „Svei þèr nú; þetta varstu meiri mèr.“ Var svo sagt, að kaupamaður hefði 8 púka sèr til hjálpar við sláttinn, en bóndadóttir 7, og að hún hafi aldrei sèð þann áttunda. Er svo mælt, að síðan færi kaupamaður úr lörfum sínum og hafi hann innan undir verið skrautbúinn maður og hinn ásjálegasti. Bar hann bónorð sitt upp við bóndadóttur og fèkk hennar, og bjuggu þau síðan á bæ þessum eptir föður hennar og endar svo saga þessi.

**Skipreikinn.** (Eptir handriti sèra Skúla Gíslasonar á Stóranúpi.) Einu sinni sást skip frá landi á Vestfjörðum; var það harla stórt, og hagaði seglum undarlega. Komust menn að raun um, að þetta var ræníngjaskip; varð fólk á næsta bæ hrætt mjög, og ráðgjörði að flýa. Gamall maður var þar á bænum, og sagði hann, að gömlum fauskinum væri ekki vant, hann skyldi vera úti og vaka, til að taka við gestum, en alt fólk annað fara inn og hátta, en líf þess lægi við, sem út kæmi. Fólkið gegndi þessu, því það vissi, að karl var fjölkunnugur, enda var komið kvöld og farið að skyggja; þetta var að áliðnu sumri. Þegar er fólkið var háttað, skall á ofsa-veður, svo það brakaði í hverju trè, og var eins og alt ætlaði ofan að gánga. Um morguninn valt sjórinn kolmórauður, en ofveðrinu var lètt af. Þegar að var hugað, sást, að karl mundi hafa sezt upp á hjall, er var skamt frá flæðarmáli; hafði hann tokið ofan af honum, og lamizt til bana, en skipið hafði molazt í spón og allir skipverjar farizt; en Vestfirðíngar bjuggu leingi að rekanum.

---

# 4. FLOKKUR.

## NÁTTÚRUSÖGUR.

„Náið er nef augum,“ þar sem galdrarnir eiga hlut að máli, sem um hefir verið rætt í fyrirfaranda flokki, og sögur þær, sem gánga af hinum huldu öflum náttúrunnar. Töfrabrögðin, sem enginn kann lag á, nema kunnáttumaðurinn einn, eru að miklu leyti undir því komin, að hann beri skynhragð á náttúruöflin, sem öðrum mönnum eru ókunnug, og þó verður alls ekki með vissu ákveðið, hvað almenníngi sè kunnugt, og hvað hinum einstöku. Hins vegar svipar náttúrusögunum mjög til annara atriða í munnmælum, þar sem mörg dýr, sem kynjasögur fara af, gánga næst óvættum, með því sögur fara ekki einúngis af sèrstökum eiginlegleikum þeirra, heldur og af uppruna einstakra skepna og hluta í náttúrunni, og snertir þannig sambandið við yfirnáttúrlegar verur. Eins eiga náttúrusögur náskylt við kreddur; því nálega kemur einhver kredda fyrir í hverri þeirra. Af þessum ástæðum þykir þó rèttara, að taka þær sögur hèr fram sèr í lagi, sem lúta að náttúrunni og náttúru viðhnrðum, en að sleingja þeim saman við hin áviknu atriði, enn þótt hèr sè ærið vandhæfi á, hvað taka eigi, og hverju eigi að vísa annarstaðar til sætis.

### 1. GREIN.

#### DÝRASÖGUR.

**a)** Að nokkru leyti á hèr heima sú hjátrú, að ýmislegt útvortis á nýfæddu barni tákni bæði andlega og líkamlega hæfilegleika, sem það muni hafa á síðan.[1] Þess hefir áður verið getið, að það barn, sem borið væri í sigurkufli, yrði gæfumaður,[2] og eins þess, að draugar áræddi ekki framan að sambrýndum mönnum, nè þeim, sem hefðu loðinn kross á brjóstinu.[3] Það er og trú manna, að þau börn, sem fæðast með (tveimur) tönnum, verði skáld; þær tennur heita „skáldagemlur.“ Einnig segja menn, að þeir verði góð skáld, sem sè svo túngulángir, að þeir nái með henni upp í nefið á sèr (miðsnesið). Um hendur manna er það trú, að saman fari

1. Einginn skyldi furða sig á því, að maðurinn að líkamlegum eiginlegleikum til er talinn með dýrunum, þar sem hann er álitinn efsti liðurinn í sköpunarfestinni.

2. Sjá II, 3. grein, 355. bls.

3. Sjá III, 1. grein, 405. bls.

„stutt hönd og stelvís maður," og „laung hönd og lyginn;" en þó er sá kallaður „fíngralángur," sem þjófgefinn er. Fattar fíngur eru nefndar „smíðafíngur" á sveinbörnum, en „saumafíngur" á meybörnum.[1]

**b)** Fleiri sögur og merkilegri eru um ferfætlíngana, en manninn, og skal hèr fyrst getið bjarnarins. Um hann er það almenn sögn, að hann sè svo heitrar náttúru, að hann kenni aldrei kulda, og er sá eiginlagleiki hans kallaður bjarnylur. Þenna sama eiginlegleika er sagt, að sumir menn hafi, en það eru þeir einir, sem bornir eru á bjarndýrsfeldi, og er það talið víst, að þeim verði aldrei kalt. Í fornsögum er og getið bjarnyls.[2]

**Björn á börn.** (Eptir handriti sèra Jóns Norðmanns.) Það er sagt um björninn, að hann sè maður í álögum, og eigi birnan börn, en þau verði að húnum, ef hún nær að slá yfir þau hramminum. Frá því hefir verið sagt, að í Grenivík á Grímsey hafi maður einu sinni komið út, og sèð birnu, sem bar sig hálf aumlega. Hann sókti henni inn kúamjólk, og gaf henni. Seinna um kvöldið, þegar hann fór að taka til heyið, lá hún í hlöðunni og var að gjóta. Hann náði þá einum únga hennar, og var það almennilegt meybarn. Fór maðurinn svo inn með barnið, og ól það upp nokkra stund; óx hún og dafnaði vel, en sókti mjög út þegar hún var komin á legg, og til sjávar. Loksins tókst henni að komast út á ís á víkinni; kom þá birnan að, og brá yfir hana hramminum; við það brá henni svo, að hún varð að bjarndýrshún.

**Grímseyíngurinn og bjarndýrið.** (Eptir Ungsmannsgamni. I, Reykjavík, 1852, 24.—26. bls.) Einu sinni vildi svo til um vetur, að eldur dó í Grímsey, svo ekki var kveykt upp á nokkrum bæ. Þá voru logn og frostþörkur svo miklar, að Grímseyarsund var lagt með ísi og kallað manngeingt. Grímseyíngar rèðu það þá af, að senda menn til meginlands, til að sækja eld, og völdu til þess þrjá hina vöskustu menn í eynni. Hófu þeir ferðina snemma morguns í heiðríku veðri, og fylgði þeim fjöldi eyarskeggja út á ísinn, báðu þeim lukkulegrar ferðar og fljótrar apturkomu. Það segir nú ekki af ferðum sendimanna, fyrr en þeir á miðju sundi koma að vök einni, sem ekki sá fyrir endann á, og var svo breið, að tveir gátu með naumindum stokkið yfir hana, en einn treysti sèr ekki til þess. Þeir rèðu

1. Þetta eru munnmæli; en það yrði heljarlángur kapítuli, ef hèr ætti að tiltína öll þau einkenni, sem talin eru á líkama mannsins, eptir temperamentunum, í náttúrufræðis og lækningabókunum eldri, sem auðsjáanlega eru útlagðar á fyrri öldum. Þessleiðis er t. d. margt í Hamrendabók, sem eg kalla svo, af því eg heti feingið hana frá Guðmundi bónda Jónssyni á Hamrendum í Stafholtstúngum; hún er mestmegnis „skrifuð að nýu" um miðja 18. öld.

2. Hávarðar saga Ísfirðings. Hólum 1756, 39. bls.

honum þá að hverfa aptur til eyarinnar, og hèldu áfram ferð sinni; en hann stóð eptir á vakarbarminum og horfði á eptir þeim. Honum var nauðugt að hverfa aptur við svo búið, og ræður því af að gánga með vökinni, ef hún kynni að vera mjórri í einum stað en öðrum. þegar á leið daginn, fór að þykkna, og gekk upp sunnanátt með stormi og regni. Ísinn tók að leysa sundur, og maðurinn varð loks staddur á jaka einum, sem rak til hafs. Um kvöldið ber jakann að stórri spaung, og geingur maðurinn upp á hana. Sèr hann þá bjarndýr skamt frá sèr, sem liggur þar á úngum. Hann var orðinn kaldur og svángur, og kveið nú fyrir lífinu. þegar bjarndýrið sèr manninn, horfir það á hann um hríð; síðan stendur það upp og geingur til hans og alt í kríngum hann, og gefur honum merki, að hann skuli leggjast niður í bælið hjá úngunum. Hann gerir það með hálfum huga. Síðan leggst dýrið niður hjá honum, og breiðir sig út yfir hann, kemur honum á spenana og lætur hann sjúga sig með úngunum. Nú líðar nóttin. Daginn eptir stendur dýrið upp, geingur spölkorn frá bælinu og bendir manninum að koma. þegar hann kemur út á ísinn, leggst dýrið niður fyrir fætur hans, og bendir honum upp á bakið á sèr. þegar hann er kominn því á bak, stendur dýrið upp, hristir sig og skekur, uns maðurinn dettur niður. það gjörði þá ekki frekari tilraun að sinni; en manninn furðaði mjög á þessum leik. Nú liðu 3 dagar, og lá maðurinn á næturnar í bæli dýrsins, og saug það, en á hverjum morgni lèt það hann fara sèr á bak, og hristi sig, uns hann gat ekki leingur haldið sèr. Fjórða morguninn gat maðurinn haldið sèr á baki dýrsins, hvernig sem það hristi sig. þá leggur það á áliðnum degi til sunds með manninn á bakinu, og syndir með hann til eyarinnar. þegar maðurinn kemur í land, geingur hann upp á eyna, og bendir bjarndýrinu að koma á eptir sèr. Hann geingur heim til sín á undan því, og lætur þegar mjólka beztu kúna í fjósinu, og gefur dýrinu að drekka nýmjólk, eins og það vildi; síðan geingur hann á undan því til fjárhúss síns, lætur taka tvo vænstu sauðina og drepa, bindur þá saman á hornunum, og lætur þá um þvert bak á dýrinu. þá snýr það til sjávar og syndir út til únganna. En þá var gleði mikil í Grímsey, því meðan eyarmenn horfðu undrandi á eptir bjarndýrinu, sáu þeir skip koma úr landi, er sigldi hraðbyri til eyarinnar; væntu þeir þar hinna sendimannanna með eldinn.

**Bjarndýr glímir við tunnu.** (Eptir sama kveri, 59.—61. bls.) Undir bröttum hálsi á Vestfjörðum stendur bær einn; þar bjó einu sinni ríkur bóndi, sem átti stóran hjall uppi á hálsbrúninni, er hann geymdi í bæði fiskæti og ýmsa aðra muni. Frá bænum lá beinn vegur upp á hálsinn rètt fram hjá hjallinum. Vegurinn var djúpur og leit út eins og traðir, því stórgrýti var raðað beggja megin, en slèttur var hann í botninn. Bóndi verður þess var, að á kveldin, þegar dimt er orðið, kemur bjarndýr og

geingur rakleiðis upp veginn að hjallinum; sókti það í fisk bónda, og hafði þegar gjört honum allmikið tjón. Hann hugsar þá upp ráð, til að venja bángsa af fiskátinu. Hann lætur búa til afarstóra tunnu, sem fylti rètt upp í veginn, þegar henni var velt niður hálsinn, fyllir hana þar með grjóti og býr vel um botninn. Nú lætur hann tunnuna liggja á hálsbrúninni, þarsem tröðin byrjaði, og bíður sjálfur, uns bángsi kemur. Hann kemur í sama mund og vant er, og geingur grunlaus upp hálsinn. En þegar hann er rètt að kalla kominn upp, veltir bóndi tunnunni á móti honum. Bángsi kemst þá ekki leingra. Tunnan sókti með ákefð niður brekkuna, en bángsi streyttist við af öllum kröptum að stöðva á henni ferðina. Hann mátti ekki snúa sèr við, því þá var tunnan óðar í hælunum á honum, ekki gat hann heldur stokkið yfir hana, því hann varð að neyta allrar orku til að spyrna á móti henni, svo hún ekki skyldi velta ofan á hann. Með þessum aðburðum var hann að glíma við tunnuna alla nóttina; smámjakaði hann sèr aptur á bak undan henni, uns bæði voru komin niður á jafn slèttu. Var þá bángsi kominn að niðurfalli af þreytu. Hann snautaði þá í burtu og leit hornauga til tunnunnar, en bóndi hló á eptir honum, og hafði upp frá því hjall sinn í friði fyrir honum.

**Dýrhóll.** (Eptir handriti sèra Jóns Norðmanns.) Á Lágheiði í Ólafsfirði er hæð ein, sem Dýrhóll heitir. Hann dregur nafn af því, að einu sinni lá þar bjarndýr. Meðan dýrið hèlt sig þar, gekk maður einn yfir heiði með atgeirsstaf í hendi. Þegar dýrið varð var við manninn, stóð það upp og hristi sig, en lagðist aptur, er það sá atgeirsstafinn. Nú gekk maðurinn inn í Heiðarhöll (-höll?), og mætti þar manni einum úr Fljótum, sem ætlaði út í Ólafsfjörð. Maðurinn, sem utan að kom, varaði hinn við bjarndýrinu, og lèði honum geirsstaf sinn. Síðan gekk maðurinn út heiði, og er hann kom út að Dýrhól, stóð bjarndýrið upp. Gaf það sig ekkert að honum, en tók á rás inn heiði, og linti ekki fyrr, en það náði manninum, sem inn yfir gekk, skamt fyrir framan Þrasastaði og drap hann þar.

**Börn borin á bjarndýrsfeldi.** (Sèra Skúli Gíslason eptir Páli Ólafssyni.) Einu sinni snemma vetrar lagði hafís mikinn að Lánganesi, og komu mörg bjarndýr á land með honum. Einn bær var þar afskektur á nesinu, er lá þó mjög vel við sjávarútveg og trjáreka. Þaðan kom einginn maður, hvorki til kirkju nè annara bæa, frá því með jólaföstu og fram að miðjum vetri, og hugðu menn að bjarndýrin hefði orðið heimilisfólkinu að skaða. Únglíngsmaður var þar í sveitinni 18 ára gamall, smiður góður, röskur og hugaður. Hann smíðaði sèr lagvopn mikið, og fór svo kvöld eitt í túnglsljósi til að vitja bæarins. Var það hèr um bil á miðjum þorra. Þegar hann kom að bænum, var þar alt brotið og bælt; hann fann blóðuga fataræfla af fólkinu; líka var fjósið brotið upp, og kýrnar drepnar og uppètnar. Seinast hvarflaði hann upp í dyralopt; var það óbrotið og stígi, sem upp

að því lá. Hann litaðist um og horfði út um loptsgluggann. Hann sá þá, hvar bjarndýrahópur kom neðan frá sjó; hafði hann tölu á þeim og voru þau 18. Eitt fór á undan, og var það lángstærst, og rauðskinnótt. Það varð fljótt vart mannsins af lyktinni, og hljóp með mikilli grimd upp í stígann, og ætlaði að slá til mannsins með hramminum; en hann lagði það undir bóginn í hjartastað, og var það bani dýrsins. Síðan drap hann 12 önnur dýr þar í stíganum. Sneru hin þá undan og litu ekki við manninum, þó hann egndi þau upp á sig og veitti þeim eptirför. Síðan fèkk hann menn til að gjöra dýrin til. Mælt er, að hann hafi reist bú á jörðunni um vorið, og keypt hana fyrir það, sem hann hafði upp úr dýrunum. Varð hann nýtur bóndi; sagt er, að hann hafi haldið einum feldinum eptir, og öll börn hans fæðzt á honum, og höfðu því öll bjarnyl.

**Vandhæfi á bjarnardrapi.** (Sèra Skúli Gislason eptir Einari durg, karli á Skaga.) Þegar búið er að særa bjarndýr til ólífis og það er lagzt fyrir til að deyja, er það níðíngsverk, að veita því áverka eptir það. Þessu til sönnunar er það sagt, að fyrir næstu aldamót viltust Skagamenn að einu bjarndýri, og drápu það. Þegar það fèkk banasárið, lagðist það á skafl, og sleikti sár sín. En þá veitti einn því nýan áverka, og varð sá hinn sami ólánsmaður upp frá því. Það er og haft í munnmælum, að ef bjarndýr, sem lagt er til ólífis, rekur upp org eitt eða fleiri, áður en það deyr, þá er það trú, að það kalli með því ættíngja sína til hefnda eptir sig, og eigi að koma þángað jafn-mörg bjarndýr árið eptir, eins og orgin voru, sem það rekur upp árið fyrir, og vinna á þeim, sem björninn eða birnuna hafa unnið árið fyrir.

**„Mál er að mæla."** (Eptir almennri sögusögn í Borgarfirði.) Á nýársnótt verða margir hlutir undarlegir. Það er eitt að kýr mæla þá[1] mannamáli og tala saman. — Einu sinni lá maður úti í fjósi á nýársnótt til þess að heyra, hvað kýrnar töluðu. Hann heyrir þá að ein kýrin segir: „Mál er að mæla."[2] Þá segir önnur: „Maður er í fjósi." „Hann skulum vèr æra," segir þriðja kýrin. „Áður en kemur ljósið," segir hin fjórða. Frá þessu gat maðurinn sagt morguninn eptir, en ekki fleiru, því kýrnar höfðu ært hann.

**Kýrnar á þrettándanótt.** (Úr Eyafirði.) Á þrettándanótt tala allar kýr. Á Þíngeyrum í Húnavatnssýslu dvaldist eitt sinn fjósamaður eptir þessa nótt í fjósinu, þegar fjósaverkum var lokið, og leyndist í moðbás, til

1. Sumir segja, að kýr tali á Jónsmessunótt, sbr. Dr. Maurers Isl. Volkss. 170. bls., og enn aðrir á þrettándanótt (sbr. Kvæði Eggerts Ólafssonar, 220. bls., Búrdrifu-vísur, 5. vísu), eins og næsta saga á eptir sýnir, sem sýnist vera skeytt saman af þessari sögu og af einni kúaþulunni.

2. Aðrir: mæra.

að vita, hvort þetta væri satt, og hvað kýrnar töluðu. Hann beið í básnum fram undir miðnætti, og varð einkis var; kýrnar lágu og voru að jórtra. En um miðnættisskeið stóð sú kýrin upp, sem næst var dyrum annars vegar í fjósinu, og sagði: „Mál er að mæla.“ Þá stóð önnur upp, sem næst henni var, og sagði: „Maður er í fjósi.“ Síðan stóð upp hver af annari, og töluðu nokkuð. Hin þriðja sagði: „Hvað mun hann vilja?“ Hin fjórða: „Forvitni sína.“ Hin fimta: „Ærum við hann, ærum við hann.“ Hin sjötta: „Tölum þá og tölum þá.“ Hin sjöunda: „Fýkur[1] í fossa, segir hún Krossa.“ Hin áttunda: „Eg skal fylla mína hít, segir hún Hvít.“ Hin níunda: „Eg stend á stálma, segir hún Hjálma.“ Hin tíunda: „Eg skal halda, segir hún Skjalda.“ Hin ellefti: „Eg èt, sem eg þoli, segir hann boli.“ Eptir það sleit hin fyrsta sig upp, og þá hver af annari. En fjósamaðurinn hljóp í rángala, sem lá úr fjósinu og inn í fjósheyið, og út um gat á heyinu, og komst svo í bæinn. Um morguninn sagði hann tíðindin. En þegar komið var í fjósið, voru allar kýrnar lausar.[2]

**Skoffín og Skuggabaldur.** (Sèra Skúli Gíslason eptir Einari Bjarnasyni á Mælifelli.) Skoffín er sagt, að sè afkvæmi tóu og kattar, og er kötturinn móðir. Verða skoffín því ætíð drepin, áður en þau komast upp.[3] Skuggabaldrar eru í föðurætt af ketti, en í móðurætt af tóu, og eru þeir eins skæðir að bíta og stefnivargar, eða refir, sem galdramenn magna til að rífa annars fè, og ekki kveykja menn byssur, þegar á þá er hleypt. Einn skuggabaldur hafði eitt sinn gjört sauðfè Húnvetnínga mikinn skaða. Fannst hann loks í holu einni við Blöndugil, og varð þar drepinn með mannsöfnuði. Sagði skuggabaldurinn í því hann var stúnginn: „Segðu henni Bollastaða-kisu, að hann skuggabaldur hafi verið stúnginn í dag í gjánni.“ Þetta þókti undarlegt. Kom bani skuggabaldurs að Bollastöðum, og var þar nótt. Lá hann uppi í rúmi um kvöldið, og sagði frá þessari sögu. Gamall fressköttur sat á baðstofubita. En þegar maðurinn hermdi orð

1. Teknr hafa aðrir.

2. Orð 7. kýrinnar og þaðan út til bola eða hins 11. sýnast vera tekin úr þulu eða þulubroti, sem menn kunna í Borgarfirði, og þannig hljóðar:

„Hvar á að tjalda? segir hún Skjalda.
Suður við ána, segir hún Grána.
Suður við fossa, segir hún Krossa.
Eg skal fjósið finna, segir hún Kinna.
Eg skal èta í mína hít, segir hún Hvít.
Eg skal èta, sem eg þoli, segir hann boli.
Eg skal èta sjálfur, segir hann litli kálfur.
Þar sefur bolabarn á bássteini
með moð fyrir múla,
og eingin það svæfir.“

3. Um þetta fer þó tvennum sögnum; sjá næstu sögu á eptir.

skuggabaldurs, hljóp kötturinn á hann, og læsti hann í hálsinn með klóm og kjapti, og náðist kötturinn ekki fyrr, en höfuðið var stýft af honum; en þá var maðurinn dauður.

**Skoffín, skuggabaldur og urðarköttur.** (Eptir Sigurð málara Guðmundsson.) Skoffín er skepna sú, eða óvættur, er verður úr hana eggi; því þegar hanar verða gamlir, eiga þeir eitt egg, og eru þau egg miklu minni, en önnur hænu egg. Ef hana eggi er úngað út, verður úr því sú meinvættur, að alt liggur það þegar dautt, er hún lítur, svo er augnaráð hennar banvænt. Einhverju sinni bar svo til við kirkju á einum stað, að jafnóðum og fólkið gekk út, að lokuu embætti, valt hver um þveran annan dauður niður. Hinir ráðsettari í söfnuðinum og aðgætnari tóku bráðum eptir þessu, og þó einkum djákninn. Stöðvar hann þá fólkið, sem út er að þyrpast, og tekur það til bragðs, að hann bindur spegil á staung lánga, stendur sjálfur inni í kirkjudyrunum, og réttir staungina upp með kirkjuþilinu framan verðu svo hátt, að hann ætlast á, að stángarendinn með spegliuum taki upp fyrir kirkjuburstina. Síðan bað hann alla út gánga, og varð þá eingum meint við. Hafði hann orðið nærgætur um það, hvað ylli manndauðanum, því skoffín hafði staðið uppi á kirkjuburstinni, og séð alla, sem út geingu, og því dóu þeir, þar sem hver var kominn. En þegar djákni rétti upp spegilinn, sá það sína eigin mynd, en það er þeirra kvikinda bráður bani, ef svo ber að.

Sama náttúra fylgir og skrýmsli því, er skuggabaldur heitir; það er kynblendíngur af ketti og tón, en aðrir segja af ketti og hundi. Þá er og hið 3. kvikindi, er þessi náttura fylgir, og er það urðarköttur, sem lagzt hefir á ná, og verið samfleytta þrjá vetur neðanjarðar í kirkjugarði. Eingin skepna, hvorki menn né málleysingjar mega standast augnaráð neinna þessara meinvætta, og liggja þegar dauðir, er þeir verða fyrir tilliti þeirra. Illvættum þessum verður og ekkert að aldurtila, nema ef þær sjá eigin mynd sína, eða ef skotið er á þær með silfurhnöppum, og því krossað fyrir byssukjaptinn, áður en af er hleypt.

**Finngálkn.** (Eptir sögu Hafnamanna í Gullbringusýslu.) Finngálkn er það dýr kallað, sem köttur og tóa geta saman. Er það grimt mjög, og öllum vargi skaðlegra fyrir sauðfé manna, og skotharðast allra dýra. Vinnur eingin kúla á finngálknið, og verður það ekki skotið nema með silfurhnapp eða silfurkúlu. Það er og stygt mjög, og ákaflega frátt á fæti.

Einu sinni lagðist finngálkn á sauðfé Hafnamanna í Gullbringusýslu, og annara þar nærlendis. Hélt það sig mest umhverfis Ósanna, sem kallaðir eru, og gjörði tjón mikið. Reyndu menn til á allar lundir að drepa finngálknið, en það tókst ekki, og gekk svo leingi, þángað til loksins, að maður einn, sem vissi jafn lángt nefi sínu, hitti upp á því, að hann makaði hellu eina, við Ósabotnana, með hunángi. Vissi hann, að finngálkn er mjög

sólgið í sætindi, helzt hunáng. Síðan lagði maðurinn sig í leyni, skamt frá hellunni. Dýrið rann á hunángslyktina, og fór að sleikja helluna. Skaut þá maðurinn dýrið, og hafði silfurhnapp af bol sínum fyrir kúlu. Þókti öllum mjög vænt um verk þetta. Hellan er síðan kölluð Hunángshella, og er hún við landsuðurhorn Ósanna, hjá alfaraveginum milli Keflavíkur og Hafna.[1]

**c)** Þá er að minnast nokkuð á fuglana, þó of fátt sè mèr kunnugt sögulegt um þá. Mörgum hefir þókt það meinlegt, að þeir hafa ekkert skilið fugla, og það því fremur, sem margar fróðlegar sögur hafa farið af því bæði að fornu og nýu, hversu margvísir þeir væri, og segðu mönnum ýmsa hluti orðna og óorðna. En til þess að skilja fuglamál, hafa fróðir menn fundið það ráð, að taka smirilstúngu, en hún er blá, og láta hana liggja í hunángi 2 daga og 3 nætur, þegar hún er síðan borin undir túngurótum, skilur sá fuglamál, sem hana ber þar; en ekki má bera hana annarstaður í munninum, því sá fugl er eitraður.

Örnin. Hún hefir nú skipt um kynferði sitt, því áður var hún karlkyns, en nú er hún orðin kvennkyns; þar að auki er opt stytt nafn hennar, og hún kölluð „assa.“ Við það nafn hennar og þann eiginlegleika, að hún situr opt laungum tímum saman á sama stað, loðir sá talsháttur, að sagt er, að sá sè „þaulsætinn eins og assa,“ sem tefur, þegar hann kemur einhverstaðar. Þó fugl þessi hafi breytt kyni, heldur hann þó þeirri tign sinni, að hann er enn kallaður „fuglakóngur,“ líklega af því assa er fugla stærst. Það er alkunnugt um örnina, að hún situr tíðum á árbökkum, þar sem lax geingur í. Geingur henni það til þess, að hún hremmir laxinn, ef hann syndir svo nærri bakkanum, að hún nái til hans með annari klónni, en haldi sèr með hinni í bakkann, ètur hún hann allan að framan aptur að gotrauf, en ekki leingra. Sè laxinn stærri en fjórðúngslax, hefir assa ekki bolmagn á, að draga hann að sèr, því síður að ná honum upp á bakkann. Er það því sagt, að opt hafi menn fundið örn fasta í bakka á annari klónni, en með hina í stórum laxi. Ef örnin er lífs, þegar að er komið, þykir það eitthvert vissasta lánsmerki að taka hana úr þeirri beyglu, þar sem hún hángir milli lífs og dauða, því hún getur ekki losað af sjálfsdáðum klóna úr laxinum aptur, en líf hennar er í veði, ef hún losar hina klóna úr bakkanum; því þá færir laxinn hana í kaf. Í annari grein er sagt, að assa sè stundum upp á mennina komin, en það er í því, að ef efri skoltur arnarnefsins, sem beygðist mjög niður fyrir hinn neðri, vex til muna, og beygist

1. Sjá lýsing á finngálknum í Fas. II, 243—246, og III, 473.—475. bls. Að finngálkn sè einhverskonar hamhleypa má enn fremur ráða af orðum Snorra-eddu (II, 122. og 212. bls.), þar sem „nykrat eða finngálkuat“ er talinn löstur í kveðskap og hvorttveggja eitt, og sagt, að Ólafur hvítaskáld kalli „þat finngálkuat, er líkum er skipt á einum lút í enni sömu vísu.“ Sbr. orðaregistrið við Njálu undir finngálkn.

um leið meir að, þá fer svo um síðir, að krókurinn lendir inn undir neðra skolti nefsins, svo að hún getur lítið sem ekki opnað nefið og alls ekki náð til bráðar. þegar svo er komið, er ekki annað fyrir sjáanlegt, en hún deyi, ef þá vill ekki svo til, að þar beri menn að, sem hún er, sem geti höggvið eða tálgað af henni nefkrókinn, því þegar svo er komið, er hún gæf sem hundur. Er það og talið eins mikið auðnumerki, að geta hjálpað henni í þessum kröggum, eins og að geta losað hana úr laxinum. Eins og öll kvikindi eiga einhvern óvin, eins á assa hann, þar sem músarrindillinn er, og er hún allhrædd við hann, „þó hann sè lægri á leggjunum.“ Sú er sök til þess, að mælt er, að þegar örnin flýgur, sè hún allþúng á sèr, og verði því að neyta allrar orku til að geta flogið svo hátt, sem henni líkar; af því er það og sagt, að þegar hún er á flugi, rembist hún svo mikið, að opinn standi á meðan þarfagángur hennar, og þetta viti rindillinn, og sæki hann þá mjög aptan að og neðan undir stèl össu, og leitist við að fljúga inn í hana að aptan til að særa hana þar. þessari sögu til sanninda er það talið, að arnir hafi fundizt dauðar með músarrindil dauðan í þarfagánginum. Frá kóngstign össu kunna menn fátt að segja, en aptur nokkuð fleiri af úngum hennar og eggjum. Ein sögn er það, að ef látið er gull í arnarhreiður, er hún hefir nýorpið, komi úr öðru egginu lausnarsteinn, en úr hinu flugdreki; og er þessi saga sögð þar um til sannindamerkis. Maður hèt Jón; hann bjó á Lambhaga í Borgarfirði. Hann var ágætur skotmaður; það er sagt, að hann hafi gert það til leiknis, til að reyna, hvort það væri satt, að dreki kæmi úr arnareggi, að hann lagði gull undir arnarhreiður, annaðhvort í Leirárey eða Bakkahólma. Fleiri voru í vitorði um þetta, og vöruðu þeir hann við að gjöra að, því ílt gæti af því hlotizt. Jón sagðist mundi ábyrgjast alt það tjóu, sem af því leiddi, og ráða óvættina af dögum, ef til þess kæmi. Jón vitjaði síðan um hreiðrið við og við; en einu sinni þegar hann kom, sá hann dálítinn dreka nýskriðinn úr öðru egginu. Eptir það leið mánaðartími, að ekki varð vart við neina hreifíngu á honum. Einn dag þar á eptir sáu menn, að dreki þessi flaug úr hreiðrinu og upp í Bakkanes, og sat þar stundarkorn; síðan flaug hann upp þaðan, en bremdi um leið veturgamalt tryppi í nesinu, og flaug með það í klónum suður yfir Leirárvoga, suður í Arkarlækjarnes. Við þessi undur urðu menn hræddir, og skoruðu nú á Jón, að efna nú orð sín og fyrirkoma drekanum. Jóni tókst það og loksins eptir lánga mæðu; en það sagði hann síðan, að ekkert skot hefði unnið á drekann, fyrr en hann hefði skotið á hann með silfurhnöppum, sem hann skar af peysunni sinni.[1] Ef maður vill glepja sjónir fyrir öðrum, skal taka arnarfjöður úr vinstra væng og leggja undir dýnuna, sem hinn situr á.[2] það er og enn sögn, að þau börn, sem drekki meðan þau eru úng, mjólk með fjöðurstaf af arnarfjöður, verði ákaflega minnisgóð.

1. Eptir sögusögn sèra Jóns Jakobssonar í Ásum, er ólzt upp á Melum.
2. Úr Hamrendabók.

þar sem arnarkló er höfð í smiðjusveifiuni, og haldið um, þegar blásið er, þar á aldrei smiðja að brenna[1]. Það er ráð við því, að ekki sè stolið frá manni þeim hlut, sem maður vill ekki missa, að maður liðar sundur gullspora arnarinnar um miðjan hælinn á henni lifandi, og lætur blóðið, sem þar af rennur, drjúpa í leirker eða glerker. Þar í skal rjóða lausnarstein þann, sem heldur allri náttúru sinni, láta hann síðan blóðugan í glerflösku, og nýtt messuvín þar saman við. Þetta skal standa óhreift í 7 vikur, en að þeim liðnum má taka upp flöskuna á hinni sömu stund dags, sem hún var byrgð á. Skal þá taka fjöðurstaf, dýfa honum í það, sem í flöskunni er, og bregða honum á eða undir þann dauðan hlut, sem kyr skal liggja.[2]

Hrafninn eða krummi er kunnugri fugl, en frá þurfi að segja, og eins það, að hann er ránfugl einhver sá mesti, og svo kveður ramt að því, að sagt er, að hann horfi ekki í að höggva augun úr öðrum nöfnum sínum, þegar hann er húngraður og harðindi gánga, og þaðan er þessi orðsháttur upp kominn: „Þá fer að harðna á, þegar hver hrafninn kroppar augun úr öðrum.“ Það er og alkunnugt, að þegar hrafn kemst í dautt hræ á víðavángi, ètur hann ávalt fyrst úr því augun, og því er hann kallaður „augnavargur,“ og sagt, að sá, sem gráðugur er, „láti eins og argur augnavargur.“ En því er krummi jafnan svo gráðugur og soltinn, að sagt er, „að ekki sè nema ein í honum görnin, og dríti hann því jafn-skjótt, og hann èti. Sagt er það og til dæmis um græðgi hrafnsins, að hann èti sjálfur eggin undan sèr á vorin, þegar hart er og kalt, svo hann treysti sèr ekki til að sitja á þeim, og eins, þegar undan honum er steypt, þ. e. þegar hreiðrið er felt niður með eggjunum og öllu saman. Krummi verpr fyrst allra fugla á vorin, sumir segja níu nóttum fyrir sumar, en aðrir, að hann fari þá að „draga í hreiðrið,“ þ. e. búa það til. Af því hann er ránfugl, verður hann opt á vorin nærgaungull lambám um sauðburðinn, því þá er opt lítið um æti, en hann hyggur gott til glóðarinnar, að fá sèr volgt lambaket, eða þá, ef miður tekst, volgar hyldir. Þegar hann verður djarftækur til lambanna, sem opt hefir borið við, og drepur þau, þá er steypt undan honum i hefndaskyni. Það er sumra manna sögn, að hrafnar eigi þíng með sèr tvisvar á ári, vor og haust, og semi þeir á vorþíngum sín á milli, hvernig þeir skuli hegða sèr á sumrin; en almenn sögn er það, að þeir haldi reglulegt hreppamót á haustin. Á haustþíngum skipa þeir sèr niður á bæi tveir og tveir, karlhrafn og kvennhrafn, og er það kallað, að þeir „seti niður,“ eins og sveitanefndir skipa hreppsómögum í niðursetu um hreppinn. Er fari svo, að ekki verði jafnmargir karlhrafnar og kvennhrafnar á sama hrafnaþíngi, er sagt, að hinir hrafnarnir leggist allir á hinn staka að þínglokum, elti hann og drepi, hvort sem nokkur

1. Eptir Dr. Maurers Isl. Volkss. 170. bls.
2. Úr Hamrendabók.

bær er til fyrir hann til niðursetu, eða ekki. Hrafnar þeir, sem niður eru settir á hvern bæ, eru ýmist kallaðir „heimahrafnarnir“ eða „bæarhrafnarnir.“ Eptir því þykjast menn og hafa tekið, að tveir og tveir hrafnar haldi sig jafnan á vetrum að hverjum bæ, til að tína úr sorpi því, sem út er snarað, og ef aðra hrafna beri þar að, ýfist heimahrafnarnir við þeim, og hætta ekki fyrr, en þeir flæma bún-hrafnana burtu. Heimahrafnar er sagt að sè mjög reglusamir; fara þeir á hverju kvöldi, þegar dimma tekur, burt frá bænum, og í bæli sín, en eru uppi aptur, þegar birtir, og vitja þá um, hvort þeim hefir nokkuð fènazt við bæina á næturnar. Það þykir því alls ekki einleikið, ef annaðhvort sèst eða heyrist til hrafns á náttarþeli, og ætla menn að það sè illir andar, eða slæmar fylgjur[1] í hrafnslíki; þeir hrafnar eru kallaðir „nátthrafnar,“ og af því sumum rúmlötum mönnum er illa við gesti þá, sem seint eru á ferð, ber það við, að þeir eru kallaðir nátthrafnar. Af því „víða flýgur hrafn yfir grund,“ verður hann margs vís, og því er sagt, „að hann segi tíðindin.“ Ef þetta ber að á vortíma, meðan jörð er að leysa, og hættur eru sem mestar, segja menn, að „hann sè að segja til þess, sem ofan í hafi dottið,“ af fènaði þess bæjar, þar sem hann er í niðursetu, ef hann gargar áfergjulegar, en annars. Þetta ætla menn, að hann gjöri í þakkar-skyni fyrir veturvistina.

**Krummasaga.** (Eptir handriti sèra Svb. Guðmundssonar, nú í Móum á Kjalarnesi.) Í Vatnsdal fyrir norðan er mælt, að nokkrir bæir hafi farizt af skriðum, sem fallið hafi úr Vatnsdallsfjalli. Meðal þessara bæa var einn, sem hèt Gullberastaðir. Bóndadóttirin á Gullberastöðum hafði haft þá venju, að gefa bæjarhrafninum ætíð, þegar hún borðaði. Einu sinni þegar hún eptir venju rètti honum út um gluggann það, sem hun ætlaði að gefa honum, þá vildi krummi ekki taka við. Stúlkuna furðaði á þessu, og fór út með það. Krummi kom mikið nálægt henni, en vildi þó ekki þiggja matinn, en lèt einatt líklega, svo stúlkan elti hann út í túnið, spölkorn frá bænum. En þegar þau voru komin þángað, heyrir hún dunur miklar uppi í fjallinu, og alt í einu fèll úr því skriða sem rann báðu megin við þau krumma og bóndadóttir, en kom ekki á þann blett, sem þau voru á. Bærinn þar á móti varð fyrir skriðunni, og tók hún hann af með öllu, sem í honum var, lifandi og dauðu. Launaði krummi þannig bóndadóttur matinn. En orsökin til þess, að skriðan fèll ekki yfir blettinn, sem þau krummi og bóndadóttir stóðu á, var sú, að þegar Guðmundur biskup helgi einu sinni fór þar um, þá hafði hann tjaldað á bletti þessum. En áður enn hann tók sig upp þaðan, vígði hann tjaldstaðinn, eins og hann var opt vanur að gjöra, og því gat þar einginn síðan orðið fyrir neinu grandi.[2]

1. Sbr. II. Flokks 3. grein. 358. bls. á undan.

2. Eptir þessu atriði um Guðmund biskup ætti sagan rèttast heima í V. flokks 2. grein; en eg set hana hèr sem dæmi upp á þakklátsemi krumma, þó að einnig mætti eptir

Þess er enn fremur getið, að svo sem þrem árum eptir að skriðan hljóp, þá var þar smali á ferð, og reið yfir skriðurnar, þar sem bærinn hafði staðið, og skrapp hesturinn í. Smalinn fer að hugsa um þetta, og dettur í hug, að það geti verið, að hann hafi riðið yfir bæinn, og hafi hús brotnað inn. Hann geingur þá að holunni, og finnur að upp úr henni leggur talsverðan óþef. Hyggur hann þá betur að, og vill vita, hvað til ólykturinnar muni koma; hleður hann þá vörðubrot dálítið hjá holunni. Þegar kann kom heim til sín, sagði hann frá þessu. Var þá farið, og holan stækkuð svo mikið, að inn mátti komast í hana. Var þetta þá búrið, og konan þar tórandi í. Átti hún að hafa verið þar stödd, þegar skriðan fèll á bæinn. En búrið var nýbygt, og brotnaði því ekki, en því gat konan lifað þar allan þenna tíma, að skriðan fèll um haust, eptir að búið var að draga að vetrarforðann.

**Feigðar-aðkall.** (Eptir sögu Hvítsíðinga í Borgarfirði.) Einu sinni sem optar var biskupinn í Skálholti að vísitera í Hvítársíðu í Borgarfirði. Var hann þegjandalegur mjög um daginn og hugsandi, og bað menn sína hraða sèr sem mest til að ná tjaldstað, en hann skyldi vera á grundinni hjá Bjarnastöðum við vaðið á Hvítá. Þeir gjörðu svo og tjölduðu, en biskup gekk um gólf á grundinni einn sèr. Þegar búið var að tjalda, og biskupi var sagt, að alt væri í lag komið, dæsti hann og sagði: „Stundin er komin, en maðurinn ekki.“ En í sama bili sèst, hvar maður kemur og ríður ákaflega, og stefnir að vaðinu á ánni. Biskup fer með menn sína í veg fyrir manninn, og segist vilja tala við hann. En svo var mikill ákafi í manninum að komast út í ána, þó biskup og hans menn segði hana bráðófæra, að hann tók að eins undir við biskup, og bað hann tefja sig ekki; því sèr lægi á. Biskup skipaði þá mönnum sínum að taka manninn, og fara með hann inn í tjaldið. Þeir gjöra það, en þá verður manninum svo ílt, að einginn hugði honum líf stundu leingur, og var eins og hann berðist við öndina og gæti ekki dáið. Biskup lèt þá sækja vatn í ána, og dreypa á manninum, og á sama augnabragði, og vatnið kom inn fyrir varir mannsins, þá dó hann. Biskup sagði þá, að af hrafnamáli um daginn hefði hann vitað, að feigð hefði kallað að manni þessum, og hann hefði átt að drukkna í ánni; því hefði hann og getað dáið undir eins og vatnið kom í munn honum, en fyrr ekki.

Með því það hefir bæði þókt örðugt og þó æskilegt, að skilja hrafnamál, hafa fróðir menn fundið ráð til þess, auk þess, sem áður er greint til að skilja fuglamál, en það er þetta. Maður skal kryfja lifandi hrafu, og taka úr honum hjartað, og geti hann flogið eða færst þar á eptir um tvö spor, er þeim gefið að skilja hrafnamál, eptir það sem hjartað hefir, en annars

því heimfæra hingað „Skíðastaði,“ eða söguna um þá úr sama flokki, og „Herjólf og Vilborgu“ úr VI. flokks 2. grein.

ekki. Hrafnsbjartað skal maður hafa undir túngurótum sèr, á meðan maður vill fræðast af hröfnum, en geyma það þess á milli í keri því, sem ekkert hefir í komið. Af því þessi aðferð, að fræðast af hröfnum um ýmsa hluti, hefir ekki verið öllum kunnug, hafa menn tekið mark á ýmsu öðru, t. d. á flugi hrafnanna og athæfi, og á því, hvernig þeir krúnka, þó þeir ekki hafi skilið hrafnamálið sjálft, og skal hèr telja til þess nokkur dæmi. Ef hrafn flýgur með þèr á veg og fljúgi hann fram undan til hægri hliðar á veginn, þegar þú ert nýfarinn að heiman, merkir það heill og hamíngju á þeim degi. En fljúgi hann í móti manni, þegar maður fer að heiman, eða hátt í lopt upp yfir manni, merkir það, að þeim muni illa gánga, og því er bezt að snúa heim aptur, og lesa góðar bænir, og fara svo sinn veg fram í nafni drottins. — Ef hrafn sezt á kirkjubustina, eða dyrabrandana, og snýr vèlinu að manni og yptir fjöðrunum og vængjunum öfuglega, krúnkar og teygir sig hræðilega og teygir út vængina, og brettir nefið við, sá hrafn segir fyrir dauða nafnkendra manna í þeirri átt, sem hann snýr að nefinu. Ef einn hrafn eða fleiri flýgur ofan fyrir bæarstètt, og sezt á bæarhauginn, og ýmist á dyrabranda og krúnkar mjög lángt, hann boðar þeim, sem á hann horfir, dauða almúgamanna eða kunnugra, en ef hann krúnkar að glugganum, segir hann fyrir skyldmenna dauða þeirra, sem í húsinu sitja, eða nágranna þeirra. — Ef hrafn valhoppar híngað og þángað uppi á húsunum, haltrar við á fótinn, skiptir um í sèr hljóðunum, og krúnkar upp í loptið, beygir hálsinn og höfuðið, hristir vængina og yptir fiðrinu, hann boðar, að menn sèu staddir í sjávarháska eða vatnsháska. — Ef margir hrafnar fljúga saman hvor að öðrum með ýmislegum látum, þá eru þeir að tala um mannadauða sín á milli, í þeirri átt, sem þeir snúa sèr, þegar þeir setjast. Ef hrafninn flýgur hátt í loptinu yfir húsin, eða á veginn upp yfir manni, krúnkar hátt og blaktir vængjunum, boðar hann mannadauða í þeirri átt, sem hann krúnkar. — Ef hrafnarnir þyrpast saman með miklum köllum, merkir það rekald við sjó, komið eða ókomið, af fiski eða öðru æti, sem sá á hlut í, sem þeir krúnka framan í. Stundum öfunda þeir þann, sem með mat fer, og biðja hann að gefa sèr, þegar þeir setjast á dyrabranda,[1] og þykir það jafnan rætast, sem mælt er, „að guð borgar fyrir hrafninn," ef honum er gefið. En stundum vilja þeir halda hrafnaþíng, sem áður er sagt. — Það er ekki nýbóla, þó menn ætli, að hrafnar segi tíðindi og viti marga hluti, sem menn vita ekki, og má bæði sjá þess víða vott í Fornmannasögum,[2] og seinna í munnmælum, og skal hèr enn sýna nokkur dæmi í sögum auk enna fyrrtöldu.[3]

1. Þetta um háttsemi og garg hrafna er tekið eptir Hamrendabók.

2. Fms. I, 131. bls.; III, 147.—8. bls.; VI, 402. og 446.—7. bls.; VIII, 211. bls.; IX, 371. bls.

3. Sjá Feigðaraðkall á 618. bls. á undan, og um Þorleif Skaptason, 582.—3. bls.

**Hrappsnes.** (Eptir almennri sögn Reykdælinga í Borgarfirði.) Þegar Guðmundur biskup var á ferðum sínum um Borgarfjörð, kom hann að Reykholti, og dvaldi þar nokkrar nætur. Hann hafði með sèr sveina marga. Einn þeirra hèt Hrappur eða Hrafn. Hann var hestamaður biskups. Hrappur kom á bæ einn í dalnum til að spyrja að hestum, sem hann vantaði. Hann fann stúlku á bænum, og sat hrafn á bæarbustinni og krúnkaði mikið. Hrappur lèzt af monti kunna fuglamál, og segir við stúlkuna: „Þessi hrafn segir þig feiga.“ „Ekki mun það vera,“ segir stúlkan, „en hann er að segja þèr frá því, að á morgun um þetta leyti ætli hann að èta úr þèr augun.“ Hrappur lagði eingan trúnað á þetta og fór leiðar sinnar. Leitaði hann hestanna þann dag allan, en um nóttina drukknaði hann í Reykjadalsá. Morguninn eptir fannst hann rekinn á eyri þeirri við ána, sem nú heitir Hrappsnes, eða Hrafnsnes. Vaðið, sem þar er á ánni, er og kent við hann síðan, og kallað Hrappsvað, eða Hrafnsvað. Þegar Hrappur fannst, var hann óskaddaður að öllu, nema hrafnarnir voru búnir að kroppa úr honum augun.[1]

**Sveinn lögmaður og frú Íngibjörg.** (Árb. Esp. XI, 10. bls.; sbr. Dr. Maurers Isl. Volkss. 170.—171. bls.) Til hins sama bendir vísa Sveins lögmanns Sölvasonar, sem hann kvað við Íngibjörgu Sigurðardóttur, frú Gísla biskups Magnússonar á Hólum, er hann sá og heyrði til hrafns á vindhana-staung yfir húsi því, sem hún var í. Hann kvað:

„Hrafn situr á hárri staung,
höldar mark á taki:
ei þess verður æfin laung,
sem undir býr því þaki.“

En hún var ekki leingi að hugsa sig um, og kvað í móti:

„Eingin hrakspá er það mèr,
þó undan gángi eg nauðum;
en ef hann kvakar yfir þèr
ekki seinna dauðum.“

**Guð borgar fyrir hrafninn.** (Eptir handriti sèra Jóns Norðmanns.) Einu sinni fór maður frá Staðarstað út Búðum, fann á heimleiðinni grásleppu, tók hana upp og lèt í poka sinn, og reið svo heim eptir. Vinnumenn frá Staðarstað voru í veri og lágu við út í Lágubúð, en voru þá á sjó, því vertíð var nýbyrjuð, og rèru fyrsta vertíðarróður um daginn. Þegar maðurinn fór heimleiðis, reið hann hjá sjóbúðunum í Lágubúð, og sátu þá 2 hrafnar á Staðarbúðinni. Virtist þá manninum — og segir hann, að sèr hafi orðið það ósjálfrátt — annar hrafnanna biðja sig um bita. En hann

1. Hèr um bil sama saga, en alveg sami spádómur og örnefni, er prentað í „Safni til sögu Íslands og íslenzkra bókmenta.“ I. Kh. 1856, 78. bls. En þar segir, að Oddur Gottskálksson hafi spáð þessu af hrafnsgargi fyrir vinnumanni sínum. Þar er nefnd Hrafnseyri, það sem hèr er kallað Hrappsnes eða Hrafnsnes.

sagðist ekkert hafa, því hann mundi ekki eptir grásleppunni. Hrafninn sagði jú, hann hefði það í pokanum sínum. Fór þá maðurinn að leita, fann grásleppuna og gaf honum bita. Síðan spurði maðurinn krumma, hvort þeir mundu afla vel í dag, Staðarpiltar. Krummi sagði jú, þeir mundu fá tvær lúður vænar. Fór svo maðurinn heim, og gat um þetta við fólkið. En það hló að honum fyrir heimskuna. Um kvöldið fór maður þessi alt að einu með tvo reiðíngshesta, til að sækja á aflann til vermanna, og höfðu Staðarpiltar feingið um daginn tvær lúður mjög stórar.

**„Hver á flak, hver á flak?“** (Eptir sama.) Einu sinni heyrði maður, sem skildi hrafnamál, til tveggja hrafna, sem voru að tala saman, og hèkk þar hjá þeim heilagfiskisflak. Þá segir annar hrafninn:

„Hver á flak, hver á flak?“

Hinn svarar; „Kolbeinn, Kolbeinn.“

Þá segir sá fyrri: „Kropp' í, kropp' í.“

Enn er þess getið um hrafna, að þeir hafi ankannalæti nálægt jörð, og sæki niður, eins og kjói, og anuað þess konar; er þá sagt, að þeir sèu að varna frá jörðunni vondum öndum.

Lóunnar verður getið í V. flokks 1. grein (sjá og enn fleira um hana í Ferðabók Eggerts 580.—581. bls.) Rjúpunnar verður og getið að nokkru í V. flokks 2. grein; en hèr skal þess getið, hvernig það er undir komið, að „rembast, eins og rjúpan við staurinn.“ Þessi talsháttur er svo til orðinn, að þegar maður finnur fyrst á vorin rjúpuhreiður, skal ekki taka eggin undan henni, heldur láta hana verpa við. En það má með því móti, að maður setji lítinn staur upp á endann niður, sumir segja, í mitt hreiðrið milli eggjanna, en aðrir utan við hreiðrið, og hinir þriðju segja, að það nægi, að leggja trèspæni í hreiðrið, svo hærra beri á þeim, en eggjunum. Þegar búið er að þessu, og maðurinn er geinginn burtu, sezt rjúpan á eggin, og verpir við, þángað til húu hefir orpið svo mörgum eggjum, að staurinn fer í kaf, eða að eggjahrúgan taki jafnhátt honum, sè hann settur fyrir utan hreiðrið, og þaðan er orðskviðurinn dreginn, og er hann einnig hafður um það, sem örðugt veitir að koma af. Sagt er að rjúpan haldi á fram að verpa, þángað til hún hefir orpið 19 eggjum, en deyi að hinu tuttugasta. Skal því hafa gætur á, að taka burt staurinn og eggin úr hreiðrinu, þegar 19 eru komin; því níðíngsverk þykir það, að pinta fyrst rjúpuna með þessu til að verpa, og láta hana síðan bíða dauða af því. Sagt er, að jafnan standi á stöku rjúpueggin, og ef maður finni fyrst egg á æfi sinni í rjúpuhreiðri, eigi hann að eignast jafnmörg börn á síðan. Aðrir segja, að einu gildi, hvaða hreiður maður finni fyrst, barnatalan fari eins eptir eggjafjöldanum fyrir það. Ekki má hafa rjúpnafiður í sæng, sem

ólètt kona sefur á; því þá getur hún ekki alið barnið. Ef þúnguð kona borðar rjúpnaegg, verður barnið, sem hún geingur með, freknótt.[1]

Steindepillinn er áður nefndur til þess, að hann valdi undirflogi, eg hefi einkum heyrt á ám, en Eggert Ólafsson segir bæði á kúm og ám,[2] í hefndarskyni fyrir það, ef eggin hans eru ómökið á vorin. En Mohr hefir heyrt þá trú hèr, að gamlir menn hafi fælt börn frá að hrella hann, eða ómaka steindepilshreiður, með því að segja þeim, að fíngurnir á þeim stirðnuðu upp eða kreptust, ef þau snertu eggin hans eða úngana.[3]

Krían. Hún kemur hèr við land á vorin og um krossmessu, og fer síðan aptur um krossmessu á haustin, eða í miðjum septembermánuði. En þótt hún komi stundum híngað fyrir vorkrossmessu, fær hún ekki málið, fyrr en hún hefir smakkað silúngs eða laxhreistur, en það er ekki fyrr en á krossmessudag, að hún stíngur sèr eptir hreistrinu,[4] og „þá fær krían málið", og lætur þá drjúgum til sín taka eptir svo lánga þögn frá því sumrinu áður, þarsem nýtt skeið byrjar í lífi hennar við krossmessu, eins og fyrir vinnufólkinu, sem hefir vistaskipti þann dag. Eins og krían hefir hèr skamma dvöl, eins er hún fljót að fleiru. Hún er ekki eggjasjúk leingur en 3 mínútur, og flýgur þegar upp, er hún hefir orpið, og sjaldan situr hún drukklánga stund í einu. Til þessa hvorutveggja er jafnað og sagt um þann, sem er auðhrygður og auðgladdur, að „hann sè eins og kría verpi," og um þann, sem aldrei hefir ró í sèr að sitja kyr, að „hann sè eins og þegar kría sezt á stein." Það er sögn, að krían hafi svo lánga vængi og stèlfjaðrir, að hún sè 5 álnir alt í kríng, þegar mælt er inn í hvert vik og hvern krika.[5] Ef maður ber á sèr kríuhjarta, verður sá hinn sami hvers manns hugljúfi.[6]

Hegrinn. Sá fugl er heldur sjaldsèður hèr; en ef sjómenn sjá hann segja þeir, að hann boði gott fiskiár.[7] Hegraklær hafa laungum þókt miklir girndargripir, af því að önnur þeirra dregur að þeim, sem á, fè úr sjó, en önnur úr jörðu. Klær þessar skal maður fá sèr með því að skjóta þær undan hegranum á flugi, og taka þær í húuna sína eða hattinn sinn, áður en þær snerta jörð, því annars missa þær fjárdráttaraflið; þó má ekki skjóta báðar klærnar undan sama hegranum, því það þykir níðíngsverk, og talið víst, að sá verði ólánsmaður, sem það gjörir, heldur skal skjóta sína klóna undan hvorum, hægri og vinstri.

1. Almennar sagnir, en helzt eptir Jóni málaflutníngsmanni Guðmundssyni í Reykjavík og Hólmfríði konu hans, Sigurði málara og sèra Jóni Norðmann.

2. Ferðabók Eggerts 584. bls.; sbr. III. flokks 2. grein, Tilberi, 432. bls. á undan.

3. Mohr 58. bls.

4. Sbr. Atla, Kh. 1834, 39. bls., 24. grein.

5. Ferðabók Eggerts, 576.—577. bls.

6. Sæbjörn Egilsson á Klippstað.

7. Ferðabók Eggerts, 984. bls.

Straumandarsteggi. Um hann veit eg ekkert sögulegt, nema það, að ef maður tekur höfuð hans og þurkar, og ber á sèr, ver það mann öllu illu eðli og ónátturu.[1]

Hani. Þess hefir áður verið getið, að skoffín kæmi úr hanaeggi, því hanar eiga egg, þegar þeir verða gamlir.[2] Ef maður tekur spora undan vinstra hanafæti og ber á sèr, ber maður sigur í hverju máli. Ef hjarta er tekið úr alsvörtum ketti, og ístra úr alhvítum hana, blandað saman og borið í augun, verður maður skygn og sèr jafnt á nótt sem degi.[3]

Hrossagaukurinn. Það er trú manna, að hrossagaukurinn geti ekki hneggjað, eða fái ekki málið, sem kallað er, fyrr en hann er búinn að fá merarhildir að èta á vorin. Skal þá taka mark á því, í hverri átt maður heyrir hann hneggja, því það er fróðra manna sögn, að hann spái um forlög manna, eins og segir í vísunni:

„Heyló sýngur sumarið inn,
semur forlög gaukurinn,
áður en vetrar úti er þraut,
aldrei spóinn vellir graut."

Má þannig marka, hvað fyrir manni liggur, af því, hvar gaukurinn fyrst heyrist hneggja. Eptir því er farið, hvar, eða í hverri átt maður fyrst heyrir til hrossagauksins á vorin, og er:

„Í austri ununargaukur[4]
í suðri sæls gaukur
í vestri vesals gaukur
í norðri náms gaukur.
Uppi er auðs gaukur[5]
niðri er ná gaukur."

Brot úr vísum um hrossagaukinn:

„Í suðrinu ef saungfuglinn leikur,
af sællífinu verðurðu keikur;
fullur muntu og feitur út gánga
fjarlagist þá hallærið stránga.
Í útsuðri[6] ef gaukurinn gólar
giptast þeir, sem einsamlir róla,
en þeir giptu missa sinn maka
[munu sorg[7] fyrir gleðina taka.

1. Sæbjörn Egilsson á Klippstað.
2. Sbr. „Skoffín, skuggabaldur og urðarköttur," í ferfætlingum 613. bls.
3. Sæbjörn.
4. Aðrir segja: auðs gaukur.
5. Aðrir: ununargaukur.
6. Aðrir: í nónstað.
7. Frá [hafa aðrir: mæðu.

. . . . . . . . . . . . .

Ef hann hefir náttmála-nuldur
nálgast mun þá sorganna buldur,
máttu þig við mótlæti búa,
muntu verða þessu að trúa.
Í hánorðri ef heingir hann niður,
hausinn klærnar vængi og fiður
orgar svo í ofboði mesta
ekki mun þig spekina bresta.

. . . . . . . . . . . . .

Í skýunum ef skellur hans hlátur,
skaltu verða glaður og kátur.
Auðurinn í gaupnir þèr geingur,
gleðst þá hinn fátæki dreingur.
Undan þèr ef[1] umlandi[2] geingur,
ekki muntu lifa þá leingur;
drottin mun þig draga til sinna,
dauðinn mun á flestöllum vinna."

Máríatla. þenna fugl kalla sumir Máríatlu, sumir Maríuerlu,[3] og enn sumir „Maríu litlu." þegar heyrist til hennar fyrst á vorin, er það víst að vænta, að skip eru komin einhverstaðar við land frá útlöndum, og er sagt, að hún komi með þeim. Ef maður vill vita, hvar hann muni dvelja næsta ár, getur María litla gefið það í skyn, og á maður þá að segja við hana, þegar maður sèr hana fyrst á vorin:

„Heil og sæl, María litla mín.
Hvar er hún svala, systir þín?
Er hún á útlöndum að spinna lín?
það mun hún vera, hún svala, systir þín.
[eg skal gefa þèr berin blá,
ef þú vísar mèr á,
hvar eg vera á
í vor og í sumar,
í vetur og í haust.[4]

Nú ef María litla flýgur upp á meðan, er það vottur þess, að hún vill ekki spá; en fljúgi hún ekki upp, meðan þetta er mælt fram, segja sumir, að spyrjandinn sè feigur; en aðrir segja, að þá skuli fleygja í hana

1. Aðrir hafa: þá.
2. Aðrir: ýlfrandi.
3. Ferðabók Eggerts, 583.—4. bls.; Mohr, 53. bls.
4. Frá [hafa aðrir þannig:
„En segðu mèr nú, María litla mín,
hvar á eg að vera vetur, sumar, vor og haust?"

einhverju, helzt leppum úr skó sínum, og skuli sá, sem fleygir, flytja sig í þá áttina, sem hún flýgur þá í, það vor, eða hið næsta, og muni þeim, sem svo gjörir, vel farnast.[1] Til þess að vinna í kotru, skal taka máriötlutúngu, og þurka við sólu, mylja síðan saman við messuvín, og láta í teníngsaugun, og er þá vís vinníngur. Sagt er að máriatlan geti ekki orpið fyrri á vorin, en hún hefir feingið sèr hár af hreinni mey til að verpa eggjum sínum á, og er það hverri mey fyrir beztu, að verða vel við nauðþurft hennar. En ólánsmaður verður sá, sem ómakar eggin hennar. Ef hreiðri hennar er lokað fyrir henni, hefir hún ráð til að opna það (sjá Lásagras í næstu grein á eptir í þessum flokki.)

Músarrindill eða músarbróðir. Eins og Eggert Ólafsson segir, er þessi fugl nefndur svo, af því að hann líkist músinni að mörgum háttum, sèst sjaldan á daginn, heldur sig í dimmum holum í jörðunni og er þjófgefinn mjög. Einkum hvinnskast hann í ket, þar sem það hángir í rótinni. Af þessu öllu hefir komið sú ótrú á honum, að hann væri illur andi, og því hafa sumir tekið það til bragðs, að setja krossspítur í eldhússtromp-ana, í því skyni að hann dirfðist ekki að koma nærri krossinum, heldur en annað óhreint, til að stelast í ketið. Um birtínguna og í rökkrinu er hann helzt ofanjarðar, og sýngur lágt „tirrírí.“[2] Þenna eiginlegleika hefir hann fram yfir músina, systur sína. Yms hjátrú hefir verið höfð hèr að auki á fugli þessum. Er það eitt, að ef hjarta úr músarrindli væri látið í hnífsskapt, yrði sá skurður ólæknandi, sem maður skæri sig með þeim hníf.[3] Með því má vita hugsanir annars, ef maður tekur hjarta músarbróður, og heingir í þurt veður, til þess hart er orðið, bindur það síðan í klæði og ber í hendi sèr, meðan maður talar við manninn. Þá verður maður jafnskygn á nótt sem degi, ef maður þvær sèr úr heitu blóði músabróður.[4] Til að stínga svefnþorn, skal taka höfuð músabróður, og heingja það upp yfir höfði á sofandi manni. Vaknar hann þá ekki, fyrr en það er tekið burtu.[5]

Keldusvín. Mèr er það mein, að eg hefi svo lítið um það heyrt, þó Eggert Ólafsson kannist við nógar sögur um það.[6] Hann hefir orðið

1. Tekið eptir almennri sögn í Borgarfirði og Árnessýslu.

2. Ferðabók Eggerts, 585. Mohr segir, að saungur hans sè bæði hár og fagur, sem kanarifugla. Sbr. Kvæði Eggerts, 221. bls., 17. vísu í Búrdrífu-vísum um krossbundna gluggann.

3. Mohr, 54. bls.

4. Sæbjörn. Hamrendabók segir, að maður skuli þvo sig framan í, og bezt í kringum augun úr blóði úr flæðarmús.

5. Þannig Sæbjörn. En Hamrendabók segir svo frá svefnþorni: „Tak hundshjarta og lát í holuna á því smásalt, og lát liggja með 3 nætur, svo blóðið fari úr því; herð síðan í vindi, og heing upp yfir sofandi manni.“

6. Ferðabók Eggerts, 227.—228. bls.

var við þá sögn, að keldusvínið ætti að vera hálft ormur, og gæti því smogið í jörð niður, hversu harður sem jarðvegurinn væri, því flogið getur það ekki. En eg hefi heyrt, að það væri af verri toga spunnið, og hafa menn ráðið það af því, að þegar menn hafa sèð það ofan jarðar, hefir það óðara horfið sjónum, og ætla menn það sè óhreinn andi, sem fari niður í gegnum heila jörðina, hvar sem standi. Galdratrú hefir og verið mikil á því, og úr því var keldusvínsfjöðrin tekin, sem fjölkynngismenn rituðu römmustu galdrastafi með. Ein sögn um keldusvínið er þetta: Sá. sem nær því, á að sofa einn í skemmu eða úthýsi, og hafa keldusvínið bundið við höfðalag sitt. Um nóttina rekur það upp 3 skræki ein öðrum meiri, og drepst við hinn seinasta. Fáir þola hinn fyrsta, færri hinn annan, og því nær eingir hinn þriðja. En þeir, sem hann þola, verða lánsmenn mestu og auðmenn. En ef menn annaðhvort flýa burt eða drepa fuglinn, verða þeir ólánsmenn eða skammlífir.

**d)** Skorkvikindi. Til þeirra skal telja fyrst og fremst galdraflugana, og nýtur hún mest í því nafns síns, og þess annars, að Eggert Ólafsson telur það víst, að fáfróðir menn hafi ætlað, að hún hafi verið höfð til galdra,[1] þó nú fari eingar sögur, það eg veit, af henni. Hún er náskyld mýflugunni. Af mýflugunni segja náttúrufræðingarnir að sèu til 2 tegundir. Aðra kalla þeir þeyflugu, og er það sú, sem kölluð er rekamý í hèruðum þeim, sem næst liggja mestu mývargssveitunum, af því hana rekur þángað undan vindi þegar hvast er, en hina mý eða mývarg.[2] Vart mun almenníngur gjöra þeirra flugna nokkurn mun, og skal því geta hèr mývargsins án greinarmunar.

Mýbitið er hvervetna hèr á landi talin einhver versta plága, sem hugsazt getur, bæði fyrir menn og málleysínga; en einkum eru það tvö bygðarlög, sem eiga hvað þýngst undir þessu böli að búa, Grafníngurinn í Árnessýslu, og Mývatnssveit í Þíngeyarsýslu, og næstu sveitir þar í grend, þegar vindur feykir þángað mýinu. Þó er og víða annarstaðar talsvert mýbit, helzt þar sem veiðivötn eru eða skógar; því eins og silúngurinn sækist eptir flugunni á vötnum, eins sækir flugan í silúngshreistrið sem á vatninu flýtur. Er því optast samfara góðri veiði mikið mýbit. Á báðum fyrrnefndum stöðum verður svo myrkt í lopti af mývarginum, að varla sèr til sólar í heiðskíru veðri, eða svo virðist, sem ský dragi fyrir hana, þegar mýbitstorfurnar fljúga upp, sem Jónas heitinn Hallgrímsson kvað um „Sogið“:

„Og svo var margt af mýi —
mökk fyrir sólu ber —

1. Ferðabók hans, 604. bls.; sbr. Mohr, 95.—96. bls. og Dr. Maurers Isl. Volkss. 171. bls.

2. Sjá Mohr, 94—95. og 98.—101. bls. Sbr. Ferðabók Eggerts, 603.—4. bls. og 712.—713. bls.

að þórður sortnaði sjálfur,
og sópaði framan úr sèr."[1]

A báðum stöðunum gánga menn og skepnur blóðrisa undan vargi þessum, sem fer upp í öll skilníngarvit, sem opin standa, svo ekki verður við spornað, en blóðið lagar úr á eptir. þessi meinvættur hefir þókt svo mikill ófögnuður og illur, að menn hafa ekki getað ímyndað sèr, að guð hafi skapað mýfluguna, sem gjörir svo mikið mein af sèr, heldur hafi hún kviknað í skegginu á kölska, og því er mýbitið kallað „skegglýsnar skrattans." Auk þess, sem áður er talið, er fátt til frásagna af „mýinu í Grafníngnum," nema alkunnar sögur um kerlíngarnar, sem misskildu hver aðra;[2] en frá Mývatni er þessi saga komin, sem hèr fylgir. Einn sinni var meiri mývargur við Mývatn og nálægar sveitir um fráfærnaleytið, en nokkur mundi þá dæmi til, svo að hvorki höfðu menn nè skepnur viðþol fyrir honum. þá var uppi í Reykjadal nyrðra maður sá, sem Guðbrandur hèt, en sumir kölluðu hann Drauga-Brand eða Galdra-Brand, enda var hann talinn fjölfróður, og ákvæðaskáld, og þókti mikilhæfur í sumu, þótt hann væri fátækur. Af því Brandur fèkk ekki síður smèrþefinn af mýbitinu, en aðrir, kvað hann einu sinni í logni og sólskinsmollu-hita, þegar mývargurinn var sem verstur, vísu þessa:

„Gylfi hæða galhvassan
gefi vind á landnorðan,
með óveðri magnaðan,
mývarginn svo drepi hann."

En svo brá við, er hann hafði kveðið vísuna. að þá rak á norðangarð, sem hèlzt í viku með svo miklu frosti og kafaldi, að kviðsnjór varð á jafnsléttu kríngum Mývatn, fè fenti víða eða krókuaði, og tvær konur urðu úti. En ekki sást ein fluga við Mývatn eptir það um sumarið.[3]

þá er brúnklukkan. Hún er alt að því þumlúngur á leingð, svort á lit með hvítan dil að aptan, og lifir í vatni; hún er svo eitruð, að hverri skepnu, sem gleipir hana að óvörum ofan í sig, er vís bani búinn, því hún smýgur í gegnum inniflin, þángað til hún læsir sig inn í lifrina, og hættir ekki fyrr en hún hefir ètið hana upp, enda deya þá menn og málleysíngar, þegar svo er komið, ef henni verður ekki ælt upp áður.[4] Ekki þurfa menn að hugga sig með því, að hún drepist af hitanum niðrí manni; því sagt er, að hún þoli 3 grasagrautarsuður. það er brúnklukk-

1. Ljóðmæli Jónasar Hallgrímssonar 239. bls. Sog heitir vatnsfall það, sem rennur úr þingvallavatni fram í Ölfusá, og aðgreinir Grímsnes og Grafning. Ofarlega í því er gígur einn hjá Kaldárhöfða, sem bæði Grímsnesíngar og Grafníngsmenn hafa haft þá trú á, að mýbit kæmi uppúr á vorin.

2. Sú saga á heima í Kýmnisögum.

3. þessa sögu sagði mèr sèra þórður Árnason á Mosfelli eptir kerlingu frá Mývatni.

4. Sjá Ferðabók Eggerts, 600.—601. bls., Mohr, 87—88. bls og Dr. Maurers Isl. Volkss. 171. bls.

unni til málbóta, að aldrei á annað illyrmi að haldast við í því vatni, sem hún er í. Líks eðlis er vatnskötturinn[1] og smokkormurinn, eptir almenníngs sögn, að þeir leitast við að komast ofan í mann, ef maður drekkur úr því vatni, sem þeir eru í.

**e)** Næst er að geta lagardýranna, og er það sannast að segja, að af þeim fara miklu meiri sögur og hjátrúarfyllri, en af skorkvikindum. Í þessu atriði er allörðugt að gjöra greinarmun á milli yfirnáttúrlegra vera, og þess, sem er dýr í raun rèttri, einmitt af því, að vatnsandarnir eru vanir að bregða á sig ýmsum dýralíkum, og smokka sèr þannig í leyfisleysi inn undir dýraríkið. Það er trú um öll sjóskrýmsli, hvort heldur þau eru dýr eða andar, að þau þekki nafn sitt, og komi undir eins og þau eru nefnd. En einkum á þetta við í „sjóvítum,“ sem svo eru nefnd; en þeim er svo varið, að sá hefir gert sig sekan að sjóvíti, sem nefnir á sjó nafn einhverrar slíkrar óvættar, og egnir hana með því að skipinu. Þykir þá öðrum skipverjum hans sem hann hafi fyrirgjört mötunni sinni, og eigi þeir því að taka hana og skipta milli sín, ef þeir komist til lands heilir á húfi, en hann skuli èta þurt til vertíðarloka. Í þessari vísu eru upptalin nokkur sjóvíti:

„Varastu búra hross og hund,
haltu svo fram um lánga stund;
stökklinum stýrðu frá,
nautið ekki nefna má,
nokkur maður sjónum á.“[2]

Þó eru sjóvíti miklu fleiri en þetta, og er það einhver algildasta varúðarregla á sjó, að nefna aldrei hval, heldur ávalt „stórfisk“ við hvern hval sem maður á, því undir eins og maður nefnir eitthvert þeirra nafna, sem sjóvíti sætir, kemur sá hvalur, sem nafnið á, og vill granda skipinu, ef honum gagnast það fyrir reyðarhvölum, sem verja jafnan skipin fyrir illhvelum, bægja þeim frá, og liggja ofan á þeim, en einkum er til þess nefnd steypireyðurin, sem hèr segir. Svo er sagt, að eitt sinn hafi reyður varið skip heilan dag, og verið orðin mjög móð. En um kvöldið, þegar farið var á stað í land, kastaði einn hásetinn steini í blástursholu henni, svo hún sprakk. En seinna fèkk hann ókennileg veikindi, svo hann rotnaði lifandi, og þókti það vera hefnd fyrir ódreingskap hans.[3] Það er annars talin almenn regla, að þegar steypireiður ver skip í sátri, skuli ekki sitja leingur, en að hún hafi farið tvo, aðrir segja þrjá, hrínga kríngum skipið, og leggist hún þá ekki frá, skuli annaðhvort kippa, eða halda í land, því þá sè illhveli neðan sjávar eða í nánd. Bæði af því, að reyðarnar þykja

1. Sjá Ferðabók Eggerts, 601. bls. Sbr. um báða Dr. Maurers Isl. Volkss. 171—172. bls.
2. Auðkendu orðin í vísunni eru alt sjóvíti og illhveli við þau kend.
3. Sèra Skúli Gíslason eptir frásögn Jóns nokkurs Ásmundssonar.

mestu bjargvættir við illhvelum, og eins af hinu, að sumstaðar er það víst að vænta, að þær leggi kálfum sínum á fjörðum inni, hafa Íslendíngar, meðan sá manndómur var í þeim, hlífzt við að skutla eða elta þær á land sjálfar, en bæði hafa þeir gert það við kálfa þeirra, og hvötu fiskana,[1] því þángað, sem reyðurinn má vera í næði með kálfinn, kemur hún æfinlega árið eptir.[2] það segja menn að sè einkenni á öllum illhvelum, að eingin reykur komi upp úr þeim, þegar þau blása, heldur vatnsýrir einar, en upp af góðum hvölum leggur reyk mikinn, þegar þeir blása; eru það alment kallaðir skíðisfiskar, en hinir tannfiskar.

það hefir verið trú, og er enn, að illhvelin sè svo gráðug, að þau taki skip með mönnum og öllu saman í gin sèr, brjóti skipið í smá mola, en gleypi mennina; því þeir eru svo sólgnir í mannaket og svo þaulsætnir, þar sem þeir hafa einu sinni komizt á það æti, að sagt er að þeir haldi sig þar heilt ár, eða leingur. Fiskimenn varast því að róa lánga tíma eptir á þau mið, sem illhveli hafa grandað skipum og náð mönnum. Mörg, ef ekki öll illhvelin eru talin óætisfiskar, og bannað í lögum að leggja suma þeirra sèr til munns.[3] Eg skal nú nefna nokkur illhveli, sem getið er í munnmælum. Búri ætla menn að sè hvalur sá, sem Danir nefna „Kaskelotten.“ Um hann hefi eg eingar sögur heyrt, en í illhvela tölu er hann talin.[4] Hrosshvelið segja sumir að sè í hestslíki, hneggi eins og hestur og hafi tagl, sem hestar, og víngsi því, er það kemur nærri skipum, með miklum boðaföllum. Af hundhvelinu kann eg eingar sögur. Katthvelið hefi eg heyrt að ætti að blása eins og köttur, þegar það andar frá sèr, og vera með veiðihárum (kömpum) um kjaptinn. Um stökkulinn er það almenn trú, að hann hafi blöðkur fyrir báðum augum, fastar við hausinn að ofan, og sjái hann því ekkert fram undan sèr, nema því að eins, að hann stökkvi upp úr sjónum, sem menn segja að hann gjöri svo hátt, að hann ekki að eins þurki sig upp af sjónum algjörlega, heldur sjái bæði láglendi og lítil fjöll undir sporð hans, og því er hann stökkull kallaður. Sèr hann þá niður undan blöðkunum og fram undan sèr um leið, og með því einu móti hefir hann sjón, og færist um leið áfram við hvert stökk um 4 bárur. þá varúð skal hafa á, til þess að egna ekki stökkul að skipi, að maður má aldrei nefna hann annað á sjó en lèttir,[5]

1. Ferðabók Eggerts, 546. bls.

2. þannig er sagt, að Arnfirðingar eigi optast vísa von á reyðarkálfinum á hverju hausti, undan reyði þeirri, sem þar leggur á hverju sumri á firðinum, með því að þeir vinna hann í septembermánuði.

3. Grágás Kh. 1852, 36. bls. bannar að èta hrosshval og náhval og rauðkembíng; sbr. Konúngsskuggsjá (Sorey 1768) 130.—132. bls.

4. Um búrann er sagt á Breiðafirði, að hann hefir stærstan hans allra hvala. Hann grandar skipum á þann hátt, að hann leggur sinn skolpt á hvort borð, og klippir skipið sundur í miðju. (Guðbrandur Vigfússon.)

5. Sbr. Mohr 17. bls. sem þó hefir heyrt söguna gagnstætt þessu um blindni og sjón stökkulsins.

því hann er hættulegt illhveli, og leitast við að færa alt í kaf, sem hann sèr fljóta, og því stekkur hann upp úr sjónum, að hann er þá að skygnast um, hvort hann sjái ekkert á floti, sem hann geti fleygt sèr yfir, skip eða annað. Til þess að komast undan ofsókn stökkulsins, eru tvö ráð helzt, annað það, að fleygja út tómum kút vatnsheldum, eða dufli, sem flýtur vel, og lofa honum að eltast við það,[1] því sagt er, að hann hætti ekki fyrri að henda sig yfir það, en hann spreingi sig, því kúturinn eða duflið kemur jafn óðara upp aptur, þó hann færi það snöggvast í kaf. En á meðan fá skipverjar nóg undanfæri. Annað ráð er það, ef stökkullinn eltir skip, að halda beint undir sól, því hann sèr þá ekki skipið fyrir sólarglampanum, þó hann stökkvi í lopt upp.

**Jón tíkargjóla og stökkullinn.** (Eptir sogn á Inn-nesjum.) Maður hèt Jón, og var kallaður „tíkargjóla," og bar það til þess, að þegar hásetar hans mögluðu um að róa, af því hann væri svo hvass, var það viðkvæði Jóns allajafna, að þeir skyldu ekki vera að því arna, það væri ekki nema svo lítil tíkargjóla; en Jón var sjósóknari hinn mesti, og kunni ekki að hræðast. Einu sinni, sem optar, reri hann með hásetum sínum til Sviðs á Faxaflóa. En skamma stund höfðu þeir setið, áður en stökkullinn kom, og ásókti þá svo, að þeim gagnaðist ekki að sitja, og Jón varð nauðugur viljugur að halda undan í land, enda tjáði honum ekki annað fyrir hásetum sínum, sem urðu lafhræddir. Daginn eptir var logn og gott sjóveður; reri Jón og hafði með sèr kúlubyssu, sem hann átti, því hann var bezta skytta. Þegar þeir voru komnir í sátur, segir Jón: „Komi nú andskotans stökkullinn, ef hann er nokkur til í sjónum." Hásetarnir urðu forviða við þetta, og sögðu: „Guð fyrirgefi þèr Jón, að tala sjóvíti í logninu." En á sömu stundu sjá þeir, hvar stökkullinn kemur, og stefnir á þá. Jón grípur þegar byssuna og hleypir af í því stökkullinn lètti sèr, svo hann skeldist á augabragði niður í sjóinn aptur, og tók á rás undan til hafs; það merktu þeir á blóðrákinni, sem eptir hann varð í sjónum; en sá stökkull ómakaði þá aldrei framar.

**Brigða.** (Eptir handriti sèra Jóns Norðmanns.) Á Faxaflóa, 2 vikur fram undan Staðarstað, er sker eitt, sem Brigða heitir. Um það er sú saga vestra, að einu sinni hafi fest illhveli eða stökkul á því skeri; úldnaði hvalurinn þar og olli drepsótt í sveitinni. Var það þá tekið til bragðs, að fólk safnaðist til kirkju, en prestur fór í stól, og baðst þar fyrir með söfnuðinum. Kom þá vestanveður svo mikið með stórsjó, að illhvelinu skolaði af skerinu, en dreppsóttinni lètti af.

1. Jón Eiríksson getur þess í neðanmálsgrein við 131. bls. af Konúngsskuggsjá, að sumir kalli hrosshvelið „dettir," spreltfisk, stökkul, blóðruhval; eptir því ætti það þá allt að vera einn fiskur.

Nauthvelið á að vera stærst allra illhvela, að undanteknum lýngbak; það heitir og „fjósi."[1] Nauthveli er það kallað af því, að það öskri sem naut, bæði úti á rumsjó, og eins, þegar það fer með laudi fram, og heyrir kýr baula, baular það á móti; en við org þess verður beljunum svo, að þær gánga á hljóðið, og hlaupa í sjóinn, og hafast aldrei aptur.[2]

Lýngbakur er alkunnur hvalur úr fornsögum, og ekki er trútt um, að ekki fari enn sögur af honum í munnmælum; flest allar eru þær sniðnar eptir hinum eldri. Hann á að vera stærstur allra hvala í sjó, og því sýnist hann vera eya, er hann er ofansjávar, og hefir mönnum sýnzt, sem þar á sè vaxið lýng, og því er hann kallaður lýngbakur.[3]

Sverðfiskurinn er og vondur fiskur; hann liggur á því lúalagi, að leggjast í kjalfar skipa á sjó og elta þau, og grandar þeim, ef hann nær til þeirra. Nafn sitt dregur hann af því, að upp úr bakinu á honum er ýkjahátt bæxli og þunt, sem líkist sverði til að sjá. Með því ber hann sjóinn til beggja hliða, þegar ilt er í honum.

Rauðkembíngur heitir illhveli eitt; er það sagt, að hann hafi rauð hár eptir hryggnum, og þaðan sè dregið nafn hans; eingar sögur þekki eg um hann.[4]

Þá er enn uáhvalurinn. Bæði Konúngsskuggsjá[5] og Eggert Ólafsson[6] segja, að hann sè svo ómannskæður, að hann forðist menn. Að vísu hefi eg ekki heyrt þess getið, að hann grandi skipum á sjó, en hitt telja menn víst, að hann leggist á nái, þar sem menn hafa farizt í sjó, og því heiti hann náhvalur eða náhveli. Úr þeim fiski er hin nafntogaða náhvalstönn.[7]

**Hvalurinn.** (Eptir Olavii Reise i Island. Kh. 1780, 2. Deel, 607 – 8. bls.) Olavíus segir svo: „Árið 1775, nóttina milli 23. og 24. Júlím, fór eg á báti út úr Veiðileysufirði í þoku og þykkviðri, og stóð það þángað til morguninn eptir kl. 8½, að sólskin kom og dreifði snögglega þokunni, svo að vel sást um alla bygðina, nema að eins í fjarðarmynninn. Þar var åð sjá skrokk

1. Mohr, 17. bls.
2. Sbr. I. flokks 2. grein um nykur í Grimsey, 136. bls. á undan.
3. Sbr. Fas. II, 248.—249. bls. og Mohr. 17. bls.
4. Konúngsskuggsjá 129.—30. og 132. bls., Mohr s. st., og Ferðabók Eggerts, 515. bls.
5. 130.—132. bls.
6. Ferðabók hans, 515.—546. bls.
7. Þetta eru þau illhveli, sem eg hefi orðið var að sjómenn eru helzt hræddir við, og kemur mèr þá jafnframt til hugar, að sú hjátrú standi í sambandi við hættu þá, sem sjómönnum er búin af illhvelum, að ætíð skyldi kirkja standa opin, meðan á sjó er verið, og allra helzt, ef presturinn sjálfur var á sjó; þó má vel vera, að það hafi átt að vera vörn við því, að hvesti, svo presturinn kæmist að landi, eins og önnur hègilja sýnist benda enn ljósara á, sú nefnilega, að ekki mætti viðra bækur, meðan á sjó var verið, því þá átti hann að balrjúka eins og vant er, ef bækur eru latnar ut, eða það kemur steypiregn.

einn kolsvartan ofan á sjónum, sem tók yfir tvo þriðjúnga af fjarðarbreiddinni, en hann er nærhæfis ½ vika sjávar á breidd. Skepna þessi líktist mikið stórhveli og hvarf stundum að nokkru í sjó niður, en stundum rètti hún sporðinn upp í loptið og bægslin, og stundum hausinn allann. Þó blæalogn væri, urðu þeir, sem með mèr voru, lafhræddir, og ætluðu, fyrir fult og fast, að þetta væri illhveli, og einkum lýngbakurinn, sem svo er frá sagt í fornum sögum, að sè eins og eya til sýnuar, og þurfi ekki að èta optar en 3. hvert ár, en þá hámi hann í sig alt, sem að kjapti kemur, fiska og fugla, sædýr og annað þesskonar. Við hèldum því að landi, og geingum upp á hæð nokkra; þaðan sáum við sömu sjón og áður, ekki leingra að, en fjórðúng mílu frá sjónum; og virtist okkur það vera reglulegur hvalur. Hóf hann stundum nokkuð af skrokknum frá sjónum hèr um bil álnarhátt, en lá þó í sjónum að öðru leyti. Sýndist okkur hann nú miklu ljósari álits, en áður. Loksins hvarf hann okkur sjónum alt í einu um kl. 9.“[1]

Fleiri lagardýr eru það enn, sem ekki er vandræðalaust við að eiga. Tel eg fyrst til þeirra selinn og selamóðurina. Sagt er að selamóðir sè hvervetna, þarsem margir selir halda sig að jafnaði, og að hún sè meinvættur, sem èti það alt upp, sem nærri henni komi. Einu sinni er sagt, að selamóðir hafi synt upp í Hvítá.[2] Frá uppruna selsins er svo sagt, að þegar Faraó Egyptalandskonúngur veitti Móse og Gyðíngum eptirför yfir Rauðahafið og drukknaði þar með öllu liði sínu, sem kunnugt er úr biflíunni, varð konúngur og allir liðsmenn hans að selum, og því eru beinin í selnum svo lík mannsbeinum. Síðan lifa selirnir sem sèrstök kynslóð á mararbotni, en hafa alla mannlega mynd, eðli og eiginlegleika innan í selshömunum. Eggert Ólafsson kallar þá sæfólk.[3] En það var þeim lagt til líknar, að þeir skyldu komast úr selshömunum á Jónsmessunótt, aðrir segja á þrettánda dags nótt jóla, enda fara þeir þá á land, og taka á sig mannsmynd, sýngja og dansa sem mennskir menn.

**Selshamurinn.** (Sèra Skúli Gíslason, eptir sögn úr Mýrdal.) Einu sinni var maður nokkur austur í Mýrdal, sem gekk hjá klettum við sjó fram að morgni dags fyrir fótaferð; hann kom að hellisdyrum einum; heyrði hann glaum og danslæti inn í hellinn, en sá mjög marga selshami fyrir utan. Hann tók einn selshaminn með sèr, bar hann heim, og læsti hann ofan í kistu. Um daginn nokkru seinna kom hann aptur að hellisdyrunum; sat þar þá úngleg kona og lagleg; var hún allsber og grèt mjög. Þetta var

1. Sjá enn fremur ímyndun Olavíusar um sjóu þessa á 608.—9. bls.

2. Eptir Dr. Maurers Isl. Volkss. 34. bls.; sjá seinna í þessari grein: Selurinn og skatan í Lagarfljóti.

3. Ferðabók hans, 534.—535. bls, og segir hann, að sækýr sèu frá því fólki komnar, en eg hefi heyrt að þær ættu að vera komnar frá marbendlum; sjá 1. flokks 2. grein, 131. bls. á undan.

selurinn, er átti haminn, er maðurinn tók. Maðurinn lèt stúlkuna fá föt, huggaði hana, og tók hana heim með sèr. Var hún honum fylgisöm, en feldi skap sitt miður við aðra. Opt sat hún samt og horfði út á sjóinn. Eptir nokkurn tíma fèkk maðurinn hennar, og fór vel á með þeim, og varð barna auðið. Haminn geymdi bóndi alt af læstan niður í kistu, og hafði lykilinn á sèr, hvert sem hann fór. Eptir mörg ár reri hann eitt sinn, og gleymdi lyklinum heima undir koddabrún sinni. Aðrir segja, að bóndi hafi farið með heimamönnum sínum til jólatíða, en kona hans hafi verið lasin og ekki getað farið með honum; hafi honum gleymzt að taka lykilinn úr vasanum á hverndagsfötum sínum, þegar hann hafði fataskipti; en þegar hann kom heim aptur, var kistan opin, konan og hamurinn horfinn. Hafði hún tekið lykilinn, og forvitnazt í kistuna, og fundið þar haminn; gat hún þá ekki staðizt freistínguna, kvaddi börn sín, fór í haminn og steyptist í sjóinn. Áður en konan steypti sèr í sjóinn, er sagt hún hafi mælt þetta fyrir munni sèr:

„Mèr er um og ó,
eg á sjö börn í sjó,
og sjö börn á landi.“

Sagt, er að manninum fèllist mjög um þetta. Þegar maðurinn reri síðan til fiskjar, var selur opt að sveima í kríngum skip hans, og var eins og tár rynnu af augum hans. Mjög var hann aflasæll upp frá þessu, og ýms höpp báru upp á fjörur hans. Opt sáu menn það, að þegar börn þeirra hjóna geingu með sjávarströndinni, synti þar selur fyrir framan í sjóunum, jafnframt sem þau geingu á landi eða í fjöruuni, og kastaði upp til þeirra marglitum fiskum og fallegum skeljum. En aldrei kom móðir þeirra aptur á land.[1]

Sú er trú á selnum, að ef hann kemur í móti skipi, þegar byrjuð er sjóferð, skuli snúa aptur, því það sè ills viti, en það sè góðs viti, ef hann haldi í sömu átt og skipið, eða leggist í kjalfarið. Sèra Jón Norðmann segir svo: „29. Maí 1847 fórum við Grímseyíngar á stað um kvöld í blæa blíða logni og bezta útliti. Kom þá á firðinum selur á móti okkur. Fóru svo eyarmenn að tala um, að þetta væri ills viti, og var af ráðið að halda vel austur á, svo við gætum þó náð Flatey, ef ekki vildi betur til. Hèldum við svo norðaustur, en hlutum að snúa aptur; feingum við þá vondan garð, og náðum aptur Þaunglabakka í Fjörðum. Sè þetta stöðug regla, get eg ekki gjört mèr það skiljanlegt öðru vísi en svo, að selurinn annaðhvort leiti undan veðri, eða til lands, þegar von er á vondu veðri.“ — Enn er það sögn um selinn, að hann sè undur forvitinn, en einkum sè

1. Dr. Maurer, sem einnig hefir tekið þessa sögu eptir frásögn sèra Bjarnar Þorlákssonar á Höskuldsstöðum, ber hana saman við sögur, sem gánga á Þýzkalandi af „Schwanjungfrauen“ (svanmeyum), Isl. Volkss. 173. bls. Sbr. Færeysku söguna: Kópakona í Antiquar. Tidsskrift 1849—1851, 190.—193. bls. og mismuninn neðanmáls á 193.—194. bls.

hann nærgaungull við ólèttar konur, og sjái hann fyrr á þeim, en nokkur maður merki þúnga með þeim, og eins ef hann sèr eitthvað rautt; syndir hann þá sí og æ fram og aptur, þar sem hann sèr annaðhvort á landi upp, en fylgir jafnt og þètt því skipi, sem hann veit af þúngaðri konu í, eða sèr á rauðan lit. En mest ofboð og hnýsni kemur á hann, ef hann sèr ólètta konu í rauðu fati, eða með rauða svuntu.

Þessu næst er að minnast á skötuna og skötumóðurina. Skötumóðir er samskonar óvættur að sínu leyti með skötum eins og selamóðir í selaflokki.[1] Sèra Jón Norðmann hefir þá sögu eptir móðurmóður sinni, en hún hafði hana eptir sèra Jóni Þorlákssyni, þjóðskáldinu mikla, að einu sinni þegar hann var á sjó fyrir vestan með öðrum á báti, kom þar skötumóðirin og lagði börðin beggja megin upp á borðstokkana, og ætlaði svo að draga bátinn í kaf. Sèra Jón greip þá stóra sleddu, sem lá í bátnum, og risti af henni börðin, svo hún hafði sig á burt.[2] Þegar skata er dregin úr sjó, er það sumstaðar siður, að skera af henni halann, skera hann svo aptur í þrent, og kasta einum partinum aptur fyrir bátinn, öðrum út á stjórborða, og hinum þriðja út á bakborða.

**Helgasti fiskur í sjó.** (Eptir „Tydfordryf" Jóns Guðmundssonar lærða.) Eptir því að St. Pètur skyldi svar greiða, hvert fiskakyn helgast eða náttúrurikast hann hèldi í sjónum vera, þá skyldi hann sínum aungli hafa út kastað, og beðið guð að sýna sèr þann fisk, og þá hafði hann dregið skötu, hverri hann aptur slepti, þókti það ljótur fiskur, svo sem óætur. Aptur kom og einninn skata, og í þriðja sinni; hana lèt hann inn, og krufði, og fann í henni pípur þær eða púnga, sem síðan heita Pètursbuddur.[3] — Í sumum skötum, einkum hinni litlu tindaskötu, eru tvær pípur, vaxnar með hryggnum, sem aðrar hafa ekki; þar í verða þessar buddur, hverjar eptir 9 mánuði skulu af henni út getast. Síðan skal hún þar yfir liggja sem fugl á eggjum (hvort það eru 9 vikur eða mánuðir hefi eg ei sannlega heyrt nè lesið), utan að sönnu verða buddurnar svartar á þeim tíma, og síðan rekur þær tómar nóglegar á Hornströndum, og opnar á öðrum enda, sem hulinhjálmssteininum hefir út farið, er margir ætla að útleiðist úr Pètursbuddunni. — Þeir gömlu hèldu skötu hafa flestar náttúrur af fiskakynum, 9 neytar og 9 ónáttúrur; hinar fyrstu, að hún veri dauðan mann 9 nætur, en uppèti hann aðrar 9, sem málsháttur er af. Sú ónáttúra

1. Sbr. Dr. Maurers Isl. Volkss. 34. bls.

2. Sbr. seinna í þessari greiu: „Selurinn og skatan í Lagarfljóti."

3. Sumstaðar er Pètursbuddan kölluð Pètursskip, og er ekki óliklegt, að til hafi verið saga um það, að buddan hafi verið fiskibátur sánkti Pèturs, þó ekki hafi eg getað náð í hana, og buddan sè, eins og hún lítur út, heldur ólöguleg, til þess að vera skip, því hún er hylki í lögun líkt og börur með kjálkum, og standa út úr henni fjórir ángar eða oddar, tveir fram og tveir aptur. Buddan er hol innan og opin í annan endann.

fylgir því, ef hún er ètin síðast matar að kvöldverði, þá lýgur hún upp á þann saklausa, þó mannsmorð sè. Hún skal heilnæmust að morgun-verði eða miðdegis, og þó ekki fyrst matar, heldur þar næst, aldrei þó seinast matar.

Þá er einn flyðrumóðirin. Hún er og talin voða gestur mikill, þó ekki sè mönnum kunnug hryðjuverk hennar. Sèra Jón Norðmann segir svo: „Frá því var mèr sagt vestra, að einhvern tíma, ekki alls fyrir laungu, var maður við fisk, og kom í mikið heilagfiski. Það var á fertugn djúpi. Dró hann þá fyrst eintómar smálúður, svo smástækkuðu sprökkurnar, og grynti um leið, uns hann dró stórlúður á 10 faðma djúpi. Þorði hann þá ekki að haldast þar leingur við, því hann þóktist vita, að þar mundi vera undir flyðrumóðir með fjölskyldu sinni, sem hann hefði dregið svo margt af um daginn, en hún mundi valda því, að svo mjög grynti á færinu. Það er líklegt þó ekki viti eg sögur um það, að heilagfiskið hafi feingið það nafn sitt af sánkti Pètri, sem var svo voldugur fiskimaður."

Loksins er þá laxamóðirin eptir. Hún er talin voðalega stór skepna, og er alt hið sama með löxum, sem flyðrumóðirin með lúðum, en eingar fara sögur af meingjörðum hennar. „Frá því var mèr og sagt," segir sèra Jón Norðmann, „að í Laxá í Hnappadalssýslu hafi fyrrum verið mikil laxveiði og silúngsveiði. Hylur einn var í ánni og jarðhús í, og var þar óvenjan öll af silúngi og laxi, en náðist aldrei. Var það þá til bragðs tekið, að sel var hleypt í hylinn, og haft band á honum, en menn voru fyrir neðan með net. Fældi selurinn svo fyrst fram smásilúngana, síðan komu fram laxarnir, og veiddu menn hvorutveggja. Loksins komu tvær ógnar stórar skepnur fram úr jarðhúsinu; það voru laxamæðurnar. Ösluðu þær fram ána, rifu öll netin, og hèldu af út í sjó. Þá er sagt, að hafi tekið fyrir veiðina í Laxá."

Enn er að minnast nokkurra smáfiska í sjó og í vötnum, sem minna sópar að, en hinum fyrtöldu. Eg nefni þá fyrst hlýrann. Hann er í ætt við steinbítinn, og kallaður bróðir hans.[1] Hann hefir sèr það til ágætis, eins og aðrir fiskar, að hann hefir tvær kvarnir, og fylgir þeim manni lán mikið, sem ber gæfu til að ná þeim. Svo er því varið, að hlýrinn hleypir niður úr sèr kvörnunum, um leið og hann kemur upp úr sjónum. En hver sem þá er svo fimur, og kunnáttusamur, að hann geti komið höndunum undir hlýrann, og náð kvörnunum, honum fylgir þaðan í frá lán og lukka á landi og sjó. Um upsann er sú trú, að minnsta kosti sumstaðar, að sá verði aldrei fisklaus, sem eigi upsa í eigu sinni. Til eru bæði ódrættir í sjó og óætisfiskar í vötnum, og tel eg til dæmis af ódráttunum blágómuna. Vestfirðíngum þykir hún sú ókind, að þeir skera á færið, þegar hún kemur í ljósmál, heldur en að innbyrða

1. Mohr, 64. bls.

hana.[1] En þessir eru taldir óætisfiskar í vötnum: „hrökkállinn,[2] öfugugginn[3] og loðsilúngurinn.“ Eingiun maður er svo djarfur, að leggja sèr hrökkál til munns, enda munu þess fá dæmi, að hann hafi veiðzt. Hann er álnarlángur og heldur sig helzt í forarpyttum og stöðuvötnum, en þó einnig í rennandi vatni. Ef einhver skepna, stórgripir eða menn, stíga fæti sínum í það vatn, sem hann er í, hríngar hann sig utan um fótinn og skellir honum sundur, eða sker hann inn að beini, og þykjast menn hafa tekið eptir því, að hestar hafi komið haltir upp úr vötnum, og hafi annaðhvort mist neðan af einum fætinum um mjóaleggimn eða verið skornir þar inn í bein alt í kríngum fótleggiun. Þó vinnur hann ekki á sauðarfætinum, því hann er of mjór til þess, að hann geti krept sig utan um hann.[4] Ekki ber mönnum saman um, hvernig á því standi, að hann stýfir sundur fætur manna og gripa. Eggert Olafsson segir, að hrökkállinn sè svo eitraður, að hann èti sundur fótinn. En Mohr hefir heyrt það sagt hèr á landi, að hann hafi ugga hvassa sem sagartennur, og með þeim skeri hann sundur hold og sinar inn að beini.[5] Öfugugginn er sagt, að sè eins og silúugur, að öllum skapnaði, nema hvað hann er kolsvartur á lit, og að uggarnir snúi öfugt á honum, og af því dregur hann nafn sitt. Hann er svo baneitraður, að hver, sem er svo vanvar að smakka á honum, hann liggur þegar dauður eptir. Sama er að segja um loðsilúnginn, sem mèr er enn ókunnugra um. En hèr set eg nú sögur sína um hvern þessara óætisfiska.

**Öfuguggi.** (Eptir norðlenzkri og vestfirzkri sögn.) Bær er nefndur Kaldrani, er lá nærri fjöllum; annar bær var þaðan býsna lángt burtu, og er eigi getið, hvað hann hèt, en nær var hann bygðum. Báðir þessir bæir höfðu silúngsveiði í vatni nokkru allstóru, er var á milli bæanna. Eitt sinn heyrðu menn á þeim bænum, sem ekki er nafngreindur, að komið var upp á baðstofu-glugga um kvöld, og þetta kveðið:

„Mál er að gana,
[geislar flana.[6]
[Liggur lífs andvana
lýðurinn á Kaldrana,[7]
[utau sú eina seta,[8]
sem ekki vildi eta.“[9]

1. þessar sagnir frá hlýranum eru teknar eptir handriti sèra Jóns Norðmanns.
2. Shr. Mohr. 63. bls. og Ferðabók Eggerts, 596. bls.
3. Ferðabók Eggerts, s. st.
4. Sèra Skúli Gíslason eptir Páli Ólafssyni.
5. Ferðabók Eggerts, 596. bls., og Mohr, 62.—63, bls.
6. Frá [hafa aðrir þannig: „maðurinn hárvana.“
7. Frá [hafa aðrir þannig: „alt liggur andvana
fólkið á Kaldrana.“
8. Seta á að þýða sama sem „niðurselningur.“
9. Sumir sleppa 5. og 6. vísuorði, en tvítaka í þeirra stað 4. vísuorð.

Eða svo[1]:

„Mál er að gala
hauknum hálfvana.
Liggur allur lífs andvana
lýðurinu á Kaldrana.
Át af óvana,
át sèr til bana.
Liggur allur lífs andvana
lýðurinn á Kaldrana.

Kviknaði þá umræða af þessum hendíngum; þóktu öllum þær undarlegar, og lögðu ýmist til. En bóndi sagði, að menn skyldu fara að morgni að Kaldrana, og vita, hvað þar væri tíðinda. Leið svo af nóttin; en að morgni komandi var farið að Kaldrana, og fundust þar allir bæarmenn dauðir, nema barn eitt, sem þar var í niðursetu. Þeir, sem að komu, sáu, að heimamenn höfðu allir verið að matast; því sumir sátu enn, þótt dauðir væru, með silúngsfötin í knjám sèr, en aðrir höfðu rokið um koll með silúngsstykkin í höndunum. Húsfreyu fundu þeir dauða á eldhússgólfinu; hafði hún fallið fram yfir pottinn, og rèðu menn af því, að hún mundi hafa farið að borða úr pottinum, þegar hún var búin að færa upp og skamta hinu fólkinu. Þessi atburður þókti öllum kynlegur; því eingir sáust áverkar á hinum dauðu. Var þá niðursetníngurinn spurður, hvernig þetta hefði orðið, og sagði hann, að fólkið hefði dáið, þegar það fór að borða, en hann sagðist ekkert hafa viljað, og ekki heldur borðað neitt af silúngnum. Var silúngurinn því næst aðgættur, sem af var neytt, og sáu menn, að það var öfuguggi, en ekki silúngur; en öfuguggi hefir jafnan þókt drepvænt óæti.

**Loðsilúngur.** (Eptir handriti Þórðar bónda Árnasonar á Bjarnastöðum.) Þrándarholt hèt bær í Flókadal í Borgarfjarðarsýslu. Hjá bænum var vatn eitt, er nefndist Þrándarvatn. Sagt er, að 2 menn hafi veitt fisk í vatni þessu og borðað hann, en dáið af því, og hefir ekki verið veitt í vatninu eptir það. Á Arnarsvatnsheiði er vatn, er nefnist Gunnarssonavatn; þar var fyrr um veiðimannaskáli, og er sagt, að 2 bræður hafi legið í skálanum til silúngsveiði, og hafi þeir fundizt dauðir með diskana í knjánum, þegar að þeim var komið. En þegar betur var skoðað, sást, að silúngurinn, sem þeir höfðu ètið, var loðfiskur. Bræður þessir voru Gunnarssynir. Af þessu er vatnið kallað Gunnarssonavatn, og hafa menn ekki veitt í því síðan.

Loksins skal hèr getið, að margar sögur hafa farið af ormum og skrýmslum, sem sèzt hafa hèr og hvar bæði í vötnum á Íslandi og í sjónum. Til þeirra sagna er brekkusnígillinn, eða þó öllu heldur lýngormurinn undirrótin. En um brekkusnígilinn er það almæli, að ef maður nái með

1. Seinni vísan er hèr, eins og hún er höfð í Dalasýslu.

fíngrinum í horn það, sem stendur fram úr miðjum hausi hans, mitt á milli þeirra fjögra horna, sem á honum eru og mest ber á, þá komi það alt fram, sem maður óskar sèr, á meðan maður heldur í hornið. En til þess að koma brekkusniglinum til, að rètta fram miðhornið, því hann er tregur á því, skal bera gullhríng að hausi hans, og hafa yfir þenna formála um leið:

„Brekkusnígill, brekkusnígill,
rèttu út miðhorn,
eg skal gefa þèr gullhríng
á hvert eitt þitt horn.“[1]

Sumir segja og, að hvort sem maður leggi gull undir brekkusnígil,[2] eða lýngorm, vaxa bæði ormurinn og gullið, uns ormurinn verður ákaflega stór og mannskæður, ef ekki er nógu snemma aðgætt og ormurinn drepinn; en ormurinn er svo elskur að gullinu, að fyrr lætur hann drepa sig á því, en flæma sig af því; þaðan er kominn talsháttúrinn um nirfla, sem fastheldnir liggja á gulli, þyki á fè sínu, „að þeir lúri á því sem ormur á gulli.“ En sè þeir ormar látnir halda lífi, hefir það optast orðið niðurstaðan, að orminum með gullinu hefir verið snarað í vatnsföll eða stöðuvötn, og hafast þeir þar æ við síðan. Þess konar ormur er í Lagarfljóti í Múlasýslu, og kannast bæði sèra Stefán[3] og Eggert[4] Ólafssynir við hann, enda skal hans þegar getið. Annar á að vera í Skjálfandafljóti, þriðji í Hvítá, fjórði í Skorradalsvatni. Líkur ormur er sagt að sè í Surtshellir, og því á Þuru landi. En flestar slíkar frásögur eru mjög líkar því, sem sagt er um lýngorm Þóru borgarhjartar, í sögu Ragnars loðbrókar.[5] Að lyktum set eg hèr sögur um ókindurnar í Lagarfljóti.

**Ormurinn í Lagarfljóti.** (Eptir sögn skólapilta úr Múlasýslu 1845.) Það bar til einu sinni í fornöld, að kona nokkur bjó á bæ einum í Hèraðinu við Lagarfljót. Hún átti dóttur eina vaxna. Henni gaf hún gullhríng. Þá segir stúlkan: „Hvernig get eg haft mest gagn af gullinu því arna, móðir mín?“ „Legðu það undir lýngorm,“ segir konan. Stúlkan tekur þá lýngorm, og lætur gullið undir hann og leggur ofan í trafeskjur sínar. Liggur ormurinn þar nokkra daga. En þegar stúlkan fer að vitja um eskjurnar, er orminum svo stór orðinn, að eskjurnar eru farnar að gliðna í sundur. Verður stúlkan þá hrædd, þrífur eskjurnar og kastar þeim með öllu saman í

1. Formálinn er eptir handriti sèra Jóns Norðmanns.

2. Ferðabók Eggerts, 715. bls.

3. Kvæði sèra Stefáns Ólafssonar. Kh. 1823, 8. bls.

4. Ferðabók hans. 793.—797. bls. Á þessum stað er og getið margra annara óvætta í Lagarfljóti, sem hèr verður og drepið á og sýna slíkar sagnir bezt af öllu, hversu náið er nef augum, og að hágt sè að greina kynjasögur úr náttúrunni frá sögum um anda þá, sem í vötnum búa.

5. Fas. II, 237 —239. bls.

fljótið. Líða svo lángir tímar, og fara menn nú að verða varir við orminn í fljótinu. Fór hann þá að granda mönnum og skepnum, sem yfir fljótið fóru Stundum teggðist hann upp á fljótsbakkana og gaus eitri ógurlega. Þókti þetta horfa til hinna mestu vandræða, en einginn vissi ráð til að bæta úr þeim. Voru þá feingnir til Finnar tveir. Áttu þeir að drepa orminn og ná gullinu þeir steyptu sèr í fljótið, en komu bráðum upp aptur. Sögðu Finnarnir, að hèr væri við mikið ofurefli að eiga, og væri ekki hægt að bana orminum, eða ná gullinu. Sögðu þeir að annar ormur væri undir gullinu, og væri sá miklu verri en hinn. Bundu þeir þá orminn með tveimur böndum. Lögðu þeir annað fyrir aptan bæksslin, en annað aptur við sporðinn. Ormurinn getur því eingum grandað, hvorki mönnum nè skepnum, en við ber, að hann setur upp kryppu úr bakinu. og þykir það jafnan vita á stórtíðindi, þegar það sèst, t. d. harðæri eða grasbrest. Þeir sem einga trú leggja á orm þenna, segja, að það sè froðusnakkur, og þykjast hafa sagnir um það, að prestur nokkur hafi ekki alls fyrir laungu róið þar þvert yfir, sem ormurinn sýndist vera, til að sanna með því sögu sína, að hann sè einginn.[1]

**Selurinn og skatan í Lagarfljóti.** (Eptir sögusögn Múlasýslumanna 1847. M. Gs.) Straumur heitir bær á norðurbakkanum á Lagarfljóti í Kirkjubæarsókn. Fram undan bænum liggur skata ein í fljótinu. Hún hefir níu hala, og er hinn mesti óvættur. Skata þessi gjörði mörgum manni mein, því hún lá á ferjustað. Loksins kom þar kraptaskáld að, og kvað skötuna fasta niður við botninn í fljótinu. Síðan hefir hún eingum manni mein unnið. — Það er til sannindamerkis um, hversu skata þessi er eitruð, að svo bar til einu sinni, eptir að hún var föst kveðin, að sakamaður nokkur synti upp fljótið. Kom hann þá við skötuna með stóru tánni, og varð honum kynlegt við. Hann fór undir eins á land, og sá að táin var svört og upp blásin. Hjó hann þá af sèr tána. Þessi vísa hefir verið kveðin um skötuna:

„Skatan liggur barða-breið
und báru-glaumi,
snýr upp hrygg og eingu eirir
undan Straumi“[2]

Önnur óvættur er sú í Lagarfljóti sem margt mein hefir gjört. Það er selur einn stór og mikill. Hann liggur undir fossinum í Lagarfljóti, utar en skatan. Hann var og að lyktum kveðinn fastur við klettinn undir fossinum; þar liggur hann og má sig einguin til meins hreifa.[3]

1. Sjá Dr. Maurers Isl Volkss., 175. bls. Kvæði sèra Stefáns, 8. bls., og Ferðabók Eggerts, 793. bls.

2. Sbr. Ljóðmæli sèra Stefáns Ólafssonar, 8. bls., 59.—61. erindi.

3. S. st. 8.—9. bls., 62.—66. erindi.

**Skrýmslin í Lagarfljóti.** (Eptir brèfi Hans sýslumanns Wíum í Múlasýslu 1750.) þessi skrýmsli hafa opt sèzt, en einkum 1749 og 1750. Frá því um vorið 1749 og til þess haustið 1750 sáust þau öðru hvoru af valinkunnum mönnum. Pètur lögsagnari í norðurparti Múlasýslu og tveir menn aðrir sáu eitt frá Ketilstöðum á Völlum, en einga mynd gátu þeir deilt á því. Aðrir tveir menn fóru saman samdægurs, og hitt bar fyrir þá Pètur, upp eptir Hellunum. þeir sáu fyrir utan Arneiðarstaði skepnu nokkra fara upp eptir fljótinu, á vöxt við stóran sexæríng, og fór hún hart mjög; þetta sama sá og alt fólkið í Hafursgerði, sá bær er skamt þaðan. þriðji maðurinn fór einnsaman sömu leið, og hinir tveir; hann sagðist og hafa sèð eitt skrýmslið skamt undan landi sem sel, en leit út á belginn, sem skata, þegar hún er dregin úr sjó; þessi skepna stakk sèr þegar aptur með miklum boðaföllum. þessir þrír menn komu að Arneiðarstöðum um kvöldið, og sögðu frá því, sem fyrir þá hafði borið. En á meðan þeir voru að segja frá þessu, sáu þeir allir í einu skrýmsli þar niður undan bænum; var það fyrir víst 30 til 40 faðma á leingd með háum hnúk upp úr bakinu, og einn þeirra þóktist sjá ánga fram úr því og aptur, sem lágu lángt út í fljótið. Alt voru þetta sannsöglir menn og vandaðir. Auk þessa hafði alt Arneiðarstaða fólkið sèð skrýmslið bæði fjarri og nærri landi þar undan bænum, en hefir það aldrei getað sèð svo skapnað þess, að það hafi getað lýst honum greinilega. Eptir þetta sá alt fólkið í Hrafngerði þrjá hnúka upp úr fljótinu, alt að því heilan dag, og vatnaði í milli þeirra allra mörg hundruð faðma, eptir því sem bóndinn hafði frá skýrt. Einu sinni var Hans Wíum nótt á Arneiðarstöðum, en um morguninn voru prestarnir sèra Hjörleifur, sèra Magnús og sèra Grímur þar og staddir, og sáu þeir allir í stillilogni og bezta blíðviðri blástur rètt yfir undan í fljótinu, sem hvalblástur, en þó var hann öllu meiri. þá voru menn farnir út eptir fljótinu í flutníng, og sáu þeir skamt þaðan, sem blásturinn var, við líkt og varða væri upp úr fljótinu. þegar þeir höfðu horft á það nokkra stund, tók það til rásar upp að landi. Aldrei hafa þó orðið meiri brögð að þessum sjónum, en vorið og sumarið 1750; því þá sáust skrýmsliu í ánum upp frá fljótinu, þrjú undan Hrafnkelsstöðum, tvö í hestlíki, með brúska upp úr hnakkanum og hnúð á hryggnum, og voru þau svört til sýndar. Eitt þeirra rètti upp tvær trjónur, og vatnaði yfir á milli. þár að auki lagðist eitt á land fyrir utan Víðivelli, og sáu það þrír menn. Annað lagðist á land hjá Hreiðarstöðum, og sagði bóndinn þar svo frá því, að það hefði verið sem stærsta hús. Miklu optar hafa slík skrýmsli sèzt í Lagarfljóti, og þar á meðal vorið 1819. Sást það þá fyrst við ísbrúnina, þar sem fljótið var autt við landið, fram undan Hafursá. það var eptir ágizkun þeirra, sem það sáu, hèr um bil tvær til þrjár teigshæðir frá landi, grátt á að sjá og í lögun, sem hestur stæði á höfði og lendin upp; en hvorki sáu þeir fætur nè ánga neina út úr því. þetta sást fyrst á laugardag; svo fluttist það með ofur

hægri ferð, móti straumi og hægum vindi, upp á móts við Hallormstað, og þar hvarf það loksins sunnudaginn næstan eptir. Meðan á þessu stóð, var ísinn að reka út eptir á fljótinu. Sjónarvottar að þessu voru þeir sèra Gunnlaugur á Hallormstað og Hinrik á Hafursá og margir fleiri. Einn þeirra, sem þetta sáu, vildi skjóta í það; en hinir vildu ekki lofa honum það. Ekki var ueinn bátur við höndina, enda mundu fáir þeirra, sem sáu skrýmslið, hafa árætt út að því; því þeir voru eingar kempur, nema það hefði verið sá, sem vildi skjóta á það.[1]

Í Jökulsá á Brú hefir og sèzt líkt skrýmsli fyrir ofan brúna frá fjórum bæum: Giljum, Teigaseli, Skeggjastöðum og Hvanná. Sagt er að það hafi verið nokkru stærra en hestur, svart á lít, en líkast í vaxtarlagi íslenzkum bát. Fór það upp eptir ánni á móti straumi, og í einum stað kom það á grynníngar, og höfðu þar orðið mikil umbrot; en einginn treystist að hyggja nákvæmar að því.

**Ormsbæli.** (Eptir Olavii Reise gjennem Island. Kh. 1780, 2. Deel. 468. bls.) Flatt sker austanvert við Papey fyrir Suður-Múlasýslu heitir Ormsbæli. Það er í mæli, að þar hafi legið ormur á gulli eða dreki til forna, þángað til Hollendíngur einn, sem Kumper hèt, skaut á bælið með fallbyssum, til þess að hrekja orminn af gullinu og ná því sjálfur. Þess er ekki getið, hversu mikið gull Kumper faun í Ormsbæli, en hitt er sagt, að ormurinn hafi fyrst flúið til Ormsskers, og þaðan inn á Hamarsfjörð, og ætla menn, að hann hafi tekið sèr þar varanlegan bústað á firðinum, og komi í ljós fyrir stórtíðindum, eins og ormurinn í Lagarfljóti, og skrýmslið Hvammsfirði fyrir vestan, og því er sagt, að menn þori ekki að róa til fiskjar á hvorugum staðnum.

## 2. GREIN.

### GRASASÖGUR.

Eins og munnmælasögur gánga af einstökum dýrum, eins fara og sögur af grösum; en af því miklu minna kveður að grasalífinu, en dýralífinu, eru sögurnar um grösin miklu færri og efnisminni, en um dýrin. Þessara grasategunda, sem nú verða nefud, hefi eg að eins heyrt getið í muunmælum.

**a)** Af viðartegundum hafa einna mestar sögur farið af reyniviðnum, enda hefir verið allmikil trú á honum bæði að fornu og nýu,

1. Frásögnin um skrýmslin, sem sáust 1819 í Lagarfljóti, er tekin eptir brèfi úr Múlasýslu, dagsettu 16. Juni s. á.

og jafnvel alt fram á vora daga. Hann hefir haft einhverskonar helgi á sèr, og merkilegt er það, að hann skyldi verða Ásaþór til lífs, er hann óð yfir ána Vimur til Geirröðargarða, og er því reynir síðan kallaður sjálfsagt í heiðnrs skyni „björg þórs,“ sem Edda segir.[1] þó er það enn helgara og háleitara, sem stendur um hann í Sturlúngu, þar sem Geirmundur heljarskinn sá ávalt ljósið yfir reynilundi, sem vaxinn var í hvammi einum, er Skarðskirkja á Skarðsströnd var síðan bygð í. Af því hann var heiðinn maður, var honum ljós þetta ekki að skapi, en svo voldugur og ríkur höfðingi sem Geirmundur var, dirfðist hann alt um það ekki að uppræta reyniruuminn, en óskaði sèr að eins, að hann væri horfinn burt úr landeign sinni, og fèkk ekki viðgjört að heldur, og hýddi smalamann sinn harðlega fyrir það, að hann lamdi fè Geirmundar með reyniviðarhrísln.[2] Seinna á öldum hefir hann þókt einhver óbrigðulasti sakleysisvottur, þegar hann hefir sprottið á leiðum þeirra manna, sem söknm hafa verið bornir, og afteknir, án þess að hafa geðið sannsýknu sína í lifanda lífi, og eru um það þessar sögur. Á fyrri öldum er sagt, að systkin tvö hafi verið í Vestmannaeyum af góðum ættum. En svo fór, að stúlkan varð barnshafandi í föðurgarði; af því þau systkinin unnust mjög, ljóstuðu skæðar túngur því upp, að bróðir stúlkunnar mundi eiga þúngann með henni. þessi kvittur kom og fyrir lögsaguarann í eyuunm, og fór hann þegar til að ransaka málið. það tjáði ekki, þó bróðirinn afsakaði sig frá þessum glæp, og vitnaði það hátt og dýrt, að hann væri saklaus, nè heldur hitt, þótt systir hans bæri hann undan öllum sökum og samlegi við sig, og nefndi til annan mann, sem þá var farinn úr eyunum. Og með því þá var alment mjög ríkt geingið eptir um blóðskammir hèr á landi, þó yfirvaldsmenn hefði ekki annað en ósannaðan grun fyrir sèr, feldu þeir hvern lífleysisdóminn á fætur öðrum á þá sakbornu, og svo fór hèr. þau systkin voru dæmd til dauða og dóminum fullnægt. En sagt er, að þau hafi bæði beðið guð þess grátandi á aftökustaðnum að sanna sakleysi sitt, eptir að þau væru líflátin, þó mennirnir hefðu ekki viljað trúa því í lifanda lífi; einnig hafi þau átt að biðja foreldra sína að sjá til þess, að þau feingi að liggja saman í Landakirkjugarði. Eptir það voru þau tekin af, og eptir lánga mæðu og líklega miklar fègjafir til kirkju og kennidóms, sem þá var alltítt, var foreldrunum leyft kirkjugarðsleg fyrir börn sín, en þó máttu þau ekki bæði liggja í sömu gröf, heldur skyldi grafa annað sunnan megin kirkjunnar, en hitt fyrir norðan hana, og var svo gjört. þegar fram liðu tímar, fóru menn að taka eptir því, að sín reyniviðarhríslan óx upp úr hvoru leiði þeirra systkina, og hækkuðu þær ávalt eðlilega, uns limar þeirra tóku saman yfir kirkjumæninn, og var svo virt, að með því að láta

1. Sjá Snorra-eddu I, 286.— 288. bls.

2. Sturlúngasögu I, Kh. 1817, 3. kap., 5.—6. bls. Sú trú helzt og enn austur í Skaptafellssýslu, að ekki megi lemja fènað með reynivið.

reynihríslur þessar vaxa á leiðum þeirra, sem eingiun vissi til, að nokkurs manns hönd hefði gróðursett þar, vildi guð lýsa sakleysi systkinanna fyrir hinum lifandi. En hitt, að hríslurnar beygðust hver að annari yfir kirkjumæninn, og sameinuðu þar blöð sín og limar, þókti benda til hins saklausa og ástúðlega samkomulags systkinanna í lifanda lífi, og lauugunar þeirra, að mega liggja bæði í einni gröf eptir dauðann. Svona uxu og stóðu reynitrè þessi um lánga tíma, þángað til Hund-Tyrkinn kom með hernaði í Vestmannaeyar öudverðlega á 17. öld, rændi þar fè og mönnum, og aðhafðist þar mörg hryðjuverk, sem kunnugt er; eitt af þeim, segir sagan, hafi það verið, að Tyrkir hjuggu upp bæði reyniviðartrèu í Landakirkjugarði, og hótuðu, að þeir skyldu aptur koma í eyarnar með ekki minni ránskap og hernað, en þeir fóru þá, þegar trè þessi væru orðin jafnhá aptur í uæsta sinn. En ekki hafa menn sögur af, að trèn hafi nokkurn tíma sprottið eptir þetta, og er það talin mesta mildi guðs, því ef svo hefði farið, mundu Tyrkir hafa efnt orð sín. Önnur saga mjög lík þessari geingur í Eyafirði um systkin tvö, sem dæmd voru til dauða fyrir blóðskömm og aftekin í Möðrufellshrauni. Þau sögðust ávalt vera saklaus. Þegar þau voru komin á aftökustaðinn, báðu þau til guðs, að hann vildi þó að minnsta kosti sanna sakleysi þeirra eptir dauðann. Síðan voru þau tekin af, og ox upp úr blóði þeirra reynitrè,[1] og af þessum viði er sagt að nægð hafi verið þar áður, en nú er eingin hrísla eptir í því bygðarlagi. Miklu fleiri sögur fara af reyniviðnum. Hann er kallaður heilagt trè, og er sú saga til þess, að til forna, þegar komið var að reynitrè á jólanótt, brunnu ljós á öllum greinum hans, og slokknuðu þau ekki, hversu mjög sem vindur blès. Lítur það svo út, sem það hafi átt að vera nokkurskonar ímynd jólatrèsins, sem alsiða er í útlöndum að kveykja og prýða með aldinum og öðru skrauti úngum og öldruðum til ánægju, en einkum á jólanóttina, og sumstaðar er farið að tíðkast hèr á landi í kaupstöðum. Ef maður ætlar að rífa upp reyniviðarhríslu, og leitar að henni í því skyni, þá finnur hann hana ekki, þó hann viti, hvar hún á að vera, og finni hana endrarnær, þegar hann vill. Reynir má varla hafa til neinna hluta. Ef hann er hafður fyrir eldivið, vekur hann óvild milli þeirra, sem sitja umhverfis eldinn, enn þótt þeir áður hafi verið beztu vinir; ef hann er hafður til húsagerðar, geta konur ekki orðið lèttari í því húsi, nè heldur aðrar skepnur eða kvikindi komizt frá fóstri sínu eða þrifizt. Ef reynir er hafður til skipssmíða eða skipsáhalda nokkurra, þá ferst það skip,[2] nema einir sè hafður með í sama

1. Það er trúlegt, að fleiri sögusagnir sèu um þenna sama atburð í Eyafirði; að minnsta kosti sýnist Gísli Brynjúlfsson hafa fylgt annari og miklu óhreinni sögn, en þessi er, sem tekin er eptir Dr. Maurers Isl. Volkss., 177. bls., og Sigurði málara, sem heyrt hafði söguna öldúngis eins í Eyafirði og Dr. Maurer hefir hana.

2. Eptir Mohr, 186.—7. bls., og Dr. Maurers Isl. Volkss., 178. bls., og handriti sèra Jóns Norðmanns.

skipi. Ef reynir er öðru megin keipnagli í skipi, en ekki báðu megin, þá hvolfir því. Af þessu síðast talda er það auðsætt, hvers vegna sumir almúgamenn hafi sagt, „að reynir væri bölvaður,“[1] af því þeim hefir ekki þókt hættulaust, eptir hjátrúnni, að færa sèr hann í nyt á nokkurn hátt, og er það allíklegt, að það valdi því, að hann hefir feingið að standa óhöggvinn, þarsem hann hefir vaxið hèr á landi, og átt ólíkt meiri frið á sèr, en birkiskógarnir, svo að Eggert Ólafsson segir, að hann hafi verið orðinn 6 og 8 álna hár í Hestfirði við Ísafjörð,[2] þegar hann fór hèr um land um og eptir miðja fyrri öld.

Einir og reynir. Þó ekki megi hafa reynivið til skipasmíða, sem nú var sagt, er hættulaust að hafa hann til þess, ef einir er hafður í sama skipið. Svo stendur á því, að einir og reynir eru megnustu óvinir; einirinn vill upp með skipið í loptið, en reynirinn vill draga það niður í sjóinn, og er það gott, því annars feykti skipinu á sjónum, svo það mundi oflaust á öldunum, ef einirinn mætti einn ráða, en reynirinn þýngir það niður og heldur því hóflega föstu í bylgjunum, þar sem einirinn togar í það að ofan. Skal því hafa einir í hástokki, en reyni við kjöl eða kjalsíður. Annað er það atriði sagt frá ósamlyndi þessara viða, að ef þeir eru settir sinn hvoru megin í stórt trè, þá svipti þeir trènu sundur á milli sín, og kljúfi það að endilaungu; svo eiga þeir illa saman. Ef einir og reynir eru í sama húsi, þá brennur það. Ef einir og reynir eru sinn hvoru megin á sama hesti, þá snarast af. Ef einir og brennigras (notrugras, urtica urens) er lagt saman í kistu að kvöldi, er sitt komið í hvorn enda að morgni.

Um blóðeik er áður getið,[3] að hana má ekki til skipa hafa, því það skip ferst. — Seljunni[4] fylgir sú náttúra, að þar sem hún er höfð í baðstofu eða bæarhúsi, getur maður hvorki dáið, nè kona alið barn, nè heldur fènaður komizt frá fóstri sínu, ef selja er höfð í útihúsi. Ekki má heldur tálga selju eða höggva, því þá sker maður sig eða heggur til meiðsla, og gróa öll þau sár seint og illa, ef þau gróa nokkurn tíma, og í mæli er það, að það hafi verið seljuhnyðja, sem Grettir hrepti af áverkann, sem hann dró til bana. Ekki þykir heldur óhætt að hafa selju til eldsneytis, því þegar henni er kynt, verða brestir svo miklir í eldinum, að undrum þykir sæta. Af þessu er það allvíða títt, að rekamenn láta seljurapta liggja óhirta við sjó, velta þeim hvorki undan, nè hirða um, þó út taki aptur, því þeim þykir selja versta trè af guði gefið.

1. Sjá Kvæði Eggerts Ólafssonar, 45. bls., 66. erindi í Munaðardælu, 20. og 21., neðanmálsgrein.

2. Sjá Ferðabók Eggerts 436. bls., og Ferðabók O. Olavii (Kb. 1780), 23. bls.

3. Sjá Illugi smiður, 414. bls. á undan.

4. Dr. Maurers Isl. Volkss. 178., og sèra Jón Norðmann.

**b) Grös** Þjófarót.[1] Þjófarót er gras eitt með hvítleitu blómi. Er það mælt, að hún sè vaxin upp, þarsem þjófur hefir verið heingdur, og sè sprottin upp af náfroðunni upp úr honum. En aðrir segja, að hún sè sprottinn upp af þjófadysinni. Rót grass þessa er mjög ángótt. Þegar þjófarót er tekin, verður að grafa út fyrir alla ángana á henni, án þess að skerða nokkurn þeirra nokkurstaðar, nema miðángann eða meginrótina, sem geingur beint í jörð niður; hana verður að slíta. En sú náttúra fylgir þeim ánganum, að sèr hvert kvikindi, sem heyrir hvellinn, þegar hann slitnar, liggur þegar dautt. Þeir, sem grafa þjófarót, binda því flóka um eyru sèr. En til þess að þeir sè því ugglausari, að þeir heyri alls ekkert, hafa þeir þó þá varúð við, að þeir binda um rótina, og hinum endanum við hund, sem þeir hafa með sèr. Þegar þeir eru búnir að undirbúa alt, hlaupa þeir frá greptinum, og þegar þeir þykjast komnir nógu lángt burtu, kalla þeir á hundinn. Slitnar þá ánginn, við það, að hundurinn gegnir og ætlar að hlaupa til mannsins; en hundurinn drepst þegar í stað, er hann heyrir slithvell rótarinnar. Síðan er rótin tekin og geymd vandlega. Gras þetta hefir þá náttúru, að það dregur að sèr grafsilfur úr jörð, eins og flæðarmús dregur fè úr sjó. En þó verður fyrst að stela undir hana peningi bláfátækrar ekkju á milli pistils og guðspjalls á einhverri af þremur stórhátíðum ársins. En ekki dregur rótin aðra peninga, en þá, sem samkyns eru þeim, er undir hana var stolið í fyrstu; sè það t. d. áttskildíngur, dregur hún eintóma áttskildínga o. sv. fr. Ekkert vandhæfi hefi eg heyrt að sè á því að geyma eða verða af með rót þessa; því fleygja má henni, hvar og hvenær sem vill, að ósekju.

Lásagras eða fjögra laufa smári. Því grasi fylgir sú renta með nafni, að það lýkur upp hverri læsíngu, sem það er borið að. Til þess að ná því, eru tveir vegir. Annar er sá, ef kapalhyldir eru teknar í fardögum, og grafnar í jörðu nærri mýri, þar sem nokkuð er rakt, svo sem fet djúpt, og torfan látin ofan yfir aptur. Ef svo er vitjað um á Jónsmessunótt, munu grösin vaxin.[2] Eptir sögnum úr Múlasýslu, sem nefna gras þetta fjögra laufa smára[3] (paris quadrifolia,)[4] á hann ekki að vera vaxinn fyrr en á þriðja ári. Síðan skal taka smárann og herða í vindi, en varast að láta sól á hann skína, og bera hann á hálsi sèr í silkitvinna; lýkst þá upp hver lás fyrir þeim, sem gras þetta hefir. Hin aðferðin er nokkuð meiri vandkvæðum bundin. Maður skal gjöra dyraumbúníng allan með hurð skrá og lykli, og setja fyrir máríötluhreiður, og læsa, meðan máríatlan er ekki í hreiðrinu. Þegar hún kemur að hreiðrinu.

1. Eptir stúdent M. Gíslasyni og Guðm. Bjarnasyni.
2. Þannig bæði kver af Vestfjörðum og Hamrendabók. Vestfjarðakverið nefnir jurt þessa: „herba omnia reserans,“ en Hamrendabókin „gras, sem öllu upp lýkur.“
3. Handrit Sæbjarnar á Klippstað.
4. Mohr, 179.—180. bls.

vill hún komast að eggjunum sínum eða úngunum; sækir hún þá lásagrasið, og ber það að dyrunum, eða stíngur því í lásinn, og við það opnast hann óðara, og á því hafa menn fyrst kennizt eptir náttúru þessa grass. Þegar máríatlan er búin að halda á grasinu, skal taka það og nota eptir þurft og þörfum, en það vandhæfi liggur við, að aldrei má sá, sem grasið hefir, vera berhöfðaður eptir það, því máríatlan situr einlægt um, að koma eitnrormi í höfuðið á þeim hinum sama, og drepa hann.[1] — Ef maður sefur á Máríustakk, óttar hann ekki í svefni, nè dreymir illa.

Hjónagras hefir tvær rætur, aðra þykkva, en aðra skarpa (granna). Þykkri rótin örfar kvennsemi og líkamlega lysting, nemur burt hrygð, eikur gleði og endurnærir sálarkrapta mannsins. Skarpari rótina skal gefa manni til hreinlífis.[2] Þetta gras er alment kallað Brönugrös, og enn eru fleiri nöfn á því, t. d. elskugras, Friggjargras, graðrót og vinagras.[3] Brönugrasanafnið er sjálfsagt dregið af grösum þeim, sem Brana gamla fèkk Hálfdáni fóstra sínum, til að ná með ástum Marsibilar Olafsdóttur Einglakonúngs.[4] Brönugrös vaxa víða á Íslandi, og er stilkurinn stífur og fagurgrænn með blöðum út úr á þrjá vegu,[5] og blómhöfði upp af, sem Eggert Olafsson segir að verði purpurarautt.[6] Mohr kannast við þá kreddur, að menn ímyndi sèr, eins á Íslandi og annarstaðar, að gras þetta veki losta,[7] og ástir milli karls og konu, og stilli ósamlyndi milli hjóna, ef þau sofa á því. En nú er helzt í mæli, að rætur grassins sèu kröptugastar, og sèu þær ávalt tvær undir einum stilk, önnur hvöt, en önnur blauð. Þegar þær eru skornar af og báðum fleygt í vatn, flýtur hin hvata, en sú blauða sekkur. Þegar maður vill hafa rót þessa, til að vekja ástir, skal sá, sem leitar ásta með henni, grafa vel í kríngum rætur grassins, og gæta þess vandlega, að eínginn ánginn slitni af hvorugri rótinni, þegar hann tekur þær úr jörðu; annars missa þær krapt sinn. Að því búnu skal leggja aðra rótina undir höfuð þess, sem maður vill ná af ástum, en haga þó svo til, að hann viti ekkert af því, og sofi á rótinni, en sjálfur skal maður sofa á hinni. Er það sagt, að það bregðist varla, að maður nái ástum þess, sem eptir er leitað, ef rètt er að farið.

Mjaðurt hefir og verið höfð til að vita, hver stolið hafi. Hana skal taka sjálfa Jónsmessunótt um lágnættið, láta í munnlaug við hreint vatn,

1. Þessi aðferð er tekin eptir handriti sèra Jóns Norðmanns, og segist hann hafa lesið hana í galdrakveri vestra. Sæbjörn á Klippstað kannast og við hana.

2. Eptir kveri af Vestfjörðum.

3. Sjá grasafræði O. J. Hjaltalíns Kh. 1830, 265. bls. Þó telur Mohr en fleiri nöfn á því, 209. bls.

4. Hálfdánarsaga Brönufostra, 10. kap., í Fas. III, 580. bls.

5. Eptir sögn Árna Gíslasonar, lögregluþjóns í Reykjavík.

6. Ferðabók hans, 945. bls.

7. Mohr segir, að gras þetta sè gefið daufum og fjörlausum torfum í Svíþjóð og á Færeyum, til að örfa þá til kúnna.

og leggja urtina á vatnið. Fljóti hún, þá er það kvennmaður, en sökkvi hún, þá er það dreingur. Skugginn af jurtinni sýnir, hver maðurinn er. Þar við á að lesa þenna formála: „Þjófur, eg stefni þèr heim aptur með þann stuld, er þú stalst frá mèr, með svo sterkri stefnu, sem guð stefndi djöflinum úr paradís í helvíti."[1]

Freyngras er haft til þess að vita, hver frá manni stelur. Fyrst skal láta það liggja þrjár nætur í vatni, leggja síðan undir höfuð sèr og sofa á, og mun maður þá sjá þann, er stolið hefir.

Lækjasóley. Náttúra þessa grass er furðanlegri, því ef það er tekið, er sól er í ljónsmerki (frá 13. Júli til 12. Ágúst[2]), og laugað í lambsblóði, og lögð þar við úlfstönn, og síðan vafið í lárberjatrè (laufi?) og borið á sèr, megnar eiuginn að tala við þann mann, nema friðsöm orð. Ef frá manni er stolið, og maður leggur það við anga sèr, mun þjófurinn sjást, og allar hans athafnir. Ef sóleyin er látin í það hús, þar sem þær konur eru, sem spilla hjóuabandi sínu, geta þær ekki fyrr burtu komizt, en sóleyin er burttekin.

Ef sortulýng er haft í grápappír og borið á sèr, ver það mann fyrir öllum vofum, nema nefndar sèu. Berin á sortulýnginu heita mulníngar.[3] Ef menn borða þau, skríða menn kvikir af lúsum. Því eru þeir stundum kallaðir lúsamulníngar.[4] — Enn eru nokkurr grös, er eg veit eingar sögur um, en sem þó er líklegt að sèu til, eða hafi verið að minnsta kosti, og eru þau samsett af nafni kölska, t. d. fjandafæla, og þarf ekki meira, en heyra nafnið til þess, að því grasi fylgi magn mikið, enda er þess áður getið, að það sè vörn við illu.[5] Hin eru skollafíngur, skollafótur, skollagras, skollahár, skollakál, skollareipi. Stundum er ekki auðið að sjá, hvort meir ræður nafni grassins lækníngamáttur þess, eða töframagn. Svo er t. d. með blóðrótina,[6] sem í raun rèttri stöðvar blóðrás, en á þó að vera höfð meðfram til töfrabragða.[7]

1. Eptir kveri af Vestfjörðum.
2. Eptir Hamrendabók.
3. Múðlúngar segja menn fyrir vestan.
4. Freyngras, lækjasóley og sortulýng er alt tekið eptir handriti Sæbjarnar á Klippstað.
5. Sjá þáttinn af Galdra-Leifa, 523. bls. á undan.
6. Grasafræði O. Hjaltalíns, 216.—217. bls.
7. Dr. Maurers Isl. Volkss. 178.—179. bls.

## 3. GREIN.

### STEINASÖGUR.

Talsvert meiri hjátrú loðir við steinaríkið, en við grasaríkið; en þó er þess að gæta, að nokkrir þeir hlutir eru taldir með steinaríkinu, sem heyra undir hin náttúruríkin. Þegar talað er um náttúrusteina, eru það þessleiðis steinar, sem menn ætla að hafi meira töfra-magn, en algeingir steinar. Margar sögur hafa því myndazt, bæði um uppruna þeirra og margháttaða krapta.[1] Þrír staðir hafa verið orðlagðastir á Íslandi fyrir náttúrusteina. Fyrst er Drápuhlíðarfjall, skamt fyrir sunnan Helgafell í Snæfellsnessýslu;[2] þegar sólskin er, leggur gullleitan ljómann af því og hvað mikið regn sem er, þá sýnist ætíð sólskin á Drápuhlíðarfjalli. Sagt er að í fjallinu sè vatn eitt lítið, en afar djúpt, og að á því syndi allskonar náttúrusteinar á Jónsmessunótt. Er þar ekki að eins óskasteinn, heldur og lausnarsteinn og hulinhjálmssteinn. Annar staðurinn er Kofri; það er einstakur og hár fjallstindur upp úr öðrum lægri fjallgarði á Arnarnesi við Álptafjörð í Ísafjarðarsýslu. Þar skal safna náttúrusteinum, einkum á Jónsmessunótt við tjörn þá, sem er uppi á tindinum; þar er sagt að finnist bæði óskasteinar, og aðrir fásènir hlutir, en nálega er þar öllum ófært upp að komast.[3] Hella ein, sem sumir segja að sè hol, er í Kofra; hún getur af sèr hverskonar náttúru á Jónsmessunótt. Sú hella heitir steinamóðir. Aðrir segja, að samskonar hella eigi að vera uppi í tjörninni á Baulu. Þá er hinn þriðji staður; það er Tindastóll á Reykjaströnd í Skagafirði vestan megin fjarðarins.[4] Í Tindastól austan og norðanverðum, í eða uppundan Glerhallavík, skamt fyrir sunnan Bolabás[5] er brunnur luktur háum hömrum á alla vega, og gulllitað vatn í. Bæði í þeim brunni, og umhverfis hann, er sagt að sèu allskonar náttúrusteinar, og þar á meðal óskasteinninn. Allir náttúrusteinar, sem þar í eru, er sagt að komi upp á Jónsmessunótt, og bregði þá á leik ofan á brunninum, og í kríng um hann, en þess á milli liggi þeir neðst á brunnbotninum. Bezt er því að sæta þessu lagi til að ná í steinana; en þó er svo örðugt að komast að brunni þessum, að ekki verður þángað farið, nema gandreið.

1. Sbr. Ferðabók Eggerts, 402.—404. bls.
2. S. st. 288.—293. bls.
3. Sbr. Ferðabók O. Olavii, 23. bls.
4. Tindastóls er áður getið í þættinum af Hálfdáni í Felli, III, 3., 518. bls. á undan, og verður enn getið V, 4, „Vegurinn austan undir Tindastól.“
5. Bolabás er sagt að hafi verið bústaður sjóskrimsla til forna, sjá Ferðabók O. Olavii, 246.—247. bls.

Lausnarsteinninn. Fleiri en einni sögu fer um það, hvar sá steinn fæst; því áður er þess getið, að hann sè í vatninu í Drápuhlíðarfjalli, en aðrar sagnir segja, að hann vaxi í sjónum, og reki því á ýmsum stöðum á land. Aðferðin til að ná honum er þessi: Maður skal fara í arnarhreiður Vitusmessunótt (þ. e. 15. júní), og múlbinda únga hennar meðan þeir eru ófleygir í hreiðrinu. Þegar örnin kemur heim, og finnur þá svo stadda, leitar hún allra bragða til að losa af þeim múlinn, og dregur allskonar náttúrusteina í hreiðrið, sem hún hyggur að megi lètta þessu af únguuum. Loksins sækir hún lausnarsteininn; margir segja hún komi með þrjá steina seinast með ýmsum litum og beri hún hvern eptir annan að nefi únganna, og leysi lausnarsteinninn skjótt múl þeirra.[1] Ef þá er ekki maðurinn viðstaddur að taka steininn, fer assa með hann á fertugt djúp, og sekkur honum þar niður, svo einginn skuli hafa hans not, þegar úngarnir eru lausir orðnir.[2] Steinn þessi er til ýmsra hluta nytsamlegur, en einkum er það talinn beztur kostur hans, að hann leysi konu, sem á gólfi liggur, vel og fljótt frá fóstri sínu, og þarf þá ekki annað, en annaðhvort leggja hann á kvið hennar, eða henni er gefið vatn, aðrir segja volgt franskvín hvítt að drekka, sem steinninn hefir legið í, eða verið skafinn í. Stein þenna skal geyma í hveiti ef hann á ekki að missa náttúru sína, og vefja hann í óbornu hvítu lèrepti eða liknabelg. Sumir hafa ætlað að steinar þessir væru aðrir hvatir en hinir blauðir, og úngi hinir blanda aptur öðrum út af sèr.[3] Þessi sama hjátrú um fjölgunarmagn steina þessara er sagt að hafi verið, að minnsta kosti í fornöld, í Noregi og á Færeyum,[4] og heitir hann þar „vettenyre“ (viðarnýra?). Færeyska nafnið lætur og nærri því, sem menn eru nú orðnir alment sannfærðir um á Íslandi, og Eggert Ólafsson hefir tekið fram, að það sem nefnt hefir verið lausnarsteinn, er alls ekki steinn, heldur ávöxtur eða hnot af trè (mimosa scandens), sem rekur hèr og hvar upp með öðrum rekavið á Vesturlandi.

1. Sbr. sögurnar í „Antiqvarisk Tidsskrift,“ 1849—51. 205.—206. bls. eptir Hammershaimb, og Færðernes Historie, 369.—370. bls. eptir Niels Winther, munnmæli Færeyínga um „sigursteininn.“ Á þýzkalandi kvað og vera líkar sögur segir Dr. Maurer, Isl. Volkss, 180. bls.

2. Í Hamrendabók segir, að örninni verði svo mikið um, þegar múllinn losni af úngunum, að hún spyrni lausnarsteininum af feginleik ofan úr hreiðrinu.

3. Þá hègilju hefi eg sèð eptir Jón Guðmundsson lærða fyrstan manna hèr á landi í „Tyðsfordryf“ hans, en seinna hafa hjátrúarfullir menn, eins og hann, eflt hana og útbreitt, svo að hún hefir orðið æði almenn, sem sjá má af Ferðabók Eggerts, er margt segir af steini þessum, 423.—425. bls., og þar á meðal það að Einglendingar hafi haft mikla trú á honum, að hann hjálpaði konum í barnsnauð, og ætlar að Íslendingar hafi einmitt feingið þaðan þessa trú, um leið og Einglendingar höfðu hèr verzlun sína á 15. öld. Dr. Maurer bendir og til þess í Isl. Volkss. 181. bls., að nokkur áhrif muni frásögn Plinius um steininn aetites, í Natur. hist. XXXVI, cap. XXI (Silligs útgáfa, §. 149—151, 356.—357. bls.), hafa haft á þessa trú hèr á landi.

4. Peter Clausen, Norges Beskrivelse, 124. bls., en Debes neitar því í Færöa reserata. Þó hefir Dr. Maurer einmitt orðið var við sömu trúna á Færeyum 1858.

Hulinhjálmssteinninn dregur nafn af hulinhjálmi, eða huliðshjálmi, sem sögur gánga af bæði í norrænni og þýskri goðafræði. Mjög snemma hefir það tíðkazt á norðurlöndum, að neyta hulinhjálms til ýmsra galdrabragða, sem gjöra máttu menn og hluti ósýnilega, t. d. til að magna með honum ský, er lögðu myrkva eða hulu yfir alt, sem falið átti að vera.[1] Hulinhjálmssteinn er dökklifrauður að lit. Geyma skal hann undir vinstra armi. En ef maður vill neyta hans, og gjöra sig ósýnilegan, skal maður fela hann í vinstra lófa, vafðan í hárlokk eða blaði, svo ekki sjái á hann neinstaðar; verður sá hinn sami ósýnilegur ámeðan, en sèr þó sjálfur alt, sem fram fer í kríng um sig. Ýmsum sögnum fer um það, hvernig maður skal fá sèr hulinhjálmsstein, og set eg hèr því fyrst almennustu aðferðina, sem sagt er, að hafi verið til þess höfð. Maður skal taka glænýtt hrafnsegg úr hreiðri, sjóða það, og bera volgt aptur í hreiðrið. Þegar hrafninn kemur aptur að hreiðrinu, og hann finnur þau missmíði, sem á eru orðin, fer hann og útvegar sèr þann stein, sem gjöri eggin aptur hrá, (en sá náttúrusteinn er sagt að sè í ey einni í Rauðahafinu)[2] og verður aldrei úr því eggi hulinhjálmssteinn. En geti maður tekið eggið, soðið það og komið því aptur í hreiðrið, án þess krummi verði var við, liggur hann á því ómakslaust eptir sem áður. En þegar hann getur ekki klakið út egginu, grefur hann það niður, eða tekur það burtu, og skal þá taka það áður. Verður þá svo sem steinn innan í því. „Þetta dugir til hulinhjálms;“[3] en aðrir segja, að eggið alt verði að svörtum steini.[4] Ólafur Sveinsson í Purkey, sem flestar hègiljur hefir ritað, og enn fleiri segja, að hrafnseggið skuli taka á föstudaginn lánga, og sjóða það þannig, að hvergi leggi gufu af því. Bezt sè að sjóða það í tveimur samhvolfdum munnlaugum nýum, sem barmarnir falli vel saman á, en strjúka þó vandlega áður barmana með leiri, svo hvergi komist gufan út.[5] Margar fleiri aðferðir eru til að ná hulinhjálmssteini, og set eg þær hèr, sem eg hefi heyrt. 1. Maður skal taka hrafnsúnga, sem kominn er rètt að flugi, heingja hann á snæri, sem fast er á spýtu upp yfir hreiðrinu, og stínga upp í hann ginkefli, svo hann geti ekki ètið. Eptir þrjá (aðrir segja tvo) daga skal vitja um

1. Sjá Fms. II, 198. kap., 141. bls., og Fas. III, 219. bls. í Sögu Herrauðs og Bósa, 11. kap.

2. Þetta atriði um steininn í Rauðahafseyunni er tekið úr Hamrendabók, sem hefir þar að auki um hann þá hègilju, að hver sem láti undir þann stein blöð af laurustrè og abræri (með honum) „þann, sem í fángelsi er haldinn, eða við lás læstur, þá fari hlekkir af þeim fánga.“ Sè þeim steini haldið í munni sèr, gefur hann skilning á fuglamáli, eða fuglakvaki. Hèr fara sögurnar um lausnarsteininn og hulinhjálmssteininn mjög saman, svo eins vel sýnist hèr eiga við sigursteinar Færeyinga sem áður er getið.

3. Svo segir Hamrendabók.

4. Eptir sögn í Borgarfirði, sbr. Dr. Maurers Isl. Volkss., 182. bls.

5. Þessa sömu aðferð nefnir sèra Jón Norðmann.

úngann, og mun þá finnast í gini hans sá steinn „sem þig kann hylja.“[1] 2. Í kjóahreiðri er steinn; „ef þú berð þann stein á þèr, sèst þú ekki.“[2] 3. Í hreiðri músarbróður finnst steinn með ýmsum litum, ef þú ber hann á þèr, verður þú ósýnilegur.[3] 4. Tak himnuna, sem næst innan úr skurninum á arnareggi, og ber næst höfði þèr í hvirfli, þá sèst maður ekki. 5. Ef maður ber á sèr arnarfúlegg, eða spreingi það í höfuð sèr, verður maður eins ósýnilegur; þess vegna flytja gamlar arnir fúlegg sín til hafs þrem nóttum eptir, að þær hafa orpið, en hinar ýngri skilja þau eptir, hulin í hreiðrinu, af því þær þekkja ekki gagnsemi þeirra.[4] Hèr að auki er þess getið, að hulinhjálmssteinar finnist opt við sjó, ár og læki og á víðavángi, og er su varúð við það, að maður standi á honum, þángað til makinn hans kemur. Helga, amma sèra Jóns Norðmanns, var einu sinni með fleiri börnum að leita að steinum. Fann hún svo einn, sem henni leizt vel á, og lèt hann upp í sig. Sáu þá hin börnin hana ekki, og voru að spyrja, hvar hún væri; hún sagðist vera hjá þeim, og sá þau; en þau sáu hana ekki að heldur, fyr, en hún kastaði steininum.[5] Einhverstaðar var maður á ferð, og fann stein (í Svæðiskrók) og lèt hann upp í sig. Hundur hans fór þá að ærast og leita að honum, af því hann sá hvergi manninn. Svo gekk maðurinn áfram, þángað til hann þurfti að gjöra að skó sínum, og lagði hjá sèr steininn á meðan. En þegar hann var búinn að gera að skónum, var steinninn horfinn, og úr því sá hundurinn hann.[6] Sumir halda, að hulinhjálmssteinn leiðist út úr Pètursbuddunni, sem er í skötunni, og einkum í hinni litli Tindaskötu, og þó helzt úr þeim skötum, sem hafa tvær pípur vaxnar með hryggnum, sem aðrar hafa ekki þar Báður þessar pípur skal taka úr skötunni eptir góumánuð, eða þær fæðast af henni; síðan skal hún þar yfir liggja, sem fugl á eggjum í níu vikur; verða þá buddurnar svartar, og finnast tómar, reknar af sjó, með gati á öðrum enda, þarsem steinninn hefir út farið, en gljáar eru þær innan.[7]

Óskasteinninn heitir svo, af því að hvers sem maður óskar sèr, þegar maður hefir hann, fær maður ósk sína uppfylta. Ýmsum sögum fer einnig um það, hvernig hann fáist. 1. Óskasteinn finnst við sjó, að hálffölInu, þegar túngl er 19 nátta og sól í fullu suðri. Leita þú hans á páskamorgunin,[8] ber hann undir túngurótum þèr og mæl til þess, er þú

1. Svo segir Sæbjörn á Klippstað, og Dr. Maurer, 182. bls., eptir Þurkeyar-Ólafi.
2. Sama heimild.
3. Eptir handriti. sem Davíð Davíðsson, vinnumaður í Stóradal, 1859 lèði mèr.
4. Sæbjorn á Klippstað.
5. Eptir handriti sèra Jóns Norðmanns, sem getur þess, að amma sín hafi átt mikið af steinum, eins og sumum Íslendingum var títt að fornu fari; sbr. Ferðabók Eggerts, 403. bls.
6. Eptir sama handriti.
7. Sbr. „Helgasti fiskur í sjó,“ IV, 1. gr., 634. bls. á undan.
8. Líklega af því að „hátíð er til heilla bezt.“

vilt. Steinn þessi er hvítgulur að lit og nokkuð ljósleitur; hann er mjög líkur baun.[1] 2. aðferð er það, að taka hrafnsegg hið fyrsta, sem hann verpir (en Þurkeyar-Ólafur segir að eggið skuli taka, tveim dögum áður, en hrafninn úngi út, og án þess hann viti af), sjóða það í vatni í leirmunnlaugum samhvolfdum, og láta það svo aptur í sama hreiðrið. Síðan skal bíða nærri hreiðrinu, þángað til hrafninn hefir klakið út hinum eggjunum; en þegar allir úngarnir eru skriðnir úr þeim, verður soðna eggið eitt eptir óútklakið. Skal þá taka það og brjóta á gat; finnur maður í því flatan stein og flekkóttan að lit, það er óskasteinninn. Þann stein skal taka og bera á sèr í olbogabót. „Óskaðu þèr svo hvers sem þú vilt, en þó með varúð" segir Þurkeyar-Ólafur. „Geym hann í nýu líni, og ber hann ætíð á þèr" segja aðrir.[2] En eru fleiri frásagnir um óskasteininn, og eigi hann að vera eggjakerfi óskabjarnarins, (onisci psoræ), sem er margfætt sækvikindi, og er stundum hálfur þriðji þumlúngur á leingd, og ángrar hann helzt hákalla. Þetta eggjakerfi verður hart eins og steinn, og svart á lit, þegar það þornar, og rák eða far eptir báðum flatvegum steins þessa, líkt og klöppuð væri rák fyrir fati á vaðsteinum fiskimanna. Því er sagt, að þessi litli steinn úr óskabirninum sè vaðsteinn sánkti Pèturs, og er sú saga til þess, að óskabjörninn hafi upphaflega verið einhver stærsti hvalur í sjó og illur eptir því. Einu sinni, þegar sánkti Pètur kom úr fiskiróðri, elti hvalurinn bátinn hans, og vildi granda honum. Pètur fleygði þá vaðsteini sínum í hvalinn, og gjörði hann um leið að þessu litla sækvikindi, svo að það skyldi aldrei optar gjöra skipum mein. Þenna stein úr óskabirninum hafa menn borið á sèr, og ímyndað sèr að hann verði þá slysum og óhöppum. Það hefir og verið trú, að ef maður leggur lifandi óskabjörn uppílopt undir túngurætur sèr, fái maður alt, sem maður óskar sèr, ef það er gjört, áður en hann festir sig við túnguna. Enda getur björninn ekki fest sig, þegar búið er að óska. Trú hefir verið á því, að sá gæti óskað sèr og feingið, hvað sem hann vildi, sem hefði stein þenna á túngu sèr, eða þó enn heldur óskabjörninn sjálfan lifandi, en það mun vera blandað málum við fyrri aðferðina, að leggja hann undir túngurræturnar.[3]

**Óskasteinninn í Tindastól.** (Eptir handriti sèra Jóns Þórðarssonar á Auðkúlu.) Einu sinni var stúlka á gángi í Tindastól, og fann stein einn fallegan. Hún hugsaði með sèr, að hún vildi hún væri horfin í þá beztu veizlu, sem haldin væri í heiminum. Hún hvarf þá alt í einu út í veðrið, og vissi ekki fyrri af, en hún stóð í dýrðlegri höll, og hafði henni

1. Eptir handriti Davíðs í Stóradal.

2. Eptir handritum Davíðs og Sæbjarnar, og Dr. Maurers Isl. Volkss. 182. bls., þar sem Þurkeyar-Ólafur er borinn fyrir.

3. Eptir Mohr, 110.—111. bls., ferðabók Eggerts 610. bls., handritum Sæbjarnar og Davíðs, og munnmælum. Sbr. Dr. Maurers Isl. Volkss., 182.—183. bls.

aldrei önnur eins prýði til hugar komið. Maður færði henni þar gullbikar. Hún tók við bikarnum, en varð svo skelfð af öllu því, sem fyrir hana bar, að hún óskaði sèr, að hún væri horfin á sama stað, og áður, í Tindastól, og það varð. Fleygði hún þar svo steininum, og sagði, að hann skyldi ekki optar villa sig, en hèlt heim með bikarinn. Gullbikarinn þókti hin mesta gersemi, og var farið með hann til prestsins; en hann sagðist ekki skilja í, til hvers hann yrði hafður. Var þá bikarinn sendur kóngi, og gaf hann stúlkunni fyrir hann 3. jarðir í Skagafirði.

Til er og sögusteinn.[1] Um hann fer einnig nokkrum frásögnum. Þurkeyar-Ólafur segir að finnist í máríötluhreiðri í Maí. Skal maður bera hann á sèr í blóðugum hálsklút, og láta hann í hægra eyra, þegar maður vill verða einhvers vísari af honum; segir hann þá alt, sem maður vill vita. Aðrir segja svo frá þessum steini. Þegar sumar kemur í páskaviku liggur krummi á eggjunum föstudaginn lánga. Um messutímann á að fara til hreiðursins, og þegar píuutextinn er lesinn, liggur hrafninn, eins og dauður, á eggjunum. Drýpur þá steinn af hrafnshöfðinu ofan í hreiðrið, svo að maður má taka hann, ef vill. Síðan skal herða hann og bera næst sèr í poka. Þegar hann er borinn undir túngurótum, skilur maður hrafnamál.[2] Ef maður vill vita nokkuð, skal binda hann beran undir hægri handkrika sinn, þegar maður leggur sig útaf, og vefja vel að sèr fötin. „Set það á þig, sem þú vilt vita áður en þú sofnar, og mundu það þegar þú vaknar, hvers þú hefur vísari orðið.“[3] Einn steinn finst í sjávarfroðu grár að lit. Hann skal láta í stöðu-vatn; verður þá mor í vatninu, og í morinu sèst manns ásjána. „Spyr þá þess, er þú vilt vita, og vert stöðugur.[4]“

Lífsteininn hefir verið mjög nafntogaður að fornu, sem sjá má af Kórmakssögu og fleiri fornsögum,[5] og því er ekki kyn, þó sögur hafi farið af honum síðan. Nafn sitt hefir hann af því, að hann bæði lífgar það, sem dautt er, eða dauðvona, leingir líf manns, og græðir sár fljótar og betur en nokkur hlutur annar. Þegar maður nær lífsteini, þarf því ekki annað, en gjöra skinnsprett á sèr, undir vinstri handar síðu og geyma hann þar í, því hann græðir sjálfur benina fyrir utan sig; einnig má bera hann í gullhríng á þriðja fíngri frá þumalfíngri. Dæmi eru til þess að krummi hafi lífgað með honum únga sína; ef maður drepur

1. Hamrendabók og handrit Davíðs nefna hann „þann stein, sem maður fær alt að vita með.“ Sæbjörn nefnir hann: „Steininn í hrafnshöfðinu.“ En sögustein kallar Dr. Maurer hann, Isl. Volkss. 183. bls., eptir Þurkeyar-Ólafi.

2. Eptir handriti Sæbjarnar.

3. Eptir Hamrendabók og handriti Davíðs; þar er ekkert getið um páskaviku, en báðir segja að „leita skuli að steininum í hrafnshöfði í aprílmánuði.“

4. Eptir handriti Davíðs.

5. 9. kap. 80. bls., og 12 kap. 116.—118. bls., og Gaungu-Hrólfs sögu í Fas. III, 3. og 25. kap., 244. og 307. bls.

alla hrafnsúngana í hreiðrinu og fleygir þeim burtu, en kreystir einn til dauðs, og festir hann þar, og lætur ginkefli í kjapt honum, svo hálsinn sè opinn. Ef hrafninn er þá iðulega við hreiðrið, sækir hann þenna stein, og lætur í gin úngans. Skal svo vitja um hreiðrið að tveimur eða þremur dögum liðnum, er únginn þá endurlifnaður og rauður steinn lítill, sem barn, í kjapti hans. „Tak steininn en gef úngann lausan." Lífsteinn finnst og þar sem jörðin veltist um og skrugga fellur; hann er rauður á lit og dálítill; hann finnst á háfjöllum þar grandar ekki eldur, sem lífsteinn er inn borinn.[1] Einu sinni var maður, sem hafði lífstein á sèr, undir holhendinni, svo að hann skyldi ekki deya. Maðurinn varð á skipreika, og spurðist ekki til hans í mörg ár. Loksins rak hann einhverstaðar máttfarinn. Menn voru við sjávarströndina, þar sem hann bar að landi, og spurði hann þá, hvort þeir hefðu ekki hníf á sèr, og bað þá að spretta til undir holhendinni á sèr. Var svo gjört; dó maðurinn þegar og varð að glætu.[2]

**Lífsteinar.** (Eptir handriti þ. Árnasonar bónda á Bjarnastöðum.) Oddur biskup Einarsson var einu sinni á vísitazíuferð nótt í Kalmannstúngu, en það var á aðfaranótt Jóns messu skírara. Um morguninn fyrir sól fór hestadreingur hans að smala hestum þeirra biskups. Hann fór norður á eingjar, og norður yfir Norðlíngafljót, og upp í hálsinn fyrir austan Fljótstúngu. Þar varð fyrir honum hellusteinn. Á hellusteininum voru nokkrir smásteinar, sem voru á sífeldum hlaupum um helluna. Þeir ýmist hoppuðu hver yfir annan, eða hlupu hver í kríng um annan, eins og þegar lömb leika sèr um stekk. Þeir voru bleikleitir, en þó með ýmsum litum og á ýmsri stærð. Piltinum varð starsýnt á þetta furðuverk. Þegar hann hafði horft á það stundarkorn, tók hann einhvern minnsta steininn, fór með hann heim og sýndi biskupi. Biskupi þókti vænt mjög um steininn og sagði það væri „lífsteinn," og hellan „lífsteinahella." En þar af má marka, hvað biskupi þókti vænt um steininn, að hann gaf piltinum fyrir hann tuttugu hundraða jörð, og lèt á sèr heyra, að sèr hefði þókt vænt um, ef hann hefði fært sèr helluna með öllu saman. Þá hefði hann mátt biðja konúng einhverrar bænar, hverrar helzt, sem hann hefði viljað. Vildi þá pilturinn fara aptur á stað og sækja helluna, en það sagði biskup að mundi verða til einkis; því nú væri hellan með steinunum sjálfsagt horfin og búin að flytja sig, þar eð hún hefði mist einn steininn. Þar að auki sagði hann, að lífsteinahella sæist ekki nema á Jónsmessumorgun.

S k r u g g u s t e i n n. Ef maður hefir hann, sèr maður út um alla veröld; hann kemur úr lopti ofan í þrumum, og hefir þaðan nafn sitt. (Jón Ásgeirsson.)

1. Eptir handriti Davíðs og Sæbjarnar.
2. Eptir handriti sèra Jóns Norðmanns.

F è s t e i n n (= fèkvörn?). Hann er skaptur sem sauðartúnga, hvítur að lit með litlum hrufum, og er í öðrum endanum, þeim mjóa, svört rák. Hann vex utan á vömbunni í sauðfè. Þú skalt taka hann og herða, og geyma í hirzlu þinni. Hann finst opt við sjó þá túngl er 9 nátta; geym hann og mun að gagni koma. Annar fèsteinn er ímóalóttur að lit, og rètt hnöttóttur; hann finnst rekinn af sjó. Hann skal geyma i hvítu og óbornu lèrepti.[1]

S t e f n i r. Um þann steinn skrifa lærðir menn og sèrílagi Salómon, að ef hann er tekinn og heingdur þar yfir, er þú vilt illu fríkoma, þá skaltu taka hann á Jónsmessunótt. Er hann ofan mjór og hvítur að lit. Hann hefir 9 náttúrur, og eru allar góðar, nema ein, og er það sú, að ef maður drekkur af honum, fær hann köldu, og er eigi gott að lækna, nema hann sè skafinn í heita mjólk, og gefinn þeim, sem forgreip sig á honum. Önnur hans náttúra er, ef hann er heingdur yfir fjárhúsdyr, þar sem fè geingur undir, þá missist einginn sauður, ef alt er með sama marki. Þriðja hans náttúra er, ef hann er heingdur þar yfir, sem glettíngar eru á grip, þá hlífir hann því. Fjórða hans náttúra er sú, ef hann er heingdur við skipsþóptu, granda því aldrei stórfiskar. Fimta: heingdur í hús, sem mýs eru, eða önnur kvikindi, finst af honum ódaun, svo þau flýja í burt. Þessi steinn finnst opt á eyðifjöllum. Leita þú að honum á Jónsmessunótt.[2]

H i r u n d o s t e i n a r. a) Þeir eru opt þrír í einu og finnast í svölumaga; einn þeirra er rauður, annar svartur, þriði hvítur. Hver sem hefir hinn rauða í munni sèr, og kyssir mey eina, þá fær hún brennandi girnd til hans. Hver sem hefir hinn svarta, verður aldrei á mat svikinn; en hver sem hefir hinn hvíta, verður aldrei í hel sleginn. b) C a l c e d o n i u s; þessi steinn er lítill og ljótur. Hann hefir tvær tegundir: svartur og rauður; hann finnst í svölulifur eða maga. Hinn rauði er við tímgameinum, hann læknar vitstola menn, og af lángvarandi sóttum; hann gjörir mann og mælskan, þekkan og vinsælan. Hann á að vefjast í líni, og bera hann á sèr, og með sama hætti skal fara með hinn svarta. Hann stillir reiði höfðíngja og framkvæmir sitt erindi, og stendur á móti heitíngum. Ef þessi steinn er borinn í líni, sem rautt er í saumað, eða ofið í uppistöðu, þá er hann lækníng við köldu, og stillir vondan vessa. c) S v ö l u s t e i n n finnst líka í þeirra höfði; hann er og með purpuralit og margskonar fleiri litum. Ef hann er látinn í lín eða kálfskinn, og borinn undir vinstri hendi, þá læknar hann gamlar sóttir; hann gjörir mann glaðan og þekkan. Hann dugir móti dýrum, reiði, helzt ef hann er svartur; þá á að taka hann í Augusto, og eru þeir tveir.[3]

1. Eptir handriti Davíðs.
2. Sama heimild.
3. Eptir sama.

Agat. Sá steinn segir Eggerts Ólafsson sè skildur surtarbrandi, en miklu smágjörfari að efni.[1] Mikla trú hafa Íslendíngar haft á kynjamagn hans, en einkum þeir, sem byggja Hornstrandir, enda eru þær taldar óðalsland og aðalheimkynni drauga og galdra, og þar segir Mohr hann finnist stundum enda komi hann þar í góðar þarfir.[2] Bæði Eggert og Mohr geta þess að hjátrúarfullir menn segi, að hann hafi 24 náttúrur; af þeim telur Eggert[3] þessar: 1. Að þeim, sem beri hann á sèr, skuli ekki granda galdur, 2. ekki heldur eitur; 3. þar sem kveykt er á honum í húsum, fælir hann burtu apturgaungur og drauga, 4. ef hús eru reykt með honum, varnar hann næmum sóttum; 5. orma á hann að fæla, og Mohr[4] bætir hinni 6. við, að sá, sem hafi á sèr agat, sökkvi ekki, þó hann detti í vatn, og lætur það nærri því, sem honum er enn talið til gildis, að hann verndi þá, sem beri hann á sèr, við sjávarháska, og þegar reykt er með honum, verji hann kýr fyrir gjörníngum. Þannig er sagt, að ekki sèu allar dísir dauðar enn fyrir Strandamönnum og Ísfirðíngum með trúna á honum.[5] Eggert hefir og tekið það fram, að Íslendíngar álíti að svarta agatið sè svartur rafur, og Mohr, að það dugi karlmönnum, en hið hvíta (það er gulur rafur eða hvítur) dugi kvennfólki. Purkeyar-Ólafur getur þess um stein þenna, að hann sè ekki að eins vörn við eitri allskonar, húngri og þorsta, heldur verði sá, sem hefir hann á sèr, glaðvær og góðlyndur, hugljúfi hvers manns og njóti höfðíngja hylli; hann segir að steinninn ráði honum heilræði, og auki afl hans.[6] Líklega er það sami steinninn, sem stöku menn hèr og hvar hafa ímyndað sèr, að öll sín heppni til sjávar væri undir komin. Jón bóndi Daníelsson í Vogum, sem áður er getið,[7] var í miklu áliti, bæði hjá Vogamönnum sjálfum og öðrum, sem þar rèru á vegum hans, fyrir kunnáttu sína og þekkíngu á mörgu, og leituðu þeir því tíðum ráða til hans í vandræðum sínum, og eins, ef þeir öfluðu illa. Lagði hann þeim optast þau ráð sem dugðu. Opt gaf hann þeim steina og annað þesskonar, en hann bað þá geyma vandlega, og segja eingum frá, að þeir hefðu, nè heldur hvaðan þeir væru, og mundu þeir verða varir meðan þeir geymdu steinana vel. Einn formaður í Vogum var sá, sem jafnan var óheppinn með afla; hann leitaði einu sinni í vandræðum sínum til Jóns, og bað hann kenna sèr ráð við þeirri óheppni. Jón sagði honum, að ekki mundi gott við því að gjöra, en ráð gæti hann þó kent honum. Skyldi maðurinn fara með austurtrog út í Mölvík undir Vogastapa (hún er niður undan Gríms-

1. Sjá Ferðabók hans, 419. bls.
2. Mohr, 334.—335. bls.
3. Ferðabók hans, 422. bls.
4. Ferðabók Eggerts, 335. bls.
5. Dr. Maurer Isl. Volkss. 183. bls., eptir sèra Birni Þorlákssyni.
6. Eptir Dr. Maurers Isl. Volkss., 184. bls.
7. Sjá II, 3. grein, 393.—394. bls. á undan: „Vogadraugurinn“ og III, 1. grein, 426.—427. bls. á undan: „Draummaður og draumkona.“

hól, sem áður hefir verið nefndur) og koma með það fult af malarsteinum og færa sèr; mundi þá varla fara svo, að þar væri ekki í einhver happasteinn. Síðan fór maðurinn, sem honum var sagt, og færði Jóni fult austurtrogið. Jón fór að leita í því, og fann seint þann stein, sem honum líkaði. Brá hann ýmist á þá túngunni, eða þefaði af þeim, og stundum hvorttveggja. Loksins fann hann einn, er honum líkaði, þann stein fèkk hann manninum og sagði, að hann skyldi hafa hann jafnan með sèr, er hann rèri til fiskjar, og mundi hann þá varla fara fýluferð, en muna sig um það, að láta ekki á þessu bera við nokkurn mann. Eptir þetta brá svo við í hvert sinn sem maðurinn rèri, að hann hlóð og dró með háseta sínum stanzlausan fisk, því þeir voru ekki nema tveir á. Þegar þetta hafði geingið svo um stund, getur formaðurinn ekki að sèr gjört, og segir háseta sínum frá, hvað Jón Daníelsson hafi gefið sèr, og sýnir honum steininn; þar með segir hann frá því, að Jón hafi beðið sig að láta þetta ekki vitnast, og biður hann fyrir alla lifandi muni, að láta það ekki fara leingra, en satt hafi karlinn sagt, og fleira viti hann en almenníngur. En eptir þetta brá svo við, að formaður þessi fèkk aldrei bein úr sjó það sem eptir var vertíðarinnar, nè upp þaðan, og kendi hann það mælgi sinni, sem Jón hefði varað sig við.[1]

Surtarbrandur er sagt að eigi við kveisu og verkjum, ef hann er hitaður og lagður á verkinn.[2] Ef hann er mulinn smátt, ver hann föt fyrir möl og öðrum skorkvikindum[3] hann ver og undirflogi á fènaði, ef hann er látinn í fjósveggi eða kvíaveggi á stöðli.[4] Hrafntinnu kalla útlendar þjóðir „svart agat;" um hana er það sagt, að hún kveyki illdeilur, þar sem hún er í hús borin. Það er sagt af blóðstemnusteininum, að hann stilli vel blóðrás, eins og nafn hans bendir á.[5] Alabastur er af marmarakyni. Hann gefur sigur og vinsældir, þeim sem hann bera.[6] Tak segulstein, myl smátt saman við hrátt deig og messuvín, og baka á eldi, og gef þeim að èta, sem þú grunar um þjófnað. Ef í honum stendur, er hann þjófur, en ekki annars.[7]

1. Dr. Maurer hefir þessa sögu dálitið öðruvísi á 184. bls., en Páll Einarsson á Meðalfelli sagði mèr hana eptir Jóni sjálfum.
2. Ferðabók Eggerts, 153. bls. og Mohr, 338. bls.
3. Ferðabók Eggerts, 152.—153. bls.
4. Hamrendabók.
5. Dr. Maurers Isl. Volkss., 184. bls.
6. Handrit Sæbjarnar.
7. Hamrendabók.

## 4. GREIN.

### LOPTSJÓNIR OG TÚNGLSÖGUR.

Þar sem nú er búið að minnast dýranna, grasanna og steinanna, þykir næst að geta hèr hins fáa, sem mèr er kunuugt um náttúruviðburði himinsins og túnglsins. Um friðarbogann, sem og heitir regnbogi, er það almenn sögn, að sá, sem geti komizt undir annan eudann á honum, svo að manni sýnist bogaendinn standa niður í hvirfil sèr, eigi ráð á hverri ósk, sem hann vili óska sèr, á meðan hann stendur undir friðarbogafætinum.[1]

Stundum sjást eldshnettir í loptinu svo bjartir, sem leiptur væri, og svo stórir, sem túngl í fyllíngu. Svona var að minnsta kosti hnöttur sá, sem Eggert Ólafsson sá hèr 28. Augúst 1756. Slíkir hnettir heita vígahnettir, og hefir alþýða ætlað, að þeir mundu boða mannfall og styrjöld í öðrum löndum, þegar þeir sæust. Þegar slíkar loptsjónir eru aflángar að lögun og nokkur kyrð á þeim, heita þær vígabrandar, og þykja boða alt hið sama og vígahnettirnir.[2]

Vígabrandur er svo til kominn, að Vilmundur hèt kappi mikill; hann vann margar orrustur og hólmgaungur, og átti sverð ágæta vopn. Seinast var hann sigraður, og höggnar af honum hendur og fætur; lèt hann þá bera sig að ánni Tíber, og kastaði í hana eða lèt kasta sverði sínu, því hann unni eingum að bera það, og mælti svo um, að merki sverðsins sæist á himninum fyrir stórtíðindum. Síðan hefir merki það sèzt á himni, sem Vígabrandur heitir, en aldrei nema fyrir stórtíðindum, eins og Vilmundur mælti fyrir.

Í kríngum túnglið er opt hríngur, og heitir hann rosabaugur; þykir hann vita á storm, regn eða snjó og því verra veður, sem hann er stærri. Ýmsa hluti fleiri þykir mega marka á því, hvernig túnglið snúi eða liti út. Ef vaxandi túngl synist snúa álmunum til jarðar, en krypp-unni upp, er sagt að „túnglið grúfi“, og að einhver skipskaðinn muni verða á því túnglinu því arna. Ef túnglið er rauðleitt útlits, boðar það styrjöld og mannfall. Þegar túngl fer að sjást eptir kveykíngu, og að eins sèst lítil rönd af því, en mótar þó fyrir allri umgjörð þess, er það kallað, að það sè „mánabert,“ og veit það á storma og stórviðri.

Hjásólir eða aukasólir, það eru ljósdílar í kríngum sólina, eru ekki sjaldsènar á Suðurlandi. Ef tvær hjásólir sjást í einu, sín hvoru megin sólarinnar, önnur á undan sól, en hin á eptir, er það kallað, að „sólin sè í úlfakreppu,“ eða að „það fari bæði á uudan og eptir sól,“ og er hvort-

1. Dr. Maurer í Isl. Volkss. 185. bls. ber þetta saman við sögu, sem geingur á Þýskalandi „Von dem Regenbogenschüsselchen.

2. Sjá Ferðabók Eggerts 770. og 911. bls. Dr. Maurers Isl. Volkss. 89. og 185. bls.

tveggja orðatiltækið dregið af úlfunum Sköll, sem átti að gleipa sólina og Hata, sem átti að taka túnglið.[1] Stundum er þetta kallað „gílaferð,“ og hjásólin, sem fer á undan sól „gíll.“ Hann þykir ílls viti með veður, ef ekki fer einnig á eptir sólu, en sú bjásól er enn kölluð úlfur, og er þaðan dreginn talshátturinn: „Sjaldan er gíll fyrir góðu, nema úlfur á eptir renni.“ — Ef vel er tekið eptir, má sjá, að túnglið líkist mannsandliti með enni, nefi, augum, munni o. s. fr. og sama er að segja um sólina, þó sèst það ekki eins glöggt á henni, því hún er bæði bjartari og fegri. En það er andlitsmynd Adams, sem er á túnglinu, en Evu á sólinni.[2]

Um túnglið sèr í lagi er þessi saga. Einu sinni var sauðaþjófur, sem settist niður á afviknum stað með feitt sauðarlæri (aðrir segja bríngukoll) í hendinni, sem hann hafði stolið og ætlaði að snæða það þar í makindum. En túnglið skein skært og bjart, því eingin skýská var á lopti. Þjófurinn ávarpaði þá túnglið þessum ósvífnisorðum, og rètti um leið upp á móti því hnífinn með ketbita á oddinum:

„Viltu, túngl,
þèr á munn
þenna bita feitan?“

Þá svaraði honum aptur rödd af himni:

„Viltu, hvinn,
þèr á kinn
þenna lykil heitan?“

Í sama bili fèll glóandi lykill úr hálopti beint niður á kinn þjófsins, og brendi þar á hann brennimark, og bar hann örið eptir æ síðan. Sagan er alkunn bæði á Suðurlandi og Norðurlandi, og sagt, að af þessu hafi sá siður verið tekinn upp, sem algeingur var á fyrri öldum, að brennimerkja þjófa, en þó var það gjört á ennið, en ekki kinnina.[3] — Fyrsta túngl í sumri er kallað sumartúnglið eða sumartúnglið fyrsta. Þegar maður sèr það allra fyrst á vorin, skal maður gánga þángað, sem menn eru fyrir, en hvorki láta á því bera við þá, að maður hafi sèð sumartúnglið, nè yrða á neinn að fyrra bragði, heldur bíða þess, að annar ávarpi sig, og setja á sig, hvernig þeim fara orð til sín. Þegar hann er svo ávarpaður, sem sèð hefir túnglið, er það kallað „að svara einum í sumartúnglið;“ en mikið þykir undir því komið, hvernig það er gjört. Sè manni t. d. boðnar góðar nætur, þá er sá feigur, sem svarað er, og þar fram eptir, eptir því sem í orðunum liggur. „Varaðu þig, hann er valtur,“ sagði vinnukona við stúlku, hún ætlaði að setjast á kistil. Þessu var henni svarað í sumartúnglið, og um sumarið sagði unnustin henni upp, o. sv. fr. Því þykir orðheill mikils varðandi

1. Sjá Snorra-eddu 12. kap. 58. bls.; sbr. Grímnismál, 39. er.

2. Sèra Skúli Gíslason eptir frásögn Páls Ólafssonar; sbr. Dr. Maurers Isl. Volkss. 185. bls.

3. Þessi sögn er almenn; sbr. Dr. Maurers Isl. Volkss. 185. bls.

í þeim efnum; því svo á hverjum að vegna að sumrinu, sem honum er svarað í sumartúngl á vetri eða vorið fyrir.[1]

## 5. GREIN.

### SJÓR.

Um sjóinn þekki eg að eins þessar sagnir. Fyrst er það jafnsönn sem almenn sögn, en einkum í brimlendíngum, að þrjár öldur miklar fylgist jafnan að, hver á eptir annari, og heita þær ólag, en bilið, sem verður á milli þeirra, heitir lag. Fyrsta aldan er ávalt mest þeirra þriggja, en hinar minni. Eiginn skyldi hugsa til að leggja að landi með fyrstu ólagsöldu, eða verða svo seinn að taka lagið (nota hlè milli ólaganna), að fyrsta ólagsaldan nái honum; ekki tjáir heldur að leggja að landi með annari ólagsöldu, því þá er enn hin þriðja vís. En þriðju ólagsöldu skal kappkosta að fylgja, og „róa þá lífróður", til þess að eiga lagið í hönd á eptir; er þá jafnan lífsvon, og að lagið endist, til að lenda á og bjarga skipi. Í laginu eru eins 3 bárur, og í ólaginu, en allar minni, og stundum þó 4; heitir þá fjórða báran aukabára. Stundum verður ekki lag eða hlè milli ólaga í lánga tíma, svo að 24, 18, 12 eða 6 ólagsöldur fylgjast að.[2] það er önnur sögn, að þegar eitt skip hefir farizt í lendíngu, hvort sem það hefir hitt ólag, eða því hefir borizt á af öðrum orsökum, þá komi kyrð á sjóinn stundarkorn á eptir, og heitir sú kyrð dauðalag, svo þeim lendist vel, sem þá leggja að landi á eptir, þegar sjórinn hafi feingið sitt; er það kallað að lenda á dauðalagi þeirra, sem drukknað hafa. þá eru og nefndir násjóir; sjást þeir stundum, þegar á sjó er verið, og þykja æfinlega boða skipreika. Násjóir eru annaðhvort 3, 6 eða 9; falla þeir hver á fætur öðrum, og eru auðþektir á litnum, því ýmist eru þau rauðleitari (fyrir vestan), eða blárri (fyrir austan), en sjór er vanalega. Náöldur eru enn kallaðar; sagt er, að þær sèu tvær í senn, og falli önnur frá landi, en önnur að, og þegar þær mætast, verður dynkur mikill, og heitir það náskellur. það boðar og skipreika. þá er nefnt náhljóð í sjó, og er

1. Almenn sögn. Auk þessa, sem nú hefir verið sagt um túnglið, hafa menn tekið mikið mark á aldri þess, það er að skilja um lán og lánglífi þess barns, sem fæðist, þegar túngl er svo og svo margra nátta, um líf og dauða þeirra, sem sjúkir verða, um blóðtökur, fyrirtæki og framkvæmdir, sem alt mun vera hègiljur úr útlendum lækníngabókum, og til merkis um það, að trú á túnglaldri sè svo undirkomin, tel eg það, að Hamrenda-bók hefir fyrir yfirskript yfir þeim kafla: De lunæ proprietatibus. Alt hið sama er að segja um „Merkjakverið", sem svo er kallað, og sem tiltekur lán og líf hvers manns eptir því, undir hvaða merki í dýrareiminni maður er fæddur.

2. Olavii Reise, 19. bls. um Skálavík í Isafjarðarsýslu.

það alt annað, en heyrist í kirkjugörðum.[1] Vestfirðíngar segja, að það fylgi násjónum, og er það veinhljóð í sjónum, áþekt dauðaveini deyandi manns. Náhljóð heyrist opt á landi, og boðar manna drukknun, eins og hitt, sem áður er talið.

---

## 6. GREIN.

### ÖRNEFNASÖGUR.

Mjög opt fara sögur af ýmsum örnefnum; en fjarri fer því þó, að þær heyri allar undir náttúrusögur. Slíkar sögur heyra því að eins undir náttúrusögurnar, að þær lýsi einhverjum sèrstökum eiginlegleikum örnefnanna, og samkvæmt þessu skal tilgreina hèr nokkrar örnefnasögur, þar sem þó öðrum er þegar skipað, og verður skipað annarstaðar til sætis.[2]

Á Hofi á Kjalarnesi er æfagamall dómstaður og blótstaður. Þar er brunnur einn, sem aldrei er byrgður, og sem ekki má heldur byrgja. Sú er sögn um brunn þenna, að á meðan hann sè opinn, varist hvert barn brunninn, og jafnvel úngbörnin snúi frá honum og kræki lángar leiðir út fyrir hann. En ef brunnurinn er byrgður, sè þess víst að vænta að eitthvert barn detti í hann, og drukkni. Mörg dæmi þykjast menn vita til þessa.[3]

Efsti tindur á Hornbjargi á Ströndum heitir Kálfatindur, og er nafnið svo tilkomið, að frændur tveir bjuggu á Horni, næsta bæ við Hornbjörg. Var annar páfatrúarmaður, en hinn hafði tekið Lúterstrú, og þrættust mjög um það, hvor trúin væri betri; því hvor hèlt með sinni trú. Kom þeim svo að lokum ásamt um, að þeir skyldu reyna krapt trúar sinnar. Þeir frændur áttu báðir alikálfa, og með þá fóru þeir uppá efstu gnýpu bjargsins, og beiddust þar fyrir. Sá sem hafði Lúterstrú, beiddi guð þríeinan að bjarga kálfi sínum, og hinn beiddi Maríu mey og alla helga menn að varðveita kálfinn sinn. Var svo kálfunum báðum hrundið ofan fyrir bjargið. En þegar að var komið, var kálfur þess, sem Lúterstrú hafði, lifandi og var að leika sèr í fjörunni, en hinn var horfinn, svo ekki sást eptir af honum nema blóðslettur einar. Játaði þá páfatrúarmaðurinn, að Lúterstrú væri betri, og snerist til hennar. Síðan heitir þar Kálfatindur, sem kálfunum var hrundið fram af.[4] Sú sögn er um Bæarbjarg á Lánganesi, að þó menn eða skepnur fari þar fram af, verði þeim ekkert meint við, enda er sagt, að Guðmundur biskup góði hafi vígt bjargið.[5]

1. Sjá 226. og 228. bls. á undan.
2. Sjá t. d. III. flokks aðra grein á undan (innan um ummælin) og VI. flokk á eptir.
3. Eptir Dr. Maurers Ísl. Volkss. 186. bls.
4. Eptir handriti sèra Sveinbjarnar Eyólfssonar í Árnesi á Ströndum.
5. Eptir Ferðabók Olavii 431.—2. bls.

Einn af hverunum hjá Reykhólum á Reykjanesi heitir Gullhver. En svo er sagt að nafnið sè tilkomið, að heima á Reykhólum, sem er býsnakipp frá hvernum, hafi einu sinni týnzt gullhríngur, og hafi hann fundizt aptur í hver þessum; er það því trú manna, að samrennsli sè undan bænum neðanjarðar og í hverinn, og sè þar í einu af bæarhúsunum auga upp úr þessum undirgángi. Upp úr þessu auga er sagt að leggi undarmikin yl, og í einn stað í bæarhúsunum á Reykhólum sækja hundar og kettir mjög, af því þar sè heitara en annarstaðar. Annar hver hjá Reykhólum heitir Þjófahver. Sú sögn er um hann, að einu sinni hafi þjófur ætlað að sjóða í hvernum sauð, sem hann hafði stolið, en að hverinn hafi sólgið hann i sig með sauðnum og öllu saman.[1]

Skrifla. Í Reykholti í Borgarfirði er hver sá, sem Skrifla heitir. Hún á fyrrum að hafa verið fram í Geitlandi, og sýna menn þar enn hveragrjótið, og lækarfarveginn. Flutti Skrifla sig úr Geitlandinu, skömmu áður en hraunið brann, sem þar er, og hvíldi sig í Áslaugum í Hálsasveit. Þaðan flutti hún sig að Reykholti, þar sem nú er hún. — Það er náttúra Skriflu, að hún gýs ákafar, en hún er vön, þegar ókunnugir menn eru af forvitni að skoða hana, og er henni þá mjög gjarnt til að þeyta á þá logheitum vatnsgusum, þó þeir standi ekki allnærri henni. Skrifla þolir einga hnýsni eða forvitni um sína hagi.[2]

Draugahver. Hjá Grafarbakka í Hrunamannahrepp eru margir hverir. Skamt þaðan er bær, sem heitir Reykjadalur; þar bjó kona fjölkunnug. Hún öfundaði konuna á Grafarbakka af hverunum, sem spöruðu henni eldivið. Vakti hún svo upp draug, og skipaði honum að sækja einn góðan hver fram að Grafarbakka, og koma með hann upp að Reykjadal. Draugurinn fór, tók upp einn hverinn og bar hann í höndum sèr, eins og strokk. En þegar hann var kominn nokkuð á leið, dagaði hann uppi; slepti hann þá hvernum, og er hann síðan nokkuð lángt frá hinum hverunum, og heitir Draugahver.[3]

Á ymsum stöðum á Íslandi eru kallaðar „tvíbytnar;“ það eru vötn, sem sagt er að hafi samrennsli undir jörðinni, en svo djúp, að einginn finnur botn í. Þannig eru kvarnir tvær í Þorskafirði, sem kallaðar eru Kóngavakir.[4] Þorskafjörður þessi sè svo grunnur, að maður geti riðið yfir hann um fjöru; er sagt að þessar vakir sèu ómælandi djúpar, og hafi menn reut í þær 120 faðma laungu færi, með sökku á, aðrir segja heilli færatunnu, og ekki náð til botns. Ekki leggur heldur sjóinn á þessum stað, eins og nafnið bendir einnig á, eða mjög seint og sjaldan.

1. Eptir Dr. Maurers Isl. Volkss. 186.—187. bls.
2. Sèra Magnús Grímsson eptir sögn Reykdælínga í Borgarfirði.
3. Eptir sögn Jóhanns prófasts Briems í Hruna.
4. Dr. Maurers Isl. Volkss. 187. bls.; þar eru þær kallaðar öðru nafni „Kólúngavakir.‘

Frá þessum vökum í þorskafirði er sagt að sè samrennsli við Ísafjörð, og því sè jafnhátt í sjónum á báðum stöðunum, bæði með aðfalli og útfalli. Til merkis um samgaungur fjarðanna er það sagt, að einu sinni hafi stórflyðra, sem komið hafi á aungul í Ísafirði, en rifið sig af aptur, komið í ljós á þessum stað í þorskafirði með aunglinum í sèr. — Nálægt Víðivöllum í Blönduhlíð í Skagafirði, er pittur einn, í mýri þar út á klöppunum; hann heitir Ráðskonupollur. Sagt er, að ráðskonan frá Víðivöllum hafi dottið í hann og hafi hún síðar fundizt rekin út á Borgarsandi á Reykjaströnd, og samrennsli neðanjarðar hafi borið hana þángað.[1]

Á einn rennur saman við Selá í Suðurmúlasýslu, hún kemur frá Lónsheiði, sem skilur Lónið og Álptafjörðinn, og heitir Heiðará; um hana er það í frásögur fært, að fæstar drepsóttir, sem um landið gánga, hvort sem þær koma að norðan eða sunnan, hafi komizt yfir hana, og er hún þó ekki nema 3 mílur á leingd.[2]

Tjörnin í Hróarsskörðum. Hróarsskörð heita norðan í Hafnarfjalli í Borgarfjarðarsýslu. Þar er tjörn, sem sagt er að fylgi sú náttúra, að þegar kastað sè ofan í hana steini, þá komi hann aptur á land upp úr tjörninni. Kasti maður í annað sinn steini í tjörnina, kemur hann npp aptur og í þann, sem kastaði, og meiðir hann. En kasti maður steininum í tjörnina í þriðja sinn, kemur hann enn upp aptur og drepur þann, sem svo þrálátur er að kasta.[3]

Margir stórfossar vestast í Dalasýslu og í Barðastrandarsýslu í nánd við Gilsfjörð eru kallaðir Gullfossar,[4] og víðar annarstaðar t. d. hjá Kleifum í Bárðardal, eins í Hvítá á Suðurlandi. Tildrögin til þessara nafna eru án efa einhverjar fornar sögur um fólgið fè undir fossum þessum, því alt að einu hafa sögur farið af því, að fè hafi verið fólgið hèr á landi í stórám og einkum í fossum, eins og Niflúnga auður á að vera fólginn í Rín, eptir fornum sögum.[5]

Ekki eru óvíða á Íslandi þeir staðir, sem mikil trú hefir verið á, að ekki mætti fara svo fram hjá, að maður hefði þar ekki nokkra viðdvöl annaðhvort til að biðjast fyrir, eða til að greiða þar eitthvað af hendi, og mun hvortveggja vera í því skyni, að manni farnist vel, eins og beinlínis er tekið fram um suma þeirra. Áður er þess getið, að einginn fari svo um Njarðvíkurskriður í Múlasýslu, að hann lesi þar ekki faðirvor framfallandi,[6] og eins um bænagjörð þeirra við Gvendaraltari, sem fara

1. Eptir handriti sèra Jóns Norðmanns.
2. Ferðabók Olavii 407. bls.
3. Eptir sögn sèra Jóns Jakobssonar í Ásum.
4. Á Skarðsströnd og Saurbæ er Gullfoss í Skarðsá, Búðardalsá, Fagradalsá, og á Kleifum í Gilsfirði (stór og fallegur) og enn víðar.
5. Eptir Dr. Maurers Isl. Volkss. 187. bls.
6. Sjá I. flokks 2. grein „Naddi," 139.—140. bls. á undan.



upp og ofan af Drángey.[1] Hinn þriðji staður, sem þessi bænakvöð liggur á vegfarendum, er Úlfsey í Búlandsnesseyum. Á þeirri ey er fornmanns haugur, sem líklega hefir heitað Úlfur. Einginn maður má þar svo fæti á land stíga, að hann sýngi ekki eitt vess við hauginn, gjöri þar bæn sína, eða leggi einn stein í Úlfshaug.[2] Það er víst að á tveimur hinum fyrst nefndu stöðum þykir svo mikil lífshætta að fara, að ekki veiti af, þó maður sè vel undirbúinn, hvað sem að höndum kann að bera. En þesskonar getur ekki verið orsökin til þess, þar sem torfærulaus og greiður vegur liggur á þuru landi, og þó er vegfarendum þar eingu siður skyld, að greiða nokkuð af heudi, ef þeim á vel að farnast, en að gjöra bæn sína á fyrnefndum stöðum. Sumstaðar er þetta gjört, þegar maður fer í fyrsta sinni einhvern veg, en sumstaðar í hvert sinn sem sami vegur er farinn. Nálega er í öllum slíkum stöðum annaðhvort steinahrúgur, sem líklega hafa myndazt af þessum greiðslum, og er sumt af þeim kölluð dys, eða þá stórir steinar, með svo mörgum smásteinum uppá, sem á þeim tollir. Tveir steinar þessleiðis eru fyrir norðan, og heitir hvor um sig „Greiði“,[3] af því þeir sem um veginn fara eiga að leggja 3 steina hvor upp á þá, og alt eins er með dysirnar, t. d. Illþurkudys á Skarðströnd, eða steinahrúgurnar, að hvor maður skal leggja í þær þrjá steina af hestbaki. Eins má greiða annað en steina til sumra þessara staða að minnsta kosti, t. d. skó, eða skóbót, vetlíng eða sokkaband, tág eða hríslukvist, en þó nægir ef steinar eru greiddir allstaðar, sem eg veit til nema í Heppsdal, þar skal greiða í skileyri.

Áður er getið um Úlfshaug, og að þángað skuli greiða einn stein. Djáknadys er annar staðurinn, það er í Hamarsfirði, skamt fyrir innan Háls; þar hittust einu sinni prestur og djákni. Þeir börðust þar og drápu hvor annan. Voru þeir dysjaðir þar, sem þeir fundust og heitir það Djáknadys. Hver, sem í fyrsta sinni ríður hjá dysinni, skal kasta í hana þremur steinum, annars vill honum eitthvert slys til.[4]

Fjölskylduholt[5] heitir hæð ein eða hryggur á miðri Þorskafjarðarheiði, en sú heiði er milli Þorskafjarðar að sunnan og Ísafjarðar, eða Lángadals, að norðan, og er að leingd hátt á aðra þíngmannaleið milli bygða. Þetta svo nefnda Fjölskylduholt er á miðri heiðinni, og skiptir þar vötnum í suður og norður; holtið er breitt og flatt, en það, sem því er til einkennis, er ótölulegur vörðugrúi, sem viðbrugðið er, og kallað eitt af því,

---

1. Sjá I. flokks 3. grein, 145. bls. á undan.
2. Sbr. Ferðabók Olavii 466. bls.
3. Annar þeirra er á Hrafnadal hjá Spákonufellsborg, á veginum út á Skagaheiði, en hinn fram á fjöllum suður af Skagafjarðadölum.
4. Eptir sögusögn á ferð 1847. M. G.
5. Eptir handriti Matthíasar Jóchumssonar skólapilts.

sem ekki megi kunna tölu á.[1] Eu svo er vörðugrúi þessi undirkominn, að það hefir frá alda öðli verið skyldi allra ferðamanna, er farið hafa hið fyrsta sinn heiði þessa, að auka töluna með nýrri vörðu, eða þá að minnsta kosti. að setja tvo eða þrjá steina saman á holtinu.

Í fjöllunum austan við Reykjadal í Ólafsfirði, ætla sumir í Fljótum og Ólafsfirði að sè dalverpi, er heiti Ileppsdalur, á hann að vera alsettur klettum í kríng, en ein gjá sem ofan megi komast. Fyrmeir var það trú manna, að mikið af því afrèttafè, sem vantaði á haustin færi í þenna dal og geingi þar sjálfala, og höfðu menn sögur um, að einhver hefði farið þángað. og komið aptur með ósköp af fè. það sögðu menn og, að einginn gæti upp úr dalnum komizt, nema því að eins, að hann skildi þar eptir ílepp úr skó sínum.[2]

Víða eru stórir hellar hèr á landi, og eru sögur til um það, að þeir sè miklu stærri, en menn viti nú til eða hafi kunnað. Einn er í Síðuhól hjá Breiðabólstað í Vesturhópi, og er sagt að hellirinn sè svo lángur, að hann nái út á Vatnsnestá. Sagt er, að maður nokkur, sem var eltur af óvin sínum, hafi flúið inn í helliun, og komið út úr honum aptur á fyrnefndum stað.[3] Viðlíka saga er um helli einn á Hellum á Landi, og er nú hafður bæði fyrir fjós og heygarð, og sè það hvorttveggja að vera afhellar í hellismynninu, þar sem heygarðshellirinn byrjar; sagt er að þessi hellir liggi vestan undir öllu Skarðsfjalli, og út fyrir þjórsá, og kunna menn þá sögu um, að einu sinni hafi alikálfur, sem gekk í heyhellinum á Hellum, sloppið um í aðalhellirinn. En fjósamaðurinn varð var við þetta og elti hann lánga leið, að því sem hann ímyndaði sèr, til útnorðurs, þángað til hann heyrði ógurlegan vatnsnið yfir höfði sèr. þar skildi með kálfinum og honum, því kálfurinn hèlt áfram, en maðurinn þorði ekki leingra, og sneri þar aptur, og ætlaði að það mundi hafa verið þjórsá eptir vegaleingdinni, sem hann hefði heyrt belja yfir höfði sèr. En kálfurinn kom nokkru seinna fram á Stóranúpi í Eystrahrepp.[4]

Lángstærstur allra hella á Íslandi er þó Surtshellir, eptir því, sem sögur hafa farið af, og Eggert Ólafsson hefir getið þess, að sèr hefði mælst hann 839 faðmar á leingd.[5] Almenn sögn er það, að annar endinn á honum sè á Lánganesi norðast og austast á Íslandi. En Dr. Maurer hefir heyrt, að enn væru tveir armar aðrir á helli þessum, og lægi annar þeirra út á Reykjanesi, útsuðurhorni landsins, en hinn norður og vestur

1. Almenn sögn er það nyrðra að þrent sè óteljandi á Íslandi: eyar og sker á Breiðafirði, vötnin á Tvídægru, og hólarnir í Vatnsdalshólum.
2. Eptir handriti sèra Jóns Norðmanns 1848.
3. Dr. Maurers Isl. Volkss. 188. bls.
4. Eptir sögu Landmanna.
5. Ferðabók hans 252. bls.

á Horni, nyrðst á landinu.[1] Sagt er og, að einu sinni hafi líflaus sakamaður forðað lífinu með því að flýa í Surtshelli undan fjandmönnum sínum, sem eltu hann, og hafi hann hlaupið jafnt og þétt nótt og nýtan dag, og komið loksins fram austur á Lánganesi; voru þá skór hans fullir af sandi, en þegar að var gætt, var þetta gullsandur. Sagðist maðurinn leingi nokkuð hafa vaðið í þúngum sandi upp fyrir ökla líkast eins og í ægisandi á sjávarströnd.[2]

1. Ísl. Volkss. 188. bls.
2. Séra Magnús Grímsson eptir sögu Borgfirðinga.

Prentað hjá C. R. Schurich í München.

